# ÆSKAN

## BARNABLAÐ MEÐ MYNDUM

RITSTJÓRI

SIG. JÚL. JÓHANNESSON
*CAND. PHIL.*



REYKJAVÍK
GEFIN ÚT AF STÓR-STÚKU ÍSLANDS (I. O. G. T.)
FÉLAGSPRENTSMIÐJAN
1898

# Efnisyfirlit.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands.**

| I. árg. | Reykjavík, 5. október 1897. | 1. tbl. |
|---|---|---|

## Fyrsta barnablaðið.

ÆSKAN er fyrsta barnablaðið, sem gefið er út á Íslandi. Í öðrum löndum eru víða gefin út mörg barnablöð og hafa þau öll mjög mikla útbreiðslu; vjer vonumst því til, að þetta litla blað verði öllum börnum kærkominn gestur og verði vel tekið, því vjer erum sannfærðir um það, að börnin á Íslandi eru eins fróðleiksfús og annarsstaðar.

Af því að þetta blað er ekki gefið út til þess að græða á því eða hafa það fyrir atvinnuveg, eins og hin blöðin, þá getum vjer haft það svona ódýrt; auðvitað samt með því móti, að nokkuð margir kaupi það.

Vjer vitum það vel, að mörg börn eru svo fátæk, að þau geta ekki keypt það, sem dýrt er eða foreldrar þeirra handa þeim og það er einkum þess vegna, að vjer höfum blaðið svona ódýrt, til þess að sem flest af fátækum börnum geti keypt það. Vjer vonumst til, að börnunum þyki gaman að því, að fá allt af eitthvað nýtt og skemmtilegt til að lesa; þau hafa sjaldan gagn af því, sem er í hinum blöðunum, það er vanalega of þungt og einungis fyrir fullorðna fólkið; en þetta á að verða handa þeim í staðinn.

Ef kaupendur verða svo margir, að blaðið beri sig vel eða meira en það, þá verður það ávinningur fyrir kaupendurna sjálfa, því þá stækkar það eða kemur optar út, án þess þó að það verði dýrara. Myndirnar verða valdar svo góðar, sem hægt verður, þegar til kemur, og vjer vitum, að börnunum þykir allt af gaman að fallegum myndum. Ef kaupendur verða margir, þá kemur mynd í hverju blaði, en annars í öðruhvoru.

Í hvert skipti, sem þið fáið „Æskuna“ eigið þið að lesa hana með athygli og ef þið skiljið ekki eitthvað, þá skuluð þið fá skýringu á því hjá fullorðna fólkinu, t. d. foreldrum ykkar. Ef það er eitt barn, sem kaupir „Æskuna“, en fleiri börn eru á heimilinu, þá eigið þið að lofa þeim að lesa hana líka eða lesa hana fyrir þau, en helzt eigið þið þó að kaupa hana öll í fjelagi og um fram allt að koma ykkur vel saman um hana; ef þið eruð t. d. fjögur og eigið sína fimmtán aurana hvert, þá getið þið ekki varið þeim betur fyrir nokkurn hlut annan en að kaupa „Æskuna“.

Þegar gátur koma í „Æskunni“, þá eigið þið að hugsa um þær sjálf, sitt í hverju lagi, og reyna að ráða þær, án þess að láta fullorðna fólkið hjálpa ykkur; svo skuluð þið skrifa upp hjá ykkur ráðningar þær, er ykkur detta í hug, geyma þær þangað til næsta blað kemur og bera þá saman til þess að vita hvort þið hafið ráðið rjett.

Eitt er það, sem þið skuluð taka vel eptir og það er rjettritunin á blaðinu. Vjer ætlum að reyna að hafa hana sem bezta, til þess að þið getið óhrædd tekið eptir allt, sem þið sjáið þar skrifað. Gætið þið t. d. vel að, hvar skrif-

að er x og z, e og i, u og ö, hvar settar eru kommur og önnur greinarmerki o. s. frv., hvernig orð eru skammstöfuð o. fl.

Gætið þess, að halda saman blöðunum og láta binda þau í bók, þegar komið er nógu mikið til þess, því ykkur getur þótt gaman að líta í þau síðar og einkum að skoða myndirnar.

Ef ykkur langar til að gefa einhverju fátæku barni eitthvað, t. d. í afmælisgjöf, þá skuluð þið kaupa handa því „Æskuna", ef það hefur hana ekki áður.

Sendum vjer svo fyrsta blað „Æskunnar" með beztu kveðju til allra barna og innilegri ósk um, að það geti orðið þeim til góðs og gamans.

## Lára litla.

Einu sinni var lítil stúlka, sem hjet Lára; amma hennar var orðin gömul og gráhærð og hrukkótt í andliti. Láru litlu þótti ósköp vænt um hana, því hún var henni allt af svo góð. Faðir Láru átti hús, er hann bjó í, og amma hennar var í herbergi, sem sneri í norður; þar var því kalt og sólin skein þar sjaldan; en í suðurenda hússins, þar sem foreldrar Láru bjuggu, var bjart og hlýtt. „Hvernig skyldi standa á því", hugsaði Lára litla, „að blessuð sólin skín aldrei á gluggann hennar ömmu minnar? — hún sem er þó allt af svo góð".

Einhverju sinni spurði hún föður sinn, hvernig á þessu stæði; en hann svaraði henni því, að sólin gæti ekki skinið á gluggann hennar af því, að hann sneri í norður.

„Er þá ómögulegt að snúa húsinu við, svo að herbergið hennar ömmu snúi í suður?" spurði Lára. „Ertu svona heimsk, litli kjáninn þinn?" sagði faðir hennar. „Heldurðu að það sje mögulegt að snúa við húsinu? og þótt það væri hægt, þá byggjum við öll að norðanverðu og sólin skini aldrei á gluggann okkar; þætti þjer það betra?"

„Á þá sólin aldrei að skína á gluggann hennar ömmu?" spurði Lára og horfði einarðlega framan í pabba sinn; „eiga sólargeislarnir aldrei að komast inn til hennar?"

„Ekki nema ef þú vilt bera þá inn til hennar", svaraði faðir hennar, brosti í kamp og gekk út, því hann hafði svo mikið að gjöra.

„Að bera sólargeislana inn til hennar ömmu!" hugsaði Lára, „skyldi það vera mögulegt?" Hún horfði á blómin úti og henni sýndust þau bera sólargeislana, trjen báru þá á blöðunum og fuglarnir báru þá á vængjunum, og meira að segja, henni sýndist hún sjálf bera þá á höndunum og andlitinu og fötunum sínum, þegar hún var á gangi úti. Skyldi það annars vera ómögulegt að bera þá inn til hennar ömmu?" hugsaði hún enn þá. Svo fór hún að reyna; allt af þegar sólskyn var fór hún út, ljet sólina skína á sig og gekk svo inn til gömlu konunnar; en þegar hún kom inn, þá voru sólargeislarnir horfnir af fötunum hennar; en samt sagði amma hennar oft við hana: „Ósköp þykir mjer allt af skemmtilegt, þegar þú kemur inn, Lára mín! Það er svo dimmt og dapurt hjerna hjá mjer, en þegar þú kemur, þá er eins og sólargeislar standi úr augum þínum og gjöri allt svo hlýtt og bjart í kring um mig".

Lára var alveg hissa á orðum ömmu sinnar; hún læddist út að spegli, sem hjekk á þilinu, til þess að vita, hvort hún sæi sólargeislana í augunum á sjer; en hún sá þá ekki. Samt sem áður trúði hún því, sem amma hennar sagði, því hún hafði aldrei skrökvað að henni; hún hjelt því áfram að bera sólargeislana inn til hennar á hverjum degi og amma hennar sagði henni margar fallegar sögur; hún faðm-

aði hana að sjer og sagði: „Guð blessi þig, barnið mitt!“

Svona liðu mörg ár. Þegar Lára var ung, var hún fríð sýnum og laglega vaxin; en þegar hún var á 10. árinu, lá hún langa legu og var allt af hálfgjerður aumingi eptir það. Hún hafði því ekki gaman af að taka þátt í gleði hinna barnanna og hún gat heldur ekki hjálpað mömmu sinni, sem hafði þó svo mikið að gjöra. Það þótti henni sárast. Hún varð því þunglynd og hugsaði með sjálfri sjer: „Jeg lifi til einskis; jeg get ekkert gjört í heiminum!“

En amma hennar hugsaði öðruvísi, því Lára bar enn þá inn til hennar sólargeislana, þótt hún vissi ekki af því. Amma hennar var orðin mjög gömul og gat nú ekki lengur sagt Láru sögur, því hún hafði nálega tapað minninu; en nú gat Lára sagt henni sögur og gömlu konunni þótti eins vænt um það og Láru hafði þótt að heyra sögurnar hennar, þegar hún var lítil, því amma hennar var nú aptur orðin barn. Þegar hitt fólkið fór til kirkju á sunnudögunum, þá las Lára fyrir hana sálma og amma hennar sagði við hana eins og fyrri: „Guð blessi þig barnið mitt!“ og Lára lagði hendurnar utan um hálsinn á ömmu sinni og kyssti hana. Það var eins og gamla konan yngdist um mörg ár, þegar Lára ljet vel að henni og þó hjelt hún, að hún lifði til einskis í heiminum. — Sá, sem getur glatt einhvern hrygganu, lifir aldrei til einskis, og allt af eru einhverjir, sem þurfa þess, að aðrir beri sólargeislana inn til þeirra.

[Þýtt af **S. J. J.**].



EIMSKIP.

Dóri litli var orðinn 15 ára gamall; hann átti rauðan hest, sem honum hafði verið gefinn í tannfje og var því lítið eitt yngri en hann sjálfur. Dóra þótti vænna um hann en nokkra aðra skepnu; en sökum þess að Rauður var nokkuð túnsækinn, en Dóri latur og fljótlyndur, reiddist hann honum stundum.

Eitthvert kvöld, rjett fyrir háttatíma um vorið, er Rauður kominn heim í túnjaðarinn. „Farðu og rektu klárinn eitthvað frá áður en þú ferð að hátta!“ sagði faðir Dóra. Hann leggur af stað með hunda og hrossabrest, bölvar Rauð fyrir óþekktina og sigar á eptir honum af mikilli grimmd. Rauður var vanur þessu og kippti sjer ekki upp við það, hann hjelt áfram að bíta og sló aptur undan sjer, þegar hundarnir ólmuðust í hælunum á hon-

um. Dóri hleypur að honum, keyrir hrossabrestinn í lendina á honum af alefli og sigar í ákafa; hundarnir ólmast þá sem mest og bíta í fæturna á honum. Rauður kennir sársaukans, bæði undan hrossabrestinum og hundstönnunum, hleypur af stað, sem harðast hann má, festir fótinn í holu og dettur. Eptir nokkurn tíma bröltir hann þó á fætur, en er draghaltur. Síðan skilur Dóri við hann og fer heim.

Daginn eptir á að ríða Rauð á lambafjall, en hann kemst ekkert úr sporunum fyrir helti; er hann þannig allt sumarið, en skánar þó heldur þegar fram á kemur, svo að lítið bar á heltinni, ef honum var riðið fet fyrir fet. Faðir Dóra sjer, að Rauður vinnur lítið gagn svona og vonast ekki eptir, að hann muni ná sjer aptur; hann selur hann því á markað um haustið. Dóri litli var látinn reka hrossin til kaupstaðarins ásamt öðrum og var þeim skipað út sama kveldið og þeir komu þangað. Stórt eimskip lá á höfninni og bátur flaut við bryggjuna til þess að flytja hrossin á út í það. Dóri stóð yfir ferjumönnum á meðan þeir fylltu bátinn. Rauður var teymdur fyrstur niður bryggjuna og út í bátinn, en hann var nokkuð óþekkur; einn maður stóð úti í bátnum og togaði í beizlistauminn, annar stóð á borðstokknum og reif í ennistoppinn og tveir voru uppi á bryggjunni og hrundu Rauð út í bátinn; en aumingja Rauður varð á milli bátsins og bryggjunnar með veika fótinn og gat ekki stigið í hann þegar hann var kominn upp í, þá blöskraði Dóra, hann kenndi í brjósti um Rauð sinn og fór að gráta. Svo var öllum hrossunum skipað út og Dóri stóð á bryggjunni. Myndin er af skipinu, sem flutti hann Rauð í burtu. Dóri starði á eptir því svo lengi sem hann gat eygt það og grjet yfir forlögum hans Rauðs, en einkum tók hann það sárt, að þetta skyldi vera sjer að kenna.

Nóttina eptir dreymdi hann Rauð hvað eptir annað, þar sem hann hjelt uppi einum fætininum og starði á Dóra sorglegur á svip og dapureygður. „Aumingja Rauður!“ kallaði hann upp úr svefninum, svo hátt að hann vaknaði sjálfur. — Verið þið góð við skepnurnar! Rekið þær hægt og varlega. [S. J. J.].

## Gátur.

1. Hversu margir stafir eru í „biblíu“?
2. Í hvaða mánuði borða menn minnst?
3. Hver getur talað öll tungumál?
4. Hvaða hús hefur engar dyr?

## Skrítlur.

JÓN: „Enginn strákur er eins fljótur að hlaupa og jeg; einu sinni hljóp jeg t. d. svo hart, að mjer fannst vera grenjandi rok og þó var blæja logn“.

ÁRNI: Það þykir mjer ekkert mikið; jeg hef oft hlaupið svo hart, að skugginn minn hefur ekkert haft við mjer.

GESTURINN: „Komið þjer sælir, húsbóndi góður“.

HÚSBÓNDINN: „Komið þjer sælir! Veskú, stóll, fáið þjer yður sæti“.

## Spakmæli.

Tunga mannsins er harpa drottins, en sá vondi spilar opt á hana.

„Æskan“

kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., út um land 1 kr. og 20 a. — Í ritstjórn blaðsins eru: *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med. (ritstjóri); *FRIÐRIK HALLGRÍMSSON* cand. theol.; *JÓHANNES SIGFÚSSON* kennari, og *SIGURÐUR P. SIVERTSEN* cand. theol.

Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast *Þorv. Þorvarðarson* prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

**I. árg.** Reykjavík, 31. október 1897. **2. tbl.**


## Faðir vor.

JEG var nýbakaður kandídat í læknisfræði og mesti æringi. Jeg var skynsemistrúarmaður og vildi ekkert annað aðhyllast. Jeg hafði sökkt mjer djúpt niður í læknisfræðina og taldi það hið æðsta, sem jeg þekkti að geta hjálpað þeim, sem bágt ættu, og læknað þá, sem vanheilir væru.

Jeg hafði líka töluvert traust á sjálfum mjer. Fyrsti sjúklingurinn, sem jeg hafði undir höndum, var gamall köttur, sem veitingakonan átti. Svo hrökk hann samt upp af einn góðan veðurdag; lækningin tókst ekki betur en það.

Litlu síðar kvartaði konan, sem þjónaði mjer, um það, að dóttir sín væri veik, og leitaði ráða til „doktorsins“, er hún svo nefndi. Mjer þótti þetta vera fremur virðulegt nafn og hófst í sjöunda himin. Jeg setti upp svo mikinn læknissvip, að vel hefði mátt trúa því, að jeg hefði lengi verið hjeraðslæknir, og fylgdi henni heim. Þar var allt fátæklegt, en þokkalegt. Dóttur hennar var dálítið illt í hálsinum og hafði hitasótt, en var ekkert þungt haldin. Jeg sullaði einhverju saman og ljet hana taka það inn, svo skipaði jeg henni að vera kyr inni í nokkra daga. Litlu stúlkunni batnaði að nokkrum tíma liðnum— náttúrlega fyrir mína hjálp!

Nokkru síðar varð jeg veikur sjálfur; læknir var sóttur og skipaði hann að flytja mig á sjúkrahús, því jeg væri veikur af illkynjuðum og sóttnæmum hálssjúkdómi, sem jeg hlaut að hafa fengið þegar jeg var að lækna litlu stúlkuna. Það var á sjúkrahúsinu að saga sú gjörðist, sem jeg ætla að segja ykkur. — Hún sannar ljóslega, það sem Shakespeare (Sjakspír) segir: „Það er langt um fleira til á milli himins og jarðar, en heimspekingarnir hafa hugmynd um“. Jeg varð aldrei mjög veikur og var því glaður og kátur þann tíma, sem jeg var á sjúkrahúsinu. Jeg hjálpaði ötullega til að hlynna að sjúklingunum, þegar mjer fór að batna.

En svo var það eitt kveld, að nýr sjúklingur var fluttur þangað; það var eitthvað ískyggilegt, sem gekk að honum, og var hann því látinn vera einn sjer. Vökukonan hafði ákaflega mikið að gjöra og tókst jeg því á hendur að vaka yfir þessum nýja sjúkling, fyrri part næturinnar. Herbergið var dimmt og leiðinlegt, eins og þau voru flest í sjúkrahúsinu. Það var einna líkast fangaklefa með grámáluðum veggjum, sem voru eitthvað svo eyðilegir. Á veggjunum hjekk ekkert annað en svart og ljótt spjald með nafni hins veika. Þarna lá sjúklingurinn. — Það var lítil stúlka, hjer um bil fimm ára gömul. Hún var alein og yfirgefin; þar var hvorki faðir hennar nje móðir til þess að vaka yfir henni. Aumingja litla stúlkan! Það er alveg eins og jeg horfi enn þá á hana. Hún var aðdáanlega falleg; hárið var dökkbrúnt og flaut í bylgjum um snjóhvítan koddann og var eins og umgjörð

utan um andlitið, sem var hvítt og fölt, en undurfagurt. Svipurinn var svo blíður og sakleysislegur og allir drættir svo framúrskarandi fagrir og vel samsvarandi, að Rafael (ítalskur málari) hefði vel getað haft það sem fyrirmynd, þegar hann málaði engil.

Litla stúlkan hafði mikla hitasótt. Hún velti sjer á allar hliðar í rúminu og tautaði eitthvað fyrir munni sjer í sífellu, sem jeg ekki skildi. Andardrátturinn var stuttur og þungur, og við og við rak hún upp hljóð, en þó ekki hátt; annars var dauðaþögn í herberginu. Jeg sat fyrir framan rúmið hennar og mjer leið mjög illa. Það var hálfdimmt inni; þó logaði þar ljóstíra og kastaði döprum geislum á gólfið og veggina og hvílu hinnar veiku, og mjer fannst loptið vera svo óþolandi þungt og illt. Þegar nokkuð var liðið á nótt reis litla stúlkan upp í rúminu og spurði: „Ert það þú, pabbi minn?“ „Nei“, svaraði jeg, „pabbi þinn er farinn heim, hann kemur aptur í fyrra málið“. „Já, það er satt, hann fór. — Já, hann líka!“ sagði hún, með grjáthljóð í kverkunum. „Þegar hann fór, sagði hann, að jeg mundi bráðum deyja og bað mig að skila kveðju til mömmu“.

„Hvar er mamma þín?“ spurði jeg. „Í himninum hjá guði“, svaraði hún og leit á mig með stóru, bláu augunum sínum og það var eins og hún furðaði sig á því, að jeg skyldi ekki vita þetta. (Frh.) [þýtt af **S. J. J.**].

## Barnavísa.

Legðu aptur augun þín,
elsku litla systir mín,
sofðu' í draumi sætt og rótt,
sofðu vært, og góða nótt!

[**S. J. J.**].

## Dóri.

Dóri litli var á tíunda árinu. Hann var eitt kvöld að leika sjer með systkinum sínum þegar hann heyrði allt í einu, að mamma hans kallaði á hann og bað hann að fara og leita að honum pabba hans. Hann hafði farið eitthvað í burt um hádegisbilið, þegar hann kom á fætur; hann hafði vaknað seint, því hann var drukkinn kveldið áður og eptir sig um morguninn. Dóri litli gjörði eins og móðir hans bað hann og lagði undir eins af stað. Hann fer beina leið niður að veitingahúsi, þar vissi hann að helzt var von á föður sínum. Hann staðnæmist fyrir utan dyrnar og heyrir afarmikinn hávaða og gauragang inni fyrir. Kemst hann loksins að því, að faðir hans er þar í áflogum. „Æ, hjálpið þið mjer til þess að ná honum pabba út og koma honum heim!“, sagði hann við menn nokkra, sem voru við veitingahússdyrnar, en þeir ljetu sem þeir heyrðu það ekki. Þarna stóð Þórður litli langan tíma, skjálfandi og nötrandi af kulda og grátandi yfir því að geta ekki náð honum pabba sínum. Loksins kemur karlinn fram í dyrnar, heldur illa útleikinn. Þegar Dóri sjer hann, verður hann himinlifandi af fögnuði og segir: „Góði pabbi minn, komdu nú heim til hennar mömmu, henni er nú farið að leiðast eptir þjer; jeg skal styðja þig“. Karlinn tautaði einhverja vitleysu, sem ekki skildist; það heyrðist einungis óglöggt, að hann sagði: „Farðu heim, strákur, jeg kem bráðum, skiptu þjer ekkert um mig!“ Að því mæltu skreiddist hann aptur inn í glötunarholuna.

Dóri litli sneri nú heimleiðis aptur, en á leiðinni mætir hann nokkrum drengjum, fjelögum sínum og leikbræðrum. „Komdu með okkur, Dóri!“ sögðu þeir, „það er afmælið

hans Steina á Borg og við ætlum að fara að leika okkur við hann". „Jeg má það ekki", sagði Dóri, „jeg lofaði henni mömmu að vera fljótur, hún verður ef til vill hrædd um mig". „Uss, hvaða vitleysa!" sögðu allir strákarnir í einu hljóði. „Þú þarft ekki að vera lengi, bara svolitla stund, komdu með okkur!"

Dóri var allra bezta barn; hann hafði aldrei fylgzt með hinum strákunum í nokkru því, er ljótt var. Mamma hans hafði áminnt hann um að bragða aldrei vín, til þess að hann skyldi ekki verða eins og faðir hans. Hún hafði líka varað hann við öllum verstu strákunum, t. d. Páli prakkara, Tóbaks-Gvendi og fleirum. Nú voru allir þessir náungar þarna saman komnir. „Nei, jeg kem ekki með ykkur", sagði Dóri, „jeg má til með að fara heim til hennar mömmu".

Þeir ljetu ekki af að biðja Dóra að koma; þeir sögðu, að hann gæti farið undir eins aptur, hann skyldi að eins koma rjett snöggvast. Loksins lætur Dóri til leiðast. Þeir fara allir heim að Borg og taka að spila og leika sjer; en þegar þeir hafa nýlega byrjað, kemur Tóbaks-Gvendur upp með það, að þeir skuli skjóta saman fyrir einni brennivínsflösku. Það þykir þeim óskaráð og er Gvendur sendur eptir henni, en ekki lagði Dóri þar nokkurn eyri til, enda hafði hann ekkert á sjer nema 2 aura, sem hann átti að kaupa fyrir eldspýtustokk.

Þegar Gvendur kemur aptur, er flaskan opnuð og farið að drekka; leggja þeir fast að Dóra, að vera með, en hann afsegir það með öllu; kveðst hann hafa lofað henni mömmu sinni því að bragða aldrei vín. „Hvað gjörir það til!" segir Páll prakkari; „jeg held að hún þurfi svo sem ekki að hafa mikið af því að segja, kerlingarsauðurinn hún mamma þín; mjer þykir líklegt, að þú verðir ekki svo ófjelagslegur að verða ekki með; við skulum gæta þess, að segja engum frá því; hjerna er hönd mín upp á það!".

„Jeg má ekki svíkjast um það, sem jeg hef lofað henni mömmu", sagði Dóri.

„En sú bleyða!" sögðu hinir strákarnir, „svei, svei! skammastu þín ekki að sitja hjá eins og stelpa, þegar við erum að drekka, svo glaðir og kátir! Það er auðsjeð, að þú veizt ekki, hversu gott það er".

Sökum þess, hve Dóri var ungur, gátu þeir loksins fengið hann til þess að bragða vín með sjer. Hann hafði aldrei drukkið fyrri og þoldi það því illa; hann varð brátt öðruvísi en hann átti að sjer; hann varð langt um fríari af sjer og örari og fylgdist nú með fjelögum sínum án þess að minnast mömmu sinnar.

Þegar langt var liðið á kveldið, fara þeir allir út og eru drukknir meira eða minna, þegar þeir koma út á götu, sjá þeir hvar strákahópur eltir drukkinn mann, með snjókasti og illu orðbragði. Þeir slást í förina með og siga, orga, hóa og láta öllum illum látum — og Dóri líka. — Loksins koma þeir að skurði og þar slampsast drukkni maðurinn ofan í: „Húrra!" hrópa allir strákarnir og hlaupa svo sinn í hverja áttina. — Nú snýr Dóri heimleiðis og yfirgefur fjelaga sína; það var orðið dimmt. Mamma hans sat yfir krökkunum í myrkrinu; hún gat ekki kveikt, því Dóri átti að kaupa eldspýturnar. „Þar kemur þú loksins, Dóri minn", segir mamma hans þegar hann lýkur upp hurðinni, „hvar er hann pabbi þinn?" „Jeg veit það ekki", segir Dóri, lágt. Man hann nú eptir öllum loforðum sínum og iðrar þess sárt, að hafa ekki haldið þau.

En meðan þau eru að tala saman, heyrist hávaði mikill úti fyrir; koma þá tveir menn með föður Dóra á milli sín, heldur illa útleikinn. „Við fundum hann niðri í skurði", sögðu þeir, „og hefði hann sjálfsagt látið þar lífið, ef

við hefðum ekki verið svo heppnir að ganga fram á hann. Karlinn var náttúrlega rennandi votur og skjálfandi af kulda, og þar að auki hafði hann meitt sig töluvert á höfðinu.

„Hvar eru eldspýturnar, Dóri minn?“ sagði mamma hans, „við verðum að kveikja og reyna að koma honum pabba þínum í rúmið“. „Jeg gleymdi þeim“, sagði Dóri og fór að gráta. „Jæja, við verðum þá að reyna að hátta hann í myrkrinu“, mælti móðir hans og andvarpaði þunglega.

Daginn eptir var faðir Dóra dauðveikur. Læknis var vitjað, en það var til einskis; hann dó að hálfum mánuði liðnum. Hvernig haldið þið nú að honum Dóra litla hafi orðið við þegar hann komst að því, að drukkni maðurinn, sem strákarnir eltu — og hann með — var einmitt hann faðir hans? Hann var leiddur út í þetta af hugsunarlausum óknittastrákum, en var þó sjálfur í raun og veru saklaus og góður drengur. Honum fannst sem hann gæti varla lifað eptir þetta.

Um vorið var mamma hans flutt á sveitina með öll börnin. Dóri litli var látinn smala þar sem honum var komið fyrir. Þegar fært var frá, sat hann yfir lömbunum, og þegar þau jörmuðu og sögðu: „Ma-a-a, ma-a-a“, þá minntist hann þess með sárum söknuði, þegar hann varð að skilja við hana mömmu sína og litlu systkinin sín, og honum heyrðist eins og allir skapaðir hlutir, allt dautt og lifandi, hvíslaði því að sjer, að þetta væri honum að kenna.

Nú er Dóri orðinn fullorðinn maður og hefur aldrei bragðað vín síðan. Hann minnist opt þeirrar stundar, er slarkararnir unnu svig á honum og hann hefur fellt mörg tár fyrir yfirsjón sína. Jeg þekki Dóra, og þessi saga er sönn. [S. J. J.].

## Skrítlur.

MAÐUR nokkur var að drekka með fjelögum sínum; ljet hann brennivínsflöskuna ganga meðal þeirra allra; en þegar hann tekur við henni aptur, verður honum litið í stóran spegil, er hjekk á þili á móti honum; en sökum þess, hversu drukkinn hann var orðinn, þekkti hann ekki manninn, sem hann sá í speglinum (náttúrlega sjálfan sig), hjelt því að það væri einhver af drykkjufjelögum sínum, ætlaði að rjetta honum flöskuna og sagði: „Ekki ætlaði jeg að setja þig hjá, elsku vinur!“ og um leið rjetti hann flöskuna í spegilinn og mölbraut hann. Spegillin kostaði 30 kr. og hann varð að borga hann.

---

Einhverju sinni var verið að skipa út fje frá bryggjunni í Reykjavík; tekur þá maður nokkur eina kindina, þannig, að hann rífur í ullina á henni, hefur hana á lopt og kastar henni út í skipið. Þar var annar maður viðstaddur, sem tók í hárið á manninum, svo fast, að hann dauðkenndi til og hljóðaði upp yfir sig af sársauka. „Hvað er þetta?“ spurði hinn, „það getur víst ekki verið sárt, þótt tekið sje í hárið á mönnum eða skepnum, því þá hefðir þú ekki getað fengið af þjer að fara svona með kindina“.

Maðurinn svaraði engu og skammaðist sín.

---

**Ráðning gátanna í 1. tbl.**

1. 6 stafir. 2. Febrúar, í honum eru fæstir dagar (28). 3. Bergmálið. 4. Egg.

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. og 20 a.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast *Þorv. Þorvarðarson* prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

**I. árg.** Reykjavík, 15. nóvember 1897. **3. tbl.**

## Söngurinn.

Eptir

**L. Uhland.**

„Ó, seg mjer hvaða söngur mig
af sætum vekur blund?
Hvað er það, mamma', er syngur sætt
svo síðla' um aptanstund?"

„Jeg heyri ekkert, ekkert sje
og enginn syngur neitt,
æ, sofðu blessað barnið mitt,
á beði, veikt og þreytt".

„Af jörðu' er ekki söngur sá,
er svo mjer gjörir rótt;
en englar kalla mildir mig,
ó, mamma, góða nótt!"

*Guðm. Guðmundsson.*

## Faðir vor.

(Niðurlag.)

„Ert þú ekki hrædd við að deyja?" spurði jeg, „hrædd við að deyja? hvernig ætti jeg að vera hrædd við að deyja og komast til hennar mömmu og guðs og allra fallegu englanna?" „En hvernig geturðu verið viss um, að þú komir til þeirra?" „Pabbi hefur sagt mjer það". Að því mæltu bað hún mig að gefa sjer að drekka og lagðist síðan aptur á koddann. Jeg settist fyrir framan hana og fór að hugsa um það, sem hún hafði talað við mig. Jeg varð svo gagntekinn af þeirri ró og staðfestu, er skein út úr augum litlu stúlkunnar, þegar hún var að tala um hana mömmu sína, guð og alla fallegu englana. Það sem hún sagði, var svo barnslegt og einlæglegt, og hin síðustu orð hennar: „hann pabbi hefur sagt það", hljómuðu stöðugt fyrir eyrum mjer. Að lítilli stundu liðinni reis hún upp aptur, leit óróleg í kring um sig og spurði, hvort það væri nótt. „Já, það er langt liðið á nótt" mælti jeg. „Ó, jeg hef þá gleymt að lesa kvöldbænina mína!" sagði litla stúlkan. „Viltu ekki gjöra svo vel að hjálpa mjer með hana? jeg kann hana ekki utanað, hjálparlaust". „Hvaða bæn ertu vön að lesa, barnið mitt?" spurði jeg. „Faðir vor", svaraði hún. Jeg sat nokkur augnablik án þess að svara. Bæn þessi kom svo flatt upp á mig, og orð hennar voru svo innileg, að þau hlutu að hafa áhrif á hvert einasta hjarta, jafnvel þótt það hefði verið gjört úr steini. Það börðust gagnstæðar tilfinningar í huga mjer, og jeg fyrirvarð mig gagnvart litlu stúlkunni, því jeg var satt að segja ekki svo viss um að kunna „Faðir vorið" svo vel, að jeg gæti hjálpað öðrum með það. Það var svo langt síðan jeg hafði lesið það. „Viltu gjöra svo vel að hjálpa mjer?" endurtók litla stúlkan. Hún sat uppi og spennti greipar og það var auðsjeð, að henni var það mesta áhugamál, að jeg yrði við bæn hennar. Það var eins og henni virtist allt undir því komið — og mjer var ómögulegt að neita því. Jeg laut niður að henni nærri því ósjálfrátt og byrjaði: „Faðir vor, þú sem ert á

himnum — — —". Hún hafði upp eptir mjer hvert orð með barnslegri viðkvæmni, þangað til bænin var á enda, þá lagði hún hendurnar um hálsinn á mjer, kyssti mig á kinnina og sagði í hálfum hljóðum: „þakka þjer fyrir! Það var alveg eins og þegar hann pabbi las fyrir mig „Faðir vor" heima á kveldin. Góða nótt!" Því næst lagðist hún út af og sofnaði vært. Jeg stóð lengi fyrir framan rúmið hennar og horfði á hið barnslega og sakleysislega andlit hennar og hugsaði með mjer, að svona hefði jeg sjálfur verið, þegar jeg var barn og pabbi minn og mamma báðu fyrir mjer. Þá hafði jeg kysst þau og boðið þeim góða nótt eins og þessi litla stúlka gjörði mjer nú; og jeg fyrirverð mig ekki fyrir að kannast við það, að tár hrutu af augum mjer, þegar jeg var að hugsa um þetta. Svo kom hjúkrunarkonan inn og þá fór jeg að hátta og las aptur „Faðir vor". Daginn eptir hugsaði jeg opt um það, sem við hafði borið um nóttina og mjer lá við að hlæja að því, hversu mikið vald tilfinningarnar höfðu haft yfir mjer um nóttina. En svo var það eina nótt, rjett áður en jeg ætlaði að fara burt af sjúkrahúsinu, að jeg lá í rúmi mínu hjer um bil kl. 2 og heyrði allt í einu, að barið var að dyrum hjá mjer. Jeg reis upp og varð glaðvakandi; jeg leit fram að dyrunum og hlustaði, því jeg hjelt að þetta væri hjúkrunarkonan. Jeg heyrði ekkert nje sá, en daginn eptir fjekk jeg að vita, að það var ekki hjúkrunarkonan. Jeg fór nú að hugsa svo nákvæmlega um litlu stúlkuna, sem jeg hafði vakað yfir, og hún var svo upp máluð fyrir hugskotssjónum mínum, rjett eins og hún stæði í raun og veru fyrir framan rúmið mitt. Svo fannst mjer sem jeg lifði upp þá stund, er jeg laut niður að henni og las fyrir hana „Faðir vor„. Nóttin, sem jeg vakti yfir henni, leið svo ljóst í gegn um huga minn með öllum viðburðum sínum, rjett eins og jeg lifði hana upp aptur. Svo hvarf þetta sjónum mínum, en jeg gat ekki annað en hugsað um það. Jeg reyndi að sofna og telja sjálfum mjer trú um, að þetta væri allt saman nokkurs konar draumarugl, en jeg gat hvorugt.

Daginn eptir frjetti jeg, að litla stúlkan hefði dáið um nóttina kl. 2. Nokkru síðar seldi jeg læknisfræðisbækurnar mínar og keypti mjer aptur guðfræðisbækur. Skólabræður mínir urðu alveg hissa og hjeldu, að jeg væri genginn af vitinu. Jeg sagði þeim sumum frá því, sem fyrir hafði komið og þóttust þeir þá enn sannfærðari um, að jeg væri ekki með öllum mjalla. — Nú er jeg orðinn prestur og leitast við af alefli að skýra það fyrir sóknarbörnum mínum, sem jeg lærði af litla englinum í mannsmynd, að þá fyrst geti þau lifað sælu lífi, þegar þau skoði ekki dauðann sem óvin sinn.

Nokkrum árum síðar var jeg á gangi í kirkjugarðinum í S-sókn. Það var í byrjun júnímánaðar. Náttúran var í blóma sínum; blómin breiddu sig daggvot á móti vermandi sólargeislunum, fuglarnir sungu fagnaðar- og gleðisöngva, himininn hvelfdist heiður og bjartur yfir láði og legi og angurblíður klukknahljómur lýsti blessun guðs yfir öllu, dauðu og lifandi. Mjer varð litið á lítið leiði með marmarastöpli. Á honum var bók, sömuleiðis höggvin úr marmara; öðru megin á henni stóð nafn, fæðingardagur og dánardægur hins framliðna, og neðan undir því þessi orð:

„Dauðinn var vinur hans".

Hinum megin var höggvið „Faðir vor" frá upphafi til enda. [Þýtt af **S. J. J.**].

---

Sorglegur er svipur þinn,
svangur ertu, krummi minn;
jeg skal fara' og flýta mjer
að finna ugga handa þjer. [**S. J. J.**].

---

# Steinunn gamla.

STEINUNN gamla hafði verið mörg ár í Reykjavík og haft það fyrir atvinnu að sækja vatn og „fara í laugar“. Hún var ekkja og hafði maðurinn hennar drukknað í fiskiróðri. Hún átti einn son, sem nú var fimmtán ára gamall, en þegar hann var á þriðja árinu, lá hann lengi í taugaveiki og var allt af svo mikill aumingi upp frá því, að hann gat ekkert unnið. Hann var haltur og hálfvisinn öðrum megin og strákarnir nefndu hann „Skakka-Tobba“. Steinunn gamla varð að neyta allra krapta til þess að hafa ofan at fyrir sjer og honum og hún sat sig aldrei úr færi. Það vantaði heldur ekki, að hún hefði nóg að gjöra, því engin þótti þvo betur en gamla Steinunn.

Það var einhverju sinni, tveimur dögum fyrir jól, að Steinunn gamla fór í laugar eins og hún var vön. Hún lagði af stað snemma um morguninn og tíndi í pokann sinn svo mikið sem hún treysti sjer til að bera. „Vertu nú sæll, Tobbi minn!“ sagði hún við drenginn sinn, þegar hún fór af stað; „jeg skal vera svo fljót sem jeg get; láttu þjer ekki leiðast á meðan“. Veðrið var undur gott; sjórinn var sljettur og spegilfagur, og það var eins og öll nes og tangar teygðu sig laugt um lengra út en vanalega og landið okkar vildi lykja sem mest af sjónum í faðmi sínum; himininn hvelfdist uppi yfir heiður, bjartur og brosandi, og lýsti ánægju sinni yfir þessu góða samkomulagi láðs og lagar. Steinunn gamla var hrifin af yndisleik náttúrunnar, og þótt hún væri ekki hærra sett í heiminum en að bera þvott inn í laugar, þá fannst henni samt, að hún hefði yfir engu að kvarta. Hún var heilsugóð og gat vel unnið fyrir honum Tobba sinum, og það var henni nóg.

Þegar hún kemur inn í laugarnar, fer hún að þvo og heldur því áfram þangað til kl. 3 eptir hádegi, þá treður hún þvottinum aptur ofan í pokann sinn, leggur hann á bak sjer og fer af stað heimleiðis. Hún hafði fundið dálítið til lasleika um daginn og var miklu máttminni en hún átti að sjer. Þegar hún hefur gengið stundarkorn, fer hún út af veginum, leggur af sjer pokann og sezt á hann til þess að hvíla sig. Hún situr þannig stundarkorn og treystir sjer ekki til þess að standa upp og leggja af stað aptur. Menn voru á gangi fram og aptur um götuna og sáu hvar gamla Steinunn var, en veittu henni enga frekari eptirtekt. Hana dauðlangaði til þess að biðja þá að hjálpa sjer eitthvað, þótt ekki væri nema að lypta á sig pokanum, en hún hafði ekki kjark í sjer til þess; þeir voru allir svo fínir. Loksins fór drengur um veginn, sem hún þekkti vel. „Viltu ekki gjöra svo vel að lypta á mig pokanum, drengur minn?“ sagði Steinunn gamla. „Mjer er hálfillt og jeg held að jeg komist ekki heim í kveld“. Drengurinn hjelt áfram og sagði: „Hvað ætli jeg geti verið að tefja mig á því að stumra yfir vatnskerlingum! jeg þarf að flýta mjer“. „Jæja, drengur minn“, mælti Steinunn gamla. „Þú þyrftir nú ekki að tefja þig lengi á því að lypta á mig pokanum“. „Jeg skipti mjer ekkert af þjer“, sagði drengurinn, „þú getur sníkt hjálp hjá einhverjum öðrum“. Að svo mæltu skildi með þeim. Loksins kom Steinunn gamla pokanum upp á stein og gat þannig komið honum upp á herðar sjer og staulazt af stað. Það var orðið framorðið og farið að dimma. (Framh.).

# Móðurkveðja.

Jeg fylgi þjer, barn mitt, í síðasta sinn
að svartri og helkaldri gröf,

og sorgtárum döpur á dánarbeð þinn
jeg dreypi í skilnaðargjöf.

Mjer virðist sem heyri jeg himneskan róm,
er huggandi kunngjörir mjer;
að tárin mín framleiði fjöldamörg blóm,
svo fögur og gagnsvipuð þjer. [S. J. J.].

## Skrítlur.

EINU sinni voru tveir menn, annar var öfundsjúkur en hinn illgjarn. Þeir máttu báðir óska sjer einhvers, en sá illgjarni átti að hafa helmingi meira en sá öfundsjúki. Hinn öfundsjúki sá ofsjónum yfir því og vildi því heldur verða af óskinni.

„Jeg óska mjer þess“, sagði hinn illgjarni, „að stungið sje úr mjer annað augað, því þá verður að stinga bæði úr hinum og það þykir mjer vel tilvinnandi“.



V. „Það er farið að gefa út barnablað; það er ljóti skollinn, jeg held að það ætli að fá töluverða útbreiðslu“.

J. „Hvað gjörir það til? Það var einmitt þörf á barnablaði, og jeg gleðst af því, að það er orðið til“.

V. „Já, það er nú satt, það var þörf á því; en það var ólukku klaufaskapur af mjer að verða ekki fyrri til, jeg hefði ef til vill getað grætt á því, jeg verð að finna upp einhver ráð til þess að koma blaðinu fyrir kattarnef“.

J. „Blessaður láttu engan mann heyra þetta! Sjerðu ofsjónum yfir þótt bezta bindindisfjelag landsins hefði einhvern hagnað af blaðinu, sem það svo auðvitað verði til eflingar hinu þarfasta velferðarmáli þjóðarinnar — bindindismálinu! En ef þjer er það mjög mikið kappsmál, að niðra blaðinu, þá er helzt fyrir þig að finna að því, hvað það er dýrt: þá verður hætt að kaupa það“.

V. „Það er alveg satt; það er nú reyndar lang-ódýrast allra blaða, ef tekið er tillit til þess, að auglýsingarnar borga að miklu leyti kostnaðinn við hin blöðin, en jeg skal samt reyna hvernig það gengur, jeg held að menn taki ekki eptir því“.

## Smávegis.

TAKTU þriggja pela flösku, legðu hana á gólfið og seztu þannig á hana, að stúturinn snúi í sömu átt og fæturnir og krosslegðu fæturna. Taktu síðan kerti með ljósi í aðra höndina, en ljóslaust kerti í hina og reyndu að halda jafnvægi á meðan þú kveikir á því.

HVERNIG er hægt að drekka úr fullri flösku án þess að taka tappann úr henni?

„ÞAÐ er ómögulegt að koma nokkru til leiðar fyrir ósamtakaleysi“, sagði Þorsteinn. Var það rjett?

Þegar þessi mánuður er liðinn, kemur „Æskan“ út fyrsta og þriðja þriðjudag í mánuði hverjum.

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. og 20 a.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast *Þorv. Þorvarðarson* prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 30. nóvember 1897. | 4. tbl. |
|---|---|---|

## Gamla klukkan.

JÖRUNDUR úrsmiður átti átta börn. Elztur þeirra var Pjetur, og vann hann á verkstofu föður síns. Næst yngst var lítil stúlka, sex ára gömul, er hjet Anna. Hún var nærri því blind, en fyrir það þótti föður hennar enn vænna um hana. Þegar hann sá hana sitja kyrra á litla stólnum sínum, blíðlega og góðlega, og sólin skein á bjartleita hárið hennar, þá fannst honum hana ekki vanta nema vængina, til þess að vera eins og lítill engill. Læknirinn hafði huggað foreldra hennar með því, að sjónin væri ekki alveg farin, og að henni kynni því að geta batnað með aldrinum.

Það var kveld í nóvembermánuði. Jörundur úrsmiður og Pjetur voru nýkomnir af verkstofunni inn í stofu, og Jörundur sat undir Önnu litlu, eins og hann var vanur að gjöra á kvöldin, og var að segja henni sögur, en konan hans var að bera á borð. Veðrið var mjög slæmt. Allan seinni hluta dagsins hafði verið snjókoma mikil, en nú var hann farinn að hvessa. Þá var barið að dyrum.

„Hver skyldi vera svona seint á ferð í þessu veðri?“, mælti Jörundur; „farðu fram og opnaðu, Pjetur!“

Eptir stutta stund kom Pjetur inn aptur með lítinn dreng, töturlega klæddan, sem skalf af kulda. Hann hjelt litlu, skjálfandi hendinni sinni fyrir augun, því hann þoldi ekki birtuna af lampanum. Jörundur spurði hann, hvert væri erindi hans, en litli drengurinn gat fyrst engu orði upp komið; loksins gat hann stunið því upp, að hann væri með vasaúr, sem hún mamma sín bæði úrsmiðinn að gjöra svo vel að kaupa af sjer, því hún væri veik og þyrfti á peningum að halda.

„Hvað heitir hún mamma þín, drengur minn?“ spurði Jörundur.

„Hún svarta Gunna á mig“, sagði drengurinn.

„Veslings drengur! Mig furðar mest á því, að þú skyldir geta komizt hingað í kveld í þessu óveðri“, sagði Jörundur, og ljet Önnu litlu niður á gólfið. „Komdu þá með úrið, því leitt væri, ef þú þyrftir að fara svo langa leið árangurslaust“.

Drengurinn fór ofan í vasa sinn, og dró upp úr honum gamalt silfurúr.

Úrsmiðurinn hristi höfuðið. „Já, ekki veit jeg hvað segja skal; ekki er það margra aura virði“, sagði hann í hálfum hljóðum, eins og hann kenndi í brjósti um drenginn.

En drengurinn fór að gráta og sagði: „Við höfum engan mat bragðað í tvo daga, og hún mamma er svo veik“.

„Kauptu það, pabbi minn“, sagði Anna litla, og tók í höndina á föður sínum; en með hinni hendinni þreifaði hún á votu fötunum drengsins og strauk blíðlega hárið hans. — „Honum er víst kalt, hann er víst votur“.

„Við skulum bæði hita honum og þurka“, sagði Jörundur; „hættu nú að gráta, drengur

minn, eitthvað dálitið skal jeg láta þig fá fyrir það".

„Það er bezt að hann komi að borðinu og fái eitthvað að borða", sagði kona Jörundar, sem var að ljúka við að bera á borð; „en fyrst verðum við að reyna að finna þur föt handa honum", og öll börnin flýttu sjer að bjóða mömmu sinni að lána honum fötin sín.

Skömmu síðar var ókunni drengurinn — hann hjet Sigurður — farinn að borða með fólkinu, og hann sat hjá henni Önnu litlu, því hún hafði beðið hana mömmu sína að lofa honum það.

„Nú er hann víst alveg hættur að gráta?" hvíslaði hún að föður sínum.

„Já, nú er hann að borða", svaraði Jörundur, og Anna tók aptur að strjúka kollinn á Sigurði. —

Þegar máltíðinni var lokið, fór Jörundur fram til að líta eptir, hvernig veðrið væri, en kom að vörmu spori inn aptur og sagði, að Sigurður kæmist ekki heim fyr en næsta dag, þótt það væri leiðinlegt að láta móður hans liggja eina alla nóttina; en hún væri reyndar eigi bættari fyrir það, þótt hann yrði úti í illviðrinu.

Sigurður sagði, að það væri stúlka hjá henni móður sinni, og að hún ætlaði að vera þar um nóttina.

Það varð því úr, að Sigurður var hjá Jörundi um nóttina, og var búið um hann í flatsæng á gólfinu hjá ofninum.

Þegar Jörundur fór á fætur næsta morgun, sá hann, að það var kominn stór snjóskafl fyrir utan húsið, og náði hann upp í miðja glugga og gjörði mönnum ómögulegt að komast út eða inn um dyrnar. Hann kallaði þá á Pjetur og þeir fóru báðir að moka snjóinn frá dyrunum. (Framh.). [**F. H.** þýddi].

# Steinunn gamla.

Framhald.

Steinunn gamla staulaðist áfram með pokann sinn, svo lengi sem hún hafði þrek til; en loksins var hún orðin svo örmagna, að hún varð að leggja hann niður aptur og hvíla sig. Allar hinar þvottakonurnar voru komnar heim, því engin þeirra hafði eins mikið að þvo og gamla Steinunn; hún hafði því lagt síðast af stað heimleiðis úr laugunum.

Nú sást enginn maður á gangi lengur og Steinunn þóttist sjá það fyrir fram, að hún yrði að liggja úti um nóttina. Hún hefði reyndar að líkindum getað dregizt heim laus og liðug; en að skilja eptir pokann sinn með öllum þvottinum, það gat hún ekki fengið at sjer; þá gat hún átt það á hættu að sjá hann aldrei aptur og hefði að líkindum orðið að borga eitthvað af þvottinum; en með hverju átti hún að borga? Hún hafði reyndar dregið saman nokkra aura, en hún ætlaði að hafa þá til þess að geta eitthvað breytt til um jólin og gjört þau sem skemmtilegust fyrir hann Tobba litla; hún varð því að halda í þá í lengstu lög.

Eptir nokkra stund sjer hún hvar tveir drengir fara eptir veginum; þeir höfðu verið að flytja hesta og voru nú á heimleið aptur. „Góðu drengir, hjálpið þið mjer til þess að komast heim!" kallaði hún. "Við skulum gjöra það, ef við fáum það vel borgað", sögðu þeir. „Jeg hef ekkert að borga ykkur með", svaraði Steinunn gamla, „en jeg vonast til, að guð borgi ykkur fyrir mig". Við gjörum það ekki nema við fáum eitthvað fyrir það", sögðu þeir og hjeldu áfram. Það var rjett komið að Steinunni gömlu að taka upp úr vasa sínum aurana, sem hún hafði dregið saman og bjóða drengjunum þá, til þess að þeir hjálpuðu henni; en þá gat hún ekkert breytt til um jólin og því hafði hún þó lofað

honum Tobba. Drengirnir hjeldu því áfram leiðar sinnar, en Steinunn sat kyr eptir; hún hafði ekkert borðað um morguninn áður en hún fór og jók því sulturinn máttleysi hennar.

Jeg gleymdi að geta þess í byrjun sögunnar, að Steinunn gamla hafði með sjer hund, er Tryggur hjet og fylgdi henni hvert sem hún fór. Jeg skal segja ykkur, hvernig stóð á því, að þessi hundur fylgdi henni. Fyrir nokkrum árum bjuggu hjón í næsta húsi við Steinunni gömlu og áttu þau hund þennan; þau fóru svo illa með hann, að hann var næstum ekkert annað en beinagrindin; honum var ekkert gefið og hann horfði á fólkið tárvotum bænaraugum, þegar það var að borða. Loksins fór Tryggur að venja komur sínar til Steinunnar, og þótt þar væri af litlu að miðla, þá slökkti Steinunn gamla opt hungur hans.

Svo var það eitt vor, að hjónin, sem áttu hundinn, fluttu burtu úr Reykjavík, en Tryggur fjekkst ekki til að fylgja þeim, með nokkrum ráðum; hann toldi hvergi annarsstaðar en hjá Steinunni og Tobba. Nú var hann orðinn feitur og þriflegur og var það auðsjeð, að hann hafði skipt um eigendur. Tryggur var með Steinunni í laugaferðinni, sem um er getið. Nú líður langt fram á kveld; Steinunn gamla situr á þvottapokanum, skjálfandi og uppgefin og treystist ekki til að leggja af stað aptur. Tryggur liggur við fætur hennar, stendur upp öðru hvoru og ýlfrar framan í hana, rjett eins og hann sje að biðja hana að halda áfram. Allt í einu stekkur hann á burt og kemur ekki aptur. Steinunn hjelt að hann hefði stokkið heim, af því að honum hefði leiðst að bíða, og þó furðaði hún sig mjög á því, þar sem hann var aldrei vanur að yfirgefa hana.

Nú víkur sögunni heim til Tobba; hann hafði verið að leika sjer úti um daginn, en þegar hann kemur heim kl. 5, er mamma hans ekki komin og furðar hann sig mjög á því; hann er samt rólegur langt fram eptir kveldinu; hann vissi, að hún hafði allt af svo mikið að þvo fyrir jólin, og hjelt að það væri þess vegna, hve lengi hún var. Honum þótti verst hve dimmt var orðið og vont veður; hann dauðlangaði til að fara að leita að henni, en hann treysti sjer ekki til þess. (Framh.).

## Alpahirðirinn.

Eptir

**Hoffm. v. Fallersleben.**

Þar hátt uppi' á fjöllum mitt heimkynni er,
í heiminum langbezt þar uni jeg mjer,
þar blómjurtir anga, þar berglindin hlær,
þar bjöllurnar gjalla með hljóðin sín skær.

Í fjarlægð í þokunni þorpin jeg lít
og þreyttur hins svalandi fjallalopts nýt,
og ekkert þar truflar minn einveru frið,
þar ánægður hornið mitt skemmti' eg mjer við.

Er veturinn hrekur mig hjeðan á braut,
þá hugsa' eg um sumarsins unað og skraut, —
um sumarið aptur til fjalla' er jeg fer,
þar friður minn býr, þar sem gæfan mín er.

*Guðm. Guðmundsson.*

## Skrítlur.

EINU sinni var maður á ferð með asna, klyfjaðan salti; leið hans lá yfir á, og þegar hann kom út í hana, datt asninn og átti erfitt með að standa upp aptur, en þegar hann komst á fætur, fann hann, að baggarnir voru orðnir miklu ljettari, saltið hafði runnið í ánni. — Nokkrum dögum síðar var maðurinn aptur

á ferð með asnann, klyfjaðan ull og þá þurfti hann líka yfir á að fara. Þegar hann kom að ánni, sagði asninn við sjálfan sig: „Nú skal jeg svei mjer láta baggana ljettast í ánni, eins og um daginn!“ Þegar komið er út í hana miðja, leggst asninn niður og liggur dálitla stund niðri í vatninu; en þegar hann stendur upp aptur, eru baggarnir orðnir svo þungir, að hann getur varla staðið undir þeim; ullin hafði drukkið í sig svo mikið af vatni, en það hafði asnanum ekki dottið í hug.

EINU sinni var stolið peningapyngju frá manni nokkrum. Hann fór jafnskjótt til málafærslumanns, en þar sem maðurinn hafði engan grunaðan sjerstaklega, var úr vöndu að ráða. Samt hugkvæmdist honum að kalla saman alla þá, sem áttu heima í húsi manns þess, er stolið var frá. Þegar þeir komu, mælti hann: „Það hlýtur einhver ykkar að hafa stolið peningapyngjunni, og jeg hef nóg ráð til þess að komast eptir hver það er“. Síðan fjekk hann þeim sinn stafinn hverjum, alla jafn langa og mælti: „Komið allir aptur á morgun, og hafið með ykkur stafina; þá get jeg þekkt þjófinn á því, að stafurinn hans verður orðinn einum þumlungi lengri en hinna“.

Þegar þeir voru farnir, varð þjófurinn hræddur; hann tók því einn þumlung af stafnum sínum til þess að hann skyldi verða jafnlangur hinum, ef hann yxi um þumlung, eins og dómarinn hafði sagt. Þegar þeir komu aptur til dómarans, þekkti hann þjófinn af því, að stafurinn var styttri; hann meðgekk stuldinn og skilaði aptur pyngjunni.

Elskulega mamma mín,
mjúk er allt af höndin þín;
tárin þorna sjerhvert sinn,
sem þú strýkur vanga minn.
Þegar stór jeg orðinn er
allt það launa skal jeg þjer. [S. J. J.]

## Gátur.

1. Taktu 33 eldspýtur og raðaðu þeim þannig:



taktu því næst 15 af þeim og skildu einungis eptir ellefu. Hvernig ferðu að því?

2. Hver getur skrifað rautt með svörtu bleki?

## Góðu börn!

Ykkur er náttúrlega farið að leiðast eptir myndunum í „Æskunni“, og það er von. Við höfum ekki getað fengið myndir enn þá og verðum að biðja ykkur að fyrirgefa það. Við ætlum að jafna það upp síðar með því, að láta koma mynd í hverju blaði, um tíma, þegar við fáum þær, og vonumst eptir, að þið gjörið ykkur ánægð með það. Við munum reyna að hafa myndirnar svo fallegar og skemmtilegar, að þið getið haft gagn og gaman af þeim. — Ef ykkur langar til þess að gefa einhverju barni jólagjöf, þá skuluð þið kaupa „Æskuna“ handa því, þið getið ekkert valið hentugra!




**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. og 20 a.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast *Þorv. Þorvarðarson* prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 7. desember 1897. | 5. tbl. |
|---|---|---|

## Við syngjum la, la, la!

:,: Við syngjum la, la, la!
og hoppum, hlæjum, dönsum
og hendum burtu lífsins þyrnikrönsum; :,:
þjótum eins og ör
út í líf og fjör,
syngjum sumarljóð,
er svellur æskublóð,
við syngjum la, la, la!
og hoppum, hlæjum, dönsum
og hendum burtu lífsins þyrnikrönsum.

:,: Við syngjum la, la, la!
og látum gígjur gjalla,
er gleðin okkur broshýr kyssir alla; :,:
sorg er heimskuhjal,
helzt er gleyma skal;
æskulíf er ljós,
er lífgar hverja rós.
Við syngjum la, la, la!
og látum gígjur gjalla,
er gleðin okkur broshýr kyssir alla.

*Guðm. Guðmundsson.*

## Gamla klukkan.

Framhald.

Þegar þeir voru að ljúka við þetta, sáu þeir, hvar maður kom akandi á sleða*, og þegar sleðinn kom nær, sáu þeir, að maðurinn, sem sat í sleðanum, var læknirinn.

„Þetta er ljóta færðin, læknir minn“, sagði Jörundur, og hjálpaði lækninum til að koma sleðanum yfir skaflinn, sem lá í götunni.

„Það verður ekki ofsögum sagt af því, Jörundur minn“, svaraði læknirinn. „En verst var, að ferðin var árangurslaus, því þegar jeg kom til hennar svörtu Gunnu, þá var hún dáin“. Og svo ók hann leiðar sinnar.

Þessi frjett kom heldur flatt upp á Jörund. Móðirin var dáin, — en hvað skyldi Sigurður segja? — og hvað skyldi verða af honum? Það lá ekki annað fyrir honum, en að fara á sveitina.

Jörundur gekk inn í stofu, en þar voru öll börnin að drekka morgunkaffið sitt, og Sigurður með þeim.

Hann sagði Sigurði, að móðir hans væri dáin.

Sigurður stóð fyrst lengi grafkyrr, en svo fór hann að gráta.

„Veslings drengurinn!“, sagði kona Jörundar, og lagði höndina á höfuðið á Sigurði. „Þjer þótti víst ósköp vænt um hana mömmu þína?“

En Sigurður hristi höfuðið og stökk út í horn, og þar grjet hann lengi og ákaft, en enginn gat fengið hann til að segja, hvers vegna hann væri að gráta, fyrst honum hefði ekki þótt vænt um hana mömmu sína. —

*) Í Danmörku, þar sem þessi saga gjörist, brúka menn sleða á veturna í stað vagna, og beita fyrir þá 1 eða 2 hestum. Þykir bæði börnum og fullorðnum hin bezta skemmtun að aka á sleða. *Þýð.*

„Hún hefur víst aldrei verið honum góð móðir, hún svarta Gunna; það fór ekki sem bezt orð af henni“, sagði Jörundur, eins og til að afsaka Sigurð. Og hann bað börnin að láta hann afskiptalausan, svo hann gæti grátið í næði.

Seinna, þegar hin börnin voru farin í skóla, fór Jörundur inn í stofu, til að vitja um Önnu litlu og Sigurð. Sigurður sat hjá Önnu og hún hjelt um hálsinn á honum, en Sigurður hlustaði á hana með mestu athygli.

„Pabbi!“, sagði Anna, „leyfðu mjer að hvísla nokkru að þjer“.

Hann tók hana í fang sjer, og hún sagði honum, að Sigurður hefði verið að gráta vegna þess, að nú ætti hann að verða niðursetningur, því það hefði hún mamma hans sagt honum, að hann yrði þegar hún dæi. — „Pabbi minn“, sagði hún og klappaði honum með litlu höndunum sínum, „má hann ekki vera hjá okkur og vera bróðir minn?“.

Jörundi hafði komið til hugar, að láta Sigurð vera hjá sjer fyrst um sinn, meðan væri verið að sjá honum fyrir öðrum samastað, en að taka hann alveg, eins og Anna litla bað hann um, — það hafði honum aldrei dottið í hug.

„Þú mátt segja honum“, hvíslaði hann að Önnu, „að hann geti verið hjerna fyrst um sinn, þangað til við vitum, hvar hann á að vera“. Og svo fór hann til konunnar sinnar og var lengi að tala við hana.

„Já“, sagði hún, „það er eins og guð hafi gjört það í einhverjum ákveðnum tilgangi, að láta hann koma til okkar í gærkveld“.

„Það finnst mjer líka“, sagði Jörundur, og fór í betri frakkann sinn og fór út.

Hann kom ekki heim aptur fyr en átti að fara að borða miðdegisverð, og þá sagði hann börnunum frá, að hann hefði komið því svo fyrir, að Sigurður yrði hjá þeim, þangað til hann væri fullorðinn, og hann sagðist vona, að Sigurður yrði góður og hlýðinn drengur, svo að hann yrði þeim til ánægju.

Og það varð líka.

Sigurður hafði ekki mörg orð um þakklætistilfinningu sína, en hann sýndi hana í verki. Hann var allaf vingjarnlegur og greiðvikinn og reyndi að gjöra þeim allt til hæfis. En sjerstaklega gjörði hann sjer far um að vera sem beztur við Önnu litlu, og gjörði allt, sem hann gat, til að skemmta henni.

En mest gaman þótti honum samt að því, þegar hann fjekk að koma inn í verkstofuna og sjá Jörund gamla vinna. Honum þótti svo gaman að sjá öll litlu hjólin í klukkunum, og honum þótti heldur en ekki matur í því, þegar fóstri hans fjekk honum einu sinni gamla úrið, sem hann hafði meðferðis kvöldið, sem hann kom þangað í vonda veðrinu, og leyfði honum að taka það í sundur og setja það saman aptur. Og Sigurður var svo lagtækur, að hann var stundum látinn hjálpa til á verkstofunni, þegar mikið var að gjöra. Ekki gat hann hugsað sjer neitt skemmtilegra en það, að fá að læra hjá fóstra sínum að verða úrsmiður; en hann hafði litla von um það, því hann vissi, að þegar væri búið að ferma hann, ætti hann að fara þaðan til að vinna fyrir sjer. (Frh.) [F. H. þýddi].

## Steinunn gamla.

Framhald.

Tommi litli hafði setið einn heima, eins og áður er sagt og vonaðist eptir henni mömmu sinni á hverri stundu. Allt í einu heyrir hann að klórað er í hurðina í ákafa: „Ó, þar er Tryggur kominn“. hugsaði hann, „hann hefur stokkið á undan henni mömmu, hún kemur þá rjett undir eins“. Því næst staulast hann fram og lýkur upp fyrir honum. Þegar hann opnar dyrnar, hleypur Tryggur í fangið á hon-

um, ýlfrandi og geltandi; rífur hann allan utan með klónum, en þó ekki svo, að hann meiddist af því. Stundum hætti hann rjett snöggvast og lagðist niður á gólfið fyrir framan fæturna á Tomma, en hann stóð upp að vörmu spori aptur og ljet alveg eins og áður. „Svei, svei, svei! vertu rólegur, Tryggur minn“, sagði Tommi og ætlaði að klappa honum, en það dugði ekkert. Tommi hafði eigi frið fyrir honum; hann hjelt að hann væri orðinn vitlaus. Það lá við að hann óskaði að hann og mamma hans hefðu aldrei gefið honum neitt á meðan hann var hjá hinu fólkinu, svo að hann hefði ekki hænzt að þeim. Honum þótti það leiðinlegt, ef það yrði að drepa hann, en hann sá ekki annað en að hann væri orðinn vitlaus og þá var ekki um annað að gjöra. Tryggur hjelt áfram að ýlfra og gelta og sömuleiðis að klóra Tomma. Það var rjett komið að honum að staulast út til hans Halldórs í Götu, sem strákarnir nefndu hundabana, og biðja hann að skjóta hann Trygg. „Aumingja Tryggur!“ hugsaði hann; „að þú skulir vera orðinn vitlaus; jeg get ekki látið drepa þig; en jeg má til“.

Nú fór Tommi að hugsa um það, hvernig gæti staðið á því að mamma hans kom ekki; það var orðið svo langt síðan að Tryggur kom, að þótt hann hefði stokkið á undan henni, þegar hún var nýlega lögð af stað, þá hefði hún samt átt að vera komin. „Ó, skyldi nokkuð ganga að henni mömmu!“ hugsaði hann. „Nei, það er ekkert að marka hann Trygg núna“, sagði hann við sjálfan sig; hann er ekki með öllum mjalla; hann er heldur ekki vanur að láta svona“. Tryggur ljet allt af ver og ver; hann fór að ýlfra hærra og klóra fastara. Tommi var alveg í vandræðum. Loksins reiddist hann Trygg og barði hann. „Svei þjer Tryggur! skammastu þín. skammastu þín!“ sagði hann og tók sokk í hönd sjer og barði hann af alefli. Tryggur hætti rjett í svip, skreiddist út í horn, þar lá hann dálitla stund, ýlfrandi, svo stökk hann upp aptur og ljet enn ver en áður. Nú fór Tommi litli að hugsa alvarlega um hana mömmu sína; hann sjer það, að eitthvað hlýtur að hindra hana og dettur honum því í hug, hvort ekki geti skeð, að Tryggur vilji láta í ljós eitthvað, sem hann viti um hana, og eptir nokkra umhugsun komst hann að þeirri niðurstöðu, að svo hlyti að vera. Hann mundi þá eptir mörgum sögum, er gátu þess, að hundar hefðu orðið mönnum til lífs, einmitt á líkan hátt og þetta. „Aumingja Tryggur!“ sagði hann nú og klappaði honum. „Þú ert ekki vitlaus, eins og jeg hugsaði; það er jeg, sem er svo heimskur, að skilja þig ekki“. Tryggur gjörði ýmist að hann hljóp fram að hurð, stóð þar og horfði bænaraugum á Tomma, eins og hann vildi grát-biðja hann að ljúka upp og fylgja sjer út, eða hann stökk til hans og flaðraði upp um hann. Nú staulaðist Tommi út og Tryggur með honum. Hann fer í næsta hús, finnur þar menn að máli og spyr, hvort þeir vilji ekki gjöra svo vel, að leita að henni mömmu sinni; hann kveðst vera orðinn svo hræddur um hana, hún sje ekki vön að vera svona lengi í laugunum og Tryggur sje kominn á undan henni. Þar að auki segist hann geta dregið það af því hvernig hundurinn láti, að ekki sje allt með feldu. (Framh.).

---

*Árni:* Hvernig stendur á því að þú ert í unglingastúkunni? Þeir, sem þar eru, mega aldrei blóta og aldrei reykja.

*Jón:* Mjer þykir ekkert gaman að blóta og læknirinn segir að það sje óholt að reykja; svo þarf líka peninga til þess, að kaupa tóbakið fyrir, Jeg vil heldur hafa aurana, sem jeg vinn mjer inn, til þess að kaupa eitthvað handa systkinum mínum og gefa þeim það á jólunum.

## Skrítlur.

JÓN hafði skrifað eitthvað í vitnisburðarbókina sína; kennarinn verður reiður við hann og segir: „Hefurðu gjört þetta með vilja, Jón?“

„Nei“, svarar Jón, „jeg gjörði það með penna“.

ANNA: „Hvernig geturðu fengið það af þjer, Vilhjálmur, að láta svona illa? Mamma þín liggur veik og pabbi þinn líka; hann hefur handleggsbrotnað“.

VILHJ.: „Fyrst hann pabbi er handleggsbrotinn, þá getur hann ekki barið mig og þá er mjer óhætt að láta illa“.

Haldið þið, að hann hafi verið gott barn?

## Smávegis.

TIL MINNIS. Munið eptir að kasta mylsnu og öllu, sem þið getið, fyrir vesalings litlu, svöngu fuglana, þegar veðrið er slæmt og þeir hafa ekkert að borða.

Gætið þess, börnin góð, að reka skepnurnar hægt og gætilega, sigið ekki hundunum á eptir þeim, þegar hált er eða hart við fótinn, þær geta dottið og meitt sig.

Hættið að kasta snjókögglum á eptir gamla fólkinu, sem ber vatnið um göturnar heim í húsin til ykkar; þið verðið einhvern tíma gömul líka, og þá getur skeð að þið sækið vatn. Ef þá kæmu krakkar og köstuðu snjó í ykkur, mynduð þið minnast þess, að þetta gjörðuð þið, þegar þið voruð börn, og óska þess, að þið hefðuð aldrei hrekkjað gömlu vatnsberana.

## Spakmæli.

GLERAUGUN styrkja augað, stafurinn fótinn, trúin sálina og kærleikurinn hjartað.

GOTT barn er hið sama fyrir foreldrana, sem sólin fyrir mennina; en vont barn er fyrir þau hið sama sem myrkur.

## Gátur.

Takið öll stykkin úr þessari mynd, nema krossinn, sem er í miðjunni, og raðið þeim í kvaðrat. Hvernig farið þið að því? (Kvaðrat er ferhyrningur, sem hefur öll hornin jöfn og allar hliðar jafnar).



**Ráðning gátnanna í 4. tbl.**

1.




2. Allir, sem kunna að skrifa, geta skrifað orðið „rautt“ með svörtu bleki.



**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. og 20 a.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast *Þorv. Þorvarðarson* prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

**Fjelagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

**I. árg.** | Reykjavík, 21. desember 1897. | **6. tbl.**


## Jólagjöf Guðs.

Á Gyðingalandi er bær, sem heitir Betlehem. Þar var fyrir mörgum, mörgum árum haldið manntal og fjöldi fólks kom þangað, svo að öll hús voru full af gestum. Þá komu þangað hjón frá Nazaret; maðurin hjet Jósep, en konan hans hjet María. Þau reyndu víða að fá gistingu, en allstaðar var fullt, svo að þau gátu hvergi fengið að vera, og urðu að láta sjer lynda, að búa í fjárhúsi, meðan þau dvöldu í bænum.

En meðan þau voru þar, fæddi María barn. Það var ljómandi fallegur drengur. María hafði enga vöggu til að leggja hann í. En í fjárhúsinu var jata, sem kindurnar átu úr; þar lagði hún drenginn sinn, reifaðan. Og þannig var jatan í fjárhúsinu í Betlehem vagga frelsarans, því litli drengurinn, sem María fæddi, var frelsari heimsins, Jesús Kristur, og nóttin, sem hann fæddist á, er fyrsta jólanóttin.

**Jesús er jólagjöf Guðs til vor mannanna.**

Guð hefur gefið oss öllum og gefur oss á hverjum degi margar góðar gjafir, en bezta gjöfin, sem hann hefur gefið oss, er hans eingetinn sonur, Jesús Kristur. Hann er bezta gjöfin, því á engu er mönnunum meiri þörf en einmitt á honum. Mannkynið er allt spillt af syndum; allir mennirnir hafa syndgað á móti Guði og verðskulda eilífan dauða fyrir syndir sínar. Og mennirnir hafa enga fórn, sem þeir geti afmáð með synd sína, ekkert, sem þeir geti borgað með skuldina til hins rjettláta Guðs. En Jesús Kristur hefur borgað skuldina fyrir oss öll, þegar hann fórnaði sjálfum sjer á krossinum á Golgatha. — Ef Guð hefði ekki gefið oss hann, værum vjer öll glötunarinnar börn, en nú eigum vjer öll kost á að verða Guðs börn, ef vjer viljum trúa á Jesúm Krist. Alla þessa miklu náð gaf Guð oss, þegar hann gaf oss Jesúm Krist.

Svo dýrmæt er þá jólagjöfin, sem Guð gaf mönnunum fyrir mörgum öldum í Betlehem. Og enn í dag gefur Guð öllum, sem vilja, þessa sömu gjöf, því Jesús Kristur er ávallt hinn sami. Hann er enn í dag reiðubúinn til að frelsa hvert einasta mannsbarn; hann vill enn í dag gefa hverjum iðrandi syndara sinn frið; hann vill enn í dag hugga hvert harmþrungið hjarta; hann er enn í dag jafn inndæll og aðdáanlegur fyrir hverja trúaða sálu, sem virðir hann fyrir sjer; og enn í dag breiðir hann út faðminn móti öllum Guðs börnum til að gefa þeim sína blessun.

Og Guð vill svo gjarna að vjer þiggjum þessa gjöf, sem hann vill gefa oss. Þegar jólaklukkurnar kalla oss saman til að heyra gleðiboðskapinn um fæðingu frelsarans, þá ítrekar hann boð sitt til hvers einasta manns, og biður oss enn einu sinni að þiggja jólagjöfina sína. Látum hann ekki kalla á oss árangurslaust! Komum öll og þiggjum með innilegri gleði blessuðu gjöfina hans!

**En hvað eigum vjer að gefa honum í staðinn?**

Vjer höfum ekkert, sem vjer getum gefið honum, nema *hjörtu vor*. Hjartað er það eina, sem hann biður oss um, það er einasta þakklætisfórnin, sem vjer getum fært honum; og það gjörum vjer með því að *elska hann* af öllu hjarta, elska hann, því hann hefur elskað oss að fyrra bragði.

Og ef vjer gjörum það, ef vjer elskum Guð af öllu hjarta, þá munum vjer gefa honum *dýrðina* fyrir jólin, það er að segja, vjer munum þakka honum innilega fyrir jólagjöfina, og sýna þakklæti vort í verki með því að vera honum góð og hlýðin börn. Og þá verður líka *friður* á jörðu, því þá höfum vjer, fyrir trúna á Jesúm, frið við Guð og elskum eins og góð börn vors himneska föður hver annan, eins og hann hefur boðið oss. Og þá mun líka *velþóknun* Guðs vera yfir oss, mönnunum, því þannig vill hann að vjer sjeum þakklát og elskandi börn.

Kappkostum þetta öll, að gefa Guði hjörtu vor, sem þakklætisfórn fyrir jólagjöfina hans, svo vjer getum, þegar jólaklukkurnar kalla oss saman til að halda hátíð, haldið jól eins og Guðs ástfólgin börn og tekið undir lofsöng englanna: Dýrð sje Guði í hæðum, friður á jörðu og velþóknan yfir mönnunum!

*Fr. Hallgrímsson.*

## Komin eru jólin.

Komin eru jólin, sem jeg hef lengi þráð,
jeg skal vera glaður og lofa drottins náð;
allt er hreint og fágað og fögrum ljósum skreytt,
flúið burtu myrkrið og sorg í gleði breytt.

Komin eru jólin, sem Jesús fæddist á,
jeg hef heyrt og lesið, hann elski börnin smá,
jeg skal allt af reyna' að lifa líkt og hann,
að lýsa hverri sálu og hryggja' ei nokkurn mann.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Hann vill að öllum líði vel.

(Úr norsku barnablaði).

Það var jólakvöld. Lítill drengur sat á steini niðri við sjó og starði út í bláinn; hann átti enga foreldra og hann hafði enga jólagjöf fengið. Það var kuldi og frost og koldimmt myrkur. Allt í einu sá hann, að kveikt var í húsi einu skammt frá honum, og skömmu síðar heyrði hann fagran söng og hljóðfæraslátt. Hann stóð upp, gekk að glugganum, steig upp á stein, sem var við þilið og horfði inn í húsið, öðru megin við gluggatjaldið. Ó, þar var allt svo ljómandi fallegt og skemmtilegt; mörg börn voru þar inni, öll í fallegum fötum, öll með sitt kertið hvert í annari hendinni og bók í hinni. Maður ljek á hljóðfæri og allir sungu undir. Hann fór að hlusta til þess að vita, hvað verið væri að syngja. Það var sálmur um barnið, sem fæðst hafði á jólunum: „Hann vill að okkur öllum líði vel“, sungu börnin með svo skærum og hrífandi rómi. „Skildi hann ekki líka vilja að mjer líði vel?“ hugsaði litli drengurinn, og færði sig nær glugganum. „Ó, jeg vildi að jeg væri orðinn eitt af þessum börnum! dæmalaust eiga þau skemmtileg jól!“

Allt í einu skriðnaði honum fótur, hann rann út af steininum, rak hendina í gluggann, braut í honum eina rúðuna og datt niður í bleytuna. Húsbóndinn stökk út til þess að vita, hvað um væri að vera, og öll börnin á eptir. Þegar þau komu út, var litli drengurinn að standa á fætur aptur, hann hafði skorið sig á hendinni á rúðubrotunum og var bæði óhreinn

og blóðugur, þar að auki var hann dauðhræddur um, að maðurinn hjeldi, að hann hefði ætlað að gjöra eitthvað illt af sjer og mundi því verða vondur við sig. „Jeg ætlaði ekkert að gera illt!“ stundi hann upp í hálfum hljóðum; „jeg var bara að horfa inn og hlusta á sönginn“. „Vertu óhræddur!“ sögðu öll börnin, „komdu inn með okkur; má hann það ekki, pabbi?“ „Jú, börnin mín“, sagði faðir þeirra, og svo leiddu þau hann inn, færðu hann í falleg föt og þvoðu hann allan upp. Svo fóru þau að leika sjer í kring um jólatrjeð og hjeldu áfram að syngja um barnið, sem fæddist á jólunum; litli drengurinn hlustaði á þau með athygli, en hann gat ekki sungið með þeim, því hann kunni ekki það, sem þau sungu: „Hann hafði aldrei verið eins sæll og þetta kveld. „Nú sje jeg að hann vill líka að mjer líði vel“, hugsaði hann, „hann vill að öllum börnum líði vel“.

Þegar jólin voru liðin, fór hann heim aptur, ekki í rifnu fötunum sínum, gömlu, heldur í fallegu fötunum, sem börnin færðu hann í, þegar hann kom; þau gáfu honum fötin. Það má geta nærri, að hann hefur verið þeim þakklátur, en vænst af öllu þótti honum samt um, að þau gáfu honum eina af bókunum, sem þau höfðu sungið á um þann, sem vildi að öllum börnum liði vel. [S. J. J. þýddi].

## Barnavísur.

Ef við verðum ekki löt
og okkur kær er skólinn,
alveg ný og falleg föt
fáum við um jólin.

En sjeum við að lesa löt
og líki illa skólinn,
bætt og slitin fáum föt
að fara í um jólin. [S. J. J.].

## Á jólunum.

*Á Jólunum* eiga allir að vera glaðir og kátir, ef mögulegt er.

*Á jólunum* á öllum að koma vel saman, og börnin eiga ekki að stríða hvert öðru. Þau eiga að vera þæg við mömmu og pabba og góð við systkini sín og alla menn.

Ef þið þekkið einhver börn, sem ekkert geta keypt sér fallegt *á jólunum*, þá er gustuk fyrir ykkur að gefa þeim eitthvað, ef þið getið.

Ef eitthvað gengur að einhverju barni, svo að það ekki getur verið glatt *á jólunum*, þá eigið þið að fara heim til þess og reyna að gleðja það.

Ef eitthvert barn er svo fátækt, að það á ekki nógu góð föt til þess að geta farið í kirkju *á jólunum*, þá væri vel gjört af ykkur að lána því föt.

Ef þið sjáið þyrsta hesta standa við brunnana *á jólunum*, þá eigið þið að vera svo góð börn, að vatna þeim eða biðja einhvern að gjöra það. Skepnunum á líka að líða vel *á jólunum*.

Eins og þið vitið, fæddist Jesús Kristur *á jólunum*, hann elskar litlu börnin og honum þykir vænt um ef þið reynið að vera góð og lík honum. [S. J. J.].

## Skrítlur.

JÓN: Hvað hefurðu sjeð og heyrt, sem þjer hefur þótt skemmtilegast?

BJARNI: Hana mömmu, þegar hún hefur setið með okkur og sagt okkur sögur.

JÓN: En hvað hefurðu þá sjeð og heyrt, sem þjer hefur þótt leiðinlegast.

BJARNI: Hann pabba, þegar hann hefur komið fullur út úr Svínastíunni.

OF MIKIL KURTEISI.

Ung stúlka spurði pilt, hvort hann mundi fylgja sjer til grafar, ef hún dæi.

„Já“, svaraði hann, „það mundi jeg gjöra með mestu ánægju“.

---

KENN.: „Hversu margir verða eptir, ef þú dregur 3 frá 10?

LÆRISV. þegir.

KENN.: „Hversu marga fingur hefurðu á báðum höndunum til samans?

LÆRISV.: „Tíu“.

KENN.: „Alveg rjett; en ef þú mistir 3 fingurna?“

LÆRISV.: „Þá losnaði jeg við að læra að leika á hljóðfæri.

---

## Gátur.

1. Maður nokkur kom að gömlum túngarði og sagði: „Fyrir fiski hefur þessi garður verið ull“. Skiljið þið hvað hann meinti?
2. Með hverju geturðu bæði kælt og hitað?

---

**Ráðning gátunnar í 5. tbl.**



---

## Vorvísa.

Nú lifna blóm um börð og hlíð
og brosir fögur sumartíð,
og sólin bræðir svellin hörð
og signir vora jörð;
og blessuð fósturfoldin mín,
hún fer í grænu klæðin sín,
og heitt hún elskar öll sín börn
og er þeim líknargjörn. [S. J J.]

---

## Barnastúkan

heldur fundi á hverjum sunnudegi kl. 3 e. m. í Good-Temlarahúsinu. Börnin stjórna sjálf fundum með aðstoð hinna fullorðnu. Þar eru lesnar upp fallegar sögur og margt fleira gott og skemmtilegt. Á jólunum verður haldin sjerstök skemmtun fyrir öll barnastúkubörnin. Þá fá þau ljómandi fallegt jólatrje og ýmislegt, sem þeim þykir gaman að. Þá verður gaman fyrir þau að lifa! Þá mundu öll börn óska sjer að vera komin í barnastúkuna.

---

## Jóla- og Nýárs-Kort

**(falleg, margbreytt** og **ódýr)**
fást á afgr.stofu „Æskunnar“, Þingh.str. **4.**
Komið, skoðið og kaupið!

**Þorv. Þorvarðarson.**

---

**Gunnar Einarsson** í Tjarnargötu 1 hefur ljómandi fallegar myndabækur HANDA BÖRNUM, sem kosta einungis 5 aura.

---

## „Æskan“

hefur fengið svo góðar undirtektir og mikla útbreiðslu, að líklegt er, að hún geti stækkað áður en langt um líður, **án þess að verða dýrari.**

---

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast *Þorv. Þorvarðarson* prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

**Fjelagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 21. desember 1897. | 6. tbl. |
|---|---|---|

## Gamla klukkan.

Framhald.

Þannig liðu þrjú ár, og Sigurður varð þrettán ára. Þá bar svo til einn góðan veðurdag, mánuði fyrir jól, að skrautlegur sleði nam staðar fyrir framan húsdyr Jörundar gamla, og í sleðanum sat tígulegur maður. Það var herragarðseigandinn frá Bjarnhólmi.

Hann gekk inn í húsið og fann Jörund á verkstofunni.

„Mig langar til að spyrja yður, Jörundur minn“, sagði hann, „hvort þjer viljið taka að yður að gjöra við gamla klukku, sem jeg á. Afi minn sálugi keypti klukkuna fyrir 100 árum í Nürnborg, og síðan hefur það verið venja á herragarðinum, að heilsa nýja árinu, þegar gamla klukkan slær 12 á nýársnóttina. Þá kemur mannsmynd út úr klukkunni, og klukkan spilar sálmslag. En nú er komið ólag á klukkuna, og það er verst vegna þess, að faðir minn trúir því fastlega, að þegar klukkan hætti að ganga, þá sje hann feigur, og við þorum þess vegna ekki að láta hann vita af þessu. Mjer þætti því vænt um, ef þjer vilduð gjöra mjer þann greiða, að koma til mín á morgun og líta á klukkuna. jeg skal borga yður vel, og ef yður tekzt að gjöra við klukkuna, skuluð þjer fá 100 kr. þar að auki“.

Eins og nærri má geta, hafnaði Jörundur ekki slíku boði. Daginn eptir kom sleði til að sækja hann, og hann tók Sigurð með sjer, Þeir sáu það fljótt, að ekki var auðið að gjöra við klukkuna þar sem hún var, og þeir tóku því verkið úr henni og höfðu það heim með sjer. Heima á verkstofunni var það látið á borð, sjer, og Jörundur gamli sat nú yfir því dag eptir dag, hreinsaði það og athugaði. En það var einnig annar, sem athugaði verkið nákvæmlega, og það var Sigurður; hann hugsaði um það dag og nótt

Jólin nálguðust, en Jörundur fór að verða vondaufur um, að sjer tækist að gjöra við klukkuna. Hann tók hana sundur og setti hana saman aptur hvað eptir annað, honum tókst að láta hana ganga, en hann gat ómögulega komið henni til að slá, og mannsmyndin kom ekki fram. Sigurður var allt af að hugsa um, hvað gæti gengið að klukkunni, og hann reyndi að draga upp á blað verkið eins og honum fannst það eiga að vera, en eptir því vantaði lítið hjól í það. Hann langaði til að segja Jöruudi frá þessu, en þorði ekki, því honum fannst það ósvífni, að hann skyldi þykjast hafa betur vit á því en gamall úrsmiður.

Eitt kveld var Jörundur gamli venju fremur dapur í bragði, og sagði að það væri útsjeð um það, að hann gæti gjört við klukkuna. Þegar Sigurður var háttaður um kveldið, gat hann ekki sofnað; hann var allt af að hugsa um klukkuna. Ef það væri nú rjett, eins og hann hafði hugsað sjer! Ef ekki vantaði nema þetta eina hjól! Þá gæti fóstri hans orðið glaður aptur og fengið peningana. Allt í einu stökk hann á fætur og fór í snatri í eitthvað af fötum, tók gamla silfurúrið sitt og flýtti sjer með það út á verkstofu. Svo kveikti hann á lampanum

þar, tók í sundur úrið sitt og tók hjólið út úr því. Hann fann ekki til kuldans í verkstofunni, og hendur hans skulfu af geðshræringu. Hann tók að sverfa hjólið og tók að bera það við verkið úr stóru klukkunni, sverfa aptur og bera það við aptur, og leið svo hver klukkutíminn eptir annan. Þá er klukkan var orðin 5 um nóttina, var hann loks búinn að þessu, og hjólið úr úrinu hans var komið í klukku herragarðseigandans. En þá datt honum allt í einu í hug, hvort hann hefði nú ekki skemmt klukkuna með þessu, og hann varð mjög hræddur. Hvað skyldi hann fóstri hans segja, ef hann hefði skemmt klukkuna? Honum hafði ekki dottið þetta í hug meðan hann var að vinna, en nú ætlaði hræðslan að gjöra út af við hann, og hann ætlaði ekki að þora að setja klukkuna af stað til að vita hvort hún gæti gengið.

Jörundur gamli lá andvaka í rúmi sínu. Hann gat ekki sofið fyrir áhyggjum. Hann vantaði einmitt peninga núna, og það hefði komið sjer að fá hundrað krónurnar og verkalaunin, ef honum hefði tekizt að gjöra við klukkuna. Já, hefði honum tekizt að gjöra við klukkuna; en nú var þar að auki hætt við að hann missti álit sitt sem úrsmiður, fyrst hann gat það ekki. En hvað var þetta? allt í einu heyrðist klukkan slá 12, svo skært, og hljóðið kom frá verkstofunni. Jörundur hrökk upp og flýtti sjer fram í verkstofu, til þess að sjá hvað um væri að vera, hann hratt upp hurðinni -- og þá sá hann hvernig í öllu lá.

Klukkan var ennþá að spila sálmslagið og mannsmyndin stóð fyrir utan litlar dyr, sem höfðu opnazt, en fyrir framan borðið stóð Sigurður náfölur og skjálfandi.

„Þú mátt ekki reiðast mjer, góði fóstri“, sagði Siggi, og lagði hendurnar um hálsinn á Jörundi.

„Reiðast þjer! — ætti jeg að reiðast þjer, Siggi minn?“, sagði Jörundur og viknaði, „en segðu mjer nú hvernig þú hefur farið að því að koma þessu í lag“. Þegar Sigurður hafði sagt honum frá því öllu, tók Jörundur hann í fang sjer og kyssti hann, og bar hann svo inn í rúmið sitt, og sagði honum að hann skyldi nú sofa þar, það sem eptir væri næturinnar, og þyrfti ekki að fara á fætur fyr en hann vildi. (Framhald). [**F. H.** þýddi].

---

# Steinunn gamla.

(Niðurl.).

Nú lagði Jón vinnumaður af stað að leita Steinunnar; Tryggur hljóp á undan, en Tobbi staulaðist á eptir. Hann átti bátt með að fylgja Jóni, þar sem hann var svo haltur, en honum var svo umhugað um að finna hana mömmu sína, að hann fann ekki til þreytu og var sjálfsagt helmingi fljótari en nokkurntíma áður.

Þegar komið er langt inn eptir veginum, fer Tryggur út af götunni og nemur staðar hjá steini nokkrum. Þeir Jón og Tobbi fara þangað á eptir honum og þar sat Steinunn gamla alveg aðfram komin. Jón tók pokann hennar, lagði hann á bak sjer og leiddi Steinunni, „Aumingja Tryggur!“, sagði Tobbi og klappaði honum; „hamingjunni sje lof að við mamma gáfum þjer þegar gömlu húsbændurnir þínir ljetu þig vera hungraðan og horaðan; þú hefur sannarlega borgað það, því nú hefði mamma líklega orðið úti, ef þú hefðir ekki verið með henni, og hvað hefði þá orðið um mig? Þá hefði jeg ekki átt skemmtileg jól“. Tryggur stökk allt í kring um þau og rjeði sjer ekki fyrir gleði.

Það var alveg eins og hann vildi segja: „Nú hef jeg þó getað sýnt lit á þakklæti fyrir það, sem jeg hef þegið“.

Þið munið ef til vill eptir því, að Stein-

unn gamla bað tvo drengi að hjálpa sjer heim um kveldið, en þeir neituðu því og skildu hana eptir hjálparlausa. Þeir höfðu verið að flytja hesta og fengið fyrir það nokkra aura. Þegar þeir koma niður í bæinn, fara þeir inn á veitingahús og kaupa vín fyrir peningana. Þeir sitja þar dálitla stund og tala saman yfir glösunum; þegar þeir hafa tæmt þau, þykir þeim illt að hafa ekki meira, en peninga höfðu þeir ekki eptir. Þar var drukkinn maður, sem sat á stóli, hallaðist upp að veggnum og svaf. Drengirnir voru orðnir töluvert ölvaðir og gættu þess ekki, hvað þeir gjörðu. Annar þeirra læddist að drukkna manninum, laumaðist ofan í vasa hans með aðra hendina og tók peningapyngjuna hans. Í henni voru 5 kr. Reyndar hafði maðurinn komið þangað inn með 15 kr., en hann hafði sjálfur eytt 10. Það var enginn á veitingahúsinu nema þessi drukkni maður og drengirnir; þeir tóku peningana og keyptu fyrir þá öl, vindla og kaffi. Þarna voru þeir þangað til þeir voru orðnir viti sínu fjær og var hrundið út úr veitingahúsinu rjett fyrir kl. 12, þá var þar staddur einhver, sem þekkti þá, tók þá og ók þeim heim. Morguninn eptir voru þeir kallaðir upp á skrifstofu bæjarfógeta. Brá þeim þá heldur en ekki í brún og þóttust nú vita, hvernig fara mundi. Maðurinn, sem þeir tóku frá peningana, hafði saknað þeirra, en veitingamaðurinn sagði, að engir hefðu verið þar inni nema þessir drengir og þeir hefðu skipt 5 kr. seðli, en það væri undarlegt að þeir hefðu svo mikla peninga undir höndum. Það bárust svo að þeim böndin, að þeir urðu að játa yfirsjón sína, og þá komst það upp, að þeir höfðu opt unnið ýmislegt ljótt áður, þegar þeir höfðu verið drukknir á veitingahúsinu.

Nú kom jóladagurinn. Tobbi fór snemma á fætur, eins og flest börn gjöra á jólunum. Mamma hans hafði gefið honum ný föt og ýmislegt smávegis, svo nú var hann glaður og kátur og ljek við hvern sinn fingur. Hann fór út og kyssti hana mömmu sína þegar hann kom inn aptur og bauð henni gleðileg jól. „Gleðileg jól, elsku drengurinn minn“, sagði Steinunn gamla. „Þú getur boðið mjer gleðileg jól með góðri samvizku, þú hefur verið góður og siðsamur piltur. Jeg er hamingjusöm móðir að eiga eins gott barn og þú ert; en aumingja foreldrar drengjanna, sem tóku peningana! Þeir eiga ekki skemmtilegum jólum að fagna, og vesalings drengirnir sjálfir, dæmalaust hljóta þeir að skammast sín, þegar þeir óska foreldrum sínum gleðilegra jóla, og þetta er allt af því að þeir drukku.

Nú er búin sagan af Steinunni og honum Tobba litla; til hvers haldið þið að hún hafi verið sett í „Æskuna“?, hvað getið þið lært af henni?; hugsið þið vel um það þangað til „Æskan“ kemur næst, og spyrjið þið foreldra ykkar að því, ef þið getið ekki fundið það sjálf. Lesið þið svo yfir alla söguna ef þið eruð ekki búin að týna hinum blöðunum, sem jeg vona að ekki sje. [S. J. J.].

## Unginn og hún kisa.

**Eptir norsku barnablaði.**

Það var einu sinni hæna, sem átti 8 unga henni leiddist að liggja á þeim og yfirgaf þá. Næsta morgun, þegar komið var út í hænsahúsið, láu þeir allir dauðir í hreiðrinu af kulda, en móðir þeirra var komin út. Konan, sem átti hænuna, varð svo hrærð af því, að sjá vesalings ungana dauða, að henni lá við gráti; en þegar hún gætti betur að, sá hún að einn þeirra var með lífsmarki. Hún fór með hann inn til sín, vafði hann í baðmull, og ljet hann í körfu nálægt ofninum. Eptir

lítinn tíma, tók hann að hressast og loksins heyrðist hann tísta í körfunni. Konan átti gamlan, gráan kött, sem lá undir ofninum. Kötturinn hafði nýlega átt ketlinga, en þeim var öllum drekkt nema einum, en hann hafði drepizt fyrir nokkrum dögum; kisa var því mjög hrygg, eins og náttúrlegt var. „Píp, píp!“ heyrðist í körfunni. Kisa vaknaði og stóð upp, til þess að vita, hvað um væri að vera; því næst tók hún ungann í munninn og fór með hann undir ofninn: „Æ, æ!“ sögðu þau, Jóhann og María, sem voru börn konunnar, „nú jetur óhræsið hún kisa litla fuglinn okkar!“ En það fór á annan veg; kisa lagði ungann niður í bæli sitt, lagðist sjálf hjá honum og dró hann þjett upp að sjer með framlöppunum og hríngaði sig utan um hann. Nú glaðnaði yfir börnunum, þau þurkuðu framan úr sjer tárin og horfðu með ánœgju á kisu og litla ungann. Svo leið nokkur tími. Þegar kisa stóð upp og fór í burt, þá trítlaði unginn á eptir og sagði: „píp, píp!“ rjett eins og hann væri að kalla á mömmu sína. En skrítnast af öllu var að sjá þegar unginn var að jeta, þá tók María litla hann, setti hann á stól og ljet þar grjón handa honum. Hann tíndi þau upp með litla nefinu sínu, en á meðan stóð kisa á apturfótunum upp við stólinn og horfði á. Þegar hann var búinn, dró hún hann hægt til sín með klónum, tók hann í munninn og bar hann í bælið sitt. Þegar unginn var orðinn fullorðin hæna, hjelt hann allt af vináttu sinni við gömlu fóstru sína. Allt af þegar hann sá hana, yfirgaf hann hin hænsin og fylgdi henni að bæjardyrunum, þar skildi hann við hana. Svona eru dýrin trygg og þakklát.

S. J. J. (þýddi).

---

**Leikur.** Takið þið pappírsörk og skiptið henni í jafnmarga parta og þið eruð; takið síðan sitt stykkið hvert og skrifið á það eitthvert karlmannsnafn; vefjið svo upp þann endann, sem nafnið er skrifað á, svo að það sjáist ekki. Því næst skuluð þið rugla öllum miðunum saman og skipta þeim á milli ykkar aptur; þá eigið þið að draga. Síðan skuluð þið skrifa eitthvert kvennmannsnafn hvert á sinn seðil; vefja þá upp svo það sjáist ekki, rugla þeim enn saman og draga svo. Þá skrifið þið, hvar þau hafi fundizt; svo haldið þið áfram þangað til þið hafið skrifað hvað *hann* talar, hvað *hún* talar og hvernig þau kveðjast. Þegar það er búið, lesið þið alla miðana. Það getur opt verið gaman að þessum leik.

---

**Nýársskemmtun** var haldin í barnastúkunni „Æskan“ nr. 1 hjer í bænum á annan í nýári; fyrst var jólatrje, sem börnin gengu syngjandi í kringum langan tíma, voru síðan börnunum gefnar gjafir af jólatrjenu; því næst var leikinn laglegur sjónleikur og síðan fóru börnin að dansa; þeim var að endingu gefið kaffi með brauði; börnin voru 217. Það var skemmtilegt að líta yfir þennan barnahóp, þar sem svo mörg börn voru saman komin, öll glöð og ánægð í beztu fötunum sínum. Það er gott og gaman að vera í barnastúku!

---

**Ráðning gátnanna í síðasta blaði.**

1. Fyrir löngu var þessi garður lagður.
2. Með því að blása. Þú blæst á kaffið þitt ef það er heitt, til þess að kæla það og þú blæst í fingurgómana ef þjer er kalt á höndum, til þess að þjer hitni.

---

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun ⅕.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast *Þorv. Þorvarðarson* prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

**Fjelagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G· T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 17. janúar 1898. | 8. tbl. |
|---|---|---|

## Við barn.

Ó gáðu guðs að boðum
og geym vel hjarta þitt,
ver traust mót táli heimsins,
í trúnni, barnið mitt!

Og ef að lukkan ljúfa
Þig leikur eitt sinn við,
þá tem þjer lítillæti,
að ljúfra barna sið.

En ef þitt hjarta hrellist
við heimsins stríða gjóst,
þá farðu' og fáðu huggun
við frelsarans milda brjóst.

*B. Þ. Gröndal.*

## Gamla klukkan.

(Niðurlag).

Daginn eptir fóru þeir Jörundur og Sigurður að skila verkinu og setja það í klukkuumgjörðina gömlu á herragarðinum. Herragarðseigandinn varð mjög feginn þegar þeir sögðu honum að allt væri nú í reglu, og hann borgaði 200 krónur, sem hann hafði heitið, auk ríflegra verkalauna. Jörundur sagði hreinskilnislega frá því, að Sigurður litli hefði gjört við klukkuna, og herragarðseigandanum fannst svo mikið um, að hann bað Sigurð að koma til sín daginn eptir nýársdag; ef klukkan gengi vel þangað til og slæi rjett á gamlárskveldið, þá kvaðst hann mundu styðja hann til náms. Þangað til skyldi Sigurður hugsa sig um, hvað hann vildi læra.

Jólin liðu fyrir Sigurði sem í draumi.

Engum vildi hann segja, hvað hann ætlaði að biðja herragarðseigandann um; en allir töldu það sjálfsagt, að hann mundi biðja hann um að gjöra sig að úrsmiði.

Loks kom dagurinn, og Sigurður fór í sparifötin sín og flýtti sjer á fund herragarðseigandans. Hann bað Sigurð að segja sjer hiklaust, hvað hann langaði mest til að leggja stund á, hvort hann langaði t.d. til að fara á latínuskóla? Sigurður var mjög feiminn, en loks herti hann upp hugann og sagði, að sig langaði til að biðja um nokkuð annað; sjálfur kvaðst hann geta unnið fyrir sjer. Herragarðseigandinn varð hissa, og spurði Sigurð, hvað hann ætti við. Sigurður sagði honum þá frá Önnu litlu, að hún væri því nær blind, en góður læknir mundi ef til vildi geta hjálpað henni; en foreldrarnir hefðu eigi efni á því að fara með hana til höfuðborgarinnar til að leita læknis, og hefðu því frestað því allt til þessa. Herragarðseigandinn viknaði við frásögu Sigurðar; honum þótti það svo fallegt, hve þakklátur Sigurður var fósturforeldrum sínum, sem höfðu tekið hann að sjer þegar hann var munaðarlaus og fátækur og hve vænt honum þótti um Önnu litlu. Hann hjet Sigurði því fúslega, að hann skyldi láta góðan lækni vitja Önnu litlu, en bað hann samt að tala ekkert um það heima. En hvað Sigurð sjálfan snerti, kvaðst hann standa við boð sitt og bað hann að kjósa hvað

hann langaði til að verða. Hiklaust svaraði Sigurður: „úrsmiður“.

Það var komið vor, og Sigurður var farinn að verða hræddur um, að herragarðseigandinn hefði gleymt loforðinu. En þá kom hann einn góðan veðurdag til Jörundar gamla og með honum ókunnur maður, það var augnlæknir. Hann skoðaði Önnu litlu og kvaðst mundu geta læknað hana; fyrst um sinn ljet hann hana brúka gleraugu.

Þegar Anna litla setti gleraugun sín upp í fyrsta sinn, og gat strax sjeð miklu betur með þeim, sagði Jörundur gamli klökkur við konuna sína: „Guð vildi okkur vel, þegar hann sendi okkur litla, fátæka drenginn kveldið góða. Nú erum við skuldugri honum en hann okkur. Já, Guð vissi hvað hann ætlaði sjer, og guð er allt af góður!“

[**Fr. H.** þýddi].

# Vísur.

Ven þig á að segja satt,
— sóma jafnan gættu —;
lygin mörgum manni hratt
í mesta böl og hættu.

Talaðu' ekki' um aðra ljótt,
— illmáll virðing glatar —.
Sittu' ekki' í solli' um nótt, —
svall hinn góði hatar.

Leitaðu' þeirra lofs, er þjer
með lofi sóma veita,
en heimska' er ein að ætla sjer
allra hróss að leita.

*Guðm. Guðmundsson.*

# Jeg elska.

Jeg elska hana mömmu mína, sem er allt af svo góð við mig. Þegar jeg var ósköp lítill og illa lá á mjer á nóttunni, þá vakti hún yfir mjer, þegar aðrir sváfu. *Jeg skal aldrei gleyma því.*

Jeg elska hann pabba minn, sem vinnur allan daginn, kemur heim þreyttur á hverju kveldi og verður að fara snemma á fætur á hverjum morgni til þess að vinna fyrir mjer á meðan jeg er svo lítill að jeg get það ekki sjálfur. *Jeg skal aldrei gleyma því.*

Jeg elska litla bróður minn og litlu systur mína, sem leika sjer við mig og lofa mjer að eiga allt með sjer; en hve jeg er sæll að eiga svona góð systkini! *Jeg skal aldrei gleyma því.*

Jeg elska hana gömlu ömmu, sem situr svo opt undir mjer í rökkrinu og segir mjer sögur. Hún hefur sagt mjer svo ákaflega margt fallegt. *Jeg skal aldrei gleyma því.*

Jeg elska hann gamla afa með gráa hárið og hrukkótta andlitið; hann var einu sinni lítill drengur eins og jeg. Jeg hef opt lofað honum að vera góður drengur og *jeg skal aldrei gleyma því.*

Jeg elska guð, sem hefur gefið mjer svona góða foreldra, svona góðan afa og ömmu og svona góð systkini. Jeg skal allt af vera honum þakklátur, jeg skal allt af elska hann, *jeg skal aldrei gleyma honum.* [**S. J. J.**].

# Afmælið hans Bjarna litla.

Það var afmælisdagurinn hans Bjarna litla; hann hafði farið snemma á fætur um morguninn og var í beztu fötunum sínum. Honum voru gefnar ýmsar gjaf-

ir, ýmislegt fallegt og hann ljek sjer allan daginn og var mjög glaður. Hann var 8 ára. Þetta var á þorranum og slæmt veður. Um kveldið fer Bjarni litli snöggvast út, en þegar hann kemur inn aptur, er hann ákaflega daufur og fæst ekki til að leika sjer. „Hvað gengur að þjer, elsku drengurinn minn?“ spurði mamma hans, „ertu búinn að gleyma afmælinu þínu? haltu áfram að leika þjer, góði minn!“

„Jeg sá nokkuð úti“ svaraði Bjarni, „sem mjer þótti svo leiðinlegt og þess vegna þykir mjer ekkert gaman að leika mjer lengur. Auminginn hún Brúnskjóna stendur undir bæjarveggnum með folaldinu sínu, í bilnum og frostinu, og hún verður að standa þar í alla nótt; henni er svo kalt og hún er svo svöng og litla folaldið er allt af að sjúga hana. Mig langaði svo til að hleypa henni inn í hesthús og gefa henni hey, en jeg þorði það ekki; jeg hugsaði að hann pabbi vildi það akki“. „Þú ert góður drengur, Baddi minn“, sagði móðir hans, „jeg skal biðja hann pabba að gefa henni Skjónu og láta hana inn“. Síðan fór hún til manns síns og sagði honum alla söguna. Hann fór undir eins út, tók fullan laup af heyi og rak Skjónu inn í hesthús og gaf henni það.

Bjarni litli stökk með honum suður að hesthúsi og óð snjóinn upp fyrir knje og hann horfði með ánægjulegu brosi á Skjónu, þar sem hún stóð við stallinn og át heyið sitt; þegar hann fór út, leit Skjóna fram í dyrnar og sagði: „Hne, hne, hne!“ Það hafa sjálfsagt átt að vera þakkarorð til Bjarna.— Nú var litli Bjarni ánægður, hann ljek sjer það sem eptir var af kvöldinu og Skjóna var svo hýst á hverri nóttu allan veturinn eptir þetta. [S. J. J.].

# Brekkusnigillinn og drengurinn.

„Hvað gengur að þjer?„ sagði Sigríður í Tungu við dálitinn drenghnokka, Jón að nafni, sem sat þar undir veggnum að bæjarbaki. Hann hjelt á bók í hendinni og tárin stóðu í augunum á honum.

„Okkur drengjunum var öllum sett fyrir að læra kvæðið ‚Gunnarshólmi‘“, sagði Jón litli, „og kennarinn sagðist skyldu gefa þeim af okkur einhverja snotra gjöf, sem skilaði því bezt. En jeg er hræddur um, að jeg geti ekki lært það“.

„Hvernig stendur á því?“ sagði Sigríður. Þá sagði Jón litli, heldur en ekki raunalegur í rómnum: „Strákarnir segja, að jeg geti það ekki og mjer sje ekki til neins að reyna það“.

„Skiptu þjer ekki af því, hvað strákarnir segja“, sagði Sigríður, „sýndu þeim heldur að þú getir það“.

Jón litli sagði: „En jeg er hræddur um að jeg geti það ekki, því bæði er kvæðið langt og svo eru svo mörg orð í því, sem er svo slæmt að læra og jeg skil ekki. Jeg veit það er ekki til neins fyrir mig að reyna að vinna til verðlaunanna. En gaman þætti mjer samt að læra kvæðið eins vel eins ok jeg get, því strákarnir eru allt af að hlæja að mjer og kalla mig „tornæma Nonna“.

Þá mælti Sigríður blíðlega við hann: „Jæja, bezti Nonni minn! Þú ert seinn að læra og getur ekki gert að því, en reyndu þá að vera „seinn og viss“, eins og kallað er. Sko brekkusnigilinn hjerna á bæjarveggnum, hann er ekki mjög fljótur á sjer, en ef þú gefur honum auga, þá sjerðu, að hann kemst upp á vegginn á endanum, kemst upp á vegginn

í tæka tíð, meira að segja. Farða nú líkt að, lærðu fáeinar hendingar á dag, og lærðu þær vel, og þá nær þú í verðlaunin og enginn annar. Segðu að jeg hafi sagt þjer það. Þegar þjer finnst þú ætlir að gefast upp, þá mundu eptir brekkusnígllinum, sem komst upp á bæjarvegginn, þó hægt færi".

Sigríður húsfreyja fór nú inn aptur, þegar hún hafði sagt þetta. Og Nonni litli hugsaði með sjer, að þó hann gæti ekki haft við strákunum, þá skyldi hann reyna að hafa við brekkusníglinum. Hann tók nú til að læra og kepptist við að vera búinn jafnsnemma og snigillinn væri kominn upp.

Nú kom loksins dagurinn, sem drengirnir áttu að skila kvæðinu. Kennarinn tók þá upp hvern af öðrum og ljet þá lesa upp úr sjer.

Þegar fimm eða sex voru búnir, þá var Nonni næstur. Allir strákarnir fóru að hlæja, þegar hann stóð upp, eins og þeir voru vanir, því að flestir hjeldu, að hann mundi ekkert kunna. En það fór á aðra leið. Hann gleymdi ekki einu orði úr. Þá sagði kennarinn: „Þetta var vel af sjer vikið, Nonni minn", og þá glaðnaði heldur en ekki yfir honum.

Þegar allir voru búnir, þá sagði kennarinn, að Nonni hefði kunnað bezt, og hann fjekk verðlaunin.

Þá sagði kennarinn við hann: „Hvernig stendur á því, Nonni, að þú skulir kunna kvæðið bezt?".

„Jeg skal segja yður það", sagði Nonni litli, „það var brekkusnigillinn á bæjarveggnum, sem kenndi mjer, hvernig jeg ætti að fara að því".

Allir hlógu dátt, þegar Nonni litli sagði þetta. En þá sagði kennarinn: „Þið þurfið ekki að hlæja, drengir mínir! Það má margt og mikið læra af öðrum eins skepnum og brekkusníglunum. Hvernig fór brekkusnígillinn að kenna þjer þetta, Nonni minn?"

„Það skal jeg segja yður", sagði Nonni, jeg sá hann skríða upp eptir veggnum, set fyrir set; aldrei nam hann staðar, og ekki sneri hann heldur aptur, heldur hjelt hann allt af lengra og lengra áleiðis. Svo datt mjer í hug að fara eins að með kvæðið. Jeg lærði það hendingu fyrir hendingu og gafst ekki upp við það. Og jeg var búinn jafnsnemma og snigillinn var kominn upp á veggjarbrúnina".

„Það var laglega af sjer vikið, Nonni minn!" sagði kennarinn, „við skulum nú, drengir mínir, klappa lofi í lófa fyrir honum Nonna og brekkusniglinum á bæjarveggnum!" Og það var klappað og hrópað hátt, svo að undir tók í allri kennslustofunni, því öllum þótti svo hjartanlega vænt um, að „tornæmi Nonni" hafði fengið verðlaunin.

Þegar Nonni var orðinn Jón, þá þótti hann ötull námsmaður og hefur mjer verið sagt, að einn af kennurum hans hafi ort um hann þessa vís:

„Ætíð vissi eitthvað Jón,<br>
ef jeg vildi reyna:<br>
margur er knár, þótt manns í sjón<br>
minnstur þyki sveina".

Og það fylgir sögunni, að þessa vísu hafi Jón numið, þó ekki væri farið með hana nema einu sinni.

*Bjarni Jónsson,*<br>
kennari.

---

**Sameiginlegur fundur** fyrir barnastúkuna og Hvítabandsbörnin á hverjum sunnudegi kl. 4 e. m.

---

**„Æskan"**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun $1/4$.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

**Fjelagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G· T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 3. febrúar 1898. | 9. tbl. |
|---|---|---|

## Marta litla.



Marta litla var ein inni. Pabbi hennar var verzlunarmaður og kom aldrei heim fyrri en klukkan tíu á kveldin. Mamma hennar hafði farið út að taka inn þvott og skilið hana eptir á gólfinu og fengið henni ýmisleg barnagull að leika sjer að á meðan. Hún hafði þvegið hversdagskjólinn hennar um morguninn og þess vegna fjekk hún að vera í gráa, fallega sparikjólnum sínum, eins og þið sjáið. Marta litla átti eina systur, sem var miklu eldri en hún, og hún hafði opt fengið að fara út með henni þegar gott var veð-

ur og þá hafði hún sjeð hana hafa með sjer brauðmola og korn, til þess að fleygja fyrir litlu, svöngu, fallegu fuglana, sem voru að fljúga úti. — Þegar Marta litla hafði setið stundarkorn á gólfinu, leikið sjer að gullunum sínum og talað við sjálfa sig, eins og þið gjörið svo opt, litlu börn, þegar þið leikið ykkur, þá varð henni litið upp og hún sá, að fuglahópur flaug fyrir gluggann. Þá dettur henni í hug, hvað systir hennar var vön að gjöra, stendur upp, tekur skál, sem var á kistu, fulla af korni og ætlar að gefa fuglunum. Skálin var svo þung, að hún missti hana niður á gólfið, hún sópaði upp í hana því, sem hún náði og ætlaði svo að standa upp aptur með hana; en í því heyrir hún til mömmu sinnar, þar sem hún kemur með þvottinn. „Hvað ertu nú að gjöra, litla telpan mín!“ sagði mamma hennar. „Mamma, gefa lilla fulla eindo didda“ (gefa fuglunum eins og systir). „Blessaður litli kjáninn minn!“ sagði mamma hennar og kyssti hana. Svo fór hún út með korn handa svöngu fuglunum og hafði Mörtu litlu með sjer og hún brosti svo ánægjulega og var svo falleg, alveg eins og lítill engill, þegar hún horfði á þá tína upp kornið með litlu nefjunum sínum.

Þið sjáið þarna myndina af henni Mörtu litlu, þegar hún heyrir fótatak mömmu sinnar og hlustar eptir því. Verið þið öll eins góð og hún Marta litla, börnin mín!

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

# Kvöldstund.

Það var kvöld, og mörg þúsund stjörnuljós leiptruðu. Þau drógu augu mín upp til himins.

Lengi stóð jeg og horfði á loptið. Og hvað heldur þú, að jeg hafi verið að hugsa um?

Það skal jeg segja þjer. Það var um móður mína og æskuárin ógleymanlegu.

Mig rak minni til þess tíma, þegar jeg sat hjá móður minni og leit upp til þessarar sömu dásamlegu hvelfingar, sem jeg nú aptur horfði á.

Þá spurði jeg hana, hvers vegna öll þessi stjörnuljós væru sett þar uppi.

Hún svaraði mjer, að guð faðir hefði skapað þau og sett þau þarna til að sýna oss, hversu góður, umhyggjusamur og kærleiksríkur hann er við oss.

Og jeg varð svo glaður, og þegar móðir mín þakkaði guði fyrir kærleika hans, þá vildi jeg vera með henni og færa mínum himneska föður þakklæti mitt.

— — — — — — — — — — — — —

Mörg ár liðu. Jeg fór út í heiminn, og fjekk þar að heyra aðrar kenningar, en jeg heyrði heima. Menn, sem þóttust vera langt um vitrari en móðir mín, kenndu mjer, að það, sem *hún* hafði sagt mjer, væri ekki til að trúa á.

Jeg hlustaði á þá. En hvað gáfu þeir mjer?

Hina innilegu barnagleði tóku þeir frá mjer, og ekkert gáfu þeir mjer í staðinn.

Tómt og sorgarlegt var lífið. En aldrei hafði jeg þó fundið það eins vel og á þessari kvöldstundu.

Orð móður minnar hljómuðu nú aptur fyrir mjer. Og meira að segja: Það var alveg eins og hver einasta stjarna hvíslaði: *„Það, sem móðir þín sagði, er sannleikur“* Og jeg *fann*, að það var satt.

Jeg byrjaði að trúa á guð, eins og jeg gjörði heima.

— — — — —

Barnagleðin er komin aptur, og jeg þarf aldrei framar að missa hana.

*David Østlund.*

# Samkoma barnanna

**í Toronto 25. október 1897.**

Líklega vitið þið ekki, að Hvítabandið hjelt alheimsfund sinn í Toronto í Canada frá 22. til 28. október núna í haust. Þessir fundir eru haldnir annaðhvort ár og er þá mikið um dýrðir. Jeg ætla bara að segja ykkur dálítið af samkomunni, sem var haldin mánudagskvöldið 25. október, af því að það var kölluð barnasamkoma. Hún var haldin í höll, sem rúmar 5—6 þúsund manna.

Uppi á pallinum sátu sjö hundruð börn, öll hvítklædd og sum með rauðar húfur. Jeg skildi fyrst ekkert í, hvað þetta átti að þýða, en þegar jeg gáði betur að, sá jeg, að börnin með rauðu húfurnar sátu í vissum röðum og að húfurnar mynduðu fjóra stafi, W.C.T.U., sem þýðir alheims-bindindisfjelag kristinna kvenna. Þessi sjö hundruð börn sungu ljómandi fallega bindindissöngva og fullorðna fólkið hjelt stuttar ræður um börnin og bindindi. Þá komu inn hundrað stúlkur; þær voru í grænum pilsum og hvítum skyrtum með hárauðum kraga og báru allar merki Bretlands hins mikla; þær gengu í ýmsum röðum eptir hljóðfæraslætti, þangað til hvítklædd stúlka kom inn og mælti fram langt kvæði, sem var kveðja brezka veldisins til Hvítabandsins. Þá komu inn aðrar hundrað stúlkur, klæddar í röndótt pils, rauð, hvít og blá, sem eru litir Bandaríkjanna. Þær hófu líka hergöngu eptir hljóðfæraslætti, þangað til stúlka kom inn og mælti fram kveðju Bandaríkjanna, þá staðnæmdust þær beint á móti brezku stúlkunum.

Þá sáum við síga niður stóran hnött, sem hangið hafði uppi í rjáfrinu; á hann voru markaðar allar heimsálfurnar með hvítum lit, en sjórinn með bláum; hann sýndist bjartur, og frá norðurheimskautinu hjengu fjöldamörg hvít bönd. Hnötturinn staðnæmdist spölkorn frá gólfinu og hljóðfæraslátturinn byrjaði á ný, þá komu inn stúlkur, klæddar búningi allra þjóða, þar sem Hvítabandið þekkist og báru þær allar merki, og ein stúlkan var klædd *íslenzkum búningi*, og allar stúlkurnar tóku hvítu böndin og leiddust í ýmsum röðum kring um hnöttinn, en fullorðna fólkið klappaði saman höndunum og sagðist aldrei hafa sjeð neitt eins fallegt eins og þetta. Og seinast kom inn lítil stúlka og mælti fram kvæði, til að segja frá, hvað þjóðunum, sem ekki tala ensku, þætti líka vænt um Hvítabandið, af því það væri bindindisfjelag, og hún sagði, að norður við Íshaf væri fögur eyja, þar sem væru mörg góð börn, sem þætti vænt um bindindi og allt, sem væri gott og fallegt. Hvaða eyja haldið þið að það hafi verið?

Þið getið nærri, að jeg skemmti mjer vel þetta kvöld og mjer þótti skelfing vænt um öll þessi börn, sem voru svo góð og sungu svo vel, en mest hugsaði jeg samt um íslenzku börnin og vænst þykir mjer um þau.

*Ólafía Jóhannsdóttir.*

# Ólukku pípan!

Nú ætla jeg að verða efstur við næstu röðun í barnaskólanum", sagði Maggi litli við leikbræður sína rjett fyrir mánaðarmótin; „jeg hef allt af staðið mig vel þennan mánuð og aldrei fengið nótu, og kennurunum þykir svo ósköp vænt um það. Jeg hef gætt þess, að láta mömmu og pabba aldrei sjá vitnisburðabókina mína, svo þau halda sjálfsagt, að mjer hafi gengið illa eða að jeg hafi fengið nótu. Svo þegar jeg sýni þeim hana eptir röðunina og jeg verð efstur, þá þykir

þeim enn þá vænna um og verða alveg hissa". Nú voru komnir síðustu dagar mánaðarins og Maggi hlakkaði til að heyra kennarann lesa það upp, að hann væri efstur; hann reiknaði út hjá sjer á hverjum degi til þess að vita, hvort það væri nú alveg víst, að hann hefði mest út. — Það var alveg rjett. Hinir krakkarnir voru farnir að líta til hans öfundarauga, og Geiri, sem allt af hafði verið efstur áður, álásaði sjálfum sjer fyrir að hrapa, en samt unni hann Magga vel að verða það, því þeir voru allra beztu vinir. Svo var það einn morgun, að kennarinn kom ekki undir eins í tíma og krakkarnir urðu að bíða stundarkorn eptir honum. Maggi hafði vanið sig á að reykja og nú tók hann pípu upp úr vasa sínum og kveikti í henni; þegar hann er nýbyrjaður að reykja, kemur kennarinn inn; Magga verður hverft við; hann þrífur pípuna út úr munninum og stingur henni í vasa sinn. Hann vissi það, að ef kennarinn sæi hann reykja, þá fengi hann nótu og yrði ekki efstur. Svo var farið að kenna og Maggi var kallaður fyrstur upp að borði til kennarans; eptir stutta stund fór hann að finna til hita utan á lærinu og eykst hann smám saman, svo að hann kefur varla nokkurt viðþol; það hafði kviknað í vasa hans af eldinum, sem var í pípunni; hann vildi fyrir hvern mun ekki láta á þessu bera, en gretti sig að eins við og við til þess að harka af sjer.

„Gengur nokkuð að þjer, Maggi minn?" spurði kennarinn. „Nei", svaraði Maggi, en í sama bili blossaði logandi eldur upp eptir jakkanum hans. Allir þutu upp til handa og fóta, til þess að slökkva í Magga og tókst það eptir nokkra fyrirhöfn. Kennarinn komst að hvernig í öllu lá og „nóteraði" Magga fyrir það að hafa reykt, því það var stranglega bannað í skólanum. Nú hlógu sumir af krökkunum og hvísluðu í eyrað á þeim, sem næstir sátu: „Það er gaman að vita, hvort Maggi verður nú efstur!" — Svo kom röðunardagurinn og Maggi varð sá — áttundi. „Mjer þykir það leiðinlegt með þennan pilt", sagði kennarinn, „jeg hjelt, að hann ætlaði að verða efstur og hann hefur allt af hegðað sjer svo vel, en svo hafði hann þetta af ólukku pípunni!" Maggi huldi andlitið í höndum sjer og fór að gráta, en sá, sem aldrei reykti aptur eða neytti nokkurs tóbaks, það var Maggi og hann varð efstur við næstu röðun, þá fjekk hann hrós hjá kennurunum og þeir sögðust gleðjast yfir því, að hann hefði hætt við ólukku pípuna.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Skrítlur.

KARL litli var að lesa mannkynssöguna, og andvarpaði þungt öðru hvoru, því hann var latur að læra. Allt í einu segir hann: „Jeg vildi að jeg hefði fæðst á dögum Gorms gamla!"

Móðir hans varð alveg hissa á þessari ósk og spurði, hvernig á henni stæði.

„Þá þyrfti jeg ekki að læra alla söguna frá hans dögum og til þessara tíma", svaraði Karl.

---

UNGFRÚ A.: „Það er ljóti kennarinn hann F., hann gefur okkur vitnisburð í skólanum bara eptir fegurð".

Herra B.: „Þá er náttúrlegt að þjer sjeuð óánægð við hann".

„Æskan"

kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun ⅕.

Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.

Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 15. febrúar 1898. | 10. tbl. |
|---|---|---|

## Hvað er sólin?

Í ofurlitlu þakherbergi, hjer um bil í miðri borginni, bjó fátæk ekkja með tveimur börnum sínum, — átta ára gamalli stúlku og sex ára gömlum dreng. Manninn sinn hafði hún fyrir löngu síðan misst og fullt hafði hún í fangi með að hafa ofan af fyrir sjer og börnunum. En dugleg var hún og nóg hafði hún fyrir stafni; hún treysti guði og ást barnanna var bezta gleðin hennar.

Og þau voru efnileg, börnin hennar. Viktor var lítill og laglegur drenghnokki, rjóður og dökkeygður með hrokkið hár, athugull og fjörugur; hann vildi fræðast um alla skapaða hluti og spurningarnar hans komu mömmu hans í marga klípuna. Margrjet var lagleg, beinvaxin og bláeygð; alvarleg var hún og lítið ljek hún sjer við bróður sinn, sem var ljettur í lund. En það var samt hún, sem byrjaði, þegar þau sungu vísurnar, sem þau lærðu í skólanum, því hún kunni þær, og röddin hennar var svo hrein og skær, að mömmu hennar var yndi að, og þegar þau sungu úti, nam margur staðar til þess að hlusta á sönginn hennar Möggu litlu.

Lítið var herbergið þeirra, en laglegt og þokkalegt var þar, glugginn stór og bjart inni; en hitt var lakast, að sólin skein þar svo sjaldan inn um gluggann. Aldrei skein hún þar liðlangan veturinn; það var fyrst í apríl að hún kom, og utan við sig af gleði heilsuðu börnin fyrstu geislunum hennar, sem gægðust inn um gluggann þeirra. Þau töldu tímana þangað til hún kom, og ljetu hana lýsa í andlit sjer og sögðu: „Nú kyssir sólin okkur“. Og þegar þau voru spurð, hvað þeim þætti vænst um, þá svöruðu þau: “Mömmu og sólina“.

Viktor litli braut opt heilann um það, hvað sólin eiginlega væri; hann hafði sjeð hnött og heyrt, að það væri jörðin, og að sólin skini líka á hina hlið hennar. „Sólirnar hljóta þá að vera tvær“, sagði hann við Margrjetu; „skyldi nú hin vera eins falleg og sólin okkar? — Það væri nógu gaman að vita það!“

Sólin kom og sólin hvarf. En þegar hún yfirgaf aptur fólkið í litla þakherberginu, var sem hún hefði haft nokkuð á burt með sjer; það voru rósirnar á vöngunum hennar Möggu litlu, — þær fölnuðu, höndin hennar varð svo mögur, augun sýndust vaxa og skært skinu þau. Enn þá söng hún reyndar fallegu vísurnar sínar, en svo fjekk hún þungan hósta. Mamma hennar varð óttaslegin og leitaði læknis. Það var gamall maður, sem bjó á fyrsta lopti í húsinu. Hann hristi höfuðið og sagði, að barnið þyldi ekki loptið í borginni, þau yrðu að flytja út fyrir borgina, helzt þangað, sem allt af væri sólskin.

„Hún má ekki vera úti þegar vont er veður; láttu hana liggja í rúminu þegar hún vill og bezt er að hún drekki mjólk. Þjer getið látið hana koma niður til mín og drekka hana þar, því við fáum mjólk úr sveitinni, sem er betri en gutlið hjerna úr borginni; jeg skal sjá um að hún drekki hana og svíkist ekki um það; þau börn eru til, sem þykir mjólk

slæm“. Þetta sagði nú læknirinn og Magga var fús til þess að hlýða því, hún fór allt af niður til góða, gamla læknisins. En áður en á löngu leið, varð hún þreytt á að ganga upp og ofan alla stigana. Hún sat löngum uppi og horfði út um gluggann, upp í himininn, á skýin, sem liðu um loptið, eða þá að hún lá í litlu sænginni sinni. Og bráðum varð hún að vera þar öllum stundum. Veslings mamma hennar var stórhrygg og grjet, en barnið mátti ekki sjá það, því læknirinn skipaði, að forðast, að hún kæmist í geðshræringu.

„Mamma!“ sagði Viktor litli, „bara að sólin liti nú sem fyrst inn til okkar, -- þá er jeg viss um, að henni Möggu litlu batnaði. Bara að jeg gæti nú búið til svolitla sól, sem gæti skinið hjerna inn; úr hverju skyldi sólin vera?“

„Það getur þú ekki, drengur minn!“ sagði móðir hans, „en nú kemur sól guðs bráðum og skín inn til okkar einhvern daginn núna. Gættu hennar nú vel á morgun þegar jeg fer út og leigi okkur nýtt herbergi“.

„Er mikið sólskin þar?“ Spurði Viktor.

„Já, mikið sólskin, barnið mitt! Og rjett hjá er þar grænt tún, sem þið Magga getið leikið ykkur á þegar henni er batnað“. Svo kyssti móðirin dóttur sína og Margrjet litla brosti glaðlega, og sagðist víst skyldu hlaupa þar og tína blóm og verða heilbrigð og horfa á blessaða sólina.

„Jeg skal færa þjer fjólur á morgun, þegar jeg fer út í borgina; drengirnir hafa þær á boðstólum og það angar af þeim ilmlyktin, einkanlega þegar sólin skín á þær, barnið mitt“, sagði móðir hennar, meðan hún lagaði undir höfði hennar, hagræddi henni og reyndi að sýnast glöð.

Daginn eptir var bjart veður og blár himininn. Ekkjan fór út og sagði við börnin um leið: „Jeg kem aptur að vörmu spori, munið þið nú eptir sólinni!“ — „Já, það skulum við gera“, sagði Viktor. Margrjet beygði höfuðið lítið eitt, — hún var svo lotleg og veikluð. Viktor sat við gluggann og beið, — þá kallaði systir hans á hann og sagði: „Komdu hjerna til mín, — við skulum syngja versið, sem við lærðum seinast, — jeg held jeg geti það núna, mjer er að batna og senn kemur sólin“. Og bæði sungu þau með hárri rödd:

„Í kirkjuturninum fagra fjær,“

en þegar þau voru komin að orðunum:

„Og gegn um blátjöldin himins heið
guðs himnesku *augu* skína;
hans mildi og náð vora lýsir leið
og ljósin hans stjarna' ei dvína“.

Þá þagnaði Viktor og sagði: „Magga, Magga! — nú veit jeg hvað sólin er: hún er *auga guðs*. Með öðru þeirra horfir hann niður til okkar, en með hinu hinumegin á jörðina; en þegar hann lokar þeim á næturnar, þá horfa englarnir niður til okkar með litlu, skæru augunum; *nú* veit jeg það!“

Og sólargeislinn skein inn um gluggann í sömu svipan. „Líttu á, líttu á! — auga guðs!“ sagði Viktor. „Já, jeg sje *hann*, jeg sje *hann*!“ hrópaði Magga litla, breiddi út faðminn, rjetti út hendurnar, eins og hún vildi faðma eitthvað, grípa eitthvað. Svo lá hún aptur kyr, — svo grafkyr.

„Magga!“ kallaði Viktor aptur, „nú, hún sefur bara og sólin skín á hana og þá batnar henni; — bara að hún mamma kæmi, áður en sólin fer aptur!“

Og hún kom og Viktor gekk á móti henni og sagði: „Mamma! nú veit jeg hvað sólin er: hún er auga guðs og Magga segir það líka og hún sá guð áðan. — Mamma, hvenær flytjum við okkur?“

„Þey, þey!“ sagði móðir hans; hún hafði lotið yfir sæng dóttur sinnar og kysst hana á kaldar varirnar. Nú leit hún upp og tárin streymdu ofan kinnar hennar: „Magga er

farin, farin burt þangað, sem fallegra er en hjá okkur, þangað, sem sólin skín allt af og guð sjálfur tekur á móti henni.

„Mamma, ef þar er allt af sólskin, þá vil jeg líka fara þangað!“

„Nei, elsku barnið mitt“, sagði hún og þrýsti honum fast að brjósti sjer, „þú mátt ekki fara frá mjer, þú verður að vera gleðin mín og huggunin mín meðan jeg lifi, — þú verður að vera stoðin mín á elliárunum“.

Og hann varð það.

*G. Guðmundsson* þýddi.



## Gamla konan.

Það er kveld og búið að kveikja Litla Sigga er að leika

sjer við tvo ketlinga. Hún hefur tekið bandhnykil, rakið dálítið ofan af honum, brugðið síðan lykkju utan um hann, til þess að hann skuli ekki rakna allur upp og bandið flókna, heldur svo í endann á bandinu, en lætur hnykilinn velta um gólfið. Litlu köttunum þykir ákaflega gaman að þessu; þeir hlaupa og hoppa í kringum hnykilinn og krækja í hann klónum, en sleppa honum þó allt af aptur og þá fer Sigga að velta honum. Gamla konan er að bæta treyjuna sína og lítur á Siggu og litlu kettina öðru hvoru. Hún er orðin gömul og gráhærð, grannleit og hrukkótt, en henni þykir svo skrítið að horfa á þetta, að gleðibros leikur um andlit hennar; það er eins og hún yngist um mörg ár; hrukkurnar minnka, augun verða fjörlegri og unglegri, og stirða, magra, gamla, lúna höndin stingur nálinni talsvert fljótar en vanalega. Gamla konan minnist þess, þegar hún var sjálf svona lítil, saklaus og falleg stúlka. Hún hefur allt af verið góð og guðhrædd kona og þess vegna getur hún minnzt æskunnar með gleði. Það getið þið líka, litlu börn, þegar þið verðið gömul, ef þið verðið allt af eins góð og þessi kona. Þykir ykkur ekki gaman að sjá hvað hún er brosleit og glaðleg? eða þá hana Siggu litlu; það liggur vel á henni. „Go, go, amma!“ segir hún, „go ki mína! bíta banda! go, go!“ (sko, kisa mín bítur í bandið). „Já, lambið mitt!“ segir gamla konan, „jeg sje litlu kisurnar þínar“. Svo ljek hún sjer þangað til ketlingarnir voru orðnir leiðir á að elta hnykilinn, þá hætti hún og hljóp til ömmu sinnar, hún tók hana í fang sjer og hjelt á henni, þangað til hún sofnaði.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Gátur.

1. Jeg ók í vagni með fjórum börnum, sem hjetu: Emma, Friðrik, Gústaf og Hinrik. Jeg spurði þau, hversu mörg systkyni þau ættu, og þau svöruðu mjer þannig:
Emma sagði: „Jeg á 3 bræður og 3 systur“.
Friðrik sagði: „Jeg á 2 bræður og 3 systur“.
Gústaf sagði: „Jeg á 2 bræður og 4 systur“.
Hinrik sagði: „Jeg á 1 bróður og 4 systur“.
Og þó voru börnin ekki nema 13 í allt.
Hvernig skiljið þið það?

2. Hvar er ekkert vatn í hafinu og ekkert grjót í fjöllunum?

## Skrítlur.

MAÐUR ferðaðist í loptbát; lítill sonur hans horfði á hann þegar hann fór af stað og kallaði á eptir honum: „Pabbi, komdu með lítið, fallegt ský handa mjer, þegar þú kemur niður aptur!“

**Barnaguðsþjónusta** er haldin á hverjum sunnudegi kl. 10 f.m. í Good-Templarahúsinu, þangað geta allir komið. Þar eru sungnir sálmar, sagðar sögur og fluttar ræður. Það eru nokkrir guðfræðiskandídatar, sem halda uppi samkomum þessum *fyrir ekkert.* Foreldrar! vanrækið ekki að láta börn yðar koma þangað! fylgið þeim þangað nokkrum sinnum, þá munuð þjer sannfærast um, að það, sem þar fer fram, hefur mikil og góð áhrif á öll börn, og ekki einungis börn, heldur einnig hvern einasta mann, sem hlustar á það með athygli. [S. J. J.].

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

**Fjelagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

**I. árg.** | Reykjavík, 3. marz 1898. | **11. tbl.**

## Dísa gamla.

ÞAÐ var komið kvöld og sólin var að hverfa á bak við háan fjallshnúk. Það sló gullnum geislum á sjóinn um sólarlagið, himininn var heiður og bjartur og hvergi sást ský, dálítið frost, en alveg logn og inndælasta veður. Jeg hafði leikið mjer úti allan daginn með öðrum krökkum, en svo var jeg orðinn uppgefinn, stökk inn til hennar Dísu gömlu og bað hana að sitja undir mjer. Jeg var reyndar orðinn átta ára gamall og pabbi og mamma sögðu, að það væri skömm að því að láta sitja undir sjer, þegar maður væri orðinn svona stór; en jeg skipti mjer ekkert af því; Dísa sat undir mjer þegar jeg vildi, hún sagði að það væri ekkert ljótt og jeg trúði henni betur en öllum öðrum. Mjer þótti ósköp vænt um hana Dísu gömlu; jeg flýði allt af til hennar, þegar eitthvað gekk að mjer; ef jeg fjekk ekki eitthvað, sem jeg bað um eða þegar strákarnir voru vondir við mig, svo jeg fór að gráta, þá stökk jeg allt af til Dísu og hún hjelt á mjer þangað til jeg sofnaði. — Já, aumingja Dísa! Jeg man svo vel eptir því, hvað hún varð reið við strákana, ef þeir börðu mig eða fóru illa með mig. Hún hljóp þá stundum á eptir þeim og var svo fljót á fæti, rjett eins og hún væri orðin ung stúlka, og hún ljet þá finna til handanna á sjer, þegar svo vildi til, að hún náði í þá. Það var nú reyndar sjaldan, því þeir voru svo fljótir; þeir hlupu allt í kring um hana, gáfu henni langt nef og gjörðu henni allt til stríðs, sem þeim datt í hug. Hún var dálítið geðill, þótt aldrei bæri á því við mig, og það notuðu strákarnir til þess að æsa hana. Hún kallaði þá stundum óþekktarauga og óartarorma og það var ekki að ástæðulausu, en þeir gjörðu ekkert annað en að versna við það; jeg hótaði þeim opt að klaga þá fyrir mömmu og pabba þegar þeir sögðu eitthvað ljótt við hana Dísu mína og stundum fór jeg að gráta þegar þeir stríddu henni sem mest, en þá gjörðu þeir ekkert annað en að hlæja að mjer. Já, aumingja Dísa, segi jeg aptur, jeg man svo vel eptir vísunni, sem hún kvað við mig allt af þegar hún vildi láta mig sofna; vísan er svona:

„Lítill drengur lúinn er,
lokar auga sínu;
hjartans vinur, halla þjer
hægt að brjósti mínu“.

Jeg held að þið getið ómögulega trúað því, hversu vænt mjer þótti um hana Dísu. Jeg man eptir því, að þegar henni var eitthvað illt, þá bætti jeg því inn í bænirnar mínar á kvöldin, að guð vildi láta henni batna; mjer fannst að jeg væri aldrei heilbrigður þegar hún var veik; að minnsta kosti leið mjer þá aldrei vel. — Þegar jeg hafði setið dálitla stund í kjöltu hennar þetta kvöld, þá spurði hún mig, hvort jeg vildi ekki fara í „barnastúkuna“. „Hvað er það?“ spurði jeg. „Það er bindindisfjelag“, svaraði hún, „og þar eru

eintóm börn nema fáeinir fullorðnir, rjett til þess að hjálpa þeim. Þar má enginn drekka vín, neyta tóbaks nje tala ljótt". Jeg spurði hana, hvort það væri nokkuð gaman að vera í þessu fjelagi, og sagði hún það vera. „Það er bæði gagn og gaman, barnið mitt", sagði hún, „og jeg vildi, að það fjelag hefði verið til þegar jeg var yngri; þá er ekki víst, að jeg væri sveitarkerling hjerna núna", bætti hún við og strauk tár úr augunum á sjer með fitinni á sokknum, sem hún var að prjóna. Mjer lá við að fara að gráta líka, þegar jeg sá þetta, því það var eins og jeg hefði allt af sömu tilfinningu og hún; þegar hún var glöð og kát, þá lá líka vel á mjer; þegar illa lá á henni, þá var jeg líka hryggur. Jeg hafði aldrei vitað af því fyrr, að hún væri sveitarkerling, hún Dísa og jeg mundi hafa klagað strákana fyrir pabba og mömmu, ef þeir hefðu kallað hana það; en fyrst hún sagði það sjálf, þá hlaut það að vera satt. Hún skrökvaði aldrei að mjer, hún Dísa mín. „Er það svona gott, þetta fjelag?" spurði jeg, „líður mönnum betur, ef þeir eru í því eða verða þeir ríkari?" „Já, elsku barnið mitt", sagði Dísa gamla, „þeim líður miklu betur og þeir verða langt um ríkari, bæði af peningum og einkum af öllu, sem er gott og guði þóknanlegt". Vill guð, að öll börn sjeu í því?" spurði jeg, því Dísa hafði sagt mjer, að guð vildi ekkert nema það, sem væri gott og að jeg ætti alltaf að gjöra hans vilja. „Já, góði minn", svaraði Dísa, „ef þú ferð í það, þá er ekki eins hætt við, að þú gjörir það, sem er ljótt, og guð vill láta alla forðast það, sem ljótt er; þess vegna vill hann líka að sem flest börn sjeu í þessu góða fjelagi". „Þá ætla jeg að vera í því!" sagði jeg. „Það gleður mig", sagði Dísa, „því jeg veit að þú gjörir það, sem þú lofar; þegar þú ferð í fjelagið, þá lofarðu að elska guð og vera gott barn, tala aldrei ljótt og gjöra ekkert ljótt, viljandi, og jeg veit, að þú heldur loforð þitt. En jeg ætla að segja þjer söguna um það, hvernig á því stendur, að mjer hefði liðið betur og að jeg væri ekki sveitarkerling núna, ef öll börn hefðu verið í svona fjelagi þegar jeg var ung". Það komu allt af tárin fram í augun á henni þegar hún talaði um þetta, og það gjörði mig enn forvitnari og bráðlátari að heyra söguna. Því þótt jeg þættist vita, að það væri einhver raunasaga, sem snerti Dísu og þætti því sárt að hlusta á hana, þá langaði mig samt til þess í aðra röndina. „Já, segðu mjer söguna, góða Dísa mín!" sagði jeg og hljóp upp um hálsinn á henni eins og jeg gjörði svo opt. Síðan byrjaði hún söguna á þessa leið: (Framh.). [S. J. J.].

## Konguloin.

(Þýtt úr „Börnenes Blad").

Þið hafið sjálfsagt öll sjeð konguló og þekkið hana vel. Sumir kalla hana spunakerlingu, og það er ekki svo vitlaust.

Kongulóin er lítil, eins og þið vitið. Hún hefur langa fætur og er því fljót að hlaupa. Fæturnir eru átta að tölu. Hún hefur einnig átta augu og sumar hafa fleiri; og þó sjer hún illa, en hún hefur mjög næmar tilfinningar. Sitt hvoru megin við munninn er nokkurs konar horn og á endanum á því er dálítill krókur; hann er eitraður og með honum drepur kongulóin flugur og önnur smádýr, sem hún veiðir. Kongulóin er svo mjó um miðjuna, að það er næst um eins og hún sje tvískipt. Aptari hlutinn er digur og neðan á honum eru nokkrar vörtur, sem kallast spunavörtur. Konulóin getur rakið út úr þeim þráð, og þegar hún gjörir það, þá segjum við, að hún sje að spinna. Þið hafið að líkindum opt tekið eptir því, að kongulóin hangir á þræði neðan í loptinu, þar sem þið eruð inni;

það er þráður, sem hún hefur spunnið sjálf. Þessi þráður er kallaður varúðarþráður, sumir kalla hann björgunarþráð, og hann hefur kongulóin allt af þegar hún er einhversstaðar hátt uppi; hún gjörir það til þess, að henni sje ekki hætta búin, ef hún kann að detta. Hún er ákaflega feit, og þung eptir stærð, og ef hún dettur niður á gólf ofan úr háu lopti, þá getur hún drepizt. Fæturnir eru einnig brothættir og það gæti orðið henni að tjóni. En þegar hún hefur varúðarþráðinn, þá er henni óhætt, þótt hún detti.

Á heiðskírum haustmorgni sjást opt ógrynni af þessum þráðum á jörðunni og það eru eintómir varúðarþræðir, sem kongulóin hefur fest milli stráa, og hefur hún gjört það á nóttunni, því þá er hún allt af að veiða ýms skorkvikindi sjer til viðurværis. En hún hefur einnig annað gagn af þráðum þessum; hún býr til úr þeim net, sem við köllum kongulóarvefi og byggir úr þeim hús. Þetta gjörir hún allstaðar, þar sem hún getur komið því við. Hún mundi einnig gjöra það inni í húsunum hjá okkur, ef hún hefði frið til þess.

Ein tegund kongulóa kallast krosskonguló; hún er nefnd þannig af því, að hún hefur nokkurs konar kross á bakinu. Hún vefur net sitt á milli grasstráa og ýmsra jurta. Það er hjer um bíl kringlótt og þið hafið sjálfsagt opt sjeð það. Frá miðdepli vefsins ganga sterkir þræðir í allar áttir og svo eru þeir tengdir öðrum þráðum, sem ganga þvert yfir þá; við það myndast möskvar, alveg eins og t. d. í silunganeti eða síldarneti. Á þráðunum eru dálitlar límkúlur og hefur kóngulóin þær til þess, að skorkvikindin, sem í netið koma, skuli verða föst, því þetta er nefnilega veiðinet hennar.

Skammt frá netinu hefur kongulóin hús sitt. Það er dálítil pípa, þó svo víð, að kongulóin getur vel rúmazt í henni. Stundum eru það tvö blöð, sem hún hefur tengt saman með þráðum. Þarna er hún inni á daginn, og hreifist ekki fremur en þótt hún væri steinsofandi; en hún verður þess fljótt áskynja, ef eitthvað kemur í netið. Það eru til margar sögur um það, að ræningjar hafi legið í leyni við vegi, þar sem leið manna lá um, og hafi þeir lagt snæri yfir veginn, en endarnir á því hafi verið niðri í djúpri gjá, þar sem ræningjarnir földu sig og þar hafi þeir verið bundnir við bjöllu, sem hringdi þegar komið var við snærið; þegar ræningjarnir heyrðu það, þutu þeir upp og rjeðust á ferðamennina. Kongulóin hefar líka aðferð. Í miðjunni á netinu hefur hún þræði, sem liggja að húsi hennar, og eru festir við það. Undir eins þegar fluga eða eitthvert annað smádýr kemur í netið, hristist það allt við umbrotin og þá stríkkar á þráðunum, sem liggja að húsinu, svo að það kippist til; kongulóin finnur það, bregður sjer út og vefur þráðum utan um fluguna og hengir hana í netið eða jetur hana undir eins, ef hún er svöng.

Kongulóin hefur enga vængi og þó getur hún ferðazt í loptinu. Á haustin, þegar lítill er vindur, sjest það glöggt, hvernig hún fer að fljúga. Hún klifrar upp í hátt trje eða eitthvað annað, snýr höfðinu í vindinn, beygir það niður á við og lyptir aptari endanum upp. Því næst rekjast þræðirnir út úr spunavörtunum og berast af vindinum beint aptur. Þegar kongulóin álítur, að þræðirnir sjeu orðnir nógu langir til þess að halda henni á lopti, þá sleppir hún sjer og berst svo í loptinu. Þegar þið hafið verið á gangi úti á haustdegi, þá hafið þið sjálfsagt einhvern tíma orðið vör við mjóa þræði í loptinu og það er einmitt það, sem kongulóin hefur til að fljúga með; hún hefur eigi aðra vængi.

Sumar konungulær eru í vatni og það er undur skemmtilegt að sjá, hvernig þær byggja hús sín niðri í vatninu og jeg skal segja

ykkur, hvernig maður nokkur fór að sjá það. (Framh.). [S. J. J.].

## Bjarndýrið.

(Þýtt).

Árið 1880 var skip á ferð í Norðuríshafinu, sem ætlaði að komast til Norðurheimsskautsins. En skipið lenti í svo miklum ís, að það komst ekkert áfram. Þá var það einn dag, að skipverjar sáu bjarndýr koma eptir ísnum með tvo unga í eptirdragi. Það var verið að sjóða hvalrengi á skipinu og bjarndýrið hafði fundið lyktina. Skipverjar köstuðu nokkrum bitum útbyrðis, en bjarndýrið tók þá, fór með þá til unganna og át dálítið af þeim sjálft. Þegar dýrið fór á burt með síðasta stykkið, hleyptu skipverjar af mörgum byssum í einu, drápu báða ungana og særðu móður þeirra; hún bar sig svo hörmulega yfir þessu, að það er ekki hægt að lýsa því með orðum. Skipverjar, sem voru svo harðbrjósta að vinna þetta níðingsverk, gátu varla tára bundizt, þegar þeir sáu, hversu mikið móðurinni varð um missi unga sinna. Hún var svo sár, að hún gat varla hreift sig, en það var eins og hún findi ekki til þess, hún reif stykkin í sundur í smáparta og bar þá að munninum á ungunum. Þegar hún sá, að þeir átu þá ekki, reyndi hún að reisa þá upp með framlöppunum og rak upp hvert angistarópið á fætur öðru.

Loksins var hún fullviss um, að ungarnir voru steindauðir, þá lagðist hún niður hjá þeim og sleikti sár þeirra. Eptir nokkra stund þaut hún á fætur allt í einu, stökk að skipinu og öskraði af öllum mætti. Skipverjar skutu á hana, en hún stökk deyjandi til unganna og hjelt áfram að sleikja sár þeirra, þangað til hún gat ekki hrært tunguna lengur, þá fjell höfuðið máttlaust niður og hún dó. Það eru margir, bæði ungir og gamlir, sem hafa gaman af því að skjóta á dýr og fugla, en þeir íhuga ekki, hversu mikið illt þeir vinna með því. [S. J. J.]

## „Bernskan“

heitir fjelag eitt í Borgarhreppi á Mýrum. Þeir, sem í því eru, mega hvorki neyta víns nje tóbaks. Fjelagið er stofnað af unglingum og enginn fullorðinn maður er í því, en sjera Einar Friðgeirsson á Borg og Gunnlaugur bóndi í Einarsnesi hafa mest hjálpað til að koma því á fót og leiðbeina því. Jeg átti tal við merkan mann þar ofan að í dag, sem hafði verið þar á fundi, og sagði hann að allt hefði farið svo vel fram, eins og fullorðnir menn hefðu stjórnað fundinum. Það er merkilegt, að unglingarnir hafa tekið það upp hjá sjálfum sjer að stofna þetta fjelag. Jeg skal lýsa því nákvæmar í næsta blaði, til þess að unglingarnir geti haft það sjer til leiðbeiningar, ef þeir vilja koma á þess konar fjelögum víðar á landinu. [S. J. J.].

ÁRNI segir við Jón son sinn, sem er latur að læra: „Hver er það, sem glápir út í loptið þegar hin börnin eru að skrifa stýlana sína?“

JÓN: „Það er kennarinn“.

Var hann góður drengur?

Vegna breytingar, sem hefur á orðið í prentsmiðjunni, kemur blaðið hjer eptir út á fimmtudögum (fyrsta og þriðja fimmtudag í mánuði).

**„Æskan“**

kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.

Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.

Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast **Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 17. marz 1898. | 12. tbl. |
|---|---|---|

## Móðursöknuður.

(Þýtt úr dönsku).

Nú heyrist í kofanum hávaði' og gnýr
og hungraður fuglinn úr búrinu flýr,
því stirðnuð er höndin, sem veitti' honum vörn,
en volaður faðir og syrgjandi börn.

Þau sitja við borðið, en sæti' er þar autt
og sælan er horfin og gleðiljós dautt;
það rósin í glugganum sýnir ei sízt,
því svipt er hún fegurð og helkulda níst.

Og rokkurinn, áður sem hönd sneri hart,
í horninu stendur og vinnur ei þarft,
og börnin af klæðleysi komast ei skref,
— en konguló spinnur í næði sinn vef. —

Æ, allur er friður og eindrægni fjær
og aflsmunur ræður, hver leikföngum nær,
og hrópa í sífellu harmþrungin jóð:
„æ, heyrirðu' ei til okkar, mamma mín góð!“

Við umhyggju barnanna' hún aldrei varð þreytt
og aflaga' í húsinu fór ekki neitt,
þótt önugur faðirinn opt væri' og þrár,
hann iðrandi fellir nú saknaðartár.

Þótt peninga hafi' hann og alls konar auð
og aldrei hann vanti sitt daglega brauð,
hann eitt hefur misst, sem hann aldrei fær keypt,
þess ódauðleg minning á sál hans er greipt.

Þú blessandi, starfandi, hjúkrandi hönd,
þú hógværa, blíða og viðkvæma önd,
æ, loks þegar dauðinn þig fjöri' hefur firrt
af föður og börnum ert metin og virt.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Dísa gamla.

Framhald.

„Jeg man eptir því eins og það hefði verið í dag, hversu glöð jeg var eitt kveld í aprílmánuði fyrir þrjátíu árum. Maðurinn minn sál. var sjómaður og hafði róið um daginn. Veðrið var ógurlega vont og jeg hafði staðið úti á meðan hann var að sigla í land. Ó, jeg man svo vel eptir því, hversu hrædd jeg var þegar jeg sá bátinn ýmist hefjast upp í háa lopt eða hverfa niður á milli bylgjanna; mjer fannst eins og jeg væri stunginn í hjartað með ótal broddum í hvert skipti, sem jeg horfði á hann steypast niður af bylgjutoppunum, og þótt hann væri ekki nema eitt eða tvö augnablik í hvarfi, þá fannst mjer það vera heil klukkustund eða meira. Loksins náði hann landi og þá lofaði jeg guð af heilum huga. — Þegar maðurinn minn hafði gjört að fiskinum og var kominn inn, þá fór hann að riða þorskanet, en jeg sat undir litlum og laglegum syni okkar, tveggja ára, og var að prjóna. Dóttir okkar sex ára gömul ljek sjer á gólfinu að skeljum og ýmsum öðrum barnagullum. Það var allt svo þægilegt og viðkunnanlegt inni hjá okkur, þótt fremur væri það fátæklegt, við höfðum nóg af að lifa og leið vel að öllu leyti, því að við vorum ánægð. Seint um kveldið var barið að dyrum; maður-

inn minn fór út og kom aptur inn að vörmu spori og gömul kona með honum. „Við verðum að lofa henni Þórunni gömlu að vera í nótt, góða mín“, sagði hann, „hún verður að gjöra sjer gott af því, þótt ekki fari sem allra bezt um hana“. Þórunn þessi var gömul umferðakona og var kölluð Tóta spákona. Hún gjörði mikið að því að segja fyrír forlög manna, spáði bæði í spil og kaffibolla og svo framvegis. Höfðu menn það fyrir satt, að gamla Tóta vissi jafn-langt nefi sínu og þótti þeim sem margir af spádómum hennar kæmu fram. Margir gáfu henni stórgjafir, sem hún hafði spáð fyrir og hún hafði þetta fyrir atvinnu. „Taktu af þjer sjalið, Tóta mín“ sagði jeg, „og fáðu þjer sæti“. Hún þakkaði fyrir og svo fórum við að tala um alla heima og geima. Jeg bað hana að taka fyrir mig litla drenginn á meðan jeg færi fram að hita á katlinum og það gjörði hún. Þegar jeg kom inn aptur, sagði hún við mig: „Þarna eigið þið efnilegan dreng, mjer lízt vel á hann og þið sannið það, að hann verður einhvern tíma að manni; jeg gæti bezt trúað því, að hann kæmist í lærðra manna tölu og yrði ykkur til mikillar gleði“. „Mæltu allra manna heilust!“ svaraði jeg, „en ekki legg jeg trúnað á alla þína spádóma. Jeg vonast til þess, að drengurinn verði okkur til ánægju og jeg vildi leitast við, að ala hann þannig upp, að það gæti orðið“. Þótt jeg ekki tryði orðum Þórunnar að öllu leyti, þá gat jeg samt ekki að því gjört að hugsa um, hvort það mundi nú alveg ómögulegt, að þau gætu ræzt. Mjer fannst það ekki alveg óhugsandi, að ef guð gæfi föður hans heilsu, svo að hann gæti stundað sjóinn, að við þá gætum kostað Bjarna litla í skóla þegar hann yrði svo gamall; en jeg forðaðist að tala um það við nokkurn mann; jeg vissi, að ekki yrði gjört annað en að hlægja að því; það voru ekki nema embættis- og ríkra manna synir, sem lærðu í skóla á þeim tíma.

Um kveldið, þegar allir voru háttaðir, var jeg að hugsa um þetta, því það er svo algengt, að mæður hugsa margt um framtíð barna sinna; þær vaka opt á kveldin, þegar aðrir sofa, til þess, að hugsa um, hvernig þær geti bezt búið í haginn fyrir þau. Loksins sofnaði jeg, en þá dreymdi mig, að til mín kæmi maður og spyrði mig, hvort hann ætti að sýna mjer framtíðina hans Bjarna litla. „Já, fyrir alla muni!“ svaraði jeg, „jeg vildi gefa mikið til þess að vita, hvernig hún muni verða“. „Komdu þá með mjer“, sagði hann. Jeg fylgdi honum og hann fór með mig upp á hæð, þar sem var meira útsýni en jeg hafði nokkru sinni sjeð áður, þar var allt svo fagurt, að jeg varð steinhissa í svefninum. Hlíðarnar skreyttar fegurstu blómum, skuggasæl trje breiddu út lim í allar áttir, og í greinum þeirra sátu fuglar og sungu fegurra en jeg geti lýst. Himininn var skafheiðríkur og hvergi sást ský; sólin vermdi allt með ilgeislum sínum og þó var ekki of heitt.

Jeg gekk til og frá og sá, að allsstaðar voru börn að leika sjer; sumstaðar tvö saman, sumstaðar fleiri og sumstaðar eitt. Þau ljeku sjer að ýmsum barnagullum, alveg eins og þú og litlu börnin hjerna í nágrenninu og þau voru svo glöð og kát, að bros ljek um varir þeirra allra. Jeg litaðist betur um og sá, að út frá þessari fögru hæð lágu vegir í allar áttir, ótölulega margir vegir, og þeir voru svo misjafnir. Sumir voru breiðir og sljettir, svo langt sem augað eygði, sumir þar á móti grýttir og hlykkjóttir. Beggja megin við þá alla voru ýmist fögur blóm eða hvassir og ljótir þyrnar. Þegar jeg athugaði nánar, sá jeg, að maður gekk eptir hverjum vegi, og það sem mjer þótti undarlegra, var það, að tveir menn stóðu sinn hvoru megin og unnu af alefli. Sá, sem var til vinstri

handar, kastaði í sífellu steinum, torfusnepl-um og ýmsu öðru fyrir fæturna á þeim, sem eptir veginum gekk, en hinn, sem var til hægri handar, kepptist við að ryðja því í burtu áður en að maðurinn dytti um það. Sumir mennirnir hjálpuðu til að ryðja götuna, en aðrir skiptu sjer ekkert af því, heldur hjeldu rakleitt áfram, án þess að gæta að því, hvað fyrir þeim varð. Jeg skoðaði hverja götuna á eptir annari og allsstaðar var þessu þannig varið; allsstaðar gekk einhver og allsstaðar voru tveir menn sinn til hvorrar handar og mjer sýndust þeir, sem gengu eptir götunum, stækka smámsaman, eptir því sem þeir fjarlægðust og sumir þeirra líka verða ljótari og ljótari. Þeir voru allir fallegir og sakleysislegir þegar þeir lögðu af stað. „Hvernig lízt þjer á?“ spurði maðurinn, sem fylgdi mjer, eptir nokkra stund. „Jeg veit ekki“, svaraði jeg „jeg hef enga hugmynd um, hvað allt þetta á að þýða“. „Við skulum setjast niður hjerna í brekkuna“, mælti hann, „og svo skal jeg segja þjer allt saman“.

(Framh.). [S. J. J.].

## Konguklóin.

(Þýtt úr „Börnenes Blad“).

(Niðurlag).

Þegar hann náði vatnskonguló, tók hann glas, hellti það hálft af vatni og ljet hana í það. Jafnframt því ljet hann einnig nokkrar smápöddur í glasið handa henni að jeta. Nú gat hann sjeð, hvað hún hafðist að. Næsta morgun hafði hún spunnið ógrynni af þráðum niðri í vatninu þvert yfir glasið. Á einum stað, þar sem þræðirnir lágu hver yfir annan, spann hún nokkra stutta þverþræði, sem mynduðu nokkurs konar net; því næst fór hún upp á yfirborð vatnsins, var þar litla stund og hreitði apturfæturna eptir vissum reglum; en þegar hún fór niður aptur, hafði hún litla loptbólu á milli framfótanna. Hún flýtti sjer undir netið, sem hún hafði búið til, festi fyrst við það dropa af þykkum vökva, sem var eins og lím og festi hann við það með apturfótunum, svo var eins og þar hjengi dálítil glerplata. Undir þessa plötu sleppti hún loptbólunni. Loptið er ljettara en vatnið og þess vegna leitaði náttúrlega loptbólan upp á við, en þá rakst hún á plötuna og nam staðar við hana; en samt svignaði platan undan bólunni, svo að í hana myndaðist hvelfing. Konguklóin fór aptur upp og sótti aðra loptbólu og þannig hjelt hún lengi áfram og hvelfingin stækkaði smámsaman, þegar hún þannig hafði byggt hús, var það eins og smábjalla eða öllu heldur fingurbjörg í vatninu. Það var opið að neðan, en vatn komst ekki upp í það fyrir loptinu. Konguklóin varð að hafa lopt og þess vegna sótti hún það. Á veturna vefa þær fyrir opið að neðan og sofa svo í því fram undir vor. Hús þeirra sjást víða í vötnum og straumlitlum ám. Húsin eru vanalega mjög nálægt hvert öðru og kongulærnar eiga opt í ófriði saman. Ástæðan fyrir því er sú, að þær sækjast eptir að stela lopti hver frá annari. Í stað þess að fara upp á yfirborð vatnsins og sækja lopt, þykir konguklónni það fyrirhafnarminna að stela því frá náunganum, þegar hann er ekki heima. Hún fer með apturhlutann inn í húsið, tekur allt lopt, sem hún nær og getur borið og flýtir sjer með það heim til sín. En eins og þið vitið, kemst það næstum allt af upp þegar einhver stelur og þá er þjófnum hegnt. Sama máli er að gegna hjá konguklónum; þegar þær koma heim og sjá, að stolið hefur verið, fara þær þangað, sem þær halda að þjófurinn sje og ráðast á hann. Verður þá stundum voðalegur aðgangur á milli þeirra og þegar sú vinnur, sem stolið hefur verið frá, þá vefur hún þráðum utan um þjófinn,

fer með hann heim og hengir hann upp fyrir utan dyrnar öðrum til viðvörunar.

Loksins eru til kongulær, sem búa niðri í jörðunni, en þær eru einungis í heitu löndunum, t. d. á Frakklandi. Þær byggja mjög hagleg hús og skrítin. Fyrst grafa þær göng í jörðina og þenja yfir opið svo marga þræði, að þeir verða eins og hvítur pappír. Húsið er allt eins og pípa, en það er ekki gott fyrir kongulærnar að búa í því opnu, því þá væri hætt við, að önnur dýr rjeðust á þær og yrðu þeim að bana. Þær búa því til hurð fyrir hús sitt. Það er kringlótt lok, sem fellur nákvæmlega í pípuopið (dyrnar) og þetta gjöra þær af svo miklum hagleik, að bezti smiður gæti ekki gert það eins vel og nákvæmlega. En svo vilja þær líka geta lokið upp húsinu sínu og látið það aptur og þess vegna spinna þær nokkra þræði, sem þær nota fyrir hjörur; annar endi þeirra er festur í hurðina en hinn í pípuopið. Þegar þær fara út, skilja þær allt af eptir hurðina í hálfa gátt, til þess að þær geti verið fljótar inn, ef einhver hætta er á ferðinni. Ef þær sjá eitthvert dýr, sem þær eru hræddar við, þá hlaupa þær inn og skella hurðinni aptur; svo taka þær í hurðina með eiturkrókunum, sem jeg nefndi um daginn, halda fast í hana og spyrna í af öllum mætti. Margt mætti fleira telja upp, sem einkennilegt er við kongulóna; guð hefur gefið henni mjög mikið vit og það er gaman að veita því athygli. [S. J. J.].

## Skrítlur.

PÁLL kemur inn í sölubúð og kaupir þar tíu ölflöskur; kunningi hans var með honum og ætluðu þeir að drekka það í fjelagi. Þeir skipta flöskunum til helminga og stinga þeim niður með buxnastrengnum allt í kring, sínum fimm hvor. Þegar þeir fara út úr búðinni, rekur Páll sig á dyrustafinn svo hart, að flöskurnar slást saman og brotna tvær. Ölið rennur niður eptir honum öllum og hann verður rennandi votur. Flöskubrotin hrynja niður eptir buxnaskálmunum og sum alla leið niður í sokka. Þetta var það versta, sem Páll hafði nokkru sinni komizt í. Hann var rennandi votur í gaddfrosti og flöskubrotin ætluðu alveg að gjöra út af við hann. Hann gat ómögulega fengið það af sjer, að fara að tína þau burtu úti á götu; hann skammaðist sín fyrir það. Hann varð því að staulast heim, hvað sem það kostaði og hversu miklar kvalir sem hann tók út. Þegar hann kom heim, var hann allur særður eptir flöskubrotin; læknir var sóttur til hans og hann lá í mánuð. „Jeg skal láta mjer þetta að kenningu verða“, hugsaði Páll með sjálfum sjer, „jeg skal ekki optar láta óhræsisölið gjöra mig að athlægi og leika mig eins illa og það hefur gjört núna“. Þegar hann komst á fætur aptur gekk hann í bindindi og hefur haldið það vel og dyggilega. — Páll er ekki sá eini, sem ölið hefur gjört að athlægi.

### Ráðning gátnanna í 10. tbl.

1. Emma og Friðrik voru hálfsystkini. Friðrik og Gústaf hálfbræður. Og Gústaf og Hinrik hálfbræður.
2. Á landabrjefum.

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

**Fjelagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 1. apríl 1898. | 13. tbl. |
|---|---|---|

## Dísa gamla.

Framhald.

Í þessu bili varð mjer litið við og sá jeg þá, hvar sex börn ljeku sjer saman, skammt frá mjer. Þau voru í feluleik. Nálægt þeim voru lagðir nokkrir steinar, hver ofan á annan og á þeim var vogarstöng með skál á báðum endum. Við annan stangarendann sat maður í hvítum fötum, ljómandi fallegur, en við hinn svartklæddur maður, ljótur og viðbjóðslegur. Allt af þegar eitthvert af börnunum talaði ljótt, þá lækkaði stöngin þeim megin, sem ljóti maðurinn var og hann hló og gretti sig allan af fögnuði og leit á hinn, en hann varð sorglegur og alvarlegur. Ef þá vildi svo til, að eitthvert barnanna setti ofan í við þau, sem blótuðu, þá seig stöngin hinumegin og þá glaðnaði yfir fallega manninum, en sá ljóti bölvaði bæði voginni og börnunum og öllu, sem hann nefndi. Þegar jeg hafði horft á þetta dálitla stund, byrjaði maðurinn að segja mjer, hvað þetta allt átti að þýða og mælti á þessa leið:

„Hjerna í þessari hlíð sjerðu bæi til og frá, það eru heimili mannanna. Þar leika börnin sjer í gleði og sakleysi á meðan þau eru ung, en þegar þau eldast, versna þau mörg smámsaman, og byrja það með því að blóta. Þú sjerð þarna mennina með vogarstöngina. Hvíti maðurinn er góður engill frá guði, sem gætir að því, sem börnin tala og gjöra; hinu megin er útsendari frá þeim vonda og hann hirðir öll blótsyrði og öll ljót orð, sem börnin tala. Þú sjerð það víst, að í hvert skipti, sem eitthvert barnið talar ljótt, fer vogarstöngin niður þeim megin, sem púkinn er, og það hryggir engilinn hinu megin, en þegar börnin tala ekkert annað en það, sem fagurt er og siðsamlegt, þá fer vogarstöngin upp hinu megin og það gleður hann.

Göturnar, sem liggja út frá þessari hæð í allar áttir, eru lífsvegir mannanna í heiminum.

Rósirnar og fögru blómin, sem eru við suma vegina, eru allt það fallega og góða, sem þeir hafa gjört, er eptir þeim ganga, en þyrnarnir, sem eru við suma og stinga þá, sem snerta þá, eru það ljóta, sem þeir hafa gjört. Maðurinn, sem stendur öðru megin við veginn og kastar í sífellu steinum fyrir fæturna á þeim, sem eptir honum ganga, er freistarinn, steinarnir eru það illa, sem hann reynir að fá menn til að gjöra og leggur í veginn fyrir þá. Þú sjerð líka, að hinu megin er annar maðr, sem keppist við að ryðja þessum steinum í burtu og gjöra veginn greiðari; ennfremur hefurðu sjálfsagt tekið eptir því, að sumir mennirnir, sem ganga eptir götunum, hjálpa til að ryðja steinunum í burtu, en aðrir láta þá afskiptalausa og álpast áfram hugsunarlaust.

Hinir fyrtöldu eru þeir, sem reyna að lifa sem bezt og forðast allt illt af fremsta megni; þeir neyta allra krapta, sem guð hefur gefið þeim, til þess að sneiða hjá þeim freistingum, sem vondir menn leggja fyrir þá. Hinir síðartöldu eru aptur á móti þeir, sem ekki forðast hið illa, heldur lifa í hugsunarleysi. Það not-

ar freistarinn sjer og gjörir allt til þess að leiða þá afvega“.

Nú fór mjer að verða órótt; mig var farið að langa til að sjá hann Bjarna litla og götuna hans; sjá hvort meira væri af rósum eða þyrnum þar, sem hann hafði gengið og hvort hann hjálpaði ekki til að velta steinum úr götunni sinni.

„Hvar er gatan hans Bjarna míns?“ spurði jeg. „Hún er þarna“, svaraði maðurinn og benti mjer á eina götuna skammt frá okkur. Jeg sá, að maður gekk eptir þessari götu og þekkti að það var Bjarni. Hann var kominn spölkorn áfram; maðurinn til vinstri handar kastaði í ákafa steinum fyrir fætur hans, en hinn ruddi þeim á burt og Bjarni hjálpaði duglega til þess“.

„Hamingjunni sje lof!“ kallaði jeg; „honum gengur ágætlega; jeg vissi það líka, að hann er góður drengur, jeg þurfti ekki að efast um það“.

„Langar þig til að sjá lengur til hans?“ spurði maðurinn. „Já“, svaraði jeg, „jeg vil helzt sjá hann sem lengst, blessaðan drenginn minn“. „Þú skalt ráða því“, sagði maðurinn, „jeg get látið þig sjá götuna hans, svo langt, sem þú villt, en heldurðu ekki að þetta sje nóg? Eigum við ekki heldur að skoða eitthvað annað?“ „Nei, nei!“ svaraði jeg, „jeg verð að sjá lengur til hans; mjer er annast um hann af öllum og hvers vegna skyldi jeg þá ekki helzt vilja sjá, hvernig honum gengur?“ (Framh.). [S. J. J.].

## Afmælisvísa.

VINUR minn, lifðu sem lengst,
lifðu til frægðar og sóma,
allt, sem er göfugt og gott,
gleðjist og hryggist með þjer.

[S. J. J.].

## Vínið.

1. Það sviptir mennina löngunni til hins góða, en vekur hjá þeim löngunina til hins illa.
2. Það tæmir vasana og klæðir menn í tötra.
3. Það fækkar vinum og fjölgar óvinum.
4. Það gjörir menn að letingjum og landeyðum.
5. Það eyðileggur hina sönnu gleði og drepur allar góðar tilfinningar.
6. Það veikir heilsuna og eykur sjúkdóma.
7. Það gjörir mörg heimili að svínastíu og eykur deilur og sundurlyndi.
8. Það gjörir líkamann að hræi og sálina að djöfli.
9. Það kemur mörgum fullorðnum á vitlausraspítala og mörgum börnum á sveitina.
10. Það veldur áhyggjum í lífinu og örvæntingu í dauðanum.

Biðjið guð að varðveita ykkur öll fyrir þeirri ógæfu, sem leiðir af víninu og bragðið þið það aldrei. (Þýtt).

## Gátur.

1. Hversu margar flöskur geturðu borið í tómum poka?

## Myndin

er af gömlum manni, sem er afi barnanna, er þið sjáið; hann situr undir tveimur, en þrjú leika sjer á gólfinu við hana kisu. Þegar þau eru orðin þreytt að leika sjer, þá tekur hann þau, en sleppir hinum og situr þannig undir þeim á víxl. Hann segir þeim sögur og kveður við þau vísur, sem þeim þykir

gaman að, og það liggur ósköp vel á þeim, eins og þið sjáið; þau eru svo brosleit og glaðleg.

---

## Smávegis.

HERRAMAÐUR einn, sem alltaf var vanur að fá sjer eitt glas af víni á hverjum morgni, gekk einhverju sinni inn á veitingahús og bað um Whisky. Þar var inni maður einn gamall, töturlega búinn og mjög ræfilslegur. Hann gekk til herramannsins og mælti: „Viljið þjer ekki gefa aumingja karlinum eitt staup með yður?“

Herramaðurinn varð bistur við og svaraði: „Jeg drekk ekki með öðrum eins mannræflum og þjer eruð!“

Gamli maðurinn svaraði: „Þjer þurfið eigi að hafa svona mikið álit á yður, herra minn. Jeg er af eins góðum ættum og þjer; jeg hef verið eins vel upp alinn og þjer, og áður en jeg fór að drekka var jeg alveg eins heiðarlegur maður og þjer. Trúið mjer til þess, að ef þjer haldið áfram að venja komur yðar á veitingahúsið og drekka þar, þá kemur sá tími, að þjer verðið ekki meira virtur en jeg er núna“.

Herramanninum varð hverft við; hann setti glasið á borðið, virti fyrir sjer þenna fátæklega og tötrum klædda mann, sem var rauðeygður og dapureygður, blár og þrútinn í andliti og að öllu illa útlítandi, og mælti: „Var það áfengi, sem gjörði yður svona?“ „Já“, mælti gamli maðurinn, „og það fer eins með yður, ef þjer venjið komur yðar hingað“.

Herramaðurinn tók glasið, sem var fullt af víni, kastaði því frá sjer og sagði: „Það er líklega skynsamlegast fyrir mig að hætta“. Hann fór út og kom aldrei þangað inn aptur til þess að drekka. [S. J. J.].

---

MARÍA LITLA var svo óþekk einn dag, að mamma hennar varð að setja ofan í við hana hvað eptir annað. Þegar hún háttaði um kvöldið kyssti hún hana ekki eins og hún var vön, heldur lagðist út af fúl og önug. Hún var líka allt af vön að segja áður en hún sofnaði, þegar hún hafði lesið bænirnar sínar: „og jeg bið guð að blessa pabba og mömmu“, en nú sagði hún: „Jeg bið guð að blessa pabba, en *ekki* mömmu!“

Svo fór hún að sofa, en þegar hún var nýsofnuð, dreymdi hana, að maður stóð hjá henni og sagði: „María, líttu við!“ Hún gjörði það og þá sá hún pabba sinn og systkinin sín öll og heimilisfólkið, en ekki hana mömmu sína. „Hvar er hún mamma?“ kallaði hún upp yfir sig. „Þig varðar ekkert um hana“, sagði maðurinn, „þú baðst guð að blessa hana ekki og þess vegna er bezt, að hún sje ekki hjá þjer lengur“.

Við þetta vaknaði María; en það fyrsta, sem hún gjörði um morguninn, var að biðja hana mömmu sína fyrirgefningar og hún var allt af góð stúlka upp frá því. (Þýtt).

---

☞ Þetta blað átti ekki að koma fyr en 7. apríl, því bæði blöðin eru komin fyrir marz, en það er látið koma svona snemma til þess að það verði sent í kring um land með „Vestu“. Næsta blað kemur því ekki fyr en 20. apríl. Kaupendum að „Æskunni“ fjölgar óðum. Senn fer að líða að sumardeginum fyrsta og þá eru gefnar sumargjafir; „Æskan“ er bezta sumargjöf; allir vilja lesa hana. Í næsta blaði „Æskunnar“ byrjar *fræði*-bálkur, sem hún flytur framvegis.

---


**„Æskan“**

kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.

Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.

Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast **Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

I. árg. | Reykjavík, 21. apríl 1898. | 14. tbl.

## Sumarvísur.

Geisla kærust sumarsól,
sendir, skæra, hlýja,
yl því færir, fyr sem kól,
fegurð ljær oss nýja.

Ljós þitt skín um lönd og haf,
ljúfur hlínar blærinn,
geislum þínum einnig af
óðum dvínar snærinn.

Bræðir sundur svellin köld,
sælustundir þróar;
rís af blundi blómafjöld,
brosir grund og móar.

---

Alltaf vottar undraráð
allt, sem drottinn skreytir,
alltaf sprottið er af náð
allt, sem gott hann veitir.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Fræðibálkur.

Hlakkið þið ekki öll til sumarsins, sem nú fer í hönd, börnin góð?

— Jú. —

En hvers vegna? Viljið þið reyna að segja mjer það?

„Ja, það er nú svo margt, sem er yndislegt á blessuðu sumrinu", munuð þið segja.

Þá er veðrið svo gott, og gaman að vera úti.

Þá er svo mikið sólskinið og bjart alla nóttina.

Já, og eitt er enn —: þá koma blessaðir fuglarnir og syngja svo yndislega, og

„lömbin smáu leika sjer
ljett um grænan haga".

En manstu ekki eptir einu? —: Þá er jörðin fagurgræn og þá vaxa blessuð blómin og brosa móti sólunni.

„Ó, hve fögur eru blómin"
og yndislega jörðu klæða!
augum líta upp til hæða,
er þau kyssir sólarljóminn.
Ó, hve fögur eru blómin!

Já, jurtirnar grænu með brosandi blómum, það eru klæði sumarsins, og það eru þau, sem jeg ætla að tala um við ykkur svolitla stund.

Blómin eiga svo ósköp vel við ykkur, börn, sem elskið það, sem fallegt er. Já, einmitt litlu börnunum er stundum líkt við blóm.

„Vjer eigum blóm í beði,
vor börnin ung og smá",

segir skáldið. Mun eigi líka margri móðurinni detta í hug: „Þarna á jeg eitt litla blómið", þegar hún sjer smádrengina leika sjer á túninu, eða smámeyjarnar sitja meðal sóleyjanna og fíflanna og búa sjer til blómfestar?

Þykir ykkur ekki öllum vænt um blómin?

— Jú. —

Það er gott, því að þau geta opt orðið þeim til huggunar og gleði, sem eitthvað amar að.

Frelsaranum hefur líka þótt vænt um blómin og talað stundum um þau við lærisveina sína, þegar hann ferðaðist með þeim gangandi um Gyðingaland. „Skoðið liljugrös akursins“, segir hann, „hversu þau vaxa; hvorki vinna þau nje spinna, en jeg segi yður, að Salómon í allri sinni dýrð var eigi svo skrýddur, sem eitt af þeim. Ef guð nú skrýðir svo grasið á jörðunni, sem í dag stendur, en á morgun verður í ofn kastað, hversu miklu fremur mun hann ekki klæða yður, þjer trúarveikir?“ Þannig huggar hann bágstadda með því að láta blómin minna þá á gæzku guðs. — Já, blómin fá okkur til að hugsa um góðan guð og segja eins og skáldið:

„Sjerhvert blað á blómi jarðar smáu
er blað, sem margt er skrifað á um þig“.

Börnunum þykir gaman að vita eitthvað um það, sem þeim þykir vænt um, og því meira sem þau vita fallegt um það, því vænna þykir þeim um það. Nú skal jeg segja ykkur nokkuð um jurtirnar og blómin.

Hið fyrsta, sem jeg verð að segja ykkur, er það, að jurtirnar hafa líf. Reyndar er líf þeirra nokkuð öðruvísi en líf dýranna og við getum ekki vel skilið það, en þær hafa að mörgu leyti sömu lífsþarfir, sem dýrin, og margt er líkt með hvorutveggja.

Dýrin geta ekki lifað án þess að draga andann. Jurtirnar draga líka andann, þótt við sjáum ekki brjóst þeirra bifast af andardrætti og þótt þær hafi ekki nef til að leiða loptið út og inn um. Á grænu blöðunum eru mörg ósköp smá op — svo smá, að þau sjást ekki nema í gegn um sjónauka —, sem þau draga andann í gegn um. Grænu blöðin eru jurtunum nokkurs konar lungu og frá þeim streyma verkanir loptsins um alla jurtina, lífgandi og nærandi. En svo hefur skaparinn hagað því vel, að mikið af því lopti, sem jurtirnar anda frá sjer, er einmitt það sama, sem menn og dýr þurfa að anda að sjer, en því lopti, sem dýrin anda frá sjer, anda jurtirnar að sjer. Þó þykir ekki gott að hafa mikið af jurtum í svefnherbergi um nætur, því á þeim tíma draga þær til sín nokkuð af sama lopti, sem mennirnir.

Dýrin geta ekki lifað án þess að fá fæðu. Jurtirnar þurfa líka að jeta og drekka. Hafið þið nokkurn tíma sjeð þær gjöra það? — Nei. — Það ber ekki mikið á því, fremur en andardrættinum. Ykkur er það kunnugt, að jurtirnar breiða rætur sínar í allar áttir út í moldina; ræturnar sjúga vatn og fæðu úr moldinni. Sje moldin fátæk af því, sem jurtirnar þurfa, þá verða þær grannar og veikar; sje hún rík af því, þá verða þær stórar og blómlegar. Þess vegna bera menn áburð á jörðina þegar jurtirnar eiga að spretta; það er fæða handa þeim, sem blandast regnvatninu og sígur með því ofan í moldina.

Dýrin geta ekki haldið áfram að vera til á jörðinni, nema þau fæði af sjer önnur dýr; gömlu dýrin deyja, en þau ungu taka þá við. Eins er því háttað með jurtirnar. Þær eiga eldri jurtir fyrir foreldra, pabba og mömmu, og lifi þær lengi og líði þeim vel, þá fæða þær aptur af sjer nýjar jurtir. Þessar ungu jurtir, sem nýlega eru fæddar, köllum við *fræ*. Til þess að láta verða til, fóstra upp og fæða af sjer fræin, hefur jurtin hinn fegursta part sinn: *blómið*. Móðirin er innst í blóminu með afkvæmi sitt í skauti sínu; faðirinn er utar eða í öðru blómi. Þegar fræið er orðið þroskað í blóminu, þá opnast innsti hluti þess og fræið fellur niður í moldina. Þar liggur það í dái til næsta vors, en vaknar þá aptur, þegar sólin fer að verma það. En svo vel er það út búið frá móðurinni, að það hefur nægilega fæðu hjá sjer þangað til það getur sjálft dregið hana til sín úr moldinni.

Enn er það fleira, sem líkt er með jurtunum og dýrunum. Menn hafa tekið eptir því

um ýmsar jurtir, að þær ýmist sofa eða vaka. Þið hafið ef til vill tekið eptir því, hvernig fíflarnir leggja saman blómin sín á kvöldin, eða þegar kalt er, en breiða sem bezt sundur gulu kollana á morgnana, eða þegar sólin skín. Lótusblómin beygja saman blöð sín og greinar, er þau fara að sofa, svo mjög, að þau þekkjast varla. Sumar jurtir hafa fengizt til að sofa á daginn með því að hafa þá dimmt á þeim, en vaka á nóttunni við ljós. — Það er eins og jurtunum þyki vænt um birtuna. Marjuvöndur heitir lítil jurt með blómi, sem vex hjer víða, þegar sólin skín, þá breiðir blómið út litlu blöðin bláu, en lykur þeim saman strax þegar skugga ber á þau. Einu sinni tók jeg eptir því, að allir blómknapparnir á „bellis", sem var í jurtapotti úti í glugga, sneru á móti glugganum. Jeg sneri pottinum við, svo blómin sneru undan birtunni, en eptir fáa daga var komin lykkja á alla blómleggina, blómin voru búin að snúa sjer við og sneru nú aptur út í gluggann.

Svo virðist sem sumar jurtir hafi tilfinningu. Þótt eigi sje komið nema ósköp laust við smáblöðin á „mímósunni", sem vex í heitum löndum, þá hniprar hún sig saman og beygist til jarðar. Náttúrufræðingur nokkur, sem var á ferð, tók eptir því, að mímósur gjörðu þetta einnig, er hann reið skammt frá þeim, rjett eins og þær yrðu hræddar við að heyra hófatakið í hestunum eða að finna hristinginn, sem kom af því á jörðina. Hann flutti þær einnig með sjer á vagni og þá hnipruðu þær sig saman þegar vagninn fór af stað og skrölti, en rjettu aptur úr sjer eptir nokkra stund, eins og þær færu þá að venjast ferðinni. Þetta gjörðu þær í hvert sinn, sem vagninn hafði stanzað og fór af stað af nýju.

Fleira hafa menn sjeð til jurtanna. „Desmódía" heitir jurt ein, sem hefur þrjú blöð saman, eitt stórt í miðið og tvö lítil rjett fyrir neðan það. Þegar sólin skín, þá hafa litlu blöðin sjezt berast ýmist nær eða fjær hvort öðru með smákippum. — „Könnuberplantan" hefur dálitla könnu sívala, sem fyllist með vatni á nóttunni og er þá lokuð, en á morgnana lyptist lokið upp og er kannan opin á daginn, og hafa þreyttir og móðir ferðamenn stundum svalað sjer á að drekka úr henni.

Enn er það, að sumar jurtir veiða flugur og jeta. Sóldögg vex hjer á landi. Þegar fluga sezt á blöð hennar, þá kreppir hún þau saman og stingur hana með broddum, sem eru á blaðröndinni, og sleppir eigi fyrri en flugan er dauð. Sýgur svo blaðið næringu úr fluguskrokknum. Líkt gjörir lifjagrasið, sem vex mjög víða. Ef þið þekkið það, þá hafið þið ef til vill tekið eptir því, að á blöðum þess eru opt flugnavængir og önnur óhreinindi. Það eru leifar af flugunum, sem þau hafa jetið.

Hjer á Íslandi eru ekki eins stór og fjölbreytt blóm eins og í heitari löndum, en jurtagróðurinn hjer er þó að sumu leyti allt eins fagur, og margur þar syðra mundi vilja eiga blett af íslenzku túni heima hjá sjer, ef hann gæti. Hjer prýðir það einkum, að grasvegurinn er svo miklu þjettari og jurtagróðurinn svo smágjör, rjett eins og það væri grænt flöjel hjá grófum striga.

Mörg fögur blóm vaxa hjer. Þið þekkið öll sóleyjarnar og fíflana. Ef til vill hafið þið líka sjeð fjóluna og eyrarrósina og mörg fleiri falleg blóm.

Börnin góð! Ykkur þykir vænt um blómin; látið ykkur þá líka vera annt um þau. Ef þið eigið blóm í jurtapotti, þá reynið að láta þau hafa næga og góða mold, hreint lopt, nóga birtu og vökvið þau reglulega. Þá prýða þau stofuna ykkar svo ósköp mikið, og ef þið hirðið vel um blómin þegar þið eruð börn, þá er jeg viss um, að þið hirðið vel um fleira fallegt, þegar þið eruð orðin stór. z.

## Smávegis.

„HVAÐ er þetta!“ segir ungina, þegar hann er kominn út úr egginu. „Fyrir skömmu var jeg inni í svo litlu húsi; þar var þröngt og dimmt og engar dyr og enginn gluggi og jeg hjelt, að heimurinn væri ekki stærri en það, sem jeg sá þá. Samt hjó jeg í sífellu með nefinu út í veggina á litla húsinu mínu, þangað til allt í einu að jeg sprengdi gat á það, og þá sá jeg annan heim fyrir utan, svo



ógurlega stóran! Svo stækkaði jeg gatið smám saman, þangað til jeg komst út um það, og nú er jeg kominn í svo ákaflega stóran heim og margbreyttan, sem jeg hafði aldrei hugmynd um, að væri til, á meðan jeg var inni í egginu, og hefði aldrei trúað því“.

Svona er því líka varið með suma menn; þeir trúa því ekki, að til sje annað æðra líf eptir þetta. Þeir eru eins og unginn að því leyti; en þegar þeir deyja, þá sjá þeir, hversu heimskir þeir hafa verið. (Þýtt).

---

## Spurðu sjálfa(n) þig!

HVERNIG hefurðu breytt á vetrinum, sem kvaddi í gær?

Hefurðu verið hlýðin(n) mömmu og pabba? Hefurðu aldrei gjört neitt, sem var þeim á móti skapi? Hefurðu allt af munað eptir því, hversu mikið þau hafa haft fyrir þjer, hversu mikið þau hafa lagt á sig þín vegna og hversu mikið þú átt þeim að þakka? Hefurðu allt af munað eptir því að vera kurteis og vingjarnleg(ur) við alla menn? Hefurðu gjört allt, sem þú hefur getað til að leiðbeina leiksystkinum þínum og hjálpa þeim til að vera góð börn? Hefurðu aldrei verið vond(ur) við skepnurnar, sem ekki geta kvartað, þótt illa sje farið með þær?

Hefurðu aldrei rekið hestana hart á hálu svelli og sigað hundunum á eptir þeim?

Hefurðu aldrei barið hundinn eða kvalið hana kisu?

Hefurðu allt af munað eptir að kasta einhverju fyrir hann krumma, þegar hann hafði ekkert að borða?

Hefurðu aldrei leikið þjer að því að stinga í flugurnar nálum eða títuprjónum, þegar þær skríða á gluggarúðunum, og kvelja þær?

Hefurðu allt af munað eptir því, að guð veit, sjer og heyrir allt, sem þú hugsar, gjörir og talar?

Hefurðu allt af haft það hugfast, að hann er ekki einungis faðir okkar mannanna, heldur einnig dýranna og hann vill að þeim líði öllum vel?

Hefurðu aldrei styggt hann með því að tala nokkuð ljótt eða gjöra nokkuð rangt?

Spurðu sjálfa(n) þig að öllu þessu og vittu, hverju þú getur svarað. [S. J. J.].

---

„Æskan“
emur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.

Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.

Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 5. maí 1898. | 15. tbl. |
|---|---|---|

## Vísur.

Drekktu aldrei áfengt vín,
sem orðið hefur mörgum tál;
alls konar það eykur pín,
eitur fyrir líf og sál.

Margra hefur minnkað auð,
marga leitt í fangasess;
daglegt svo að brestur brauð
börn og konur vegna þess.

Ofdrykkjan er öllum tjón,
íhugaðu sannleik þann.
Er það ekki sorgleg sjón
að sjá víndrukkinn unglings mann?

*Í. Gísl.*

## Dísa gamla.

(Framhald).

Þegar honum Bjarna mínum gekk sem bezt, sá jeg að ljóti maðurinn fór að keppast eins og hann gat við það að kasta steinum fyrir hann, og loksins sá jeg, að hann datt um einn þeirra. „Æ! æ!“ kallaði jeg upp yfir mig í svefninum og hrökk upp við það. Draumurinn var því ekki lengri. Mjer þótti þetta dæmalaust leiðinlegt; jeg hjelt, að það mundi verða fyrir einhverju misjöfnu, sem kæmi fyrir hann Bjarna minn, og jeg gat aldrei hætt að hugsa um það. Hann var nú orðinn tíu ára og gekk í barnaskólann. Hann kom sjer ágætlega við alla kennarana og stóð sig að öllu leyti vel í skólanum; var mesti siðsemdar- og reglupiltur og mjer til sannrar ánægju. Þegar hann var laus við barnaskólann með ágætum vitnisburði, var honum gefin biflían og þessi orð skrautrituð á hana: „Verðlaun til Bjarna Þorsteinssonar, fyrir ágæta hegðun og siðsemi í barnaskólanum“. Bjarni varð himinlifandi af gleði yfir þessari gjöf og jeg ekki síður. Nú bar ekkert nýrra við fyrri en hann var orðinn fjórtán ára. Hann var staðfestur það vor og prestinum líkaði ágætlega við hann. Einu sinni, skömmu eptir að hann var staðfestur, kemur presturinn heim til okkar og fer að tala um Bjarna litla. Jeg held að jeg hafi sagt þjer áður, að faðir hans var dáinn og að mig langaði til að reyna að koma honum til manns.

„Þjer eigið efnilegan son, Þórdís mín“, sagði prestur, „þar sem hann Bjarni litli er. Fyrst og fremst er hann bráðgáfaður og svo er hann þar að auki svo einstaklega siðsamur og góður piltur. Það er skaði, að slíkur drengur, sem hann er, skuli ekki geta lært eitthvað meira; það er synd að láta ekkert verða úr honum, það má ekki fara svo. Mjer hefur dottið í hug, Þórdís mín, að bjóða yður að kenna honum undir skóla í vetur; hvað munduð þjer segja við því?“ Jeg vissi tæpast hvað jeg átti að segja; mjer kom þetta svo á óvart, en nærri má geta, hvort jeg hef ekki orðið glöð. „Jeg held að jeg geti aldrei kostað hann“, sagði jeg, „og svo býst jeg við, að fólki þyki það óþarft og barnalegt af mjer“. „Að því er kostnaðinn snertir“, mælti presturinn, „skaltu ekki vera neitt áhyggjufull.

Jeg er viss um, að Bjarna litla gengur vel, ef hann kemst í skóla, og fær þar mikinn styrk og svo skal jeg reyna að hafa eitthvað hönd í bagga með honum. Jeg tek fyrst og fremst ekkert fyrir kennsluna undir skóla og skal þar að auki gefa honum að borða í vetur, en hvað aðrir segja, það gerir ekkert til". Jeg þakkaði prestinum með eins fögrum og auðmjúkum orðum og jeg gat fyrir góðsemi hans; og við bundum það fastmælum, að Bjarni skyldi koma til hans 1. október um haustið. Þú getur ekki ímyndað þjer, hversu glöð jeg var nú; Bjarni litli var rjett að segja orðinn skólapiltur og jeg efaðist ekki um, að hann mundi verða virtur og mikils metinn maður með tímanum og jeg sjálf einhver allra hamingjusamasta móðir, sem til væri undir sólunni. En þá datt mjer í hug draumurinn; ó! steinninn, sem mjer þótti hann detta um! hvað skyldi hann eiga að tákna? Jeg reyndi að hrinda þessum hugsunum frá mjer með því að telja sjálfri mjer trú um, að allir draumar væru rugl og vitleysa, sem aldrei ætti að leggja nokkurn trúnað á.

Bjarni litli var fjærverandi, þegar presturinn kom, en þegar hann kom heim aptur, sagði jeg honum upp alla söguna. „Blessaður presturinn!" kallaði hann og hoppaði upp af gleði; „ó, hvað hann er góður! nú get jeg orðið mikill maður, þegar jeg verð stór, og látið þjer líða vel, þegar þú verður gömul; það verður gaman; þá get jeg borgað þjer allt, sem þú hefur haft fyrir mjer. Hvað er langt þangað til 1. október? jeg vildi að það væri 1. október á morgun! Núna er júní — 20. júní, svo kemur júlí, svo ágúst, svo september og svo október; ó, hvað þetta er langt! hálfur fjórði mánuður; jeg vildi að október væri næst á eptir júní!" „Vertu rólegur, Bjarni minn", sagði jeg, „Það er gott að lifa við vonina, og þetta líður fljótt". „En mamma!" sagði hann, „þegar jeg er kominn í skóla, þá get jeg ekki verið hjá þjer, og þá er jeg viss um að þjer leiðist. Jeg skal samt skrifa þjer mörg brjef og löng, jeg skal skrifa þjer með hverjum pósti, bæði austanpósti, vestanpósti og norðanpósti, og langt um optar og svo fæ jeg náttúrlega að koma heim að finna þig á sumrin; ó, það verður gaman! heldurðu það ekki mamma? Blessaður presturinn!"

(Framh.). [S. J. J.].

## Fræðibálkur.

*Það er hollt* að fara snemma á fætur á morgnana.

*Það er hollt* að hátta snemma á kveldin; fyrir miðnætti er svefninn beztur og eiginlegastur.

*Það er hollt* að hafa aptur munninn, þegar maður sefur. Fyrst og fremst getur það opt komið fyrir, að ýmsar pöddur skríði upp í mann, ef sofið er með opinn munninn og í öðru lagi andar maður að sjer ryki, sem þannig kemst auðveldar niður í lungun; því í nefinu verður slímhimnan því til fyrirstöðu, en allt ryk er mjög óhollt.

*Það er hollt*, þegar sofið er, að liggja annaðhvort á bakið eða hægri hliðina. Liggi menn á minstri hliðina, tefur það hjartsláttin meira eða minna.

*Það er hollt* að anda með nefinu en ekki munninum, því slímhúðin kemur í veg fyrir það, að ryk og annað, sem er í loptinu, komist niður í lungun. Þar að auki hitnar kalda loptið, sem maður andar að sjer, í nösunum, svo að það verður ekki óþægilegt eða of kalt fyrir hinar viðkvæmu holur í lungunum.

*Það er hollt* að anda þungt og djúpt öðru hvoru og halda á meðan höndunum fyrir aptan hnakkann. Við það örfast blóðrásin.

*Það er hollt* að hafa ekki svo mikið eða

heitt ofan á sjer, að maður svitni á nóttunni; en þó verður alltaf að gæta þess, að láta sjer ekki verða of kalt og sízt á fótunum.

*Það er hollt* að liggja rjettur í rúminu, því þá verður auðveldara fyrir blóðið að streyma um allan líkamann. Þó verður að hafa nokkuð hátt undir höfðinu, því annars sækir of mikið blóð til heilans.

## Myndin.

Þið haldið ef til vill, að allir menn sjeu hvítir eins og við, börnin góð; en það er ekki. Í Ameríku (Vesturálfu) eru til dæmis menn, sem kallast Indíánar og eru dökkrauðir að lit. Í Afríku (Suðurálfu) eru svartir menn, í Asíu (Austurálfu) gulir og svo framvegis. Þessi mynd er af Indíánum og bústöðum þeirra; þeir eru síðhærðir, svarthærðir og grófhærðir; andlitið er langt og mjótt, ennið skáhallt, kinnbeinin há, nefið stórt og skagar langt fram; haldið þið að þeir sjeu fríðir? Þeir eru ómenntaðir, grimmir og illir viðureignar. Þeir búa í kofum, ýmislega byggðum sumum mjög lítilfjörlegum. Höfðingi þeirra (hvers flokks) hefur fallegastan bústaðinn og er hann ýmislega skreyttur. Búningur þeirra er mjög afkáralegur, þeir skreyta sig með fjöðr-



um og mörgu fleiru og eru afar hjegómlegir og barnalegir.

## Skrítlur.

UNGUR MAÐUR sat hjá unnustu sinni í fagurri fjallshlíð. Útsýnið var hið yndislegasta; fyrir neðan hlíðina voru blómþaktar grundir og allt í kring um þau sungu fuglar í fagurlaufguðum trjágreinum. „Ó, hversu allt er fagurt!“ sagði maðurinn; „það er eins og allir hlutir hafi tekið höndum saman til þess að gjöra okkur lífið sem skemmtilegast, og þú getur vitað það á því, hversu heitt jeg elska þig, að jeg væri fús til að deyja og yfirgefa alla þessa óumræðulegu sælu, ef jeg þyrfti að gjöra það þín vegna“.

„Ó, þjer þykir langt of vænt um mig, elskan mín“, svaraði unnusta hans, „jeg verðskulda það ekki; en fyrst þú vilt nú á annað borð leggja svona mikið í sölurnar mín vegna, þá gjörðu nokkuð fyrir mig, góði minn, sem er langtum minna vert; hættu að reykja!“ „Æ, jeg get ekki hugsað til þess! jeg hef reykt svo lengi, að jeg get ómögulega vanið mig af því, hvað sem það kostar; nei, það gjöri jeg ekki fyrir nokkurn mann. „Jæja, góði minn“, svaraði unnusta hans, „nú veit jeg hversu einlæglega hugur fylgir máli, þegar þú segist vilja leggja lífið í sölurnar fyrir mig, þar sem þú metur mig ekki eins mikils og pípuna þína“.

---

BJÖRN GAMLI var mjög stimamjúkur við höfðingja, og boðinn og búinn að taka af þeim ómak.

Þegar nýi presturinn hans jarðsöng í fyrsta sinni, var Björn þar viðstaddur, og þegar prestur ætlaði „að kasta á rekunum“, greip hann „spaðann“ af honum og sagði: „Verið þjer ekki að moka, jeg skal gjöra það“.

---

A.: „Fallega ætlar að fara fyrir honum Jóni á Hamri; hann er nú kominn að þrotum með *heyleysið*, svo á hann ekkert skýli yfir hrossin sín“.

B.: „Það voru nú fleiri en hann, sem gátu ekki byggt hesthús fyrir *vanefnaskorti*“.

---

PRESTURINN: „Hvað heitið þjer, gamli maður?“
Karlinn: „*Vjer heitum* Þorvaldur“.

---

JÓN: „Náðu fyrir mig lykli úr vestisvasanum mínum, Bensi minn!“
Benedikt: „Í hvorum vasanum er hann?“
Jón: „Þeim vasanum, sem ekkert er í“.

---

ÁRNI: „Hvað ertu að gjöra þarna“, Anna litla?“
Anna: „Jeg er að lita fötin brúðunnar minnar rauð“.
Árni: „Úr hverju litarðu þau?“
Anna: „Úr Öli“.
Árni: Hvernig veiztu, að þau verða rauð af því?“
Anna: Hún mamma sagði í morgun, að nefið á sýslumanninum væri svona rautt bara af tómu öli“.

---

## Söngvísa.

(Lag: Frjálst er í fjallasal o. s. frv.).

Söngur, þú sigrar allt,
sofandi, dautt og kalt
lífgarðu, vermir og vekur,
ó, hvað jeg elska þig!
ó, hvað þú gleður mig!
sorgir úr sálunni hrekur.

[S. J. J.].

---

„Æskan“
kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun $^1/_5$.
Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.
Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.
Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

**I. árg.** | Reykjavík, 25. maí 1898. | **16. tbl.**

## Til mömmu.

MIKLA, helga móðurást,
myndin guðdóms bjarta,
þú, sem engu barni brást,
birtir heiminn svarta.

Þegar mömmu fór jeg frá
fannst mjer lífið svíða,
hnigu tár af heitri brá,
hjartað skalf af kvíða.

Grátfríð móðir mælti þá:
„Mundu, sonur kæri,
ef þú guði fjellir frá
farin ró mín væri“.

Þín kveðjuorð mjer eru nú
ótal gæfulyndir,
fögur tár, sem felldir þú,
fagrar englamyndir. *(Hringur).*

## Dísa gamla.

(Framhald).

Nú leið og beið; Bjarna litla dauðleiddist eptir því, að 1. október kæmi, en þó var hann alltaf jafn þægur og góður drengur og hann hafði verið. Loksins kom 30. september og þá átti hann að fara morguninn eptir. Hann háttaði snemma um kvöldið, en sofnaði seint. Jeg veit satt að segja ekki, hvort honum hefur komið dúr á auga alla nóttina; að minnsta kosti var hann vakandi þegar jeg sofnaði og eins þegar jeg vaknaði, sem var þó klukkan fimm um morguninn. Þið þekkið það öll, börnin góð, að það er nokkuð til, sem heitir ferðahugur. Þegar hann er mikill, þá geta börnin ekki sofið, þau hafa ekki matarlyst og þeim finnst tíminn ákaflega langur. Hafið þið ekki öll reynt það einhvern tíma?

Jeg fylgdi Bjarna litla til prestsins; hann var hálf einurðarlaus fyrsta kastið, en það var ekki lengi. Jeg var eina nótt hjá prestinum og fór svo heim daginn eptir. Bjarni litli fylgdi mjer út fyrir túnið og þar kvaddi jeg hann. Jeg áminnti hann um að vera nú duglegur að læra og um fram allt að vera góður og siðsamur piltur. Hann lofaði mjer því. „Jeg skal skrifa þjer, mamma mín“, sagði hann, „þegar jeg er byrjaður að læra, til þess að láta þig vita, hvernig mjer gengur“. Svo kyssti jeg blessaðan drenginn minn og fór heim. — Mánuði síðar fjekk jeg brjef, sem hljóðaði þannig:

Hvammi, 2. nóvember 18..

„Elsku bezta mamma mín!

Jeg lofaði að skrifa þjer og láta þig vita, hvernig mjer gengi að læra og jeg má ekki svíkjast um það. Jeg er byrjaður á latnesku málfræðinni og þykir fjarskalega gaman að henni. Presturinn segir, að jeg muni verða fljótur að læra. Það er annar drengur hjá honum, sem líka er að læra undir skóla og við keppumst alltaf hvor við annan; það er hann Árni sonur sýslumannsins; hann er á á sautjánda árinu. Það væri gaman að geta orðið fyrir ofan hann í vor við prófið; jeg

ætla að reyna það. Heldurðu ekki að þjer þætti vænt um, ef jeg gæti það, mamma mín? Hjerna eru allir ósköp góðir við mig og mjer leiðist ekkert. Börnin prestsins eru svo ákaflega skemmtileg og jeg fæ alltaf að leika mjer við þau á hverjum degi. Jeg vonast til að þjer leiðist ekki, góða mamma, þó jeg sje farinn; jeg á líka að fá að finna þig um jólin og jeg hlakka til þess.

Presturinn biður að heilsa þjer og jeg bið að heilsa honum Munda litla í Norðurkoti og henni Siggu á Brekku og segðu þeim, að jeg hafi lært svo fjarska marga leiki af prestsbörnunum, að þeim muni þykja gaman þegar jeg finn þau næst.

Vertu alltaf blessuð og sæl, elsku mamma mín, og líði þjer sem bezt; þess óskar þinn

Baddi".

Mjer þótti vænt um þetta brjef og las það mörgum sinnum. Nú leið veturinn; Bjarni kom heim um jólin og var hinn kátasti; börnin í nágrenninu fögnuðu honum eins og bezta bróður sínum og hann var mjer til mestu ánægju. — Þegar kom fram í maímánuð, var farið að búa hann til suðurferðar. Presturinn fór með honum suður; honum gekk ágætlega prófið og kom aptur heim sigri hrósandi, hann varð fyrir ofan Árna — langt fyrir ofan hann. Nú var Bjarni heima hjá mjer um sumarið, en um haustið bjóst hann í skóla ásamt öðrum piltum.

Jeg fylgdi honum af stað og þegar jeg kvaddi hann, þá bað jeg hann þess lengstra orða, að muna vel eptir henni mömmu sinni heima; hafa það hugfast, hversu innilega það mundi gleðja hana, ef honum gengi vel og hann yrði virtur og elskaður í skólanum, bæði af skólabræðrum sínum og kennurum, og hversu gleðileg tilhugsun það væri fyrir hana, ef hann yrði mikill og góður maður og ástúðlegur sonur, sem hún gæti lifað hjá þegar hún væri orðin gömul; og loksins, hversu það mundi hryggja hana, ef einhverjir slarkarar leiddu hann út í svall og gjálífi svo að allar fögru vonirnar, sem hún hefði gjört sjer um hann, yrðu að engu. Það var víst, að Bjarni litli hafði þann einlæga ásetning, að muna eptir orðum mínum og þótt hann hlakkaði mjög til að fara í skólann, þá kvaddi hann mig samt grátandi; það var eins og honum hálf þætti fyrir að skilja við mig, skilja við leiksystkini sín, við gamla bæinn, hrörlega, þar sem hann hafði fæðst og lifað í fjórtán ár; skilja við allt, sem hann þekkti, allt sem hann elskaði í barnslegu sakleysi. Það taka allir menn nærri sjer að skilja við þær stöðvar, sem þeir hafa alizt upp á; þeir kveðja þá með söknuði hvern mann, sem þeir hafa þekkt, hverja skepnu, hverja hæð, hverja laut, hvern stein, hvert strá; yfir höfuð allt, sem hægt er að nefna. Mjer fannst jafnvel, að hann tæki sárt að skilja við hann Hrekkja-Finn í Norðurbænum, sem þó hafði alltaf verið svo vondur við hann; hann klappaði honum grimma hvutta, sem hann þó aldrei hafði getað litið rjettu auga síðan hann beit hana litlu kisu; hann leit hýrlega til gamla kattarins, sem einu sinni hafði þó drepið hænuunga svo hann horfði á og grjet af því heila kvöldvöku; þá vildi hann endilega láta hengja ótætis köttinn, svo að hann gjörði ekkert slíkt optar, en nú var honum ekkert illa við hann lengur. Honum þótti vænt um hana Forustu-Flekku, sem hafði þó opt verið svo óþekk við hann. Það var eins og honum þætti svo vænt um allt, eins og hann elskaði allt, sem hann var nú að kveðja.

Þegar Bjarni litli var farinn, settist jeg út við glugga í gömlu, hrörlegu baðstofunni minni og horfði út um hann. Kvöldsólin var að hverfa á bak við fjallsbrúnina og gullnir geislar ljeku á vatnsfletinum fyrir neðan bæinn; móða var á glugganum og hann „grjet", þið vitið öll, hvernig það er þegar talað er

um að gluggiun „gráti“, það veit allt af á gott veður, segir gamla fólkið.

Mjer duttu allt í einu í hug tvær vísur, sem jeg hafði heyrt þegar jeg var ung, og jeg fór ósjálfrátt að raula þær í hálfum hljóðum:

„Hví ertu að gráta, glugginn minn?
hvað getur angrað þig?
Þú átt að kætast, kjáninn þinn,
því káta sjerðu mig“.

„Já, glöð þú sýnist, satt er það
og sælli virðist fár,
en samt þjer gengur eitthvað að,
þú áðan felldir tár“.

Jeg raulaði seinni vísuna í sífellu. Jeg var alltaf að hugsa um hann Bjarna minn og brjóta heilann um það, hvað steinninn ætti að þýða, sem mig dreymdi; svo hálfleiddist mjer líka þegar hann var farinn. Þegar klukkan var orðin tólf fór jeg að hátta og sofa og mig dreymdi margt um nóttina.

(Framh.). [S. J. J.].

# Hugrekki.

DRENGUR nokkur, þrettán ára gamall, gætti fjár föður síns úti á engjum. Drengurinn hjet Hermann. Einn dag sá hann koma hóp af hermönnum, tígulegum og skrautbúnum. Þegar þeir komu að engjunum, riðu þeir eptir þeim en ekki eptir veginum, sem var þar skammt frá. Þetta gramdist Hermanni litla og hann hugsaði með sjálfum sjer. „Hvað eru þeir að gjöra hingað? Þetta er enginn vegur, það eru engjarnar hans föður míns“. Hann gekk rakleiðis á móti hermönnunum, staðnæmdist beint frammi fyrir þeim og sagði einarðlega: „Snúið þið undir eins aptur! Þetta eru engjarnar hans pabba míns, Þið hafið ekkert leyfi til að ríða þær!“ Foringinn horfði undrandi á drenginn og sagði: „Hver ert þú, strákhnokki?“

„Jeg er sonur Hermanns Battings“, svaraði hann, „og jeg banna ykkur að ríða engjarnar hans; þið getið riðið eptir veginum!“ „Jeg ríð beina leið, hvað sem þú gjammar, strákur!“ mælti foringinn; sló í hestinn og sagði um leið: „Varaðu þig! annars ríð jeg yfir þig!“ Hermann stóð grafkyr, horfði undrandi framan í manninn og sagði: „Þjer verðið að gjöra það, sem rjett er! Þjer megið ekki ríða engjarnar hans pabba!“

„Hvað ætli þú getir gjört greinarmun á rjettu og röngu, strákhnokkinn þinn?“ svaraði herforinginn: „veiztu ekki, að jeg er Otto Þýzkalands konungur og að þú átt að hlýða skipun konungsins?“

„Jeg trúi því ekki, að þjer sjeuð Otto konungur“, svaraði Hermann; „hann gætir þess, að lögunum sje hlýtt og að allir gjöri rjett, en þjer ætlið að brjóta lög og gjöra rangt; nei, það er ómögulegt, að þjer sjeuð Otto konungur, þjer hljótið að skrökva því“. Sannleikurinn var samt sá, að þetta var Ottó konungur. Hann horfði á Hermann litla stundarkorn og sagði svo: „Fylgdu mjer heim til hans föður þíns, drengur minn!“ „Jeg má það ekki“, svaraði Hermann; „jeg á að gæta kindanna og má ekki yfirgefa þær; þær geta týnzt á meðan; en ef þjer eruð Ottó konungur, þá ríðið þjer ekki engjarnar heldur veginn; það er ekki góður konungur, sem gjörir rangt“. Konungur ljet að orðum hans.

Þessi drengur varð síðar greifi yfir Saxlandi og þótti mjög rjettlátur maður. Svona eiga allir drengir og allar stúlkur að vera hugrökk og hreinskilin, þegar þau sjá einhvern gjöra eitthvað rangt eða ljótt. Jeg get reyndar ekki lofað því, að allir drengir eða stúlkur, sem þannig breyta, verði greifar eða

greifafrúr, en það er víst, að hver sá, sem fylgir alltaf því, sem rjett er og gott, hann verður virtur og elskaður af öllum rjettlátum og góðum mönnum. (Þýtt).

## Fræðibálkur.

*Mannfjöldi* á allri jörðinni er talinn nálægt 1,700,000,000 (eitt þúsund og sjö hundruð miljónir). Þó þykir líklegt að hann sje nokkuð meiri. Næsta ár (árið 1900) hafa menn í hyggju að taka svo nákvæmt manntal um allan heim, sem mögulegt er.

*Blóðið* þarf einungis tvær mínútur til þess að streyma úr hjartanu út um allan líkamann og til hjartans aptur.

*Sjúkrahús* eru 13 í París (höfuðborginni á Frakklandi). Þangað eru fluttir 62 menn að meðaltali á hverjum mánuði, sem hafa eyðilagt heilsu sína á nautn áfengra drykkja. Þetta kostar bæinn 75,000 kr. (sjötíu og fimm þúsund krónur) á ári!

*Viktoría Englandsdrottning* er bindindiskona; hún gekk í bindindisfjelag kristinna kvenna í fyrra um jólin.

*Drottningin á Rússlandi* er svo hrædd við áhrif áfengra drykkja, að hún hefur beðið marga landstjóra að styðja bindindi og koma því sem lengst áleiðis. Sjálf hefur hún stofnað kvennbindindi.

*Á Englandi* var árið 1896 eytt 2,550,000,000 kr. (tvö þúsund, fimm hundruð og fimmtíu miljónum króna) fyrir áfenga drykki. Ávextirnir af því voru þessir: 40,000 (fjörutíu þúsund) menn voru drepnir í ölæði, og einungis í Lundúnaborg (höfuðborginni) voru 85,763 (áttatíu og fimm þúsund, sjö hundruð sextíu og þrír) menn settir í fangelsi fyrir glæpi, sem þeir höfðu unnið í ölæði.

## Skrítlur.

„AF HVERJU beit Adam í eplið?“ spurði barnakennari eitt sinn dreng einn. „Hann hefur líklega verið hnífiaus“ svaraði drengurinn.

„JEG vildi gefa alla þrjá bræður mína“, sagði drengur einn eitt sinn þegar illa lá á honum, „til þess að skollinn vildi sækja báðar systur mínar“. Var hann góður bróðir?

A.: „Átti Jósef marga bræður?“
B.: „Sex“.
A.: „Það er skrítinn reikningur“
B.: „Jeg ætla samt að vona, að það sje rjett! því hann átti einn albróður og tíu hálfbræður; en tíu hálfir eru sama sem fimm heilir og fimm og einn eru sex“. *(Gönguhrólfur).*

EPTIRFARANDI auglýsingar voru einhverju sinni í dönsku blaði:

1. Kvennmannshár kaupir undirritaður, sem er alin á lengd“.

2. Almenningi gefst til vitundar, að allir gjaldendur hjer í bænum verða hengdir upp á borgarasalnum á morgun, ef einhver kynni að hafa eitthvað að kvarta yfir.

3. Söltuð síld er til sölu hjá N. kaupmanni, sem er alveg beinlaus.

4. Hljóðfærisstóll er til sölu hjá undirrituðum, sem má skrúfa upp og niður eptir vild.

„Æskan“

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun ⅕.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

**Fjelagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (Ó. R. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 2. júní 1898. | 17. tbl. |
|---|---|---|

## Þísa gamla.

(Framhald).

Um morguninn þegar ég vaknaði, var þykt loft og rigning. Mér leiddist, það var eins og öllu öðru leiddist líka, bæði lifandi og dauðu. Það var líka von að deyfð hvíldi yfir öllu á Hóli þegar Baddi var farinn, því hann hafði verið lífið og sálin í því og allir söknuðu hans. Börnin í nágrenninu léku sér ekkert þennan dag og það var auðséð, að þau vantaði eitthvað. Kötturinn lá í rúminu mínu, eins og hann var vanur, hann kunni ekki við sig; hann stóð upp öðruhvoru, teygði sig eins og hann gat og geispaði, stökk niður á gólf og upp í rúmið aftur.



Þessi dagur leið án nokkurra viðburða, en mér fanst hann langur, og svo leið hver dagurinn á fætur öðrum. Börnin í nágrenninu komu á hverjum degi að spyrja, hvort ekki væri komið bréf frá Badda, löngu áður en pósturinn kom og löngu áður en nokkur ferð varð að sunnan. Börnin eru altaf svo bráðlát. — Svo kom pósturinn, þá hlupu þau öll á póstafgreiðslustofuna til þess að spyrja eftir bréfi til hennar Þórdísar á Hóli. „Lofið mér að spyrja eftir bréfinu!„ sagði Sigga í Norðurkotinu. „Nei!“ sagði Gvendur á Tóftum, „ég má til að spyrja eftir því!“ „Nei, nei!“ sagði Jón í Hala, „ég geri það, þið fáið það ekki, þið *skuluð* ekki fá það!“ „Ég geri það hvað sem þið segið!“ sagði Árni á Bakka; „ég er fljótastur að hlaupa og ég verð þess vegna fyrstur á póstafgreiðslustofuna; eigum við bara að reyna okkur!“ Svo hlupu þau öll af stað eins og fætur toguðu; Árni á Bakka varð fljótastur, en Sigga í Norðurkotinu seinust — langseinust. Þegar drengirnir komu að póstafgreiðslustofudyrunum, gengu þeir upp og niður af mæði. „aha! oh! aha!“

Nú tók ekki betra við, það var svo þröngt í dyrunum, að þeir komust ekki inn, svo þeir urðu að bíða lengi. Svo litu þeir aftur og sáu, hvar Sigga kom á eftir. „Nei, sko stelpuna!“ sagði Gvendur, „Sú er fljót á fæti! ætli við verðum ekki fyrir nokkru búnir að ná bréfinu áður en hún kemst inn!“

Nú fóru þau að troðast inn í mannþröngina, drengirnir hrundu frá sér öllu, sem fyrir varð, eftir því sem þeir gátu, en Sigga fór hægt og gætilega; samt varð það þannig, að hún komst fyrst inn, því allir hliðruðu til fyrir henni. „Lofið þið litlu stúlkunni að komast áfram!“ sögðu allir, „hún er svo stilt, en hrindið þið strákavörgunum; þeir ætla alt um koll að keyra“. Svo kemst Sigga inn að afgreiðsluborðinu og spyr eftir bréfi til mín; loksins

kom það og þá varð Sigga frá sér numin af gleði, hún komst út með það aftur og sýndi drengjunum. „Á, það var ég, sem hafði það!“ segir hún. „Hvað er að marka það?“ segir Gvendur. „Þér sem var hjálpað til þess! Þú hefðir varla haft það, ef alt hefði verið rétt; þú sem varst langt úti í holti þegar við komum að dyrunum; það var bara af því að við komumst ekki inn“. „Það var bara af því að ég var stilt og siðsöm, en ekki ókurteis við þá, sem í dyrunum voru“, sagði Sigga. „Við skulum annars hætta að tala um þetta og flýta okkur með bréfið til hennar Dísu, við fáum öll í því kveðju frá honum Badda og svo skulum við vera róleg“. Því næst halda þau heim og eru öll beztu vinir. Þegar þau komu, reif ég upp bréfið og það hljóðaði þannig:

Reykjavík, 28. Nóv. 18..

„Elsku hjartans mamma mín!

Nú er ég búinn að vera hátt á annan mánuð í skólanum og líkar ágætlega vel. Þú baðst mig þegar við skildum að muna eftir því, að koma mér vel við kennarana og félaga mína og ég vonast til, að ég hafi gert það hingað til. Það eru allir ósköp góðir við mig og mér er alveg hætt að leiðast; mér leiddist dálítið fyrsta kastið. Það er dæmalaust fjörugt hér í skólanum og skemtilegt. Drengjunum er reyndar sumum hætt við að gera ýmislegt til þess að stríða kennurunum, en ég hef aldrei tekið þátt í því, mér þykir það svo ljótt. Ég mætti nýlega einum kandídat hérna í bænum, hálfdruknum; hann spurði mig, hvort ég væri skólapiltur; ég sagði já. „Jæja, lagsi“, svaraði hann, „þú ert víst nýkominn í skóla; ég skal gefa þér heilræði, karl minn. Brúkaðu bara kjaftinn við kennarana og hnefann við strákana og þá mun þér vegna vel í skólanum. Þetta gerði ég og hafði gott af!“

Mér þótti þetta svo ljótt, að jeg vil aldrei tala við þenna mann oftar, og þú skalt vera viss um það, mamma mín, að jeg fylgi aldrei þessum heilræðum, sem hann ætlaði að kenna mér. Það á að ráða hjá okkur eftir mánuð og þá skal ég skrita þér aftur og láta þig vita, hver ég verð; ég vonast til að fara heldur upp en niður. — Bezta mamma, skilaðu kveðju minni til allra krakkanna og segðu þeim, að ég ætli að skrifa þeim í jólafríinu. Það væri gaman að koma heim þá, en það er svo langt. Ég geng alt af upp á hæð, sem er fyrir ofan bæinn, á hverjum morgni til þess að sjá fjöllin heima, til þess að sjá hlíðina, sem þú býrð undir og þá dettur mér altaf í hug þessi gamla vísa, sem þú kendir mér:

„Helgu' og fornu trygða tröll,<br>
traustu' og gömlu Íslands fjöll,<br>
hlýið minni hlíðarrós,<br>
hún er minnar æfi ljós“.

Já, þú hefur sannarlega verið „minnar æfi ljós“ hingað til, mamma mín, og verður það altaf, og ég vona, að ég geti orðið „þinnar æfi ljós“, þegar þú ert orðin gömul. Nú verð ég að hætta; klukkan er hálfátta og þegar hún er átta, fer ég í skólann. Ég verð að gæta þess að koma nógu snemma til þess að fá ekki nótu. Ég fór á fætur klukkan sex til að skrifa þér.

Ég bið guð að vera með þér og láta þér altaf líða vel; ég skal altaf muna alt, sem þú sagðir við mig, þegar ég fór í skólann. Vertu blessuð og sæl, mamma mín.

Þinn Baddi“.

(Framh.). [S. J. J.].

## Fuglinn og hann Músi.

Í snörunni fuglinn var fastur<br>
og fóturinn þrútinn og sár;<br>
hann titraði' af angist og ótta<br>
í augunum glitruðu tár.

Og tíminn var leiður og langur,
hann langaði frelsi að ná,
því brúði og börn átti' hann heima
og bezt var að dvelja þeim hjá.

Hann flaug út að afla þeim fæðu,
og flýtti sér eins og hann gat,
því aumingja ungarnir litlu,
þeir æptu og báðu' hann um mat.

Að æti hann leitaði lengi,
og lúinn og þreyttur hann var;
í fjörunni' hann fann það um síðir
og fagnandi settist hann þar.

Hann bita með nefinu náði,
og nú vildi' hann flýta sér heim,
er snörurnar fjötruðu fætur,
hann fékk ekki losnað úr þeim.

Hann neytti þess afls, sem hann átti
— af engum er heimtandi meir —
en kraftarnir voru svo veikir,
æ, vesalings fuglinn! — hann deyr!

Nei, Fúsi um fjöruna gengur
og fuglinn í lífshættu sér,
þá hjarta' hans af meðaumkun hrærist,
hann hníf sinn á snöruna ber.

Ó, hugsið hve fuglinn er feginn,
er frelsaður leitar hann heim;
og Fúsi með fögnuði starir
á ferðir hans langt út í geim.

En guð sér af himninum háa,
hve hjálpsamur drengurinn er,
sem fuglinn úr lífshættu leysti,
hann letrar því nafn hans hjá sér.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Byrjunin.

Ólafur litli var að koma af barnastúkufundi. Þá mætti hann Lárusi í Gröf, leikbróður sínum. Þeir buðu hvor öðrum góðan daginn. „Ertu að koma af fundi“, sagði Lárus. Óli kvað það vera. „En að þú skulir ekki vera búinn að segja þig úr stúkunni enn þá. Þú ættir ekki að vera að draga það lengur, þar eð þú ætlar að gera það á annað borð; eða hefir nokkur hrært í þér, síðan við töluðum saman síðast“. „Nei“, svaraði Óli, „og ég segi mig úr stúkunni núna í vikunni. Auðvitað vill mamma að ég sé í henni áfram, en ég get ekki verið að leggja það á mig lengur“. „Það er alveg rétt“, sagði Lárus; „segðu þig úr henni undir eins í dag, og láttu gömlu konuna nöldra sér; hún, sem ekki getur vitað, að þú hafir það eins skemtilegt og aðrir. Ég segi það satt, ég kenni í brjósti um þig, að þú skulir ekki mega skemta þér eins og ég“. „Ég skal mega það innan skams“, sagði Óli, kvaddi félaga sinn og gekk heim.

Nú sagði Óli sig úr stúkunni, hvað sem móðir hans sagði; hún reyndi með öllu móti að fá hann til að vera kyran og sagðist kvíða því, að hann yrði drykkjumaður; hann vildi að eins geta verið með eins og hann Lárus og bragðað vín einstaka sinnum, þegar svo bæri undir, svo sem einu sinni á ári eða svo; en svo lítil vínnautn hélt hann, að aldrei myndi gera sig að drykkjumanni.

Óli hafði aldrei bragðað vín á æfi sinni, en úr því að hann var kominn úr stúkunni, fanst honum sjálfsagt að gera það við fyrsta tækifæri, til þess að vita, hvernig það væri á bragðið; hann vildi líka vita, hvaða áhrif áfengið hefði á sig; það vissi hann ekki; en svo ófróður mátti hann ekki vera til lengdar.

Nokkru eftir að Óli sagði sig úr stúkunni, gekk hann ofan í kaupstað og hitti þar Lárus

í Gröf. Lárus var í þetta þetta skifti enn þá háværari og fasmeiri en hann var vanur. Hann kallar á Óla og fer með hann undir, bát, sem þar stóð í fjörunni. Þegar þeir eru komnir þangað, tekur Lárus næstum því fult þramaglas út úr barminum og býður Óla að súpa á. Óli spurði, hvar hann hefði fengið þetta hnossgæti. „Hugsaðu ekki um það", sagði lárus, „en súptu bara á eins og maður". Óli bar glasið að munninum og sagði um leið: „Þetta er í fyrsta sinni, sem ég sýp á brennivíni, en það verður líklega ekki í síðasta sinni". Síðan saup hann á ofur lítið og skældi sig allan í framan, því að honum fanst það beiskt á bragðið; en Lárus hughreysti Óla með því, að þegar hann færi að venjast því, þá findi hann ekki til beiskjunnar. Og þegar Óli heyrði þetta ásamt öðrum uppörvunarorðum frá Lárusi, þá neytti hann þess, sem eftir var í glasinu, ásamt með félaga sínum.

Þó að Óli drykki ekki mikið, þá var það þó nóg til þess, að hann varð töluvert öðruvísi en hann átti að sér; hann var orðinn ölvaður. Þegar þeir félagarnir voru búnir með það, sem var í glasinu, þá skriðu þeir undan bátnum og ætluðu heim til sín. En í því bili komu þeir auga á ferðamannahesta, sem stóðu þar bundnir rétt hjá þeim. „Nú kæmi sér það vel að geta riðið heim til sín", sagði Lárus. „Við skulum fá okkur hesta; sko! hérna eru þeir". Óla fanst þetta svo sem sjálfsagt undir þeim kringumstæðum. Síðan leystu þeir sinn hestinn hvor. Óli sá þar silfurbúna svipu; hana tók hann og steig á bak. „Nú skulum við ríða eins og menn", sagði Lárus og keyrir hestinn, sem hann var á. Óli slær líka í hestinn sinn með silfurbúnu svipunni. Hesturinn var bráðfjörugur og tekur undir sig stökk mikið, svo að Óla svimaði og datt hann von bráðar af baki. Þá vissi hann ekki meira af sér; hann misti meðvitundina. Þegar hann raknaði við, var hann í rúminu heima hjá sér. Hann fann til óþolandi verkjar í öðrum fætinum og um hann var vafinn klútur og aðrar umbúðir; hann fann það, að hann gat ekki hreift þann fótinn, sem umbúðirnar voru um. Nú fór hann að gruna það, að hann væri fótbrotinn. Móðir hans kom þá til hans og sagði honum frá öllu saman. Óli hafði fótbrotnað, þegar hann datt af baki og legið þar lengi, áður en hann fanst, því að ekki hafði Lárus haft rænu á því, að segja til hans. Þegar Óli fanst var því fóturinn allur bólginn og beinin stóðu út úr skinninu; líka var hann meiddur á höfðinu. Læknirinn hafði sagt, að Óli yrði að liggja heilt ár í rúminu, áður en hann mætti fara á fætur. Þetta þóttu Óla hörð tíðindi og nagaði sig í handarbökin fyrir alt flanið og óhlýðnina við móður sína. En nú var það um seinan. Hann lá lengi í rúminu, og greri beinbrotið bæði seint og illa, og loksins þegar hann komst á fætur, var hann haltur, því að brotni fóturinn var styttri en hinn. Óli hugsaði nú, að hann skyldi ekki oftar baka sér annað eins óhapp með nautn áfengra drykkja; hann gekk því í æfilangt bindindi, undir eins og hann komst á fætur. En aldrei fær hann bætur á fótbrotinu, því að haltur verður hann alla æfi.

H. G.

---

☞ **Stafsetningu** á „Æskunni" verður breytt framvegis.

---


**„Æskan"**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., út um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun ⅕.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 23. júní 1898. | 18. tbl. |
|---|---|---|

## Vér hinir ungu.

VÉR, hinir ungu, erum þjóð
og Ísland móður köllum.
Vér komum saman, syngjum ljóð
með sætum rómi' og snjöllum.
Vér finnum vel, hvað Ísland er,
sem oss í sínu skauti ber.
Það er vort land, það vitum vér,
með vog og dal og fjöllum.

Vér elskum fúsir frónið það,
sem feður elska' og mæður,
Vér syngjum um þann sama stað,
sem systur og sem bræður.
Vér elskum fjöllin himinhá,
sem horfa yfir bygð og sjá,
sem bera undir björtum snjá
í brjósti rauðar glæður.

Vér erum frjálsir, unnum því,
sem aðrir frelsi kalla,
sér hreyfir löngun hjarta í,
sem hvetja skal oss alla:
að vita, hvað oss vinna ber,
að vita, hvað oss skyldast er.
Já, frelsi' og minning viljum vér
í vorn hlut láta falla.

*Bjarni Jónsson.*

## Dísa gamla.

(Framhald).

Þetta bréf var til mikillar ánægju bæði fyrir mig og börnin; við heyrðum það á því, að hann var enn þá góður drengur, eins og hann hafði altaf verið. Næst þegar póstur fór, skrifaði ég honum náttúrlega. Það er að segja, ég bað prestinn að skrifa fyrir mig, því það var ekki nema einstöku manni kent að skrifa þegar ég var ung, og mér hafði ekki verið kent það; hamingjunni sé lof, að þið eigið betra, sem nú eruð ung; nú er öllum börnum kent að skrifa. — Nú leið veturinn; ég fékk bréf frá Badda með hverjum pósti. Svo kom vorið, svo kom sumarið með blessaða sólina og sæluna, lífið og fjörið, og loksins kom sá tími, er von var á Badda heim. Það var 1. júlí, sem hann hafði skrifað mér að hann kæmi. Veðrið var yndislega fagurt, blæjalogn og sjórinn spegilfagur. Þegar klukkan var fjögur var von á skipinu, sem hann ætlaði að koma með. Það var víst ekki komið hádegi þegar börnin héldu að klukkan væri orðin fjögur, þau voru altaf úti og horfðu í sífellu út á sjóinn, en komu inn til skiftis, eitt í einu til þess að líta á klukkuna. Einu sinni var það, nálægt klukkan þrjú, að ég var frammi í eldhúsi, en þegar ég kom inn, var svolítill drenghnokki að klifrast upp á kistu; hann var átta ára gamall og hét Vilhjálmur, þar úr nágrenninu. „Hvað ætlarðu að gera upp á kistuna, Villi minn?“ spurði ég. „Æ, vertu ekki vond við mig! Ég ætlaði bara að færa klukkuna; krakkarnir segja að hann Baddi komi klukkan fjögur; ég kom inn fyrir löngu og þá var hún nærri því eins og hún er núna! Má ég ekki færa hana?“ „Það þýðir ekkert fyrir þig að færa klukkuna, Villi minn“, sagði ég, „ef þú gerir það, þá

verður hún ekki rétt, en Baddi kemur þegar rétt klukka er fjögur". „Já, en það er svo langt þangað til", sagði Villi og fór út. Loksins komu öll börnin hlaupandi inn til mín og sögðu mér að skip væri á ferðinni. Gvendur á Tóftum tók með sér kíki (sjónauka) og stökk niður að sjó. Þið sjáið hann með sjónaukann, og Árna á Bakka, þar sem hann bendir út á sjóinn á skipið, sem hann sér í fjarlægð; Jón í Hala er þar líka, en fleiri sjást ekki á myndinni. Skipið færðist óðum nær, en ekki gátu



þau enn séð með vissu, hvort Baddi var þar eða ekki. — „Þarna er hann!" sagði Gvendur loksins og þau vildu öll fá að horfa í sjónaukann til þess að sjá hann. Svo kom skipið að landi og varð þá heldur en ekki fagn-

aðarfundur, þegar Baddi steig á land. „Komdu sæll! komdu sæll!“ hrópuðu börnin hvert í kapp við annað; þau ruddust fram að sjónum og vildu öll vera fremst til þess að Baddi heilsaði þeim fyrst; hann ætlaði einu sinni ekki að komast í gegn um hópinn með töskuna sína á handleggnum til þess að heilsa mér. Á leiðinni heim hoppuðu þau og hlupu í kring um hann og réðu sér ekki fyrir gleði. „Er ekki dæmalaust gaman og gott að vera í Reykjavík?“ spurðu þau hvert í kapp við annað, „er ekki fjarska fallegt þar?“ eru allir þar á svona fínum fötum eins og þú?“ o.s.frv. Baddi var í nýjum fötum, ljómandi fallegum, sem honum höfðu verið gefin. Þó hann hefði haft tuttugu munna, þá hefðu þeir ekki dugað til þess að svara öllum spurningunum eða segja frá öllu, sem börnin vildu fá að vita. Svo fóru þau að segja honum hvað gjörzt hefði heima um veturinn, og það var margt.

(Framh.). [S. J. J.].

---

# Fræðibálkur.

## Ferhyrningsmál.

*Evrópa* (Norðurálfa) er 180,000 (eitt hundrað og áttatíu þúsund) ferhyrningsmílur.

*Asía* (Austurálfa) er 800,000 (átta hundruð þúsund) ferhyrningsmílur).

*Afríka* (Suðurálfa) er 550,000 (fimm hundruð og fimmtíu þúsund) ferhyrningsmílur.

*Ameríka* (Vesturálfa) er 750,000 (sjö hundruð og fimmtíu þúsund) ferhyrningsmílur.

*Ástralía* (Eyjaálfa) er 160,000 (hundrað og sextíu þúsund) ferhyrningsmílur.

Ferhyrningsmíla er það svæði, sem er ein míla á hvern veg (ferhyrnt). T. d. ef við hugsuðum okkur að hver línupartur í þessari mynd væri míla, þá væri myndin öll 9 ferhyrningsmílur, hver kafli 1 ferhyrningsmíla. Til þess að tákna ferhyrnings- er notað þetta merki: □. Það má tala



um □ faðma, □ álnir, □ fet og □ þumlunga o. s. frv. Ein míla (dönsk) er 4,000 faðmar, 1 faðmur 3 álnir, ein alin 2 fet, 1 fet 12 þumlungar o. s. frv. Ef þú hefur pappírsörk og vilt vita, hversu margir ferhyrningsþumlungar hún er, þá þarftu ekki annað en að mæla á henni einhverjar tvær randirnar, sem saman liggja, ef önnur röndin er t. d. 7 þumlungar en hin 4, þá skaltu margfalda saman 7 og 4, sjö sinnum fjórir verða sama sem 28. Pappírsörkin er þá 28 ferhyrningsþumlungar.



Þarna sérðu á myndinni, að kaflarnir eru 4 öðru megin, en 7 hinu megin og allir verða þeir til samans 28.

## Teningsmál.

Nú vitið þið, hvað það þýðir þegar talað er um ferhyrningsfet, en þá er eftir að vita, hvað er *teningsfet*. Ef þú hefur t. d. kassa, sem þú þarft að flytja með þér sjóveg, þá kostar flutningurinn eftir því mikið, sem kassinn er margir teningsþuml. Nú viltu náttúrlega vita, hversu mikið þú átt að borga. Þá mælirðu hæð kassans, lengd og breidd og margfaldar það alt saman. Það, sem út kemur, er tala þeirra teningsþumlunga, sem kassinn er. Ef hann er t. d. 2 þ. á hæð, 3 á breidd og 4 á lengd, þá margfaldast saman 2, 3 og 4 ($2 \times 3 \times 4$), það verða 24. Kassinn er þá 24 teningsþumlungar. Ef þið skiljið þetta ekki, þá biðjið fullorðna fólkið að skýra það fyrir ykkur. Svo getið þið mælt út hjá ykkur borðin, hurðirnar, gólfin, koffortin, kistlana og ýmislegt fleira. Þið getið mælt mynd-

irnar, sem hanga á veggjunum, blöðin og fleira.

## Séra Sigurður P. Sívertsen

er nú farinn héðan úr bænum og kominn suður að Útskálum. Hann prédikaði í síðasta sinni yfir börnunum í Good-Templarahúsinu 5. þ. m. og kvaddi þau. Það var auðséð og auðheyrt, að þau tóku nærri sér að skilja við hann, enda var það engin furða, því bæði hann og hinir guðfræðiskandídatarnir, sem haldið hafa þessar barnaguðsþjónustur í vetur, hafa látið sér mjög ant um að fræða þau og gjöra þau að góðum börnum í alla staði, og þetta hafa þeir gjört fyrir ekkert. Samkomur þessar verða ekki haldnar í sumar, en byrja aftur í haust.

## Föstudagur og sunnudagur.

**Föstudagur.**

(**Það er snjór, rigning, stormur og blautt að ganga**).

A. „Þetta er ljóta veðrið! Þú verður að búa þig vel, ef þú ferð út í dag, annars getur slegið að þér!"

B. „Uss! vertu alveg óhræddur um mig; ég fer í regnkápu og vatnsstígvél og svo er mér óhætt; en út verð ég að fara; annars gæti ég tapað einum 3 krónum. Það dugar ekki að tala um það, þótt veðrið sé ekki gott".

**Sunnudagur.**

(**Það er snjór, stormur og blautt að ganga**).

A. „Það er allra versta veður; þú ferð líklega ekkert út í dag?"

B. „Nei, ekki held ég það; ég get ekki verið að fara út í þetta illviðri. Ég ætlaði reyndar að fara í kirkju, en ég get það ómögulega. Ég er svo þreyttur og syfjaður og veðrið ófært".

**Föstudagur**

A. Hefurðu heyrt það, að Heimdellingar ætli að spila í kvöld kl. 6?"

B. „Nei, það hef ég ekki heyrt. Ég verð að fara og hlusta á það, hvað sem það kostar og hverju sem viðrar".

**Sunnudagur.**

A. „Hefurðu heyrt það, að í kveld verður prédikað kl. 5 og haldinn útbreiðslufundur í Good-Temlarahúsinu kl. 8?"

B. „Ójá, ég hef heyrt það; ég vildi gjarna fara þangað og hlusta á það hvorttveggja, en ég er svo þreyttur og máttlaus, að ég treysti mér ekki til þess, ég verð því að vera heima".

Ef þið skiljið þetta ekki, þá biðjið einhvern fullorðinn að skýra það fyrir ykkur. (Þýtt).

## Skrítlur.

A.: „Hvað á það að tákna, að á flestum konjaksflöskum eru 3 stjörnur á stútnum?"

B.: „Upphaflega táknaði ein stjarna það, að flaskan kostaði tvær krónur, tvær stjörnur það, að hún kostaði fjórar krónur og þrjár stjörnur, að hún kostaði sex krónur; en nú eru einnig þrjár stjörnur á ódýrari tegundunum, og mun það eiga að tákna þrjár „leiðarstjörnur": Ein bendir mönnum á sveitina, önnur í fangelsið og hin þriðja í kirkjugarðinn.

**„Æskan" á að vera borguð í júnímánuði.**

**„Æskan"**
kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., út um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun ⅕.
Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.
Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.
Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 7. júlí 1898. | 19. tbl. |
|---|---|---|

## Dísa gamla.

(Framhald).

Þau sögðu honum margar sögur af því, hvernig ýmislegt hefði farið, þegar þau voru að leika sér. „Ég var t. d. svo góður að fela mig“, sagði Jón, „að enginn gat fundið mig“. „Já, en ég var svo fljótur að hlaupa í stórfiskaleiknum, að enginn náði mér“, sagði Gvendur. „Og ég, og ég!“ sagði Árni, „þegar við fórum í bændaglímu, þá var ég svo sterkur og lipur, að ég feldi ykkur öll“. „En ég las bezt af öllum í vetur, þegar presturinn húsvitjaði“, sagði Sigga. Þau vildu öll láta Badda vita, að þau sköruðu fram úr í einhverju. — Svo þegar kofortið hans kom í land og hann opnaði það, þá þyrptust þau öll utan um hann, til þess að sjá, hvað í því væri; og þau sáu þar margt fallegt. Baddi hafði keypt ýmisleg leikföng í Reykjavík til þess að gefa krökkunum. Jóni gaf hann dálitinn lúður; Gvendi skip, Árna vasabók, Siggu brúðu o. s. frv. Þau réðu sér ekki fyrir gleði yfir þessum skrautgripum og þeim þótti verst að geta ekkert gefið Badda í staðinn. Ég ætla að biðja hann pabba að lána þér hann Rauð til þess að ríða út á sunnudaginn“, sagði Jón. „Já, og við skulum öll fara með honum!“ sagði Gvendur, „nema hún Sigga, hún verður að vera heima, því hún er svo ónýt að ríða; við verðum að fara hart!“ „Óne-ei-ei!“ sagði Sigga, „ég fæ hana gömlu Bleik hjá honum pabba, og ég get riðið henni hart“. Svona ræddu þau saman fram á kvöld, þá kvöddu þau Badda og fóru heim. Næsta sunnudag fór hann að finna prestinn og talaðist þá svo til, að hann varð hjá honum um sumarið. Ég nenni ekki að vera að segja þér alt, sem við bar um sumarið. Þegar liðið var langt fram í septembermánuð, bjóst Baddi í skólann aftur og presturinn flutti hann suður. Svona leið skólatíminn hans; honum gekk ágætlega vel og hann var altaf hjá prestinum á sumrin. Nú var hann kominn í 4. bekk og hafði til þess tíma verið mesti reglupiltur. Það var bindindisfélag í skólanum og hann fór í það fyrsta árið og hafði altaf verið í því. Þeir sem voru í efstu bekkjunum, þóttust vera of miklir menn til þess að ganga í bindindi, þeir sögðu, að það væri svo gott að fá sér í staupinu eftir prófin; það gekk þannig til, að neðribekkingar voru í bindindisfélaginu, en fóru úr því þegar þeir komust hærra í skólann og þeir gerðu sumir gys að „busunum“ (fyrstu bekkingum) og reyndu að fá þá til þess að drekka með sér, enda tókst þeim að leiða suma afvega, þótt hamingjan hefði enn þá verndað hann Badda



Dísa gamla.

minn frá því. Nú þótti þeim það óhæfa, að hann skyldi ekki fara að „vera með“, þegar hann væri kominn upp í 4. bekk; það var svo „busalegt“, sögðu þeir. Hann svaraði þeim aldrei öðru en því, að hún mamma sín hefði svo oft beðið sig að bragða aldrei vín, og þess vegna mætti hann ekki gera það. „Skammastu þín ekki að vera kominn í fjórða bekk og vera enn eins og busi“, sögðu skólabræður hans. „Þú verður aldrei maður með mönnum, ef þú lærir ekki að drekka; þú þykist ætla að verða embættismaður og getur þó ekki verið í félagsskap mentaðra manna? Sérðu þó ekki, að embættismennirnir og yfir höfuð flest fínt fólk drekkur vín? Mér þykir líklegt, að þú hættir að hugsa um sérvizkuna, sem kerlingarnornið hún mamma þín vildi láta þig fylgja; hún er uppi í sveit og veit ekkert hvað .gerist hérna“. „Það er sama“, sagði Baddi, „ég lofaði að gera það aldrei, og guð veit og sér ef ég svíkst um það, það er ljótt að vera svikari; presturinn okkar sagði einu sinni, að það væri bezti kostur, sem nokkur maður hefði, ef óhætt væri að reiða sig á það, sem hann segði; en það hlyti altaf að koma mönnum á kaldan klaka, ef ekki mætti trúa þeim. Ég hef lofað að bragða aldrei vín og ég geri það aldei“. Þeir hlógu að honum, gáfu honum langt nef og yfirgáfu hann í þetta skifti.

(framh.). [S. J. J.].

## Hvar búa stjörnurnar á daginn?

ÞANNIG spurði dálítill drengur hana mömmu sína.

„Stjörnurnar eru hinum megin við stóra fjallið þarna“, svaraði hún. „En á kvöldin koma allir fuglarnir, og þeir taka sína stjörnuna hver í nefinu og hengja hana fjarska varlega á örlítinn nagla á himninum. En geri þeir það ekki svo undur varlega, þá dettur hún og þá kemur stjörnuhrap“.

„Og hvað svo, mamma?“

„Og svo kemur svolítill engill og tekur stjörnuna á morgnana áður en hún slokknar, og lætur hana hinum megin við stóra fjallið“.

„Mamma — hvað eru englarnir? Eru það litlu börnin hans Guðs?“

„Já“.

„En heyrðu mamma! — hvernig eru englarnir?“

„Þeir eru eins og þú, þegar þú ert svo undur gott barn“.

„En af hverju fæ ég þá ekki vængi eins og englarnir? Fæ ég þá kannske þegar ég er orðinn stór?“

„Það getur vel verið, en þá verður þú að vera ósköp góður drengur“.

„Á ég að verða eins góður og þú?“

„Já, að minsta kosti eins góður“.

„En hvers vegna hefur þú þá ekki vængi?“

Þá brosti móðirin, vafði drenginn sinn að sér og kysti hann hvað eftir annað og sagði:

„Blessaði, inndæli unginn minn!“

(Úr Vilhelm Krag: „Den glade Löjtenant“).

*Hj. Sig.*

## Í skógi.

**Lag: „Tra-ra, tra-ra, tra-ra“.**

NÚ er mér svo glatt í geði,
gettu til hvað veldur því!
Ég nýt sællar sumargleði
Sögulandsins skauti í.
Ó, hvað fósturfoldin alla
faðmar blítt í strjálum skóg
upp til fjalla,
upp til fjalla' er gleði nóg.

*B. J.*

# Vitur hundur – heimskur maður.

MAÐUR nokkur var oft vanur að fara inn á veitingahús á hverju kveldi þegar hann hætti að vinna, og drakk þar út mikið af vinnulaunum sínum. Hann átti hund, sem fylgdi honum altaf og hafði hann vanið hann á að drekka vín. Hundurinn var loksins orðinn svo gráðugur í það, að hann fékst með engu móti til þess að fara út fyr en hann hafði fengið „bragð“. Einu sinni tekur veitingaþjónninn sig til og gefur honum svo mikið að hann verður fullur og getur ekki staðið; síðan er hann dreginn út úr veitingahúsinu. Hann reynir hvað eftir annað að standa upp, en dettur altaf jafnótt og lætur eins og hann sé alveg genginn af vitinu og veltist niður í rennurnar hvað eftir annað, allir sem inni voru þyrptust út til þess að horfa á hann. Þeim þótti þetta mjög hlægilegt, en þó voru þeir sjálfir næstum eins fullir og hundurinn, því þeir urðu að styðja sig við húsvegginn til þess að detta ekki. En það, sem einkennilegt er við þessa sögu, er það, að hundurinn vildi aldrei bragða vín upp frá þessu; ef einhver bauð honum það, þá ætlaði hann að bíta hann og þegar hann sá veitingaþjóninn, sem hafði fylt hann, þá urraði hann og fitjaði upp á trýnið. Hann mundi eftir því, hver áhrif vínið hafði haft á hann og gætti sín framvegis, hann langaði ekki til að verða drukkinn aftur; en húsbóndi hans drakk eftir sem áður, hann var ekki eins vitur og hundurinn. (Dýrav.).

# Stafsetningin nýja.

Sumir eru óánægðir yfir því, að stafsetning hefir verið breytt á „Æskunni“, en ég verð að biðja alla sanngjarna menn að athuga hvernig á því stendur. Ruglingur á réttritun hefir verið svo mikill, að alþýðan hefir ekki vitað, hvað væri rétt og hvað rangt. Nú hafa margir vitrustu og beztu menn komið sér saman um eina réttritun, sem ekki verði sagt með rökum að misbjóði málinu. Þessi nýja réttritun verður líklega höfð í flestum skólum næsta ár, bæði barnaskólum, alþýðuskólum og æðri skólum. Væri þá ekki hlægilegt að hafa aðra stafsetning á „Æskunni“, blaði barnanna, en þeim er kend í skólunum? Þetta vona ég að allir góðir menn athugi.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

# Fræðibálkur.

1. Þegar talað er um, hversu mikið afl ýmsar vélar, hafi, þá er vanalega miðað við hestafl, en hestafl er það erviði, sem þarf til þess að lyfta 480 pundum 1 fet á einni sekúndu.

2. Þegar talað er um hversu mikið skip beri, þá er það mælt í smálestum, en smálest er 2000 (tvö þúsund) pund.

3. Úr latínuskólanum útskrifuðust 300 stúndentar á árunum 1851—85, þar af urðu 80 ofdrykkjumenn, 27 komust að engri stöðu vegna drykkjuskapar, 10 sem fengu embætti voru reknir frá því af sömu ástæðum, og tveir urðu vitskertir í ölæði; þar að auki voru 20 á sama tíma, sem ekki komust í gegnum skólann vegna drykkjuskapar. Þetta voru flest menn vel af guði gerðir, menn sem kostað hafði verið miklum peningum til að menta; margir þeirra höfðu verið vonarstjarna foreldra sinna, er höfðu kostað þá af litlum efnum, menn sem hefðu getað orðið sjálfum sér og öðrum til gagns en urðu sjálfum sér til vanvirðu og öllum, sem höfðu elskað þá, til sárra leiðinda. Það er vel gert að fá sem

flesta menn í bindindi, til þess að forða þeim og öðrum frá jafnvoðalegri ógæfu og ofdrykkjan er.

## Skrítlur.

KENNARINN: „Þú kant enn þá ekkert í því, sem þú áttir að læra! Það þarf þolinmæði til þess að kenna þér. Ef ég væri ekki, þá yrðir þú mesti asni í heiminum“.

---

MAÐUR nokkur, sem átti 3 syni og 5 dætur, var spurður, hversu mörg börn hann ætti. „Ég á 3 syni“, svaraði hann „og hver þeirra á 5 systur; af því geturðu reiknað, hversu mörg börnin eru“. „Þau eru þá 18“, svaraði spyrjandinn.

---

ÓLI kom inn til afa síns og sagði: „Afi, ég kem bara til þess að bjóða þér góða nótt“. „Ég hef engan tíma núna“, mælti afi hans, komdu heldur í fyrramálið“.

---

KENNARINN: „Hversu margir íbúar eru í Svíþjóð?“

Árni: „4,531,864“ (fjórar miljónir, fimm hundruð þrjátíu og eitt þúsund, átta hundruð sextíu og fjórir).

Kenn.: „Ekki er það alveg rétt; getur þú sagt það, Pétur?“

Pétur: „4,531,863“ (fjórar miljónir, fimm hundruð þrjátíu og eitt þúsund, átta hundruð sextíu og þrír).

Kenn.: „Það er alveg rétt“.

Árni: „Já, en ég eignaðist litla systur í nótt, og ég hélt að ég ætti að telja hana með“.

---

MENN eiga að lesa eitthvað í góðri bók á hverjum degi; virða fyrir sér einhverja fallega mynd, hlusta á fagran söng, vinna eitthvert gott og fagurt verk. Skynsamur maður getur fylgt þessum heilræðum hvernig sem á stendur, eða að minsta kosti einhverju þeirra þótt hann hafi fáar bækur, þá er ekki annað en lesa þær upp aftur og aftur, *ef þær eru góðar;* þótt hann hafi ekki aðrar myndir en blómin í glugganum, þá hefir hann gott af að horfa á þau, eða frostrósirnar á rúðunum á veturna. Þótt hann heyri ekki annan söng en hlátur saklausra og góðra barna, eða fuglakvak, þá bætir það hann og mentar, og þótt hann hafi ekki tækifæri til þess að gera neitt annað gott en að rétta einhverjum hjálparhönd, sem vinnur að einhverju erfiðu verki (t. d. að ýta eftir, þegar einhver gamall maður eða kona neytir allra krafta til þess, að komast upp eftir brattri götu með vatnstunnu á sleða), og jafnvel þótt það sé ekki annað en að brosa vingjarnlega framan i einhvern, sem erfitt á og illa gengur. Alt þetta er fagurt og gott og miðar til þess að gera manninn sælan. (*Göthe.*).

# ÆSKAN.

Héðan af verður mynd í hverju blaði af „Æskunni“ það sem eftir er af þessum árgangi, þær verða því miklu fleiri en lofað var upphaflega.

---

ÓSKAÐ hefur verið eftir, að þess væri getið, að vísurnar í 15. tbl. eru ekki eftir *Ingólf* Gíslason, heldur *Ísleif* Gíslason.

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., út um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur 1. des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun ⅕.**

**Ritstjóri** *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* **stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 21. júlí 1898. | 20. tbl. |
|---|---|---|



**Myndin á við söguna á næstu síðu.**

# Slæm systir — góður drengur.

ÞAÐ var sumar og sólskin, í miðjum júlímánuði. Gunna átti að gæta hans Þórðar litla bróður sins, sem var á öðru árinu; mamma hennar var í laugum en pabbi hennar á sjó. Þórður var dálítið óþekkur og Gunna varð alt af að sitja undir honum. Hún horfði út um gluggann og sá að fjöldi barna lék sér á götunum. „Þú ert ljóti strákurinn!“ sagði hún við bróður sinn; „ég verð að hýrast inni með þig allan daginn, en hin börnin eiga svo þæg og góð systkini, að þau geta verið úti og leikið sér í góða veðrinu! ég nenni ekki að sitja lengur undir þér, strákurinn þinn“. Doddi litli horfði framan í systur sína hálfhissa; hann sá, að hún var eitthvað öðruvísi en hún átti að sér; loksins fór hann að „beygja af“. Gunna kastaði honum í rúmið hennar mömmu sinnar og fór út. „Ég ætla að láta hann eiga sig dálitla stund“, sagði hún, „hann gerir þó aldrei annað en grenja, strákvargurinn!“ Doddi fór að hágráta. — Gunna fór að leika sér við hina krakkana; hún ætlaði að vera að eins svolitla stund, en svo gætti hún þess ekkert, hvað tímanum leið. Þegar hún hafði verið nokkra stund úti, þá gekk dálítill drengur fyrir gluggann á húsinu hennar; hann heyrði til Þórðar, sem var að gráta, fór inn og sá, að hann var einn. Hann hafði dottið fram úr rúminu og lá á gólfinu: Drengurinn kendi í brjósti um hann, tók hann í fang sér og fór með hann út í góða veðrið. „Hættu að gráta, góða barn!“ sagði hann undurblíðlega. Svo fór hann ofan í buxnavasann sinn, tók þar upp 5 aura, sem hann hafði fengið fyrir einhvern snúning, gekk með litla Þórð að stórri og fallegri sölubúð, sem þar var í nánd og keypti fyrir þá eitthvað gott handa honum.

Þið sjáið drenginn, þar sem hann stendur með Þórð í fanginu fyrir utan búðina. Svo sjáið þið líka gamlan mann með poka á bakinu, til vinstri handar á myndinni. Það er faðir hans Þórðar og hennar Gunnu; hann er að koma heim neðan frá sjó með soðningarpoka, kaldur og þreyttur, aumingja karlinn. En hvernig haldið þið að honum hafi orðið við, þegar hann kom heim og þar var enginn? Honum varð mjög bylt við, en hann huggaði sig við það, að konan sín hefði farið í næsta hús og haft börnin með sér og kæmi því bráðum aftur. Svo kom konan; hún spurði, hvar þau væru, Gunna og Doddi, og þegar maður hennar sagði, að þau hefðu eigi verið heima þegar hann kom, þá bað hún guð að hjálpa sér; hún vissi varla hvað hún átti að hugsa. — Nú er að segja frá Gunnu. Þegar hún hafði leikið sér lengi, þá fer hún loksins heim, og þá eru þau bæði komin, pabbi hennar og mamma, en Doddi er horfinn. Gunna hljóðaði upp yfir sig af sorg og stökk undir eins út að leita. Loksins fann hún drenginn með Þórð fyrir framan búðardyrnar; hún þekti jafnskjótt bróður sinn og spurði drenginn, hvernig á því stæði, að hann væri þarna með hann. „Hann hljóðaði svo mikið og enginn var í húsinu, svo ég kendi í brjósti um hann og reyndi að hugga hann“, sagði drengurinn. „Ég var á leiðinni til þess að leika mér við krakkana á Hóli, en ég hætti við það, þegar ég heyrði að barnið var að gráta og sá að enginn hirti um það. Þekkir þú barnið nokkuð?“ spurði hann að síðustu. „Já, það er bróðir minn“, svaraði Gunna og dauðskammaðist sín fyrir það, hversu ósysturlega hún hafði breytt við hann. Hún tók hann og fór með hann heim og þakkaði drengnum fyrir. Hún hljóp aldrei oftar frá honum einum. Þið getið nærri, hvort ekki hafi orðið fagnaðarfundur, þegar Gunna kom aftur heim með Dodda. — Hafið þið aldrei

hlaupið svona frá systkynum ykkar, þegar þið áttuð að gæta þeirra? Ef þið hafið gert það, þá gerið það aldrei oftar.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Dísa gamla.

(Framhald).

Félagar Badda hættu ekki við hann þótt svona færi. „Þeir hafa margir verið tregir til fyrst“, sögðu þeir, „og fastir við kerlingakreddurnar úr sveitinni, en þeir hafa smámsaman lært að „vera með“ og við skulum sjá hvort Bjarni lagast ekki líka“. „Nú verið ég að fara fljótt yfir söguna“, sagði Dísa, „ég vildi helzt ekki segja meira af henni“.—Hún fór að gráta. Ég þurkaði tárin framan úr henni með hendinni. „Loks—Loksins“, sagði hún, „tókst þeim að ginna hann. Þeir—þeir höfðu einhvern tíma fengið hann til að „vera með“ og upp frá því gætti hann sín ekki. Hann hætti að skrifa mér nema einstöku sinnum og ég frétti ýmislegt um hann. Ég bað hann eins vel og ég gat í bréfum mínum, að halda áfram að vera siðsamur drengur, en hann svaraði því fáu. Það var auðvitað á nokkuð löngum tíma, sem hann var að verða svona, en ég get ekki sagt þér það nákvæmar, ég verð að flýta mér með söguna“. Ég fór líka að gráta, ég kendi í brjósti um hana Dísu mína. „Loksins lagði hann lag sitt við ýmsa slarkara“, sagði hún „og strauk einhverju sinni með útlendu fiskiskipi — guð hjálpi honum og mér — ég hef ekki séð hann síðan, hamingjan má vita hvort hann er lífs eða liðinn“. Nú datt mér alt í einu í hug vísa, sem Dísa söng oft í rökkrinu við kvörnina, þegar hún var að mala og þá var stundum gráthljóð í röddinni. Vísan er svona:

„Hver minsti blær, sem berst um lög og storð,
þótt blási' hann ei svo hart að nokkur finni,
mér virðist hvísla, segja einhver orð,
sem ótal strengi snerta' í sálu minni“.

Nú skildi ég þessa vísu, ég hafði aldrei skilið hana fyr. „Er langt síðan Baddi fór?“ spurði ég. „15 ár“, svaraði Dísa. Nú skildi ég líka, hvernig á því stóð, að Dísa mín var sveitarkerling, þótt ég hefði aldrei viljað trúa því áður og orðið vond við strákana, þegar þeir kölluðu hana það. — Það var vininu að kenna.

Þegar Dísa hafði nýlega endað söguna var barið að dyrum, ég fór út og við dyrnar stóð fremur ungur maður, laglegur og vel búinn. „Er ekki hérna kona, sem Þórdís heitir?“ spurði hann; ég sagði það vera; „ég hef hérna bréf til hennar“, sagði maðurinn, „ég var beðinn að fá henni það sjálfur, get ég fengið að finna hana?“ „Já“, sagði ég, hljóp inn og sagði Dísu fréttirnar. Hún varð alveg hissa á því, að nokkur maður skyldi skrifa henni. Það var svo langt síðan hún hafði fengið bréf og hún þekti svo fáa. Hún staulaðist fram. Maðurinn heilsaði henni, virti hana nákvæmlega fyrir sér og fékk henni bréfið. „Verið þér sælar!“ sagði hann svo jafnskjótt, „ég lofaði að fá yður bréfið sjálfur, en er á hraðri ferð og verð því að halda áfram“. „Guð fylgi yður“, sagði Dísa og virti fyrir sér bréfið. Ég horfði framan í hana og tók eftir því, að hún breytti litum. Það var auðséð, að hún komst í mikla geðshræringu, þegar hún sá bréfið, en ég hélt, að það væri alt eftir söguna; síðar fékk ég þó að vita, að það var ekki beinlínis. (Framh.). [S. J. J.].

## Ljótur siður.

Algengt er það hér í bænum, að þegar fólk hefur „riðið út“ á daginn, þá fær það drengi til þess að koma hestunum aftur í haga. Sumir þessara drengja fara mjög ógæti-

lega og illa með hestana. Ég hef stundum verið staddur uppi á Laugavegi og séð til þeirra. Þeir ríða hestunum svo hart sem þeir komast, berja þá með fótum og svipum og pína þá áfram miskunarlaust. Það má þó nærri geta, að þeir eru stundum farnir að þreytast að kveldi, þegar einhver hefur riðið þeim allan daginn, ef til vill drukkinn og tæplega með sjálfum sér, eins og því miður á sér oft stað í þess-konar ferðum. Vilja nú ekki allir góðir drengir hér í bænum taka sig saman um það, að fara altaf sem bezt og gætilegast með hestana, þegar þeir flytja þá? Ég vonast til þess, að þeir segi allir „jú“ og láti bara slæmu drengina fara illa með hestana, en ég vona að slæmu drengirnir séu fáir — helzt engir. Ég ætla að taka eftir þeim, þegar þeir hafa lesið þetta blað; ég er oft á Laugaveginum og get verið þar, þótt þeir taki ekki eftir. [S. J. J.].

## Gátur.

1. Maður nokkur var sendur í kaupstað til þess að sækja vín. Þegar hann fór heim aftur, mætti hann manni, sem líka ætlaði að kaupa vín, en hann sagði honum, að það væri alt upp gengið. Maðurinn bað hann að láta sig þá fá nokkuð af því, sem hann hefði keypt. „Ég hef tvo kúta fulla“, sagði hann. „Annar tekur 5 potta en hinn 3. Þú hefur einn áttapottakút, og ef þú getur helt þannig á milli í kútunum, að helmingurinn (4 pottar) verði í þínum kút, þá skaltu fá það. — Hvernig fór hann að því.

2. A. bað B. að lána sér 2 kr. „Ég skal gera það“, sagði B., „ef þú borgar mér þær eftir 4 mánuði margfaldaðar með sjálfum sér. „Það verða 4 kr.“, sagði A., og sökum þess, að honum lá á peningum, gekk hann að þessu. „Já, ég lána þér tvö hundruð aura“, sagði B. og A. stóð það náttúrlega á sama; það voru tvær krónur. „Og þú manst eftir, að þú átt að borga þettta margfaldað með sjálfu sér!“ sagði B., og A. kvaðst muna það. Svo kom gjalddaginn. A. ætlaði að borga 4 kr., en B. kvað nei við: „Það er of lítið!“ sagði hann. Hversu mikið haldið þið, að hann hafi heimtað? Hann lánaði 200 aura og þið munið hvernig samningarnir voru.

3. Maður kom til kunningja síns og bað hann að skifta fyrir sig ferhyrningi í 5 parta, kringlótta, alla jafnstóra og láta ekkert ganga af. Hvernig fór hann að því?

## Skrítlur.

PRESTURINN: „Hvernig er sjöunda boðorðið?“

Drengurinn: „Þér eigið ekki að stela“.

Pr.: „Ekki er það þannig orðað; það er: „Þú átt ekki að stela“.

Dr.: „Já, en ég vildi ekki segja ‚þú‘ við yður“.

---

KONA NOKKUR benti gesti á mynd, sem hékk á veggnum í stofunni hjá henni, og sagði: „Þetta er mynd af langafa mínum; það var nú karl, sem ekki lét sér alt fyrir brjósti brenna; hann misti altaf annaðhvort hönd eða fót í hverri orustu, sem hann háði — og þær voru 24“.

„Æskan“
kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.

Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.

Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.

Fjelagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

I. árg. | Reykjavík, 4. ágúst 1898. | 21. tbl.



Um kveld ég geng, er sólin signir lönd
og svalur andi leikur mér um kinnar;
ég finn það glögt, að guðleg náðarhönd
mér götu bendir heim til dýrðar sinnar.

Hún bendir mér á skrautleg skógarblöð,
er skjól og huggun þreyttum sálum veita;
hún bendir mér á heims og hluta röð,
sem hvorki vit né afl né tími breyta.

Hún bendir mér á himinfjöllin há,
sem huga mínum upp frá dufti lyfta;
hún bendir mér á marardjúpin blá,
sem mannkyn greina, löndum sundur skifta.

Hún bendir líka' á marga mædda brá,
sem mér og þér er heilög skylda' að þerra;
og ef vér stöndum iðjulausir þá,
mun örðug leiðin til vors náðarherra.

Ég óska' að synd mig aldrei bindi' í bönd
né blindað geti augu sálar minnar,
svo gleymi' eg því, að guðleg náðarhönd
mér götu bendir heim til dýrðar sinnar.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

# Dísa gamla.

(Framhald).

Eftir að Dísa hafði horft á bréfið nokkra stund, reif hún það upp og byrjaði að lesa:

„Staddur á Krít* 22. maí 18 . .

Elskulega móðir!

Þegar Dísa sá, hvernig bréfið byrjaði, fletti hún við og neðan undir stóð „Baddi". Hún varð glaðari en frá verði sagt og hélt nú áfram að lesa:

„Það eru liðin mörg ár síðan ég sá þig síðast og þú hefur sjálfsagt búist við að ég væri dáinn fyrir löngu, eða að minsta kosti að þú sæir mig aldrei oftar eða fréttir til mín. Ég vona nú samt, að ekki verði langt þangað til ég finn þig, ef guð gefur mér líf og heilsu. Ég var þér slæmur sonur, þegar ég var heima, svo slæmur, að ég skammast mín fyrir að láta þig sjá mig aftur, en ég ætla samt að koma áður en langt líður og ég skal lofa þér því, að vera þá góður sonur. Ég á það guði og góðum mönnum að þakka, að ég sneri af þeirri braut, sem ég hafði byrjað, og ég vonast til að hugsunarlausum gárungum takist aldrei að leiða mig út á hana aftur. Ég er nú orðinn reglusamur maður, og ég má til með að segja þér, hvernig á því stóð, að ég varð það. Þegar ég fór að heiman, réðst ég á skip, sem fór á milli landa. Ég drakk alt af, þegar færi bauðst; eyddi öllu, sem ég vann mér inn, og leysti illa af hendi þau verk, sem ég átti að vinna; ég var rekinn burt eftir nokkurn tíma fyrir óreglu; þá komst ég á annað skip og það fór á sömu leið. Þetta gekk í mörg ár. Ég var á sífeldum hrakningi, oft svangur, klæðlítill, kaldur og votur. Mér leið ákaflega illa og nærri verst þær stundirnar, sem ég var ódrukkinn, því þá var ég að hugsa um það, hversu illa ég hefði farið að ráði mínu. Ég sá það, að allir litu til mín hornauga og þá mintist ég þeirra daga, — þeirra sælu daga — þegar ég kom heim á sumrin úr skólanum og allir voru svo góðir við mig. Ég mintist þess, hversu mikið far þú hafðir gjört þér um að koma mér til manns, hversu hraparlega það hafði mistekist og hvílík raun það hlyti að vera fyrir þig. Ég hugsaði um það, hversu vel þeim liði mörgum skólabræðrum mínum, hversu nýtir menn og góðir þeir væru orðnir, en ég eyðilagður, gjörspiltur drykkjumaður, flúinn burt frá blessaðri ættjörðinni minni, sem ég var orðinn til skammar, frá þjóðinni minni, sem hafði kostað mig til verra en einskis, frá öllum vinum, öllum leiksystkinum, öllum kunningjum, öllu sem ég þekti. öllu sem ég elskaði. Stundum kendi ég í brjósti um sjálfan mig, sem hafði verið leiddur út í þessa ógæfu eins og annað barn; stundum beit ég á jaxlinn og bölvaði þeim, sem höfðu verið svo vondir menn, að þeir gátu fengið það af sér að gjöra saklausan ungling að viðbjóð og andstygð allra manna; stundum ásakaði ég sjálfan mig fyrir það, hversu einfaldur ég hefði verið, að láta þannig tilleiðast. Ég gat með engu móti þolað þessar hugsanir; ég varð að bæla þær niður með einhverjum ráðum og ráðin urðu oftast þau – að drekka, halda áfram að drekka. Þetta gekk lengi og ég flæktist víða um lönd. Einu sinni var ég á siglingu og komst í kunningsskap við mann einn, sem gjörði sér meira far um að kynnast mér en nokkur annar maður hafði gjört. Hann talaði við

*) Krít er eyja í Miðjarðarhafinu.

mig vingjarnlega og var mjög kurteis og siðprúður maður. Þetta varð til þess að mér fór að þykja vænt um hann. Einu sinni vorum við á siglingu fram með ströndum Englands og komum þar í land til þess að fá vatn. Það var um kveld. Þegar við lentum, gengum við saman, þessi maður og ég — hann hét Hansen. — Við komum að húsdyrum, þar sem fult var af fólki. Ég sá að maður stóð fyrir miðjum gafli inst inni í húsinu og var að halda ræðu. „Við skulum komast dálítið innar", sagði Hansen, „og taka vel eftir, hvað hann segir". Ég hlustaði. Hann var að segja sögu og mér fanst sem ég kannaðist við hana. — Það var dæmisagan um hinn týnda son. Hann sagði hana alla til enda og svo hélt hann langa ræðu og lagði út af sögunni. Mér fanst alveg eins og *hann talaði* hvert einasta orð til mín. Einu sinni leit hann beint fram — mér sýndist hann líta á mig — og sagði: „Er enginn maður hér inni, sem er týndur sonur? Jú, ég veit að þeir eru margir — fjöldamargir; en er þá enginn af þeim, sem vill kannast við það? vill enginn snúa heim aftur, eins og sá gjörði, sem dæmisagan getur um? . . ." Ég þoldi þetta ekki lengur; ég fór að gráta og gekk út. Mér fanst alveg eins og öllum þessum manngrúa hefði verið stefnt saman til þess að segja honum söguna af mér, til þess að láta hann vita, hvílíkur ræfill ég væri. Ég vissi ekki hvað ég átti að gjöra, mér fanst ég gæti ekki lifað lengur; tilfinningarnar ætluðu að bera mig ofurliði. Þá datt mér í hug þessi setning, sem maðurinn sagði: „Vill enginn af þeim týndu sonum, sem hér eru inni, snúa aftur heim eins og sá gjörði, er dæmisagan getur um?" Nú var eins og ég vaknaði af svefni; ég ásetti mér að „snúa heim aftur", snúa af röngum vegi á réttan og reyna að verða maður aftur. Ég hætti að drekka og fór að vinna með einbeittum vilja og brennandi áhuga; ég komst brátt í álit bæði hjá yfirmönnum mínum og samþjónum og aflaðist töluvert fé á skömmum tíma. Ég get aldrei fullþakkað vini mínum Hansen fyrir það, að hann fór með mig inn í þetta hús, eða manninum, sem hélt ræðuna. Hansen fer innan skams til Íslands; ég sendi þér þetta bréf með honum. Ég hefi kent honum íslenzku í frístundum mínum og hann hefur borgað mér það margfaldlega. Sjálfur kem ég heim til þín eftir 3 mánuði, ef ég lifi. Ég vil snúa heim til þín aftur, eins og týndi sonurinn í dæmisögunni, og ég vonast til að þú takir á móti mér með sama hugarþeli og faðir hans tók við honum. Ég skal reyna að gjöra þér lífið létt það sem eftir er æfinnar.

Heilsaðu öllum mínum fornkunningjum. — Lifðu eilíflega sannfarsæl, elsku móðir mín; þess óskar þinn *Baddi*".

(Framh.) [S. J. J.]

---

## Þjóðminningardagurinn 1898.

Þar var margt fallegt að sjá og heyra, en þar var líka margt *ljótt* að sjá og heyra. Þar voru nokkrir menn viti sínu fjær af vindrykkju, sem skriðu á fjórum fótum eins og dýr í stað þess að ganga uppréttir á tveimur; vesalings ræflarnir! Það var grátlegt að horfa á þá, en þó leit svo út sem sumir hefðu ánægju af því. Menn söfnuðust í kring um þá til þess að hlæja að heim, hrinda þeim, henda í þá, rífa af þeim höfuðfötin eða skóna, bregða fyrir þá fæti og jafnvel berja þá. Hvernig stendur á því að menn geta enn þá fengið það af sér að vera svona miskunnarlausir? svona óguðlegir níðingar. Hvernig stendur á því, að ekki skuli hver maður skammast sín fyrir jafnósæmilegt athæfi? Er það ekki nóg að veitingamennirnir hafi tálgrafir, net og snörur á hátíðarstaðnum til

þess að hátíðin geti orðið, ekki einungis Reykjavík, heldur öllu landinu til vanvirðu, til svívirðu? Er það ekki nóg, segi ég, þótt aðrir hjálpi ekki til að gjöra það enn þá verra. Ég vildi óska að börnin létu ekki sjá sig í þeirra flokki á næstu hátíð, sem hafa það til skemtunar, að hrinda druknum mönnum og kasta í þá. Þau tóku drjúgan þátt í því 2. ágúst síðastl. Það var sorglegt. Munið eftir vísu, sem þannig hljóðar:

„Altlitandi himins herra
horfir eins í barnarann:
öll vor verk og alt hvað hugsum
einmitt núna ritar hann“.

Haldið þið að það hafi alt verið fallegt, sem hann varð að skrifa í bækurnar ykkar 2. ágúst? Ég skal seinna segja ykkur nokkrar sögur af því, sem ég sá og tók eftir á hátíðinni, og gætið að, hvort þið kannist ekki við sumar af þeim.

**S. J. J.**

## Segðu mér sannleikann, vinur!

Segðu mér sannleikann, vinur!
Sannleikur einn er mér kær.
Enginn á fold er svo fagur,
fríður og bjartur og skær.

Segðu mér sannleikann, vinur!
Sannleikur byggi þér hjá,
frelsi og helgi og hreinsi,
hefji þig duftinu frá.

Segðu mér sannleikann, vinur!
Sannleikur eilífur er.
Skrýðir hans yndi þitt andlit,
eilífa farsæld þér lér.

*David.*

## Blinda músin.

Maður nokkur var á gangi og sá, hvar 3 mýs fóru yfir læk eftir borði, sem var lagt yfir hann. Manninn furðaði á því, að þær voru altaf samsíða. Þegar hann gætti betur að, sá hann að þær héldu allar utan um sama stráið með munninum. Honum þótti það skrítið, að þrjár mýs skyldu bera eitt lítið strá, en hann stóð grafkyr þangað til þær komu rétt að honum. Þá sá hann að músin, sem var í miðið, var blind og hinar tvær höfðu þessi ráð til að koma henni yfir lækinn. Þær hafa að líkindum verið börn blindu músarinnar.

**(Eftir „The Children's Record“).**

## Þetta álíta Englendingar ósæmilegt:

1. Að hlæja mjög hátt.
2. Að lesa þegar aðrir tala.
3. Að lesa hátt, án þess að vera beðinn um það.
4. Að tala þegar aðrir lesa eða skrifa.
5. Að skera eða bíta neglurnar, þegar aðrir eru viðstaddir.
6. Að hrækja á gólfið, eða reykja án leyfis þar sem maður er ókunnugur.
7. Að horfa forvitnislega á ókunnugt fólk.
8. Að vera ókurteis við gamalmenni.
9. Að hæla sjálfum sér.
10. Að taka fram í þegar aðrir tala.
11. Að setja út á búning annara.
12. Að hlusta ekki á þegar einhver heldur tölu.

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.**

**Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**

Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 12. ágúst 1898. | 22. tbl. |
|---|---|---|

## Bátarnir hans Manga.

Oftast, þegar börnin eru að leika sér, þá er það sitt hvað, sem þau hafa gaman af. Sum vilja altaf vera að byggja, önnur að smíða og enn önnur að sigla skipum á tjörnum og pollum o. s. frv. Það er sagt, að snemma beygist krókurinn til þess sem verða vill og það sannast þar. Það kemur brátt í ljós, hvað börnin eru hneigðust fyrir. Þegar Mangi var lítill bjó hann sér til smáskip úr öllu, sem hann náði í, og fleytti því á tjörninni eða læknum, sem rann skamt frá bænum. Hann hafði fyrst til þess skeljar og átti ósköpin öll af þeim. Svo bað hann alla, sem hann náði í, að búa til fyrir sig skip úr flotholti og það var ekki orðinn neinn smáræðis skipastóll, sem hann átti. Hann átti langt um fleiri skip en helztu útvegsbændurnir í nágrenninu. Hann bygði naust (skipakví) fyrir bátana sína og lét þá þar á hverju kvöldi í röð. Hann hafði nafn á þeim öllum og skírði þá eins og formennina þar í veiðistöðinni. Jón í Nesi var alt af sjálfsagður að róa fyrstur og fiska mest. Hann hafði stærsta skipið og bezt útbúið; Manga hafði verið gefið það í afmælisgjöf. Svo voru mörg önnur, sem altaf fóru af stað á eftir honum. Árni í Naustum fór altaf síðastur; hann var minstur sjósóknari. Þegar gott var veður fór Mangi bráðsnemma á fætur til þess að koma bátunum sínum á flot og eftir litla stund sást segl við segl á tjörninni. Fjöldi barna safnaðist til hans og jafnvel fullorðnir höfðu hina mestu skemtun af því að horfa á hann. Það var gaman að hlusta á hann á morgnana, þegar hann var að koma út bátunum sínum. Þá talaði hann ósköpin öll við sjálfan sig og þóttist þá altaf vera að tala við sjómennina. — „Það er allra bezta veður, og þú ert enn þá ekki róinn, Halldór



á Bala“, sagði hann stundum, „Árni í Króki er kominn fram á Svið fyrir löngu; og ég tala nú ekki um hann Jón í Nesi; klukkan orðin 7 og rennandi leiði báðar leiðir. Farið þið undir eins að skinnklæða ykkur, piltar“. Svona lét hann dæluna ganga á meðan hann var að setja bátana á flot. Þá var ekki minna um að vera á kveldin þegar komið var að. Hann hafði sérstakan stað fyrir hvert skip og það mátti ekki bregðast, að öll væru í réttri röð; skorðuð hvert við hliðina á öðru og ekkert var honum ver gert en það, ef þau voru eitthvað færð úr skorðum. Hann varð jafnvel hálfreiður við hann Snata einu sinni, þagar hann stökk yfir skiparéttina og feldi nokkra báta á hliðina; annars var Snati uppáhaldið hans og var altaf með honum. Mangi talaði töluvert upp úr svefninum og það var altaf eitthvað um bátana hans, eða sjóinn eða veðrið. Nú er Mangi orðinn fulltíða maður. Hann er einhver heppnasti formaðnr og mesti sjósóknari í sinni veiðistöð. Hann vandi sig undir eins á það, að hafa alt í röð og reglu, sem heyrði til bátunum hans, og hann hefur haldið þeim sið. Þeir, sem venja sig á reglu, þegar þeir eru ungir, þótt í smáu sé, þeir verða vanalega reglumenn á fullorðinsárunum. [S. J. J.].

## Sólarlag.

**Lag: Lyksalig, lyksalig hver Sjæl som har Fred.**

Vor blessaða sól er nú hnigin hafs við brún,
en loga-gylta' á himininn ritar hún rún.

Og inndælum kvöldroða' hún dreifir yfir dröfn;
á smáöldunum dans stiga gullin geisla-söfn.

Og kvöldblærinn andar svo yndislega hlýr;
á himni, jörðu' og hafi guðs helgur friður býr.

En kveldroðinn dofnar og hverfur ótt, svo ótt,
hin þögla, kyrra, draumfagra nálægist nótt.

Það skyggir, það skyggir, hinn bjarti dagur deyr
og himintjöldin dimmbláua altaf meir og meir.

En þá koma stjörnurnar, þúsund sólnafjöld!
Ó, yndislega guðdómleg eru svona kvöld!

* * *

Ó, ljúft væri' og inndælt að festa feigðarblund
svo fagurlega' og rótt eins og þessi' er aftanstund.

*B. Þ. Gröndal.*

## Dísa gamla.

(Niðurlag).

Fyrst þegar Dísa byrjaði að lesa bréfið, var það auðséð, að hún bæði kveið fyrir því að lesa það og hlakkaði til þess; hún var á milli vonar og ótta. Henni þótti innilega vænt um það að sjá, að Baddi var á lífi og langaði til þess að vita eitthvað um hann, en hins vegar óttaðist hún það, að fréttirnar yrðu ekki sem fegurstar. Eftir því sem hún las lengra, glaðnaði yfir henni. Þegar hún hafði lesið bréfið til enda, lofaði hún guð og gæfuna og réði sér tæpast fyrir gleði. Allir samglöddust henni og ekki sízt ég. Ég vonaðist til þess, að strákarnir þyrftu nú ekki lengur að kalla hana sveitarkerlingu. Ég hugsaði mér, að Bjarni væri sjálfsagt sterkur og ég spurði Dísu hvort það væri ekki. „Hvers vegna spyrðu að því?“ svaraði hún. „Ég ætla að biðja hann að berja strákana þegar hann kemur“, svaraði ég, „fyrir það, hvað þeir hafa verið vondir við þig; ég ætlaði að gera það þegar ég væri orðinn stór, en það er gott, að Bjarni getur gert það fyr“. „Ónei, góði minn“, svaraði Dísa, seildist upp á hylluna fyrir ofan rúmið sitt, tók þar biblíuna, fletti upp í henni og benti mér á þessi orð:

„Faðir, fyrirgef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gera“.

„Hugsaðu um þessi orð“, sagði hún, „og biddu guð að fyrirgefa öllum þeim, sem gera eitthvað ljótt eða rangt, gleymdu því aldrei“. „Ég dauðskammaðist mín, blóðroðnaði og sneri mér undan, því Dísa hafði svo oft brýnt þetta fyrir mér áður.

Nú leið til þess tíma, að Bjarna var von. Hann kom á ákveðnum degi. Ég þarf ekki að segja ykkur frá því, hvílíkur fagnaðarfundur varð, ekki einungis með þeim, móður hans og honum, heldur einnig öllum öðrum, er höfðu þekt hann.

Síðan eru liðin mörg ár; Bjarni fór að vinna og var mesti reglumaður; hann annaðist móður sina sómasamlega og ávann sér ást og virðing allra góðra manna. Nú er Dísa dáin; Bjarni fylgdi henni með söknuði til grafar og fjöldi fólks lagði blómsveiga á leiðið hennar; mig langaði til að gera það líka, en ég gat það ekki. Ég fór inn í kirkjugarð um kveldið og feldi mörg tár á leiðið hennar til merkis um sáran söknuð. — Og ég geng þangað altaf á hverju kveldi. Þið haldið ef til vill, að það hafi enga þýðingu, en ég segi ykkur satt, að ég hef haft mikið gott af því; það hefur mint mig á ótal margt fallegt og gott og göfugt, sem Dísa mín hafði sagt mér og kent; það er því að þakka, að ég hef ekki gleymt því, ég er miklu betri maður fyrir kveldgöngurnar inn í kirkjugarðinn, og ég ætla að halda þeim áfram svo lengi sem mér er mögulegt.

Nú er enduð sagan af henni Dísu gömlu. Bjarni er vel metinn og heiðvirður maður. Sagan á að sýna ykknr það, að þótt einhvern tíma kunni svo að fara, að þið breytið öðruvísi en þið ættuð að gera, þá eigið þið að snúa aftur og bæta það alt, sem ykkur hefur yfirsést, eins og Bjarni gerði.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

# Fræðibálkur.

**Fundur Íslands.** Þið vitið náttúrlega mörg, hver það var, sem fyrstur tók sér bólfestu á Íslandi, en ég efast þó um, að þið vitið það öll. Það var af tilviljun, að Ísland fanst fyrst.

Nokkrir menn ætluðu að sigla frá Noregi til Færeyja, en viltust á leiðinni og komu til Íslands. Þeir nefndu landið Snæland, sökum þess, að fjöllin voru snævi þakin, og höfðu hér skamma dvöl. Nokkru síðar fór Flóki víkingur frá Noregi í því skyni að leita Íslands. Hann hafði með sér 3 hrafna, og þegar hann hafði siglt lengi, slepti hann einum hrafninum, en hann kom jafnskjótt aftur; nokkru síðar slepti hann öðrum, en hann flaug burt og kom ekki aftur; þá slepti Flóki þriðja hrafninum; hann flaug á undan skipinu þangað til menn sáu land. Fyrir þessa sök var Flóki nefndur Hrafnaflóki. Hann sigldi nálega umhverfis alt landið og skoðaði það nákvæmlega, en féll það illa í geð og lastaði hann það mjög, þegar til Noregs kom. Einn af fylgdarmönnum Flóka sagði bæði kost og löst á landinu, en annar, sem Þórólfur hét, lofaði það mjög og sagði, að þar drypi smjör af hverju strái. Fyrir þetta var hann nefndur Þórólfur smjör.

Um þetta leyti var konungur í Noregi, sem Haraldur hét. Hann vildi neyða bændur til þess að gjalda sér skatt af eignum þeirra. Þetta líkaði þeim illa og flýðu því landið. Sumir leituðu til Færeyja og eyjanna kring um Skotland, en flestir fóru þó til Íslands; fluttu með sér alt lausafé, en yfirgáfu jarðir sinar.

Sá sem fyrstur flutti hingað í því skyni að ala hér aldur sinn, hét Ingólfur Arnarson. Hann var mjög duglegur maður frá Noregi. Hann flutti með sér tvær súlur, sem staðið

höfðu sín hvoru megin við öndvegi hans í Noregi. Hann lét þær útbyrðis og kvaðst mundu nema þar land, er þær ræki. Þessum sið fylgdu síðan flestir þeir, er hingað fluttu. Ingólfur lenti fyrir austan land og var þar enginn góður lendingarstaður; hann leitaði súlna sinna, en fann þær ekki; hann sendi því tvo þjóna sína vestur með ströndinni til þess að leita þeirra.

Það var ekki fyr en 3 árum eftir komu Ingólfs, að súlurnar fundust, þar sem nú heitir Reykjavík. Þar settist Ingólfur að og setti súlurnar við öndvegi sitt aftur.

Ingólfur var helztur allra landnámsmanna og nú er höfuðstaður landsins þar sem hann nam land. Það var árið 874, sem Ísland var bygt, og þjóðhátíðin á Þingvelli 1874 var til minningar um það, að þá voru liðin 1000 ár frá byggingu landsins.

## Skrítlur.

„TVEIR MENN voru að koma úr veizlu og voru báðir dauðadrukknir. Þeim kom eigi saman um það, hvort heldur það væri sólin eða tunglið, sem þeir sáu á himninum. Eftir að þeir höfðu deilt um það nokkra stund, mættu þeir þriðja manninum, sem einnig var drukkinn. „Segðu okkur, lagsmaður, hvort þetta er sólin eða tunglið“, mælti annar þeirra og benti upp í loftið. „Það get ég ekki“, svaraði hinn, „ég er ókunnugur hérna“.

## Smávegis.

A. „Hvernig fara vondir menn að því að leiða aðra afvega?“

B. „Með því að gefa þeim áfengi og gera þá drukkna“.

A. „Hvað er þá öruggasta ráðið til þess að forðast ginningar þeirra?“

B. „Náttúrlega að bragða aldrei áfengi“.

A. „Gerir það nokkuð til þótt það sé að eins bragðað, ef það er ekki mikið?“

B. „Allir menn, sem hafa orðið ofdrykkjumenn, hafa drukkið lítið fyrst og aldrei ætlað að drekka mikið, en þeir hafa smám saman farið lengra og lengra og loksins komist of langt. Ég þekki marga, sem lengi voru hófsmenn, en síðan fóru alveg í hundana. *Það er öruggast að bragða aldrei áfengi*“.

## Takið eftir!

SUMSTAÐAR í öðrum löndum safna börnin sjálf áskrifendum að barnablöðum og eru útsölumenn. Þetta gera einnig nokkur börn hér á landi. „Æskan“ hefur ekki svo fá börn fyrir útsölumenn. En viljið þið ekki gera það fleiri? Ef þið útvegið 4 nýja kaupendur þá fáið þið altaf „Æskuna“ fyrir ekkert, svo lengi sem þeir kaupa hana. Þá verða ykkur sjálfum send öll þau blöð, sem þið útvegið kaupendur að, og þið afhendið þeim. Haldið þið ekki, að ykkur þætti það gaman? Svo verður einhvern tíma auglýst í „Æskunni“ hvert ykkar hafi útvegað flesta. Ef þið útvegið 8 fáið þið 2 eint. fyrir ekkert o. s. frv. 1 fyrir hver 4.

**Ráðning gátnanna í 20. tbl.**

1. Ég helli úr 3 potta kútnum í 8 potta kútinn, úr 5 potta í 3 potta, 3 potta í 8 potta, úr 5 potta 3 potta, úr 8 potta í 5 potta, úr 5 í 3 potta og úr 3 potta í 8 potta.

2. Ferhyrningurinn er 5 króna seðill. Það má „skifta“ honum í 5 krónur í silfri.

**KAUPENDUR!** Minnist þess, að „Æskan“ átti að vera **borguð** í júnímánuði.

**„Æskan“**
kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.
Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.
Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast **Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.
Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| I. árg. | Reykjavík, 1. september 1898. | 23. tbl. |
|---|---|---|

## Kristjanía.

Eins og áður hefur verið tekið fram í „Æskunni“, voru það Norðmenn, sem fyrstir bygðu Ísland. Þeir eru því skyldari okkur en nokkur önnur þjóð, og þess vegna er það, að okkur hlýtur að vera áhugamál að vita um hagi þeirra og hafa sem nánust kynni af þeim. Þeir eiga nokkra af allra frægustu mönnum heimsins og sumir þeirra hafa komið hingað upp til Íslands. Björnstjerne Björnsson, sem hefur skrifað svo margar fallegar skáldsögur, t. d. „Kátan pilt“, „Sigrúnu á Sunnuhvoli“ og margar fleiri, er Norðmaður. Einnig er Friðþjófur Nansen Norðmaður, sem þið hafið séð myndir af í blöðunum, og er frægasti ferðamaður, sem nú lifir; hann komst nær norðurheimskautinu en nokkur maður hafði komist áður. Hann hefur komið til Íslands og margir fleiri. Norðmenn kalla okkur altaf bræður sína og vilja hafa sem mest saman við okkur að sælda. Ég hef þekt marga Norðmenn og þeim hefir öllum verið ant um Ísland og Íslendinga. Það er margt líkt í Noregi og á Íslandi. Þar eru fjöll og jöklar eins og hér; þar eru fiskveiðar eins og hér, Norðmenn eru beztu sjómenn í heimi o. s. frv. En þar eru stórkostlegri byggingar og meiri mannvirki. Hér er mynd af einni götu í Kristjaníu, sem er höfuðborgin í Noregi. Gatan heitir „Karl Johans Gade“. Við endann á henni er höll, sem



bygð er einungis handa konunginum til þess að búa í, þegar hann er á ferð í Noregi (það er sami konungur í Svíþjóð og Noregi og hann á heima í Svíþjóð), en alt árið, að undanteknum þeim tíma, býr þar enginn maður. Höllin er ákaflega stór og skrautleg og fyrir framan hana er mynd af Karli Jóhanni, ríðandi. Með fram götunni eru þétt ljósker með gasljósum og til vinstri handar á myndinni eru skrautlegir skemtigangar. Í konungshöllinni eru nálægt hundrað herbergi. Næst henni til hægri handar er háskóli og þar næst kirkja, sem heitir Uraníuborgarkirkja. Alls eru í Kristjaníu nálægt tuttugu kirkjur. Stóra húsið, sem þið sjáið lengst til hægri, er veitingahús og heitir „Grand Hotel“. Nafnið sést á myndinni. Sum hús í Kristjaníu eru með 8 loftum, og 2—3 þeirra eru neðanjarðar. Þar er alt lýst með gasi og rafmagni. Íbúar í Kristjaníu eru nálægt 206,000 (tvö hundruð og sex þúsund), það er meira en fjörutíu sinnum eins margt og í Reykjavík og nærri því þrisvar sinnum eins margt og á öllu Íslandi.

Nokkrir Íslendingar eiga heima í Krisjaníu, t. d. séra Júlíus Þórðarson.

## Í hægri eða vinstri.

HVORT viltu heldur í hægri eða vinstri?“ sagði Páll við Maríu litlu systur sína einn sunnudagsmorgun þegar hann kom inn. „Ég vil heldur í hægri“, svaraði María. Páll opnaði hnefann og þar voru 20 aurar. „Hvað er í hinum?“ spurði María. Páll sýndi henni það; þar var króna. „Pabbi gaf okkur þessa peninga“, sagði Páll, „og ég átti að skifta þeim á milli okkar. Þú vildir heldur 20 aurana og svo er bezt að þú hafir þá“. „Það er ekki rétt skift“, sagði María, „við eigum sína 60 aurana hvort“. „Þú kaust þetta“, sagði Páll, „og það verður svo að vera. Ef þú hefðir kosið í vinstri, þá hefðir þú fengið krónuna. Ég er líka karlmaður og þarf að fá mér tóbak; ég þarf því miklu fremur á því að halda en þú“. María litla fór að gráta; hún sagði samt ekki pabba sínum frá þessu; hún vissi að hann myndi verða vondur við Pál, en það vildi hún ekki.

Nokkru seinna var María á gangi úti á götu; þá mætti hún lítilli stúlku, sem var að leita að einhverju. „Hvað vantar þig?“ spurði María. „Ég týndi 20 aurum, sem ég átti að kaupa fyrir tvinna“, sagði hún grátandi, „ég kvíði svo fyrir að koma heim, ef ég finn þá ekki“. María litla fór ofan í vasa sinn, tók upp 20 aurana, sem áður voru nefndir og sagði: „Ég á ekki meira til en þetta, þú mátt eiga það“. Litla stúlkan þakkaði henni fyrir og kvaddi hana. Rétt á eftir var kallað „María!“ Hún leit við og fyrir aftan hana stóð skrautklæddur maður, hann heilsaði Maríu vingjarnlega, rétti henni 20 króna gullpening og sagði: „Þú gafst litlu, fátæku stúlkunni alla aleigu þína, þú skalt eiga þetta í staðinn“. María varð alveg hissa á gjafmildi þessa ókunna manns og þakkaði honum innilega fyrir; að því búnu kvaddi hann hana. Þegar María kom heim, réð hún sér ekki fyrir gleði yfir því að vera orðin svona rík. Hún stökk með gullpeninginn til móður sinnar og sagði henni alla söguna. „En þú mátt ekki verða vond við hann Palla, þó hann skifti svona misjafnt“, sagði hún. Var hún ekki góð systir? „Nú skaltu gera nokkuð“, sagði móðir hennar, „kauptu þér sparisjóðsbók og legðu peningana í sparisjóðinn og láttu pabba ekkert vita af þeim. Hver veit nema honum liggi einhverntíma mikið á peningum og þá væri gaman fyrir þig að geta hjálpað honum“. „Já, það er gaman“, svaraði María litla. Svo hljóp hún niður í

banka og keypti sér sparisjóðsbók, og var heldur en ekki hróðug þegar hún snéri heimleiðis aftur.

En hvað haldið þið að Palli hafi gert við krónuna sína? Hann keypti sér fyrir hana eitt pund af reyktóbaki á 80 aura og reykjarpípu fyrir 20 aura.

Svo leið langur tími; einhverju sinni tók María litla eftir því, að pabbi hennar sat úti við glugga þegar hann hafði lokið vinnu sinni, studdi hann hönd undir kinn og horfði út á götuna. Maríu litlu sýndist hann vera eitthvað öðruvísi en hann átti að sér, og henni heyrðist hann draga andann þungt og mæðilega, öðru hvoru. „Gengur nokkuð að þér, pabbi minn?“ sagði hún og lagði hendurnar utan um hálsinn á honum. „Ónei, lambið mitt“, svaraði faðir hennar og kysti hana. María hljóp til mömmu sinnar og sagði við hana: „Hvernig stendur á því að hann pabbi er svona daufur? Það hlýtur að ganga eitthvað að honum“. „Það er náttúrlegt að hann sé daufur“, sagði móðir hennar. „Hann hefir verið krafinn um 200 króna skuld, sem hann reyndar hefir borgað fyrir löngu, en hann hefir týnt kvittaninni og getur því ekki sannað að hann hafi borgað hana. Hann verður að láta af hendi þessar 200 krónur, en af því hann er fátækur og hefir ekkert annað en vinnu sína, þá þorir enginn að lána honum. Hann sér því ekki annað fyrir en að hann verði settur í fangelsið“. „Guð hjálpi mér!“ sagði litla María, „á að setja hann pabba minn í fangelsið! Það er ómögulegt annað en að guð verndi hann frá því, hann er svo góður maður. En 20 krónurnar mínar, mamma, það munar þó svolítið um þær!“ Móðir hennar gekk til manns síns, settist hjá honum og spurði, hvort ekki væri hægt að gera neina samninga við skuldheimtumanninn. „Ójú“, svaraði hann. „Hann sagðist skyldu gera sig ánægðan með það, ef ég gæti borgað sér 20 kr. undir eins og 10 kr. á mánuði upp frá því, þangað til skuldinni væri lokið. En fátækir menn, eins og ég, taka ekki 20 kr. upp úr steinunum og ég er viss um að enginn þorir að lána mér þær“. „Vertu rólegur góði minn“, sagði konan hans, „við skulum sjá, hvort ekki er hægt að hafa einhver ráð“. Síðan fór hún fram til Maríu litlu, sagði henni að flýta sér niður í banka og taka þar út 20 krónurnar sínar. María hljóp eins og fætur toguðu og ruddist í gegn um mannþröngina, inn að afgreiðsluborði í bankanum. „Ég ætla að fá út 20 krónur!“ kallaði hún svo hátt og ákaft, að allir litu á hana stórum augum. „Ég þarf að fá mig fljótt afgreidda!“ sagði hún ennfremur, „honum pabba liggur á peningum; ég má til með að flýta mér!“ María litla var afgreidd undir eins og hún beið ekki boðanna þegar hún hafði fengið peningana. Hún hljóp heim til pabba síns, fékk honum peningana og spurði, hvort honum þætti ekki vænt um að fá þá. Faðir hennar varð öldungis forviða og spurði hana, hvernig hún hefði fengið þetta. „Manstu ekki eftir að þú gafst okkur Palla eina krónu og 20 aura, einu sinni í fyrra?“ sagði hún. „Ég gaf fátæku barni 20 aura af því, en einhver ríkur maður sá það og gaf mér þá 20 kr. Ég lét þær í sparisjóðinn og nú sótti ég þær þangað“. Pabbi hennar vafði hana að sér og kysti hana. Hann varð glaðari en frá verði sagt, því þetta kom honum úr kröggum í bráðina.

Palli litli hlustaði á sögu systur sinnar. Hann dauðskammaðist sín. Fyrst og fremst fyrir það, hversu ranglátlega hann hefði skift á milli þeirra og í öðru lagi fyrir það, hversu illa hann hefði varið sínum parti, en María þvert á móti, og honum féll það enn þá þyngra þegar hann heyrði að María vildi ekki segja frá því, hvað hann var ranglátur. Hann sagði nú sjálfur frá því, bað foreldra sína og

systur fyrirgefningar á því og ásetti sér að gera aldrei neitt rangt oftar.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Fræðibálkur.

ÞAÐ er aðdáanlegur hagleikur og framsýni, sem menn hafa tekið eftir á meðal dýranna, þegar þau byggja sér bústaði, afla sér fæðu o. s. frv., og það jafnvel á meðal hinna lægri dýraflokka. Maurflugurnar t. d., sem eru svo örlitlar, eru annálaðar fyrir vit og starfsemi. Þær lifa margar saman; sumar hafa vængi, sumar eru vængjalausar. Hinar vængjalausu eru vinnudýr. Þau byggja smáhóla eða þúfur úr mold og þar inni búa vængjuðu dýrin. Þar eru gangar og rangalar í allar áttir. Hóparnir herja hver á annan; þeir raða sér í fylkingar, dýrin gefa merki með stöngum, er þau hafa framan á höfðinu. Þau ræna öðrum maurflugnategundum og gera þær að þrælum sínum. Vinnudýrin bera bagga á bakinu, sem eru oft stærri en þau sjálf. Maurflugurnar ná einnig blaðlúsum, sem þær gæla við ýmislega, til þess að fá þær til að gefa frá sér hunangsdögg. *Termítur* byggja sér hús, sem stundum eru 12 fet á hæð. Þær hafa vinnudýr eins og maurflugurnar og önnur sérstök til varnar og hernaðar á móti öðrum skordýrum.

## Ljótt!

Í fyrra kveld var ég seint á gangi; drukkinn maður gekk eftir götunni; hann gat varla staðið og slangraði ýmist út á götuuröndina til hægri eða vinstri. Nokkrir drengir stukku á eftir honum með ópum og óhljóðum, hrundu honum og hentu í hann. Ég gekk til þeirra og bað þá að hætta þessu, en þeir svöruðu ekki öðru en illyrðum. Það eru til slæmir drengir hér í bænum, þótt þeir séu miklu fleiri góðir. Ekkert gott barn gerir það að gamni sínu að fara þannig með drykkjumenn; öll góð börn aumkva þá og vilja hjálpa þeim. *Látið þetta aldrei sjást oftar!* [S. J. J.].

## Gátur.

1. a. Klukka nokkur flýtir sér um tvær mínútur á 16 klukkustundum. Ef hún nú er sett rétt á nýársdag og aldrei færð alt árið, hversu miklu verður hún þá of fljót næsta nýársdag?

   b. Á einum degi á árinu verður hún rétt; hvaða mánaðardag er það.
2. Maður nokkur átti sama afmælisdag og sonur hans. Einhverju sinni segir hann við son sinn: „Í dag er ég 40 ára og fjórum sinnum eldri en þú; geturðu sagt mér, hversu mörg ár eru þangað til ég verð þrisvar sinnum eldri en þú? og hversu mörg ár þangað til ég verð helmingi eldri en þú? Hverju átti hann að svara?
3. A. og B. eiga sínar 20 krónurnar hvor. A. bætir daglega 10 aurum við sínar krónur, en B. eyðir daglega 15 aurum af sínum. Hversu langt líður þangað til A. á helmingi meira en B.?

Þessa vísu um mánuðina er gott að kunna:

Ap., jún., sept., nóv. þrjátiger,
einn til hinir taka sér,
febrúar tvenna fjórtán ber,
frekar einn þá hlaupár er.

**KAUPENDUR!** Minnist þess, að „Æskan“ átti að vera **borguð** í júnímánuði.


**„Æskan“**
kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun 1/5.
Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.
Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.
Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**I. árg.** | Reykjavík, 16. september 1898. | **24. tbl.**

## Ég fæ ekki bókina.

Ef þú getur lesið viðstöðulaust alt, sem kemur fyrir á sumardaginn fyrsta“, sagði Þórður við Stínu, „þá skal ég gefa þér sálmabók“. Stína fór að herða sig og var orðin fluglæs þegar leið á veturinn. Einu sinni um vorið bað hún mömmu sína að lofa sér út með Dóru systur sinni, því veðrið væri svo gott. „Þið megið fara, dúfurnar mínar“, sagði mamma þeirra, „en komið ekki seint heim aftur“. „O é líka! é líka!“ sagði litli bróðir þeirrra, „é líka fa me deplunum!“ og hann linti ekki látum fyr en hann fékk að fara með þeim. Stína bar hann á öxlinni og hélt í hendina á honum, en Dóra gekk samsíða og studdi hann. Svo lögðu þær af stað. Þær komu út í skóg, þar sem voru fögur blóm og allskonar grös. Þær léku sér lengi, en gættu þess samt að vera heim nógu snemma. Þegar þær voru nýkomnar, fór Stína út aftur. Mamma hennar var á gangi úti og sá, að hún settist úti í hlaðvarpanum, tók stórt blóm úr barmi sínum og skoðaði það nákvæmlega; og hún var svo dæmalaust daufleg á svipinn. Mamma hennar gekk til hennar og spurði, hvort nokkuð gengi að henni. „Ég fæ ekki bókina“, sagði hún, og fór að gráta, „pa -- pa — pabbi sagði, að ég yrði að geta lesið viðstöðulaust, hvað sem væri, en ég get



ekkert lesið á þessum blöðum". „Hvað heldurðu að sé hægt að lesa á þeim", kjáninn þinn?" spurði mamma hennar. „Ég hefi lesið svo margt í sálmabókinni", svaraði hún, og þar stendur þetta:

„Sérhvert blað á blómi jarðar smáu,
er blað, sem margt er skrifað á um þig".

Það er skrifað eitthvað um guð á öll blöð, en ég get ekkert lesið á þessum blöðum, ég fæ ekki bókina!"

„Elsku lambið mitt!" sagði mamma hennar og kysti hana, „það eru ekki skrifuð orð á blöðin, en það sést á þeim, hvað guð er máttugur og gerir alt vel, og það er meint með því, þegar talað er um, að margt sé skrifað á þau um hann. Þú færð bókina, Stína mín!"

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

---

# ‚Æskan' ársgömul.

Nú kemur út síðasta blað „Æskunnar" af þessum árgangi. Ég vonast til, að ykkur lítist vel á það, þar sem það er skrautprentað; hún er nú *fallegasta blaðið, sem til er á landinu.* „ÆSKAN" hefir fengið svo ágætar undirtektir, að líkindi eru til, að hún eigi langa og góða lífdaga fyrir höndum. Þess var getið í fyrra, að börnin þyrftu alt af að hafa eitthvað nýtt að lesa og nú hefir reynslan sýnt, að það er sannleikur, því öll börn langar til að lesa „Æskuna". Þeim dauðleiðist alt af þá vikuna, sem hún kemur ekki út, en hlakka mjög til útkomu hennar. „ÆSKAN" lofaði aldrei myndum nema í öðru hvoru blaði, en núna lengi hefir hún flutt mynd í hverju blaði; hún hefir því gert meira en hún lofaði í því tilliti. Ef þið haldið saman blöðunum og látið binda þau í bók, þá er ég viss um, að ykkur þykir einhvern tíma gaman að líta í sögurnar síðar. Þar eru líka margar fallegar myndir, sem gaman er fyrir ykkur að skoða. Segið þið *öllum* börnum, sem ykkur þykir vænt um, frá *‚Æskunni'* og hvetjið þau til að kaupa hana. Þið fáið enga skemtun jafngóða fyrir eins lítið verð. Berið blaðið ykkar, „Æskuna", saman við blöð fullorðna fólksins og vitið hvort ykkur sýnist það ekki vera **fallegasta blaðið!** Munið eftir því, að ef þið safnið 4 kaupendum að ‚ÆSKUNNI', þá fáið þið 5. blaðið fyrir það, án þess að þurfa nokkuð að borga. Ég vonast til, að þið viðurkennið það öll, að ‚ÆSKAN' sé fullefnilegur krakki ársgamall, og afmælisbúningurinn hennar ekki ljótur. Hún vonast til þess að verða ekki síður vinsæll og velkominn gestur til ykkar næsta ár, en hún hefir verið síðast liðið ár. Það er alt af minst gaman að börnunum fyrsta árið, en þegar þau stálpast, verða þau skemtilegri, og eins vona ég að „ÆSKAN" verði.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

---

# Skrítlur.

VONDUR MAÐUR hafði skrifað fyrir ofan húsdyr sínar þessi orð með stóru letri: „Ekkert ílt fari hér inn".

„Hvar á þá húsbóndinn að ganga?" spurði annar maður, sem kom að dyrunum.

---

KENNARINN: „Nú verður ekki sólmyrkvi aftur fyr en eftir 30 ár".

*Barnið:* „Fáum við þá frí eins og seinast?"

---

**KAUPENDUR!** Minnist þess, að „Æskan" átti að vera **borguð** í júnímánuði.

---

**„Æskan"**
kemur út tvisvar í mánuði. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í tvennu lagi: fyrri helmingur í des., en hinn síðari í júní ár hvert. Sölulaun ⅙.
Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* stud. med.
Útsendingu blaðsins og afgreiðslu annast **Þorv. Þorvarðarson** prentari, **ÞINGHOLTSSTR. 4 Reykjavík.**
Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN

## BARNABLAÐ MEÐ MYNDUM

---

Ritstjóri

Ólafía Jóhannsdóttir



REYKJAVÍK

Gefin út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.)

FÉLAGSPRENTSMIÐJAN

1899

# Efnisyfirlit.

# ÆSKAN.

Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).

| II. árg. | Reykjavík, 6. október 1898. | 1. tbl. |
|---|---|---|

## Börnin geta gert mikið.

„Nú er sumarið liðið“, sagði Þórður litli við krakkana einu sinni, þegar þau voru að leika sér. „Blessað sumarið með hitann og hlýindin, sólina og sæluna; haustið er komið og veturinn nálgast með



Sigga og Kjói.

frostið og kuldann og fannirnar, stormana, hretið og hörkurnar“.

Krakkarnir skildu ekkert í því, að Þórður fór að tala um þetta alt í einu. Þau störðu á hann undrandi og þeim sýndust koma tár í augun á honum. „Af hverju ertu að tala um þetta núna?“ spurði Tobbi. „Við vitum þetta öll; veturinn kemur altaf á eftir sumrinu og það eru engar fréttir“. „Já“, svaraði Þórður, „það er satt, en það eru svo margar skepnur, sem hafa ekkert hús og ekkert að éta á veturna; þær verða að vera úti hverju sem viðrar. Ég skil ekkert í því, að guð, sem er svo góður, skuli láta vera svona vont veður, til þess að þær kveljist; hann ætti alt af að láta vera sumar“.

„Það er alveg satt“, sagði Tobbi, „og allir krakkarnir tóku undir með honum. Þeim fannst það öllum undarlegt, að guð skyldi ekki alt af láta vera sumar og Þórður sagði, að þau skyldu hlaupa heim til hennar ömmu gömlu og spyrja hana, hvernig stæði á því. „Hún amma gamla veit alt“, sagði hann „og hún getur víst sagt okkur það“. Svo hlupu þau öll heim að Fossi og spurðu gömlu Sigríði hvernig stæði á, að guð léti ekki alt af vera sumar, til þess að skepnunum liði alt af vel“. Ég skal segja ykkur það, börnin mín“, svaraði hún. „Guð hefir gefið mönnunum skepnurnar: þeir eiga að ráða yfir þeim og þeir eiga að fara vel með þær „og hann hefir gefið þeim sumarið til þess að búa sig undir veturinn og það er nógu langt til þess“.

„Já, en það eru samt margar skepnur úti á veturna“, sagði Þórður, „og það væri betra að hafa altaf sumar“. Ó nei, góði minn“, sagði gamla Sigríður, „Það er gott að hafa breytingu; ef það væri ekki, þá fyndu menn ekki eins vel til þess góða. Ef altaf væri sumar, þá þyrftu menn ekki að búa sig undir veturinn og þá þyrftu þeir næst um ekkert að gera, en það yrði til þess, að þeir yrðu letingjar og ónytjungar; þeir nentu ekkert að hugsa og yrðu alveg eins og dýrin“.

„Já, en skepnunum þarf líka að líða vel“, sagði Þórður. „Það er satt“, sagði Sigríður gamla og gerið þið alt sem þið getið til þess, börnin mín“. „Við!“ sögðu þau öll í einu hljóði og litu stórum augum á Sigríði. „Við getum ekkert gert!“ „Ójú“, sagði Sigríður. Biðjið þið t. d. hann pabba ykkar að láta skepnunum sínum aldrei líða illa, ef þið biðjið hann vel, þá er ég viss um, að hann tekur það til greina, sem þið segið. Segið þið honum, að guð sjái alt, sem hann gerir og líka það, hvernig hann fari með skepnurnar og segið þið þetta fleirum en honum, segið það öllum, sem eiga skepnur“. „Já, við skulum gera það!“ sögðu þau öll í einu hljóði. „Ég skal segja honum Árna í Norðurkotinu, að guð hafi séð, þegar hann barði hana Brunku í gær með svipuskaftinu“, sagði Þórður“. Og ég skal segja honum Gvendi í Hnausum, að guð hafi séð þegar hann kipti svo fast í tauminn á henni Skjónu í fyrra dag, að það blæddi úr munninum á henni“, sagði Tobbi. „Og ég skal segja honum Þorsteini á Keldum, að guð hafi séð þegar hann henti steininum í fuglinn, sem var að synda á vatninu um daginn og vængbraut hann“, sagði Nonni í Hala. „Og ég skal segja henni Þorbjörgu í Tungu, að guð hafi séð þegar hún barði hann Trygg með rúmfjölinni, svo að hann varð blindur á öðru auganu“, sagði Mundi á Bjarnastöðum. „Og ég skal segja honum Brandi á Hóli, að guð viti það, að hann hefur látið nokkuð af skepnunum sínum deyja úr hor og hungri á hverju vori“, sagði Siggi í Vesturbænum. „Og ég skal segja manninum, sem var að skera kindurnar um daginn, að guð hafi séð, hversu lengi hann var að kvelja þær með því að smá-murka af þeim höfuðið og hann hafi vitað, hversu miklar kvalir það voru fyrir hinar kindurnar að horfa á það“, sagði Gunna í Holti. Og þau gerðu þetta öll og allir mennirnir, sem nefndir hafa verið og illa höfðu farið með skepnurnar, skömmuðust sín fyrir það, bættu ráð sitt og gerðu það aldrei oftar.

Börnin geta gert mikið, ef þau vilja.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Sigga kveður við Kjóa.

Litli Kjói, ligðu kyr,
læstar eru bæjardyr;
þó þú hafir hvassar klær,
þér hepnast ekki' að opna þær.

Vertu góður, greyið þitt,
glepsaðu' ekki' í sjalið mitt;
þú átt ekki' að meiða mig;
mér var sagt að passa þig.

*S. J. J.*

## Fræðibálkur.

*Tunglið.* Þið vitið það sjálfsagt öll, að jörðin snýst um sjálfa sig frá vestri til austurs; tunglið gerir það líka. Jörðin snýst um heilan hring á 24 klukkustundum; það er kallaður sólarhringur; en sólarhringurinn í tunglinu er 709 og dagurinn 354½ klukkustund. Tunglið sýnist vera bjart, en það er af því, að sólarljósið skín á það eins og jörðina. Í tunglinu birtir ekki smátt og smátt, eins og hér á jörðunni, heldur alt í einu og eins dimmir þar alt í einu, eða því sem næst; þetta er af því, að tunglið vantar gufuhvolf. Ef þið horfið á sólina einhvern tíma um morgun, þegar fyrst sést á röndina á henni, þá sjáið þið, að stuttur tími líður þangað til hún sést öll, en í tunglinu eru nálægt 10 klukkustundir frá því efri röndin á henni kemur upp fyrir sjóndeildarhringinn og þangað til hún sést öll.

Af því að gufuhvolfið vantar þar, leiðir það, að sólarljósið sljófgast ekkert á leiðinni og þess vegna verkar það þar með svo miklu afli, að ef maður væri staddur á tunglinu og liti í sólina, þá yrði maður steinblindur á einu augnabliki.

Frá tunglinu sýnist jörðin vera 13 sinnum stærri en tunglið sýnist frá jörðinni.

Frá tunglinu sýnast vera blettir á jörðinni og það eru löndin og höfin. Stundum sjást aðrir blettir, sem hreifast og það eru skýin. Tunglið gengur í kringum jörðina á 27 dögum, 7 klukkustundum og 44 mínútum. Þið hafið heyrt talað um nokkuð, sem heitir flóð og fjara, og þið, sem eigið heima við sjó, hafið tekið eftir því, að sjórinn hækkar stundum við ströndina, en lækkar aftur stundum. Þessu veldur tunglið. Það er aðdráttarafl tunglsins, sem kemur því til leiðar. Þessi hækkun og lækkun sjávarins er kölluð flóð og fjara, og það er alt af flóð tvisvar sinnum á sólarhring og fjara tvisvar sinnum. Flóð er altaf þar á jörðunni, sem tunglið ber yfir og sömuleiðis á þeim stað á jörðunni, sem er beint á móti hinum megin. Þeir sem búa beint á móti okkur hinum megin á hnettinum, eru kallaðir andfætlingar okkar; þeir snúa iljunum á móti iljunum á okkur.

## Nú grána fjöll og fölnar hlíð.

**Lag: Eitt kærleiksorð, ég er svo einn.**

NÚ grána fjöll og fölnar hlíð,
oss færist kuldinn nær!
vér söknum þess, að sumartíð
er svifin okkur fjær

Nú falla skrautleg grös á grund
og grætur dýrahjörð,
hvað þetta varði stutta stund,
að stóðu blóm á jörð!

En þegar líður lítil stund
og lægir veðrin hörð,
þá spretta aftur grös á grund
og gylla hlíð og börð.

Þá dökna fjöll en flóa gil
og fuglar syngja dátt,
og blessuð sólin sælum yl
þá sveipar hafið blátt.

Þá ilmar skógur, angar hlíð,
og inndæl blöð á grein,
þau brosa, því að blessuð tíð
öll burtu hrekur mein.

Þá brosir sérhvert blóm á jörð,
þá brosir hraunið grátt,
sér leikur fjörug lambahjörð
og líka barnið kátt.

*Jónas Pálsson.*

## Skrítlur.

MÓÐIRIN: „Hvernig stendur á því, Hans, að þú ert ekki kátur á afmælinu þínu? Ég hefi gefið þér falleg föt, og pabbi gaf þér bók, og þú færð eins og þú vilt af öllu góðu“.

Hans: „Mér þykir ekkert varið í þetta, þegar hinir krakkarnir hafa það líka; þau eru líka í nýjum fötum og þau fá eins og þau vilja af öllu eins og ég“.

---

FAÐIRINN: „Nú máttu velja um, hvaða stöðu sem þú vilt, Kristján; hvað kýstu helzt?

Kristján: „Ég vil verða hermaður“.

Faðirinn: „Það er leiðinlegt; þá verðurðu ef til vill skotinn þegar minst varir“.

Kristján: „Hverjir skjóta hermennina?“

Faðirinn: „Óvinirnir gera það“.

Kristján: „Þá vil ég heldur verða óvinur“.

---

KENNARINN: „Hvaða plánetur þektu menn í fornöld?“

Lærisveinninn: „Marz, Venus — og mig minnir jörðina“.

DRENGUR nokkur hafði náð mýflugu úti. Hann hljóp með hana til föður síns og sagði: „Pabbi, búðu til úlfalda úr þessari mýflugu“. „Hvernig getur þér dottið þetta í hug?“ spurði faðirinn.

„Mamma sagði um daginn, að þú gerðir svo oft úlfalda úr mýflugu“.

## Sigtryggur Guðlaugsson

*cand. theol.*

prédikaði í síðasta skifti yfir börnunum í Good-Templarahúsinu á sunnudaginn. Hann kvaddi þau með viðkvæmum og hjartnæmum orðum; hann sagði, að það væri sín innilegasta hjartans ósk, að þeim mætti altaf auðnast að verða eins saklaus og góð eins og hann vissi að þau vildu vera. Hann óskaði, að þeim auðnaðist að halda altaf trúnni, voninni og kærleikanum.

Ég veit, að „Æskunni“ er óhætt að óska Sigtryggi heilla og hamingju fyrir hönd barnanna og flytja honum innilegasta þakklæti fyrir öll þau góðu orð, sem hann hefir talað til þeirra. Ég veit, að þau sakna hans og ég veit, að þau vildu svo gjarna mega hafa hann lengur.

## Aurasjóðir.

Í barnastúkunum hafa börnin stundum haft aurasjóði. Þeir eru þannig, að kosnir eru einhverjir menn, sem veita móttöku aurum þeim, sem börnin eignast og leggja þá á vöxtu. Börnin hafa bækur, sem altaf er skrifað inn í, í hvert skifti þegar þau leggja eitthvað inn eða taka út; það eru nokkurs konar sparisjóðsbækur. Þau geta lagt inn þótt ekki sé nema 2 aurar. Ég veit til þess, að börn hafa safnað þannig svo miklu, að þau hafa getað lagt töluverða peninga inn í sparisjóðinn, þegar þau hafa verið staðfest. Þetta er hægt fyrir börn í öllum kaupstöðum að minsta kosti, og víðar, og það getur bæði verið til gagns og gamans. Það væri mjög hægt fyrir börnin hér í Reykjavík.

Læknar á Englandi hafa með rannsóknum komist að því, að reyktóbakið spillir gáfunum. Skólasveinar, sem reykja, eru miklu ónýtari að læra yfirleitt en hinir, sem gera það ekki. Ef þið viljið verða duglegir að læra og vita mikið, þá venjið ykkur ekki á að reykja. Þar að auki er það mjög óholt fyrir heilsuna. Það spillir loftinu þar, sem reykt er inni, svo að oft getur liðið yfir fólk af því.

Það er mjög algengt, að menn verða að fá aðra til þess að skrifa fyrir sig bréf, af því að þeir geta hvorki stílað þau sjálfir né skrifað rétt. Þetta getur verið mjög óþægilegt og leiðinlegt. Til þess að koma í veg fyrir það, hafa sumir kennarar við barnaskóla erlendis vanið börnin á að skrifa bréf, þannig, að þeir hafa látið þau skrifast á, og þessi aðferð hefir gefist ágætlega vel. Börnunum hefir þótt það skemtilegt, þau hafa lært á því að hugsa; það hefir aukið skilninginn, þau hafa vanist á einurð og lært að skrifa bréf og stíla furðu vel. Ég hefi líka þekt börn, sem hafa gert þetta hér á landi, en þau eru fá. Þau ættu að taka það upp fleiri.

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í júnímánuði ár hvert. Sölulaun 1/5.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* cand. phil.**

**Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.**

Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).

II. árg. | Reykjavík, 28. október 1898. | 2. tbl.



Hirtir; þeir eru mjög líkir hreindýrum.

# Sampo Litli-Lappi.

(Eftir **Topelius**).

Einu sinni var Lappi og Lappakona. — Vitið þið hvað er Lappi? Lappar eru þjóð, sem býr allranyrzt í Noregi. Þar eru engin regluleg hús. Þar eru stórar eyðisléttur, mosavaxnar, og himinhá fjöll. Lappar búa í smákofum, sem eru svo lágir, að þeir verða að skríða út og inn. Það er skrítið landið þeirra Lappanna. Helming ársins er þar sól á lofti nótt og dag; þá er stöðugt sumar; hitt missirið sér ekki sól, þann tíma allan er vetur og þá er oftast stirndur himinn. Þá ferðast Lappar, bæði karlar og konur og smábörn langar leiðir á sleðum og beita fyrir hreindýrum. — Hreindýr eru álíka stór og veturgömul tryppi: Þau eru grá að lit. Þau hafa stór horn — ákaflega stór, með mörgum greinum út úr; höfuðið er lítið, augun stór, skær og gáfuleg. Hreindýrin eru afarfljót á fæti; hlaupa yfir hæðir og hóla alveg eins og á sléttu. Löppum þykir mjög gaman að ferðast á sleðum og þeir vildu jafnvel vinna til að altaf væri vetur, til þess að þeir hefðu altaf sleðafæri.

Lappahjónin, sem ég nefndi, bjuggu lengst norður í Lapplandi, nálægt Tanaelv — hana getið þið séð á kortinu. — Þar norður frá er eyðilegt og gróðurlítið; en Lappahjónin héldu að hvergi á jörðinni væri eins hvítur snjór og þar; hvergi eins bjartar stjörnur, hvergi eins yndæl norðurljós.

Lappar hafa staura, sem þeir stinga niður í snjóinn, festa snæri á milli efri endanna og binda hreindýraskinn á þau alt í kring. Staurarnir hallast allir hver að öðrum og húsið verður eins og sykurtoppur í laginu. Í miðjunni er gat, þar er strompurinn. Á suðurhliðinni er dálítil smuga, það eru dyrnar og þar skríða Lappar út og inn.

Lappahjónin áttu einn son, sem hét Sampo — það þýðir hamingja — en hann átti líka annað nafn, og þannig stóð á því, að einu sinni komu þangað nokkrir menn og gistu þar. Þeir hötðu í vasanum svolitla snjómola, sem þeir nefndu hvítasykur, og slíkan snjó höfðu Lappar aldrei séð tyr. Mennirnir gáfu litla Sampó sykur, klöppuðu á kinnarnar á honum og sögðu, „Litli Lappi, litli Lappi!“ Þeir gátu ekkert talað í máli Lappanna annað en þetta.

Svo héldu þeir áfram alla leið norður að Íshafi.

Lappakonunni þótti vænt um þessa ókunnu menn, sem höfðu gefið drengnum hennar svona góða snjómola og hún tók það því eftir þeim, að kalla Sampo „Litla Lappa.“

„Sampo er miklu fallegra!“ sagði maðurinn hennar, „það þýðir hamingja og því nafni verður hann að halda. Hver veit nema Sampó litli verði einhverntíma Lappakonungur, eignist þúsund hreindýr og eigi að ráða yfir íbúum hundrað bæja og þá væri það óhæfa að kalla hann Litla Lappa“.

„Já, en Litli-Lappi er svo fallegt nafn“, sagði konan og sat föst við sinn keip. Drengurinn hafði enn ekki verið skírður, því það voru 10 mílur til næsta prests: „Við förum með hann að sumri til þess að láta skíra hann“ sögðu foreldrar hans altaf á veturna; en það drógst ár frá ári. Sampo Litli-Lappi var nú orðinn 9—10 ára gamall. Hann var svarthærður, móeygður, hafði stutt og breitt nef og stóran munn, og öll þessi einkenni þykja Löppum mjög falleg. — Hann var ágætur skíðamaður, rendi sér ofan háar hlíðar niður í dal niður á Tanaárbakka og hann átti sjálfur sleða og hreindýr. þegar sleðinn brunaði með hann með fljúgandi ferð, þá var dæmalaust gaman að horfa á hann. Stundum var hann úti í byljum og dimmviðri og var þá eins og einhver fliksa, sem sást öðru hvoru.

„Dæmalaust kann ég illa við að drengurinn skuli altaf vera óskírður“, sagði móðir hans.

Hver veit nema úlfurinn rífi hann einhverntíma í sig, eða hreindýrið hans Hísis með gyltu hornin, og guð hjálpi mér þá, ef hann væri óskírður“.

„Það er merkilegt hreindýr,“ sagði Sampo, sem hefir gylt horn; dæmalaust væri gaman að hafa það fyrir sleðan sinn til Rastekajs.“

Rastekajs er himinhátt fjall, eyðilegt, 5—6 mílur frá heimili Sampos. Það sást vel þaðan.

„Dæmalaus kjáni ertu“ sagði móðir hans. „Rastekajs er heimkynni tröllanna og þar er Hisi.“

„Hisi, hver er það?“ spurði Sampó.

Móðirin vissi ekki hvað hún átti að segja; en svo hugsaði hún með sér. „Það er annars nógu gott að láta hann hræðast Rastekajs, og svo sagði hún. „Góði minn, varaðu þig á því að koma nálægt Rastekajs; þar býr Hisi, stóra tröllið, ljóta. Hann er konungur tröllanna.

Hann gleypir smádrengi, eins og þeir væru mýflugur og hefir heilt hreindýr í einn munnbita“.

Sampó horfði stórum augum á móður sína og þagði eins og steinn. Svo hugsaði hann með sjálfum sér: „Það væri þó svei mér gaman að sjá þennan tröllkarl — þótt ekki væri nema álengdar. (Framh.). [S. S. J.].

## Gráttu ekki!

Ástkæra barn! hvað amar að þér?
Ástríkur faðir til þín sér,
elskar þig heitt og er þér trúr,
alls konar raunum bætir úr.
:,: Hvað grætur þú? :,:

Lóan í holti kvakar kær,
kvelds þegar roða' á foldu slær,
áhyggjur hana engar þjá,
uppreiddum beði sofnar á,
:,: svo létt og rótt. :,:

Litla guðs barn í heimi hér,
hræðstu' ekki, drottinn til þín sér.
Spurðu' um hans vísdóm, vald og ást,
Vittu, að líkn hans engum brást,
:,: sem var hans barn. :,:

*Bjarni Jónsson,*
kennari.

## Í kirkjugarðinum.

Það var ljómandi fagurt sumarkveld; dálítil norðangola hafði verið um daginn, en lygndi síðari partinn. Það var rétt um náttmál; sólin var að hverfa niður fyrir sjóndeildarhringinn; vesturloftið var rautt eins og eldur og roða sló á Esjuna og jökulinn. Ég gekk fyrst upp að Skólavörðu og horfði yfir hafið og fjöllin í kvelddýrðinni. Alt var svo undurfagurt. Svo gekk ég niður í bæ aftur og suður Kirkjugarðsstíg. Ég var að hugsa um það, hversu ljómandi fagurt væri hér í Reykjavík, höfuðstaðnum okkar, og mér fanst það náttúrlegt, að marga langaði til þess að koma hingað og eiga hér heima. Mér fanst eiginlega eins og enginn maður, sem hefði verið staddur uppi við Skólavörðu og séð þaðan jafnfagurt sólarlag og þetta kveld, gæti kunnað við sig nokkursstaðar á guðs grænni jörðu nema hérna. Ég gekk inn í kirkjugarðinn — ég fer altaf þangað inn þegar ég geng þar nálægt og ég veit að ykkur þykir það öllum náttúrlegt, þegar ég segi ykkur frá því, að þar liggur

hún mamma mín og tvö systkini. Það heldur við endurminningunni að skoða öðru hvoru leiði þeirra, sem dánir eru og manni hefir þótt vænt um. Þá minnist maður allra þeirra ánægjustunda, sem maður hefir lifað með þeim, allra þeirra heilræða, sem þeir hafa gefið manni; man eftir hverju gleðibrosi, hverri sælustund. Þá minnist maður þess alls, er maður hefir gjört þeim á móti skapi á meðan þeir lifðu, iðrast þess og óskar sér að hafa aldrei gjört það. — Beint á móti blasir við minnisvarði Jóns sál. Sigurðssonar, hár og tigurlegur og vekur þá löngun og þá ósk í huga hvers manns, að hann mætti einnig gjöra eitthvað mikið fyrir landið sitt og fyrir þjóðina sína og verðskulda með réttu svona fallegan minnisvarða. Það er virkilega gott að koma stöku sinnum í kirkjugarðinn og hugsa um þá, sem þar liggja. Það vekur hjá mönnum löngun til þess að verða mikill og góður maður, ávinna sér álit góðra manna og láta nafn sitt lifa með heiðri þegar maður er sjálfur dáinn.

Það hvíldi svo djúp þögn yfir kirkjugarðinum í kveldkyrðinni, að mér fanst sem ég þyrði ekki annað en að læðast á tánum, til þess að rjúfa hana ekki, og mér heyrðist eins og hvíslað væri úr öllum áttum: „Uhs-s-s-s-s!“ til þess að minna mig á að fara hægt. — Mér varð litið til hægri handar og sá ég hvar lítil stúlka, á að gizka 8 ára, lá á knjánum hjá litlu, nýju leiði og var eitthvað að hagræða ljómandi fallegum blómsveig, sem lagður hafði verið á það. Ég læddist hægt og hægt til hennar, án þess að hún yrði vör við; svo staðnæmdist ég rétt fyrir aftan hana og skoðaði blómsveiginn. Í honum voru borðar og eitthvað skrifað á þá; ég fór að reyna að lesa það, en þeir sneru svo illa við mér, að það gekk erfitt. (Frh.).

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Fróðibálkur.

Austasti höfðinn á Íslandi heitir Gerpir og er við Reyðarfjörð, en vestast eru Bjargtangar. Landið er 66 mílur á lengd frá austri til vesturs, en 42 mílur á breidd í suður og norður — milli Dalatár við Siglufjörð og Dyrhólaeyjar. Landið er 1903 □ mílur (þið vitið hvað □ míla þýðir, þið hafið séð það í Æskunni). Faxaflói er 12 mílur á breidd og 9 á lengd, Breiðifjörður 10 mílur á breidd en 18 á lengd og Húnaflói 7 mílur á breidd en 10 á lengd. Jöklarnir á Íslandi ná yfir 268 □ mílur, þar af er Vatnajökull 150 □ mílur. Hraunin taka yfir 120 □ mílur og þar af er Ódáðahraun 60 □ mílur. Surtshellir er 839 fet á lengd, 50 fet á breidd og 34 fet á hæð. Lengstar ár á Íslandi eru: Þjórsá, Skjálfandafljót, Jökulsá á Fjöllum og Blanda. Stærstí foss á Íslandi er Dettifoss; hann er í Jökulsá á Fjöllum.

### Þeim fjölgar óðum,

börnunum, sem gerast útsölumenn Æskunnar. Ég hefi fengið nokkur bréf, sem börnin hafa sjálf skrifað og stílað. Þau segja að sér þyki mjög gaman að vera sjálf útsölumenn. Það getur vel verið, að ég láti nokkuð af bréfunum þeirra koma í Æskunni, þau eru svo góð. [S. J. J.].

**„Æskan“**
**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í júnímánuði ár hvert. Sölulaun ⅕.**

Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* cand. phil.

**Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.**

Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| II. árg. | Reykjavík, 10. nóvember 1898. | 3.—4. tbl. |
|---|---|---|




# Skautarnir.

Hannes og Ástríður voru systkin. Þau voru bæði í barnaskólanum, sitt í hvorum bekk. Hannes í 6. bekk en Ástríður í 5. Þau höfðu altaf verið ofarlega í bekkjunum og kepst hvort við annað. Pabbi þeirra lofaði þeim, að hann skyldi gefa þeim báðum nýja skauta, ef þau yrðu bæði efst, hvort í sínum bekk næstu röðunina fyrir jólin. Þeim þótti dæmlaust gaman að renna sér á skautum.

„Að verða efst“, hugsaði Ásta, „það get ég aldrei; ég er sú fjórða núna. Þeir, sem eru fyrir ofan mig, eru svo duglegir, að ég get held ég aldrei komist upp fyrir þá. Það er hann Steingrímur í Norðurbænum, Þórdís Pálsdóttir og Pétur Þórðarson; þau eru öll svo dugleg; nei, ég kemst aldrei upp fyrir þau. En hann Hannes er alveg viss að fá skautana; hann er sá þriðji og það eru ekki nema tveir, sem hann þarf að fara upp fyrir. Ég ætla samt að reyna; dæmalaust væri gaman að geta það. Ásta las nú hverja lexíu svo vel sem hún gat og fékk miklu hærri vitnisburð en hún hafði nokkru sinni fengið áður, og sama var að segja um Hannes. Nú nálgaðist röðunin og þau reiknuðu út hjá sér á hverjum degi, til þess að sjá hvernig það gengi. „Ég kemst aldrei upp fyrir hana Þórdísi“, sagði Ásta tveim dögum fyrir röðunina. „Hún hefir tvær tröppur fram yfir mig; nei, hún verður efst“. „Já, og ég get heldur ekki orðið efstur“, sagði Hannes, „ég kemst aldrei upp fyrir hann Nonna“.

Þau keptust við eins og þau gátu, systkinin; lásu allar lexíurnar á kvöldin áður en þau háttuðu og létu vekja sig kl. 7 á morgnana til þess að geta lesið þær yfir aftur áður en þau færu í skólann.

Þetta dugði; þau urðu bæði efst, hvort í sínum bekk. Þegar búið var að raða, hlupu þau heim, sýndu pabba sínum vitnisburðarbækurnar og spurðu hann, hvort þau fengju nú skautana. Hann fór jafnskjótt til járnsmiðs og keypti handa þeim ljómandi fallega skauta. Tjörnin, sem var þar skamt frá, var nýlögð og ísinn rennsléttur. Það var stillilogn og heiðskírt veður. Nú fóru þau af stað með skautana sína og leiddust. Þegar þau komu að tjörninni, sýndist þeim ísinn vera veikur. Þau höfðu engan staf, en Hannes stappaði með fætinum á ísinn til þess að reyna hann. Þið sjáið þau á myndinni, þar sem þau eru að fara út á tjörnina. Þar rendu þau sér lengi á nýju skautunum. Þar voru mörg börn önnur, en enginn átti eins fallega skauta og þau. Svo fóru þau heim til þess að lesa. „Við verðum að halda áfram að lesa vel“, sagði Hannes, „við megum ekki hætta því, þó við höfum fengið skautana“. „Já, við skulum borga honum pabba þá með því að lesa vel í allan vetur“, sagði Ásta, og þau gerðu það. Þau voru efst allan veturinn.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

# Sampo Litli-Lappi.

**(Eftir Topelius).**

**(Framh.).**

Það voru liðnar 3—4 vikur fram yfir jól og enn þá var nótt í Lapplandi. Það var hvorki morgun, hádegi né kveld, það var einungis nótt. Oft var heiðskírt veður og albjart af stjörnuljóma, norðurljósum og tunglskini. En Litla-Lappa leiddist að sjá ekki sól; það var svo langt síðan hann hafði séð hana. Hann var nærri því búinn að gleyma hvernig hún leit út og þegar hann heyrði talað um sumarið, mundi hann að eins eftir því, að þá ætluðu mýflugurnar alveg að gera út af við hann. Hann óskaði því helzt, að aldr-

ei kæmi sumar. Honum var nóg, ef að eins var svo bjart, að hann sæi til að renna sér á sleða og ganga á skíðum.

Einu sinni sagði faðir hans við hann: „Komdu hingað, ég skal sýna þér nokkuð!“ Sampo skreið út úr kofanum og starði í suður, því faðir hans benti þangað. Neðst niðri við sjóndeildarhring sást rauð rák.

„Veitztu hvað þetta er?“ spurði faðir hans.

„Það eru líklega suðurljós“, svaraði hann. Hann þekti vel áttirnar og vissi að norðurljós gátu ekki verið í suðri.

„Nei“, sagði faðir hans, „Það er fyrirboði sólarinnar; á morgun eða hinn daginn sést hún líklega sjálf. Sjáðu roðann á Rastekajs!“

Sampo leit í vestur og sá, að roða sló á snjóinn á fjallstindinum. Þá datt honum það aftur í hug, hversu gaman það væri að sjá „tröllkonunginn“ álengdar. Hann hugsaði um þetta allan daginn og hálfa nóttina. Hann gat ekki sofið.

„Dæmalaust væri það gaman“, hugsaði hann, „að sjá kauða“. Og því lengur sem hann hugsaði um þetta, því ákafar langaði hann til þess. Hann reis upp úr rúminu og skreið út úr kofanum. Það var nístandi kuldi og marraði í snjónum undir fótum hans. En Sampo var í skinnúlpu, skinnbuxum, með leðurskó, skinnhúfu og skinnvetlinga. Hann kærði sig ekkert um kuldann. Hann stóð dálitla stund grafkyr og horfði á stjörnurnar, sem tindruðu óteljandi á himinhvolfinu. Alt í einu heyrði hann að litla hreindýrið hans var þar í nánd að krafsa snjóinn, til þess að reyna að ná í mosa.

„Ætti ég nú annars ekki að taka sleðann minn, beita hreindýrinu fyrir og fara spottakorn?“ hugsaði hann.

Svo tók hann sleðann og hreindýrið og þaut af stað yfir snjóinn. „Ég ætla að fara dálítið nær Rastekajs“, hugsaði hann. Og svo fór hann yfir ána með fljúgandi hraða og langt út á eyðisléttur — en hann hugsaði ekkert um það. Hann hélt áfram lengra og lengra. Hann sá í myrkrinu, hvernig úlfarnir hlupu í kring um sleðann eins og hundar, líklega til þess að ná hreindýrinu hans og ef til vill honum sjálfum. En Sampo treysti hreindýrinu; hann vissi að það var fljótt á fæti. Hann hélt áfram með flughraða yfir hæðir og hóla, lautir og dali; það marraði í snjónum undir fótunum á hreindýrinu hans. Honum sýndist tunglið þjóta áfram og eins allir hlutir. Sampo þótti þessi ferð svo skemtileg, að hann var alveg himinlifandi af gleði. Alt í einu varð hann að fara krók, en þegar sleðinn beygði við, fór hann á hliðina og Sampo datt út í snjóinn af sleðanum, en hreindýrið hljóp áfram og skildi hann eftir. — Það var ljóta klípan, sem hann var kominn í!

Það lá við að hann svimaði þegar hann datt af sleðanum, og það var náttúrlegt. Hann stóð upp úr snjónum, en það var til litils. Hann horfði út í geiminn, en sá ekkert annað en snjó og himinhá fjöll. Eitt fjallið var hæst — langhæst; það var eins og það væri konungur allra hinna fjallanna. — Það var Rastekajs. Æ, æ! nú var hann kominn til Rastekajs og þar var konungur tröllanna, sem át heilt hreindýr í einum munnbita og gleipti litla drengi eins og þeir væru ekki stærri en mýflugur. „Ó, að ég væri kominn heim!“ hugsaði Sampo og varð nú dauðhræddur, „Ó, ég vildi að ég væri kominn heim í kofann til hennar mömmu og hans pabba“. En hann hélt að það væri alveg ómögulegt fyrir sig að komast burt; hann hélt að konungur tröllanna myndi gleipa sig með húð og hári. Það var ekkert gleðilegt að sitja þarna aleinn úti á eyðimörku í Lapplandi. Sampo fór að gráta; en tárin frusu jafnskjótt og ultu eins og perlur niður eftir kinnunum á honum. Loksins stökk hann á fætur og sagði við sjálfan sig: „Þetta dugar ekki! ég verð að gjöra eitthvað til þess

að frjósa ekki í hel hérna; nei heldur fer ég til konungs tröllanna. Ef hann étur mig, þá verður það að vera svo, en ég ætla að segja honum að það sé miklu betra fyrir hann að éta úlf en Sampo Litla-Lappa". Því næst fór hann að ganga upp eftir fjallshlíðinni. Eftir stutta stund heyrði hann eitthvert hljóð fyrir aftan sig; það var úlfur — stór, loðinn úlfur. Sampo varð dauðhræddur, — hann herti upp hugann og sagði einarðlega: „Vertu ekki í vegi fyrir mér, ég ætla til tröllakonungsins, og ef þú ætlar að gjöra mér nokkuð ilt, þá skaltu hafa verra af því".

„Hvað er þetta!" sagði úlfurinn. „Hvað vilt þú, snáðinn þinn. Hvað ertu annars að gjöra hér einn saman, langt frá öllum mannabygðum, og hvað heitirðu?"

„Ég heiti Sampo Litli-Lappi, en hvað heitir þú?"

„Ég er æðsti úlfur tröllakonungsins" svar, aði hann. Ég hefi verið að bjóða til sólhátíðarinnar miklu. Fyrst þú ætlar sömu leið og ég, þá er velkomið að ég beri þig dálítinn spöl". Sampo klifraðist upp á bakið á úlfinum og hann stökk með hann upp eftir fjallinu, yfir gjár og gljúfur.

„Sólhátíð, hvað er það?" sagði Litli.-Lappi „Sá er vitlaus!", sagði úlfurinn og gretti sig. „Þegar myrkur og nótt hefir verið heilt missiri í Lapplandi og svo sést aftur sól á himni í fyrsta skifti, þá höldum við henni fagnaðarhátíð. Þá koma saman öll dýr og öll tröll frá öllum Norðurlöndum, á Rastekajs og þá er engum gjört ilt, það verður þér til lífs, Sampo litli, því annars hefði ég étið þig undir eins.

„Er tröllakonungurinn þá ekkert hættulegur á þessari hátíð?" spurði Sampo. „Nei", svaraði úlfurinn, frá því einni stundu fyrir sólaruppkomu og þangað til einni stundu eftir sólarlag dirfist ekki einu sinni tröllakonungurinn að gjöra þér nokkuð ilt; en gættu þín vel þegar sá tími er liðinn; þá munu 100,000 úlfar og 1000 birnir ráðast á þig og þegar Tröllakonungurinn gefur merki, þá er úti um Litla-Lappa".

„Góði úlfur, fylgdu mér heim aftur þegar hættan nálgast!", sagði Litli-Lappi, dauðhræddur.

„Ég!", sagði úlfurinn hlægjandi. „Ég verð líklega heldur fyrstur til þess að rífa þig í sundur".

Sampo hugsaði sig um nokkra stund og hélt að snjallast myndi fyrir sig að hlaupa niður af bakinu á úlfinum, en það var of seint. Þeir voru komnir upp á fjallstind og þar var margt að sjá. Þar sat konungur tröllanna í hásæti sínu, sem gjört var af himingnæfandi klettum og horfði yfir alla jörðina. Hann hafði hjálm á höfði úr skýjum og augu hans voru eins og tungl í fyllingu. Nefið var eins og fjallstindur, munnurinn eins og heldýpisgjá, skeggið eins og ótal grýlukerti, handleggirnir eins og stóreflis furutré, hendurnar sprungnar og gráar eins og gamall eikarbörkur; fæturnir voru voðalega stórir. Ef þið spyrjið, hvernig hægt hafi verið að sjá hann í myrkrinu, þá skuluð þið hugsa eftir því, að norðurljósin skinu um hann allan.

Umhverfis hann sátu tröll og forynjur, þúsundum saman, sum afarstór, sum ógurlega lítil. Þetta hafði komið saman til og frá úr heiminum, t. d. frá Novaja Semlja og Spitsbergen, frá Íslandi og Grænlandi og norðan frá heimskauti, allir komu til þess að fagna sólunni. En það var ekki kærleikur, sem kom þeim til þess að fagna henni, það var að eins af ótta. Tröllin hata sólina og óska að sjá hana aldrei; óska að hún komi aldrei upp aftur þegar hún hverfur á bak við fjöllin. Langt frá konunginum stóðu dýrin í löngum fylkingum svo þúsundum skifti. Öll dýr voru þar saman komin nema

mýflugurnar, þær höfðu gildar afsakanir — þær voru frostnar í hel.

Sampo horfði á alt þetta með undrun; hann fór hægt niður af bakinu á úlfinum og faldi sig á bak við stóran stein til þess að geta séð hvað fram færi, án þess að hann sæist sjálfur. (Frh.) [S. J. J.]

## Dáinn.

Kvæði það, sem hér fer á eftir, er áður prentað í „Fjallkonunni", en sökum þess, að margir hafa beðið mig að birta það einnig í „Æskunni", vil ég verða við tilmælum þeirra. Efni kvæðisins er sönn saga, sem ég hefi að eins snúið í ljóð. Það sýnir það glögt, hvernig saklausir unglingar eru stundum afvegaleiddir; hversu sumar mæður eiga um sárt að binda og hvernig efnilegir og góðir menn verða að úrþvættum vegna drykkjuskaparins:

Hún átti sér lítinn og laglegan son
og ljósan á hörund sem snjáinn.
Þar fanst henni vera sín framtíðarvon,
því faðir hans löngu var dáinn.

Á meðan hann lifði, þá leið þeim svo vel,
hann leitaði fiskjar á sjáinn;
hann æðraðist sjaldan og hræddist ei hel,
þótt hvesti og svignaði ráin.

Hann skamt upp frá ströndinni bygt hafði bæ
og byttan hans stóð þar við sjáinn;
hann fátækur var, en þó ánægður æ,
á engum sást glaðlegri bráin.

Hvern einasta morgun, ef ekki var hvast,
hann ýtti með dögun á sjáinn,
og kugginn með árunum knúði hann fast,
þótt kolmórauð beljaði láin,

En svo var það kvöld eitt, hann kom ekki' í land,
er Kári' átti' í brösum við sjáinn
og bárurnar kveðjuna' hans kváðu við sand, —
þær kváðu hann nú vera dáinn.

Og konunni flutti hann Kári þá fregn,
hann kvað hana' í sífellu' á skjáinn.
Það var líkt eins og hjarta' hennar lagt væri' í gegn,
hún leið niður rétt eins og dáin.

Svo stóð hún upp aftur, en studdi sig þó,
hún starði með ekka' út á sjáinn.
Í huga' hennar var ekki hvíld eða ró,
því hann, sem hún unni, var dáinn.

En þó mátti' ei æðrast og það vissi' hún glögt,
en þrútin og döpur var bráin,
og hvarmarnir vöknuðu' og hjartað varð klökt
í hvert sinn, er leit hún á sjáinn.

Hún hugsaði oft um sitt elskaða jóð,
það að eins var heitasta þráin,
að framtíðin *hans* yrði fögur og góð,
þótt faðir hans væri nú dáinn.

Hún vissi það ekki, hvað yrði' honum bezt,
en ei mátti' hann róa' út á sjáinn,
því þá gat hann brimað og þá gat hann hvest,
og þá var *hann* óðara dáinn.

En senda' hann í skóla — það skárst henni fanst,
þótt skildinginn brysti, var þráin
svo sterk, — það var undur hve vel henni vanst,
— en von bræðir hörmunga snjáinn.

Og hann var svo lítið og leikfjörugt barn,
hann lék sér við blómin og stráin,
svo ungur, svo kátur, svo glaðværðargjarn,
hann galaði' og söng út í bláinn.

En tímarnir liðu, og tíðanna hjól
það tifaði' um lönd og um sjáinn,
hann nú hafði lifað hin níundu jól,
og nú var til bókmenta þráin.

Úr skólanum hafði' hann svo fjöldamargt frétt,
því fæddist í huga hans þráin,
að komast í hópinn og klæða sig nett,
það kaus hann — og losna við sjáinn.

Svo býst hann í skóla' og við skaparann sver,
að nú skuli' hann ei lifa' út í bláinn,
og móðirin faðmaði soninn að sér,
af söknuði hnyklaðist bráin.

Þótt brottfararstund væri bitur og sár,
þá bætti það vonin og spáin,
því lærður hann kom eftir ákveðin ár
og öll var þá hörmungin dáin.

Nú fór hann að lesa'; honum lét það svo vel,
hann lifði nú ekki' út í bláinn.
En letingjar sögðu: „þú lest þig í hel,
þó ljótt sé, þá rætist sú spáin.

En skoðaðu heiminn og skunda með oss
og skruddunum fleygðu' út í bláinn,
og lát sem þú vitir að lífið er hnoss,
og láttu' ekki sem þú sért dáinn!

Og þeir voru lærðari' og lesnari' en hann
— og ljárinn er beittari' en stráin —
og slægur á saklausum sigurinn vann
um síðir — hann stökk út í bláinn.

Á kveldin nú lék hann sér langt fram á nátt,
við lestur var áhuginn dáinn,
og miklu hann eyddi, en innvann sér fátt;
hann álpaðist rétt út í bláinn.

En mamma' hans var heima, hún undi sér ei,
því ástin og vonin og þráin,
þær hvísluðu' „hann kemur!" en hræðslan
kvað „nei",
en hvor var þá réttari spáin?

Hann spilaði' og dansaði', en lítið hann las,
var lifandi réttnefndur dáinn;
hann fór ina á knæpur og fékk sér á glas,
og flúin var göfuga þráin.

Hann labbaði drukkinn eitt laugardagskvöld,
er ljós voru hvervetna dáin,
og niður á bryggju, en kjör voru köld
— hann kollsteyptist beint út í sjáinn.

Og lífið var horfið að litilli stund,
hann lá þar í fjörunni — dáinn,
hann sofnaði eilífum brennivínsblund,
og bylgjurnar léku við náinn.

Er móðir hans heyrði þá hörmunga fregn,
að *hann* væri kominn í sjáinn,
hún varðist ei lengur, það var henni' um megn;
hún valt fram af rúminu — dáin.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

---

## Hnittileg svör.

Í höfuðborg einni, þar sem konungur hafði aðsetur sitt, ólst upp drengur nokkur, sem brátt varð orðlagður fyrir það, hversu hann svaraði hnittilega öllu því, er hann var spurður. Þetta berst til eyrna konungs og lætur hann kalla drenginn fyrir sig og segir honum að það skuli verða upphaf gæfu hans, ef hann geti svarað þrem spurningum svo sér líki. Drengur kveðst verða að reyna. Konungur ber þá upp fyrstu spurninguna: Hversu margir dropar eru í heimshafinu?" „Ef yður, herra konungur, þóknast að stýfla allar ár og læki, sem renna út í heimshafið, og koma í veg fyrir að það rigni meðan ég er að telja, þá skal ég segja yður það", svaraði drengurinn. Konungur lét sér nægja þetta svar, og bar upp næstu spurningu, er þannig hljóðaði: „Hversu margar eru stjörnur himinsins?" Drengurinn biður um pappír, penna og blek; gerir svo marga punkta á pappírinn, að ekki verður aðgreint og hættir ekki fyr en alt blaðið er þéttsett punktum. Réttir hann þá konungi blaðið og segir:

„Stjörnur himinsins eru hundrað þúsund sinnum fleiri; nú getið þér talið“. Konungur lítur á og sér að punktarnir eru óteljandi. Ber hann þá upp þriðju spurninguna: Hversu löng er eilífðin? „Skamt frá borg yðar hátignar“, svaraði drengurinn „er klettur, sem er hundrað faðmar á lengd og breidd og 50 feta hár og nær 50 fet í jörð niður. Hundraðasta hvert ár kemur lítill fugl og brýnir nef sitt á þessum kletti, og þegar allur kletturinn er brýndur upp, þá er ein sekúnda liðin af eilífðinni“.

Konungi líkuðu svörin svo vel, að hann lét setja drenginn til menta, og gerði hann seinna að ráðgjafa sínum.

*Guðm. Magnússon* þýddi.

# Í kirkjugarðinum.

(Frh.) Loksins gat ég lesið á borðann og sá að skrifað var á hann öðrumegin, mjög viðvaningslega og rangt: „Olavur Palson fæddur 1 jan 1820 dáin 1 seft 1890“ og hinumegin var skrifað með sömu hendi: „Sídasta kvedja fra Gústu med þagglæti ferer alt gott“. Ég sá undir eins að litla stúlkan myndi hafa skrifað þetta sjálf og ég sá líka að henni hafði ekki verið kend réttritun, aumingja barninu.

Ég stóð þarna dálitla stund, en þó án þess að hún tæki eftir mér, svo klappaði ég hægt á öxlina á henni. Hún hrökk við og leit á mig og ég sá það á henni, að hún hafði grátið. Ég þekti vel þetta andlit fyrir annað; ég hafði oft séð það á götunum. „Hver er jarðaður hérna?“, spurði ég, með svo þýðum rómi, sem mér var unt. „Það er hann Óli minn“, sagði hún og horfði alvarlega framan í mig. Það var eins og hún yrði steinhissa á því, að ég skyldi ekki hafa þekt hann Óla sinn, eða vita hvar hann væri jarðaður.

„Hvað ert þú að gjöra hérna við gröfina hans?“, spurði ég.

„Ég var að láta þenna blómsveig á hana“, svaraði hún. „Hann Óli sagðist vonast til að ég léti blóm á gröfina sína, þótt enginn gerði það annar. Aumingjnn hann Óli, hann lá svo lengi áður en hann dó og hann sagði að sig langaði til þess að komast sem fyrst til guðs, og nú er hann ugglaust kominn þangað, haldið þér það ekki? hann var svo dæmalaust góður maður hann Óli“. „Jú, það er sjálfsagt, barnið mitt“, svaraði ég — „en viltu segja mér, hvar þú átt heima?“ Ég á heima í litla bænum þarna“, sagði hún og benti á hrörlegan og lítinn torfbæ langt fyrir ofan læk. „Viltu lofa mér að verða þér samferða heim?“ spurði ég. „Hvað ætlið þér að gjöra heim?“, spurði hún. „Ég ætla að tala við hann pabba þinn og hana mömmu þína“, svaraði ég. „Ég á engan pabba og enga mömmu“, sagði hún. „Mamma mín er dáin fyrir löngu og ég hefi aldrei átt neinn pabba“. „Hvaða vitleysa“, barnið mitt“, sagði ég, pabbi þinn hefir náttúrlega dáið áður en þú manst eftir. Var hann nokkuð skildur þér, hann Óli gamli?“ „Nei“, svaraði hún, „en hann kendi mér að lesa og skrifa og hann sat undir mér í rökkrinu og sagði mér svo margar fallegar sögur, og hann var aldrei vondur við mig; þess vegna þótti mér svo vænt um hann og ég hlakka til þess að fá að koma til hans og sjá hann aftur hjá guði. Hann sagði mér að ég kæmi þangað til sín, ef ég gerði aldrei neitt ljótt og ég ætla að reyna það“.

„Þú sagðir að hann Óli hefði aldrei verið vondur við þig“, sagði ég, „en voru þá nokkrir vondir við þig?“. Ne-e-i, ja-jú stundum“, sagði hún. (Frh.) [S. J. J.]

## Leikur.

Ef mörg börn eru að leika, sér sest ein stúlkan á stól eða bekk og eitthvert af börnunum hylur höfuðið í kjöltu hennar og leggur aðra hendina á bakið, þannig að lófinn snúi út. Nú koma öll börnin og eitt þeirra slær á lófann á hinu, en það á að geta, hver það var, sem sló það. Barnið, sem slegið er, snýr sér vanalega við, til þess að sjá það á augnaráðinu, hver það hafi verið, en þá ríður á fyrir þann, sem slegið hefir, að gæta sín vel og láta ekkert á sér sjást. Sum börn eru mjög leikin í þessu. Ef sá, sem sleginn var, getur rétt, þá á sá, sem sló, að taka við í staðinn fyrir hann, og svo getur það gengið koll af kolli.

## Skrítlur.

Eftirfarandi auglýsing var skrifuð á hurð í einu húsi hérna í bænum í haust: „Hér með er öllum stranglega bannað að skilja **ekki** eftir opnar dyrnar, þegar þeir ganga um þær“.

Á þjóðhátíð í Svíþjóð var verið að útbýta verðlaunum. Sá, sem það gjörði, komst ekkert áfram fyrir því að ótal drengir þyrptust í kring um hann. Hann tók því það ráð, að hann kallaði upp og spurði, hvort enginn væri þar, sem hefði spurningakver. „Það er svo margt saman komið hérna af efnilegum drengjum“, sagði hann, „að það er gaman að vita hver þeirra er bezt að sér í kverinu“. Eftir örfá augnablik voru allir drengirnir horfnir.

Maður nokkur sat fyrir framan stóran spegil og hafði aftur augun, „Hvað ertu að gjöra þarna?“, spurði einhver, sem kom inn. „Ég er að sjá hvernig ég lít út þegar ég sef“, svaraði hann.

## Jólablað.

Skrautprentað blað, með tveimur myndum, kemur út af Æskunni rétt fyrir jólin. Þeir, sem ætla að gjörast nýir kaupendur að Æskunni, ættu að flýta sér að panta hana áður en það kemur.

## Ný barnastúka.

Nokkur börn hafa óskað eftir að stofnuð yrði ný barnastúka hér í Reykjavík; ef þau verða nógu mörg, verður stúkan stofnuð.

Öll þau börn, sem ekki eru komin í Good-Templarfélagið og vildu vera með að stofna þessa nýju stúku, geta snúið sér til Sig. Júl. Jóhannessonar. Það væri skemtilegt að hafa hér 2 fjölmennar barnastúkur á jólunum. Þá verður haldin skemtun eins og vant er. Flýtið ykkur að ganga inn í félagið fyrir jólin.

## Tombóla.

Barnastúkan Díana á Seltjarnarnesi heldur tombólu á sunnudaginn í Mýrarhúsaskóla, kl. 2 síðdegis. Öll þau börn hér í Reykjavík, sem vilja gefa einhverja smámuni til hennar, eru beðin að gjöra svo vel og koma þeim til Sigurðar Þórólfssonar. Ef gott verður veður, þá væri gaman fyrir Reykjavíkur börnin að koma fram eftir og draga einn drátt. Inngangurinn kostar **ekkert,** og dátturinn einungis 5 aura. Díana er ung og fátæk en þarf að kaupa sér einkenni og ýmislegt fleira. — Díana heldur stúkufundi sína á hverjum sunnudegi kl. 10 árdegis.

**„Æskan“**
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í júnímánuði ár hvert. Sölulaun $^1/_5$.

Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* cand. phil.

Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| II. árg. | Reykjavík, 15. desember 1898. | 5.—6. tbl. |
|---|---|---|

Unglingspiltur í Lundúnaborg (Lundúnaborg er höfuðborgin á Englandi) sem var kennari við sunnudagaskóla, hafði sýnt svo framúrskarandi hæfileika, þegar hann var sjálfur í skólanum, að hann komst þar að sem kennari skömmu eftir að hann útskrifaðist þaðan. Það var einhvern dag, er hann kom úr skólanum, að hann mætti litilli stúlku á götunni; hún var illa til fara og það lá illa á henni. Þá voru mörg, fjöldamörg börn í Lundúnaborg, sem áttu ekkert heimili og urðu að vera úti nótt og dag. Þegar kalt var, hnipruðu þau sig undir einhvern húsvegg og voru þar skjálfandi á næturnar, en á daginn gengu þau á milli manna og báðu að gefa sér 1, 2 eða 3 aura. Hvað gengur að þér litla stúlka?“, spurði hann, „hvers vegna ertu ekki heima hjá þér?“ „Ég á hvergi heima„, sagði hún; „Viltu ekki gefa mér 5 aura til þess að kaupa fyrir eitthvað til að borða, ég hefi ekkert borðað síðan í gærmorgun“. Jón tók litlu stúlkuna með sér, keypti mat handa henni og fór síðan með hana inn í kofa, sem var hjá sunnudagaskólanum og las þar fyrir henni kafla úr ritningunni; svo sagði hann henni frá sunnudagaskólanum, og hún hlustaði á hann með athygli. „Helduröu ekki að þér þætti gaman að vera á sunnudagaskólanum?“, sagði Jón. „Jú“, svaraði litla stúlkan. Það hlýtur að vera dæmalaust gott að vera þar“. Næsta dag fór Jón til skólameistarans og sagði honum frá þessari litlu



stúlku. Skólameistaranum þótti mjög vænt um Jón og hann gjörði það fyrir hann að taka hana heim til sín og kosta hana á skólann.

Nú er hún orðin fulltíða kona i Lundúnaborg og sjálf kennari við þenna sama sunnudagaskóla — og þetta átti hún Jóni að þakka. (Þýtt úr ensku).

# Sampo Litli-Lappi.

(Eftir **Topilius**).

(Niðurl.)

Sampo horfði á alt þetta steinhissa, laumaðist hægt niður af úlfinum og faldi sig á bak við stein, en teygði höfuðið upp fyrir hann, til þess að geta séð hvað fram færi.

Tröllakonungurinn leit upp og snjórinn þyrlaðist i kringum hann og norðurljósin skinu eins og ljóskróna í kringum höfuð hans; þau voru eins og langir, bleikrauðir geislar á heiðbláum næturhimninum. Það brakaði og suðaði eins og þegar kviknað hefir í heilli borg og eldurinn læsir sig úr einu húsinu í annað. Ýmist uxu norðurljósin eða minkuðu, ýmist urðu þau bjartari eða daufari. Þau þutu eins og eldingar yfir snæþakin fjöllin og tröllakonungurinn fagnaði því og klappaði saman höndunum, svo að drundi í fjallshnúkunum, rétt eins og í þrumuveðri. Tröllin öskruðu af gleði, en dýrin æptu af hræðslu og þá var tröllakonunginum skemt. Hann kallaði svo hátt, að Sampo hélt að það hlyti að heyrast um allan heim: „Þetta líkar mér! þettta líkar mér! Svona á það að vera! eilífur vetur, eilíf nótt! Já, þetta líkar mér“.

„Já, svona á það að vera! svona á það að vera!“ kölluðu öll tröllin, því þeim þótti vænna um vetur, nótt og myrkur, en sumar og sólarljóma. En dýrin voru ekki á eitt sátt. Rándýrin voru á sama bandi og tröllin, en önnur dýr vildu hafa sumar, einkum ef þá yrði ekki mjög mikið mýbit. Hreindýrið sagðist vilja hafa sumar, skilyrðislaust, og það hrópaði hástöfum: „Konungur, við erum hingað komin til þess að taka á móti sólinni og fagna henni, en ekki til þess að drekka erfi hennar“.

„Þegiðu, óræstis úrþvættið þitt“, öskraði ísbjörninn. „Það er aðeins af gamalli venju að við söfnumst hér saman. Nú er sólin horfin fyrir fult og alt, hún er sloknuð. Sólin er dauð“.

„Sólin er sloknuð, sólin er dauð“, nöldruðu öll dýrin og það fór um þau hrollur; en tröllin grettu sig og skældu af gleði og tröllakonungurinn glenti upp ginið, heljar vítt eins og hyldýpisgjá og öskraði: „Já, svona á það að vera, svona á það að vera! sólin er dauð og allur heimurinn mun falla fram og tilbiðja mig, konung hins eilífa vetrar, hinnar eilífu nætur, hins eilífa myrkurs.

Sampo litli hlustaði á alt þetta á bak við steininn og honum gramdist það. Hann reis því upp og sagði: „Þú lýgur, tröllakonungur, þú lýgur! Sólin er ekki dauð, ég sá fyrirrennara hennar í skýinu í gær og bráðum kemur hún og bræðir af þér skeggið!“.

„Þegar Sampo sagði þetta, færðist ský á enni tröllakonungsins. Hann gleymdi friðarlögunum, rétti fram handlegginn og ætlaði að taka Sampo litla, en í sama bili fölnuðu norðurljósin; rauð rák sást á himninum og ljós skein frá henni beint framan í helkalda ásjónu tröllakonungsins; hann kreisti aftur augun og hengdi niður handleggina máttlausa. Röndin á sólinni kom eldrauð og hátíðleg upp fyrir sjóndeildarhringinn og varp ljósi á land og sæ. Hún skein á tröllin og dýrin og Litla-Lappa, sem hafði verið svo hugrakkur. Snjórinn glitraði eins og hann væri

allur skreyttur silfurrósum; sólin skein skært í augu allra og inn í hjörtu margra. Sum þeirra, sem áður höfðu hlakkað til þess, að sólinn væri dauð, glöddust nú af því að sjá hana aftur.

Það var hlægilegt að sjá, hvernig tröllunum varð við. Þau depluðu litlu, gráu augunum og gutu þeim út undan rauðu húfunum og urðu svo frá sér numin, að þau stungu sér á höfuðið niður í snjóinn. Skeggið á tröllakonunginum stóra, hræðilega tók að bráðna og rann nú eins og stór lækur niður eftir hvítu fötunum hans.

En þegar allir höfðu horft þannig stundarkorn á sólina, sumir með gleði en sumir með gremju og undrun, var tíminn nærri því liðinn. Sampo heyrði að hreindýr eitt sagði við litla kálfinn sinn: „Komdu, komdu, barnið mitt; nú verðum við að fara af stað, því annars éta úlfarnir okkur“.

Þá datt Sampo í hug hvað hann ætti í vændum, ef hann biði lengur. Hann sá rétt hjá sér fallegt hreindýr, með fögrum, gyltum hornum. Hann hljóp upp á bakið á því og það þaut af stað með fljúgandi hraða niður eftir fjallshlíðinni.

„Hvaða voðalegur niður er þetta fyrir aftan okkur?“, spurði Sampo einu sinni þegar hreindýrið hægði dálítið á sér, til þess að kasta mæðinni.

„Það eru 1000 birnir, sem elta okkur og ætla að éta okkur“, sagði hreindýrið: „en vertu ekki hræddur, hingað til hefir enginn björn hlaupið mig uppi“.

Svo héldu þau áfram stundarkorn og þá spurði Sampo: „Hvað blæs svona mikið fyrir aftan okkur?“.

„Það eru 100,000 úlfar“, svaraði hreindýrið: „Þeir ætla að éta okkur; en vertu ekki hræddur; enn þá hefir enginn úlfur haft við mér að hlaupa“.

Þau héldu enn áfram nokkra stund og þá spurði Sampo: „Eru þrumur í fjöllunum fyrir aftan okkur?“.

„Nei“, svaraði hreindýrið og hljóp nú hálfu harðara en áður: „Það er tröllakonungurinn, og undan honum kemst enginn“.

„Eru þá engin ráð?“, spurði Sampo.

„Nei“, svaraði hreindýrið: „ekki nema ef við komumst á prestsetrið við Enarisvatnið, því yfir kristnum mönnum hefir tröllakonungurinn engin yfirráð“.

“Jæja“, sagði Sampo. Hlauptu þá, góða hreindýr, yfir hvað sem fyrir verður, og ég skal altaf minnast þín með þakklæti“.

Og hreindýrið hljóp og hljóp svo hart eins og það ætti lífið að leysa; en þegar það kom inn í stofu prestsins, var tröllakonungurinn kominn inn í garðinn. Hann barði svo hart að dyrum, að húsið ætlaði að hrynja.

„Hver er úti?“, spurði presturinn“

„Það er ég“, svaraði þrumandi rödd úti í garðinum. „Ljúktu upp fyrir tröllakonunginum. Hérna er einn krakki, sem hefir strokið heiman að og alla krakka, sem strjúka, á ég“.

„Bíddu á meðan ég fer í hempuna og læt á mig prestakragann, svo ég geti tekið á móti þér með því meiri viðhöfn“.

„Jæja“, svaraði tröllakonungurinn, „en vertu þá fljótur, því annars felli ég húsið“.

„Já, það er sjálfsagt“, sagði presturinn, en tók vatnsskál og skírði Sampo í nafni guðs föðurs, sonar og heilags anda.

„Nú, ertu ekki bráðum búinn!“, öskraði tröllakonungurinn og lyfti upp loppunni til þess að fella húsið, en þá opnaði presturinn dyrnar og sagði: „Snáfaðu í burtu, konungur vetrar og myrkurs! því þetta barn færð þú aldrei. Náðarsól drottins skín yfir Sampo Litla-Lappa; hann er guðs barn, en ekki þitt“.

Þá sá tröllakonungurinn að hann gat ekk-

ert gjört Sampo litla; hann varð svo reiður, að hann hamaðist og gjörði þá svo mikinn gauragang, að alt ætlaði af göflum að ganga. Snjórinn rauk eins og aska og svo stór skafl kom yfir bæinn, að hann tók langt upp yfir mæninn á hæsta húsinu. En presturinn var rólegur; hann bað guð um nóttina, og morgunin eftir kom blessuð sólin og bræddi snjóinn ofan af bænum. En tröllakonungurinn sást hvergi. Þó halda menn að hann lifi enn og búi á Rastekajs.

Sampo Litli-Lappi þakkaði prestinum fyrir hjálpina og fékk lánaðan sleða hjá honum, og beitti gullhyrnda hreindýrinu fyrir hann og ók heim til foreldra sinna. Og það varð heldur en ekki fagnaðarfundur.

En hvernig Sampo svo varð ríkur og voldugur maður, það væri oflangt að segja ykkur núna.

## Óli.

Það var aðfangadagur jóla; alt var sópað og prýtt; börnin höfðu fengið ný föt; þau voru búin að kveikja á kertunum sínum og höfðu borðað ágætan kveldmat — miklu betri en þau voru vön, svo áttu þau að fá kaffi seinna á vökunni og kökur með — allskonar kökur. Jóhann gamli var altaf vanur að lesa húslesturinn og Óli sat vanalega hjá honum á meðan og hallaði sér upp að honum.

Óli tók altaf vel eftir lestrinum og ekki sízt þetta kveld. Hann heyrði að talað var um jólabarnið, Krist; hann heyrði að talað var um að hann hefði komið í heiminn til þess að bæta hann, til þess að gjöra mennina betri, svo að þeir gætu orðið sælir eftir dauðann. Hann heyrði líka að enginn gæti orðið sæll nema hann reyndi að breyta eftir honum. „Hann var miskunsamur og þolinmóður og enginn sá, er beitir harðýðgi og miskunarleysi getur orðið sæll“. Jóhann las þessi orð með svo mikilli áherzlu, að Óla varð starsýnt á hann. Þegar lesturinn var úti, laumaðist Óli út í horn og fór að gráta. „Hvernig stendur á því að þú skulir ekki vera glaður núna eins og allir aðrir?“, sagði Jóhann; „hvað getur gengið að þér? Þú hefir fengið falleg föt og góðan mat og ég hugsaði að þér hlyti að líða vel að öllu leyti, en þá stekkur þú út í horn og ferð að gráta?“ „Þa-þa það er talað svo illa um hann pabba í lestrinum“, sagði Óli. „Um hann pabba þinn!“, sagði Jóhann, steinhissa. „Já“, sagði Óli. „Það er sagt að enginn, sem sé miskunarlaus, verði sæll, og pabbi var það í kveld við hana Jörp — er það ekki meint eins um þá, sem eru vondir við skepnur?“ „Hvernig fór hann með hana Jörp“, sagði Jóhann. „Þegar hún kom heim í kvöld með folaldinu sínu, krafsaði hún lokuna frá hurðinni á húsinu hans Rauðs, fór þar inn og át dálítið úr jötunni af heyi. Þá fór pabbi inn í hesthúsið, rak hana út og barði hana með staur og lét hann Nonna reka hana með hundum inn á dal undir nóttina, og þó var kafald og frost og engir hagar. Hann sagði að það væri bezt að hún hefði það fyrir óþektina“, Jóhann gamli hlustaði á Óla með athygli, síðann gekk hann út og suður að hesthúsinu. Þá var Jörp komin heim og stóð skjálfandi undir hesthúsvegnum, en folaldið var að sjúga hana. Jóhann tók meis, sótti í hann hey og opnaði hesthúsið; Jörp leit vonar augum á Jóhann og hreyfði varirnar þegar hún sá heyið, en hún þorði ekki að elta hann inn í hesthúsið. Hann rak hana þá inn og folaldið með henni. Það var Óla litla að þakka að Jörp og folaldið hennar áttu góða jólanótt, og dæmalaust varð hann feginn þegar Jóhann sagði honum að hún væri komin inn.

— „En hann pabbi var eins vondur við hana fyrir því!“, sagði Óli og leit á Jóhann. „Held-, urðu að guð fyrirgefi honum það? „Já“ barnið mitt“, svaraði Jóhann. „Hann iðrast þess að hann skyldi gjöra það og hann gjörir það aldrei oftar“.

Um kvöldið þegar Óli var háttaður og lagstur út af, las hann bænirnar sínar eins og hann var vanur og bætti því við, að guð vildi fyrirgefa honum pabba sínum, hversu hann hefði verið vondur við hana Jörp, en hann gat ekki sofnað lengi vegna þess að hann var altaf að hugsa um, hvort hann myndi nú gjöra það. En þegar hann var nýsofnaður, dreymdi hann að það kæmi til sín maður — ákaflega fallegur maður í hvítum fötum; hann leit á hann brosandi og sagði. „Guð hefir heyrt það, sem þú baðst um og hann sendi mig til þess að láta þig vita að hann hefir fyrirgefið honum pabba þínum“. Að því mæltu hvarf engillinn.

[S. J. J.]

# Fræðibálkur.

## I.

Margir læknar hafa rannsakað áhrif vínsins á hjartað og starfsemi þess, og skal hér að eins talað um einn.

(1.) Hann hét Parkes og var herlæknir.

(2.) Hann tók nokkra unga menn, heilbrigða og lét þá ekkert hafa að drekka nema vatn; hann aðgætti nákvæmlega og iðulega hjartaslögin. Svo lét hann þá einu sinni fá dálítið af víni og aðgætti lífæðaslögin; því næst smájók hann vínið, sem hann gaf þeim, og aðgætti hjartaslögin oft á dag. Þannig mældi hann smámsaman áhrif vínsins á hjartaslögin.

(3.) Við þessar tilraunir fann hann það, að hjartað slær eftir því hraðara sem meira kemst af víni í líkamann.
Aðrir læknar hafa komist að sömu niðurstöðu.

(4.) Hjartað í fullorðnum manni slær hér um bil 100,000 sinnum á dag, ef hann drekkur ekki annað en vatn.

(5.) Þá hefir hjartað afkastað svo miklu erfiði, að það samsvarar því afli, sem þyrfti til þess að lyfta 120,000 pundum eitt fet frá jörðu.

(6.) Ef maðurinn drekkur áfengi, þá slær hjartað oftar á dag og verður því að afkasta meira erfiði.

---

(1.) Hvaða læknir hefir rannsakað áhrif vínsins á hjartað og starf þess?

(2.) Hvaða tilraunir gjörði hann í þá átt?

(3.) Hvaða niðurstöðu komst hann að við þessar tilraunir?

(4.) Hversu oft slær hjartað á dag í fullorðnum manni, þegar hann drekkur einungis vatn?

(5.) Hversu miklu erfiði verður hjartað að afkasta?

(6.) Hvaða breyting verður á hjartaslögunum, þegar menn drekka áfengi?

(Eftir „Magne“).

## II.

(1.) Blóðið hefir tvær hringferðir, það er

(2.) stóra hringferðin, þegar blóðið fer úr hjartanu út í líkamann og til hjartans aftur, og litla hringferðin, þegar blóðið fer úr hjartanu út í lungun og til hjartans aftur.

(3.) Báðar þessar hringferðir fer blóðið á hálfri mínútu.
Þegar blóðið kemur út í lungun, er það dökt og óhreint, en þar lýsist það og hreinsast.

(4.) Það, sem einkum hefir gjört blóðið dökt og óhreint, þegar það kemur út í lungun,

er kolsýra, sem það tekur í sig í líkamanum.

(5.) Kolsýran myndast af þeim pörtum líkamans (vöðvunum, taugunum o. s. frv.), sem eyðast smámsaman, og þess vegna verður að bæta það upp með fæðunni.

(6.) Kolsýran er eitruð fyrir líkamann, og verður þess vegna að fara út úr honum.

(7.) Þetta er eitt af mikilvægustu störfum blóðsins í líkamanum. Það flytur með sér kolsýru frá öllum pörtum líkamans út í lungun, og losnar þar við hana og tekur aftur í sig súrefni og flytur það til allra parta líkamans. Við þetta er tvent að athuga, sem hvorttveggja er mjög mikilsvert fyrir heilsu vora.

(8.) Annað er það, að blóðið geti flutt svo mikið, sem mögulegt er af kolsýru út úr líkamanum, til þess að hreinsa hann, og hitt, að blóðið geti flutt nægilegt súrefni aftur inn í líkamann. Öruggasta meðalið til þess að þetta geti orðið, er að vera úti í hreinu lofti.

---

(1.) Hversu margar hringferðir fer blóðið?

(2.) Hvað heita þessar hringferðir?

(3.) Hversu lengi er blóðið að fara þær báðar?

(4.) Hvað er það einkum, sem hefir gjört blóðið dökt og óhreint þegar það kemur út í lungun?

(5.) Af hverju myndast kolsýran?

(6.) Af hverju verður hún að komast út úr líkamanum?

(7.) Hvert er þá helzta starf blóðsins?

(8.) Hvað er það tvent, sem nauðsynlegt er fyrir heilsu vora og stendur í sambandi við blóðið?

(Eftir „Magne").

---

„Nú skal ég<br>
svei mér fá mér<br>
bjór", sagði hann<br>
Óli litli. „Ónei, góði<br>
gerðu það ekki",<br>
sagði Anna litla systir<br>
hans. „þá verð-<br>
urðu drukkinn eins<br>
og sein-<br>
ast, og<br>
þú veizt<br>
hvað henni<br>
mömmu er illa<br>
við það; þú vilt þó<br>
víst ekki gjöra á<br>
móti henni núna rétt<br>
fyrir jólin". „Uss!" sagði<br>
Óli, „ég skifti mér ekkert<br>
af hvað þú segir". Svo fór<br>
hann niður á veitingahús með<br>
budduna sína og sat þar þangað til<br>
hún var tóm. Hann kom heim seint um<br>
kveldið illa útleikinn og rifinn, því hann<br>
hafði lent í áflogum við Gvend á Barði,<br>
sem var langtum sterkari en hann. Svo<br>
fleygði hann sér upp í rúm í öllum föt-<br>
unum og sofnaði. Daginn eftir töluðu<br>
krakkarn- ir um að kaupa sér fallegt jóla-<br>
tré, og spurðu Óla, hvort hann vildi ekki<br>
vera með. Hann langaði til þess; en<br>
þegar hann gáði í budduna sína,<br>
var hún tóm. Hann<br>
hafði eytt öllu úr<br>
henni um kveldið<br>
á veitinga- húsinu.<br>
Óli gat því ekkert<br>
lagt til þeg- ar farið var<br>
að kaupa jólatréð, og<br>
hann ásak- aði nú sjálfan<br>
sig svo fyrir það, að hann<br>
gat ekki horft á það með<br>
hinum börn- unum, held-<br>
ur fór hann út í horn<br>
og grét þar. En upp frá<br>
þeim degi bragðaði<br>
hann aldrei vín; hann<br>
lét þá aura, sem hann<br>
eignaðist næst, fyrir<br>
inngang í barnastúk-<br>
una og hefir altaf verið<br>
þar síðan, og ég vona<br>
að hann verði þar<br>
alt- af<br>
á meðan hann lifir.

## Prentlistin.

Áður en menn gátu prentað, varð að skrifa allar bækur; en sökum þess að það var mjög seinlegt, voru bækur ákaflega dýrar og fáir gátu keypt þær. Biblían kostaði t. d. mörg hundruð krónur. Sá sem átti 3—4 bækur, var talinn efnaður.

Árið 1400 var byrjað að prenta spil og dýrðlingamyndir; voru hafðar til þess myndir, sem skornar voru í tré, og nokkru síðar voru prentaðar litlar bækur á sama hátt. Stafirnir voru skornir á tréplötur, sem urðu að vera jafnstórar og síðurnar í bókinni; því næst var borin sverta á plötuna og pappír lagður ofan á hana. Þannig var hægt að prenta heila síðu í einu og þannig var hægt að endurprenta sömu síðuna oft. En þá var ekki hægt að nota plöturnar til þess að prenta neitt annað, og það var dæmalaust erfitt að verða að skera mörg þúsund stafi í hvert skifti, sem einhver bók var prentuð. Þá var það, að maður nokkur þýzkur, sem hét Jóhann Gutenberg, fann það upp árið 1440, að skera stafina í tré, hvern fyrir sig, og var þá hægt að setja þá saman á mismunandi vegu og mynda ný og ný orð. Frá þessum tíma er prentlistin talin, því nú var hægt að nota sömu stafina í margar bækur með því að setja þá ýmislega saman. Þó varð prentlistin enn þá fullkomnari, þegar einn af samverkamönnum Gutenbergs fann upp mót til þess að móta í stafina úr málmi, því það var hægt að móta fleiri stafi á einni klukkustund en skornir voru út í tré á heilum mánuði. Fyrst voru prentaðar með þessu letri litlar bækur, en brátt var einnig farið að prenta þær bækur, sem stórar voru. Fyrsta stór bók, sem prentuð var, var biblíuþýðingin á latínu. Prentlistin breiddist út um alla Norðurálfu á skömmum tíma og þótti mjög mikilsverð uppfundning.

Á Íslandi var fyrsta bókin prentuð 1528 í prentsmiðju, er Jón biskup Arason á Hólum setti niður á Breiðabólstað í Vesturhópi. Eftir það var mikið prentað af íslenzkum bókum í Danmörku, og þar kom nýja testamentið fyrst út á íslenzku árið 1540. Á dönsku var nýja testamentið fyrst prentað í Þýzkalandi árið 1524, á sænsku var það fyrst prentað í Stokkhólmi (höfuðborginni í Svíþjóð) árið 1526.

## Vatnið.

Ef ekki væri til vatn á jörðinni, þá væru engar lifandi verur til, sem við þekkjum; engin jurt gæti vaxið og alt hlyti að deyja. Ef langur tími líður þannig að ekki rignir, þá skrælna grös og jurtir og jörðin verður þur og ófrjó. En vanalega rignir meira en svo að það sé mátulegt til þess að væta efstu jarðlögin og frjóvga þau. Þess vegna sígur nokkuð af vatninu lengra niður en jurtaræturnar ná. Þar sem sandur og möl er í jörðinni, sígur vatnið fljótt niður þangað til það kemur niður á jarðlag, sem er þétt fyrir, t. d. leir eða grjót. Þegar vatnið kemst ekki lengra, en altaf bætist við, leitar það annaðhvort til hliða eða upp aftur um einhverja glufu eða sprungu. Þegar það kemur þannig upp, myndast það, sem við köllum uppsprettur. Úr uppsprettunum myndast lækir; þeir eru vanalega svo litlir, að hægt er að stökkva yfir þá eða vaða þá. Svo þegar tveir eða fleiri lækir renna saman, myndast á. Þar sannast gamla máltækið, að „margir litlir lækir mynda stóra á“. — Þegar vatnið sígur niður í jörðina og brýst upp úr henni aftur, þá fer það í gegnum mörg jarðlög, sem

blönduð eru ýmsum efnum, t. d. kalki, salti, járni o. s. frv. Á leiðinni í gegnum þessi lög tekur vatnið nokkuð í sig af efnum þeim, sem í því eru. Þegar vatnið verður þannig blandað járni, er það oft haft til lækninga.

Á Íslandi eru margar ár, en þær eru flestar litlar og straumharðar, svo ekki er hægt að fara á skipum eftir þeim. Þó fljóta opnir bátar eftir sumum þeirra nokkuð langt upp í sveitir. Í öðrum löndum eru árnar afarstórar og djúpar, og sumstaðar straumlitlar; er því hægt að fara eftir þeim á stórum gufuskipum. Sumstaðar eru svo háar brýr lagðar yfir árnar, að gufuskip geta farið undir þær.

## Skrítlur.

DÝRAVINUR einn segir svo frá: — „Ég átti einu sinni kött, sem var mjög vitur og vel vaninn. Hann sat við borðið og át með okkur, hafði disk eins og við og pentudúk bundinn um hálsinn.

Hníf og gaffal hafði hann samt ekki eins og við.

Þegar hann hafði tæmt diskinn sinn, var ég oft vanur að láta bein og ugga á hann af diskinum mínum.

Svo var það einhverju sinni, þegar farið var að borða, að kisa kom ekki undir eins. En þegar við vorum nýbyrjuð, kom hún með tvær mýs í munninum, stökk upp á stólinn sinn (hún hafði stól eins og við), lagði aðra músina á diskinn minn, en hina á sinn.

Hún hefir ætlað að gefa mér músina í staðinn fyrir beinin og uggana, er ég hafði gefið henni“. (Eftir „Magne“).

KENNARINN: „Hvers vegna komstu ekki í skólann í gær?“

*Lærisveinninn:* „Ég var veikur“.

*Kenn.:* „Hvað gekk að þér?“

*Lærisv.:* „Ég hafði tannpínu“.

*Kenn.:* „Er þá ekki enn þá verkur í tönninni?“

*Lærisv.:* „Ég veit það ekki“.

*Kenn.:* „Hvað er þetta? veiztu það ekki?“

*Lærisv.:* „Nei, læknirinn tók hana úr mér í gær og þess vegna getur vel verið verkur í henni, þótt ég viti það ekki“.

EF ykkur þykir gaman að reikna, þá reiknið þessi dæmi:

1. Í Bandaríkjunum í Ameríku voru 215,000 vínsöluhús árið 1893, en 164,000 skólar. Hversu miklu voru nú vínsöluhúsin fleiri en skólarnir?

2. Þar voru þá 600,000 ofdrykkjumenn. Hversu mörgum sinnum voru þeir þá fleiri en alt fólkið í Reykjavík? Þar eru nálægt 5000.

3. Ef keypt er öl fyrir 40 aura á dag á einu heimili, hversu margar krónur verða það þá í 13 vikur? og hversu margar bækur mætti kaupa fyrir það, ef hver bók kostaði 2 krónur?

**KAUPENDUR!** Þeir, sem ekki hafa enn borgað I. árgang „Æskunnar“, eru beðnir að minnast þess, að hann átti að vera borgaður í júnímánuði.

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í júnímánuði ár hvert. Sölulaun ⅕.**

**Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* cand. phil.**

**Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.**

Félagsprentsmiðjan

# JÓLABLAÐ ÆSKUNNAR.

II. árg. | Reykjavík, 25. desember 1898. | Jólablað.




## Í dag er yður frelsari fæddur.

Það var nótt. Fyrir utan Betlehem vöktu fjárhirðar yfir hjörð sinni. Alt í einu varð bjart í kring um þá og engill stóð hjá þeim. Hirðarnir urðu mjög hræddir, því þeir áttu ekki von á þessu og skildu ekki hvað það átti að þýða. En engillinn sagði við þá, að þeir skyldu ekki vera hræddir, því hann væri kominn til þess að flytja þeim mikil gleðitíðindi, sem væru ekki að eins ætluð þeim, heldur öllum mönnum; og gleðitíðindin væru þessi: „*í dag er yður frelsari fæddur, sem er drottinn Kristur í borg Davíðs!*“ Hann, sem guð hafði hvað eftir annað lofað að senda mönnunum, til þess að frelsa þá frá syndinni og dauðanum; hann, sem guðhræddir Gyðingar höfðu þráð án afláts,

hann var nú fæddur í Betlehem, Davíðs borg. Og engillinn sagði þeim, að ef þeir vildu fara inn í borgina, þá mundu þeir finna þetta blessaða barn reifað, liggjandi í jötu.

Þegar engillinn hafði sagt hirðunum þetta, kom mikill fjöldi af englum þangað og þeir lofuðu guð og sögðu: „Dýrð sé guði í upphæðum, friður á jörðu og velþóknan yfir mönnunum!“

Þegar englarnir voru farnir til himna aftur, vaknaði hjá hirðunum áköf löngun eftir að sjá barnið, sem guð hafði sent heiminum, og þeir flýttu sér til Betlehem, og fundu alt eins og engill-hafði sagt þeim. Og þeir sögðu frá því, sem hafði komið fyrir þá um nóttina, og öllum þótti það mjög merkilegt.

Á myndinni sjáið þið hirðana, þegar þeir komu til barnsins í Betlehem. —

Þegar jólaklukkurnar nú kalla okkur saman til þess að heyra þennan boðskap, sem engillinn flutti hirðunum forðum: *„í dag er yður frelsari fæddur“*, þá höfum við sannarlega ástæðu til að gleðjast. Við höfum ástæðu til að gleðjast, því *okkur* er frelsari fæddur. Til þess að frelsa okkur frá synd og dauða fæddist Jesús í þennan heim; hann fæddist til þess, að við gætum orðið guðs börn og öðlast eilíft líf. Og þessi dýrmætu hnoss munu veitast okkur, ef vér trúum á hann, sem fæddist í Betlehem á jólanóttina.

Þetta er því jólaóskin, sem „Æskan“ flytur ykkur, kæru börn, að guð gefi ykkur öllum náð til að gleðjast af öllu hjarta yfir fæðingu frelsarans Jesú Krists, til að trúa á hann og elska hann, svo að þið getið sýnt það í öllu dagfari ykkar, að þið séuð guðs góð og hjartfólgin börn, og öðlist á síðan eilíft líf og eilífa sælu hjá honum.

*F.*

## Hann bætti ráð sitt.

KLUKKAN var orðin $5^1/_2$ á aðfangadagskvöld jóla. Það var farið að hringja til kveldmessu. Fólkið gekk hægt og stillilega í stórum hópum til kirkjunnar. Hátíðleg alvara hvíldi yfir öllu. Mannþyrpingin var þéttust á Aðalstræti; en þegar minst varði, opnuðust þar dyr á húsi og út kom drengur á að gizka 17 ára. Hann var í nýjum fötum, en illa út leikinn að öðru leyti; blóðugur í andliti og gat ekki gengið án þess að slangra til beggja hliða. Hann hreytti ónota orðum í alla, sem fram hjá gengu og blótaði ógurlega. — Hann var dauða-drukkinn. Gömul kona, sem kom auga á hann, tók sig út úr hópnum og fylgdi honum. Það var móðir hans. Hún hafði saumað honum ný föt fyrir jólin; hann var kominn heiman að fyrir 2 klukkustundum og sagðist ætla í kirkju; mamma hans ætlaði þangað líka og hlakkaði til að sjá hann í kirkjunni, blessaðan drenginn sinn, sem var svo fallegur; en hún hitti hann þá þarna svona á sig kominn. Hvernig haldið þið að henni hafi orðið við? Hún leiddi Siggu litlu systur hans við hlið sér; hún var 8 ára, en svo tók hún í handlegginn á syni sínum og leiddi hann

líka. Það var hrygðarsjón að sjá aumingja konuna, þegar hún varð að hætta við að fara í kirkjuna og snúa heim með Jóni — svo hét sonur hennar — útúrdrukknum. Þegar hún kom heim, háttaði hún Jón og lét hann fara upp í rúm. Hann steinsofnaði; en móðir hans settist fyrir framan hann og fór að lesa í sálmabókinni; hún grét yfir syni sínum og tárin hrundu niður á bókina — hún var ekkja, maður hennar var dáinn fyrir nokkrum árum. Eftir nokkra stund varð fyrir henni þessi sálmur: „Guðs son mælti: grát þú eigi“. Hún las hann til enda, þerraði tárin úr augum sér og lagði svo frá sér bókina. Það var eins og henni yrði miklu léttara á eftir.

Þegar Jón var nýsofnaður, dreymdi hann, að hann sæi pabba sinn sál. alveg eins og hann var, þegar hann lá banaleguna. Honum þótti sem hann kallaði á sig, legði hendurnar um hálsinn á sér, liti alvarlega en þó blíðlega framan í sig og segði: „Mundu eftir henni mömmu þinni!“ — Þegar Jón vaknaði um morguninn, var honum þessi draumur svo minnisstæður, að honum þótti sem hann myndi aldrei gleyma honum. Honum virtist sem hann horfði í augu föður síns hvar sem hann fór og hvert sem hann leit; og þessi orð hljómuðu sífelt í eyrum hans: „mundu eftir henni mömmu þinni!“ — Hann þoldi þetta ekki lengur; hann stökk til mömmu sinnar, bað hana fyrirgefningar og lofaði að bragða aldrei vín á meðan hann lifði, og hann hefir efnt loforð sitt. Hann fór í kirkju á jóladaginn með henni og fylgdist heim með henni aftur, en þá þurfti hún ekki að styðja hann. — Hann hefir aldrei bragðað áfengi síðan. — Hann er bóndi hérna í Reykjavík núna.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Barnavísur á Jólunum.

HÉR er bjart og hlýtt í kvöld,
heilög gleði' og friður;
en mun þá engum æfin köld?
ójú — því er miður.

Úti flýgur fuglinn minn,
sem forðum söng í runni;
ekkert hús á aumingin
og ekkert sætt í munni.

Frostið hart og hríðin köld
hug og krafta lamar; —
æ, ef hann verður úti' í kvöld,
hann aldrei syngur framar.

Ljúfi drottinn, líttu' á hann!
leyfðu' að skíni sólin!
láttu ekki aumingjann
eiga bágt um jólin!

Drottinn, þú átt þúsund ráð
og þekkir ótal vegi;
sendu hjálp og sýndu náð
svo hann ekki deyi.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

Ritstjóri: *Sig. Júl. Jóhannesson* cand. phil.

Félagsprentsmiðjan.

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 28. janúar 1899. | **8.—9. tbl.**

## Þessi mynd

er af gömlu stríðsskipi. Þið munið sjálfsagt öll eftir því, að þið hafið lesið sögur um það, að menn fóru til ýmsra landa til hernaðar, og þá börðust þeir stundum á sjónum. Þeir lögðu skipunum hverju við hliðina á öðru og gátu svo barist eins og þeir væru á þurru landi. Þið hafið t. d. heyrt um Svoldarorustu, þegar Ólafur Tryggvason barðist árið 1000, sama árið, sem Ísland var kristnað. Þið munið eftir því að hann barðist þá á sjó. Þið vitið náttúrlega hvaða maður Ólafur Tryggvason var? hann var konungur í Noregi. — Skipin, sem menn smíðuðu í fyrri daga, voru ekki eins að öllu leyti og þau, sem nú eru. Þið vitið það sjálfsagt öll, að önnur hliðin á skipunum er kölluð „á stjórnborða“. Af hverju haldið þið að það sé? Það er af því, að stýrið (stjórnin) var þeim megin á gömlu skipunum. Nú er stýrið aftan á öllum skipum, en það var áður hægra megin, aftarlega



Hægra megin á skipinu er það borðið, sem er mér á hægri hönd þegar ég er uppi í því og sný fram. Ef þið, Reykjavíkur börnin, komið á forngripasafnið, þá sjáið þið þar gamalt skip, sem hefir stýrið á stjórnborða. Sumir kalla það „stjórborða“, en það er ekki rétt. Hitt borðið er kallað á „bakborða“.

Sum gömlu skipin voru kölluð drekar; munið þið ekki eftir því í sögunum? Þau höfðu að framan haus með gapandi gini, en að aftan hala. Þau litu því út eins og ógurlegir drekar, þegar þeir brunuðu að landi, rétt eins og þau ætluðu að gleipa alt, er fyrir yrði. Haldið þið ekki að þið yrðuð hrædd, ef þið sæuð þannig lagað skip koma að landi?

Í fyrsta blaði „Æskunnar“ í fyrra fenguð þið mynd af gufuskipi; þau eru ekki nærri eins falleg, en þau eru hentugri sökum þess, að á þeim má ferðast næstum hvernig sem viðrar, en á seglskipum er ómögulegt að komast áfram í logni.

---

# Gleraugun hennar ömmu

eftir **Adam.**

Í norðurhluta Svíþjóðar eru mörg héruð, sem eru nálega aðskilin frá öðrum hlutum landsins. Á milli fjallgarðanna, sem kvíslast í allar áttir eins og greinar út frá tréstofni og hver þeirra skiftist aftur í margar smærri greinar, eru margir dalir. Í sumum þeirra er blautlent, í öðrum þurlendi. Sumstaðar eru engjar — ljómandi fallegar engjar, með litlu vatni í miðjunni og umhverfis þau eru birkigreni- og furuskógar.

Sá, sem aldrei hefir komið þangað, getur tæplega hugsað sér hversu lífið er þar kyrlátt og einverulegt — þar er sjaldan ókunnugt fólk á ferð. En þar búa menn til og frá í skógunum. Umhverfis kofana eru litlir kornakrar og fáeinar kindur eru á beit á engjunum. Árið í kring kemur þar ekki einn einasti maður annarstaðar að, og þeir, sem þar búa, fara sjaldan nokkuð út af heimilinu. Það er mest þegar eitthvað af fullorðna fólkinu fer til kirkju. — Það er líka langt til kirkjunnar, það eru fimm mílur — hver míla er fjögur þúsund faðmar. — Menn eru því marga daga á leiðinni þegar þeir fara til kirkju. Og þó eru menn, ef til vill, miklu guðhræddari í þessum litlu, afskektu hreisum, en í stórborgunum skrautlegu, þar sem ekki er nema steinsnar til kirkjunnar. Náttúran, sem er svo kyrlát og alvarleg, vekur hjá mönnum ýmsar angurblíðar hugsanir.

Nú hefi ég sagt ykkur, börnin góð, hvernig ýmsu er háttað þarna lengst norður í Svíþjóð, og svo skulum við bregða okkur þangað snöggvast og heimsækja þar fólkið á einu heimilinu. Við komum í einn dalinn, þar er bóndabær, umkringdur birkitrjám, sem speglast í litlu, kringlóttu vatni. En þessi dalur er ekki alveg eins einmanalegur og margir dalir aðrir þar nyrðra; því fjórðapart úr mílu þaðan frá er annar dalur eins. Bændurnir í nágranna dölunum eru vanalega óvinir, því þeir vilja báðir hafa sem mest af landinu, sem er milli þeirra, en þessir nágrannar voru beztu vinir. Þeir höfðu engin landamerki og beittu alt í félagi.

Fyrir utan dyrnar á öðrum bænum, sem hét Neðri-Steinstaðir, sat lítil stúlka á trédrumbi og var að gráta. Hún var hér um bil sex ára gömul. Það eru liðin þrjátíu ár síðan, en það lá eins illa á henni fyrir því eins og þó hún væri núna að gráta og við horfðum á hana.

Hún grét svo mikið, aumingja litla stúlkan, og tárin hrundu niður eftir þrútnum og rauðum kinnunum á henni eins og daggardropar á blómum á fögrum sumarmorgni.

„Guð hjá-hjá-hjálpi mé-mé-mér!“ sagði hún með ekka: „Ég-ég hefi bre-breytt svo i-illa“. Þetta sagði hún hvað eftir annað, en enginn heyrði til hennar. Foreldrar hennar voru inni og héldu að hún væri að leika sér eins og hún var vön, og amma hennar hélt það líka, þótt þetta væri henni að kenna. „Tína“ litla — svo hét stúlkan -- hélt áfram að gráta; en alt í einu kom nágrannakonan; og þegar hún sá litlu stúlkuna, sagði hún:

„Góða Tína;“ „af hverju grætur þú svona?“

Tína leit upp og sá að það var „Mamma á Efri-Steinsstöðum“, er hún kallaði. Það var góð kona, altaf síkát og glöð. Hún átti sjálf ekkert barn, en þótti eins vænt um Tínu og hún væri móðir hennar.

„Það liggur svo illa á mér,“ sagði Tína „æ, ég hefi verið svo slæmt barn. Ég braut gleraugun hennar ömmu, heldurðu að guð geti fyrirgefið mér það?“ „Hefirðu virkilega brotið gleraugun hennar ömmu þinnar?“ sagði „Mamma á Efri-Steinstöðum.“ „Hvað

sagði hann pabbi þinn?“ „Hann sa-sagði að é-ég yrði ba-ba-barin“ sagði Tína og þerði tárin úr augum sér. „En svo bað mamma og amma hann að gjöra það ekki, og ég slapp hjá því að verða barin, en ég fékk annað verra í staðinn.“

„Hvað var það Tína mín?“ spurði konan

„Amma sagði við mig: Vertu ekki að setja þetta fyrir þig, Tína litla, það gjörði ekkert til, en ég fæ aldrei eins góð gleraugu og þessi, þau áttu svo vel við mig, ég var líka orðin svo vön þeim — hér í grendinni er ekki hægt að fá almennileg gleraugu, þótt gull væri í boði“. „Góða bezta amma, vertu ekki reið við Tínu þína“, sagði ég, en þá kom það versta — langversta“.

„Hvað var það?“ spurði konan, „amma þín hefir þó ekki verið reið við þig?“. „Nei, hún tók mig upp í kjöltu sína, kysti mig og sagði: „Nei, barnið mitt, ég er ekki reið við þig, alls ekki, en sjáðu til, amma getur nú aldrei lesið oftar í biblíunni eða sálmabókinni. Annars gjörir það ekkert til, því ég get kembt, spunnið og prjónað sokka gleraugnalaus. En þú sérð að gamla amma verður að vera án biblíunnar og sálmabókarinnar, þegar hana vantar gleraugu — og þú manst það, að amma las altaf upphátt fyrir alla hina. Pabbi er þreyttur og mamma hefir svo mikið að gjöra — og þess vegna hefir enginn tíma til að lesa nema amma — og þar að auki getur enginn lesið eins rétt, hún las alveg eins og prestur — eða það hefir pabbi alt af sagt, eins og þú manst“. Það er satt, hún las svo dæmalaust vel. En nú getur hún ekki lesið oftar; hún reyndi það, en stafirnir runnu allir saman fyrir augunum á henni; þótt hún héldi bókinni í birtunni, og svo verður veturinn svo langur og leiðinlegur, þegar amma getur ekki skemt með því að lesa“.

Tína litla fór að gráta aftur.

„Vertu kát, Tína litla“ sagði gamla konan, „Það er hægt að ráða bót á þessu.“

„Nei, aldrei, aldrei!“ sagði Tína litla grátandi

„Hættu að gráta, Tína!“ sagði konan „ég skal gefa henni ömmu þinni ný gleraugu“.

Tína leit upp alveg hissa og horfði á konuna. „Ný gleraugu!“ sagði hún, „hefir þú ný gleraugu?“ Amma sagði að eins góð gleraugu og hennar væru hvergi nema í Stokkhólmi, sem hún segir að sé einhverstaðar úti á heimsenda, þar sem kongurinn er og alt fína fólkið“.

„Það getur verið satt,“ sagði konan, „en komdu með mér, Tína, amma þín skal fá miklu betri gleraugu, en gömlu gleraugun sem þú braust“.

Tína kallaði inn um dyrnar til ömmu sinnar og sagði: „Ég fer með mömmu á Efri-Steinstöðum“.

„Heyrðu nú, barnið mitt!“ sagði konan, þegar þær komu heim til hennar. „Sjáðu þessa litlu bók, hefirðu nokkurntíma séð svona bók?“

„Nei,“ svaraði Tína.

„Sjá! þarna stendur hani með bók í annari klónni en stíl í hinni, sjáðu, Tína!“

„Já, og haninn er rauður, þetta er fallegur hani.“ „Þetta heitir stafrófskver; það er til þess að læra að lesa í, það er gaman að læra að lesa!“

„Já, það ætlaði amma að kenna mér, ef ég hefði ekki brotið —“ nú komst hún ekki lengra fyrir ekka.

„En nú skal ég kenna þér að lesa; við skulum ekkert tala um það; taktu eftir því; ekki nefna það á nafn við pabba, mömmu né ömmu“.

„En gleraugun, góða mamma, hvar eru þau?“ „Litlu augun þín skulu verða miklu betri fyrir ömmu þína, en gleraugun hennar

þú getur verið í staðinn fyrir þau, þú skalt lesa fyrir hana.“

„Nei, — nú skil ég — já, kendu mér það, kendu mér það sem fyrst, kendu mér það í dag, svo hleyp ég heim í kveld og les fyrir ömmu!“

„Nei, Tína, það gengur ekki svo fljótt; þú verður að lesa lengi og vera iðin, ef þú átt að verða svo dugleg að geta lesið fyrir ömmu þína á jólunum; komdu hingað alt af í staðinn fyrir að leika þér og komdu svo oft sem þú getur“.

„Ó, ó!“ kallaði Tína, frá sér numin af gleði. „Já, ég skal læra að lesa og vera svo í staðinn fyrir gleraugu handa henni ömmu“.

„Konan hefði aldrei boðið Tínu þetta, ef hún hefði ekki vitað að hún var dugleg og iðin við það, sem hún átti að gjöra; hún vissi þess vegna að hún yrði líka dugleg að læra að lesa.

Hún kom á hverjum degi hlaupandi yfir skóginn, berfætt með flaksandi hárið; hún hlakkaði svo til þess að fá að lesa í fallegu bókinni með hananum á; þegar mönnum er áhugamál að læra, þá gengur það svo fljótt. Já, svo dæmalaust fljótt. Þá er alveg eins og ótal englar séu kringum mann og hvísli að manni hvernig maður á að skilja þetta og þetta, og það var eins fyrir Tínu þegar hún fór að lesa; en nú komst hún að því að hún hét Stína eða Kristín. Um haustið hafði hún lært að stafa, og fyrir jólin gat hún lesið á bók — og þó var hún ekki nema á sjöunda árinu. Var hún ekki dugleg?

Svo kom jólamorguninn; það var mikill hátíðisdagur, en Stína var fölari og alvarlegri en hún átti að sér. Mamma hennar tók sálmabókina og ætlaði að lesa, en Stína vissi að það myndi ganga illa.

„Hvaða sálm á ég að lesa?“ sagði mamma hennar. „Nr. 56, ég var alt af vön að lesa hann“ sagði gamla konan, spenti greipar á knjám sér og andvarpaði.

Stína heyrði að þetta var sama andvarpið og hún hafði heyrt þegar hún braut gleraugun, og henni lá við að fara að gráta. Stína tók samt bókina og leitaði í henni, en amma hennar sagði og leit á hana hvössum augum: „Hvað ert þú að gera við bókina Stína? fáðu henni mömmu þinni hana undir eins, svo að hún geti lesið!“

Stína lét sem hún heyrði ekki, en byrjaði að lesa með barnslegri og viðkvæmri rödd og tárin í augunum:

„Sjá, fyrir degi dimman flýr
og drottins englar hirðum tjá
þá fregn, er gráti' í gleði snýr,
að guð sé fæddur jörðu á.“

„Elsku barn! hvað er þetta?“ sagði amma gamla: „getur þú lesið, hvernig stendur á þessu?“ Stína litla stökk til ömmu sinnar, lagði hendurnar utan um hálsinn á henni og sagði:

„Það eru bara gleraugun hennar ömmu, sem eru komin aftur; amma skal hér eftir lesa með augunum hennar Stínu.

*Sig. Júl. Jóhannesson*
þýddi.

---

# Á nýársdag 1899.

UPP af svölum sævar-straumi
svífur árdags röðull kær;
vekur oss af værum draumi
vonargeisli ársins skær.
Hvetur oss til heilla' og þarfa;
heimtir oss að lifa' og starfa.

Öldufalda reifar roða,
rósagliti vefur kinn;

lýsi' oss gegnum brim og boða
bjarti nýársröðullinn.
Hrindi andans deyfð og doða
drottinn náðarkraftur þinn.

Þú hinn mikli uppheims andi,
auk þú vorum sálum þor!
hroka' að reka og lýgi' úr landi
logheit ganga sannleiks spor.
Hús vort reist á hraustum stoðum
hald' oss fast að kærleiksboðum.

Velkomið til vorra býla
vertu kæra nýja ár;
velkomið að verma' og skýla
velkomið að þerra tár.
Velkomið að veita frelsið.
velkomið að slíta helsið.

færðu blessun lýð og landi,
leiddu fiskinn ströndum að.
Verðu hólmann hvíta grandi
hvern einn græddu beran stað.
Gef að sérhver syndum hafni.
Sæk oss heim í drottins nafni.

*Lárus Sigurjónsson.*

# Sumarið, sem aldrei kom.

**Eftir Topelius.**

ÉG skal segja ykkur sögu, litlu börn. Hún er svo stutt, að eg vonast til, að þið hafið þolinmæði til þess að hlusta á hana.

Það var einu sinni lítill drengur, sem hét Rafael. Hann var hraustur og sterkur, fagur og blómlegur eins og litla tréð fyrir utan húsið, sem óx og þroskaðist dag frá degi, varð smám saman fagurlaufgað og alsett blómum.

En guð sá það, ef litli drengurinn lifði lengi, þá myndi hann verða að þola allskonar mótlæti, sorgir og kvalir; hann myndi verða fyrir mörgum og miklum freistingum, sem gætu ef til vildi spilt hjarta hans, sem var svo barnslegt, gott og göfugt. Þess vegna var það, að guð sendi engil sinn, er hét Rafael, niður til jarðarinnar frá himnum ofan og sagði við hann: „Farðu og sæktu Rafael litla og og komdu hingað með hann“.

Á sama augnbliki varð litli drengurinn veikur; það var um vetur. En foreldrar hans og litlu systkinin hans sögðu: „Við skulum vera róleg: þegar sumarið kemur, þá batnar Rafael litla aftur“.

Svo kom vorið bjart og milt og hlýtt, og fuglarnir sungu í trjánum. Börnin höfðu fugl inni hjá sér. Þau tóku hann einn morgun, fóru með hann út í skóg og sleptu honum þar. Litli fuglinn varð frá sér numinn af fögnuði og flaug til hinna fuglanna, leikbræðra sinna. Hann söng svo innilegan þakklætissöng, að börnin þóttust aldrei hafa heyrt neitt fegurra.

Þegar þau komu heim, lá Rafael litli í rúmi sínu, veikur og fölur. Hann hafði ekki getað farið með þeim út í skóginn. Litlu systur hans klöppuðu á fölu kinnarnar hans og struku fallegu, dökku lokkana hans og sögðu: „Vertu ekki óþolinmóður, Rafael; þegar sumarið kemur, getur þú verið með okkur og hlustað á fuglasönginn. Sumarið kemur bráðum og þá batnar þér“.

En engillinn stóð við rúmið hans, þó þau sæju hann ekki, og breiddi yfir hann vængina sína, stóru, hvítu, eins og hann vildi vernda hann fyrir öllu illu í heiminum. Og því lengur sem engillinn hélt vængjunum yfir honum, því fölari urðu kinnar hans og því veikari andardrátturinn.

Hann leit enn þá einu sinni á engilinn, með stóru dökkleitu augunum sínum — hann

var sá eini, sem sá engilinn — svo lét hann augun aftur og hann hætti að anda.

Rafael litli var dáinn; en fagnaðarbros lék um litlu varirnar hans. „Sjáið, þið börnin mín!“ sögðu foreldrar hans: „Nú líður Rafael litla vel; nú er hann hjá guði. Alveg eins og litli fuglinn flaug glaður í burt, þegar hann losnaði, þannig flaug nú sál Rafaels til friðar og fagnaðar hjá guði. Við heyrðum ekki gleði söngva Rafaels eins og fuglsins, en við sáum það af gleðibrosinu, sem lék um varir hans, að hann lofaði guð, sem var svo góður við hann að taka hann til sín á meðan hann var saklaust barn.

En ein af litlu systrum Rafaels sagði: „En sumarið, sem honum átti að batna, kom aldrei“.

Pabbi hennar og mamma sögðu: „Jú, það er komið, elsku barnið mitt. Ef við gætum séð upp í himininn, þá myndum við geta séð Rafael litla, þar sem hann leikur sér með fallegu englunum í himnaríki. Þar er sannarlegt sumar; þar kemur aldrei neitt haust og aldrei neinn vetur“.

Því næst var Rafael fluttur í kirkjugarðinn og jarðaður, og móðir hans stóð við gröfina og sagði: „Nú getum við verið glöð, því Rafael litla líður vel hjá guði“. Þegar greftrunin var úti, heyrðist fagur fuglasöngur hátt uppi í loftinu í vorblíðunni og sólskininu. Allir skildu það, að fuglinn lofaði guð. Þá sagði faðir Rafaels: „Heyrið! fuglinn veit hvern hann lofar. Litli fuglinn, sem systkini Rafaels sleptu, syngur nú við gröfina hans“. En engillinn flaug með sál Rafaels til himins, til guðs, þar sem altaf er sumar og aldrei vetur.

Þýtt úr „Börnenes Blad“.

## Fyrir minni ungl. st. „Rós“ nr. 18.

Á afmæli hennar, er haldið var 18. des. 1898.

NÚ er oss létt í geði á skærri skemtitstund;
Nú skína ljósin björt og fögur inni;
Og þennan hinn glaða og góða vinafund
Vér geymum svo ljúft í fersku minni.

En hvað er það, sem vakti hin litfegurstu ljós,
Að lýsa' oss hér í næturinnar böndum?
Og yndi oss veitir? það er vor stúka Rós,
Sem áður oss samantengdi höndum.

Oss ljósin fögur minni á ljósið himins bjart,
Frá ljóssins blíða föður allra manna,
Er burt hrekur voða og villumyrkrið svart,
Á veginn oss leiðir rétta' og sanna.

En svo vér oftar hljótum nú slíkan fagnaðar fund,
Vér festum hug á voru heiti sanna,
Og störfum með alhuga, glaðri' og ljúfri lund,
Að lífsyndi verðum foreldranna.

Svo lifi Rósin fagra og breiði blómin sín
Mót blíðri himindýrðar sunnu þinni,
Vor himneski faðir, oss blessa, blómin þín
Og blómgun oss veit af nálægð þinni.

*Ágúst Jónsson.*

* * *

Ofanskrifað kvæði sungu ungtemplarar áður en mælt var fyrir minni stúku þeirra.

## Þrösturinn.

ÉG man eftir því eins og það hefði skeð í dag, og þó ég sé ekki lengur barn eins og þið, þá liggur mér oft við að gráta þegar ég

hugsa um það — það var fyrir mörgum árum, ég var þá svo lítill drengur. Ég átti heima á bæ, þar sem ég var smali og þótti dæmalaust gaman að kindum; þær voru reyndar nokkuð óþekkar stundum, einkum hún Móflekka gamla, einhyrnda Bílda og Fjallagul — kindurnar höfðu allar eitthvert nafn, ég hafði skírt þær allar; en þótt þær væru ekki altaf svo þægar, þá fyrirgaf ég þeim það alt samann. Ég sat yfir ánum úti í skógi rétt fyrir fráfærurnar — þið vitið öll hvað það er, sem kallast fráfærur? Það er þegar vesalings litlu lömbin eru tekin frá móður sinni og rekin inn á fjall og kalla á þær alla leiðina með gráthljóði og segja „Ma-ma!“ — Skamt frá mér var stór hrísla og þar sat alt af öðruhvoru sami skógarþrösturinn og tísti. Hann var orðinn svo spakur, að ég gat nærri því tekið hann með höndunum. Ég talaði við hann og hann tísti á móti, — hann kunni ekkert annað mál, en það var eins og hann skildi hvað ég sagði og mér fanst líka sem ég skildi hann. Hann sagði mér frá því hversu skemtilegt væri að ferðast í loftinu, eins og hann gjörði; hvað hann sæi mikið og margt o. s. frv. Ég hafði heyrt lesnar margar sögur, sem höfðu gerst í öðrum löndum og ég hafði varla trúað þeim, meira að segja, ég trúði því varla þegar ég var lítill, að til væru önnur lönd. Mér fanst það vera nærri því ómögulegt. Mér sýndist himininn vera glerhvelfing, sem stæði á sjávarkampinum og ég hafði einu sinni beðið hana mömmu mína að lofa mér niður á kampinn, ég hafði þá aldrei komið þangað. Ég sagði henni náttúrlega ekki frá því, hvað ég ættlaði að gjöra, en ykkur að segja var það ekki annað en að þreifa á himninum, sem mér sýndist standa á kampinum. Skýin á honum hélt ég að væru ekkert annað en mislitir blettir, rétt eins og gráu rósirnar á stóru þvottaskálinni hennar mömmu. Og svo kom ég niður á kampinn, en mér brá heldr en ekki í brún þegar ég sá sjóinn. Mamma hafði oft sagt mér það þegar pabbi var ekki heima, að hann væri úti á sjó, og svo sá ég að hann kom með fisk í skrínu á bakinu neðanfrá kampinum. en að sjórinn væri svona, það hafði ég ekki hugmynd um þá, og mér varð hálft um hálft illa við hann, þegar ég sá að hann var því til fyrirstöðu að ég gæti þreifað á himninum, en hins vegar var mér vel við hann fyrir það, að hann skyldi gefa honum pabba fiskinn handa okkur. — Þegar ég sat yfir í skóginum, var ég orðinn miklu stærri og vitrari en þetta; þá vissi ég að himininn var ekki úr gleri, og þá trúði ég að til væru önnur lönd. Aumingja skógarþrösturinn sagði mér margt, sem ég skildi þá, en sumu af því hefi ég gleymt núna. Ég man það samt, að hann sagði að sér liði dæmalaust illa á veturna þegar kalt væri, og hann hefði stundum verið nærri því dáinn úr kulda og sulti. Ég var búinn að þekkja hann svo lengi að mér var farið að þykja vænt um hann og mér sýndist honum þykja vænt um mig líka. En svo var það einn morgun þegar ég kom út í skóginn, að hann var ekki á hríslunni sinni. Ég leitaði allstaðar að honum, en fann hann ekki. Mér fanst dagurinn svo langur, að ég hélt að hann ætlaði aldrei að líða, og mér leiddist svo mikið að ég var nærri því utan við mig.

Svo kom ég heim um kvöldið og þá sagði Mangi litli mér að hann hefði skotið marga fugla í morgun úti í skógi, að gamni sínu — Mangi var sonur hjónanna í hinum bænum. Ég fékk að sjá hjá honum fuglakippuna — og þar þekti ég aumingja skógaþröstinn minn. Mangi hafði skotið hann. Það var ekki af því að mikið gagn væri í að skjóta skógarþröst, hann hafði gjört það bara af rælni. Ég bað Manga að gefa mér hann og það gjörði hann. Ég hafði hann með mér út í skóg daginn eftir og gróf hann þar rétt hjá

hrísluuni sinni og hver sem er smali núna á Jaðri hann getur séð þar leiðið hans; ég gjörði það svo vel upp, að það hlýtur að sjást enn þá; en það er langt síðan ég hefi komið þangað. Mér fundust allir dagar langir sem ég sat yfir í skóginum eftr þetta; mig vantaði þröstinn minn til þess að tala við hann. *Sig. Júl. Jóh.*

## Vísa.

Hinum ungu er framtíð Íslands falin,
framkvæmdin í þeirra vald er sett.
Þið eruð, börn, til als hins góða valin,
og ástundið að gjöra jafnan rétt.

## Smávegis.

FJÖGRA ára gömul stúlka ferðaðist með föður sínum í járnbrautarvagni. Faðir hennar sat í vagnstofunni og reykti vindil; en þegar komið var á járnbrautarstöðina, kom kona inn til hans og þá kastaði hann burtu vindlinum. -- „Hvers vegna hættirðu að reykja?“ spurði litla stúlkan. — „Af því að konan kom inn“, svaraði faðir hennar. — „Er hún mamma þá ekki kona líka?“ spurði hún. „Þú reykir oft þegar hún er inni“.

MAÐUR NOKKUR bað kunningja sinn að gefa sér vín. „Ég skal gjöra það“ sagði kunninginn, „ef þú getur sagt mér, hvað margar krónur vínið hefur ónýtt, hvað mörg mannslíf það hefur eyðilagt, hvað mörgum tárum það hefur úthelt og hvað marga menn það hefur gjört að villudýrum“. „Þessu get ég ekki svarað“ sagði hinn, því það veit enginn, en ég ímynda mér, að ef almenningur hefði nokkra hugmynd um slíkan fjölda, mundu fáir vilja bæta við það, en alt af bætist við það, meðan nokkur bragðar vín.

DRENGUR nokkur, hafði gaman af að binda um hálsinn á hundinum sínum, og draga hann svo. Einu sinni kom maður til hans og spurði: „Viltu láta fara svona með þig, drengur minn?“ „Nei“, svaraði hann. „En, þú átt að muna það“ sagði maðurinn, „að þú mátt aldrei gjöra öðrum það, sem þú villt ekki láta aðra gjöra þér“. Drengurinn þagði og hætti þessum ljóta leik.

## Skrítlur.

A.: Þið farið ekki snemma að hátta á kvöldin; ég *sá* í gærkveldi, að þið voruð að slá niður í flóa löngu eftir að ég var *sofnaður.*

MÓÐIRIN: Ef ég lifi einhverntíma áður en langt um líður, þá skal ég gefa barninu mínu föt.

A.: Gott kvöld, verið þið krakkar.

GESTURINN: Ég hitti á leiðinni kunningja minn, sem ég hef aldrei séð fyrri.

**KAUPENDUR!** Þeir, sem ekki hafa enn borgað I. árgang „Æskunnar“, eru beðnir að minnast þess, að hann átti að vera borgaður í júnímánuði síðastl. ár.

„Æskan“
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í aprílmánuði ár hvert. Sölulaun ⅕.
Ritstjóri *SIG. JÚL. JÓHANNESSON* cand. phil.
Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.
Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| II. árg. | Reykjavík, 20. febrúar 1899. | 10.—11. tbl. |
|---|---|---|

Ég hefi beðið ungfrú *Ólafíu Jóhannsdóttur*, sem er í ritstjórnarnefnd „Æskunnar“, að vera ritstjóri hennar þangað til að fullnaðarúrskurður er fallinn í kæru þeirri, er ég varð fyrir. Mér þykir svo vænt um „Æskuna“ og börnin, sem lesa hana, að ég vil ekki að neinn geti í þessu falli beitt óvildarhug sínum til mín til þess að skaða þau eða hana.

Rvík 17/2 1899.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

Eins og ofangreind yfirlýsing ber með sér, hefi ég tekið að mér að vera ritstjóri „Æskunnar“ á meðan herra Sigurður J. Jóhannesson óskar þess.

*Ólafía Jóhannsdóttir.*

## Anna litla.

(Þýtt af Á. J.)

Á vetrarmorgni var ég einu sinni á gangi á einni af götum bæjarins. Nóttina áður hafði verið kafaldsbylur. Hver sá, sem átti heit föt og góðan mat, mátti vera þakklátur. Ég gekk hratt til þess að halda á mér hita. Á leið minni varð fyrir mér dálítil stúlka, hér um bil 9 ára gömul, sem ég þekti, því hún gekk á sunnudagaskólann, sem ég var kennari við. Hún stóð við lögreglustofuna og leit hrygg niður fyrir fæturna á sér, eins og hún saknaði einhvers. Ég stóð við og sagði við hana: „Hvað ertu að gjöra hérna, Anna litla? Þú ert svo kuldaleg og svöng. Af hverju heldurðu ekki áfram?“

„Ég er að bíða eftir stóra vagninum, sem á að koma með þá núna“, sagði Anna litla.

„Með hverja, Anna mín?“

„Með alla fangana, sem lögregluþjónarnir hafa tekið í nótt, fyrir það að hafa verið fullir og í áflogum á götunum“.

Nú vissi ég við hvað hún átti.

„Á hverjum áttu von með vagninum, barnið mitt? ég vona að það sé enginn af þínum“.

„Jú, ég á von á henni mömmu“, sagði Anna litla hrygg.

„Það þykir mér leiðinlegt að heyra, segðu mér, hvernig stendur á því“

„Það er ekki í fyrsta sinni, ég hefi séð hana þar áður. Í gærkveldi þegar ég fór heim úr skólanum, var ég glöð og ánægð. Ég var að hugsa um fallegu söguna, sem kennarinn sagði okkur úr biblíunni. Hún var um manninn, sem elskaði og dó ekki, en sem guð lét sækja á fallegum vagni, sem var líkur vagninum ríka kaupmannsins, sem á heima þarna. Hestarnir, sem gengu fyrir honum, voru eins og eldur, og í þessum vagni var spámanninum ekið til himins, án þess að hann væri látinn í svarta og ljóta kistu. Ó, það var svo inndælt að heyra hana, og ég hugsaði með mér að ég skyldi segja henni mömmu hana þegar ég kæmi heim. Ég flýtti mér þess vegna og hljóp upp stigann að herberginu okkar, en því var aflæst. Ég barði margoft, en hún mamma var ekki heima, og þá vissi ég strax að hún var farin út til að drekka sig fulla. Ég passaði að gera engan hávaða, svo hitt fólkið í húsinu skyldi ekki komast að þessu. Ég setti mig niður fyrir utan dyrnar, og hugsaði með mér, að

ef ég sofnaði, þá mundi hún mamma mín reka sig á mig, þegar hún kæmi heim, og mundi hún þá taka eftir mér. Hún mamma er aldrei vond við mig, hún ber mig aldrei, en síðan að hann pabbi dó hefir hún byrjað að drekka. Mér þykir svo vænt um hana mömmu, og ég bið Jesús að hjálpa henni til þess að hætta að drekka".

„Það er alveg rétt, Anna mín, biddu hann og segðu honum frá öllu saman. Kom hún mamma þín svo ekki heim rétt á eftir?"

„Nei, ungfrú góð, það gjörði hún ekki. Í morgun þegar fór að birta læddist ég eins hægt og mús út úr húsinu og gekk svo um torgið til þess að tína mér brauðskorpur, því ég hafði ekkert til að éta, og fékk heldur ekkert í gærkveldi, og í morgun er ég ekki farin að bragða nokkurn matarbita; mér er bæði kalt og svo er ég svöng". Svona var sagan hennar Önnu litlu.

„Ég skal skreppa hérna inn í búðina og útvega þér eitthvað að eta", sagði ég og gladdist yfir því að geta hjálpað vesalings barninu, sem átti svona bágt.

„Hérna, Anna mín", sagði ég þegar ég kom út aftur með brauð og kjöt handa henni; „hérna færðu góðan morgunverð, þú verður að þakka drotni fyrir hann".

„Það get ég, en ég vil einnig þakka yður fyrir hann", sagði hún.

Þegar hún var búinn að eta helminginn, geymdi hún það, sem eftir var í svuntu sinni, Hún festi alt í einu auga á vissum punkti, og kallaði til mín: „Nú kemur hann, nú kemur hann", og hann kom í raun og veru og stöðvaðist þar sem við stóðum. Ég fann það skyldu mína að vera kyr hjá Önnu og hjálpa henni, þar sem hún var einstæðingur. Vagninn var opnaður; fangarnir streymdu út og voru jafnótt fluttir á lögreglustofuna til yfirheyrslu. Seinast kom út há kona; hún var fjarska eymdarleg að sjá. Undir eins og Anna litla kom auga á hana, ruddist hún gegnum hópinn og hrópaði: „Mamma, mamma, líttu á mig, hérna er ég, litla stúlkan".

Hún blygðaðist sín ekki fyrir að viðurkenna, að þessi eymdarlega vera væri móðir sín, en konan varð sneypt, þegar hún sá barnið sitt þarna.

Anna litla fór inn á eftir móður sinni, en ég fór leiðar minnar og gat eigi annað en hugsað um hinar hryggilegu afleiðingar drykkjuskaparins.

Mörg af þessum börnum deyja fyrir tímann úr sulti og kulda, fataleysi og svefnleysi. Hvílíkur mun að lokum verða reikningsskapur slíkra foreldra, þegar þau eiga að mæta fyrir guðsdómi!

Fjögur ár eru nú liðin síðan þetta bar við. Það var í janúarmánuði á sunnudegi síðdegis. Veðrið var gott og fagurt og sólin sendi lífgandi geisla sína inn í eitt spítalaherbergið, þar sem lágu veikar, fátækar konur og börn. Í einu horninu á herberginu lá á litlu hörðu fleti — ég get ekki kallað það rúm — lítil ung stúlka, hér um bil 13 ára gömul. Jafnvel þótt andlitið væri áttrætt að sjá, þá var það samt sem áður blítt og fallegt og bar vott um greind og hugsunarsemi.

Ég var á gangi kringum rúmin til þess að tala við sjúklingana, sem annars ekki væntu neinnar hluttekningar af ókunnugum, þegar hjúkrunarkonan kom til mín og sagði:

„Hún Anna yðar er alveg í dauðanum, ungfrú góð".

„Þei, talið þér ekki svona hátt, barnið getur heyrt til yðar".

„Það gjörir ekkert til, ungfrú góð", sagði Anna litla, sem hafði heyrt þetta, „alt er gott, ég er mjög glöð og ánægð".

„Kæra barn mitt", sagði ég, „ef ég ætti hús, skyldi ég flytja þig þangað, svo þú þyrftir ekki að liggja hér og — deyja".

„Komið nær mér; ungfrú góð, ég sé yður

ekki, en mig langar að segja yður nokkuð. Það eru margir kvennmenn hér á spítalanum mjög veikir, en þeir elska ekki Jesús, því þær bölva og ragna. Þegar ég hefi átt hægt með hefi ég verið að segja þeim af hinum kæra frelsara, sem var krossfestur og deyddur fyrir vorar syndir. Ég hefi einnig sagt þeim hvernig guðs heilagi andi hafi gefið mér hreint hjarta og að ég fari til himins til að vera hjá Jesús, sem hefir afmáð allar mínar syndir, með sínu heilaga og dýrmæta blóði. — Kæra ungfrú, mér finst ekki slæmt að vera hér.

Ætlið þér að fara frá mér?"

„Nei, elsku Anna mín", svaraði ég, „ég skal ekki fara frá þér". Rétt á eftir var eins og hún sofnaði, en alt í einu kallaði hún: „Nú kemur hann, ungfrú góð". Þegar ég heyrði þessi orð, mintist ég strax vetrarmorgunsins fyrir fjórum árum, þegar ég hitti hina litlu dauðköldu stúlku, sem beið eftir föngunum. Nú var það ekki svarti fangavagninn, sem hún sá, nú var það alt önnur sjón, sem hún sá fram undan sér.

„Hver kemur, elsku Anna mín?"

„Fallegi vagninn, sem eldhestarnir ganga fyrir. Jesús sendir hann eftir henni litlu Önnu sinni. — Jesús, hér er ég. — Verið þér sælar, ungfrú góð, kyssið mig einu sinni enn"

Nú talaði hún ekki meira; ég hélt hún svæfi. Dagsbirtan var horfin, og það var orðið dimt í herberginu. Þegar búið var að kveikja sá ég að hin sæla önd Önnu hafði yfirgefið hinn þjáða líkama — hún var dáin.

## Kveldstund.

Ég sat einu sinni úti við glugga á skrifstofunni minni og horfði út á götuna. Það var kveld og ég var aleinn og hafði svo ágætt næði til þess að taka eftir öllu, sem ég sá, og hugsa um það. Bærinn var svo undur fallegur í kveldkyrðinni. Það glampaði á þökin og gluggana um sólarlagið og reykur inn úr strompunum teygði sig hátt — hátt upp í loftið, alveg þráðbeint. Það var móða á glugganum og ég hafði strokið hana af einni rúðunni til þess að geta séð sem bezt út, og ég var hrifinn af allri þeirri dýrð og sælu, sem mér sýndist hvíla yfir höfuðstaðnum, og ég öfundaði nærri því bæði sjálfan mig og aðra, sem væru þau óskabörn hamingjunnar að eiga heima hérna. Mér sýndust allir hlutir brosa svo vingjarnlega. — Mér sýndust kvistirnir í þiljunum í herberginu mínu mynda mannsandlit og hlæja út undir eyru. Mér sýndist letrið á gömlu dönsku barnablaði, sem lá á borðinu fyrir framan mig, mynda mannsandlit, gluggarnir á húsunum, sem blöstu við mér, gjörðu hið sama, steinarnir á götunni sömuleiðis; í einu orði, mér sýndust allir skapaðir hlutir verða að andlitum, og öll horfðu þau á mig hlægjandi. Þau voru náttúrlega öll að fagna yfir höfuðstaðardýrðinni, þar sem öllum leið svo vel. Alt í einu varð mér sérstaklega litið á þær rúðurnar í glugganum, sem ég hafði ekki horft út um — og ég sá að glugginn grét.

Ég skildi ekkert yfir hverju hann gat verið að gráta. Var það mögulegt að hann sæi nokkuð úti á götunni, sem gæti hrygt hann? hvers vegna hló hann ekki eins og alt annað? Og eftir því sem fleiri „tár" runnu niður eftir rúðunum, eftir því sýndust mér koma fram fleiri andlit á þeim, sem öll voru þrútin af gráti; meira að segja, andlitin, sem mér höfðu sýnst hlægja fyrir einu augnabliki, voru öll orðin eins. Ég skildi ekkert í þessari snöggu og leiðinlegu breytingu. Alt í einu varð mér litið niður á götuna og hvað haldið þið ég hafi séð þá? Mér þótti það engin furða þótt glugginn gréti og mér heiði ekkert

þótt það undarlegt, þótt allir skapaðir hlutir hefðu grátið yfir því.

Ég sá vesalings konu, sem ég þekti; unga konu, laglega, efnilega. — Ég get nefnt hana Sigríði — hún leiddi barn hér um bil 4 ára gamalt við aðra hlið sér, en fullorðinn mann við hina. Ég hafði ekki séð hana í 8 ár og vissi ekkert af því að hún var hér í bænum; en ég var alveg viss um að þetta var hún og engin önnur — ég þekti hana svo vel, hana Siggu, hún var gömul leiksystir mín; hún hafði reyndar oft strítt mér þegar ég var krakki, en mér þótti vænt um hana samt. Ég sá það að þetta mundi vera maðurinn hennar og að þau mundu eiga þetta barn. Maðurinn var nú svo drukkinn, að hann gat ekki staðið óstuddur og þessvegna varð Sigga að leiða hann. Hann var allur óhreinn á annari hliðinni og var auðséð að hann hafði dottið. Hann staðnæmdist á götunni, sleit sig af Siggu, tók flösku upp úr vasa sínum og saup á. Síðan slangraði hann út að girðingunni hjá bæjarfógetagarðinum, hallaðist upp að honum og spjó þar svo viðbjóðslega, að mér varð flökurt að horfa á það út um gluggann. Konan hans gekk til hans, lagði hendina föla og magra um hálsinn á honum, sjálfsagt til þess að biðja hann að koma heim, en hann hratt henni frá sér og ég heyrði að barnið fór að gráta. Svo ætlaði hann að færa sig eitthvað til, en datt þá á grúfu og gat ekki staðið upp. Vesalings konan reyndi af veikum mætti að hjálpa honum á fætur og tókst það á endanum. Þá tók hún svuntuna sína og þerraði framan úr honum. Loksins komu tveir menn, sem töluðu eitthvað við Siggu og tóku því næst manninn á milli sín og leiddu hann austur Aðalstræti, en Sigga fylgdi á eftir. Aumingja Sigga, hugsaði ég, nú er breytt æfin hennar frá því, sem hún var heima, svo kát og fjörug glöð og skemtileg, að hún skuli verða að draga á eftir sér þetta viðbjóðslega svín". Ég fylgdi þeim eftir í nokkurri fjarlægð og sá hvar þau fóru inn. Svo sneri ég heim aftur, en því megið þið trúa, að ég sofnaði ekki snemma kveldið það. Ég var lengi að hugsa um aumingjan hana Siggu mína, sem ég hafði svo oft leikið mér við þegar ég var lítill. Daginn eftir fór ég heim til hennar, en þá lá maðurinn hennar í rúminu af geðveiki eftir alt saman. Hún sagði mér að hann væri alvanur að drekka sig svona út úr drukkinu, en hann lægi æfinlega 1 eða 2 daga á eftir og þó hrekkjaðist hann aldrei. Hann hafði verið mesti efnismaður, en farið svona algjörlega í hundana.

Ég hefi oft komið heim til hennar Siggu minnar síðan og það er sannarlega sorgarefni að bera saman efni hennar nú og fyr. Það er sannarlega nóg fyrir alla menn, allar konur, alla hluti að gráta yfir um alla eilífð, að nokkur maður skuli drekka þannig frá sér ráð og rænu og eyðileggja bæði sig og aðra. Það sem Good-Tamplarfélagið gjörir, er að reyna að koma í veg fyrir að nokkrum manni þurfi að líða eins illa og henni, Siggu sakir drykkjuskaparins, og það ættu sem flestir að styðja. Börn og unglingar! Komið sjálf í Good-Templarfélagið, biðjið pabba ykkar og mömmu ykkar að koma þangað, biðjið alla, sem þið þekkið að koma þangað. Það er um að gjöra að byrja aldrei á því að drekka, þá verður maður aldrei drykkjumaður. Ekkert er leiðinlegra en að sjá drukkinn mann, ekkert er viðbjóðslegra en að sjá drukkinn mann, enginn er aumkvunarverðari en drukkinn maður, engum er eins mikil gustuk að hjálpa og drykkjumanni og með engu er það eins hægt og því að fá hann til þess að ganga í í bindindi og vera það sjálfur.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Sungið við jólatré

af börnunum í ungl. st „Eyrarblómið“
á Vestdalseyri 8 jan. 1899.

NÚ látum óma hljóðin há
og hrindum sorg og þraut
í kvöld skal gleðin geisla' há
er guðleg ljósin horfum á,
:: sem minna oss á englaskraut
á uppheimssala braut ::

Það okkar veri mark og mið
á meðan varir skeið
að glæða sannleik, frelsi og frið
og færa þreyttum hjálp og lið
:': og bæta hverskyns böl og neyð
á bræðra vorra leið. ::

Af hjarta þökkum þessa stund
við þeim sem glöddu' oss hér.
Þess biður viðkvæm barna-lund,
þeim blessun veiti drottins mund,
:|: það bezta hjartans ósk vor er
á örmum guð þá ber. :|:

*Pétur Sigurðsson.*

## Myndin.

Hérna er mynd af fjórum börnum, sem eru að lesa saman tvö og tvö; sjáið þið ekki hvað



þau eru eptirtökusöm og ánægjuleg á svipinn og hvað þeim kemur vel saman, ein litla stúlkan hefir ekkert sæti og krýpur niður við endann á borðinu, en ég held nú, að hún sé einmitt allra brosleitust. Þetta eru líklega systkini, leiksystkini eru það nú sjálfsagt, og góð og iðin börn eru þau öll saman, það er auðséð á þeim; en hvað ég held þau hafi gaman af að segja mömmu og pabba frá því, sem þau eru að lesa, og hinum leiksystkinunum sínum líka, og bezt gæti ég trúað því, að þau ætluðu líka að segja vinnufólkinu frá því. Það er svo skelfing gaman að segja öllum frá því, sem maður heyrir og sér fallegt, svo þeir hafi líka skemtun af því. Finnst ykkur ekki gaman að segja öllum frá því, sem þið lesið í „Æskunni“, ég vildi óska, að þið væruð eins samrýmd, þegar þið eruð að lesa hana, eins og litlu börnin á þessari mynd eru.

## Gamlárskvöldið.

ÞAÐ VAR á gamlárskvöld að saga þessi gjörðist, árið 1887. Þá gekk maður nokkur, tötralega til fara, eftir breiðum stíg, að húskofa einum. Hann lauk upp hurðinni á húsinu, en inni fyrir dundu við köll og hróp margra barna, sem öll kölluðu á pabba, en þau voru sorglegur vottur fátæktarinnar. En konan sagði með lágum róm: „var þetta til nokkurs?“ „Nei“, sagði maðurinn og stundi við. „Það vill enginn lifandi maður lána mér og við verðum að fara í sveitina“. „Fara á sveitina“, endurtók konan og elztu börnin, og svo sagði konan: „við skulum biðja guð að hjálpa okkur svo við förum ekki á sveitina“, og síðan báðust þau fyrir á þessa leið. „Miskunnsami og réttláti guð, hjálpaðu og styrktu okkur við alt, sem við gjörum, svo að það verði okkur til blessunar og góðs, gef þú okkur heilbrigði og innbyrðis frið í Jesú nafni“. Síðan stóðu þau upp frá bæninni og stóðu þeim tár í augum. Þau

báðu guð að vernda sig og lögðust síðan til svefns. Snemma um morguninn eftir nýársdag fór maðurinn á sjó til að fá eitthvað ofan í sig að borða, en hann fékk einn fisk og þótti það lítið, og sagði: „skyldi nýárið ætla að byrja svona fyrir mér?“ en þá hrópaði samvizka hans: „Þú átt ekki að mögla, það er synd, vertu ánægður með það, sem guð gefur þér, hann mun bera umhyggju fyrir þér“. En maðurinn fór heim til sín með fiskinn og konan hans fór að slægja hann. En hún rak upp hljóð, er hún sá, að innan í fiskinum var gimsteinn. — Maðurinn tók hann og seldi og fékk 100 þúsundir fyrir hann. Hann varð því mjög ríkur, en aldrei gleymdj hann bæninni, sem hann bað á gamlárskveldið forðum, og altaf biður hann til guðs, en alt á aðra leið biður hann nú: „Góði guð, gefðu mér, að ég geti lifað eftir því, sem þér líkar bezt og eftir þínum heilögu boðum, varðveittu mig frá hroka og drambi“.

Þannig fór sagan af hinum fátæka manni, sem hafði traustið til guðs.

*Ólafur Kr. Hallsson.*

* * *

Ólafur litli Hallsson er 12 ára gamall og á heima á Seyðisfirði. Þykir ykkur hann ekki myndarlegur að hafa sent sögu í „Æskuna“? Það kemur meira frá honum í næsta blaði. Ég vildi óska, að einhverjir fleiri litlir piltar og stúlkur vildu senda „Æskunni“ greinar og sögur eftir sig sjálfa. Ef þið eruð svo feimin, að þið komið ykkur ekki að því að setja nafnið ykkar undir það, sem þið skrifið, þá þurfið þið ekki annað en segja okkur, að við megum ekki láta neinn vita nafnið ykkar, við skulum þá ekki gjöra það, en skemtilegast er nú samt að segja altaf til sín, hvað sem maður gjörir og bráðum hafið þið einurð á því, þó þið séuð feimin svona allra fyrst.

*Ó. J.*

# Óskin hennar Meggy.

Eftir A. J. R.

SAGA þessi gjörðist í austurhluta Lundúnaborgar. Það var að kveldi dags í Nóvembermánuði. Veðrið hafði verið ömurlegt allan daginn, þétt og köld þoka hékk yfir borginni og læddist inn um hverja smugu. Þokan var svo þétt, að það sást varla nokkur vagn á ferðinni og fótgangandi fólk, sem neyddist til þess að vera á ferð, rak sig hvað á annað; strætaljósin, sem voru vön að lýsa vegfarendum, skinu óljóst og flöktandi í hálfmyrkrinu.

Klukkurnar í stórri verksmiðju gullu við og hópur af konum og körlum á ýmsum aldri ruddist út úr verksmiðjunni; það voru líka börn í þessum hóp, þau gengu þreytulega, og fjörið og léttleikinn, sem annars eru einkenni barnsáranna, voru horfin, andlitin voru fölleit og ellileg og báru raunalegan vott um, að þessi börn höfðu orðið að vinna sér langt um megn fram. Þetta var dapurlegur hópur: fölleitur, kinnfiskasoginn, þreytulegur, dapureygður og klæddur í tötra; enginn, sem hafði nokkra tilfinningu fyrir bágindum annara, gat gengið fram hjá þessari sjón nema kenna sárt til.

Hópurinn skildist að, sumir héldu heimleiðis, en sumir gengu því miður til gildaskálanna, þar sem oft var bjartara og hlýrra en heima hjá þeim.

Seinast gengu tvö börn, drengur á að gizka 12 ára og stúlka fáum árum yngri. Það var auðséð, að þau voru systkin, stúlkan var í rauninni fríð sýnum, en augun voru þreytuleg og yfirliturinn óhraustlegur og bar vott um of mikla vinnu og lélegt húsnæði og viðurværi, hún drógst heldur aftur úr og stóð oft við, eins og hún ætti bágt með að ná andanum.

„Ég er svo þreytt“, sagði hún, „ég sé þig ekki fyrir þokunni; hvenær komustum við heim“.

„Bráðum“, sagði drengurinn þýðlega, „við skulum flýta okkur svo amma verði ekki reið“.

Þau beygðu við inn í mjótt stræti og komu að röð af hrörlegum húsum, þau gengu inn í eitt af húsunum, og klifruðu upp stigann, sem sumar rimarnar voru brotnar í, svo luku þau upp dyrunum að herberginu, sem átti að heita heimkynni þeirra; það var dimt og óþokkalegt, húsgögnin máttu heita engin, einn gluggi var á herberginu og út um hann sást ekkert nema reykháfarnir og þökin á næstu húsunum. Kona, lotin af elli, var að undirbúa kvöldmatinn og bar fyrir börnin brauð og þurkaða síld, þegar börnin voru búin að borða, settust þau fyrir framan eldinn, sem logaði dauft. Þau voru of þreytt til að skrafa, þau voru nærri því of þreytt til að geta hvílt sig. Þau lokuðu augunum og hlustuðu á hávaðann niðri á strætinu. Meggy og Jóhann höfðu mist foreldra sína fyrir fáum árum. Foreldrar þeirra höfðu unnið í verksmiðjum, og það hafði afi þeirra og amma líka gjört og svona hver ættliðurinn á undan öðrum. Fátækt og erfiði hafði verið arfleifð Mertonsættarinnar og höfðu veiklað lífsþrótt hennar mann fram af manni. Það var ekki annað sjáanlegt en að ættin mundi bráðum deyja út með þessum tveimur börnum, sem nú voru einu afkomendur hennar.

Amma þeirra var hálf-blind og hætt að geta unnið þegar þau mistu foreldra sína, svo þau urðu sjálf að fara að reyna að innvinnu sér ögn í verksmiðjunni, þar sem forfeður þeirra höfðu svo oft gengið þreyttir að vinnu sinni.

Það leið á kvöldið og börnin lögðust til svefns. Jóhann var að hugsa um hvað það væri gott að þurfa ekki að fara snemma á fætur næsta morgun, af því að það var sunnudagur, hann sofnaði út frá þessum hugsunum; en Meggy litla gat ekki sofnað; rúmið hennar var grjóthart og hún hafði verki um sig alla, hún bylti sér á allar lundir og þegar henni hvarf minni, dreymdi hana skarkalann í verksmiðjunni og að hjólin sveifluðu henni fram og aftur með sér.

Á sunnudagsmorguninn var bjart og gott veður, Meggy vaknaði seint og skalf af kulda og ótta, hana hafði dreymt svo hræðilega; Jóhann sagði, að hún skyldi flýta sér að borða og koma svo út í góða veðrið. Það var ekki margréttað og Meggy var fljót að borða, svo fóru bæði systkinin út á stræti sér til skemtunar. Þau höfðu gengið skamma stund, þegar þau heyrðu fagran söng; hljómurinn barst frá sunnudagaskóla, og fyrir utan dyrnar stóð gamall maður, vingjarnlegur, og bauð þeim að koma inn, Meggy kom sér varla að því, en Jóhann langaði að fara inn. Þau komu inn í bjart og fallegt herbergi. Á veggjunum héngu myndir og ritningarstaðir málaðir með ljósum litum. Börnin sátu sér, sum þeirra voru vel búin, en sum voru nöturleg. Jóhann og Meggy voru látin setjast hjá börnum, sem voru á aldur við þau sjálf. Meggy hafði aldrei á æfi sinni séð svona samkomu, hún starði svo forviða á alt þetta, að drengur, sem sat rétt hjá henni, fór að skellihlæja. Þó Jóhann væri heldur ekki vanur að vera á svona stöðum og vissi ekki hvað við átti, kunni hann samt ekki við að láta hlæja að systur sinni, hann greip fast utan um úlfliðinn á drengnum og sagði: „það er ljótt af þér að hlæja að henni systur minni, ég vil ekki að þú gjörir það“.

Nú var farið að syngja, Meggy hafði aldrei heyrt svona fallegan söng, hún sat utan við sig af gleði, þreytan var horfin af augum hennar, þau voru orðin björt og fögur. Einkum var það einn sálmur, sem hreif hana svo undarlega, að hún var að hafa hann upp fyrir sér í hljóði:

Kristur veit mínar köldu brautir,
þá kemur hann;
Kristur veit mínar kvöldu þrautir,
þá kemur hann.

Hún hafði heldur aldrei heyrt dæmisöguna af „góða hirðinum“ alt var nýtt fyrir henni. Þau voru að tala um alt þetta á heimleiðinni, þetta var í fyrsta sinni, sem þau höfðu heyrt talað um frelsarann, þau voru að tala um hvort hann mundi koma *bráðum*, „það stendur í sálminum að hann *ætli* að koma“, sagði Meggy:

„Skyldi hann koma til „Whitechapel?“ Það var grátstafur í röddinni, þegar Meggy sagði þetta. „Skelfing vildi ég óska að hann kæmi og tæki mig burt úr verksmiðjunni, ég er svo *þreytt*“.

„Það voru óskop falleg orð“, sagði Jóhann Var ekki líka eitthvað um að hvíla í örmum hans?“

Kristur séð mínar kvalir hefur,
þá kemur hann;
Krists í örmum hvíld ég finn,
þá kemur hann.

Hún endurtók orðin hægt og hægt.

„Skelfing vildi ég að hann kæmi *bráðum!*“ sagði hún grátandi.

Um kvöldið þegar þau sátu fyrir framan eldstóna, sagði Meggy: „heyrðu amma mín, heldurðu ekki að Jesús komi til Whitechapel“.

„Hvað segirðu barn“, svaraði amma hennar, „hann til „Whitechapel“? nei, sannarlega barnið mitt, hann á ekkert erindi við okkar líka“.

„Ertu viss um það, amma mín?“ ég var að vonast eftir að hann kæmi“, hvíslaði hún.

„Ykkur er bezt að fara að hátta“, sagði amma þeirra stuttlega, henni var ekki gefið um þessar spurningar. Hún hafði altaf haldið að trúarbrögðin væru bara handa ríka fólkinu eins og alt sem gott væri. (Niðurl.).

# Góð og vel upp alin börn

1. Brúka aldrei ljótt orðbragð.
2. Eru kurteis við alla, en einkum við gamalmenni.
3. Hæða engan, sízt þá sem eru umkomulitlir.
4. Eru bóngóð og þykir óskop vænt um að geta gjört öðrum greiða.
5. Gjöra aldrei neinu dýri mein, þau vita, að dýrin kenna til eins og þau sjálf, og að það er synd að vera vond við þau.
6. Segja aldrei hvert eftir öðru.
7. Ganga aldrei um opnar hurðir.
8. Skella aldrei hurðum.
9. Sitja kyr við borðið meðan stendur á máltíð.
10. Hrækja aldrei á gólfið.
11. Hafa ekki hátt um sig nema þau séu að leika sér.
12. Góð börn langar til að vera foreldrum sínum og kennurum til sóma og gleði, en umfram alt langar þau til að gjöra guðs vilja.

Góð börn eru eins og sólargeislinn, sem gleður alla og vermir.

---

☞ Kaupendur „Æskunnar“ eru beðnir að athuga, að eins og blaðsíðutalið á Jólablaðinu bendir til, ber að telja það sem **nr. 7** í árganginum. Verða tölublöðin samt sem áður 25, að meðtöldu Jólablaðinu, eins og lofað var þegar II. árg. hófst.

---


**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í aprílmánuði ár hvert Sölulaun ⅕.**

**Ritstjóri:** *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

**Þorv Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.**

Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 11. marz 1899. | **12.—13. tbl.**

## Lappar.

Mennirnir, sem þið sjáið á þessari mynd, eru kallaðir Lappar eða Lapplendar, þeir byggja þann hluta Norðurlanda, er liggur á milli Botniska flóans, Gandvíkur og Íshafsins. Lappar eru náskyldir Finnum, og í Noregi eru þeir kallaðir Finnar. Málið. sem þeir tala, er líka líkt Finsku. Þeir eru smáir vexti, en knálegir, breiðleitir og kinnbeinaháir, móleitir á hörundslit, dökkeygðir og svarthærðir; þeir eru góðlyndir, en latir eru þeir og fremur huglitlir. Fyr á tíðum dýrkuðu þeir ýmsa hluti í stað guðs, en nú eru flestir þeirra kristnir, samt eru þeir ósköp hjátrúarfullir. Lappar eru taldir kringum 24 þúsund. Flestir þeirra búa við sjó og vötn og lifa á fiskveiðum. Sumir eru líka hjarðmenn og flytja sig stað úr stað með hreindýrin sín. Húsin þeirra eru tjöldin, sem þið sjáið á myndinni. Þau eru oftast nær búin til úr hreindýrahúðum, sem eru fest utan á tjaldsúlurnar; svo hafa þeir eld á miðju gólfi og reykurinn fer upp um tjaldmæninn; því að hann er opinn eins og þið sjáið á myndinni. Hreindýrin eru skyld hirtinum, sem þið sáuð myndina af í Æskunni í vetur. Þau eru með stórum hornum. Lapparnir temja hreindýrið og mjólka það eins og við mjólkum kýrnar okkar, svo láta þeir það bera klyfjar og draga sleða eins og hestarnir okkar gjöra. Hreindýrið lifir á mosa, sem það krafsar undan snjónum. Það eru líka til fáein hreindýr hérna á Íslandi, en þau eru langt uppi á fjöllum, svo við sjáum þau svo sjaldan. Lapparnir eiga ósköp lítið af bókum og margir þeirra kunna hvorki að lesa né skrifa. Haldið þið ekki að það sé munur að fá að læra að lesa, skrifa og svo margt annað fallegt eins og þið? Ætlið þið ekki að vera ósköp iðin til þess að geta lært að lesa og skrifa svo dæmalaust vel, svo þið getið kent Löppunum það, ef þið heimsækið þá, þegar þið eruð orðin stór?



## Kórónа sólarkonungsins.

**Eftir Zak. Topelius.**

Fátækur drengur gekk um skóginn — hann var að hugsa um framtíð sína. Hann spurði eikina og beykitréð, hvernig hann ætti að öðlast heiður. Þau svöruðu honum: „Hið æðsta, mesta og fegursta er kóróna sólarkonungsins“ „Gott er það“, sagði drengurinn; „ég skal þjóna konungi sólarinnar“, þjóna honum í 20 ár, og svo að lokum beiðast kórónu hans að launum, verði hann eigi við bón minni, ætla ég að heyja stríð við hann og vinna ódauðlegan sigur“. Drengurinn gekk upp í hæstu turna — húsin og þorpin sýndust ærið smávaxin, — hann horfði yfir kornakurinn, sem drottinn íklæðir á hverju sumri nýjum blóma, en sólin nálgaðist hann ekki neittt. Hún rann braut sína um himininn og gekk undir í kvöldroðanum. Þá gekk hann upp á hæstu hæðirnar. Hann sá vetrar skýin fara fram hjá, horfði á þrumuleiftrin, og heyrði þrumuhljóðin, en sólin var hátt á himni fyrir ofan hann. „Ó“, sagði hann, „fagra sól“ þú sem skín af himnum, mun ég aldrei komast til þín, aldrei vinna kórónu þína?“

Og drengurinn óx, hann varð stór og sterkur, — varð fulltíða maður.

Nú var blásið til orustu víðsvegar, bæði á meginlandinu og eyjunum, óvinirnir komu þúsundum saman til þess að ræna land vort, og gjöra því skaða á allar lundir — unglingurinn tók sér í hönd sverð feðra sinna, og barðist sem hetja fyrir heimili sitt og föðurland.

Loks lá hann særður og í dauðans greipum í valnum. Þá stafaði gullnum sólargeisla á andlit hans — hann skein á hin blæðandi sár og dökkva hárið — þetta var kóróna sólarkonungsins, þetta var kóróna sólarinnar sjálfrar, það var ljómi sá, er lýsir á dauðastundinni, ljómi heiðursins, sem hver ungur maður getur unnið sér.

Þú hinn ungi örn Norðurlanda, fljúg þú hátt mót sólu. Stríð þú fyrir land þitt og lifðu og deyðu með heiðri.

---

## Það sem við amma mín töluðum um í rökkrunum.

I.

Allir sem hafa verið með henni ömmu sinni, muna víst eftir því, hvað hún var dæmalaust góð við þá, og hvað hún sagði þeim margar fallegar sögur. Það eru nú mörg ár síðan að ég var lítil stúlka og sat á skammeli fyrir framan rúmstokkinn hjá henni ömmu minni, en altaf man ég samt eftir því, hvað hún sagði mér frá mörgu fallegu í rökkrinu og hvað hún kendi mér mörg falleg vers og kvæði. Hún amma mín mundi svo skelfing margt, sem hún sagði mér frá, hún var fædd fyrir aldamótin nfl. í lok átjándu aldarinnar. Það eru núna meira en hundrað ár síðan hún fæddist svo þið getið nærri að hún gat sagt mér frá mörgu.

Ég var á fimta árinu þegar ég sá ömmu mína í fyrsta sinn, þá var hún búin að lifa í 75 ár. Henni var ilt í fótunum svo hún gat ekki gengið, en þegar ég heilsaði henni, setti hún mig í kjöltu sína og strauk hendinni eftir kinninni á mér og sagðist sjá það á mér, að ég ætlaði að verða gott barn, og þá þótti mér strax vænt um hana.

Amma mín átti heima hjá móðursystur minni og þar átti ég nú líka að eiga heima, en þar var ekkert barn, sem ég gæti leikið mér við, og þessvegna urðum við amma mín máske en þá betri vinir. — Ég sagði ykkur, að það væru mörg ár síðan ég var lítil

stúlka. Reykjavík, höfuðstaðurinn okkar, var þá alt öðruvísi en hann er núna. Börnin sem eiga heima uppi í sveitum, vita náttúrlega ekki neitt hvernig Reykjavík lítur út, en þau ímynda sér líklega öll saman að hún sé ljómandi fallegur bær og þykir gaman að því að heyra sagt dálítið frá henni.

# Anna eða álfadrotningin.

ANNA var um sumarið hjá afa sínum og ömmu. Þau bjuggu úti í skógi, lángt frá foreldrum hennar. Henni var komið þangað af því að þar var loftið svo heilnæmt og gott. Það getur annars vel skeð, að það hafi verið til þess að hún væri afa og ömmu til skemtunar. En hvað garðurinn var fallegur, rétt við skógarjaðarinn! Á meðan Anna las landafræði og sögu og afi reykti úr löngu, stóru pípunni sinni, sat amma og prjónaði og þeim kom öllum þremur saman um það, að yndislegt væri að sitja í skugga trjánna og hugsa um hin miklu og mörgu frægðarverk fornfeðra sinna; öðruhvoru horfðu þau á landsuppdrættina og röktu fjallgarða, ár og vegi á þeim. Það var svo dæmalaust gaman að geta bent á hvern stað, sem þau vildu, rétt eins og þau væru að ferðast um allan heim. Þau gátu fundið staðinn, þar sem frelsarinn fæddist, staðina þar sem hann og postular hans lifðu og kendu, og það var svo gaman að hugsa um það, að það var sama blessaða sólin, sem þá skein og vermdi og sem nú gægðist inn á milli trjánna og greinanna og myndaði ljósbletti á bókina, sama sólin sem nú flytur allstaðar með sér ljós og líf eins og guð hafði ætlast til þegar hann skóp hana.

Þið megið trúa því, að það var gaman að sitja þarna úti í garðinum; það var komið fram yfir hádegi áður en þau vissu af, og vinnukonan, hún Abelone kom og sagði að tími væri komin til að borða miðdegisverðinn.

Síðari hluta dagsins saumaði Anna litla, og þótt hún væri ekki lengi við sauma sína þá afkastaði hún miklu. Þær voru sammála um það, amma hennar og hún, að ef maður keptist við að vinna og hugsaði ekki um annað á meðan, þá leiddist manni ekki, og þá væri maður fljótari, en þegar maður væri altaf að hugsa um það að losna sem fyrst, þá leiddist manni og þá leysti maður venjulega verkin illa af hendi. Þetta kemur víst öllum saman um.

Þið getið sjálfsagt vel getið því nærri hvernig Önnu leið hjá afa og ömmu. Þegar ég segi ykkur nú frá því að Abelone var svo óviðjafnaleg að segja sögur og æfintýri og að Anna litla fylgdi henni altaf á kveldin þegar hún sótti kýrnar, og sat hjá henni á litlum tré stóli á meðan hún mjólkaði og hlustaði á hana með mestu gaumgæfni, þá getið þið enn þá betur getið því nærri.

Abelone trúði öllum þeim sögnm, er hún hafði heyrt, og sagði Önnu litlu þær, og lærðustu menn hefðu ekki getað komið henni til þess að efast um að álfar byggju á hverri hæð og hverjum steini í skóginum. „Litlu, fallegu álfarnir“ sagði hún „læðast inn og skilja eftir ýmsar góðar gjafir á vöggum barnanna, lækna þau, þegar eitthvað gengur að þeim, með sætum blómilm, eða þeir fara inn í bæi þar sem fátækt fólk býr og gefa því alt, sem það þarfnast. Abelone sagði ótal sögur um þetta og trúði þeim öllum, og Anna litla þreyttist aldrei á að hlusta á hana; henni leiddist aldrei að heyra sagðar álfasögur, og Abelone sagði að álfarnir væru fegurstu verur, sem guð hefði skapað.

Það var eitt hveld að Anna litla kom áhyggjufull inn í stofu, settist við fætur afa

síns án þess að segja eitt einasta orð og studdi hendinni á kné hans.

Hann sat og reykti úr pípu sinni; þegar Anna kom, klappaði hann á kinnina á henni með annari hendinni; svo tók hann hana upp á kné sér og sagði. „Jæja, barnið mitt; hefir þú nú hugsað vel um það sem þú hefir nýlega heyrt?“ Þú varst, svo áhyggjufull þegar þú komst inn, að ég þorði ekki að tala við þig; en segðu mér hvað þú varst að hugsa um, barnið mitt“. „Já, kæri afi“, sagði Anna „ég var að hugsa um, hvað það væri gaman að fá einhvern tíma að sjá fallegu, litlu álfana, og ég vildi líka að ég gæti orðið svona góður álfur, sem gæti veitt mönnum gjafir án þess að nokkur, sæi og að ég gæti sungið með stóra söngflokknum, sem heilsar sólaruppkomunni á hverjum morgni og lofar drottinn, sem hefir skapað alt. Þetta var ég að hugsa um, góði afi minn“; og hún andvarpaði svo að það var auðheyrt, að hún vissi að þessa ósk gat hún ekki fengið uppfylta.

„Hvers vegna varstu svona áhyggjufull af þessu barnið mitt?“ sagði afi hennar, „heldurðu þá ekki að það sé mögulegt að þú getir orðið álfur?“

„Ó, góði afi“ sagði Anna, „þú veizt það sjálfur, að þú hefir sagt að álfarnir hennar Abelone séu ekkert annað en engisprettur, sem séu í gryfjunum og syngi, og ég veit það vel að ég get ekki orðið þess konar álfur, sem ég óska að verða, ekki fremur en ég get orðið engispretta, en ég vildi óska að ég gæti orðið það, en þú gjörir gys að því afi minn“. „Gjöri ég gys að því; nei, það er langt frá“, sagði afi hennar brosandi. „Ég hefi svo ljómandi fallegan álf heima hjá mér, miklu fallegri en álfarnir hennar Abelone, og hann gerir mér lífið létt og indælt, hann syngur fyrir mig, hann hefir sungið fyrir mig inndælustu söngva og lofað með mér drottinn vorn og skapara; hann hefir snúið öllu mótdrægu í gleði og fögnuð; en hann hefir enga vængi, eins og álfarnir hennar Abelone, hann dansar ekki í tunglsljósi með kórónu úr daggardropum; hann er í svörtum kjól og með hvíta svuntu; þarna kemur hann inn í dyrnar, sjáðu!“

„Hvað er þetta! meinar þú hana ömmu?“ sagði Anna litla hlæjandi. „Hún amma álfur! kallaðirðu virkilegt hana ömmu álf, afi!“

„Ég hélt að þið væruð bæði steinsofandi“ sagði amma, „þegar ég kom inn í göngin, heyrði ég ekki svo mikið sem andardrátt, en nú sé ég að þið eruð vakandi“.

„Heyrðu amma!“ sagði anna litla, „afi segir að þú sért álfur; ertu ekki alveg hissa!“ og Anna hló svo mikið, að tárin runnu niður eftir kinnunum á henni.

„En hvað honum getur dottið alt í hug“ sagði amma, „hann ætlar lengst af að geta gjört að gamni sínu. En nú er komin háttatími, Anna mín“; Anna kysti bæði afa og ömmu og bauð þeim góða nótt. Þegar hún var háttuð, gat hún ekki sofnað, hún hafði svo mikið að hugsa — að hugsa sér það að amma væri álfur! — að afi hefði álf í húsinu sínu! en að afa skyldi detta í hug að segja þetta — svo fór hún að hugsa um það, að amma hefði verið hjá fátæku konunni, sem átti mörg börn, og átti svo slæman son, sem hét Anton; hann vildi hvorki fara í skólann né gjöra neitt annað. Amma hafði farið með gjafir til fátæku konunnar og huggað hana þegar illa lá á henni; hún hafði líka áminnt Anton svo að hann kom heim og snerist dálítið fyrir hana mömmu sína. Þetta var alt það sama, sem Abelone sagði að álfarnir væru vanir að gjöra. — Loksins sofnaði Anna litla, og hana dreymdi fjölda margar litlar verur, fallegar og vingjarnlegar, glaðlegar og brosandi sem kölluðu hana drotninguna sína. Hún hljóp út í garðinn og skemtihúsið, stráði fögrum rósum á borðið, lét í pípuna hans afa síns

og breiddi dúk á borðið í borðstofunni. Í þessu vaknaði hún og sá að orðið var bjart og sólin skein inn á milli trjánna.

Nóttin hafði liðið svo fljótt. Hún reis upp, klæddi sig í skyndi og þaut fram í eldhús. Svo fór hún að svefnherbergisdyrunum hennar Abelone og gægðist inn, en Abelone steinsvaf. Anna fór aftur fram í eldhúsið, setti upp teketilinn og kveikti upp eldinn. Svo læddist hún aftur að dyrunum á svefnherberginu hennar Abelone og hlustaði. Hún heyrði að hún hreifði sig og rétt á eftir rak hún höfuðið út úr dyrunum. Hún sá að eldurinn skíðlogaði undir katlinum, því eldhúsdyrnar blöstu við henni, og hún varð alveg steinhissa. Hún hélt á þvotti í hendinni, en misti hann af undrun og klappaði saman lófunum og kallaði upp. „Hvað er nú þetta, börnin góð! Nú hafa blessaðir álfarnir ætlað að gleðja vesalings gamla stúlku, eins og ég er; þetta hafa þeir gjört á meðan ég svaf. Húsmóðirin hefir enn þá ekki hringt, en það hlýtur þó að vera orðið framorðið, fyrst ég er vöknuð.“ Þannig talaði hún stundarkorn við sjálfa sig, síðan fór hún út til þess að gefa hænsunum.

Anna læddis út í garðinn og tíndi nokkur blóm, þegar hún kom inn í eldhúsið aftur, varð Abelone alveg forviða. Anna stóð í dyrunum hlæjandi út undir eyru; hún drap sleikifingrinum á vörina og sagði lágt. Nú leik ég álf í dag — nú ætla ég að fara með kaffið inn til afa og ömmu litla Lóna. „Já það máttu gjöra — en, kannske það sért þú, sem hefir kveikt upp eldinn fyrir mig!“

Anna hneigði höfuðið, en svaraði engu; svo fór hún inn í svefnherbergið með kaffið. Hún setti bakkann hjá rúminu þeirra, tók pípuna hans afa síns og lét hana upp í munnin á honum, svo faldi hún sig á bak við rúmið.

„Hvað er þetta“! kallaði afi hennar og reis upp í rúminu. „Kaffið er við rúmið mitt og pípan uppi í mér! hvernig stendur á þessum ósköpum! Skyldu virkilega vera álfar í skóginum, sem hafa heyrt að ég gjörði gys að þeim og ætli nú að hefna sín á mér, alveg eins og englarnir hefna sín, þannig að launa ilt með góðu? það hlýtur að vera þannig.

Blessaður gamli álfurinn minn liggur grafkyr, steinsofandi og hefir enga hugmynd um alt þetta; Abelóne er hér ekki, en þarna er kaffið.

Ó, fyrirgefið mér, blessaðir álfarnir, að ég hefi gert gys að ykkur. Guð blessi hvern einasta góðan álf, sem veitir mönnum hjúkrun og góðar gjafir, eins og þeir hafa gjört mér núna. Ég skal aldrei gjöra gys að þeim oftar.

„Ó, afi minn!“ kallaði Anna litla með tárin í augunum og huldi andlitið í rúmfötunum, „Ó, góði bezti afi minn,“ sagði hún, „ég skal aldrei gleyma því, sem þú hefir kent mér.

Amma sat uppi í rúminu og horfði steinhissa á Önnu.

„Hvernig stendur á því að þú ert farinn að drekka kaffi svona snemma?“ spurði hún.

„Bezta amma!“ sagði Anna „nú ætla ég að sækja handa þér heitt kaffi; þú ert náttúrlega þreytt eftir ganginn í gær“.

„Já, góða mín“ sagði hún, „komdu með kaffi handa mér og drektu sjálf um leið. Þú hefir annars verið snemma á fótum í morgun. Anna þaut fram og kom að vörmu spori aftur með kaffið, og gamla amma sagði Önnu frá auminingja konunni, sem hún hafði heimsókt daginn áður og einkum talaði hún um það, að elzti drengurinn hennar væri henni til leiðinda.

Dagurinn leið eins og vant var, og eftir hádegið, þegar Anna gekk út í skóginn, var hún svo kát að hún réði sér ekki. Hún var svona kát af því að hún átti von á litla bróð-

ur sínum. Hann átti að fá frí eftir átta daga og þá ætlaði hann að heimsækja hana.

Hún gekk dálitla stund til og frá; alt í einu staðnæmdist hún skyndilega. Hún heyrði fótatak, og rétt á eftir sá hún marga litla drengi koma hlaupandi, alla berfætta, þeir voru hágrátandi og litu öðruhvoru aftur, eins og þeir ættu von á einhverri ófreskju á eftir sér.

Þegar þeir komu til Önnu, sagði hún: „Við hvað eruð þið hræddir, og hvers vegna eruð þið að gráta“.

„Ó, það er óhræsið hann Anton! kölluðu þeir allir; „hann hefir alla staurana okkar og bandið sem við ætluðum að binda þá með, og svo ætlar hann að berja okkur með því, ef við þyrðum að tína fleiri spítur hérna í skóginum. Hvað eigum við að gjöra?“

„Bíðið þið dálítið,“ sagði Anna, „svo skal ég vita hvort ég get ekki hjálpað ykkur.“

„Þú“, sögðu þeir, steinhissa og gláptu á hana.

„Já“, sagði Anna, „bíðið þið þangað til ég kem aftur!“

Svo hljóp hún inn, en litlu drengirnir biðu úti á meðan. Anna sagði afa og ömmu hvað drengirnir höfðu sagt, og spurði hvort hún mætti ekki fara með veslings litlu drengjunum, og tína með þeim staurana þeirra, og segja óhræsinu honum Anton, að hætta að stríða þeim. „Hvað heldurðu að hann gegni þér! — hann ber þig líka, og svo kemur þú grátandi heim aftur eins og þeir, — nei, vertu alveg kyr!“ Afi talaði þessi orð vingjarnlega og horfði framan í Önnu, en hún tylti sér á tá og hvíslaði að honum. „Heldurðu að hann þori að berja álf? — nei, það þorir hann ekki.“

„Ég held að það sé óhætt að sleppa Önnu með þeim,“ sagði nú amma hennar, hann þorir aldrei að gjöra henni neitt, og það er satt, sem skáldið segir:

„Göngum öruggir öll vor spor,
því altaf drottinn gætir vor.“

„Hver veit nema að guð gefi það, að orð Önnu hafi einhver góð áhrif á Anton. Hún trúir staðfastlega að það muni verða, og trú flytur fjöll.“

Anna hljóp til ömmu sinnar, og kysti hana. „Taktu með þér köku,“ sagði amma hennar, „og gerðu litlu drengjunum, og láttu Anton fá nokkuð, til þess að hann sjái að einhver vilji honum vel.“

Anna tók með sér dálitla körfu. Hún var rétt eins og dálítill engill í hvítu fötunum sínum, með grænu böndin á sólskinshattinum. Hún var brosleit og glaðleg og gulu lokkarnir féllu niður um herðarnar á henni, svo undur fallegir. Það var eins og þeir væru logagyltir.

Nú lagði hún af stað, með litlu drengjunum; hún gekk bezt og var á undan; hún kom brátt auga á Anton, því hann hafði veitt drengjunum eftirför til þess að vita hvað þeir tækju til bragðs. Þegar hann sá hana, varð hann dauðhræddur, hann stökk frá einu trénu til annars. Anna elti hann, og allir drengirnir fylgdu henni; hún benti Anton vingjarnlega að koma. Hann staðnæmdist eitt augnablik og starði á hana stundarkorn, svo hljóp hann aftur af stað, svo hart að þau hefðu aldrei náð honum, ef hann hefði ekki dottið um staur einu sinni, þegar hann leit aftur. Hann lá alveg hreifingarlaus, og þeg- Anna kom til hans, var hann allur blóðugur í framan; hann hafði meitt sig á höfðinu. Lækur var þar skamt frá; Anna hljóp þangað, vætti klútinn sinn og þvoði sárið.

Anton lauk nú upp augunum og leit framan í Önnu, sem var blíð og vingjarnleg. „Kóra álfadrotning!“ sagði hann svo lágt, að það heyrðist varla „á ég nú að deyja?“

„Nei, góða barn“ sagði Anna, „þú átt að lifa og verða duglegur og góður maður.“

Anton stóð nú upp og horfði alvarlega framan í Önnu.

„Þú átt aldrei oftar að hræða vesalings litlu drengina, sem koma hingað að tína staura eða fauska“ sagði hún „þú átt sjálfur að safna fauskum handa þér, en ekki taka þá frá öðrum.“

Anton svaraði engu, hann gekk þegjandi að stóru tré, tók þar böndin drengjanna og fékk þeim þau, síðan leiddi hann þá þangað sem fauskarnir þeirra voru og hjálpaði þeim til að binda þá. Anna stóð hjá og horfði á, og það var eins og hann ósjálfrátt hreifði fæturnar öðru hvoru til þess að flýja þegar hann leit á hana; en hún hafði alveg vald yfir honum með augunum, og hann hélt áfram með drengjunum þangað til þeir voru búnir.

(Framhald.)

# Óskin hennar Meggy.

Eftir A. J. R.

[Niðurl.]

Þegar systkinin fóru til vinnu sinnar daginn eftir var Meggy miklu glaðlegri en hún var vön. Hún var að raula lagið sem hún hafði heyrt í sunnudagaskólanum, og sagði hálffeimin, „ég kann lagið Jói“ og svo fóru bæði litlu systkinin að syngja:

Kristur veit mínar köldu brautir,
þá kemur hann.
Krists í örmum hvíld ég finn,
þá kemur hann.

Allann daginn hljómuðu þessi orð í eyrum hennar, þau blönduðust saman við skröltið í hjólunum, hún var alt af að hafa þau upp í huga sínum á meðan hún var að vinna, og einhver undarleg gleði fyllti litla þreytta barnshjartað.

„Ertu þreytt Meggy mín?“ spurði Jói litli þegar þau gengu heim um um kveldið.

„Ekki núna svaraði Meggy, heyrðu Jói ég er viss um að Jesús ætlar að kom til „Whitechapel“.

Þau voru að ganga þvert yfir stræti. „Varaðu þig á vagninum“ kallaði Jóhann. En Meggy varð fótaskortur og hesturinn sté ofan á litla líkamann, sem lá á strætinu.

Menn báru hana á sjúkrahúsið, en allar tilraunir komu fyrir ekki; Meggy var í dauðanum. Hún lá hreyfingarlaus í hvíta rúminu. Hún bærði náfölar varirnar og leit brosandi á Jóhann, sem laut grátandi ofan yfir hana.

Kristur séð mínar kvalir hefur.
— — — — — — —
Krists í örmum hvíld ég finn
þá — — —

En henni förlaðist rómur, augnalokin sigu ofan fyrir þreyttu augun og veslings litla Meggy hafði öðlast hvíld.

„Slysfarir — ekið ofan á barn svo það hlaut bana af“, stóð í dagblöðunum, sem minntust stuttlega á atburð þennan og fólkið gekk önnum kafið og athugunarlaust fram og aftur um strætið þar sem þetta skeði. En ég og þú vitum að guð heyrði óskina hennar Meggy. Frelsarinn kom til Whitechapel.

Þýtt úr „Union Signal“.

# Hestarnir.

Það er bylur núna og vont veður, veðrið er svo vont að ykkur langar ekki einusinni til að mega fara út að leika ykkur; þið viljið heldur vera inni í hlýjundunum, og öll eigið þið eitthvert heimili, þangað sem þið getið farið inn úr vonda veðrinu, og einhver hugsar um að gefa ykkur ögn að borða, þó það sé máske lítið og ósköp fátæklegt, en haldið þið

ekki að aumingja hestarnir eigi ósköp bágt núna? margir þeirra geta hvergi farið inn úr vonda veðrinu og fá ekkert að borða þegar snjórinn kemur og þekur hvert einasta strá. Sum af ykkur eru nú svo lítil og ung og hafa þessvegna hugsað um svo fátt, en hafið þið samt ekki tekið eftir því, að sum börn eru svo glaðleg og sælleg, þau eru rjóð og hraustleg, og svo fjörleg, það er auðséð að þeim líður ógn vel, en sum börn eru svo óróleg, mögur og föl og svo illa til fara, og svo eru þau svo daufleg, þið sjáið á þeim að þau eiga bágt og svo langar ykkur svo mikið til þess að vera góðvið þau, og láta þeim líða vel og gefa þeim af matnum ykkar og fötunum ykkar og gullunum ykkar. En ef þið gáið nú líka að hestunum, þá sjáið þið hvað reiðhestarnir, sem eiga gott og altaf er farið vel með, eru fallegir og fjörlegir, en aumingja hestarnir, sem eiga bágt og eiga ekkert hús að fara inn í og ekkert að borða, þeir eru svo skelfing aumingjalegir og labba svo hægt um göturnar, það er auðséð á þeim að þeim líður svo illa, alveg eins og blessuðum litlu, fátæku börnunum, nema þeir eiga enn þá bágara af því að þeir eiga enga mömmu, sem reynir að hjálpa þeim. Meðan þið eruð lítil þá ættið þið að vorkenna aumingja hestunum, sem þið sjáið að eiga bágt, ósköp mikið, og aldrei nokkurntíma hrekkja þá, og svo ef guð lofar ykkur að lifa og verða stórum og eiga máske sjálfum hest eða jafnvel marga hesta, þá ætlið þið að fara ósköp vel með þá.

## Ósæmileg orð.

Bræður og systur!. „Vér komum hér saman til að vera nytsöm og gjöra gott“ er sagt á hverjum fundi hjá okkur. En mér er spurn? Hugsum við nokkuð um það í daglega lífinu? gjörum við nokkuð gott? Við komum hér saman einu sinni í viku, en upp úr því legg ég nú lítið, og það mundi nú hver maður gjöra, sem veit til að sumir okkar heiðruðu meðlimir brúka ilt orðbragð, bæði þegar þeir koma á fund og þegar þeir fara af fundi; en það er náttúrlega framhald af daglega lífinu.

En, bræður og systur! hvað getum við gjört til að sporna við þessum ljóta og leiðinlega lesti? ég veit ekki hvað er ljótara og leiðinlegra en að hafa ilt orðbragð, og þar að auki er það þvert á móti skuldbindingu vorri. Og frelsari okkar sagði, þegar hann gekk um hér á jörðinni: „Fyrir hvert illyrði, er mennirnir mæla, skulu þeir á dómsdegi reikningsskap lúka“. Munu þá eigi illyrðin verða nógu mörg, sem vér eigum að svara fyrir, þó vér meðan vér erum í bernsku, forðumst öll ósæmileg orð? og hvað ungur nemur, gamall temur, segir máltækið.

Hvað getum við þá gert til að útrýma þessum ljóta lesti? Ég veit hvað við getum gjört, en það er ekki annað en það, að hver og einn hafi þetta hugfast: Ég skal varast að hafa ilt orðbragð, ég skal vera trúr (eða trú) skuldbindingu minni. Ef þið hafið þetta hugfast öll saman, þá munuð þið finna, að ykkur veitir ekki þungt að gjöra það. Ef þið gjörið þetta öll saman, þá vona ég að eftir nokkurn tíma brúki enginn ilt orðbragð á meðal vor. Og þá mun stúkan okkar verða mesta og bezta barnastúkan á landinu.

*Ólafur Hallsson.*


**„Æskan“**

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun ⅕.

Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

**Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 15. apríl 1899. | **14.—15. tbl.**

## Bræðurnir.

KOMDU, litli ljúfi bróðir,
leiktu þér við mig um stund.
Við skulum fara á fjöll að smala
fénu niður á blómga grund.

Hér er leggur, lipur hestur,
legðu hann pappírs söðul á.
Taktu' hann Brún, 'ég Rauð vil reyna;
reynum nú hver betur má."—

„Þú hefir fætur langt' um lengri,
líttu á hvað ég er smár,
þú ert líka langt um eldri,
lifað hefir níu ár.

Þremur árum eldri, bróðir,
ekki' er von ég standi mig.
Ég vil þó þér feiginn fylgja
fram á breiðan heiðar stíg".

„Komdu, bróðir; undan eigi,
eg skal hlaupa, kæri, þér,
þótt á skeiði skunda megi,
skal ég bíða eftir þér.

Upp á fjöll að leita lamba
Leggjum okkar ríðum á.
Hóllinn þarna' er heiðin víða,
Hjörðin eru völur smá".—

II.

„Legðu' í lófa karls, karls,
karl skal ekki sjá, —
kæra mamma köku bita
kýs ég mér þá.

Kæra mamma, kökubiti
kemur mér vel!"
„Fyrir kossa kæra þrjá
ég kökuna sel!"

„Fyrir kossa kæra fjóra
kaupa ég vil;
að þú drepir oná sméri
eg þó til skil;

Að þú drepir oná sméri
úr henni Hvít!"
„Svona, vinur, sjáðu bitann,
seddu nú hít.

Svona, vinur, sjáðu bitann,
sannarlegt hnoss,
gæddu þér nú gullinkollur,
gefðu mér koss!" —

III. **Á stekknum.**

Leyfðu mér við lömbin hlaupa,
ljúfi pabbi minn,
lítill er ég, lömbin þekkja
litla vininn sinn. —

Hvað er þetta, kæri Móri,
kemur þú ei skjótt;
inn í króna áttu að fara
áður en kemur nótt.

Þú vilt ekki inn í stekkinn,
úti hleypur þú.

Ég skal ná þér, bíddu bara,
æ, burtu slapstu nú.

Hvað á þetta að þýða, móri,
þægur vertu skjótt,
annars kemur grýla gráa
og gleypir þig í nótt.

Í bólið á ég brátt að fara
bróður mínum hjá,
Svo í krónni saman eiga
að sofa lömbin smá.

Vertu ekki að væla lengur,
vakna lömb í kró;
lestu bara bænir þínar,
blunda svo í ró.

IV.

Ég vildi bara' eg væri orðinn stór,
svo vaktað gæti' eg ærnar fram í drögum;
hann bróðir minn í morgun með þær fór
og má nú gæta þeirra öllum dögum.

Hann fór svo montinn með sinn poka af stað,
sem mamma hafði troðið út og látið
þar í hann bæði brauð og fisk og spað,
ég brann af löngun; það er skárra átið!

Nú verð ég einn að vera heima' í bæ,
ég veit ei hvernig ég á mér að leika.
Og aldrei heldur vera' í friði' eg fæ, —
já flenging hótað er, ef langt ég reika.

Við lækinn ekki leika fæ ég mér,
ég læðist þangað oft með beran kollinn,
en mamma kemur heim, hún byst mig ber
og bannar mér að vaða út í pollinn.

Ég vildi' hann bróðir væri orðinn smár,
þá væri' hann heima, ekki fram í drögum.
en ég í staðinn sterkur bæði' og hár,
þá stæði ég hjá fénu út í högum.

Já, ef ég bara orðinn væri stór,
ég eflaust fengi þá að ríða Grána;
Mér yrðu gefnir gildir leðurskór
að ganga með, og spík að slá með hána.

V.

Kæri bróðir, kominn ertu kvíar á með hópinn þinn,
kossinn þigðu þiðan minn.

Leyf mér hendur litlar mínar leggja um hálsinn þinn,
faðmlög bróðir bezt ég finn.

Ég hef staðið úti lengi að ég gæti séð
þegar kæmir þú með féð.

Leikar eigi liðugt ganga, leiðist mér í bæ,
Án þín skemtun enga' eg fæ.

Segðu mér nú, bróðir bezti, bráður mjög ég er;
hvernig gengur það hjá þér?". —

„Upp við hús ég er að byggja ofurlítið ból
til að hafa í hretum skjól.

Á morgun kofan reyni' eg refta, risið er ei hátt,
standa samt þú staurbeinn mátt.

Helluborð og hyllu yfir hef ég inni þar;
Að í dag ég efnið bar.

Gluggi á rjáfri, glöð þar sólin gægist inn til mín,
það er að segja þegar hún skín.

Úti í horni er þar líka, að því verður not,
fyrir Vígja valið skot. —

Varla úti læt ég liggja litla hjappa minn,
hugsar smali um hundinn sinn.

Þegar ærnar eru spakar orðnar, bróðir minn,
eg þér sýni salinn minn.

Í bæinn er nú bezt að leita, bróðir komdu, með,
stúlkur meðan mjólka féð.

Mjólkur skán þar skulum borða, skifta henni má,
annan partinn áttu' að fá!

En hvað þú ert ástúðlegur, elsku bróðir minn,
komdu og þigðu kossinn minn.

*Fr. Friðriksson.*

# Gamla hríslan.

Það var komið haust; skógurinn, sem hafði verið svo ljómandi fallegur um vorið og sumarið, var nú orðinn ber og hrörlegur; fallega græna laufið hans hafði fölnað í haustfrostinu og vindurinn hafði feykt því burt; hann lék sér nú að því og þyrlaði því stundum í háa loft, en öðru hvoru var eins og hann slepti því og léti það detta niður, svo tók hann það aftur þegar minst varði, og þetta gekk um langan tíma. Og það var eins og hrygðarsvipur hvíldi yfir skóginum; það var eins og honum sárnaði að sjá vindinn fara þannig með sumarfötin sín fallegu, og sjálfur skalf hann af kulda.

Það var mikið um dýrðir á miðal barnanna um þetta leyti. Það átti að halda skemtisamkomu fyrir öll börn í Good-Templarreglunni og þau fengu leyfi til þess að bjóða með sér einu barni utanfélags hvert um sig. Gvendur og Sigga í Gerði höfðu lengi reynt til þess að fá Dóra og Önnu, leiksystkini sín á Brú, til þess að ganga í félagið, en þau voru treg til þess; að mega ekki blóta, ekki bragða vín og ekki reykja, það þótti Dóra ekki aðgengilegt, en Anna fór ekki nema hann kæmi líka. Þau létu sér altaf koma vel saman, eins og systkini eiga að gjöra og þar sem annað var, þar vildi hitt vera. Dóri hafði nokkkrum sinnum bragðað vín og þótt það gott; hann reykti á hverjum degi, þótt hann væri ekki nema 12 ára gamall, stundum úr pípunni hans pabba síns og stundum vindla, sem félagar hans gáfu honum; og hann blótaði mjög oft. Honum þótti ómissandi að hafa ýmisleg ljót orð til áherzlu þegar hann talaði, og hann hélt að það gjörði svo sem ekkert til. Að ganga í barnastúkuna og hætta öllu þessu, nei, það gat hann ekki lagt á sig. Mamma hans og pabbi voru heldur ekkert áfram um það. Pabba hans hafði þótt gott að fá sér í staupinu og hann hafði oft verið dauðadrukkinn, en hann hataði bindindi og mamma hans gjörði það líka, þótt það væri undarlegt.

„Nú skulum við bjóða þeim systkinum, Dóra og Önnu á Brú“ sagði Gvendur við Siggu. „Skemtunin byrjar með því að hann séra Árni talar um hvaða þýðingu það hafi, að börnin læri snemma að starfa að því, sem fagurt er og gott; hann talar alt af svo dæmalaust vel, hann séra Árni, og hver veit nema Dóri komi í félagið þegar hann hefir hlustað á hann“.

Svo stukku þau heim að Brú og buðu þeim að koma á laugardagskvöldið kl. 8. Dóra þótti gaman að skemtun og varð því glaður við boðið. Þau stukku bæði systkinin til pabba og mömmu og sögðu þeim frá þessu og báðu þau leyfis að mega fara. Þau fengu það, og Magga gamla, vinnukonan, sem hafði verið hjá þeim í 10 ár, var látin fara með þeim; og það lá heldur en ekki vel á þeim. Það var nokkuð langt þaðan, sem þau áttu heima til samkomu staðarins, og þau vildu helzt alt af hlaupa. Þeim þótti verst hve Magga gamla gekk hægt. Dóri var laglegur og karlmannlegur í nýju fötunum, með nýju húfuna og nýju stígvélin, hvíta brjóstið og slifsið með gullnálinni, sem hann hafði fengið í afmælisgjöf. Og Anna hljóp og hoppaði í kringum Möggu gömlu. Hún var eins og hvítur fugl, á hvítum kjól og hvítum sokkum.

Svo komu þau á samkomuna. Þar var fjöldi af börnum, sem þektu þau og tóku vel á móti þeim. Samkoman var í stórum sal og þau höfðu aldrei komið þangað áður. Veggirnir voru prýddir með mörgum fallegum myndum. Beint á móti dyrunum hékk mynd af Jóni Sigurðssyni, á þilinu; hún var í stórum, gyltum ramma og hallaðist fram. Andlitið var tignarlegt og góðlegt og það var eins og hann byði velkomna alla gestina. Þið vitið náttúrlega öll hvaða maður Jón Sigurðsson var? ef eitthvert ykkar veit það ekki, þá spyrji það pabba sinn eða mömmu að því: allir Íslendingar verða að þekkja Jón Sigurðsson og vita eitthvað um hann. Öðrumegin á veggnum voru myndir af konginum og drotningunni okkar, en hinumeginn beint á móti stór mynd í svörtum ramma, sem Dóra og Önnu varð starsýnt á. Það voru tveir menn, sem voru að bisa við að rétta gamla hríslu, bogna og kræklótta, þeir höfðu sett á hana bönd og toguðu og spyrntu í af alefli, en skamt frá þeim stóð fullorðinn maður og drengur og það leit út fyrir að maðurinn væri að segja drengnum eitthvað um hrísluna og mennina. Myndin var svo glögg og greinileg og Dóra lá við að hlæja að því, hversu mennirnir voru heimskir, að ætla sér að rétta hrísluna! — Nú byrjaði samkoman. Ungur maður laglegur og fínt klæddur steig upp í ræðupallinn bað um hljóð og bauð alla velkomna. — Það var séra Árni.

„Ég hefi verið beðinn að tala nokkur orð hér í kvöld“ sagði hann, „en af því ég veit að börnin munu vilja fara að dansa sem fyrst, skal ég ekki vera langorður. Ég ætla einungis að segja ykkur hvernig stendur á myndinni, sem þið sjáið á veggnum að sunnanverðu í húsinu. Ég gaf hana fyrir nokkrum árum á afmælishátíð félagsins og ég ætla nú að segja sögu hennar þeim, sem kynnu að hafa gleymt henni. Nú gall við lófaklapp í öllum salnum. Það sagði enginn eins vel sögu og hann séra Árni og þess vegna hlökkuðu börnin svo mjög til þess að heyra til hans.

Framh.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

## Undradiskurinn.

Þeir eru margir sem ímynda sér að þeir auðsýni kærleika þegar þeir í rauninni þjóna drambi sínu og yfirlæti, hvað mikið af því, sem gefið er fátækum, er gefið af elsku til guðs og með því hugarfari, sem honum þóknast, er les hvað með manninum býr?

Þetta var ég að hugsa um áður en ég sofnaði. Ég var nýkomin heim frá guðsþjónustu gjörð. Þessar hugsanir héldu jafnt áfram eftir að ég var sofnaður og mig dreymdi það, sem hér segir. —

Ég þóttist standa við kirkju — það hafði verið haldin ræða um trúboð meðal unglinga, og þóttist ég standa með disk í hendinni til þess að taka við gjöfum safnaðarins*). Mér fanst að mér hefði verið gefið vald til þess að geta séð af hvaða hvötum að hvert barn gæfi það, sem það lét á diskinn; en það, sem mér þótti þó allra undarlegast, var það, að mér þótti að það, sem hvert barn gaf, breyttist sem það var vert í guðs augum, þegar það kom á diskinn.

Fyrst kom unglingsstúlka, mjög greindarleg á svipinn, hún var dóttir auðugs kaupmanns. Hún hét Sesselja Rósa, enginn var betur klæddur en hún, og það var auðséð á henni, að hún var mjög ánægð með sjálfa sig

(* Það er siður víða erlendis, að biðja söfnuðinn að gefa til einhvers ákveðins fyrirtækis að aflokinni guðsþjónustugjörðinni, og oft er á þann hátt safnað fé til trúboðs meðal heiðingjanna.

Hún var geðgóð, en fremur léttúðug, hugsaði lítið um trúrbrögðin og hirti því minna um þarfir heiðingjanna. Hún tók fimmtíueyring upp úr pyngju sinni troðfullri, *og gjörði það af því að hún vissi að það var vani að láta eitthvað á diskinn.* Ég leit á peninginn um leið og hún lét hann detta, hann var orðinn að ofurlitlum blýhlunk.

Þá kom dálítil stúlka fríðleg á svip, með glóbjart hár, sem hringaði sig niður undan stráhattinum. Nelly þrýsti höndinni á móður sinni og leit framan í hana, um leið og hún lagði skilding á diskinn, ég sá að Nelly gaf skildinginn einungis til þess *að þóknast móður sinni!* þar sem hún hafði lagt skildinginn, sá ég liggja nýútsprungna sóleyju!

Þá kom Pétur Marten, hann hélt á nýslegnum tveggjakrónu-peningi og lét glampa á hann, það var rausnarlega gefið af drenghnokka, og það var líka auðséð að Pétri fanst sjálfum mikið til um það. Ég er hræddur um að hann hafi verið búinn að gleyma því, sem stendur í biblíunni. „Lát ei þína vinstri hönd vita hvað hin hægri gefur", og að hann hafi gefið svona mikið til þess að láta *heiminn dázt að sér!* Ég andvarpaði þegar peningurinn féll í diskinn; því í sama vetfangi var silfrið orðið að spegilbroti, bjórtu og skínandi en alveg einskis virði!

Nú kom Andrés, hann hálfruddist áfram og leit reiðulega á Pétur Marten eins og hann segði, „þú getur gefið það, sem þér líst, ég ætla mér samt að gefa meira en þú!" Mig langaði til að fara með diskinn, svo hann yrði ekki óvirtur með gjöf, sem gefinn var af tómri metnaðargirnd, storkun og drambi! Mér varð bilt við þegar ég leit á diskinn og sá hvernig það, sem gefið er til stuðnigs góðu málefni, getur brugðist, þegar það er gefið af óhreinum höndum. Peningurinn var orðinn að dauðum höggormi.

Ég var dapur i huga. Ég hugsaði með sjálfum mér: Skelfing geta jafnvel hin beztu verk orðið að mikilli synd; börnin, sem gefið hafa þessa peninga, ætla án efa að þau hafi gjört góðverk, — máske líka að þau verðskuldi laun frá guði! skyldi nú enginn koma með gjöf, sem ekki breytist í eitthvað vont, eða þá einskisvert!"

Í þessu vetfangi kom lítil, föl stúlka. Hún var með eyrpening, en það var eini skildingurinn, sem hún átti og sem hana langaði til kaupa sér brauðsnúð fyrir, því hún var sársvöng. Og því gaf nú Jenny Fagre eina skyldinginn sinn? Af því hún elskaði frelsarann, og langaði til að vesalings heiðnu börnin gætu líka lært að þekkja hann og elska hann.

Ég varð svo létt í skapi að horfa á litlu höndina leggja tvíeyringinn hljóðlaust á diskinn. Þarna kemur loksins peningur, sem ekki breytist, hugsaði ég með með mér. En mér skjátlaðist mjög í því. Þegar ég leit á skildinginn hennar Jenny litlu, ætlaði ég ekki að trúa mínum eigin augum. Hann smábreytti lit, varð bjartari og bjartari þangað til að hann var orðinn að skæru gulli! og það var eins og hann stækkaði líka, diskurinn smáþyngdist; og á hinum skínandi bjarta pening las ég þessi orð skráð með upphleyptu letri. „Þetta gjörðuð þér mér". Ég hrópaði upp yfir mig af gleði, og við það vaknaði ég.

Elskulegi ungi lesandi! Þegar þú í næsta sinn gefur ölmusu, þá stattu við og spurðu sjálfan þig, hversvegna þú gefur hana, og hvort hún mundi verða að gulli eins og skildingurinn hennar Jenny, ef þú legðir hana á undradiskinn. Mundu eftir því að ekkert, sem við gjörum, er í sjálfu sér þess vert, að guð gefi því gaum, en eins og foreldrið metur mikils alt það, sem gott og hlýðið barn gjörir, hvað lítið sem það kann að virðast, þannig þiggur guð og endurgeldur hundraðfalt sérhverja auðmjúka fórn kærleikans. (Þýtt úr enzku.)

# Saga barnsins.

**Eftir Charles Dickens.**

EINU sinni, endur fyrir löngu, var ferðamður nokkur, sem tók sig upp og hóf ferð sína. Það var töfraferð, og virtist mjög löng í byrjuninni, en mjög stutt, þegar hann var kominn miðs vegar.

Hann hélt áfram um stund eftir fremur dimmum gangstíg, án þess að nokkur yrði á vegi hans, þangað til að síðustu hann kom þar að, er fyrir var yndislega fagurt barn, Hann sagði við barnið: „Hvað ert þú að gera hér?“ Og barnið svaraði: „Ég er alt af að leika mér. Komdu og leiktu þér við mig“. Svo lék hann sér við barnið allan daginn frá morgni til kvölds og hafði af því undur mikla skemtun. Himininn var svo blár, sólin skein svo skært, það stafaði í vötnin, laufin voru svo græn, blómin voru svo yndisleg, fuglarnir sungu svo sætt, og hann og barnið sáu svo mörg fiðrildi, og allstaðar brosti fegurðin við þeim.

Þetta var þegar glaða sólskin var. En Þegar rigndi, skemti hann sér og barnið við það, að sjá dropana detta, og við það, að anda að sér angandi svöluninni. Þegar hvast var, var dæmalaust gaman að hlusta á vindinn, og gera sér í hugarlund, hvað hann sagði, þegar hann kom brunandi beint að heiman — að heimað, já, hvar átti hann annars heima? — blístrandi og blásandi, ýtandi skýjunum á undan sér, sveigjandi trén til jarðar, brakandi og bramlandi í reykháfnum, hristandi húsið, og espandi sjóinn þangað til hann var orðinn öskurjúkandi reiður. En þó var mest gamanið af öllu þegar snjóaði; því ekkert gat jafnast á við það, að líta upp í loftið og sjá snjóinn koma niður í skæðadrífu, jafnt og þétt eins og dettandi dúnflyksur, er fyki af bringum á ótölulegum grúa af fannhvítum fuglum; og eins að sjá, hvað snjóbreiðan varð þykk og sléttfeld, og að hlusta á lognið og þögnina, sem grúfði yfir götum og gangstígum.

Og barnið og hann átti ósköpin öll af þeim fallegustu gullum, sem til eru í veröldinni, og einhverjar þær fágætustu myndabækur. Í þeim mátti sjá tyrkneska dólga og trúbana, jötna og jörmunganda, vættir og valkyrjur, tröllkarla og tröllskessur, þelamarkir og þursa, hellismenn og haugbúa, blámenn og berserki, dverga og álfa og huldukonur; en það, sem bezt var af öllu, var það, að myndirnar voru svo nýjar og náttúrlegar. En einn dag, þegar minst varði, tapaði ferðamaðurinn af barninu. Hann kallaði á það hvað eftir annað, en fékk ekkert svar. Svo fór hann leiðar sinnar og hélt áfram um stund, án þess nokkur yrði á vegi hans, þangað til að síðustu hann kom þar að, er fyrir var undur fallegur drengur. Hann sagði við drenginn: „Hvað ert þú að gera hér?“ Og drengurinn svaraði: „Ég er alt af að læra, komdu og lærða með mér“. Svo lærði hann með drengnum alt viðvíkjandi Júpíter og Júnó og Grikkjum og Rómverjum, og ég veit ekki hver ósköpin; hann lærði fleira en ég get frá sagt — eða hann sjálfur, því hann gleymdi fljótlega miklu af því. Þeir voru samt ekki altaf læra; þeir léku þá fjörugustu leika, sem nokkurntíma hafa verið leiknir. Þeir réru eftir fljótinu á sumrum, en fóru á skautum eftir því á vetrum; þeir voru fráir á fæti og beztu reiðmenn; fimustu knattleikamenn; enginn komst til jafns við þá í útlegumannaleik, eltingaleik, bændaglímu og fleiri leikum en ég get upp talið; mér vitanlega stóð enginn þeim á sporði. Þeir fengu „jólafríið“ sitt og jólakökurnar; þeir voru í samkvæmum og dönsuðu til miðnættis; stundum voru þeir á virkilegum leiksýningum, þar sem þeir sáu reiti virkilegs gulls

og silfurs spretta upp af hinni virkilegu jörð, þar sem þeir sáu alt fágætis-ágæti veraldarinnar í einni svipan. Að því, er snerti vinina, þá voru þeir svo hjartfólgnir, og svo margir, að mér mundi ekki veita af tímanum til þess að reikna þá saman. Þeir voru allir á æskuskeiði eins og þessi fallegi drengur, og ætluðu aldrei að fjarlægast hverjir aðra alla þeirra æfi.

Samt vildi það svo til einn dag, mitt í öllum þessum unaðsleik, að ferðamaðurinn tapaði af drengnum eins og hann hafði tapað af barninu, og eftir að hafa kallað á hann að árangurslausu fór hann leiðar sinnar. Svo hélt hann áfram um stund, án þess að nokkur yrði á vegi hans, þangað til að síðustu hann kom þar að, er fyrir var ungmenni eitt. Hann sagði við ungmennið; „Hvað ert þú að gera hér?“ Og ungmennið svaraði: Ég er alt af í tilhugalífi. Komdu og vertu í tilhugalífi með mér“.

Svo fór hann með ungmenninu, og von bráðar fundu þeir eina þá fríðustu stúlku, sem nokkurn tíma hefir sést — alveg eins og María úti í horninu þarna — augun í henni voru alveg eins og í Maríu, og hárið alveg eins á Maríu, og spékopparnir alveg eins og á Maríu, og hún hló og skifti litum alveg eins og María gerir, þegar ég er að tala um hana.

Ungi maðurinn varð þegar í stað ástfanginn, alveg eins og einhver, sem ég vil ekki nefna, varð í Maríu, þegar hann kom hingað í fyrsta sinn.

Já, og honum var strítt á stundum — alveg eins og einhverjum, sem María hafði gaman af að stríða; og þeim kom ekki vel saman á stundum — alveg eins og þegar einhverjum og Maríu kom ekki saman; en svo jöfnuðu þau það aftur, og sátu til samans í rökkrinu, og skrifuðu hvort öðru til á hverjum degi; og þeim leið aldrei vel, ef annað sá af hinu, og þau voru ávalt að passa hvort upp á annað, en létust samt ekki vera að því, og voru trúlofuð fyrir jól, og sátu fast til samans við arineldin, og ætluðu bráðum að fara að gifta sig — nákvæmlega alveg eins og einhver, sem ég vil ekki nefna, og María.

En einn dag tapaði ferðamaðurinn af þeim eins og hann hafði tapað af hinum vinunum; og eftir að hafa kallað á þau að koma til baka, sem þau aldrei gerðu, fór hann leiðar sinnar. Svo hélt hann áfram um stund, án þess nokkuð yrði á vegi hans, þangað til að síðustu hann kom þar að, er fyrir var miðaldra maður. Ferðamaðurinn sagði við hann: „Hvað ert þú að gera hér?“ Hinn svaraði: „Ég er alt af önnum kafinn. Komdu og vertu önnum kafinn með mér“. Svo fór ég að verða önnum kafinn með miðaldra manninum, og þeir urðu samferðra sem leiðin lá gegnum skóginn. Sem sagt lá gjörvöll leiðin gegnum skóg, sem í fyrstu var greiðfær og grænn, eins og vorskógur, en sem nú tók að gerast margfaldur og myrkur eins og sumarskógur; sum litlu trjánna, sem árla höfðu barað, voru jafnvel farin að verða brúnleit.

Framh.

---

☞ **Gjalddagi „Æskunnar“ er í aprílmánuði.**

Kaupendur gjöri svo vel og geri afgreiðslumanni tafarlaust aðvart ef þeir fá eigi blaðið skilvíslega. Því seinna getur verið að upplagið verði þrotið, og þá eigi hægt að bæta úr vöntunum. *Afgr.maður blaðsins.*

**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert Sölulaun 1/5.**

Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

**Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.**

Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 10. maí 1899. | **16.—17. tbl.**

## Tjaldbúðin.

Þið hafið öll lesið í biblíusögunum ykkar um tjaldbúðina og munið víst eftir því, að inni í því allrahelgasta stóð sáttmálsörkin sem lögmálstöflurnar voru geymdar í. Ég ætla nú að segja ykkur dálítið um myndirnar, sem eru í „Æskunni“ núna. Þær eru úr tjaldbúðinni. En fyrst ætla ég að segja ykkur ofurlítið nákvæmar frá byggingu tjaldbúðarinnar sjálfrar.

Eins og þið munið eftir úr biblíusögunum ykkar, var tjaldbúðinni sjálfri skift í tvent, hið heilaga og hið allra-helgasta, og að umhverfis hana var forgarður. Hann var 100 álna langur og 50 álna breiður, var tjaldað í kringum hann með hvítum viðarullardúkum, en stoðirnar voru úr tré og stóðu á eyrpöllum og voru greypar ofan á þá með silfurtöppum Inngangurinn vissi móti austri og hékk fyrir honum glitofinn dúkur, gjörður af dökkblárri ull, purpura, skarlati og hvítri viðarull.



Úr tjaldbúðinni.

Tjaldbúðin sjálf var 30 álnir á lengd, 10 álnir á breidd og 10 álnir á hæð. Viðirnir voru úr belgþornsvið og allir gullbúnir og stóðu á silfurpöllum. Yfir þessum viðum lágu fernir dúkar, insti dúkurinn var ofinn úr hvítri viðarull, dökkblárri ull, skarlati og purpura, og ofnar í hann englamyndir. Dúkurinn var ofinn í lengjum, sem voru kræktar saman með 50 gullkrókum. Þar utan yfir var lögð ábreiða úr geitarhársdúki, hún var krækt saman með 50 eyrkrókum. Þar næst var tjaldbúðin þakin rauðum hrútaskinnum og yzt selskinnum. Fremri partur tjaldbúðarinnar var kallaður hið heilaga, en innri parturinn hið allra-helgasta og var þeim skift sundur með fortjaldi eins gjörðu og insti tjalddúkurinn, það var fest með gullkrókum á fjórar gullbúnar stoðir, sem stóðu á silfurpöllum. Þessi hluti tjaldbúðarinnar, hið allra-helgasta var tíu álnir á hvern veg. Þar inni stóð sáttmálsörkin sem þið sjáið á myndinni vinstra megin.

Örkin var hálf þriðja alin á lengd, hálf önnur alin á breidd og eins á hæð. Hún var gjörð úr belgþornsviði og búin utan og innan með skíru gulli og að ofan brydd með gullrönd. Í hverju horni var gullhringur og var smeygt í þá gullbúnum ásum til þess að bera örkina á. Lokið var úr skíru gulli og á því voru tvær englamyndir, er krupu sinn á hverjum loksenda með útbreidda vængi. Þær voru gjörðar af drifnu gulli.

Næsta myndin er af reykelsisaltarinu. Það stóð í því heilaga fyrir framan fortjaldið, gagnvart sáttmálsörkinni. Það var alin á

hvern veg og tveggja álna hátt, gjört af gullbúnum belgþornsviði og gullrönd umhverfis það; gullhringar voru í hornunum, sem gullbúnum ásum var smeygt í, til þess að bera það á. Á því átti æðsti presturinn að brenna reykelsi kvöld og morgna. Efri myndin hægra megin er af skoðunarborðinu. Það var tveggja álna langt, álnar breitt og hálfrar annarar álnar hátt. Það var gullbúin rönd á því að ofanverðu, gullhringjur voru í hornum þess, til þess að smeygja í ásum, er það var borið á. Öll ker og skálar, er á því stóðu, voru úr skíru gulli. Á hverjum hvíldardegi voru lögð á það 12 ósýrð brauð, og var sitt brauð fyrir hverja af hinum 12 kynkvíslum Ísraels. Seinasta myndin er af ljósahjálminum. Hann var gjörður af skíru gulli og undurfagur. Á honum voru sjö lampar og var brent í þeim hreinni viðsmjörsviðarolíu. Á hverju kveldi var kveikt á þeim. Ljósahjálmurinn stóð vinstra megin, þegar gengið var inn í hið allra-helgasta, en skoðunarborðið var hægra megin.

Allar þessar gersemar voru gjörðar af frjálsum gjöfum Ísraelsbarna. Þeir fórnuðu drotni með glöðu geði eigum sínum, og hann leiddi þá yfir eyðimerkurnar og lét þá ganga þurrum fótum yfir hafið.

Þetta var á dögum gamla sáttmálans, en þið, blessuð litlu börnin, lifið undir nýja sáttmálanum, sáttmála kærleikans í Jesú Kristi, sem vill eiga ungu hjörtun ykkar og meiga búa í þeim, svo þau fyllist gleði og friði og kærleika til guðs og manna, svo að ykkur langi svo innilega til þess að hjálpa öllum sem eiga bágt, og munið altaf eftir því að alt, sem er gott, hefir guð gefið ykkur til þess að gefa það öðrum og gleðja aðra með því.

# Harpa.

Langt langt suður í löndum á heima stúlka sú, sem Harpa heitir. Hún er ólík öllum öðrum stúlkum í því, að hún er jafnung í ár og hún var í fyrra, hitt hið fyrra og árið þar áður. Hún hefir ekki breytst neitt um mörg þúsund ár, og er ár eftir ár jafn skínandi ljómandi fögur. Stundum er hún skellihlæjandi, en oftast brosir hún örlítið og raular fyrir munni sér: „Vorið er komið og grundirnar gróa“. Móðir hennar er tröllkona, er Góa heitir, en faðir hennar nefnist Einmánuður, og er hann af mennskra manna kyni í aðra ættina. Alt er fólk þetta á ferðalagi árið um kring fram og aftur um allan heim, en er þó aldrei samferða, heldur kemur hvað á eftir öðru. Góa gamla er á undan, því hún er stórstíg, sem tröllkonum er títt. Verða fáir til að fagna henni, því hún er gömul og gráhærð og oft úfin og ill í skapi. Þó hún komi á bláfátækt heimili, setst hún þar upp, og er aldrei skemur en 30 daga. Vilja allir losna við hana sem fyrst og telja á fingrum sér, hvenær hún muni fara á burt aftur. Er hún stundum nokkurn veginn spaklynd, en aðra stundina grálynd og hrekkjótt, þegar menn sjá sér einskis ills von. Hún stingur þá með títuprjónum í andlitið, sem koma út fyrir dyr, eys yfir þá snjó, ber heyið burt úr heygarðinum og hristir það út í vindinn, eða hún hleypur út í hagann og kæfir kindurnar í snjófönn. Líka þykir henni gaman að því, að vaða sjóinn á eftir skipunum og kaffæra þau. Einmánuður hleypur við fót á eftir henni, og kemur í hlaðið þegar hún er að komast út fyrir túnfótinn. Töluvert er hann skapbetri en Góa, enda þótt hann sé æði dutlungafullur öðru hvoru. Strýkur hann þá hárið niður fyrir augun og nöldrar fyrir

munni sér. Oft er þó hægt að lynda við hann, einkanlega þegar hann fer að kynnast á heimilinu. Fer hann burt á vetrardaginn seinasta, og kveður þá með handabandi og óskar öllum gleðilegs sumars. Vildu þá sumir mega halda honum lengur, ef þeir vissu ekki, að betri gestur kemur í stað hans þegar Harpa dóttir hans ríður í garð.

Harpa, dóttir þeirra hjóna, er ólík foreldrum sínum að útliti og skapsmunum, en svipar þó heldur í föðurættina. Segja líka sumir, að hún sé ekki dóttir Góu og Einmánaðar, heldur úr flokki englanna, sem búi í sólarlandinu. — Hár hennar er logandi gull, skínandi eins og sólargeislar, svo sitt, að það nær henni niður á tær, og svo þykt, að hún getur hulið sig í því, þegar hún fer í feluleik. Augu hennar eru björt og blá, eins og heiðrikur vorhiminn um dagmálabil. Eru þau síbrosandi af fjöri og gleði. Kinnar hennar eru rjóðar, sinn spékoppurinn í hvorri þeirra og skarð í hökunni. Og svo klappar hún saman mjallahvítum höndunum og skellihlær.

Harpa kemur sunnan að með fríðu förneyti, líkt og drotning, sem er að skoða ríki sitt. Þar eru allir vorfuglarnir, kvakandi, tístandi, syngjandi, urgandi og organdi, gargandi og galandi. Þar er lóan, spóinn, kjóinn, krían. Þar eru maríuátlan og músarrindillinn. Þar eru stelkur og steindepill, himbrimar og hrossagaukar og fjöldamargir fuglar aðrir. Harpa og fuglar hennar hafa þá búið um dálítinn tíma á Nílarbökkum, langt fyrir sunnan Egyptaland. Þaðan leggur allur flokkurinn á stað; vaknar þá snemma morguns fyrir sólaruppkomu, nuddar stýrurnar úr augunum og lagar til í híbýlum sínum, svo alt sé í röð og reglu meðan verið er í burtu. Heiðlóan er fljótust að tygja sig til, enda hefir hún undur lítinn farangur og hefir verið ferðbúin kvöldið áður. Flýgur hún nú í fararbroddi og neytir hvorki svefns né matar eða hvílir sig hið minsta fyr en hún er komin alla leið lengst norður í lönd. Kallar hún hálfsyngjandi, „Dýrðin, dýrðin“ alla leið og þá vita menn að Hörpu muni vera von að fáum dögum liðnum.

Fregnin um komu Hörpu berst á svipstundu bæ frá bæ norður og suður, austur og vestur um land alt og hver gerir eftir beztu föngum, að taka sem bezt á móti henni. Stórir og smáir, ungir og gamlir fara snemma á fætur til þess að geta séð, þegar hún kemur með allan flokk sinn syngjandi af gleði sunnan úr heimi. Menn og skepnur og dauðir hlutir: alt kemst á ið og tif. Og alt er þvegið og fágað, skreytt og prýtt bæði úti og inni. Hornsílin gægjast upp úr forarpollunum og skima í allar áttir, hvort þau sjái ekki til ferða hennar. Laxarnir fara í kappróður upp eftir ánum á móti straum. Nóttin verður feimin og jafnvel stærstu stjörnurnar þora ekki að láta sjá sig um lágnættið. Kýrnar slíta af sér klafaböndin, brjóta fjóshurðina og hlaupa baulandi út fyrir tún. Litlu, nýfæddu unglömbin spretta á fætur og segja: „Me, me,“ þau eru alla vega lit, hvít, svört, golsótt, botnótt, bugótt, arnhöfðótt og þar fram eftir götunum. Þau eru öll komin á kreik og farin að leika skessuleik. Jafnvel jörðin sjálf grætur af gleði, og jöklarnir og dalirnir, hæðir og hraun, brekkur og sléttlendi, alt breiðir það faðminn út á móti Hörpu og segir: „Komdu blessuð, blessuð og sæl!“ Og litlu vatnsdroparnir fara í halarófu-leik lengst ofan af fjöllum, og hlaupa, hlæjandi og syngjandi, syngjandi hlæjandi, stalla af stalla allar götur niður á jafnsléttu. Þeir hlaupa hver fram fyrir annan, og hrynda hver öðrum með ákafa og olnbogaskotum, því allir vilja þeir vera fyrstir til að bjóða Hörpu velkomna. — Hún er ekki heldur úfin á svipinn og það er eins og gleði titringur fari um himin og jörð þegar hún býður góðan daginn. Hún strýk-

ur aumingja ánamaðkinum, sem hefir kúrt niðri í moldinnni allan veturinn: Hann er blindur, en þekkir hana þó, heyrnarlaus, en þekkir þó fótatak hennar, mállaus, en býður hana þó velkomna. Hún kemur heim á hvern bæ og skygnist inn í hvern krók og kima. Hún heilsar öllum jafn vingjarnlega! konginum og sveitadrengnum, drotningunni og smalastúlkunni og kallar þau öll systkyni sín. Gamli maðurinn staulast nú á hækjur sínar. Hann hefir legið í rúminu allan veturinn, en má til að koma út einu sinni ennþá, til þess að sjá hana í nokkrar mínútur áður en hann deyr.

Harpa kemur ekki tómhent, og er ekki heldur nízk á eigur sínar. Hún er með fangið fult af grösum, blómum, blöðum og ávöxtum, gulum og bláum, grænum og hvítum, rauðum og reirðum á ýmsan hátt. Þar eru sóleyjar og sortulyng, fíflar og fjólur, bláklukkur og burnirót, gæsablóm og geldingahnappar, lokasjóður og lambagras. Þessu stráir hún út á báðar hendur, niður við sjó og upp til fjalla, og það er eins og fang hennar ætli aldrei að tæmast. Hún kastar fíflunum, hlaðvarpann, störinni niður í flóa og storkanefinu langt upp í Lambabrekkur. Hún stingur helluhnoðranum í klettaskorurnar og kveður geldingalaufið uppi á háfjöllum. Hún kyssir blöðin, og þá stækka þau, blómknappana og þá breiðast þeir út. Grasmaðkurinn kastar af sér hýðinu, eins og kongsnon, sem leystur er úr álögum, og út úr hýðinu skríður iðandi og syngjandi fiðrildi. — En loftið og jörðin, hafið og hálsarnir, dýr og dauðir hlutir, smátt og stórt, tekur undir með lóunni og segir: „Dýrðin, dýrðin!“

*Hj. Sig.*

# Anna eða álfadrotningin.

[Niðurl.]

„Jæja“, sagði Anna litla, nú skuluð þið allir hlaupa niður að læknum og þvo ykkur, hann bíður eftir ykkur með tæra vatnið sitt.

Þeir hlýddu henni allir og Anton líka. Þegar þau komu að læknum, staðnæmdust þau öll. Anton stóð dálítið fjær Önnu en hinir. Hann var hálf einurðarlaus við hana. Hann langaði til að horfa á hana, en þorði ekki að láta hana sjá það.

„Komdu hingað, Anton!“ sagði hún. „Ég hefi hérna köku, sem amma gaf mér handa ykkur; við skulum setjast niður hérna á lækjarbakkann og borða hana. Amma mín er kona skógarvarðarins, þér er óhætt að trúa því; ég er ekki álfadrotning, eins og þú hugsaðir á meðan þú varst ekki með sjálfum þér. Verkjar þig annars ekki í höfuðið?“

Hann hristi höfuðið.

Anna rétti honum köku og sömuleiðis hinum. Það hýrnaði yfir þeim við gjöfina; Anton hélt á kökunni í hendinni, en bragðaði ekki á henni.“

„Þakka þér kærlega fyrir Anna!“ sögðu drengirnir, „nú skulum við fara heim og flýta okkur“.

Þeir lyftu hver á annan fauskabyrðunum og fóru af stað.

Anton bjóst einnig til brottferðar, en Anna gekk til hans og mælti: „Mig langar til að tala dálítið við þig, Anton; fylgdu mér eftir veginum. Þegar ég sá hvernig þú leizt út í raun og veru, — það gat ég ekki séð fyr en þú þvoðir þér, — þá datt mér í hug að þú myndir aldrei hafa hugsað um það, að guð sér alt, sem þú gjörir, heyrir alt, sem þú talar og veit alt, sem þú hugsar og að hann hryggist yfir því að þú skulir ekki vera góður drengur. Ef þú hefðir hugsað vel um það

að eins einu sinni, þá hefðirðu ekki getað fengið það af þér að hrekkja aumingja drengina; þá hefðirðu heldur ekki þorað það, þú varst hræddur við mig af því þú hugsaðir að ég væri álfadrotning; en þú ættir vel að gæta þess að þú gætir gjört guðs vilja, og að við eigum að verja öllu því, sem guð hefir gefið okkur, til góðs.

Taktu nú eftir; þú ert stór og sterkur, og aumingiun hann pabbi þinn er veikur. Ég skal biðja hann afa minn að láta þig fá eitt-kvað að gera; fyrir það færðu kaup og þá geturðu hjálpað foreldrum þínum. Ég á bók með mörgum fallegum sögum; ég skal ljá þér hana til þess að lesa í henni á frístundum þínum.

„Ég kann ekki að lesa“, sagði hann.

„Getur það verið“, sagði Anna.

„Vesalings drengurinn, það er slæmt. Nú skal ég segja þér nokkuð. Eftir nokkra daga kemur hann Friðrik bróðir minn; hann er svo dæmalaust vel að sér. Þegar þú kemur til hans afa, þá skal ég biðja Friðrik að kenna þér að lesa, svo þú fáir að vita eitthvað af því, sem þér er allra nauðsynlegast.“

Nú voru þau komin að garðshliðinu. Afi Önnu litlu stóð fyrir innan grindurnar og var að reykja; hann var orðin dauðhræddur um Önnu og ætlaði að fara að leita hennar. Hann brosti vingjarnlega framan í hana og sagði.

„Hvað er nú þetta; hefir þú gefið Antoni köku og bannað honum að borða hana?“ eða heldur hann að hún sé úr konguló arvef og blómvökva! Borðaðu kökuna barnið mitt! Í morgun hélt ég líka að kaffið mitt væri álfa-drykkur. Þér er óhætt að borða kökuna. „Því sem þessi álfur gefur manni, fylgir afl og ánægja“

Anton gaut augunum ýmist á Önnu eða gamla manninn. „Það lítur svo út, drengur minn“, sagði skógarvörðurinn, „að Anna litla hafi læst á þér munninum, svo þú getir hvorki talað né borðað. Farðu nú heim, og ef alt fer eins og ég held, þá heyrast falleg orð af vörum þér þegar þú talar næst. Komdu svo hingað aftur í fyrramálið og þá skulum við vita hvort þú hefir ekki betri matarlyst en í dag.“

Anton fór í burtu, en kom aftur næsta dag; honum var fengið verk að vinna og gladdi það alla hversu iðinn hann var og kappsamur; en vænst þótti Önnu litlu um það. Og þegar farið var að borða hafði hann ágæta matarlyst.

Gamli maðurinn ávarpaði hann og mælti. „Sagði ég þér ekki, drengur minn, að alt yrði í betra lagi í dag og minntist þess, að sá sem starfar með áhuga, borðar mat sinn með áhuga, og gleymir ekki að þakka þeim fyrir hann, sem gaf hann, og gefur okkur alt.“

„Anton gaut augunum til Önnu öðruhvoru, en hún horfði stöðugt á hann.

Nokkrum dögum síðar kom Friðrik. Hann kendi Antoni stundarkorn á hverjum degi og eftir mánuð var hann orðinn nokkurnveginn læs. — —

Tímarnir liðu, Anton var orðinn stoð og stytta, gleði og ánægja foreldra sinna, og þegar afi Önnu litlu var orðinn gamall og þurfti hjálpar við, þá gat Anton veitt honum hana. Friðrik og Anna heimsóttu afa sinn og ömmu eins og þau voru vön, og þau mintust öll með ánægju þeirrar stundar þegar Anna hafði leikið álfinn, og afi hennar sagði oft. „Mér hafði aldrei þótt eins vænt um söng engisprettann eins og eftir þetta.“

Og Anton sagði gömlu konunni upp aftur og aftur, hversu þakklátur hann væri guði fyrir það að hann hafði sent Önnu til hans í líki álfadrotningar.

*Sig. Júl. Jóhannesson* þýddi.

# Saga barnsins.

### Eftir Charles Dickens.

(Framh.).

Miðaldra maðurinn fór ekki einn sins liðs; það var með honum kona, á að gizka á aldur við hann, sem var konan hans; og þau áttu börn, sem einnig voru með í förinni. Þau fylgdust öll að í skóginum og hjuggu niður trén, og ruddu sér veg áfram gegn um limið og laufin, sem fallin voru, og báru bagga sína og strituðu mikið.

Stundum komu þau að löngum, skrúðgrænum skógargöngum, er lágu inn í enn dimmari skóg, og þá voru þau vís að heyra álengdar raust, er hrópaði: „Faðir, faðir, hérna er eitt barn enn! Bídd' eftir mér!“ Og í einu vetfangi gátu þau að líta dálítið peð koma tifandi í áttina til þeirra, og smástækkaði það eftir því, sem nær dró. Þegar það var búið að ná þeim, þyrptust þau öll hringinn í kringum það, og kystu það og fögnuðu því; að því búnu hélt allur hópurinn áfram leiðar sinnar.

Stundum komu þau að vegamótum, þar sem margar skógarbrautir runnu saman, og þá námu þau öll staðar, og eitt barnið sagði: „Pabbi, ég ætla að fara í siglingar“, og annað barnið sagði: „Pabbi, ég ætla að fara til Indlands“, og enn annað sagði: „Pabbi minn, ég ætla að fara að freista hamingjunnar, hvar sem ég get“, og enn annað: „Pabbi, ég ætla til Guðs!“ Svo eftir að hafa felt mörg tár að skilnaði, fóru þau eitt og eitt sér niður eftir þessum skógarbrautum, sína leiðina hvert, og barnið, sem fór til guðs, leið á vængjum morgunroðans upp til himins — úr augsýn.

Ef ferðamanninum varð litið framan í félaga sinn á þessum skilnaðarstundum, sá hann hann renna augum snöggvast til himinsins upp yfir trjátoppana, þar sem deginum var nú tekið að halla og farið var að líða undir sólsetrið. Hann sá það einnig, að hár hans var orðið hæruskotið. En þeir máttu aldrei taka langar hvíldir, því þeir urðu að halda áfram ferð sinni, og óumflýjanlega nauðsynlegt var fyrir þá að vera sífelt önnum kafnir.

Loks höfðu skilnaðarstundirnar orðið svo margar, að ekkert var eftir af börnunum; einungis ferðamaðurinn og þau hjónin urðu nú samferða á skógargöngunni.

Og það fór að slá gulum og dimmrauðum lit á skóginn; og laufið, jafnvel á trjánum inni í myrkviðinum, var þegar farið að falla.

Næst komu þau að göngum, sem voru dimmari en þau, sem áður höfðu orðið á leið þeirra. Þau litu ekki inn í þau, og voru að þrengja sér sem mest þau máttu gegn um skóginn, þegar konan nam staðar.

„Heyrðu, ljúfi minn“, sagði hún við mann sinn: „Það er kallað á mig“. Þau hlustuðu og heyrðu raust álengdar óma upp eftir göngunum: „Mamma, mamma!“ Það var raust barnsins, sem fyrst hafði sagt: „Ég ætla til guðs“! og faðirinn sagði í biðjandi rómi: „Æ, ekki enn. Það er komið fast að sólsetri. Æ, ekki enn!“

En raustin hrópaði: „Mamma, mamma!“ án minsta tillits til hans, þó hann væri nú orðinn hvítur fyrir hærum, og tárin streymdu niður um andlit hans.

Móðirin, sem þegar var farin að dragast inn í skuggann í dimmu göngunum, þokaðist æ lengra og lengra meðan hún enn hélt höndunum utan um hálsinn á honum, og kysti hann segjandi: „Hjartað mitt, það er kallað á mig, og ég hlýt að fara!“ Og hún var farin. Og ferðamaðurinn og hann voru nú að eins tveir orðnir eftir.

Og þeir héldu áfram lengi, lengi, þangað til þeir voru nærri komnir að útjaðri skógarins, svo nærri, að þeir gátu séð sólsetrið

fram undan sér varpa rauðum geislum gegnum limið.

Enn þá einu sinni misti ferðamaðurinn af vini sínum, er hann var að brjótast gegn um skógarlimið. Hann kallaði og kallaði, en fékk ekkert svar. Þegar hann kom fram úr skóginum, og sá sólina blessaða vera að setjast í friði bak við purpuralitað víðsýni, kom hann þar að, er fyrir var gamalmenni sitjandi á föllnu tré. Hann sagði við gamalmennið: „Hvað ert þú að gera hér?“ Og gamalmennið svaraði: „Ég er alt af að *muna.* Komdu og *mundu* með mér!

Svo settist ferðamaðurinn niður við hliðina á gamalmenninu, þetta rósama kveld, augliti til auglitis við sólsetrið, og nú komu vinirnir til baka, svo ljúfir og blíðir, og skipuðu sér í einni hvirfingu kringum öldunginn. Hið yndislega barn, drengurinn, sem var svo undur fallegur, ungi maðurinn í tilhugalífinu, faðirinn, móðirin og börnin þau voru nú öll komin, hvert eitt og einasta þeirra —; hann hafði ekkert mist.

Hann elskaði þau svo innilega heitt, og var svo mildur og umburðarlyndur við þau; hans mesta yndi var að *muna* eftir þeim öllum; og þau elskuðu hann líka og báru virðingu fyrir honum. Ég held að ferðamaðurinn hljóti að vera þú, kæri afi minn, því svona breyttir þú við okkur, og við breyttum svona við þig.“

Eftir Almanaki Vestur-Íslendinga

# Gamla hríslan.

(Framh.) Nú byrjaði séra Árni söguna sína á þessa leið:

„Það var í júnímánuði fyrir mörgum árum“, sagði hann „að Láki gamli kom heim á prestsetrið, rétt fyrir háttatíma, og bað að lofa sér að vera. Hann var alþektur þar í sókninni, hann Láki. Það var gamall maður, á að gizka um sextugt. Hann átti hvergi heima, heldur flakkaði um á meðal manna; fékk hann sumstaðar allgóðar viðtökur, en margir höfðu horn í síðu hans, og var það einkum þess vegna, að hann var altaf drukkinn þegar hann gat. Það hafði oft verið reynt að útvega honum vinnu á einhverjum góðum bæ, þar sem vel gæti farið um hann, því æfin hans var ekki sem bezt, þar sem hann oft lá úti, ef hann hafði orðið svo drukkinn að hann komst ekki til næsta bæjar; en Láki toldi hvergi degi lengur. Hann hafði altaf átt góðu að mæta hjá prestshjónunum, og þótt þeim þætti hann leiðinlegur, þá kendu þau í brjósti um hann. Í þetta skifti var Láki gamli töluvert druknari en hann þó átti að sér. Hann gjörði sig heimakominn hjá prestshjónunum og var ekki sem kurteisastur. Hann fór upp á loft til vinnu fólksins og tafði það við vinnu sína. Það vildi helzt ekki gegna honum einu einasta orði, en þá varð hann reiður og ætlaði að setja alt í uppnám. Það varð því nauðugt viljugt að gegna allri vitleysunni úr honum til þess að hafa hann góðan.

Presturinn átti tvö börn; dreng og stúlku, sem hétu Hallgrímur og Þóra. Hallgrímur var dálítið stríðinn og keskinn; hann hafði gaman af því þegar Láki var að slangra á milli fólksins, að glettast við hann ýmislega. Stundum hafði hann spegil til þess að láta glampa framan í hann, stundum léði hann honum gömlu stígvélin hans pabba síns, stráði síðan vaxspítum á gólfið og lét hann ganga ofan á þær, en þá kviknaði á þeim og brakaði undir fótunum á honum, svo hann varð dauðhræddur, en þá hló Hallgrímur. Þetta kveld hafði honum verið venjufremur uppsigað við Láka og komst loksins í svo hart milli þeirra, að Láki stendur upp og ætlar að berja hann, en Hallgr. var fljótur á fæti og stökk undan.

Láki eltir hann um alt gólfið, en nær honum ekki; loksins verður fyrir honum stigagatið og hann veltur niður allan stiga. „Það var rétt handa þér!“ kallaði Hallgrímur og skelli hló.

Láki komst brátt á fætur aftur; hann hafði meitt sig dálítið á höfðinu og blæddi úr.

Presturinn heyrði þegar hann féll niður stigann og kom út úr skrifstofunni sinni og spurði hvað um væri að vera. Láki sagði honum alveg eins og var, en presturinn kallaði á Hallgrím og átaldi hann fyrir það að láta hann ekki í friði.

„Ég held það gjöri ekkert til“ sagði Hallgr, „þó hann hrekkist, ólukku karlinn, og hætti að koma hingað; hann er altaf blindfullur og það er svo leiðinlegt að hafa hann“.

„Heldurðu að hann batni með því að fara svona að honum?“ spurði presturinn, „og heldurðu ekki að þú ættir að hugsa betur hvernig á því stendur að hann er svona? og heldurðu að það sé ómögulegt að þú getir orðið svona líka?“

„Heldurðu að ég verði nokkurntíma drykkjusvín eins og hann Láki gamli?“ sagði Hallgrímur. „Þú hefir sagt mér svo mikið ilt um vínið og afleiðingar þess, að mér dettur víst aldrei í hug að bragða það.“

„Jæja“, sagði prestur, „ég ætla ekki að sneipa þig frekar fyrir þetta í kveld, en við skulum talast við á morgun.“

Daginn eftir fer presturinn út í skóg með tvo vinnumenn og kallar með sér Hallgrím og Þóru. Hann bað vinnumennina að hafa með sér sleggjur og kaðla. „Hvað ætlarðu að gera við þetta, pabbi?“ sagði Hallgrímr. „Þú skalt fá að sjá það þegar við komum út í skóginn“ svaraði hann.

Nú komu þau út í skóg, þar sem ein hrísla var langt frá öllum öðrum; hún var bogin og kræklótt. Þarna staðnæmdist presturinn. „Taktu nú sleggjuna“, sagði hann við Gísla vinnumann sinn, „og berðu þetta gamla tré með henni, eins og þú getur.“

„Gísli varð alveg hissa, en gjörði þó eins og prestur skipaði honum.

(Framh.).

# Vorvísur.

Hverfur kuldi, hlýnar blær,
heyrist fuglakliður;
blessuð sól á himni hlær,
horfir til vor niður.

Spretta fögur grös á grund,
grænka fóstru klæði,
þegar vor af vetrarblund
vekur láð og græði.

Fæ ég bráðum, fífill minn,
fegurð þína' að skoða;
á gula kollinn glóir þinn
gyltan sólarroða.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

# Gátur.

1. Hvar sló hann Nói fyrsta naglann í örkina?
2. Hvað er það sem hækkar þegar höfuðið er af?

*„Æskan“ átti að borgast í aprílmánuði.*

**„Æskan“**
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun $^{1}/_{5}$, ekki gefin af færri en 3 eintökum.

Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

**Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur mót borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 15. júní 1899. | **18.—19. tbl.**

## Arabar.

MYNDIN, sem „Æskan“ flytur í þetta sinn er af Aröbum. Þeir koma úr ferð og eru að hvíla sig. Á myndinni sérðu allmarga menn eldri og yngri, nokkra úlfalda, tjald og tvö pálmatré.



„Æskuna“ langar til að segja ykkur, börnin góð, dálítið meira um Arabana á myndinni, og biður ykkur að hafa bæði augu og eyru opin á meðan. En fyrst verð ég að segja ykkur nokkuð af landinu, sem þessir menn eiga heima í.

Land Arabanna heitir Arabía. Það liggur vestan til í Asíu, rétt fyrir sunnan og austan ‚Landið helga‘ (það þekkið þið svo vel af biblíusögunum). Landið er hálent og slétt að ofan, með fjöllum hringinn í kring. Arabía nær mikið að sjó. Að vestan er Rauðahafið, að austan Persaflóinn. Hringinn í kring á strönd Arabíu eru frjóvsamar fjallshlíðar. Fegurst er landið syðst við Rauðahafið. Þar er það líka kallað „Arabía hin farsæla“. Í landafræðinni heitir það Jemen. Þar vex kaffi, og þar þektist það fyrst. — Arabar drekka líka ósköpin öll af kaffi, og kunna vel að því að búa það til. Ferðamenn segjast hvergi fá eins gott kaffi. — Arabar renna líka sex sinnum upp á könnuna, og þegar þeir eru spurðir að, því þeir geri það, þá segja þeir bara: „Kaffið verður annars ekki gott“. Þar vex kókospálminn, sem súkkulaðið er búið til úr, og þar vex líka döðlupálminn. Hann er þeim ákaflega gagnlegur. Þar vex enn fremur eins konar korn, kryddjurtir, lyfjajurtir, suðræn aldini og tóbak. Alt þetta vex ekki nema í heitum löndum. Þar er líka akuryrkja stunduð.

Í þessum landshluta standa borgirnar *Mekka* og *Medína*. Í þeim borgum eru skrautleg musteri, sem eru helguð Múhameð. En yfir höfuð þykja ekki arabiskar borgir fallegar. Húsin eru lág og göturnar þröngar.

Uppi í landinu er alt öðru vísi um að svipast. Þar er mestur hlutinn ófrjófar sandeyðimerkur. Á stöku stöðum eru að eins frjófsamir blettir, þar sem fleiri og færri tré vaxa og annar jurtagróður. Slíkir blettir eru kallaðir *óasar*. Þar hvíla ferðamenn sig og úlfalda sína.

Margir Arabar lifa eingöngu á skepnum sínum, sem eru úlfaldar, geitur og sauðir. Þeir ferðast stöðugt um með þær að leita þeim að högum, alveg eins og góðir smalar gera hjá okkur; þeir beita ekki altaf á sama stað. Arabar ferðast miklu lengra yfir, og gætu ekki komist heim aftur að kvöldi, þangað sem þeir tóku sig upp frá. Þeir vilja það ekki heldur þótt þeir gætu, því þeir vita að þar er uppbeitt. Þess vegna flytja þeir húsin með sér. „Það eru einkennileg hús, sem þeir geta flutt með sér", munuð þið segja. Já, þau eru ekki eins og húsin sem þið búið í. Þau eru ekki annað en tjöld ofin úr úlfaldahári. Er það ekki hyggilegt af þeim að hafa þannig löguð hús, þegar þeir lifa aðeins á hjörðum sínum? Á sama hátt lifði Abraham. Kannist þið ekki við það? Þeir sem lifa á þennan hátt, segjum vér að lifi hjarðmannalífi. Slíkar þjóðir þurfa ekki að hafa mjög mikið fyrir að lifa, og hafa því ekki eins víðtæka þekkingu og menntun eins og þær þjóðir, er hafa fasta bústaði, og stunda akuryrkju og iðnað. Arabar eru því yfirleitt lítt menntaðir. Sjálfir kalla þeir sig „Beduina", þ. e. „börn eyðimerkurinnar".

Eyðimörk Arabíu er mjög kunnug frá biblíunni. Hún liggur bæði sunnað og austan að „Landinu helga", svo að allt af er farið yfir hana, þegar komið er landveg austan úr Asíu. Um hana liggja því margir vegir. Abraham ferðaðist yfir hana, þegar drottinn kallaði hann til „Fyrirheitna landsins". Eleasar þjónn Abrahams þurfti að fara yfir hana er hann fór að sækja konu handa Jakob. Á ferðum þessum eru úlfaldar hafðir, því þeir þola svo vel bæði hungur og þorsta. En svangir og þyrstir hljóta þeir að vera, þegar þeir eru búnir að ferðast í marga daga og hafa máske hvorki bragðað þurt né vott. Haldið þið ekki það? Það hélt Rebekka að minnsta kosti, þegar hún sagði við Eleasar: „Líka skal ég vatna úlföldum þínum". Annað hvort hefir hún Rebekka verið í dýraverndunar félagi, eða hún hefir verið mjög góð stúlka, og miskunsöm við skepnur. Hvað haldið þið?

Drotningin af Saba, sem kom til Salómons, var sunnan af Arabíu. Hún hafði frítt föruneyti, og „úlfalda, sem báru ilmjurtir og gull næsta mikið, og dýra steina". Af því má sjá að Arabía er auðugt land.

Þráðbeint suður af Dauðahafinu, á tanga, sem gengur út í Rauða-hafið, stendur fjallið Sínaí. Þar sá Móses þyrnirunninn sem „logaði en brann ekki". Um þann stað sagði drottinn. „Tak skó þína af fótum þér, því sá staður, sem þú stendur á, er heilög jörð". Því hafa Arabar þann sið enn í dag, að „taka af sér skó sína", er þeir setjast að eða hafa guðrækilegar athafnir um hönd: svo þeir „saurgi ekki jörðina".

Á þessari eiðimörk voru Ísraelsmenn þau fjörutíu ár sem þeir vegna óhlýðni sinnar fengu ekki að taka bústað í „fyrirheitna landinu".

Eyðimörk Arabíu geymir því margar fornar endurminningar. Og Arabar hafa þær í líkum heiðri og við höfum endurminningu forfeðra vorra.

Arabar eru kaupmenn miklir; ferðast þeir víða um með stórar úlfaldalestir og selja

ýmsan varning. Þið minnist þess, að bræður Jóseps seldu hann kaupmönnum, sem komu austan úr Asíu og voru á leið til Egyptalands. Þetta var altíða þá, því Egyptar smurðu lík manna, og smyrslin þurftu þeir að fá frá Asíu. Ætli þessir kaupmenn hafi ekki verið Arabar? Það geta raunar hafa verið aðrir. Það gerir ekki svo mikið til hvort var; kaupmenn voru þeir. Máske þið hafið gaman af að komast eftir, hverrar þjóðar þeir voru?

Að síðustu skulu dregin fram fáein einkenni Araba.

Arabar eru komnir frá Sem, er var sonur Nóa. Margir af þeim telja líka ætt sína til Abrahams, þ. e. til Ísmaels sonar hans, en ekki Ísaaks. Þeir eru nafnkendir fyrir hreysti og hugrekki, gestrisni og haldinyrði. Alt slíkt eru ágætir kostir. Þeir eru stórlundaðir og vilja ekki vera undir aðra gefnir; lifa flestir hjarðmannalífi, eins og áður er getið; skiftast í marga ættliði og flokka, en yfir hverjum flokki stendur höfðingi. Hann er nefndur *sjík* eða *emír*. Nokkrir af þeim stunda akuryrkju og hafa fasta bústaði. Iðnaður er lítill hjá þeim. Arabar eru mjög einkennilegir í allri háttsemi, bæði að klæðaburði og heimilisháttum. Trú þeirra heitir *Íslam* og styðst við kenningu Múhameðs.

Ekki má gleyma að geta þess, að Arabar eiga þá stærstu og fallegustu hesta sem til eru. Þeir kunna líka að því að fara með þá. Aldrei berja þeir þá með svipum, heldur tala við þá eins og við mann. Beizlismélin vefja þeir í ullu, svo þau særi ekki. Engir fara eins vel með hestana sína og þeir. Þeir blátt áfram elska þá. En enginn fer illa með þann sem hann elskar. — Ég ætla að síðustu að segja ykkur ofurlitla sögu af arabiskum hesti: Eigandi hestsins var tekinn höndum af óvinunum. Þeir bundu hann á fótum, svo hann gæti ekki strokið, og hendur hans bundu þeir fyrir aftan bakið á honum, svo hann gæti ekki leyst af sér böndin. Hestinn bundu þeir einnig á fótunum. Að því loknu lögðu óvinirnir sig til svefns. Fanginn gat ekki sofnað. Hann átti konu og börn heima, og þráði að senda þeim hinstu kveðju sína. En hvernig átti hann fara að því? Honum kom ráð í hug. Hann mjakaði sér áfram, þótt hann kveldist áaflega af böndunum, þangað sem hesturinn hans stóð, og tók til að naga af honum böndin. Honum tókst það líka, og hesturinn stóð nú laus og liðugur frammi fyrir honum. Hann ávarpaði þá hestinn á þessa leið: „Vinur minn! Ég hefi alið þig upp og farið svo vel með þig sem kostur var á. Þú hefir líka borið mig og við höfum lifað blitt og strítt saman. Nú hafa óvinirnir tekið okkur að herfangi, og Allah (guð) einn veit, hvað þeir gera við okkur. Ég hefi nú leyst þig, og nú skalt þú fara heim til konu minnar og barna og flytja þeim hinstu kveðju mína, og vera þeim það sem þú varst mér. Vertu nú sæll og tefðu ekki; óvinirnir kunna að vakna og þá er úti um okkur“. Það var eins og „blessuð skepnan skildi“, eins og segir í kvæðinu, það sem húsbóndi hans sagði; en honum var annað í huga. Hann beygði sig niður að húsbónda sínum, greip í lindann, sem hann, eins og allir Arabar, hafði yfir um sig, og hljóp með hann á stað í munninum. Þannig hljóp hann með húsbónda sinn alt hvað af tók yfir „hrauna-hrjóstur“, klungur og torfærur, þangað til hann kom að kofanum, þar sem þeir áttu heima. Þar lagði hann hann niður, heilan á hófi, fyrir fætur konu hans og barna, en sjálfur datt hann steindauður niður — sprunginn af mæði. Þannig lét þessi ágæta skepna lífið fyrir vin sinn.

Það borgar sig að fara vel með skepnurnar!

* * *

Nú hefir „Æskan“ lokið máli sínu, og nú megið þið gjarnan láta aftur bæði augu og eyru, og láta ykkur dreyma um Araba, úlfalda og tjöld og hesta o. s. frv. Fyrirgefið frásöguna, þótt hún sé barnaleg. Það er „Æskan“, sem hefir sagt hana, og af henni má ekki heimta of mikið.

*S. V.*

---

**Saknaðarorð**

**eftir**

## Ingveldi Jónsdóttur.

**Fædda 10. okt. 1895 — dána 2. okt 1898.**

Æ, mér er ljúft að minnast þín,
mín litla dóttir kær,
því unun varstu augum mín
með æskubrosin skær.

Þú liggur köld og liðinn nár
mín litla bæjarrós. —
Því ber ég votan vanga' og brár
mín von og augnaljós.

Í minni ástúð er mér þín;
orðtak var jafnan þitt:
„Taktu nú, blessuð mamma mín,
mig, litla barnið þitt“.

Nein sorg ei framar særa má
saklausa hjartað þitt.
Hann, sem blessaði börnin smá,
nú barnið annast mitt.

Sú hugsun léttir harmi af,
á himnum þig ég finn. —
Drottinn tók og drottinn gaf,
drottins er vegsemdin.

*Móðirin.*

* * *

Móðir Ingveldar sál. gaf henni „Æskuna“, frá því hún kom út; þótti henni svo gaman að lesa hana og var svo þakklát við mömmu sína fyrir hana, að móður hennar langaði til þess að setja þessi saknaðar-erindi einmitt í „Æskuna“.

---

## Gamla hríslan.

(Niðurl.)

Nú fór Gísli að hamast á að berja hrísluna með sleggjunni. Börkurinn hrundi utan af henni í stykkjum og hún marðist öll að utan. „Þú átt að berja á hlykkina á henni, svo hún réttist!“ sagði presturinn. Gísli gjörði það, en hríslan var jafn bogin og kræklótt eftir sem áður.

Gísli var orðinn staðuppgefinn og svitinn rann af honum. Börnin stóðu og horfðu á. Þau hlógu sig fyrst alveg máttlaus, en pabbi þeirra var alvarlegur og stökk ekki bros. Gísli varð brátt illur í skapi yfir þessu og tautaði eitthvað fyrir munni sér við hvert högg — ég held að það hafi verið eitthvað ekki fallegt.

„Nú er bezt að hætta, Gísli“ sagði presturinn loksins. Gísli lét ekki þurfa að segja sér það tvisvar; hann fleygði sleggjunni, þurkaði svitann framan úr sér á skyrtuerminni sinni og sagði: „Skárri er það nú skorpan! ég held að fólkið sé orðið hringlandi bandvitlaust!“ „Heyrið þið, Gísli og Björn“ sagði prestur við vinnumenn sína, „takið þið nú kaðlana þarna, vefjið þeim utan um hrísluna og reirið hana þangað til hún réttist, fyrst hann Gísli gat ekki rétt hana.“ „Hvaða vitleysa er þetta!“ sagði Björn, ég er ekki viss um að ég sé skyldur að hlýða þessu. Þeir tóku samt. til starfa, reirðu hrísluna alla í böndum, spyrntu í hana með fótunum og toguðu af alefli í langan tíma, en það var til

einskis; hríslan var jafn bogin eftir sem áður.

„Ég held að það sé nú bezt að hætta“, sagði presturinn loksins; „en hvernig lízt ykkur á, börnin mín?“ sagði hann við Hallgrím og Þóru. „Ég veit ekkert hvað þetta á að þýða“, sögðu þau bæði í einu hljóði. „Það er ómögulegt annað en að þú skiljir það, Hallgrímur“, sagði prestur. „Svona vildir þú fara með hann Láka gamla í gær. Hann er alveg eins og þessi gamla hrísla; hún hefir vaxið með þessum hlykkjum og krókum og hún verður ekki rétt með höggum eða böndum. Láki hefir vanist á ýmsa ósiði af því hann hefir ekki verið eins gæfusamur og þú, að alast upp hjá góðu fólki; en þetta verður ekki vanið af honum með hörku. Það mætti ef til vill rétta gömlu hrísluna með því að setja við hana stoðir, binda þær við hana og herða á böndunum smátt og smátt; þá gæti hún lagast með löngum tíma. Það mætti líka óefað venja Láka gamla af því að drekka, ef hann væri hjá góðu fólki. Nú ætla ég að láta hann vera hjá mér framvegis, og þið eigið að hjálpa til þess að laga hann, gera hann að reglumanni“. Hallgrímur starði á föður sinn og honum vöknaði um augu. Hann bað hann að fyrirgefa sér það, hvernig hann hefði farið að við hann Láka og lofaði að bæta það alt. Hann efndi vel það loforð. Láki var mörg ár hjá prestinum og Hallgrímur gerði alt sem hann gat honum til góðs. Eftir nokkurn tíma var hann orðinn reglumaður og það hefir hann verið síðan. Hann er núna sýsluskrifari þar í sýslunni og stendur ágætlega í stöðu sinni“. Nú var séra Árni búinn með söguna og börnin fögnuðu henni með lófaklappi. Svo var farið að dansa. Dóri var ekki vanur að hugsa um annað en dansinn við þess konar tækifæri, en nú gat hann ekki annað en verið að hugsa um söguna hans séra Árna og horfa á myndina. Hann mundi eftir mörgum gömlum mönnum, sem voru líkir Láka; þeir höfðu komið heim til pabba hans og Dóri hafði einmitt hlegið að þeim alveg eins og Hallgrímur. Honum datt það í hug, að hann ætti nú líka að líkjast honum í því að hætta þessu og bæta það.

Nú endaði dansleikurinn. Þau fóru heim systkinin og létu vel yfir skemtuninni; svo leið og beið. Næsta sunnudag kemur Dóri til systur sinnar og biður hana að koma með sér í barnastúkuna. Hún varð alveg hissa. Hann hafði altaf afsagt það, og hún hefði fyrir löngu verið komin í hana annars. Þau gengu inn bæði systkinin og foreldrar þeirra fóru á eftir. Nú eru liðin mörg mörg ár síðan. Þau hafa altaf verið í félaginu og hafa fengið margan mann til þess að ganga í það og hætta að drekka.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

---

# Í kirkjugarðinum.

[Niðurl. frá nr. 3.—4]

„Eigum við þá ekki að halda áfram, ef þér ætlið að koma heim?“ sagði litla stúlkan. Svo gengum við stundarkorn og ég leiddi hana. Ég spurði hana um ýmislegt heima hjá henni, en hún vildi ekki svara því. Hún horfði á mig í hvert skifti, sem ég spurði hana, með fallegu, bláu augunum sínum, rétt eins og hún vildi segja: „Hvaða dæmalaust erum þér forvitinn!“ Ég heyrði það á henni og sá, að hún vildi helzt koma í veg fyrir það að ég kæmi heim, og mig grunaði, að einhvern veginn mundi vera þannig ástatt, að ekki væri með öllu ófróðlegt að sjá það.

Þegar við komum að kofadyrunum sagði hún: „Það er orðið svo framorðið, að ég er hrædd um, að farið verði að hátta“. Ég heyrði einhvern hávaða inni fyrir og vildi

ógjarna snúa aftur við svo búið; en ég vissi ekki, hvað ég átti að gera mér til erindis, þar sem ég var alveg ókunnugur.

„Hvern viljið þér annars finna?“ sagði litla stúlkan; „á ég að kalla á hana fóstru mína fyrir yður?“ Ég vissi ekki, hverju ég átti að svara; ég hafði satt að segja ekkert erindi. „Ónei, barnið mitt“, sagði ég eftir nokkra umhugsun; „ég ætla að koma inn með þér“. Það var auðséð, að henni var ekki um það, en hún lét það þó vera svo. Ég gekk á eftir henni inn löng og dimm og lág göng, og loksins sagði hún mér að beygja til hægri handar; þar lauk hún upp hurð og við komum inn í baðstofu — en hún var léleg baðstofan sú! Það voru reyndar ekki svo mjög húsakynnin, sem mig fýsti að sjá, heldur fólkið, sem þar átti heima.

Miðaldra kona sat á rúmi, hélt á barni í fanginu, var að prjóna sokk, reri áfram og raulaði fyrir munni sér vísu þessa:

„Sofðu, litla sælan mín:
svefn er öllum friður;
guð á himnum gæti þín,
guð, sem alla styður“.

„Hér sé guð!“ sagði ég þegar ég kom inn í baðstofuna. Konan hrökk við og svaraði mér lágt, en þó blíðlega. „Fyrirgefið“, sagði ég enn fremur; „ég fylgdi litlu stúlkunni heim ok kom inn með henni; fyrirgefið, að ég gekk inn svona óboðinn“. Það gerði ekkert til“, svaraði hún lágt. Ég litaðist um í baðstofunni og sá að fyrir ofan hana í rúminu lá maður hálfsofandi í fötunum; var hann sýnilega ölvaður og hafði annað hvort fleygt sér upp í rúmið sjálfur eða verið látinn þar af öðrum. Ég var stutta stund þarna inni, en tók betur eftir öllu en ég hefi gert annarsstaðar, þótt ég hafi komið þar oft og verið þar lengi. „Verið þér sælar“, sagði ég við konuna, og svaraði hún því vingjarnlega. „Og vertu sæl, góða mín“, sagði ég við litlu stúlkuna og tók í höndina á henni. Hún svaraði mér í hálfum hljóðum og mér sýndist það á henni og heyrðist það á röddinni, að hún vildi nú ógjarna láta mig fara.

Það var einkennilegt heimili þetta. Húsbóndinn lá útúrdrukkinn uppi í rúmi og konan sat fyrir framan hann, en var þó að sjá glöð og kát. Hún var lagleg, greindarleg og geðsleg að öllu leyti, en það var auðséð, að eitthvað gekk að henni, þótt hún léti ekki á því bera. Ég þekti hana ekkert, hafði aldrei séð hana fyr, en ég kendi í brjósti um hana. Ég fór að hugsa um það, að líklega gengi nú ekkert að henni annað en það, að maðurinn hennar væri drykkjumaður. Ég hafði oft átt í deilum við bindindismenn; ég var ekki drykkjumaður og ekki bindindismaður; ég þóttist vera góður fyrir minn hatt, en ekki þurfa að skifta mér af öðrum. En það var eins og öllum þeim orðum, sem bindindismennirnir höfðu talað við mig, væri nú hvíslað að mér, og þau höfðu svo djúp áhrif á mig; alveg þvert á móti því sem áður hafði verið. Þeir höfðu sagt mér frá mörgum konum og mörgum börnum, sem ættu svo bágt af því menn þeirra og feður væru drykkjumenn; en ég hafði ekkert skift mér af því; ég trúði því tæpast. Nú breyttist þetta alt. Litla stúlkan í kirkjugarðinum hafði orðið til þess að ég fór alvarlega að hugsa um þetta mál, og ég einsetti mér að verða bindindismaður og reyna að fá sem flesta drykkjumenn til þess að verða það líka, og ég ætlaði að byrja á fóstra litlu stúlkunnar. Daginn eftir gekk ég mörgum sinnum fram hjá kirkjugarðinum og ætlaði að sjá hana, en hún var þar ekki. Loksins þegar klukkan var 9 um kveldið, gekk ég þangað, og þá sá ég hana hjá leiðinu hans Óla. Ég fór inn í kirkjugarðinn og heilsaði henni og nú var hún ekki hrædd við mig eins og síðast. Ég spurði hana, hver maður-

inn hefði verið, sem hefði legið drukkinn uppi í rúminu í gærkveldi. „Það var hann frændi minn", svaraði hún. Ég spurði, hvort hann væri oft svona drukkinn, og kvað hún hann vera það nálega á hverju kveldi. Hún sagði að hinir og aðrir væru stundum heima hjá honum að drekka og að hann væri oft vondur við sig og hana fóstru sínu, þegar hann væri drukkinn, en alt af ósköp góður annars. „Helðurðu ekki að þér þætti gott ef hann hætti að drekka?" spurði ég. „Jú", svaraði hún; „en ég held að hann geri það ekki", bætti hún við og var gráthljóð í röddinni. Þegar við höfðum lokið talinu, fylgdi ég henni heim og bauð henni góða nótt.

Nú fór ég að spyrjast fyrir um þennan mann og frétti að hann héti Páll og hefði verið allra efnilegasti maður, en vondir menn hefðu komið honum til að drekka, og síðan mætti heita að hann væri eyðilagður og heimilið hans. Ég komst brátt í kynni við hann og féll okkur vel saman að mörgu leyti. Ég var sjálfur orðinn bindindismaður og reyndi af öllum mætti að fá hann til þess að verða það líka, en það gekk seint. Eftir misseri tókst mér það þó, og þarf ég ekki að segja ykkur hversu það gladdi mig og alla vini hans, og einkum þegar ég get bætt því við, að síðan eru liðin 14 ár og hann hefir verið einn af beztu bindindismönnum allan þann tíma. Sæla og gleði ríkir nú á heimili hans í staðinn fyrir sorg og leiðindi. Litla stúlkan, sem ég fann í kirkjugarðinum, er gift kona núna, ein af efnilegustu konum í Reykjavík, og hún er mér dæmalaust þakklát fyrir það, að ég kom honum frænda hennar í bindindi, „því annars hefði hann líklega orðið að láta mig í burtu og ég verið flutt á sveitina", segir hún, „en þá er óvíst, hvernig farið hefði". Hún hafði mist báða foreldra sína kornung, en þessi frændi hennar hafði tekið hana.

Þessi saga er mér sögð af manni, sem hér á heima; ég hefi að eins fært hana í letur, og hún er alveg sönn að aðalefninu.

*Sig. Júl. Jóhannesson.*

---

# Bœnin.

KONAN leit áhyggjufull út um litla gluggann á fátæklega húsinu sínu. Úti fyrir glugganum voru 5 börn, sem rendu sér eftir svellunum. Ó, að börnin mín gætu alt af verið svona kát, hugsaði móðirin. Maðurinn minn fær enga vinnu og engin björg er til. Guð gefi að þetta nýja ár, sem byrjar á morgun, verði gleðilegra en árið, sem er að enda. Fái Árni minn vinnu strax eftir nýárið, getur það orðið gleðilegt, en annars deyjum við úr hungri eða förum á hreppinn. Svona hugsaði veslings konan. Og hún tók að biðja guð: „Faðir, miskunna þú oss, þú hinn alvaldi allsherjar drottinn, þú sem öllu stjórnar. Varðveit þú oss, himneski faðir. Amen". Í þessu komu börnin inn, og fóru strax að biðja mömmu sína um brauð. — „Brauð; gefðu okkur brauðbita", sögðu þau; „við erum svo svöng". Hún átti dálítinn brauðbita og skifti honum á milli þeirra; en sjálf borðaði hún ekki neitt. Árni kom heim um kveldið og hafði enga vinnu fengið. Það var sorglegt fyrir hjónin, að hugsa til nýársdagsins. — Þegar börnin voru öll sofnuð, báðust foreldrarnir fyrir heitt og innilega, heitara en nokkru sinni áður. Þau sofnuðu síðan fast og sváfu vært alla nóttina. Þegar þau vöknuðu um morguninn, báðu þau að guð vildi vera sér náðugur, svo þau gætu upp alið börn sín sem bezt, svo að þau, þegar þau dæju, fengju öll að sjást á himnum og samfagna þar. Þegar þau voru komin á fætur, var barið að dyrum. Árni fór til dyr-

anna. Maðurinn, sem kominn var, var mjög góðlegur að sjá. Hann bað Árna að þiggja af sér lítilfjörlega gjöf og fékk honum 10 króna seðil. Árni sagði konu sinni frá gjöfinni, en hún ætlaði ekki að trúa því fyr en hann sýndi henni gjöfina. Og hún þakkaði guði innilega fyrir gæzku hans.

Þegar börnin vöknuðu, báðu þau mömmu sína um mat. Hún klæddi þau fyrst og gaf þeim svo nóg að borða. Mikið var hún glöð af að þurfa ekki að láta aumingja litlu börnin sín vera svöng. Guð hafði bænheyrt hjónin. Árni fékk vinnu eftir nýárið og þau höfðu alt af nóg eftir þetta, og litlu fátæku börnin eru nú orðin fullorðin og vel gift. Þau hafa tekið mörg umkomulaus börn og alið þau upp í guðsótta og góðum siðum, og aldrei hefir neinn þurft að líða nauð í þeirra húsum.

*Jóhanna Jensdóttir.*

* * *

Höfundurinn er á 12. árinu. — *Ritstj.*

## Barnavísur.

Fölnuð er nú fjólan
með fagra litinn sinn,
og líka Baldursbráin,
sem bjó við gluggann minn.

Fönnin köld þær felur
og fagra grasið alt,
af því að enn er vetur
og úti veðrið kalt.

Bráðum blessuð sólin
mun bræða allan snjó,
og svo sprettur aftur
af ungum blómum nóg.

Litlu börnin leiðast
og leita' að blómum þá,
og finna bæði fjólu
og fagra Baldursbrá.

Lömbin ung sér leika
þá líka til og frá,
og sjúga mömmur sínar
og sofa blómum á.

---

Æfivorið ykkar,
mín elsku börnin smá,
beztu blómin prýði,
sem blómgast jörðu á.

*J. J.* + b.

---

*Kennarinn:* „Hvar varstu í gær, Jens?“
*Jens:* „Ég var veikur“.
*Kenn.:* „Hvað gekk að þér?“
*Jens:* „Ég hafði tannpínu“.
*Kenn.:* „Er þá engin verkur í tönninni núna.
*Jens:* „Ég veit það ekki.“
*Kenn.:* „Hvað segirðu? veistu það ekki?“
*Jens:* „Nei, hvernig á ég að vita það, læknirinn tók úr mér tönnina í gær“.

---

*Kennarinn:* „Hvað gerði Nói á meðan dýrin gengu inn í örkina?“

*Drengurinn:* „Hann tók við aðgöngumiðunum“.

---

**Ráðning á gátunum** í 16.—17. tbl. Æskunnar:

I. á höfuðið.

II. koddinn.

**„Æskan“**
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun 1/4, ekki gefin af færri en 3 eintökum.

Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

**Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur mót borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 8. júlí 1899. | **20. tbl.**


## Með myndinni

Það er víðar en hér á landi, sem litlar stúlkur sitja yfir kúm á sumrin.

Þessi mynd er einhverstaðar utanúr heimi þar sem vaxa svo stór tré, að maður getur setið í forsælu þeirra og lesið sér til skemtunar. Kýrnar, sem þið sjáið á myndinni eru líklega vanar að liggja úti, í öllu falli á að mjólka þær úti, því mjólkurföturnar standa rétt hjá þeim, og ef til vill er komið mál að mjólka, en stúlkan er svo sokkin ofan í að lesa í bókinni sinni, að hún tekur ekki einusinni eftir piltunum, sem standa fyrir framan hana og eru líklega að tala um hana, því annar bendir á hana. Það er nú skelfing gaman að sitja úti í góðu veðri og lesa í fallegri bók. Hafið þið aldrei legið úti í brekku á sumrin með sögubók, þegar alt er þakið í blóðbergi og ljónslappa og reyrlyktina leggur langar leiðir. Ef þið hafið gjört það, þá hafa ykkur víst þótt sögurnar enn þá fallegri en endranær, og þið hafið víst haldið að það svæfi álfur í hverju blómi og að hver klettur sem þið hafið séð væri kóngssonur í álögum. Máske nú að drengurinn á myndinni þeirri arna sé kóngssonur, en í álögum er hann ekki, því hann er alveg einsog aðrir velbúnir drengir. En sé hann kóngsson, getur vel verið að litla stúlkan, sem situr þarna yfir kúnum verði einhverntíma drotningin hans og segi honum þá sögurnar, sem hún las þegar hún sat yfir kúnum. Hver veit nema að þær séu einmitt um það, að konungur eigi að vera góður og réttlátur.



## Fiðurhólmarnir.

Eftir Zak. Topelius.

LANGT úti í Botniska flóanum, nærri því miðja vegu milli Svíþjóðar og Finnlands, liggja ofurlitlar hvanngrænar eyjar, sem heita Fiðurhólmarnir. Þar er svo ljómandi fagurt. Það þykir víst ótrúlegt, að langt úti á hinu ólgandi hafi, þar sem öldurnar eru eins stórar eins og hús og skipin farast á haustnóttunum, að þar væru svona yndislegar, grænar eyjar, sem byðu sjómanninum vingjarnlegt lægi. Þar blása engir stormar og öldurnar ókyrrast aldrei, og þar flögrar aldrei einmana máfur yfir brimlöðrinu. Ljúfur friður hvílir yfir öllu. Vindarnir hvíla og öldurnar sofa, fuglarnir syngja lágt og blítt, og tunglsljósið, skínandi bjart eins og gull, leikur um blómin og trén, sem teyga döggina í kvöldblænum.

Þeim, sem velkist um ólgusjó lífsins á litlu kænunni sinni, þykir ljúft að fá loksins að hvílast við hinar fögru strendur Fiðurhólmanna. En margir leita þeirra árangurslaust og öldurnar kasta fleyi þeirra til og frá, svo þeir finna þá aldrei. Margir gæfu gull og græna skóga til þess að geta fundið þessar unaðsríku eyjar, en þó hverfa þær sjónum hans djúpt, djúpt niður í hafið.

Því þessu er svo undarlega varið með Fiðurhólmana. Enginn stýrimaður er svo vel að sér, þó hann hafi siglt umhverfis alla veröldina, að hann geti fundið Fiðurhólmana um hábjartan daginn, þegar sólin skín og menn og dýr vinna af öllum kröftum. En sé hann orðinn þreyttur af að vaka og vinna, geri bæn sína, leggist niður í bátinn sinn og láti svo strauminn bera sig hvert sem hann vill, þá kemst hann þangað eins vissulega eins og að hann stýrði eftir uppdrætti og áttavita. Því vegurinn til Fiðurhólmanna liggur eftir þremur farvegum, sem ekki standa á neinu sjóbréfi, og þeir heita *farvegur vinnunnar, fjörður heilsunnar,* og *höfn góðrar samvizku.*

Það ber oft við, að hin síðast nefnda leið er sú eina, sem fær er til Fiðurhólmanna, og þangað leita margir sjúkir og sárþjáðir, þegar þeir hafa góða samvizku. Þar fyrnast allar þeirra sorgir og þeir halla sér út af eins og góð börn í skaut móður sinnar.

Þetta má virðast mjög undarlegt, og þú heldur máske, að þessir hólmar séu alls ekki til. En þeir eru til eins sannarlega eins og sólin kemur upp á hverjum morgni, en rennur til viðar á hverju kveldi yfir vonda og góða. Spurðu öll góð börn að þessu og þau munu segja þér að Fiðurhólmarnir séu til. Það er ómögulegt að segja einmitt hvar þeir eru, því það er með þá eins og sagt var um eyjuna Gottland, að hvern morgun, þegar haninn galar, síga þeir með allri sinni dýrð niður í hafið, en á hverju kveldi, þegar skuggarnir lengjast og stjörnurnar tindra á himninum, rísa þessir leyndardómar hafsins aftur úr skauti þess; þá synda þeir dúnléttir á fagurgljáum haffletinum, og af því hafa þeir öðlast nafn sitt, nema ske kynni að það væri eftir einhverju öðru.

Úti í hólmum þessum, inni í miðjum skóginum, þar sem alt er hljótt, heilagt og fult af leyndardómum, er hellir, sem er bygður úr kufungum og prýddur með öllu skrauti jarðarinnar, allri dýrð kveldroðans og öllum auðæfum hafsins. Þar blika skærustu stjörnurnar, þar ljóma fegurstu gimsteinarnir. Stígarnir eru úr kóröllum og salirnir eru skreyttir með perlumóður, en gullveggirnir spegla sig í gljáum silfurgólfum og loftið er úr skínandi kristöllum. Gluggarnir eru settir með mörgum þúsundum af alla vega litum gimsteinum, og niður úr loftinu hanga glitrandi demantar eins og skærustu ljós. Öll sumarsins inndælu blóm fylla loftið með sætum, mjúkum

ilm og ljúfur friður kemur yfir alla, sem anda honum að sér. En sterkastur er þó ilmur valmúunnar. Í blómgörðunum vex hún skrautleg og einföld, fögur álitum, en sálarlaus, en frá dimmrauðu, svartrákuðu blómkrónunum valmúunnar á Fiðurhólmunum berst yndislegur, deyfandi ilmur, sætari en sætasta hunang, langar leiðir.

Mörg hundruð, já, óteljandi salir eru í þessum fagra helli. Þeir eru allir háir og skinandi bjartir, en birtan er ekki hvít eins og dagsbirtan; hún er lík birtu stjarnanna og tunglsljósinu, er það fellur á spegilskygn vötn á næturþeli. Og í þessari ljúfu birtu sér maður alt, sem maður elskar, maður þekkir alla góða, gamla vini sína; þarna koma beztu vinir þínir á móti þér; þeir faðma þig að sér og bjóða þig hjartanlega velkominn, já, þó að þeir séu langt í burtu, úti við heimskaut, já, þó að þeir séu dánir og hvíli í eilífum friði, og þú hafir grátið þúsund tárum yfir gröfum þeirra, þá mæta þeir þér samt í þessum fagra helli; og þeir eru fagrir og unglegir og skinandi glaðir eins og sorgin og dauðinn hefði aldrei aðskilið ykkur. Þú tekur í hönd þeirra, þú kyssir þá og þér finst, að alt sé eins og áður fyrri. Og nú leikið þið aftur gömlu leikina ykkar. Fallegi boltinn, sem þú áttir þegar þú varst lítill og týndir einu sinni, hoppar nú miklu hærra en nokkru sinni áður. Brúðan, sem einu sinni voru brotnir af handleggirnir og höfuðið, fallega myndabókin, sem hún litla systir þín reif fyrir þér, þegar þú varst ekki heima, sleðinn, sem rann harðast af öllum sleðum, — alt er nú orðið spánýtt. Hver skyldi trúa slíkri hamingju, en svona er það nú samt.

Máske þú viljir fara að leika þér, en þarna eru leikirnir allir aðrir en þú ert vanur. Gullin hverfa alt í einu, og þú veitst ekkert hvað af þeim er orðið, en þegar minnst varir eru önnur gull komin í þeirra stað, og þú hefir ekki einu sinni tekið þau, heldur hafa þau komið sjálf. Svona koma líka og fara vinir þínir. Þú sjálfur ert alt í einu kominn úr einum staðnum í annan, en sé mikill asi á þér kemstu ekkert úr sporunum, annars er eins og að þú líðir í loftinu. Á meðan að þú ert að leika þér heima hjá þér, ertu líka búinn að læra það sem þér var sett fyrir í skólanum. Og meðan að þú rærð út á sjó margar mílur undan landi í ofurlitlum bát, ertu alt í einu farinn að klifra upp hátt fjall. Skólakennarinn er orðinn að litlum dreng, sem rekur kýrnar á beit, — og þú sjálfur ert lítill, og getur ekki hjálparlaust bundið skóþvengina þína, og þó ertu líka stór og gamall og átt mörg lítil börn. Þarna verður kýrin alt í einu að ketti, hesturinn að tré, og bókin þín að piparköku. Og þér þykir þetta ekkert undarlegt, þér findist það alveg náttúrlegt þó þú yrðir alt í einu sjö mílur á lengd og þúsund ára gamall.

Það er ótrúlega friðsælt og óskiljanlega fagurt á Fiðurhólmunum. En skamt þaðan eru Þyrnieyjarnar. Og þar lenda margir, sem stefna rangt í heiminum, og eru latir og hafa vonda samvizku. Þar er líka hellir, og hellismynnið sýnist líkt eins og á Fiðurhólmunum. Villast líka margir á því. En munurinn kemur brátt í ljós. Um Þyrnieyja hellirinn liggja hálar götur eftir grjóthörðu berginu. Veggirnir eru huldir myglu og þökin kóngulóarvef. Í staðinn fyrir rósabeði Fiðurhólmanna, er hér fullt af nettlum, lækirnir eru orðnir að beljandi fossum, og fuglakvakið að krákugargi. Þar er turn, sem manni altaf finst maður vera að detta niður af, og blaut mýri sem maður sekkur ofan í. Undarlegar og andstyggilegar verur ganga þar á höfðinu. Og í dimmu næturinnar ritar hvítur engill með logandi koli á veggina vondu verkin þeirra, sem eru óhlýðnir, fólskir, öfundssjúkir og þrætugjarnir.

Þú og ég, við viljum sannarlega ekki fara til Þyrnieyjanna og til frú Martraðar sem býr þar. Við viljum miklu heldur fara til Fiðurhólmanna, því að þar býr góður vinur okkar. Þar situr gamall öldungur við dyrnar; já, hann er orðinn svo gamall, að þegar Adam sofnaði í fyrsta sinn undir trjánum í Paradís, stóð gamli Matti við hlið hans, og breiddi ofan á hann rósaábreiðu. Hann hefir sitt skegg snjóhvítt, og er girður rauðu flauelsbelti. Síði hvíti kyrtillinn hans, bláu sokkarnir og gulu skórnir, er alt ofið úr silkimjúkum dún. Þegar hann réttir þér hönd sína er hún eins mjúk eins og fínasta baðmull, og þegar hann snertir augnalok þín langar þig svo dátt til að loka þeim. Ekkert er til eins yndislega mjúkt eins og rödd hans, þegar hann svæfir lítil góð börn við þytinn í laufinu og sönginn í fuglunum, og svo eru augun hans blíð, að hvað feimnar og mannafælnar sem litlu stúlkurnar eru, þá setjast þær samt í kjöltu hans og grúfa litla kollinn sinn við barm hans.

## Um lóu.

Oft gleður lóan litla oss ljúft á sumar tíð,
Þá dýrðarljóðin ljúfu hún lætur óma blíð.

Þó saklaus blítt hún syngi, ei sorglaus vera má,
því harmahvötin þunga og helga lífið þjá. —

Á lífsins ljósum morgni hún leið nú biturt mein,
svo saklaus ljúf og lítil var lögð af dauðans flein.

Ei röddin hennar hljómar svo hjartnæm skær og blíð,
hún aldrei sætt hér syngur á sumrin ljóðin þýð.

Þig kæra lóan litla við látum hvíla hér,
þú sætt og rótt nú sefur, ei sorgin grandar þér.

*Rebekka Pálsdóttir.*

### Konungur heimsækir skóla.

Óskari konungi í Svíþjóð, er mjög ant um það, að góðir skólar séu alstaðar í ríki hans. Hann kom fyrir nokkru síðan inn í barnaskóla og var í dularklæðum svo enginn þekti hann. Þetta var í sögutíma. Hann fór að spyrja börnin að ýmsu úr veraldarsögunni, meðal annars spurði hann þau hverjir hefðu verið mestir af konungum Svía. Eitt barnið sagði „Gustav Adolf“ annað „Karl tólfti“. Þriðja svaraði „Óskar annar“. Konungur snéri sér að barninu og sagði. Manstu eftir að hann hafi gjört nokkurt frægðarverk? Barnið kafroðnaði og vöknaði um augun, „ég man ekkert,“ svarði það. Konungurinn klappaði á kollinn á því og sagði: „Vertu ekki að gráta af þessu, það er ekki von að þú vitir það, ég veit það ekki heldur.“ — *Onward.*

Tóbaksbrúkun orsakar taugaveiklun og deyfir næmið og minnið. Börn geta orðið slagaveik af að reykja tóbak.

Hver er sá, sem aldrei sér sinn líka?

**☞ Kaupendurnir eru vinsamlega beðnir að borga „Æskuna“ svo fljótt sem þeir geta.** Útg.

**„Æskan“**
**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert Sölulaun $^1/_5$, ekki gefin af færri en 3 eintökum.**
**Ritstjóri:** *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*
**Þorv. Þorvarðarson** prentari, **ÞINGHOLTSSTR. 4** **annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.**
Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 15. júlí 1899. | **21. tbl.**

## Morgunstjarna.

**(Rússnesk frásaga).**

Það voru einu sinni hjón; þau áttu dálítið hús, sem þau bjuggu í og nokkra gripi. Kjallara og skemmu áttu þau einnig, þar sem þau geymdu matbjörg sína. Með elju og hyggindum höfðu þau dregið dálítið saman. Þau vöndu vinnuhjúin á dugnað og reglusemi, og sáu um að gripir þeirra hefðu nægilegt og gott fóður; og ekki leið svo nokkur vika af árinu, að þau létu hjá líða að vinna það sem þurfti. Þau létu sá og uppskera og bera inn í hlöður. Ekkert var vanrækt. En landeignin þeirra var lítil í samanburði við landeign nábúa þeirra.

Í vestri, þar sem sól gengur til viðar, voru margir kotbæir. En í austri lá stór þéttvaxinn skógur. Um hann lá enginn vegur, og enginn maður hætti sér inn í hann, ekki einu sinni til þess að safna viði; hann fékkst í smáskógum við læki og tjarnir í grendinni. Skógurinn var allur ógnarlega þéttur og gamall. Enginn vissi hvað hann var stór, eða hvernig umhorfs var inni í honum.

Eftir nokkura samvistar dvöl eignuðust hjónin barn. Það var ofurlítil dóttir. Þá sagði maðurinn við konu sína: „Nú verðum við vera enn sparsamari og iðnari, því nú vitum við fyrir hvern við erum að draga saman og hver á að uppskera ávöxtinn af vinnu okkar.“

Barnið var yndisfagurt. Öllum sem hún festi augu sín á varð svo undarlega létt um hjartaræturnar. Þegar hún rétti út höndurnar var enginn sá, er ekki væri reiðubúinn til að láta henni allt í té. Og sæi einhver hana koma til móts við sig, þá kepptist hann við að geta mætt henni á miðri leið.

Svo hafði það verið frá því hún var lítil, og þannig var það þegar hún eltist. Vinnuhjúin og allir sem gengu út og inn um húsið, reyndu í minnsta máta að sjá hana einu sinni á dag. Og þegar þeir litu hana, fannst þeim sem þeir sæi sjálfa sólina renna upp. Allir urðu svo hrifnir af henni, að fæðingarnafn hennar féll í gleymsku. Hún var aldrei nefnd annað enn Morgunstjarna.

Þegar Morgunstjarna var komin til vits og ára hugsuðu foreldrarnir með sér. Nú er tími til að fara að venja hana við vinnu; því hvað hjálpa eignir og velmegun, ef að maður hefur ekki þekkingu og dugnað á að viðhalda og afla meiru.

Það gekk líka mjög greitt að kenna Morgunstjörnu það. Allt sem hún átti að gjöra vann hún af hyggjuviti og reglu mikilli. Aldrei sást hún sleppa verki úr hendi, og engin heyrði hana kvarta um þreytu. Hún var búin að öllu áður en til var ætlast, og aldrei fannst misvilla í því sem hún gerði.

Þegar Morgunstjarna var orðin svo þroskuð að hún gat farið að vinna að útivinnu, þá var vinnuhjúunum stórgleði að komu hennar. En við þessa gleði var bundið atvik nokkurt, sem foreldrunum geðjaðist ekki að. Vinnuhjúin brostu til Morgunstjörnu og sögðu: „horfðu bara á okkur Morgunstjarna, þú ert drotning okkar, og við skulum með ánægju vinna verk þitt“. „Og áður en Morgunstjarna

gat komið fyrir sig nokkuru orði, var verkið hálfunnið.

Foreldrarnir þurftu þó ekki að vera óánægð yfir þessum aukaverkum, því hvar sem barnið þeirra kom, hvarf öll þreyta hjá þeim, sem sáu hana. Og á kvöldin kom það í ljós, að enginn hafði vanrækt verk sitt, allir höfðu unnið hálfu meira en ella og hafði þó sérhver tekið sinn hluta af verki Morgunstjörnu.

„Hún venst á iðjuleysi,“ sögðu þau sorgmædd, „og hjarta hennar fyllist drambi af öllu þessu eftirlæti.“

Þá er hugsun þessi hafði rutt sér til rúms í huga foreldranna, bættist þar á ofan, að ýmsir komu til að heimsækja þau.

„Ekki er það heldur holt að hafa þessa sífeldu leiki,“ sögðu þau. „Vinnan heimtar alvörugefni. Það eru ekki nýtustu mennirnir, sem fá unnið fyrirhafnarlaust. Þeir eru nýtastir, sem eru þolgóðir og hafa vald á sjálfum sér.“

Og þau áugruðust yfir því, að hafa ekki fyr vanið barnið sitt á alvörugefni.

Við hefðum aldrei átt að gefa það eftir, að hún væri kölluð morgunstjarna; sögðu þau. „Getur hún ekki þegar hún heyrir það, ímyndað sér að hún sé meiri en aðrir menn?“

Og foreldrarnir héldu að það væri bezt að neyða hana til þess að vera eins og aðrir menn.

„Þegar hún er nú orðin fullorðin stúlka, þá er rétt að hún læri að tala og hegða sér eins og stúlka af okkar stétt.

Að því búnu tók móðir hennar stóran búnka af hör og sagði henni að fara inn í spunaherbergið með hann, og spinna þar alein, þangað til hún væri búin með hörinn. Þetta var síðla dags, og því skamt til myrkurs, en það skíðlogaði á arninum.

Þegar síðasta dagsbrúnin hvarf af himninum, kom lítil mús upp úr rifu í gólfinu. Hún hljóp að rokknum, og upp í kjöltu Morgunstjörnu, sem leit ekki upp frá verki sínu, og sagði:

„Morgunstjarna, gefðu mér eitthvað að eta.“

Þá svaraði stúlkan:

„Ég vildi gjarnan gefa þér eitthvað að eta, en ég á ekkert til. Ég má ekki heldur fara út til að sækja þér eitthvað. En ef þú gerir þig ánægða með að eta af smjörögninni sem ég hef til þess að smyrja rokkinn minn með, þá gerðu það. Ég kemst af án þess.“

Músin þakkaði fyrir sig og át af smjörinu.

En á meðan hún var að eta, heyrðust ólæti mikil fyrir utan, og inn þrammaði stór björn. Hann gekk hægt inn eftir gólfinu og og beint að rokknum, leit stórum augum upp á stúlkuna og mælti:

„Komdu og leiktu blindingaleik við mig, „Morgunstjarna“.

Þá varð Morgunstjarna hrædd og hugsaði með sér:

„Æ, hvernig get ég komist burt frá þessum ljóta birni? Nái hann mér, þá rífur hann hold frá beini af höndum mínum og handleggjum, með löngu klónum sínum.“

Áður en hún hafði lokið hugsun sinni, sat músin uppi á öxl hennar og hvíslaði í eyra henni:

„Vertu ekki hrædd Morgunstjarna. Játaðu honum að þú skulir gera það. Slökktu síðan eldinn á arninum og seztu svo út í eitt hornið á bak við rokkinn. Ég skal hlaupa um í staðinn fyrir þig og hringja bjöllu, þá heldur björninn að hann heyri hringlið í bjöllunum í eyrnalokkunum þínum.“

Stúlkan herti þá upp hugann og sagði:

„Já, loðni björn, það vil ég gjarnan. Ég vil leika blindingaleik við þig. En ég verð fyrst að slökkva eldinn á arninum, svo þú sjáir mig ekki. Farðu burt á meðan.“

Björnin fór þá yfir í annan endann á her-

berginu, en stúlkan slökkti eldinn, bar rokkinn út í horn og settist bak við hann.

Nú byrjaði músin að hringja með lítilli bjöllu og björninn þrammaði þangað með miklum flýti. Þá vatt músin sér yfir í hinn endann. Þar hringdi hún aptur og björninn brokkaði þangað. Músin var léttfær og liðug í snúningum. Björninn stirður og seinfær.

Músin hringdi ávalt rétt fyrir framan björninn. Hún var kát og fjörug; hann varð meira og meira þreyttur.

„Ég næ þér samt, ég næ þér samt, Morgunstjarna", sagði björninn, og beitti ýtrustu kröftum sínum.

Hver tíminn leið eftir annan. Klukkan sló tólf. — Morgunhaninn byrjaði að gala. En alltaf hljóp músin um kring. Hún hljóp inn-undir björninn, og björninn stökk yfir hana. — Músin var um alt, stundum uppi, stundum niðri. Bjöllur hringdu hér og bjöllur hringdu þar. Það var því líkast sem að alsstaðar hljómuðu bjöllur í einu.

„Nú gríp ég þig, Morgunstjarna", sagði björninn og hljóp til vinstri.

Þá hringdi músin til hægri.

Björninn fékk svima af öllum þessum hringsnúningi. Að lokum rasaði hann og datt niður máttlaus af mæði.

„Þetta er nóg, Morgunstjarna", mælti hann. „Þú hefir yfirunnið mig í blindingaleiknum.

Þá kendi stúlkan í brjóstum björninn, kom út úr skotinu og blaktaði að honum klútnum sínum til þess að reyna að kæla hann.

Björninn andvarpaði.

„Æ, þetta kælir mig ekki hót, þú mátt til að draga af mér feldinn."

„Hvernig á ég að daga af þér feldinn"?

„Hérna. — Þú skalt byrja á vinstra hramminum."

En naumast hafði Morgunstjarna snert bjarnarfeldinn loðna með fingrunum, fyr en um þau ljómaði mikil birta svo hún varð að láta aftur augun.

En þegar hún opnaði augun aftur, — í höndina á hverjum hélt hún þá, — og hver hélt í höndina á henni?

„Við erum í höllinni okkar", sagði kongssonurinn, sem stóð frammi fyrir henni, með hýru yfirbragði. „Þú hefir leyst mig úr álögum og heillað skóginn í burtu. Nú skalt þú verða drottning í ríki mínu. Þú skalt aka í gyltum vagni þvert um landið og uppörfa þjóna mína með blíða augnaráðinu þínu, svo að dagsverk þeirra verði þeim leikur, og hvergi heyrist kvörtun, andvarp eða hatursfult orð. Ég hefi sent foreldrum þínum marga hesta og tólf vagna með höfrum til endurgjalds fyrir þig".

Morgunstjarna ríkti nú með manni sínum í því volduga konungsríki, sem lá fyrir austan landeign föður hennar, þar sem rökkurskógurinn ógurlegi hafði verið.

Og í hvert sinn sem hún ók í gylta vagninum gegn um ríki manns síns, nam hún litla stund staðar við barndóms-stöðvar sínar og heilsaði eins og áður, foreldrum sínum og öllum með vinsamlegu brosi. Og foreldrar hennar fögnuðu yfir hamingju dóttur sinnar.

En fyrsta stjórnarskipunin, sem hún bað mann sinn að gefa út var sú, að hengdar yrði bjöllur um hálsinn á öllum köttum í ríki hans.

Kongssonurinn brosti og mælti: „Það mun vera til þess að kettirnir leiki ekki blindingaleik við mýsnar?"

Og er Morgunstjarna hneigði sig til samþykkis, kysti hann hana blíðlega, og uppfylti ósk hennar.

Þess vegna verða kettirnir í því ríki að láta sér lynda að lifa á mjólk og brauði. Mýs fá þeir með engu móti.

*S. V.* þýddi

## Stína litla og lóuhreiðrið.

Ég fór á dögunum að heimsækja kunningjakonu mína, sem býr uppi í sveit. Hún heitir Guðrún. Bærinn hennar heitir Hóll og stendur undir háum klettum, grasivöxnum að ofan. Þegar ég var lítil hefði ég víst haldið að þar ætti heima huldufólk, en nú er ég orðin stór og alveg hætt að trúa huldufólks sögum. Stína litla kom inn til mín kvöldið sem ég kom og heilsaði mér með kossi. Hún sagðist vera á sjötta árinu og þekkja alla stafina. Svo sagðist hún eiga eina brúðu, en hún væri nú samt handleggsbrotinn, en svo ætti hún nýjan kjól með rauðum hnöppum á, sem hún hefði fengið á páskunum, og hann skyldi hún sýna mér á morgun, en svo vissi hún líka af nokkru, sem hún gæti sýnt mér á morgun, ef hún vildi. Ég sagðist ætla að fá að sjá þetta alt á morgun, og svo fórum við að sofa.

Morguninn eftir sýndi hún mér brúðina sína og kjólinn sinn, hún var kafrjóð af gleði yfir kjólnum sínum, nærri því eins rauð eins og hnapparnir, brúðuna fanst henni ekki eins mikið til um af því að hún var handleggsbrotin. Svo fór ég nú að spyrja hana hvað hitt væri, sem hún hefði ætlað að sýna mér. Já, hún sagði, að þá yrði ég nú að koma ofan í móa með sér. Svo fór Stína litla og ég ofan í móa langt fyrir neðan bæinn, en hún var svo létt á fæti og hoppaði á þúfnakollunum. „Hérna skal ég sýna þér nokkuð“, sagði hún, „en þú mátt ekki snerta það.“ Svo sýndi hún mér lóuhreiður með fjórum eggjum í. „Þú mátt ekki snerta eggin aumingja litlu lóunnar“ sagði hún, „það eru börnin hennar. „Hver hefir sagt þér þetta“ spurði ég, „það hefir mamma sagt mér“ sagði hún, „hún sagði mér það í fyrra einusinni, því þá tók ég lóuegg og kom heim með það og bað hana að sjóða það fyrir mig, en mamma sagði mér að nú gréti aumingja litla lóan af því ég hefði tekið barnið hennar, og að nú syngi hún aldrei oftar fyrir mig, og svo syngi aldrei litla lóan, sem hefði átt heima í egginu, nú fengi hún aldrei vængi til þess að fljúga með, og fengi aldrei að sjá blessaða sólina. Svo sagði hún að ég mætti aldrei taka egg frá neinum fugli oftar. „Þú tekur víst aldrei eggin úr hreiðrunum fuglanna“ sagði hún við mig. „Ég sagðist aldrei gjöra það, því mér þætti svo óskö̈p vænt um blessaða fuglana og mér þætti svo yndislegt að horfa á þá og heyra þá syngja“. Ég bað Stínu litlu að segja öllum börnum, sem hún sæi, frá þessu, sem hún mamma hennar hefði sagt henni, og ég lofaði henni að segja öllum börnum frá því; og nú ætla ég að biðja ykkur að segja líka öllum frá því.

### Nytsamar hugleiðingar.

Þó ég drekki *lítið* getur samt skeð að það komi mér til þess að drekka of mikið. Ég er ekki óhultur með neinu öðru móti en að *bragða ekki vín.*

Þó ég drekki *lítið* getur skeð að það komi þeim, sem eru drykkfeldari eða þrekminni en ég til þess að drekka meira. Vilji ég gefa öðrum eftirdæmi sem ég er viss um að þeim sé óhætt að fylgja, á ég aldrei að *bragða vín.*

Þó ég drekki lítið mæli ég fram með víninu, bragði ég það ekki, mæli ég á móti því.

**„Æskan“**
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert Sölulaun ⅕, ekki gefin af færri en 3 eintökum.

Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

**Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan




**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

| II. árg. | Reykjavík, 20. ágúst 1899. | 22. tbl. |
|---|---|---|

# Steinsmiðurinn.

(Japönsk saga).

---

Það var einu sinni steinsmiður, sem á hverjum degi var uppi í fjalli að höggva grjót og smíða úr því grafsteina, hlaða húsgrunna og fleira því um líkt. Og af því að hann var vandvirkur og iðinn við vinnu sína, hafði hann sífelt nóg að starfa.

Hann var ánægður með kjör sín, þó hann væri fátækur, og óskaði sér einskis betra.

Hann hafði heyrt sagt frá því, að voldugur andi ætti heima í þessu fjalli. Þóttust sumir hafa séð hann, og sögðu að hann hefði hjálpað sér til þess að verða ríkir og eignast alls nægtir; fátæki steinsmiðurinn hafði samt aldrei orðið hans var, enda trúði hann því alls ekki, að hann væri til.

En einn dag, þegar hann var nýkominn frá ríkum manni, sem hann hafði verið að færa grafstein, og hafði séð, hversu alt var skrautlegt hjá honum og ólíkt því, sem hann átti að venjast heima hjá sér, þá sagði hann um leið og hann þurkaði svitann af enni sér: „Ég vildi óska, að ég væri orðinn ríkur; þá þyrfti ég ekki að erfiða svona, og þá gæti ég sofið í dýrindis rúmi með silkitjöldum“.

Óðar en hann hafði sagt þetta, heyrði hann rödd uppi yfir sér, sem sagði: „Ósk þinni er fullnægt; þú skalt verða ríkur“.

Steinsmiðurinn leit upp, en sá engan. Tók hann þá verkfæri sín og gekk heim, því kveld var komið. — Þegar hann kom heim, varð hann frá sér numinn af undrun. Litla húsið hans var orðið að skrautlegu stórhýsi með stórum og fögrum sölum, og þar var rúm alveg eins og það, sem hann hafði óskað sér. Þarna settist hann nú að og hætti alveg að höggva grjót, en lifði daglega í allsnægtum.

Einn dag í miklum hita, sá hann stóran hóp manna fara fram hjá húsi sínu. Í miðjum hópnum sat konungur á burðarstóli, umkringdur af riddurum og þjónum, sem héldu gyltri sólhlíf yfir höfði honum, til þess að hann sólbrynni ekki. Þegar ríki maðurinn sá alla þessa dýrð, sagði hann: „Ég vildi að ég væri konungur“.

Um leið og hann sagði þetta, heyrði hann

rödd í loftinu, sem sagði: „Ósk þinni er fullnægt; þú skalt verða konungur“.

Þá varð hann konungur. Og margir riddarar og þjónar voru í fylgd hans, sem báru gylta sólhlíf yfir honum. En hann var samt ekki ánægður. Og þegar hann sá, að sólin brendi alt í kringum hann og grasið visnaði, og jafnvel sjálfan sig gat hann ekki varið fyrir hita hennar, þá hrópaði hann: „Sólin er voldugri en ég. Ég vildi að ég væri sól“.

Þá heyrði hann andann segja: „Ósk þín er uppfylt; þú skalt verða sól“.

Nú var hinn fyrverandi steinsmiður orðinn sól, sem sendi geisla sína í allar áttir, brendi grasið á jörðunni og eyðilagði það. En þá dró svo stórt og þykt ský fyrir sólina, að hún gat ekki sent geisla sína til jarðar. Þá reiddist sólin og hrópaði: „Hvað er þetta? Er þetta ský voldugra en ég. Það get ég ekki þolað. Ég vil vera ský“.

Þá heyrðist rödd, sem sagði: „Ósk þinni er fullnægt; þú skalt verða ský“.

Nú varð steinsmiðurinn að skýi, sem helti úr sér þeim fádæmum af regni, að alt fór á flot á jörðunni, allar ár flóðu yfir bakka sína og eyðilögðu akra og engjar, borgir og bæi. Eitt var það þó, sem regnið gat ekki unnið á, það var stórt fjall, sem ekki bifaðist hið minsta, hvað sem á gekk. Þá hrópaði skýið: „Ég get ekki þolað, að fjallið sé voldugra en ég. Ég vil vera fjall“.

Þá sagði röddin: „Ósk þinni er fullnægt; þú skalt verða fjall“.

Nú varð hann að fjalli og var hreykinn af veldi sínu. Það stóð á sama stað, hvað sem á dundi, þótt sólin skini og regnið fossaði úr skýjunum. Nú var ekkert til, sem gæti haggað því, enginn hlutur, sem á því gæti unnið.

Þá var það einhvern dag, að fjallið heyrði eitthvert þrusk við fætur sér, og fór að gæta að, hvaðan það kæmi. Sá það þá mann einn litinn og óásjálegan, sem af alefli rak járnfleyga inn í bergið, og losaði á þann hátt úr fjallinu hvern steininn á fætur öðrum, sem féllu niður með dunum og dynkjum. Þá hrópaði fjallið: „Hvernig stendur á því, að þessi litli og óálitlegi maður, skuli vera sterkari en fjall? Þá vil ég heldur vera þessi maður“.

Þá sagði röddin: „Ósk þinni er fullnægt“. Og hann varð að fátækum steinsmið, sem vann baki brotnu fyrir daglegu brauði handa sér og sínum. En nú var hann ánægður, og óskaði aldrei að hann væri í annari stöðu en þeirri, sem hann var í. Og síðan hefir hann aldrei heyrt til volduga andans í fjallinu.

(Lauslega þýtt úr „Börnenes Bog“ af A. S.).

---

# Forðist þið vínið.

ÞIÐ vitið, börn, að vínið,
það veldur sorg og neyð,
og breiðir bitra þyrna
á breyzkra manna leið,
og steypir mörgum manni
í myrka dauðans gjá,
og kúgar marga konu
og kvelur börnin smá.

Ég veit það, börn, og vona
þið vínsins forðist tál
og bragðið aldrei áfengi;
það eitrar barnsins sál.
Þér aldrei munuð iðrast
þótt afneitið þér því,
svo vínsins synd og sorgum
ei sek þið verðið í.

*Ingibj. Benediktsdóttir.*

# Tönnin.

INNAN UM ruslið, sem var rakað af túninu, lá svolítil tönn, hún var hol innan alveg ofan í rót, kolmórauð, og einginn vissi einusinni af því að hún lá þarna. Hún mundi nú samt þær tíðir að hún þótti bæði falleg og merkileg, og að allir af bæ og á skoðuðu hana og dáðust að henni. Það rann út í fyrir henni, þegar hún hugsaði um sína fornu frægð og fegurð. Allra fyrst mundi hún eftir því, að hún átti heima í rósrauðum silkimjúkum barnsgómi, þá var hún ósköp skelfing lítil, svo lítil, að engin sá hana, en eftir því, sem litla barnið teigaði meiri mjólk, óx tönnin líka, og loksins varð svo þröngt um hana, að hún teygði úr sér og gægðist upp úr gómnum. Móðir barnsins hafði beðið með mestu óþreyju eftir því, að tönnin kæmi í ljós, og nú sýndi hún öllum, sem hún náði í, tönnina og allir dáðust að því, hvað hún væri mjallhvít og fögur. Afi litlu stúlkunnar gaf henni ljómandi fallega silfurskeið, þegar hann sá tönnina, og skeiðin var kölluð tannfé. Það, sem sást af tönninni, var eins og snjóhvítt gljáandi postulín, en þar fyrir innan var bein, og innst var tannmergurinn og að honum lá taug frá heilanum, sem kvíslaðist í ótal smátaugar út í beinið. Allar þessar taugar voru sálin í tönninni og áttu að láta hana vita, ef henni væri nokkur hætta búin. Tönnin dafnaði og smámsaman komu margar fleiri tennur henni til skemtunar, þær voru allar ljómandi fallegar eins og hún, og fólkið kallaði þær vinnumenn og vinnukonur litla barnsins, en alt af þótti samt fyrsta tönnin merkilegust. Svo liðu nokkur ár og tönnin lifði í mesta yfirlæti, hún var dugleg og vann alt, sem fyrir hana var lagt, með góðu geði og var aldrei þreytt né illa lynt. En einn góðan veðurdag komu alt í einu í hana einhverjir undarlegir kippir. Það var komin ósköp lítil sprunga í hvíta glerunginn og inn um hana hafði læðst óvættur, sem fólkið kallaði tannpínu; hún hafði tangir, sem hún kleip með, og króka, sem hún reif með, og nálar, sem hún stakk með, og logandi fleyga, sem hún pjakkaði með. Öllum er fjarska illa við hana og vilja með engu móti hleypa henni inn, en hún felur sig í allskonar sætindum, brjóstsykri, rúsínum, lakkrís og mörgu öðru sælgæti, og þegar svo börnin fylla munninn af þessu góðgæti og bryðja alt hvað af tekur, hlær tannpína gamla heldur dátt, því þá veit hún að hún kemst inn í litlu hvítu fallegu tennurnar og getur smátt og smátt sprengt þær allar sundur. Og svona fór hún líka með fallegu tönnina, sem öllum þótti svo gaman að, hún kleip hana og kvaldi, og taugarnar fluttu sársaukann til heilans, svo litla stúlkan stóð á öndinni af gráti, en samt hélt hún áfram að borða sætindi, hvenær sem hún fékk þau, og kaupa sér þau fyrir hvern einasta eyri, sem henni var gefinn. Loksins varð að fara með hana til tannlæknisins, og hann tók stórar járntengur og dró aumingja tönnina upp úr gómnum, þar sem hún hafði átt heima frá því hún var svo lítil, að enginn vissi af henni. Og litla stúlkan var svo bálreið við tönnina, sem óræstis tannpínan hafði haldið sig í og var orðin kolmórauð og öll hol og svört að innan, að hún fleygði henni langt burt, og svo barst hún í sorpið, þar sem enginn gaf henni gaum og hún hafði ekkert að gjöra nema að hugsa um raunir sínar. — Máske eitthvað af ykkur hafi nú heyrt þessa sögu áður, og þá er ég viss um að þið forðist að borða mikil sætindi og safnið heldur aurunum ykkar til þess að kaupa fyrir þá eitthvað fallegt handa pabba eða mömmu, eða systkinunum ykkar, eða sjálfum ykkur, eða þá bara handa einhverjum, sem ykkur langar til að sjá glaðan, svo fáið þið í tilbót að eiga

allar tennurnar ykkar hvítar og fallegar! Þið reynið víst til þess, að láta aldrei fara eins illa fyrir þeim, eins og aumingja tönninni, sem lá í sorpinu.

## Æskan.

Nafn blaðsins og myndina umhverfis hefir hr. prentari *Guðmundur Magnússon* í Reykjavík dregið upp ykkur börnunum til gleði og ánægju.

Raunar veit ég nú, að ykkur hefir þótt nafnið „Æskan“ fallegt, þó að það hafi staðið alveg bert og óbreytt á hvítum pappírnum, því manni þykir ævinnlega alt fallegt, sem manni þykir vænt um; en þó ímynda ég mér að ykkur þyki enn meira gaman að horfa á nafnið núna og að þið séuð vini ykkar þakklát fyrir, að hafa skreytt það svona vel.

Ég veit að þið kannist strags við litlu smalana, sem labba á stað með hundinn sinn og prik í hendinni, til þess að gæta að fénu; ég held, meira að segja, að ykkur langi til að vera horfin upp á heiði til þeirra, til þess að horfa á álftirnar synda um „heiðarvötnin bláu“ og hlusta á yndisfagra sönginn þeirra. En mest langar ykkur þó til þess seinna, þegar þið eruð orðin stór, og árin, sem þið þá kallið æsku, eru liðin og eiga heima langt burtu í yndisfögru draumlandi, þar sem alt, sem við hugsum um, sýnist svo undra stórt og fagurt, og þá skiljið þið tilfinningar skáldsins, þegar það segir:

„Þú bláfjallageimur með heiðjökla hring,
um hásumar flý ég þér að hjarta;
ó, tak mig í faðm þinn, minn söknuð burt ég syng
um sumarkvöld við álftavatnið bjarta“.

Og þá skiljið þið til fulls, hvað hefir vakað fyrir þeim, sem vildi láta sumarfegurðina á Íslandi umkringja nafn „Æskunnar“.

## Skrítlur.

Konungur nokkur kom að hirðfífli sínu, þar sem það var að sá fræi í mold. „Hverju ertu að sá?“ spurði konungurinn. „Ég er að sá fíflum, yðar hátign“, svaraði hirðfíflið. „Því sáirðu ekki heldur spekingum“, spurði konungurinn. „Spekingar spretta ekki hér á landi“, svaraði fíflið.

---

K e n n a r i n n (sem er að segja söguna um Þyrnirósu): „Nú, Lilja, hvernig vakti kóngssonurinn hana Þyrnirósu?“

Lilja þegir.

Kennarinn: „Hvað gjörir hún mamma þín, þegar hún vekur þig á morgnana“.

Lilja: „Hún gefur mér þorskalýsi.“

## Spakmæli.

„Enginn getur unnið stórvirki nema trú hans sé óbifanleg“. THOMAS CARLYLE.

„Vinátta er seinvaxið blóm, jarðvegurinn, sem hún grær í, er virðingin, en þú verður að sýna vini þínum mikinn kærleik, áður en blóm hennar springa út“. BAILLIE.

## Gátur.

Hvernig getið þið dregið töluna tuttugu og tvo frá tölunni tuttugu og látið áttatíu og og átta ganga af?

Hvaða hús er það, sem íbúarnir fara aldrei inn í og komast ekki út úr nema mölva gat á það?


**„Æskan“**

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert Sölulaun 1/5, ekki gefin af færri en 3 eintökum.

Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

[illegible]rv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 a[illegible]ndingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og a[illegible]var fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan




**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 26. ágúst 1899. | **23. tbl.**

# Margrét.

ÞAÐ var kvöld, dimt og drungalegt haustkvöld; myrkrið grúfði yfir öllu, og þeir sem voru á ferð, sáu varla neitt frá sér, það voru líka engir á ferli nema Margrét á Hóli, hún þrammaði þreytulega fram götuna, og raunasvipurinn á andliti hennar lýsti því, að hún væri ekki að fara neina skemtiferð. Það var heldur ekki. Hver sem þekti ástæður Margrétar, hefði ekki furðað sig, þótt hún væri ekki glaðleg þetta kvöld; hún hafði alla sína æfi verið fátæk og eftir að hún giftist batnaði ekki efnahagurinn, og nú fyrir rúmri viku hafði maður hennar druknað, og hún átti eftir 6 börn, hið elzta á áttunda ári og hið yngsta þriggja vikna gamalt, og hún sá engin önnur ráð en að segja þau til sveitar innan skams, og nú þennan dag hafði yngsta barn hennar veikst, svo hún afréð að leita læknis, þótt hann væri langt frá. Hún hraðaði sér sem mest hún mátti til þorpsins, þar sem læknirinn átti heima; hún hafði aldrei séð hinn nýja lækni, en heyrt, að hann væri fremur hranalegur í framgöngu, hjarta hennar barðist milli vonar og ótta, hvort læknirinn mundi veita henni áheyrn, hvort hann mundi geta læknað barn hennar og hvort hann mundi vilja það; hún áleit, að hver maður, sem ekki væri hjartalaus, hlyti að kenna í brjóst um fátæka ekkju, er væri að leita læknis handa barni sínu dauðveiku; hún hugsaði sér að vera djarfleg í framkomu sinni gagnvart lækninum, segja honum frá bágindum sínum, ef hann vildi ekki hjálpa sér, og hætta ekki fyr en hann veitti sér einhverja úrlausn.

Með þessum hugleiðingum nálgaðist hún kaupstaðarþorpið og gekk rakleiðis að lækníshúsinu. Drengur á að gizka 6 ára stóð fyrir utan dyrnar. „Komdu sæll, drengur minn“, sagði konan, „ertu sonur læknisins?“ „Já“, svaraði hann. „Er faðir þinn heima“? „Já, hann er heima“, svaraði drengurinn. „Ætlar þú langt að fara?“, spurði Margrét enn fremur, þá er hún sá ferðasnið á drengnum. „Nei, ekki langt, ég ætla bara að finna prests-soninn snöggvast“. „Vertu sæl“, anzaði drengurinn og gekk hratt burt og var óðara horfinn út í myrkrið. „En að læknirinn skuli sleppa drengnum út í þetta myrk-

ur“, hugsaði konan. Eftir nokkra stund drepur hún hægt á dyr, vinnukona birtist í dyrunum og er Margrét beiddi um leyfi að fá að tala við lækninn, var henni vísað inn í stofu, þar lá lækninn í legubekk og las í dagblaði. Margrét heilsaði honum með mestu lotningu, en það var sem hann tæki varla eftir henni. Hún settist á stól og horfði í kring um sig. Að lítilli stundu liðinni stóð læknirinn upp, horfði hvast framan í hina töturlega klæddu konu og sagði yfirmannlega: „Hvað er erindið?“ Hin aldraða kona roðnaði af feimni, en mælti þó hálfstamandi: „Ég ætlaði að leita ráða hjá yður, barnið mitt er mjög veikt“. „Nú“, anzaði læknirinn, „hvernig er veikinni háttað?“ Konan lýsti fyrir honum einkennum veikinnar, og er hann hafði heyrt það, sagði hann: „Það deyr eflaust þetta barn, ímynda ég mér; auðvitað væri máske hægt að lækna það ef ég gæti séð það, en ég býst við, að þér hafið ekki efni á að kosta mig svo langa ferð, en ég get látið yður hafa meðul fyrir 1 krónu ef þér getið borgað það nú þegar; getið þér það?“ „Nei“ mælti konan, „mér er það ómögulegt, því ég er svo fátæk“. „Já“, mælti læknirinn, „ég álít að barninu sé alls ekki lífs von, þótt ég vildi reyna að lækna það“. Við þessi orð, að barninu væri ekki lífs von, féllust hinni raunamæddu konu alveg hendur. Öll sú djörfung, sem hún hafði ætlað sér að bera fyrir lækninum, og öll sú ánægja, sem hún hélt að leiða mundi af þessari ferð sinni, barni sínu til handa, hvarf alt í einu við þau orð, að barninu væri ekki lífs von. Hún stóð upp, kvaddi lækninn og gekk út úr húsinu.

Koldimt myrkur grúfði yfir öllu, og húsin sáust eins og turnar í fjarlægð. Margréti hrylti við myrkrinu, en hélt þó af stað veginn heim til sín. Dimt var myrkrið umhverfis hana, en dimmra var þó í huga hennar; alt það mótlæti, allar þær sorgir og öll sú fátækt, sem hugsast gat, lagðist sem myrkur yfir hið veika og istöðulitla hjarta hennar, og það var ekki sjáanlegt, að neitt gæti falist í þessu myrkri, er lýst gæti upp æfileið hennar.

Hún var komin spölkorn frá þorpinu, og settist þar niður uppgefinn af þreytu og sorgum; hún reyndi að finna eitthvert ráð til að geta lifað hjá börnum sínum í kyrð og frið, en hún sá engin líkindi til, að svo gæti orðið. Alt var myrkur, niðdimt myrkur yfir öllu henni viðkomandi.

* * *

Alt var komið í uppnám í þorpinu, allir þutu um götur bæjarins kallandi og hrópandi: „Sigurður litli, kondu“, „Siggi, Siggi, hvar ertu?“ „Ó, læknissonurinn er horfinn“. „Hvað skal vera orðið af drengnum?“ Þessu lík köll gengu um alt þorpið og allir þutu til og frá og rákust á í myrkrinu, en enginn fann þó drenginn. Þá gall við há og mikil rödd, sem allir þektu að kom frá lækninum: „Hver sem færir mér son minn lifandi og heilbrigðan, skal fá 500 krónur í peningum“. Ekki minkuðu lætin í bæjarbúum við þetta, hver veltist um annan, en köllin og hrópin gengu fjöllunum hærra.

Margrét vissi ekki neitt af þessu; hún sat kyr, studdi hönd undir kinn og andvarpaði. Loks stóð hún upp og hélt álút áfram veginn heim til sín. Alt í einu nam hún staðar, henni fanst hún heyra barnsgrát, hún hlustaði, en heyrði ekkert. „Ó, það er ekkert nema hugarburður minn; kannske það séu börnin mín heima, aumingjarnir litlu grátandi“, andvarpaði hún. Hún heyrði aftur barnsgrátinn og litlu siðar kom hún auga á lítinn dreng, grátandi, er sat hjá veginum og kallaði á „pabba og mömmu“. Margrét varð mjög forviða, hún tók upp litla drenginn og vafði hann innan í sjalið sitt.

„Hvar áttu heima, litli drengur?“ spurði hún. „Hjá honum pabba“, svaraði hann „og svo viltist ég, þegar ég ætlaði heim til hans“. „Hvað er hann pabbi þinn“, spurði hún aftur. „Læknir“, mælti hann. Þegar Margrét heyrði það, sneri hún sem fljótast við á veginum og hraðaði sér til þorpsins. Hún hugsaði ekki um neitt nema að láta fara vel um barnið og hlúa að því. Þegar hún kom til þorpsins, heyrði hún mikil læti og heyrði að kallað var á Sigurð læknisson, skyldi hún þá, hvers kyns var, en gekk þó þegjandi að læknishúsinu. Læknirinn stóð fyrir utan dyrnar og horfði áhyggjufullur út, þótt hann sæi lítið fyrir myrkrinu. Hún heilsaði honum og tók hann því þurlega. „Hér er barnið yðar, sem ég ímynda mér, að sé verið að leita að“, mælti hún. Hann ætlaði varla að trúa því, að konan væri svo daufleg, þótt hún væri búin að vinna fyrir 500 krónum, en Sigurður litli, sem hafði sofið, vaknaði nú og hljóp í fangið á pabba sínum. Læknirinn var þá ekki lengi að hrópa: „Barnið er fundið“, og minkuðu þá dálítið lætin í bæjarbúum, en í stað þess rak hver spurningin aðra hjá þeim: „Hver skyldi hafa fundið barnið?“ „Ó, ég vildi að ég hefði fundið drenginn“. „Það er líka svo lítið, að fá 500 krónur“. „Hver skyldi það nú vera, sem fann drenginn“. Þannig töluðu þeir fram og aftur, en enginn gat frætt þá um finnandann.

Læknirinn, sem var frá sér numinn af fögnuði yfir því, að fá litla drenginn sinn aftur heilbrigðan, bauð konunni — sem hann þekti ekki — að koma inn, en bar sjálfur barnið. Þegar læknirinn leit framan í konuna, mælti hann: „Það er þó ekki konan, sem var að leita ráða hjá mér áðan, sem hefir fundið drenginn“. „Já“, mælti Margrét, og síðan spurði hann hana, hvar hún hefði fundið barnið, og er hún hafði sagt honum það, sagði Sigurður litli: „Ósköp þótti mér vænt um, þegar konan kom til mín og bar mig heim; þú mátt til að gefa henni eitthvað í staðinn, pabbi“! Læknirinn þagði nokkra stund, fór með drenginn í annað herbergi, kom inn aftur og gekk um gólf hugsandi, síðan mælti hann stillilega: „Ég var búinn að lofa hverjum þeim, sem færði mér drenginn, 500 krónum og eruð þér því orðin réttur eigandi að þeim; og meir að segja, það er ekki víst að barnið hefði fundist, ef þér hefðuð ekki verið þarna á ferð. Þar eð ég hefi nú frétt um hag yðar, ætla ég að borga yður fundarlaunin þannig, að taka yður og börn yðar hingað til mín strax í haust, og reyna að veita börnunum líkt uppeldi og drengnum mínum, sem þér funduð á götunni. Ég ætla heim með yður í nótt og reyna að lækna barnið yðar“. Margrét vissi ekki, hvort þetta var vaka eða draumur, hún gat ekki ímyndað sér, að svona mikil breyting yrði á högum hennar alt í einu. Hún stóð upp, þakkaði lækninum innilega fyrir, en gat þó ekki falið nema minsta part þakklætis síns í orðunum.

* * *

Læknirinn gat læknað barnið og ól hann þau öll 6 upp með mestu prýði og efndi rækilega orð sín.

*Ingibj. Benediktsdóttir.*

---

# Ég elska.

---

Ég elska þig, landið mitt ljómandi frítt
með lindirnar tærar og blíðar,
með svellkaldan vetur og sumarið blítt
og sólgyltar, ljós-grænar hlíðar.

Ég elska þig, göfuga íslenzka þjóð,
sem eldheita frelsisþrá geymir,

með íslenzkan kjark og hið íslenzka blóð,
í æðum og hjarta sem streymir.

Ég elska þig, skáldlega andagipt há,
hve oft þú mér skemtir og svalar,
nær sorgir og mótlæti sál mína þjá,
þú syngur og huggandi talar.

Ég elska þig, barnanna óspilta lund;
ég ann ykkur, börnin mín kæru.
Þið vaxið sem blómstur um vormorgun-stund
og vökvist af dögginni tæru.

Ég elska þig, guð, og þig undrast mitt geð,
þú eins stjórnar lágu og háu,
ó, blessa þú land vort og lýðinn þess með
og ljóðin og börnin hin smáu.

*Ingibj. Benediktsdóttir.*

## Smávegis.

Ungur hermaður nokkur sagði við Sheridan hershöfðingja rétt á undan einum bardaganum: „Hershöfðingi, ef ég fell í dag, þá segið móður minni, að ég hafi efnt loforð mitt; ég hefi aldrei bragðað dropa af víni“. Pilturinn féll um daginn og Sheridan hershöfðingi færði móður hans boðskapinn, sem sonur hennar hafði beðið hann fyrir. „Herra hershöfðingi“, sagði konan, „sonur minn hefir unnið veglegri sigur, en þó hann hefði hertekið stórborg; nú er gleðin eins rík í huga mér eins og sorgin; nú veit ég, hverjum dauða sonur minn hefir dáið, og því get ég minst jafnvel dauða hans með gleði“.

*The Youth's Companion.*

## Skrítlur.

Faðirinn: „Nú hefirðu kveikt á 9 eða 10 eldspýtum, Gvendur. Hvers vegna gjörirðu þetta, strákur?“

Gvendur: „Ég er að leita að nokkru, sem ég týndi“.

Fað.: „Hvað var það sem þú týndir?“

Gvendur: „Það var eldspýta“.

---

Siggi: „Hvers vegna læsirðu gullin þín niður í kistil, Gunna?“

Gunna: „Ég ætla að geyma þau handa börnunum mínum“.

Siggi: „En ef þú eignast aldrei börn?“

Gunna: „Þá fá barnabörnin mín öll gullin“.

## Spakmæli.

„Hlýtt viðmót er eins og dýrmæt olía, sem dregur sviðann úr sárunum“. — EUGENE FIELD.

---

**Leiðréttingar.** Í 18.—19. tbl., 2. bls., 2. d., 5. l. a. o., stendur: Jakob, á að vera: Ísaak. Enn fremur í 20. tbl. í kvæðinu: "Um lóu", 2. er.: „harma*kvötin*“ f. harma*kvölin*, „hel*g*a“ f. hel*j*a.

## Fyrir eina krónu!

*Nýir kaupendur að næsta (III.) árg. „Æskunnar“ fá I. og II. árg. blaðsins innheftan fyrir að eins* **eina krónu.** *En borgun fyrir I. og II. árg. verður að fylgja pöntun.*

*Jólablaðið verður sent kaupendum utan Rvíkur í byrjun nóvembermán. Það verður* **ekki** *sent* **þeim,** *sem enga skilagrein hafa gert fyrir borgun á að minsta kosti 1. árg. blaðsins, fyrri en þeir hafa gert hana.*

☞ *Útsölumenn „Æskunnar“ eru vinsamlega beðnir að tilkynna afgr.manni, fyrir 1. október, ef breyting verður á kaupendatölunni.*

Útgefendurnir.

„Æskan“
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun ⅕, ekki gefin af færri en 3 eintökum.
Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*
Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.
Félagsprentsmiðjan




**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 12. sept. 1899. | **24. tbl.**

# Vögguljóð.

LEGÐU' um háls minn ljúfan arm,
litla barn;
við mitt hjarta' er vagga heit,
í vestri' er leiftrar stjörnusveit
og skjálfa tré í skógarreit.
Litla barn.

Loka skærum unaðsaugum,
yndið mitt;
þó að skuggar hvíli hér
og húmtjöld sveipi land og ver,
á draumabeð þér óhætt er,
yndið mitt.

Grúfðu niður glókoll þinn,
gullið mitt;
vermdu hjartans harma-und,
hugga mína döpru lund,
hverja mæðu styttu stund,
gullið mitt.

# Húsbóndinn og þjónninn.

EINU sinni var unglingsmaður, sem Daníel hét; hann var bæði snotur piltur og efnilegur, en það var að honum, að hann var í meira lagi hneigður til víndrykkju, og ef hann var vínlaus, þá hugsaði hann mest um það, hvernig hann ætti að ná sér í dropa.

Einu sinni var hann á heimleið um næturtíma rétt eftir jól; veður var heiðríkt, tunglskin og hörku-frost, svo að hann nísti tönnum af kulda og tautaði fyrir munni sér: „Nú væri nógu gott að eiga vænt staup með víni, sem gæti tekið úr manni hrollinn“.

„Sú ósk þín skal fljótt rætast, Daníel“, sagði lítill maður, sem stóð hjá honum áður en hann varði. Hann bar á höfði þríhyrndan hatt með gullskrauti og á skónum hafði hann svo stórar silfursylgjur, að furðu gegndi að hann skyldi hafa not af þeim. Hann rétti Daníel glas, sem var því nær eins stórt og dvergurinn sjálfur, og í því glasi var fegursta og ljúffengasta vín.

„Skál, litli maður“, sagði Daníel og var

hvergi hræddur, þó að hann skildi fullvel, að það væri huldumaður, sem hann átti tal við. „Ég drekk skál þína og hafðu beztu þökk. Við munum sjálfsagt koma okkur saman um borgunina“.

Að svo mæltu setti hann glasið á munn sér og tæmdi það í einum sopa.

„Skál“, sagði litli karlinn; „en ekki skaltu hugsa, að þú getir prettað mig. Komdu með peningana og borgaðu eins og ærlegur maður“.

„Á ég að borga?“ sagði Daníel hlæjandi. „Ég gæti tekið þig og stungið þér í vasa minn, ef ég vildi“.

„Daníel!“ sagði litli karlinn, og varð svo ófrýnn á svipinn, að Daníel fór ekki að verða um sel; „ef þú vilt þjóna mér 7 ár og 1 dag, þá skal það vera borgunin. Búðu þig nú og komdu með mér“.

Þegar Daníel heyrði þetta, iðraðist hann þess, að hann hafði verið svo djarfmæltur við litla karlinn. Hann mátti nú til að fara með honum, og gengu þeir um holt og hæðir, yfir gryfjur og girðingar, fen og foruð, og stóðu aldrei við.

Þegar loks var farið að birta af degi, nam litli karlinn staðar og sagði:

„Nú máttu fara heim, Daníel, en í kveld skaltu hitta mig úti við skóg; annars fer illa fyrir þér. Ef þú kemur og þjónar mér með trúmensku, þá skal ég vera þér góður húsbóndi“.

Daníel var dauðþreyttur, þegar hann kom heim; þó kom honum ekki dúr á auga, því að hann var alt af að hugsa um litla karlinn.

Hann þorði ekki að óhlýðnast honum, og um kvöldið gekk hann út að skógi. Þegar hann hafði dvalið þar stundarkorn, kom karlinn til hans og sagði:

„Ég ætla í langferð, Daníel; legðu á tvo af klárunum mínum handa okkur, því að ég ætla að láta þig fara með mér“.

Daníel litaðist um og sagði:

„Til er ég í það, húsbóndi góður, en hvar er hesthúsið? Ég sé hér ekkert nema gamla kastalann og þyrnirunninn og mýrina“.

„Spurðu ekki um fleira, en farðu út í mýrina, taktu tvö stinnustu stráin, sem þú finnur þar, og færðu mér þau“, skipaði litli karlinn.

Daníel varð alveg forviða, en hlýddi samt, sleit upp tvö stinnustu stráin og fór með þau til húsbónda síns.

Karlinn settist þá á annað stráið og sagði:

„Seztu á bak, Daníel!“

„Hvar á ég að setjast, herra góður?“ spurði Daníel.

„Auðvitað á bak hestinum eins og ég“.

„Ætlið þér að draga dár að mér?“ sagði Daníel og var reiður mjög. „Þér skipið mér að setjast á bak á strái! Eða ætlið þér að telja mér trú um það, að stráin, sem ég tók í mýrinni, séu hestar?“

„Hlýddu mér og seztu á bak“, sagði karlinn og varð ófrýnilegur mjög. „Allir þeir hestar, sem þú hefir komið á bak hingað til, eru örgustu húðarbykkjur í samanburði við þennan reiðskjóta“.

Daníel hugsaði að þetta væri ekki annað en spaug og settist á stráið.

Litli karlinn sagði: „Borram, borram, borram!“

Það átti að þýða: „Stækkaðu!“ — og Daníel sagði sama.

Þá urðu stráin undir eins stærri og urðu að fallegum hestum, sem spörkuðu niður hófunum af fjöri. En þegar Daníel settist á stráið, hafði hann ekki gætt að því, hvað upp sneri eða niður, og því vissi andlit hans að taglinu á hestinum. Hesturinn þaut af stað með þeirri fleygiferð, að Daníel gat ekki með neinu móti snúið sér við, svo að hann mátti til að halda sér í taglið á hestinum,

þangað til þeir voru komnir þangað, sem ferðinni var heitið.

Loks nam litli karlinn staðar hjá litlu húsi og sagði:

„Gerðu nú eins og þú sér mig gera; en af því að ég sé, að þú þekkir ekki hausinn á hestinum frá taglinu, þá ræð ég þér til þess að verða ekki svo ruglaður í höfðinu, að þú vitir ekki sjálfur, hvort þú stendur á löppunum eða hausnum“.

Karlinn tautaði eitthvað fyrir munni sér og varð Daníel að hafa það eftir honum, og síðan smugu þeir báðir inn um skráargatið inn í forstofuna og svo um hvert skráargatið eftir annað, þangað til þeir komu í kjallarann; þar var fjöldi af víntunnum. Karlinn settist óðara að drykkju og Daníel var ekki seinn á sér að fara að dæmi hans.

„Þér eruð ágætur húsbóndi“, sagði hann; „ef þér gefið mér alt af annað eins vín og þetta, þá skal ég fúslega þjóna yður á hverri nóttu“.

„Ég hefi ekki átt nein kaup við þig og ætla heldur ekki að gera það“, sagði karlinn; „en nú förum við“.

Síðan fóru þeir aftur út um skráargötin, og þegar þeir voru komnir út, stigu þeir aftur á stráin, sem voru þar við dyrnar. Þeir sögðu aftur: „Borram, borram, borram!“ og þutu um loftið, svo að þeir rótuðu skýjunum undan sér eins og krapa.

Á þennan hátt gekk nú nótt eftir nótt. Um morgunmál skildu þeir hjá skóginum og alt af skipaði karlinn Daníel að koma næstu nótt. Þeir fóru í hverja höllina eftir aðra og höfðu bráðum komið í hvern einasta vínkjallara á landinu og fengið sér hressingu.

Eina nótt, þegar Daníel átti að fara út í mýrina að sækja strá, sagði karlinn:

„Í dag verðum við að hafa þrjá reiðskjótana, því að skeð getur, að við fáum samfylgd heimleiðis“.

Daníel undraðist þetta; en af því að hann hafði tamið sér það, að mótmæla engu, sótti hann þrjú strá, og þegar þeir riðu af stað, teymdi hann einn hestinn.

Þeir riðu langar leiðir, þangað til þeir komu að bæ einum. Þar var veizla haldin og karlinn nam staðar um stund og hlýddi á sönginn. Síðan sneri hann sér snögglega við og sagði:

„Nú ætla ég að trúa þér fyrir nokkru, sem þú mátt aldrei segja neinum manni. Á morgun verð ég þúsund ára og því ætla ég að giftast. Þarna er haldið brúðkaup, en ég ætla að nema brúðurina burt“.

„En hvað munu brúðkaupsgestirnir segja til þess?“ spurði Daníel og varð alveg forviða.

„Þegiðu“, sagði karlinn reiðilega; „ég hefi ekki haft þig með mér til þess að hlýða á spurningar þínar“.

Hann mælti fram orðin, sem hjálpuðu þeim að komast gegn um skráargötin. Daníel hafði þau eftir og von bráðar voru þeir komnir í veizlustofuna.

Karlinn hoppaði upp á stóran bita, til þess að sjá betur veizlufólkið. Daníel fór á eftir honum, en gerði það svo klaufalega, að nærri lá, að hann hrapaði.

Við borðið sátu brúðhjónin og fjöldi af ættingjum þeirra og vinum. Þar var presturinn, forsöngvarinn, faðir brúðgumans og bræður hans tveir, brúðurin, sem Birgitta hét, foreldrar hennar og fjórar systur hennar, allar skrautlega búnar, og enn fremur bræður hennar þrír, kátir piltar, og fjöldi af frændum og frændkonum. Á borðinu var gnægð matar og drykkjar.

Móðir brúðarinnar bað nú prestinn að skera sundur steiktan grís, sem á borð var borinn, en þá fékk brúðurin hnerra. Allir litu til hennar, en enginn sagði: „Guð hjálpi þér“, af því að allir væntu, að presturinn mundi segja það. En hann hafði ekki heyrt, að

brúðurin hnerraði, af því að hann gaf sig allan að því að skera hausinn af grísnum.

Karlinn uppi á bitanum horfði glottandi á brúðurina og sagði við Daníel:

„Bráðum næ ég henni á mitt vald; þegar hún hefir hnerrað tvisvar enn, tek ég hana með mér“.

Birgitta hnerraði aftur, en svo lágt, að enginn heyrði það nema litli karlinn, og þá var heldur enginn, sem bað guð að hjálpa henni.

Daníel skildi nú, hvernig í öllu lá, og hann vildi ekki vita það, að brúðurin kæmist í klærnar á þessum litla, ljóta karli, sem var orðinn þúsund ára. Og þegar brúðurin hnerraði í þriðja sinn, kallaði hann:

„Guð hjálpi þér!“

Óðara en hann hafði slept orðinu, rauk litli karlinn á hann og grenjaði:

„Ég rek þig úr vistinni, fyrst þú gerðir mér þennan grikk“.

Og um leið gaf hann Daníel olbogaskot, svo að hann datt af bitanum á borðið ofan í allan matinn.

Hann varð auðvitað höggdofa af hræðslu; en gestirnir æptu hástöfum, þegar þeir sáu mann detta niður eins og epli úr eik. En þegar Daníel hafði sagt upp alla sögu, lagði presturinn frá sér hníf og gaffal og gaf brúðhjónin saman undir eins.

Daníel dansaði í veizlunni og át og drakk eftir lyst sinni. En litla karlinn sá hann aldrei framar.

## Smávegis.

### Bindindisræða eftir Indíánahöfðingja.

Höfðinginn Pokagon, sem er talinn vitrastur allra þeirra Indíána, er nú eru á lífi, og sem var sendur á heimssýninguna í Chicago 1893, hefir sent þjóð sinni upphvatningu frá sóttarbeði sínum, þar sem hann varar þá við nautn „eldvatnsins“ (Indíánar kalla brennivínið því nafni).

Honum farast þannig orð:

„Væri það opinber óvinur vor, þá gætum vér gengið með sigurvon á móti honum. En því er ver og miður! Hann er svikari í sínum eigin herbúðum og lævís sem melrakki. Hann umfaðmar oss og kyssir og byrlar oss síðan eitur.

Þegar hvítu mennirnir kendu oss að elska guð af öllu hjarta og náungann eins og sjálfa oss, og enn fremur að biðja: ‚Faðir vor, þú sem ert á himnum, helgist þitt nafn, til komi þitt ríki, verði þinn vilji!‘ — þá héldu þeir jafnhliða freyðandi glasinu upp að vörum vorum og sögðu: ‚Drekkið, svo að þér verðið glaðir!‘

Vér drukkum og börnin vor drukku einnig. En eins og maðkurinn kann sér ekki hóf þangað til hann fellur í dá, þannig svifti hann oss fyrst hófseminni og rændi oss þar eftir vináttunni, kærleikanum, heiðrinum og þróttinum, og umhverfði mönnunum í djúpfallna auðnuleysingja“. *S. V.*

---

Það er betra að eiga nágranna, sem auðsýnir manni daglega góðvild, heldur en þó hann geri manni einhvern mikinn greiða einu sinni á ári.

---

**Ráðning gátnanna í 22. tbl.:**

*Fyrri gáta:* XX ÷ 22 verða eftir 88.
*Síðari gáta:* Eggið.

---

**„Æskan“**
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, ekki gefin af færri en 3 eintökum.
Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*
Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4 annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.
Félagsprentsmiðjan




**Barnablað með myndum. Gefið út af Stór-Stúku Íslands (I. O. G. T.).**

**II. árg.** | Reykjavík, 21. sept. 1899. | **25. tbl.**



**NÝVAKNAÐUR.**

## Sagan af tóunni og sniglinum, sem þreyttu kapphlaup.

Einu sinni var tóa í góðu skapi, því að hún hafði fengið hænsasteik að miðdegisverði og lá nú úti á engjum í sólskininu. Hún var málhreif og hana langaði til að spjalla við einhvern. Þá kom hún auga á snigilinn; hann lá í grasinu þar rétt hjá.

„Það er rétt, að ég hendi gaman að honum", hugsaði tóan; síðan sagði hún með mestu kurteisi:

„Fagurt er veðrið í dag, nábúi góður".

„Já, það er mikil blessuð blíða", sagði snigillinn og var líka kurteis mjög.

„Þetta veður er rétt til að hreyfa sig", sagði tóan. „Hvernig lízt yður á, að við reynum okkur einu sinni á hlaupi?"

„Ættum við að hlaupa langt?" spurði snigillinn með varúð.

„Eigum við að reyna, hvort okkar kemst fyrr inn um borgarhliðið?" spurði tóan.

„Til er ég í það", sagði snigillinn og lagði af stað jafn-harðan; húsið sitt tók hann með sér, því að það er venja hans.

Tóan hló og lagðist makindalega í grasið, því að hún ætlaði ekki að byrja hlaupið fyr en um sólarlag; þá þótti henni það þægilegra. Og meðan hún lá þarna og beið sólarlagsins, sofnaði hún.

Þegar snigillinn var kominn spölkorn áleiðis, sá hann að tóan var sofnuð; sneri hann þá við og faldi sig í skottinu á tóunni og beið þess að hún vaknaði.

Þegar leið að kvöldi, hélt tóan af stað og furðaði sig mjög á því, að hún sá hvergi snigilinn. Hún gat þess til, að snigillinn kynni að hafa farið styttri leið og því herti hún á sprettinum; en þegar hún kom að borgarhliðinu og sá enn ekki til snigilsins, sneri hún sér við, horfði eftir veginnm og kallaði háðslega:

„Hvað er orðið af þér, snigill?"

Þá rendi snigillinn sér úr skottinu á tóunni, því að nú vissi það að borgarhliðinu; snigillinn skreið inn um hliðið og kallaði:

„Hér er ég, tóa sæl!"

Lágfótu brá í brún, þegar hún leit við; en hún gat ekki neitað því, að snigillinn var kominn inn í borgina.

Og þannig tapaði tóan veðmálinu þrátt fyrir alt drambið.

## Smávegis.

### Heilræði til unglinganna.

Verðu æsku þinni svo vel, að þú megir minnast hennar með fögnuði þegar hún er liðin, en ekki með sorg og andvörpum. — Meðan þú ert ungur, finst þér að æska þín muni aldrei líða; en þú munt sjá, að jafnvel hinn lengsti dagur líður að kveldi, og að þú átt hann að eins einu sinni, að hann kemur aldrei aftur; notaðu hann þess vegna eins og vortíma, sem er á enda; á honum áttu að sá og planta öllu því, sem þú þarfnast á fullorðinsárunum, svo þau geti orðið þér farsæl.

Sir W. Raleigh.



**„Æskan"**

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, ekki gefin af færri en 3 eintökum.

Ritstjóri: *ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR.*

**Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvitterar fyrir o. s. frv.

# ÆSKAN

## BARNABLAÐ MEÐ MYNDUM

III. ÁRGANGUR

RITSTJÓRAR

ÓLAFÍA JÓHANNSDÓTTIR og HJÁLMAR SIGURÐSSON



REYKJAVÍK

GEFIN ÚT AÐ TILHLUTUN STÓR-STÚKU ÍSLANDS (I. O. G. T.)

FÉLAGS-PRENTSM. OG ALDAR-PRENTSM.

1899—1900

# Efnisyfirlit.




III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | Rvík, 15. október 1899. | Ritstjóri: Ólafía Jóhannsdóttir. | 1. tbl.

## Skartið hennar Ellu.

(Þýtt).

FRÚ MASON sat ásamt tveimur litlu stúlkunum sínum í dagstofunni á viðfeldna heimilinu þeirra.

„Mamma“, sagði Elísa, „viltu ekki gjöra svo vel að kaupa handa mér nýjan hatt, eins og þann sem Lotta hafði. Tókstu ekki eftir því, hvað hann var fallegur, þegar við vorum hjá afa í gær? Og silkiböndin hennar voru svo fagurblá; gefðu okkur þessleiðis bönd, mamma; það vóru engir nema við og Ella Morton, sem engin bönd höfðu, en Ella er nú líka ekki „dama“, en hinar höfðu allar bönd“.

„Mér virtist nú Ella Morton vera bezt klædd af ykkur öllum“, sagði frú Mason rólega.

„Hvað! hún Ella Morton? Nei, mamma, hún, sem hafði ekkert fallegt; kjóllinn hennar var svo ómerkilegur, úr lérefti, og hatturinn hennar var alveg skartlaus; þú hefir tekið skakt eftir, mamma“.

„Það held ég nú samt ekki“, sagði frú Mason; „ég sá, að hún hafði mjög fagurt skart, og ég vildi óska þess, að litlu stúlkurnar mínar hefðu annað eins“.

Elísa og María urðu alveg forviða. Þær höfðu litið svo smáum augum á Ellu, vegna þess, hve fötin hennar voru fátækleg. Henni hafði verið bolað burtu úr leiknum daginn áður, og sum börnin höfðu jafnvel brosað að henni vegna fatanna hennar.

„Segðu okkur, mamma“, sagði Elísa, „við sjáum ekkert skart“.

„Ég sá að minsta kosti sex skartgripi“, sagði frú Mason, „og nú skal ég segja ykkur hverja“.

„Þegar þið voruð að tína blómin, þá fann Ella blett, sem spratt í mikið af fjólum; einhver stúlka hefði nú tínt þau handa sjálfri sér, en Ella kallaði á hinar og hjálpaði þeim yngri til að tína, og þá vissi ég, að hún átti mjög dýrmætan skartgrip: *óeigingirni*. Þegar Anna litla Kent reif kjólinn sinn, þá hjálpaði enginn henni nema Ella, þá sá ég annan skartgrip hennar: *kærleikann*. Þegar Benni Botton hratt henni og helti niður berjunum hennar, og hún fór svo að tína þau upp aftur, þá sá eg, að hún hafði aðra tvo skartgripi: *þolinmæði* og *umburðarlyndi*; hún reiddist ekki, hún sýndi hina fögru dygð: *blíðu*. Svo hafði hún annað skart, sem ég áleit dýrmætast af öllum skartgripunum hennar; þegar hún fékk ekki að taka þátt í leiknum, og sum börnin gjörðu gys að henni fyrir þá sök,

að kjóllinn hennar var ekki prýddur ýmiss vegar litum böndum og hatturinn hennar var ekki skreyttur fjöðrum og blómum, þá var hún ánægð og blíð í viðmóti, í stað þess að vera önug; ég sá, að hún hafði hið yndislega skart: *hógvært* og *þolinmótt hjarta*, sem er þóknanlegt fyrir augliti guðs. Haldið þið ekki, börn mín, (einnig þið sem þetta lesið), að Ella hafi verið vel búin? Það er einn ritningarstaður, sem ég vona að þið hugsið um. Ef til vill mun hann leiða ykkur til að líta fremur á *innri* kosti, heldur enn *ytra* skraut. Þetta er greinin: „Því menn líta á það sem fyrir augunum er, en drottinn lítur á hjartað“. (1. Sam. 16. 7). *Minerva.*

## Marteinn Lúter.

Marteinn Lúter var fæddur í bænum Eisleben á Saxlandi 10. nóv. 1483, ári fyrr en Jón biskup Arason. Foreldrar Lúters hétu Hans og Margrét. Vóru þau fátæk og lifði faðir hans af námavinnu. Bæði voru þau ráðvönd og ólst Lúter upp við strangan aga í foreldrahúsum. Snemma mun hafa orðið vart við, að Lúter væri búinn óvenjulega góðum gáfum, því að hann var sendur í skólann í Eisenach 15 ára gamall 1499, en svo var hann fátækur, að hann hafði ekki annað að borða en það, sem honum var gefið í gustuka skyni. Lúter var snemma hneigður fyrir söng, og hafði lært að blása á hljóðpípu í bernsku. Kom það honum að haldi í skólanum. Gekk hann fyrir húsdýr manna og blés pípu sína, og gáfu menn honum þá nokkra skildinga. Fór þessu fram um hríð, þar til kona nokkur tók hann að sér, er Ursula Cotta hét. Átján vetra að aldri var hann sendur til háskólans í Erfurt og átti hann að stunda þar lögfræði. Námi þessu hélt hann áfram í 4 ár, þangað til árið 1505. Þá vildi svo til, að hann hitti vin sinn myrtan, er Alexis hét, er Lúter ætlaði að heimsækja hann, og á heimleiðinni skall yfir afarmikið þrumuveður. Áður hafði Lúter verið gefinn fyrir glaum og gleði, en þetta hafði svo mikil áhrif á hann, að hann hélt það vera bending guðs til sín, skildi við félaga sína, gjörðist munkur og gekk í klaustur. Tók hann nú að lesa guðfræði af kappi miklu. Skömmu áður hafði hann séð biblíuna í fyrsta sinni á bókahlöðu háskólans og var hún rituð á latínu eins og flestar bækur þá á dögum, og gátu því ekki aðrir notað hana en lærðir menn, enda var öllum öðrum en prestum bannað að lesa í biblíunni. Segist Lúter hafa orðið forviða, er hann sá biblíuna. Því áður hélt hann, að ekki væri annað til af æfisögu Krists og ritum postulanna en guðspjöllin og pistlarnir, sem tónað var við messur á helgum dögum. — Eftir því sem Lúther las meira í ritningunni, sá hann æ betur og betur, að mennirnir höfðu aflagað guðs boð og að katólska kyrkjan lét kenna ýmislegt, sem var beint á móti biblíunni. Varð Lúther nú hugsjúkur og þunglyndur yfir því, hvernig hann ætti að öðlast fyrirgefningu synda sinna. Er þá sagt, að gamall munkur hafi huggað hann og sagt: „Ég trúi, að guð einn fyrirgefi syndirnar“.

Þegar Lúter hafði verið 2 ár í klaustrinu, tók hann prestvígslu 1507, en árið eftir var hann kosinn til kennara í guðfræði við háskólann í Wittenberg á Saxlandi. Borg þessi er skamt frá Erfurt, fyrir sunnan Saxelfi, og nú í löndum Prússakonungs. Fór Lúter brátt að prédika þar eftir áeggjan eins vinar síns, en ári síðar var hann kosinn til prests í Wittenberg og fór brátt af honum mikið orð fyrir mælsku, dugnað og starfsemi.

Um þessar mundir var spilling katólsku kyrkjunnar orðin svo mikil, að mörgum tók að ofbjóða. Lúter hafði farið til Rómaborgar




Marteinn Lúter.

árið 1511 í snöggum erindum, og sá þá, að prestastéttin þar lifði blygðunarlausu líferni. Páfinn í Róm þykist vera eftirmaður Péturs postula, og eigi því að vera æðsti byskup katólsku kyrkjunnar, og hafi hann vald frá guði til að opna himnaríki fyrir mönnum eða

loka því eftir vild sinni. Alment fékk þó enginn fyrirgefningu synda sinna nema hann iðraðist og vildi bæta ráð sitt, en smám saman tók kyrkjan að veita mönnum fyrirgefningu fyrir alls konar illgerðir, ef þeir greiddu henni peninga, og rakaði hún með því saman ógrynni fjár. Mest kvað að þessu á dögum Lúters. Sendimenn páfa fóru víða um lönd og seldu syndalausnarseðlana, og þar á meðal hingað til Íslands. Einn syndalausnarsalinn hét Jóhann Tezel, og fór hann víða um Þýzkaland og taldi fólki trú um, að engin væri sú synd, sem hann gæti ekki fyrirgefið þeim er vildu kaupa syndalausnarbréf, og gramdist Lúter mjög athæfi hans.

(Niðurlag).

## Haltu barnsins huga.

**Lauslega þýtt úr sænsku.**

Með bljúgum huga biddu
sem barn þinn guð um náð,
og fylg hans föðurboðum
og fel hans stjórn þitt ráð.

Þótt gráni höfuð-hárin
þitt hjarta barnslegt sé,
og beyg þig bljúgur niður
sem barn við drottins hné.

Og haltu barnsins huga,
þá helgan dýrðarkrans
þú hreppa munt á hæðum
við hjarta lausnarans.

*Lárus Sigurjónsson.*

## Mínerva.

Sum ykkar hafa máske heyrt Mínervu nefnda; svo hét mentagyðjan hjá Rómverjum. Margir hafa ort kvæði um Mínervu og sumir hafa líka látið heita í höfuðið á henni. Fyrsta blaðið, sem gefið hefir verið út af kvenmanni hér á landi, hét Mínerva. Það var lítil stúlka austur á Eskifirði, sem gaf þetta blað út. Það byrjaði 1. okt. 1893, og var þá skrifuð örk og kom út tvisvar í mánuði, seinna var það ekki nema hálf örk. Í fyrra hætti það að koma út, því þá flutti útgefandinn hingað til Reykjavíkur. Ykkur langar nú víst mikið til að vita, hver þessi útgefandi var. Hún heitir Guðrún Lárusdóttir, dóttir séra Lárusar Halldórssonar. Hún var svo ötul, að hún skrifaði 2 og 3 eintök af blaðinu, og efnið í það ýmist samdi hún eða þýddi. Blaðið var öllum, bæði börnum og fullorðnum, mjög kærkominn gestur. Ungfreyja Guðrún Lárusdóttir hefir eftirlátið „Æskunni“ nokkrar sögur úr Mínervu, og hélt ég, að ykkur þætti enn meira gaman að þeim, þegar þið vissuð um ætt þeirra og uppruna, og svo hélt ég, að ykkur þætti gaman að því, að lítil stúlka skyldi vera svona dugleg.

## Skrítlur.

Móðirin kemur að drengnum sínum, þar sem hann er að dýfa einni bókinni hans pabba sins ofan í vatnsbala. Hún spyr, hvers vegna hann geri þetta.

Drengurinn: „Ég geri það fyrir hann pabba, hann var að tala um í gærkveldi, að hún væri svo þur“.

## Gátur.

Átta á fönnum ýtti,
allmargur það nýtti,
helzt þegar foldin fraus;
á tuttugu hausum trýtti,
tíðum mjög sér flýtti;
öll voru augnalaus.
Eitt að auki var,
enginn sá þess far.
Gettu gátu mín,
glögg er vizkan þín.

**Afgreiðslustofa „Æskunnar“** (opin frá 10—4 og 5—7) er í **Þingholtsstræti 4.**

**Félagsprentsmiðjan.**

III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | Rvík, 30. október 1899. | Ritstjóri: Ólafía Jóhannsdóttir. | 2. tbl.

# ÆSKAN.

## Á himnum verður engum ofaukið.

(Lauslega þýtt úr ensku).

HÚN VAR lágvaxin, aldurhnigin kona, fötin hennar vóru mjög úrelt og fátækleg, og fólkið starði á hana, er hún gekk inn eftir kyrkjunni, auðsjáanlega til þess að verða sér úti um eitthvert bezta sætið. Í dag var kyrkjan þéttskipuð skrautbúnu fólki, því að þessu sinni sté í stólinn nafntogaður ræðumaður. Víða hafði orð farið af honum fyrir sakir gáfna og mælsku. Fólkið undraðist dirfsku gömlu konunnar. Hún hlaut að vera eitthvað geggjuð þessi gamla kona, því að nú snöri hún inn í kyrkjustólinn, þar sem ríkisfólkið hafði sæti sín, og settist þar niður. Þar sátu fyrir þjár hefðarfrúr, sem óðara gjörðu meðhjálparanum bendingu; hann laut að gömlu konunni og hvíslaði einhverju að henni, en hún var heyrnarsljó, brosti að eins við og sagði góðlátlega: „Það fer mikið vel um mig hér“.

„En þér eigið ekki að vera hér, það er ekki rúm fyrir yður hér“.

„Ekki rúm“, sagði gamla konan og leit á lélegu fötin sín og því næst á skrautklæði frúnna; „það er alls ekki þröngt um mig hér, ég ferðaðist tíu mílur, til þess að vera við þessa guðsþjónustu, því .....“

En nú tók meðhjálparinn all-óþýðlega í handlegginn á henni; henni skildist nú hvað þetta hefði að þýða, augu hennar fyltust tárum og munnurinn kipraðist saman, en hún stóð auðsveip upp úr sæti sínu; hún snöri sér við og sagði með mjög mikilli hógværð við frúrnar, sem nú gátu í góðu næði breitt skrautklæðin sín yfir sætið, sem hún hafði setið í: „Ég vona að á himnum verði ekki of þröngt um okkur; þar verði engum ofaukið“.



Adam og Eva í aldingarðinum Eden.

Síðan fylgdi hún meðhjálparanum utar eftir kyrkjunni; þar fékk hún sæti á milli berfættrar stúlku og töturbúins gamalmennis.

„Hún hlýtur að vera viti sínu fjær“, sögðu frúrnar, sem hún fyrst hafði setst hjá, „hvaða gagn getur gömul, fáfróð kona haft af að hlýða á ræður séra H.? Hún mundi ekki skilja þær“.

„Þetta fólk er svo þrálátt, ekki nema það þó að ryðjast inn í okkar stól! En þarna kemur séra H. út úr skrúðhúsinu. Er hann ekki fallegur?“

„Dæmalaust fallegur og karlmannlegur maður; hann ætlar að borða hjá okkur meðan hann dvelur hér“.

Hann litast hátíðlega um, rennir augunum eftir kyrkjunni eins og hann vilji rannsaka hvert einasta andlit; hann leggur höndina á biblíuna og gjörir meðhjálparanum bendingu um að finna sig. Hann hraðar sér að þóknast hinum víðfræga manni. En hvílík var undrun hefðarfrúnna, er þær sáu meðhjálparann ganga fram eftir kyrkjunni og sækja gömlu konuna, og setja hana í insta sæti kyrkjunnar, þar sem fólk það, er fyrir sat, þokaði til fyrir henni. Hinn mikli ræðumaður brosti vingjarnlega til hennar, og svo hófst guðsþjónustan. Ræða hans gekk öllum til hjarta.

„Hver er hún?“ spurðu frúrnar, sem ekki gátu setið hjá henni, þá er þær mættu meðhjálparanum að aflokinni guðsþjónustu.

„Móðir hans“ var svarið. *Minerva.*

---

## Marteinn Lúter.

(Niðurl.). Hallarkyrkjan í Wittenberg var um þessar mundir nýsmíðuð og átti að vígja hana á Allra-heilagra-messu 1517, en það var siður að festa ýmis ávörp og auglýsingar á kyrkjuhurðir við þau tækifæri. Kvöldið áður en kyrkjuvígslan átti að fara fram, festi Lúter upp stórt skjal í 95 greinum á hurð hallarkyrkjunnar, og sýndi þar fram á, að syndalausnarsalan væri fals eitt og svik. Er þetta talið upphaf siðbótarinnar. Þessari kenningu Lúters var tekið tveim höndum um alt Þýzkaland, en páfinn og prestarnir urðu reiðir honum, og stefndu honum til Rómaborgar til að verja mál sitt. Hefði hann mátt búast við því að verða þar líflátinn, því að svo var áður farið með þá, er settu sig upp á móti páfanum. Fyrir Saxlandi réð þá kjörfursti, er Friðrik hét, kallaður hinn vitri. Bjó hann í Wittenberg og var vinur Lúters og hjálpaði honum gegn ofsóknum páfa. Fékk hann því til vegar komið, að Lúter fór. að eins til Augsborgar á Suður-Þýzkalandi, og kom þangað umboðsmaður páfa til að prófa Lúter, en sendiboðinu varð undir í kappræðum þeirra. Skrifaði Lúter nú páfa og kvaðst ekki hafa ætlað að rísa gegn honum, heldur að eins syndalausnarsölunni, og leit nú út fyrir, að friður mundi verða á ný. En katólskir klerkar risu nú móti Lúter og áttu kappræður við hann um trúarbrögðin. Sýndi Lúter þá fram á, að margt væri rangt í kenningum katólsku kyrkjunnar. Bannfærði nú páfinn Lúter, en bannfæringin var í því fólgin, að sá bannfærði átti að rekast úr samfélagi manna og vera útilokaður frá náð guðs og miskunn um tíma og eilífð. Bannfæringu Lúters var tekið illa um alt Þýzkaland. Ritaði hann nú hverja bókina eftir aðra til að verja mál sitt, sagði skilið við katólsku kyrkjuna og fór með stúdentunum í Wittenberg og brendi þar bannfæringarbréfið og páfalögin 10. dec. 1520.

Vorið eftir hélt Karl V. Þýzkalandskeisari ríkisþing í borginni Worms í Würtenberg. Var Lúter stefnt þangað og gefið griðabréf til fararinnar. Töldu vinir hans hann af ferðinni, en hann fór engu að síður, og á hann að hafa sagt, að þótt í Worms væru eins margir illir andar og steinarnir þar á húsþökunum, færi hann engu að síður. Var þangað kominn mikill fjöldi fólks, og þegar inn í hölllina kom, sat keisarinn þar á hásæti og allir þjóðhöfðingjar Þýzkalands í gullskrúði sínu, en Lúter gekk fyrir þá í óbrotinni munkakápu. Spurði sendiherra páfans Lúter, hvort hann vildi taka aftur rit sín, en hann svaraði því, að svo framarlega sem honum yrði ekki sannað með skynsamlegum rökum og orðum ritningarinnar, að hann hefði rangt fyrir sér, tæki hann ekki aftur eitt orð, og endaði ræðu sína þannig: „Hér stend ég; ég get ekki annað. Guð hjálpi mér. Amen“.

Margir höfðingjar reyndu einslega að fá hann til að láta undan, en hann svaraði því, að „væri verk sitt frá mönnum, félli það, en væri það frá guði, megnaði enginn að kefja það“. Aðrir vildu láta taka hann af lífi þrátt fyrir griðabréfið, en þó varð það úr, að hann fékk að fara burtu í friði, en var síðan dæmdur útlægur. En á heimleiðinni lét Friðrik kjörfursti taka hann höndum og flytja í kastala þann, er Wartburg hét, og geymdi hann þar leynilega. Vissi enginn, hvar hann var niður kominn. Ritaði hann nú margt og byrjaði meðal annars að snúa ritningunni á þýzku, og var fyrsta þýzka biblían loks prentuð 1534. Þegar Lúter hafði verið 10 mánuði í Wartburg, flutti hann alt í einu aftur til Wittenberg, til að sefa óróa, sem kominn var upp meðal trúbræðra hans. Eftir það dvaldi hann í Wittenberg það sem eftir var æfinnar, og vann af alefli að útbreiðslu siðbótarinnar, enda breiddist hún út á stuttum tíma um alt Norður-Þýzkaland og þaðan til Danmerkur, Svíþjóðar, Noregs og Íslands. Allir þeir er sögðu skilið við katólska trú, voru kallaðir mótmælendur. Skiptast þeir í ýmsa flokka, og eru Lúterstrúarmenn einn af þeim. Einn af helztu vinum Lúthers hét Filippus Melanchton, háskólakennari í Wittenberg; studdi hann Lúter eftir megni, og ritaði hann bók þá, er kölluð er Ágsborgar-trúarjátning, sem næst biblíunni er helzta trúarbók Lúterstrúarmanna. Sjálfur ritaði Lúther margt og er eitt hið helzta af því „fræðin“, sem prentuð eru í barnalærdómsbókinni. Auk þess var Lúther skáld og hefir hann meðal annars ort sálminn: „Vor guð er borg á bjargi traust“, og sömuleiðis samið lagið við hann. Þó Lúter ætti stöðugt í erfiði vegna trúarinnar, var hann gleðimaður mikill í frístundum sínum. Honum er lýst svo, að hann hafi verið meðalmaður á hæð, í viðmóti var hann kurteis og vingjarnlegur, laus við alla sérvizku og hroka, og sami á að hitta hver sem í hlut átti. Hann var starfsamur mjög og lagði mikið að sér með lestur og skriftir. Í samkvæmi var hann hinn viðræðubezti og glaðlyndasti og þó vel stiltur; þótt honum mætti eitthvað mótdrægt, var eigi að sjá, að hann léti slíkt á sér festa. Málrómur hans var skýr og skær. Raddmaður var hann mikill á yngri árum og mjög gefinn fyrir söng og hljóðfæraslátt. Sagði hann söngfræðina eina hina fegurstu list, sem hresti menn oft meira en matur og drykkur.

Lúter andaðist 18. febr. 1546 á 63. aldursári í Eisleben, þar sem hann fæddist, og var hann grafinn í Wittenberg, en trú sú, er hann kendi, hefir lifað og breiðst út til þessa dags.

## Mikill munur.

EINU sinni var maður á ferð í ókunnu kaupstaðarþorpi, og er hann hafði lokið erindum sínum, fór hann að svipast eftir hestinum sínum og sá, að hann var horfinn; þá kom hann auga á lítinn dreng, er var að leika sér. „Hefir þú ekki séð hann Skjóna minn, drengur litli“, sagði maðurinn. „Já“, svaraði drengurinn og gekk til hans. „Hann hvarf ofan fyrir húsið þarna, ég skal sækja hann snöggvast fyrir yður“. Að svo mæltu hljóp drengurinn af stað og kom að vörmu spori aftur með hestinn. „Hér er nú hesturinn yðar“, sagði drengurinn, „hann er ljómandi fallegur“. „Já“, svaraði maðurinn, „ég þakka þér kærlega fyrir; en hvað heitir þú, drengur minn?“ „Gunnar Jónsson“, svarar hann. „Það er svo“, svaraði maðurinn og tók 5 aura upp úr vasa sínum og fékk drengnum. „Fyrirgefðu, Gunnar litli, ég hef ekki meira til að borga með greiðvikni þína og kurteisi“. „Þakka yður kærlega fyrir“, mælti

drengurinn mjög glaður, og að svo mæltu kvöddust þeir.

Að 10 árum liðnum var sami maðurinn aftur á ferð í þessum kaupstað; hann sá hóp af piltum vera að spjalla saman. Hann víkur þá að einum þeirra og mælti: „Hvað heitið þér, piltur minn?“ „Gunnar Jónsson“, svaraði hinn mjög dramblega. „Einmitt það“, svaraði maðurinn, „ég hef séð yður þegar þér voruð drengur; munið þér ekki þegar þér sóttuð hestinn fyrir mig forðum?“ „Nei, ég hef nú aldrei bókað það hjá mér“, svaraði Gunnar og glotti til félaga sinna. „Það getur nú vel verið“, mælti maðurinn, „en viljið þér nú ekki lofa mér að bæta upp borgunina fyrir það, sem þér sóttuð hestinn minn, því nú hefi ég meiri peninga, en ég hafði þá“. Hann rétti Gunnari tveggja krónu pening, en Gunnar svaraði honum með þjósti, að hann væri enginn gjafaþurfi, og vék sér um leið á burt með félögum sínum og hló hæðnislega. Maðurinn stóð eftir og horfði á eftir þeim. Fyrir 10 árum hafði litli drengurinn með greiðvikni sinni og hógværð vakið gleði og ánægju í huga hans, en nú áleit hann sig vera orðinn mikinn mann; hann var hættur að vera barn og viðmót hans og andsvör skildu eftir sorg og tómleika hjá manninum, sem hafði komið til hans glaður og í góðum tilgangi. — Gleðin býr hjá þeim, sem eru hógværir og af *hjarta* lítillátir.

*Ingibjörg Benediktsdóttir.*

## Smávegis.

### Móðurást hundsins.

Í Miklagarði (Konstantínópel) er fjöldi af hundum, sem enginn á né hirðir um; flakka þeir fram og aftur og eiga við bág kjör að búa. Einu sinni hitti hjartagóð kona svona hund með 3 hvolpum, skinhoraðan og auman útlits. Konan fór heim til sín með hundinn, lét hún einn hvolpinn lifa, en tveimur lét hún drekkja í sjónum. Að vörmu spori var hundurinn og hvolpurinn horfinn og fundust hvergi. Loksins fanst hundurinn niður undir bryggju nokkurri, hann var rennandi votur og af sér kominn af þreytu, hvolpurinn lá hjá honum og kæmi nokkur nærri þeim, urraði hann og sleikti hvolpinn. Menn reyndu að ná honum heim aftur, en það var ómögulegt; hann sýndist ekki geta staðið upp fyrir þróttleysi. Konan tók þá hvolpinn heim með sér, því hún hélt að hundurinn mundi deyja innan skamms þar sem hann var kominn. En morguninn eftir, þegar komið var á fætur, lá hundurinn hjá hvolpinum og var dauður.

Menn héldu, að hundurinn hefði synt út í sjó að leita að hvolpunum sínum, sem drekt var, og þegar svo seinasti hvolpurinn var tekinn frá honum, hefði hann dregist svona dauðvona til þess að komast þangað, sem hann hafði von um að finna hann. Konan gat ekki tára bundist, þegar hún sá hvað vesalings hundurinn hefði verið tryggur við ungana sína.

## Fyrir eina krónu!

*Nýir kaupendur að næsta (III.) árg. „Æskunnar“ fá I. og II. árg. blaðsins innheftan fyrir að eins* **eina krónu.** *En borgun fyrir I. og II. árg. verður að fylgja pöntun.*

*Jólablaðið verður sent kaupendum utan Rvíkur í byrjun nóvembermán. Það verður* **ekki** *sent* **þeim,** *sem enga skilagrein hafa gert fyrir borgun á að minsta kosti I. árg. blaðsins, fyrri en þeir hafa gert hana.*

**„Æskan“**

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun ¹/₅, ekki gefin af færri en 3 eintökum.

**Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvittérar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan




III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | Rvík, 20. nóvember 1899. | Ritstjóri: Ólafía Jóhannsdóttir. | 3. tbl.

## Rauðu skórnir.

(Eftir C. H. Andersen.)

EINU sinni var lítil stúlka, yndislega fögur, en hún var svo fátæk, að á sumrin varð hún að ganga berfætt, en á veturna varð hún að ganga á tréskóm, svo að allir fæturnir á henni urðu blóðrisa.

Í miðjum bænum bjó skósmiðskonan; hún saumaði skó úr rauðum tuskum handa litlu stúlkunni, sem hét Karen; skórnir vóru ósköp ljótir og ósnotrir, en skómiðskonunni gekk gott til að gefa Karenu litlu þá.

Það var sama daginn, sem jarða átti móður hennar, að henni voru gefnir skórnir; það átti nú raunar ekki vel við að vera með rauða skó við sorgarathöfn, en hún átti enga aðra skó, og svo fór hún berfætt í skóna, og gekk á eftir fátæklegu líkkistunni hennar móður sinnar. Í sama bili kom stór, gamall vagn, og í honum sat öldruð kona stórvaxin. Hún horfði á litlu stúlkuna og sárvorkendi henni; „Gefið þér mér liltu stúlkuna“, sagði hún við prestinn, „ég skal vera henni góð“.

Karen hélt, að öll þessi gæði væru skónum að þakka, en gamla frúin sagði, að það væri ósköp að sjá þá, og lét brenna þá. Karen var klædd í hrein og snotur föt; henni var kent að lesa og sauma, og fólk sagði, að hún væri laglegasta barn; en spegillinn sagði: „Þú ert meira en lagleg, þú ert skínandi falleg.“

Nú var drotningin á ferð um landið og í för með henni var dóttir hennar, lítil stúlka. Allir þutu upp til handa og fóta, og röðuðu sér fyrir framan höllina til þess að fá að sjá konungsdóttirina. Karen fór líka. Konungsdóttirin var í mjallhvítum kjól og stóð upp í hallarglugganum, til þess að allir gætu horft á hana; hún hafði enga kórónu, en á fótunum hafði hún rauða saffían-skó. Það var eitthvað annað, en rauðu tuskuskórnir, sem skómiðskonan hafði gefið Karen. Ekkert í heiminum gat jafnast við rauða saffíanskó.

Karen var nú komin að fermingu; hún fékk falleg ný föt, og nýja skó átti hún líka að fá. Skósmiðurinn átti fallega verkstofu inni í borginni; þangað fór Karen til þess að láta taka mál af fótunum á sér. Í stofunni stóðu stórir skápar með glerhurðum og í þeim vóru alls konar skór og gljáandi stígvél. Þau vóru ljómandi falleg, en gömlu frúnni var farin að förla sjón, og því hafði hún ekki ánægju af að horfa á þau. Á meðal hinna

skónna stóðu rauðir skór, alveg eins og skórnir konungsdótturinnar. En hvað þeir voru fallegir! Skósmiðurinn sagði líka, að þeir hefðu verið búnir til handa greifabarni, en að þeir hefðu ekki verið mátulegir.

„Þeir eru víst úr gljáleðri“, sagði gamla frúin, „þeir eru svo gljáandi“.

„Já, þeir eru gljáandi“, sagði Karen. Skórnir vóru mátulegir, og þær keyptu þá, en frúin vissi ekkert um það, að þeir vóru rauðir, því að hún hefði aldrei látið það viðgangast að Karen væri fermd með rauða skó á fótunum.

Allir horfðu á fæturnar á henni, og þegar hún gekk inn kyrkjugólfið, sýndist henni eins og allar gömlu myndirnar á legsteinunum, myndirnar af prestunum og prestkonunum með háu krögunum og síðu, svörtu klæðunum, væru að hofa á rauðu skóna. Hún hugsaði um ekkert nema rauðu skóna meðan presturinn lagði höndina á höfuð henni og talaði um heilaga skírn og sáttmálann við guð, og um það, að nú væri hún komin í tölu fullorðinna kristinna manna. Orgelslátturinn var svo hátíðlegur, fögru barnsraddirnar sungu og gamli forsöngvarinn söng, en Karen hafði allan hugann á skónum.

Um kvöldið var gamla konan búin að frétta, að skórnir hefðu verið rauðir. Hún sagði að þetta væri ljótt, og ætti ekki að eiga sér stað; hún sagði Karenu, að hún yrði alt af að vera með svarta skó, þegar hún færi í kyrkju, og það þó þeir væru gamlir.

Næsta sunnudag var altarisganga; Karen horfði á svörtu skóna og hún horfði á rauðu skóna — hún horfði aftur á rauðu skóna og lét þá á sig.

Það var glaða-sólskin og bezta veður; Karen og gamla frúin gengu götuna, sem lá um kornakurinn; þar var ofurlítið ryk.

Við kyrkjudyrnar stóð gamall hermaður með hækju og nokkuð undarlegt skegg, því að það var rauðleitt og meira að segja blóðrautt. Hann laut niður og spurði gömlu frúna, hvort hann ætti ekki að þurka rykið af skónum hennar. Karen rétti litla fótinn líka fram. „Sjáum við! hvaða undur eru þetta fallegir dansskór“! sagði dátinn; „tollið þið vel, þegar þið dansið“, og hann sló hendinni neðan á skóna.

Gamla frúin gaf dátanum skilding og gekk síðan með Karenu inn í kyrkjuna.

En alt fólkið í kyrkjunni horfði á rauðu skóna hennar Karenar, og allar myndirnar horfðu á þá, og þegar Karen kraup við altarið og bergði á gullkaleiknum, hugsaði hún um ekkert annað en rauðu skóna; það var eins og þeir syntu í kaleiknum; hún gleymdi að syngja sálminn og hún gleymdi að lesa Faðir-vorið. Allir fóru úr kyrkjunni, og gamla frúin steig inn í vagninn sinn. Karen lyfti fætinum til þess að stíga inn í vagninn; þá mælti dátinn, sem stóð rétt hjá: „Sjáum við; en hvað þetta eru fallegir dansskór!“ Og Karen gat ekki að sér gert; hún steig nokkur dansspor, og fæturnir héldu áfram að dansa. Það var eins og skórnir stýrðu þeim; hún dansaði fyrir kyrkjuhornið, hún gat ekki að þessu gert. Ökumaðurinn hljóp á eftir henni og greip utan um hana; hann lyfti henni inn í vagninn, en fæturnar héldu áfram að dansa, svo að hún sparkaði ósköpin öll í gömlu frúna. Loksins náðust skórnir af henni og þá kyrðust fæturnir.

Þegar heim kom, vóru skórnir látnir upp í skáp, en Karen gat ekki stilt sig um að horfa á þá.

Nú lagðist gamla frúin veik, fólk sagði að hún mundi deyja. Það þurfti að hlynna að henni, og það var engum skyldara en Karenu. En inni í borginni átti að vera fjölmennur dansleikur og Karenu var boðið þangað. — Hún horfði á gömlu frúna, sem gat ekki átt langt eftir ólifað; hún horfði á rauðu skóna;

það fanst henni mundi vera syndlaust. — Hún setti upp rauðu skóna, það mátti hún þó að minsta kosti. — En svo fór hún á dansleikinn og tók að dansa. En þegar hún ætlaði til hægri handar, þá dönsuðn skórnir til vinstri handar, og þegar hún ætlaði inn eftir gólfinu, þá dönsuðu skórnir fram eftir gólfinn, niður tröppurnar, yfir strætin og út um hliðið. Hún dansaði og varð að halda áfram að dansa, alla leið út í koldimman skóginn.

Þá sá hún glampa á eitthvað á milli trjánna; hún hélt að það væri tunglið, því að það var að sjá eins og andlit; en það var gamli dátinn rauðskeggjaði; hann sat og kinkaði kolli og mælti: „Sjáum við, en hvað þetta eru fallegir dansskór“.

Þá varð hún hrædd og ætlaði að fleygja skónum, en þeir náðust ekki af fótunum. Hún tætti af sér sokkana, en skórnir voru grónir fastir við fæturna, og hún dansaði og dansaði, yfir ekrur og engi, í regni og sólskini, nætur og daga; en óttalegast var að verða að dansa á næturnar.

Hún dansaði inn í kyrkjugarðinn, en dauðir menn dansa ekki, þeir una við annað betra, en að dansa. Hún settist á gröf fátæklingsins, þar sem hið bragðbeizka ormagras vex, en hún mátti ekki hvíla sig, og þegar hún dansaði að kyrkjudyrunum, sá hún engil í síðum klæðum mjallhvítum, vængirnir náðu ofan að jörðu, hann var strangur á svipinn og alvörugefinn, og í hendinni hélt hann á stóru blikandi sverði.

„Þú verður að dansa“, mælti hann, „dansa á rauðu skónum þínum, þangað til þú ert orðin föl og köld, þangað til hörund þitt er orðið hrukkótt eins og á beinagrind! Þú verður að dansa frá einu heimili til annars, og þar sem drambsöm og hégómleg börn eiga heima, verður þú að berja að dyrum, svo þau heyri til þín og hræðist þig; þú verður að dansa, dansa!“.

„Miskunn!“ hrópaði Karen, en hún heyrði ekki, hverju engillinn svaraði, því að skórnir báru hana út úr sálarhliðinu, út á akrana, yfir vegi og stígu, og alt af varð hún að dansa hvíldarlaust. (Niðurl. næst).

---

## Vitur hestur.

Á Hjaltlandseyjum eru hestarnir litlir, minni en hér á landi. Margar sögur eru til um það, hvað hestar þessir séu vitrir, og skal hér greind ein þeirra.

Fyrir nokkrum árum var maður þar á eyjunum, er hét Vilhjálmur Sinclair, hann var kennari, og keypti hann sér hest til að ríða á milli skólans og heimilis síns, sem lá allfjarri skólanum. Hesturinn, sem Vilhjálmur keypti, hafði aldrei verið járnaður. Þegar Vilhjálmur eignaðist hann, lét hann járna hann. Nokkru seinna sér smiðurinn, sem járnað hafði hestinn, einn dag, hvar hesturinn kemur labbandi að smiðjunni, sem lá æði langt frá heimili hans. Hesturinn var berbakaður og beislislaus, svo smiðurinn hélt að hann mundi vera að strjúka og henti steini að honum, svo hann skyldi snúa við. Hesturinn snéri við, en jafnskjótt og smiðurinn tók að vinna, labbar hann að smiðjudyrunum. Smiðurinn ætlaði að reka hann burtu á ný, en þá verður honum litið á fæturna á hestinum og sér hann þá að skeifan er undan öðrum framfætinum. Hann járnaði hestinn á fætinum, en beið við til að gefa klárnum gætur. Hesturinn horfði snöggvast á smiðinn, svo spyrnti hann fætinum við stein eins og hann væri að reyna hvort skeifan væri nú vel föst. En þegar hann fann að svo var, hneggjaði hann ánægjulega og hljóp

á stað heim til sín. Vilhjálmur skildi ekkert í því að búið var að járna hestinn og spurði smiðinn, hvernig þessu viki við, og fanst honum mikið til um viturleik hestsins, þegar hann frétti, hvernig í öllu lá.

(Þýtt úr Sjæleliv og Intelligens hos Dyr, eftir Einar Aas).

## Í Íshafinu.

Þið hafið sjálfsagt oft heyrt talað um hafísinn. Hann þykir voðagestur, þegar hann kemur og fyllir hér firði og flóa, svo allar



bjargir eru bannaðar. En það eru fleiri en við Íslendingar, sem þykir hafísinn voðagestur. Mörgu skipinu hafa ísjakarnir grandað. Þið sjáið á myndinni þeirri arna, hvað ógurlegir þeir eru, og þó felst mörgum sinnum meira af þeim niður í sjónum, en upp úr stendur. Þegar jakarnir berast á skipin, liðast þau öll sundur. Þið getið því nærri, hvað óttalega þeir eiga þá bágt, sem á skipunum eru. Ísbjörninn kann samt mæta vel við sig á hafísnum, hann gengur eftir jökunum eins og sléttasta þilfari og fer með þeim landa á milli. Þið munið víst eftir því, að Grettir glímdi einu sinni við ísbjörn, og var það eitt af hans mörgu hreystiverkum. Bjarnarfeldir þóttu mesta konungsgersemi í gamla daga og voru oft vel launaðir.

## Kongulóin.

Ég var að spinna vef í runnanum, sagði kongulóin, og á hússvölunum sat lítil stúlka og var að bæta svintuna sína. En hvað eftir annað hljóp snurða á tvinnann og hann dróst úr nálinni; þá vöknaði litlu stúlkunni um augun. „Ég get ekkert saumað“, sagði hún, „ég get það ekki“.

Þá kom móðir litlu stúlkunnar og bað hana að líta á mig. Ég var að spinna vefinn minn, en þegar ég var búin að spinna skínandi fallegan spotta og ætlaði að festa hann í greininni, svifti vindurinn honum sundur. Svona fór það hvað eftir annað, en loksins tókst mér samt að festa hann, og svona gekk það koll af kolli. Þá brosti móðir litlu stúlkunnar. „Þykir þér ekki kongulóin þolinmóð?“ sagði hún. Litla stúlkan fór að brosa og tók aftur til vinnu sinnar. Og þegar sólin rann til viðar, var kongulóin búin að spinna undrafallegan vef, og litla stúlkan búin að bæta svintuna sína mæta vel.

*Þýtt.*

**Afgreiðslustofa „Æskunnar“** (opin frá 10—4 og 5—7) er í **Þingholtsstræti 4.**

**Félagsprentsmiðjan.**

# ÆSKAN.

| III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. nóvember 1899. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 4. tbl. |
|---|---|---|---|---|

## Húsið mitt.

LESENDUR Æskunnar búa í margskonar húsum; sumir búa í timburhúsum, aðrir í steinhúsum eða torfbæjum. Sum hús eru *lítil*; önnur stór. Í sumum húsum eru mörg herbergi; en í öðrum er ef til vill að eins eitt herbergi. Svo eru húsin líka með mörgum litum; og engin tvö hús eru til algerlega eins að öllu, svo að engu muni. En allir eiga líka annars konar hús, alveg út af fyrir sig. Þau hús eru öll bygð úr sama efni, í þeim eru jafnmörg herbergi, og í þeim er öllu raðað eins niður.

Nú heyri ég sum af ykkur segja: „Ég veit, við hvað þú átt, þetta eru líkamir vorir".

Þetta er öldungis rétt tilgáta. Og ef þú athugar vandlega þetta hús, sem guð hefir gefið þér til að búa í, þá muntu taka undir með Davíð konungi: „Ég lofa þig, Drottinn, sem gerðir mig svo dásamlega; og sála mín kannast við, hversu að verkin þinna handa eru dásamleg."

Þið munuð hafa veitt því eftirtekt, að í steinhúsum liggur hver steinninn ofan á öðrum og við hliðina á öðrum, og eru því óteljandi steinar í hverju húsi. Þannig er líkami vor myndaður úr óteljandi smáögnum, og eru þær svo smáar, að þær sjást ekki nema í beztu smásjá. Þegar vér nú göngum eða stökkum, tölum, hugsum eða yfir höfuð að tala hreyfum oss á einhvern hátt, deyja nokkrar af þessum smáögnum eða „cellum" og aðrar nýjar koma í þeirra stað. Og eru þær svo líkar hinum, að ómögulegt mundi að sjá þeirra nokkurn mun. Því fer líka betur, því að annars mundi útlit vort innan skams breytast svo, að beztu vinir vorir þektu oss ekki, né vér þá.

Meðan maður er barn og unglingur, stækkar líkamsbyggingin svo ótt, að útlit hennar breytist árlega. Þegar húsið okkar þarfnast meira efnis, svengir okkur. Og á meðan vér sofum, myndast nýjur „cellur" í líkamanum; af því er það, að vér erum svo hressir, þegar vér vöknum á morgnana, en þið verðið að muna eftir einu. Það þarf að vera hreint og gott loft þar sem þið sofið, til þess að þið hafið full not af svefninum, því að loftið, sem þið andið að ykkur, er eitt af fæðu líkamans, og sé það ekki hreint og heilnæmt, getur byggingin ekki orðið traust og falleg.

Vísindamennirnir, sem hafa nákvæmlega rannsakað eðli mannlegs líkama, segja oss, að hann sé að nokkru leyti gerður af sama efni eins og húsin okkar eru. Rauði liturinn á blóðinu kemur af járni, sem er í því. Sum af efnum þeim, sem gler er búið til úr, eru líka í nöglunum og hárinu. Beinin eru að mestu leyti úr kalki. Húsið okkar mundi brátt hrynja, væri því ekki séð fyrir nægum kalkbirgðum.

Húsið okkar er bygt og því er haldið við með því sem við borðum. Auðvitað borðum við ekki járn og kalk, en jurtirnar gera það fyrir okkur, og þegar við borðum jurtirnar, eru þessi efni í þeim. Ef líkaminn fær ekki næglilegt og hagfelt viðurværi, eða vér borðum of mikið eða of lítið, þá missir hann heilbrigði sína og sýkist.

## Rauðu skórnir.

(Eftir C. H. Andersen).

(Niðurlag).

Einn morgun dansaði hún fram hjá dyrum, sem hún kannaðist vel við. Inni var verið að syngja sálma; það var borin út blómþakin kista, þá vissi hún, að gamla frúin var dáin, og henni fanst sem hún ætti engan að og engill guðs hefði lagt bölvan yfir sig.

Hún varð að halda áfram að dansa, bjarta daga og dimmar nætur. Skórnir báru hana yfir þyrnirunna og stofnana, sem stóðu eftir, þegar trén vóru feld í skóginum. Hún reif fæturna til blóðs. Hún dansaði yfir móana þangað til hún kom að afskektu húsi. Þar vissi hún að böðullinn átti heima, og barði á rúðuna með fingrinum og mælti: „Komdu út! — komdu út! — Ég kemst ekki inn, því að ég verð að dansa“.

En böðullinn sagði: „Þú veitst líklega ekki, hver ég er? Ég hegg höfuðið af vondum mönnum, og núna finst mér glímuskjálfti í öxinni minni.“

„Högg þú ekki af mér höfuðið!“ mælti Karen, því að þá get ég ekki iðrast synda minna, en högðu af mér fæturnar með rauðu skónum!“. Síðan játaði hún synd sína, og böðullinn hjó af henni fæturna með rauðu skónum, en skórnir dönsuðu með litlu fæturna yfir akra og engi, og langt inn í skóginn.

Böðullinn tálgaði tréfætur og hækjur handa henni og kendi henni sálm, sem syndararnir syngja. Hún kysti höndina, sem beitt hafði öxinni, og hélt á stað út á móinn.

„Nú hefi ég liðið nógu mikið sakir rauðu skónna!“ mælti hún, „nú ætla ég að fara í kyrkju, svo að allir sjái mig“. Og hún gekk rakleiðis að kyrkjudyrunum; en þegar hún kom þangað, dönsuðu rauðu skórnir fyrir framan hana, og hún varð hrædd og snéri aftur.

Alla vikuna var hún hrygg í huga og grét sáran, en á sunnudaginn mælti hún. „Nú hefi ég liðið og barist nógu lengi; ég er varla verri en margir, sem sitja hnakkakertir í kyrkjunni. Og hún gekk hugrökk til kyrkjunnar; en hún komst ekki lengra en að sáluhliðinu; þá sá hún rauðu skóna dansa á undan sér, og hún varð hrædd, sneri aftur og iðraðist synda sinna af öllu hjarta.

Hún fór til prestsins og spurði, hvort hún gæti ekki komist þar í vist, hún skyldi vera iðin og vinna alt, sem hún gæti; það gerði ekkert til þó hún fengi ekkert kaup, ef sér væri að eins lofað að vera hjá góðum mönnum. Prestskonan kendi í brjósti um hana og lofaði henni að vera. Hún var iðin og fáorð. Þegar presturinn las upphátt í biblíunni á kvöldin, sat hún kyrlát og hlustaði á. Öllum börnunum þótti vænt um hana, en þegar þau töluðu um skart og hvað gaman væri að vera eins falleg og drotning, þá hristi hún höfuðið.

Næsta sunnudag fóru allir til kyrkju; hún var spurð, hvort hún ætlaði ekki líka til kyrkju, en hún leit tárvotum augum á hækjurnar sínar; og svo fór hitt fólkið að hlusta á Guðs orð. En hún gekk ein inn í herbergi sitt; það var ekki stærra en svo, að þar gat staðið rúmið hennar og einn stóll. Hún settist niður með sálmabókina sína, og las í henni bljúg í huga. Þá barst orgelhljómurinn heim í litla herbergið hennar. Hún lyfti tárvotum augunum til himins og bað í hjarta sínu: „Drottinn miskunna þú mér“.

Þá ljómaði sólin um herbergið, og hún sá engil guðs í hvítum klæðum, sama engilinn, sem hún hafði séð um nóttina í kyrkjudyrunum, en nú bar hann ekki sverð, hann hélt á iðgrænni grein í hendinni, þakinni fegurstu rósum. Og hann snerti loftið með henni, en það hækkaði, og þar sem greinin hafði komið við það, blikaði gullstjarna. Hann snerti

veggina með greininni, en þeir fluttust sundur og hún sá orgelið; hún sá gömlu myndirnar af prestunum og prestskonunum; hún sá kyrkjufólkið, það sat í stólunum og söng í sálmabókunum sínum, því að kyrkjan var komin til vesalings stúlkunnar, heim í litla herbergið hennar. Eða var hún komin til kyrkjunnar? Hún sat hjá prestkonunni, og þegar sálmurinn var sunginn til enda, leit prestskonan á hana og sagði: „Það var rétt gert af þér að koma, Karen“.

„Það var miskunn“, mælti hún.

Og orgelið hljómaði, og barnaraddirnar í kórnum sungu svo viðkvæmt og yndislega. — Sólin skein inn um gluggann, hún skein á kyrkjustólinn þar sem Karen sat. Hjarta hennar fyltist unaði, friði og gleði, það brast af sælu. En sólskinið bar sál hennar til guðs og þar spurði enginn um rauðu skóna.

## Hafmeyjan.

(Eftir H. C. Andersen).

Langt úti á hafinu er sjórinn blár eins og ný-útsprungin blásóley, og tær eins og fágað gler; en hann er ákaflega djúpur; engar akkerisfestar mundu ná þar niður á sjávarbotn, og það þyrfti að láta marga kyrkjuturna hvern ofan á annan til þess að þeir stæðu upp úr sjónum. En þarna niðri á mararbotni býr sæfólkið.

Þið haldið máske, að þarna sé ekkert nema sléttur, hvítur sandbotninn. En það er öðru nær. Þar vaxa undursamleg tré og jurtir; leggirnir og blöðin sveigjast fram og aftur einsog þau væru lifandi, hvað lítið sem sjórinn hreyfist. Og fiskarnir skjótast milli greinanna. rétt eins og fuglarnir í loftinu. Þar sem sjórinn er allra dýpstur, stendur höll sækonungsins. Veggirnir eru kurélsmiði. Gluggarnir eru háir og oddmyndaðir og gerðir úr tærasta rafi, en þakið er gert af kráknskeljum, sem opnast og lokast eftir því sem sjórinn hreyfist. Það er unun að horfa á þakið, því að í hverri skel liggur dýrindisperla, og væri ein slík perla mesta prýði á kórónu drotningar.

Sækonungurinn hafði verið ekkjumaður um mörg ár, en móðir hans var ráðskona hjá honum. Hún var vitur kona, en þóttist mjög af tign sinni, því bar hún tólf ostrur á sporðinum; en hitt heldra fólkið mátt eigi hafa nema sex. — Að öðru leyti var hún bezta kona, einkum sýndi hún það í því, hvað henni þótti vænt um litlu kongsdæturnar, sonardætur sínar. Þær vóru sex, allar yndislega fallegar, en allra fegurst var yngsta systirin. Hörund hennar var mjúkt og bjart eins og rósarblað, og augu hennar vóru blá eins og sjórinn, þar sem hann er dýpstur; en fætur hafði hún enga, það var fisksporður á henni eins og öllum marbendlum.

Allan daginn léku kongsdæturnar sér þarna í höllinni, inni í stóru sölunum, þar sem lifandi blóm spruttu út úr veggjunum. Þegar rafgluggarnir voru opnaðir, syntu fiskarnir inn um þá eins og svölurnar fljúga inn til okkar, þegar gluggarnir standa opnir á sumrin; en fiskarnir syntu alveg að kongsdætrunum, borðuðu úr lófum þeirra og lofuðu þeim að klappa sér.

Fyrir utan höllina lá stór aldingarður. Í garðinum stóðu dimmblá og eldrauð tré, en ávextirnir glóðu eins og gull og blómin vóru eins og logandi eldur, því að blöð og leggir vóru á sífeldri hreyfingu. Jarðvegurinn var smágjörvasti sandur, en hann var blár eins og brennisteinslogi. Undarlegur blár bjarmi lá á öllu. Það var líkara því að maður stæði hátt uppi í loftinu og sæi ekkert nema himinhvolfið alt í kring um sig, en að maður stæði niður á mararbotni. Væri blæalogn, eygði

maður sólina. Hún sýndist vera purpurablóm og allir geislarnir sýndust skína frá bikar þess. Allar litlu kongsdæturnar áttu ofurlítinn blett í garðinum út af fyrir sig. Þar gat hver þeirra sáð því, sem hana langaði mest til, og hagað öllu að vild sinni. Ein þeirra lét blettinn sinn vera í laginu eins og hvalfisk; annari þótti fallegra að hafa hann líkan hafmeyju, en yngsta systirin gerði blettinn sinn kringlóttan eins og sólina, og blómin í honum vóru rauð eins og hún. Yngsta kongsdóttirin var ólík öðrum börnum, hún var hóglát og fámál, systur hennar skreyttu í kring um sig með alls konar undarlegum hlutum, er sjórinn bar að höllinni, þegar skipin fórust og sukku í hafið, en hún vildi ekki prýða með neinu nema rauðu blómunum sínum, sem vóru lík sólunni, og með mjallhvítri marmaralíkneskju. Líkneskjan var af yndislega fögrum dreng og hafði borist þangað af skipreka. Bak við líkneskið gróðursetti hún blóðrauðan tárvið, og hann óx og varð svo stór, að greinarnar hengu fram yfir líkneskjuna og niður að bláa sandlaginu, þar sem skugginn lá fjólublár og hreyfðist eins og greinarnar; það var eins og ræturnar og efstu greinarnar léku sér að að kyssast.

En mesta skemtun hafði hún af því að heyra sagt frá mannheimum. Amma hennar varð að segja henni frá öllu, sem hún vissi um skipin og borgirnar, mennina og dýrin. Það fanst henni inndælast af öllu, að í mannheimum skyldi blómin ilma, því að það gerðu ekki blómin hennar á mararbotninum, og að skógarnir skyldu vera grænir, og fiskarnir, sem sveimuðu á milli greinanna, geta sungið hátt og yndislega, svo unun væri að hlusta á þá. Það vóru fuglarnir, sem amma hennar hafði kallaði fiska, því að annars hefðu kongsdæturnar ekki skilið hana; þær höfðu aldrei á æfi sinni séð fugla. (Frh.)

## Skrítlur.

“Nú er ég alhvít eins og engill“, sagði Anna, þegar hún var komin í nýju jólafötin sín. „Það eru bara skórnir mínir, sem eru svartir. Ég þyrfti endilega að fá *hvíta* skó*svertu*.“

Tannlæknir sagði við mann, sem gapti voðalega: „Þú þarft ekki að gapa meira, ég ætla að standa fyrir utan munninn á þér á meðan ég dreg út tönnina“.

Maður nokkur sagði eitthvað svo fjarska fyndið yfir borðum, að allir borðgestirnir skelli-hlógu, nema einn. Þegar hann fékk hljóð, sagði hann: „Það var svo sem ekkert merkilegt, þótt hann segði þetta; ég skyldi hafa sagt það sjálfur, ef mér hefði dottið það í hug“.

A.: „Hvar hefirðu séð fagurt andlit?“
B.: „Í speglinum“.

Móðirin: „Þú ættir að taka honum Páli, telpa mín, hann er meir en fullgóður handa þér; mesti ráðdeildarmaður og flugríkur.“

Dóttirin: „Ég vil ekki sjá hann; hann er svo ljótur; t. d. er nefið á honum svo langt, að hann verður að ganga langan veg til þess að ná til að snýta sér“.

Ráðning gátunnnar í 1. tölublaði:

Skaflajárnaður hestur.

„Æskan“
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun ⅕, ekki gefin af færri en 3 eintökum.

Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvittérar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 15. desember 1899. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 5. tbl.

## Máttarviðirnir í húsinu mínu.

Máttarviðirnir í líkama okkar eru beinin. Hversu mörg eru þau? „Tuttugu og fimm“, svara sumir. „Fimtíu“, segja aðrir. En hvorugt er rétt, — þau eru um tvö hundruð að tölu.

Þegar bein er brent, verður það hvítt og brotnar auðveldlega, já, það getur jafnvel dottið sundur af sjálfu sér. Það kemur til af því, að í beininu er svo mikið kalk. Sé það aftur á móti lagt í eins konar sýru, verður það svo mjúkt og lint, að hægt er að leggja það saman og hnýta hnút á það. Þetta sýnir, að í beinunum eru tvens konar ólík efni

Í ungbörnum eru beinin lin og beygjanleg en í gömlu fólki stökk og brothætt. Þess vegna ættu barnfóstrur að gæta þess, að fara varlega með börnin, svo að bein þeirra aflagist ekki.

Eins og þið vitið, er það maturinn, sem viðheldur líkamanum. Þegar þú t. d. borðar bita af grófu brauði, þá breytist nokkur hluti þess í kalk, sem myndar beinin, og aðrir hlutar líkamans fá næringu úr því. Á þennan hátt styrkist og viðheldst hús þitt daglega.

Í góðu hveitibrauði er mikið af þeim efnum, sem mynda beinin, og sömuleiðis í rúgbrauði. Til þess að styrkja og herða beinin er því bezt að brúka gróft brauð. Hin svonefnda „enska sýki“, sem börn fá svo oft, er afleiðing af því, að bein þeirra hafa ekki fengið nóga næringu.

Utan um beinin er hörð skel, en að innan eru þau linari, svo að blóðið getur runnið í gegn um þau.

Tennurnar eru taldar með beinunum í líkamanum. Til þess að þær verði sterkar og færar um að vinna það verk, sem þeim er ætlað, verðum við að borða þann mat, sem mikið þarf að tyggja, t. d. hart brauð.

---

## Hafmeyjan.

(Eftir H. C. Andersen).

(Framh.)

„Þegar þið eruð orðnar 15 ára gamlar“, sagði amma þeirra, „megið þið fara upp úr hafinu, sitja á klettunum í tunglskininu og horfa á skipin, sem sigla fram hjá; og þá fáið þið að sjá skógana og borgirnar!“ — Á næsta ári var elzta systirin 15 ára, en hinar, —já, aldursmunur þeirra allra var eitt ár, svo að yngsta systirin varð að bíða enn þá í 5 ár, áður en hún fengi að koma upp úr hafinu og sjá, hvernig umhorfs væri hjá mönnunum. En systurnar lofuðu að segja hver annari frá því, sem þær hefðu séð og þótt fallegast fyrsta daginn, — því amma þeirra sagði þeim ekki nóg; það var svo margt, sem þær þurftu að fá að vita.

Engin systranna var eins löngunarfull og sú yngsta, — hún, sem einmitt átti þó lengst að bíða, og var svo kyrlát og hugsandi. Oft stóð hún á nóttunni við gluggann og horfði upp í gegn um dökkblátt hafið, þar sem fiskarnir léku sér með sporðaköstum. Hún sá tunglið og stjörnurnar; reyndar sást það óljóst, en í gegn um vatnið sýndist alt stærra

en fyrir okkar augum. Stundum var sem ský svifi fyrir tunglið, en það var annaðhvort hvalur, sem synti langt uppi í hafinu, eða skip með mörgum mönnum, sem var að sigla uppi á haffletinum. Skipverjum hefir víst ekki dottið það í hug, að niðri á hafsbotni væri fögur hafmey, sem breiddi út snjóhvítar hendurnar á móti þeim.

Nú var elzta systirin 15 ára og mátti því fara upp á sjávarflötinn.

Þegar hún kom heim aftur, hafði hún frá mörgu að segja. En skemtilegast hafði henni þótt að liggja í tunglsljósinu á sandrifi í logninu og horfa á stóru borgina á ströndinni, þar sem ljósin blikuðu eins og ótal stjörnur, og að heyra hljóðfærasláttinn og ysinn og hávaðann í vögnum og mönnum, að sjá hina mörgu og háu kyrkjuturna og heyra þegar klukkunum var hringt. Einmitt af því, að hún gat ekki komist upp þangað, langaði hana mest til þess.

Yngsta systirin hlustaði með mikilli athygli á sögu systur sinnar.. Og þegar hún stóð við opinn gluggann um kvöldið og horfði upp í gegnum dökkblátt hafið, hugsaði hún um stóru borgina með hávaðann og ysinn, og hún þóttist heyra hljóminn af klukknahringingunni.

Árið eftir var annari systurinni leyft að stíga upp úr hafinu og fara hvert sem hún vildi. Hið fyrsta, sem hún sá, var sólsetrið, og þótti henni sú sjón hin fegursta. Allur himininn var sem gull og fegurð skýjanna gat hún ekki fullkomlega lýst; rauð og fjólublá ský svifu hátt yfir höfði hennar, en svanahópur flaug miklu hraðara yfir sjónum eins og löng hvít blæja í áttina til sólarinnar; hafmeyjan tók að halda þangað, en þá hvarf sólin, og rósbjarminn sloknaði á hafinu og skýjunum.

Næsta ár fór þriðja systirin af stað. Hún var djarfari en hinar systur hennar, og synti því upp eftir breiðri á, sem rann í sjóinn. Hún sá grænar, fallegar hæðir með vínviði, og hallir og búgarðar sáust þar innan um skrautlega skóga. Hún heyrði fuglasöng, og sólarhitinn var svo sterkur, að hún varð að stinga sér í vatnið til að kæla andlit sitt. Í vík einni lítilli hitti hún hóp af smábörnum; þau voru allsber að busla og vaða í vatninu og vildi hún leika sér með þeim, en þá urðu þau hrædd og hlupu burtu. Þá kom þangað lítið, svart dýr; það var hundur, en hún hafði aldrei séð hund. Hann gelti svo mikið að henni, að hún varð hrædd og hélt til hafs. En aldrei gat hún gleymt fallegu skógunum, grænu hólunum og laglegu börnunum, sem gátu synt í vatninu, þótt þau hefðu engan sporð.

Fjórða systirin var ekki eins huguð. Hún nam staðar langt úti á hafi. Þar þótti henni skemtilegast að vera, því þaðan sá hún margar mílur alt í kringum sig og himininn sýndist sem stór glerhjálmur yfir öllu. Hún sá skip langt í burtu, sem sýndust eins og veiðibjöllur; höfrungar vóru þar að leika sér, og stórir hvalir spýttu sjónum hátt í loft upp alt í kringum hana, svo það var líkast því, að það væru gosbrunnar.

Nú hafði fimta systirin náð aldurstakmarkinu. Afmælisdagur hennar var um vetur, og því fékk hún að sjá það, sem hinar systurnar höfðu ekki fengið að sjá í fyrsta skifti.

Sjórinn var grænleitur og alt í kring vóru stórir ísjakar, sem litu út eins og perlur, en vóru þó miklu stærri en kyrkjuturnarnir, sem mennirnir byggja, sagði hún. Þeir voru í ýmsum myndum og glóðu eins og demantar. Hún settist á stærsta jakann; en öll skip, sem framhjá fóru, forðuðust að koma nærri henni, þar sem hún sat og lét vindinn leika sér að langa hárinu sínu. Um kveldið varð himininn alþakinn skýjum, og þrumur og eldingar dundu yfir. Sjórinn lyfti ísjökunum

hátt upp, svo eldingabjarminn brotnaði á þeim. Skipverjar tóku saman seglin og ótti og hræðsla gagntók þá. En hafmeyjan sat róleg á ísjakanum sínum og horfði á, hvernig eldingarnar leiftruðu í krákustígum frá skýjunum og niður í sjóinn.

Í hvert skifti sem einhver af systrunum kom heim úr hinni fyrstu ferð sinni, var hún mjög hrifin af öllu því nýja og fallaga, sem hún hafði séð. En þegar þær nú sem fullorðnar stúlkur máttu fara upp úr sjónum, hvenær sem þær vildu, þótti þeim það minna gaman. Þær vildu þá helzt vera heima, og eftir einn mánuð sögðu þær, að hvergi væri eins skemtilegt og þar.

Á kveldin tóku systurnar oft höndum saman og svifu í röð upp í gegn um hafið. Þær höfðu fagra söngrödd, — fegurri en nokkur maður. Þegar tók að hvessa, og útlit var fyrir að skip mundu farast, syntu þær fyrir framan skipin og sungu svo yndislega um það, hversu fagurt væri á sjávarbotninum, og að skipverjar skyldu ekki óttast að koma þangað. En sjómennirnir skildu ekki mál og söng hafmeyjanna og héldu að það væri stormurinn. Og þeir fengu ekki heldur að sjá dýrðina á hafsbotninum, því þegar skipið sökk, drukknuðu mennirnir, og bárust sem liðin lík að höll sækonungsins.

Þegar systurnar svifu í röð upp á hafið á kvöldin, stóð yngsta systirin alein eftir og horfði á eftir þeim. Þá langaði hana til að gráta, en hafmeyjarnar geta ekki felt tár, og þess vegna verður sorgin þeim þungbærari.

„Æ, ég vildi ég væri orðin 15 ára“, sagði hún, „ég er viss um, að mér mun þykja vænt um heim mannanna og líka um mennina, sem búa í honum“.

Loks varð hún 15 ára.

„Nú mátt þú fara“, sagði amma hennar. „Komdu nú og lofaðu mér að skreyta þig ofurlítið eins og systur þínar“. Og hún setti krans, sem búinn var til úr hvítum liljum, á höfuð hennar, en hvert blað á blómunum var perluhelmingur. Svo festi hún átta stórar ostrur á sporð prinsessunnar, til þess að sýna ættgöfgi hennar.

„Ég kann illa við alt þetta skart“, sagði litla hafmeyjan.

„Ja, það verður maður að þola vegna skartsins“, sagði amma hennar.

Ó, hversu fegin hefði hún viljað vera laus við alt þetta skraut og þennan þunga krans. Rauðu blómin í garðinum hennar hefðu prýtt hana langt um meira, en þau mátti hún nú ekki brúka. „Vertu sæl“, sagði hún, og sveif svo létt eins og vatnsbóla upp í gegnum hafið.

Sólin var nýsezt, þegar hafmeyjan lyfti höfði sínu upp úr sjónum, en skýin ljómuðu enn þá sem gullrósir og kveldstjarnan tindraði svo skært og fagurt á ljósrauðan himininn; loftið var holt og hressandi og hafið kyrt. Hún sá stórt, þrísiglt skip, sem hafði þó að eins eitt segl uppi, því enginn byr var: en skipverjar sátu uppi á rám og reiða. Söngur og hljóðfærasláttur heyrðist, og eftir því sem myrkrið færðist yfir, fjölguðu marglitu ljósin, sem kveikt vóru á skipinu; var það líkast því sem flögg allra þjóða blöktu í loftinu. Þegar hafmeyjan var að synda í kring um skipið, sá hún í gegn um glugga margt prúðbúið fólk niðri í skipinu, en fallegastur allra var þó litli kóngssonurinn með svörtu augun. Hann var 16 ára og í dag var afmælisdagurinn hans; þess vegna var öll þessi viðhöfn. Skipverjar dönsuðu á þilfarinu og þegar prinsinn kom upp til þeirra, þeyttust hundrað flugeldar upp í loftið, sem varð bjart eins og um hádegi, svo hafmeyjan varð dauðhrædd og flýtti sér í kaf; en bráðum kom hún upp aftur og þá var eins og allar stjörnur himinsins væru að hrynja. Aldrei hafði hún séð slíkt ljósaskraut. Stórar sólir

hringsnerust í loftinu, glóandi eldfiskar sveimuðu þar og alt þetta spegladi sig í tærum og kyrrum sjónum. Á skipinu var svo bjart, að hægt var að greina hvern streng á því, hvað þá mennina. Ó, hvað prinsinn var fallegur, og hann tók svo vingjarnlega í hendurnar á fólkinu og hló og talaði, en hljóðfærasláttur-inn hljómaði í næturkyrðinni.

Það var komið langt fram á nótt. En hafmeyjan gat ekki haft augun af skipinu og fallega prinsinum. Það var búið að slökva skrautljósin og flugeldarnir sáust ekki lengur; engin fallbyssuskot heyrðust, en langt neðan úr hafinu heyrðist þungur niður, hafið fór að ókyrrast. Hún sat á öldunum og lét þær hossa sér, svo að hún gæti séð inn um skipsgluggann. Skipið sveif nú áfram með meiri hraða en áður, enda var nú hvert seglið dregið upp eftir annað. Öldurnar stækkuðu, himinninn varð skýjaður og eldingar sáust í fjarska. Það var auðséð, að óveður var í aðsigi, og því drógu skipverjar öll segl niður aftur. Skipið hossaðist á himinháum öldunum, sem risu eins og fjöll, er ætluðu að hrynja yfir skipið; en það dýfði sér eins og svanur niður í öldudalina og hóf sig svo aftur upp á öldhryggina. Hafmeyjan hélt, að þetta væri hin bezta skemtun, en það þótti skipverjum ekki. Það brast og brakaði í skipinu og hinir sterku viðir bognuðu fyrir ofurefli sjávarins.

Ein siglan brotnaði, eins og það væri strá, og skipið kastaðist á hliðina, svo að sjórinn rann ofan í það. Nú sá hafmeyjan, að hætta var á ferðum, og hún varð að gæta þess, að meiða sig ekki á brotunum úr skipinu, sem flutu á sjónum. Stundum var svo dimt að ekkert sást, en á næstu sekúndu lýstu eldingarnar svo, að hún sá mennina á skipinu, sem var að sökkva; einkum tók hún eftir prinsinum, og bráðum sá hún hann skolast af þilfarinu og niður í hafið. Fyrst varð hún gagntekin af gleði yfir því, að hann kom niður í sjóinn til hennar, en svo mundi hún það, að mennirnir geta ekki lifað í vatni, og prinsinn gæti því ekki komist lifandi niður í höll föður hennar. Nei, hann mátti ekki deyja. Hún synti því innan um brotin úr skipinu, þótt það væri mikil hætta, og leitaði að prinsinum, og hætti ekki fyr en hún fann hann að fram kominn af þreytu og kulda Hann gat ekki synt lengur, því fætur og handleggir vóru orðnir máttlausir og hann lagði aftur augun. Hann hefði dáið þarna, ef hafmeyjan hefði ekki komið að bjarga honum. Hún hélt höfði hans upp úr vatninu og lét svo bylgjurnar bera sig hvert sem verða vildi. (Frh.).

## Skrítlur.

„Vertu sæll, góði minn“, sagði kona nokkur við manninn sinn, þegar hann kvaddi hana. „Ó, ég er svo hrædd um þig, þegar þú ert á sjónum!“.

„Vertu óhrædd, elskan mín“, svaraði hann, „ég vona að ég lifi það aldrei að sjá þig ekkju“.

„Dæmalaust held ég að hann Villi verði góður prestur“, sagði móðir hans, „ég vildi óska að ég lifði það, að hann héldi yfir mér líkræðuna!“

## Gátur.

Hvernig ferðu að skifta níu í tvo jafna parta, svo helmingurinn verði fjórir?

Hvernig sannar þú það, að fleiri þurfi til þess að gera fjóra en fimm?

**Afgreiðslustofa „Æskunnar“** (opin frá 10—4 og 5—7) er í **Þingholtsstræti 4.**

**Félagsprentsmiðjan.**




III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | Rvík, 24. desember 1899. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 6. tbl.

## Þrettándakvöldið.

Mamma mín átti ekkert barn nema mig, og stundum setti hún mig á kné sér, strauk kollinn á mér og kysti mig, og sagðist ekkert eiga í heiminum nema mig; hún sagði að ég væri svo lík pabba mínum, sem Guð hefði tekið frá okkur áður en ég hefði þekt hann, og þegar hún sagði þetta, fann ég stundum brennheit tár koma við andlitið á mér, þegar hún kysti mig. Þá lagði ég hendurnar um hálsinn á henni og kallaði hana hjartans beztu mömmu mína, og mig langaði þá svo fjarska-mikið til að verða gott barn og ó-sköp þæg við hana, og að verða bráðum stór og sterk, svo að hún þyrfti ekki alt af að vinna og vera þreytt.

Oft sagði hún mér sögur, og mér þótti helmingi skemtilegra að hlusta á þær en að vera úti og leika mér. Hún sagði mér oft frá því, þegar hún hefði verið lítil stúlka, og frá jólunum sagði hún mér líka.

Hún sagði að það væri svo undarlegt að hugsa um, hvernig jólin hefðu verið þegar maður var barn; ef ég lifði það að verða fullorðin, þá mundi ég líka reyna þetta, en enn þá bæri ég ekki skyn á það. Hún sagði, að þegar hún hugsaði um jólin, þá fyndist sér alt orðið aftur eins og þegar hún hefði verið lítið barn; þá minti sig að alt af hefði verið snjór um jólin, og snjórinn hefði gljáð og blikað eins og mjallhvít flauelsábreiða al-sett gljáandi demöntum alla vega litum, og alt af hefði verið tunglskin og himinninn al-stirndur, en klukknahljómurinn ómaði í kvöld-kyrðinni. Svo sæi hún litla herbergið, sem foreldrar hennar áttu heima í, og alt væri hlýtt og bjart og firnunum fágað, og meira að segja sæi hún sjálfa sig nýgreidda og nýþvegna með bláan silkispotta um hárið, spánnýja rósótta sirzsvintu og skó með hvít-um eltiskinnsbryddingum.

Einu sinni sagði hún að sér hefði verið gefin 2 jólakerti og gulur glerstjaki, og ann-að kertið hefði hún geymt þangað til á þrettánd-anum; þá hefði leiksystir sín, sem hét Sigríður, komið til sín og verið hjá sér um kvöldið, og þær hefðu brent upp kertinu og borðað allar lummurnar, sem amma mín hefði gefið þeim. En þegar alt þetta var búið, hefðu þær farið út til þess að sjá brennu, sem haldin var um kvöldið uppi hjá Skólavörðu. Hitt fólkið var að spila, og þær töluðu ekk-

ert um þetta, en fóru leyfislaust á stað. Svo gengu þær upp Skólavörðustíginn, til þess að leita að brennunni, en þær fundu enga brennu og viltust upp í holtið, því alt var þakið í snjó og tunglið ekki komið upp. Svo viltust þær lengra og lengra út í holtið og Sigga litla var farin að hágráta. Mamma sagðist líka hafa orðið hrædd, en þegar Sigga hefði farið að gráta, sagðist hún hafa hert upp hugann og sagt við Siggu, að nú skyldu þær lesa allar bænirnar sínar svo að þær fengju að koma til Guðs, ef þær dæju úti í kuldanum í nótt; annaðhvort kæmust þær svo heim eða þær fengju að koma til Guðs, og þar væri svo fagurt og yndislegt. Þær leiddust svo og lásu allar bænirnar sínar. Eftir litla stund hefðu þær svo séð dálítinn hól, sem þær þektu að var Steinkudys, og þá könnuðust þær við veginn, sem lá rétt fyrir neðan dysina. Það var komið miðnætti þegar þær komu heim og fólkið var að leita að þeim um alt dauðhrætt. Mamma sagðist hafa sagt frá, hvernig þær hefðu vilst, en hún hefði ekki orðið mjög hrædd af því að hún og Sigga hefðu kunnað svo margar bænir, en þegar hún var komin inn, fór hún samt að gráta af kulda og hræðslu, og aldrei sagðist hún hafa gleymt þessu þrettándadagskvöldi, og aldrei gleymt því, hvað fegin hún hefði orðið þegar hún fann veginn aftur. En mest hefði hún samt hugsað um það, hvað hún hefði huggast við að lesa bænirnar sínar og hugsa um það, að ef hún ekki kæmist heim, þá lofaði Guð sér að koma til sín og frelsarans. Svo kysti hún mig og sagði að ég skyldi aldrei gleyma bæninni minni og aldrei gleyma því, að hvað langt sem ég viltist í lífinu, út í kulda og dimmu, þá stæðu föðurhúsin á himnum mér opin og þar væri bjart og hlýtt og eilíf jól og gleði. Nú er mamma mín farin til Guðs fyrir löngu, og það eru mörg ár síðan að ég skildi alt, sem hún sagði mér um blessuð jólin barnanna, en minnisstæðast af öllu hefir mér verið það, sem hún sagði mér um þrettándadagskvöldið og bænirnar sínar, og ég trúi því, að sál hennar, sem nú hvílist í Guði, viti það, að þegar dimmast og kaldast hefir verið í kring um mig og ég hefi vilst lengst út í heiminn, þá hafa bænirnar komið mér á réttan veg aftur.

## Kátt er um jólin.

„Kátt er um jólin,  
koma þau senn“,  
góðu börnin gamna sér  
og gleðja sig enn.  
Fara þau úr skólanum,  
því fríið er byrjað,  
fagnað er þeim heima;  
þar er dansað glatt og kyrjað.  
Kátt er um jólin.

Kátt er um jólin,  
koma þau brátt;  
jóla-gjafir gefast þá  
og glatt er og kátt.  
Safnast menn og saman koma,  
sorgirnar dvína.  
Bágt á hver sem aleinn er  
með alla harma sína.  
Kátt er um jólin.

Br. K.

## Hafmeyjan.

(Eftir H. C. Andersen).

Framh.

Morguninn eftir var veðrið orðið gott. Ekkert sást eftir af skipinu. Þegar sólin reis fagurrauð úr hafinu og skein á andlit prinsins, var eins og nýtt líf færðist í hann, en augun vóru enn þá lokuð. Hafmeyjan strauk

rennvott hárið frá háa, fallega enninu á honum og kysti það. Henni sýndist hann líkur marmaralíkneskjunni, sem hún átti niðri í garðinum sínum. Hún kysti hann aftur og óskaði, að hann fengi að lifa.



Í jólafríinu.

Þegar hún fór að horfa í kring um sig, sá hún að skamt var til lands. Þar vóru há, blá fjöll með snjóþakta tinda, sem vóru til að sjá eins og svanir. Niðri við ströndina vóru grænir skógar, og þar var kyrkja

eða klaustur; hvort heldur var, vissi hún ekki, en einhver bygging var það. Sítrónutré og síneplatré uxu þar í garðinum, og fyrir framan dyrnar vóru há pálmatré. Fram undan var dálítil vík. Það var blæjalogn, en dýpi mikið alveg upp að klettinum, sem sjórinn hafði sópað hvíta sandinum upp á. Þangað synti hafmeyjan með prinsinn, lagði hann í sandinn, og gætti þess vandlega, að sem bezt færi um höfuð hans.

Nú heyrði hún að hringt var klukkunum í stóru hvítu byggingunni og margar ungar stúlkur komu út í garðinn. Þá synti hafmeyjan út á víkina og faldi sig milli steina, sem stóðu upp úr sjónum, lét sjávarfroðu á höfuð sitt og brjóst, svo að enginn skyldi sjá sig, og hafði svo nákvæmar gætur á, hvort nokkur kæmi til prinsins. (Frh.)

## Að gera öðrum gott.

Einu sinni var móðir, sem hafði þá venju, að láta börnin sín segja sér á hverju kveldi, áður en þau háttuðu, hvað mikið þau hefðu þann dag stuðlað að því að gera aðra hamingjusama. Eitt kveld fékk hún ekkert svar hjá litlu systrunum, sem vóru tvíburar. Loks tók önnur þeirra þannig til máls:

„Ég get ekki munað, að ég hafi í dag gert nokkuð, sem gott er, en þegar ein af skólasystrum mínum gladdist svo mjög af því, að hún komst ofar í skólann, þá samgladdist ég henni, hljóp til hennar og kysti hana, og þá sagði hún að ég væri góð. Þetta er alt“.

Hin systirin kvaðst enn minna hafa að segja. Samt byrjaði hún bljúg í huga: „Lítil stúlka, sem sat við hliðina á mér í skólanum, hefir mist bróður sinn. Og í dag, þegar hún var að lesa leksíuna sína, laut hún niður að bókinni og grét. Ég kendi sárt í brjósti um hana, grúfði höfuð mitt niður að bókinni hennar og grét líka. Hún leit upp, og lagði hendurnar um hálsinn á mér. En ég veit ekki, af hverju hún sagði, að ég hefði gert sér svo mikið gott“.

„Elskulegu börnin mín“, sagði móðir þeirra og faðmaði þau bæði að sér. „Þið hafið í dag breytt eftir hinni fögru kenningu frelsarans: að gleðjast með glöðum og hryggjast með hryggum“. (Þýtt af J. H.)

Maður nokkur var kærður fyrir það, að hafa tekið þátt í samsæri. Þegar átti að taka hann fastan, fanst hann ekki, en konan hans var grunuð um að hafa falið hann. Hún var yfirheyrð og dómarinn spurði, hvort það væri satt, að hún hefði falið manninn sinn. „Já“ svaraði hún einarðlega. „Það eina, sem getur frelsað yður frá hegningu fyrir það“, sagði dómarinn, „er það, að þér segið tafarlaust, hvar þér hafið falið hann“. „Er það áreiðanlegt, að ég sleppi undir eins þegar ég hefi sagt, hvar ég hefi falið hann?“ spurði konan. „Já“, svaraði dómarinn, „þér megið reiða yður á það.“

„Jæja,“ svaraði konan,“ ég hefi falið hann í hjarta mínu.“ Dómarinn varð að sleppa henni.



**„Æskan“**

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert Sölulaun 1/5, ekki gefin af færri en 3 eintökum.**

**Þorv. Þorvarðarson** prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur mót borgun og kvittérar fyrir o. s. frv.

Félagsprentsmiðjan

# ÆSKAN.

| III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 15. janúar 1900. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 7. tbl. |
|---|---|---|---|---|



## Fimmtíeyringurinn.

---

LENGST inni í þröngum dal, sem heitir Fossárdalur, bjó fátæk ekkja, sem hét Guðrún; hún átti einn son, sem hét Jón og var á öðru árinu þegar pabbi hans dó. Hún bjó í svolitlum bæ. Göngin vóru svo lág að hún varð að beygja sig, þegar hún gekk inn eftir þeim, en í baðstofunni gat hún staðið upprétt, og þegar hún sat á rúminu sínu og spann á rokkinn sinn, þá gat Jón litli að eins smeygt sér fyrir aftan rokkinn fram

með hinum rúmstokknum. Hann átti engin gull, nema kindarleggi og kindarvölur; leggirnir vóru hestarnir hans og sauðirnir, en völurnar vóru ærnar hans, og svo átti hann gleypibein og það kallaði hann lömb. En reiðhesturinn hans var brotið hrífuskaft, sem kaupakonan braut einu sinni, þegar hún var að raka þúfurnar á túninu. Aldrei átti hann neitt jólakerti og engin spil, en fyrir jólin fékk hann skó með hvítum þvengjum og blákembda sokka. Mamma hans fór í kaupstaðinn einu sinni á sumri með einn hest í taumi og á honum flutti hún ullina af kindunum sínum og smjörhnyðling, sem hún safnaði á vorin eftir fráfærurnar, því hún átti 5 ær. Og þegar hún kom úr kaupstaðnum, kom hún með hagldabrauð í klút. Þá gaf hún Jóni litla eina högld og sykurmola, en hitt geymdi hún til jólanna, og þá fékk hann bæði högld og lummu úr bankabyggsmjöli og sykur skafinn út á. Þegar hann var átta ára, fór hann að sitja yfir ánum fyrir mömmu sína. Hún gaf honum hálfa köku, lagða saman, og smjör á milli, áður en hann fór á stað, og kysti hann og bað hann að muna eftir, að ærnar væru jafnmargar og fingurnir á hendinni á honum og bera sig að koma heim þur í fæturna. Nonna litla þótti skelfing vænt um mömmu sína og vildi ósköp hjálpa henni það sem hann gat, og iðinn var hann að læra að lesa, en það var enginn á bænum, sem gat kent honum að skrifa né reikna; það var ekki nema eitt vinnuhjú fyrir utan mömmu hans.

Jón litli hafði aldrei séð peninga, nema nokkra skildinga, sem mamma hans geymdi í klútshorni niðri í kistli, til að gjalda í útsvarið sitt. Hún vafði klútnum vandlega utan um þá og Jóni fundust peningar mundi vera eitthvert dýrmæti, sem honum varla datt í hug að óska sér að eignast nokkurn tíma.

Það komu nær aldrei gestir þangað, það lá langt frá næstu bæjum og Guðrún var fátæk og þekti fáa. En einu sinni kom þar vel búinn maður lausríðandi með hest í taumi; hann hafði vilst ofan af heiðinni í þoku. Hann bað um að fylgja sér fram á veginn, og Jón litli gerði það. Þá var hann orðinn 12 ára og átti lamb, sem mamma hans hafði gefið honum undan Tvíhyrnu, fallegustu ánni sinni, og þótti honum svo vænt um lambið, að hann var alt af að telja á fingrum sínum, hvað margar vikur væru til rétta, þegar lambið hans kæmi af fjöllum, og alt af var hann að hugsa um, hvað stórt það yrði. Þegar ókunni maðurinn kom að veginum, fór hann ofan í vasa sinn og tók upp peningabuddu, sem hann opnaði. Jón litli stóð alveg utan við sig af að sjá, hvað margir peningar vóru í buddunni, gljáandi hvítir og rauðleitir og einn fagurgulur. Maðurinn tók skínandi hvítan silfurpening upp úr buddunni og gaf Jóni fyrir fygldina, svo kvaddi hann Jón og reið burtu í loftinu. Jón stóð eftir og hélt á peningnum milli fingranna alveg eins og hann skildi ekkert í þessu, svo fór hann að skoða hann og hugsa um, hvað þetta mundi nú vera miklir peningar. Loksins lét hann peninginn ofan í vestisvasa sinn, en hélt samt utan um og svo labbaði hann á stað heim, en við og við tók hann peninginn upp úr vasa sínum og horfði á hann. Þegar hann kom heim, sýndi hann mömmu sinni peninginn og svo sýndi hann vinnukonunni hann og kaupamanninum, sem átti að vera eina viku til að slá túnið. Hann sagði Jóni, að þetta væri fimtíu aurar, það væri jafnmikið eins og hálf króna. (Framh.)

## Hafmeyjan.

(Eftir H. C. Andersen).

Framh.

Eftir litla stund kom þangað ung stúlka, Hún varð fyrst hrædd, er hún sá prinsinn,

en svo fór hún að sækja fleira fólk. Hafmeyjan sá, að prinsinn fór að rakna við og brosti við þeim, er í kring um hann vóru, en við henni brosti hann ekki, enda vissi hann ekki, að hún hafði bjargað lífi hans. Þetta hrygði hana; og þegar hún sá að prinsinn var borinn heim í stóru bygginguna, hélt hún af stað hrygg í huga heim í höll föður síns.

Lengi hafði hún verið kyrlát og hugsandi, en nú varð hún það enn meira. Systur hennar spurðu hana, hvað hún hefði séð á ferð sinni, en hún sagði þeim frá engu.

Oft fór hún bæði kvöld og morgna þangað sem hún hafði skilið við kóngssoninn. Hún sá, að ávextirnir í garðinum þroskuðust og vóru teknir af trjánum; hún sá snjóinn bráðna af fjallatindunum, en kóngssoninn sá hún ekki, og hélt ávalt heim í þyngra skapi en hún kom. Þegar hún var heima, var það hin eina skemtun hennar, að sitja í litla garðinum sínum og vefja höndunum um marmaralíkneskjuna, sem var svo lík kóngssyninum; hún hætti alveg að hirða blómin sín, og þau uxu yfir gangana og fléttuðu blöðin saman við trjágreinarnar, svo að dimt varð af skugga þeirra.

Að lokum fanst henni söknuðurinn óbærilegur, svo hún sagði einni af systrum sínum frá því, sem fyrir sig hafði komið, en þá komust allar hinar systurnar að því og vinur þeirra sögðu sínum beztu vinum frá því. Ein þeirra vissi, hver kóngssonurinn var. Hún hafði séð viðhöfnina á skipinu og vissi hvaðan hann var og hvar kóngsríkið hans var.

„Komdu, systir góð!“, sögðu hinar kongsdæturnar, og þær tóku hver yfir um aðra og syntu í löngum röðum þangað sem höllin kóngssonarins lá.

Höllin var bygð úr ljósgulum, gljáandi steini; marmara-rið lágu upp að dyrunum og lá eitt alveg ofan að sjó. Yfir þakinu lágu logagyltar hvelfingar og alt í kring um höllina vóru súlna-raðir, en á milli súlnanna stóðu marmaramyndir, sem sýndust lifandi. Gegn um gluggana, sem vóru háir og spegilfagrir, sást inn í dýrlega sali, tjaldaða silki, en á gólfinu lágu skrautlegar ábreiður og á veggjunum héngu fegurstu málverk. Í miðjum stærsta salnum var gosbrunnur, og þeyttist vatnið upp undir glerhimin í loftinu, en sólin skein á vatnið og blómin sem uxu í vatnsleginu.

Nú vissi hún, hvar hann átti heima, og synti þangað margt kvöldið og marga nóttina. Hún synti miklu nær landi, en systur hennar höfðu þorað að fara. Já, hún synti upp eftir mjóum skurði, sem lá inn undir marmarasvalir, er köstuðu skugga langt yfir á vatnið, og þaðan horfði hún á kóngssoninn, sem hélt að hann væri aleinn í tunglsljósinu.

Margt kvöld sá hún hann sigla í undurfallegum bát; fánar blöktuðu á stöfnunum og hljóðfærasláttúrinn ómaði í kveldkyrðinni. Hún gægðist fram úr iðgrænu sefinu, og þegar vindurinn lyfti silfurhvítu blæjunni hennar og einhver kom auga á hana, héldu menn það væri álft, sem lyfti upp vængjunum.

Oft heyrði hún fiskimennina, sem sátu á miðum á næturnar, vera að tala um kóngssoninn og hrósa honum fyrir mannkosti hans. Þá gladdist hún af að hafa bjargað lífi hans, þegar hann barst meðvitundarlaus í hafrótinu; hún hugsaði um, hvað fast hann hafði hvílt á barmi hennar, og hvað hún kysti hann þá innilega. En hann vissi ekkert af þessu; hann gat ekki einu sinni dreymt hana.

Henni fór að þykja vænna og vænna um mennina og löngun hennar fór vaxandi að mega vera hjá þeim. Henni fanst þeirra heimur miklu stærri en sinn. Þeir sem gátu flogið yfir sjóinn á skipum, klifrað upp á hæstu fjallahnúka, hærra en skipin sveimuðu,

og hún eygði ekki út yfir landið þeirra, þakið skógum og ekrum. Það var svo margt, sem hana langaði til að vita um, en systur hennar gátu ekki frætt hana um það nærri alt, og því spurði hún ömmu sína, því hún þekti vel mannheima, sem hún kallaði „löndin hinumegin hafsins“. (Framh.)

## Tóbakið

er banvænt eitur. Eitrið í tóbakinu heitir Nikotín.

Það er Nikotínið, sem veldur þessum einkennilegu áhrifum tóbaksins. Nikotínið er eitt hið eitraðasta efni sem til er. Alkunnur læknir einn segir svo um það:

Nikotínið er voðaeitur, sem læknar eru mjög hræddir við. Þeir nota það aldrei.

Þó einhver taki inn of mikið af ópíum, má takast að lækna hann, sömuleiðis þekkjast ráð við arsenik-eitrinu, en við nikotineitrinu er ekkert meðal til. Þessi sami læknir segist einu sinni hafa notað uppleyst nikotín við háls á sjúkling, sem sagði að sér yrði mjög gott af að reykja. Það leið strax yfir sjúklinginn, og það var með naumindum að lífi hans varð bjargað. (Úr „Mögnu.“)

### Þagmælska.

Páll og Sigurður vóru bræður. Páll var 6 ára en Sigurður 7. Einn dag um hásumar þegar alt fólkið var á engjum, nema mamma þeirra, hafði hún gengið fram í eldhús, en á baðstofuborðinu stóðu margir bollar, sem nýbúið var að drekka kaffi úr. Sigurður var að klifra upp á hyllu eftir einhverju og feldi niður einn bollann og braut hann. „Segðu ekki frá, að ég hafi brotið bollann, Palli minn“, sagði hann og þaut svo út öll göng. Rétt á eftir kom mamma þeirra inn og sá spjöllin, sem orðið höfðu. Páll þagði. „Gerði Sigurður þetta“, spurði mamma hans. Páll sagði ekkert, en fór út. Að stundarkorni liðnu kom hann inn í eldhús, og í því bar mömmu hans þar að. Hún sagði blíðlega við hann: „Segðu mér nú satt, Palli minn. Þú ert ævinnlega vanur að segja frá því, þegar þér verður eitthvað á. En braut nú Siggi ekki bollann?“. Páll leit á hana og sagði: „Spurðu hann að því“. Þá skildi mamma hans, að hann vildi ekki koma upp um bróður sinn, en vildi heldur ekki skrökva og henni þótti svo vænt um litla drenginn sinn, að hún hefði ekkert fundið til þess, þó allir bollarnir á bænum hefði brotnað.

### Skrítlur.

A.: „Gafstu förukarlinum mikið?“.

B.: „Einn eyri. Ég hefi gert mér að reglu að gefa aldrei minna en einn eyri“.

---

Brúðgumaefnið: Elsku-Amalía, þegar við erum gift, vil ég enga eldabusku hafa: ég vona við verðum ásátt um þetta?“.

Brúðarefnið (frá sér numin af fögnuði), Ó, hvað það verður gaman, elsku-Jóhannes; við borðum þá alt af á matsöluhúsinu“.

---

Presturinn: Hvernig heldur þú sunnudaginn heilagan, drengur minn?“.

Drengurinn: „Þá þvæ ég mér um hálsinn“.

---

Móðirin: „Heyrðu, Kalli minn, við pabbi þinn ætlum snöggvast hérna út í garðinn, það er svo inndælt veður. Vertu nú góður drengur og leiktu þér að gullunum þínum á meðan“.

Karl: „Já-já, — en hver á þá að gæta þess, að ég klifi ekki upp á fortepíanóið?“.

---

**Afgreiðslustofa „Æskunnar“** (opin frá 10—4 og 5—7) er í **Þingholtsstræti 4.**

**Félagsprentsmiðjan.**




III. árg. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | Rvík, 31. Janúar 1900. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 8. tbl.

## Bréfið barnanna.

Í litlum dimmum húskofa í einni af útborgum Lundúna sat Jón litli Walters og Möggu systir hans. Það var sárkalt og þau voru hungruð, en enginn eldiviður var til og enginn matarbiti handa þeim.

Móðir þeirra var dáinn. Hún hafði beðið þau að vera jafnan góð og hlýðin börn, en þau áttu svo bágt. Faðir þeirra var drykkjumaður, hann hugsaði aldrei um vesalings svöngu börnin, sem sátu ein heima og skulfu af kulda. Þennan dag sátu þau og vissu ekki, hvert þau áttu að snúa sér, til þess að fá matarögn að borða. Þá sagði Jón alt í einu: „Heyrðu, Magga, eigum við ekki að skrifa guði bréf? Hvernig lítst þér á það!“ „Jú“, sagði Magga, „skrifa þú bréfið, ég skal segja þér, hvað þú átt að skrifa.“ Jón fann blek og penna og fór að skrifa:

„Góði guð! Gætir þú gert svo vel, að senda okkur báðum ögn af brauði, og ef þú sér hann föður okkar, þá sendu hann heim til okkar. Hann er í blárri treyju og bláum bugsum, og ber poka á bakinu. — Frá Möggu og Jóni Walter.“ Svo lásu þau faðirvorið og bættu svo við bréfið: „Ef þú sendir brauðið, þá láttu vera ögn af smjöri á því; það þykir okkur svo ósköp gott.“ Þau gengu til næstu kyrkju, og smeygðu bréfinu undir hurðina, fóru svo heim og biðu eftir svarinu.

Morguninn eftir komu nokkrir smiðir til kyrkjunnar, sem vóru þar að smíðum. Þeim varð litið á bréfið, sem lá við þröskuldinn, og einn þeirra tók það upp. Og það hittist svo undarlega á, að það var Jón Walter, faðir barnanna, sem nú stóð í kyrkjudyrunum og las þetta undarlega bréf frá börnum sínum. Hann lagði frá sér áhöldin og sagði: „Er það ekki óttalegt, að ég skuli hafa leitt þessa eymd yfir börnin mín? Ég skal verða bindindismaður og ganga í Good-Templarfélagið. Hann efndi heit sitt sama dag og varð bezti bindindismaður upp frá því, en börnin sátu aldrei köld og hungruð eftir það. Guð svaraði bréfinu þeirra.

(Úr „Mögnu.“)

## Fimmtíeyringurinn.

Framh.

Jón litli átti engan stokk að geyma peninginn sinn í, og því bað hann mömmu sína að geyma hann niðri í kistli fyrir sig. En í

hvert sinn og mamma hans fór ofan í kistilinn, svo hann sá, kom hann, til að fá að sjá peninginn og néri hann þá á erminni sinni, svo hann skyldi haldast fagur. Um haustið kom lambið af fjallinu og var undur stórt og fallegt, mórautt með snjóhvíta blesu. Þegar fjúk kom fyrst um haustið, varð Jón dauðhræddur um lambið sitt og alt af var hann að hugsa um það um veturinn, að Blesa sín ætti gott. Um vorið fékk hann meira en pund af ull af henni, sem mamma hans þvoði fyrir hann. Nú fanst honum hann mega til að fá að fara í kaupstaðinn að kaupa sér varning fyrir alla ullina sína og peningana. Stundum kom hann aftan að mömmu sinni þegar hún stóð hálfbogin í eldhúsinu, og lagði hendurnar um hálsinn á henni. „Elsku mamma mín, má ég ekki koma í kaupstaðinn með þér? Ég get riðið ofan á milli á henni Skjónu og svo get ég gengið stundum; þú ferð svo hægt. Ég get vel gengið“, bætti hann við, „ég gæti gengið rétt alla leiðina“.

Það fóru svo leikar, að mamma hans lofaði honum að hann skyldi fá að fara með sér í kaupstaðinn. Hún ætlaði á stað á föstudagsmorguninn og Jón litli svaf varla dúr um nóttina fyrir tilhlökkun. Um morguninn lagði mamma hans sparitreyjuna hans á rúmstokkinn og í vasann hafði hún stungið hvítri léreftsrýju faldaðri. Það var vasaklúturinn hans.

Áður en þau fóru á stað, kom hann til mömmu sinnar og sagði við hana: „Heyrðu mamma, þú mátt eiga ullina mína, en ég ætla að taka við peningnum mínum, ég get bundið hann í hornið á vasaklútnum mínum. Vasinn minn er svo djúpur, að ég get ekki týnt honum“. Hún kysti hann fyrir ullina og fékk honum peninginn sinn, sem hann batt vandlega í klútshornið. Ekkert gat hann borðað fyrir tilhlökkun.

Það var komið undir dagmál þegar þau komust á stað, og ekki komu þau í kaupstaðinn fyr enn eftir miðaftan, en það dimmir ekki að um Jónsmessuleytið og búðunum er seint lokað um lestirnar. Það vóru tvær búðir í kaupstaðnum, og Jón horfði alveg hissa á þær; honum hafði aldrei dottið í hug að svona stór hús væru til í heiminum. Svo fór hann inn með mömmu sinni, sem var búin að láta vega ullina sína í geymsluhúsinu og fá þyngdarseðilinn. Búðin var troðfull af fólki, flest var fyrir utan búðarborðið, en nokkrir stóðu fyrir innan það. Enginn gaf Jóni og mömmu hans neinn gaum. Jón litli horfði utan við sig á hyllurnar með öllum vörunum og lampana, sem héngu í loftinu, og alla sóflana. Svo sá hann ósköp af húfum og höttum og marga trefla. Í því heyrði hann svo skrítið hvelt hljóð; það kom úr lúðri, sem drengur hélt á og blés í. Drengurinn var vel búinn og stóð fyrir innan borðið. Jón hafði aldrei á æfi sinni séð lúður; hann gat ekki haft augun af rauðu og gyltu og grænu röndunum, sem lágu utan um hann. Hann fór að fikra sig nær borðinu og loksins komst hann alveg að því. „Mig langar til að fá að sjá þetta“, sagði Jón, „ég kaupi það kannske fyrir peninginn minn“. En enginn tók eftir honum; hann reyndi að tala hærra. Loksins leit einn búðarþjónninn á hann og spurði, hvað hann vildi. Jón tók beiðni sína upp aftur og pilturinn hleypti honum inn fyrir borðið. Nú fór Jón að skoða sig betur um; þá fór nú heldur að vandast málið. Þegar hann var búinn að skoða lúðurinn, sá hann hnött og öðrum megin á honum var fugl, en hinum megin hús. Svo sá hann myndabækur og stokk með blýjöntum í, og litla byssu, og skamt þar frá hékk trefill með rauðum og grænum bekkjum og rétt hjá treflinum hékk húfa með einhverju gyltu framan í. Hann var að smáþreifa ofan í vasa sinn og taka á klútnum með peningnum í, en hvað átti

hann nú að kaupa sér af öllum þessum ó-sköpum. Hann var orðinn hálfringlaður af öllum þessum dýrindum, sem hann sá. Mamma hans var nú farin að taka út á ullina sína. Jón gekk að borðinu þar sem hún stóð. Hún var að skoða dökkbláan skýluklút. „Ég þyrfti að kaupa hann", sagði hún við búðarmanninn, „en ég á ekki fyrir honum". Jón leit á mömmu sína. Hún var með gamlan slitinn léreftsklút yfir höfðinu, gráleita, sauðsvarta þríhyrnu á herðunum. Og alt í einu sýndist Jóni mamma sín vera svo mögur og föl í framan. Búðarmaðurinn var rjóður og feitur og honum sýndust allir vera svo sællegir nema mamma hans; hún hafði líka gengið nokkuð af leiðinni, svo hann gæti riðið; hún var víst ósköp þreytt núna. Jón vissi ekkert, hvernig á því stóð, en það var eins og eitthvað stæði í hálsinum á honum og honum varð svo undur heitt. „Mamma, þú mátt eiga peninginn minn; kauptu klútinn fyrir hann". Hann fékk henni klútinn með peningnum í. Hún leit á hann, og hún sá að honum var alvara; henni sýndust augun hans miklu skærari og dekkri en þau vóru vön, og alt í einu fanst henni hún sjá augun í pabba hans, þegar hann stóð í sólargeislanum og spurði hana, hvort hann mætti vera bezti vinurinn hennar og bera hana í faðmi sér alt lífið. Hún snéri sér undan, meðan búðarmaðurinn gekk frá klútnum, og þurkaði sér um augun á léreftsrýjunni. Um nóttina gisti Jón og mamma hans hjá kunningjakonu hennar rétt fyrir ofan kaupstaðinn. Húsakynnin vóru lítil og rúmin fá. Jón var látinn sofa hjá mömmu sinni og annað barn til fóta þeirra. Þegar þau vóru háttuð, lagði hann hendurnar um hálsinn á henni og sagði: „Þegar ég er orðinn stór, þú skaltu eiga falleg föt eins og konurnar, sem ég sá í búðinni í dag, og þá ætla ég að gefa þér bráðvakran hest". Hún laut niður að honum og kysti hann. Svo lásu þau bænirnar sínar, og alla nóttina dreymdi Jón um stór hús og sjöl og hesta með bjöllur og lúðra í faxinu og röndótta söðla alla vega lita, en mömmu hans dreymdi um vininn sinn, sem svaf undir lága leiðinu sunnan undir kyrkjunni.

## Hafmeyjan.

(Eftir H. C. Andersen).

(Framh.)

„Geta mennirnir alt af lifað, ef þeir drukna ekki", spurði hafmeyjan, „deyja þeir ekki eins og við sæfólkið?"

„Jú", sagði gamla konan, „þeir verða að deyja, og ævi þeirra er jafnvel styttri en okkar. Vér getum lifað þrjú hundruð ár, en þegar vér deyjum, verðum vér að froðu á sjónum, og eigum ekkert leiði niðri á mararbotni hjá vinum okkar. Vér eigum enga ó-dauðlega sál, vér eignumst aldrei líf aftur; vér erum eins og sefið; sé það slegið, grænkar það aldrei aftur. En mennirnir eiga sál, sem ætíð lifir, lifir eftir að líkaminn er orðinn að dusti. Hún líður upp í loftið, upp til stjarnanna. Eins og vér förum upp gegn um sjóinn til að sjá mannheima, þannig líða þær upp til hinna yndisfögru ókunnu staða, sem vér aldrei fáum að sjá".

„Því eigum vér ekki líka ódauðlega sál?" spurði hafmeyjan sorgbitin. Ég vildi gefa öll hundruð árin, sem ég á að lifa, fyrir að vera manneskja einn dag, og mega svo fara til himinsins".

„Þú mátt ekki vera að hugsa um þetta," sagði amma hennar. „Okkur líður betur en mönnunum uppi á jörðunni".

„Ég á þá að deyja og verða að froðu á sjónum, ég fæ ekki að heyra söng hafsins, sjá yndisfögru blómin og sólina eldrauða. Get ég þá ekkert gert til þess að eignast ó-dauðlega sál?"

„Nei", sagði amma hennar, „ekki nema ef einhver maður fengi ást á þér, svo hann elskaði þig meira en föður sinn og móður sína; ef hann elskaði þig af öllu hjarta og léti prestinn leggja hægri hönd sína í þína hægri hönd og héti þér trygð um tíma og eilífð, þá rynni sál hans yfir í líkama þinn, og þú yrðir hluttakandi í gæfu mannanna. Hann gæfi þér sína sál, en ætti þó sína sál eftir sem áður. En þetta getur aldrei orðið, það sem hér niður á mararbotni þykir fallegast, fisksporðurinn, það þykir mönnunum andstyggilegt; þeir hafa ekki betur vit á. Til þess að þykja fallegur þar, verður maður að hafa tvær klunnalegar stoðir að ganga á, sem þeir kalla fætur."

Þá andvarpaði hafmeyjan, og horfði sorgbitin á fisksporðinn sinn.

„Við skulum vera ánægðar", sagði amma hennar. „Dansa og leika okkur í þrjú hundruð ár, það er langur tími, og hverfa svo ánægðar þegar þau eru liðin. Í kvöld á að verða dansleikur við hirðina".

Og þar var skrautlegra en nokkru sinni í mannheimum. Veggir og loft í danssalnum vóru úr þykku en glæru gleri. Beggja megin stóðu tvær raðir af rósrauðum og grasgrænum öðuskeljum með bláum logandi eldi, sem uppljómaði allan salinn og kastaði birtunni út um veggina út á sjóinn, og í honum sáust óteljandi fiskar smáir og stórir, sem syntu að glermúrunum; á sumum gljáði hreystrið purpurarautt, en á sumum eins og gull og silfur. — Um miðjan salinn rann stríður straumur, og á honum dönsuðu hafmenn og hafmeyjar og sungu um leið unaðsfagurt. Engin mannsrödd er eins fögur, en fegurst af öllum söng hafmeyjan. Allir klöppuðu saman lófunum af aðdáun og eitt augnablik gladdist hún í hjarta sínu, því hún vissi, að enginn hvorki á jörðunni né í sjónum, hafði eins fallega rödd eins og hún! En hún fór brátt aftur að hugsa um veröldina fyrir ofan sig, hún gat ekki gleymt kóngssyninum fagra og sorg sinni yfir að eiga ekki ódauðlega sál eins og hann. Og því læddist hún út úr höll föður sins, og settist út í garðinn sinn hrygg í huga, en inni í höllinni hljómaði söngurinn og gleðin. Þá barst ómur af veiðihorni niður til hennar, og hún hugsaði með sér: Þarna uppi siglir hann, sem ég elska meir en föður og móður, hann sem sífelt er í huga mínum og ég vildi fela líf mitt. Ég vildi hætta á alt til að eignast hann og ódauðlega sál! Meðan systur mínar dansa í höllinni hans föður míns, ætla ég að fara til seiðkonunnar, sem ég hef alt af verið svo hrædd við. Ef til vill getur hún kent mér ráð og hjálpað mér.

## Skrítlur.

Kennarinn: „Hvað er vindurinn kallaður, Villi litli, þegar hann æðir með þeim geysihraða, að hann kollvarpar öllu, sem fyrir verður?"

Vilhjálmur þegir.

Kennarinn: „Hugsaðu þig nú vel um; ég er viss um að þú veitst það. Hann er kallaður: or- or" (hann á við danska orðið *Orkan*, sem þýðir *fellibylur*).

Vilhjálmur (hróðugur): „Organisti".

**„Æskan"**

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land 1 kr. 20 au. Borgist í apríl-mánuði ár hvert. Sölulaun 1/6, ekki gefin af færri en 3 eintökum.**

**Þorv. Þorvarðarson prentari, ÞINGHOLTSSTR. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.**

Félagsprentsmiðjan




III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 15. FEBRUAR 1900. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 9. TBL.

# Kertið.

> Ó, þú barna ljúfa lund!
> léð var þér að sjá og gleyma,
> augnablikin, ótt sem streyma,
> oftast fá þér unaðsstund.
>
> B. Gr.

Hvers vegna eruð þið ekki eins kát eins og við?“ sögðu litlu krakkarnir á Stað, þegar þau komu fram fyrir til vinnustúlknanna. Þetta var á Sunnudag um veturinn, og sátu stúlkurnar við sauma og ýms þjónustubrögð; „við erum alt af að leika okkur, en þið takið einu sinni ekki eftir því og eruð ekkert kátar. Hvað þykir ykkur?“ „Við höfum svo mikið að gera“ sagði ein stúlkan; „við megum ekki vera að því að skemta okkur; ég er t. d. að gera við kjólinn þinn, Stína, sem þú skemdir um daginn.“ „Þú getur verið kát fyrir því“ sagði Stína hlæjandi; „og þó þú hafir frí, þá segistu ekkert gaman hafa af að hlaupa eða fara í feluleik.“ „Það er svona að vera fullorðin“ mælti stúlkan, og Stína litla hljóp með hinum krökkunum í burtu til að leika sér aftur.

Í rökrinu fóru krakkarnir að kveikja á kertunum sínum; þá vildi svo til, að Stína litla misti kertið sitt niður og braut það sundur. Þá fór nú gamanið af. Hún hljóp til stúlkunnar, sem hún var að tala við áður, og sagði skælandi: „Æ, æ, Dísa, kertið mitt brotnaði: ég get ekki kveikt eins og hinir krakkarnir.“ „Góða Stína mín! vertu ekki að gráta af þessu,“ svaraði vinnukonan og tók litlu stúlkuna upp, „ég held það væri ekki mikið þó eitt kerti brotnaði.“ „Æi-jú,“ sagði Stína með ekka, „ég get aldrei kveikt framar og þá leiðist mér svo mikið.“ „Þá held ég þú hefðir skælt,“ sagði Þórdís, „ef þú hefðir týnt fallega spjaldinu, sem ég tapaði í gær, og þó skældi eg ekkert.“ „Þú skælir nú aldrei þó þú missir eitthvað,“ sagði Stína litla mjög hrygg. „Og þú, sem varst svo kát áðan, að vera að skæla núna. Ég ætla nú að gefa þér þetta, ef þú verður þá kát og ferð að leika þér aftur,“ mælti stúlkan og rétti Stínu kerti. Þá fór heldur að lyftast brúnin á Stínu litlu. Hún kysti Dísu sína marga kossa fyrir gjöfina og hljóp svo aftur til krakkanna skellihlæjandi og kát.

*Ingibj. Benediktsdóttir.*

# Hinn mikli fiskidráttur.

. . . . . . . . . . . . . . . .

Á ströndinni var Jesús, og mikill fjöldi manns
þar meistara sinn hafði flykst í kring um,

og hlýddi þar ljúfur á lífsins orðið hans,
er ljósum hann flutti' í samlíkingum.

Að meistaranum þyrptist svo mikill sægur þá;
en menn hann vildi heyra láta betur,
og fór því á skip út, er flaut þar ströndu hjá,
það fiskiskip átti Símon Pétur.

Þá bað hann Símon Pétur að leggja landi frá;
hann lítið eitt frá ströndu skipi rendi.
Í lyfting sat Jesús, en landi fólk stóð á,
og lýðnum af skipinu hann kendi.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Og þegar hann var búinn, hann sagði Símon við:
„Ei sitja hér á grunni skaltu lengur.
Nú legg út á djúpið, þar fær þú fiskimið,
nú far þú og sjá þú hvernig gengur.“

„Það stoðar ei hið minsta“, við meistarann hann kvað,
„á miði ég í alla nótt hef setið;
ég ekkert hef fiskað, en þó skal reyna það,
að þínu orði vil ég leggja netið.“

Hann lagði út á djúpið og lausnarinn var með,
og lagði þar sitt net í drottins nafni.
Af fiskimergð þegar hann fylla netið réð,
því frelsarinn sjálfur var í stafni.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Úr „Biblíuljóðum.“

# Hafmeyjan.

**(Eftir H. C. Andersen.)**

(Framh.)

Og hafmeyjan gekk út úr garðinum sínum, og hélt þangað sem hinir sogandi st. umar æddu; á baki þeirra bjó seiðkonan. Þessa leið hafði hún aldrei farið fyr, þarna sáust engin blóm og ekkert sjógras ógs þar. Grár sandbotninn lá alla leið að hringiðunni, þar sem sjórinn þaut eins og mylnuhjól, þyrlaðist í hringum og sogaði alt, sem hann náði í, ofan í djúpið. Hún varð að fara milli hinna ægilegu hringiða til þess að komast inn á landamæri seiðkonunnar, og þegar þangað kom, var langur kafli tóm vellandi leðja; það kallaði seiðkonan mómýrina sína. Þar á bak við lá húsið hennar inni í undarlegum skógi. Öll trén og runnarnir vóru tómar margfætlur, dýr að hálfu en jurtir að hálfu. Þær sýndust eins og höggormar með hundrað höfðum, sem ygsu upp úr jörðinni; greinarnar vóru tómir slepjaðir handleggir og fingurmir vóru eins og ormar með ótal liðum, og liðirnir vóru á einlægri hreyfingu neðan frá rót og fram í greinar. Alt, sem þær ná í í sjónum, vefja þær sig utan um og sleppa því aldrei aftur. Hafmeyjan staldraði óttaslegin við, þegar hún kom að mýrinni; hjarta hennar barðist af angist, henni lá við að snúa aftur, en hún hugsaði um kóngsoninn og ódauðlegu sálina mannanna, og þá ógs henni hugur. Hún batt langa hárinu utan um höfuðið á sér til þess að margfætlurnar skyldu ekki ná í það, krosslagði hendurnar á brjóstinu og þaut svo áfram, eins og fiskarnir fljúga gegnum sjóinn, inn á milli margfætlanna, sem teygðu handleggina og fingurnar eftir henni. Hún sá, að hver einasta þeirra hafði eitthvað, sem hún hafði náð í, og hundrað litlir handleggir héldu því eins og sterk járnbönd. Þeir sem drukknað höfðu, vóru orðnir að hvítum beinagrindum, sem gægðust út ur faðmi margfætlanna. Þær héldu á stýrum og kistum, og beinagrindum af landdýrum, en hræðilegast þótti henni að sjá litla hafmey, sem þær höfðu náð í og kyrkt.

Nú kom hún að stórum slepjuðum runna í skóginum, þar veltu sér stórir feitir vatnssnákar, svo að glitti í gulhvítan ógeðslegan kviðinn. Í miðjum runnanum stóð hús; það var bygt úr hvítum beinum druknaðra manna. Þar sat seiðkonan og lét pöddu éta út úr sér, eins og þegar menn gefa kanarífugli sykur. Viðbjóðslegu feitu vatnssnákana kallaði hún litlu ungana sína, og lét þá velta sér á barmi sínum.

„Ég veit, hvað þú ert að fara“, sagði seiðkonan. „Þetta er heimskulega gjört af þér. Samt skaltu fá vilja þinn, því hann mun steypa þér í ógæfu,

yndisfagra kóngsdóttirin mín. Þig langar að losna við fisksporðinn þinn og fá í hans stað tvo stubba að ganga á eins og manneskjurnar, til þess að ungi kóngssonurinn felli ástarhug til þín, og þú getir eignast hann og ódauðlega sál.“ Og um leið og seiðkonan mælti þetta, hló hún svo hátt og hryllilega, að snákarnir og paddan duttu ofan á jörðina og veltu sér þar. „Þú kemur einmitt á réttum tíma“, sagði seiðkonan; „á morgun, þegar sólin kemur upp, gæti ég ekki hjálpað þér fyrr en að ári liðnu. Ég skal byrla þér drykk, og með hann áttu að synda til lands áður en sólin kemur upp, setjast á ströndina og drekka hann; þá klofnar fisksporðurinn, dregst saman og verður að því, sem mennirnir kalla fætur, en það er sárt, það er eins og beitt sverð smjúgi í gegn um þig. Allir, sem sjá þig, munu segja, að þú sért yndislegust af mannanna börnum. Göngulag þitt heldur áfram að vera yndislegt, engin dansmær getur svifið um jörðina eins og þú, en hvert spor, sem þú stígur, verður eins og þú stigir á beittan hníf, svo að blóð þitt rynni. Viljirðu þola alt þetta, þá skal ég hjálpa þér.“

„Já“, sagði hafmeyjan með titrandi rödd, og hún hugsaði um kóngssoninn og um að eignast ódauðlega sál.

„En mundu það“, sagði seiðkonan, „að þegar þú ert orðin að manneskju, þá geturðu aldrei aftur orðið að hafmey. Þú getur aldrei liðið niður til systra þinna og hallarinnar hans föður þíns, og vinnir þú ekki ástir kóngssonarins, svo hann gleymi föður sínum og móður þín vegna, hugsi um þig eina og láti prestinn leggja hendur ykkar saman, svo þið séuð hjón, þá eignast þú ekki ódauðlega sál. Fyrsta morguninn eftir að hann giftir sig annari konu, þá brestur hjarta þitt og þú verður að froðu á hafinu.“

„Ég vil það“, sagði hafmeyjan, og andlit hennar var náfölt.

„En þú verður að borga mér“, sagði seiðkonan, og það er ekkert smáræði, sem ég heimta. Þú hefir yndislegasta rödd allra sæmeyja, þú hyggst að töfra hann með henni, en þessa rödd verðurðu að gefa mér. Það bezta, sem þú átt í eigu þinni, vil ég hafa fyrir hinn dýrmæta drykk, því blóð mitt verð ég að láta í hann, svo hann verði bitur eins og tvíeggjað sverð.“



Hinn mikli fiskidráttur.

„En ef þú tekur röddina, hvað á ég þá eftir?“ spurði hafmeyjan.

„Yndislega vögstinn þinn“, svaraði seiðkonan, „göngulagið töfrandi, og augun, sem tala fyrir þig; með þeim getur þú vissulega heillað mannshjarta. Nú, er hugrekkið þá farið? Réttu mér tungu þína, ég sker hana úr þér í borgun, og þú skalt fá sterkan drykk í staðinn“.

„Sé það svo“, sagði hafmeyjan. Og seiðkonan lét ketilinn á eldinn til að sjóða töfradrykkinn. „Það er gott að vera hreinlegur“, sagði hún og néri ketilinn með snákunum, sem hún batt í vöndul; svo risti hún í brjóstið á sér og kolsvart blóðið lak ofan í ketilinn, gufan varð að alls konar undramyndum, svo það var ómögulegt annað en verða hræddur. Á hverri stundu bætti seiðkonan einhverju í ketilinn, og þegar suðan kom upp, var það líkast því sem krókódílar grétu. Loks var drykkurinn búinn; hann var að sjá sem tærasta vatn. (Framh.)

# Gaman.

Lag: Stóð ég úti' í tunglsljósi, stóð ég úti' í skóg.

Gaman er að leika sér um laufgræna hlíð,
leika sér að blómum þá veðráttan er blíð.
Gaman er á veturna að hoppa út á hjarn,
hlæja þar og leika sér sem gott og siðsamt barn.

Gaman er að vinna og vera iðin þá
og við sína jafnaldra keppast svo á,
og fremstur reyna' að verða, að vinna mest og bezt
og venja sig á reglu, þá liðugt gengur flest.

Gaman er að læra að lesa fljótt og vel,
að læra' að skrifa' og reikna og margt, sem ég ei tel;
að læra ýmsan fróðleik um loft og jörð og sjá,
að læra margt, sem nytsamt er að kunna' og skýra frá.

Gaman er að syngja, að syngja fögur ljóð,
að syngja' um fósturlandið og okkar kæru þjóð,
að syngja' um líf og frelsi og sólarljóssins yl,
að syngja' um alt það bezta, sem lífið hefir til.

Ingibj. Benediktsdóttir.

## SMÁVEGIS.

Tvær stúlkur voru á gangi á inndælum vordegi. Þá mælti önnur: „Ó, hve náttúran er fögur og tignarleg. Hversu góðir og glaðir hljóta mennirnir að vera! Hversu göfugar og fagrar hljóta tilfinningar og verk manna að vera, þegar þeir hafa fyrir sér jafn-dásamlega fyrirmynd fegurðarinnar!“ „Já“, mælti hin alvarlega, „en hér sjáum við sýnishorn af því, hve göfugir og góðir sumir menn eru og hversu mikil áhrif fegurð náttúrunnar hefir á þá. Líttu á!“ Og hún benti um leið fram á veginn. Þar var drukkinn maður á reið, hann barði í sífellu með höndum og fótum hestinn sinn, sem var augsýnilega kúguppgefinn, en sjálfur hallaðist maðurinn á vígsl til beggja hliða og gat ekki setið á hestinum, svo var hann drukkinn. „Þetta er grátlegt að sjá“, mælti stúlkan, „eru þetta þær verur, sem guð hefir skapað í sinni mynd, veitt vald til að drottna yfir dýrum jarðarinnar og umkringt með hinni dýrðlegu fegurð náttúrunnar?“

Ingibj. Benediktsdóttir.

## SKRÍTLUR.

Petersen er mjög sparsamur. Hann hneppir hálslíninu sínu á vörtu aptan á hálsinum og þarf því engan skyrtuhnapp.

---

A.: „Hvernig á að lækna letingjann?“

B.: „Láta hann mjólka kú á hlaupum og hafa mjólkina úr henni eingöngu til fæðu.“

---

A.: „Hvers vegna drekkurðu?“

B.: „Ég er að reyna að drekkja sorginni.“

A.: „Druknar hún þá?“

B.: „Nei, hún er synd.“

## GÁTUR.

„Hefði ég 198 krónum meira en ég hef af peningum“, sagði Jóhann, „þá ætti ég jafnmargar krónur eins og ég á nú marga aura.“ Hve mikla peninga átti hann?

A. kaupir epli fyrir 4 kr. Hefði hvert epli verið einum eyri ódýrara, hefði hann fengið 20 eplum fleira. Hvað mörg epli fékk hann þá?

---

*Þeir af kaupendum Æskunnar, sem enn hafa eigi borgað II. árg. hennar, eru vinsamlega beðnir að gera skil hið fyrsta. Það er vonandi að þeir, sem skulda enn fyrir I. árg., láti nú ekki dragast lengur að borga.*

---

„ÆSKAN“
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í aprílmán. ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eintök.
ÞORV. ÞORVARÐARSON prentari, Þingholtsstr. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðjan. — Reykjavík.




| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 28. FEBRÚAR 1900. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 10. TBL. |
|---|---|---|---|---|



FÍLLINN OG LJÓNIÐ.

# Fíllinn og ljónið.

Þið hafið víst orðið alveg hissa að sjá, hvað dýrið á myndinni þeirri arna er stórt, enda er það allra dýra stærst. Maðurinn, sem situr á baki þess, sýnist minni í samanburði við það, en þó við settum nýfæddan drenghnokka á hestbak. Þetta dýr heitir fíll og á heima í austurálfu og suðurálfu heims. Í austurálfunni verða einkum mikil not að dýri þessu, því að þar er því kendur ýmis starfi; er það þægt og geðgott og geysilega aflmikið. Þið hafið víst tekið eftir því á myndinni, að niður úr andlitinu stendur ofurlangur rani og nasaholurnar fremst á honum. Svo er áþreifing ranans næm, að með honum getur fíllinn tekið upp saumnál, og að því skapi er raninn sterkur, svo að fíllinn gæti þeytt stórum heystakk upp í loftið með honum. Fíllinn getur sogað kynstur af vatni upp í ranann, og hafið þið máske lesið söguna um fílinn og skraddarann. Fíllinn étur þrjú hundruð pund af fóðri í einu. Líklega hafið þið heyrt talað um fílabein. Það er afardýrt og hefir því frá alda öðli þótt in mesta gersemi· Það fæst úr tönnum fílsins og fyrir þá sök er lögð mikil stund á fílaveiðar, einkum í suðurálfunni, og það svo, að menn ætla að áður langt um líður verði fílnum algerlega útrýmt.

Þið munuð hafa kannast við hitt dýrið á myndinni, ljónið. Eins og fíllinn á það heima í austurálfu og suðurálfu. Ljónið er sömu ættar eins og kötturinn. Það er stundum kallað konungur dýranna, og eru margar sögur til um vitsmuni þess, göfuglyndi og trygð. Margar aðalsættir hafa borið ljónið í merkjum sínum. Á síðari tímum hafa menn gert sér mikið far um að kynnast sem bezt eðli og háttum dýranna og hefir ljónið við það mist mikið af áliti sínu. Þykjast menn nú með vissu vita, að hugrekki þess sé grimdin ein.

Þið sjáið, að ljónið hefir lagt mann að velli og fíllinn er að ráðast á ljónið, og við skulum vona, að honum takist að bjarga manninum.

## Þórður Kárason.

Bergþórshvoll logandi blasir við sýn,
blossinn við himininn dimmbláa skín.
Njáll þar og Bergþóra bíða með ró,
þeim boðin var útganga, en neituðu þó.

Drengur þar stendur við afa síns arm,
öruggur hallast að spekingsins barm.
Horfir hann forviða eldsglæður á,
alvara' og staðfesta skín af hans brá.

Gellur þá rödd ein við glymjandi há:
„Gakk, litli drengur, út voðanum frá!“
Með alvöru sveinninn þá anzar og tér:
„Ó afi, mig langar að vera hjá þér.“

„Gakktu út, vinur minn,“ Bergþóra bað.
Barnið þó ei vildi samþykkja það.
„Gráttu' ekki amma mín,“ gegndi hann skjótt,
„ég get ekki skilið við ykkur í nótt.“

Heill sé þér, Þórður, því hrein var þín dygð,
hrein var þín saklausa, barnslega trygð,
með hugrekki leiðst þú ið logandi bál.
Nú lifir þín minning í barnanna sál.

*Ingibjörg Benediktsdóttir.*

# Hafmeyjan.

**(Eftir H C Andersen)**

(Framh)

„Hér er hann,“ sagði seiðkonan og skar tunguna úr litlu hafmeyjunni, svo hún varð mállaus og gat hvorki sungið né talað.

„Ef margfætlurnar ætla að ná í þig, þegar þú fer gegn um skóginn minn,“ sagði seiðkonan, „þá þarftu ekki annað en kasta einum

dropa af þessum drykk á þær, og þá detta fætur þeirra í þúsund mola!“ En hafmeyjan þurfti þess ekki, því að margfætlurnar stukku aftur á bak þegar þær sáu skínandi drykkinn í höndum hennar, hann lýsti eins og blikandi stjarna. Og hún komst brátt í gegn um skóginn, mýrina og inar ólgandi hringiður.

Hún sá höllina hans föður síns; það var búið að slökkva blysin í stóra danssalnum; nú vóru þau líklega öll sofnuð; en hún þorði þó ekki að fara til þeirra, því nú ætlaði hún að skilja við þau. Henni fanst hjarta sitt ætla að springa af sorg. Hún læddist inn í garðinn, tók eitt blóm úr blómbeði hverrar systur sinnar og kastaði þúsund kossum til hallarinnar með fingrinum; svo fór hún á stað upp í gegn um ið dimmbláa haf.

Sólin var ekki komin upp, þegar hún sá höll prinsins og steig upp á marmaratröppuna; en tunglið skein skært. Hafmeyjan drakk inn bitra drykk og henni fanst eins og tvíeggjað sverð gengi gegn um líkama sinn, það leið yfir hana og hún lá sem dauð. Þegar sólin skein yfir sjóinn, raknaði hún við; hún fann sviða leggja í gegn um sig. En fyrir framan hana stóð ungi prinsinn og horfði á hana svörtu augunum sínum, svo hún leit niður og sá að sporðurinn var horfinn, en í hans stað hafði hún fengið inndæla litla, hvíta fætur. En hún var alveg nakin og þess vegna vafði hun sig í mikla, langa hárinu sínu. Prinsinn spurði hana, hver og hvaðan hún væri; hún leit á hann dimmbláum augunum, svo undurmild en þó svo sorgbitin, því hún gat ekki talað. Þá tók hann í hendina á henni og leiddi hana inn í höllina. Við hvert spor sem hún steig, fanst henni eins og hún gengi á nálum og beittum hnífum, alveg eins og seiðkonan hafði sagt henni fyrir; en hún átti hægt með að þola það, því við hlið prinsins var hún svo létt á fæti, alveg eins og vatnsbóla. Og prinsinn og allir sem sáu hana undruðust yfir því, hvað hún gekk létt og yndislega.

Hún var klædd í dýrindisföt úr silki og netludúk, í höllinni var hún fegurst allra; en hún var mállaus og gat hvorki sungið né talað. Fagrar ambáttir, klæddar í silki og gull, komu og sungu fyrir prinsinn og foreldra hans, konung og drotningu; ein þeirra söng betur en allar hinar og prinsinn klappaði og brosti til hennar; þá varð hafmeyjan hrygg, því hún vissi að hún sjálf hafði sungið miklu betur og hún hugsaði með sér: „Ó, ef hann vissi, að ég hef gefið röddina mína, og fæ hana aldrei, aldrei aftur, til þess að geta fengið að vera hjá honum.“

Nú dönsuðu ambáttirnar inndæla svífandi dansa eftir fegursta söng. Þá lyfti hafmeyjan handleggjunum og leið yfir gólfið; og hún dansaði svo yndislega, að engin hafði dansað eins vel á undan henni; við hverja hreyfingu, sem hún gerði, sást betur, hvað inndæl hún var og augu hennar töluðu hjartnæmara máli en söngur ambáttanna.

Allir vóru hrifnir af því, einkum prinsinn, sem kallaði hana litla óskilabarnið sitt, og hún dansaði lengur og lengur, þó henni fyndist hún ganga á beittum hnífum. Prinsinn sagði, að hún skyldi alt!af vera hjá sér og hún var látin sofa á flauelskodda fyrir framan dyrnar hans.

Hann lét sauma handa henni karlmannsföt, til þess að hún gæti farið með sér þegar hann reið út. Þau riðu í gegn um ilmandi skóga, þar sem greinarnar slógu á axlirnar á henni og smáfuglarnir sungu bak við blöðin. Hún klifraði upp há fjöll með prinsinum, og þó að blæddi úr fótunum á henni, þá hló hún að því og fór með honum þangað til þau sáu skipin sigla fyrir neðan sig eins og fugla, þegar þeir fljúga til ókunnra landa. [Framh.]

## SMÁVEGIS.

Hérna á Ísafirði, þar sem svo oft hefir verið hart manna milli, áttu líka litlu fuglarnir oft

bágt í vetur. Ég hefi lesið í Æskunnni um að börnin ættu að vera góð við dýrin. Og nú ætla ég að segja ykkur frá því, sem lítil stúlka hérna gerði. Hún átti ekki efnaðri foreldra en önnur börn, heldur ef til vill fátækari; en á hverjum degi fékk hún sér samt grjón eða brauðmola til þess að gefa fuglunum, sem hún hafði hænt að húsinu sínu. Það fóru svo leikar, að litlu telpurnar mínar fóru líka að gefa fuglunum brauðmola. Litla stúlkan, sem var svona góð við fugluna, heitir Fríða og er Torfadóttir.

H.

---

Tveir ungir menn, Markús og Halldór, vóru á ferð í steikjandi sólarhita og vóru þeir mjög þreyttir og þyrstir. Þeir urðu því fegnir að geta hvílt sig þegar þeir komu í kaupstaðinn. Þar mættu þeir manni nokkrum á götunni og sagði þá Halldór við hann. „Við erum alveg að stikna af hita og þorsta.“ Maðurinn hló og sagði um leið og hann gekk fram hjá: „Drekkið þið bara bjór og brennivín, piltar mínir.“ „Það er rétt að við gerum það, núna einu sinni; ég hefi hvort sem er aldrei smakkað það svo ég geti sagt. Viltu það ekki, Markús?“ mælti Halldór. „Æ, nei, vertu ekki að því, Halldór, það er betra að drekka hérna úr læknum og hvíla sig svo.“ „Nei, nei, ég fer inn í veitingahúsið og fæ mér „snafs“; það er dálítið fínna“ svaraði Halldór og gekk í sömu svipan inn í veitingahúsið.

Markús lagðist niður við lækinn og drakk nægju sína úr inni heilnæmu, svalandi lind, sem náttúran hafði veitt til svölunar þyrstum vegfarendum. En Halldór sat inni á veitingahúsi og drakk af þeirri lind, er in versta spilling manna hefir bruggað til að freista fáfróðra og breyzkra manna.

Nokkur ár liðu. Þá hittust þessir tveir menn aftur. Markús heilsaði og sagði glaðlega: „Hvernig líður þér núna, kunningi?“ „Mér líður illa, ég er þyrstur“ mælti Halldór alvarlega. „Það er skrítið“ mælti Markús brosandi. „Það er þó ekki eins heitt núna eins og forðum.“ „Nei“ mælti Halldór „en manstu ekki, hvaða drykk ég drakk forðum, hann svalaði mér í bráðina, en kveikti í stað þess hjá mér óslökkvandi þorsta í að drekka, drekka meira af víni. Sá þorsti fylgir mér til dauðans. Ó, að ég hefði gengið í bindindi þegar ég var ungur.“

---

Það var einu sinni lítill drengur, sem hét James. Foreldrar hans áttu heima í Oregon lengst vestur í Ameríku og bjuggu í dálitlum bjálkakofa, og voru 10 mílur til næstu nágranna. Þegar James litli var 8 mánaða gamall, dó faðir hans. Hann átti tvö systkini, systur, sem hét Mehetabel, 13 ára að aldri, og bróður, sem hét Tómas og var 11 ára. Móðir hans var góð og guðhrædd kona og ól önn fyrir börnunum með frábærri umhyggju og dugnaði, en svo vóru þau fátæk, að stundum borðaði hún sjálf ekki nema einu sinni á dag, til þess að börnin þyrftu ekki að vera mjög svöng. Tómas hjálpaði henni til að sá og yrkja akrana og hirða skepnurnar og Mehetabel vann frá morgni til kvelds. Á hverjum degi lásu þau í biblíunni og báðust fyrir. Þegar James var 6 ára gamall, fór hann að vinna með móður sinni og systkinum, en mestan hug hafði hann á bókunum. Nokrar mílur í burtu var svokallaður skóli, skólahúsið var úr bjálkum og öll kenslufóngin eftir því. Þegar James var 3 ára, sendi móðir hans hann í skólann og bar Mehetabel systir hans hann á bakinu til og frá, þangað til hann fór að geta gengið.

Einu sinni spurði James móður sína, hvort það væri vont að drekka vín. „Eg vildi óska, sonur minn, að þú bragðaðir það aldrei. Ef þú smakkar aldrei á því, þá er ég óhrædd um að þú verður aldrei drykkjumaður.“ James lét að bæn móður sinnar og bragðaði aldrei vín. Það er til löng og fögur frásaga um æfi James. Með iðjusemi og atorku aflaði hann sér æ meiri mentunar og álits hjá öllum, sem kyntust honum. Í þrælastríðinu varð hann hershöfðingi, og þegar Lincoln var myrtur, var hann kosinn forseti Bandaríkjanna, og telja Ameríkumenn hann meðal sinna ágætustu manna.

---

Aldar-prentsmiðjan. — Reykjavík.




III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 17. MARZ 1900. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | 11. TBL.

# Sólskins-fyrningar.

EINU sinni í fyrndinni, löngu, löngu áður en nokkur maður var til á þessari jörð, ógs upp trjáskógur einn mikill í kyrþey. Trén tóku miklum þroska og leið svo um hríð. Þá bar svo til, að eitt tréð tók að mögla; það var stór og furðuleg eik. Hún mælti við tréð, sem stóð næst henni: „Það gefur enginn minsta gaum að okkur. Kemur ekki í sama stað niður, hvort við teigum í okkur mikið eða lítið sólskin með degi hverjum? Það verður enginn vitrari eða betri fyrir það, þó að greinarnar og laufin okkar þenji sig út og prýði vögst sinn.“ Þá hristi hin eikin blöðin sín svo skrjáfaði í, rétt eins og hún vildi segja: „Ég er þér alveg samdóma, systir mín.“ Svo hafði hún upp fyrir grannkonu sinni sömu frekyrðin, sem hún hafði heyrt. Eikin, sem hún ávarpaði, tók þá til máls og sagði: „Hafið hljótt við ykkur, systur mínar, ég hefi nokkuð að segja ykkur. Sá mikli faðir, hinn spaki, sem í hæðum býr, setti okkur hér og bauð okkur að vagsa. Hann sendir sitt unaðsríka sólskin til okkar á hverjum degi, og hljótum vér að skilja það svo, að vér eigum eigi að tregðast við að vagsa. Hvað gerir það til þó enginn sé til að dást að okkur? Við vitum, að okkur ber að gera skyldu okkar; er það ekki nægilegt? Ég segi fyrir mitt leyti, ég ætla að leitast við að verða svo stór og sterk, sem ég get.“ Hér lauk þessi góða eik máli sínu. Ræða þessi barst með vindblænum frá einu tré til annars út um allan skóginn. Alstaðar var gerður sami rómur að henni og öll trén í skógnum ásettu sér að vagsa eins fljótt og þau gætu. Smám saman urðu þau fullvagsin; þau hnigu til jarðar og ný tré ugsu upp í þeirra stað. Þó að þú hefðir komið þangað, þá hefðir þú ekki getað deilt, hvar fyrstu trén stóðu. Þessi tré lifðu svo öldum skifti og teiguðu í sig svo mikið sólskin sem þau gátu. En þau dóu einnig og hnigu til jarðar, eitt eftir annað, og ungviði ógs upp af hinum gömlu. Þá kom jarðskjálfti mikill; trén skildu ekkert í því; en jörðin, sem þau stóðu á, sökk niður og lagðist undir vatn, leðju og sand. Og leðjan og sandurinn smájókst, og eftir mörg, mörg ár var þetta orðið hart sem klettur. Og stofnarnir og laufblöðin af trjánum í gamla skóginum þrýstust svo þétt saman, að ekkert loft komst að þeim.

Löngu síðar komu dýr og menn á jörðina. En enginn vissi nokkurn skapaðan hlut um gömlu trén í frumskóginum, sem lifað höfðu svo löngu

áður. Nú liðu þúsundir ára, og allan þann tíma lá þessi svarta hrúga, sem einu sinni hafði verið trjáskógur, kyr og grafin í jörðu. Fyrir nokkru síðan kom mönnunum til hugar að grafa gegn um sandklettinn og urðina í von um að finna silfur og gull. Eftir langa þraut fundu þeir svörtu hrúguna, sem einu sinni hafði verið grænn skógur. Þeir komust brátt að því, að hún mundi loga eins vel og tré. Urðu þeir harla glaðir yfir þessum fundi sínum, því að mennirnir höfðu fjölgað svo mjög á jörðunni, að þurð var orðin á eldsneyti. Þúsundir manna voru nú gerðar út til þess að grafa upp þetta svarta efni, og kolin — það var nafnið sem því var gefið — voru send út um allan heim. Sólskinið, sem þessi tré drukku í sig sér til þroskunar, og svo lengi var innibyrgt í fylgsnum jarðarinnar, kemur nú aftur til okkar í hitanum og birtunni af kolunum.

Þann veg sér vor himneski faðir fyrir þörf barna sinna. (Lauslega snúið úr ensku). S. V.

# Kain og Abel.

„Á ég að vakta bróðir minn?“
1. Mós. 4.

Þegar guð leit yfir heiminn í öndverðu, var alt, sem hann hafði skapað, „harla gott.“ Guð hafði skapað yndisfagran bústað handa manneskjunum, þar sem þær áttu að lifa í friði og gleði. Öll tilveran var samstilt gleðilag, óendanlega fagurt. Hvað lítil, sem þið eruð, þá vitið þið samt, að nú er til hrygð og grátur í heiminum. Þið vitið, að það éru margar manneskjur, sem eiga ósköp bágt, og aumingja dýrin eiga líka oft bágt, af því að manneskjurnar eru vondar. Lítil börn, sem ekki eru búin að lifa nema fáein af björtustu árum ævinnar, þar sem sorgin sjaldnast á heima, hafa felt mörg tár af því, að þau vóru köld og svöng, og enginn var góður við þau. Stundum eru blessuð barnshjörtun, sem ættu að vera saklaus og óspilt, orðin full af vondum hugsunum og tilhneigingum. Þið vitið, hvernig á þessu stendur, þó þið hafið máske ekki hugsað út í það; þið vitið, að það er óhlýðnin við guð, sem líka heitir synd, sem er völd að því, hve margir eiga bágt í heiminum.



Þið hafið lært um þetta í kverinu og biblíusögunum, og þar hafið þið lesið söguna um Kain og Abel, Finst yður það ekki óttalegt, að Kain skyldi leggja hönd á bróður sinn og drepa hann, — að hann skyldi öfunda bróður sinn? Hafið þið hugsað út í það, að Kain drepur bróður sinn af því að hann öfundar hann? Og þegar guð spyr Kain, hvar Abel sé, þá svarar Kain: „Á ég að vakta bróður minn?“

Það eru ekki til margir menn á jörðunni, sem drepa bróður sinn eins og Kain drap Abel, en það eru fjarskalega margir menn, sem ekki vilja vakta bróður sinn? Það eru ótal menn, sem freista bróður síns til ills, margir sem öfunda bróður sinn, margir sem leggja hönd á mannorð bróður síns, sem láta sér standa á sama hver bróðir þeirra er, og hvernig honum líður. Elsku barnið mitt, bið þú guð að gefa þér náð til að „vakta bróður þinn“. Beiddu guð að hjálpa

þér til að skilja það, að allir menn eru bræður þínir, svo þú getir glaðst yfir „velgengni“ þeirra; en öfundaðu þá ekki, eins og Kain öfundaði Abel. Langar þig ekki til þess að jörðin geti orðið fögur og alt, sem á henni lifir, fagnað eins og síðasta degi sköpunarinnar? Ekkert nema hlýðni við guð, sem býður að við skulum elska og vakta bróður okkar, getur hjálpað til þess að þetta verði? Væri það ekki skelfilegt ef rödd blóðs bróður þíns hrópaði til guðs frá jörðunni, af því að þú í léttúð og gáleysi hefðir leitt hann í freistingu, eða af því að þú hefðir ekki vaktað hann? Biddu guð með öllum innileik og einlægni hjarta þíns að varðveita þig frá skelfingu Kains, sem fór landflótta um jörðina af því að hann vildi ekki „vakta bróður sinn“.

# Hafmeyjan.

(Eftir H. C. Andersen).

(Framh.)

Þegar allir aðrir sváfu í höll konungssonarins, gekk hún út á marmaratröppurnar og það kældi brennandi fætur hennar að standa í kalda sjóvatninu, og þá hugsaði hún til vinanna sinna niðri í djúpinu.

Eina nótt komu systur hennar upp úr sjónum, þær héldust í hendur og sungu svo raunalega. Hún gerði þeim bendingu, og þær þektu hana og sögðu henni, hversu hún hefði hrygt þau öll. Eftir það vitjuðu þær hennar á hverri nóttu, og eina nótt sá hún ömmu sína, sem í mörg ár hafði ekki komið upp af mararbotninum, og sækonunginn með kórónu sína á höfðinu; þau teygðu hendurnar í áttina til hennar, en dirfðust ekki að koma eins nærri landi og systur hennar.

Með hverjum degi, sem leið, varð hún konungssyninum kærari, honum þótti vænt um hana á líkan hátt og gott og elskulegt barn; en aldrei kom honum til hugar að taka hana sér fyrir drotningu; en drotning hans vildi hún endilega verða, annars öðlaðist hún ekki ódauðlega sál, og yrði að sjáfarfroðu á brúðkaupsmorgni hans.

„Þykir þér ekki vænna um mig en alla aðra?“ virtust augu hafmeyjarinnar að segja; þegar konungssonurinn tók hana í fang sér og kysti fagra ennið hennar.

„Jú, þú ert mér kærust allra, því þú hefir betra hjarta, en allir aðrir, þú ant mér meir og þú ert lík ungri stúlku, sem ég einu sinni sá, en finn líklega aldrei framar. Ég var einu sinni á skipi, sem strandaði; öldurnar skoluðu mér á land við musteri eitt heilagt: við það unnu margar ungar stúlkur, hin yngsta þeirra fann mig á sjáfarströndinni og frelsaði líf mitt, ég sá hana einungis í tvö skifti, hana eina get ég elskað í þessum heimi, og þú ert lík henni, það liggur við sjálft að þú bolir mynd hennar burt úr sálu minni; hún á heima í hinu heilaga musteri, og þess vegna hefir hamingjan sent mér þig, og við skulum aldrei skilja.“

„Æ, hann veit ekki að ég hefi frelsað líf hans!“ hugsaði hafmeyjan, „ég bar hann yfir hafið í skóginn, þar sem musterið er, og ég faldi mig bak við sjávarfroðuna til þess að sjá, hvort enginn kæmi til hans. Ég sá ungu stúlkuna, sem honum þykir vænna um en mig.“ Og hafmeyjan stundi þungan; grátið gat hún ekki. Hann sagði að stúlkan ætti heima í musterinu; hún kemur aldrei út í heiminn, þau hittast aldrei oftar, ég er hjá honum, sé hann á hverjum degi, ég ætla að annast hann, elska hann, fórna honum lífi mínu!“

En nú sagði fólkið, að konungssonurinn ætlaði að fara að giftast dóttir nágranna konungsins, gullfallegri stulku, og því væri hann að búa hið skrautlega skip. Það var að vísu látið í veðri vaka, að hann ætti að fara til þess að sjá lönd nágranna-konungsins, en förin var gerð til þess að sjá dóttur hans, og mikið föruneyti á hann að hafa. En hafmeyjan hristi höfuðið og hló; hún þekti hugsanir hans betur en allir aðrir. „Ég verð að fara,“ hafði hann sagt við hana, „for-

eldrar mínir bjóða það, en þau munu ekki neyða mig til að flytja hana heim með mér sem brúði mína. Ég get ekki elskað hana! Hún er ekki lík fallegu stúlkunni í musterinu eins og þú. Ef ég á einhverju sinni að velja mér brúði, þá yrði það fremur þú þögula óskila-barnið mitt með talandi augun,“ og hann kysti rauðu varirnar hennar og lék sér að löngu lokkunum hennar og hallaði sér að hjarta hennar, sem dreymdi um mannlega hamingju og ódauðlega sál.

„Þú ert þó ekki hrædd við hafið, þögula barnið mitt,“ sagði hann, þegar þau stóðu á hinu skrautlega skipi, sem átti að flytja þau til landa nágranna-konungsins, og hann sagði henni frá stormum og ládeyðum, kynlegum fiskum í djúpinu, og hvað kafarinn hefði séð þar, og hún brosti að frásögu hans, hún sem vissi betur en nokkur annar, hvernig hagaði til á hafsbotninum.

Þegar allir sváfu nema stýrimaðurinn, sem stóð við stýrið, sat hún við hástokkinn og horfði niður í blátæran sjóinn, og henni virtist hún sjá höllina hans föður síns, og hana gömlu ömmu sína, með silfurkórónu á höfðinu. Hún starði upp í gegn um straumana á kjöl skipsins. Þá komu systur hennar upp úr djúpinu, þær horfðu sorgbitnar á hana og nístu saman hvítu höndunum sínum, hún veifaði til þeira og brosti, og ætlaði að fara að segja þeim hvað sér liði vel og hvað hún væri ánægð, en þá kom skipsdrengurinn og systur hennar hurfu niður í hafið, en hann hugsaði að hvítan, sem hann hafði séð á vatninu, hefði einungis verið sjávarfroða.

Næsta morgun lagði skipið inn á höfnina í aðsetursstað nágranna-konungsins. Allar kyrkjuklukkur kváðu við; í hinum háu turnum var blásið í básúnur, en hermennirnir stóðu með blaktandi fána og blikandi byssustingi. Á hverjum degi vóru hátíðahöld. Dansleikir og samkvæmi vóru haldin hvert eftir annað. Enn sem komið var, hafði konungsdóttirin ekki sézt, menn sögðu að hún væri alin upp langt í burtu í heilögu musteri, þar átti hún að nema allar konunglegar dygðir. Loksins kom hún.

Hafmeyjan var mjög forvitin eftir að vita, hvernig hún liti út, og hún hlaut að játa, að fríðari stúlku hefði hún aldrei séð. Hörundsliturinn var hreinn og fagur og á bak við löngu, dökku augnahárin brostu blíð, dökkblá augu.

„Það ert þú“, sagði konungssonurinn, „þú, sem hefir frelsað mig, þegar ég lá sem liðið lík á sjávarströndunni“, og hann þrýsti brúði sinni að hjarta sér, „Ó, hvað ég er farsæll“, sagði hann við hafmeyjuna. „Það bezta, sem ég aldrei þorði að vona, hefir ræzt á mér. Þú munt samgleðjast mér, því þér þykir vænna um mig en öllum öðrum. Og hafmeyjan kysti hönd hans, henni fanst sem hjarta sitt mundi springa. Brúðkaupsmorguninn hans átti að hafa dauða hennar í för með sér og breyta henni í sjávarfroðu.

(Framh.).

## SMÁVEGIS.

— Sá maður er ekki fátækastur, sem á minst, heldur sá, sem óskar sér mests.

— Sá sem á guð að vini, þarf ekki að hræðast mannlega óvini og jafnvel ekki öll máttarvöld myrkursins.

## GÁTA.

Nafn mitt lýðir þekkja þó.
Það er prýði í búi nóg,
hálft á landi, hálft í sjó,
heftir kvíða en eykur ró.

RÁÐNING á gátunni í no. 9: Nói.

„ÆSKAN“
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í aprílmán. ár hvert. Sölulaun $1/5$, gefin af minst 3 eintök.
ÞORV. ÞORVARÐARSON prentari, Þingholtsstr. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.




III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 17. MARZ 1900. | Ritstjóri: *Ólafía Jóhannsdóttir.* | XII. TBL.

# Engill svefnsins.

(Gamlar stökur).

Þegar fer að nálgast nótt,
næði þreyttum fljóðum gefst og körlum;
svefnsins engill hlýtt og hljótt
hlúir þá að góðum börnum öllum.

Ef að viltu vakna hress,
verður þú að iðka góða siði.
Vertu gott barn. Gættu þess:
góðu börnin mega sofa' í friði.

Gakktu ekki óláns-stig,
ekki máttu föður ráðum gleyma.
Svo mun engill svefnsins þig
svæfa blítt og vel þig láta dreyma.

# Hafmeyjan.

(Eftir H. C. Andersen).

(Niðurl.)

Kyrkjuklukkurnar kváðu við, kallarar riðu um göturnar, og tilkyntu trúlofunina. Á öllum ölturum logaði á ilmandi olíu á dýrmætum silfurlömpum. Prestarnir veifuðu reykelsi og brúður og brúðgumi tókust í hendur og meðtóku blessun byskupsins. Hafmeyjan var klædd í pell og purpura og hélt slóða brúðarinnar, en hún heyrði eigi hinn hátíðlega hljóðfæraslátt; hún sá eigi hina helgu athöfn; hún hugsaði um dauðastund sína, og um alt, sem húu hafði mist í heimi þessum.

Hið sama kveld gengu brúðhjónin útá skipið. Þar var skotið af fallbyssum; allir fánar blöktu, og á miðju skipinu var reist tjald úr purpura og gulli, þar áttu brúðhjónin að sofa hina kyrlátu, svölu nótt.

Vindurinn þandi út seglin og skipið skreið hægt og tígulega yfir tært hafið.

Þegar dimma tók, voru kveikt ljós á alla vega litum lömpum; og skipshöfnin dansaði á þilfarinu.

Hafmeyjan hugsaði um þegar hún kom í fyrsta skifti upp úr hafinu og sá sömu dýrðina og gleðina sem hún sá nú, og hún dansaði og sveif eins og svalan svífur, þegar hún er ofsótt, og allir klöppuðu lof í lófa og dáðust að henni; aldrei hafði hún dansað svo dýrlega, það var sem hún gengi á hárbeittum knífum, en hún fann eigi til þess, hjarta hennar sveið sárara. Hún vissi, að þetta var seinasta kveldið, sem hún átti kost á að sjá konungssoninn; hans vegna hafði hún yfirgefið ættingja sína og heimili, mist sína unaðsfögru rödd og daglega þolað óútmálanlega þjáningu, en hann vissi ekkert um

það. Þetta var seinasta nóttin, sem hún andaði að sér sama andrúmslofti eins og hann, síðasta nóttin, sem hún sá djúpa hafið og himininn stjörnubjartann. Eilíf nótt beið hennar, án drauma og hugsana, án sálar. Hana gat hún ekki öðlast. Glaðværðinni var haldið áfram fram yfir miðnætti, hún hló og dansaði með tilfinning dauðans í hjarta sínu. Konungssonurinn kysti ina fögru brúði sína, og hún lék að hinum svörtu lokkum hans, og hvert við annars hlið gengu þau til hvílu í inu skrautlega tjaldi.

Alt varð hljótt og þögult á skipinu, stýrimaðurinn stóð við stýrið, hafmeyjan stóð við hástokkinn og horfði í austur-átt; hún vissi að fyrsti sólargeislinn átti að deyða hana. Þá sá hún systur sínar. Þær komu upp úr hafinu, þær vóru náfölar, eins og hún sjálf, langa, fagra hárið þeirra blakti eigi lengur í golunni, því það var sniðið burtu.

„Við höfum gefið norninni það, svo að hún veitti hjálp til þess að þú þyrftir ekki að deyja í nótt! Hún fékk okkur þennan kníf, sjáðu, hann er beittur. Áður en sólin ris úr hafinu, verðurðu að reka hann í hjarta konungssonarins, því þegar blóð hans vætir fætur þína, þá verða þeir aftur að fiskporði, og þú verður hafmeyja eins og þú varst, þú kemst niður í hafið til okkar, og lifir í þrjú hundruð ár, áður en þú verður að saltri sjávarfroðu. Flýttu þér nú! — Annaðhvort ykkar verður að deyja áður en sólin rís úr hafinu. Nornin skar af okkur hárið með knífnum sínum, en sorgin hefir svift ömmu okkar sínu hári. Dreptu hann og komdu aftur til okkar! Flýttu þér; sérðu ekki rauðu röndina á himninum? Eftir fá augnablik rís sólin upp og þá hlýturðu að deyja.“ Og þær andvörpuðu sáran og hurfu niður í öldurnar.

Hafmeyjan dró purpuraábreiðuna til hliðar frá tjaldinu, og hún sá ina fögru brúði; hún svaf og hallaði höfði sínu að brjósti konungssonarins, og hafmeyjan laut ofan að honum og kysti fagra ennið hans; hún leit á himininn; morgunroðinn smá-hækkaði; hún leit á beitta knífinn og svo aftur á konungssoninn, sem sofandi nefndi nafn brúðar sinnar. Hann hugsaði um hana eina; og knífurinn titraði í höndum hafmeyjarinnar — en þá varpaði hún honum lengst út á haf. Öldurnar urðu rauðlitaðar, þar sem hann féll í þær, og það var eins og að blóðdropar drypu af öldunum. Enn þá einu sinni leit hún hálf-brostnum augum á konungssoninn, svo fleygði hún sér út yfir borðstokkinn ofan í hafið, og hún fann hvernig hún varð að sjávarfroðu.

Sólin reis nú úr hafinu. Geislar hennar vermdu hina sárköldu sjáfarfroðu, og hafmeyjan fann ekki til dauðans. Hún sá sólina skínandi bjarta, og fyrir ofan hana svifu í geimnum óteljandi fagrar gagnsæjar verur; hún gat séð hvítu seglin á skipinu og rauðu skýin á himninum í gegn um þær; rödd þeirra var eins og hljómfögur sönglög, en ekkert mannlegt eyra fékk heyrt það, og ekkert mannlegt auga fékk séð þær; þær svifu í geimnum vængjalaust svo undur-létt. Hafmeyjan sá, að hún hafði sams konar líkama og þær. Og hún leið upp úr hafinu.

„Til hverra er ég kominn?“ sagði hún, og rödd hennar hljómaði eins og hinna, engin jarðnesk sönglist gat jafnast á við hana.

„Til dætra loftsins,“ sögðu þær. „Hafmeyjan á enga ódauðlega sál og getur aldrei öðlast hana nema hún ávinni sér ást einhvers manns. Hennar eilífa tilvera er komin undir annarlegu afli. Dætur loftsins hafa heldur eigi ódauðlega sál, en með góðverkum sínum geta þær áunnið sér hana. Vér fljúgum til fjarlægra landa, þar sem óheilnæmt andrúmsloft veldur dauða mannanna; þangað færum við svala. Vér dreifum ilm blómanna og færum með oss endurnæringu og lækningu. Þá er vér höfum í þrjú hundruð ár leitast við að gera það gott, sem í voru valdi stendur, þá öðlumst vér ódauðlega sál og tökum þátt í



**FRÁ SVISSLANDI. — MAÐUR AÐ BJARGA UNGLING ÚR KLÓM ARNAR.**

hinni eilífu farsæld mannanna. Þú hefir, veslings hafmeyja, af öllu hjarta þínu kept eftir því sama sem vér; þú hefir liðið og þolað. Þú hefir hafið þig til heima loftandanna, nú getur þú með góðverkum þínum áunnið þér ódauðlega sál eftir þrjú hundruð ár.“

Og hafmeyjan hóf upp handleggi sína, og í fyrsta sinni gat hún grátið. — Á skipinu var aftur komin háreysti og kæti. Hún sá konungssoninn með hinni ungu brúði sinni, vera að leita að sér; hann horfði með hrygðarsvip á sjávarfroðuna, eins og hann hefði hugboð um að hún hefði fleygt sér í öldurnar. Ósýnileg kysti hún á enni hans, leit brosandi á hann, og sté með hinum öðrum börnum loftgeimsins upp til rósrauðu skýjanna, sem svifu í loftinu.

„Eftir þrjú hundruð ár svífum við á sama hátt inn í guðs ríki.“

„Vér getum komist þangað fyr,“ sagði ein þeirra í lágum róm, „ósýnilegar svífum vér inn í bústaði mannanna, þar sem börn eru, og drottinn styttir reynslutíma vorn í hvert skifti, sem vér fyrirhittum gott, ástúðlegt barn, sem er foreldrum sínum til gleði, og verðskuldar kærleika þeirra. Barnið veit ekki af því að vér svífum um herhergið. En þegar vér brosum af gleði yfir því, þá er eitt ár burt numið af hinum þremur hundruðum. En ef vér sjáum vont, óhlýðið barn, þá fellum vér sorgar tár, og við hvert tár, bætist einn dagur við reynslutíma vorn.“

---

## SMÁVEGIS.

„Skrifaðu ekki þarna,“ sagði móðir við son sinn; en hann var að skrifa með demanti á eina gluggarúðuna í stofunni.

„Því má ég það ekki?“

„Vegna þess að þú getur aldrei náð því burtu.“ — Hefirðu athugað það, barnið gott, að þú skrifar á hverjum degi eitthvað, sem þú getur ekki náð burtu?

Þú varst illorður við hana mömmu þína fyrir fáum dögum. Þau orð grafa sig í hjarta hennar, sem elskar þig, og særa hana, í hvert sinn, sem henni detta þau í hug. Þú getur ekki náð þeim burtu.

Þú hvíslaðir ljótu orði að leikbróður þínum. Það festist í hjarta hans og kom honum til ills. Það er þar enn og þú getur ekki tekið það í burtu þaðan.

Allar þínar hugrenningar, orð og verk, eru skrifuð hjá guði; mundu eftir því, að ekkert af þeim getur þú tekið á burtu. [Þýtt]

---

## SKRÍTLUR.

Barnið: Hann móðurbróðir minn hlýtur að vera orðinn mjög gamall.

Faðirinn: Af hverju heldurðu það, barn?

Barnið: Af því hann veit upp á hár, hvað gerðist í þrjátíuára-stríðinu.

---

Tveir menn eru saman í járnbrautarvagni og annar þeirra er öðru hvoru að hrista sig og róa sér aftur á bak og áfram. Hinn maðurinn tekur eftir þessu, og spyr hann, hvort hann sé þjáður af taugaveiklun.

„Nei,“ svaraði hann, „en ég er nýbuinn að kaupa mér úr fyrir 2 krónur, og það nennir ekki að ganga nema ég hristi mig öðru hvoru.“

---

Úr skólanum. Kennarinn: Heyrðu, Villi, hvað er helmingurinn af 8?

Villi: Ofan að eða frá hliðinni?

Kennarinn: Hvað segirðu?

Villi: „Að ofan er það 0, en utan af hliðinni eru það 3.“

---

ÞORV. ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstr. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.




III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 12. APRIL 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | XIII. TBL

**Í tólfta tbl. „Æskunnar“ stóð 11 á nokkrum eintökum í staðinn fyrir XII. (tbl.).**

---

## Villimannakonungurinn og tréspónninn.

Nú kemur nýr maður að tala við ykkur, börnin góð, sem þið hafið að líkindum ekki þekt áður. Eg vildi óska, að vorið væri nú komið fyrir alvöru, grængresið farið að vaxa, fíflarnir og sóleyarnar væru komin í ljós, sólin skini í heiði, og ég væri kominn með ykkur öll á einhvern fallegan blett, til að sýna ykkur dásemdir drottins. Það er svo undur margt, sem gaman væri að segja frá. Hvar sem þið rennið augunum bæði úti og inni er efni í langa og fallega frásögu. Sólin og stjörnurnar á himninum, trén og blómin á jörðunni, fuglarnir og ferfættu dýrin, fiskarnir og krabbarnir í sjó og vötnum, fjöllin og dalirnir, lækirnir og stöðuvötnin. Alt á þetta fallega og merkilega sögu, sem gaman væri að geta sagt ykkur um. — Og svo koma svo undur margir menn, sem þið þyrftuð að vita um, góðir menn, göfugir menn, víðsvegar út um allan heim, sem hafa gert alt gott, sem þeim hefir verið mögulegt. Til eru menn, sem í fyrstu hafa verið bláfátækir, munaðarlausir og lítilmagna, en á endanum hafa getað komið afarmiklu góðu til leiðar. Allir hafa þeir fyrst byrjað á því að vera börn. Þeir hafa grátið í vöggunni eins og þið og ég, og hvorki getað gengið né talað. En smátt og smátt hafa þeir lært að ganga, hlaupa, hoppa, tala, lesa, skrifa, ríða, synda, róa, sigla, alveg eins og þið eruð að læra. Þeir hafa kepst við að læra sem flest, mest og bezt. — Það hafa reyndar verið slæmir menn á jörðunni, sem hafa talað lygi, launað gott með illu, og sært og grætt alla góða menn. — En góðu mennirnir hafa komið miklu meiru til leiðar. — Sögurnar um þá eiga ekki að eins að vera ykkur til skemtunar, heldur líka til þess, að kenna ykkur, að góði maðurinn ber sigur úr býtum að lokum, þótt hann eigi örðugt öðru hvoru, að minsta kosti fyrst í stað.

Börnin sem lesa „Æskuna“ eru dreifð svo víðsvegar út um alt land, að ómögulegt er að kalla þau öll í einn hóp. — En samt sem áður get ég talað við ykkur alt, eins og ég væri mitt á meðal ykkar. Mennirnir hafa fundið upp að búa til nokkur merki, og raða þeim niður á ýmsan hátt. og þessi merki þýða alls konar orð, sem menn tala hverjir við aðra. — Sá er kallaður læs, sem þekkir þessi merki, og veit hvað þau þýða, og skrifandi, geti hann sjálfur búið þessi merki til. — Mörg hundruð ár eru liðin

síðan fyrstu stafirnir voru búnir til. Fyrst voru það að eins myndir af dýrum og dauðum hlutum, en smám saman lærðu menn að búa til einfaldari stafi. — Villiþjóðir þekkja ekki stafina, og skilja ekkert í, að hægt sé að tala saman með skrift eða prenti.

Einu sinni var villimannakonungur á einni Suðurhafseyjanna, og komu til hans enskir kristniboðar. Höfðu þeir reynt að koma honum í skilning um, hvernig hægt væri að skrifast á og tala saman á þann hátt, en hann hafði ekkert skilið í því, og hélt það vera ómögulegt. Kallaði konungur nú einn kristniboðann fyrir sig, og skipaði honum að skrifa nafnið sitt. Kristniboðinn gerði það. Lét þá konungur fara með honum í annað herbergi og kalla á annan kristniboða, sem ekkert hafði vitað af samtalinu og sýndi honum nafnið, sem fyrri kristniboðinn skrifaði. Las hann það jafnskjótt, en konungurinn skildi ekkert í þessu, og hélt að kristniboðarnir væru göldróttir.

Rauðskinnar eða Indíánar hétu þjóðir þær, er fyrrum bjuggu í Vesturálfunni, og sem eru þar enn lengst inn í óbygðum. — Það eru hálfviltir menn, lifa af dýraveiðum og búa í tjöldum, en hafa enga fasta bústaði. Einu sinni var enskur landnámsmaður í Vesturheimi, er Vilhjálmur hét. — Hafði hann marga Rauðskinna í þjónustu sinni, og var einn þeirra gamall og eineygður karl. — Karl þessi hafði marga hildi háð um dagana og verið dugandi hermaður. Vilhjálmur var smiður mikill. Einn morgunn, þegar hann kemur til smíða sinna, tekur hann eftir, að hann hefur gleymt hornmælinum sínum heima hjá sér. — Tekur hann þá stóran höggspón og ritar á hann með viðarkoli boð til konu sinnar um að senda sér hornmælinn. Kallar því næst á Rauðskinnann og segir honum að færa konu sinni höggspóninn. Rauðskinninn leit til hans og mælti: „Taka þetta! Hún kallar mig bjána og skammar mig, ef ég færi henni tréspón.“

„Nei“, mælti Vilhjálmur, „það gerir hún ekki. Farðu nú undir eins, þú verður að flýta þér.“

„En hvað á ég þá að segja henni?“ spurði Rauðskinninn.

„Þú þarft ekki að segja henni neitt,“ mælti Vilhjálmur. „Höggspónninn segir henni alt, sem ég vil láta hana vita.“

Rauðskinninn tók höggspóninn með furðu og fyrirlitningar svip og mælti: „Hvernig getur þetta talað? Hefir þetta munn?“

Vilhjálmur bað hann að fara sem fyrst og eyða ekki svona miklum tíma í orðamælgi.

Þegar hann kom heim, fékk hann konu Vilhjálms höggspóninn. Las hún það, sem skrifað var á hann, kastaði honum síðan og gekk að kistunni, sem smíðatólin voru í. Rauðskinninn kom á hæla hennar, því hann vildi sjá hvað verða vildi. Og þegar hún færði honum hornmælinn mælti hann: „Bíddu við. Hvernig veitstu að það er þetta, sem Vilhjálmur vill?“

„Hvernig“, mælti hún. „Færðir þú mér ekki höggspóninn.“

„Jú,“ svaraði Rauðskinninn, öldungis hissa, „en ég heyrði hann ekki segja neitt.“

„Þó þú heyrðir það ekki, þá heyrði ég það,“ svaraði konan, „og þess vegna vissi ég hvað Vilhjálmur vildi fá, og nú verðurðu að fara til hans og flýta þér svo sem þér er mögulegt.“

Þegar Rauðskinninn heyrði þetta, þreif hann upp höggspóninn, ruddist út úr húsinu og hljóp gegn um þorp nýlendumanna, veifaði höndunum upp í loftið, með höggspóninn í annari hendi og hornmælinn í hinni og kallaði upp: „En hvað Englendingar kunna alt mögulegt; þeir geta látið tréspæni tala!“

Þegar hann hafði fengið Vilhjálmi hornmælinn vildi hann vita, hvernig það væri mögulegt að tala við fólk, sem væri langt í burtu, en þó Vilhjálmur reyndi að útskýra það fyrir honum, gat hann ekkert skilið í því, og hélt það vera nokkurskonar kraftaverk, festi band við höggspóninn og bar hann um hálsinn í nokkurn tíma.

Nokkra daga á eftir voru aðrir Rauðskiunar öðru hvoru að þyrpast í kringum hann, meðan hann var að segja þeim frá kraftaverkinu, sem gert hafði verið með höggspæninum.

Ef við kynnum hvorki að lesa né skrifa færi fyrir okkur eins og villimannakonginum og Rauðskinnanum.

## Páskahátíðin

er haldin heilög af kristnum mönnum í minningu upprisu Jesú Krists. — En hún er ekki aðeins



Innreið Jesú í Jerúsalem.

upprisuhátíð, heldur einnig vorsins hátíð og frelsis hátíð. Gyðingar héldu páskahátíð fyrir Krists daga í minningu þess, að þeir komust far-



Kvöldmáltíðin.

sællega burt úr Egyptalandi; þegar Móse leiddi þá yfir um hafið Rauða. — Hátíð þessa kölluðu Gyðingar hátíð hinna ósýrðu brauða, vegna þess, að þá mátti eigi borða sýrt heldur nýtt brauð. Í 2. Móses bók er oss sagt frá því, að Ísraels-



Kristur á krossinum.

menn hafi slátrað lambi á hverju heimili kvöldið áður en þeir fóru úr Egyptalandi og roðið blóði þess á dyrustafi sína, og því hafi engill dauðans



Kristur birtist lærisveinunum
á leiðinni til Emaus.

farið fram hjá húsum þeirra þegar frumburðirnir dóu í Egyptalandi. Í minningu þess slátruðu Ísraelsmenn síðan lambi á páskum ár hvert og borðuðu kjöt þess með ósýrðu brauði. Það var þetta páskalamb, sem Kristur er að neyta með lærisveinum sínum þegar hann heldur kvöldmáltíðina. Í suðurlöndum eru páskar vorhátíð, því þá eru blómin sem óðast að springa út, svo suður

á Ítalíu er orðið jafn blómlegt í Marzmánaðar lok og hjá okkur um Jónsmessu (24. Júní).

Í kaþólskum löndum er bannað að neyta kjöts um langaföstu (næstu 7 vikur fyrir Páskana) í minningu þjáninga Krists og dauða hans; en með Páskunum er föstunni lokið.

Það er siður hér á Íslandi, að bjóða hver öðrum gleðilega hátíð á Páskunum. Þá gefa kaþólskir menn hver öðrum egg, öll skreytt og máluð utan. Stundum eru egg þessi náttúrleg fuglaegg en oft eru þau úr gibs eða leir. Egg þessi eru kölluð páskaegg. — En í stað þess að vér bjóðum hver öðrum gleðilega hátíð á Páskum, heilsast grísk-kaþólskir á Páskamorguninn með því að segja: „Kristur er upprisinn“ og þá svarar hinn: „Já, Kristur er sannarlega upprisinn!“

Í minningu upprisu Krists tóku kristnir menn að halda fyrsta dag vikunnar helgan, eða sunnudaginn, en Gyðingar halda laugardaginn heilagann í minningu sköpunarverksins.

---

## SKRÍTLUR.

Eiríkur litli hefir dottið ofan stiga og handleggsbrotnað. Þegar læknirinn hefir tekið umbúðirnar utan af handleggnum segir hann við móðurina:

„Nú vona ég að brotið sé orðið gott, annars verður að brjóta handlegginn aftur.“

Eiríkur litli: „Ég má þá víst detta ofan stigann einu sinni enn!“

Afsökun: Mér þykir leitt að ég gat ekki verið við jarðarför konunnar þinnar, en ég skal reyna að bæta úr því í annað sinn.

---

Móðirin: „Hversvegna ertu nú að skjæla drengur! Þú hefir fengið aftur annan tí-eyring í staðinn fyrir þann, sem þú týndir.“

Drengurinn (snöktandi): „En — ef — ég — hefði — ekki — týnt — hinum — þá — ætti — ég — tvo — tí-eyringa.“

---

Hundkaupandi: „En er hundurinn tryggur?“

Seljandi: „Já, ef það væri! — Ég hef nú reynt að selja hann fjórum sinnum, en í hvert sinn hefir hann skaðbitið kaupandann, þegar hann hefir ætlað að teyma hundin á burt með sér.“

---

Siggi: „Hvað ertu gamall?“

Nonni: „Jeg er níu ára. En hvað ert þú gamall?“

Siggi: „Tíu ára. Eiginlega ætti eg að vera orðinn ellefu ára, en eg hef verið sjúkur í eitt ár.“

---

Dagblaðalesarinn (les): „Sófi er til sölu vegna veikinda.“ — „Ég vildi ég vissi, hvað gengur að honum og hvert hægt muni að lækna hann!“

---

Frænkan: „Nei, Dóri. Ég má ekki láta þig fá brjóstsykurinn; því hafi einhver hann, kemur stór svartur hundur og bítur hann.“

Dóri: „Láttu mig þá fá pappírspokann, svo hundurinn komi ekki og bíti þig.“

---

Kennarinn: „Asninn er mjög meinlaust dýr, og stendur á sama hvernig farið er með hann. Geturðu sagt mér það, Doddi, hversvegna hann er svo meinlaus?“

Doddi: „Það er náttúrlega af því að hann er asni.“

---

Kaupendur „Æskunnar“ minnist þess, að hún á að borgast í *Aprílmánuði.*

*Útgef.*

---

## „ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í aprílmán. ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eintök.

**ÞORV. ÞORVARÐSSON** prentari, Þingholtsstr. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.

# ÆSKAN.

III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. APRIL 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | XIV. TBL


## Gleðilegt sumar!

VAKNAÐU barn! Vaknaðu því að sumarið er komið, og kallar til þín, fallega sumarið, sem kemur með blómin og fuglana.

Þurkaðu nú stýrurnar úr augunum og flýttu





þér á fætur til að bjóða sumarið velkomið. — Þarna koma sólargeislarnir í hóp inn um gluggann og langar til að leika sér við hárlokkana á kollinum á þér. — Þarna eru daggardropar fyrir utan gluggann, hálf ólundarlegir, en sólin er að reka þá á fætur til að fagna sumrinu, — og sjáðu til, þeir verða komnir eitthvað út í veður og vind áður en langt um líður. — Þarna eru fannirnar í fjallabrekkunum; þær rifna í sundur hver á fætur annari og gráta gleðitár yfir sumrinu þangað til þær eru orðnar að engu. Fuglarnir koma úr heitu löndunum og ætla að fara að byggja hreiður sín. Og svo koma öll blómin, gul og blá, rauð og fjólulit. En sólargeislarnir mála alt með töfralitum og gera það alt undrafagurt, sem áður var fölleitt, dimt og dapurt.

---

Vaknaðu barn, því að vorsólin skín!  
Vaknaðu, sumarið kallar til þín!  
Náttúran syngjandi' og iðandi' er öll.  
Utan frá hafi og lengst upp á fjöll.

Vaknaðu, hoppaðu á fætur sem fyrst.  
Flýtt' þér, að getirðu sumarið kyst.  
Lítt' á þá dýrð, sem á loftið er skráð,  
Landið og sæinn, af guðlegri náð.



# Sigga í Haga.

Sigga í Haga var allra efnilegasta stúlkubarnið í allri sveitinni og var orðin 13 ára gömul. — Foreldrar hennar voru bjargálnamenn, og var hún einkabarn þeirra. — Þau höfðu gefið henni svo gott uppeldi, sem þau áttu kost á, bæði til munns og handa; enda var það auðséð, því nú skaraði hún ekki að eins langt fram úr jafnöldrum sínum, heldur var hún orðin betur að sér en margir unglingar seytján, átján vetra gamlir. — Hún var ekki eiginlega bráðnæm, en væri hún að eins búin að læra eitthvað, gleymdi hún því naumast aftur, og hun var svo iðin og kappsöm, að hún hætti aldrei við það, sem hún var byrjuð á að læra, fyr en hún var fullkomlega leikin í því. —

Henni þótti reyndar gaman að leika sér öðru hvoru, en hún var eina barnið á heimilinu, og hafði því sjaldan færi á að leika sér með jafnöldrum sínum nema svo bæri undir, að hún færi eitthvað að heiman eða önnur börn kæmu að Haga, en þá var líka uppi fótur og fit á henni, enda var það venja barnanna að Sigga skyldi vera drotningin í leiknum í hvert sinn, sem hún var með. Var það af ýmsum orsökum. Hún var einna elzt af leiksystkynum sínum, hún kunni flest, og hafði bezt lag á að gera leiki þeirra skemtilega, enda var hún ekki alveg laus við að vera dálítið ráðrík öðru hvoru. Og svo hafði hún einn kost, sem hinum börnunum þótti svo undur vænt um: Hún kunni svo mæta vel að segja æfintýri. — Sum af þessum æfintýrum hafði hún lesið og lært, en mörg af þeim hafði hún smíðað sjálf þegar hún hafði engan til að leika sér við. Þegar Sigga var að reka kýrnar á morgnana eða sat yfir ánum, var hún niður sokkin í æfintýrin sín. Hólarnir í kring um hana urðu þá að skrautbygðum höllum, bæjarlækurinn að stórri móðu, klettarnir að konungum, sem sátu í hásæti sínu, smásteinarnir að konungssonum í álögum, en fjólurnar og baldursbrárnar urðu undur fagrar konungsdætur. Hún þóttist fara innan um þessar konungshallir, henni fanst hún heyra til konunganna og konungsbarnanna, og sagði svo sjálfri sér frá, hvað þau væru að starfa á degi hverjum. Stundum hélt konungurinn veizlu mikla í höll sinni, stundum fór hann með allri hirð sinni á dýraveiðar, en þá voru konungsbörnin auðvitað heima hjá stjúpu sinni, því konungsbörnin áttu stjúpu eins og öll konungabörn í æfintýrasögunum. Og stjúpa þessi var auðvitað tröllkona, sem hafði tekið á sig gervi fagurrar konungsdóttur og sem tók á sig tröllshaminn níundu hverja nótt, og þá át hún auðvitað ekkert nema menn. Þá varð drotningin voðaleg ásýndum. Hún var svo stór, að konungshöllin náði henni ekki nema í hné, og þó var hún digur eftir hæð og eftir því geigvænleg, svo Sigga varð stundum hálf hrædd við hana, þegar hún var að lýsa henni fyrir sjálfri sér. Væri hún á ferð í þoku, var ekki örgrant, að hún héldi, að þarna kæmi drotningin kongsbarnastjúpan, þegar hún grilti í háan klett, sem varð enn stærri í þokunni, en hann var í raun og veru. Þá hélt Sigga auðvitað, að stjúpan væri komin að taka sig og ætlaði að fara með sig eins og kongsbörnin. Hljóp hún þá sem fætur toguðu þar til kletturinn var horfinn, því ekki vildi hún verða fyrir því, að verða hent í tunnu út á sjó langar, langar leiðir, undir einhverja sjávarhamra, þangað, sem blind og þríhöfðuð tröllkona tæki móti sér, eins og vant var að fara fyrir konungsböruunum. —

En þótt Sigga yrði stundum hálf smeik við sögur sínar hélt hún þeim áfram engu síður; en fullorðna fólkið varð ekkert vart við þetta draumlíf hennar, og fékk ekki að heyra neitt af sögum hennar.

Aftur á móti hafði einhvern tíma borið svo við, að Sigga fór að hugga eitthvert af yngstu leiksystkynum sínum á næsta bæ. Tók hún þá að segja því æfintýri, og var orðin svo sokkin í það, að hún tók ekkert eftir því, að hin börn-

in höfðu þyrpst í kring, til að hlusta á hana, og þegar hún lauk loks sögunni, hættu þau ekki við, fyr en hún sagði þeim eitthvað meira. — En af þessu leiddi, að smámsaman varð það að fastri reglu, að Sigga kom aldrei svo til kunningja sinna, án þess hún segði þeim eitthvert æfintýri. — Stundum hafði hún sjálf hugsað og samið æfintýrin, en oftar voru það þó einhverjar sögur, er hún ýmist hafði heyrt eða lesið; sagði hún frá drekum, fljúgandi um loftið og fnæsandi eldi, gömmum og finngálknum, sæskrímslum og marmenlum, tröllum í hamrabeltunum, dvergum í steinunum og álfum í hólunum. — En litlu börnin, leiksystkyni hennar sátu með krosslagðar hendur og hlustuðu á meðan hún var að segja þeim frá. Jón litla á Brú langaði svo undur mikið til að vera orðinn göldróttur eins og Ötunfaxi svo hann gæti smogið niður í jörðina. Bjarni í Hvammi vildi vera orðinn hagur eins og Sindri dvergur, svo hann gæti búið til sverð, og gæti klofið hestasteininn á hlaðinu heima hjá sér í einu höggi. Mangi bróðir hans hafði aftur á móti allan hugann á sjónum. Reyndar hafði hann aldrei sjóinn séð, en hugði hann vera æði stóra tjörn, álíka og allar engjarnar í Hvammi. — Samt sem áður var hann vakinn og sofinn að hugsa um sæfarir. Vildi hann vera orðinn víkingur með gyltan hjálm á höfði, vera í spangabrynju, bera rauðan skjöld með mörkuðu ljóni á, og hafa í hendi tvíeggjað sverð með gullnum hjöltum, svo þurfti hann að fá sér stórt og hraðskreitt skip, með gulltopp á siglunni og stöfuðum (röndóttum) silkiseglum, og sem færi jafnt í logni og vindi hvert sem hann óskaði sér. Ætlaði hann þá að gerast sækonungur og sigla í Austurveg, heyja orustur við Kol hinn krappa og annað illþýði og vinna jafnan sigur, — en koma svo heim á haustin með hundrað kistur fullar með gulli og silfri. (Framh.).

# Sólskinstrogin.

Einu sinni í fyrndinni var maður nokkur, sem tók sér fyrir hendur, að leita uppi þá menn, er heimskastir væru í heimi. Það yrði oflangt mál, að segja frá öllu því, er fyrir hann bar á leiðinni, og má því að eins geta þess, að eitt sinn kom hann að nýbygðu húsi. Dyr voru litlar á því, en gluggar alls engir, og var því mjög dimt í því, enda þótt hurðin væri opin, en niðamyrkur þegar búið var að loka hurðinni. — En húseigendunum varð ekki ráðafátt, heldur fóru þeir í óða önn að bera myrkrið út í trogum og sólskinið aftur inn í húsið, og að þessu verki voru þeir, er ferðamaðurinn kom til þeirra. — Ferðamaðurinn hjálpaði þeim, sagaði glugga á eitt hornið, og þá varð alt í einu bjart í húsinu.

Enginn er sú manussál, ekkert það hjarta, í allri veröldinni, að það þurfi ekki meira ljós, meira sólskin og yl.

Vér eigum að reyna, að bera burt myrkrið, en bera inn sólargeislana, og það gerir hver sá, sem er góður og ástúðlegur í viðmóti við aðra, og fyrirgefur þó eitthvað smátt sé gert á móti sér. Hversu undur gott mundi ekki lífið á jörðunni vera, ef allir færðu hver öðrum eins marga sólargeisla og þeim væri mögulegt.

Hvernig lízt ykkur á það, börnin góð, að byrja á því með sumrinu, að reyna að gefa öllum eintóma sólargeisla, eintómt ástríki, góðvild og blíðu, gefa það öllum, smáum og stórum, ríkum og fátækum, voldugum og vesölum, gefa það öllum hvar sem þið eruð og hvernig sem ástatt er fyrir ykkur? Ef þið byrjið á því, og getið haldið því áfram, þá skuluð þið sjá, að það verður gott að lifa. — Þá verða aðrir enn betri við ykkur, en þeir eru nú. — Þá gengur alt betur fyrir ykkur og aðrir verða enn fúsari til að uppfylla óskir ykkar

Reynið þetta og látið mig svo vita, hvort það er ekki satt, að þá verði betra að lifa og meiri gleði í kring um ykkur og þið enn þá ánægðari en áður.

## SKRÍTLUR.

Prestur nokkur húsvitjaði í skóla og meðal annars spyr hann einn drenginn: „Hvað voru Kain og Abel?“

„Tveir bræður,“ svaraði drengurinn.

Það var ekki hægt að mæla á móti því, en þó var það ekki svarið, sem hann hafði búist við og því spurði hann enn:

„En hvers vegna veistu, að þeir voru bræður?“

„Af því þeir börðu hvor annan,“ svaraði drengurinn.

---

Kennarinn: Ljósið fer 40,000 mílur á sekundunni, en til þess að komast þvert yfir vetrarbrautina, sem þið sjáið á himninum, þyrfti ljósið 4,000 ár. Vill einkver koma sem er góður að reikna.“

Sigga gefur sig fram.

Kennarinn: „Reiknaðu nú fyrir okkur, hvað góður skautamaður væri lengi að renna sér kring um vetrarbrautina, ef hann færi fimm faðma á hverri sekundu.“

Sigga: „Hann gæti hreint ekki rent sér á vetrarbrautinni, því hann mundi óðar detta út af henni.“

---

Móðirin: „Eyrun fara víst bráðum af þér, drengur, þegar hann húsbóndi þinn togar svona oft í þau.“

Skóaradrengurinn: „Það er ekkert hætt við því, því konan hans slær þau jafnóðum aftur í samt lag.“

---

Páll litli (nýbyrjaður að lesa): „Sjáðu mamma, það eru öll skammarorðin í lestrarbókinni minni.“

Móðirin: „Það er ómögulegt. Lof mér að heyra einhver þeirra.“

Páll: „Api, asni, þorskur og svín.“

---

## REIKNINGS-DÆMI.

1. Maður nokkur kaupir samtals 10 pund af kaffi og sykri, fyrir 4 kr. Kaffipundið kostaði 55 au., en sykurpundið 30 au. Hvað mörg pund keypti hann af hvoru?

(Þau börn, sem geta reiknað rétt reikningsdæmi „Æskunnar“, ættu að senda svarið og þá verður það birt í blaðinu.)

---

## FRŒÐIBÁLKUR.

Í fornöld hétu dagarnir hér á landi: Sunnudagur (sólardagur), Mánudagur (mánadagur eða tungldagur), Þórsdagr, Óðinsdagur, Týsdagur, Freysdagur og Þvottdagur (laugardagur)

Árið 1150 var settur biskupsstóll á Hólum í Hjaltadal í Skagafirði, og þar var síðan biskupsstóll þangað til 1801. Fyrsti biskupinn á Hólum hét Jón Ögmundsson. Þótti honum óguðlegt að nefna dagana eftir gömlum skurðgoðum, Þór, Óðni, Tý og Frey, og bauð því, að breyta skyldi daganöfnum þessum í Þriðjudag, miðvikudag og Fimtudag eftir röð daga þessara í vikunni. Sjötti dagurinn var aftur á móti nefndur Föstudagur vegna þess kaþólskir menn föstuðu oft þennan dag til minningar um pínu Krists og dauða.

Danir, Þjóðverjar, Englendingar, Svíar og Norðmenn, nota enn þá gömlu daganöfnin.

---

Ísland var bygt fyrst 874.

Alþingi gamla var sett 930.

---

☛ Kaupendur „Æskunnar“ minnist þess, að hún átti að borgast í *Aprílmánuði.*

*Útgef.*

---

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í apríl, mán. ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eintök.

ÞORV. ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstr. 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.

# ÆSKAN.

| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 15. MAÍ 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 15. TBL. |
| --- | --- | --- | --- | --- |

## Úlfaldinn

er eitthvert einkennilegasta dýrið í heimi. Hann er ljótur útlits og ógeðslegur, heimskur og illur í geði, þægastur við þann, sem kvelur hann mest, en vondur við þá, er láta vilja vel að honum. Samt sem áður er hann eitt af hinum nytsamari húsdýrum, og væri hann ekki til, væri naumast byggilegt í eyðimörkunum miklu í Afríku og Asíu. — Úlfaldinn hefir framtennur bæði í efra og neðra skolti, en er þó jórturdýr eins og kýr og kindur. Hann hefir tvær örlitlar klaufir á hverjum fæti, en hann gengur ekki á þeim eins og kindin og kýrin, heldur á þykkum gangþófum, sem eru undir klaufunum. Hálsinn er langur og háreistur og höfuðið frámunalega ljótt og augnatillitið heimskulegt. Hann hefir brjóskþykkildi neðan á brjóstinu og framan á hnjánum, og eina eða tvær fitukryppur á bakinu. Fullorðinn úlfaldi er hálf þriðja til hálf fjórða alin á hæð og hálf fjórða til hálf fimta alin á lengd með höfði og hala, en 6—800 pund á þyngd. Hann lifir á grasi eins og önnur jórturdýr, en étur líka skrælnuð blöð og skorpna kvistu, þyrna og þistla. Hann hefir skarð í efri vör, og varir hans eru harðar og brjóskkendar, svo hann finnur ekki til, þótt hann bíti plöntugadda, sem færu inn úr þykkum skóm. Stundum er hann svo hungraður, að hann verður feginn að éta körfur og mottur, og reirkofa íbúanna í Afríku étur hann niður í grunn, sé þeir ekki varðir með þykkum þyrnigerðum. Hita, hungur og þorsta þolir hann allra dýra bezt.



Í Suðurálfu eða Afríku er afarstór eyðimörk er Sahara nefnist, nærri hundrað sinnum stærri en Ísland. Innan um hana eru að sönnu stórar grasspildur á stöku stað, en mikið af henni er þakið smáum rok-

sandi, þar sem ekki finst stingandí strá dag eftir dag, og væri ekki úlfaldinn til, kæmist enginn þar yfir nema fuglinn fljúgandi.

Allar þær vörur, sem fluttar eru yfir eyðimörk þessa, eru fluttar á úlföldum, og fái þeir nægilegt fóður og vatn þriðja hvern dag, geta þeir borið álíka og 3—4 hestar 10 mílur á dag. Reiðúlfaldar eru helmingi fljótari. Söðull og reiðingur er lagður yfir kryppuna eða kryppurnar. Undir virkjunum eru 4 þófar, tveir hvoru megin aftan og framan, svo virkin húsi frá kryppunni. Áburðarúlfaldarnir ganga beizlislausir í röð hver á eftir öðrum og oft eru mörg hundruð úlfaldar í sömu lestinni. Reiðúlfaldar hafa múl í beizlisstað, með stönguðum leðurtaumum. Auk þess er stungið gat í gegnum nefbrjóskið og aðrír taumar festir þar. Vanagangur úlfaldans er skeið, þ. e. hann flytur báða fætur undir eins.

Enginn úlfaldi er til viltur heldur eru þeir allir tamdir.

Úlfaldi sá er nefndur kamel, sem hefir ekki nema eina kryppu, en hinn dromedar. Kamelinn er ættaður úr Arabíu og hefir breiðst þaðan út um Vestur-Asíu og Norður-Afríku. Hann hefir verið taminn frá því sögur hefjast, og er hann oft nefndur í biblíunni.

Eleasar þjónn Abrahams hafði hann í ferðina þegar hann var sendur að biðja Rebekku handa Ísaak. — Lea og Rakel konur Jakobs riðu úlföldum þegar hann fór frá Laban tengdaföður sínum heim í Kanaans-land. Amalekítar og Midianítar áttu fjölda úlfalda og Job átti fyrst 3000 og síðar 6000 úlfalda,

Drómedarinn er brúkaður í Turan, og öðrum eyðimörkum í Mið-Asíu og jafnvel norður í Síberíu og vestur á Rússlandi. Hann er enn þá ljótari en kamelinn, loðnari, digrari og lágfættari og nokkuð dekkri á litinn.

Úlfaldinn er nefndur „skip eyðimerkurinnar“, enda er hann eina dýrið, sem hægt er að brúka í eyðimörkunum.

Úlfaldamjólkin er drukkin, en Norðurálfumönnum þykir hún væmin vegna þess, hvað smjörmikil hún er. Hárið er notað til klæðnaðar, skinnið er lítt nýtt, og kjötið hart og seigt,

Reynt hefir verið að flytja kamelinn til Ítalíu, Spánar og Mið-Ameríku, en þeir þrífast þar ekki eins vel og í Afríku og Asíu.

Í Andes-fjöllunum í Suður-Ameríku eru brúkuð Lamadýrin. Þau eru af úlfaldakyni, en minni, fallegri og rennilegri. Ull þeirra er mikið notuð til klæðnaðar.

## Konungsdóttirin.

Ég vildi, að ég væri orðin konungsdóttir!

Emma stóð í stiganum með ryksópinn í hendinni og var á leiðinni upp í litla og þrifalega herbergið sitt, sem hún varð sjálf að taka til í á hverjum morgni.

— Hvers vegna vildir þú vera orðin konungsdóttir, telpa mín, spurði móðir hennar.

— Af því að þá þyrfti ég ekki að sópa gólfið og búa um rúmin, því þá hefði ég vinnukonur, sem gerðu það fyrir mig.

— Þetta er mjög heimskuleg ósk barnið gott, sagði móðir hennar alvarlega. Því jafnvel þó þú værir orðin konungsdóttir, held ég að bezt væri fyrir þig, að þú lærðir eitthvað að gera, svo þú kynnir það ef í nauðir ræki.

— En konungsdæturnar þurfa hreint ekkert að gera.

— Heldurðu nú það? Jæja, komdu til mín, þegar þú ert búin að taka til í herberginu þínu, þá skal ég sýna þér mynd, sem þú hefir ekki áður séð.

Ekki leið á löngu áður búið var að taka til í litla herberginu og Emma litla flýtti sér ofan til móður sinnar til þess að fá að sjá myndina.

— Hvað sérðu nú Emma? spurði móðir hennar, um leið og hún hafði sýnt dóttur sinni myndina.

— Ég sé unga stúlku stuttklædda með svuntu og sóp í hendinni.

— Getnrðu sagt mér, hvers konar herbergi hún er í?

— Ég veit það ekki. Veggirnir líta út fyrir að vera úr steini, ég sé stóra steinhvelfing að ofanverðu, og gólfið er ábreiðulaust og lítur út fyrir, að það sé líka úr steini. Það er víst ekkert skemtilegt herbergi að tarna, mamma.

— Nei. Það er engan veginn skemtilegt. — Það er fangelsi, og unga stúlkan er konungsdóttir.

— Konungsdóttir!

— Já, og sagan hennar er mjög raunaleg.

— Mamma mín góð, segðu mér söguna hennar.

— Jæja, taktu þá það, sem þú ert að sauma, og sestu hjá mér, og svo skal ég segja þér söguna:

Fyrir rúmum hundrað árum var konungur sá á Frakklandi, er Loðvik XVI. hét. Drotning hans hét María Antoinetta. Þau voru engan veginn slæmir menn, en voru mjög hugsunarlaus og hugsuðu mest um að skemta sér. Þau gleymdu því, að skylda þeirra var að vinna þjóð sinni til gagns og eyddu afar-miklu fé í eintóman glaum og gleði, en flestir aðrir þar í landi liðu skort og neyð. Fólkið varð óánægt með þau, og þegar þau Loðvik og Maria Antoinetta sáu loks, að sér hafði hraparlega yfirsést og ætluðu að fara að bæta ráð sitt, var það orðið um seinan. — Fólkið hataði konung sinn og drotningu, tók þau höndum og settu þau í fangelsi það, er nefndist Templet, ásamt tveimur börnum þeirra.

Nú hófst mikil skelfingaröld. Sérhver sá var settur í fangelsi og svo vanalaga líflátinn, sem var grunaður um, að væri nokkuð hlýtt í huga til konungsættarinnar.

Bandingjarnir í Templet notuðu tímann svo vel, sem hægt var. Konungurinn kendi syni sínum og dóttur á degi hverjum, eða las hátt fyrir því öllu, en María Antoinetta drotning, Maria Teresia litla konungsdóttirin og Elisabet frændkona þeirra sátu við sauma sína.

Fólkið var svo reitt við konung sinn, að áður langur tími leið var hann tekinn úr fangelsinu frá konu sinni og börnum sínum og hálshöggvinn. Skömmu síðar var litli drengurinn, konungssonurinn, tekinn frá móður sinni, systur og frænku og látinn í annan klefa, og hafður þar einn í miklu harðara fangelsi en áður og sætti þar oft miskunarlausri meðferð. Síðan var drotningin María Antoinetta líflátin 16. Okt. 1793. En María Teresia dóttir hennar var þá ein eftir hjá Elisabet frænku sinni.

En konungsdóttirin fékk ekki lengi að hafa frænku sína hjá sér. Elisabet var líka hálshöggvin, og nú var aumingja stúlkan sextán vetra gömul einmana í þessu eyðilega fangelsi. Þannig lifði hún í hálft annað ár þjáð af sorg og milli vonar og ótta, því hún vissi ekki, hvort móðir sín og frænka væru lífs eða liðnar.

Eftir að hún var látin laus ritaði hún bók, mörgum árum síðar, um veru sína í fangelsinu. Þar segir hún meðal annars: Ég bað að eins um það allra nauðsynlegasta, er ég þurfti til að viðhalda lífinu, og þó var mér oft harðlega neitað um það; þó gat ég haldið mér hreinni og þrifalegri, því ég hafði þó að minnsta kosti bæði vatn og sápu, og svo sópaði ég daglega klefann minn.

Þannig varð konungsdóttirin að sópa bert steingólfið í klefanum sínum, og þó var hún dótturdóttir keisaradrotningarinnar Mariu Teresiu í Austurríki, einnar merkilegustu konunnar í mannkynssögunni.

Hvort heldurðu að hafi huggað þessa stúlku betur, þegar hún var í fangelsinu, að hún var konungsdóttir eða það, að hún hafði lært ýms heimilisstörf, sem auðsætt er, að hún hefir lært meðan hún lifði í allsnægtum, þegar hún var konungsdóttir, sem allir sáu ofsjónum yfir, og bjó í skrautlegri höll, og hafði marga þjóna í kringum sig?

— Er þetta sönn saga mamma?

— Já alveg sönn, telpa mín, og ég gæti sagt

þér miklu meira um þessa stúlku, en ég hefi ekki tíma til þess í dag.

— Hvernig leið henni svo seinna?

— Hún var látin laus og send til vina móður sinnar í Austurríki. Heilt ár leið, áður hún sæist brosa. Hún varð sjötug að aldri, en þó gleymdi hún aldrei voðalegu kvölunum, sem hún hafði liðið í fangelsinu.

## SKRÍTLUR.

— „Er hægt að fá kyrkislöngur keyptar hér?“

Dýratemjarinn: „Já, ef yður þóknast getið þér það gjarnan.“

— „Og hvað kostar stór slanga?“

Dýratemjarinn: „Tuttugu krónur alinin.“

---

Hans litli: „Pabbi, gefðu mér 25 aura handa fátækum dreng.“

Faðirinn (glaður í bragði): „En hvað blessaður drengurinn er brjóstgóður! Hérna eru 25 aurar, drengur minn.“

Hans litli (fimm mínútum síðar við stóran berfættan dreng): „Hérna eru 25 aurar, en svo verðurðu að lemja hann Valda duglega eins og þú hefir lofað mér.“

---

Anna litla (upp í sveit hjá föðurbróðir sínum): „Heyrðu bróðir. Er þetta ekki kýrin, sem smjörlíkið kemur úr?“

## SVAR

við reikningsdæmið nr. I. í XIII. blaði:

4 pund kaffi, 6 pund sykur. Fjórir hafa sent rétta úrlausn.

Dæmi þetta má reikna á þennan hátt:

1. Finn verðið á tíu pd. sykur, þ. e. 10 × 30 = 3,00. Nú er verðið 4 kr. og dragi ég 3 kr. þar frá verða eftir 1 kr. og hlýtur það að vera fyrir kaffi. Sykur-pundið kostaði 30 aura en kaffipundið 55 aura. Mismunurinn á verði er 25 au. á pundi. Deili ég þessum 25 í 1 kr. koma 4 au. í kvótann. Kaffipundin hafa því verið 4, en sykurpundin 6.

2. Reikna hvað 10 pd. af kaffi kosta, drag þar frá 4 kr. og deil eins með 25 í afganginn. Í kvótann koma 6, sem verða sykurpundin.

3. Aðferðin er dálítið örðugri og er því slept.

## REIKNINGSDÆMI.

2. Þrettán menn áttu að skifta 1 kr. 30 au. á milli sín, þannig að annar maðurinn fengi einum eyri meira en sá fyrsti, sá þriðji einum eyri meira en annar og svo koll af kolli, og loks þrettándi maðurinn einum eyri meira en sá tólfti. Hvað marga aura fékk sá fyrsti og þrettándi?

(Útreikningurinn ætti helzt að fylgja, frá þeim börnum, sem senda svörin),

---

Gaman væri að fá að vita frá sem flestum börnum, hvað þau langar til að sagt sé frá í „Æskunni“. Börn verða um leið að segja frá, hvað þau eru gömul. Hj. Sig.

**Leiðrétting:**

I „Fræðibálki í seinasta blaði stendur, að Hólabiskupsdæmið hafi verið stofnað 1150, en það er rangt og á að vera **1105.**

---

Kaupendur „Æskunnar“ minnist þess, að hún átti að borgast í *Aprílmánuði.*

*Útgef.*

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði. og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Aprílmán. ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

Þorvarður Þorvarðsson prentari, Þingholtsstræti 4, annnast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.

# ÆSKAN.

III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 29. MAÍ 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 16. TBL.

## Sigga í Haga.

(Framh.)

„Segðu okkur nú sögu, segðu okkur nú sögu", kölluðu systurnar á Brú, eitt sinn um vor, þegar Sigga í Haga hafði komið til þeirra rétt fyrir fráfærurnar.

Systurnar á Brú voru þrjár, á sjöunda, áttunda og níunda árinu. Hét sú elzta Guðrún, önnur Þóra, og sú yngsta Helga. Guðrún var „ljóshærð og litfríð, og létt undir brún," dálítið söðulnefjuð með skarð í höku, og allra mesta ærsladrós. Var hún á einlægu kviki allan daginn frá morgni til kvölds, sí-hlægjandi og masandi, og ekki alls kostar ólík kríunni, svo hún var oft í gamni kölluð krían. Ekki var hún hneigð fyrir innanbæjarstörf, og þótti nokkuð óstöðug við að læra kverið sitt, en aftur á móti var uppi fótur og fit á henni við alt, er gera þurfti utanbæjar. Hún var varla nema drykklanga stund að svipa sér lengst upp í fjall, upp undir fjallsbrún, eftir ánum á sumrin. Hún var eini maðurinn á bænum, sem gat náð honum Vitlausa-Brún úti á víðavangi, lagði við hann sokkabandið sitt og kom svo þeysandi á honum heim á hlað. Aftur á móti þótti henni nokkuð leiðinlegra að eiga við kýrnar, þær voru svo seinfara, og mamma hennar hafði harðbannað henni að reka þær á skokk.

Þóra litla var gagnólík eldri systur sinni, dökk á brún og brá, toginleit í andliti, með hátt nef og hvassa höku, alvarleg og hugsandi. Hún var eins hneigð fyrir innanbæjarstörfin og Guðrúnu voru þau þvert um geð. Hún tók sjaldan þátt í ærslaleikum annara barna, en væri Sigga í Haga komin, og hún ætti von á sögu hjá henni, var enginn ákafari í þær en hún, enda tók hún langbezt eftir, og fór svo að segja brúðunum sínum sögurnar, þegar hún var með þær í ró og næði í næsta sinn. Helga litla var yngsta barnið á heimilinu. Hafði verið mest látið eftir henni og hin börnin orðið að láta undan henni, enda var hún nokkuð ráðrík og frek eftir aldri, en sæi hún einhvern sorgbitinn, hafði hún hvorki ró né frið fyr en hún var búin að hugga hann.

Þar er nú til að taka, sem fyr var frá horfið, að Sigga í Haga situr í hlaðbrekkunni á Brú og öll börnin þar og í Hvammi í kring um hana. Þau voru búin að leika sér lengi vel, höfðu reynt sig í skessuleik, feluleik, fuglaleik, halarófuleik og ýmsu öðru, en voru nú sest niður til að kasta mæðinni.

— „Segðu okkur nú sögu", sagði Þóra litla við Siggu.

— „Á ég að segja ykkur um það hvernig sóleyarnar komu niður á jörðina?" spurði Sigga.

Telpurnar vildu það umfram alt, en drengirnir vildu helzt heyra um ferðir Þórs í Austurveg, þegar hann var að berja tröllin, en þó varð það úr, að Sigga byrjaði að segja frá

*Sóleyjasögunni.*

Það var einu sinni fyrir mörgum hundruð árum engar sóleyjar til á allri jörðunni. Túnin urðu að sönnu græn á vorin. Þau spruttu, og grasið lagðist í legu eins og nú. En það var ekkert skínandi fagurt blóm, sem skreytti túnin. Öll stráin voru hvert öðru lík, og ekkert bar af öðru hvorki að lit né lögun. Fíflarnir voru þá ekki fæddir, og hrafnaklukkan ekki komin á legg.

Þá var uppi kerling ein, er Þórný hét. Hún var niðursetningur og hafði verið svo mestan

hluta æfinnar, því þegar hún var komin um fermingar-aldur lagðist hún í hættulega sótt, sem hún náði sér aldrei eftir. Foreldrar hennar voru fátækir, og létu engar eigur eftir sig, og lá þá ekkert annað fyrir henni en sveitin. Þá var farið öðru vísi með sveitarómaga en nú á dögum. Þeir voru hraktir og barðir, og urðu að lifa við sult og seyru, þó þeir væru á beztu efnaheimilum, og það enda þótt annað heimilisfólkið lifði allra bezta lífi.

Þórný gamla var hædd og hrjáð bæði af húsbændunum og vinnufólkinu, og brotnaði eitthvað innanhúss, sem vinnukonurnar voru valdar að, höfðu þær oftast lag á, að koma því yfir á Þórnýju, og það stóð allsendis á sama, þótt hún gæti sýnt fram á, að það væri ómögulegt, að slíkt væri sér að kenna. Það bitnaði á henni jafnt fyrir því.

Lengst af var Þórný niðursetningur á bæ þeim, er hét á Hóli, Ekki var þar farið betur með hana en víða annarsstaðar. Einkum var þar vinnukona ein, er Sigurlaug hét, er gerði flest sem í hennar valdi stóð til þess, að gera Þórnýju gömlu lífið óbærilegt. Sigurlaug hafði lag á því, að koma sér í mjúkinn hjá húsmóður sinni, svo hún trúði flestu, er hún sagði henni, og notaði hún sér þannig trúgirni húsmóður sinnar, að hún bar henni sögur um alla aðra, og yrði henni sjálfri eitthvað áfátt, var það segin saga hennar, að reyna að koma yfirsjón sinni yfir á aðra ef mögulegt væri. Einkum varð þó Þórný gamla fyrir því, enda var hún minst máttar að bera hönd fyrir höfuð sér, og var auk þess tæpast með svo miklu ráði, að hún hefði fullkomlega vit á því.

Hjónin áttu tvö börn. Kristján og Sigrúnu, sjö og átta ára að aldri. Þau voru að eðlisfari góð og meðaumkunarsöm við aumingja, og þótt þau væru enn þá á bernskuskeiði, sáu þau, að meðferðin á Þórnýju gömlu, var engan veginn jafn góð og vera bar. Þeim hafði verið kent að segja satt, og brýnt fyrir þeim, hvílíkt tjón ósannindin hefðu í för með sér. Þegar þau sáu, að Þórný gamla var svöng, reyndu þau að miðla henni af mat sínum svo ekki bar á, og það bar ekki sjaldan við, að þau sönnuðu, að hún var saklaus að því, er Sigurlaug vildi koma yfir á hana. Væri Þórný hnuggin, fóru þau til hennar og reyndu að hugga hana. Án þeirra hefði líf hennar verið einber kuldi, sorg og mæða, en þau voru í einu orði einu sólskinsblettirnir í lífi hennar.

Þá var það eina nótt, að Sigrúnu litlu dreymdi draum: Henni fanst hún sitja úti í hlaðvarpanum, í glaða sólskini um hádegisbil — líkt og við sitjum núna. — En alt í einu þótti henni sólin renna ofan af himninum og koma til sín og segja við sig: „Ég hefi séð til ykkar systkinanna, hvernig þið hafið glatt aumingja gömlu konuna, sem er hjá ykkur. Þið hafið gefið henni mikið betra en ég hefi gefið ykkur. Þið hafið verið ljósenglar guðs á leið þessa hruma gamalmennis, sem á engan að á jörðinni. Ég er send til ykkar, frá þeim, sem bjó til ljósið. Þreytist ekki að láta gott af ykkur leiða, og til merkis um það, að þið hafið hegðað ykkur eins og góðum börnum sæmir, til þessa dags, munið þið hér eftir sjá gleðitárin mín hérna í hlaðbrekkunni.“ Að svo mæltu hóf sólin sig aftur upp á himininn.

En morguninn eftir, sáu börnin, að öll hlaðbrekkan var þakin sóleyjum. Það var kveðja sólarinnar til barnanna, sem aumkvuðust yfir aumingja gömlu og munaðarlausu konuna.

# Eldlendingar.

Suður af syðsta tanganum á Suður-Ameríku er eyland eitt stórt, er Eldland nefnist og margar eyjar smærri, hólmar og sker. Sjálft Eldlandið er álíka stórt og hálft Ísland, en allar hinar eyjarnar, eru til samans álíka og Eldlandið hálft. Eyjar þessar eru næst um jafn langt fyrir sunnan miðjarðarlínu og vér

erum fyrir norðan hana. Kemur sól þar upp í austri líkt og hjá oss, en gengur svo vestur yfir himin í norðri, og er í hánorðri um hádegið, og heldur svo áfram vestur eftir, unz hún rennur í vestri. Þar er sumar þegar hér er vetur, vetur þegar hér er sumar, því dagur er þar lengstur þegar hann er styztur hjá oss, eða um Jólaleytið, en styztur um Jónsmessu, þegar lengstur dagur er hér á landi, og allstaðar á norðurhelmingi jarðarinnar. — Eldlandið er ákaflega fjöllótt og eins allar eyjarnar kringum það, og alt sundurskorið af sundum, fjörðum, víkum og vogum. Öll þau hærri fjöll eru þakin jökli og snjó alt árið um kring, og sumstaðar ganga breiðar jökultungur alt niður til sjávar, en neðan frá sjó og upp í miðjar fjallahlíðar eru þéttir og dimmir beykiskógar. Blöð trjánna eru sígræn, árið um kring, eru stofnar sumra þeirra hálf fjórða alin á þykt. Sundin og firðirnir eru svo djúp, að oft eru stórir hvalir á sundi undir trjánum, sem vaxa niður við flæðarmál. Þar eru stormar, þokur og rigningar tíðar og sér þar sjaldan til sólar.

Helzta spendýrið sem lifir í þessum feyknaskógum, er einskonar Lamadýr, sem getið var um í síðasta blaði „Æskunnar.“ Nota íbúarnir kjöt þess til matar en skinn þess til klæðnaðar, en þeir kunna ekki að temja það. Þar er fátt af fuglum og fátæklegt af blómum, og alt landið er yfir höfuð mjög skuggalegt og drungalegt.

Aftur á móti er hafið krökt og kvikt af allskonar dýrum, stærri og smærri. Þar er mikil mergð ýmiskonar selategunda, enda lifa íbúar landsins einkum á selaveiðum líkt og Grænlendingar. Þar er einnig gnægð hvala og oturdýra. gæsir, endur og ýmsir aðrir sjófuglar og hver smáfjörður úir og grúir af fiski, kröbbum og skelfiskum, sem er aðal lífsbjörg landsmanna.

Aðal-íbúarnir á eyjum þessum eru nefndir Pescharear og standa þeir einna lægst allra villiþjóða í heimi. Kynda þeir stór bál niður við sjó á kvöldi hverju, og hefir landið því verið nefnt Eldlandið, og íbúarnir Eldlendingar. Þeir eru magrir og litlir vexti, tæp hálf þriðja alin á hæð, höfuðstórir og hálsstuttir, bringubreiðir og magamiklir. Fætur og handleggir þeirra eru aftur á móti mjög grannir og rýrir.

Vanalega eru þeir svo óhreinir, að ekki er hægt að sjá hörundslit þeirra fyr en búið er að skafa af þeim eða skola utan af þeim, en vanalega eru þeir eirrauðir á hörund líkt og Indianar eða Rauðskinnar í Ameríku. Þeir eru breiðleitir og kringluleitir með lágt enni, er skútir fram yfir augun, en augun eru lítil og sýnast liggja langt inn í höfðinu. Nefið er flatt og breitt. nasaholurnar víðar, varirnar þykkar. Alt útlit þeirra er snögt á að líta mjög sljótt og dýrslegt, sjaldan sést bros á vörum þeirra, en sé þeir athugaðir nánar, sést þó, að þeir eru af sama bergi brotnir og vér.

Kofar þeirra eru niður við ströndina, stundum 3 eða 4 hver hjá öðrum, og eru það þær aumlegustu byggingar, sem hægt er að hugsa sér; Nokkrar greinar eru brotnar af trjánum og þeim stungið niður í jörðina í hring, en að ofan eru greinar þessar beygðar saman og bundnar hver við aðrar með viðartágum. Smærri greinum er brugðið inn á milli, til þess að gjöra það þéttara, og loks er kofi þessi þakinn utan með sefi og grasi, og jafnvel gömlum selskinnum. Stundum er þó ekki þakið yfir nema á rigningaráttina. Líkjast kofar þessir heybólstri snögt á að líta. — Eldlendingar kynda bál á gólfinu í kofum þessum og fer reykurinn jafnóðum út um veggina, en eldinum er haldið við bæði nótt og dag. Fyrir utan kofana eru fáeinir hálfviltir hundar á rjátli, en það eru einu dýrin, sem Eldlendingar hafa dálítið tamið. Hundar þessir hjálpa til að veiða oturdýr.

Fólkið liggur á nóttunni kringum bálið inn í kofum þessum og hefir breitt eitt eða tvö oturskinn yfir sig. Föt þekkja Eldingar ekki, og ganga oftast berir árið um kríng, en þeim þykir það ekki verra, en okkur að vera úti með bert andlitið. (Framh.).

Landfræðisgáta.

Finnið: 1. tind á Vestmannaeyjum, 2. verzlunarstað á Suðurlandi, 3. eldfjall nálægt Mývatni, 4. á á Austurlandi og 5. fjörð á Norðurlandi.

Séu fyrstu stafirnir í hverju þessara nafna settir saman í þessari röð, verður úr því nafn á merkilegasta fjallinu á Íslandi.

REIKNINGSDÆMI.

3. Það er sagt að skáktaflið sé fundið upp í Austurálfunni. Hafi þar verið konungur nokkur, sem hafi ekki vitað, hvernig hann átti að koma úr sér leiðindunum, og þá hafi ráðgjafi hans fundið upp skáktaflið honum til skemtunar. Konungi hafi þótt svo mikið í skáktaflið varið, að hann hafi sagt ráðgjafanum, að ákveða sjálfum, hvað mikið hann ætti að borga honum fyrir það. Þá á ráðgjafinn að hafa sagt: „Á borði þessu eru 64 reitir. Ég er ánægður, ef þér gefið mér 1 byggkorn fyrir fyrsta reitinn, 2 fyrir annan, 4 fyrir þann þriðja, 8 fyrir þann fjórða og svo koll af kolli, helmingi meira fyrir hvern reit, en þann næsta á undan.“ Hvað mörg byggkorn fékk svo ráðgjafinn fyrir sextánda og tuttugasta reitinn?

SMÁVEGIS.

Þið hafið líklega flest séð sólmyrkvann í dag, börn, hvernig skuggi kom á sólina, eins og búið væri að skera hvolfsneið úr henni, og hvernig skuggi þessi færðist austur og upp af sólinni. Þið vitið líklega líka, að sólmyrkvi kemur af því, að tunglið skyggir á sólina, og þykir það því ekkert undarlegt, enda sést það alt af í Almanakinu. Villimenn skilja ekkert í sólmyrkvum og tunglmyrkvum, og halda þeir komi af því, að guðir þeirra séu reiðir við sig og verða þeir þá afar-hræddir. Kínverjar halda, að einhver ógurlega stór dreki elti sól og tungl, sem sé að reyna að gleypa þau.

Þegar ég var barn, var kerling ein á sama bæ og ég, og sagði hún mér frá, að til væri fleiri jarðir, en jörðin, sem vér erum á. Væru jarðir þessar hver yfir annari, og væru þær eins og hvelfing að neðan, en sléttar að ofan, og himininn, sem ég sæi yfir mér, væri ekki annað en jörðin, sem væri næst fyrir ofan jörðina okkar. Allar þessar jarðir væru hver annari líkar. En rigningin hjá okkur kæmi af því, að á jörðinni næstu fyrir ofan okkur, skylli brimið við klettaströndina. — Hvernig finst ykkur hún hafa verið í landafræði, kerlingin sú arna?

Séra Brandur á Felli hafði haldið mjög hjartnæma ræðu, svo allir áheyrendurnir grétu á endanum. Daginn eftir hittust tvær konur og fóru að tala um þessa hjartnæmu ræðu. „Ég grét mest allra“, sagði önnur. „Það getur gjarnan verið, en það var þó ég sem grét fyrst“, svaraði hin.

☛ *Útsölumenn og kaupendur „Æskunnar“ eru beðnir um að gefa útgefanda strax til kynna, ef þeir ekki fá blaðið með hverjum pósti eða strandbátunum, því blaðið er altaf sent með hverri ferð, svo það hlýtur að vera af ruglingi hjá póstmönnum, ef blaðið ekki kemur. Ef nokkur væri sá, sem ekki hefir fengið „Reykjavík“ síðan hún kom út, þá geri hann aðvart um, því hún fylgir með til allra heimila á Íslandi, þar sem „Æskan“ er keypt.*

*Útgef.*

☛ Kaupendur „Æskunnar“ minnist þess, að hún átti að borgast í *Aprílmánuði.*

*Útgef.*

„ÆSKAN“
kemur út tvisvar í mánuði. og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Aprílmán. ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

Þorvarður Þorvarðsson prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.

# ÆSKAN.

| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 15. JÚNÍ 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 17. TBL. |
|---|---|---|---|---|

## Vorið í sveitinni.

Vorið er fallegasti tíminn í sveitinni. Snjóinn tekur smám saman upp, og snjókerlingarnar bráðna í sundur, sem börnin hafa haft mikið fyrir að búa til á veturna. Lækirnir ólmast kolmórauðir niður allar brekkur og áin fyrir neðan bæinn er á sund á kvöldin þegar heitt hefir verið á daginn. Gemlingarnir eru nú reknir út úr lambhúsunum og upp á heiði til að hafa ofan af fyrir sér, en tryppin út á mýrar. Hesthúsin eru mokuð og lambhúsin stungin út og skánin borin út á tún. Sumstaðar er hún klofin, reist og þurkuð; síðan er henni hlaðið í hrauka, svo hún verjist fyrir rigningunni, en síðan er hún borin heim og flutt inn í taðstál, svo hægt sé að hafa hana til eldsneytis. Annars staðar er hún höfð til áburðar á túnið. — Nú er margs að gæta, og allir, ungir og gamlir, hafa nóg að gera. Það þarf að sópa og hreinsa heygarðinn, tína burtu torfusnepla og bera þá út í flag. Aðrir fara að byggja upp túngarðinn, svo Rauður og Skjóni brjótist ekki inn í tún. Vinnukonurnar fara að vinna á túninu og hreinsa það, áður en brunnið sé undir hlössunum, sem borin hafa verið haustið áður. Smám saman fer að grænka; fyrst byrjar það í hlaðvarpanum, og svo færist það út eftir öllu túninu, yfir Fjósatungguna og Eldiviðarflötina, alt út í túnfótinn, og svo kemur Stöðullinn, Hrútabrekkan, holtin mýrarnar og móarnir á eftir. Áður langt um líður er öll jörðin orðin hvanngræn. — Nú er farið að hleypa út kúnum og Gunna litla látin reka þær austur í Dagmálabrekkuna. Eru þær nokkuð óstiltar, þegar þeim er slept lausum í fyrsta sinni, og vilja ólmast og hlaupa í allar áttir, svo að Gunna litla kemur ef til vill heim eftir dálitla stund hálfsnöktandi, og segir mömmu sinni, að hún hafi ekkert ráðið við óhræsis kýrnar, því þær hafi ruðst út úr höndunum á sér, langt vestur fyrir Náttmálakletta, svo hún hafi ekki séð á eftir þeim. Er þá kallað á Guddu vinnukonu, þar sem hún er að vinna á túninu, kemur hún heim með kláriun reiddan um öxl, með heklaða sjalhyrnu á herðunum og stóran hvítan klút yfir höfðinu. Hefir hún brotið stífan pappír innan í klútinn, til að spenna hann út, svo hann falli ekki ofan fyrir augu, dregur hann svo langt fram fyrir ennið eins og der eða hattbarð, svo hún verði ekki sólbrend eða mórauð í framan. Verður hún að hlaupa á eftir kúnum, svo þær sendi sér ekki í mógrafirnar, sem eru fullar eftir rigningarnar. Gvendur vinnumaður kemur úr verinu með nýan hatt, og Nonna litla verður heldur en ekki starsýnt á nýa sjálfskeiðinginn hans tvíblaðaða, og hugsar varla um annað en geta fengið sér svona undurfallegan hníf fyrir hagalagðana sína, þegar farið sé með þá í kaupstaðinn á lestunum. Hann langar vitanlega fjarska mikið til að fara með í kaupstaðinn til þess að kaupa hnífinn og sjá kaupstaðinn og skipin sem koma með allan varninginn. Honum þykir auðvitað undur vænt um hann pabba sinn, og heldur að hann geti hér um bil alt sem hugsanlegt er, en þó trúir hann honum ekki almennilega fyrir að kaupa sjálfskeiðinginn tvíblaðaða. Svo þarf hann líka að fá sér blýant með nikkelhólk á endanum og strokleðri í, eins

og hann Doddi í Holti. En Nonni litli fær ekki að fara enn. Hann þarf að vera heima til þess að vaka yfir túninu og verður að bíða þangað til hann er orðin stór, þegar búið er að temja hann Glófaxa, sem honum var ánefndur í fyrra. Og þá á Nonni líka að fá nýan hnakk með reiða og ístöðum, og þá fær hann að ríða við stangabeizli og með látúnsbúna spansreyrssvipu með nýrri sútaskinnsól.

Unglömbin eru þó það allra fallegasta sem hægt er að sjá í sveitinni á vorin. Það verður uppi fótur og fit á honum Nonna litla, þegar Gvendur smali kemur heim frá fénu einn morguninn rétt eftir Krossmessuna, og segir frá að nú sé hún Afturkemba borin og hafi átt ljómandi fallegan hvítan hrút. Það verður auðvitað lambakóngurinn. Daginn eftir kemur Gvendur með annað lambið. Það er botnótt gimbur, og hefir ærin ekki fætt; þá er ærin tekin heim á tún og Gudda látin gefa lambinu mjólk gegnum fjöðurstaf kvöld og morgna. Svo ber hver ærin á fætur annari. Hrafninn og veiðibjallan hafa drepið lambið hennar Golsu áður en það var komið á fót. Er þá flegið skinnið af lambinu og það saumað utan á lamb undan annari á. Golsa fer að skoða lambið í krók og kring; fyrst vill hún ekkert hafa með það að sýsla, en smám saman heldur hún að þetta sé lambið sitt, og tekur það að sér; sýgur það svo hana og móður sína til skiftis og verður einna fallegasta lambið um fráfærurnar. Ær þessar eru kallaðar samlokur, og skilja þær hvorug við lambið, því þeim finst báðum þær eigi það.

---

# Nákvæm eftirtekt.

(Þýtt).

Munkur nokkur var eitt sinn á ferð í eyðimörk einni í Austurlöndum og mættu honum kaupmenn tveir.

„Þið hafið týnt úlfalda“, sagði hann við kaupmennina.

„Já, það höfum við gert“, svöruðu þeir.

„Var hann ekki blindur á hægra auga og haltur á vinstra afturfæti?“ spurði munkurinn.

„Jú, það var hann“, svöruðu kaupmennirnir.

„Og var hann ekki klyfjaður hunangi öðrum megin en hveiti hinum megin?“

Það stendur alveg heima“, svöruðu kaupmennirnir, „og fyrst þú hefir séð hann svona nýlega, og tekið svo vel eftir honum, geturðu líklega vísað okkur á, hvar hann er“.

„Vinir mínir“, mælti munkurinn, „eg hefi hvorki séð úlfaldann ykkar né nokkuru sinni heyrt talað um hann, nema það sem þið hafið núna sagt mér frá“.

„Það er dáindis trúlegt að tarna!“ mæltu kaupmennirnir. „En hvar eru gimsteinarnir, sem voru á honum meðal annars“.

„Ég hefi hvorki séð úlfaldann ykkar né gimsteinana“, svaraði munkurinn enn á ný.

Þegar hann hafði þetta mælt tóku þeir hann höndum, fóru með hann í skyndi til dómarans og ákærðu hann fyrir þjófnað. Var leitað vandlega á honum, en ekkert fanst, og þrátt fyrir rannsóknina fundust engar sannanir gegn honum, að hann hefði haft svik eða þjófnað í frammi.

Kaupmennirnir ætluðu þá að ákæra munkinn fyrir fjölkyngi. Stóð hann þá upp og sagði mjög rólegur við dómarann: „Ég hefi haft mikla ánægju af því, hversu þér hafið furðað yður á því, hvað eg veit um úlfaldann, og eg játa, að það hefir verið nokkur ástæða til þess að þér hefðu grun um, að eg mundi hafa séð hann. En eg er orðinn gamall, lifi einmana og hefi því haft gott tækifæri til að taka eftir mörgu og það jafnvel í eyðimörkinni. Ég sá, að úlfaldinn mundi hafa týnst, vegna þess, að ég sá engin mannaför þar sem brautin var eftir hann. Ég sá, að dýrið var blint á öðru auganu vegna þess, að það hafði ekki kroppað grasið nema öðrum megin við veginn, og ég sá, að það mundi vera halt á einum fæti vegna þess, hve lítið bar á farinu eftir þann fótinn í sandinum. Ég þóttist

líka viss um, að ein tönnin væri úr úlfaldanum, vegna þess, að dálítill grastoppur var allstaðar ósnertur í miðjunni, þar sem hann hafði verið að bíta. Og loks komst ég að því, hverjar klyfjar hefðu verið á honum, af því, að maurar voru í óða önn að leita að korni öðrum megin vegarins, en hinum megin voru hópar af flugum, að leita að hunangi“.

# St. Bernharðshundurinn.

**Hundurinn** er eitt skynsamasta dýrið, sem vér þekkjum. Þið þekkið víst öll góða smalahunda sem hjálpa ykkur til að reka saman féð og verja með ykkur tún og engjar. — Einna skynsömustu hundarnir eru St. Bernharðshundarnir í Alpafjöllum. Það eru há fjöll milli Frakklands og Svissaralands og Ítalíu, og eru þau hæstu nærri 15000 feta há, eða meira en helmingi hærri en hæstu fjöllin hér. Eitt af fjöllum þessum er St. Bernharð. Þar er skarð í fjöllin og hefir verið þar vegur yfir þau. En skarðið er svo hættulegt, að þar getur komið blindbylur alt í einu upp úr bezta veðri, jafnvel um hásumarið. Efst á skarðinu er munkaklaustur eitt og eru munkarnir þar til þess að bjarga lífi ferðamanna, sem fara yfir fjöllin. Hafa þeir stóra sterka og skynsama hunda, er þeir hafa vanið til að fara út í hríðarbyl til að leita uppi ferðamenn, sem vilst hafa. Hundarnir eru sendir tveir saman. Er hlý ullarkápa girt ofan á bakið á öðrum, en karfa með mat og drykk er fest við leðurólina á hálsinum á hinum. Finni þeir viltan mann, fær hann bæði kápuna og matinn, og svo leiðbeina hundarnir honum heim í klaustrið, svo hann geti fengið þar hjúkrun. Stundum er maðurinn svo að fram kominn, að hann getur ekki fylgt hundunum, og þá hlaupa þeir geltandi heim, og munkarnir fara þá með þeim út í hríðina til að hjálpa manninum. Þegar upp styttir, krafsa hundarnir ofan í fannirnar þar sem menn hefir fent og látið fyrir berast, og er því mögulegt að finna þá, og tekst þá stundum að bjarga lífi þeirra.

Nú er búið að grafa tvenn göng í gegnum Alpafjöllin, og verið að grafa þau þriðju. Eru göng þessi 2—3 mílur á lengd með járnbraut í og fara gufuvagnar eftir þeim. Er líklegt, að við það minki ferðirnar yfir skörðin, og minna þurfi að halda á skynsömu St. Bernharðshundunum.

# Eldlendingar.

Það verður að nota tímann meðan lásjávað er, því að þá er hægast að tína skeljar og krabba úr fjörunni. Skipa karlmennirnir kvennfólkinu af stað, og fer það hægt og hægt að búa sig til ferðar. Börnin hefir kvenfólkið með sér, leiðir þau stærri en ber þau smærri í skinnsekk á bakinu. Börnin eru ber eins og fullorðna fólkið, nema oturskinn er hengt utan á sum þeirra og því snúið ýmist í bak eða fyrir, svo það sé jafnan áveðurs til skjóls fyrir vindinum. Aðrar konur fara inn í skóginn til þess að tína ber eða safna sveppum, sem hægt sé að hafa til matar. Þurfa þær ýmist að vaða yfir fen og foræði eða klifra yfir hálffúna trjáboli, sem dottið hafa um koll af elli.

Karlmennirnir eru ekki heldur iðjulausir, enda veitir ekki af að hafa úti allar klær til að halda við lífinu. Einkum er nú orðið fátt til fæðu síðan Ameríkumenn tóku að stunda selaveiðar við Eldlandsstrendur. Ímynda Eldlendingar sér, að selunum fækki, af því að einhver vondur andi eða galdramaður hafi fælt þá á burt. Herða Eldlendingar sig að ná sér einhverju til matar meðan nokkuð er að fá: seli, fisk, gæsir og endur o. s. frv. Verða þeir að taka allskonar vopn með sér á morgnana, því ekki er víst hvaða dýr verða fyrir þeim á daginn. Merkilegasta vopnið er selaskutullinn. Það er stöng, 4—5 álna löng, og er framan á henni oddur úr beini með

agnhaldi á; er oddur þessi bundinn við skaftið, en svo er um búið, að skaftið losnar frá þegar skutullinn hittir selinn. Situr þá oddurinn í sárinu, en við hann er fest langt band, sem veiðimaðurinn sleppir ekki úr hendi sinni.

Fiskar eru skutlaðir með beinskutlum, sem eru með mörgum agnhöldum, hverju upp af öðru. Fuglar eru aftur á móti veiddir með slöngu úr leðurólum eða sinum og steinum í. Kunna Eldlendingar frábærlega að hæfa með slöngunni. Boga nota þeir minna. Bogi þeirra er stuttur en sterkur. Er bogastrengurinn úr fléttuðum sinum. Örin er úr tré með oddi úr steini eða glerbroti og tveimur fjöðrum að aftanverðu, sem stýra henni á fluginu. Örvaroddinn brjóta þeir úr steini verkfæralaust og laga hann á svipstundu svo, að aðrir menn gætu alls ekki gert það á jafnstuttum tíma. — Kvenfólkið veiðir fiska með eins konar færi. Er það úr fléttuðum sinum með steinsökku og snöru á neðri endanum og er beitan fest innan í snöruna. Öngla kunna þeir ekki að búa til. Með þessu ófullkomna færi eru veiddir ýmiskonar fiskar.

Bátarnir eru með röngum úr tré að innanverðu, klæddir með trjáberki og allir bundnir saman með sinum. Eru þeir svo lekir, að stöðugt verður að ausa þá. Leirhlóðir eru í botni bátsins og bál kynt á þeim. Bátum þessum er róið með einblöðuðum árum, stundum af kvenfólki, en segl eru ekki þekt. Róa Eldlendingar á kænum þessum ekki að eins um firðina og milli eyjanna, heldur einnig stundum alllangt út á haf — til yztu hólma og skerja, þar sem selirnir haldast við. Þarf til þess karlmennsku og sterka heilsu, að vera á sjó í stormi og sjógangi, slyddu og rigningu allsber, nema með snepil af dýrshúð á herðunum; enda er það að eins hraustasta fólkið, sem þolir þetta, en hinir deyja, sem óhraustari eru.

## SKRÍTLUR.

Ung stúlka úti á sjó við unnusta sinn: „Heyrðu Árni. Ertu viss um, að við komumst alla leið slysalaust?“

„Já, það er eg alveg viss um“, svaraði hann. „Ég hefi talað við skipstjórann, og hann hefir sagt mér, að hann hafi ekki druknað enn, og þó hefir hann verið á þessu sama skipi í 32 ár“.

---

„Hertu dálítið á hestinum“, sagði maðurinn við vagnstjórann sinn, þegar hann var á leiðinni til kirkjunnar í brúðkaupið sitt, „annars komum við ekki fyr en alt er búið fyrir löngu“.

---

Barnalegt. Sigga: „Heima hjá okkur er allur borðbúnaðurinn úr silfri“.

Manga: „En hjá okkur er alt úr gulli, og það meira að segja járnkatlarnir og postulínsbollapörin“.

---

Maður nokkur ædi ölvaður kom eitt sinn út úr veitingahúsi seint um kvöld. Tungl var í fyllingu og glaða tunglsljós. Maðurinn var með hálfreyktan vindil í hendinni og var dautt í honum. Sá hann ekki betur en svo, að hann hélt að tunglið væri eldurinn í vindli hjá einum þeirra manna, sem með honum voru. Rekur hann þá vindilinn upp í loftið, bendir á tunglið og segir: „Viltu ekki gera svo vel að gefa mér eld!

---

Kaupendur „Æskunnar“ minnist þess, að hún átti að borgast í *Aprílmánuði.*
*Útgef.*

---

„ÆSKAN“
kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mán. ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.
Þorvarður Þorvarðsson prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

AIDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.

# ÆSKAN.

III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 20. JÚNÍ 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 18. TBL.

## Níu hundruð ár

eru liðin, 24. þ. m., síðan kristin trú var tekin í lög hér á landi. —

Ísland, landið okkar var fyrst bygt árið 874, og var orðið albygt 930. Þeir menn, sem bygðu landið, voru kallaðir landnámsmenn, og komu flestir frá Noregi. — Voru þeir flestir heiðnir og trúðu á guði þá, er þeir kölluðu Æsi, og tilbáðu líkneski af þeim. Helztir þessara goða voru Þór og Óðinn, sem að líkindum hafa verið hraustir hermenn, og er haldið, að Óðinn hafi verið konungur í Svíþjóð. Ýmsir landnámsmenn komu þó frá Skotlandi og Írlandi og eyjunum þar í grend, og voru ýmsir þeirra kristnir, en flestir niðjar þeirra tóku aftur heiðna trú.

Þegar Island hafði verið bygt í rúm 100 ár, kom Húnvetningur einn úr utanför, Þorvaldur Koðránsson að nafni, árið 981. Hafði hann tekið kristni á Þýzkalandi og vildi nú boða trú sína á Íslandi. Með honum var þýzkur biskup er Friðrekur hét, sem kunni ekki íslenzku. Boðuðu þeir kristna trú víða á Norðurlandi. Prédikaði biskup en Þorvaldur lagði út ræður hans. Dvöldu þeir hér á landi 5 ár og tóku þá margir Norðlendingar kristna trú, og einn höfðingi reisti kirkju í Ási í Hegranesi í Skagafirði. Heiðingjar urðu nú reiðir Þorvaldi og biskupi. Höfðingi einn í Skagafirði er Klaufi hét Þorvaldsson, ætlaði að brenna nýju kirkjuna, en þorði ekki, þegar á átti að herða. Reyndi hann tvisvar, en í bæði skiftin fór á sömu leið. Í fyrra sinni sýndist honum kirkjan í loga, en í síðara skiftið þótti honum örvum skotið alt í kringum sig. Aðrir ætluðu að brenna þá Þorvald og biskup inni á Lækjamóti í Húnavatnssýslu, en hestarnir fældust undir þeim, er ætluðu að sækja þá heim. Sumir kváðu níðvísur um þá Þorvald. Drap Þorvaldur þá nokkura menn, og líkaði biskupi það illa. Var þá Þorvaldur dæmdur útlægur á Hegranesþingi í Skagafirði 986, og fóru þeir Þorvaldur og biskup þá af landi burt.

Nú liðu 10 ár áður nýr kristniboði kæmi til Íslands. Haustið 995 varð nýr konungur í Noregi. Hét hann Ólafur Tryggvason, einhver sá mesti íþróttamaður og mikilmenni, sem sögur fara af. Hafði hann tekið kristna trú, og vildi þegar koma henni á bæði í ríki sínu, Noregi, og löndum þeim, sem þaðan voru bygð: Færeyjum, Íslandi og Grænlandi. Vorið eftir að Ólafur kom til ríkis, sendi hann íslenzkan mann hingað til að boða kristni, er Stefnir Þorgilsson hét. Var hann hér eitt ár og ferðaðist um Borgarfjörð. Gekk honum klaufalega kristniboðið. Tók hann þá að brjóta niður hús þau, er heiðnir menn geymdu goð sín í. Voru þau nefnd hof og voru í stað kirkna kristinna manna. Fyrir þetta var hann dæmdur útlægur á alþingi vorið eftir, 997, og fór hann af landi burt sama sumarið.

Maður er nefndur Þangbrandur, sonur Villibaldusar, greifa eins á Þýzkalandi. Þangbrandur var kristinn maður og talinn prestur góður, en hikaði sér ekki við að vega menn, þegar honum bauð svo við að horfa. Þangbrandur hafði komið til Noregs með Ólafi konungi, og fékk konungur honum þar prestsembætti. Þangbrandur var eyðslusamur, og um miðjan vetur var hann búinn með allar tekjurnar, sem konungur hafði borgað honum. Tekur Þangbrandur þá

vopn sín og rænir bændur í kring um sig. Þegar konungur heyrir þetta, líkar honum það illa, kallar Þangbrand fyrir sig og ávítar hann harðlega. Heitir konungur honum þó, að hann skuli komast aftur í sátt við sig, ef hann fari til Íslands og geti komið þar á kristni. Játti Þangbrandur því. Fer hann til Íslands sama sumarið, sem Stefnir kom þaðan (997), kom við land á Austfjörðum og var um veturinn á Þvottá í Álftafirði í Suður-Múlasýslu hjá höfðingja þeim, er Síðu-Hallur er nefndur, og tók Hallur kristni á páskum og alt heimilisfólk hans. Sumarið 988 fór Þangbrandnr um land og boðaði kristna trú; fór hann um alla Austfjörðu og Norðurland vestur að Skjálfandafljóti, en heiðnir menn nyrðra söfnuðu þá her móti honum, og varð hann að snúa þar við aftur. Eftir það fór Þangbrandur vestur eftir Suðurlandi, og skírði þar ýmsa menn. Meðal þeirra var Njáll á Bergþórshvoli, Gissur hvíti á Höfða í Biskupstungum og Hjalti Skeggjason. Verður þeirra síðar getið. Reið Þangbrandur til alþingis með Síðu-Halli og boðaði þar trú. Þaðan fór hann vestur um sumarið og komst alt að Haga á Barðaströnd. Þar bjó maður sá, er Gestur hét, Oddleifsson. Var þar saman komið margt manna. Taldi Þangbrandur trú fyrir þeim og lofuðu þeir að taka kristna trú, ef Þangbrandur gæti yfirstigið berserk nokkurn, sem vanur var að ganga gegnum logandi eld. Skoraði hann á Þangbrand til hólmgöngu og mælti: „Eigi muntu þora að berjast við mig, er þú sér íþrótt mína; eg geng berum fótum um eld brennanda, og ég læt fallast á saxodd minn, og sakar mig hvorugt“. Þangbrandur mælti: „Guð mun því ráða“. Vígði Þangbrandur eldinn, en gjörði krossmark yfir saxinu. Berserkurinn brann á fótum er hann óð eldinn, en er hann féll á saxið, stóð það í gegnum hann. Fögnuðu þessu margir, enda þótt heiðnir væru. Tóku margir þar trú. — Margir heiðnir menn höfðu kveðið níðvísur um Þangbrand, en hann hefndi sín með því að vega nokkura þeirra. Var hann þá dæmdur útlægur á alþingi, og hver sá maður, er talaði illa um heiðin goð. Veturinn eftir var Þangbrandur aftur á Þvottá hjá Síðu-Halli, en vorið eftir, 999, fór hann aftur til Noregs og hitti Ólaf konung í bænum Niðarósi, sem heitir Þrándheimur nú á dögum.

Hjalti Skeggjason hét höfðingi nokkur, sem áður er nefndur. Hann bjó að bæ þeim, er að Sámstöðum hét í Þjórsárdal. Hérað þetta var efst í Árnessýslu, austur við Þjórsá, rétt fyrir ofan Eystrihrepp, en lagðist í eyði af eldgosi á 14. öld. — Hjalti hafði tekið kristni af Þangbrandi og orkt háðvísur um heiðin goð, og var hann því dæmdur fyrir goðlöstun útlægur um 3 ár á alþingi 999. Fór hann utan sama sumarið og sömuleiðis Gissur hvíti tengdafaðir hans. Er sagt, að Hjalti hafi smíðað skip sitt í Þjórsárdal og farið með það ofan alla Rangá til sjávar. Sendi þá Runólfur goði í Dal undir Eyjafjöllum, fjandmaður Hjalta, sekan mann til að drepa hann. En honum tókst það ekki, heldur tók Hjalti manninn höndum, gerði hann honum ekkert mein, en flutti hann utan.

Hjalti og Gissur komu til Noregs um haustið, um sama leyti og Þangbrandur. Sagði Þangbrandur Ólafi konungi, að seint mundu Íslendingar kristnir, enda væri þeir svo göldróttir, að þeir léti jörðina springa sundur undir fótum manna. Ætlaði þá konungur í hefndarskyni að láta drepa alla heiðna Íslendinga, er þá voru staddir í Noregi. Báðu þá þeir Hjalti og Gissur þeim griða, sögðu, að Þangbrandur hefði drepið íslenzka menn að ástæðulausu í bræði sinni og lofuðu að gera alla Íslendinga kristna. Lét þá konungur sefast, gaf mönnum grið, en tók fjóra syni íslenzkra höfðingja heiðinna og bannaði þeim að fara til Íslands fyr en feður þeirra hefðu tekið kristni. Vorið eftir, árið 1000, fóru þeir Hjalti og Gissur til Íslands. Hafði konungur gefið þeim við í kirkju og átti að byggja hana þar, sem þeir kæmi fyrst á land. Þriðjudaginn

18. júní voru þeir komnir undir Dyrhólaey í í Mýrdal. Voru menn þar að ríða til alþingis og fengu hjá þeim fréttir af Noregi. Sama dag lentu þeir Hjalti við Vestmannaeyjar, báru kirkjuviðinn þar á land og dvöldu þar tvær nætur. Fimtudaginn, 20. júní, komu þeir upp í Landeyjasand og fóru þaðan til alþingis, á Þingvöllum. Urðu þeir að ganga út allar Landeyjar, því að enginn þorði að lána Hjalta hesta fyrir Runólfi í Dal. Loks fengu þeir hesta í Hofi við Þjórsá. Riðu nú upp Flóa og Grímsnes og upp í Laugardal. Þar varð Hjalti eftir, því hann var útlægur og mátti ekki koma á þing, en þeir Gissnr héldu áfram ferðinni. Þegar þeir komu vestur að Þingvallavatni, komu menn á móti þeim og báru þeim fréttir af alþingi. Í sömu svipan kom Hjalti, og hafði hann ekki viljað eftir sitja. Riðu þeir nú til þings allir saman og komu þar á Laugardaginn. Lá þá við bardaga milli kristinna manna og heiðinna, en þó varð ekki af, því ýmsir menn gengu á milli þótt heiðnir væru. Prestur var með þeim Hjalta og Gissuri er Þormóður hét. Söng hann messu á Sunnudagsmorguninn á eystri barmi Almannagjár, og reisti þar upp krossmörk tvö. Mátti þaðan sjá og heyra af völlunum fyrir neðan. Þegar messu var lokið, gengu allir kristnir menn til Lögbergs. Héldu þeir Hjalti og Gissur þar ræður fyrir öllum þingheimi og lýstu fyrir þeim kristinni trú. Varð þá óp og hávaði og kristnir og heiðnir vildu búa til sitt ríkið hvor. Formaðurinn á alþingi var nefndur lögsögumaður. Völdu kristnir menn Síðu-Hall, en heiðnir Þorgeir frá Ljósavatni. Gekk þá Hallur til Þorgeirs og bauð honum lögsögumannslaun sín, ef hann gæti búið til lög, er bæði kristnir og heiðnir vildu halda. Lofaði Þorgeir því og fór heim í búð sína, breiddi feld yfir höfuð sér og lá svo þar til daginn eftir, og mátti enginn tala við hann. Meðan á þessn stóð, tóku heiðnir menn það ráð, að drepa 2 menn úr hverjum landsfjórðungi og gefa þá goðunum, til þess þau létu ekki kristni breiðast út. En Hjalti og Gissur völdu aftur jafnmarga menn kristna, sem skyldu reyna að lifa guði og verða betri en aðrir menn.

Mánudagsmorguninn 24. júní reis Þorgeir frá Ljósavatni á fætur, kallaði menn til Lögbergs og hélt snjalla ræðu. Lýsti hann fyrir kristnum og heiðnum hvílík óhamingja það væri fyrir landið, ef allir hefðu ekki sömu lög, og fékk allan þingheim loks til að samþykkja, að halda þau lög, er hann setti. Bauð hann þá, að allir skyldu skírast láta og trúa á einn guð, en leyfði fyrst um sinn ýmsa heiðna siðu, ef leynt væri farið með. Þessu játaði allur þingheimur, og var kristni þannig tekin í lög hér á landi sama dag, Jónsmessudag, mánudaginn 24. júní árið 1000. Eru því 900 ár liðin síðan á sunndaginn kemur.

Heiðingjar þóttust sviknir af Þorgeiri en létu þó við svo búið standa, enda var trú á heiðin goð orðin mjög rýr, og treystu margir á mátt sinn og megin. Voru allir þeir skírðir áður en þeir kæmu heim af þingi, er óskírðir voru. Var þá ekki siður að ausa yfir vatni í skírninni svo sem nú er gjört, heldur var mönnum difið ofan í vatn. Vildu þeir ekki fara ofan í kalt vatn, og voru því þeir, er vestur fóru, skírðir í Reykholtsdal í Borgarfirði í laug þeirri, er síðar var kölluð Snorralaug. Þeir, sem austur fóru voru aftur á móti skírðir í laug hjá Laugarvatni í Laugardal. Var hún síðan nefnd Kristnilaug.

Þegar komið var heim af þingi, voru allir skírðir, sem heima voru, og ekki höfðu áður hlotið skírn. Allir heiðnir siðir, er Þorgeir frá Ljósavatni hafði leyft, voru svo afnumdir 1018.

Fyrsti biskup hér á landi hét Ísleifur sonur Gissurar hvíta, og var hann vígður 1056.

Kristni sú, er hér var tekin árið 1000 var rómversk-kaþólsk eða páfatrú. Fylgdu henni margar kreddur og villur, og þar að auki aflagaðist hún enn meira síðar. Stóð svo fram á 16.

öld, en þá kom kom siðabót Lúthers, og var hún lögleidd hér að fullu og öllu árið 1551.

# Hitt og þetta.

Lengstur dagur er 21. júní ár hvert. Kemur þá sól upp í Reykjavík kl. 2 að morgni og rennur kl. $10^1/_2$ að kröldi, eða sólargangurinn er alls $20^1/_2$ stund. Nyrðst á landinu sezt aldrei sól um lágnættið í nokkura daga, og sýnist hún fljóta austur eftir í norðrinu ofan á sjónum.

24. júní er Jónsmessudagurinn. Er hann nefndur svo í minningu Jóhannesar skírara, sem á að hafa fæðst 6 mánuðum á undan Kristi. Dagur þessi var haldinn helgur hér á landi fram að 1770. Það var lengi gömul hjátrú hér á landi, að hægt væri að finna ýmsa náttúru-steina á Jónsmessunótt. Einkum var mikið af þeim í fjallinu Tindastól í Skagafirði og voru þeir þar að dansi hver um annan þveran alla nóttina. Sá, sem laugaði sig úr dögginni þessa nótt átti að fá bót allra meina sinna. Á Þýzkalandi og víðar er siður að halda brennur úti á víðavangi þessa nótt, að sínu leyti eins og hér á landi eru hafðar brennur á Gamlaárskvöld eða þrettánda dag jóla.

## Skrítla.

Þegar Norðurálfumenn voru sestir að í Ameríku, áttu þeir lengi í ófriði við Rauðskinnana, sem áður bjuggu þar í álfunni. Sættust þeir öðru hvoru, en svo gaus ófriðurinn oft innan skamms upp á ný. Einu sinni sem oftar var friður saminn milli hersveita hvítu mannanna og Rauðskinna. Buðu þá hvítu mennirnir höfðingjum Rauðskinna í veizlu hjá sér, og meðal þeirra Rauðskinna, er komu til veizlunnar, voru tveir. Var annar þeirra miklu eldri en hinn, og hét hann á okkar máli „Hinn svarti örn“, en hinn yngri „Hinn grái björn“. — Þegar komið var til veizlunnar settust menn til matar. Meðal annars, sem borið var á borð, var dálítil krukka, með einhverjum gulum graut í. Það var sennep, eða sem öðru nafni er nefnt mustarður, mjög beizkt á bragð fyrir óvaninga, og notað til að krydda með kjöt og fisk. Tóku hvítu mennirnir lítið eitt hver á diska sína, eins og vandi þeirra var til. Heldur þá yngri Rauðskinninn, að hér sé eitthvert sælgæti, fer í mustarðskrukkuna og tekur fulla skeið og lætur upp í sig. Finst honum þá, sem hann hefði látið upp í sig glóandi kol, en það er ekki siður Rauðskinna að láta sér bregða við smámuni. Bítur hann því saman tönnunum, þrýstir aftur munninum og rennir öllu saman niður í einhverju dauðans ofboði, en svo mikið verður honum um, að tárin streyma niður eftir kinnum hans. Þetta sér „Hinn svarti örn“, furðar sig mjög á þessu og spyr hann: „Af hverju grætur Hinn grái björn?“ Hinn grái björn lét sér ekki bylt við verða og svarar þegar: „Eg græt af því að í dag er rétt ár liðið síðan faðir minn drukknaði í Michiganvatninu“ (lesið: Mitsjígan-). Skömmu síðar fer „Hinn svarta björn“ að langa til að bragða á mustarðinum líka, og það er ekki að orðlengja, að fyrir honum fer öldungis á sömu leið og félaga hans. Þegar „Hinn grái björn“ sér hann gráta eins og sig, skilur hann hvernig á því stendur, en spyr þó með mesta einfeldnisvip: „Af hverju grætur „Hinn svarti örn?“ „Hinn svarti örn“ svarar: „O ég er að gráta af því, drengur minn, að þú skyldir ekki drukna með honum föður þínum í Michiganvatninu.

„ÆSKAN“
kemur út tvisvar í mánuði. og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kostar í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mán. ár hvert. Sölulaun $^1/_5$, gefin af minst 8 eint.
Þorvarður Þorvarðsson prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.

# ÆSKAN.

III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 17. JÚLÍ 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 19. TBL.

## Góða samvizkan og vonda samvizkan.

Kennarinn í þorpi nokkru var einn dag að kenna í barnaskólanum og kring um hann sátu allir drengir og telpur úr þorpinu. Hlustuðu þau á hann með athygli, því hann var allra bezti kennari. Hann var að tala við þau um góða og vonda samvízku.

Þegar hann var búinn að útskýra þetta efni fyrir börnunum spurði hann þau, hvort þau þektu nokkurt dæmi, sem hljóðaði um þetta efni. Jafnskjótt reis upp dálítill drengur og mælti: „Eg gæti ef til vill komið með dæmið, en ég veit ekki hvort það á við.“

„Segðu frá eins og þér þykir bezt eiga við,“ mælti kennarinn og drengurinn tók til máls:

„Eg líki rósemi góðu samvizkunnar og órósemi vondu samvízkunuar við tilfinningar mínar tvísvar, er ég hefi verið á ferð. Þegar óvinaherinn fór í gegn um þorpið okkar, tóku þeir með sér föður minn og hestinn okkar. Þegar faðir minn kom ekki heim aftur, fór mamma mín og við öll að gráta og kveina, og mamma mín sendi mig inn í bæinn til þess að fá að vita eitthvað um hann.

Ég lagði af stað; en seint um nóttina kom ég aftur hnugginn í bragði, því ég hafði ekki fundið hann föður minn.

Þetta var um dimma haustnótt. Vindurinn hvein í víðirunnunum, í girðingunum og grasinu úti á víðavangi, og nátthrafnarnir og uglurnar vældu og görguðu alt í kring um mig. En ég hugsaði þó ekki um annað, en að ég hefði mist hann föður minn og um sorg móður minnar yfir því, þegar ég kæmi að eins einn heim aftur. Það fór hrollur um mig í dimmunni og ég hrökk við í hvert sinn er ég heyrði skrjáfa í laufblöðunum. — Ég hugsaði með sjálfum mér: „Svona hlýtur hver sá maður að vera, sem hefir vonda samvizku.“

„Börnin mín góð!“ mælti kennarinn, „langaði ykkkur til að vera þannig á ferð um miðja nótt, hrædd um að það gengi eitthvað að honum föður ykkar og skelkuð af vindhviðunum og ýlfri villidýranna?“

„Nei, nei,“ kölluðu börnin upp í einu hljóði, og þeim fanst kalt vatn renna sér milli skins og hörunds.

Svo hélt drengurinn áfram og mælti: „Í annað sinn fór ég sömu leiðina með henni systur minni. Það var hátíðisdagur daginn eftir, og við vorum með ýmislegt fallegt, sem við höfðum sótt til borgarinnar, og sem hann faðir minn ætlaði að gefa henni mömmu daginn eftir. Það var líka komið fram á kvöld þegar við komum heim. En það var um vor. Það var heiðríkja, ljómandi fagurt og stillilogn, svo við heyrðum suðuna af lækjarniðinum langt í burtu, og næturgalinn söng í runnunum alt í kring um oss. Við leiddumst og vorum svo glöð, ánægð og róleg, að við töluðum

ekki orð frá munni nokkra stund. Og svo kom hann pabbi okkar á móti okkur eftir dálitla stund. — Þá hugsaði ég með mér: „Svona hlýtur þeim manni að líða, sem hefir góða samvizku.“

Síðan þagnaði drengurinn, en kennarinn leit vingjarnlega til barnanna, og þau sögðu í einu hljóði: „Við skulum reyna að verða góðir menn!“ (Þýtt).

# Eldlendingar.

(Síðasti kafli.)

Það verður uppi fótur og fit í kotinu á kvöldin, þegar karlmennirnir koma af sjó með veiði sína, en kvenfólkið og börnin eru komin úr skóginum og búið að setja bátinn á land. Setjast allir þá kringum eldinn og taka að verma sig og eta kvöldverð sinn. Reyndar gengur maturinn nokkuð ójafnt yfir, því karlmennirnir borða fyrst alt það bezta, en kvenfólkið, börnin og hundarnir fá svo ruðurnar, hafi karlmennirnir skilið nokkuð eftir handa þeim. Þegar máltíðinni er lokið setst fólkið alt við vinnu sína kring um eldinn. Kvenfólkið verður þó yfir höfuð að gera flest, sem gert er, því karlmennirnir þykjast ofgóðir til annars en laga vopnin sín og veiðarfæri. Áður voru ekki önnur eggverkfæri til, en flísar úr skeljum eða steini, sem voru bundnar á steinskaft eða beinskaft, með seymi, en nú hafa Eldlendingar fengið sér axir, meitla og hnífa úr járni, hjá ýmsum sjómönnum, sem komið hafa að landinu.

Þegar fólkið er setst niður í kring um eldinn, fer hver að segja öðrum frá því, sem borið hefir við um daginn við veiðarnar, en aftur á móti eiga Eldlendingar engar sögur eða æfintýri um það, sem við hefir borið hjá þeim á fyrri tímum.

Eldlendingar skiftast í marga flokka, sem eiga í sífeldum óeirðum og ófriði hver við annan. Hver flokkur hefir sinn ákveðna stað eða svæði, sem hann býr í og veiðir á, en veiði hann í landi annars flokks, reynir hinn að reka aðkomuflokkinn úr landi sínu og slær þá í bardaga milli flokkanna.

Aftur á móti taka Eldlendingar lífið svo náðugt, sem framast er unt, þegar ró er heima fyrir, og eitthvað til að éta. Hafa þeir þá engar ákveðnar matmálsstundir eða svefntíma, en hver og einn sefur þegar honum sýnist. og vakir og étur, þegar hann lystir til, og það enda þótt það sé um miðja nótt, og skeytir hann þá engu, þó hann geri öðrum ónæði með hávaða sínum, sem vakandi eru.

Eldlendingar standa einna lægst af öllum villiþjóðum í heimi, og þó kunna þeir að búa til svo margt, að þeir geta margfalt betur bjargað lífinu en dýrin. Þeir kunna að byggja sér kofa þó lélegur sé. Þeir kveykja eld með því að slá saman tveimur steinum, og láta neistana úr þeim hrökkva í þurran mosa, sem síðan kviknar í; þeir smíða sér báta úr viðarberki, flétta sér körfur úr tágum, hafa tamið hundinn og búið til mörg allhentug vopn og veiðarfæri. Þeir þekkja greinarmun á eignarrétti og reka vöruskiftaverzlun við skip þau, sem koma þar við land. Þeir tala töluvert fullkomið tungumál með fjöldamörgum orðum, en náttúrlega hafa þeir engin orð yfir margt, sem vér höfum vanist, en þeir hafa ekki þekt. Þeir eru hermikrákur, og hefir verið reynt, að þeir geta haft eftir langar setningar á ensku, sem hafðar hafa verið fyrir þeim, þó þeir hafi eðlilega ekki skilið þær.

Eldlendingar hafa engin trúarbrögð og enga hugmynd um guð, um líf eftir dauðan, um sál eða samvízku. eða yfir höfuð um rétt eða rangt eftir vanalegum skilningi. En þeir trúa á vonda anda, sem þeir halda að valdi illviðrum og sjukdómum og spilli fyrir sér dýraveiðum og fiskiveiðum, — og skottulæknar þeirra þykjast hafa náð valdi yfir þessum öndum og geti því ráðið fyrir vindi og veðuráttu, lífi og dauða annara manna. (Frh.)

## Konungssonurinn og dómarinn.

(Ensk saga.)

Hinrik V. Englakonungur var einhver sá langbezti konungur, sem ráðið hefir ríkjum á Bretlandi mikla.

Áður hann kom til ríkis og var að eins krónprinz var hann aftur á móti óstýrilátur og uppivöðslumikill, og sló sér saman við ýmsa þorpara, sem komu honum til að gera margt heimskulégt og ósæmilégt, sem konungssyni var ósamboðið að gjöra.

Einu sinni var einn af þessum vinum hans kærður fyrir brot og honum stefnt fyrir hæstarétt ríkisins. Reyndist hann sannur að sök og var því dæmdur í fangelsi.

Prinzinn var staddur í dómsalnum og varð hann afarreiður, er hann heyrði dóminn. Kallaði hann til dómarans mjög hrottalega, og skipaði honum að láta manninn lausan.

„Fangelsi er ekki staður handa vinum konungssonarins“, mælti hann. „Ég er prins af Wales[1]) og ég banna þér að senda þennan mann í fangelsi eins og hann væri þjófur.“

„Mig varðar ekkert um, hvort þér eruð prinz eða ekki,“ svaraði dómarinn. „Þér eigið ekkert með að tala þannig við dómara konungs. Ég hefi svarið að gjöra rétt og ætla mér að gjöra rétt.“

Við þessi orð varð prinzinn enn þá reiðari og ætlaði sér að rífa fangann úr höndum dómaranna og láta hann lausan. En dómarinn sagði honum að þetta kæmi honum ekkert við, og skipaði honum, að hætta slíku upphlaupi í réttinum.

Dómarinn talaði þessi orð mjög rólega og við það varð prinzinn enn æstari og ruddist upp að dómaraborðinn og gaf dómaranum löðrung.

Fyrir þetta tiltæki skipaði dómarinn réttarþjónunum að taka prinzinn og fara með hann í fangelsi ásamt vini hans. „Þetta gjöri ég,“ mælti dómarinn, „ekki af því, að hann hefir móðgað mig, heldur vegna þess, að hann hefir lítilsvirt heiður laganna og dómstólanna.“

Að svo mæltu sneri dómarinn sér að prinzinum og mælt enn fremur: „Ungi maður, þér munuð einhvern tíma verða konungur. Hvernig getið þér vænst þess, að þegnar yðar hlýði yður þá. ef þér óhlýðnist núna lögum konungsins.

Þegar prinzinn heyrði þetta, skammaðist hann sín mjög fyrir breytni sína. Hann gat ekki sagt eitt einasta orð, lagði af sér sverð sitt, hneigði sig fyrir dómaranum og gekk rólegur til fangelsisins.

Þegar faðir hans, Hinrik konungur IV. heyrði, hvað borið hafði við í dómsalnum mælti hann: „Sæll er sá konungur, er hefir slíkan dómara, sem jafn-djarflega

*) Elzti sonur konungs á Englandi er nefndur prinz af Wales, og á hann að erfa ríkið.

knýr menn til að hlýða lögunum, og son, sem kann að hlýða þeim.“.

---

Skömmu síðar dó konungurinn, og prinzinn var krýndur til konungs. Komu þá margir þegnar hans til hans til þess, að votta honum hollustu sína. En sumir þeirra, sem vissu hve óstýrilátur hann hafði verið í uppvextinum, báru kvíðboga fyrir honum, ef hann héldi sama háttalagi áfram eftir að hann væri orðinn konungur.

Meðal þeirra, er vitjuðu konungs, voru sumir gömlu ólátaseggirnir, kunningjarnir hans, og héldu þeir, að konungur mundi efalaust þegar gera þá að vildarmönnum sínum.

En þeim skjátlaðist hraparlega. Konungur sagði þeim, að hann hefði nú látið af heimskupörum sínum og réði þeim til að gera slíkt hið sama. Þeir mættu ekki vænta þess, að hann léti þá koma fyrir augu sér, fyr en þeir hefðu sýnt það með breytni sinni, að þeir hefðu tekið sér fram og lært betri siði.

Dómarinn kom einnig og heimsótti konung, án þess að vita, hvaða viðtökur hann mundi fá. Hann óttaðist, að hann mundi jafnvel missa embættið; en hann lét það ekki á sig fá, því hann hafði að eins gjört skyldu sína.

En honum skjátlaðist einnig. Konungurinn tók mjög vingjarnlega á móti honum, og þakkaði honum fyrir alvarlegu áminninguna, sem hann hefði gefið sér og bauð honum að halda áfram að þjóna embættinu, sem hann hefði setið jafn-heiðarlega í.

„Ef eg eignaðist nokkurn tíma son,“ mælti konungur, „sem hegðaði sér eins og ég gjörði við yður, þá vildi ég að ég ætti jafn djarfan og trúan dómara og yður, til þess að leiðbeina honum á rétta leið.“.

---

### SKRÍTLUR.

Skip nokkurt var á ferð úti á reginhafi með fjölda farþega, og meðal þeirra var stúlka ein, sem horfði stöðugt yfir borðstokkinn út í sjóinn.

Maður nokkur gekk til hennar og mælti: „Hvað eruð þér að horfa svona á, ungfrú góð?“

„Ég er nýbúinn að tala við skipstjórann,“ mælti hún, og hann hefir sagt mér, að við séum að fara yfir miðjarðarlínuna, svo ég er að gæta að því, þegar við förum yfir hana.“

---

„Hefirðu fundið demantanálina. sem ég ætla að hafa í hárinu í veizluna?“ spurði frúin þjónustustúlku sína.

„Já, hana hefi ég fundið“ mælti stúlkan, en hvernig sem ég hefi leitað, þá er mér ómögulegt að finna hárið af yður.“ —

---

## Leiðréttingar:

Í 15. tölublaði, bls. 58, 21. og 22. línu á að vera þannig: Úlfaldi sá er nefndur Dromedar sem hefir ekki nema eina kryppu, en hinn Kamel. — Í 18. tölublaði er sagt að fyrsta kirkja hafi verið reist í Ási í Hegranesi, en á að vera í Ási í Hjaltadal í Hegranesþingi. — Í sama blaði misprentað á bls. 71. fyrra dálki 10. línu: „Hofi við Þjórsá,“ fyrir „Háfi við Þjórsá.“

---


## „ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði. og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 blöð alls. Kosta í Rvík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mán. ár hvert. Sölulaun $1/5$, gefin af minst 3 eint.

Þorvarður Þorvarðsson prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

ALDAR-PRENTSMIÐJA. REYKJAVÍK.

# ÆSKAN.

| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 19. JÚLÍ 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 20. TBL. |
|---|---|---|---|---|

## Augasteinninn hans afa.

(Norsk saga, aukin.)

Hvað ætli að verði úr honum, drengnum þeim arna?" sögðu móðursysturnar hans Sigga litla, þegar hann vildi ekki sitja kyr og leika sér að öllum fallegu gullunum, sem þær höfðu keypt handa honum fyrir ærna peninga, en fann í þess stað upp á ýmsri annari dægradvöl, og þótti miklu meira gaman að því, að taka stóra tálguhnífinn, til þess að búa sér til skip, en að raða hestunum, kindunum og kúnum sínum á borðið, sem voru geymdar í gullastokknum hans, eða að hjálpa henni Helgu systur sinni með að færa brúðurnar hennar í fötin sín.

„Já, hvað ætli að verði úr honum?" sögðu þær, þegar hann var að kvelja þær með því að klifra upp í toppinn á reynitrénu, sem óx í hlaðvarpanum, og klifraði svo langt út á greinarnar, sem þær héldu honum uppi, eða þegar hann var að „flá kött" á þvottasnúrunum. — „Hann er of mikill fyrir sér," sagði ein þeirra. „Hann er of mikill órabelgur," sagði önnur. „Það er aldrei nema satt," sagði sú þriðja; „en þið kunnið ekki heldur að fara með hann eins og vera ber." Og svo tók hún stóran sykurmola upp úr vasa sínum, svo hún gæti fengið hann til að sitja kyrran og leika sér eins og góðu börnin eiga að gera. Sigurður litli kom líka niður, settist hjá Gróu móðursystur sinni, flýtti sér að bryðja sykurmolann sem hún hafði gefið honum, og hóf svo sama leikinn á ný, alveg eftir sínu eigin höfði.

Móður Sigurðar litla fanst reyndar, að hann væri engan vegin jafn kyrlátur og systkini hans, en hún var þó alls ekki hrædd um, að ekki yrði maður úr honum, þótt hún setti öðru hvoru alvarlega ofan í við hann, þegar henni þóttu ærsl hans úr hófi keyra, en þó einkum þegar hann hafði hrætt móðursystur sínar.

Föður hans þótti aftur á móti gaman að sjá, hve fimur hann var að klifra, og sagði þegar hann sá hann einhversstaðar uppi eins og hrafn á hjallburst: „Það verður duglegur drengur úr honum með tímanum, en hann verður að læra að hlýða." Og svo lét hann drenginn biðja móðursystur sínar fyrirgefningar, þegar hann hafði verið óstýrilátur og brotið þvert ofan í áminningar þeirra. Sigurður litli gerði það reyndar fúslega og með glöðu geði, en á næsta augabragði var hann farinn að klifra eða kominn út í smiðju með tálguhnífinn sinn. — Og Siggi litli varð allra efnilegasti drengur.

Nú segir ekki af Sigurði litla, fyr en hann fekk að fara í orðlof sitt til hans afa síns í móðurættina og dvelja hjá honum um hrið, en við það kom fastari stefna í leiðina hans.

Sigurður litli var nú orðinn tíu vetra gamall, og höfðu foreldrar hans komið með

honum til afa hans. Þótti afa hans mjög vænt um drenginn, og sagði við foreldra hans, skömmu áður en þau ætluðn að leggja aftur af stað heimleiðis: „Mér þykir svo einmanalegt þegar þið eruð farin, svo þið getið gjarnan lofað mér að hafa drenginn hérna kyrran í dálítinn tíma; hann er orðinn svo stór, að ég get vel komist af við hann, og hún Þorbjörg gamla kann líka vel að hugsa um börn.“ Var nú afráðið að Sigurður litli skyldi vera í nokkrar vikur hjá afa sínum, en svo átti hann að fara að læra af kappi þegar hann kæmi heim, því hann var nú orðinn svo gamall, að hann mátti ekki lengur vera sí og æ að leika sér.

Afi Sigurðar litla var vel efnaður, svo hann hefði átt nægar eigur til þess, að búa í stóru og fallegu húsi inn í höfuðborginni, en hann hafði verið sjómaður, og hafði því valið sér hússtæði utanvert við bæinn, út á nesinu við hafnarmynnið, þar sem öll stærstu skipin lágu fyrir akkerum. Þarna hafði hann látið byggja sér allsnoturt hús, og þarna ætlaði hann að dvelja það sem eftir var ævinnar. Afi var ákaflega þjáður af gigt og gat varla staðið upp af stólnum, en þarna gat hann notið allrar þeirrar skemtunar, sem hann æskti eftir: hann sá langt út á sjó, hann heyrði gjálfrið í bylgjunum við bryggjurnar, og hafði gaman af því, að telja skipin, sem fóru út og inn á degi hverjum. Hann rifjaði upp fyrir sér það, sem drifið hafði á dagana, „og með þessu móti verð ég ekki sjófæla, þó ég verði að sitja hérna eins og kálfur í tjóðurbandi,“ var hann vanur að segja að gamni sínu. (Frh.)

# Eldlendingar.

**(Síðasti kafli.)**

---

(Niðurl.)

Eldlendingar hafa enga stjórn hvorki í stærri né smærri stíl. Þeir hafa engan höfðingja, sem ráði yfir öllum flokknum, engan reglulegan húsbónda og í raun og veru ekkert heimili, og enginn hlýðir öðr, um. Þó getur sá sterkasti kúgað lítilmagnana um stundar sakir, ef þeir eru hræddir við hann. Þeir hafa engin hátíðahöld þegar barn fæðist, þegar fólk giftist eða maður deyr, eins og flestar aðrar þjóðir. Lík þeirra dauðu eru grafin í sorphaugum fyrir utan kofana eða brend inn í skógunum og öskunni svo dreift út í allar áttir. Kofi þess dauða er rifinn, eignum hans skift milli þeirra, sem eftir lifa, og ekki má nefna hann framar á nafn. Sá eini sorgarvottur eftir þann dána er, að menn lita sig svarta framan í nokkra daga á eftir.

Eldlendingar eru ekki góðir í geðinu, heldur úfnir í lund og ákaflega bráðlyndir. Það er ómögulegt að reiða sig á þá, og sá, sem býr meðal þeirra, getur átt á hættu, að þeir drepi hann á hverju augnabliki annaðhvort í reiði eða af dutlungum. Þeir fara mjög illa með konur sínar og láta þær vinna baki brotnu og berja þær á milli, og þegar þeir era búnir að éta kasta þeir í þær leifunum eins og í hundana.

Fyrir 60—70 árum voru 3 Eldlendingar fluttir til Englands. Voru það 2 karlmenn og 1 kvennmaður. Dvöldu þau þar nokkur ár og voru alin þar upp, sitt á hvern hátt. Annar karlmaðurinn hét York Minster, fullorðinn maður, fátalaður og íbygginn, ákaflega bráðlyndur, en vel greindur, og þegar hann var fluttur aftur frá Englandi til Eld-

landsins, var honum orðið mjög vel við suma, sem á skipinu voru. Hinn karlmaðurinn hét Jemmy Button (Button þýðir hnappur á ensku). Var hann nefndur svo af því, að hann var keyptur fyrir skjaldböku-skeljarhnapp. Það var ungur drengur, glaðlyndur og tilfinninganæmur, en jafn bráðlyndur og York Minster. Honum leiddist ákaflega á Englandi í vilta lífið heima hjá sér, en þó var honum illa við alla Eldlendinga, nema að eins þann litla flokk, sem hann var úr. Kvenmaðurinn hét Fuegía Basket, snyrtileg og hæversk, dáindisfalleg stúlka, en töluvert mislynd.

Þau höfðu öll lært að tala ensku nokkurnveginn. Þau höfðu að nafninu til tekið kristna trú, en svo var að sjá, að þau hefðu samt litla hugmynd um, hvað trúarbrögð væru. Þau höfðu lært að haga sér eins og fólk gerir, flest voru orðin vön því að veru í fötum, borðuðu með hníf og gafli, voru nokkurn veginn hreinleg o. s. frv., en þetta hafði þó ekki fest dýpri rætur hjá þeim en svo, að skömmu eftir að þau voru komin heim til Eldlandsins aftur, voru þau orðin jafnvilt og aðrir landar þeirra. York Minster hafði litist vel á Fuegin og giftist henni jafnskjótt og þau komu til Eldlandsins, en narraði með kænskubragði út úr Jenny Button alla þá gripi, sem hann hafði fengið á Englandi.

Ekki létu frændur Jemmys í ljósi neina gleði, þegar hann kom aftur, og það jafnvel ekki móðir hans. Er því eins varið með villiþjóðir og dýrin, að móðirinni þykir ekki lengur vænt um börnin en meðan þau geta ekki bjargað sér sjálf.

Eldlendingar voru ekki eiginlega hræddir við skot, og skildu ekkert í því, að þó dýr félli fyrir byssu-skoti þá stæði blossinn og hvellurinn í nokkru sambundi við það. Villimenn skilja heldur ekkert í gufuskipum, gufuvögnum eða öðru eins. Þeir halda það sé ekki gert af mannahöndum, fremur en fellibyljir, eldgos eða jarðskjálftar. Aftur á móti skilja þeir vel í, sé þeim sýndur fallegur hnífur, beitt öxi eða þess konar verkfæri.

Eldlendingar eru nú sem óðast að deyja út; þeir eru nú nálægt 2,000 alls, og fækkar þeim árlega, og áður hundruð ár eru liðin verða Eldlendingar að líkindum allir útdauðir. (Úr Naturfolkenes Liv.).

# Meðmælingarbréfið.

Auðmaður nokkur auglýsti einu sinni í blöðunum, að sig vantaði dreng til að hjálpa til á skrifstofu sinni og sóttu nálægt fimmtíu um stöðuna. Tók hann brátt einn þeirra í þjónustu sína, en sendi hina heim til sín.

„Mér þætti gaman að heyra,“ mælti einn vina hans, „hvers vegna þú hefir valið þennan dreng.. Hann var ekki með eitt einasta meðmælingarbréf.“

„Þér skjátlast“ mælti húsbóndinn, „hann var með mjög mörg: —

Hann þurkaði af fótunum, áður en hann kom inn og lét hurðina aftur á eftir sér; þetta sýndi, að hann var hreinlátur og reglusamur.

Hann stóð jafnskjótt upp úr sæti sínu fyrir halta gamalmenninu, sem inn kom; þetta sýndi, að hann var góður drengur og hugsunarsamur.

Hann tók húfuna ofan þegar hann kom inn, og svaraði spurningum mínum skýrt, en þó hæversklega; þetta sýndi, að hann var kurteis.

Hann tók upp bókina, sem ég hafði látið á gólfið af ásettu ráði, hann lagði hana á borðið, en hinir drengirnir höfðu annaðhvort gengið yfir hana eða ýtt henni til hliðar með fætinum; þetta sýndi, að hann var aðgætinn og hirðusamur.

Og hann beið rólegur þar til að honum kom, án þess að ryðja sér fram fyrir hina; þetta sýndi, að hann var hæverskur.

Þegar ég talaði við hann, sá ég, að fötin hans voru vandlega bustuð, hárið á honum fór vel og tennur hans hvítar sem mjólk. Þegar hann skrifaði nafnið sitt, sá ég, að neglur hans voru hreinar, en ekki svört saurrönd framan undir þeim, eins og á laglega litla drengnum á bláa jakkanum.

Kallarðu nú þetta ekki meðmælingarbréf? Ég kalla þetta góð meðmælingarbréf, og það, sem ég get sagt um dreng eftir að hafa athugað hann i tíu mínútur, er meira virði, en öll fallegu bréfin, sem hann hefir meðferðis."

## SKRÍTLUR.

Kennarinn: „Geturðu sagt mér, Doddi, hvað er vanrækslusynd?"

Doddi: „Það er náttúrlega sú synd, sem maður hefir vanrækt að drýgja."

---

Skóladrengurinn (situr með krosslagða fæturna upp á stól og klórar sér með báðum höndum í höfðinu): „Æ, nú verð ég víst að taka til við að lesa mannkynssöguna. Ég vildi bara að ég hefði lifað fyrir 2000 árum, því þá hefði ég ekki haft svona mikið að læra."

---

A. „Ég er farinn að verða nærsýnn."

B. „Jæja. Getið þér séð sólina?"

A. „Auðvitað sé ég hana."

B. „Og þó er hún 20 miljónir mílna frá okkur. Ég skal segja yður nokkuð: á meðan þér sjáið svo langt frá yður, hafið þér enga ástæðu til að að kvarta yfir því, að þér séuð orðinn nærsýnn".

---

Drukkinn maður stóð einu sinni um nótt fyrutan húsdyrnar og leitaði árangurslaust að skráargatinu. Loks öskrar hann upp bálvondur:.

„Ég hélt þó núna, að ég hefði verið dæmalaust slunginn, því ég tók lykilinn með mér án þess að kerlingin mín vissi neitt af því, en nú sé ég, að sú gamla hefir verið miklu slungnari, því hún hefir farið með skráargatið inn með sér.

---

Nonni litli: „Fáum við meir að borða?"
Móðirin „Nei."
Nonni: „Fáum við þá hreint ekki meira?"
Móðirin: „Nei, ekki minstu ögn."
Nonni: „Þá er mér óhætt að segja, að mér er farið verða ilt í maganum."

---

☛ Kaupendur, sem enn þá hafa ekki borgað, eru beðnir að gera það hið fyrsta. Þeir sem engin skil hafa gert fyrir 1. okt. á að minsta kosti 1. árgangi „Æskunnar", fá hana eigi frá næstu árgangamótum blaðsins (1. okt.). Því skilvíslegar sem „Æskan" er borguð, því betur verður hún úr garði gerð. *Útgef.*

„ÆSKAN"

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 6. ÁGÚST 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 21. TBL. |
|---|---|---|---|---|


## Berjaförin.

Ég hef heima enga ró
eg vil fara' á berjamó
komdu Sigga, komdu Stína.
Komi hver með öskju sína.
Ertu sofnuð? Ekkert gengur.
Ekki vil ég bíða lengur,
Flýtt' þér barn, því býsna lítið gengur.
Bíðið við, það slitnaði' á mér þvengur.

Hvað er þetta hrafnager?
Hér er krummi líka að tína ber,
Berin okkar svörtu, berin okkar stóru,
Berin, sem að eins handa okkar vóru.
Óhræsis krumminn! Það ætti að dæma
hann sekan
Og útlægan burt úr landinu' okkar reka' 'ann.
Svo við hefðum blessuð berin okkar ein,
En bannsettur hrafninn gerði ei okkur
mein.

Hér má finna feykna ber.
Full á barma tínan bráðum er.
En það logandi ljómandi gaman!
Nei líttu' á hvað Sigga er berjablá í framan.
Þú ert með tóma öskjuna þína,
En ég með fulla tínuna mína.
Hættu nú að borða og hertu þig að tína,
Þá hjálpa' eg þér að fylla öskjuna þína.

---

## Skrautið hennar Ellu.

(Úr Ljus i Hjemmet).

Frú Sigrún og tvær litlu telpurnar hennar sátu í björtu og þrifalegu stofunni hennar og voru önnum kafnar við sauma sína.

„Mamma“, sagði Áslaug: „Ég vildi að ég ætti eins hatt og hún Dóra í Holti. Þú sást hann þegar við komum frá honum afa í gær. Var hann ekki fallegur? Og svo var hún með breiðan, bláan silki-borða um mittið. — En hvað það fór henni vel! — Heyrðu mamma. Getum við Helga ekki fengið sinn borðann hvor? — Við vorum einu telpurnar í boðinu í gær, sem höfðu ekki silkiborða um mittið, fyrir utan hana Ellu í Gerði, en það er nú ekki hægt að telja hana, því hún er svo fátæk.“

„Mér fanst nú, að Ella væri fallegast búin af ykkur öllum,“ mælti Sigrún móðir þeirra.

„Hvað ertu að segja mamma? Var það hún, sem var bezt búin. Mér fanst hún vera svo illa búin, sem hægt er að hugsa sér. Hún var í vaðmálskjól, og hatturinn hennar var óskröp lélegur; þú segir þetta ekki í alvöru, mamma.“

„Jú“, mælti frú Sigrún. „Hún var í mjög fallegu og dýrmætu skrauti, og ég vildi af alhug óska, að blessaðar litlu telpurnar mínar væru sér út um, að fá sér annað eins.“

Áslaug og Helga systir hennar horfðu

undrandi hvor á aðra. Þær höfðu lítilsvirt Ellu af því hún var svo fátæklega búin. Foreldrar hennar höfðu ekki efni á, að kaupa henni falleg föt, og í boðinu daginn áður hafði engin af telpunum viljað leika sér við hana og sumar þeirra hlógu að vaðmálskjólnum hennar.

„Hvað áttu við mamma? spurði Áslaug. „Ég sá ekki, að hún bæri neitt skart.“

„Jæja, en ég sá að minsta kosti sex skrautgripi hjá henni, og nú ætla ég að segja ykkur hverjir þeir voru. Þegar þið voruð komnar út á berjamóann hitti Ella lyngbrekku, þar sem alt var krökt af berjum. Flestar litlar telpur mundu hafa flýtt sér að tína þar ein, en Ella gerði ekki það, heldur hljóp hún þegar til hinna og sagði þeim af því, hvað hún hefði fundið, og hjálpaði svo þeim minstu með að tína berin. Af þessu sá ég, að hún átti dýrmætt og mjög fagurt skraut, nefnilega *ósérplægni*. Þegar Rósa litla reif kjólinn sinn, var það Ella, sem beið við og hjálpaði henni með að hefta hann saman með títuprjónum. Þetta sýndi, að hún átti annað skrautið til: *brjóstgæði*. Þegar Manga í Vík hratt við henni, svo berjatínan hennar skrapp úr höndum hennar og öll berin ultu út úr henni, varð hún ekki reið, og þegar hún beygði sig niður þegjandi og fór að tína berin upp aftur sá ég tvent nýtt skraut hjá henni: *þolinmæði* og *umburðarlyndi*. Hún var ekki ráðrík, og á því gimstein þann, sem nefndur er: *undirgefni*. Og þar að auki átti hún enn þá einn skrautgripinn enn, sem ég álít enn dýrmætari en nokkurn annan. Þegar hún fékk ekki að vera með í leikum hinna barnanna, eða eitthvert þeirra hló að fátæklegu fötunum og hattinum hennar, þá varð hún ekki reið, og var jafn góð og vingjarnleg eftir sem áður. Hún átti *hógværðina* og *rósemi hjartans*, sem er skraut í augum guðs.

Finst ykkur nú ekki, telpur mína, að hún Ella hafi verið fallega klædd? Ég skal benda ykkur á eina setningu í ritningunni svo þið dæmið ekki fólk að eins eftir ytra prjáli. — „Maðurinn sér, það, sem fyrir augun ber, en guð lítur á hjartalagið“. (1. Sam. 16. 7.)

# Augasteinninn hans afa.

**(Norsk saga, aukin.)**

(Frh.)

Þarna varð Sigurður litli var við það fyrir alvöru, hvað hann langaði mest til að hafast að. Þegar foreldrar hans voru farnir og hann var orðinn einn eftir hjá afa sínum, hafði hann sagt við hann: „Nú verð ég að reyna, með hverju ég get skemt þér, drengur minn!“ En hann komst brátt að því, að drengurinn kunni að skemta sér sjálfur, því ekki leið á löngu áður hann væri búinn að fá léðan tálguhníf hjá Þorbjörgu gömlu, og farinn að tegla sér til skip. Hljóp hann með það inn til afa síns og sýndi honum. Varð afi hans mjög glaður, er hann sá, hvað drengurinn hafði haft fyrir stafni og mælti: „Ef þér þykir gaman að þessu drengur minn, þá skal ég hjálpa þér.“ Og þó karlinn væri orðinn skjálfhentur, fór hann að laga skipið, þar sem honum þótti ábótavant með smíði dóttursonar síns. Skömmu síðar dró hann upp skip á pappír, og daginn eftir kom Sigurður litli inn til afa síns með skip, sem hann hafði teglt úr stærsta brennikubbnum, sem hægt var að finna í húsinu, og var það alveg eins og afi hans hafði sagt honum, að vera bæri.

„Nú skulum við búa til reglulegt segl-

skip úr þessu“, sagði afi hans, og fór því næst að sýna Sigurði litla, hvernig ætti að seglbúa skipið, en Þorbjörg gamla var látin finna klúta, sem mætti sníða í segl. Þegar alt var orðið í röð og reglu, var Þorbjörg gamla látin ramba með stórt þvottaker inn í herbergi gamla mannsins, og þar var skipinu fyrst hrundið á flot, og gamli maðurinn hafði ekki síður gaman af þessu en Sigurður litli. Afi hafði meira að segja gleymt allri gigtinni og lá nú langan tíma á gólfinu hjá Sigurði til að hagræða seglunum, og laga það, sem honum líkaði ekki sem bezt. En Sigurði litla þótti brátt sjórinn í þvottakerinu nokkuð lítill ummáls og vildi hiklaust setja skipið sitt þegar út á sjó, en afi hans harðbannaði honum það, því slíkt væri of hættulegur leikur fyrir hann, fyrst afi hans gæti ekki farið með honum.

Aftur á móti var afi hans sannfærður um, að Sigurður litli mundi verða sjómaður með tímanum, og lét því Þorbjörgu gömlu sauma handa honum sjómannaföt í stað skrautklæðanna eftir nýjustu tízku, sem hann hafði komið í, og þar næst lét afi gamli kaupa handa honum sjómannshatt í borginni. Þegar Sigurður litli var kominn í þennan skrúða, fanst honum hann vera orðinn sjómaður með húð og hári, og meðan Þorbjörg gamla tók sér miðdegisdúrinn, stóð hann niður við sjávarströnd tímum saman, og hallaði sér upp að stólpanum, sem akkerisstrengirnir voru vafðir um. Starði hann þaðan út á sjó, með litla skipið sitt í barminum, en hélt höndunum borginmannlega í vösunum. Honum datt æði margt í hug þar sem hann stóð, og hann langaði sáran til að fara með hverri fleytu, sem lagði út af höfninni, hvort sem hún var smá eða stór, hvort heldur það var eins manns far, sem átti að róa út á þyrsklinginn, eða það var stóreflis barkskip með þremur siglutrjám. En þegar hann kom inn til hans afa síns sagði hann honum af fjarlægu löndunum, þar sem sjómennirnir koma við á ferðum sínum, og öllum hinum óskiljanlegu æfintýrum, sem koma fyrir úti á regin hafi, og þá fann Sigurður litli, að hjartað barðist í brjósti sér, af óstöðvandi þrá og löngun til þess, að vera langt, langt úti á sjó.

Og þegar mamma hans kom til að sækja hann, hljóp hann á móti henni og kallaði.

„Heyrðu mamma mín góð! Nú veit ég hvað ég vil verða. Ég vil verða sjómaður eins og hann afi minn.“

„Já, það verður hann auðvitað,“ mælti afi hans; en móðir hans bætti við: „Nú, þegar tíminn kemur, en þú þarft að læra margt þangað til.“

„Ég vildi að tíminn flýtti sér þá dálítið,“ mælti Sigurður litli.

„Já það er nú komið undir því hve kappsamur þú ert,“ anzaði móðir hans.

„Þú verður að lofa mér því, Siggi minn, að vera nú duglegur og læra af kappi,“ mælti afi hans enn fremur, „svo ég sjái þig stýra öðru skipi en barnaglingri, áður en ég gef upp öndina.“

„Því lofa ég,“ mælti Sigurður litli, og hann efndi loforð sitt.

Áður hafði hann verið bæði latur og hyskinn við nám, en nú tók hann að læra af mesta kappi, því nú var honum orðið ljóst, hverju hann vildi keppa að, og afi hans hafði þá ánægjuna, að hann tók gott próf af stýrimannaskólanum 16 vetra gamall, og ekki leið á löngu áður hann væri ráðinn undirstýrimaður á Indíafar og legði í fyrstu aðal sæförina.

---

Ekki leið á löngu áður Sigurður væri kominn burtu langar leiðir og út í Englandshaf, og æ bar byrinn hann lengra og lengra á brott. Hann fór í gegnum Ermina, sundið milli Englands og Frakklands og komst fram hjá Kap Landsend, syðsta oddanum á Englandi, en þar er særinn vanur að vera oft æði úfinn. Nú var Sigurður kominn út á úthafið Atlantshaf, þar sem ekki sést land þótt siglt sé hraðbyri dögum saman, og þetta víðáttumikla hafflæmi hafði afar djúp áhrif á huga hans, þar sem hann stóð einn við stýrið í næturkyrðinni og heyrði ekkert annað en hæglátt öldugjálfrið á kinnungunum á bæði borð. Yfir höfði hans var dökkblár fjölstirndur himininn, en undir fótum hans var hafið margfalt víðáttumeira en augað gæti eygt, þótt albjart væri, krökt og kvikt af alls konar dýrum, stærri og smærri, allavega litum og allavega löguðum, og þá fanst honum, að hann væri svo undur nærri guði sjálfum, skapara sínum, sem ræður jafnt yfir sjó og landi, og sem foreldrar hans höfðu kent honum að þekkja jafn-skjótt og hann var farinn nokkuð að vitkast.

[Framh.].

---

## SKRÍTLUR.

„Hafið þér nokkuð á móti líkbrenslu?„

„Ó nei, ekki annað en, að ég vil láta grafa mig á sama hátt og ég hef vanist frá barnæsku“.

---

„Hvers vegna er sá sköllótti betur staddur en allir aðrir dauðlegir menn?*

„Af því, að engum manni mundi detta í hug, að skerða eitt einasta hár á höfði hans.“

---

„Hvers vegna heldur þú, að Karl litli sé efni í málara?“

„Það skal ég segja þér, því þegar hann er að skrifa. þá lýkur hann aldrei svo við neina blaðsíðu, að ekki séu yfir tuttugu blekblettir á henni“:

---

Verzlunarmaðurinn: „Viljið þér ekki kaupa koffortið að tarna?“

„Hvað ætti ég að gera við það?“

Verzlunarmaðurinn: „Það er all nauðsynlegt að eiga það til þess, að láta fötin sín í.“

„Nú, ætti ég þá að ganga alls ber sjálfur.“

---

Ella litla: „Það stendur hérna í biflíusögunum, að Ísraels börn gengu yfir hafið Rauða. Hvernig stendur á því, að foreldrarnir skyldu leyfa þeim það?“

---

Góð ástæða: „Hvers vegna græturðu Valdi litli?“

„Af því, að hann Sveinn bróðir minn hefir skólafrí í dag, en ég ekki.“

„En hvers vegna færðu þá ekki frí?“

„Af því að ég er of ungur til að fara í skóla.“

---

☛ Kaupendur, sem enn þá hafa ekki borgað, eru beðnir að gera það hið fyrsta. Þeir sem engin skil hafa gert fyrir 1. okt. á að minsta kosti 1. árgangi „Æskunnar“ fá hana eigi frá næstu árgangamótum blaðsins (1. okt.). Því skilvíslegar sem „Æskan“ er borguð, því betur verður hún úr garði gerð. *Útgef.*

---

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum). 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 10. ÁGÚST 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 22. TBL. |
|---|---|---|---|---|

## Sumarið.

Vorið er horfið, sólin tekur smám saman að lækka á himninum og gengur fyr undir á kvöldin en áður.

Það var fært frá ánum í 10. viku sumars. Lömbin voru setin í tvo daga, og síðan voru þau rekin inn á afrétt, og þangað verða þau sótt aftur fyrir réttirnar. Gunna situr yfir ánum og rekur þær heim kvölds og morgna, til að láta mjólka þær.

Pabbi er kominn úr kaupstaðnum með hnífinn hans Nonna. Það er ljómandi fallegur tvíblaðaður hnífur, með spegilfögrum blöðum og skínandi hjöltum.

Sigurður vinnumaður er búinn að bakka öll ljáblöðin, leggja þau á stein, smíða orf og hrífur og alt er reiðubúið undir sláttinn. Grasið í hlaðbrekkunni liggur nú í legu, svo það er kominn tími til að slá. Fyr en nokkurn varir hefir Sigurður rekið ljá í orfið sitt, og brýnt hann, og er nú farinn að bera niður austan undir bæjarveggnum. Og öll börnin horfa á hann með lotningu, meðan hann er að slá fyrstu ljáförin. En svo hlakka þau svo undur mikið til, því nú koma skárar og heymúgar, sem hægt er að velta sér í.

Morguninn eftir eru allir karlmennirnir komnir út á tún, og farnir að slá. Hafa þeir vaknað um óttuskeið, til þess að nota áfallið, meðan það var á jörðunni. Þar er alt slegið sem fyrir verður: grængresi, bifukollur, mjölsúrur, kornsúrur, sóleyjar, maríustakkar, geldingahnappar o. s. frv. Alt fellur um koll, hvað um annað þvert og í múgann.

Gudda rakar ljánni því næst í flekki, og svo fá krakkarnir að snúa heyinu þegar það fer að þorna. Keppist þá hvert barnið við annað eins og mögulegt er með rifgarðinn sinn.

Þegar heyið er orðið þurt, er það sætt á reipi. Sigurður og Gudda binda svo sætið en Nonni flytur baggana heim. Nonni getur ekki tekið ofan eins og fullorðnu mennirnir þegar hann kemur í heygarðinn; gengur hann því undir baggann, setur kryppuna upp, og getur með því móti spent hann upp af klaknum. Stundum tekur hann ekki eftir þegar hallast á hestunum; fer þá yfir um og liggja baggarnir eftir á miðri leið, því ekki getur Nonni látið upp einn. Pabbi er uppi í heygarði og hleður úr heyinu. Segir hann þetta sé í seinasta sinni sem hann hafi heygarð, hann sé svoddan verka þjófur, og heyið skemmist í honum, og að ári hafi hann eintómar heyhlöður fyrir heyið sitt.

Nú er farið að slá á engjunum, og þá er Nonni látinn færa fólkinu matinn á engjarnar og sækja hestana upp í fjall þegar á að flytja heim. Hann kann ekki enn þá að slá, en að ári á hann að fa orf og ljá, — og hefir Nonni strengt þess heit, að ljáförin sín skuli verða miklu breiðari, en hjá hon-

um Sigurði. Hvað skyldu líða mörg ár áður en honum hepnast það?

# Augasteinninn hans afa.

(Norsk saga, aukin.)

(Frh.)

En þótt sjómaðurinn lifi marga kyrláta rólega nótt, þegar hátign sköpunarverksins sýnist máluð á festing himinsins, bjartara og greinilegar en nokkurs staðar annars staðar, þá eru þó ónæðisnæturnar ekki færri, þegar hann verður að berjast gegn vindi og sjó, og hefir engan tíma til rólegra hugleiðinga. En hættan bendir honum einnig til hins sanna guðs, og eftir því sem hún er meiri, lærir hann að reiða sig enn þá öruggar á hann.

Þegar Indiafarið, sem Sigurður var stýrimaður á, hafði verið á siglingu um nokkrar vikur, var komið suður að spanska sjónum vestan við Spán og var þá kastað akkerum á höfn einni í Portúgal, þar sem alt var gjörsamlega ólíkt því, sem hann átti að venjast á Norðurlöndum. Nú sá hann með eigin augum töfralandið, sem afi hans hafði svo oft sagt honum af, og sem hann þekti áður, eins og draumsjónir væru. En hversu undarlegra var þetta þó ekki alt í raun og veru, en hann hafði gert sér hugmynd um, en sá grautur af alls konar tungumálum, þar sem alls konar þjóðir mættust á höfninni, en sú hæð á trjánum og kynstur af blómunum alla vega litum, sem hann sá, þá stuttu stund, sem hann var í landi. En þó hann væri í hinum grózku-miklu gullepla og lárviðar lundum, hvarflaði hugur hans með heimþrá til birkiskóganna og víðirunnanna heima hjá sér og fúslega hefði hann haft skifti á þroskuðu gullepli fyrir ilmandi bjarkarblað, því innan um ofurgróða Suðurlandanna saknaði hann þess fjörgandi ilms, sem hann var vanur að njóta í skógunum heima hjá sér.

Sigurður mátti ekki dvelja lengi á þessum stað, því innan skams voru undin upp akkerin, dregin upp segl og lagt af stað að nýju, og alt gleymist, er vakið gat heimþrá í huga hans, og sjómaðurinn er aftur kominn á sína réttu hyllu. Þeir koma snöggvast við í Gibraltar. Það er syðsti höfðinn á Spáni 1400 feta hár klettur, yzt á tanga út við haf, og er góð höfn undir bjarginu. Klett þennan eiga Englendingar og hafa grafið þar göng mörg eins og völundarhús inn í bergið. Hafa þeir þar setulið árið út og árið inn, og fallbyssukjaftar gína þar út úr bjarginu, og er þar óárennilegt til aðsóknar. Þar í klettaskorunum búa fáeinir apar, og eru þeir hvergi annars staðar í Norðurálfunni.

Ekki var lengi staðið við á Gibraltarhöfn. Var nú haldið suður yfir Njörvasund, og leið ekki á löngu áður Evrópa væri öldungis úr augsýn. Næst var komið við á Azoreyjum. Þær eru í útsuður frá Spáni, telja sumir þær til Afríku, en aðrir til Evrópu, enda heyra þær undir konungsríkið Portúgal. Eyjar þessar eru alls 9 og er sú nyrðsta þeirra um 170 mílur frá Portúgalsströnd. Allar saman eru eyjarnar 43 ferhyrndar mílur eða eins og lítil sýsla hér á landi, en íbúarnir yfir 130 þúsundir eða nálega helmingi fleiri en á öllu Íslandi. Eyjarnar eru ákaflega sæbrattar og brimsamt í kring um þær, og hæsti tindur þeirra nokkuð hærri en Öræfajökull. hæsta fjallið hér. Vaxa þar sömu korntegundir og í sunnanverðri Norðurálfu, ávextir, kaffi og sykur, og eru eyjarnar afar-frjóvsamar. Býr þar sambland af ýmsum þjóðum, en

mest af Portúgöllum. Eyjarnar eru fundnar árið 1432, árið áður en Jón Geirreksson byskup í Skálholti var tekinn af lífi.

Frá Azoreyjum héldu þeir Sigurður enn suður á bóginn, og var næst komið við á Madeira, sem þýðir Viðey. Skamt frá henni eru 4 smáeyjar aðrar, og eru sumar þeirra óbygðar. Allar þessar eyjar eru að eins 15 ferhyrndar mílur eða álíka og tveir meðal hreppar, en íbúarnir um helmingi fleiri en hér á landi. Eyja þessi fanst skömmu síðar en Azoreyjar. Var hún þá öll þakin þéttum skógi, jafnvel upp á hæstu fjallatinda, en Norðurálfumenn þeir, sem tóku sér þar bólfestu nokkru síðar, kveyktu í skóginum, og er sagt, að hann hafi verið að brenna í 7 ár. Voru þá einkum ræktuð þar vínber, og var Madeira-vínið þaðan nafntogað um allan heim, en vínviðarekrur þessar eyddust síðar, og vínberin spiltust, og hið svo kallaða Madeira-vín, sem nú er búið til, er alls ekki þaðan, heldur sambland af spritti, sykri, og ýmsum óhollum efnum, engu heilnæmari en vínandinn. — Fjöldi af öðrum víntegundum, sem kend eru við Suðurlönd, eru og alls ekki þaðan runnin, heldur sigla þau undir fölsku flaggi, og eru alls ekki úr vínberjalegi, heldur tilbúin úr ýmsu samsulli í norðurhluta Evrópu. Eyjan Madeira, er undurfögur, eiginlega ekki nema eitt afar-gamalt eldfjall, sem nú er hætt að gjósa, alt vafið í alls konar blómskrúð. Þar vex sykurreir, kaffi og ýmsar ávaxtategundir. Eyja þessi heyrir undir Portúgal, og fara gufuskip nú þangað frá Lissabon, höfuðborginni í Portúgal, á þremur dögum. En seglskipið, sem Sigurður var á, var auðvitað miklu lengur á leiðinni.

Ferðin var ekki einu sinni nærri hálfnuð. Næst kom Sigurður við í Gíneaflóa, vestan á Afríku. Þá er komið suður undir miðjarðarlínu, og er þar hiti afarmikill. Þar sá Sigurður svertingja í fyrsta sinn. Þeir eru kolsvartir á hörund frá hvirfli til ilja, tennurnar standa skáhalt út og sýnast þeir því afar varaþykkir. Hár þeirra er svart og lubbalegt, ekki jafn þétt á öllu höfðinu, heldur eru þéttir toppar á sumum stöðum og gisið á milli. Hárin eru ekki sívöl eins og á okkur, heldur ferstrend og eins og snúið upp á hvert þeirra.

Um þessar mundir voru hvítir menn seztir víða að á Afríkuströndinni eða komu þar að minsta kosti oft við. Fóru þeir herferðir upp í landið, drápu suma, en bundu aðra, og fluttu þá í járnhlekkjum ofan til sjávar, hrúguðu þeim undir þiljur á skipum sínum og fluttu þá yfir Atlantshaf til Ameríku. Voru svertingjar fluttir þar í land og seldir þar til að þrælka á sykurökrum og bómullarökrum. Sættu aumingjar þessir oft miskunarlausri meðferð, og voru barðir fyrir hvað lítið, sem þeim varð á. Mennirnir voru skildir frá konum sínum og börnin frá mæðrunum, og alt flæmt sitt í hverja áttina. Nú er þrælahald afnumið í allri Ameríku og mannarán og þrælasala eru hartnær útdauðir siðir í Afríku.

Vér höldum enn áfram að segja frá Sigurði og ferð hans. Enn voru undin upp segl á skipinu, og bar það æ lengra og lengra suður í bezta byr suður fyrir miðjarðarlínu. Það hefir verið gamall siður, að halda hátíðardag á skipunum, þegar þau hafa verið að fara yfir miðjarðarlínuna. Eru þeim sjómönnunum gerðar ýmsar brellur, sem fara það í fyrsta sinn, en ekki er þess getið, að Sigurður hafi orðið fyrir því. Heiðnir menn í fornöld trúðu því, að í hafinu væri guð, er Neptunus héti, og hefði hann afarstóran þríarmaðan fork í hendi.

Síðan hætt var að trúa því, að Neptunus væri til, hafa sjómenn haft þann leik, er þeir hafa farið yfir miðjarðarlínuna, að einhver sjómaðurinn á skipinu hefir klætt sig í afarfáránlegan búning, tekið þríarmaðan fork í hönd og þótst vera Neptunus, og hefir þótt að því mikið gaman. Frh.

## SKRÍTLUR.

Ferðamaður nokkur kemur í gamalt klaustur og sér tunnu fulla af rigningarvatni undir klausturveggnum.

„Þetta er víst heilagt vatn“, segir hann háðslega við gamlan mann, sem er að sýna honum klaustrið.

„Já, mjög heilagt,“ svarar hinn án þess að láta sér bregða hið minsta. „Því það er ekki nema hálf klukkustund síðan það kom ofan frá himnum.“

---

„Hann húsbóndi þinn er víst harður við þig?“

Skóaradrengurinn: „Já ef það væri: hann mundi hitta eyrun á mér þó hann hefði aftur augun.“

---

Stúlkan: „Hvernig stendur á því, að þér hafið sloppið lífs af þar sem þér hafið verið innan um þessar mannætur og villimenn?“

Ferðamaðurinn: „Jú sjáið þér til. Ég var svo feitur og ljúffengur, að mannæturnar vildu geyma mig til sunnudaganna, en vikuna á undan slapp ég ávalt burtu með einhverju móti.

---

Nágrannakonan: „Hversvegna horfið þér sí og æ þarna norður eftir?“

Unga konan: „Jú, maðurinn minn vinnur þarna í sprengipúðurverksmiðjunni, svo ég býst við á hverju augnabliki, að sjá hann koma fljúgandi hingað.“

---

Ferðamaðurinn: „Rignir ávalt svona voðalega hér?“

Heimamaðurinn: „Já, ef það væri. Einu sinni rigndi svo mikið, að það stytti hreint ekki upp aftur.“

---

Faðirinn: „Hvaða tíma hafið þið haft í skólanum í dag.“

Mangi: „Tíma?“

Faðirinn: „Já, veiztu ekki, hvað þið hafið gert í dag?“

Mangi: „Jú, það veit ég reyndar.“

Faðirinn: „Eftir því köllum við tímana. Hvaða tíma hafið þið svo haft?“

Mangi: „Skriftartíma, reikningstíma og skammarkrókstíma.“

---

Kennarinn: „Geturðu sagt mér, hvað ‚ekkert‘ er?“

Drengurinn (beikis sonur): „Það er sponsgat, sem engin tunna er utan um“.

---

Prófessorinn: „Lísa litla, þekkir þú mig ekki?“

Lísa: „Nei“.

Prófessorinn: „Hvað er þetta, ég sem var guðfaðir þinn“.

---

Ræðumaðurinn (grobbinn): „Þegar ég talaði síðast, streymdu tárin niður kinnarnar á tilheyrendum mínum.“

Kunningi hans: „Aumingja tilheyrendurnir, mikið skelfing hlýtur mennina að hafa dreymt voðalega.“

---

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun $1/5$, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 20. SEPTBR. 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 23. TBL. |
|---|---|---|---|---|

## Abraham



Og Drottinn leiddi hann út og mælti: „Skoða þú himininn og tel þú stjörnurnar, ef þú getur talið þær, svo margt skal þitt afkvæmi vera“ (1. Mós. 15. 5).

Mannkynssagan segir oss frá því, að þau fyrstu ríki, sem til eru í heimi, séu stofnuð í Austurálfunni. Sumstaðar tóku menn sér fasta bústaði og lifðu af akuryrkju og iðnaði, en á öðrum stöðum bjuggu menn í tjöldum, áttu fjölda sauða, geita og úlfalda og fóru með hjarðir sínar úr einum stað í annan, þangað sem beitilandið var bezt.

Sunnan í vestanverða Asíu eða Austurálfuna skerst stór flói, sem Persaflói er nefndur, og renna í hann tvær stórar ár, Evfrat og Tigris, og eru þær báðar nefndar í ritningunni. Koma þær langt norðan úr fjöllum og renna oftast beint í suður, en koma saman rétt áður en þær ná til sjávar. Tigris rennur austar en Evfrat vestar. Milli stórfljóta þessara er flatt og frjótt land að neðanverðu, sem kallað er Mesópótamía (það þýðir: Milli fljótanna). — Tvær stórborgir voru bygðar snemma í fornöld á þessu svæði: Babýlon við Evfrat og Ninive við Tigris, og voru þær um langan tíma höfuðborgir í tveimur stórum ríkjum, sem oftast áttu í ófriði hvort við annað. Ríkið í kringum Ninive hét Assiría, í ofanverðri Mesópótamíu, en neðra ríkið nefndist Babylon, eins og höfuðborgin. — Turninn Babel var hjá borginni Babýlon og þangað voru Gyðingar herleiddir, þegar Nebukadnesar eyðilagði Júðaríki og og Jerúsalem árið 588 f. Kr.

Fyrir utan þjóðir þær, er höfðu fasta bústaði í Mesópótamíu, voru þar í grend ýmsar hirðingjaþjóðir. Nálægt 2000 árum fyrir Krists fæðing bjó hirðingjahöfðingi sá, er Tara hét, í Úr í Kaldealandi. Það er vestanvert við Evfrat-fljót að neðanverðu. Fólk þetta trúði

á einn guð, en hafði ekki skurðgoð, eins og tíðkaðist víðast í Mesópótamíu. Sonur Tara hét Abraham. Segir ritningin oss frá, að hann hafi tekið sig upp eftir boði guðs, og farið með allar hjarðir sínar og alt fólk sitt vestur undir Miðjarðarhaf, þangað sem þá hét Kanaansland, en sem síðar var nefnt Gyðingaland, og nú Palestína. Abraham hefir auðsjáanlegea verið nokkurskonar smá-konungnr, og tekið með sér ýmsa af skyldfólki sínu. Þegar hann kemur til Kanaanslands, eru þar fyrir mörg smáríki, og Kanaanítar búa í föstum bústöðum, en Abraham og fólk hans fer úr einum stað í annan með hjarðir sínar þar sem beitilandið er bezt. — Sumir afkomendur Abrahams dreifðust út um eyðimerkurnar og útjaðra Kanaanslands. En Jakob sonarsonur hans flytur sig með öll börn sín til Egyptalands. Fær hann þar dálítið hérað til umráða, sem Gózen nefndist, en þegar Farao eða konungur Egypta fer að beita hörðu við fólk þetta, ris Móse upp, og flýr burt úr Egyptalandi. Kennir hann þessum litla flokk guðsótta og góða siðu, og þegar hann deyr, er tíminn kominn að leggja inn í landið Kanaan, sem guð hafði lofað Abraham að vera skyldi bústaður þeirra.

---

# Augasteinninn hans afa.

(Norsk saga, aukin.)

(Frh.)

Þegar kom suður fyrir miðjarðarlínuna breyttist útlit himinsins æ meira og meira. Sólin kom reyndar upp í austri eins og áður, en hún fór ekki vestur yfir himininn í suðri eins og hér, heldur í norðrinu og rann svo í vestri. Allar stjörnur á norðurhimni sýndust fara sömu leið. Pólstjarnan var nú horfin og Vagninn farinn að ganga undir, og kom að eins dálítið upp fyrir sjóndeildarhring. Fjósakonurnar fóru rétt yfir himinhvolfið beint yfir höfði manns, en á suðurhimni voru komnar upp nýjar stjörnur, er ekki höfðu sést á Norðurlöndum. Þótti Sigurði nokkuð kynlegt þegar sól var í hánorðri í hádegisstað, þótt hann hefði reyndar vitað af því fyrir fram að svo væri þegar kæmi á suðurhelming jarðarinnar.

Beggja megin miðjarðarlínu, bæði norðan og sunnan, er breitt belti, sem kallað er hitabelti. Er það nefnt svo af því, að í því öllu kemur sólin einhvern tíma á árinu beint upp yfir höfuð manns, að norðanverðu línunnar, þegar sumarið er hér, en að sunnanverðu þegar hér er vetur en þar er sumar. Bæði nyrðst og syðst í hitabeltinu blása jafnir austan-vindar sem nefndir eru staðvindar eða „Passat“-vindar, og er þar því vanalega góður byr, en undir sjálfri miðjarðurlínunni, er ýmist logn dögunum saman, eða vindur kemur úr öllum áttum, og er þar mjög hætt við þrumum, eldingum og fellibyljum, sem alt ætla að keyra um koll.

Þeir Sigurður fengu að kenna á logninu meðan þeir voru að fara yfir miðjarðarlínuna. Skipshöfnin hefir ekkert að starfa, og mókir í brennandi hita og lognmollu, dag eftir dag. Fer þá Sigurður að rifja upp fyrir sér ýmsar þær sæfarasögur, er afi hans hafði sagt honum áður, sunnan úr heimi. Fer hann að hugsa um Vasco di Gama, þegar hann fór í fyrsta sinn suður fyrir Afríku og komst þaðan til Indlands, og ekki líður á löngu áður honum leiðist að hugsa um þetta einum, og safnar því mörgum félögum sínum í kring um sig og fer að

segja þeim frá afreksverkum Vasco di Gama og annara sæfara á 15. öld. Segir hann þeim frá, að afurðir Austurlanda hafi þá ekki verið jafn auðfengnar og nú á dögum, þar sem allar vörur frá Indlandi, sem fluttust til Norðurálfu, voru fyrst fluttar inn í botninn á Persaflóa eða Rauðahafinu, og síðan varð að flytja þær landveg til Miðjarðarhafsins, en þar tóku italskir kaupmenn á móti þeim og fluttu þær til Norðálfunnar og seldu þær dýrum dómum, með tífalt og jafnvel alt að hundrað-falt hærra verði en nú á sér stað. Vörur þessar voru þá eins og nú ýmsar kryddjurtir: kanel, negulnaglar, muskat, pipar, engifer og indigo. Var haldið að Afríka næði suður undir suðurheimskaut, og væri æ breiðara eftir því sem sunnar drægi, þvert á móti því, sem er í raun og veru. Væri engum skipum fært að sigla undir miðjarðarlínuna, því í þeim mundi kvikna þar af sólarhitanum. Margar aðrar kynjasögur gengu þá af Afríku; þar átti að búa alls konar illþýði og ófreskjur, menn með hundshöfðum og annað eftir því, enda studdu ítölsku kaupmennirnir að því, að telja mönnum trú um Afríkuundrin, svo enginn þyrði að fara þá leiðina til Indlands, því þeir vissu, að þá mundu þeir missa arðinn af verzlun sinni.

Þegar kom fram á miðja 15. öld, kemur merkur maður til sögunnar. Hann hét Henrik, konungsson í Portúgal, en ekki var hann borinn til ríkiserfða. Notaði hann eigur sínar til að gera út hvert skipið á fætur öðru suður með Afríkuströndum í þeirri von, að mögulegt væri að finna sjóveg til Indlands suður fyrir Afríku. Er hann kallaður Henrik sæfari, fyrir þessar sendiferðir, er hann kostaði, enda þótt hann væri sjaldan eða ef til vill aldrei sjálfur í sæförum. Skip þessi komust smám saman lengra og lengra suður eftir, og héldu fast suður með Afríkuströndum. Ekki kviknaði í skipunum þó komið væri undir miðjarðarlínuna, og ófreskisundrin þar suður frá urðu smám saman að engu, eftir því, sem menn kyntust betur landinu. Loks var komist suður fyrir Góðrarvonarhöfða, syðsta oddann á Afríku 1487, og 11 árum síðar fór Vasco di Gama alla leið frá Portúgal til Indlands, og kom þaðan aftur með alls konar dýrindis varning. Við þetta breyttust verzlunarleiðirnar, og nú rak hver ferðin aðra fyrir sunnan Afríku til Indlands, og Portúgallar urðu um tíma mestu verzlunar- og siglingaþjóð heimsins, þar til Hollendingar og Englendingar tóku við.

A síðustu árum er farin skemri leið til Indlands. Skurður hefir verið grafinn í gegn um Suezeiðið, sem tengir saman Afríku og Asíu, en aðskilur Rauðahafið og Miðjarðarhafið, svo nú geta alls konar skip farið þessa leið, en þurfa ekki að fara suður fyrir Afríku. Seglskip fara þó enn fyrir Afríku, vegna þess, hve lygnt er vanalega á hafinu Rauða.

Sigurður var svo sokkinn niður í sögu sína, um ferðir Vasco di Gama, að honum fanst hann sjálfur vera að sigla í kjölfarið hans, einkum eftir því, sem sunnar dró.

Skip þeirra Sigurðar kom við á eynni St. Helena, það er dálítil eyja, fjalllend og sæbrött. Stendur hún einmana langt út í hafi, vestur undan sunnanverðum Afríkuströndum, og koma þangað öll skip, sem fara fyrir sunnan Afríku, til að fá þar kol, vatn og vistir. — Napoleon Frakkakeisari var hafður í varðhaldi á ey þessari af Englendingum frá því 1815, þar til hann dó þar 1821, — og í ár hafa Englendingar sent

þangað suma fanga þá, er þeir hafa tekið í Búastríðinu.

Þegar komið var á móts við Góðrarvonarhöfða, mætti skipið allmiklum veðrum, eins og oft á sér stað suður undan syðsta odda Afríku. Bartholomeus Dias hét maður sá, af sæförum Portúgalla, sem komst fyrstur fyrir höfða þennan 1487 eins og áður er sagt. Mætti hann þar ofviðri, og varð því að snúa aftur. Kallaði hann höfðann því Stormhöfða, en Jóhann II., sem þá var konungur í Portúgal, breytti nafni hans og kallaði hann Góðrarvonarhöfða, af því, að hann hafði von um, að nú væri auðsætt, að hægt væri að komast fyrir Afríku til Indlands, eins og raun gaf síðar vitni um. Hefir höfði þessi haldið nafni því til þessa dags; er konungur gaf honum, en alment er hann þó kallaður Kap, sem þýðir höfði. Landið þar umhverfis er kallað Kapnýlendan. Eiga hana Englendingar. Þaðan í norðaustur er Transvaal, þar sem Búarnir byggja, sem Englendingar eru nú að berjast við. (Framh.)

## SKRÍTLUR.

Aðalatriðið. Ella litla (þegar móðir hennar hafði sagt henni söguna um Vilhelm Tell): „Og hver borðaði svo eplið?"

(Vilhelm Tell er þjóðhetja Svisslendinga, og er til um hann sú saga, að eitt sinn hafi Svissneskur harðstjóri neytt hann til að vinna það sér til lífs, að skjóta með ör í sundur epli af höfði sonar síns. Vilhelm Tell hepnaðist að skjóta eplið sundur, án þess drenginn sakaði, en þetta á að hafa orðið ástæðan til þess, að Sviss rak burtu alla embættismenn Þýzkalandskeisara og stofnaði lýðstjórnarríki.)

---

Árangurslaust. A. „Ég vildi gjarnan hjálpa þér um peninga, en ég hefi engan vasa á frakkanum þeim arna".

B. „En leitaðu þá í frakkanum, sem vasi er á."

A. „Já. En það er engin peningabudda í hinum frakkanum."

B. „Jæa. Taktu þá peningabudduna."

A. „Það þýðir ekkert, því það eru engir peningar í peningabuddunni."

---

Dómarinn í réttinum: „Hvernig getið þér leyft yður að fara inn á veitingahús og biðja um allskonar mat og drykk, þegar þér hafið enga peninga til að borga með?"

Sá ákærði: „Fyrirgefið, herra assessor. Ég hefi ávalt peninga á mér, því ég gleypti tuttugu króna gullpening þegar ég var barn."

---

Föðurbróðirinn: „Heyrðu, Edvard. Hvað margir kennarar kenna í bekknum, sem þú ert í?"

Edvarð: „Þrír."

Föðurbróðirinn: „Og hvað heita þeir?"

Edvarð: „Það veit ég ekki. Við köllum þá alt af að eins: sá sem gefur utan undir, sá sem slær með spansreirnum, og sá sem lætur okkur sitja eftir."

---

### Svör við reikningsdæmi „Æskunnar".

Nr. 2, í 16. tbl. 1. maðurinn fær 4 aura, sá 13. 16 aura. — Dæmið má reikna þannig: Deil upphæðinni 1 kr. 30 með mannatölunni 13. Koma í hlut 10 aurar. Það verður hlutur 7. mannsins, því hann er í miðjunni og fær jafnmiklu meira en sá 1. sem hann fær minna en sá 13. — Sá 1. fær því 6 aurum minna en hann eða 4 a. og sá 13. 6 au. meira eða 16 a.

Nr. 3 í 16. blaði. Hann fékk 32768 korn fyrir sextánda reitinn og 524,288 korn fyrir tuttugasta reitinn.

Svör við landfræðisgátuna í 16. blaði: 1. Heimaklettur, 2. Eyrarbakki, 3. Krafla, 4. Lagarfljót, 5. Axarfjörður. Aðalsvarið: Hekla.

„ÆSKAN"

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.


| III. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 25. SEPTBR. 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 24. TBL. |
|---|---|---|---|---|


## Haustið.

Í friði var alt um fold og mar
og fögnuður alt um kring,
og fífillinn ræddi við rósirnar,
en rjúpkarinn mettur í hrauninu var,
það logaði' í berjum alt lyng.

Og Dagmálabrekkan var dýrðleg að sjá,
öll dúðuð í blómjurta skraut,
sem tifaði í sólblænum til og frá,
og tíbráin dansaði völlunum á.
En lóan hún bjó sig á braut,

því skýhnoðra hæst var á Súlum að sjá,
hann sortnaði' og stækkaði fljótt,
og fyr en að varði skall vindurinn á,
það veinuðu byljir í Hræfuglagjá.
Var landið og loft að fá sótt?

Og áður var skygður og silfurblár sær,
en sjáðu hvað breytist hann skjótt:
hann ólgar og drynur; nú er ei sem í gær,
þá ýfði hann varla neinn hafgolublær.
Sú umbreyting einustu nótt!

Sjá haustið er komið og hefir burt feykt
þeim hárum sem móðir vor bar.
En festingin himins er kyndlum öll kveikt,
sem kastvindar fá ekki slökt eða beygt,
og lýsa yfir landið og mar.

*Hj. Sig.*

---

## Réttadagurinn.

Réttadagurinn var einhver mesti hátíðisdagurinn á Hamri. Þá var uppi fótur og fit á hverjum manni. Pabbi var búinn að hlaða úr heyjunum, sem náðu hátt yfir baðstofubustina og bera sig á þau, svo torfið fyki ekki af þeim í útnyrðingsstrokunum. Hlöðunni var lokað og hún var troðfull upp í mæni. Valdi litli og Manga höfðu hlakkað til réttanna alt sumarið enda áttu þau að fá að fara, hún ef hún væri viljug að reka kýrnar og smala ánum og hann ef hann væri duglegur að sækja hestana. Þau höfðu talið til hvað langt væri til réttanna. Fyrst voru það sex vikur. Það var ósköp langt og þeim fanst sá tími mundi aldrei enda, svo urðu það ekki nema fimm vikur, þá fjórar, þrjár, hálfur mánuður, ein vika, sex dagar, fjórir dagar, þrír, tveir, nei ekki nema einn dagur. Réttirnar áttu að vera morguninn eftir. — Þau gátu ómögulega sofið nóttina þá, þau voru alt af að smá setjast upp alla nóttina, til þess að vita, hvort ekki væri farið að birta. En þeim fanst nóttin ætla aldrei að enda. — Þetta hlaut að vera alt öðruvísi nótt en allar aðrar nætur. — Hún var svo löng -- svo hræðilega, leiðinlega löng. -- En ef nóttin tæki það nú fyrir, að hætta aldrei, bara til að stríða þeim, svo þau gætu ekki farið í réttirnar, og það yrði alt saman búið þegar þau kæmust þangað. Nei, það gat þó ómögulega verið. Pabbi hlaut að passa

það, að réttadagurinn kæmi í tækan tíma. — Loksins fór smám saman að birta. En það fór svo hægt, eins og dagsbrúnin væri feimin að láta sjá sig. En það smá birti þó. Og það þurfti ekki að vekja Valda og Möngu morguninn þann eða skipa þeim á fætur, þau voru komin á stjá á undan öllu fólkinu, og pabbi vaknaði ekki fyr en þau komu inn með allra mesta hávaða, því Valdi var búinn að beizla hann Litla Brún handa sér, en ætlaði að láta Möngu ríða henni Skottu. En það var ekki við það komandi hjá henni. Hún vildi endilega fá að ríða Litla Brún sjálf. Nú komu allir á fætur og flestallir bjuggu sig í réttirnar, en pabbi gat sætt þau Valda og Möngu með því, að Valdi skyldi ríða Brún í réttirnar, en Manga heim aftur, og það urðu þau að láta sér lynda, því ella fengju þau hvorugt að fara neitt. Og svo reið alt fólkið niður úr tröðum og suður Réttagötu og kom að réttunum um það leyti, sem safnið var að koma í nesið. Þar var svo margt fólk og fé að varla sást út yfir. Og nú var farið að reka inn. Hreppstjórinn gekk um með svipuna í hendinni og skipaði fólkinu að raða sér upp að veggjunum. Safnið var rekið inn. Og það var svo margt, að það þurfti að reka inn tíu sinnum hvað eftir annað. Valdi og Manga urðu að standa í dilkdyrunum til skiftis. Og féð var dregið úr almenningnum og látið í dilkana. Þar var Bílda hennar Möngu litlu komin af fjallinu með blátt band í eyranu, og mórauði geldingurinn hans Valda. Þar kom botnótti forustusauðurinn með bjölluna í hægra horninu. Og á milli þess börnin stóðu í dilkdyrunum voru þau að leika sér með öðrum börnum upp í brekkunni fyrir ofan réttirnar. Telpurnar fóru í feluleik en drengirnir í bændaglímur, en fullorðna fólkið gekk rólega um, heilsaðist og talaðist við. Undir sólarlag var búið að rétta. Skarð var rifið á dilkinn frá Hamri og fénu hleypt út, og rekið heim, en Valdi og Manga fengu að hleypa heim í loftinu og þurftu ekkert að hugsa um féð. Og Valdi keptist við að hafa við Möngu þó hún riði Litla Brún en hann á Skottu, og það endaði svo, að þau komu jafnsnemma heim í hlaðið. Og síðan er viðkvæðið hjá Valda, hvaða klaufi hún Manga sé, því hann hafi við henni á Skottu þó hún ríði honum Litla Brún.

---

## SKRÍTLUR.

Umsjónarmaðurinn á forngripasafninu: „Þetta er kápan, sem Gústaf Adolf var í þegar hann féll, og þetta er gatið, sem kúlan fór í gegnum“.

Barnfóstran (við börnin, sem hún hefir með sér): „Þarna sjáið þið, hvað hættulegt það er að hafa gat á fötunum sínum. Hefði gatið verið saumað saman nógu snemma, hefði þessi ógæfa ekki komið fyrir“.

[Gústaf Adolf var inn frægasti af Svíakonungum, og ríkti frá 1611 til 1632. Hann fór með her manna til Þýzkalands til að hjálpa Lútersstrúarmönnum móti kaþólskum, sem vildu neyða þá til að kasta trú sinni, en féll í orustu við Lútzen 6. Nóv. 1632].

---

Nú hefir um tíma verið hlé á með myndir í blaðinu, en samt sem áður eru þær fleiri í árgangnum, en lofað var, eða 17, en að eins lofað mynd í öðruhvoru blaði, eða 12 alls. Í næsta árgangi mun ekki verða minna af myndum en áður, og kostað kapps um að vanda valið á þeim enn þá meir en hingað til. Útg.

---

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum). 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN

## BARNABLAÐ MEÐ MYNDUM

IV. ÁRGANGUR

RITSTJÓRI

## HJÁLMAR SIGURÐSSON.



REYKJAVÍK

GEFIN ÚT AÐ TILHLUTUN STÓRSTÚKU ÍSLANDS (I. O. G. T.)

ALDARPRENTSMIÐJAN

1900—1901.

# EFNISYFIRLIT.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 18. OKTBR. 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 1. TBL.


## Barnafræðslan.

(Rússnesk saga, löguð fyrir „Æskuna“).

---

Einu sinni var málaflutningsmaður, er var í mjög miklu áliti fyrir skarpleika sinn og sem álitinn var einhver af beztu lögfræðingum landsins. Hann var búinn að missa konuna og átti að eins einn dreng, sjö vetra gamlan, allra efnilegasta dreng, fallegan gullkoll, og allra elskulegasta ærslabelg, og þótti honum, sem von var, undur vænt um hann. — Þegar málaflutningsmaðurinn kom eitt sinn heim, var honum sagt, að drengurinn hefði verið við skrifborð hans um daginn og verið að reykja úr pípunni hans. En málaflutningsmaðurinn vissi, að það er afar-skaðlegt fyrir börn að reykja. Þau hætta að stækka og verða vanalega mestu labbakútar, meira og minna heilsulin og hálf-heimsk. — Auðvitað hefir enginn einasti maður neitt gagn af tóbaksbrúkun, þó hún hafi ekki eins skaðleg áhrif á þá, sem ekki byrja á henni fyr en þeir eru komnir á fullorðinsár. — Málaflutningsmaðurinn kallaði því drenginn sinn fyrir sig og spurði hann, hvort hann hefði reykt um daginn. — Drengurinn játti því. Reyndi þá faðir hans með ýmsu móti að gera honum skiljanlegt, hvílík hætta það væri fyrir hann: fyrst og fremst að reykja, og þar næst að taka tóbakið frá öðrum í leyfisleysi, en hann komst brátt að raun um, að drengurinn skildi í raun og veru hreint ekki neitt af því, sem hann var að tala við hann, t. d. um eignarrétt, drengskaparloforð og annað þess háttar. Loks ætlaði drengurinn að fara hátta, en áður en hann færi til þess, bað hann föður sinn að segja sér æfintýri eins og hann var vanur að gera á hverju kvöldi áður en drengurinn færi að hátta. — Faðirinn tók drenginn á kné sér og tók þannig til máls:

„Það var einu sinni keisari, mjög gamall keisari, með sítt, hvítt skegg, og svo langt efrivararskegg, að hann gat vafið því tvisvar sinnum utan um mittið á sér. Hann hafði gullkórónu á höfðinu og bjó í stórri glerhöll, og glampaði hún með alls konar litum þegar sólskin var. Höllin stóð í afarstórum aldingarði, og uxu þar appelsínur, fíkjur og kirsuber. — Í blómbeðunum uxu þær allra-fegurstu rósir, túlípanar, liljukonvallar og ótal aðrar skrautjurtir og í trjánum héngu glerklukkur, sem börðust fram og aftur í hverjum vindblæ, og sungu þá allra-fegurstu lög, sem hægt var að hugsa sér. — Enda veitstu, að það hljómar miklu skærara í gleri en koparklukkunum. — Í garðinum var mikill fjöldi gosbrunna, eins konar Geysirar, gerðir af mannahöndum, og gaus vatnið úr þeim svo hátt í loft upp, að ekki var hægt að eygja efsta toppinn á bununni. — Gamli keisararinn átti að eins einn son, sem átti að erfa alt ríkið. Það var drengur, sem ekki var stærri en þú. Og það var einkar góður drengur. Hann var aldrei óhlýðinn, fór snemma að hátta, snerti aldrei neitt, sem honum var bannað að koma við, og var í

einu orði sagt allra bezta barn. — En það var einn galli á honum — hann reykti. — Nú leið og beið, keisarasonurinn fékk tæringu, veslaðist upp og dó þegar hann var tvítugur að aldri, en gamli keisarinn var nú orðinn lasburða, og hafði nú engan til að hjálpa sér með að verja ríkið og höllina. — Þá komu óvinirnir, drápu gamla keisarann og brendu höllina, og nú eru ekki kirsuber, túlípanar eða glerklukkur framar í garðinum. — En þetta hefði alt farið öðruvísi, ef drengurinn hefði ekki reykt tóbak, því þá hefði hann lifað til að verja keisarann, hann föður sinn."

Þetta æfintýri hafði svo mikil áhrif á drenginn, son málaflutningsmannsins, að augu hans stóðu full af tárum, hann leit upp í gluggann, horfði á hann dálitla stund út í myrkrið, en sagði síðan hægt og rólega: „Faðir minn. Ég skal ekki reykja framar." Og hann efndi loforð sitt.

# Milli heims og heljar.

Fyrir nálægt sextíu árum bjó ekkja nokkur á klettaey einni við Skotlandsstrendur með einkasyni sínum, Ronald, 16 vetra gömlum. Þau voru bláfátæk; fór Ronald því oft á vorin í björgin, þar sem bjargfuglarnir höfðu verpt, til þess að safna eggjum sér og móður sinni til matar. Var þetta mjög hættulegt starf, því björgin voru bæði brött og hál, og mátti hann búast við að hann kynni að hrapa á hverju augabragði, — og auk þess þurfti hann að verjast fuglunum, sem reyndu af alefli að verja hreiður sín.

Einn dag hafði hann farið út í björgin með nokkrum félögum sínum. Hafði hann með sér digran kaðalvað og hníf til þess að verja sig fyrir fuglunum. Öðrum enda vaðsins batt hann vandlega um sterkan og digran viðarstofn uppi á berginu, en hinum endanum um mitti sér, og rendi sér að því búnu varlega niður eftir berginu. En fyrir neðan var hengiflug og ólgandi haf. — Rétt í því að hann náði fótfestu á sillunni, þar sem fuglahreiðrin voru, réðst stór haförn á hann; hann hjó með hnífnum til arnarins, en í stað þess að hitta fuglinn hitti hann vaðinn yfir höfði sér og skar hann næstum í sundur, svo líf hans hékk bókstaflega á þræði. Hann rak upp hátt angistaróp, og vissu þá hinir, er uppi voru, hvað um var að vera. — Hægt og varlega fóru þeir að draga hann upp, en Ronald sá, að vaðurinn smá-tognaði í sundur og einn þráðurinn slitnaði eftir annan. Hann lætur aftur augun, svo hann sjái ekki hengiflugið undir fótunum á sér; en þó hann komist æ hærra og hærra, virðist vaðurinn stöðugt vera að togna og loks er hann að eins orðinn örmjór eins og handfæri. Þá sortnar Rónald fyrir augum, kallar í angist sinni á móður sína og það líður yfir hann.

Nú er hann að komast upp á hamrabrúnina. Í sama bili slitnar vaðurinn, en einn þeirra, sem uppi eru, hefir lagst flatur fram á brúnina. Nær hann í handlegginn á Ronald og með því að taka á öllu sem hann hefir til, getur hann haldið í hann, þangað til hinir geta hjálpað til og dregið hann upp á brúnina.

Ronald gleymdi aldrei þessari voðastund, og þegar hann var orðinn roskinn maður, sagði hann vinum sínum oft frá þessu ægilega augnabliki, þegar hann hékk framan á berginu milli heims og heljar og

sá enga hjálpar von, og hversu dásamlega guð hefði þá bjargað sér. (Þýtt.)

# Augasteinninn hans afa.

(Norsk saga, aukin).

(Frh.)

Indíafarið, sem Sigurður var á. hélt nú norð-austur með Afríkuströndum, fram með nýlendum Portúgalsmanna, sem nú eru flestar komnar í hendur Englendinga. Helzta landið þar er Natal. þýðir það Jólalandið, og er kallað svo af því, að Vasco di Gama fann það á Jóladaginn 1497.

Þaðan sigldu þeir Sigurður enn í norðaustur fram hjá smá-eyjum þeim, sem eru austur af stór-eynni Madagaskar. Þá er ekki haldið lengra norður með Afríkuströnd heldur stýrt beint austur yfir Indlandshaf, sunnan við Arabíu, og er þá styzt til lands sunnarlega á vestur-strönd Indlands.

Sjaldan ganga jafn langar sjóferðir eins og í sögu segir, án þess, að neinir örðugleikar komi fyrir á allri leiðinni, og Sigurður fékk líka að kenna á því. Fyrir austan stóru eyna Madagaskar er eyja sú, er Mauritius er nefnd. Þegar komið var á móts við hana, tók veður að breytast. Áður hafði ýmist verið hagstæður byr eða logn, en allra mesta góðviðri; þá lækkaði alt í einu í loftþyngdarmælinum, loftið þykknaði upp og varð biksvart, og þokan varð svo þétt og myrk, að varla sást út fyrir borðstokkinn. Sjórinn ýfðist mjög og var auðséð, að ofviðri var í nánd, sem geysar í Indlandshafi, enda leið ekki á löngu áður ofstopalegt ofviðri brast á með þrumum og eldingum, og fékk Sigurður þá að reyna, hvernig náttúran lítur út þegar stormurinn er kominn í algleyming langt úti á reginhafi.

Sigurður hafði áður oftast staðið við stýrið, enda er það vanalega starf undirstýrimannsins, þegar verið er úti á rúmsjó, en yfirstýrimaðurinn tók nú oft við stjórninni. Sá Sigurður, að hér mundi hætta á ferðum, því einn daginn hafði yfirstýrimaðurinn gengið til hans þar sem hann stóð við stýrið og sagt með hvassri rödd: „Farðu í burtu, drengur! Í dag er bezt að ég sé sjálfur við stýrið, en láti það ekki vera í barnahöndum.“ Sigurður hrökk dálítið við, en þorði ekki að svara neinu, því hann vissi, að yfirstýrimaðurinn var ekki eins og lamb aðleika sér við, og að hann mundi ekki hafa rekið sig frá stýrinu að ástæðulausu. Sigurður var þó engan veginn iðjulaus, og skipstjórinn tók eftir því, að hann gæti gert gagn við ýms önnur verk. Nú fékk hann tækifæri til að sýna list sína í því, hvað fimur og djarfur hann var að klifra kaðla og rár. Varð hann að fara hverja ferðina eftir aðra hæst upp í siglutoppana, og gerði hann það svo hvatlega og með slíku snarræði, að það var honum að þakka, að skipinu kastaði ekki á hliðina, því veðrið hafði náð að ólmast í hverri seglpjötlu, sem ekki var rammlega bundin um rárnar og siglutrén; „þetta er gott, drengur minn!“ kallaði skipstjórinn til hans, til að örva huga hans og hvetja hann, en sagði svo enn fremur: „Það er margt ógert enn,“ og svo vann öll skipshöfnin af kappi og hugprýði allan daginn og nóttina á eftir til þess að bjarga skipinu meðan ofviðrið stóð.

Loks var hættan á enda. Vindurinn sneri sér, og allir höfðu ástæðu til að vera glaðir yfir því, að hafa komist lífs og óskadd-

aðir af. Fór þá að rofa til. og sást þá skip í fjarska, sem ekki hafði komist jafn-slysalaust undan rokinu. og var það komið að því að sökkva. „Stýrið þið beint á það,“ kallaði skipstjórinn. „En það eru blindsker á leiðinni“, svaraði yfirstýrimaðurinn, og benti á háa boða og brotsjói fram undan skipinu. „Það verður að hafa það,“ svaraði skipstjórinn. Farðu svo nærri þeim, sem mögulegt er. Það er um að gera, að komast að skipinu áður en það er orðið um seinan. Hafið þið björgunarbátana tilbúna, svo hægt sé að setja þá út á augabragði, og látum nú skríða eins vel og auðið er. — Út með bátana.“ Sigurður og nokkrir félagar hans voru komnir í bátana á augabragði, tóku svo nokkur knáleg áratog og komust að skipinu, sem var að sökkva. Og á næsta augabragði voru skipbrotsmennirnir komnir upp í batana og voru þegar fluttir í skipið, sem Sigurður var á.

[Frh.].

### SKRÍTLUR.

Kennari nokkur var að reyna börn með ýmsum spurningum, svo hann gæti raðað þeim niður eftir kunnáttu. Segir hann þá við einn drengjanna: „Þú segir þá, að til séu þrjú ríki í náttúrunni: dýraríkið, jurtaríkið og steinaríkið.“ „Já.“ „Og í hvert þeirra lætur þú sykur?“ „Hann pabbi lætur hann í heitt vatn, bætir þar í koníaki, og hrærir svo í þessu öllu með skeið.“

---

Kona nokkur var búin að halda sextán vinnukonur og var nýbúin að taka þá seytjándu. Einu sinni spurði ein vinkona húsmóðurinnar hvernig henni líkaði við nýju vinnukonuna. „Og hún er verst þeirra allra. Hún getur ekki einu sinni sjóðhitað svo hreint vatn án þess að láta það brenna við.“

---

Ferðamaður (í vagni, önugur): „Hvar hefurðu augun?“ Írinn (vingjarnlega): „Í höfðinu.“ Ferðamaðurinn (dálítið blíðari en áður): „En geturðu þá ekki séð á mér fæturna?“ Írinn (enn vingjarnlegar en áður). „Nei, það er mér ómögulegt, því þér eruð með skó á fótunum.“

---

Hans hefir verið óþægur. Móðirin: „Farðu barna í hornið og sneipstu.“ Að fimm mínútum liðnum heyrir hann systkyni sín vera að leika sér inni í næsta herbergi. Langar hann þá mjög inn til þeirra, gengur fram úr horninu og segir: „Mamma, má ég ekki sneipast það sem eftir er inni hjá hinum krökkunum?“

---

Skynsamur drengur lýsti slúðri manna á milli á þessa leið: „Það er þegar enginn hefir gert neitt, og einhver fer og segir frá því.“

### GÁTUR.

Skiftu tölunni níu í tvo hluti og þá færðu fjóra og sex afgangs. Hvernig á að fara að því?

---

Breytið orðinu „sól“ í orðið jór (sem þýðir hestur) með því að skifta fyrst um einn staf í orðinu sól, svo út komi alment orð, og skifta svo um einn staf í því orði, svo út komi orðið jór.

---

Þeir sem ekki eru búnir að borga blaðið enn þá eru beðnir að gera það hið fyrsta. Það er nú vonandi, að þeir sem enn eru ekki búnir að gera skil fyrir hinum eldri árgöngnm, geri það nú þegar. Hvað lengi ætlast þeir t. d. til að fá blaðið, sem ekki eru farnir að borga einu sinni fyrsta árganginn enn þá?

**Nýir kaupendur** geta nú (meðan upplagið endist) fengið **þrjá fyrstu árgangana** fyrir 1 kr. 50 au. (ekki hálfvirði), en þeir sem vilja sæta þessu boði ættu að gera það í tíma, því hinir eldri árgangar eru á förum. Útg.

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

| IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 23. OKTBR. 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 2. TBL. |
|---|---|---|---|---|

## Fjörugur öldungur.

Hinn 10. Október í fyrra var haldinn hátíðlegur í bænum Derby á Englandi. Búðum var lokað, skólarnir áttu frí, og fagnaðar-bragur var á öllum bænum. — Þetta var alt gert til heiðurs auðugum kaupmanni þar í bænum, er Georg Blakemann heitir. Var þetta afmælisdagur hans, og var hann þá 100 ára gamall. Hafði hann upphaflega verið bláfátækur drengur, en hafði smám saman komið sér áfram, unz hann var orðinn auðugur maður og átti mjög mikið undir sér.

Maður nokkur, sem sótti hann heim og talaði við hann um ýmislegt, lýsir honum þannig:

„Hann er hár og beinvaxinn, fríður sýnum og hefir enga hrukku í andlitinu. Andlitið er blómlegt. Hann hefir hvítt hár og skegg. — Hann er við beztu heilsu, er hvorki bilaður á heyrn né sjón. Gáfur hans og minni eru ekki farin að sljófgast, og hann er fjörugur bæði á sál og líkama“.

„Uppspretta eilífrar æsku“, mælti Blakemann, „er ekki að eins til í dæmisögunum, heldur er hún til í raun og veru“.

Þar á eftir sagði hann um nokkrar lífsskoðanir sínar, og hvers vegna hann héldi, að hann hefði haft beztu heilsu alla æfina.

„Ég hefi aldrei bragðan hvorki nokkurn áfengan drykk né meðul“, mælti hann. „Ég hefi einu sinni fengið lungnabólgu, og nokkrum árum síðan megna hitasótt. Þegar ég fann, að sóttin var orðin svo megn, að ég mundi bráðum missa rænuna, lét ég konuna mína lofa mér því, að mér skyldi ekki vera gefin inn nokkur meðul. Ég fékk heldur engin meðul, og nú getið þér séð, hvernig ég lít út. Læknir nokkur var vanur að segja við mig: „Þér ættuð að fá dálítið til að styrkja yður, t. d. vænt staup af víni og kínín. En ég drakk ekki, hvorki meðan ég var veikur eða eftir það ég var orðinn heilbrigður“.

„Yður geðjast þá ekki að áfengum drykkjum?“

„Nei“, svaraði hann einbeitt. „Þeir eru vondir á bragðið, hafa slæm áhrif og eru skaðlegir fyrir líkamann. Hvað fær drykkjumaðurinn aftur fyrir peningana sína.? Ekki einu sinni sanna óblandaða ánægjustund. Og ættingjar hans fá að erfðum eftir hann fátækt og tilhneging til drykkjuskapar. — Það er ekki til nein sú hlið í lífi mannsins, að drykkjuskapurinn hafi ekki skaðlegar afleiðingar á hana, hvort heldur það er staða mannsins, heilsa hans eða siðferði hans; sama er með fjárhaginn og jafn ljótt er það frá fegurðarinnar sjónarmiði. Bæði drykkjuskapur og tóbaksbrúkun eru til tafar fyrir framfarir manna í siðferðislegu tilliti, fyrir því, að þeir afli sér virðingar meðbræðra sinna og fyrir því, að þeir geti orðið sjálfbjarga menn“.

„Þér reykið þá ekki heldur?“

„Nei, en ég byrjaði auðvitað á því, eins og allir aðrir drengir. En það varð ekki nema byrjunin. Það er ekkert vit í því,

að neyta þess, sem getur skaðað manninn, stytt lífsstundir hans og ánægju lífsins.“

Þrátt fyrir þetta má þó ekki ætla, að hann væri teprulegur, leiðinlegur og sérvitur. Honum þótti gaman að vera í samkvæmum, þar sem gleði var á ferðum. „Það er *þess konar* hressing og endurnæring, sem náttúran hefir séð fyrir“, mælti hann.

„Það er góðs viti, að manninum geðjist að því, að vera saman með vinum sínum og kunningjum. Það er heillavænleg tilhneging. Góður félagsskapur endurnærir bæði sál og líkama“.

Hann var að eins 3 ára gamall þegar faðir hans dó, en móðir hans lifði bláfátæk eftir með börnin. En þegar hann hafði einn um tvítugt, var hann búinn að afla nægilegt til að byrja sjálfur á verzlun og var þá orðinn efnaður maður.

En hafði líka unnið af kappi. „Þangað til ég hafði tvo um nírætt gekk ég í búðina mína á hverjum morgni klukkan hálf sjö. Ég segi yður það satt, að vinnan er bezta meðalið til þess, að halda heilsunni og eldast ekki um skör fram. Þeir eru fleiri, sem slitna af riði en þeir, sem slíta sér út af vinnunni“.

„Ég var upphaflega fátækur bóndasonur og ég hef þokað mér smám saman hærra og hærra, þangað til ég var kominn í þá stöðu, sem ég er nú í; en vellíðan mína á ég næst guði að þakka því, að ég hefi forðast áfenga drykki. Sá drengur verður að varast hringiðu drykkjusiðanna, sem ætlar sér að verða að manni í heiminum“.

„Magne“.

# Augasteinninn hans afa.

(Norsk saga, aukin).

(Frh.)

Sigurði fanst, að það hefði ekki verið til einkis að hann lifði daginn þann, og þegar hann stóð við stýrið í næturkyrðinni nóttina eftir, fór hann að hugsa um hann afa sinn og þakkaði guði af heilum hug fyrir það, sem hafði komið fyrir hann daginn áður.

Áður en Sigurður bjóst við, var skipið komið að landi, og var það við sömu ströndina sem Vasco di Gama hafði komið í Maímánuði 1498, þegar hann varp akkerum á höfninni í Kalíkút á vesturströnd Vestur-Indlands og kom þar fótunum undir veldi Portúgalla. En ferð þeirra Sigurðar var lengra heitið. Var nú siglt fyrir suðurenda eyjarinnar Ceylon, suður undan syðsta oddanum á Vestur-Indlandi, og þaðan yfir Bengalflóann, og fyrir Malakkaskagann á Austur-Indlandi. Þar var lent, og skipið fermt þar ýmsri dýrindisvöru; þaðan var haldið til Stóru-Sundaeyjanna, Java og Súmatra. Þær liggja beint undir miðjarðarlínu, suður undan syðsta tanga Austur-Indlands; eru þær báðar eldbrunnar og þó afar-frjóvsamar. Er þaðan flutt afar-mikið af kaffi, sykri og ýmsum kryddvörum. Eyjar þessar eiga nú Hollendingar og hafa þeir tekjur miklar af því, að leigja út bæði kaffi- og sykur-akrana.

Nú var snúið aftur heimleiðis og var skipið alfermt kryddvörum og ýmsum öðrum enn dýrmætari vörum. Fanst skipshöfninni, að ábyrgð sín væri enn meiri nú en áður, þegar skipið var orðið fermt þeim varningi, sem átti að borga allan kostnaðinn við ferðina.

Skipinu gekk greiðlega ferðin vestur yfir

Bengalsflóa, og alt þar til það var komið fram hjá eyjum þeim, er Maledive og Lakkadive eyjar nefnast. vestur undan Vestur-Indlandi. Það eru afar-margar smáeyjar, sem ná ekki nema fáein fet upp úr sjó. Eru það kórallaeyjar, og allar bygðar úr skeljum óteljandi smádýra, er kórallar nefnast, sem lifa í sjó; eru sumir jafnvel svo litlir, að þeir sjást naumast með berum augum. En þó hafa þessi örlitlu dýr. bygt heila fjallgarða neðan sjávar. Eru sumir þeirra yfir hundrað mílur á lengd. og mörg hundruð fet á þykt. Sumstaðar ná fjallahryggir þessir tæplega upp úr sjónum, eru þar blindsker hættuleg fyrir sjófarendur en á öðrum stöðum ná efstu tindarnir upp úr sjó, og eru það kórallaeyjarnar.

Þegar komið var fram hjá eyjum þessum var það einn góðan veðurdag, er skipið sigldi með fullum seglum, að Sigurður heyrði skipstjórann kalla alt í einu: „Stýrið til hléborða og setjið upp hverja seglpjötlu sem hægt er. Þið sjáið að ræningjaskip fer á eftir okkur. Það hefir orðið vart við kryddvöruna, sem skip okkar er fermt með, en því skal ekki verða kápan úr því klæðinu, að það beri á borð krásirnar þær.“ Skipaði skipstjórinn svo fyrir með alt sem gera þyrfti. Var nú dregið upp hvert segl, sem hægt var og strengt á hverjum kaðli sem framast mátti. Byrinn var góður og fór skipið með slíkri fleygiferð, að það næstum flutti kerlingar, og áður langur tími var liðinn var það komið svo langt fram úr ræningjaskipinu, að ekki sást til þess lengur. Þegar skipið var komið svo langt undan, að ekkert var að óttast ræningjana lengur, var farið að segja ýmsar sögur af ræningjum þeim, sem eru á ferð í höfunum þar um slóðir, sumar sannar, en sumar æði mikið ýktar, hvernig ræningjar þessir ráðast á vöruskip, einkum á ófriðartímum, og hafa það að yfirvarpi, að þau flytji vopn og vistir til óvina sinna.

Fátt var til frétta og frásagna á heimleiðinni að öðru leyti. og Sigurður hafði naumast tækifæri til að sjá annað, en hann hafði séð á leiðinni að heiman, að undantekinni hákarlaveiðinni, sem skipshöfnin gerði sér að dægrastyttingu. þegar komið var alllangt norður í Atlantshaf. Í hitabeltishöfunum lifa stórir og afar-gráðugir hákarlar, sem reyna að gleypa hverja lifandi skepnu. sem fer fyrir borð, og oft eru þeir upp í fjörunni. svo varla er hægt að baða sig í sjó fyrir þeim. Hafði Sigurður séð þá öðru hvoru synda í kring um skipið eða á eftir því, í von um bráð, en því hafði enginn gaumur verið gefinn. En nú hafði stór hákarl synt á eftir skipinu í nokkura tíma og þrætt í alla króka á eftir því, og sást öðru hvoru á bakuggana upp úr sjónum. Beittu sjómennirnir nú vel stóran og sterkan öngul, bundu við hann járnkeðju fyrir öngultaum og festu þetta neðan í sterkt færi, og dorguðu nú fyrir hákarlinn. Leið ekki á löngu áður hann gleypti allan öngulinn með beitunni, og mundi hafa klipt öngultauminn sundur með tönnunum, hefði hann ekki verið harðari en svo, að hann gæti ráðið við hann. Eftir miklar stympingar og stímabrak gátu hásetarnir loks dregið hákarlinn upp á þilfarið. Barðist hann um með sporðinum sem óður væri, en loks gátu sjómennirnir þó ráðið honum bana með sveðjum sínum, og skiptu þeir herfanginu á milli sín. Í annað sinn hélt Sigurður, að hann hefði séð hval, en yfirstýrimaðurinn sagði honum, að það væri sjaldan, að hvalir færi svo langt suður á bóginn, og ef það bæri við, væri bezt að láta þá hlutlausa, ef ekki væri til hentug

veiðarfæri til hvalaveiða. Eftir það sagði stýrimaðurinn Sigurði langa og undraverða sögu af hvalaveiðum, hafði hann heyrt hana hjá hvalaveiðamanni, er oft hafði verið við Grænlandsstrendur; en stýrimaðurinn var nú svo oft búinn að segja frá þessari sögu, að hann var farinn að hálf-ímynda sér, að hann hefði sjálfur verið með í ferðinni.

Skömmu síðar kom Sigurður heim, og var akkerum varpað á sömu höfninni og ferðin hafði verið hafin frá. Hafði Sigurður æfst mjög í þessari fyrstu sjóferð sinni, og séð margt, sem gat komið honum að gagni síðar. Að minsta kosti fanst honum þetta sjálfum og þó ekki síður frændfólki hans. Skipið kom til hafnar um miðja nótt, og tók faðir hans með útbreiddan faðminn á móti honum á sama stað og hann hafði áður verið með bátinn sinn í fjörunni, og verið að bollaleggja um sæfarir lengst úti á reginhafi. (Niðurl.)

## SNILLYRÐI.

Ímyndaðu þér, að sá maður sé á himnum, sem þú ert ósáttur við, og þá muntu læra að fyrirgefa honum.

Þegar vér líðum sjálfir, eigum vér að hugsa til annara manna, sem hafa liðið fyrir vora skuld.

Hér í heimi sjáum vér að eins óljósan uppdrátt af tilverunni. Fullkomið málverk sjáum vér fyrst í öðrum heimi.

## SKRÍTLUR.

Kennari í Ameríkönskum skóla: „Hver var fyrsti maðurinn í heiminum?“ Lærisveinninn: „Georg Washington“. Kennarinn: „Nei, Adam var sá fyrsti maður“. Lærisveinninn (fyrirlitlega): „Nú já, ef þér teljið útlendingana með“. (George Washington var þjóðhetja Bandaríkjanna í Ameríku, fæddist 1732 og dó 1799, frægur hershöfðingi og losaði hann Bandaríkin undan veldi Englendinga. Hann var fyrsti forseti Bandaríkjanna og mesti sæmdarmaður).

---

„Hvað er þetta, Jóhann. Sagði ég þér ekki, að þú ættir að vekja mig kl. 4? Hvers vegna hefir þú ekki gert það?“ „Jú, jú, og ég ætlaði að gera það, en — þér sváfuð.

---

Kaupmaðurinn (við búðarþjóninn): „Hvers vegna eruð þér svona súr á svipinn, Natan, þér rekið með því alla kaupendur burt úr búðinni,“ Natan: „Fyrirgefið húsbóndi góður, það er ómögulegt að búa til vingjarnlegra andlit fyrir að eins 30 krónur um mánuðinn“.

---

„Áttu nokkur systkyni, Nonni litli?“ “Nei, ég er öll börnin, sem við eigum.“

---

„En hvað frúin á falleg hæns. Þau verpa víst allra mesta fjölda af eggjum“. „Ónei, þau þurfa þess ekki, kona góð, þau verpa að eins sér til skemtunar.“

---

A.: „Jæja, vinur minn, hvenær verður hann sonur þinn búinn að ljúka náminu?“ B.: „Þegar hann er búinn með peningana mína.“

---



„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 22. NOV. 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 3. TBL.

## Litli Savoyarinn.

Í Alpafjöllunum, á takmörkum Frakklands og Ítalíu, liggur hérað eitt álíka stórt og tvær meðalsýslur á Íslandi, er Savoyen nefnist og hefir það heyrt Frakklandi til um fjörutíu ár.

Í einum dalnum í héraði þessu stóð einu sinni dálítið hús, rétt undir afarháu fjalli, sem gnæfði hátt til himins og var efsti hluti þess síþakinn jökli og ís. Sá, er vildi sjá npp á efsta tind fjallsins neðan úr dalnum, varð að regja sig töluvert aftur á bak, og oft kom það fyrir, að ekki var hægt að eygja tindinn, því gráhvítur skýjahjúpur hafði sveipað sér utan um alt fjallið að ofanverðu. Í hverja átt sem litið var úr dalnum, sáust ekkert annað en voldugar hamraborgir, þaktar að ofanverðu að meira eða minna leyti með jökulbreiðunni, og sló á hana purpurablæ, þegar sólin var að renna hinum megin við fjöllin. Það var fátt fagurt að sjá niðri í dalnum þeim; reyndar vorn grænir gróðrarblettir á stöku stað, þar sem grasið var bæði þétt og hátt, en hinir staðirnir voru þó margfalt fleiri, þar sem jörðin var þakin lausagrjóti eða stórbjörgum, skuggalegum og gróðurlausum, sundur tættum af vatni og vindi, sem gnæfðu hátt í loft upp eins og það væri tröllauknir og sundurbrotnir minnisvarðar frá fyrri tímum. — Rétt við kofann hafði tekist að rækta dálítinn blett með mjög mikilli fyrirhöfn, og fekst af honum litið eitt af korni, en það var svo gult og visið, að ekki var að vænta mikillar uppskeru af því.

Á þeim tíma, er þessi saga gerðist, átti hús þetta maður nokkur, er Pierre hét. Hafði hann konu og fimm börn fram að færa, og veitti honum oft örðugt að fleyta fram lífinu. En Pierre var glaðlyndur og áhyggjulítill, og hafði ekki margar áhyggjur fyrir morgundeginum, enda hafði honum tekist að bjargast alt til þessa nokkurn veginn fram úr því, enda var hann duglegur leiðsögumaður og fylgdi ferðamönnum þeim sem komu þangað á ári hverju til þess staðar i Alpafjöllum. Því miður komu þangað ekki margir menn, því dalurinn lá afskekt, og var því oft æði örðugt fyrir Pierre að útvega nægilegt að borða handa öllum börnunum, sem voru hraust og heilsugóð og höfðu allra beztu matarlyst barna uppfrá i hreinu fjallaloftinu.

„Og ég er alveg hissa, hvað börnin geta borðað“, sagði Pierre oft hálfbrosandi, þegar hann horfði á börnin meðan á máltíðunum stóð. „Ég held þau hikuðu ekki við að leggja í fjallagöngustafinn, ef hann væri borinn á borð fyrir þau.“

Og svo rendi hann augunum með mesta ánægjusvip yfir barnahópinn, þar sem þau voru fimm rjóð og þrifleg í kring um borðið. Móðir þeirra rendi einnig til þeirra ástúðlegum augum, en auðséð var á svip hennar, að hún var áhyggjufull fyrir framtíðinni, og hún andvarpaði með sjálfri sér. Hún bar kvíðboga fyrir því, að sá tíminn

mundi bráðum koma, að ekki yrði nægilegt til að borða, og eitt eða fleiri barnanna yrði að fara að heiman úr foreldrahúsum til að leita sér atvinnu. Og þessi tími kom áður en hún hafði búist við því.

Það bar við einn dag sem oftar, að Pierre fylgdi nokkrum ferðamönnum yfir fjöllin, en þegar hann kom ekki heim um kvöldið varð bæði móðirin og eldri börnin hrædd um hann og mjög óróleg. Elzti drengurinn hafði farið í rökkrinu upp eftir einstiginu í fjallinu til að skygnast eftir föður sinum; en hann kom aftur án þess að verða nokkuð var við hann.

„Má ég ekki fara yfir í þorpið hérna í næsta dalnum og fá menn til þess að leita að honum“, spurði hann móður sína.

„Jú, þú mátt það Eugen“ (lesið: Eivsjen), svaraði móðir hans, sem varð æ hræddari og hræddari, „en varaðu þig á gljúfrunum“.

Drengnrinn lofaði að fara varlega og skundaði af stað. Móðirin háttaði hin börnin hvert af öðru og kom þeim í rúmið. Að svo búnu kveikti hún og tók að sauma en hún hafði enga ró á sér við vinnuna. Hún spratt upp hvað eftir annað og fór út að hlusta, hvort hún heyrði ekki fótatakið, sem hún var alt af að vonast eftir; en alt var þögult og hljótt, og ekki heyrðist það allra minsta hljóð í kvöldkyrðinni. Nóttin féll á og hún leið til enda, og enn þá kom enginn í ljós. Grár morgunbjarminn gægðist inn um gluggann og ljósið á lampanum tók smám saman að dofna eftir því, sem dagsbirtan jókst. Konan gekk út úr kofanum, ef til vill í hundraðasta sinni, til að skygnast upp eftir fjallinu. Nú gat hún ekki lengur haldið kyrru fyrir og hljóp skjálfandi af sálarangist upp einstigið; því hún hafði séð mannahóp hátt uppi á fjallinu, sem báru eitthvað milli sín. og Eugen son sinn við hlið þeirra. Þegar hún kom nær, sá hún greinilega hvað um var að vera, og að mennirnir báru mann hennar til skiftis á börum á milli sín. Gat hún þá ekki stilt sig lengur og rak upp aumkvunarlegt angistarvein.

Eugen heyrði óp hennar og kallaði til móður sinnar: „Hann faðir minn er ekki dáinn. Hann er lifandi!“ Þetta var satt. Faðir hans var ekki dáinn, en hann hafði ákaflega meitt sig. Hann hafði verið farinn að halda heimleiðis síðla dags daginn áður, og hafði þá hrapað niður eftir afarbröttu gili, og þar höfðu þeir menn fundið hann löðrandi í blóði og meðvitundarlausan, sem Eugen hafði fengið til að leita hans. Aumingja Pierre dó reyndar ekki, en þegar hann komst á fætur aftur var hann svo bæklaður, að hann gat litla björg sér veitt.

Það varð að stunda hann nærfelt eins og ómálga barn, en konan hans og börnin tóku að líða neyð.

Einn dag kom Eugen hlaupandi heim úr þorpinu og skundaði inn til föður sins, sem sat hnugginn og máttvana í hægindastól, sem einhver hafði gefið houum af meðaumkun.

„Nú er eg alveg staðráðinn“, hvíslaði hann að föður sínum. „Maðurinn hefir lofað að gefa mér hann Joko, apann sinn. Nú á ég ekki annað eftir en að fá leyfi hennar mömmu til þess að leggja af stað.“

„Aumingja drengurinn minn“, mælti Pierre hnugginn í bragði, „þú veitst ekki hvaða örðugleikar kunna að liggja fyrir þér!“

„Eg bjarga mér vonandi, faðir minn! ... Viltu ekki segja henni mömmu frá því?“

„Hvað er það, sem hann faðir þinn á að segja mér?“ spurði móðir hans, er kom inn í sömu svifunum.

„Að hann Eugen vill fara út í heiminn.

Hann Símon gamli hefir lofað honum, að hann skuli fá apann hans, og Eugen litli heldur, að hann muni komast vel áfram, sé honum að eins leyft að leggja út í heiminn.“

„Hvað segir þú um það Pierre?“

„Nú, hvað get ég sagt, ósjálfbjarga auminginn. Ég sit hérna að eins þér til byrði, svo það væri eðlilegt, að þú befðir ráðin í hendi þér.“

„Nei, Pierre“, mælti kona hans, „þú mátt ekki tala þannig. Heldurðu, að við séum búin að gleyma því, hvað mikið þú gerðir fyrir okkur meðan þú varst heill heilsu, og ímyndarðu þér, að við vildum losna við þig, þó við græddum á því? Nei, Pierre, þú skalt ráða og við förum að ráðum þínum í öllum greinum.“

„Það er þá bezt að lofa honum að fara“, mælti Pierre. „Hann kemst aldrei þangað sem guð sé ekki með honum, og ég er viss um, að Eugen gleymir því ekki fremur en hann gleymir okkur.“

Þannig var afráðið, að drengurinn fengi vilja sínum framgengt, og skömmu síðar kvaddi hann foreldra sína og systkyni sín og tók apann á herðar sér og klifaði upp fjallið í bezta blíðviðri snemma morguns um vorið. — Faðir hans sat fyrir utan kofadyrnar og horfði á eftir honum, en við hlið föðursins stóð móðir drengsins og systkyni hans og veifuðu til hans unz leiti bar á milli. (Framh.)

# Augasteinninn hans afa.

(Norsk saga, aukin).

(Niðurl.)

Þegar Sigurður var kominn heim og hafði heyrt, að öllum liði vel hja foreldrum hans, varð honum fyrst að orði að spyrja um, hvernig afa sínum liði. „Afa þínum líður vel“, svaraði faðir hans, „og það betur en nokkru sinni áður; hann hafði trú og traust á guði sér að leiðarsteini og er nú búinn að ná þeirri réttu höfn: hann er grafinn í hólnum niður við ströndina, þar sem hann hafði kjörið sér legstað“. Sigurður gekk á þennan stað, og bjo svo til kross úr gömlu stýri og reisti hann á gröfina. „Hann afi minn verður að fá eitthvað úr skipinu okkar“, mælti hann, og þerði tárin úr augum sér, því honum fanst að sér sæmdi ekki að gráta, þar sem hann var orðinn sjómaður. Nokkrum dögum siðar var skipið sett upp og fór Sigurður þá heim með föður sínum. Hafði skipstjórinn gefið honum heimfararleyfi og sagt um leið við föður hans: „Hann er reyndar enn þá nokkuð unggæðislegur, en þegar hann er búinn að fara tvær ferðir enn, getur hann bjargað sér upp á eigin spýtur.“

„Já, það getur hann“, mælti yfirstýrimaðurinn, „því það er gott efni í honum — og hann óttast guð, svo hann getur bæði stýrt sjálfur og látið stýra sér af honum, sem öllu stýrir betur en við?“

Allir geta ímyndað sér, hverjar hafi verið tilfinningar móður Sigurðar, þegar hún tók hann í fang sér og fagnaði honum heilum heim — og þó einkum þeir, sem átt hafa góða og ástríka móður. Það má líka nærri geta, hvernig móðursystur hans glöddust yfir því að sjá hann aftur, sem hafði komist í gegn um svo margar hættur og ekki vantaði mikið á, að þeim þætti hann jafnmikill maður og Vasco di Gama forðum daga. Hann var einka-átrúnaðargoðið þeirra, og hver þeirra vildi hafa hann hjá sér og láta hann segja sér sérstaklega frá ferðum sínum. Svo tók hann upp úr sjómannskistuuni sinni, og gaf þeim nokkra fáséða

indverska muni, sem hann hafði keypt fyrír peninga þá, er hann hafði sparað saman, og þá vantaði ekki mikið á, að þeim þætti sjómannslífið það inndælasta líf, sem til væri á jörðunni. „Fyrir þá, sem duga í það“, svaraði faðir hans. „Það getur margt annað líf verið gott“, sagði móðir hans og klappaði á kollinn á Ásmundi yngra syni sínum, sem átti að læra að stunda búskap. Góð móðir þolir aldrei, að neinu barni sínu sé óréttur gjör. „En eitt er áreiðanlegt“, bætti móðir Sigurðar við, „að sá getur farið á heimsenda, sem hefir guð sinn og ást til sinna í hjarta sínu, því honum finst samt sem áður, að hann sé heima sjá sér.“

### DRENGJALEIKUR.

1. Nóttin og dagurinn:

Þessi leikur var mjög iðkaður af drengjum hjá Forn-Grikkjum og var nefndur „Ostrakinda“.

Leikurinn er þannig:

Drengirnir skiftast í tvo flokka, dagflokkinn og næturflokkinn. Hvor flokkurinn velur sér bústað á móti öðrum og er dálítill spölur á milli. Mörk eru sett miðja vega milli flokkanna. — Nú ganga báðir flokkar fram að mörkunum og hafa með sér tréplötu, sem er lituð hvít öðrum megin, en svört hinum megin. Er henni kastað í loft upp og gætt að hvor hliðin snúi upp þegar niður kemur. Sé það t. d. hvíta hliðin eiga dagdrengirnir að elta næturdrengina og ná þeim, með því að slá á bakið á þeim. Hinir reyna aftur að hlaupa sem fætur toga heim til sín. Þeir drengir, sem teknir verða, eru gerðir að ösnum og eiga þeir að bera sigurvegarana heim til þeirra. — Að eins eiga drengirnir að gæta þess, að lítill og kraftalítill drengur sé ekki látinn bera stóran og þungan dreng. — Séu drengirnir, sem verða að ösnum, of litlir og kraftalitlir, eiga þeir að leiða sigurvegarana heim, í stað þess að bera þá.

### SKRÍTLUR.

Amma sýnir Gunnu litlu bróður hennar, sem er nýfæddur. Gunna litla: „En hvað þetta er stór og falleg brúða! Er ekki hey innan í henni eins og brúðunni minni, amma?“

---

Adam og Eva: Emilía litla sér Ellu systur' sína koma inn með epli í hendinui og segir við hana: „Heyrðu, við skulum leika Adam og Evu.“ Ella: „Hvernig er sá leikur?“ Emilía: „Þú átt að vera Eva og freista mín með eplinu, og svo ætla ég að vera Adam og borða það.“

---

Prófessorinn (þegar konan hans syngur í samkvæmi til hjálpar fátækum): „Hvernig er þetta mig minnir að ég hafi heyrt þessa rödd áður.“

### GÁTUR.

3. Hver getur talað öll tungumál?
4. Hvernig er hægt að bera vatn í mjólkursigil?
5. Hvers vegna rignir ekki tvo daga í einu?
6. Hvernig á að skrifa þurt gras með þremur stöfum?
7. Hvað er sterkasta dýrið?

Svör við gátur í 1. blaði:

1. Talan 9 er skrifuð með rómverskum tölum, þannig: IX. Sé henni skift í tvo hluti þvers um, verður efri hlutinn IV, en sé neðri hlutanum snúið við, verður það VI.
2. Sól. — Jól. — Jór.

---

**Nýir kaupendur** geta nú (meðan upplagið endist) fengið **þrjá fyrstu árgangana** fyrir 1 kr. 50 au. (ekki hálfvirði), en þeir sem vilja sæta þessu boði ættu að gera það í tíma, því hinir eldri árgangar eru á förum. Útg.

„ÆSKAN“

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.**

**ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.**

**Aldarprentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.**

# ÆSKAN.

| IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. NOV. 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 4. TBL. |
|---|---|---|---|---|

## Kongulóarvefurinn.

Sé kongulóin skoðuð i gegn um smásjá, þar sem alt sýnist margfalt stærra en það er í raun og veru, er hægt að sjá, að afturhluti kongulóarinnar er örlítil spunavél; í henni spinnur hún silkið í þráðinn sinn. Þessi spunavél er úr fjórum eða sex spunavörtum og á hverri vörtu eru afarmörg undurlítil göt, og þau eru stundum svo þétt, að þúsund göt eru á ekki stærri bletti en einum nálarodd.

Kongulóin spinnur þráð út úr hverju einasta af götum þessum, en allir þræðirnir úr sömu spunavörtunni renna saman og verða að einum þræði; þessa fjóra eða sex þræði tvinnar kongulóin svo saman í einn þráð, og úr því verður þráðurinn, sem við sjáum í vef kongulóarinnar.

Kongulóarvefurinn er þannig ekki spunninn úr einum þræði, svo sem margir munu ímynda sér, heldur úr fjögur þúsund þráð að minsta kosti, sem orðnir eru að eins einum þræði.

Náttúrufræðingur einn hefir fundið, að hjá minstu kongulónum, sem ekki eru stærri en sandkorn, er þráðurinn svo smágjör, að fjórar miljónir þráða þyrfti í þráð, sem væri álíka digur og meðal mannshár, og þó er hver af þessum þráðum myndaður af fjögur þúsund enn þá smágjörvari þráðum.

Samkvæmt þessum reikningi þurfa *sextán þúsund miljónir* af þessum kongulóarþráðum til þess að búa til þráð jafndigran og meðal mannshár. Í smásjánni sjáum vér því, hversu dýrð skaparans birtist í því allra-smæsta.

Ef þig langar að vita um siði og hætti kongulóarinnar, þá aðgættu hana, því af því lærirðu miklu meira en með lestrinum. Við skulum þó segja frá nokkrum sjaldgæfum kongulóm, sem ekki er auðvelt að kynna sér.

### *Kongulóin með hlemminn.*

Í heitu löndunum er konguló, sem vefur sér ekki kringlóttan vef, heldur grefur sér pípumyndaðan gang niður í jörðina. Holuna klæðir hún innan með silki, en fyrir opið býr hún til hlemm með lömum á, sem hún hefir spunnið efnið í. Hlemmurinn fellur nákvæmlega fyrir holuna.

Í holu þessari býr kongulóin stöðugt, nema þegar hún kemur upp á næturnar og stundum á daginn til þess að veiða skorkvikindi. Stundum opnar hún hlemminn í hálfa gátt og nær í skorkvikindi, sem hefir komið of nærri holunni, og étur það.

Á kvöldin skríður konguló þessi upp úr holu sinni, festir hlemminn svo hann detti ekki aftur, og spinnur svo vef skamt frá holunni. Að svo búnu skríður hún inn í holuna aftur og liggur þar í leyni þar til eitthvert skorkvikindi hefir flækt sig í netinu, en þá ryðst hún út og drepur það. En morguninn eftir sést ekki ögn eftir, hvorki af kongulóarvefnnm né skorkvikindinu. Kongulóin hefir borið það alt í burtu svo í birtunni er ómögulegt að sjá hvílíkt herverk kongulóin fremur á nóttunni.

Kongulær þessar verpa eggjum sínum og klekja þeim út í holum þessum og þar verða ungarnir að hýrast, þar til þeir eru orðnir nægilega stórir til þess að grafa sér holur sjálfir. En eftir því sem ungarnir vaxa gerir móðirin holuna stærri.

Þig furðar ef til vill á því, að jafnlítið dýr og konguklóin geti borað holu ofan í jörðina. Henni tekst það á endanum, en langan tíma þarf hún til þess og mikla þolinmæði. — Það hefir sést, að kognulóin hefir þurft heila klukkustund til að grafa álíka rúm og meðal fingurbjörg. Moldina losar hún í smáköggla, sem eru ekki stærri en sandkorn, og ber þá svo burt.

---

# Litli Savoyarinn.

(Framh.) Það er algengt í Savoyen, að hálfstálpaðir drengir fara að heiman til annara landa til þess að hafa ofan af fyrir sér og græða dálítið fé, sem þeir koma með heim aftur. Því Savoyen er ófrjótt land, og íbúarnir geta ekki bjargað sér, þó þeir séu bæði iðnir og sparsamir. Þessir ungu Savoyarar eru ýmist að dansa fyrir fé á götunum í Parísarborg eða sópa og moka saur í öðrum stórborgum. Stundum bera þeir borð fult af gibsmyndum, er þeir hafa til sölu, eða sýna vanin múrmeldýr, sem lifa upp í Alpafjöllum og eru litlu stærri en mýs og líkar þeim í sköpulagi; en í hvaða stöðu sem drengir þessir eru, þá er auðséð, að þeir eru bláfátækir og líða sult og seyru.

Það mundi verða of langt mál, að segja frá öllu því, sem bar fyrir Eugen litla og Joko, apann hans, á ferðum þeirra. Það er nóg að geta þess, að Eugen leið líkt og öðrum drengjum í samskonar stöðu. Hann vandist smám saman að þurfa að sofa undir beru lofti, þó kalt væri í veðri. og að ösla aur og leðju langar leiðir svangur og sár og bólginn á fótunum.

Eitt kvöld var hann á leið til bæjar eins á Norður-Frakklandi. Hann og Joko höfðu dansað allan daginn og sýnt allar þær litlu íþróttir, sem þeir kunnu, en tekjurnar höfðu verið æði litlar. Þeir voru því báðir þreyttir og í þungu skapi, því Joko var jafnan í sama skapi og húsbóndi hans. Alt í einu brá Eugen við, þar sem þeir gengu eftir veginum, því hann heyrði aumkunarlega stunu, að því er virtist hinum megin girðingarinnar. Hann stóð við og hlustaði með öndina í hálsinum.

„Er nokkur þarna?“ spurði hann. Enginn svaraði honum, en hann heyrði aðra stunu og hrökk við á ný.

„Er nokkur þarna, sem þarf hjálpar við?“ spurði hann aftur, og þegar hann hlustaði eftir svari, heyrðist honum hann heyra sagt „já“ ofurlágt.

Reyndar var hann hræddur og í ömurlegu skapi, en hoppaði þó yfir skurðinn og klifraði yfir girðinguna og var þá nærri dottinn um einhvern hlut, sem var settur upp við hana. Þetta var trékassi og hjá honum lá maður endilangur á jörðunni. Eugen laut niður að honum og spurði hann: „Eruð þér sjúkur?“

„Já“, hvíslaði maðurinn, en svo lágt, að drengurinn gat að eins heyrt það: „ég er dauðvona . . . hlauptu inn í þorpið . . . eftir hjálp.“

„Já, ég kem að vörmu spori aftur með menn, sem geta hjálpað yður“, mælti Eugen.

Hann hljóp aftur á veginn og þó hann væri sárfættur hljóp hann alt hvað fætur toguðu aftur í þorpið, sem hann hafði komið úr. Á veitingahúsinu í þorpinu fann

hann nokkra menn, sem voru fúsir að fara með honum. Drengurinn vísaði þeim leið. Fundu þeir brátt sjúka manninn og lögðu hann á börur, er þeir höfðu tekið með sér.

„Kassinn! ... Kassinn!" hvíslaði sjúklingurinn.

„Hann skulum við sækja síðar", svaraði einn mannanna. „Við getum ekki borið meira í svipinn."

Eugen sneri sér þá að kassanum og varð alveg forviða, að hann gat tekið hann upp jafnstór og hann var. Brá hann þá ólinni sem í honum var um herðar sér og tók kassann á bak sér. En þegar komið var heim til veitingahússins sá hann, að hann hafði borið stóran „lírukassa".

Sjúki maðurinn var lagður í rúm, en Eugen hafði setst niður í einu horni veitingastofunnar yfirkominn af þreytu. Ekki leið á löngu áður kallað var á hann inn til sjúklingsins. Sá Eugen þá, að það var gamall maður og náfölur í andliti.

„Komdu með kassann hingað!" bað sá sjúki. „Láttu hann þarna — svona — nú fer vel um hann."

„Get ég ekki gert eitthvað fyrir yður?" spurði Eugen blíðlega.

„Jú — vertu hjá mér — vertu hjá mér", sagði sá sjúki mjög lágt en með ákafa.

Eugen settist á stól hjá rúminu og við það andaði sá sjúki þungan eins og létti yfir honum. Læknirinn í þorpinu kom skömmu síðar inn, til að aðgæta hjartslátt hans og var þá eins og svefnhöfgi hefði færst yfir hann.

„Hann deyr áður nóttin er á enda," mælti læknirinn í hálfum hljóðum. „Hér er engin hjálp möguleg". „Jæja í nótt" mælti sá sjúki og lauk upp augunum. Hann hafði heyrt það, sem læknirinn hafði sagt. og skilið, að ekki væri hægt, að bjarga sér. Hann bað Eugen um, að lesa dálítið fyrir sig, Veitingamaðurinn var góður drengur og sótti hann þegar Nýatestamentið og fékk drengnum það, og fór hann að lesa í því. Sá sjúki hlustaði á hann með aftur augun; stundum leit svo út, eins og hann væri sofnaður, en hætti drengurinn að lesa, opnaði hann augun og bað drenginn að halda áfram. Ein af vinnukonunum átti að vera þar inni og vaka yfir honum, en hún hafði sest út í horn og steinsofnaði. Eugen var bæði svangur og þreyttur, en hann gat ekki fengið af sér að fara frá þeim sjúka og sat því þar hjá honum alla nóttina, enda þótt sjúklingurinn sofnaði þegar komið var miðnætti.

Þegar birta tók af degi, vaknaði sá sjúki og bað Eugen um að kalla á veitingamanninu og fólkið hans, inn til sín. Þau komu þangað áður lítil stund var liðin og sá sjúki horfði rólega á þá, sem inni voru.

„Ég þakka ykkur fyrir það, að þið hafið hjálpað mér." Mælti hann svo hátt að allir gátu heyrt það, og skilið það, sem hann sagði, „en mest allra þakka ég drengnum, sem bjargaði mer frá því, að deyja úti á víðavangi. . . . . Ég finn að dauðinn nálgast . . . og þið skuluð því vita, að ég gef þessum dreng alt það, sem eftir mig er. Þið finnið næga peninga fyrir útförinni minni í pokanum mínum, — en kassann á drengurinn að eiga og alt annað, sem verður eftir mig, — og enginn getur haft neitt að setja út á það. — Hafið þið ekki heyrt þetta öll?"

„Jú" svaraði veitingamaðurinn „og þér skuluð fá vilja yðar uppfyltan."

„Ég þakka yður fyrir." mælti gamli maðurinn í hálfum hljóðum og hné aftur niður á koddann. Hann benti Eugen að koma nær, og sló með fingrinum á látúns-knapp

sem var í einni hliðinni á lírukassanum. Það leit svo út, sem hann vildi segja meira, en hann brast röddin, hné út af og var órendur. (Framh.)

## STUTT SAGA.

Enskur prestur nokkur segir þannig frá: „Það var einu sinni dálítill drenghnokki í sunnudagaskólanum hjá okkur, afbragðsgáfaður, sem vann verðlaun þau, er heitin voru fyrir það, að segja bezt frá æfi Páls postula að eins með 30 orðum, og var kept um verðlaun þessi af börnum um alt England og Skotland. Saga hans var þannig þýdd á íslenzku: „Páll var fæddur í Tarsus, en ólst upp í Jerúsalem; hann ofsótti kristna menn, unz hann snerist til kristni; síðar fetaði hann í fótspor Krists, og lét lífið hans vegna.“

---

## BRÉF TIL BARNANNA.

Kæru börn! Ég ítreka þá ósk mína, að fá bréf frá ykkur sem flestum og að þið látið mig vita, hvað ykkur langar til að sagt sé frá í „Æskunn“, ef hægt væri að bæta úr því. — Þegar gátur og reikningsdæmi eru í „Æskunni“ ættu sem flest börn að senda ráðningar á gátunum og svör við reikningsdæmin.

*Hjálmar Sigurðsson.*

---

Sérhvað það, sem augað eygir,
einum róm og tungu segir
sömu orð til sérhvers manns:
Stjörnur himins, snær á fjöllum,
stafir sólar, blóm á völlum.
„Skoðaðu hátign skaparans!“

---

## SNILLYRÐI.

Ég get vel skilið, að guð er uppspretta kærleikans, þegar ég finn það í þessu lífi, hversu ótæmandi hann er hjá þeim manni, sem hefir hann í hjarta sínu. Kamma Rahbek.

Það er ekki guð, sem refsar mönnunum, heldur syndir þeirra. Björnstjerne Björnson.

Orð skáldsins eru eins og mynt úr dýrmætum málmi, málmurinn heldur gildi sínu, en myntin slitnar, og bráðum verður hún ekki gjaldgeng. En drottins orð er eins og demantinn, hann slitnar aldrei og ljómar í sömu fegurð alt fram að degi drottins. Sami.

Það er hjarta mannsins, sem guð hefir jafnan fyrir dyrnar til þess að komast að sálu hans.
D. G. Monrad.

Næst guði og foreldrum þínum er föðurlandið það bezta, sem þú átt í eigu þinni.

---

## SKRÍTLUR.

Frúin: „Haldið þér þá, að þér getið haft húsið hreint og nett?“ Stúlka (ofan úr sveit): „Mikil ósköp já. Ég er vön að vera í fjósinu heima og þar er þó miklu meiri sóðaskapur en hér.“

---

Maður nokkur er að láta vega sig, og hefir farið úr skóm og öllum utanyfirfötum til þess að verða léttari, en heldur á öllum fötunum í hendinni uppi á vogarskálinni: „Nei, þetta er skrítið. Ég er öldungis jafnþungur og þegar ég var í öllum fötunum.“

---

**Nýir kaupendur** geta nú (meðan upplagið endist) fengið **þrjá fyrstu árgangana** fyrir 1 kr. 50 au. (ekki hálfvirði), en þeir sem vilja sæta þessu boði ættu að gera það í tíma, því hinir eldri árgangar eru á förum. Útg.

---


# „ÆSKAN“

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.**

**ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.**

**Aldarprentsmiðja. — Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.**

# JÓLABLAÐ ÆSKUNNAR

**Nálgast Jól,
náðarsól
himnabrá
hýrgar þá.
Friðarins konungur, fagur og hár,
fæddist og þerraði mannanna tár,
huggaði þjakaða þjóð. B. G.**

IV. Árg. | Á Jólunum 1900. | 5. tbl.



Guð, sendu börnunum gleðileg Jól,
Guð, auk þeim vizku með hækkandi sól,
Guð, sýndu smælingjum gæzku og mátt,
Guð, láttu smábörnin lofa þig hátt!

LOKSINS voru Jólin komin, Jólin. sem börnin höfðu hlakkað svo undur mikið til. Þau höfðu talið dagana til Jólanna, og ávalt urðu þeir færri og færri. Loksins rann sólin á aðfangadaginn. Nóttin helga færðist yfir himininn og litlu börnin hlupu út þegar fór að skyggja, til þess að gæta að því, hvort þau sæu ekki stjörnuna fögru, Kristsstjörnuna, Betlehemsstjörnuna, sem vitringarnir úr Austurlöndum höfðu gengið eftir, þangað til þeir fundu barnið Jesú í Betlehem.

„Þarna er blessuð Jólastjarnan“, sagði Anna litla, og benti á fagra stjörnu hátt í vestrinu. „Þú mátt ekki benda á stjörnurnar“, mælti Helga systir hennar, „því þá hrynja þær niður af himnum, enda er þetta ekki Jólastjarnan heldur Blástjarnan, en Jólastjarnan skín nú ekki lengur hér á himninum, heldur skín hún nú fyrir framan hásæti guðs, og þar á hún að ljóma til eilífðar.“

Nóttin færðist yfir meira og meira. Og þar varð dimmara og dimmara. Og eftir því sýndust stjörnurnar fjölga á himninum. Og Anna litla spurði systur sína: „Er það ekki guð, sem nú er að kveikja Jólaljósin á himninum?“

Stjörnurnar urðu æ fleiri og fleiri, fegri og fegri, og loks sýndust þær svo margar, að ómögulegt væri að telja þær.

En börnin störðu á himinsins dýrð, og þau horfðu æ dýpra og dýpra inn í fegurð næturinnar, þar sem vér sjáum skuggann af drottins dýrð, og þau horfðu með þvílíku athygli, að þau gleymdu öllu öðru, svo þeim virtist. sem þau sæju engla guðs, sem hefðu tendrað alla festing himins með ósegjanlegri tindrandi geisladýrð. Og þrátt fyrir bernsku þeirra og fáfræði, þektu þau guð á þessari stundu miklu betur en nokkur spekingur getur nokkru sinni skynjað veru hans.

Alt í einu röknuðu börnin við sér, því eitt þeirra spurði: „Er ekki vetrarbrautin stíginn, sem englarnir fóru ofan, þegar þeir stigu niður á jörðina til að boða fæðingu frelsarans?

„Nei, sko stjörnuhrapið að tarna! En hvað það er fallegt!“ kallaði eitt barnanna upp yfir sig. Þetta hlýtur að vera einhver engillinn, sem stígur ofan á jörðina til að boða fæðingu frelsarans og frið guðs á meðal mannanna.

Börnin gengu nú inn, því móðir þeirra hafði alla jólagleðina á reiðum höndum. Það var enginn auður á heimilinu því, svo ekki var hægt að hafa stórt og skrautlegt jólatré. En allir voru þó engu að síður glaðir, en þótt þar hefði verið að finna alls nægtir. Sérhver af litlu telpunum fékk dálítið kerti. Og þær kveiktu á þeim öllum í einu, hituðu neðri endann og festu svo öll kertin á dálítinn kistil sem þær settu fyrir framan sig.

Og þær horfðu allar á ljósin, — horfðu fast og rótt og ánægjulega,



„Elsku mamma, mig langar til að vera gott barn,
svo Jesús yfirgefi mig ekki.“

eins og þú sér þær á myndinni. Þeim fanst barnið Jesú vera komið inn til sín, þegar þær voru búnar að kveikja á öllum kertunum.

Og þær horfðu og störðu sakleysisins ástaraugum á litlu ljósin sín, sem þeim fanst margfalt bjartari og fegri en sólin sjálf.

Alt í einu kallaði yngsta telpan upp: „Jesús er kominn inn til okkar. Ég sé hann í ljósinu mínu, þar sem hann lítur brosandi framan í mig!“

Móðir þeirra kom að í þessum svifunum og sagði til þeirra: „Já, hann er kominn og hann vill vera hjá okkur, ef við viljum leyfa honum það. — Meðan þið eruð góðar og ástúðlegar hver við aðra, þá verður hann hjá ykkur og yfirgefur ykkur ekki. En ef þið gleymið því, að elska hver aðra, og gleymið að tala satt, — þá mun hann yfirgefa ykkur.“

Og telpurnar hlupu upp um háls móður sinnar hver eftir aðra og sögðu: „Elsku mamma! Mig langar til að vera gott barn, svo Jesús yfirgefi mig ekki.“

## Norðurljósin.

Nú er fátt af fögrum rósum,
fjöll og dali hylur snær,
en í nætur norðurljósum
nú mitt auga svölun fær.

Kvikar, blikar leifturlogi
líkt og eldi þrungin ský.
Nú er allur uppheims bogi
eins og sólhjúp skrýddur í.

Hvert er þetta hulda veldi?
Hvílík fegurð, drottinn minn!
Hver ert þú, sem undra-eldi
allan sveipar himininn?

Augun sjá, en ekkert kanna
utan það: sú hönd er sterk,
sem að birtir sjónum manna
svona dýrðlegt furðuverk.

## Jólatrésvísur barnanna.

Lag: Sig bældi refur und bjarkarót.

Nei, hvaða birta! o, sei, sei, sei!
:,: Sjáið ljósin :,:
Eitt, tvö, þrjú, fjögur, sjö, nei, nei, nei!
:,: Nítján ljósin :,:
Og þarna' er eitt svo ósköp hátt.
Og eitt er rautt, en hitt það er blátt.
:,: Blessuð ljósin :,:
Nei, nei, nei, nei, nei!

Við megum leika, og lifa glatt
:,: kring um ljósin :,:
„En verið hlýðin og segið satt“
:,: Segja ljósin :,:
„Því góðu börnin fá gull og skart,
sem gaman hafa að læra margt.“
:,: Blessuð ljósin :,:
Já, já, já, já, já.

Ritstjóri: HJÁLMAR SIGURÐSSON.

Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.)

Aldar-prentsmiðja.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. DES. 1900. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 6. TBL.

## Kafarinn.

Sé glasi hvolft svo botninn snúi upp, og því svo stungið ofan í vatn, kemst vatnið ekki upp í botninn á glasinu, heldur verður ætíð eftir autt rúm upp undir botni þess. Þetta kemur til af því, að loftið, sem var inni í glasinu, hefir að sönnu þjappast saman þegar vatnið þrýsti að því að neðanverðu, en ávalt verður þó eftir dálítið rúm fult af samanþjöppuðu ósýnilegu lofti innan í glasinu.

Þegar menn kafa niður á sjávarbotn eru stundum notaðir hinir svo nefndu köfunarhjálmar. Það eru afarstórar málmklukkur, mörg fet að hæð og ummáli, og er þeim hvolft ofan á sjóinn, og sökt niður á sjávarbotn. Kafarinn fer innan í hjálminn, og hefir hann nægilegt andrúmsloft í honum nokkra stund. Þegar hann hefir lokið verki sínu á sjávarbotni, er hann dreginn upp aftur. Kafarar nota þó sjaldan köfunarhjálminn, en í stað þess eru þeir í vatnsheldum og loftheldum fötum, og er fest við fötin loftþétt hylki utan um höfuðið, en út úr hylki þessu ganga tvær pípur upp úr sjónum, sem kafarinn dregur andann um. Upp um pípur þessar getur hann líka talað við mennina í bátnum, sem hafa sökt honum, og sagt þeim hvenær eigi að draga hann aftur upp úr sjónum. Föt kafarans eru spent loftþétt að úlfliðunum, en hendur hans eru berar, svo hann eigi hægt með að gera hvað sem hann þarf með. Á höfuðhylkinu eru sterkar glerrúður fyrir augunum, svo hann geti notið birtu þeirrar, sem er á sjávarbotni. Í djúpu höfunum er að sönnu rökkur eða jafnvel niðamyrkur niður við botninn, enda um hábjartan dag, en kafarinn kafar naumast á meira dýpi en 20—30 föðmum, því vatnsþrýstingarfargið ofan á kafaranum og utan að honum eykst æ meir, eftir því sem dýpið eykst og að lokum mundi það kremja hann í sundur.

Fiskar, sem lifa á miklu dýpi, þola þrýstinguna, því sköpulag þeirra er lagað eftir því, en séu þeir snögglega dregnir upp úr sjónum, léttir svo miklu fargi af þeim, að maginn gengur upp úr þeim.

Búningur kafararanna er afar þungur, einkum málmhylkið utan um höfuðið, og við fætur þeirra eru fest blýlóð til þess að halda þeim þannig, að fæturnir viti jafnan niður.

Kafarar geta stundum gert mikið gagn. Þeir geta fundið leka á skipum niður við kjölinn, sem ekki er hægt að verða var við á annan hátt, nema skipið sé dregið á þurt land. — Hafi skip sokkið á grunnum sjó með dýrmætum vörum innanborðs, geta þeir bjargað því úr því, sem fémætast er, og hafi skipið sokkið á höfn eða í fjölfarinni skipaleið, geta þeir stundum fest um það bönd, svo hægt er að hefja það upp úr sjó á ný. Stundum leggja þeir sprengivélar undir skipsskrokkana, sé ekki hægt að koma þeim burt á annan hátt, en úr sprengivélinni gengur svo málmþráður vaf-

inn guttaperka. Er hinn endi hans ofansjávar. Sé sterku rafmagni hleypt í þráðinn, kveikir það í sprengivélinni svo skipsskrokkurinn flýgur í loft upp.

Í sundinu milli eyjarinnar Ceylon og Indlands er veitt ákaflega mikið af perluskeljum á ári hverju, og er það eingöngu gert af köfurum. En þeir hafa hvorki loftþétt föt né köfunarhjálm, heldur eru þeir svo lengi niður í sjónum í einu, sem þeir geta haldið niðri í sér andanum, en það er í hæsta lagi nálægt mínútu. Er þeim hleypt niður á streng allsberum með körfu í annari hendinni, og jafnskjótt og þeir koma til botns, róta þeir svo mörgum skeljum í körfuna og þeir ná í, kippa svo í strenginn, og eru þá dregnir upp aftur. En þetta er æði hættuleg vinna. Þeir geta druknað, séu þeir ekki dregnir nægilega snögt upp, og auk þess er þar fult af hákörlum og öðrum illfiskum, sem ráðast á þá, ef þeir verða varir þeirra, en þeir hafa ekkert til að verja sig með gegn þeim.

# Litli Savoyarinn.

(Niðurl.) Eugen dvaldi á veitingahúsinu unz búið var að grafa gamla manninn. Síðan kvaddi hann veitingamanninn, tók lírukassann á bak sér og lagði af stað. Þegar hann hafði gengið nálægt eina mílu, kom hann að fögrum bændabæ hjá veginum, tók þar af sér lírukassann og fór að snúa honum í fyrsta sinni. Úr lírukassanum hljómaði gamalt raunalegt lag, en öll börnin á heimilinu og þar í grend þyrptust saman til að hlusta á hljóðfærasláttinn. Eina telpuna á bænum langaði mjög til að eignast apann og bað föður sinn lengi um að kaupa hann handa sér, og linti ekki látum fyr en hann fór út til drengsins og spurði hann, fyrir hvað hann vildi selja apann.

„Ég get ekki selt Joko“, mælti Eugen. „Við höfum fylgst að alla leið frá Savoyen og hingað, og hann hefir liðið með mér bæði súrt og sætt. Þér megið ekki reiðast mér en ég get engan veginn skilið mig við hann.“

„Nei, mér mundi aldrei detta í hug að reiðast því“, svaraði bóndinn. „Ég get vel skilið, að þú vilt ekki farga apanum.“

Bóndinn gaf Eugen töluverða gjöf, og drengurinn lagði nú af stað aftur með kassann á bakinu og Joko ofan á kassanum. Svo leit út eins og Joko væri mjög ánægður með nýja sætið sitt og skoðaði kassann mjög nákvæmlega. Alt í einu hrikti í kassanum og apinn rak upp öskur, svo Eugen lagði lírukassann af sér í skyndi til þess að sjá, hvort hann hefði brotnað. Sá hann þá, að nokkur partur í einni hliðinni hafði opnast, einmitt þar sem látúnsknappurinn var í, sem gamli maðurinn hafði verið að hreifa við, en þar undir var dálítið leynihol, sem var fult af gömlum bréfsneplum. Apinn hlaut að hafa opnað leynihólfið. Eugen tók einn pappírsböggulinn úr hólfinu, en það má nærri geta, hvað honum varð við, er hann sá, að þetta voru alt peningaseðlar. Eugen þekti gildi peninga, taldi seðlana, og sá, að hann átti yfir fjórar þúsundir franka, eða nálægt þrjú þúsundir króna.

„Heim, heim!“ kallaði hann upp yfir sig af fögnuði. „Nú get ég farið aftur heim til mömmu og pabba; nú erum við öll rík. Guði sé lof, að ég seldi ekki hann Joko, annars hefði ég aldrei fundið þessa peninga.

Að svo mæltu tók hann kassann á bak sér aftur, og snéri beint suður eftir heimleiðis. — Það var á fögrum haustdegi, að hann kom yfir fjöllin og sá niður í dalinn sinn, og þegar hann sá hreysi foreldra sinna ofan úr fjallinu rak hann upp svo hátt fagnaðaróp, að það kvað við í öllu fjallinu.

Það má nærri geta, hvað foreldr-ar hans og systkyni hafa orðið glöð þegar hann kom heim. Þeim fanst þau vera orðin auðmenn, og öll neyð væri rekin á dyr. Faðirinn gat nú fengið betri hjúkrun en áður, og fór honum þá svo fram, að hann fór að geta hreyft sig sem aðrir menn. Glaðlyndi hans kom aftur með heilsunni og þegar Simmon gamli kom þangað til að heimsækja þau, var alt fólkið að dansa eftir lírukassa lagi. Og það sagði Simmon gamli, að Pierre hefði verið ólmastur í dansinum.



# SVERTINGJARNIR.

Þið hafið heyrt getið um svertingjana, sem nefndir eru blámenn öðru nafni og þarna sjáið þið svertingjabörn á myndinni. Svertingjar eru ekki fríðir sýnum eða að minsta kosti ekki í okkar augum. Eins og nafn þeirra bendir á, eru þeir svartir á hörundslit, og ekkert hvítt á þeim nema skinnhimnan í augunum og tennurnar. Þeir eru ákaflega frammyntir og varaþykkir og kemur það af því, að tanngarðurinn

stendur skáhalt út á við í báðum gómum, en hjá okkur standa tennurnar beint upp og ofan. Hárið er ekki jafnt um alt höfuðið, heldur er það vaxið í smátoppum með auðum skellum á milli. Séu hárin skoðuð í stækkunargleri, eru þau ferstrend, en snúið upp á þau og eru svertingjar því hrokkinhærðir. Hinir reglulegu svertingjar búa einkum um Mið-Afríku og Suður-Afríku, en ýmsar aðrar meira eða minna svartar þjóðir búa á Indlandi, Indlandseyjum og í Ástralíu, sem þó eru töluvert ólíkar Afríkusvertingjunum að höfuðlagi og fleiru. Nú eru margir svertingjar í Vestur-Indium, Mið-Ameríku og Bandaríkjunum. Kemur það til af því, að þegar Norðurálfumenn höfðu lagt Ameríku undir sig, gátu þeir ekki þolað að vinna þar fyrir hita sakir. Tóku þeir því það ráð, að kaupa svarta þræla frá Afríku og láta þá vinna fyrir sig við akuryrkjuna. Kaupmenn á Afríkuströndum fóru með hóp vopnaðra manna þar upp um allar sveitir, brendu bæi, drápu fénað og alla þá menn, er vörðu sig, en handtóku alla þá, er þeir gátu hönd á fest, settu þá í járn, ráku þá særða og nakta niður að sjó og seldu þá þar öðrum, er fluttu þá yfir til Ameríku. Vistin á skipunum var mjög ill, og dóu svertingjar hópum saman á leiðinni. Þegar til Ameríku kom, voru bandingjarnir seldir á ný þeim, sem þurftu þeirra með til vinnu. — Fóru sumir húsbændur þeirra miklu ver með svertingjana en hunda, og börðu þá og kvöldu á allar lundir.

Bráðum sau menn, að þessi meðferð á þrælunum mátti ekki eiga sér stað, og gengu Englendingar bezt fram í að afnema þrælasölu og þrælahald. Út af því hófst áköf styrjöld í Bandaríkjunum 1861—65, og fórust í henni nálega 1 miljón manna.

Nú eru svertingjar frjálsir að kalla í Ameríku, en hvítu mennirnir fótum troða þá þó alt af eftir megni, enda vilja þeir fátt læra nema skrautlegan klæðaburð.

---

## Skrítlur.

Fyrsti hermaður: „Æ, æ, hjálp! hjálp! Ég er særður í handlegginn.“

Annar hermaður: „Æftu ekki svona maður. Það hefir verið skotið höfuðið af nr. 27, og hann segir ekki eitt einasta orð.“

(Óbreyttir hermenn eru ekki nefndir með nafni meðan þeir eru í hernum, heldur að eins með númeri sínu).

---

Litla dóttirin: „Pabbi! Hvers vegna verða menn ekki eins gamlir nú og á Abrahams dögum?“ Faðirinn: „Það er af því, að það er miklu dýrara að lifa núna.“

---

Kennarinn: „Geturðu sagt mér, drengur minn, hvaðan við fáum ullina?“ Drengurinn: „Af kindunum.“ Kennarinn: „Og hvað er búið til úr ullinni?“ Drengurinn gat ekki svarað því. Kennarinn: „Þetta hlýtur þú þó að vita. — Úr hverju eru buxurnar þínar búnar til?“ Drengurinn: „Þær eru búnar til úr gömlu buxunum hans pabba.“

---

**Nýir kaupendur** geta nú (meðan upplagið endist) fengið **þrjá fyrstu árgangana** fyrir 1 kr. 50 au. (ekki hálfvirði), en þeir sem vilja sæta þessu boði ættu að gera það í tíma, því hinir eldri árgangar eru á förum. Útg.

# „ÆSKAN“

**kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.**

**ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun og kvittar fyrir o. s. frv.**

**Aldar-prentsmiðja. —Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.**

# ÆSKAN.

| IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 23. JAN. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 7. TBL. |
|---|---|---|---|---|

## Ný öld, nýtt ár!

Gleðilegt ár og gleðilega öld! kæru börn! Ég vildi, að ég gæti á þessu augnablikinu bent ykkur betur en nokkru sinni áður á fegurð þá, sem er í kringum ykkur í öllum hlutum, smáum og stórum, bent ykkur á hönd föðursins á himnum, sem ræður lífi allra skepna um víða veröld.

Fyrir aftan oss er umliðinn tími, liðin ár, liðin heil öld, sem aldrei kemur aftur, en fram undan okkur er nýr tími, ný öld, og á henni megum vér vera viss um, að guð faðir okkar muni enn sem fyr veita oss vernd og blessun í smáu og stóru. — Sól, tungl og stjörnur eru hinar sömu og áður, en þó er alt orðið eins og nýtt og á að verða nýtt með nýju öldinni. Allir, sem gleymdu að læra gott og gagnlegt til munns og handa á gömlu öldinni verða nú að vakna og herða sig. Litlu börnin eiga með tímanum að verða fullorðnir menn, siðprúðir og góðir menn, duglegir menn, góðviljaðir og hjartanlegir í umgengni hver við aðra, glaðværir í lund, hugaðir og vongóðir. — Um margar þúsundir ára hefir guð fætt fugla loftsins og klætt blómin á jörðinni og alið önn fyrir öllum börnum sínum. Hann gleymir heldur ekki okkur á nýju öldinni. Stundum getur verið, að okkur þyki kalt og dimt, en hlýju og björtu stundirnar verða því fleiri, — það getur vel verið, að sum ykkar eigi mjög fátæka foreldra en þið verðið þó rík, ef þið lærið, að verða dugleg og góð börn.

„Æskan“ óskar ykkur nú öllum gleðilegs árs, Hún vill benda ykkur á þá dýrð, sem er allstaðar í kring um ykkur bæði vetur og sumar, fallega landið, sem við búum á, sem er ef til vill eitthvert fallegasta landið í heiminum, þó við séum fátækari en margar aðrar þjóðir.

„Æskan“ vildi geta gefið ykkur öllum nýársgjöf, en hún hefir ekki annað að bjóða ykkur, en biðja ykkur að elska guð, föður allra manna, föður hinna ungu og hinna gömlu um allan heim, að elska foreldra ykkar og alla menn, og sýna öllum velvilja og vináttu og að elska landið okkar, inndælu fjöllin okkar, árnar og dalina, himininn og hafið sem er skínandi bjart, stjörnudýrðina og norðurljósin, sem óvíða eru fegri nokkurstaðar á jörðinni. —

Ef þið elskið þetta þrent getið þið öll orðið gæfumenn, og það eins þó fötin ykkar séu núna bætt og borin. — Afar mörg góð og dugleg fátæklingabörn, verða sjálfsagt einna mestu hamingjumennirnir á nýju öldinni.

## Trúr yfir litlu.

Í búðarglugganum hjá honum Petersen kaupmanni hékk lengi auglýsingaspjald með þessari áritun: *„Snúningapiltur getur fengið hér atvinnu.“* Stundum var auglýsingin

tekin ofan; en að hálfum eða heilum degi liðnum var hún sett upp aftur, og menn voru farnir að stinga saman nefjum og segja hver við annan: „Það er spaugilegur náungi, þessi Petersen. Skyldi hann nokkurn tíma fá snúningspilt, svo honum líki?“ En það var nú af sérstökum ástæðum þetta, að auglýsingin var stundum tekin ofan og að vörmu spori fest upp aftur.

Friðrik litli, sonur vagnasmiðsins, gaf sig fyrst fram. Hann tók strax til starfa, og alt gekk nú ágætlega, þangað til kl. 3 um daginn. Þá var hann sendur upp á loft, þar sem mýsnar og köngulærnar höfðu híbýli sín:

„Uppi á loftinu stendur kista, sagði Petersen, „og átt þú nú að laga til í henni. Hún stendur á miðju gólfi. Flýttu þér nú að þessu, svo að þú verðir því fyr búinn með það.“

„Jú, jú,“ hugsaði Friðrik með sér, þegar hann kom upp á loftið, „þarna stendur kistan. En hvað er nú í henni? Ekkert annað en bognir naglar og ryðgaðar skrúfur, brotnar skrár og þar fram eftir götunum, í stuttu máli eintómt rusl, sem ekki er einu sinni svo mikils virði, að það geti borgað sig að fara að eiga neitt við það. Og svo bætist nú þar ofan á, að hér er ekki vært fyrir músagangi, og það þykir mér nú ekki neitt sérlegt sælgæti. Hvað ætli hann sé annars að hugsa, hann Petersen? Nei, hér verð ég ekki lengur.“

Stundarkorni síðar sá kaupmaðurinn Friðrik út um búðargluggann.

„Nú, nú, Friðrik litli, ertu nú búinn að laga til í kistunni?“ spurði hann.

„Ég fann ekkert, sem neitt gagn var í,“ svaraði Friðrik, „ekkert nema ónýtt rusl, gamla nagla og þess háttar.“

„Einmitt það,“ mælti húsbóndi hans alvarlega; „það voru einmitt þessir gömlu naglar og alt þetta gamla dót, sem ég ætlaði að láta laga til og koma því fyrir hverju út af fyrir sig. Hefirðu ekki reynt það?“

„Nei, það var svo dimt uppi á loftinu.“

„Jæja“, svaraði Petersen, „það er gott. Nú ætla ég að biðja þig að hlaupa út í bæ fyrir mig.“

Friðrik var snúningaliðugur og vildi því gjarnan gera þetta og vera fljótur að því. Kl. 6 var kallað á hann að skrifstofuglugganum og þar voru honum útborguð daglaunin; en jafnframt var honum líka sagt, að hann þyrfti ekki að koma aftur. Friðrik varð hálf-ólundarlegur á svipinn, gaut hornauga upp til þakgluggans og labbaði svo burt.

Snemma morguns, daginn eftir, kom auglýsingin aftur á gluggann. Karl, sonur bakarans, gaf sig þá fram, og þegar Petersen sá, að hann var í hreinum og þokkalegum fötum, tók hann hann. Hann hafði nóg að gera allan daginn, þangað til hálfri klukkustund áður en loka átti búðinni. Þá var hann sendur upp á loftin, iil að laga til í gömlu kistunni. Hann var ekkert smeykur við mýsnar; en þegar hann sá alt ruslið í kistunni, fór hann að hugsa sig um. Þó tók hann að leita í því og fann á endanum dálítið af gömlu járni, nokkura beina nagla og fáeina lykla, sem hann hélt að mundi mega nota.

„Þetta er nú alt og sumt, sem gagn er að,“ sagði hann, þegar hann kom ofan aftur. „Hitt var alt ryðgað og brotið.“

„Jæja“, sagði Petersen, og svo sendi hann hann á póststofuna og sagði honum að koma ekki aftur morguninn eftir. En kvöldið eftir fékk hann kaup sitt, og auglýsingin um snúningspiltinn kom í gluggann aftur.

Nú kom Vilhjálmur, sonur járnsmiðsins.

Þegar hann hafði verið þar í tvo daga, var hann sendur upp á loftið, því að þá var ekki neitt sérstakt til, handa honum að gera. Það var snemma dags; en svo leið fram yfir hádegi og alt fram að matmálstíma, að ekki kom Vilhjálmur ofan aftur. Loks kallaði húsbóndi hans til hans: „Ertu bráðum búinn?“

„Nei, nei, ekki nærri.“

„Það er gott,“ mælti kaupmaðurinn, „komdu nú að borða. Svo geturðu farið upp á eftir.“

Og ekki þurfti að minnn hann á það. Hann var þar uppi alt til kvölds, en þegar Petersen ætlaði að fara að kalla á hann, kom hann ofan stigann.

„Þetta fann ég niðri á kistubotninum,“ sagði hann, og fékk kaupmanni fimm krónaseðil.

„Hvernig getur staðið á því,“ anzaði Petersen þurlega. „Þú komur aftur í fyrramálið.“

Vilhjálmur bauð „góða nótt“ og fór.

Petersen kveikti nú ljós og fór með það upp á loftið. Þar stóð ruslakistan gamla, sem alls konar gömlu skrani hafði verið safnað í um marga tugi ára. Vilhjálmur hafði gengið sómsamlega frá starfi sinu. Hann hafði skift kistunni í hólf og skilið á milli þeirra með spýtum og pappa; síðan hefði hann aðskilið alt



Hin opna gröf.

skranið, og látið hvað fyrir sig í sitt hólf, og ofan á hvert hólf hafði hann lagt pappírsmiða og skrifað á þá: „Góðar skrúfur“, „sterkir naglar“, „lyklar“, „ýmislegt“.

„Ágætt“, sagði kaupmaðurinn, og þó vissi hann sjálfur fullvel, að það var hvergi nærri ómaksins vert, að fást neitt við þetta rusl.

En með sjálfum sér hugsaði hann: „Ef mér ekki skjöplast, hefi ég nú í dag fundið piltinn, sem ég hefi svo lengi leitað að.“

Það varð líka orð og að sönnu. Auglýsingin í glugganum sést ekki upp frá þessu. Herbergið hans Vilhjálms er uppi á loftinu, þar sem ruslakistan var áður. En nú er þar bjart og þokkalegt, eins og nærri má geta, því að hann má haga þar öllu eins og hann vill. Yfir rúminu hans eru þessi orð í ramma: „Sá sem er trúr yfir litlu, mun einnig verða trúr yfir því stærra.“ Þetta er afmælisgjöf frá húsbónda hans.

Vilhjálmur er nú sem stendur erlendis að nema verzlunarfræði, og Petersen bíður heimkomu hans með óþolinmæði. Hann er tekinn að eldast og hugsar því til að fara að fá einhverjum yngri verzlunina í hendur, og eitthvað mun hann ætla sér með Vilhjálm.

## Hin opna gröf.

**Með mynd.**

Í bænum Hannover á Þýzkalandi er gröf ein í einum kirkjugarði borgarinnar, sem fjöldi ferðamanna skoðar á ári hverju. Myndir af henni eru til sölu í flestum bókasölubúðum og pappírssölubúðum. Víðsvegar þekkist gröf þessi og er hún alment nefnd „hin opna gróf.“ Sagan af gröf þessari er hérum bil á þessa leið:

Fyrir rúmri öld var kona nokkur gra[illegible] í gröf þessari, og voru höggvin á legsteini[illegible] þessi orð: „Þessi gröf á að geimast óhrei[illegible] til eilífðar og má aldrei opna hana.“

Myndin sýnir, að stórum björgum hef[illegible] verið hlaðið ofan á leiðið, og er efsti stein[illegible] inn yfir 2000 pund að þyngd, og þar a[illegible] auki eru steinar þessir tengdir saman me[illegible] sterkum járngjörðum. En mennirnir ráð[illegible] ekkert við kraft lífsins. Annaðhvort hefi[illegible] fræ fallið í gröfina áður henni var lokað eða eitthvert tré þar í nánd skotið frjóöng um, og brotist inn í gröfina og svo leitað ljóssins og loftsins og brotist upp úr henn[illegible] aftur.

Hægt og hægt mjakaði tréð steinunum til hliðar og sleit járngjarðirnar. Allir þessir stóru steinar hafa smásaman raskast þó engin mannshönd hafi átt við þá, og blómlegt birkitré vex nú upp úr gröf þessari, sem átti að vera lokuð til eilífðar. Tréð hefir flast út, þar sem það kémur út undan stærsta steininum, sem er ofan á leiðinu, og hylur tréð þar næstum alla hliðina á leiðinu en ofar verður tréð sívalt eins og vanaleg tré, og er stofn þess nálægt fimtán þumlungar að þykt.

Í sama kirkjugarðinum er önnur gröf, sem hefir verið opnuð af dálitlu akasíu-tré, en þar er ekkert ritað á legsteinana og engar járngjarðir kring um þá, og þess vegna er gröf þessari ekki veitt jafn-mikil eftirtekt.

En úr því guð getur látið lítil frækorn opna grafir hinna dauðu, hlýtur þá ekki rödd hans að geta opnað grafir allra framliðinna á efsta degi.


„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í April mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti á móti borgun, kvitterar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 7. FEBR. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 8. TBL.



**Jesús blessar ungbörnin.**

# Sjómaðuirnn og aparnir.

SJÓMAÐUR nokkur steig á land á einum stað á Suður-Ameríku ströndum, og var hann með fjölda af rauðum ullarhúfum, er hann ætlaði ıér að selja þar. Tók hann sér því ferð á hendur til borgar nokkurrar, sem var töluvert frá sjó og þurfti hann að fara í gegn um þéttan skóg, en þar var allstaðar krökt af öpum, sem voru að klifra meðal trjánna.

Það var komið hádegi og sólin skein beint ofan á höfuð sjómannsins, enda var svo mikill ofsahiti, að hann varð að komast í skugga, svo hann gæti þolað við. Lagði hann sig fyrir í skugganum af stóru tré. Tók hann eina húfuna úr böggli sinum, setti hana á höfuð sér, og féll að svo búnu brátt í fasta svefn.

Þegar hann vaknaði aftur, varð honum ekki lítið bylt við, er hann sá, að hufurnar voru allar horfnar. En ekki leið á löngu áður hann tók eftir því, að það var einhver ákafur kliður eða mas uppi í trjákrónuum, og fór hann að gæta að því, hvernig á því stæði. Leit hann því upp yfir sig og sá þá, að trén voru öll kvik af öpum, og að hver einasti api var með rauða ullarhúfu á höfðinu.

Aparnir eru fágætar hermikrákur, og höfðu þeir tekið eftir öllu er sjómaðurinn hafðist að, og meðan hann svaf höfðu þeir stolið öllum húfunum hans, og skreytt sjálfa sig með ránsmunum þessum. Sjómaðurinn kallaði og æpti afarreiður, en aparnir gerðu ekkert annað en glottu hæðnisislega, en gáfu ópi hans engan gaum.

Þegar sjómaðurinn sá, að allar tilraunir hans voru árangurslausar, og var orðinn úrkulavonar um, að ná húfunum aftur, tók hann ofan húfuna, sem hann var með á höfðinu, kastaði henni frá sér og æpti upp yfir sig: „Takið þið við þessari líka, þjófarnir ykkar, ef þið ætlið að halda öllum hinum stendur mér a sama, hvað um þessa einu verður.“

En honum brá ekki lítið í brún er hann sá, að jafnskjótt og hann var búinn að þessu gerðu allir aparnir hið sama. Sérhver þeirra þreif húfuna af höfði sér og kastaði henni til jarðar. Sjómaðurinn náði þannig öllum húfunum aftur, og hélt að svo búnu sigri hrósandi áfram ferð sinni.

# Sally og söngkonan.

Ensk saga.

SALLY litla var skritinn telpukrakki. Það sögðu allir nágrannar hennar að minsta kosti, og þeir hlutu að vita það, því þeir höfðu séð hana frá því hún var örlítið ungbarn í reifum, bláeyg, fölleit, tannlaus og með að eins fá hár á höfðinu.

Hun var ekki minstu ögn lík öðrum börnum, sögðu þeir. Hún Beta litla Jónsdóttir var öðruvísi, sem var búin að læra fjölda af vísum þegar hún var þriggja ára gömul, og kunni að klæða sig þegar hún var fimm ára að aldri. Eða hún Mattea Hopp! Það er nú barn, sem vert er að tala um, „sem hefir ekkert lýti frá hvirfli til ilja“, sögðu gömlu konurnar, „og það er ekkert, sem það barn getur ekki gert, það er munur eða með hana Sally. Það er ó-sköp að vita til þess. Hún getur ekki gert nokkurn skapaðan hlut. Það er náttúrlega af því, að hún móðir hennar hefir ekki verið nægilega hörð við hana. Því þá hlyti hún að vera töluvert öðruvísi.

En það var hægara að segja það enn sanna, að móðir hennar Sally væri ekki nægilega hörð við hana, og þeir, sem sögðu slíkt, vissu ærið litið um uppeldið á henni. Hefði það verið hægt, að gera Sally eins og hún átti að vera með hörku og ávítunum einum, þá er víst, að hún hefði verið skynsamasta, siðaðasta og staðfastasta telpan undir sólunni — og þá er þó ekki til sérlega lítils mælst.

Svo leit út, sem harðar ávítanir hefðu engin áhrif á hana, og jafnvel ekki þó hún væri lúbarin. Það var langt frá, að hún væri óþekkur krakki. Það mátti varla heita, að hún hljóðaði, jafnvel þegar hún var örlítill angi, og það var auðséð á því, hve ólík hún var öllum öðrum börnum. En hún var fádæma gleymin. Það var alt og sumt; en gleymnin er stundum engu betri en hrein og bein óþekt. Og ég held, að hún sé í raun og vera töluvert lakari vegna þess, að það er miklu örðugra að ráða bót á henni. Sally var vön að gleyma öllum sköpuðum hlutum; stundum gleymdi hún jafnvel hvar hún var og hvað hún var að gera. Nágrannar hennar gláptu á hana þar sem hún gekk svo undur bjánaleg á götunni, glápandi upp í loftið, eins og hún væri að leita þar að einhverju, sem ekki væri þar að finna. [Framh.]

# Furan.

**(Æfintýri eftir H. C. Andersen.)**

Langt inni í skóginum, var sólskinið hlýtt og loftð heilnæmt og var mjög gott að hvíla sig þar dálitla stund. Á þessum yndislega stað óx dálítil falleg fura. En hún var þó ekki ánægð, því hana langaði svo undur mikið til þess, að vera orðin jafnstór og nágrannar hennar — grenið og furunar, sem uxu kringum hana. Sólin skein, og hægur vindblærinn vaggaði blöðum hennar, og bændabörnin litlu gengu þar framhjá og voru að hlæja og masa hvert við annað, en furan skeytti því ekki neitt. Stundum komu börnin með stórar körfur, og voru í þeim hindber og jarðarber, dregin upp á strá, og ætluðu börnin að hafa þetta sér að hálsmeni. Settust þau skamt frá furunni og sögðu: „Er það ekki fallegt, litla tréð þarna?“ En þá varð furan enn þá óánægðari en áður. En þó varð hún einum hring eða lið hærri á ári hverju; en af fjölda árshringanna eða liðanna í stofni furunnar getum vér sagt um, hve gömul hún er. En jafnframt og furan óx var hún þó ávalt að kveina og kvarta. „Æ, en hvað ég vildi, að ég væri orðin jafnhá og hin trén, því þá skyldi ég breiða greinar mínar í allar áttir, og krónan mín hefði útsýni um allan heim. Þá fengi ég fugla, sem bygðu sér hreiður á greinum mínum, og þegar vinduriun færðist í aukana, skyldi ég beygja mig tígulega, eins og stóru trén í kring um mig.“ Tréð var svo sár óánægt, að það hafði enga skemtun af sólskínsylnum, fuglunum eða rósbryddu skýjunum, sem sveimuðu framhjá því í loftinu kvöld og morgna. Á veturna lá snjórinn hvítur og gljáandi og glitrandi yfir jörðinni, og fór hérinn þá stundum þar framhjá í hendingskasti, og hoppaði yfir litlu furuna, og þá fanst henni að verið væri að kreista úr sér lífið.

Tveir vetur voru nú liðnir og byrjaður sá þriðji, og furan var nú orðin svo há, að hérinn mátti til að beygja utan við hana. En hún var jafn óánægð og áður, og var sífelt að stagast á þessu: „Æ, ég

vildi að ég héldi áfram að verða gömul og stór! því það er ekki vert að skeyta um neitt annað hér í þessum heimi.“ Um haustið komu skógarhöggsmennirnir að vanda eg feldu nokkur stærstu trén, var unga furan þá orðin meðallagi há, og fór kuldahrollur um hana þegur stóru og veglegu trén féllu með braki til jarðar. Þar næst voru greinarnar höggnar af þeim, og lá búkurinn þá eftir svo grannur og ber, að varla var hægt að þekkja þau. Að svo búnu var trjánum hlaðið á vagna og hestar drógu vagnana út úr skóginum. „Hvert eru þau að fara? Hvað ætli að verði af þeim?“ mælti furan við sjálfa sig. Því hana langaði afarmikið að vita, hvað um þau yrði, og um vorið þegar svölurnar og storkarnir komu spurði hún þau: „Veiztu, hvert var farið með þessi tré? Hefir þú ekki mætt þeim?“ [Framh.]

## Runeberg á æskuárum.

Finnland heitir land eitt í Norðurálfunni milli Rússlands og Svíþjóðar og liggur það undir Rússa. Þar eru töluð tvö mál. Finska, sem er mjög ólík málinu okkar íslenzkunni, og sænsku, sem er furðu lík íslenzku. Margir merkir menn hafa verið á Finnlandi, og á öldinni sem leið, var þar meðal annara frægt skáld, sem Jóhann Runeberg hét, og eru sum af kvæðum hans þýdd í kvæðakverinu „Svanhvít“.

Þegar Runeberg var lítill var hann kirtlaveikur. Voru honum þá oft gefin sætindi til að hugga hann, en afleiðingin varð sú, að hann varð afarsólginn í sykur. Hugsaði þá móðir hans að venja hann af því, og kom einu sinni með heilan sykurtopp og sagði hann mætti borða svo mikið af honum, sem hann gæti. Hann lét ekki segja sér það tvisvar. Gleðin skein af andliti hans út undir eyru. og nú hjó hann og bruddi af mesta kappi þangað til móðir hans fór að verða hrædd um, að honum mundi verða ílt af sykurátinu. Sagði hún honum þá, að Malm gamla frænka hans kæmi. Var hún hörð við hann, og var Runeberg mjög hræddur við hana. Hætti hann þá við sykurátið, en ekki minkaði löngun hans í sykur við þetta, því í það var hann mjög sólginn alla æfi sína.

Aftur á móti gekk betur að venja hann af tóbaksbrúkuninni. Þegar hann var þrévetur, hafði hann fengið dálitla reykjarpípu til að leika sér að og var tekinn að reykja. Þegar faðir hans kem heim úr ferð, fann hann þenna litla hnokka reykjandi. Segir hann þá við drenginn, að hann sé orðinn svo stór að hann megi ekki reykja úr svona litilli pípu, tekur stærstu pípuna sína, fyllir hana með tóbaki og lætur hann fara að reykja. Þegar hann hafði reykt dálitla stund vildi hann hætta, en faðir hans hvatti hann til að halda áfram. Þetta hreif. Drengurinn fékk uppkóst af reykingunni og vildi aldrei sjá tóbak up frá því.

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, tekur á móti borgun, kvitterar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 20. FEBR. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 9. TBL.

## Helmingaskifti.

Einu sinni bjó auðugur aðalsmaður í kastala einum, er stóð töluvert upp frá sjó, og ætlaði aðalsmaður þessi að halda brúðkaup sitt. Hafði hann í því skyni dregið saman alls konar veizlukost, þar á meðal gnægð af alidýra-kjöti, villibráð og alls konar ávexti; en þar var engan fisk að finna, vegna þess, að veður hafði lengi verið stormasamt og sjóveður því engin og sjór úfinn mjög.

Samt sem áður kom fátækur fiskimaður með stóra flyðru í kastalann einmitt sjálfan veizlu-morguninn. — Það var uppi fótur og fit yfir því, að fiskurinn var kominn, og fiskimanninum var vísað með feng sinn inn í stórt herbergi, þar sem aðalsmaðurinn var inni með gestum sínum, er komnir voru til veizlunnar.

„Þetta er fallegur fiskur,“ mælti aðalsmaðurinn, er hann sá lúðuna. „Ákveddu verðið á henni, og þér skal þegar verða borgað eins og þú setur upp. Hvað mikið á eg að borga þér?“

„Ekki einn einasta eyri, herra minn,“ mælti fiskimaðurinn; „eg vil ekki taka borgunina út í peningum. Flyðran mín á að kosta það, að þér látið berja mig hundrað högg yfir beran hrygginn, og eg vil ekki láta draga eitt einasta högg af þeirri tölu.“

Aðalsmanninn og gesti hans furðaði ekki all-lítið á þessu, en fiskimaðurinn sat fastur við sinn keip. Þeir reyndu að telja um fyrir honum og koma vitinu fyrir hann, en það var árangurslaust.

Loks mælti aðalsmaðurinn: „Þessi kóni sýnist að vera æði dutlungasamur, en eg má til að ná í lúðuna. Berjið hann þess vegna ósköp létt og gerið það hér að mér ásjáanda.“

Þegar búið var að berja fiskimanninn fimmtíu svipuhögg, kallaði hann upp yfir sig: „Hættið! hættið! Við erum tveir um borgunina, og hinn maðurinn verður að fá sinn skerf.“

„Hvað er þetta!“ mælti aðalsmaðurinn. „Eru þá til tveir slíkir heimskingjar á jörðunni? Hvar er hinn að finna? Segðu mér hver hann er, og það skal verða sent eftir honum undir eins.“

„Þér þurfið ekki langt að leita,“ mælti fiskimaðurinn. „Þér finnið hann við kastalaportið yðar, því það er einmitt dyravörðurinn yðar. Hann vildi ekki hleypa mér inn fyr en eg hafði lofað honum, að hann skyldi fá helminginn af hverju, sem eg fengi fyrir flyðruna.“

„Er það svona?“ mælti aðalsmaðurinn. „Sækið hann undir eins; hann skal sannarlega fá sinn hluta endurgoldinn eftir ströngustu kröfum réttlætisins.“

Dyravörðurinn var því næst sóttur, og varð að taka á móti sínum hluta borgunarinnar. Að því búnu rak aðalsmaðurinn hann burt úr vistinni, en borgaði fiskimanninum lúðuna ríkmannlega.

# Furan.

(Æfintýri eftir H. C. Andersen.)

(Framh.)

Svalan vissi ekki nokkurn skapaðan hlut, en þegar storkurinn hafði hugsað sig dálítið um, kinkaði hann kolli og mælti: „Jú, eg held að eg viti það. Eg mætti ýmsum nýjum skipum á leiðinni frá Egyptalandi og voru þau öll með fögrum siglutrjám, er lyktuðu líkt og fura. Eg held að þetta hljóti að hafa verið trén héðan, og eg segi þér það satt, að þau voru mjög, mjög tiguleg.“

„Ó, en hvað eg vildi að eg væri orðinn nægilega stór, svo að eg gæti farið út á sjó!“ mælti furan.. „En hvað er þessi sjór og hvernig lítur hann út?“

„Það mundi taka of langan tíma, að ætla að útskýra það fyrir þér,“ svaraði storkurinn og flaug það bráðasta í burt.

„Gleddu þig yfir æsku þinni,“ sagði sólargeislinn; „gleddu þig yfir því, hvað þér fer sí og æ fram og yfir æskufjörinu, sem spriklar í þér!“

Og vindurinn kysti tréð og döggin vökvaði það með tárum sínum, en furan gaf þeim engan gaum.

Nú leið að Jólum og mörg ung tré voru höggvin upp, og sum þeirra jafnvel minni og yngri en furan, sem hafði hvorki ró né yndi vegna þess, hve mjög hana langaði til þess, að komast heiman að úr skóginum. Þessi ungu tré voru valin fyrir fegurðar sakir; voru þau látin halda greinunum ósködduðum, lögð á vagna og hestarnir drógu þau út úr skóginum.

„Hvert eru þessi að fara,“ spurði furan. „Þau eru ekki hærri en eg, og eitt er meira að segja töluvert minna, og hvers vegna eru greinarnar ekki limaðar af þeim?“

„Hvert eru þau að fara?“

„Við vitum það, við vitum það,“ sungu spörfuglarnir. „Við höfum horft inn um gluggana á húsunum í borginni og við vitum, hvað gert er við þau. Þau eru búin í allra-mesta dýrindis-skraut. Við höfum séð þau standa á miðju gólfi í heitu herbergi, skreytt alls konar dýrgripum: hunangskökum, gyltum eplum, barnagullum og mörg hundruð vaxkertum.“

„Og svo?“ spurði furan og hún skalf neðan frá rót og út í hvern yzta anga.“ „Hvað kemur svo?“

„Við sáum ekki neitt meira,“ svöruðu spörfuglarnir, „þetta var okkur nóg.“

„Skyldi nokkuð jafn fagurt koma nokkuru sinni fyrir mig?“ hugsaði furan. „Það mundi vera miklu betra en að flæmast yfir hafið. Eg er næstum hálf-sjúk af þrá eftir því. Hvenær koma Jólin hingað? Eg er nú orðin eins há og vel vaxin og trén, sem flutt voru burt í fyrra haust. Æ, eg vildi að eg yrði lögð á vagn og fengi svo að standa í heitu herbergi með öllu skrautinu og birtunni í kring um mig! Svo hlýtur eitthvað betra og fegra að koma þar á eftir, því annars væru trén auðvitað ekki skreytt. Það hlýtur að koma eitthvað enn stórfengilegra og veglegra þar á eftir. Hvað getur það verið? Eg er alveg iðandi af óþreyju. Eg get varla lýst því, hvernig eg er.“ (Framh.)

# Sally og söngkonan.

Ensk saga.

(Framh.)

Stundum var hún látin fara út með yngsta barnið, og það var sannarlega mikil mildi, að barnið það skyldi vaxa upp og halda

lífinu. Þegar hún var látin vera með það úti, lagði hún það af sér einhvers-staðar og hugsaði ekki um það frekara. Einn daginn fanst það liggjandi í skólprennunni og var búið að sverta sig alt framaní, en Sally var róleg og hátíðleg að dansa upp á gangstéttinni, eftir einhverju alkunnu lagi.

Ef þú átt ungbarn fyrir systkyni, þá geturðu skilið í því, að því muni ekki líka, að jafnilla sé farið með sig, og hún fór með barnið, sem hún átti að sjá um.

Lírukassa-hljómur og hornablástur freistuðu Sally afar-mikið. Henni var algjörlega ómögulegt að fara þar fram hjá, sem hún heyrði slikt, hún mátti til að vera þar. Það stóð á sama þótt móðir hennar hefði sent hana með böggul, sem hún átti að flýta sér að skila eins fljótt og mögulegt var, eða þótt faðir hennar biði óþolinmóður eftir einhverju, sem hann hafði sent hana eftir, því ef Sally heyrði hljóðfæraslátt einhversstaðar álengdar þá urðu pabbi og mamma að bíða þangað til hljóðfæraleikaraflokkurinn fór sjálfur á burt þaðan. Stundum dansaði hún sjálf eftir einhverju sönglagi, stundum raulaði hún með sjálfri sér með allra inndælustu rödd; en miklu oftar stóð hún ein og hlustaði á hljóðfærasláttinn, eins og hún gæti aldrei fengið nóg. „Það þyrfti að flengja þenna krakkaletingja dálítið, svo hún hætti þessu“, sagði ekkjan Price.

Þá var það einn dag, að Sally fór að sækja brauð fyrir hana móður sína, og nú var hún búin að fá brauðið, og var komin heimleiðis með það í hendinni. Starði hún beint framundan sér með stóru svörtu augunum, eins og hún væri hrædd um, að annars færi augun eitthvað út í veður og vind. Það hefði verið betra fyrir foreldra hennar og litlu systkynin hennar, að hún hefði ávalt horft beint framundan sér, þá hefði þau ekki orðið að borða miðdegismatinn sinn í það sinn, án þess að fá nokkurt brauð. — En til allrar ógæfu fyrir þau leit hún alt í einu yfir um götuna, og úr því hugsaði hún ekkert um svanga fólkið heima framar. Hún meira að segja sneri við, eins og hún væri að fara að heiman, og þannig gekk hún lengra og lengra með brauðið í hendinni, svo hart sem hún gat.

II.

Hversvegna hafði Sally snúið svo snögglega við? Hún hafði séð átta menn ganga hinu megin götunnar. Voru þeir bláklæddir með rauðan borða á húfum sínum, og báru stór skínandi fögur látunshylki á handleggnum. Aumingja litla hjartað hennar tók að slá harðara innan í tötralega kjólnum, því hún vissi, að þessir snotru rauð- og bláklæddu menn mundu alt í einu standa við og skipa sér í hring, og láta þessa logagyltu lúðra sína segja sér allskonar undrasögur. Þetta var þýskur lúðraflokkur og Sally hafði hvergi heyrt jafn fagran hljóðfæraslátt. Lífsyndið hennar og gleðin var hljóðfærasláttur þessara manna. Það var eina ánægjan, sem hún naut í lífinu. Hún hafði óljósa hugmynd um, að einhvern tíma ætti hún að komast til himna, og ímyndaði sér, að þar mundi hún heyra ævarandi lúðrahljóm, en meðan hún var hér á jörðunni varð hún að hlusta á hvern hornaleikaraflokk, sem varð á vegi hannar.

(Framh.)

---

Mitt hjarta sátt skal hvern þann við,
sem hér það skildi ei,
svo hljóti' ég sannan sálarfrið
og sigur er ég dey.

(Eftir Ingimann.)

# Móðurumhyggja.

Maður nokkur kom inn í hús eitt og bað að ljá sér fötu, til að sækja drykk í handa múrurum, sem voru að byggja hús þar skamt frá. Húsmóðirin kom með fötuna; hafði hún séð, hve örðuga vinnu múrararnir höfðu í brennandi sólskini, og sá, að þeir hlytu oft að vera dauðþyrstir. Bauðst hún því til að láta vatn í fötuna úr brunninum sínum, því vatnið í honum væri ferskt og svalt, og væri vatn sótt til sín úr mörgum búðum og skrifstofum þar í grendinni. Maðurinn rétti fram höndina og ætlaði að taka við fötunni, þakkaði konunni vingjarnlega fyrir boð hennar, en sagði, að múrarnir vildu heldur öl, og hann þyrfti ekki að fá annað en tóma fötuna, til þess að sækja ölið í. Þá tók frúin fötuna óðara aftur og mælti:

„Mér þykir þetta leitt, en eg ljæ ekki fötuna mína undir öl. Nei, það er mér ómögulegt. Eg á þrjá drengi, og hvað mundu þeir hugsa um mig, ef eg léti nota nokkurt ílát úr eldhúsinu mínu til þess að sækja öl í. Það var leiðinlegt, að það var undir þetta, sem þér vilduð fá fötuna. Fari svo, að drengirnir mínir taki að drekka áfenga drykki, þegar þeir eru orðnir fullorðnir, þá skulu þeir að minsta kosti ekki geta sagt, að þeir hafi nokkuru sinni séð öl í nokkurri kyrnu eða keraldi, sem hún móðir þeirra átti — með hennar leyfi. — Verið þér sælir." *(Magne).*

## SKRÍTLUR.

Húsbóndinn: „Eg gef yður ekki neitt, en þér getið fengið dálitla vinnu hjá mér."

Betlarinn: „Nei, eg þakka hjartanlega fyrir, því þá yrði eg að yfirgefa aðra skiftavini mína."

**Óheppilegt orðaval.**

Betlarinn: „Gerið svo vel að veita mér svo litla hjálp, herra minn, því eg á fimm kornung börn heima, som eru öll tvíburar."

Presturinn: „Ef mér skjöplast ekki, þá töluðuð þér hátt í gær í kirkjunni, fröken, meðan á ræðunni stóð."

Frökenin: „Yður skjöplast prestur minn. Eg tala aldrei upp úr svefninum."

Faðirinn (les stílinn sonar síns): „Bíddu svo lítið, hérna vantar punkt í stílinn, eg ætla að setja hann."

Sonurinn: „Nei, það máttu ekki gera. Kennarinn vill að allir stílarnir séu skrifaðir með sömu hendi."

Dómarinn: „Heyrið þér herra réttarlæknir! Hvernig lýst yður á sár fangans."

Réttarlæknirinn: „Tvö sárin eru alveg banvæn, en fari sjúklingurinn varlega með sig, má líklega græða það þriðja á tveimur mánuðum."



„ÆSKAN"

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4, tekur á móti borgun, kvitterar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

| IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 20. MAZR. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 10.—11. BL. |
|---|---|---|---|---|

## Barnakrossferðir.

Eins og þið munuð vita lifði Jesús og dó í landi því, er fyrst var kallað Kanaan, síðar Ísraels og Júðaríki, þá Gyðingaland, en nú er það kallað Palestína. Sjötíu árum eftir fæðingu Krists var borgin Jerúsalem eyðilögð af Rómverjum, og Gyðingar ýmist drepnir eða seldir mansali víðsvegar um heim. Þegar kristtin trú fór að breiðast út, settust margir kristnir menn að í Gyðingalandi. En smám saman klofnaði ríki Rómverja. Tyrkir náðu Gyðingalandi undir sig. Og kristnir menn, sem bjuggu þar, urðu ýmist að sæta afarkostum, eða flýja úr landi. Tyrkir eru Múhameðstrúar. þ. e. þeir trúa að sönnu á einn guð, en álíta ekki að Jesús Kristur hafi verið frelsari mannkynsins. — Þótti nú mörgum kristnum mönnum þetta óhæfa mikil, að aðrir en kristnir menn byggju í landinu þar sem frelsarinn hafði lifað, kent, dáið og verið grafinn. Voru því gerðar út margar herferðir héðan úr Norðurálfunni til þess að vinna Gyðingaland, sem þá var kallað landið helga, úr höndum Múhameðsmanna. — Stóðu krossferðirnar yfir um nál. 300 ár eða frá 1096 til 1291, og vóru farnar sjö aðalferðir fyrir utan ýmsar smærri. Reyndir og duglegir menn stóðu fyrir sumum krossferðunum, enda tókst um tíma að ná landinu helga úr höndum Múhameðtmanna, og var kristið konungsríki sett á stofn í Jerúsalem. En aðrar krossferðirnar voru aftur á móti farnar í fyrirhyggjuleysi og ráðleysi, og sundrung kristninnar olli því, að landið helga komst aftur í hendur Múhameðstrúarmanna, og hefir upp frá því verið eitt af skattlöndum Tyrkjasoldáns, þótt margir kristnir menn búi nú í Jerúsalem.

Þegar krossferðirnar stóðu sem hæst, komu nokkrir ákafir trúarofsamenn með þá kenningu, að landinu helga yrði ekki náð með vopnum, heldur að eins með því, að saklaus börn færu þangað með lofgjörðarsöngum, og ákalli til guðs: þá mundu hinir vantrúuðu Múhameðsmenn óðar flýja úr landi fyrir kraftaverk guðs. — Söfnuðust nú saman fjöldi barna nál. 50 þúsundir, einkum frá Frakklandi og Þýzkalandi og bjuggust í hina svo nefndu barnakrossferð árið 1212. Munkar voru fyrirliðar þeirra. Lagði skari þessi í mörgum stórhópum fótgangandi suður yfir Alpafjöll til Ítalíu, áleiðis til landsins helga, en eins og við var að búast, gáfust mörg börnin fljótt upp og dóu hundruðum saman af hungri og þreytu. En þegar kom suður að Miðjarðarhafi tók ekki betra við, því þá voru börnin tæld í hendur þrælasölum, sem þóttust ætla að flytja þau til landsins helga, en í stað þess að efna loforð sín, seldu þeir börnin mansali víðsvegar um heim. — Þannig fórst ferð þessi fyrir eins og eðlilegt var.

Nú eru krossferðir löngu hættar, enda sjá menn, að það gerir lítið til, hverjir ráða fyrir landinu helga, og að kristnir menn geta

gert margt annað nauðsynlegra, en að berjast fyrir því að vinna þetta land undir sig.

Það er auðvitað heimskulegt, að hugsa-sér, að hálfstálpuð börn, gætu unnið land úr hermanna höndum. En börnin geta gert margt sem er margfalt nauðsynlegra, fallegra og betra, en að vinna landið þar sem Kristur lifði og dó, og sem á miklu betur við krafta þeirra og hæfi.

Ef þú huggar sorgbitinn, þá er það miklu meira vert en þú legðir af stað að vinna landið helga.

Reyndu að hjálpa þeim sem bágstaddur er eftir þínum litlu kröftum. Sjáirðu eða heyrirðu annað barn gera eða tala það sem ljótt er, þá reyndu að afstýra því. Varðveittu tungu þína og hönd fyrir öllu því, sem ljótt er. Forðastu áfenga drykki, og komdu öðrum til að gera slíkt hið sama. Vertu duglegur að læra bæði til munns og handa á æskuárunum, svo þú kunnir margt gott og gagnlegt þegar þú kemur til vits og ára. Láttu ekki tilhneiging þína og löngun í sælgæti koma þér til að afla þess með óráðvendni. — Í einu orði; reyndu að vera gott barn, svo þú getir orðið góður og gæfusamur fullorðinn maður.

Og þá hefirðu gert miklu þarfara og guði þóknanlegra verk, en að reyna að vinna landið helga.

## Drengur styður að stórvirki.

Í Norður-Ameriku er fljót eitt, er Niagara heitir (lesið Næagara). Kemur það úr stórvatni einu, er Erievatn nefnist. og rennur austur eftir landinu, unz það steypist í annað vatn, er Ontario er nefnt. Niagara er ekki langt fljót en afar vatnsmikið. Ontariovatnið liggur miklu lægra en Erievatnið og er því í fljótinu foss nálega mitt á milli vatnanna, og er hann nefndur Niagara eins og fljótið eða þó öllu heldur Niagarafossar. Þetta er stærsti foss í heimi af öllum þeim fossum, sem enn eru nægilega þektir. Fyrir ofan fossana skiftist fljótið í tvent af mjórri ey, sem Geitarey er nefnd. Ryðst fljótið í freyðandi hávöðum fram með eynni beggja vegna, unz það steypist fram af standberginu framan við eyjaroddann ofan í afardjúpt gljúfur. Foss sá, er minni, sem er að sunnan og austanverðu við eyna, og heitir hann Ameríku-fossinn. Hann e 173 faðmar á breidd og 170 feta hár. Fossinn hinum megin eyjarinnar er kallaður Skeifan, rúmlega 300 faðmar á breidd og nálægt 160 feta hár. Vatnsmegnið er ógurlega mikið, og að minsta kosti 16 sinnum meira en í Þjórsá, einna stærstu ánni hér á landi. Dunurnar í fossinum heyrast margar mílur í allar áttir, og þegar komið er að fossunum, er ómögulegt að heyra mannamál. Kemur þangað fjöldi fólks árlega til að skoða fossana, enda eru þar mörg gistingahús beggja megin fljótsins. Niagarafljótið er landamerkjalína milli tveggja stærstu ríkjanna í Norður-Ameríku. Bandaríkjanna að sunnan og austan og Kanada að norðvestan.

Nálægt 1850 tóku Ameríkumenn sér fyrir hendur, að byggja fyrstu brúna yfir fljótið, rétt neðanvert við fossana, og skyldi það vera hengibrú eins og nú er sett á Þjórsá og Ölfusá. Hengibrýr eru þannig gjörðar að afar digrir og margsnúnir járnvírsstrengir eru þandir á stólpum yfir fljótin, festir niður í báða enda og þar næst er brúargólfið hengt á járnstrengi þessa.

Verkfræðingur sá, sem tókst á hendur að byggja brúna yfir Niagara, var fyrst í

töluverðum vandræðum með, hvernig hann ætti að koma fyrsta bandinu yfir fljótið, því svo er straumurinn mikill langar leiðir bæði fyrir ofan og neðan fossinn, að ekki eru tiltök að róa á bátum yfir fljótið. Sá sem færi fyrir ofan fossinn mundi steypast framan af, en fyrir neðan eru afarmiklar hringiður, sem soga alt til botns. Verkfræðingnum datt nú í hug, að hægt mundi að nota flugdreka eins og drengir leika sér að, til þess að koma þræði yfir um. En fljótið var nálægt 600 faðma breitt, þar sem brúin átti að setjast. Spurði verkfræðingurinn nú uppi hvaða drengur þar í bænum kynni bezt að fara með flugdreka, og var honum vísað á efnilegann dreng er Walsh hét. Bað verkfræðingurinn um, að hann væri sóttur, og þegar hann kom, spurði verkfræðingurinn drenginn, hvort hann treysti sér til að koma flugdrekanum sínum alla leið yfir Niagara og láta hann falla niður hinum megin fljótsins. Drengurinn kvaðst mundi vilja reyna það, og tókst honum að koma drekanum yfir um og láta hann síga þar til jarðar en þar var fjöldi fólks viðbúinn, sem tók á móti drekanum. Festi nú verkfræðingurinn mjóan vír við strenginn, sem drengurinn hafði haft í drekanum, lét draga vírinn yfir um fljótið, og með því var byrjunin gerð til þess, að koma digrari strengjunum yfir fljótið.

Drengurinn Walsh fluttist síðar vestur í fylkið Nebraska, settist að í borginn Lincoln (Linkon), þótti þar einn mesti dugnaðarmaður borgarinnar, og er hann nú rétt ný dáinn.

En þó hann gerði ýms dugandisverk um æfina hefir þó eflaust mest verið varið í það, þegar hann hjálpaði til að byggja brúna yfir Niagara.

Það má nærri geta, hvaða gagn er að því að læra eitthvað vel til munns eða handa, fyrst það getur jafnvel hjálpað til að stórvirki séu framkvæmd, að kunna vel að leika sér.

# Skringilegur api.

Englendingur nokkur sem bjó á Indlandi átti sér apa. Matreiðslumaður Englendingsins var innlendur þar og var hann einn dag að reita hænu sem sjóða átti til matar. Þegar hann var búinn að reita hænuna lét hann hana í pottinn, sem stóð yfir eldinum. Að svo búnu gekk hann út úr eldhúsinu og var í burtu nokkra stund.

Meðan matreiðslumaðurinn var að reita hænuna hafði apinn legið þar rétt hjá, og látist sofa, en haft augun þó svo opin, að hann tók eftir öllu er fram fór, bæði eftir því, er matreiðslumaðurinn reitti hænuna og jafnframt eftir nokkrum krákum, sem voru flögrandi skamt fyrir utan dyrnar, til þess að ná í ruðurnar, sem kastað væri úr eldhúsinu.

Jafnskjótt og matreiðslumaðurinn var farinn burtu, reis apinn upp, handsamaði eina krákuna, drap hana og reitti á sama hátt og hann hafði séð matreiðslumanninn fara með hænuna. Að svo búnu tók hann lokið af pottinum tók hænuna upp úr en lét krákuna í pottinn aftur í stað hennar og læddist að svo búnu á braut.

Þegar matreiðslumaðurinn kom aftur sá hann, að hænan var orðin að svartri kráku og varð þá æði skringilegur á svipinn. — En það var engu síður skoplegt að sjá apann, hve hróðugur hann var yfir að hafa leikið þannig á matreiðslumanninn.

# Furan.

**(Æfintýri eftir H. C. Andersen).**

**(Framh.)**

„Gleddu þig með okkur!“ sögðu loftið og sólskinið. „Gleddu þig yfir skemtilega lífinu, sem þú sjálf lifir í hérna í heilnæma loftinu undir berum himni.“

En tréð gladdist ekki þótt það yxi hærra og hærra með degi hverjum. Það breiddi út dökkgræna blaðskrúðið sitt bæði vetur og sumar, og þeir sem fram hjá gengu sögðu: „En hvað þetta er fallegt tré!“

[illegible]mu fyrir Jólin komu skógarhöggs-[illegible]r og þá var óánægða furan höggin [illegible]rst allra. Öxin gekk í gegn um [illegible] og skar sundur merginn og í sömu svipan fell tréð andvarpandi til jarðar og það fann sársauka, og það fann til máttleysis og það gat alls ekki hugsað um neina hamingju. það var sorgbitið yfir því, að verða að skilja við heimilið sitt, þar sem það hafði þróast og dafnað; það vissi líka að það mundi ekki framar fá að sjá góðu og gömlu kunningjana sína, litlu runnana, blómin í kring um sig og ef til vill ekki svo mikið sem fuglana. Auk þess sætti það engan veginn þægilegri meðferð á leiðinni.

Tréð raknaði fyrst við er búið var að taka það upp úr vagninum inn í húsagarði og það heyrði einhvern mann segja: „Þetta er allra fallegasta tré, við þurfum ekki fleiri en það.“

Að svo búnu komu tveir þjónar klæddir skrautlegum einkennisbúningi, og báru tréð inn í stóran og fagran sal. Þar héngu myndir á veggjum, kínversk skrautker stóðu á ofninum og voru ljónsmyndir á lokunum; þar voru ruggustólar úr þykksilki, og stór borð öll full með myndablöðum og barnagullum, sem kostuðu hundrað sinnum hundrað krónur — að minsta kosti, að því er börnin sögðu. Og tréð var reist upp, og látið standa upp úr mjölkvartili, sem að öðru leyti var fylt með sandi, en enginn gat séð, að það var mjölkvartil af því, að grænum dúk var vafið utan um það, og svo stóð það á stórri og marglitri gólfábreiðu. En hvað tréð skalf! Hvað skyldi koma hér á eftir? Bæði vinnufólkið og hefðarmeyjarnar gengu í kring um það og skreyttu það. Á greinunum héngu smá net, klipt út úr alla vega litum pappír og öll netin voru full af sætindum. Gylt epli og skógarhnetur héngu á trénu eins og þau hefðu vaxið á því, og svo höfðu yfir hundrað rauð blá og hvít smákerti verið fest í greinarnar. Tréð hafði aldrei séð þvílíkt skraut fyr. Þar voru brúður sem voru hreint eins og lifandi menn og þær svifu uppi í greinunum, en efst, allra efst uppi í toppinn var sett stór stjarna búin til úr skínandi blaðagulli; og þetta var fallegt, það var alveg ljómandi fallegt.

„En hvað það skal verða bjart í kvöld!“ sagði fólkið í kringum tréð.

„Ég vildi að það væri komið kvöld og að farið væri að kveikja á kertunum,“ hugsaði tréð með sjálfu sér. „En hvað ætli þá komi fyrir? Skyldu trén koma úr skóginum til þess að horfa á mig? Skyldu spörfuglarnir vera á flögri utan við rúðuna? Skyldi ég gróa hér við gólfið og standa svona prúðbúin bæði vetur og sumar?“

Það var alt á nálum af forvitni og tilhlökkun; og það hafði barkarverk af einhverri þrá, og trénu þykir barkarverkur eins sár og okkur mönnunum þykir höfuðverkur, hlustarverkur eða tannpína.

Nú var kveikt á kertunum. En sá ljómi! Enn það skraut! Tréð varð allsendis utan

við sig og allar greinar þess skulfu af einberri gleði. Við þetta kviknaði í liminu af einu ljósinu, og þá sveið trénu eins og það hefði verið stungið með títuprjón.

„Guð hjálpi okkur!“ æftu ungu stúlkurnar upp yfir sig og slöktu eldinn í mesta flýti.

Nú þorði tréð ekki einu sinni að skjálfa. Þetta var hræðilegt! Það var svo hrætt um, að missa eitthvað af öllu skrautinu; það var öldungis ringlað í allri þessari ljósadýrð. — — og nú var báðum vængjahurðunum hrundið upp og mörg börn ruddust inn eins og þau ætluðu að velta trénu um koll með öllu, sem á því var. Fullorðna fólkið kom hægt og rólega á eftir. Svo stóðu börnin þegjandi og gláftu á tréð, — en það var ekki nema augnablik, svo æptu þau upp yfir sig af fögnuði, svo kvað við um allan salinn. Þau dönsuðu í kring um tréð, og jólagjafirnar voru nú tíndar af því ein eftir aðra.

„Hvað á nú þetta að þýða?“ hugsaði tréð. „Hvað skyldi eiga að fara að gera?“ En kertin brunnu upp þangað til komið var niður að greinunum, og svo var slökt á kertunum jafnóðum og þau brunnu upp. Að svo búnu var börnunum leyft að rupla tréð. Og svo ruddust þau á það, svo það brakaði í öllum greinunum, og það hefði oltið ofan á gólf, hefði það ekki verið bundið í loftið þar sem gullstjarnan var í toppnum á því.

Börnin dönsuðu hringinn í kring um tréð með ljómandi fallegu barnagullin sín. Enginn leit á tréð framar nema gamla barnfóstran; hún gekk í kring um það og gægðist inn á milli greinanna, en það var ekki til annars en sjá, hvort ekki hefði gleymst epli eða fíkju innan um limarnar.

„Segðu okkur sögu! Segðu okkur sögu!“ kölluðu börnin, og drógu þrekvaxinn en lágvaxinn mann að trénu. Setti hann sig undir tréð og mælti: „Nú erum við komin út í skóg, og tréð getur haft töluvert gott af því að hlusta á meðan ég segi ykkur eina sögu. Viljið þið heyra söguna um Íveda-Aveda eða um hann Klumpa-Dumpa, sem datt niður stigann en komst þó upp í hásætið og fékk konungsdótturina.“

„Íveda-Aveda!“ kölluðu sum börnin. „Klumpa-Dumpa!“ æptu önnur; það varð óp og hávaði, og það var að eins tréð, sem stóð kyrt og þegjandi og hugsaði með sjálfu sér. „Á ég ekki að vera með? Á ég ekki að gera neytt?“ En það hafði nú verið með og hafði gert það sem það átti að gera.

Svo sagði maðurinn börnunum söguna af „Klumpa-Dumpa, sem datt niður stigann, en komst þó upp í hásætið og fekk kongsdótturina“. Og börnin klöppuðu saman lófunum og kölluðu: „Segðu okkur meira! Segðu okkur meira!“ Þau vildu líka fá að heyra „Íveda-Aveda“ en þau fengu ekki að heyra nema „Klumpa-Dumpa“. — Tréð stóð öldungis grafkyrt og hugsandi; aldrei höfðu fuglarnir í skóginum sagt frá öðru eins: — Klumpi-Dumpi datt niður stigann en komst þó upp í hásætið og fekk kongsdóttirina. — Já, já, svona gengur það í heiminum!“ hugsaði tréð, og hélt að þetta væri öldungis satt, af því að svona prúðbúinn maður sagði frá því. „Já, já, hver veit nema ég detti líka niður stigann og fái kongsdóttur.“ Og það hlakkaði til morgundagsins, þegar það yrði á ný þakið með ljósum og barnagullum, gulli og aldinum.

„Á morgun skal ég ekki skjálfa“, hugsaði tréð. „Ég skal skemta mér við alla dýrðina og skrautið.“ Á morgun fæ ég að

heyra aftur sögnna af „Klumpa-Dumpa“ og ef til vill líka um „Iveda-Aveda“. Og tréð stóð kyrt og hugsandi alla nóttina.

Morguninn eftir komu vinnumaðurinn og vinnukonan inn.

„Nú byrjar skrautið aftur“ hugsaði tréð, en þau drógu það út úr stofunni upp stigann, uppá loft, og létu það síðan í skúmaskot, þar sem ekki sást nokkur skíma.

„Hvað á nú þetta að þýða?“ hugsaði tréð. „Hvað skyldi ég nú eiga að gera hérna? „Hvað ætli ég fái að heyra hérna?“ Og það hallaði sér upp að múrveggnum og stóð þar í þungum hugsunum. — — Það hafði líka nægan tíma til þess að hugsa, því það liðu margir dagar og margar nætur; enginn kom þangað upp dögum saman, og færi svo, að einhver kæmi, var það ekki til annars, en kasta tómum kössum í skotið; tréð var orðið alveg hulið og það leit svo út, sem alveg væri búið að gleyma því.

„Nú er vetur úti, „hugsaði tréð.“ „Jörðin er gödduð og þakin snjó; mennirnir geta ekki sett mig niður, og því er ég auðvitað látið vera hérna í skjóli til vorsins! En hvað þetta er nú vel hugsað af þeim! En hvað mennirnir eru nú vænir og góðir við mig. - - Eg vildi aðeins að það væri ekki svona dimt hérna og svo hræðilega einmanalegt! — Hér sést ekki svo mikið sem svo lítill héri! — Það var svo gaman að því úti í skóginum, þegar snjórinn lá yfir jörðunni, ef hérinn hljóp framhjá, og jafnvel þegar hann hljóp yfir mig, — en mér var nú reyndar ekki um það gefið í þá daga. En hérna uppi er svo hræðilega einmanalegt.“

„Pi, pi!“ sagði dálítil mús rétt í þessu og skaust út úr einhverri holu, og rétt á eftir kom önnur mýslan til. Þær þefuðu af trénu og skutust á milli greina þess.

„Það er hræðilega kalt hérna,“ sögðu mýslurnar. „Annars er þetta allra blessaðasti staður. Eða finst þér það ekki, gamla mín?“

„Ég er hreint ekki gamalt,“ svaraði tréð. „Það eru margir, sem eru miklu eldri en ég.“

(Framh.)

# Sally og söngkonan.

**Ensk saga.**

**(Framh.)**

Það leit ekki út fyrir, að hornleikaraflokkurinn, sem hún elti í þetta sinn, ætlaði að hraða sér með að leika á hornin. Flokkurinn gekk áfram lengi, lengi, eina götuna eftir aðra, og torg af torgi. Sally brokkaði við fót á eftir, másandi og blásandi af mæði og rogaðist með brauðið undir hendinni. Loks kom flokkurinn á fagurt torg. Húsin í kring um það voru með fögrum og stórum anddyrum með súlnaröðum til beggja handa og í öllum gluggum var fult af skrautlegum blómum. Nú stóð hornaleikaraflokkurinn víð og Sally fékk loks hlaup sin endurgoldin.

Hún settist niður á lægstu tröppuna í aðal-innganginum á skrauthýsi einu. Hélt hún á brauðinu sínu í knjám sér og hærði hvorki legg né lið unz hljóðfærasláttirinn var á enda.

Hornaflokkurinn lék mjög fögur lög morguninn þann. — Lék hann hvað eftir annað ýms lög úr undurfagurri söngsögu, sem nefnist „Faust“, og eru lög í henni svo fögur, að þú gleymir þeim aldrei, þótt þú heyrir þau að eins einu sinni, og þér þykir vænt um þau upp frá því. Sally hafði

aldrei heyt þau áður, en eftir því sem hún hlustaði lengur, hrifu þau hana meir og meir, svo henni fanst, að hún gæti ekki að sér gert — hún yrði að fara að gráta. Þarna sat hún á tröppunni, hugsandi og utan við sig og það löngu eftir að hljóðfæraslættinum var lokið, og bláu og rauðu mennirnir farnir á brott.

Þegar hún rankaði loks við sig og stóð upp, sá hún, að hún var á einhverjum stað, þar sem hún hafði aldrei komið áður, og hún gat ekki skilið í því, hvernig hún hafði komist þangað. Allar göturnar út frá torginu sýndust henni öldungis eins.

Þetta fór að verða ískyggilegt. Hvað átti hún að taka til bragðs? En hvað sem öðru leið, þá var það augljóst, að hún mundi ekki komast heim með því, að standa kyr í sama stað. Gekk hún þá skemstu leið út af torginu, en þá kom hún inn á annað torg, sem var alveg eins og hitt. Hún hélt áfram nokkra stund og gekk gegn um stræti, þar sem húsin voru mjög há og flest fólkið mjög skrautlega búið. Loks stóð hún kyr á ný, og var farin að hugsa um að spyrja einhvern til vegar heim til sín, en — hvað var þetta? Hvað gat þetta verið, sem hljómaði svo undur fagurt eins og röddin kæmi úr æðra heimi?

Opinn gluggi var rétt yfir höfðinu á henni og út um hann heyrðist svo fagur söngur, að Sally hafði hvorki heyrt né jafnvel dreymt um annað eins. Hvað var þetta? Hverjir gátu sungið svo undurfagurt? Sally fanst eins og hljóðöldurnar vefðust utan um sig og bæru sig upp frá jörðunni upp í hinar hæstu hæðir. Hún tók að hugsa um englana, sem sungu hjá fjárhirðunum í Betluhem forðum daga, og ímyndaði sér að einhver þeirra væri kominn aftur niður á jörðina, og hún varð hálf óttasleginn. En smám saman gleymdi hún því að vera hrædd, því þessi ókunna rödd var blíð og aðlaðandi, enda þótt hún væri ákaflega mikil. Hún gekk beint undir gluggann og hallaði sér upp að dyrasúlunum, og hlustaði þaðan hálf-skjálfandi.

Eftir því, sem hún hlustaði lengur fanst henni hún kannaðist eitthvað við lagið; hún hafði heyrt það einhvern tíma áður. Mundi hún þá eftir því, að þetta var eitt af lögunum, sem hornaflokkurinn hafði leikið um morguninn, en lagið var alt öðruvísi nú þegar það var sungið með þessari engilsrödd. „En hvað hann er sorgbitinn, engillinn sá arna!„ hugsaði Sally með sjálfri sér.

„Ég vildi að ég gæti séð engilinn!“ hugsaði hún. Hana langaði til þess að komast að því, hvernig stæði á þessum fagra söng. Og hún óskaði sér að hún mætti husta á slíkan söng þaðan í frá.

Í sama bili opnuðust dyrnar, og mjög skrautklæddur þjónn gekk ofan tröppurnar og skildi hurðina opna á eftir sér. Hann var miklu meiri á lofti en svo, að hann tæki eftir slíkum aumingja og henni Sally litlu, og hann sneri að henni bakinu án þess að sjá hana. En Sally litla vissi aftur á móti ekki af neinu, sem bar við í kring um hana nema söngnum. Hún vissi ekki af því, að þjónninn stóð rétt hjá henni og hafði jafnvel ekki tekið eftir því, að dyrnar höfðu verið opnaðar, hún vissi seinna ekki, hvernig það hafði atvikast, en söngurinn — þessi óviðjafnanlegi söngur, hreif hana svo, að hún gat enga mótstöðu veitt. Hún gekk hægt upp tröppurnar, inn um dyrnar og inn í stóra húsið.

(Framh.)

## Refurinn og hundurinn.

Á bóndabæ einum í Noregi hafði heimilisfólkið orðið vart við það einn veturinn, að hundurinn byrjaði á óttalegum gauragangi í kring um fjósið þegar búið var að láta hann út á kvöldin, og hélt hann þessu áfram langt fram á nótt. Var nú farið að veita því eftirtekt hvernig á þessu stæði, og komst þá upp, að láfóta hafði verið að glettast við hundinn.

Bærinn og fjósið láu á hæðarbrún, en að húsabaki var brött brekka og dalur fyrir neðan. Var brekkan öll glerhál af ís. Refur nokkur vandi komur sínar að fjósinu, en jafnskjótt og hundurinn varð var við refinn, rauk hann af stað á eftir refnum og fóru þeir með fleygiferð niður glerhála brekkuna. En rétt efst í brúninni stóð kaðalspotti upp úr ísnum. Leitaði refurinn þar niður brekkuna, sem kaðalspottinn var, og í því hann þaut ofan brekkuna glepsaði hann í spottann og hélt sér föstum af öllum kröftum. Hundurinn aðgætti þetta ekki og senitst ofan brekkuna í slíku hendingskasti, að hann komst alla leið ofan í dalinn. En jafnskjótt og hundurinn var kominn fram hjá, klóraði refurinn sig upp að fjósinu aftur, og beið þar í makindum þangað til hundurinn kom másandi og blásandi neðan úr dalnum. Fór hundurinn þá að elta refinn að nýju, og þannig héldu þeir áfram unz hundurinn var orðinn öldungis uppgefinn af þreytu.

En refurinn fékk ekki önnur laun fyrir hygni sína, en að hann var drepinn af heimamönnum.

## Charles Dickens og kötturinn hans.

Nafnkunni enski rithöfundurinn Charles (tsjarls) Dickens. var mjög góður við skepnur og þó einkum við ketti. Einkum var þó einn köttur, sem var orðinn mjög vinveittur honum, og var hann því kallaður „kötturinn meistarans“, elti hann Dickens eins og hundur og sat hjá honum, þegar hann var að lesa eða skrifa.

Eitt kvöld sem oftar, sat Dickens við lítið borð, og las við kertaljós, sem stóð á borðinu, en kötturinn sat uppá borði eins og vant var. Alt í einu dó ljósið. Dickens var sokkinn ofan í bókina, kveikti ljósið á ný og strauk kisu um leið, og fór svo að lesa á ný. Að litilli stundu liðinni dofnaði ljósið aftur. Leit Dickens þá upp, sá að kisa var að slökkva ljósið með löppinni en leit jafnframt á Dickens bænaraugum. Sá hann þá hvernig í öllu lá. Kisa vildi fá gælur, og var óánægð yfir því, að hann setti sig hjá í stað lestursins; og fann þá, að bezta ráðið væri að slökkva ljósið til þess að húsbóndi sinn veitti sér frekari eftirtekt. Og þetta köllum vér skynlausar skepnur!



„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu.

ÞORVARÐUR ÞORVARÐSSON prentari, Þingholtsstræti 4. tekur á móti borgun, kvitterar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 12. APRÍL 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 12.—13. BL.


## Sally og söngkonan.

Ensk saga.

(Niðurl.)

Hún hafði aldrei komið í jafn stórt hús áður og jafnskreytt á allar lundir, en hún var ekkert að hugsa um það. Hún gekk beint áfram, inn ganginn og upp stigann, og það heyrðist ekkert fótatak í örlitlu fótunum hennar á mjúku gólfábreiðunum. Þegar hún kom upp úr stiganum urðu fyrir henni opnar dyr.

Þarna sá hún nú engilinn. Það var að eins ungur kvennmaður, en þó alls ekki ólík engli, þegar á alt var litið. Hún sat fyrir framan fortepiano og Sally sá í andlit hennar þegar hún var að syngja. Andlitið var mjög fagurt, næstum jafn fagurt og röddin, og enn fremur var það bæði blíðlegt og þó djarflegt, og jafnframt sorgblandið, öldungis eins og röddin. Sally tók nú ekki eftir neinu af þessu í þetta sinn; hún hugsaði um ekkert nema sönginn. Og engilfagra konan sá Sally alls ekki; hún var að eins að hugsa um sönginn, og svo hélt hún áfram að syngja hvern sönginn á fætur öðrum.

Sally hafði enga hugmynd um það, að kona þessi var framúrskarandi söngkona, ein af allra beztu söngkonunum í Lundunum, og að röddin hennar gat komið fólki til þess að gráta þúsundum saman. En það mundi hvorki hafa gert til né frá þó Sally hefði vitað það.

En þá hélt hún dauðahaldi í brauðið, en nú lagði hún það niður við hlið sér á gólfið, og svo stóð hún og hlustaði svo nákvæmlega, að hún hélt niðri í sér andanum og hélt að sér höndum. Þannig leið æði langur tími — Sally vissi ekki hve langur — að fræga söngkonan söng fyrir litlu tötralegu stúlkuna, en loks var þó eins og hún findi að einhver horfði á sig, og leit hún þá alt í einu við. — Hún kiptist öll við og rak upp dálítið hljóð, en fór svo að hlæja; enda var það von, því það var skrítið að sjá hana Sally þarna inni í stóru stofunni í rifna kjólnum, með tærnar berar fram úr sokkunum og með brauðið við hlið sér á gólfinu.

Sally fanst þetta samt ekki vera neitt til að hlæja að. Jafnskjótt og söngurinn hætti rankaði hún við sér, og þegar aumingja litla telpan sá, að hún var komin inn í þetta ókunna stóra herbergi, sem var svo ólíkt öllu, er hún hafði nokkru sinni séð áður, og að kvennengillinn, sem sat við hljóðfærið, tók að hlæja að henni, varð Sally svo hrædd, að hún fór að hágráta, tók upp brauðið sitt, og bjó sig til að hlaupa í burtu.

Söngmærin hætti alt í einu að hlæja, spratt skjótt upp úr sæti sínu og lagði hönd sína á öxlina á Sally litlu.

„Vertu ekki að gráta telpan mín góð," mælti hún blíðlega. „Ég ætlaði mér ekki að hræða þig. Komdu nú og segðu mér hvernig þú komst hingað og í hvaða erindum þú varst."

Sally leit upp feimnislega og þá sá hún

að svo fagurt, blítt og elskuvert andlit svo nærri sér, að hún stilti grátinn eins snögglega og hún hafði byrjað að gráta, og stakk óhreinu fingrunum sínum í löngu og hvítu höndina, sem að henni var rétt. Því næst sagði hún í smá skömtum frá því, hvernig hún hefði fylgt eftir lúðraflokknum og að hún hefði síðan vilst, og að hún hefði heyrt þenna undraverða söng í gegnum gluggann og hefði staðið við til þess, að hlusta á hann. Hún gat ekki sagt frá því, hvernig hún hefði komist inn í húsið, af því, að hún mundi það ekki. En hún vissi það eitt, að hún kom til þess að finna sönginn.

Áður en Sally hafði lokið sögu sinni, sat hún í knjám kvennengilsins með annan handlegginn utan um háls hennar, en hinn utan um dýrmæta brauðið sitt. Fræga söngkonan og tötralega stúlkan, gátu undir eins skilið hvor aðra, því þær elskuðu báðar hið sama mál, sem er tunga englanna, og sem við köllum *söng*.

Það mundi taka oflangan tíma, að segja frá öllu því, sem Sally hafði upp úr því, að heimsækja söngkonuna; hvernig hún og brauðið hennar voru flutt heim til hennar í fallegum vagni, að söngkonan átti langt samtal við móður Sallyar, og að Sally var nokkru síðar send í skóla, til þess hún gæti lært töluvert um söng.

Eftir margra ára slit og langvarandi þolinmæði rann loks sá dagur upp, þegar Sally var sjálf orðin mikil söngkona, og söng einmitt sömu söngvana og höfðu leitt hana til svo mikillar hamingju, en alla sína æfi söng hún þá þó aldrei án þess að minnast kvennengilsins velgjörara síns.

---

# Brunnur vitringanna.

**eftir Selmu Lagerlöf.**

Einu sinni endur fyrir löngu var kerling inneyg og hörkuleg útlits á gangi á Gyðingalandi, og fór yfir skrælnaða þistla og sviðna grasrótina. Það var Þerrinornin, sem drepur allan jarðargróða, varnar rigningunni að koma úr loftinu, og breytir fegursta gróðurlandi í eyðimörk.

Þetta var um sumar. Sólin skein á bera fjallatindana. Minsti vindblær þyrlaði þykkum kalkrykskýjum yfir skrælnaða jörðina; hjarðirnar höfðu hópað sig saman niður í dölunum kringum lækina, sem voru að þorna upp.

Þerrinornin gekk um og gætti að vatnsbirgðunum. Hún kom að Salómonsbrunnunum og andvarpaði, því hún sá, að þar var enn töluvert af vatni niður í klettasprungunum. Síðan gekk hún að Davíðsbrunninum fræga við Betlehem, og fann vatnið einnig þar. Og svo gekk hún silalega eftir veginum, frá Betlehem til Jerúsalem.

Þegar hún var komin nálægt miðja vega kom hún auga á brunn vitringanna, sem er þar rétt við veginn. Brunnur þessi er úr einum steini, sem er holaður innan. Þerrinornin settist á barminn og horfði ofan í brunninn og sá þegar, að hann var rétt þornaður upp. Brunnurinn var vanur að vera nærri barmafullur, en nú sást að eins dálítil vatnsglæta, gruggug og græn af slími í botni hans. Og það fór angistarhrollur um brunninn, þegar hann sá skorpna og veðurbarða andlitið Þerrinornarinnar spegla sig í litla og grugguga vatnsfletinum.

„Mér þætti gaman að vita, hvað þú getur tórt lengi“, mælti Þérrinornin. „Þú færð ekki eina einustu vatnsæð neðan að, sem geti gefið þér nýtt líf. Og það er, guði sé lof, ekki von á neinni rigningu fyr en eftir þrjá mánuði.“

„Þú getur verið alveg róleg“ andvarpaði brunnurinn. „Mér bjargar ekkert. Það yrði þá að vera uppspretta úr sjálfri Paradís“

„Ég ætla þá ekki að skilja við þig, fyr en þú ert hrokkinn upp af“, mælti Þerrinornin. Hún hafði ánægju af að sjá, hvernig líftóran kreistist úr honum dropa eftir dropa.

Hún setti sig því næst í mestu makindum á brunnbarminn, og henni þótti yndi í því, að heyra, hvernig vatnið andvarpaði þar niðri í botni hans. En sú skemtun, sem hún hafði af því, er hún sá þreyttu mennina ganga að brunninum með fötu í hendinni, sökkva henni í, og draga nokkra dropa af gruggugu vatni upp úr brunninum.

Þannig leið allur dagurinn, og þegar dimma tók, leit Þerrinornin aftur ofan í brunninn. Enn þá glórði í svolitla vatnsglætu í botni hans. „Ég verð hér í nótt“, sagði hún við sjálfa sig. Það liggur ekkert á. Þegar það verður svo bjart, að ég get séð ofan í þig aftur, er ég viss um, að það er úti með þig.“

Þerrinornin settist á brunnbarminn aftur og nóttin færðist yfir landið, brennandi heit og enn þá ægilegri en dagurinn. Hundarnir og sjakalarnir vældu og æptu í sífellu og kýrnar og asnarnir tóku undir aðframkomin af hita og þorsta inn í húsunum. Vindurinn gerði öðruhvoru vart við sig, en hann svalaði ekki, hann var brennandi heitur eins og andardráttur út úr einhverri geyspandi ófreskju.

Aftur á móti ljómuðu stjörnurnar í allri sinni dýrð og dálítil sneið af nýju tungli varp blágrænni birtu yfir gráskrældu hæðirnar. Og í tunglsljósinu sá Þerrinornin stóra úlfaldalest koma og stefna beint að brunni vitringanna.

Þerrinornin horfði á löngu lestina, og henni þótti gaman að því, að hugsa um allar þessar skepnur, sem kæmu dauðþyrstar að brunninum og fyndu þar ekki einn einasta vatnsdropa. Dýrin voru [illegible] mörg, og mennirnir voru svo margir, [illegible] þau mundu hafa getað tæmt brunninn, [illegible] barmafullur hefði verið. En alt í einu fanst henni eins og eitthvað kynlegt og vofulegt væri við úlfaldalest þessa, sem hélt þarna áfram í dimmunni. Allir úlfaldarnir komu fyrst í ljós á hæð einni, sem var yzt við sjóndeildarhringinn. — Það leit út eins og þeir kæmu ofan frá himnum. Í tunglsljósinu sýndust þeir miklu stærri en vanalegir úlfaldar, og það var óvanalegt að sjá, hve léttilega þeir báru hinar þungu byrðar, sem þeir voru klyfjaðir með.

En hún gat þó ekki hugsað sér annað, en að það hlytu að vera regluleg dýr, því hún sá þá svo greinilega. Hún sá meira að segja, að fremstu úlfaldarnir voru gráir og stirndi á kropp þeirra, beizlin voru skrautleg, söðulábreiðurnar voru með kögri og tigulegir riddarar stýrðu þeim.

Öll lestin áði við brunninn. Úlfaldarnir lögðust niður og riddararnir stigu af baki. Áburðarúlfaldarnir stóðu og hópuðust saman, og það var eins og skógur að sjá hálsa þeirra, krippurnar og kynlegu klyfjarnar.

Riddararnir voru þrír og gengu þeir þegar til Þerrinornarinnar og heilsuðu henni með því að leggja höndina á enni sér og brjóst.

Hún sá, að þeir voru í skínandi hvítum klæðum og voru með afar stóra „Túrbana“ á höfðinu, og efst framan í þeim var skínandi stjarna, sem ljómaði, eins og hún hefði verið nýlega tekin ofan af himninum.

„Vér erum komnir frá framandi landi“, mælti einn aðkomumanna, og biðjum þig að segja oss, hvort þetta sé í raun og veru brunnur vitringanna.“

„Þannig er hann nefndur í dag“, mælti Þerrinornin, „en á morgun verður hér enginn brunnur. Hann deyr í nótt.“

„Það skil ég, fyrst ég sé þig hér“, svaraði maðurinn. „En er þetta ekki einn af heilögu brunnunum, sem aldrei þorna upp? Eða af hverju hefir honum verið gefið þetta nafn?“

„Ég veit að hann er helgur“, svaraði Þerrinornin, „en hvað hjálpar það. Vitringar þeir, sem hann er kendur við, eru í Paradís.“

Hinir þrír ferðamenn litu hver á annan. „Kant þú sögu brunnsins?“ spurðu þeir.

„Ég kann sögu allra brunna og uppsprettna, allra lækja og fljóta“ svaraði Þerrinornin drembilega.

„Gerðu það þá fyrir oss, að segja oss söguna“, báðu þeir.

Og svo settust þeir niður kringum fjandkonu alls jarðargróða, og hlustuðu á sögu hennar.

Þerrinornin ræskti sig og kröngladist upp á brunngrindurnar og settist þar. Síðan hóf hún sögu sína.

„Í Medíu er bær sá, er Gabes heitir, rétt við jaðarinn á eyðimörkinni og hefir mér oft þótt gott að hafa þar hæli. Fyrir mörgum árum áttu þar heima þrír menn, sem voru frægir fyrir speki sína. Þar að auki voru þeir örsnauðir, en það var óvenjulegt í Gabes, því þar var fróðleikur í heiðri hafður og vegur til auðlegðar. En hvað þessa menn snerti, gat því naumast verið öðruvísi varið, því einn þeirra var afar gamall, annar þjáður af líkþrá og hinn þriðji var þykkvaraður Svertingi. Álitu menn hinn fyrsta of gamlan til þess að kenna sér nokkuð. Hinn annan forðuðust þeir af ótta við sjúkdóm hans, og hinn þriðja vildu þeir ekki hlusta á, af því að þeir þóttust vita, að aldrei hefði speki komið frá nokkrum svertingja.

Þessir þrír vitringar báru óhamingju sína í félagsskap. Þeir báðust ölmusu á daginn við sama musterisportið, og sváfu á nóttinni á sama þakinu. Á þennan hátt fengu þeir þó að minnsta kosti tækifæri til að íhuga í sameiningu alt það, sem undrunarvert er hjá mönnunum og heiminum yfir höfuð að tala.

Eina nótt sem oftar sváfu þeir á þaki einu og var það algróið rauðum svefnjurtum; vaknaði þá sá elzti þeirra, en naumast hafði hann litið upp, fyr en hann vakti báða hina.

„Lofuð veri fátækt vor, sem neyðir oss til, að sofa undir berum himni“, mælti hann. „Vaknið og lyftið augum yðar til himins.“

„Sjáið þið nú!“ mælti Þerrinornin með dálítið blíðari rödd. „Þetta var nótt, sem enginn sá gleymir, er séð hefir. Það var svo bjart, að þó himininn sýnist vanalega

eins og föst hvelfing, var nú svo að sjá, sem hann væri gagnsær og ljósið flóði um hann eins og öldur á hafi, og í hafi þessu köfuðu stjörnurnar, á ýmsu dýpi, sumar innan um öldurnar, en aðrar uppi á öldutoppunum.

En langt í burt og hæst uppi sáu þessir þrír menn dálítinn skugga koma í ljós. Og þessi skuggi fór í gegnum himingeiminn eins og kólfi væri skotið, og varð smámsaman bjartari eftir því, sem hann færðist nær, unz hann var orðinn eins og rós — sem ég vildi að guð léti visna — þegar hún breiðir út blómknapp sinn. Ljóshnötturinn varð stærri og stærri, dimma hylkið utan um hann rofnaði smám saman og ljósið braust út eins og fjögur blöð, sitt í hverja áttina. Loks var hnötturinn kominn niður á meðal stjarnanna, og þar staðnæmdist hann. Dimm blöðin hurfu og þarnæst sprakk út hvert rósrauða ljósblaðið af öðru, unz hnötturinn var orðinn að undurfagurri stjörnu á himninum, sem ljómaði skærar en allar aðrar.

Þegar fátæku mennirnir sáu þetta vissu þeir af vizku sinni, að á sömu stundu fæddist voldugur konungur á jörðinni og að hann mundi verða voldugri en allir aðrir konungar heims fyr og síðar. Sögðu þeir þá hver við annan. „Látum oss fara til hins nýfædda barns og foreldra þess og segja þeim, hvað vér höfum séð. Það er ekki ómögulegt að þau launi oss það með pyngju fullri með gullpeningum eða dýrmætu armbandi.“

Að svo mæltu tóku þeir löngu göngustafina sína og lögðu af stað. Þeir gengu gegnum borgina og út úr borgarhliðunum, en þá vissu þeir ekki í svipinn hvert halda skyldi. Því nú sáu þeir stóru, þurru fallegu eyðimörkina fram undan sér, sem mennirnir hafa svo mikinn ýmigust á. En þá sáu þeir alt í einu hvar stjarnan varp mjóum ljósgeisla yfir sandana á eyðimörkinni. Héldu þeir þá hugglaðir áfram ferð sinni eftir því, sem stjarnan leiðbeindi þeim.

Alla nóttina gengu þeir yfir stóru, víðáttumiklu sandsléttuna, og töluðu um ekkert annað en nýfædda konunginn, sem þeir mundu finna sofandi í vöggu úr gulli og gimsteinum setta. Þeir styttu sér stundir með því, að tala um, hvernig þeir skyldu haga sér þegar þeir gengju fram fyrir konunginn föður haps og drotninguna, móður hans, um leið og þeir segðu þeim, að frá himnum kæmi það fyrirheiti, að sonur þeirra mundi öðlast kraft og veldi, fegurð og hamingju enn þá meiri en Salómon.

Þeir voru drembnir yfir því, að Guð hafði kallað þá til þess, að sjá stjörnuna. Þeir sögðu sín í millum, að foreldrar nýfædda barnsins mundu engan veginn launa sér með minnu en tuttugu pyngjum gullpeninga, og of til vill mundu þau gefa sér svo mikið, að þeir yrðu ekki varir við fátækt framar.

„Ég lá í leyni í eyðimörkinni eins og ljón,“ mælti Þerrinornin, og ég hafði í hyggju, að ráðast á þessa ferðamenn og kvelja þá til dauða með þorsta, en þeir forðuðust mig. Stjarnan leiðbeindi þeim á hverri nóttu. Þegar lýsti af degi og aðrar stjörnur fölnuðu á himninum, sást hún ein eftir og lýsti yfir eyðimörkina, unz þeir voru komnir í grasey, þar sem þeir fundu uppsprettur og tré, er svignuðu undir þunga ávaxtanna. Þar áðu þeir á daginn og lögðu ekki af stað aftur fyr en þeir sáu stjörn-

una á ný á kvöldin, þar sem hún skein yfir eyðimörkina.

„Þetta var allra skemtilegasta ferð eftir mannanna dómi,“ mælti Þerrinornin ennfremur. „Stjarnan leiðbeindi þeim þannig, að þeir liðu hvorki hungur né þorsta. Hún leiðbeindi þeim utan við hvössu þistlana, hún forðaðist lausa roksandinn, og henni var það að þakka, að þeir stiknuðu hvorki af sólarhita né þjáðust af brennheitum eyðimerkurstormum. Og vitringarnir sögðu oft innbyrðis: „Guð gætir vor og blessar ferð vora. Vér erum sendiboðar hans.“

„En smám saman tókst mér þó að ná tökum á þeim“, mælti Þerrinornin enn. „Hjörtu þessara þriggja manna hörðnuðu og urðu eins gróðurlaus og eyðimörkin, sem þeir fóru um. Þeir urðu fullir ofdrambs og ágirndar.“

„Fyrst vér erum guðs sendiboðar“, mæltu vitringarnir enn á ný, „þá launar faðir nýfædda kongsins oss ekki of vel þó hann gefi oss úlfaldalest hlaðna með skíru gulli.“

Loks komust þeir að tilvísan stjörnunnar yfir ána Jórdan og inn á hæðir Júdealands. Og svo stóðu þeir eina nótt rétt fyrir ofan litla bæinn Betluhem, og sáust húsin á lágu fjalli milli grænna olíuviðarlunda.

Vitringarnir gættu að, hvort þeir sæu ekki hallir og kastala, turna og borgarmúra og annað, sem heyrir til aðseturstað konunganna, en þeir sáu ekki neitt þess konar. Stjarnan vísaði þeim meira að segja ekki inn í sjálfan bæinn, heldur staðnæmdist hún yfir helli rétt við veginn. Og stjarnan skein inn um hellismunnan, og þar sáu vitringarnir lítið barn, í skauti móðir sinnar, og var hún búin að svæfa það.

En þótt vitringarnir sæu, að stjörnuljóminn umkringdi höfuð barnsins eins og kóróna, stóðu þeir kyrrir fyrir utan hellismunnan. Þeir fóru ekki inn til þess að spá því, áð þetta litla barn mundi fá konungsvöld og vegsemd. Þeirr sneru burt án þess að gera vart við sig, flúðu frá barninu og gengu niður af fjallinu.

„Erum við ekki komnir til vesalinga, sem eru jafn auvirðlegir og fátækir og vér sjálfir?“ sögðu þeir. „Hefir guð leitt oss hingað til þess, að vér skyldum gera gys að oss sjálfum og spá fjárhirðissyni því, að hann skuli komast til vegs og valda? Þetta barn kemst ekki til æðri stöðu en að gæta hjarðanna hérna í dölunum.“

Þerrinornin þagnaði um stund og kinkaði kolli átakanlega framan í tilheyrendur sína, eins og hún væri að segja: „Hefi ég ekki rétt fyrir mér? Er ekki það til, sem er þurrara en sandur eyðimerkurinnar? En ekkert er svo hrjóstugt sem hjörtu mannanna.“

Þerrinornin hélt svo áfram sögu sinni. „Vitringarnir höfðu ekki gengið lengi, áður þeir komust á þá skoðun, að þeir hefðu vilst, og ekki fylgt stjörnunni rétt. Og þeir litu til himins til þess að finna aftur stjörnuna og leiðina. En þá var stjarna sú horfin af himninum, sem hafði vísað þeim til vegar alla leið úr Austurlöndum“.

Vitringarnir skulfu af sálarangist og var hægt að sjá þan í útliti þeirra.

Mennirnir gleðjast ef til vill af því hvernig fór. Því þegar vitringarnir sáu ekki stjörnuna lengur, sáu þeir þegar, að þeir höfðu syngað gegn guði, og það fór fyrir

þeim eins og jörðunni þegar steypiregn kemur,“ mælti nornin og hrollur fór um hana. Þeir titruðu af ótta eins og þeir væru staddir innan um þrumur og eldingar, hjörtu þeirra mýktust og auðmýktin spratt upp í huga þeirra eins og grængresið á jörðunni.

Í þrjá daga og þrjár nætur ráfuðu þeir um og leituðu barnsins, sem þeir áttu að tilbiðja. En stjarnan sást ekki og þeir urðu æ viltari og fyltust sorgar og örvilnunar. Þriðju nóttina komu þeir að þessum brunni og ætluðu að fá sér að drekka. En þá hafði guð fyrirgefið þeim synd þeirra og þegar þeir beygðu sig niður að vatninu, sáu þeir þar spegilmyndina af stjörnunni, sem hafði vísað þeim veginn úr Austurlöndum.

Í sama bili sáu þeir stjörnuna einnig á himninum og hún vísaði þeim á ný að hellinum hjá Betlehem og þeir krupu á kné fyrir barninu og sögðu: „Vér færum þér gullskálar, fullar reykelsis og dýrmætrar myrru. Þú skalt verða hinn mesti konungur, sem lifað hefir á jörðunni alt í frá heimsins sköpun og til veraldarinnar enda.“ Þá lagði barnið hönd sína á höfuð þeirra, þar sem þeir krupu fyrir því, og þegar þeir litu upp sáu þeir, að það hafði gefið þeim dýrmætari gjafir, en nokkur konungur mundi hafa getað gefið. Því gamli beiningamaðurinn var orðinn ungur, sá líkþrái heill heilsu og sá svarti fagur hvítur maður. Og sagan segir, að þeir hafi orðið konungar í sínu ríkinu hver.“

Þerrinornin hafði nú lokið sögu sinni, og aðkomumennirnir dáðust að henni: „Þú hefi sagt vel frá,“ sagði einn þeirra, „en mig furðar á því, að þessir þrír vitringar hafa engu launað brunninum, sem sýndi þeim stjörnuna. Hafa þeir öldungis gleymt slíkum velgjörning?“

„Ætti ekki brunnur þessi að standa til eilífðar?“ mælti annar, „til þess að minna menn á, að það, sem glatast á hæðum drambseminnar finst aftur í djúpi lítilætisins.“

„Eru þeir burtsofnuðu lakari en hinir lifandi?“ mælti hinn þriðji. „Deyr þakklátssemin hjá þeim, sem komnir eru í Paradís?“

Í því hann sagði þetta spratt Þerrinornin upp og rak upp hátt óp. Hún þekti aðþekti aðkomumennina, hún sá hvers konar ferðamenn þetta voru. Hún flúði burt eins og hún væri orðin vitstola, svo hún sæi ekki, að vitringarnir létu þjóna sína teyma úlfaldana að brunninum, og taka þar af þeim byrðarnar, sem voru eintómir vatnsbelgir, og að þeir fyltu brunninn, sem var að þorna upp, með vatninu, sem þeir höfðu komið með úr Paradís.

## Alvarleg orð.

Að selja áfenga drykki er að selja sjúkdóma.

Að selja áfenga drykki er að selja fátæktina.

Að selja áfenga drykki er að selja sinnisveiki.

Að selja áfenga drykki er að selja glæpi.

Að selja áfenga drykki er að selja dauðann.

B. W. Richardson,
nafntogaður enskur læknir og vísindamaður.

## Svikarinn mikli.

Gamall heiðvirður prestur Dr. Theo. L. Cuyler skrifar þannig:

Hinir mörgu frægu forvígismenn bindindismálsins deyja, en það er eptir einn, sem talar með lúðurhljómi og heldur áfram að hringja herklukku sinni í hverju því húsi, þar sem biflían er. Það er predikarinn mikli sem talar tungu drottins þannig: „Horfðu ekki á vínið, hve rautt það er, hvernig það sýnist eins og perlur í bikarnum, og hversu það rennur ljúflega niður, seinast bítur það sem höggormur og stingur sem naðra.“

Slöngueðli allra áfengra drykkja kemur í því, hve tælandi þeir eru. „Vínið er spottari.“ Drykkjumaðurinn ímyndar sér að vínglasið styðji sig og heilsu sína. En í stað þess örvar það hann augnablik, en svo verður hann því daufari á eftir. Þúsundum saman drekka menn brennivín af því, að þeir halda, að þeir fái betri meltingu og matarlyst. Og eg hef þekt menn, sem hafa tælt þannig sjálfa sig eftir að vínið hefir eyðilagt í þeim magann.

Ötuli og þolni ferðamaðurinn og trúboðinn Livingstone, sem ferðaðist um Afríku, og sem var læknir, segir, að hann hafi því að eins getað þolað örðugleikana á ferðum sínum með því, að drekka að eins vatn.

Eg hefi einu sinni átt tal við heimskautaferðamanninn Nansen, og þakkaði honum fyrir, að hann hefði lýst yfir því opinberlega, að hann hefði ekki notað vín handa sér og mönnum sínum á ferð sinni yfir Grænland, því það mundi hafa valdið sér og þeim tjón.

Annað hættulega eðlið við áfenga drykki er það, að sá, sem neytir þeirra sækist eftir þeim meir og meir, og það áður en menn vita af. Sérhvert staup vekur löngun í annað til. Eitt glas af vatni eða mjólk slökkur þorstann. Eitt glas af vínföngum eykur þorstann.

Ungur maður sagði við vin sinn þessum orðum: „Þessi voðalegi drykkur hefir eytt öllum peningum mínum, farið með heilsu mína og nærri drepið foreldra mína. Bráðum mun hann líka drepa mig. Ég veit það, en þó er eg svo sólginn í hann, að ég get ekki hætt við hann.“

Og hann hætti ekki.

Hann hefir víst ekki hugsað, þegar hann drakk fyrsta staupið, að hann mundi enda á því að verða vesalings ofdrykkjumaður.

---

Hvað eru þau mörg, börnin, sem lesa „Æskuna“, sem eru bindindismenn, sem langar til að vera bindindismenn héðan í frá, og sem vilja hjálpa til þess, að gera aðra að bindindismönnum? — Pið getið varla gert meira gagn á ykkar aldri en varna leikbræðrum yðar frá því, að verða drykkjumenn.




**„ÆSKAN“**

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 23. MAÍ. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 14.—15.




## Vitringarnir úr Austurlöndum.

**(Matth. 1. 1—11.).**

„Vér höfum séð hans stjörnu í Austurlöndum, og erum komnir til að veita honum lotningu.“

Og þeir færðu því gjafir, gull, reikelsi og myrru.

## Barnabæn.

Ó, FAÐIR, gjör mig lítið ljós
um lífs míns stutta skeið
til hjálpar hverjum hal og drós,
sem hefir vilst af leið.

Ó, faðir, gjör mig blómstur blítt,
sem brosir öllum mót,
og kvíðalaust við kalt og hlýtt
er kyrt á sinni rót.

Ó, faðir, gjör mig ljúflingslag,
sem lífgar hug og sál,
og vekur sál og sumardag,
en svæfir storm og bál.

Ó, faðir gjör mig styrkan staf,
að styðja hvern, sem þarf,
unz alt það pund, sem guð mér gaf,
eg gef sem bróður arf.

Ó, faðir, gjör mig sigursálm,
eitt signað trúarlag,
sem afli blæs í brotinn hálm
og breytir nótt í dag.

*Matth. Jochumsson.*

# Þrjár gjafir.

Eftir.

D. L. A. Jepsen.

Þetta er sagan af þremur gjöfum.

Í litlu þorpi, á bökkum mikillar elfar bjó fyrir mörgum árum gamall maður með konu sinni. Þau áttu eitt barn, lítinn dreng, að nafni Gortó.

Þau voru mjög fátæk, svo fátæk, að fáa fýsti að hafa kynni við þau; og þeir, sem komu til þeirra einu sinni komu sjaldan aftur.

Þetta var einkannalegt gamalt fólk, fult af forynjulegum ímyndunum og draumum fornra tíða. En þau unnu hvort öðru og elskuðu litla drenginn og Elfuna miklu fremur öllu öðru í heiminum.

Þau unnu hvort öðru; því að höfðu þau eigi þegar lifað svo lengi saman, að tala. hinna líðandi ára var gengin í gleymzku?

Þau elskuðu litla drenginn, — var hann ekki einka barnið þeirra? Og þeim þótti vænt um Elfuna miklu, því að hafði hún ekki brosað með þeim í æskunni, hlegið með þeim í gleðinni, grátið með þeim í tárunum? hafði hún ekki verið vina þeirra — hver veit hvað lengi, lengur en minni mundi.

Og Gortó litla þótti líka vænt um Elfuna miklu. Aldrei var hann ánægðari en þá er hann horfði á hringiðurnar líða og starði á litlu gárana, sem brostu við honum og hvísluðu:

„Hlæðu, litla barn, komdu að leika við okkur; náðu okkur, ef þú getur!“

Og hann reyndi það, og reyndi alt hvað hann gat, en gárakrýlin svipuðust fram hjá honum og hvísluðu hvert um sig, er þau liðu hjá:

„Hlæðu, litla barn, komdu að leika við mig; náðu mér, ef þú getur!“

Og liðlangan daginn liðu þau svona, en aldrei fékk litli Gortó handsamað eitt.

---

Einn dag, að kveldi, þegar Gortó hafði gert alt sitt hið sárasta til þess að ná, þó ekki væri nema einu gárukrýli, og var að fara inn í kotið, þar sem þau öll þrjú áttu heima, kallaði faðir hans á hann:

Gortó, komdu inn, barnið mitt!“

Gortó gekk innar og sá þar föður sinn liggjandi grafkyrran í rúminu, kominn að andláti.

Hinn gamli maður tók fram eyri gulls og fjekk drengnum og sagði:

„Þetta er alt, sem eg hefi til að gefa þér, geymdu það og gættu þess vandlega, að þú eigi missir það einhvern tíma, því að ef það einu sinni týnist, kynni svo að fara, að það kæmi aldrei í eigu þína aftur,“

Hann kysti son sinn, og drengurinn grét, því að nú vissi hann að faðir hans var dáinn.

Þá kallaði móðir hans á hann:

„Gortó, komdu hérna, barnið mitt!“

Og hann gekk til hennar. Og hún mælti, — og tárin féllu títt:

„Faðir þinn er dáinn; mér var hann heimurinn allur og því er líf mitt liðið með honum. Taktu þetta; það er alt, sem ég hefi til að gefa þér; geymdu það og gættu þess vandlega, því að ef það einu sinni týnist, kynni svo að fara, að það kæmi aldrei í eigu þína aftur.“

Og hún gaf honum eyri silfurs. — —

Nú gekk Gortó litli hljótt út úr kotinu, burt frá heimili sínu og varp sér niður við Elfuna miklu og grét eins og hjartað ætlaði að springa. En Elfan mikla, móðir gáranna, huggaði hann og bað hann eigi gráta, heldur fara út í víða veröld, vaxa upp og verða góður maður.

Um leið og hún sagði þetta, gaf hún honum korn elskunnar.

Þá sofnaði litli Gortó.

Þegar hann vaknaði, var komin dagur; litlu fuglarnir voru að syngja morgunsönginn og blómin að leika sér í árdögginni.

Og Gortó tók eyri sinn af gulli og eyri sinn af silfri; en korni elskunnar gleymdi hann. Og nú lagði hann með léttu hjarta af stað í ferð sína um víða veröld.

Hann fór um mörg lönd og margar borgir, og árin voru honum unaðsleg; allir voru góðir við hann og yndi beið hans hvar sem hann fór; því að hafði hann ekki eyri sinn af gulli og eyri sinn af silfri?

Og þannig hélt hann áfram, unz hann var vaxinn maður; gerði hann sér lífið glatt og að lokum þótti honum sem eigin sæla væri heimsins mesta hnoss; — því að hann mundi aldrei eftir korni elskunnar, sem hann hafði skilið eftir hjá Elfunni miklu, móður gáranna.

Nú var hann orðinn mikill maður vexti og fríður sinum og brosið skein sífelt úr augum hans. Var hann þá á gangi einn dag, hugsandi að eins um sínar eigin vonir og óskir, og kom þá að stórri borg. Hann spurði þá, er hann mætti, hver borg sú væri, og sögðu þeir honum að hún væri Gullinborg kölluð. Gekk hann þá inn um Munarhliðið (eða Unaðshliðið).

Og er hann gekk fram, kom hann að glæstri, gullbúinni höll, þar sem margir af búum Gullinborgar voru saman, hlæjandi, dansandi, syngjandi, etandi og drekkandi.

Og hann hugsaði með sér: Þetta er staðurinn, hér vil ég búa. Settist hann þar að og tóku þeir honum vel: hlæjandi með honum, dansandi með honum, syngjandi með honum, etandi og drekkandi með honum, gerðu honum lífið svo ljúft, að hann hugðist mundi dvelja þar til æfiloka (eða dánardægurs).

Þannig liðu nokkur ár, en þá tók honum að leiðast allar unaðssemdir Gullinborgar, — þótt kynlegt þyki frásögu.

Hann tók ógleði og sagði við sjálfan sig: „Hér get eg eigi dáið, því að hér líður mér svo illa, þar sem eg hafði búist við að verða svo sæll.“

Og hann grét:

„Eg fer burt, eg skil við þessa gullnu borg og hennar vitfirringslega unaðarsoll.“

Og hann fór burt aftur út í heiminn.

Nú var hann næsta vansæll (eða óglaður) — vansæll, því að hann hafði vaknað af fyrsta draumi lífs síns og vissi, að hann varð að hefja ferðina að nýju; því að aldrei verður snúið aftur á leið lífsins.

Áfram varð hann að halda, áfram, með að eins einn eyri silfurs; því að gulleyri sínum hafði hann eytt í hinni gullnu borg.

Gekk hann nú lengi, lengi, unz hann kom eftir marga daga til annarar borgar. Hann spurði þá, sem hann mætti, hvað borg sú héti og þeir sögðu honum það og mæltu: „Þetta er Silfurborg.“ Gekk hann þá inn um Þekkingarhliðið.

Og hann hélt áfram unz hann kom að

stórri silfurhöll, þar sem allir hinir lærðu menn og allar hinar lærðu konur (því að lærðar konur voru til enda á dögum Gortós) voru saman á fundi; og mikill unaður var að þekking þeirra: nemandi, kennandi, rannsakandi, ræðandi.

Og Gortó sagði við sjálfan sig: „Í skemtun er engin sönn sæla; þetta er staðurinn, hér vil eg búa.“ Og þeir tóku honum vel: nemandi með honum, kennandi honum, rannsakandi með honum, ræðandi við hann, — gerðu honum lífið svo ljúft að hann hugðist mundi dvelja þar til æviloka.

Á þennan hátt liðu nokkur ár og þó var hann ekki sæll maður. Og fyrir því fór hann aftur á burt út í heiminn.

Nú var hann sannlega vansæll, því að hann hafði vaknað af tveimur draumum lífs síns og fann nú að eins, að hann var á ungum aldri sviftur gulli sínu og silfri.

Hann reikaði burt frá Silfurborg og vissi ekki hvar hann fór, skeytti engu, vonaði einskis, unz að lokum hann þraut gangan, svo að hann hné niður. Grét hann nú beisklega, eins og hann hafði grátið áður við Elfuna miklu, móður gáranna.

Og er hann grét, sá hann í leiðslu líf sitt líða hægt fram hjá: hann sá árin, sem hann hafði eytt í Gullinborg, — árin, sem hann hafði glatað i Silfurborg; hann sá bernsku sina, bjarta vonum, líða yfir í unglingsárin; hann sá enn einu sinni kotið við Elfuna miklu; hann sá foreldra sína deyja, sá gjafirnar, sem þau gáfu.

En, — hvað er þetta? Eitthvað hjá Elfunni miklu; — hann getur ekki áttað sig á því; — jú, það er, það er . . . . .

Nú tók hann grátekki svo mikill, að örmagna líkaminn titraði inn að lífsins instu rótum og í því raknaði hann við og mundi eftir korni elskunnar, sem hann hafði skilið eftir á bakka Elfunnar miklu, móður gáranna, fyrir svo langa löngu.

Gortó stóð hægt upp, skjálfandi á fótum, skögraði áfram og varð magnlausari í hverju spori.

Gæti hann að eins komist til móðurinnar miklu, þá kynni hann enn að að fá þrýst korni elskunnar að þjáðu hjarta.

Hann skjögrar nú áfram fet fyrir fet, örmagna af hungri og þorsta; það er eins og hann geti með engu móti komist lengra, en hljóti að hníga þarna út af og deyja, — og hafa aldrei þekt hið eina, sem veitir mannlífinu sannan unað: hina alvirku hugsjón elsku og ósérplægni.

Hann streitist áfram fáein fet enn, en hnígur þá niður og um leið og hann dettur, snertir hönd hans Elfuna miklu og nú loks hefir hann náð einu gárukrýlinu. Í þessum litla gára finnur hann elskunnar korn, sem Elfan mikla, móðir gáranna, hafði gæzkutrygg geymt honum svo lengi.

Þetta korn elsku, elsku til allrar skepnu, sem upprætir hvert gróm sjálfselsku og sérplægni, færði með sér margfalda blessun, þótt seint væri sáð í líf Gortós. Það færði það, sem hvorki lystisemdir né lærdómur gátu veitt, — því að það veitti honum sanna sælu: hans eigið líf og óskir lögð í sölur fyrir velferð annara.

Gortó glataði eyri sínum af gulli, eyri sínum af silfri, bernsku sinni og æsku, en hann fann það, sem hann leitaði að, — styrk til þess að breiða út farsæld, elsku og frið meðal allra, sem hann átti við að

sælda: elskukornið, sem Elfan mikla, móðir gáranna, gaf honum.

Þetta er sagan af þremur gjöfum.

(Snúið úr ensku af E.+H.)

---

# Furan.

Æfintýri eftir H. C. Andersen.

(Endir.)

„Hvaðan kemur þú?“ spurðu mýsnar, „og hvað vilt þú?“ Þær voru svo fádæma forvitnar. „Segðu oss af fallegasta staðnum á jörðinni. Hefir þú komið þangað? Hefir þú komið í búrið þar sem osturinn liggur á hyllunni og svínslærin hanga uppi í loftinu, þar sem dansa má á eintómum tólgarkertum, og þar sem sá fer feitur út sem kom horaður inn?“

„Ekki hefi ég verið þar,“ mælti tréð, „en ég þekki skóginn, þar sem sólin skín, og fuglarnir syngja,“ og svo sagði það allar sögurnar frá æskuárum sínum og litlu mýsnar höfðu aldrei heyrt þvílíkt fyr og þær hlustuðu og sögðu: „Nei, en hvað þú hefir séð margt! en hvað þú hlýtur að hafa verið ánægð!“

„Ég!“ mælti tréð og hugsaði um það, sem það var sjálft að segja frá. „Já það var nú í rauninni allra skemtilegasti tími“. — og svo sagði það frá aðfangadagskvöldinu þegar það var skreytt með kökum og kertaljósum.

„Nei,“ æptu mýsnar, „en hvað þú hefir átt gott, gamla mín!“

„Eg er alls ekki gömul“, mælti furan. „Það var í vetur, sem eg kom úr skóginum. Eg er á allra bezta aldri þó eg hafi ekki vaxið í vetur.“

„En hvað þú segir gullfallegar sögur,“ sögðu litlu mýsnar og nóttina eftir komu þær með fjórar aðrar mýslur, sem vildu líka fá að heyra tréð segja frá sögum sínum, og því fleiru sem það sagði frá, þess greinilegar mundi það sjálft eftir öllu og það hugsaði með sér: „Það var nú í rauninn allra skemtilegasta ævi, en þessir tímar geta komið aftur! Klumpi Dumpi datt ofan stigann og fékk þó konungsdótturina, hver veit nema eg fái líka konungsdóttur“, og svo fór tréð að hugsa um litla og ljómandi fagra björk, sem óx inni í skóginum og því fanst hún vera allra inndælasta konungsdóttir.

„Hvað er Klumpi Dumpi?“ spurðu mýslurnar. Og svo sagði furan þeim alt æfintýrið; það mundi hvert einasta orð, og litlu mýsnar voru komnar að því, að hlaupa upp í toppinn á trénu af einberri ánægu. Nóttina eftir komu enn fleiri mýs, og á sunnudaginn komu jafnvel tvær rottur; en þær sögðu að sagan væri hreint ekki skemtileg, og þetta þótti mýslunum leitt, því nú fanst þeim miklu minna til sögunnar koma.

„Kantu ekki nema þessa einu sögu?“ spurðu rotturnar.

„Ekki nema þessa einu,“ svaraði tréð, „ég heyrði hana kvöldið sem mér hefir liðið bezt á ævi minni, en þá hugsaði ég hreint ekki um hvað ánægð eg var.“

„Þetta er hræðilega léleg saga. Kantu enga sögu um flesk og tólgarkerti? Kantu ekki neina búrsögu?“

„Nei,“ svaraði tréð.

„Jæja, vertu þá sæl!“ mæltu rotturnar og smugu inn í holur sínar.

Mýslurnar höfðu sig líka smám saman á

burt og þá andvarpaði tréð. „Þetta var svo skemtilegt þegar þær sátu í kring um mig, aumingja litlu mýsnar, og hlustuðu á söguna sem eg sagði þeim. En nú er úti með það líka! — En eg skal muna eftir að skemta mér þegar eg kemst aftur undir beran himin!"

En nær varð það? — Jú það var einn morguninn að fólkið kom og fór að taka til á loftinu. Kassarnir voru fluttir og svo var tréð dregið út úr skotinu; því var reyndar kastað nokkuð hart eftir gólfinu, en svo dró einn vinnumaðurinn það út að stiganum, og þá komst það út í dagsbirtuna.

„Nú byrjar lífið á ný!" hugsaði tréð. Það fann, að það var komið í ferskt og hreint loft, það fann fyrsta sólargeislann, sem skein á það, — og alt í einu var það komið út í garðinn. Þetta gerðist í slíku hendingskasti, að tréð gleymdi alveg að skoða sig sjálft; það var svo margt að sjá alt í kring. Aldingarður la við hliðina á garðinum, og stóð hann allur í hinum fegursta blóma. Rósir allavega litar og ilmandi héngu út yfir grindurnar, linditrén glóðu öll i blómskrúði og svölurnar sungu: „Kvirre, virre vit, maðurinn minn er kominn!" en það var ekki tréð, sem kom úr skotinu, sem þær áttu við.

„Nú byrjar lífið og gleðin og nú skal eg skemta mér!" mælti tréð og breiddi greinar sínar út i allar áttir, en þær voru nú allar orðnar gular og fölnaðar og það lá í garðinum innan um netlurnar og illgresið. Gullpappírsstjarnan var enn þá í toppi þess og glóði á hana í glaða sólskininu.

Tvö fjörug börn voru að leika sér í garðinum, og höfðu þau dansað í kringum tréð um jólin og haft afarmikið gaman af því. Annað barnið hljóp að trénu og reif af því pappírsstjörnuna.

„Nei, sjáðu hvað enn þá er eftir á gamla ljóta Jólatrénu," mælti drengurinn og sparkaði ofan á greinarnar svo það brakaði í þeim undir fótum hans.

Og tréð sá alt blómskrúðið og lífið í aldingarðinum rétt við hliðina á sér, og svo leit það á sig sjálft, og það óskaði sér að vera komið aftur upp í skotið á loftinu þar sem það hafði verið um veturinn; það hugsaði um æskulíf sitt í skóginum og fjörið þar, um glaðværðina á aðfangadagskvöldið og mýslurnar, sem þótti svo mikið gaman af að heyra söguna um Klumpa Dumpa.

„Það er úti með það alt," mælti aumingja tréð. „Betur að eg hefði skemt mér og verið ánægð, meðan tími var til, en nú er það ofseint, það er búið, alt saman búið."

Þá kom vinnumaðurinn og kurflaði tréð upp til agna, svo ekki sást nema einber kurflahrúgan eftir; og það var látið í eldinn og það blossaði upp undir pottinum, og það andvarpaði svo þungan, að hvert andvarp varð eins og dálítið skot, og börnin hættu að leika sér, hlupu inn, settust fyrir framan eldinn og sögðu: „pif paf", eins og snarkið í loganum; en tréð hugsaði um sumardag úti í skóginum og um eina vetrarnótt þar, þegar stjörnurnar skinu sem allra skærast; það hugsaði um aðfangadagskvöldið og um hann Klumpa-Dumpa, eina æfintýrið, sem það hafði heyrt og kunni að segja frá — og svo var tréð brent upp til ösku.

Drengirnir léku sér í garðinum og sá minni var með gullpappírsstjörnuna á brjóstinu, sem tréð hafði borið, kvöldið þegar það var allra ánægðast; en nú vat þetta úti, og þau var búið með tréð og söguna, alt saman búið, og þannig fer það með allar sögur.

## Salómonsdómur.

(eftir L. M. Liljen.)

Það bar við í bæjarþorpi í Galizíu fyrir 40 árum.

Reb. Schumel mætti Reb. Manasse á förnum vegi:

„Schulem aleichem,“ sagði Reb. Schumel og Reb. Manasje svaraði: Aleicheim schulem.“

„Hvert er ferðinni heitið?“ spurði Reb. Schumel. „Hvert ferðinni er heitið?“ til Brody,“ svaraði Reb. Manasse. Reb. Schumel gladdist mjög yfir þessum fundum þeirra, því hann átti einmitt erindi til Brody. Hann ætlaði að senda konunni sinni, henni Esther, 50 gyllini; en hann trúði póstinum ekki sem bezt fyrir peningunum. Hann bað þess vegna Reb. Manasse að færa Esther peningana.

„Jú, með ánægju svaraði Reb. Manasse. En hann vildi fá helminginn af peningunum fyrir ómakið. „Skyldi hann vera með öllum mjalla,“ hugsaði Reb. Schumel; hann vildi gefa honum eitt gyllini, en ekki einum skilding meira. Manasse ypti öxlum. Hann þóttist vilja fá eitthvað fyrir ómak sitt. Nú kom Reb. Schumel ráð í hug. Hann fekk Manasse gyllinin með þessum orðum.

„Skilaðu Esther svo miklu sem þér þóknast.“ En á öðru leytinu skrifaði hann konu sinni, að hún skyldi snúa sér til rabbíans, ef Reb. Manasse ætlaði að hafa of mikið af henni.

Manasse var 3 daga á leiðinni. Þegar hann kom til Brody bar hann Esther kveðju frá manni hennar og skýrði henni frá með hverjum hætti Schumel hefði sent henni peningana og sagt; „Skilaðu Esther svo miklu, sem þér þóknast.“ Hann fekk Esther nú 1 gyllini, en stakk 49 í eigin vasa.

Esther hrópaði nú upp yfir sig: „Ræningi, þjófur, svikahrappur! Skilaðu mér þegar í stað öllum 50 gyllinunum.“ Reb. Manasse svaraði: „Eg læt þig fá svo mikið af því, sem mér lízt.“ Þá fór Esther til rabbíans.

Gráskeggjaði öldungurinn spurði um alla málavöxtu. Reb. Manasse skýrði honum einkar ýtarlega frá öllu og tilfærði orð Schumels: „Skilaðu Esther svo miklu sem þér þóknast.“

Hér var nú úr vöndu að ráða. Rabbíinn strauk skeggið, en hjarta Esther barðist ótt og títt af kvíða.

Loks þóttist rabbíinn hafa ráðið fram úr þessum vandræðum og segir: „Jæja, Manasse minn, segðu mér hversu mikið þú vilt fá af peningunum?“

„Fjörutíu og níu gyllini.“

„Það sem þér viljið, að mennirnir geri yður, heldur Rabbíinn áfram, það skuluð þér og þeim gera.“ Skilaðu þess vegna Esther þessum fjörutíu og níu gyllinum, sem þú vildir láta renna í þinn eigin vasa.“

Reb. Manasse reif hár sitt, sór og bölvaði og bað Rabbíanum allra ógna, en það kom fyrir ekki. Peningana varð hann að láta af hendi.

Gyðingar í Brody lofa Rabbíann Isaak Hazadok enn í dag fyrir vizku hans og kalla hann Isaak „hinn réttláta.“ X þýddi.

# Bezta gjöfin.

**Æfintýri eftir Söru Bernhardt.**

---

Allar örlagadísirnar stóðu í hóp í kring um barnsvögguna. Foreldrarnir stóðu til hliðar með mestu lotningu og hlustuðu á, og furðuðu sig á fyrirheitunum, sem þær gáfu hver af annnari.

„Barn, þú skalt verða fagurt, fallegt í vexti og með fögrum limaburði!“

„Þú skalt á síðan bera gylta kórónu!“

„Þú skalt verða hetja. Múgurinn skal kveða um þig lof og dýrð og spenna sjálfan sig fyrir vagn þinn, drukkinn af guðmóði. Þegar orð þín heyrast skulu allir annaðhvort hoppa upp af gleði eða falla til jarðar af örvilnun. Þeir skulu skjálfa af ótta eða titra af unaði.“

„Skáldin skulu leggja perlur listar sinnar fyrir fætur þér. Tónskáldin skulu láta veglegustu söngvana sína í munn þeirra, sem syngja lofið um þig!“

„Inndælar konur skulu elska þig hundruðum saman!“

„Eitur og rýtingar skulu þér ekki granda!“

„Frægð þín skal kveða við á hinum hæstu fjallatindum og dynja í hinum dýpstu fylgsnum hafsins.“

Móðirin féll á kné og þakkaði nornunum fyrir þessar góðu gjafir þeirra.

Í sama bili var hurðinni hrundið upp með harki miklu og ódauðleikans dís kom inn.

Hún talaði á þessa leið:

„Eg get ekki tekið aftur gjafir systra minna, en eg verð að muna þeim það, að þær mundu ekki eftir mér. Heyrið nú það, sem eg segi yður: Gylta kórónan hans skal vera úr pappír. Hann skal hlægja og gráta, og hann skal elska — en ávalt eftir skipunum annars. Þeir, sem kalla til hans með fagnaðarópum skulu neita honum um þá virðingu, sem óbreyttur vinnumaður fær, sem gjörir skyldu sína. Þjóðin sem hefir tilbeðið hann, skal hrinda honum af stóli frægðarinnar, þegar hann heldur, að hann sé kominn allra hæst, og meðan fagnaðaróp þeirra ómar enn þá í eyrum hans, skulu þeir draga hann um göturnar bundinn við sigurvagn þess, sem þeir hafa gjört að næsta goðinu sínu. Lárviðarkransinn skal visna á höfði hans, vesall skal hann verða, nafn hans verða afmáð, allir skulu gleyma honum og enginn gráta hann, og ekkert merki eða menjar skulu verða til eftir hann.“

Þá kallaði faðirinn upp með skelfingu: „Hvað ætlar þú gera úr honum?

„Hann á að verða leikari.“

— — — — — — — — — — —

Þá gekk helnornin hægt að höfðalagi vöggunnar og mælti meðaumkvunarfull:

„Aumingja barn. Eg skal vernda þig, því eg er þó voldugust þeirra allra. Þessi nýfæddi listamaður skal deyja á þessari stundu og verða grafinn í gleymskunnar djúp!“

---



---

**Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.**

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 17. JÚNÍ. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 16.—17.


## Kínverjar.

Í Austurálfu heimsins, sem við köllum líka Asiu, er ríki eitt, sem Kína heitir, afargamalt, afarstórt, afarmerkilegt og undurskrítið. Það er eitt af stærri ríkjum heimsins. Það er nálægt 200,000 ferhyrningsmílur á stærð og þannig nokkru stærra en öll Evrópa, og meira en hundrað sinnum stærra en Ísland. En Kína er ekki að eins stórt land heldur er það líka eitt lang.þéttbygðasta landið á allri jörðinni, og býr þar nálægt þriðji hver maður, sem til er í öllum heiminum eða yfir 400 miljónir manna. Kínverjar eru í andlitsfalli töluvert ólíkir oss. Kinnbeinin eru hærri, skegg karlmannanna minna og hörundsliturinn gulur. Augun sýnast að vera skökk í höfðinu, sem einkum kemur af því, að augabrýrnar eru skakkar yfir augunum.

Kína er elzta ríkið á jörðinni. Þar voru komin stór ríki meira en 2000 árum fyrir Krists fæðingu, og þar er stunduð akuryrkja, skólar settir og bækur ritaðar meðan vililmenn búa í Norðurálfunni.



Kínversk stúlka.

Kínverjar búa til púðrið 400 árum á undan fæðingu Krists og hafa það fyrst til að búa til skrautelda. En þeir eru farnir að nota það í bardaga meir en 200 árum áður en Ísland bygðist.

Þú þekkir líklega kompásinn, eða að minsta kosti hefirðu heyrt hans getið, og pabbi eða mamma geta sagt þér, hveraig hann lítur út. Hann sýnir í hvaða átt vér förum hvernig sem veður er. Verkfæri þetta fundu Kínverjar upp þúsund árum áður en Kristur fæddist.

Þú veist líklega að silkið í klútnum hennar mömmu þinnar er komið úr þráðum, sem silkiormurinn hefir spunnið úr vörtum á fótum sér. Það voru Kínverjar, sem fyrstir lærðu að nota það, og enn þá er Kína mesta silkilandið í heimi.

Teið, sem vér drekkum af, vex í Kína, og postulíns pörin voru búin þar til fyrir mörg hundruð árum.

Tungumál Kínverjanna er ákaflega ólíkt flestum öðrum tungumálum. Þeir hafa hvert orð þannig að það er alveg óbeyganlegt og ekki nema eins atkvæðis orð. Þeir geta ekki sagt t. d. kött-ur, kett-i, katt-ar o. s. frv., eins og við, heldur yrði orðið að eins kött og ekkert meira, en svo eru höfð önnur jafn stutt orð undan eða eftir, til að sýna hvort kötturinn væri einn eða fleiri o. s. frv.

Kínverjar hafa snemma lært að skrifa, en þeir hafa ekki stafróf a b c eins og við, heldur skrifa þeir sérstakar myndir fyrir hvert orð. Til þess að vera nokkurn vegin læs og skrifandi á kínversku þurfa menn að þekkja um 5000 sérstakar myndir, en sá, sem á að vera fullnuma, verður að kunna marga tugi þúsunda. Orðmyndir þessar eru afarskringilegar, líkt og sperrur og hjólbörur hrúgað saman í alls konar óreiðu, og klútdruslur væru hengdar á þær hér og hvar. Sýnist okkur, sem ekki skiljum í þeim, að skrift þeirra sé óskiljanleg eins og krakkapár. Þeir skrifa ekki eftir línum út á hlið frá vinstri til hægri handar, heldur byrja efst á horni í hægri hendi og skrifa svo línuna niður eftir, og þegar komið er neðst á síðuna er byrjað á næstu línu efst vinstra megin við hina á sama hátt, og svo koll af kolli.

Kínverjar þektu prentlist löngu á undan Norðurálfumönnum, og eiga þeir afargrúa af alls konar fræðibókum.

Þeir voru snemma all lærðir í stjörnufræði, og kunnu að reikna út tunglmyrka fyrir fram, töluvert fyrir Krists fæðingu

Búningur þeirra er all skringilegur í okkar augum, ákaflega víður og er karlmannabúningurinn töluvert líkur kvennpilsum.

Karlmenn eru vanir að raka alt hárið á framanverðu höfðinu, en láta það vaxa að aftanverðu og flétta það. Hangir flétta þessi niður á herðar karlmannanna líkt og á ófermdum stúlkum hérna á Íslandi.

Engin stúlka þykir falleg þar, nema hún hafi ákaflega litla fætur, jafnvel ekki stærri en 8 til 12 vetra gamlar stúlkur hjá okkur. Eru því fætur á stúlkubörnum settar í fótaklemmur, svo þröngar, að fóturinn aflagast og afskræmist og verður loksins ekki nema dálítill hnúður. Einkum er þetta gert á börnum höfðingjanna. Kínverskar konur eiga því ílt með að ganga og höfðingjakonur og dætur eru bornar í burðarstól þegar þær fara út fyrir húsdyr sínar.

Kínverjar eru heiðingjar og trúa ekki eiginlega á neinn guð, en hafa þó mikinn fjölda alls konar skurðgoða.

Helgidaga hafa þeir enga heldur vinna sýknt og heilagt alt árið um kring. Nýárið hjá þeim er í febrúarmánuði.

## Konungurinn og skugginn hans.

Æfintýri eftir

VILHELM ÖSTERGAARD.

Í landi einu, langt, langt héðan ríkti konungur einn fyrir mörgum hundruðum ára, og hélt hann, að hann væri voldugasti konungurinn á jörðunni.

Ríki hans var eitt hið stærsta ríki í

heimi, og þjóð sú einna iðjusömust og mentuðust, er hann átti yfir að ráða. Þar bjuggu vitringar, er sögðu fyrir göngu stjarnanna, og þar voru duglegir borgarar, sem sáu um að verzlunin blómgaðist, og duglegar hendur yrktu jörðina. en listamennirnir reistu fögur minnismerki ýmist með myndum eða ritum, er áttu að segja komandi kynslóðum sögur þessarar hamingjusömu þjóðar og hins volduga þjóðarhöfðingja, sem réði þar ríkjum.

Konungurinn sjálfur ímyndaði sér, að hann hlyti að vera sá hyggnasti og duglegasti allra manna. Honum nægði ekki að vera álitinn mikill hershöfðingi eða vera forseti í samkomu ríkisráðsins eins og honum bar að lögum. — Hann vildi einnig vera fyrstur og fremstur allra í öllu öðru. — Þegar skipin höfðu dregið upp flagg síkisins og lögðu af stað til framandi landa, fermd ríkulegri uppskeru korns og aldina eða hlaðin dýrmætum seðrusviði, silfri og fílabeini, þá ímyndaði konungurinn sér, að þessi blómlega verzlun væri eingöngu að þakka veldi sínu og hyggindum. Og færi hann um landið og sæi frjóva og blómlega akra, eða sæti heima í konungshöllinni og heyrði sagt frá hinum nýju markverðu athugunum vísindamanna landsins, eða dýrðlegu málverkunum og myndastyttunum, sem listamennirnir höfðu búið til, fanst honum einnig, að þetta væri alt sér að þakka. Honum fanst, að það væri ekki nema rétt að hann fengi heiðurinn fyrir þetta alt, því frá honum kæmi alt veldi heiður og vegsemd ríkis síns, enda hafði enginn nokkru sinni mótmælt honum i nokkru einasta atriði.

Konungsætt þessi hafði setið afarlengi að völdum og frægð hennar hafði staðið í mörg hundruð ár. Það var álitið, að þjóð þessari liði mjög vel. Vísindi og fagrar listir, verzlun og akuryrkja voru í meiri blóma en nokkru sinni áður, og þótt skattarnir væru háir, hafði þjóðin efni á að borga þá. Þar hafði líka verið friður í landi um mörg ár, frá því að búið var að bæla undir sig nágrannaþjóðirnar og leggja þær undir sig í mörgum löngum blóðugum styrjöldum, enda var ríkið orðið svo stórt að naumast var hugsandi, að halda stærra ríki saman.

Þegar konungurinn hafði setið að ríkjum í rúm tuttugu ár, tók að brydda á slæmum flokk manna í landinu, er kallaði sig „Þá óánægðu“. Ómögulegt var að segja, hvernig á þeim stóð, eðu hversu flokkur þessi hafði myndast. Þeir fóru fyrst hljóðlega um króka og kima, en smám saman tóku þeir að verða háværari, svo ómögulegt var að byrgja eyrun fyrir þeim. Þetta land hafði jafnan verið álitið hamingjusamasta land í heimi, en nú komu þar alt í einu raddir, sem lýstu yfir því, að þar færi ekki alt fram svo sem vera bæri. Reyndar gæfu akrarnir blómlega uppskeru, en þar væru einnig fátækir daglaunamenn, sem lifðu í eymd og volæði. Ennfremur ætti landið marga lærða menn og hugvitsama listamennn, en fjöldi manna lifði í hjátrú og fáfræði. Þeir óánægðu játuðu reyndar, að þar væru gnægtir alls konar gæða, en þjóðin hefði ekki í heild sinni gagn af þeim.

Kvartanir þeirra óánægðu bárust smám saman til konungshallarinnar, en þá ætlaði hirðin þegar að verða ráðþrota.

Hirðmeyjunum varð svo bylt við og þær

urðu svo reiðar, að þær fellu í ómegin; yfirsiðameistarinn bretti brýrnar, hirðsveinarnir hlógu hæðnislega, og hirðfíflið einn var svo hygginn, að hann lét aftur allar hurðir og alla glugga, svo hinn voldugi konungur skyldi ekki heyra slíkt, sem hlaut að særa huga hans. En í annað sinn möglaði fólkið svo mjög, að yfirsiðameistaranum fanst ástæða til, að ráðgast um það við ráðgjafana, og komust þeir að þeirri niðurstöðu, að ekki tjáði að dylja konunginn lengur hvað á seyði væri. En þeir sögðu allir, að yfirsiðameistarinn yrði að takast þann vanda á hendur, og varð hann þá að gera það, úr því enginn annar var fáanlegur til þess.

Konungurinn stóð fyrir framan spegilinn og var að skoða sig og hvernig nýr borðalagður búningur færi sér, sem tíu hirðskraddarar höfðu skorið honum og fanst honum hann vera mjög fagur og tígulegur maður í þessum búningi. Hann var ekki að eins voldugasti og vitrasti maðurinn í öllu ríkinu heldur einnig sá fríðasti og föngulegasti.

Í þessu kom yfirsiðameistarinn inn. Snéri konungur sér þá dálítið á snið frá speglinum og spurði hann:

„Hvað nýtt er sagt um mína ódauðlegu frægð?

Yfirsiðameistarinn hóstaði, snýtti sér og hóstaði svo aftur. Loks herti hann upp hugann og mælti:

„Það er alveg fráleitt, yðar hátign . . . . þeir mögla.“

„Hver möglar?“ spurði konungurinn.

„Þeir mögla allir saman, yðar hátign . . . . listamennirnir og skáldin og stjörnuspekingarnir, og fullyrða að þeir vilji ekki gefa grænan eyri fyrir vernd yðar hátignar, því yðar hátign hafi enga hugmynd um listaverk. Eins mögla verzlunarmennirnir og vilja fá meiri rettindi, og skríllinn möglar og vill fá meiri mat, og fólkið yfir höfuð, sem vill fá meira frelsi . . . .“

Konungurinn sneri sér við og horfði rólega á yfirsiðameistarann sinn og mælti: „Það er gott, að þú segir mér það, þeir skulu allir fá svar. Eg ætla sjálfur að fara að mála og yrkja til þess að sýna listamönnunum að ekkert verk sé til, sem ég konungurinn, kann ekki; verzlunarmönnunum ætla eg að gefa ný lög, sem takmarkar réttindi þeirra, og múgurinn verður ánægður undir eins og hann sér mig í mínum nýja konunglega skrúða.“

Yfirsiðameistarinn fekk ekki annað svar, og hann hneygði sig og gekk á burt.

Konungurinn lét hirðskraddarana og herbergisþjónana hjálpa sér til að fara í nýju gullborðalögðu fötin, eftir það fór hann í kvöldgildi til drotningarinnar og fór svo tímanlega að hátta eins og konungi sómdi.

En nú skeði mjög kynlegur atburður. Konungurinn var háttaður og herbergisþjónar hans farnir, en honum fanst samt, að hann væri ekki einn. Á stólnum hjá rúmi hans sat örlítil dökkleit vera, sem leit út fyrir að vera gagnsæ og án líkama, en þó sýnilega og þreifanlega nálæg. Konungurinn strauk með höndinni um augun en gat ekki losað sig við þessa sjón; hann strauk augun á ný, og þá sá hann litlu, dökku vofuna enn greinilegar en áður, — og alt í einu datt honum alveg ósjálfrátt í hug samtalið, sem hann hafði alveg nýlega átt við yfirsiðameistarann. En hann gat þó alls ekki skilið í því, hvernig það stæði

í sambandi hvort við annað. Aftur á móti sá hann þessa kynlegu vofu sitja grafkyrra á stólnum hjá rúmi sínu. Varð konungur þá önugur í skapi og reis upp.

„Hver ert þú?“ spurði konungurinn.

„Skugginn þinn“, svaraði skugginn.

„Og hvað viltu mér um miðja nótt?“

„Tala við hjarta þitt,“ svaraði skugginn.

„Talaðu þá,“ mælti konungur og lagðist út af. Eg er reiðubúinn að hlusta á þig eins og eg hlusta á þegna mína, jafnvel þá auvirðilegustu “

Og konungurinn lá með aftur augun meðan skugginn talaði við hann.

„Voldugi konungur! Veistu ekki að því meira veldi, sem einhver maður hefir, þess meiri ábyrgð hefir hann á því, að nota vald sitt vel. Hefir þú nokkru sinni rannsakað þitt konunglega hjarta, hvort þú hefir alvarlega leitast við, að gjöra þá hamingjusama, sem þú átt yfir að ráða, og hefir beitt til þess öllum hæfileikum þínum, og notað til þess öll meðul, sem þér er mögulegt?“

Konungurinn kinkaði kolli og mælti brosandi: „Jú, það finst mér, sérðu ekki hversu land mitt blómgast, og hversu allir hylla mig? Vítringar og skáld kveða mér til lofs og dýrðar, og listamennirnir höggva líkneskjur af mér úr marmara. Eg hefi aldrei heyrt neina umkvörtun fyr en í dag og eg hirði ekki hót um það bull, sem yfirsiðameistarinn sagði, því honum er æðimikið farið að förlast. Nú ætla eg að ganga sjálfur í listamannafélagið, til að sýna þeim, bæði hvað eg get gert sjálfur og til að sýna mína konunglegu vernd, og fólkið, sem þeir vilja telja mér trú um, að sé óánægt með mig, mun kalla upp með fagnaðarópi undir eins og það sér mig. Borgarastéttin elsk r mig, en hina kæri eg mig ekki um . . .“

„Voldugi konungur!“ mælti skugginn ennfremur hljótt og rólega. „Hefir þú nokkru sinni í þínum konunglegu hugsunum greint milli þess ytra, — alls þess sem sést snögt á að líta — og þess, sem fólgið er djúpt í fylgsnunum? Hefir þú nokkru sinni hlustað á þá, sem standa langt í burtu frá veldisstóli þínum — hlustað á þá fátæku, þá sem verða að þola ranglæti og lifa við eymd og volæði?“

„Eg heyri alt,“ svaraði konungurinn gramur í skapi. „En eg heyri ekki annað en það sem eg vil heyra . . . Og nú vil eg fara að sofa . . .“

„En taktu nú vel eftir því, sem þér er sagt. Getur þú aðgreint sannleikann frá smjaðrinu. Rannsakar þú og skoðar alt nákvæmlega, svo þú getir dæmt réttvíslega? Og það sem mest varðar — þekkir þú nægilega sjálfan þig, sem er vottur um að vera sannarlegt mikilmenni?“

En nú var þolinmæði konungs á enda.

„Far þú frá mér skuggi!“ mælti hann, „Eg er öllum æðri, og eg skal láta þá sjá það sem eftir mig koma, hversu hygginn og voldugur eg er.“

Hvarf þá skugginn og konungurinn fór að sofa. En hann dreymdi mjög órólega alla nóttina, og í huganum var hann stöðugt að velta því fyrir sér, hvernig hann ætti að sýna samtíðarmönnum sínum og eftirkomandi kynslóðum hversu mikill maður hann væri.

Daginn eftir kallaði hann alla ráðgjafa sína og alla hirðina saman.

Þegar öll hirðin hafði skipast í kring um konunginn mælti hann: „Þjóðin þarf að fá eitthvað það merki um frægð mína, er hún geti jafnan haft fyrir augum. Eg ætla þessvegna að hyggj musteri, er beri vott um veldi mitt. Það á að vera hærra en allar aðrar byggingar í heimi. og bygt úr skíru gulli og mjallahvítum marmara. Það á að vera sjö sinnum sjöloftað, og það á að geta rúmað allar gersemar og kjörgripi ríkisins, og allar menjar þessarar þúsund ára gömlu konungsættar bæði frá friðar og styrjalda tímunum. Mestu listamenn ríkis míns skulu skreyta þetta musteri, og sagnaritararnir skulu rita sögu mína og forfeðra minna á alla veggi þessa sjö sinnum sjölyfta musteris, en eg ætla sjálfur að búa til uppdráttinn af allri byggingunni."

Ráðgjafarnir og hirðin hneigði sig, og þá var það mál útkljáð.

Ráðgaðist konungur nú við beztu byggingameistara ríkisins, og voru nú uppdrættirnir gerðir undir umsjón hans, en hann hafði sjálfur búið til fyrsta uppdráttinn og urðu allir að fara eftir honum. Var svo staðurinn kjörinn, þar sem þetta nýja furðu musteri átti að standa, og ekki leið á löngu áður allir væru önnum kafnir í að byggja það.

En hversu mikið sem konungurinn hafði að starfa á dagin svaf hann þó illa á nóttunni. Þegar hann var háttaður, kom skugginn hans á hverju kvöldi, settist á stólinn hjá rúmi hans og hvíslaði öllu að honum, öllum sköpuðum hlutum. En alt af var eitthvað, sem konunginum geðjaðist illa að; stundum sagði skuggin frá óróa og óánægju, sem lifði í kolunum víðsvegar í landinu, stundum sagði hann frá ofbeldisverkum, er unnin hefðu verið í nafni sjálfs konungsins, stundum sagði hann frá kúgun og rangsleitni, sem hefði verið beitt í nágrannalöndunum, sem konungur hafði unnið undir sig, og skugginn hélt áfram að segja frá unz konungurinn var orðinn óður af reiði og skipaði skugganum að hipja sig á burt eins og fyrsta kvöldið, þegar hann hafði heimsótt hann.

Mesta skemtun konungsins var það, að ríða út að byggingunni og sjá, hvernig verkinu miðaði áfram á þessu feiknar stóra musteri, sem hann ætlaði að láta reisa sér til lofs og dyrðar. Hann sá þegar, að grundvöllurinn var fullbúinn, enda unnu þar margar þúsundir manna. Einn morgun kom hann ríðandi eins og vant var, en þá skunduðu byggingameistararnir náfölir á móti honum og sögðu honum, að grundvöllurinn hefði haggast; múrarnir hefðu hrunið, og það yrði að byrja á öllu verkinu að nýju. Þetta var líka orð að sönnu. Var nú unnið á ný með tvöfaldri árvekni við það, sem áður var og helmingi meiri vinnukrafti en ekki voru liðnir nema nokkrir mánuðir áður sama óhappið kom á ný, og varð þá enn að byrja á verkinu að nýju. Þegar óhappið kom fyrir í þriðja sinn fór gamli yfirsiðameistarinn til konungs, því enginn annar hafði hug á því, og þó skalf hann allur eins og hrísla, hóstaði og stamaði, en sagði þó loksins:

„Yðar hátign, það þýðir ekki að dylja það lengur. — Það eru sveppar í grundvellinum .... Minnisvarða yðar hátignar verður aldrei lokið með þessu móti.

En konungurinn gerði ekki annað en banda með hendinni til merkis um að gamli yfirsiðameistarinn mætti fara. Kon-

ungurinn hélt, að hann mundi vera einfær um að finna ráð við þessu.

Kallaði hann þá á ný alla ráðgjafa sína og alla hirðina fyrir sig, og er þeir voru saman komnir, mælti hann:

„Eg veit hvað að er! Guðirnir eru öfundssjúkir yfir veldi mínu, þeir krefjast vitnisburðar um trúrækni mína, eins og mennirnir hafa orðið að beygja sig fyrir tign minni. Tygið yður til að fylgja mér pílagrímsför til hins nafntogaðasta helgistaðar í heimi. En búið yður með öllu því skarti og viðhöfn, sem för minni og og persónu minni er samboðið; sjálfur ríð eg í fararbroddi í allri minni konunglegu dýrð, með öllum riddurum mínum, hertýguðum frá hvirfli til ilja, með gyltan panzara og roðinn hjálm á höfði, en ungar meyjar skulu ganga á undan og strá veginn með rósum alla leið . . . . .“

Alt var gert svo sem konungur hafði boðið. En þar voru ýmsir ráðnir og rosknir menn bæði í ríki hans og nágrannalöndunum, sem sögðu, að ferðin mundi aldrei heppnast. Helgistaður þessi væri sá markverdasti á jörðu, og hann hefði verið gerður vegna þeirra einna, sem hefðu auðmjúkt hjarta: Hvílík býsn væri það ekki, að konungurinn ætlaði að ferðast þangað eins og sigurvegari, með riddara sína klædda roðnum hjálmum og gullnum pönsurum, með skrámótta hirðmenn, og ungar blómþaktar meyjar! Og með slíku föruneyti ætlaði konungurinn nú að fara þá sömu leið, sem guðhræddir menn og meira að segja konungar og keisarar fyr á tímum, hefðu gengið berfættir og sárfættir. Enginn bjóst við því, að pílagrímsför þessi mundi neitt gott leiða af sér, en aftur á mót var enginn, sem þyrði að segja það, sem honum bjó í brjósti.

Nú var lagt af stað í förina. Konungur reið í fararbroddi með glæsilegu föruneyti, er glóði í gulli og dýrmætum gimsteinum; blöktu þar margir gunnfánar og merki, brynjur hermannanna blikuðu í sólskininu og ungar meyjar stráðu rósum á veginn. En sérhverja nótt kom skugginn til konungs, þar sem hann hvíldi í tjaldi sínu, og virtist konungi að skugginn yxi og yrði æ stærri eftir því sem hann komst lengra áleiðis.

Eina nótt talaði skugginn þannig við hann:

„Voldugi konungur! Veistu hvað gerist í ríki þínu meðan þú ert í þessari pílagrímsför? Þú hefir vondan fylkisstjóra í einu fylkinu, sem þú hefir brotið undir þig. Ofsækir hann íbúana með grimd og alls konar áþján; og saklausir og varnarlausir eru ekki óhultir fyrir ofsóknum þeim, sem framin eru í þínu nafni, og þúsundum saman biðja menn þér allskonar óbæna. Hugleiddu þetta, voldugi konungur, áður þú heldur lengra áfram pílagrímsförinni.

En konungurinn lét eins og hann heyrði þetta ekki, og þó skugginn héldi vöku fyrir honum á nóttunni, gleymdi hann því öllu á daginn í glaumnum, skrautinu og gleðinni kring um sig. Erlendir þjóðhöfðingjar mættu honum á leiðinni, og hyltu hann, og múgurinn þyrptist saman til þess að sjá hann, og varð hann sökum þessa æ sannfærðari um, hversu mikill maður hann væri.

Nú átti hann ekkki eftir ófarið nema hálfa dagleið, og það er farið að grilla í turnana og húsaþökin á musterum hins

helga staðar. En síðasti áfanginn lá yfir sléttlenda auðn, og sukku hestarnir djúpt í brennandi heitan sandinn. Veðrið hafði breist. Afar stóra og biksvarta skýbólstra dró upp út við sjóndeildarhringinn, og öðru hvoru rak á vindstrokur, sem hvirfluðu sandinum hátt í loft upp, svo riddararnir gátu ekki séð handarbreidd fram undan sér.

(Framh.)

## Ég skal reyna að gera það sem ég get.

Drengur nokkur kom inn til skipsútgerðarmanns, nafnkunnugs stórkaupmanns og mælti við hann:

„Fyrirgefið, herra minn! má eg spyrja, hvort þér hafið enga vinnu á skipinu yðar handa mér?“

„Hvað geturðu gert?“ spurði stórkaupmaðurinn.

„Eg skal reyna eftir megni að gera alt, sem mér er sagt,“ mælti drengurinn.

„Hvað hefir þú gert hingað til?“

„Eg hef sagað og höggvið allan eldiviðinn, sem hún mamma hefir þurft með nú í tvö ár.“

Hvað hefirðu þá ekki gert?“ spurði kaupmaðurinn, en hann var orðlagður fyrir að koma með kynlegar spurningar.

„Herra minn,“ svaraði drengurinn eftir að hafa hugsað sig dálítið um. „Eg hef ekki hvíslað í eitt einasta skifti í skólanum í heilt ar.“

„Það er ágætt,“ mælti stórkaupmaðurinn. „Þú getur farið á skipið, og eg vona að fá að sjá það einhverntíma, að þú verðir orðinn skipstjóri. Eg álít að það megi reiða sig á þann dreng, sem kann að fara með öxi og halda tungu sinni í skefjum.

Z. V. (Ljus i Hjemmet.

## Vegna þess drakk hann ekki öl.

Erlendis er maður nokkur hálfníræður að aldri, en hraustur að heilsu og óskertur að öllum sálargáfum eins og hann væri um fimtugt. Hann drekkur aldrei öl, og hefir hann nýlega sagt, hvernig á því standi. Hann hafði tekið eftir því, hvaða áhrif ölið hafði á svínin. Sjálfur er hann dómari í miklu áliti, en faðir hans var slátrari og stútaði sjálfur dýrum þeim, er slátra skyldi. Átti þá drengurinn að plokka fituna af þörmum svína þeirra, er slátruð voru. Mörg svínanna voru fóðruð á maltsyrju er keypt var í ölgjörðarhúsi þar í grend. Segir hann að þetta hafi verið mjög vandasamt verk, því þarmar þeirra svína, er fóðruð hafi verið á maltsyrjunni, hafi verið meir eins og grápappír, sem bleyttur hefði verið í vatni. Þegar á barnsaldri vildi hann ekki borða fleskið af slíkum svínum. Hann fékst heldur aldrei til að drekka öl, því hann hélt því fram, að ef innýfli svínanna fúnuðu af ölinu, hlyti það að hafa sömu áhrif á innýfli mannanna.



„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun $1/5$, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

| IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. JÚNÍ 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 18.—19. |
|---|---|---|---|---|


## Konungurinn og skugginn hans.

Æfintýri eftir

VILHELM ÖSTERGAARD.

———

[Endir].

Konungurinn keyrði hest sinn sporum, svo hann næði hiuum helga stað áður en óveðrið skylli á, og gaf hirðinni og hermönnum sínum vísbending um, að fylgja sér. Hann vissi, að taka ætti á móti sér, svo sem stólkonungi sómdi, og það hefði verið slæmt, ef hin hátíðlega innreið hans skyldi farast fyrir. Nú hlaut þegar að vera búið að raða hermönnum eftir götum hins helga staðar, og það hlaut að vera búið að skreyta húsin með blómum og alla vega litum ábreiðum, og yfirvöld staðarins hlutu að vera komin saman til þess, að bjóða hinn konunglega pílagrím velkominn.

Konungur keyrði hest sinn æ meira og meira unz blóðið rann niður eftir síðum hans, því hann ætlaði sér að komast inn í hinn helga stað einmitt þenna dag, og það þótt guðir og menn reyndu að hindra það. Styttra og styttra var eftir af leiðinni að borgarmúrunum, og fylgdarlið konungs neytti allrar orku með að fylgja honum eftir.

— — Þarna rétt fyrir framan þá voru múrar hins helga staðar. Konungi og föruneyti hans létti um hjartaræturnar og reistu sig betur á hestbakinu. Allir hlustuðu, hvort ekki færi að heyrast básúnuhljómur og bumbusláttur og fagnaðaróp lýðsins, sem átti að bjóða hinn volduga konunglega pílagrím velkominn. En þetta varð á alt annau hátt, en þeir höfðu búist við.

Konungur sá, að port staðarins opnuðust, og út um þau gekk mikill fjöldi manna í hvítum klæðum. Í fararbroddi gekk berhöfðaður öldungur, en hann var enn hár og beinn; hygni og blíða skein samhliða úr augum hans, og framkoma hans var bæði göfugleg og tíguleg.

Þegar konungur sá þetta varð hann fyrst gramur í skapi, — því hann átti ekki von á þessu við móttökuna. En hann varð þó að láta eins og ekkert væri um að vera, og var þegar farinn að hugsa um, hverju hann ætti að svara fyrstu fagnaðarmóttöku hins helga staðar.

Gekk þá öldungurinn, er var fremstur hinna hvítklæddu manna, fram fyrir konunginn og mælti á þessa leið:

„Voldugi framandi þjóðhöfðingi! Hvert er erindi þitt hingað, og hví kemur þú hingað með slíku skrauti til vors ævargamla helgistaðar? Hlustaðu nú á góð ráð, og snúðu við meðan enn þá er tími fyrir þig. Þann veg, sem þú ætlar að fara, mega þeir einir ganga, sem elska alla menn og hata kúgun og ranglæti, og sem með djúpri auðmýkt beygja sig fyrir þeim mikla og volduga stjórnara himins og jarðar, sem engum á þessari jörðu er auðið að skilja. Voldugi, framandi þjóðhöfðingi! snúðu við meðan enn þá er tími til. Hreins-

aðu hjarta þitt af því drambi og þeirri blindni, sem það er nú fult af; bættu með góðverkum úr öllu því ranglæti, sem þú hefir framið sjálfur, og sem framið hefir verið í nafni þínu; hneig höfuð þitt og viðurkenn, að sjálfur ert þú vanmáttugur maður, og kom svo aftur, einmana og leitandi sannleikans.“

Konungurinn hlustaði forviða á þessa óvæntu heilsun. En svo hreykti hann sér hærra í söðlinum, eldur reiðinnar brann úr augum hans, og hann sneri sér að sínu skrautlega föruneyti og mælti:

„Þetta er að eins hópur af vitfirtum uppreistarmönnum, sem hafa ruðst út úr staðnum án vitundar yfirvaldanna! .... Skeytið ekkert um þá, en látum oss brjótast inn i borgina!“

En þá lyfti öldungurinn upp hönd sinni og rödd hans dundi sem þrumugnýr:

„Nem staðar! Þú kemur eins og kirkjuvargur. Og það heilaga, sem þú hæðist að, skal koma þér á kné og fíflaföruneyti þínu.“

Og á sama augabragði brast á æðisfult eyðimerkur ofviðri, og sandstrokurnar náðu hátt til himins eins og skrúfumyndaðar súlur, himin og jörð urðu ekki greind sundur, og hið skrautlega föruneyti konungs dreifðist eins og fys út um eyðimörkina, og sandhólarnir földu það.

— — — — — — — — — — — —

Það var komin nótt. Illviðrinu hafði slotað jafnsnögglega og það hafði skollið á. Himinhvelfingin með tindrandi stjörnum grúfði yfir eyðimörkinni. Og þar var eitt einasta tjald og í tjaldinu lá konungurinn. Fyrir utan tjaldið láu yfirsiðameistarinn og hirðfíflið, þeir einu, sem illviðrið hafði eftirskilið.

Eg konungurinn gat ekki sofið. Skugginn hafði aldrei yfirgefið hann og sat nú á rúmbríkinni, og var nú orðinn svo stór, að hann fylti alt tjaldið og loftið í kringum konunginn, svo konungurinn átti ómögulegt með að komast neitt fyrir honum ......

„Voldugi konungur!“ mælti skugginn. „Viltu nú loksins hlusta á mig með þolinmæði? .... Það var einu sinni fyrir mörgum hundruðum ára, að vitur þjóðhöfðingi reikaði eftir þeim vegi, sem liggur þangað, sem veglegasti helgidómur heimsins hefir verið bygður. — Musteri hins gæzkuríka og heilaga . . og konungur þessi fór leiðina gangandi og berfættur, og vóru fætur hans sárar af grjóti og þyrnibroddum, og því síðasta, sem hann átti í eigu sinni hafði hann skift meðal fátæklinganna, er hann mætti á leið sinni .... Hvernig lízt þér á, voldugi konungur! að fara að dæmi hans? Hvernig lízt þér á að takast á hendur þessa örðugu pílagrimsför. Ekki með gunnfánum og skrautlegu föruneyti, lúðrahljóm og bumbuslætti, heldur berfættur og með iðrandi hjarta . . .“

„En minningarhöllin mín, — volduga minningarhöllin mín!“ muldraði konungurinn fyrir munni sér. „Hún liggur í rústum heima, og það er sagt, að sveppar hafi etið í sundur grundvöllinn. Hvað þýðir þá pílagrímsferðin mín?“

Skugginn mælti ennfremur: „Minningarhöllin þín — þetta veglega musteri, sem þú ætlaðir að byggja, þér og konungsætt þinni til vegsemdar: það var heimskulegt

og hégómlegt fyrirtæki. Ég ætla að gefa þér ennþá annað ráð . . . .“

„Talaðu — talaðu þá!“ muldraði konungurinn með veikri rödd.

„Þú ætlaðir að byggja sjö sinnum sjölyft musteri, sem átti að bera vott um frægð þína og veldi þitt. Bygðu þá þetta musteri til þess, að það sé hús, þar sem ráttlæti sé ætíð í frammi haft; þar sem allir læri gott og fagurt; þar sem þeir svöngu séu mettir, allir syrgjandi huggaðir, hinir sjúku læknaðir, og hinir þreyttu geti fundið hvíld og hressing. Því ég segi þér það, þú konungur, að það er ekki á dauðan stein, heldur í hjörtum hinna lifandi, að konungar eða aðrir rita varanlegustu grafskriftina yfir sig.“

Skugginn þagnaði, en konungurinn fann þó, að hann fylti út í hverja smugu í kring um hann og svo lá hann lengi þögull og hugsandi. Loksins mælti hann:

„Ég ætla ef til vill að reyna að fara að góðu ráðunum þínum. En segðu mér fyrst. Hver ertu í raun og veru?“

„Ég er *samvizka* þín,“ svaraði skugginn.

# Ólyktardýrið.

Flest dýr jarðarinnar stór og smá hafa eitt eða annað ólíkt öllum öðrum dýrum til varnar sér gagnvart árásum annara skepna. Broddgölturinn hefir harða og langa brodda út úr húðinni í hára stað; sé á hann ráðist setur hann sig í kút, standa þá broddarnir í allar áttir, og er hann þá ekki árennilegur ásýndum. Ígulkerið hefir á sama hátt brodda út úr húðinni. Kolkrabbinn spýtir úr sér dökkum vökva, gruggast þá sjórinn og getur hann með því forðað sér. Naut og sauðkindur hafa vanalega horn til að stanga með, hestar slá með afturfótunum, fýlunginn spýr úr sér lýsi, og saurgar með því þann, sem á hann ræðst.

Einkennilegast varnarfæri hafa ólyktardýrin, sem svo eru nefnd. Þau eru flest smá dýr, og eiga heima bæði á Indlandi, Indlandseyjum og Suður og Norðurameríku, og eru af þeim ýmsar tegundir, hver annari ólíkar, en öll hafa þau það sameiginlegt, að þau hafa kirtla undir kviðnum, fulla af vökva, sem þau geta spýtt úr, á þá, sem á þau ráðast, og er vökvi þessi ákaflega daunillur, svo bæði menn og skepnur hörfa undan þessum ófögnuði.

Nafnkunnast allra þessara dýra er ólyktardýrið í Norðurameríku. Það á heima í Kanada, einkum í kringum Hudsonsflóann, og vestur í Klettafjöllunum bæði norður í Kanada og suður í Bandaríkjunum og enda víðar þar norður frá. — Þau eru á stærð við kött en nokkuð löng eftir hæðinni, svört á lit með loðnum hvítum röndum framan af hnakkanum og aftur fyrir mitt bak, og loðinni hvítri rófu. — Þau eru langnefjuð og mjónefjuð og fótlág með fimm hvössum klóm á hverjum fæti. Halda þau kyrru fyrir á daginn og láta þá fyrir berast í holum trjám og holum klettaskorum, en þegar dimma tekur fara þau á kreik til þess að veiða orma, skorkvikindi, pöddur, fugla og lítil ferfætt dýr, jafnframt éta þau líka ber og jurtarætur. Kyrtlarnir með ólyktarvökvanum eru að tiltölu mjög stórir, og hafa þau sérstaka vöðva til að þeyta með vökvanum frá sér, og spýta þau honum eina til fjórar álnir aftur undan sér. Ólyktarkyrtlanna neyta þau þó aldrei nema þau séu elt, og sjái ekki tök á að forða

sér á annan hátt. Vökvi þessi er svo daunillur, að sá, sem fyrir honum verður, getur ekki komið til nokkurs manns um langan tíma. Komist dýr þessi inn í hús manna og spýti þar, verður húsið ólifandi til íbúðar og ómögulegt að nota nokkurn hlut, sem þar er inni, all-langan tíma. —

Sé ólyktardýrið elt af mönnum eða hundum, hleypur það fyrst sem fætur toga, en sjái það sér ekki fært að komast undan, neytir það daunvökvans, og spýtir honum á þá, sem elta það. Komi vökvinn í augun, missir sá sjónina, er fyrir verður. Er ódaunin svo sterk, að mönnum finst fyrst þeir ætli að kafna, og flýja undan sem skjótast. Margir hundar hlaupa strax undan, er þeir verða fyrir gusunni, en aðrir verða svo ólmir, að þeir hætta ekki við fyr en þeir hafa bitið dýrið til dauða, en þó nudda þeir áður trýninu í jörðina og dregur það úr lyktinni.

Föt manna verða ekki laus við lyktina fyr en eftir mánaðartíma, nema þau séu grafin í mold um heilan sólarhring. Hendur og andlit verður að nudda með mold í heila klukkustund, en það þýðir ekki neitt að þvo sér. Tiginn maður hafði einu sinni orðið fyrir spýtingu ólyktardýrsins, og ætlaði hann þá að fara inn í hús eitt til að þvo sér, en heimamenn hleyptu honum ekki inn og lokuðu húsinu. Þegar farið er um skóg, þar sem dýr þessi halda til, verða menn að halda fyrir vitin af ólyktinni.

Einu sinni kom dýr þetta að bæ einum, og réðust hundarnir á það til að reka það burt, en alt í einu varð ólyktin svo sterk við bæinn, að engin skepna þoldi við, og kýrnar urðu alveg ólmar. Nokkru síðar heyrði eldastúlkan eitthvert þrusk í kjallaranum, og fór hún ofan, til að vita, hvað um væri að vera. Sá hún þá glóra í augu einhvers dýrs í kjallaranum. En henni varð ekkert bylt við og réðist hún á dýrið og drap það. En alt í einu kom slík ólykt að hún varð sjúk af og lá í nokkra daga á eftir, en það varð að kasta út öllu ætilegu, sem í kjallaranum var.

---

# Gimsteinninn.

**Eftir A. Kristensen.**

Einu sinni var stúlka sem Elín hét, sem fanst að hún væri svo afarfátæk. Fátæktin var kross sá, sem hún bar, og hún var óhamingjan hennar — eða að minsta kosti fanst henni það sjálfri.

Að öðru leyti var hún mjög efnileg og hafði nægilegt af gæðum þessa heims; hún var ung og fríð og meira að segja mjög fríð, og þar að auki mjög vel skynsöm. Hún vissi þetta alt sjálf, kunni að meta það og þakkaði guði fyrir það, því hún var allra bezta stúlka. Henni fanst líka, að hún gæti átt allra beztu framtíð fyrir höndum, hefði fátæktin ekki verið því til fyrirstöðu. En hvað dugði alt hitt? Fátæktin var alstaðar eins og slagbrandur í dyrunum.

Andvarp Elínar var því stöðugt það sama: „Guð gæfi að eg væri orðin rík!"

Hún var önnum kafin allan daginn, en er hún hafði lokið vinnu sinni á kvöldin og hún var lögst út af þreytt og syfjuð, var þetta jafnan síðasta bænin hennar. En í dögun dagin eftir varð hún að fara á fætur og kveikja upp eldinn í húsi höfðingjans, sem hún var vinnukona hjá, og þá var andvarp hennar ávalt það sama: „Guð gæfi, að eg væri nú orðin rík!"

Einn morgun sem oftar var Elín við eldinn og andvarpaði. En í dag voru andvörp hennar enn heitari og innilegri en vant var, og í þeim lýsti sér svo fádæma mikil sorg og örvænting, eins og hún ætti að búa við hina dýpstu eymd og neyð. „Guð minn, guð minn!“ stundi hún upp, „eg vildi, að eg væri orðin rík!“

Í sama vetfangi beygði hún sig til þess, að taka öskuna frá arninum, en þá sá hún dýrmætan gimstein ljóma í öskunni. Hún þreif steininn npp í skyndi, reyndi þyngd hans í hendi sér, hélt honum í sólargeislunum og lét hann ljóma þar með allri sinni litprýði.

Hún fann það á sér, að það hlyti að hafa verið skaparinn sjálfur, sem hefði sent henni gimsteininn, þenna mikilsverða fjársjóð, þessi auðæfi. Spenti hún þá greipum um steininn og þakkaði gjafaranum allra góðra hluta með hrærðu hjarta fyrir gjöfina.

Dagurinn leið í unaði og fögnuði, og nóttina eftir gat hún naumast sofið, því henni fanst hún vera komin í sjöunda himin. Loks blundaði hún og þá fanst henni hún vera komin beinlínis upp til himna.

Hana dreymdi, að hún væri komin í sali himnaríkis, að þar væri alt logagylt, og óumræðilega fagurt og inndælt. Þar sá hún drottinn sjálfan og allan englaskara hans og sálir allra hinna guðhræddu, sem ganga um þá himnesku bústaði með bros á vörum. En sérhver þeirra bar skrautlega kórónu; það var lífsins kóróna, öll þétt sétt dýrmætum perlum og gimsteinum.

Þarna stóð hún meðal þeirra og furðaði sig á allri himinsins dýrð, og sjálfur guð gekk til hennar og færði henn lífsins kórónu, svo hún bæri hana eins og allir aðrir.

En er hann ætlaði að setja kórónuun á höfuð hennar sá hún, að einn stein vantaði í hana, og hún mælti hnuggin í huga: „Allar kórónur himinsins eru gallalausar og lýtalausar, hvers vegna vantar þá einn gimsteininn í kórónuna mína?“

„Þu baðst mig um auðæfi og eg gaf þér þau,“ mælti drottinn, „en gimstein þann tók eg úr kórónunni þinni, sem þú fekst.“

„Sigurkranzinn minn á að vera lýtalaus eins og allra annara,“ mælti hún.

„Láttu mig þá fá gimsteininn aftur,“ mælti drottinn.

„Gimsteininn minn, auðæfin mín? Það get eg ekki, það vil eg ekki, en láttu annan í hans stað.“

„Það er mjög örðugt,“ mælti drottinn.

„Gjörðu það samt“ bað hún. „Það má kosta hvað sem vill.“

„Þá leit drottinn á hana hægt og með varkárni og mælti: „Verði þinn vilji.“

Þetta var seinasta orðið, sem henni heyrðist drottinn segja, því rétt á eftir vaknaði hún. Það var orðið albjart og jafnskjótt og hún var búin að átta sig eftir drauminn þreif hún gimsteininn, sem hún hafði geymt undir koddanum. Let hún hann blika í dagsbirtunni og sagði við sjálfa sig: „Hér held eg á auðæfum og hamingju minni í hendi mér, — og eg get ekki slept henni.“

Hún var nú orðin auðug stúlka. Gimsteinninn var seldur fyrir peninga, og hún fékk gnægð fjár. Bráðum fór hún úr vistinni, fekk sér nýjan búning og alls konar skrautgripi, flutti svo til höfuðborgarinnar og var þar í miklum heiðri höfð. — Því

hún var ung, rík og fögur — og lifði hún hvern dag í dýrðlegum fögnuði.

En drottinn kallaði á einn af englum sínum, og það var einmitt engillinn hennar Elínar. Og drottinn sagði við engilinn: „Eg lofaði henni öðrum gimsteini, en hvar á ég að finna hann? Úr hverju á eg að búa til gimstein, sem ekki fyrnist og hæfur er í lífsins kórónu?“

Engillinn svaraði engu, því hann vissi ekki, hvernig hann ætti að fara að því. Hvernig átti að bæta upp gimstein himnaríkis?

En drottinn sagði: „Eg veit hvað á að gera. Eg ætla að gera gimstein úr tárum hennar. Þú skalt koma með þau til mín.“

Þá flaug engillinn niður til jarðríkis, glaður eins og fiðrildi á vormorgni er sólin skín í heiði. Því hann áleit, eins og líklegt var, að úr því himnaríki væri gleðinnar bústaður, væru að eins gleðitárin hæf í gimsteina himnaríkis.

Og engillinn gætti hennar alstaðar, hvar sem hún fór, og hann sá hana einnig ganga einn vormorgun inn í skemtihúsið í stóra blómgarðinum herramannsins, sem glóði allur í daggarperlum í sólskininu. Ungi greifasonurinn dró hana í fang sér og þrýsti henni að brjósti sér, og hún hneygði höfuð sitt að brjósti honum og kysti hann. Og þá var hún svo glöð, að hún gat naumast komið upp nokkru orði.

Á sama augabragði komu tárin í augu hennar og ósýnilegi engillinn hirti þau og geymdi þau vandlega.

„Þetta er dropi hinnar jarðnesku gleði, og í honum glitrar fegursta bros þessarar ungu meyjar, dropi þessi skal verða að gimsteini, sem ljómar á himnum“ hugsaði engillinn.

Og engillinn sveif áleiðis upp til himna — hærra og hærra, þangað sem vindarnir þjóta. En þá sá engillinn að tárin þornuðu og gufuðu upp.

Og engillinn skyldi þá, að drottinn mundi ekki geta notað gleðitár jarðneskra unaðsemda í lífsins kórónu.

Engillinn sneri þá aftur til jarðarinnar, en fann engin tár á kinn Elínar, því hún var auðug og átti góða daga og sífelt bros lék um fögru kinnarnar hennar. Mánuðir liðu og ár liðu, en þetta breyttist ekkert. Hún var jafnan jafn glöð og ánægð.

Nú varð engillinn sorgbitinn. En það var þó kynlegt, að verndarengillinn hennar yrði sorgbitinn yfir gæfu hennar, en þetta var þó eðlilegt, því hann fann engin tár samkvæmt skipun drottins, — og þá hlaut að vanta einn gimsteininn í lífsins kórónu.

Þá bar það við einn dag, að Elín stóð á landgöngubrúnni, þar sem gufuskípin lögðu að landi. Nú var hún gift fyrir nokkrum árum og leiddi drenginn sinn við hönd sér. Hún hafði farið niður að sjó, til þess að taka á móti manninum sínum, sem var að koma heim úr langferð. Hún sá manninn sinn greinilega á skipinu innan um mannfjöldann; hún brosti og veifaði vasaklútnum sínum, og hélt drengnum á loft, svo hann sæi hann pabba sinn. Á þessu augabragði var hún fegri en nokkru sinni áður. — Og engillinn stóð við hlið hennar.

Jafnskjótt og skipið lagði að bryggjunni var maðurinn hennar fyrstur allra að skunda í land, með ferðakoffortið sitt í hendinni, kinkaði kolli til konunnar sinnar, og tók ekki eftir neinu öðru af fögnuði. En

þá skrikaði honum fótur, og hann fell út í sjóinn, og straumurinn af gufuskrúfunni náði taki á honum, hringsnerist með hann og dró hann í kaf. Skeði þetta svo snögglega, að hann var drukknaður áður mögulegt væri að bjarga honum.

Innan um óróann á bryggunni heyrðist að Elín rak upp angistarvein, og hné niður flóandi öll í tárum.

En engillinn tók eitt tár hennar og bar það upp til himna.

Og drottinn leit á tár hennar, en hann þekkir tár mannanna og mælti: „Þetta tár er að sönnu dýrmætt, því það er sorgarinnar tár, en það er þó ekki það rétta tár.“

Í því hann sagði þetta, þornaði tárið upp í höndum hans.

Þreyttur og hryggur sneri engillinn aftur til jarðarinnar. Hvernig átti hann að finna hin réttu tár? Dagar liðu og ár liðu hvert af öðru, og engillinn fylgdi Elínu hvert sem hún fór.

Þá var það eitt kvöld að hún sat við gluggann í höll sinni og horfði á tunglið í fyllingu, sem skein á skafheiðum næturhimninum milli trjánna í aldingarðinum. Alt var þögult og hljótt og rólegt. En í hjarta hennar var hvorki kyrð né ró. Þar dundi og ólgaði eins og brimröst á hafi. Hún hafði lengi borið harm sinn í hljóði, en nú gat hún ekki lengur stilt sig og grét hástöfum.

Hvers vegna grét hún? Hvað gekk að henni? Hún grét yfir syni sínum, sem hún átti á lífi og var lifandi eftirmyndin mannsins hennar sáluga. Hann var nú kominn upp, var fríður sínum, gerfilegur, gáfaður og leit út fyrir að verða allra bezta mannsefni; hann var alinn upp í auð og allsnægtum, og hún hafði vonast eftir, að hann mundi verða sér til ánægju og gleði. En hann var farinn frá henni eitthvað út í buskann, hafði vanið sig á kæruleysi, slark og aðra ósiðsama breytni. En þarna sat hún nú, hún móðir hans, einmana þetta fagra kvöld og gat ekki hjálpað honum, þó hún hefði viljað leggja til þess líf sitt í sölurnar. Vegna þess grét hún nú hástöfum þenna týnda son.

Þá kom eitthvað við andlit hennar og hélt hún, að það væri eitthvert blómið í glugganum, en það var ekki það, heldur engillinn, sem tók tárin varlega af augum hennar.

„Þessi tár hefir móðir grátið yfir sínum týnda syni,“ mælti engillinn, „það hlýtur að vera það rétta, og það hlýtur að geta átt bústað á himnum.“

Engillinn fór með tár þetta til himna, og bar það brosandi og sigrihrósandi fram fyrir drottinn, því nú efaðist hann ekki um að starf sitt væri á endá.

Drottinn leit á tár þetta og mælti: „Þetta er ekki heldur það rétta tár. Úr því gæti eg búið til gimstein, er varaði eilíflega, en hann mundi hvorki hafa lit né ljóma, og hlyti því að draga úr fegurð lífsins kórónu. Sæktu mér tár, er eg geti gert að gimstein, er beri himneskan ljóma.“

Og engillinn horfði á Elínu hnugginn á svip, því hann var alveg í vandræðum með að finna það tár, sem drottni þóknaðist.

Þá var það eitt sinn síðla nætur, að Elín lá í silkiklæðum í rúmi sínu aðkomin dauða. Nú var hún orðin gömul og grá fyrir hærum, og nú grét hún ekki framar, því táralind hennar var þornuð. En eng-

illinn stóð hryggur við rúm hennar reiðubúinn að bera burtu sálu hennar er hún lokaði augunum í síðasta sinni.

Þá var hnrðin opnuð varlega, og inn kom sá, sem hún hafði grátið yfir í mörg ár, sá, sem hún hafði hugsað um og beðið fyrir fram að þessari stundu, sonur hennar, einka barnið hennar. Nú kom hann heim, þreyttur og mettur af lystisemdum heimsins.

Og hún reis upp í rúminu, lagði hendurnar um háls honum, kysti hann, og hallaði höfðinu upp að brjósti hans. Og hún kom varla upp orði fyrir gleði, en hvíslaði afar rólega: „Guði sé lof!“

Tár hrundi niður kinn hennar. Engillinn þreif það og fór með það upp í hæstu hæðir.

En drottinn himinsins mælti: „Þetta er hið rétta tár, það er dropinn frá djúpi hjartans, gleðinnar tár, sem er óafmáanlegt, og hefir himneskan ljóma.

Að svo mæltu breytti drottinn gleði tári hinnar deyjandi móður í ljómandi gimstein og setti hann í lífsins kórónu.

Og hún sá það sjálf, því engillinn sótti hana og flutti frá þjáningum lífsins; og drottinn krýndi hana sigursins kórónu.

Og augu hennar ljómuðu eins og sólir í ríki guðs.

## Hættulegur leikur.

Börn leika sér stundum að ýmsu, sem getur verið afar hættulegt. Nýlega voru drengir hér í bænum að leika sér með eld, en afleiðingin var sú, að það kviknaði í miklum steinolíu birgðum sem brunnu á svipstundu upp til kaldra kola. Hefði vindur verið af annari átt, er hætt við að mjög mörg hús hefðu brunnið upp. — Börn, það er slæmur leikur að fara með eld, sem gæti valdið því, að margir menn verði bláfátækir og komist á vonarvöl. — Varið ykkur á slíkum leik! Hann getur orðið mörgum til ógæfu!

## SKRÍTLUR.

Maðurinn (hjá skraddara): „Eg tek ekki á móti þessum frakka. Hann er langt um of víður.“

Skraddarinn: Bíðið þér bara þangað til þér fáið duglega rigningar-dembu. Þá megið þér vera viss um, að frakkinn verður eins og hann væri steyptur utan um yður.“

Hjón nokkur koma eitt kvöld að sveita veitingahúsi:

Bóndinn spyr veitingamanninn: „Hvað getum við hjónin fengið að borða?“

Veitingamaðurinn: „Við höfum ekki til nema máltíð handa einum.“

Bóndinn: „Hvað á þá að verða handa konunni minni?“



„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun /5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 9. ÁGÚST. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 20.—21.

## „Legg þú út á djúpið!“

(LÚK. 5. KAP. 4. V.)



Legg þú á djúpið, þú, sem enn ert ungur,
og æðrast ei, þótt straumur lífs sé þungur,
en set þér snemma háleitt mark og mið;
haf guðs orð fyrir leiðarstein í stafni
og stýrðu síðan beint í Jesú nafni
á himins hlið.

# Thomas Alva Edison

er að líkindum einhver sá merkasti maður, sem nú er uppi og fáir munu þektari en hann um víða veröld. — Hann er stórauðugur maður og á fjölda af allskonar verksmiðjum; hefir hann aflað sér alls þessa með eigin handafla og hugviti sínu. Foreldrar hans voru bláfátækir, og áttu upprunalega heima í Kanada í Ameríku. Heitir faðir hans Samúel; er hann enn á lífi rúmlega níræður að aldri og býr í ríkinu Florida í Bandaríkjunum. Móðir Edisons var skozk að ætt. Skömmu áður en Thomas litli fæddist varð Samúel faðir hans að flýja til Bandaríkjanna og settist þar að í ríkinu Ohio. Þar kvæntist hann og þar fæddist Thomas litli árið 1847. — Ekki fékk hann mikla fræðslu í æskunni, og ekki gekk hann í skóla nema að eins 2 mánuði. Samúel gamli var heldur ekki mikill bókamaður, og ómegðin mikil, svo ekki var hægt að kosta miklu til krakkanna. Kona hans varð því að kenna börnum sínum sjálf, enda var hún óvenjulega vel að sér, og hafði verið kenslukona áður hún giftist. — Thomas var óvenjulega námfús, og notaði oft þær stundir til að læra, er aðrir drengir höfðu til að leika sér. Las hann að heita mátti hverja bók, er hann komst yfir, og ef hann skildi ekki efnið fullkomlega, spurði hann ýmsa fullorðna menn, er fróðir voru, og hætti ekki fyr en hann hafði not af því sem hann las. Forvitni hans var óseðjandi; hann langaði til að skilja alla skapaða hluti. Þegar hann var sex ára að aldri, hvarf hann einu sinn, allt í einu og enginn vissi, hvað af honum var orðið. Var hans lengi leitað og fanst hann loks í heygarðinum. Hafði hann borið þar saman moðhrúgu, gert í henni hreiður, og lagt þar í hænsaegg og andaregg; sat hann þar og ætlaði að bíða eftir því hátíðlega augnabliki, er kjúklingar og gæsaungar kæmu úr eggjunum.

Þegar Thomas var sjö vetra gamall, misti Samúel faðir hans eigur sínar og varð því að flytja sig á annan stað. Thomas litli var þá byrjaður á lestri sínum fyrir alvöru. Hann gat náð í bókasafn eitt, sem léð var hverjum sem hafa vildi. Réði hann af að lesa það alt, hverja bók sem fyrir kæmi, en ekki sagði hann foreldrum sínum frá fyrirætlun sinni. Byrjaði hann á neðstu hyllunni og var búinn að lesa 15 feta langa röð áður nokkur vissi af, en þá urðu foreldrar hans vör við fyrirætlun hans. Óttuðust þau, að hann þyldi ekki jafnmikinn lestur jafn ungur, og þar með var þessi fyrirætlun úr sögunni.

Þegar Thomas Edison var 13 eða 14 vetra að aldri, varð hann að byrja á því að vinna fyrir sér. Það hefir verið siður í Ameríku, að unglingar sem selja fréttablöðin ferðast með járnbrautalestunum og reyna með því móti að koma út svo mörgum blöðum, sem mögulegt er. Vagnarnir eru kræktir saman milli 10 og 20, og stikla drengir þessir milli vagnanna þar sem þeir eru á fleygiferð, ganga í gegnum þá og selja þeim ferðamönnum blöðin, sem kaupa vilja. Edison litli fór af stað með járnbrautarlestinni á morgnana, seldi blöðin bæði í vögnunum og á viðkomustöðunum, og fór svo langt að heiman, að hann kæmist að eins heim á kvöldin um háttatíma. Fyrir utan blöðin seldi Edison ferðamönnum líka allskonar sælgæti, svo sem brjóst-

sykur, límonaði o. s. frv., en minna þótti honum í þá sölu varið, enda græddi hann miklu minna á henni.

Þrælastyrjöldin stóð þá yfir í Bandaríkjunum. Norðurríkin höfðu bannað alla þrælasölu, en Suðurríkin urðu þá óð og uppvæg og gripu til vopna. Stóð ófriður þessi yfir í 4 ár, 1860—64. Edison varð var við, að almenningur í Norðurríkjunum var mjög forvitinn eftir að vita hvernig stríðinu gengi suður frá. Nú vissi hann að stórorusta hafði verið háð við bæ þann er Pillsborg hét, — óvenju mikil og mannskæð. — Prentararnir voru vinveittir honum og fékk hann að líta allra snöggvast á aðal-fréttirnar, og skrifar hann þær upp. Að svo búnu fer hann til umsjónarmanns hraðskeytaboðanna á járnbrautastöðinni og semur við hann, að senda hraðskeyti um nágrennið sama kvöldið til allra járnbrautarstöðvanna, þar sem Edison var vanur að koma við. Var höfuð-innihaldið úr fréttunum frá bardaganum sett í auglýsingu, sem fest var upp í öllum járnbrautarskálunum. Morguninn eftir kom blaðið út; gengur þá Edison litli til útgefandans og biður hann að lána sér 1000 blöð til að selja um daginn. Útgefandinn hafði frétt um uppátæki hans með auglýsingarnar og lánaði honum blöðin fúslega.

Edison leggur nú af stað með blaðabunka sinn. Þegar hann kemur á fyrstu járnbrautarstöðina og stígur út úr vögnunum, er þar fyrir fjöldi fólks. Hyggur hann það fyrst vera fólk, er ætlaði að ferðast sér til skemtunar. Hafði hann aldrei selt þar áður meira en tvö blöð á 5 cent eða nál. 17 aura, en í þetta sinn er hann búinn að selja 40 á svipstundu. Heldur hann svo áfram með járnbrautarlestinni og á hverjum viðkomustað verður ásókn fólksins æ meiri og meiri, og að sama skapi setur hann upp verðið á blöðunum, og þegar hann kom heim um kvöldið, hafði hann selt öll blöðin, og grætt dálitla fjárupphæð.

Næsta uppátæki Edisons var að gefa sjálfur út blað, en það einkennilegasta við það var, að það var sett og prentað á járnbrautarvögnunum. Sjálfur var hann bæði ritstjóri og prentari. Blaðið var auðvitað ekki nema örlítið og ófullkomið að efni. En brátt jókst verkið svo að Edison varð að leigja 4 drengi aðra sér til aðstoðar. Langar hann þá til að gefa út stærra blað, sem standi ekki á baki annara blaða, og fær annan mann í félag með sér, en félagi hans hefir svo ósæmilegan munnsöfnuð í blaðinu, að þeir verða að hætta við alt saman eftir lítinn tíma.

Jafnhliða þessu hefir Edison ýmislegt fleira á prjónunum. Hann kaupir sér bækur fyrir hvern skilding, sem hann eignast, og les og lærir af kappi. Einkum leggur hann stund á efnafræði, það er kunnáttu í því, hvernig eigi að búa til alls konar meðul, vinna ýmiskonar málm úr grjótinu, búa til litarefni o. s. frv. — Til þess að stunda efnafræði þarf mikið af glösum og öðrum verkfærum og margskonar efni: sum þeirra eru baneitruð, en önnur afar eldfim, og eru því hættuleg meðferðar. Til þess að stunda þetta fékk hann klefa í aptasta farangursvagninum, sem var afarhrörlegur. Vagninn skrölti mjög og einu sinni hrökk við það tappinn úr einu glasinu. Var í því mjög eldfimt efni og kviknaði við það í vagninum. Að sönnu tókst að slökkva eldinn, en vagnstjórinn varð svo reiður að

hann rak Edison burt með allan farangur sinn.

Ekki lét Edison þetta draga úr sér hugann. Hann safnaði dóti sínu saman og fór með það heim til sín, og bjó nú um sig í kjallaranum. Jafnhliða þessu tók hann að læra ýmislegt um rafmagnsvélar og ritsíma. Hann hafði lært að skrifa bæði fljótt og vel, og kom það honum að góðu haldi, enda er hann einhver fljótasti skrifari, sem unt er að finna, og skrifar greinilega 45 orð á hverri mínútu.

Samt sem áður var ekki auðhlaupið að því fyrir hann að komast á ritsímaskrifstofu. Hann var ekki nema 15 vetra að aldri, og var önnum kafinn í því að selja blöð á járnbrautarstöðvunum. En þó hann fengi töluvert fyrir blaðasöluna, notaði hann minst af því sjálfur, og var það vandi hans að færa móður sinni 1 dollar (3 kr. 75 au.) á hverjum morgni af því er honum hafði áskotnast daginn áður.

Ein af járnbrautarstöðvunum, þar sem Edison seldi blöðin sín daglega, hét St. Clemence, og járnbrautarumsjónarmaðurinn Mackenzie. Átti hann dreng á þriðja árinu, er nefndist Jimmy, og var Edison oft að leika sér við hann. Sumarið 1862 er það eitt sinn sem oftar, að Edison er þar að selja blöðin sín. Var það mitt á milli hádegis og dagmála í allra bezta veðri. Var verið að raða vögnum á brautina, en við það hafði einum lausum farangursvagni verið hrundið af stað og rann hann óstöðvaður eftir brautinni. En til allrar óhamingju stóð Jimmy litli úti á brautinni. Var hann að leika sér að því að kasta smásteinum aftur fyrir höfuðið á sér. Sá hann ekki vagninn, er brunaði á hann og hafði ekki vit á að forða sér. Edison er þar skamt frá og er hann sér, í hvílíkri hættu drengurinn er, fleygir hann blaðabunkanum í skyndi og sendist út á brautina, þrífur drenginn upp og komst svo naumlega undan, að vagninn nærri snerti hælinn á öðrum fæti hans. Datt hann með drenginn í malarhrúgu þar hjá og báðir risu hálfblóðugir og kumlaðir á fætur. Það má nærri geta, hve föður drengsins hefir þótt vænt um, að barni hans var bjargað. Bauð hann Edison í þakklætisskyni, að kenna honum símritastörf 4 tíma í viku hverri, og láta annan dreng sjá um blaðasölu hans þá dagana. Edison tók þessu auðvitað með þökkum. Var hann kappsamur við nám sitt, og að skömmum tíma liðnum var hann tekinn fyrir aðstoðarmann með 25 dollara launum á mánuði (rúml. 90 krónur).

Edison var við símritastörfin eftir þetta á ýmsum stöðum, og ekki leið á löngu, áður hann findi upp ýmislegt nýtt og bætti ritsímann í ýmsum greinum. — Hann vann nærri hvíldarlaust, stundum nærri nótt og dag, og ætlaði sér ekki nema örlítinn tíma til svefns og matar. Nú er hann kominn yfir fimtugt, og enn þá vinnur hann með óþreytandi kappi. — Hann er auðvitað farinn að eiga með sig sjálfur fyrir löngu og hefir nú mörg hundruð manna í þjónustu sinni; en hann vinnur sjálfur með, og þegar hann er að búa til eitthvað nýtt, kemur fyrir að hann vakir stöðugt við það í 2—3 sólarhringa, þangað til það er fullgert.

Edison hefir búið til allskonar nýjar vélar og verkfæri um dagana, einkum rafmagnsvélar, en þær eru svo torskildar, að ekki er til neins að lýsa þeim fyrir börnum. Ein þeirra er rafmagnslampinn. Má láta vinds

eða vatnsafl snúa millu, þessari hreyfingu er svo breytt, þangað til hún verður að afarbjörtu ljósi, sem hægt er að nota bæði úti og inni, og er margfalt bjartara en steinolíuljós.

Edison er nú kunnur um allan heim. En hann er laus við að berast á, eða þykjast yfir sjálfum sér, og þykir meira gaman að tala við vinnufólkið sitt, en láta höfðingja heimsækja sig.

Það er sjaldgæft, að hitta jafn hugvitssama menn; en væru allir drengir og allar stúlkur jafn starfsöm og kappsöm og Edison hefir verið, hlytu þau að læra margt til munns og handa, og verða bæði efnuð og gæfumenn. Því duglegum og góðum manni hlýtur að líða vel, hvar sem hann er á jörðunni.

# Hindúar.

## I.

Suður úr Austurálfunni ganga 3 skagar afarstórir. Vestastur þeirra er Arabía, þá Vestur-Indland, og Austur-Indland austast. Merkastur þessara skaga er Vestur-Indland. Norðan að honum liggja fjöll þau, er Himalaya nefnast, 300 mílur á lengd og hæstu fjöll í heimi. Hæstu fjöllin eru meira en fjórum sinnum hærri en hæstu fjöll á Íslandi. Heitir hæsti tindurinn Gárisankar og er hann meir en 28 þúsund fet á hæð. Þrátt fyrir það þó fjöll þessi liggi nálægt hitabeltinu er efri hluti þeirra ávalt jökli hulinn, en þegar kemur niður eftir, verður hitinn æ meiri og meiri, og þegar komið er ofan í miðjar hlíðar, er þar veður svo blítt, að þar er sífeld vorblíða árið um í kring, öllu heitara en þegar heitast er hér á landi. Þegar kemur niður úr fjöllunum, tekur við sléttlendi afar víðlent, og er það nefnt Hindustan. Er þar vanalega ofsahiti árið um í kring. Syðst á skaganum er aftur á móti fjalllendi og er þar því svalara. Landið er afarstórt, hérumbil 30 sinnum stærra en Ísland. Þar vaxa allskonar



ávextir og dýrindisviðir, og þar finst bæði gull og allskonar gimsteinar. Þar er gnægð allskonar villidýra, svo sem hirtir og antilópar. Fílar ganga þar viltir í skógunum, en þeir eru oft veiddir og tamdir og notaðir úr því fyrir vinnudýr. En þar eru einnig allskonar skaðleg villidýr t. d. tígrar og slöngur. Heldur þetta illþýði sig í reirstígum með

fljótunum og gerir oft mikinn skaða bæði á mönnum og skepnum. Farast um 23 þús. manna þar árlega fyrir villidýrum, og drepa tígrar um 2000 manna árlega, en slöngurnar um 20 þús. En þótt jarðargróði sé þar geysimikill, lifir fólkið við eymd og volæði. Gangi þar þurkar miklir, skrælnar öll jörðin upp, og allur gróður deyr út. Bregst þá kornuppskeran stundum mörg ár, og deyr þá fólkið stundum úr hungri þúsundum saman. Þar er mjög erfitt að vinna sakir hitans, enda eru vinnulaunin mjög lág, oft ekki nema 10—20 aurar á dag. Landið er ákaflega þéttbygt, og eiga þar heima undir 300 miljónir manna eða nál. fimtungur allra manna i heimi. Landsbúar eru nefndir Hindúar, og er mynd af einum þeirra hér í blaðinu. Þeir eru rennilegir og heldur grannir vexti, svipaðir Íslendingum í andlitsfalli, en þó mjög dökkir á hörund af sólarhitanum. Þeir eru greindir af náttúrufari, tryggir og góðlyndir. Þeir eru mjög bráðþroska, eins og alment er í öllum heitum löndum, enda giftist fólk þar 10—12 ára gamalt. [Framh.]

# Börnin í Kína.

Þegar litli kínverski drengurinn vaknar, er komið langt fram á morguninn; nuddar hann þá stýrurnar úr augunum, bröltir fram úr rúminu, sem alt fólkið sefur saman í, og er svo reiðubúinn að byrja að borða morgunmatinn. Hann þarf ekki að hafa fyrir því að klæða sig, því hann er í sömu fötunum nótt og dag. Á vetrum er hann í víðum bómullarfötum. en á sumrin er hann nærri því allsber.

Þegar kínverski drengurinn kemur á fætur, er hann svangur og langar í morgunmatinn. Flýti móðir hans sér ekki að sinna honum, fleygir hann sér á gólfið, ískrar og sparkar út í loftið, þangað til hann fær ósk sína uppfylta. Æpi hann svo hátt, að hann veki yngri börnin, hrakyrðir móðir hans hann og ber hann, en jafnframt dustast þá rykið líka úr fötunum hans. Ef til vill þvær mamma hans honum þar eftir í framan, en margar kínverskar mæður hafa litla fyrirhöfn af því að vera að þvo börnin sín.

Til morgunverðar fá litlu Kínverjarnir skál með köldum hrísgrjónum í, en stundum hitar móðirin þau með því að hella á þau dálitlu af sjóðandi vatni. Drengurinn fer þá með skálina sína út á hlað, sezt þar á hækjur og tekur skálina í kné sér. Getur hann þá gert tvent í einu: tínt grjónin upp í sig með matarprjónunum og horft á ókunnuga menn, sem framhjá fara.

Undir eins og morgunverðinum er lokið, fara flestir litlir drengir að búa sig í skólann. En telpurnar eru heima til þess að þvo fötin, passa yngri börnin og vera í snúningum. Þær læra þó bæði að sauma og bródera. Þegar kominn er tími fyrir drengina að fara í skólann, vefja þeir bækur sínar í vasaklútinn sinn og hlaupa af stað. En þeim hættir við að koma stundum nokkuð seint í skólann, því þeir standa oft við á miðri leið og fara að leika sér. Kínversk börn eru afar hneigð fyrir að leika sér, og halda því jafnvel oft áfram, þó þau séu komin á fullorðinsár.

Drengirnir hafa rauðar pappírsræmur í skólanum og hefir kennarinn skrifað einn staf á hverja (sem þýðir heilt orð). Kennarinn segir nú börnunum hvað stafurinn heitir og lætur þau hafa það yfir svo oft,

sem hann álítur þörf, til þess að þau muni það upp frá því.

Þegar skólafríin eru, fara feðurnir með drengina til goðahofsins, en þar eru alls konar barnagull á boðstólum. Þegar vora tekur, taka drengirnir að leika sér að flugdrekum sínum. Pappírsflugdrekar þessir eru með allskonar lagi og í allskonar myndum eins og fuglar, menn, stjörnur og fiðrildi, stórir og smáir og alla vega litir.

Á kvöldin binda drengirnir tíu til tólf pappírs-skriðbyttur við drekana og láta þá svo sveima í loft upp. Eru þá ljósin að sjá eins og raðir af stjörnum, sem hafi stigið af himnum ofan og komist of nærri jörðunni. Stundum festa þeir hörpu við drekana, og heyrist þá ómur, er þeir svífa í loftinu. Heldri manna börnin leika sér þó ekki mikið, enda er þeim kent frá blautu barnsbeini, að þau eigi að vera alvarleg, og láta þar með sjá, af hvaða bergi þau eru brotin, og verða þau því stöðugt að gæta sín við því, að saurga ekki skrautlegu og marglitu silkifötin sín.

(Úr „Ljus i Hjemmet“).

# Reiði.

„Nei, eg gerði það ekki! Eg gerði það ekki, segi eg!“ sagði Hinrik við Georg bróður sinn, sem var yngri en hann. Hinrik var alveg blóðrjóður í framan; svo reiður var hann.

„Hinrik,“ sagði móðir hans, sem sat í hinum enda stofunnar og var að skrifa, „Hinrik, vertu ekki svona reiður og óvingjarnlegur við hann bróður þinn.“

„En hann segir, að eg hafi brotið tréhestinn sinn, og það var ekki eg, sem gerði það.“

„Það getur vel verið, barnið mitt gott; en þú þarft ekki að vera svona reiður fyrir því. Nú er eg að skrifa honum pabba ykkar. Á eg að skila kveðju til hans frá ykkur?“

„Já, já! Skilaðu kærri kveðju frá mér!“ sagði Hinrik.

„Og frá mér líka!“ sagði Georg.

„Á eg að segja honum, að þú ætlir að vera góður drengur, Hinrik minn, og reyna það sem þú getur að stilla skap þitt?“

„Já, mamma, og segðu honum að eg voni, að mér takist það, og að eg ætli að vera orðinn góður drengur, þegar hann kemur aftur heim frá Indlandi.“

„Þú meinar víst: með guðs hjálp, Hinrik?“ spurði móðir hans.

„Já, auðvitað, mamma. — Láttu kúlurnar vera, Georg. Þú mátt ekki snerta mínar kúlur.“

Nú var hann aftur orðinn blóðrjóður og fokvondur.

Móðirin andvarpaði yfir því, hve Hinrik var fljótur að gleyma áformi sínu, að verða góður drengur. Hann gaf henni oft ástæðu til að andvarpa. Georg var ekki nema fimm ára gamall; en Hinrik var þremur eða fjórum árum eldri, og hefði því átt að vera bróður sínum til fyrirmyndar, því litlu börnin venjast næstum alt af á að gera það sem þau sjá, að þau stærri gera. Þessu megum við aldrei gleyma, þegar við leikum okkur við lítil börn. En Hinrik hugsaði ekki um það. Hann var oft slæmur við bróður sinn, og svo hugsunarlítill og fljótfær, að hann gaf sér aldrei tíma til að hugsa sig um eða athuga, hverjar afleiðingar athafnir hans kynnu að hafa, fyr en hann hafði framkvæmt þær.

Drengirnir urðu brátt leiðir á að leika sér inni í stofunni. Þeir hlupu út í garðinn og þaðan út á flötina fyrir utan garðinn, en þar gat móðir þeirra hvorki heyrt né séð til þeirra. Hún hélt áfram að skrifa og hugði, að þeir mundu vera að leika sér úti í garðinum.

Nú átti svo sem að leika sér, þegar komið var út á flötina. Fyrst óku þeir hvor öðrum á hjólbörum; svo söfnuðu þeir saman öllum smásteinum, sem þeir fundu, og tóku að fleygja þeim i girðinguna kringum garðinn. Það var auðvitað Hinrik, sem var forsprakkinn fyrir öllum þessum ærslum og ógangi; en Georg fanst sjálfsagt að vera með og herma það eftir, sem bróðir hans gerði. Loks fann Hinrik upp á því, að þeir skyldu safna saman öllum spýtum og þurrum kvistum, sem þeir findu, og kveykja í því.

Þegar þeir voru búnir að safna öllu þessu í stóra hrúgu úti á miðri flötinni, skipaði Hinrik bróður sínum að hlaupa inn í eldhús og sækja eldspýtur.

Georg flýtti sér af stað. En þegar hann bað eldastúlkuna um eldspýturnar, vildi hún fá að vita. hvað hann ætlaði að gera við þær. Georg sagðist ætla að kveykja í dálitlu af rusli, sem lægi fyrir utan garðinn. En eldastúlkan vildi ekki fá honum eldspýturnar; hún hélt að hann mundi kannske brenna fötin sín eða gera eitthvert annað tjón með þeim, svo Georg varð að fara eldspýtnalaus.

Hinrik varð auðvitað bálvondur, hljóp inn í eldhús og atyrti stúlkuna fyrir að hún hefði ekki viljað gefa þeim eldspýtur. Það leit nú reyndar ekki út fyrir, að hún kærði sig mikið um það, því hún hélt áfram að fást við miðdegismatinn og gegndi honum ekki einu orði, og það sárnaði honum enn meira.

Alt í einu kom hann auga á eldstokk, sem lá á eldhúsborðinu, og var þá ekki seinn á sér að taka hann og hlaupa síðan burt. Eldabuskan stóð með báðar hendur fullar af mjöli og gat því ekki aftrað honum frá því. Hún kallaði að eins á eftir honum: „Hinrik! þú mátt ekki leika þér að eldspýtunum. Þú veizt, að hún mamma þín hefir sagt að þú megir ekki hreyfa þær.“

En Hinrik skeytti því engu. Hann var kominn alla leið út á flötina, þar sem Georg var enn að safna saman kvistum, meðan hann beið eftir bróður sínum.

(Niðurl.)

---

**Kaupendur** „Æskunnar“, þeir, er enn eiga óborgaðan þennan árgang, eru vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni sem fyrst.

Útsölumenn og kaupendur, er eigi vilja fá send jafnmörg eintök af næsta árg. eins og þessum yfirstandandi, eru beðnir að tilkynna það í tíma.

---



---

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 9. SEPT. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 22.—23.

## Árnesstapi í Trékyllisvík.

**Mynd og saga úr blaðinu „Hauk.“**

---

Drangi sá, sem hér er sýndur, stendur að norðvestanverðu við Trékyllisvík á Ströndum skamt frá prestsetrinu Árnesi, og er um hann þjóðsaga þessi. Tröllahjón voru á ferð á Ströndum á næturþeli. Komu þau af tröllaþingi ofan úr öræfum. Áttu þau heima í Hornbjargi og voru að halda heim til sín. Jötuninn var öllu stórstígari en kona hans og því dálítinn kipp á undan. Fundurinn hafði orðið nokkuð lengri en við var búist og þurftu þau hjónin því að flýta sér, svo þau væru komin heim fyrir dögun, ella var þeim dauðinn vís, því þetta voru nátttröll, sem þoldu ekki að vera úti um hábjartan dag. Tók jötuninn því að greikka sporið. Og er hann kom að Trékyllisvík, steig hann yfir víkina á sama hátt og vér stígum yfir lítinn bæjarlæk. Sér enn fótspor hans í kletti einum austan víkurinnur, því jötuninn hefir stigið í gegnum klettinn og er kletturinn kallaður Sporið enn í dag. Þegar jötuninn var kominn yfir víkina sneri hann sér við til að gæta að hvernig konu sinni reiddi af. Í sama bili ljómaði dagur í augu honum. Brá honum svo við, að hann varð þegar að steini og þar stendur hann enn í dag eins og myndin sýnir. Þykjast menn glögt geta séð alla mannsmynd á dranginum: augu, eyru, nef, herðar o. s. frv., en vöxt hans má ráða af því að bera hann saman við manninn, sem á myndinni er að klifa



upp í kné hans. Kona hans stendur töluvert ofar í fjörunni. Er hún hartnær eins há, en öllu þrekvaxnari. Hefir hún ekki þolað þessa löngu útivist, og er höfuðið því dottið af henni og liggur það við fætur hennar í fjörunni.

En þótt slíkar þjóðsögur séu margar skemtilegar, mun hitt sannara, að vötn og veðrátta hafi etið björgin við víkina sundur, og að drangar þessir standi eftir af því, að þeir eru úr harðara steini og þola betur tímans tönn. En sá tími hlýtur að koma, að klettar þessir molna svo sundur, að engar menjar sjást eftir þá.

# Guð leiði þig.

(Eftir Karl Gerok. Tekið úr Svanhvít.)

GUÐ leiði þig mitt ljúfa barn,
Þú leggur út á mikið hjarn.
Með brjóstið veikt og hýrt og hlýtt
Og hyggur lífið sje oss blítt.
Guð leiði þig.

Guð leiði þig, en líkni mér,
Sem lengur má ei fylgja þér.
En ég vil fá þér englavörð,
Mín insta hjarta bænagjörð.
Guð leiði þig.

Guð leiði þig, þitt líf og sál
Og létti þína harmaskál;
Þú ferð nú út í fjarlæg lönd
Frá föður auga, móður hönd.
Guð leiði þig.

Guð leiði þig — þitt líf og sál,
Æ, lærðu aldre synd og tál,
Þín sál er nú sem sólin hrein,
Æ, sel ei burt þinn eðalstein.
Guð leiði þig.

Guð leiði þig. Sé lukkan stríð,
Er langt að þreyja raunatíð,
En hættulegri' er heimsins glans,
Æ, hræðstu glitvef freistarans.
Guð leiði þig.

Guð verndi þig — En vak og bið
Og varðveit, barn, þinn sálarfrið,
Á Herrans trausta hönd þig fel.
Ef hann er með þá farnast vel.
Guð leiði þig.

Guð leiði þig. Hans lífsins vald,
Á loft og jörð og himintjald.
Hans auga sér, hans ásýnd nær
Um allan geiminn nær og fjær.
Guð leiði þig.

Guð leiði þig hans eilíf ást,
sem aldrei nokkrum manni brást,
Gakk, gakk mitt barn og forlög fyll.
Og finnumst þegar drottinn vill.
Guð leiði þig.

*Matth. Jochumsson.*

(Með því afráðið hefir verið, að prenta öðru hvoru í „Æskunni" ýms ágætiskvæði, sem eru við barna hæfi, væri mjög æskilegt, að börnin sem lesa „Æskuna" hefðu það fyrir reglu að læra þau. Fallegt kvæði, lært á bernskuárunum, er einhver bezti andlegi fjársjóðurinn, sem nokkur getur aflað sér.)

# Reiði.

(Niðurl.)

„Fekkstu samt eldspýturnar?" spurði Georg, þegar bróðir hans kom með stokkinn

í hendinni. „Eldastúlkan sagði, að við mættum ekki kveikja.“

„Hver kærir sig um, hvað hún segir? Það þætti mér gaman að vita“, svaraði Hinrik, og fór að kveikja í hrúgunni.

„Eg vil helzt ekki gera það“, sagði Georg og gekk nokkur skref burt frá hrúgunni.

„Hvað þá? Viltu helzt ekki gera það, kjáninn þinn?“

„Já, mamma segir allt af, að við eigum að hlýða fullorðna fólkinu, og nú sagði eldastúlkan, að við mættum ekki kveikja í neinu. Eg vil helzt ekki vera með“, sagði Georg.

„En þú skalt vera með; það segi ég!“ öskraði Hinrik, og nú var hann aftur orðinn rjóður út undir eyru af bræði; því hann vissi vel, að hann hafði rangt fyrir sér, en Georg rétt. „Eg skal sannarlega fá þig til að vera með; það geturðu reitt þig á.“

Georg hristi höfuðið og settist á stein.

„Viltu koma hingað?“

Veslings Georg var hræddur, og lá við að fara að gráta; en hann sat samt kyr.

„Kemurðu nú?“

„Nei“, sagði Georg. „Það er ekki rétt að gera það.“

„Og það þorirðu að segja við mig? Viltu koma strax, þegar ég segi, að þú eigir að gera það.“

Hinrik hafði nú tekið upp stein og stóð með hann í hendinni.

Georg stóð upp og lagði af stað heimleiðis; hann þorði ekki að vera einsamall með bróður sínum lengur.

„Vertu kyr!“ öskraði Hinrik á eftir honum. „Þú fær ekki að fara inn til mömmu og segja frá. Heyrirðu það! Viltu vera kyr?“

Georg staðnæmdist; hann var orðinn náfölur en grét þó ekki.

„Viltu koma?“

Georg hristi höfuðið. Í sama bili fékk hann högg í andlitið, svo hann féll til jarðar og lá þar með háhljóðum.

Nú var Hinrik runnin reiðin. Hann hafði kastað steininum, án þess að hugsa um, hvað hann gerði eða hverjar afleiðingarnar gætu orðið. Nú stóð hann yfir bróður sínum eins fölur og Georg hafði áður verið, og grét og kveinaði.

„Æ, eg meinti ekkert ilt með því. Eg gerði það óviljandi.“

Eldastúlkan hafði heyrt hljóðin og kom nú til að sjá, hvað um væri að vera. Hún tók Gerg upp og sá þá, að andlit hans lagaði allt í blóði. Hinrik rak upp angistaróp; en stúlkan tók Georg og bar hann inn í húsið. Þar kom móðirin á móti þeim; hún hafði heyrt, að Georg var að hljóða, og þegar hún sá, hvernig hann var til reika, varð hún náföl. Hinrik stóð við hlið hennar og grét sáran; en nú tók enginn eftir honum; allir hugsuðu um Georg.

Stúlkan bar Georg inn í stofuna og hjálpaði móður hans til að búa um hann í legubekknum. Móðir hans spurði hann, hvernig honum liði, en hann svaraði að eins: „Æ, mér er svo ílt. Talaðu ekki við mig.“

Móðir hans sendi strax eftir lækninum. Síðan settist hún fyrir framan Georg, sem lá í legubekknum og stundi af sársauka. Hinrik var líka í stofunni en hann hafði falið sig úti í horni, þar sem enginn sá hann. Hann var hættur að gráta; en hann var svo hræddur og óskaði að eins, að læknirinn kæmi sem fyrst.

Loksins opnuðust dyrnar og einhver kom

inn í stofuna. Það var læknirinn. Nú hnipraði Hinrik sig lengra inn í hornið, því hann var hræddur um, að það mundi nú komast upp, hve vondur hann hafði verið. Læknirinn bað fyrst af öllu um volgt vatn og svamp, svo hann gæti þvegið blóðið af Georg. Drengurinn hljóðaði mjög, þegar komið var við hann; en læknirinn talaði til hans, og bað hann að reyna að vera rólegan, svo hægt væri að sjá, hvað að honum gengi. Á meðan læknirinn var að skoða Georg, starði Hinrik á móður sína: honum sýndist hún vera enn þá fölari og sorgbitnari en áður. Georg var mjög illa útleikinn í framan; en verst var þó, að steinnin hafði lent í öðru auganu á honum. Þar voru kvalirnar sárastar.

Læknirinn lagði heftiplástur yfir sárin, þvoði augað og batt um það; lagði hann svo fyrir, að hafa skyldi kalda bakstra og skifta oft um þá. Síðan spurði hann móðurina: „Hvernig vildi þetta til?“

Nú varð Hinrik enn hræddari en áður; hann óttaðist, að hann mundi verða spurður um það. En móðir hans vissi ekki, að hann var í stofunni og svaraði: „Eg hefi ekki spurt um það enn þá“.

Hinrik greip báðum höndum fyrir andlit sér og grét.

„Hann verður að liggja kyr,“ sagði læknirinn. „Það getur vel verið að hann fái hitasótt. Æðin slær mjög ótt.“

Læknirinn kvaddi og fór. Hinrik sá nú, að móðir hans kraup á kné við legubekkinn og bað til guðs. Nú var orðið nærri því aldimt; en enginn hugsaði enn um Hinrik. Vinnukonan kom inn og spurði, hvort hún ætti að koma með teið; en móðirin svaraði því neitandi, og var þó komið langt fram yfir þann tíma, er vant var að drekka te. Loks kom stúlkan, sem gætti barnanna, inn og spurði, hvar Hinrik væri. Þá varð hann að koma fram úr skotinu. Móðir hans kysti hann og bauð honum góða nótt, eins og hún var vön, og gat hann þá ekki varist gráti. Stúlkan bauð honum te; en hann kvaðst ekki þurfa neitt, en vildi heldur fara að hátta. en þegar hann var háttaður, gat hann þó ekki sofnað; til þess var hann allt of hryggur. Þegar stúlkan var farin burt frá honum, læddist hann ofan úr rúminu og ofan stigann. Stofuhurðin stóð í hálfa gátt, og sá hann, að inni í stofunni logaði ljós og móðir hans sat þar enn þá hjá Georg. Hann læddist inn og komst í hornið, þar sem hann hafði verið áður, án þess móðir hans yrði vör við hann. Georg hafði verið afklæddur, og búið um hann í legubekknum, en hitasóttin í honum fór vaxandi og hann var mjög órólegur. Slíka nótt hafði Hinrik aldrei lifað. Hann lá á gólfdúknum og var í nærklæðunum einum. Við og við blundaði hann ofurlitla stund, en vaknáði bráðlega aftur, bæði af því að honum var svo kalt, og af því svo illa lá á honum. Hann heyrði, hvað bróðir hans bar sig illa, og sá hvað móðir hans var sorgbitin, og hann vissi vel, að þetta var alt honum að kenna. Hann þorði ekki að lesa kvöldbænina sína; honum fannst hann hafa verið svo vondur, að guð mundi ekki vilja heyra bænirnar hans.

Um morguninn, þegar bjart var orðið, kom móðirin auga á Hinrik, þar sem hann lá í króknum. Þegar hún varð þess vísari, að hann hafði verið þar alla nóttina, lifnaði yfir henni; hún sagði, að hann væri góður drengnr að bera svo mikla umhyggju

fyrir bróður sínum. Þetta var honum nýtt sorgarefni, og þegar móðir hans kysti hann og ætlaði að hugga hann, grét hann enn meira.

Læknirinn kom á hverjum degi að vitja um Georg. Hann sagði ekkert um veika augað, en skoðaði það alt af nákvæmlega; sárin á andlitinu voru nú nærri gróin. Þegar læknirinn fór, stóð Hinrik alt af fyrir utan dyrnar og beið hans til að fá að vita, hvernig Georg liði. Læknirinn klappaði þá á kollinn á honum og sagði: „Þú ert vænn drengur að hugsa svona mikið um hann bróður þinn.“

Georg var nú farinn að klæðast og ganga um í stofunni; en þó var enn bundið um augað. Læknirinn skoðaði það á hverjum degi, og loks varð hann að segja móðurinni, að það kæmi því miður fram, sem hann hafði óttast frá byrjun; Georg hafði mist sjónina á særða auganu. Þetta voru sorgartíðindi bæði fyrir móðurina og aðra. Hinrik, sem stóð fyrir utan dyrnar og beið eftir leyfi til að mega koma inn, heyrði það líka, og nú gat hann ekki stilt sig lengur, heldur hljóp inn í stofuna til móður sinnar.

„Mamma, það var eg, sem gerði það,“ sagði hann og faldi andlitið í kjöltu hennar. „Þú veizt ekki hve slæmur eg hefi verið. Eg fleygði steini í hann Georg og hugsaði ekki út í, hvað ilt eg gæti gert með því; eg gerði það í bræði. Ó, mamma mín, snúðu þér ekki frá mér; vertu ekki reið við mig! Hvað á eg að gera?“

Móðir hans lagði hendurnar á höfuð hans og sagði: „Eg hefi alt af vitað það; en eg ætlaðist til að þú meðgengir það sjálfkrafa. Já, Hinrik, þú hefir gert bróður þínum mikið ílt.“

„Hvað heldurðu að pabbi segi, þegar hann fréttir það?“ spurði Hinrik kjökrandi.

„Honum mun víst falla það þungt, hve erfitt þú átt með að stjórna geði þínu. En hefir þú ekki neitt að segja honum, Hinrik?“

Hinrik þagði dálitla stund, síðan svaraði hann: Eg þori ekki að lofa neinu, því eg hefi gert það svo oft.“

Og þegar eg skrifaði pabba þínum seinast, — það var sama daginn og slysið vildi til —, þá lofaðir þú líka að gæta þín framvegis; þú hefir víst gleymt að biðja guð um að hjálpa þér til þess.“

Hinrik roðnaði en svaraði ekki, því móðir hans hafði getið rétt til.

Georg hafði altaf staðíð við hlið móður sinnar og horft á Hinrik. Nú gekk hann til hans, kysti hann og sagði: „Gráttu nú ekki Hinrik minn! Mér er nú ekkert ílt í auganu, og eg er ekkert reiður við þig heldur.“

En Hinrik grét enn meira, því hann fann, hve Georg var miklu betri en hann sjálfur.

Aldrei gleymdist Hinrik það, hve mikið ílt hafði hlotist af reiði hans og hugsunarleysi. Þegar hann ætlaði að reiðast, mintist hann þess jafnan, og bað þá guð um styrk til að geta stilt skap sitt. Þegar faðir hans kom heim frá Indlandi, sá hann, að Hinrik hafði efnt loforð sitt og var svo geðspakur og hógvær, eins og hann væri orðinn alt annar drengur. Var þetta mikil huggun fyrir foreldra hans, sem að hinu leytinu voru svo hrygg af því að veslings Georg hafði mist sjónina á öðru auganu.

XVIII + IX. þýddi.



# Einsetumaðurinn.

Þegar kristnin tók að breiðast út um heiminn, hugðu sumir, að þeir mundu lifa betra og guðrækilegra lífi, ef þeir drægu sig úr skarkala heimsins og helguðu guði líf sitt með föstum og bænahaldi. Lögðust því margir menn úti í eyðimerkur, skóga og hella, og létu þar fyrir berast, og lifðu við hungur og harðretti það, sem eftir var æfinnar. Hér á myndinni er slíkur einsetu maður í klefa, er hann hefir gert sér, Grúfir hann sig niður og lítur út fyrir, að hann sé á bæn. Smám saman fjölgaði, einsetufólki þessu mjög og tóku þátt í því bæði karlar og konur. Voru karlmenn þessir kallaðir munkar en konurnar nunnur, en bústaðir þeirra klaustur, og eru þeir enn til í kaþólskum löndum. Munkar og nunnur lifa aðskilin hvort frá öðru og aðskilin frá öðrum mönnum. — En lífstarf þessa fólks er mjög mikill misskilningur. Við eigum að lifa innan um aðra, njóta saklausrar gleði, varast það sem rangt er og reyna að láta sem mest gott af oss leiða, og þá gerum vér miklu betra og gagnlegra verk, en þó vér færum út á eyðimörk eða lifðum í klaustrum og hefðum lítil afskifti af því sem gerist í heiminum.

# Hugaður drengur.

(Saga frá Færeyjum.)

Ein af Færeyjunum heitir Stóra-Dímon, og er hún umkringd af ólgandi brimi á alla vegu.

Eyðilegt og skuggalegt er þar á vetrum, þegar holskeflurnar koma norðan að eins og himinhá fjöll og berjast á hengibjörgunum, brimið öskrar á skerjunum og sælöðrið rýkur hnndrað fet í loft upp. En á vorin fær þar alt annan brag, því þá koma bjargfuglarnir þúsundum eða jafnvel miljónum saman, og hreiðra sig á sillunum í björgunum.

Lómvían býr neðst. Henni finst hún vera húsbóndinn í bjarginu, og hefir því valið sér hægasta heimilið, stofuna og fyrsta loftið. Fuglar þessir sitja þétt hver við annars hlið, bústnir og þrifalegir, eins og ýstrubelgir í átveizlu, hreiknir og hnarreistir á svörtum kjól, og með hvítt brjóst. Á næsta lofti þar fyrir ofan eru mjallhvítir

mávar gáfulegir á svip með langa og mjóa vængi. Hjá þeim er stöðugt garg og gól, óp og háreysti. Þeir eru aldrei kyrrir og altaf þurfa þeir að kvarta yfir einhverju. — Og ættu þeir ekki við jafn rólegan húsbónda og lómvían er, mundi ekki líða á löngu áður þeim væri sagt upp húsnæðinu. En efst uppi á kvistinum, þar sem hallinn á þakinu byrjar, þar hefir dálítill jarðvegur náð fótfestu. Þar býr lundinn. Er hann oft nefndur prófasturinn, enda er hann mjög æruverður útlits, með afarstórt rautt nef, en hátíðasvipurinn fer stundum af honum, svo að það er ekki laust við, að það líti svo út, eins og hann sé að henda gaman að þeim, sem neðar búa. Hann grefur sér holur í jörðina, þar verpir hann eggjunum, og þar hýrist hann, enda eru ekki tekjur hans svo miklar, að hann hafi efni á því, að reisa tígulega höll til að búa í.

Tveir drengir áttu heima á þessari einmanalegu ey. Annar þeirra hét Jóhannes en hinn Óli Jakob. Faðir þeirra var leiguliði á eynni, og hann átti eina bæinn, sem þar var.

Jóhannes var 12 vetra en Óli Jakob 11 — og höfðu þeir aldrei komið út fyrir landsteina eyjarinnar. — Margar aðrar eyjar sáust fljóta í bláu hafinu alt í kring og horfðu þeir á þær á hverjum degi, og á vetrarkvöldin hafði þeim verið sagt frá stórborgum, þar sem byggi fjöldi fólks og sífelt væri glaumur og gleði. — Sögur þessar hljómuðu í eyrum þeirra líkt og æfintýr; og þeir spertu augun, hlustuðu á sögurnar og langaði að koma til bláleitu landanna handan við sundin.

Samt sem áður voru þeir glaðir heima hjá sér, því eyjan var fögur og fríð; loftið heilnæmt og þeir voru svo duglegir drengir, að þeir höfðu nóg að sýsla heima fyrir.

Þar voru fyrst og fremst tvö naut, kýrnar og kálfarnir, og vegna þessa fénaðar höfðu þeir æði mikið að bysa við, og skemta sér að; ennfremur voru þar fjárhundar, sem höfðu nærri mannavit. Þeir höfðu haft margan örðugan skemtidaginn með þeim og smalanum þegar þeir fóru í hendingskasti eftir hlíðunum, þegar verið var að elta sauðina, eða klifa upp örmjótt einstigi til að leita kinda sem ranglað höfðu upp á fjallið. Stundum fóru þeir út í bátinn. Þegar veður var gott á sumrum, var smáfiskurinn í stórtorfum undir eyjunni, og þá kom við undir eins og önglinum var kastað út fyrir borðstokkinn, en á haustin var kominn stóreflis þoskur, og þá urðu þeir að taka á öllum kröftum til, að innbyrða hann.

Skemtilegast var þó um fuglatekjutímann og hlökkuðu drengirnir til hans árið um í kring. Ef það var ekki gaman, að sitja á fjallsegginni og veifa stönginni með netháfnum á fyrir fuglinn, þegar hann flaug fram hjá, og flækja hann þannig inn í háfinn. En það dugði ekki klaufaskapur ef slíkt átti að hepnast. Og það gaman, að koma svo heim með hundrað, eða tvö hundruð, og jafnvel þrjú hundruð fugla á kvöldin. — Fullorðnu karlmennirnir sigu í löngum og sterkum vöðum niður í bjargið, og það var ekki lítil forvitni þegar verið var að draga þá upp, að vita hve marga fugla þeir hefðu veitt, og ekki lítið gaman að geta sér til af þyngdinni, hvað margir fuglar væru bundnir í vaðinn.

„Í ár fáum við sjálfsagt að vera með og síga í bjargið,“ sögðu þeir hvor við annan.

„Það er ómögulegt annað. „Við erum orðnir svo stórir.“ — Allt vorið töluðu þeir ekki um annað en þetta sín á milli.

Nú var komið fram undir Jónsmessu. Sólin skein á hafið og þokubólstrana, sem ultu framhjá. — Þetta var einn fegursti dagurinn á vorinu og það kom ekki til nokkurra mála að vera heima. Jóhannes og Óli Jakob stóðu úti á túni og tóku saman ráð sín. Ætluðu þeir að biðja föður sinn um, að mega siga í bjargið til þess að krækja út lundann, því nú var hann farinn að verpa inni í holunum, og var hægt að ná kvennfuglinum með því að stinga höndinni inn í holuna.

„Þú skalt biðja hann pabba, Jóhannes, því þú ert eldri,“ mælti Óli Jakob. „Nei, þú skalt gera það, Óli Jákob,“ mælti Jóhannes, „því hann pabbi gerir alt það, sem þú biður hann um.“

Í sama bili kom faðir þeirra út úr bæjardyrunum. Hlupu báðir drengirnir á móti honum og kölluðu hvor í kapp við annan: „Pabbi, megum við ekki fara í lundann í dag?“

Faðir þeirra leit hróðugur á duglegu og huguðu drengina sína, enda voru þetta allra laglegustu drengir, fjörugir útlits, rjóðir í kinnum, kvikir í augnaráði, sterkir eftir aldri og liðugir í limaburði. Honum þótti vænt um, að þeir höfðu beðið um þetta, en á hinn bóginn var ekki laust við, að þessi gamli hamramaður og fuglaveiðari væri hálfhræddur um „augasteinana“ sína ef hann sendi þá í bjargið. Hugsandi strauk hann höndinni um skeggið, sem náði honum á bringu og horfði upp í fjallið.

„Eg er hræddur um að þið hrapið, drengir.“

„Við pabbi! Þú hefir svo oft séð okkur sjálfur í bjarginu. Erum við ekki duglegir?“ Faðir þeirra leit brosandi á þá; en alt í einu varð hann aftur alvarlegur á svip; honum datt í hug að það átti fyrir þeim að liggja, að siga í bjargið og klifa hamrana, þar sem þeir áttu að lifa af því. — Einhverntíma verða þeir því að byrja. Mælti hann því við þá alvarlega: „Farið þá í drottins nafni, drengir, en farið varlega og verið snarráðir. Þið skuluð byrja við „Klettinn,“ og þegar sólin er komin á miðja Skuey, eigið þið að koma heim. Að svo mæltu bandaði hann með hendinni og gekk á burt.

Drengirnir létu ekki segja sér þetta tvisvar, og þutu eins og elding yfir túnið og inn í búr til móður sinnar. Það þurfti að búa út nestið og sokka og skó. Það stóð ekki lengi á því, það var búið á svipstundu. Móðir þeirra fylgdi þeim út; og stóð lengi við bæjardyrnar og horfði á eftir þeim.

(Framh.)



„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

IV. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. SEPT. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 24.—25.



## Matthias Jochumsson

er talinn helsta skáldið, sem nú er uppi hér á landi. Hann er fæddur í Barðastrandarsýslu 13. nóv. 1835 og er því hartnær 62 ára að aldri. Eftir að hann hafði lokið námi við lærðaskólann og prestaskólann varð hann fyrst prestur að Móum á Kjalarnesi, flutti til Reykjavíkur 1874, (þjóðhátíðarárið) og tók við ritstjórn Þjóðólfs, 1881 varð hann prestur að Odda á Rangárvöllum, og nokkru síðar á Akureyri. Hætti prestskap árið 1900. Hann er enn ungur í anda, og í fullu fjöri. „Æskan“ hefir nýlega flutt hið fagra kvæði hans, „Barnabæn“ og þýðingu hans á kvæðinu „Guð leiði þig mitt ljúfa barn“.

## Hannes Hafstein

er einn af hinum yngri skáldum landsins. Hann er fæddur á Möðruvöllum í Hörgárdal 1861, og því rétt fertugur að aldri. Faðir hans var Pétur Hafstein amtmaður



norðan og austan lands og sjálfur er H. sýslumaður í Ísafjarðarsýslu. Hannes er ljóðaskáld og eru eftir hann meðal annars mörg mjög fögur ferðakvæði. Flest börn munu kunna fyrsta erindið í kvæði hans „Skarphéðinn í brennunni“: Buldi við brestur“, sem sungið er um land alt.

# Hugaður drengur.

**[Saga frá Færeyjum]**

(Endir.)

Grasið var ennþá löðrandi af áfallinu, og urðu þeir að fara mjög varlega, því fyrir neðan þá var hengiflug, og einstígið er þeir fóru upp, var ekki nema fáa þumlunga breitt, og kafgresi hékk víða yfir um stíginn og vildi flækjast um fætur þeim. Loksins voru þeir komnir upp á brún, löðrandi í svita og lafmóðir, og settust á efstu snösina á klettinum til að hvíla sig, en grasgeirar gengu niður með honum á báðar hliðar.

Þetta var lundalandið. Það var ógrynni af fugli í bjarginu í dag, görguðu þeir öðru hvoru og hlupu um í grastónum fyrir neðan drengina, hallfleyttu svo höfðinu og gægðust upp til þeirra eins og þeir væru að segja: „Á nú bráðum að fara að byrja?" Hjartað barðist í brjósti dreingjanna er þeir hugsuðu um, hve veiðin mundi verða mikil um daginn; þetta hlaut að verða afbragðs dagur, annað gat ekki átt sér stað. En það er víst best að ljúka við matinn fyrst „svo hann tefji okkur ekki" mælti Óli Jakob, því honum fanst, að hann væri orðinn svo hræðilega svangur.

Drengirnir urðu ásáttir um, að fara ofan sitt hvorum megin við „Klettinn" og meðan þeir snæddu vörpuðu þeir hlutkesti um, hvora leiðina hvor þeirra skyldi fara, og veðjuðu um, hvor þeirra mundi afla meira.

Látum nú Jóhannes eiga sig, en fylgjum Óla Jakob á fuglaveiðunum. Hann rendi sér hægt og hægt ofan og hélt sér fast með höndunum í hvert sinn, unz hann hafði náð fótfestu. Það var líkt og hann rendi sér ofan eftir brattri þekju. „Kletturinn" gnæfði upp úr grasinu dökkur og geigvænlegur, eins og afarmikill reykháfur, en bjargeggin var þakbrúnin, — en það var reyndar nokkuð hátt þak, því 1500 fet voru af þakbrúninni niður að jafnsléttu. En Óli Jakob var ekki smeikur, hann hallaði sér liðlega eftir brekkunni, hélt sér með höndunum og tilti fótunum alstaðar þar, sem fótfestu var að finna; hann dró hvern fuglinn út úr holunum eftir annan. Þeir bitu og lömdu vængjunum, en hann greip um hálsinn á þeim, kipti i, og þeir voru steindauðir á sama augabragði.

Allstór fuglahópur lá þegar á þúfunni fyrir ofan hann — en alt í einu brá honum allkynlega við, — honum fanst hann renna ofan eftir. Honum fanst blóðið alt í einu frjósa í æðum sér, en blossa upp eins og bál í sömu svipan. — Svimaði hann? Hann leit upp. „Guð hjálpi mér!" kallaði hann upp yfir sig í mestu dauðans angist. Öll grastorfan rann — rann með hann ofan á gínandi hengiflug. Grasræturnar, sem höfðu haldið henni, höfðu slitnað uppi undir Klettinum, og það sást breið dökk sprunga með dálitlu moldarlagi ofan á grjótinu þar sem grastorfan hafði rifnað í sundur. Drengurinn var eins og örskot á fætur og hljóp eins og hann gat, og fimur sem köttur upp eftir, — upp að sprungunni. Hún var þá orðin meira en tveggja álna breið. Hann hoppaði eins og hann gat og náði með herkjum í grasið hinum megin. Hann sá, að grastorfan seig hægt og hægt ofan fram á brúnina, rifnaði þar i sundur og rauk svo ofan fyrir, en fuglarnir urðu hræddir, flugu út úr holunum og reyndu að forða sér. Reyndi hann nú að komast

upp á bakkann, en grasið slitnaði úr höndum hans. Hann þreif í það aftur og reyndi á ný fyrir sér, en það fór á sömu leið. Hann komst það ekki. Rofbakkinn var of hár. Hann kallaði á bróður sinn, en það kom fyrir ekki, hann heyrði ekki til hans. Kletturinn hlaut að taka úr hljóðið. Hvað átti hann að taka til bragðs? — Hann hafði titring í fótunum og verk í handleggjunum. Hann kallaði aftur, — nei, það var auðsætt, að ómögulegt var að heyra til hans þaðan, sem hann var.

Þar næst reyndi hann að komast fram með bakkanum. Hélt hann sér í þar sem hægt var, og fór svo varlega sem mögulegt var, — verið gat að hann gæti komist upp á einhverjum öðrum stað. Hann komst alveg undir Klettinn, en þá var ekki hægt að komast lengra, því þar var sprunga í berginu meir en faðmur á breidd. — Bakkinn var orðinn hærri og hærri, nú gat hann aðeins náð með stuttu handleggjunum sínum í neðstu grasstráin, en það var auðséð, að hann gat ekki komist upp.

Hann leit aftur fyrir sig — ofan fyrir. Hann stóð nú á sjálfri bjargbrúninni, en fyrir neðan var grænn blettur, og grasið lá þar auðsjáanlega í legu. — Hvað langt var nú ofan fyrir? Hann reyndi að gera sér grein fyrir því, eftir stærð fuglsins, sem hann sá þar niðri á torfunni. Það leit út fyrir að vera um hundrað fet. Skyldi faðir hans geta komist þangað ofan og náð honum, ef hann hrapaði ofan? — Hann hugsaði sig um — jú, hann hlaut að geta komist gegnum Vatnabyrgi. — Það var alveg áreiðanlegt.

En rotaðist hann ekki alveg af byltunni ef hann hrapaði ofan fyrir? Grasið var mjög mjúkt og lá í legu, og þar var mjög mikið af fugli. Það gat hugsast, að hann kæmist lífs af. En það stóð hvöss snös út úr berginu. Á hana hlaut hann að skella, og þá var búið. Því þá molaðist í honum hvert bein. En ef hann spenti út fæturna, kastaði sér út í loftið af öllu afli og rendi svo ofan fyrir? Hann tók upp hægri fótinn, og þá hinn vinstri, — hann var ekki mjög þreyttur — það hlaut að takast. Þó hann væri ekki nema ellefu vetra lét hann sér ekki bregða, og athugaði hvernig hann ætti að bjarga sér. Það var bezt að gera þetta sem fyrst, það þreytti hann, að standa þarna lengi. — Hann reyndi að ná í góða fótfestu, en hélt í grastóna af öllu afli. — En það var voðalegt að steypa sér þarna ofan fyrir! Átti hann ekki heldur að vera kyr og halda sér fast meðan hann gat? og svo — nei þá lenti hann á snösinni og steinrotaðist — en hann hafði lofað honum pabba sínum — hann beygði höfuðið og þurkaði svitann af enni sér á treyjuerminni, og leit því næst upp með glöðu bragði. Nú varð hann að hrökkva eða stökkva.

Hann fór að lesa „Faðir vor“, hátt en stilt og rólega. Þar næst fór hann að hugsa um móður sína. „Góða mamma, þú mátt ekki gráta“, hvíslaði hann, og tár komu í augu honum, en hniklaði því næst brýrnar djarflega, því honum datt í hug að faðir hans hafði skammað hann Hans vinnumanninn út af því hann grét þegar hann átti að síga í vað í fyrsta sinn fram af brúninni.

Enn þá einu sinni leit hann niður fyrir sig og miðaði. Því næst beygði hann knén

hægt og hægt, slepti tökum og rendi sér fram af.

---

Lómvían var búin að unga út og lundinn kominn af eggjunum áður Óli Jakob var kominn á fætur aftur eftir byltunu.

Hann lá í rúmi foreldra sinna í svefnherbergi þeirra og sneri sér að glugganum. Sólskin var úti og hún bakaði tjargaðann bæjarstafninn. Heitt var inni og mjög hljótt. Það var breitt fyrir gluggann og dyrnar út í búrið voru opnar.

Hann horfði á alt, sem hann sá í kringum sig, en svo mundi hann alt í einu eftir því, hvernig á því stæði, að hann lá þarna, — hann var þá ekki dauður, heldur lifandi heima hjá pabba og mömmu. En hvar skyldu þau vera, og skyldi hann hafa legið þarna lengi? Hann reyndi að rísa upp. Æ, æ, en hvað hann kendi til i fætinum; hann varð að leggja sig rólega fyrir aftur og átta sig. — Hvað var að fætinum á honum? Hann lyfti yfirsænginni varlega ofan af sér og gægðist undir rekkjuvoðina; fóturinn var allur reifaður og honum virtist hann vera svo afar digur. —

En hvar skyldi pabbi og mamma og Jóhannes vera? En hvað hann langaði til að sjá þau aftur! Hann lá og hlustaði, en ekkert heyrðist til neins. Eftir dálitla stund heyrði hann að bæjardyrunum var lokið upp. Hjartað fór að berjast í brjósti hans þar sem hann lá og horfði út í dyrnar. — Það var hún móðir hans. Hann rétti hendurnar móti henni, og hljóp hún æpandi í faðm hans. „En hvar er hann pabbi?“ hvíslaði hann að henni rétt á eftir, „er hann ekki heima?“ „Jú, — ég skal strax kalla á hann“.

Skömmu síðar kom faðir hans inn, og gekk rólega að rúminu, en Óli Jakob sá greinilega, að tár voru í augum hans. „Pabbi, ég gat ekki bjargað mér með öðru móti“.

Faðir hans svaraði ekki, en beygði sig hægt og hægt niður að drengnum sínum, klappaði á litla glókollinn á honum og mælti með grátstaf í kverkunum:

„Duglegi drengurinn minn“.

---

# Hundurinn sem talaði.

Ferðamaður, sem staddur var í París segir svo frá:

„Eg var hjá einu veglegasta matarhúsinu og voru borð og bekkir reist fyrir utan dyrnar. Kemur þá maður nokkur mjög vel búinn, tekur stól og sest við eitt borðið, og setur mjög fallegan lítinn loðhund, er með honum var á stólinn við hliðina á sér.

Veitingaþjónninn gengur til mannsins og spyr, hvers hann óski.

„Viljið þér láta mig fá steikt flesk með eggjum“, spurði aðkomumaðurinn?“

„Og mig líka“, mælti hundurinn.

Veitingaþjóninum verður hálf hverft við, en þorir ekki að gera neina athugasemd, heldur snýr við til þess að sækja það, sem um var beðið.

Roskinn maður, sem situr við eitt borðið, hefir tekið eftir þessu, og gengur til hundsins, fer að klappa honum og snýr sér því næst að húsbónda hans eg segir:

„Það hlýtur að hafa verið örðugt fyrir yður, að kenna hundinum þessa íþrótt. En hvað hann talar ágætlega vel! Væri hugsandi, að þér vilduð selja hann, vidi ég fús-

lega bjóða yður þúsund franka fyrir hann, (720 kr.)

„Eg get því miður ekki aðhylst boð yðar", mælti hinn aðspurði fremur þurlega.

„En byði ég yður tvær þúsundir?"

„Það dygði ekkert",

„Það er náttúrlega heimska, en mig langar svo afarmikið til að eignast hundinn ... Hvað segið þér, ef þér fengjuð fimm þúsundir?"

Hundinum hafði auðsjáanlega ekki geðjast að vinalátum ókunnuga mannsins, og færði sig undan honum og nær húsbónda sínum, en nú æpti hann til hans:

„Nei, seldu mig ekki, því ef þú gerir það, þá hefni ég mín".

„Hvernig ætlarðu að fara að því Lúlú?" spurði húsbóndi hans.

„Það er mjög hægt", svaraði hundurinn, „því upp frá þeim degi, að ég er seldur, þá tala ég ekki eitt einasta orð".

„Þarna getið þér nú sjálfur séð" mælti búktalinn við þann, er vildi kaupa hundinn, „hversu slæm kaup það væru fyrir yður, ef ég léti yður fá hundinn".

(Búktalar eru menn sem geta látið þau orð, er þeir segja, heyrast þannig eins og þau komi sitt úr hverri áttinni, og sitt með hverjum róm, og þessi búktali hefir látið orðin heyrast þannig, eins og þau kæmu frá hundinum).

## Guð eða konungurinn.

Einu sinni voru tveir bræður, sem voru mjög ólíkir hvor öðrum í skapi og að eðlisfari. Sá eldri var mjög eigingjarn, og mjög gefinn fyrir allskonar skraut og prjál, en sá yngri var jafnan reiðubúinn að hjálpa öðrum og leggja ýmislegt í sölurnar fyrir aðra, án þess þó að láta bera á sjálfum sér.

Nú kom uppskerubrestur og hallæri í landi því, er drengirnir áttu heima í. Mörg heimili urðu nærri bjargþrota, og áttu naumast brauðbita til að svala hungrinu. Og foreldrar drengjanna sáu jafnvel líka, að mjölforði þeirra rýrnaði dag frá degi, enda þótt hann væri drýgður með muldum viðarberki. Og það má nærri geta, að þau kviðu fyrir þeim degi, þegar enginn mjölhnefi eða brauðbiti væri eftir á heimilinu.

Konungur sá, sem réði fyrir landinu var voldugur og auðugur mjög og drambsamur að sama skapi. Átti hann margar hlöður fullar af korni og stóra skóga. en í þeim úði og grúði af allskonar villidýrum. Framan af var hann algjörlega tilfinningarlaus fyrir hallærinu, sem krepti að þegnum hans. Þá var það einn dag, að hann varð sjónarvottur að eymd fólksins, og skipaði konungur þá svo fyrir, að byggja skyldi afarstór bökunarhús, og þangað mætti hver fátæklingur landsins sækja eitt brauð á degi hverjum.

Fjöldi fatækra og hungraðra manna streymdi nú að úr öllum áttum. Og bræður þeir, er áður voru nefndir, lögðu einnig af stað eftir ráði foreldra sinna, til þess, að fá brauð úr bökunarhúsi konungsins. Urðu þeir að ganga langan veg, og þegar þeir komu loks til konungshallarinnar, settust þeir niður fyrir utan gyltu grindurnar, sem voru í kringum lystigarð konungsins, og biðu þar eftir því, að röðin kæmi að þeim, að meðtaka brauðið.

„En kvað það er mikið, að vera konungur", mælti eldri bróðirinn. „Enginn er

jafn voldugur og jafn auðugur og konungurinn“.

„Einn veit ég þó, sem voldugri er“, mælti sá yngri, og horfði rólegur upp til himins. „Guð er þó voldugri en konungurinn“.

„Þú ert heimskingi“ mælti eldri bróðirinn hæðilega. „Konungurinn gefur okkur brauð, en guð gefur okkur ekkert. Það er betra að þjóna konunginum en guði“.

„En ég vil nú heldur þjóna guði“, mælti yngri bróðirinn.

Fyrir innan grindurnar sat konungur landsins í hinum skrautlega lystigarði, og heyrði á samtal bræðranna. Eins og áður er sagt, var hann mjög drambsamur og svo hjegómagjarn og heimskur, að honum geðjaðist mjög vel að hrósi eldra bróðurins, en traust þess yngra á guði vakti gremju í huga hans.

„Bíddu við!“ muldraði hann fyrir munni sér, „og þá skal ég sýna þér, hvorum arðvænlegra er að þjóna, guði eða konunginum.

Að svo mæltu lét hann kalla yfirbakarann fyrir sig, og bauð honum, að baka þegar tvö öldungis jafnstór brauð, en hann skyldi hnoða t ttugu gullpeninga innan í annað brauðið.

Bakarinn gjörði eins og konungurinn hafði boðið og þegar búið var að baka brauðin, var kallað á bræðurna. Konungurinn rétti þeim sjálfur sitt brauðið hvorum, og fékk eldri bróðirinn brauðið með gullpeningunum.

„Þú skalt komast að raun um“, mælti konungurinn um leið og hann lagði hönd sína á höfuð drengnum, „að það er ekki til einkis, að trúa á konung sinn“.

Drengirnir voru mjög glaðir, er þeir héldu á burt úr höllinni, og var sá eldri sífelt að lofa konunginn fyrir, hve fríður, skrautbúinn og voldugur hann væri.

„Komdu“, mælti hann, þegar þeir voru komnir út úr höllinni. „Við skulum hvíla okkur á sama stað og áður, því það er löng leið, sem við eigum fyrir höndum“.

Settust þeir þá niður fyrir utan hallargarðinn, og horfðu ánægjulega á glóðvolg brauðin, er þeir báru undir hendinni.

„Sérðu nú ekki að konungurinn er voldugri en guð“, mælti hinn eldri bróðir hæðilega. „Hann sér um fólkið sitt, en þinn guð getur ekki gefið þér nokkurn hlut, er þú getir haft gagn af“.

Þú heimski drengur og drambsami konungur sem vilt setja þig í sæti Drottins, en sem hallar þér nú út að girðingu listigarðsins og hlustar á samtal drengjanna. Þið skuluð brátt reyna, að það er guð á hæðum, sem hefir valdið í hendi sér.

(Niðarl.)



„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN

## BARNABLAÐ MEÐ MYNDUM

V. ÁRGANGUR

RITSTJÓRI

## HJÁLMAR SIGURÐSSON.



REYKJAVÍK

GEFIN ÚT AÐ TILHLUTUN STÓR-STÚKU ÍSLANDS (I. O. G. T)

ALDAR-PRENTSMIÐJAN

1901—1902

# EFNISYFIRLIT.

# ÁVARP
## til lesenda „Æskunnar."

### „Æskan"

er nú fimm ára gömul, og þykir henni þá vel við eiga að ávarpa lesendur sína nokkrum orðum. Það er venja flestra annarra blaða, að þau byrja eða enda hvern árgang með því að snúa sér sérstaklega til lesendanna, lýsa stefnu sinni, yfirfara áranguriun af starfi liðna ársins og virða fyrir sér framtíðarhorfurnar. Hví skyldi ekki „Æskan" gera þetta líka?

**Lesendur „Æskunnar"**

eru vitanlega flestir börn og unglingar, enda er svo til ætlast. Fullorðna fólkið hefir sín sérstöku blöð. Feðurnir kaupa og lesa þau blöð, sem flytja ritgjörðir um ýms almenn landsmál, bæði pólitík, búnaðarmálefni og margt fleira, sem börnin hvorki hafa neina ánægju af að lesa né skilja neitt í. Mæðurnar hafa líka sín blöð út af fyrir sig, blöð, sem eingöngu eða nærri því eingöngu fjalla um þau mál, er konur sérstaklega varða. Sama er að segja um þau. Börnin hafa hvorki gagn né gaman af að lesa þau. En börnin langar þó til að fá eitthvað til að lesa, og þau þurfa að hafa eitthvað til að lesa. Úr þessari *löngun* og þessari *þörf* á nú „Æskan" að bæta. Hún á að vera blað fyrir börnin, og vill vera það.

**Hvað vill „Æskan"?**

Hún vill fullnægja lestrarþrá og lestrarþörf barnanna. En hún vill meira. Það er ekki nóg að börnin lesi—lesi eitthvað. Alt er undir því komið, hvað það er, sem þau lesa. Fyrst og fremst er þess að gæta, að það sé við barna hæfi, að börnin hafi skemtun af að lesa það og skilji það. Það er sannreynt, að börn hafa ekki eins mikla skemtun af neinu eins og sögum. Mestur hluti „Æskunnar" er því sögur, og það sögur, sem ætla má að lesendurnir hafi gaman af að lesa, og sem þeir skilji. Flestar eru þær útlagðar af öðrum tungumálum, flestar teknar úr erlendum barnablöðum, og þá valið það sem bezt þykir og helzt eru líkindi til að *íslenzku* börnin skilji.

En svo er nú fleira, sem „Æskan" vill. Hún kemur ekki einungis til að *skemta* börnunum, þó að það sé auðvitað nokkur hluti erindisins, því hún vill svo gjarnan, að börnin geti verið

*glöð börn.*

Gleðin, æskugleðin, á að vera eins óaðskiljanleg frá börnunum, eins og ilmurinn blóminu. Gleðin heyrir barnsaldrinum til. Ef börnin geta ekki verið glöð, eru þau ekki sönn börn; þau eru þá orðin fullorðin fyrir tímann. Sá maður, sem aldrei hefir fundið æskugleðina, hann hefir far-

ið óendanlega mikils á mis. Æfin hans verður aldrei heil, hversu gamall, sem hann verður. Hún verður eins og bók, sem vantar framan við. Byrjunin er týnd. Það stendur á sama, hvað miklu bætt er aftan við hana; hún verður aldrei heil. Finni börnin ekki æskugleðina, á meðan þau eru börn, þá finna þau hana aldrei. Barnæskan þeirra er þá týnd fyrir fult og alt.

En æskugleðina, sanna og hreina æskugleði, geta börnin ekki fundið, nema þau séu

*góð börn.*

Getið þið kannske verið glöð, ef þið hafið gert eitthvað, sem þið vitið að þið áttuð ekki að gera? Enginn maður, því síður nokkurt barn, getur notið sannrar gleði, nema það viti sig í sátt við guð og menn. Annars verður æfinlega einhver skuggi á gleðinni, eitthvað, sem stingur inst inni, þó alt líti ef til vill nógu glæsilega út hið ytra. „Æskan" vill gera alt, sem hún getur, til þess að taka burt þennan skugga, burtrýma þessum sára broddi, sem meinar svo mörgum börnum að njóta sannrar og hreinnar æskugleði. Hún vill hjálpa börnunum til að verða góð börn. Þess vegna velur hún sögurnar þannig, að lesendurnir geti lært eitthvað gott af þeim, sýnir þeim, hve illar afleiðingar fylgja slæmri hegðun, en að „gott má af góðum hljóta", að sá, sem góður er, verður bæði sjálfum sér og öðrum til gagns og gleði.

Loks vill „Æskan" stuðla að því að börnin verði

*upplýst börn.*

„Því eru fífl, að fátt er kent". Sá sem ekkert nemur í æskunni, fær trauðlega tækifæri til að læra svo mikið á fullorðinsárunum, að hann verði vel upplýstur maður. Œskan er undirbúningstími undir lífið; á fullorðinsárunum á maðurinn að hagnýta sér það, sem hann hefir lært í æskunni. Það er því afar áríðandi, að öll börn hafi það hugfast að nota tímann sem bezt á meðan þau eru ung, til þess að fræðast um alt það, sem þeim má að gagni koma síðar í lífinu. Það er alveg óvíst, að þau fái tíma eða tækifæri til þess síðar. „Æskan" vill hjálpa þeim til þess með því að flytja þeim ýmsan fróðleik, og vonar hún, að þessi hluti starfs hennar verði eigi sízt með þökkum meðtekinn.

**Kröfurnar,**

sem „Æskan" gerir til lesenda sinna, eru fyrst og fremst þær, að þeir lesi og íhugi það sem hún flytur, því að öðrum kosti verður starf hennar árangurslaust. Þar næst krefst hún einnig þess, að allir kaupendur hennar standi í skilum með borgun fyrir hana, því annars getur svo farið, að ekki verði mögulegt að halda henni áfram. Blaðið, þótt það sé ekki stórt, kostar allmikið fé; og því betur, sem kaupendurnir standa í skilum, þess betur verður blaðið úr garði gert. Og enn eitt: Ef börnin venjast á að refjast um að borga „Æskuna", getur það orðið til þess, að þau venjist á óskilvísi í því, sem meira er um vert.

***Allir foreldrar og aðstandendur þeirra barna, sem „Æskuna" kaupa, ættu því, barnanna vegna, að láta sér ant um að blaðið sé skilvíslega borgað.***

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. OKT. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson | 1.—2.



## Benidikt Gröndal.

Er elzta skáld landsins af þeim mönnum, er nú eru uppi og kunnur um alt land. Hann var fæddur 1826, og var faðir hans Sveinbjörn Egilsson, kennari og síðar rektor við lærða skólann, fyr á Bessastöðum og síðar í Reykjavík, sá sem ritað hefur fegurstu Íslenzku um langan tíma. Benidikt Gröndal lauk skólamáli á Bessastöðum og las þar eftir náttúrufræði við háskólann. Dvaldi hann lengi í Höfn, og fór víða um lönd. Orti hann margt einkum kringum 1860. Þar á meðal söguljóð út af Örvar-Oddssögu, sem er Örvar-Oddsdrápa. 1874 varð hann kennarí við lærðaskólann en slepti því embætti eftir nokkur ár, og lifir síðan á ritstörfum. Hann er enn ern og fjörmikill þótt hann sé hálf áttræður að aldri. Má enn sjá hann busla í fjörunni við að veiða allskonar dýr. Þrátt fyrir aldur sinn skrifar hann bezt allra Íslendinga og þó víðar væri leitað. Hann hefir skrifað fyrnin öll um allskonar efni, en frægast af því er Heljarslóðarorusta.

## Sigurður Breiðfjörð

er fæddur að Rifgirðingum á Snæfellsnesi



4. mars, en ekki er kunnugt með vissu hvort það var árið 1798 eða 1799. Faðir hans hét Eiríkur, en sjálfur tók Sigurður

sér ættarnafnið Breiðfjörð vegna þess hann var fæddur við Breiðafjörð. Foreldrar hans voru mjög fátækir og ólst hann þó að nokkru upp hjá þeim, en að nokkru hjá ýmsum öðrum. Snemma þótti bera á góðum gáfum hjá honum. Var því hugsað um að koma honum til menta, og var honum komið til prests eins í því skyni, en fátækt olli, að ekki var meira úr. Var honum þá komið til Kaupmannahafnar til að læra beykisiðn. Var hann þá 15 eða 16 vetra að aldri. Lærði hann iðn sína á 3 árum og settist þá að og gjörðist beykir og verslunarþjónn á Ísafirði. Eftir það dvaldi hann í ýmsum verzlunarstöðum sunnan- og vestan-lands en hvergi dvaldi hann lengi á sama stað. Olli því ýmist fátækt hans og lausung í ráði. Þegar hann var kominn um þrítugt flutti hann sig til Kaupmannahafnar og hugsaði að læra lög. Tókst hann þá á hendur að fara til Grænlands til að kenna Skrælingjum hákarlaveiðar. Dvaldi hann þar í 4 ár, en kom svo aftur til Íslands. Síðustu ár æfinnar dvaldi hann í Reykjavík, við fátækt mikla, unz hann dó þar 47 eða 48 ára, 22. júlí 1846, úr mislingasóttinni, er þá geysaði yfir land alt.

Sigurður var gáfumaður mikill og óefað besta alþýðuskáld, er verið hefir hér um langan aldur, enda hefir hann jafnvel ort mest allra Íslendinga. Einkum liggur eftir hann fjöldi af rímum, en auk þess mörg önnur rit og fögur kvæði; og fá börn þau, sem lesa „Æskuna“ vonandi að fá að sjá einhver af fallegustu kvæðunum hans. Sigurður er grafinn rétt við innganginn í kirkjugarð Reykjavíkur, og hefir einkennilegur legsteinn verið settur yfir leiðið. Það er óhögginn klettur líkt og bæjarbust í laginu, en framan á honum er höggvið nafn Sigurðar, og mynd af strengjahljóðfæri sem „Gýgja“ er nefnd, sem á að tákna skáldskapargáfu þessa ólærða, gáfaða alþýðumanns.

---

## Ferð Þórs til Útgarðaloka.

(Úr „Gylfagynning.“)

Það er upphaf þessa máls, að Ökuþór fór með hafra sína og reið, og með honum sá ás, er Loki er kallaður; koma þeir að kvöldi til eins búanda og fá þar náttstað. En um kvöldið tók Þór hafra sína og skar báða, eftir það voru þeir flegnir og bornir til ketils; en er soðið var, þá settist Þór til náttverðar og þeir lagsmenn. Þór bauð til matar með sér búandanum og konu hans og börnum þeirra; sonur búanda hét Þjálfi, en Röskva dóttir. Þá lagði Þór hafurstökurnar utar frá eldinum og mælti, að búandi og heimamenn hans skyldu kasta á hafurstökurnar beinunum. Þjálfi, son búanda, hélt á lærlegg hafursins og spretti á knífi sínum og braut til mergjar. Þór dvaldist þar um nóttina; en í óttu fyrir dag stóð hann upp og klæddi sig, tók hamarinn Mjölni og brá upp og vígði hafurstökurnar; stóðu þá upp hafrarnir, og var þá annar haltur eptra fæti. Það fann Þór og taldi, að búandinn eða þau hjón myndu eigi skynsamlega hafa farið með bein hafursins; kennir hann, að brotinn var lærleggurinn. Eigi þarf langt frá því að segja; allir mega vita, hversu hræddur búandinn varð, er hann sá, að Þór lét síga brýrnar ofan fyrir augun; en það er sá augnanna, þá hugðist hann falla mundu fyrir

sjóninni einni samt; hann krefti hendurnar að hamarskaftinu, svo að hvítnuðu hnúarnir. En búandinn gerði, sem von var, og öll hjúin, kölluðu ákaflega, báðu sér friðar, buðu, að fyrir kæmi alt það, er þau áttu. En er hann sá hræðslu þeirra, þá gekk af honum móðurinn, og sefaðist hann og tók af þeim í sætt börn þeirra, Þjálfa og Rösku, og gerðust þau þá skyldir þjónustumenn Þórs, og fylgja þau honum jafnan síðan.

Lét hann þar eftir hafra og byrjaði ferðina austur í Jötunheima og allt til hafsins, og þá fór hann út yfir hið djúpa haf; en er hann kom til lands, þá gekk hann upp, og með honum Loki og Þjálfi og Röskva. Þá er þau höfðu litla hríð gengið, varð fyrir þeim mörk stór; gengu þau þann dag allan til myrkurs. Þjálfi var allra manna fóthvatastur; hann bar kýl Þórs, en til vista var eigi gott. Þá er myrkt var orðið, leituðu þeir sér til náttstaðar og fundu fyrir sér skála nokkurn mjög mikinn, voru dyr á enda og jafnbreiðar skálanum; þar leituðu þeir sér náttbóls. En um miðja nótt varð landskjálfti mikill, gekk jörðin undir þeim skykkjum, og skalf húsið; þá stóð Þór upp og hét á lagsmenn sína, og leituðust fyrir og fundu afhús til hægri handar í miðjum skálanum og gengu þannig; settist Þór í dyrin, en hin önnur voru innar frá honum, og voru þau hrædd, en Þór hélt hamarskaftinu og hugði að verja sig; þá heyrðu þau ym mikinn og gný. En er leið að dögun, þá gekk Þór út og sér, hvar lá maður skamt frá honum í skóginum, og var sá eigi lítill; hann svaf og hraut sterklega. Þá þóttist Þór skilja, hvað látum verið hafði um nóttina; hann spennir sig megingjörðum, og óx honum ásmegin; en í því vaknar sá maður og stóð skjótt upp; en þá er sagt, að Þór varð bilt einu sinni að slá hann með hamrinum, og spurði hann að nafni, en sá nefndist Skrýmir; „en eigi þarf ég,“ sagði hann, „að spyrja þig að nafni, kenni ég, að þú ert Ásaþór; en hvort hefir þú dregið á braut hanzka minn?“ Seildist þá Skrýmir til og tók upp hanzka sinn; sér Þór þá, að það hafði hann haft um nóttina fyrir skála, en afhúsið það var þumlungurinn hanzkans. Skrýmir spurði, ef Þór vildi hafa föruneyti hans, en Þór játti því. Þá tók Skrýmir og leysti nestbagga sinn og bjóst til að jeta dögurð, en Þór í öðrum stað og hans félagar. Skrýmir bauð þá, að þeir legðu mötuneyti sitt, en Þór játti því; þá batt Skrýmir nesti þeirra allt í einn bagga og lagði á bak sér; hann gekk fyrir um daginn og steig heldur stórum, en síðan að kvöldi leitaði Skrýmir þeim náttstaðar undir eik nokkurri mikilli. Þá mælti Skrýmir til Þórs, að hann vill leggjast niður að sofna; „en þér takið nestisbaggann og búið til náttverðar yður.“ Því næst sofnar Skrýmir og hraut fast; en Þór tók nestisbaggann og skal leysa; en svo er að segja, sem ótrúlegt mun þykja, að engi hnút fékk hann leyst og engi ólarendann hreyft, svo að þá væri lausari en áður. Og er hann sér, að þetta verk má eigi nýtast, þá varð hann reiður, greip þá hamarinn Mjölni tveim höndum og steig fram öðrum fæti að þar, er Skrýmir lá, og lýstur í höfuð honum; en Skrýmir vaknar og spyr, hvort laufsblað nokkuð félli í höfuð honum, eða hvort þeir hefði þá matazt og séu búnir til rekkna. Þór segir, að þeir munu þá sofa ganga. Ganga þau þá und-

ir aðra eik. Er það þér satt að segja, að ekki var þá óttalaust að sofa. En að miðri nótt þá heyrir Þór, að Skrýmir hrýtur og sefur fast, svo að dunar í skóginum. Þá stendur hann upp og gengur til hans, reiðir hamarinn títt og hart og lýstur ofan í miðjan hvirfil honum; hann kennir, að hamars muðurinn sekkur djúpt í höfuðið. En í því bili vaknar Skrýmir og mælti: „hvað er nú? féll akarn nokkuð í höfuð mér? eða hvað er títt um þig, Þór?“ En Þór gekk aftur skyndilega og svarar, að hann var þá nývaknaður, sagði, að þá var mið nótt, og enn væri mál að sofa. Þá hugsaði Þór það, ef hann kæmi svo í færi að slá hann hið þriðja högg, að aldrei skyldi hann sjá sig síðan; liggur nú og gætir, ef Skrýmir sofnaði fast. En litlu fyrir dögun þá heyrir hann, að Skrýmir mun sofnað hafa, stendur þá upp og hleypur að honum, reiðir þá hamarinn af öllu afli og lýstur á þunnvangann þann, er upp vissi; sekkur þá hamarinn upp að skaptinu. En Skrýmir settist upp og strauk um vangann og mælti: „hvort munu fuglar nokkrir sitja í trénu yfir mér? mig grunaði, er ég vaknaði, að tros nokkuð af kvistunum félli í höfuð mér; hvort vakir þú, Þór? Mál mun vera upp að standa og klæðast, en ekki eigið þér nú langa leið fram til borgarinnar, er kölluð er Útgarður. Heyrt hefi ég, að þér hafið kvisað í milli yðar, að ég væri ekki lítill maður vexti, en sjá skulu þér þar stærri menn, er þér komið í Útgarð. Nú mun ég ráða yður heilræði: látið þér eigi stórlega yfir yður, ekki munu hirðmenn Útgarðaloka vel þola þvílíkum kögursveinum köpuryrði; en að öðrum kosti hverfið aftur, og þann ætla ég yður betra af að taka. En ef þér viljið fram fara, þá stefnið þér í austur, en ég á nú norður leið til fjalla þessa, er nú munu þér sjá mega.“ Tekur Skrýmir nestisbagg-ann og kastar á bak sér og snýr þvers á braut í skóginn frá þeim, og er þess eigi getið, að æsirnir bæði þá heila hittast.

Þór fór fram á leið og þeir félagar, og gekk fram til miðs dags; þá sjá þeir borg standa á völlum nokkrum og settu hnakk-ann á bak sér aptur, áður þeir fengu séð yfir upp; ganga til borgarinnar, og var grind fyrir borgarhliðinu og lokuð aptur. Þór gekk á grindina og fékk eigi upp lokið; en er þeir þreyttu að komast í borgina, þá smugu þeir milli spalanna og komu svo inn; sjá þá höll mikla og gengu þangað; var hurðin opin; þá gengu þeir inn og sáu þar marga menn á tvo bekki og flesta ærið stóra. Því næst koma þeir fyrir konunginn, Útgarðaloka, og kvöddu hann, en hann leit seint til þeirra og glotti um tönn og mælti: „seint er um langan veg að spyrja tíðinda, eða er annan veg, en ég hygg, að þessi sveinstauli sé Ökuþór? en meiri muntu vera, en mér lízt þú; eða hvað íþrótta er það, er þér félagar þykist vera við búnir? Engin skal hér vera með oss, sá er eigi kunni nokkurs konar list eða kunnandi um fram flesta menn.“ Þá segir sá, er síðast gekk, er Loki heitir: „kann eg þá íþrótt, er ég em albúinn að reyna, að enginn er hér sá inni, er skjót-ara skal eta mat sinn en ég.“ Þá svarar Útgarðaloki: „íþrótt er það, ef þú efnir, og freista skal þá þessar íþróttar;“ kallaði utar á bekkinn, að sá, er Logi heitir, skal ganga á gólf fram og freista sín í móti Loka. Þá var tekið trog eitt og bor-

ið inn á hallargólfið og fyllt af slátri; settist Loki að öðrum enda, en Logi að öðrum, og át hvortveggi sem tíðast, og mættust í miðju troginu; hafði þá Loki étið slátur alt af beinum, en Logi hafði og étið slátur alt og beinin með og svo trogið; og sýndist nú öllum, sem Loki hefði látið leikinn. Þá spyr Útgarðaloki, hvað sá hinn ungi maður kunni leika. En Þjálfi segir, að hann mun freista að renna skeið nokkur við einhvern þann, er Útgarðaloki fær til. Hann segir, Útgarðaloki, að þetta er góð íþrótt, og kallar þess meiri von, að hann sé vel að sér búinn um skjótleikinn, ef hann skal þessa íþrótt inna; en þó lætur hann skjótt þessa skulu freista. Stendur þá upp Útgarðaloki og gengur út, og var þar gott skeið að renna eftir sléttum velli. Þá kallar Útgarðaloki til sín sveinstaula nokkurn, er nefndur er Hugi, og bað hann renna í köpp við Þjálfa. Þá taka þeir hið fyrsta skeið, og er Hugi því framar, að hann snýst aftur í móti honum að skeiðs enda. Þá mælti Útgarðaloki: „þurfa muntu, Þjálfi, að leggja þig meir fram, ef þú skalt vinna leikinn; en þó er það satt, að ekki hafa hér komið þeir menn, er mér þykir fóthvatari en svo.“ Þá taka þeir aftur annað skeið, og þá er Hugi er kominn til skeiðs enda, og hann snýst aftur, þá var langt kólfskot til Þjálfa. Þá mælti Útgarðaloki: „vel þykir mér Þjálfi renna; en eigi trúi ég honum nú, að hann vinni leikinn, en nú mun reyna, er þeir renna hið þriðja skeiðið.“ Þá taka þeir enn skeið; en er Hugi er kominn til skeiðs enda og snýst aftur, og er Þjálfi eigi þá kominn á mitt skeiðið; þá segja allir, að reynt er um þenna leik. Þá spyr Útgarðaloki Þór, hvað þeirra íþrótta mun vera, er hann muni vilja birta fyrir þeim, svo miklar sögur sem menn hafa gjört um stórvirki hans. Þá mælti Þór, að helzt vill hann það taka til, að þreyta drykkju við einhvern mann. Útgarðaloki segir, að það má vel vera, og gengur inn í höllina og kallar skutilsvein sinn, biður, að hann taki vítishorn það, er hirðmenn eru vanir að drekka af. Því næst kemur fram skutilsveinn með horninu og fær Þór í hönd. Þá mælti Útgarðaloki: „af horni þessu þykir þá vel drukkið, ef í einum drykk gengur af, en sumir menn drekka af í tveim drykkjum, en engi er svo lítill drykkjumaður, að eigi gangi af í þrimur.“ Þór lítur á hornið, og sýnist ekki mikið, og er þó heldur langt, en hann er mjög þyrstur; tekur að drekka og svelgur allstórum og hyggur, að eigi skal þurfa að lúta oftar að sinni í hornið. En er hann þraut erindið, og hann laut úr horninu og sér, hvað leið drykkinum, og lýst honum svo, sem alllítill munur mun vera, að nú sé lægra í horninu en áður. Þá mælti Útgarðaloki: „vel er drukkið, og eigi til mikið; eigi mundi ég trúa, ef mér væri sagt frá, að Ásaþór mundi eigi meira drykk drekka; en þó veit ég, að þú munt vilja drekka af í öðrum drykk.“ Þór svarar öngu, setur hornið á munn sér og hyggur nú, að hann skal drekka meira drykk, og þreytir á drykkjuna, sem honum vannst til erindi, og sér enn, að stikillinn hornsins vill ekki upp svo mjög, sem honum líkar; og er hann tók hornið af munni sér og sér, lízt honum nú svo, sem minna hafi þrotið en í hinu fyrra sinni; er nú gott berandi borð á horninu. (Framh).

# Voðaleg verslun.

Í borginni Chicago í Bandaríkjunum eru smáherbergi útbúin með barnagull í sumum veitingahúsunum. Inn í þessu herbergi eru börnin tæld og þar er þeim kent að neyta áfengra drykkja. Fundu lögregluþjónarnir yfir 20 veitingahús í norðurenda bæjarins er ráku slíka atvinnu. Veitingamaðurinn fer þannig að, að hann skreytir innan eitt herbergi í bakhlið hússins, lætur þar litla stóla, borð, myndabækur og barnagull þau, sem börnin vilja helst leika sér að. Að svo búnu er lítill drengur eða lítil stúlka lokuð inni og gefið sætt vín í litlu glasi. Svo eru barninu gefnir nokkrir aurar, og því er sagt að koma með önnur börn þangað með sér. Safnast því stórhópar af börnum í herbergi þessi. Fá þau vínföng gefins fyrst í stað, en svo er þeim kent að kaupa þau fyrir aura þá, er þau hafa safnað sér saman. Tilgangur veitingamannsins er auðvitað sá, að venja börnin á áfenga drykki, svo börn þau, sem eiga heima nálægt veitingahúsunum, komi þangað, og eyði þar peningum sínum þegar þau eru orðin stór.

Þegar þessi börn eru orðin stálpuð eru þau þess vegna orðin hneigð fyrir áfenga drykki, og afleiðingin verður sú, að þau eyða nær því öllu á veitingahúsunum, sem þau vinna sér inn. Hefir þá veitingamaðurinn fengið það margborgað, sem hann gaf börnunum upphaflega. Og hann kærir sig lítið um það, þótt börnin spilli sál og líkama, fé og farsæld sinni. Honum er nóg, að græða fé, en þeir sem verzla við hann mega fara í gröfina, vitlausra-spítalan eða í hegningarhúsið. („Magne“).

## SKRÍTLUR.

Ung stúlka mætti einu sinni beiningamanni á vegi sínum, og lét hann hana skilja með bendingum, að hann væri mállans. Stúlkan hrærðist til meðaumkunar gaf honum ölmusu og spurði hann hjartanlega: „Aumingja maður! Hve lengi hafið þér verið mállaus?“

„Í tvö ár“. svaraði aumingjinn, en það má nærri geta, hversu stúlkunni hefir orðið við.

Steinhöggari nokkur bjó til legstein og hjó á hann aldur hins látna „89 ár“. Frændur þess látna komust síðar að því, að hann hefði orðið einu ári eldri, og báðu steinhöggarann að breyta skriftinni á steininum, og bæta einu ári við. Steinhöggvarinn gjörði það þegar, og nú stendur á steininum. „Dó 891 árs gamall“.

(Börn! var það rétt?)

Bærinn Björgvin í Noregi er nafnkunnur fyrir rigningar, enda eru þar stundum stöðugar rigningar alt sumarið.

Ferðamaður nokkur er dvaldi þar, kvartaði því yfir því við Björgvinarbúa, hve ilt væri að vera stöðugt votur í fæturna.

„Við höfum vatnshelda skó, og erum því aldrei votir“ svaraði heimamaður.

„Það hefi eg líka gert“ svaraði ferðamaðurinn, „en nú er eg hættur því, því eg var þá altaf stígvélafullur.

Englendingur nokkur var eitt sinn í Björgvin, og höfðu stöðugar rigningar gengið meðan hann dvaldi þar. Árið eftir kom hann þangað aftur, og hitti svo á, að koma þangað í rigningu. Spurði hann þá einn kunningja sinn meðal bæjarmanna:

„Hvað er þetta er hann ekki styttur upp enn?“

Vegna rigninganna í Björgvin hefir myndast sú saga, að hestar fælist þar ef þeir sjái kvennmann, sem hafi ekki regnhlíf yfir sér.

Kona nokkur mætti lækni á götu í bæ einum og þurfti læknirinn að flýta sér. Rýkur þá konan að honum og segir:

Það er gott að jeg sá yður, læknir minn. Mér er ílt í hálsinum. Heldur læknirinn, að það sé hættulegt?“

Læknirinn hugsaði sér að launa henni fruntaskapinn og segir. „Gerið svo vel, að kreista aftur augun og reka út úr yður tunguna þangað til eg segi til.

Konan gerir þetta en læknirinn heldur leiðar sinnar.

Fólk það, sam framhjá gengur fer að horfa á konuna og stingur saman nefjum og segir. „Nei sko kerlinguna. hún hefir víst fengið krampa í kjálkana“.

Í þessu kemur lögregluþjónn að, tekur í konuna og segir: „Hví eruð þér að gapa hér og gjöra uppþot hérna á götunni?“

Það má nærri geta, að konan hefir sneipst og farið kurteisilegar að ráði sínu í næsta sinn.

Vitnið. Johann Boje, fiskimanni, var eitt sinn stefnt til þess að bera vitni í mjög lítilfjörlegu máli. Dómarinn gekk að dómara borðinu, ákaflega hátíðlegur og alvarlegur á svipinn og lagði höndina á biblíuna.

Hafið nú nákvæmlega eftir mér það, sem ég segi“, mælti dómarinn.

„Það skal eg gera, herra dómari!“ svaraði Johann Boje.

„Ég“, . . . mælti dómarinn.

„Ég“, hafði Jóhann Boje eftir honum, en sagði ekki meira.

„Nú, haltu áfram“ mælti dómarinn, „og segðu hvað þú heitir“.

„Nú, haltu áfram, og segðu hvað þú heitir“, át Jóhann upp mjög alvarlega.

„Veiztu ekki, hvað þú heitir“, kallaði dómarinn upp?“

„Veiztu ekki hvað þú heitir?“ át Jóhann upp enn alvarlegar en áður.

„Nei, þetta er ljóta vitleysan“ kallaði dómarinn með hárri rödd.

„Nei, þetta er ljóta vitleysan“, hafði Jóhann eftir honum.

Ekki þarf að furða sig á því, þótt áheyrendurnir færu að eiga örðugt með að verjast hlátri, enda þótt kyrð og stilling eigi að vera í dómsalnum.

Kallaði þá dómarinn upp í vandræðum.

„Er hér enginn, sem getur sagt mér hvað maðurinn heitir?“

Jóhann mælti: „Er hér enginn, sem getur sagt mér, hvað maðurinn heitir?“

Þá gat enginn stillt sig lengur, hvorki áheyrendur né dómarar, og allir ráku upp skellihlátur og meira að segja Jóhann Boje veltist um, þótt hann vissi alls ekki að hverju verið var að hlægja. Loks gat sækjandi málsins stilt sig, og rétti dómaranum pappírsblað, sem hann hafði skrifað nafn Jóhanns á.

Nú var haldið áfram með eiðinn.

„Eg Jóhann Boje“, mælti dómarinn.

„Nei, það er nú einmitt ég!“ kallaði Jóhann upp.

Var þá farið að hlægja aftur.

Loks gat þó dómarinn látið Jóhann vinna eiðinu slysalaust.

Frúin: „Þér eruð alt of lítil til þess að vera barnfóstra, góða mín!“

Stúlkan, (sem vill komast í vistina): „Nei, það er miklu betra að vera lítil við þann starfa, því barnið meiðir sig þá minna ef það dettur úr höndunum á manni.

## Nýir kaupendur

að V. árg. „Æskunnar“ geta fengið eldri árganga blaðsins innhefta fyrir minna en hálfvirði,

**að eins 50 aura árganginn.**

Sætið þessum kjörum og pantið blaðið sem allra fyrst.

☛ Þeir sem enn eiga IV. árg. „Æskunnar“ óborgaðan, eru vinsaml. beðnir að gera skil fyrir greiðslunni við fyrsta tækifæri.

## VERÐLAUN.

Börn þau, sem útvega „ÆSKUNNI“ flesta kaupendur yfirstandandi ár, fá að verðlaunum „Pilt og stúlku“ fallegustu íslenzku skáldsöguna. Borgun verður að koma fyrir blöð þau, sem útvegaðir hafa verið kaupendur að, og gildir því framboð þetta þar til í Aprílmálnaðarlok.

## „Æ-s-k-a-n“

byrjar hér með 5. árið.

„Æskan er hið bezta barnablað, og óvanalega vönduð að efni. Þar eru sögur og æfintýri, kvæði, skrítlur, og annar fróðleikur. Þar eru myndir af ýmsum mönnum, viðburðum, og ýmsum merkum stöðum. Þar á meðal eru nýbyrjaðar að koma út myndir af flestum helztu *íslenzku* skáldunum.

„Æskan“ verður skemtilegasta bók, sé henni haldið saman og hún bundin inn.

„Æskan“ er 24 blöð um árið, og þar að auki jólablað skrautprentað með myndum, en tvöfalt blað er oftast prentað til þess að slíta efnið minna í sundur.

„Æskan“ kostar að eins 1 kr. hér í bænum, en 1 kr. 20 a. út um land, vegna flutningsgjalds, og á hún að borgast í

**APRÍLMÁNUÐI.**

Skilvís borgun á blaðinu getur útgefandanum færi til að kosta meiru til og gera það enn betur úr garði.

Lesið Æskuna; kaupið hana og útvegið henni kaupendur. *Það borgar sig.*



**Kaupendur** „Æskunnar“, þeir, er enn eiga óborgaðan þennan árgang, eru vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni sem fyrst.

## „ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

| V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 26. NÓV. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 3.—4. |
|---|---|---|---|---|



## Jón Ólafsson

er fæddur á Kolfreyjustað í Suður-Múlasýslu árið 1850, og var faðir hans, séra Ólafur Indriðason, prestur þar um mörg ár og sálmaskáld gott. Þegar Jón var orðinn 12 ára gamall var hann settur til náms í lærða skólanum í Reykjavík, en lauk ekki við. Fór hann að hugsa um ýmislegt annað, og byrjaði að gefa út nýtt blað 16 vetra gamall, er Göngu-Hrólfur nefndist. En þar sem hann þótti segja ýmsum heldur skorinort til syndanna, komst hann í málaferli. Lagði hann þá af landi burt, fyrst til Noregs og þaðan til Bandaríkjanna. Fór hann víða þar um lönd og þar á meðal til Alaska, útnorðurtanga Ameríku, og hugði hann að þar mundi verða heppileg nýlenda fyrir Íslendinga. Eftir 6—7 ára útivist kemur hann til Íslands aftur, sezt að á Eskifirði á Austfjörðum, kvænist þar og byrjar útgáfu á nýju fréttablaði, er nefnist Skuld. Flytur hann skömmu síðar til Reykjavíkur, og tekur þá við ritstjórn „Þjóðólfs“ um nokkurn tíma, og um sama leyti er hann þingmaður Sunn-Mýlinga um nokkur ár.

Árið 1890 leggur hann aftur af landi burt vestur um haf. Sezt þá fyrst að í Winnipeg í Kanada, og hefir þá á hendi ritstjórn annars íslenzka blaðsins, sem þar er gefið út; þar dvelur hann þó ekki lengi, og flyzt suður til Chicago í Bandaríkjunum. Er hann þar fyrst ritstjóri eða aðstoðarmaður við norskt blað, og síðar bókavörður við eitt af hinum stærstu bókasöfnum borgarinnar. Árið 1897 heldur hann til Íslands aftur, og kemur hingað til Reykjavíkur eftir 7 ára útivist og hefir hann dvalið hér síðan, og gefið sig meðal annars einkum við blaðamensku. Jón Ólafsson ritar móðurmál sitt flestum betur, og hefir þótt meðal hinna ritfærustu manna. Hann er að sönnu ekki af stærstu skáldum landsins og virðist ekki hafa ort mikið á síðustu tímum, en á yngri árum sínum orti hann ýms nett, kjarkmikil og karlmannleg kvæði, sem munu halda nafni hans á lofti. Hefir kvæðabók hans verið

gefin þrisvar út, á Eskifirði, í Winnipeg og nú síðast í Reykjavík.

## Ferð Þórs til Útgarðaloka.

(Úr „Gylfagynning.“)

(Framh.)

Þá mælti Útgarðaloki: „hvað er nú, Þór? muntu nú eigi sparast til eins drykkjar meira, en þér mun hagur á vera? Svo lízt mér, ef þú skalt nú drekka af horninu hinn þriðja drykkinn, sem þessi mun mestur ætlaður; en ekki muntu mega hér með oss heita svo mikill maður, sem Æsir kalla þig, ef þú gerir eigi meira af þér um aðra leika, en mér lízt, sem um þenna mun vera.“ Þá varð Þór reiður, setur hornið á munn sér og drekkur, sem ákaflegast má hann, og þreytir sem lengst á drykkinn; en er hann sá í hornið, þá hafði nú helzt nokkur munur á fengist, og þá býður hann upp hornið, og vill eigi drekka meira. Þá mælti Útgarðaloki: „auðséð er nú, að máttur þinn er ekki svo mikill, sem vér hugðum; en viltu freista um fleiri leika? Sjá má nú, að ekki nýtir þú hér af.“ Þór svarar: „freista má eg enn um nokkra leiki, en undarlegt mundi mér þykja, þá er eg var heima með Ásum, ef þvílíkir drykkir væri svo litlir kallaðir. En hvaða leik viljið þér nú bjóða mér?“ Þá mælti Útgarðaloki: „það gera hér ungir sveinar, er lítið mark mun að þykja, að hefja upp af jörðu kött minn; en eigi mundi eg kunna að mæla þvílíkt við Ásaþór, ef eg hefði eigi séð fyr, að þú ert miklu minni fyrir þér, en eg hugði.“ Því næst hljóp fram köttur einn grár á hallargólfið og heldur mikill; en Þór gekk til og tók hendi sinni niður undir miðjan kviðinn og lyfti upp, en kötturinn beygði kenginn, svo sem Þór rétti upp höndina; en er Þór seildist svo langt upp, sem hann mátti lengst, þá létti kötturinn einum fæti, og fær Þór eigi framið þenna leik. Þá mælti Útgarðaloki: „svo fór þessi leikur, sem mig varði; kötturinn er heldur mikill, en Þór er lágur og lítill hjá stórmenni því, sem hér er með oss.“ Þá mælti Þór: „svo lítinn sem þér kallið mig, þá gangi nú til einhver og fáist við mig, nú em eg reiður.“ Þá svarar Útgarðaloki og litast um á bekkina og mælti: „eigi sé eg þann mann hér inni, er eigi muni lítilræði í þykja að fást við þig;“ og enn mælti hann: „sjáum fyrst, kallið mér hingað kerlinguna, fóstru mína Elli, og fáist Þór við hana, ef hann vill; felt hefir hún þá menn, er mér hafa litist eigi ósterklegri, en Þór er.“ Því næst gekk í höllina kerling ein gömul. Þá mælti Útgarðaloki, að hún skal taka fang við Ásaþór. Ekki er langt um að gera: svo fór fang það, að því harðara er Þór knúðist að fanginu, því fastara stóð hún; þá tók kerling að leita til bragða, og varð Þór þá laus á fótum, og voru þær sviftingar allharðar, og eigi lengi, áður en Þór féll á kné öðrum fæti. Þá gekk til Útgarðaloki, bað þau hætta fanginu og sagði svo, að Þór mundi eigi þurfa að bjóða fleirum mönnum fang í hans höll; var þá og liðið á nótt, vísaði Útgarðaloki Þór og þeim félögum til sætis, og dveljast þar náttlangt í góðum fagnaði.

En að morgni, þegar dagaði, stendur Þór upp og þeir félagar, klæða sig og eru búnir braut að ganga. Þá kom þar Útgarðaloki og lét setja þeim borð; skorti þá eigi góðan fagnað, mat og drykk. En er þeir hafa

matast, þá snúast þeir til ferðar. Útgarðaloki fylgir þeim út, gengur með þeim burt úr borginni; en að skilnaði þá mælti Útgarðaloki til Þórs og spyr, hvernig honum þykir ferð sín orðin, eða hvort hann hefir hitt ríkari mann nokkurn en sig. Þór svarar, að eigi muni hann það segja, að eigi hafi hann mikla ósæmd farið í þeirra viðskiftum; „en þó veit eg, að þér munuð kalla mig lítinn mann fyrir mér, og uni eg því illa.“ Þá mælti Útgarðaloki: „nú skal segja þér hið sanna, er þú ert út kominn úr borginni, og ef eg lifi og má ráða, þá skaltu aldrei oftar í hana koma; og það veit trú mín, að aldrei hefðir þú í hana komið, ef eg hefði vitað áður, að þú hefðir svo mikinn kraft með þér, og þú hafðir svo nærri haft oss mikilli ófæru. En sjónhverfingar hefi eg gert þér, svo að fyrsta sinn, er eg fann þig á skóginum, kom eg til fundar við yður; og þá er þú skyldir leysa nestbaggann, þá hafði eg bundið með járnþræði, en þú fanst eigi, hvar upp skyldi lúka. En því næst laust þú mig með hamrinum þrjú högg, og var hið fyrsta minst, og var þó svo mikið, að mér mundi endast til bana, ef á hefði komið; en þar er þú sást hjá höll minni setberg, og þar sástu ofan í þrjá dali ferskeytta og einn djúpastan, það voru hamarspor þín; setberginu brá eg fyrir höggin, en eigi sást þú það. Svo var og um leikana, er þér þreyttuð við hirðmenn mína, þá var það hið fyrsta, er Loki gerði; hann var mjög soltinn og át títt; en sá, er Logi hét, það var villieldur, og brendi hann eigi seinna slátrið en trogið. En er Þjálfi þreytti rásina við þann er Hugi hét, það var hugur minn, og var Þjálfa eigi hent að þreyta skjótfæri við hann. En er þú drakst af horninu, og þótti þér seint líða, — en það veit trú mín, að þá varð það undur, er eg mundi eigi trúa, að vera mætti; annar endi hornsins var úti í hafi, en það sástu eigi; en nú, er þú kemur til sjávarins, þá muntu sjá mega, hvern þurð þú hefir drukkið á sænum.“ Það eru nú fjörur kallaðar. Og enn mælti hann: „eigi þótti mér hitt minna vera vert, er þú lyftir upp kettinum, og þér satt að segja, þá hræddust allir þeir, er sáu, er þú lyftir af jörðu einum fætinum; en sá köttur var eigi, sem þér sýndist: það var Miðgarðsormur, er liggur um lönd öll, og vanst honum varla lengdin til, að jörðina tæki sporður og höfuð; og svo langt seildist þú upp, að skamt var þá til himins. En hitt var og mikið undur um fangið, er þú fékst við Elli; fyrir því að engi hefir sá orðið, og engi mun verða, ef svo gamall er, að elli bíður, að eigi komi ellin öllum til falls. Og er nú það satt að segja, að vér munum skiljast, og mun þá betur hvorratveggju handar, að þér komið eigi oftar mig að hitta; eg mun enn annað sinn verja borg mína með þvílíkum vélum eða öðrum, svo að ekki vald munuð þér á mér fá.“ En er Þór heyrði þessa tölu, greip hann til hamarsins og bregður á loft; en er hann skal fram reiða, þá sér hann þar hvergi Útgarðaloka, og þá snýr hann aftur til borgarinnar og ætlar þá fyrir að brjóta borgina; þá sér hann þar völlu víða og fagra, en enga borg. Snýr hann þá aftur og fer leið sína, til þess er hann kom aftur í Þrúðvanga.

**(Úr Snorra Eddu).**

# Sérvitringurinn.

(Þýtt.)

Hrafnhólafólkið og nokkrir efnaðir nágrannar þess höfðu komið sér saman um að útvega sér lækni og kosta hann sjálft að öllu leyti, því þar í nágrenninu var enginn fastur læknir. Eg hugsaði mér strax að nota tækifærið til þess að koma frænda mínum elskulegum að þessari atvinnu, þó hún lítilfjörleg væri. Sjálfur er hann svo daufgerður, að hann kemur sér ekki að að framkvæma neitt sem hann hefir ætlað sér. Eg fékk honum bréf upp á vasann, setti hann upp í flutningsvagn og hélt nú, að alt væri klappað og klárt.

Ári síðar tókst eg ferð á hendur þangað úteftir til að vita, hvernig hann stæði nú í þessari nýju stöðu sinni. Eg spurði mig fyrir um það hjá lækninum, sem bjó í næsta héraði við Hrafnhóla. En mér til mikillar undrunar frétti eg þá, að frændi minn hefði aldrei að Hrafnhólum komið, heldur væri þar alt annar læknir. Eg sneri strax aftur til borgarinnar til þess að reyna að spyrja doktorinn uppi. Á leiðinni gisti eg í mylnukránni. En um kvöldið í rökkrinu, þegar eg sat og var að spjalla við veitingamanninn, þá sé eg langa kengbogna mannrolu vera að læðast fram með húshliðinni og hverfa þar inn um einar dyrnar. Eg ætla að lýsa dálítið þessari mannsmynd, því þa lýsi eg frænda mínum um leið.

Hann er hálf fjórða alin á hæð; en af því að hann skammast sín fyrir þessa yfirnáttúrlegu lengd, — sem sýnist þó enn meiri fyrir það, hve grannur hann er — þá gengur hann alt af svo lotinn, að höfuðið á honum verður ekki fyrir ofan sjóndeildarhring hvers meðalmanns. Náttúran hefir verið svo hugulsöm að útbúa hrygginn í honum með tvennum liðamótum, svo að hann eigi hægra með að setja sig í þessar stellingar. Hryggurinn myndar þannig þrjár beinar línur og tvö sljó horn; ber mest á þessu þegar hann situr. Að öðru leyti er ekkert athugavert við líkamsskapnað hans, að því undanteknu, að hann hefir bæklaðan fót og verður því alt af að hafa reimastígvél á hægra fæti.

„Hvaða maður var þetta?“ spurði eg veitingamanninn.

„Það er einn af gestum mínum“, svaraði hann; „hann kom hingað í fyrra um þetta leyti og lét þá sem sér lægi mikið á að komast áfram, því hann pantaði te kl. 4 um morguninn til þess að geta haldið áfram ferð sinni í tæka tíð. En svo þegar til kom, gerði hann vagninn afturreka. Þetta endurtók hann á hverjum degi fyrsta missirið; en nú lítur út fyrir að hann sé seztur að hérna hjá mér. Það er annars meinleysisgrey, sem aldrei leggur neitt ilt til nokkurs manns. En satt að segja held eg nú að hann sé ekki með öllum mjalla. Sá mikli lærdómur hefir víst gert hann ærðan“.

„Gætið að, hvað þér segið,“ sagði eg, „því hann er náfrændi minn í móðurættina“.

„Nú, jæja,“ anzaði veitingamaðurinn, „þá vitið þér bezt sjálfur, hvað að honum er. Hann er óttalega mannafælinn. Í gær lét hann reisa upp stiga fyrir utan stofugluggann sinn, svo að hann þyrfti ekki að ganga í gegn um gestastofuna, þegar hann

færi ofan í garðinn. Stundum liggur hann heilað dag í dái, stundum spígsporar hann aftur á bak og áfram um gólfið og heldur hrókaræður við sjálfan sig. En það er nú annars óþarfi að vera að segja yður þetta, þér vitið víst, hvað undarlegur hann er. Hann gerir okkur annars engin óþægindi. Við erum orðin því svo vön að sjá hann haltra hér um húsið, að eg held nærri því að við mundum sakna hans, ef hann færi frá okkur. Hún María dóttir mín sér alt af um að hann fái mat og drykk á réttum tíma; annars held eg að hann mundi svelta í hel af gleymsku. Eg hefi oft sagt við hana, að við ættum nú einu sinni að reyna, hvort hann gæti ekki munað eftir því sjálfur. Hann er þó það langur, að hann ætti að geta beðið um það. En hún er svo góð í sér, að hún vill ekki gera tilraunina". —

Eg sat langt fram á nótt við að skrifa bréf og heyrði alt af frænda minn vera að skrölta eitthvað uppi í herberginu sínu. Öðru hvoru tók hann flautuna sína og lék á hana nokkrar mínútur í senn; stundum var hann að þramma þunglamalega og þegjandi um gólfið. Eg fór út í garðinn til þess að gægjast inn um gluggann hans. Kertið á borðinu hjá honum var brunnið langt niður í blikk-stjakann, sem var blár af hita, og tólgarsterkjuna lagði um alt herbergið. Hann lá upp við dogg í lágum hægindastól, og rétti fæturna langt fram á gólfið, virtist hann vera í mjög þungum þönkum og starði beint fram fyrir sig í gegnum gleraugun sín. Hann hélt enn á flautunni og láu hendur hans alveg hreyfingarlausar á kjöltu hans. Eg virti hann fyrir mér í margar mínútur; en hann hreyfði hvorki legg né lið. Hefði eg ekki séð glóra í augun á honum á bak við gleraugun, þá hefði eg víst haldið, að þetta væri að eins mjög haglega gert vaxlíkan af frænda mínum. Loksins kallaði eg til hans:

„Gott kvöld, frændi."

Hann hrökk við, en hreyfðist ekki fremur en steingjörfingur. Nú klifraði eg upp stigann og inn um gluggann til hans og vakti hann af dáinu með hnefum mínum. Hann stóð upp og hneigði sig mjög feimnislega, stamaði fram nokkrum lofsyrðum um mig til að láta í ljósi þakklæti sitt fyrir það að eg var svo fús á að takast á hendur það ómak að hjálpa honum áfram í gegnum lífið, og afsakaði sig fyrir það að hann hafði yfirgefið þá braut, sem eg hafði leitt hann inn á. Hann er svo seinn að hugsa, að hann hefir stundum ekki nóg snarræði til þess að geta svarað hinni allra vandaminstu spurningu. Einkum er mjög erfitt að tala við hann, þegar hann hefir nýlega verið sokkinn niður í heimspekilega draumóra. Þá er svo mikið djúp staðfest milli orða hans og hugsana, að hann getur ekki komið út einni einustu setningu, sem nokkur meining sé í; allar hugsanir hans fæðast þá andvana.

Þegar hann var farinn að ná sér dálítið aftur, tók hann að skrifta fyrir mér; og sé öllum þögnunum og meiningarleysunum slept, hljóða þá skriftamál hans á þessa leið:

„Daginn eftir að eg kom hingað var það fastur ásetningur minn að leggja af stað til Hrafnhóla. En eg gat ómögulega fundið vasaskærin mín, og þú getur þó ekki ímyndað þér, að eg mundi vilja heimsækja heldra fólk án þess að skera neglur mínar.

Næsta dag vildi mér það óhapp til, þegar eg ætlaði að kveikja í pípunni minni með eldsglæðum, að eg brendi mig á hægra vísifingri, svo að það hljóp upp blaðra. Og þú getur víst skilið það, að þegar eg hafði þessar líkamlegu þjáningar, þá urðu hugsanir mínar svo dreifðar, að eg gat ekki mætt frammi fyrir frú jústitsráðsins og kvatt hana á þann hátt sem slíkri konu sæmir. Næsta dag, þegar konan malarans var að binda um veika fingurinn á mér, eftir því sem eg sjálfur lagði fyrir hana, og ætlaði að brenna sundur tvinnann, sem vafið var utan um, með kertaljósi, þá vildi svo til að sjö stórir tólgardropar drupu niður á svarta kjólinn minn. Þegar fyrsti dropinn kom, sá eg strax fyrir, að þar mundu fleiri á eftir fara; en eg var svo hrærður af þakklátsemi fyrir umhyggju hennar, að eg hafði ekki brjóst í mér til að aðvara hana. Nú leið langur tími þangað til eg gat útvegað terpentínu til að ná blettunum af með. Fallegustu kragarnir mínir urðu óhreinir á meðan, og svo liðu nokkrar vikur þangað til eg gat komið þeim til þvottakonunnar. Þannig leið heilt ár, og alt af var einhver illur andi, sem sendi mér hvert óhappið á fætur öðru, svo að mér var ómögulegt að geta komist til Hrafnhóla, og er þó ekki nema hálf míla þangað héðan“.

„En guð minn góður“, mælti eg, “er það hugsanlegt, að þú hefðir ekki að eins einn einasta dag af þessum 365 getað mannað þig upp til að fara þessa voðalegu ferð, þrátt fyrir allar hindranir!“

„Svona talar þú alt af“, svaraði hann, „og svona tala allir þeir, sem eru svo hepnir, að geta starfað án þess að hugsa. Ef eg hefði séð nokkra knýjandi ástæðu til þess að fara þessa ferð fremur einn daginn en annan, þá hefði eg farið hana. En til allrar ógæfu er mér það einmitt ljóst, að sérhverju verki má að skaðlausu fresta til næsta dags“.

„Nei, í þessu hefir þú einmitt rangt fyrir þér“, anzaði eg, „til morguns má ekki fresta neinu því, sem hægt er að gera í dag“.

„Þó þú neitir þessu“, tók hann aftur til máls, „þá ertu þó neyddur til að fallast á það, að verkinu kannske mætti fresta um eina mínútu eða eina sekúndu. Og þessi voðalegi möguleglelki tekur aldrei enda á meðan maður lifir. Enginn skal geta sannfært mig um, að frestun um eina sekúndu eða lítinn hluta úr sekúndu geti haft skaðlegar afleiðingar; og líf mitt stöðvast alveg eins og úr, sem hætt er að ganga, einmitt af því að ekki er hægt að sannfæra mig um þetta. Eg er stöðugt að grufla út í þetta, og þess vegna kem eg engu til leiðar. Svo fer eg að hugsa um, hvers vegna eg sé að hugsa um þetta, og meira að segja, eg hugsa um, hvernig standi á því að eg sé að hugsa um hversvegna eg hugsi um þetta. Eg skifti sjálfum mér í óendanlega röð af *eg*-um, sem hugsa hver um annan og setja hver út á annan. Eg veit ekki við hvern af þessum *eg*-um á að staðnæmast, því ef eg staðnæmist við einn þeirra, þá er það þó aftur *eg*, sem staðnæmist við hann. Eg verð ruglaður og mig sundlar af öllu þessu, rétt eins og eg sé að horfa niður í botnlausa gjá, og hugsanir mínar enda venjulega á þann hátt, að mér verður rotilt í höfðinu“.

„Kæri frændi“, ansaði eg rólega, „það

er alveg árangurslaust fyrir þig að vera að kvelja þig með þessum hugsanaflækjum; það er jafn-þýðingarlaust, eins og ef þú ætlaðir að hafa á þér endaskifti og ganga á höfðinu með Goliats-fæturna beint upp í loftið. Eg get alls ekki hjálpað þér til að raða öllum eg-unum þínum. Það er fyrir utan minn verkákring, og eg hlyti annað hvort að vera eða verða eins vitlaus eins og þú ert, ef eg færi að taka þátt í draumórum þínum. Eg er vanastur við að halda mér við það sem áþreifanlegt og augljóst er og ganga hina breiðu braut skynseminnar, og þess vegna rekast aldrei mín *eg* hvert á annað. Annars sé eg nú fullvel, að mér hefir yfirsést. Eg hefði átt að fylgja þér alla leið að takmarkinu, opna fyrir þig dyrnar hjá justitsráðsfrúnni og hrinda þér inn í stofuna, svo að þú hefðir verið neyddur til að nota það fyrsta eg, sem þú hefðir getað náð í, til þess að heilsa frúnni og hyski hennar. En segðu mér nú, hvað hefir þú verið að starfa hér í heilt ár?"

„Eg hefi verið að búa mig undir að semja stóra bók um hið líkamlega og andlega eðli mannsins", svaraði hann.

„Æ, ertu enn þá að hugsa um það", mælti eg. „Fyrir tíu árum síðan hafðirðu sömu fluguna í höfðinu. Það hlýtur að verða mjög rækilegt verk. Eg hélt satt að segja, að þú værir að læra steinafræði, þegar eg sá þessa grjóthrúgu þarna á gólfinu hjá þér".

„Eg hefi safnað þessum steinum bókarinnar vegna", svaraði hann; „eg hefi tekið eftir því, að mér gengur bezt að klæða hugsanir mínar í orð, þegar eg hefi góð ritföng. En til þess að maður geti haft góða penna, þarf maður að hafa góða hnífa til að skera þá með, og til þess að hnífarnir geti bitið vel, þarf maður að hafa góð brýni. Áður en eg hélt lengra, varð eg því að panta mér ýmsar steinategundir og læra töluvert í steinafræði svona til að byrja með".

„Það lítur út fyrir, að þetta muni vera allrækileg aðferð", svaraði eg, „einkum ef þú nú líka kyntir þér dálítið fuglafræðina, til þess að vita, hvaða fuglafjaðrir hentugastar eru í penna, og svo auk þess verðir nokkrum árum til uppeldisfræðinnar, til þess að leysa úr þeirri spurningu, hvernig þann dreng skuli upp ala, sem á að verða góður hnífasmiður".

„Í raun og veru væri það hreint ekki of víðtækt", svaraði hann. „Þú hæðist að mér, af því þú skilur mig ekki. Þessar tilraunir til að láta sýnilegu hlutina greiða meira fyrir hinni andlegu starfsemi eru auk þess eitt atriði í bók minni. Og í enn öðrum kapítula koma svo hugleiðingar út af því að eg tók að ransaka þetta. Enn fremur . . ."

„Nei, hættu nú, frændi", greip eg fram í, „annars verðum við ringlaðir aftur, eins og þegar við rugluðumst í eg-unum. Maður á aldrei að róa svo langt að maður hafi ekki fjallasýn".

Til þess að greiða bæði sjálfan mig og frænda minn út úr hugsanaflækju þeirri, sem hann vanalega vefur okkur inn í, svo að eg veit oft á endanum hvorki upp né niður á neinu, þá fór eg nú að grenslast eftir, í hvaða ástandi fötin hans væru; því í öllu slíku er hann sjálfur með öllu ósjálfbjarga og ráðþrota. Eg komst þá að raun um, að fatnaður hans var í miklu betra

lagi en eg hafði búist við, og var það án efa Maríu að þakka. Meðan eg var að gæta að þessu, tók eg eftir því að hann lét frakkann flaka frá sér, svo að sem allra mest skyldi fara fyrir sér og gerði það til þess að skyggja á skúmaskot eitt í herberginu. Þegar eg leit þangað, trítlaði hann um gólfið fyrir framan mig alveg eins og gæs, sem breiðir út vængina og reynir að verja unga sína gegn árásum hænsnastúlkunnar. Þegar eg varð þessa var, þreif eg í handlegginn á honum og sagði:

„Farðu frá, frændi. Eg verð að sjá, hvað það er, sem þú hefir falið þarna í skotinu".

Eg fann þar stóran bunka af mygluðum hálsklútum og krögum, sem honum hafði meistaralega tekist að fela fyrir Maríu. Eg rótaði þessu upp með reglustiku og ónáðaði með því heila kynslóð af margfætlum, sem höfðu lifað þar hinu rósamasta heimilislífi. Pöddurnar áttu hinum mörgu fótum sínum fjör að launa, svo að mér tókst að eins að drepa fáeinar af þeim.

„En bezti frændi minn," sagði eg bæði hryggur og reiður, „hvernig í ósköpunum geturðu fengið af þér að vera að dylja breyskleika þinn fyrir mér? Eg get vel skilið, að þú viljir síður láta hina fögru malaradóttir vita af hirðuleysi þínu og sóðaskap; en það er ófyrirgefanlegt af þér, að þú skulir skammast þín frammi fyrir náfrænda þínum, sem þekkir þig svo vel og veit, hvað þú ert sérvitur."

„Bertel," svaraði hann, „eg skil það varla sjálfur. Það er mjög merkilegt sálarfræðislegt atriði. Það er fyrir mér alveg eins og sjúkling, sem liggur fyrir dauðanum, en hefir þó ekki þrek til að segja lækninum frá sjúkdómi sínum, eins og hann í raun og veru er. Þannig skiftist manninum oft og tíðum í tvær persónur, sem vilja draga hver aðra á tálar. En þriðja persónan, sem í rauninni er hin sama sem hinar tvær, stendur undrandi og horfir á viðureignina. Í stuttu máli, hugsun mannsins verður eins og sjónleikur; hún leikur flóknar og margbreytilegar brellur við sjálfa sig og fyrir sjálfa sig, og áhorfandinn verður alt af öðru hvoru leikari. Um þetta verður langur kapituli í bók minni."

Eg leiddi aftur talið að óhreinu fötunum, til þess að hann skyldi ekki skifta sér í alt of margar persónur. Eg tók hvítan hálsklút og breiddi hann út; á honum voru ótal svartar forarrákir og för eftir hökuna, er sýndu það ljóslega, hversu kænlega eigandi hans hafði hvað eftir annað snúið honum við og brotið hann þannig, að skársti bletturinn sæist.

„Bezti frændi," sagði eg, „þig skortir alls ekki hugvit; það sést bezt af því, hvernig þú hefir farið með þennan klút. Þörf og nauðsyn vekja stundum hjá þér eins konar listahæfilegleika." Hann anzaði mér ekki; hann var auðsjáanlega mjög niðursokkinn í umhugsunina um hina merkilegu sjónleika, sem stöðugt var verið að leika í höfðinu á honum.

Haninn malarans var kominn á fætur og gól nú í fyrsta sinn. Eg flýtti mér út um gluggann og inn í herbergi mitt, þar sem rúmið beið eftir mér. —

---

**Kaupendur** „Æskunnar", þeir, er enn eiga óborgaðan IV. árgang, eru vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni sem fyrst.

---

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# JÓLABLAÐ ÆSKUNNAR

## Gleðileg Jól!

V. Árg. | Á Jólunum 1901. | 5. tbl.



## Jólasveinarnir.

FLEST börn hafa víst heyrt jólasveinanna getið, og kunna vísuna um þá:

„Jólasveinarnir einn og átta
ofan komu af fjöllunum“ o. s. frv.

Þegar kemur fram undir jólin, fara þeir að koma ofan af fjöllunum. Sumir segja, að þeir komi strax í byrjun jóla-

föstu, þ. e., þremur eða fjórum vikum fyrir jól, en hvort sem það er nú satt eða ekki, þá er það víst, að mest ber á þeim kring um sjálf jólin; þess vegna eru þeir líka kallaðir jólasveinar.

Nú á dögum verða menn sjaldan mikið varir við jólasveina og halda sumir, að þeir séu útdauðir. En áður fyr þóttu þeir heldur nærgöngulir. Helzt drógu þeir sig að þar sem eitthvað matarlegt var, og af því voru þeim nöfn gefin, svo sem Pottasleikir, Kjötkrókur og Lummusníkir. Þorðu sumar húsmæður ekki annað en að láta standa frammi í búri sérstakan mat handa þeim; annars skemdu þeir jólamatinn, sem fólkið átti að borða. Pottasleikir sleikti pottana með forugum fingrunum, svo að jólagrauturinn varð allur saman kolsvartur, eins og sót hefði farið í hann. Kjötkrókur sleit hangikjötskrofin niður úr eldhúsinu og kroppaði í þau, svo að þau urðu öll eins og músetin. Lummusníkir fór upp á búrhilluna og reif og tætti allar lummurnar niður á gólfið; það var engu líkara en að köttur hefði komist í þær.

Einn af jólasveinunum var kallaður Kertasleikir, af því að húsmæðurnar máttu til að láta loga kertaljós frammi í búri og eldhúsi um jólin; annars lét Kertasleikir vatn í tólgina, sem kertin voru steypt úr, svo að snarkaði í þeim, og ljósið dó, og höfðu þá börnin ekkert gaman af jólaljósunum sínum.

En verstir voru þó jólasveinarnir við óþægu börnin. Ef þau voru með ólæti og hávaða í rökkrunum í kring um jólin, þá kom stundum einn af þeim á gluggann og leit inn til að sjá, hvað um væri að vera. Hann var kallaður Gluggagægir. Og ef þau hættu svo ekki ólátunum, kom það fyrir, að hann laumaðist inn í baðstofu og lagðist á gólfið, svo að börnin duttu um hann og meiddu sig.

Þæg og siðprúð börn þurftu ekki að vera mjög hrædd við jólasveinana; þau máttu heldur hlakka til, þegar þeir kæmu. Þeir komu stundum með stórgjafir handa þeim, svo þegar börnin vöknuðu á jólamorguninn, var alt rúmið og borðið alþakið gjöfum: gullum, kertum, nýjum fötum og ýmsu sælgæti. Það kemur nú fyrir enn þá að þæg og góð börn fá þessar gjafir um jólin; en það eru ekki jólasveinarnir, sem koma með þær, heldur mamma og pabbi.

Hvort sem allar þessar sögur um jólasveinana eru sannar eða ekki, þá er það víst, að mörg börn hafa haldið að þeir væru til; og því hefir nú „Æskan“ viljað gera börnunum það til geðs, að láta þau sjá myndir af þeim.

# Jólanótt

**Æfintýri**

**eftir**

***Johan Bojer.***

ÞAÐ var um vetur . . . . . . . .

„Húh — úh — hú — ú!“ veinaði vindurinn um leið og hann þaut yfir jörðina.

„Píp, píp, ó hve hér er ónotalegt!“ kveinuðu litlu fuglarnir, sem voru skjálfandi af kulda og leituðu sér skjóls hópum saman undir húsþökunum.

„Púh — hú — ú!“ andvarpaði skóg.

urinn, þegar stormurinn geistist gegn um hann og braut greinarnar í sundur og rykti trjánum upp með rótum.

„Komið ekki nærri mér!“ drundi hafið og þeytti himinháum bylgjunum á ísjakana, svo að brast og gnast í ströndinni.

„Ó þessi kuldi, þessi kuldi!“ sagði jörðin geispandi og breiddi snjó-ábreiðuna ofan á sig og fór að sofa.

— Og mennirnir stauluðust áfram dimmu dagana, og þeim leið illa, og áhyggjurnar voru miklar.



Kona nokkur gekk ein síns liðs hús úr húsi. Hún var í svartri kápu og með grátt höfuðdjásn, er alsett var blikandi stjörnum. Stóru, bliðlegu augun hennar störðu fram í ókomna tímann; ennið var bjart og hvítt; fótatak hennar var létt, svo að naumast heyrðist til hennar, þegar hún gekk.

Alt í einu er hún stöðvuð af varðmanni einum í herbúðum mikils hershöfðingja. Hermaðurinn leiðir konuna fyrir hershöfðingja sinn; stóð þá svo á að hann sat og var að reikna út, á hvern hátt hann gæti unnið fjandmönnum sínum mest tjón.

Hershöfðinginn segir: „Hvað heitir þú, kona?“

Og konan segir ekki til nafns síns, en biður þessum orðum:

„Lofaðu mér að komast áfram með barnið að tarna“.

Og hún vefur kápuna sína utan af litlu ungbarni, og það lítur á stríðsmanninn með stóru, öruggu barnsaugunum sínum. Og stríðsmaðurinn horfir aftur á móti á það, og þá minnist hann barnsins síns heima, og honum hitnar um hjartaræturnar. Því næst segir hann:

„Má eg kyssa barnið þitt, kona?“

Og konan leyfir honum það, og stríðsmaðurinn kyssir á litlu kinnina á barninu, en um leið koma tár fram í augun á honum. Svo er konunni leyft að fara.

En þegar hún er farin, situr liðsforinginn hljóður í tjaldi sínu og er að hugsa um bláu augun barnsins. Síðan stendur hann upp skyndilega og lætur boð út ganga til allra liðsflokkanna, að engan óvinanna megi drepa á þessari nóttu.

Og sjálfur gengur hann um í tjöldunum í herbúðunum og segir hermönnunum frá litla barninu, sem til hans hafi komið.

En konan heldur áfram ferð sinni; kemur hún þá að litlum kofa; þar situr fátækur, gamall maður og á ekkert að borða. Konan tekur upp nokkrar sneiðar af brauði, og gamli maðurinn horfir forviða á hana.

En hún segir: „Borðaðu þetta!“

Og öldungurinn tekur á móti brauðsneiðunum og fer að borða. Lifnar nú gleði í

augum hans og hann krýpur á kné fyrir henni og þakkar henni fyrir.

Konan segir þá: „Vilt *þú* sjá barnið mitt?“

Og gamli maðurinn vill feginn sjá lítið barn, af því hann er orðinn svo glaður. Hann tekur með mestu varúð hrukkóttu hendinni sinni í litlu, hvítu barnshöndina, en rödd hans titrar af ljúfum endurminningum, þegar hann segir:

„Ó, hve blessað litla barnið er fallegt“.

En þegar konan er farin þaðan, situr gamli maðurinn einn eftir, og honum finst öll stofan vera full af háleitri, hreinni gleði. Og nú fer hann að leita að gleraugunum sínum, hægt og gætilega, og les síðan dálítinn kafla í biblíunni.

En konan gengur frá einum húsdyrunum til annara, og alls staðar þar sem skortur er, lætur hún eitthvað af hendi rakna, svo að hjörtun fyllast friði og gleði. Hún fer og inn í klefa fangelsisins, til glæpamannsins með hjartað hart og heilan sljófgaðan af varðhaldsvist margra ára. En þegar konan gengur burtu, sjá, þá situr glæpamaðurinn hljóður og starir á fjötra sína, og um sál hans leikur bjarmi af minningunni um litla barnið.

„Veslingurinn!“ segir konan við einn af föngunum, stúlku, sem nú er orðin grá fyrir hærum. „Hvað ert þú að hugsa um í kvöld?“

„Eg er að hugsa um barnið mitt, sem eg myrti. Það eru nú liðin mörg ár síðan.“

„Viltu sjá barnið *mitt*?“

Og blessað litla barnið lítur bláu, skæru augunum sínum á stúlkuna, sem myrt hafði barnið sitt, eins og á alla aðra; þá fer hún að hágráta, og krýpur á kné og kyssir barnið, en það tekur litlu hendinni í gráa hárið hennar.

En þegar svartklædda konan er farin, situr stúlkan, sem myrt hafði barnið sitt, í klefa sínum og finst hún hafa hlotið ofurlitla gleði og huggun, og móðurhjartað í henni tekur að slá, og hún fer að raula vögguljóð fyrir munni sér. Henni finst sem hún eigi einnig dálítinn hlut í litla barninu, sem til hennar kom.

En úti á veginum heldur konan áfram göngunni með barnið sitt; hún setur kornbundini upp til litlu fuglanna, sem er svo kalt, og yfir snjóinn og skóginn og hið bárótta haf leggur hún tunglskins-ró.

Þá legst eftirvæntingarfull tilbeiðslukyrð yfir jörðina og mannshjörtun hvísla hvert að öðru:

„Hver er þessi kona?“

Sjá, þá fer hún upp í kirkju hins mikla Guðs, og hún leysir kirkjuklukkurnar og hringir og hringir, svo að klukknahljómurinn berst um alla jörðina.

„Eg er konan með hinn mikla sálarfrið; og heiti *Jólanótt*“.

(Þýtt hefir Har. Níelsson.)

---

„ÆSKAN“

kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess Jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1.20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun 1/5, gefin af minst 3 eint.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21. annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Ritstjóri: HJÁLMAR SIGURÐSSON.



Aldar-prentsmiðja.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 31. DES. 1901. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 6.—7.

## Karó og Stína.

Það var gamlárskvöld.

Veður var kalt, og þóttist því hver sæll og heppinn, sem ekki þurfti að vera úti. En inni var svo hlýtt og notalegt, og meira en það; þar var alt svo hátíðlegt, ljós í hverju horni og allir prúðbúnir. Það var verið að kveðja gamla árið, og þó að ýmislegt misjafnt hefði mætt flestum á því, þá var þó auðséð á öllum, að þeir höfðu að miklu eða öllu leyti gleymt því; þeir voru svo ánægjulegir, þegar þeir mintust á árið, sem var að enda, og vonin um eitthvað enn þá ánægjulegra skein út úr andliti hvers manns, þegar minst var á ókomna tímann, árið, sem í hönd fór. Allir voru glaðir, sumir glöddust við endurminninguna um það, sem liðið var, fleiri þó við vonina um hið ókomna, en flestir við hvorttveggja.



Og börnin? Já, þau vona nú allraglöðust og ánægðust, því þau hugsuðu hvorki um liðna né ókomna tímann, heldur að eins stundina, sem var að líða. Þess vegna var gleðin þeirra hreinust og innilegust. Þau voru glöð af því þeim fanst lífið svo inndælt, af því þau höfðu svo margt fallegt til að leika sér að, allar jólagjafirnar, af því þau fengu svo óvanalega gott að borða, af því ljósin voru svo mörg og af því allir aðrir voru glaðir.

Einn var þó, sem ekki var glaður. Það var hann Karó gamli. Hann lá einsamall úti í hundahúsinu, húsinu, sem hann hafðist alt af við í, bæði sumar og vetur, bæði þegar hlýtt var og kalt. Hann var látinn vera þar til þess að halda vörð, og hann gætti þess starfa síns trúlega. Kæmi einhver ókunnugur nálægt húsinu eftir að dimma tók, rauk hann upp með urri og gelti, og linti ekki látum, fyr en hann varð þess var, að komumaður var farinn burt aftur, eða einhver af heimamönnum hafði orðið var við hann. Að hlaupa burt gat ekki komið til nokkurra mála. Hvorki hafði hann neina löngun til

þess né heldur neitt tækifæri; því hann var bundinn við hundahúsið með sterkum járnhlekkjum.

En í kvöld var hann alls ekki ánægður með lífið. Ekki svo að skilja, að hann væri neitt áhyggjufullur út af framtíðinni eða væri neitt að hugsa um liðna tímann og alt það, sem hann hafði orðið að þola þarna úti í köldu og leiðinlegu hundahúsinu um dagana. Nei, það var ekkert þesskáttar. Hann líktist nú börnunum í því, hann Karó, að hann var ekki mikið að hugsa um liðna eða ókomna tímann, heldur að eins hið yfirstandandi. Og það var einmitt það, sem var svo framúrskarandi raunalegt. Kuldinn var slæmur; það hafði hann oft fundið áður, en í kvöld var hann alveg óþolandi. Og þó var það ekki af því að veðrið væri verra en það hafði oft verið áður. Það var annað og verra, sem nú var að.

Hann hafði engan mat fengið um kvöldið. Hann vissi það vel, að nú var komið langt fram yfir þann tíma, þegar vant var að koma með mat til hans. Hann fann það á sér, þó ekki vissi hann, hvað klukkan var. Hann varð þess líka áskynja, að inni í húsinu var verið að fara með mat, og það meira að segja góðan mat, og honum fanst það alveg ófyrirgefanlegt að fólkið skyldi ekki gefa sér neitt. Hvað hafði hann þá til saka unnið? Hann vissi ekki betur en að hann hefði urrað og gelt af öllum mætti í hvert einasta skifti, sem nokkuð tortryggilegt var á ferðum. Hann vissi ekki til, að hann hefði nokkurn tíma vanrækt að gegna þeirri skyldu, sem á honum hvíldi. Hvað var það þá? Hann skildi ekkert í því.

Hvað átti hann að gera? Hann hnipraði sig saman lengst inni í horni á hundahúsinu og reyndi að sofa. En hann gat það ekki, og bar tvent til þess. Fyrst það, að sulturinn var svo sár, og svo óttinn, — óttinn fyrir því, að hann væri kominn í ónáð hjá húsbændum sínum. Hann hlustaði og hlustaði, hvort hann heyrði engan koma út til sín. Nei, hann heyrði glögt hávaðann innan úr húsinu, en ekkert, sem glæddi vonir hans.

Nú datt honum nokkuð í hug. En skyldi það geta átt sér stað? Ólíklegt var það, en þó ekki alveg óhugsandi. Skyldi það hafa gleymst? Og hvaða ráð voru við því? Jú, hann vissi, hvað hann átti að gera til þess að minna á sig. En það var neyðarúrræði. Hann hafði aldrei látið til sín heyra nema þegar skyldan bauð honum það, og hann vissi, að því mundi ekki verða tekið með þökkum, ef hann færi að gjamma að ástæðulausu, því þá væri aldrei gott að vita, hvenær hætta væri á ferðum.

En eitthvað varð hann að taka til bragðs. Hann bjóst við að fólkið mundi bráðum fara að hátta, og þá var alt orðið um seinan, og að vera matarlaus alla liðlanga nóttina — til þess mátti hann ekki hugsa. Og — svo áður en hann vissi af því, var hann farinn að gelta og ýlfra í ákafa; og svo hugsaði hann með sér, að úr því nú út í það væri komið, þá væri bezt að gera það svo um munaði. —

— „Nei, þá man eg það, að eg gleymdi að gefa honum Karó,“ sagði eldabuskan, þegar hún heyrði lætin; „hann er víst farinn að verða óþolinmóður að bíða eftir kvöldmatnum sínum, greyið.“

„Má eg ekki — má eg ekki fara með

hann út til hans?" sagði Stína litla. Hún var svo dæmalaust góð við allar skepnur, og Karó var nú sérstaklega uppáhaldið hennar.

Svo flýtti hún sér að fá sér eitthvað á höfuðið, en náði ekki í annað en sumarhattinn sinn, sem hékk í anddyrinu. Hún tók það, sem hendi var næst, því nú lá á að hraða sér.

Eldabuskan var búin að kúffylla trogið, sem Karó var gefið í, af alls konar góðgæti, miklu betra en hann var vanur að fá, og Stína litla hljóp nú með það út til hans.

Undir eins og dyrnar voru opnaðar, hætti hann að gelta. Hann fann það á lyktinni, að nú mundi þrautin brátt á enda.

Stína litla stóð yfir honum, meðan hann var að klára úr troginu, og tók það furðu stuttan tíma. Reyndar var henni dálítið farið að kólna, sem von var, þar sem hún var ekki vel klædd. En hún hafði svo mikla ánægju af að horfa á hann, að henni fanst það vel til vinnandi, þó henni yrði svolítið kalt.

Þegar Karó var búinn, sleikti hann makráður út um og leit á Stínu, rétti síðan fram annan framfótinn til að þakka fyrir sig, — að vísu var það vinstri fóturinn, en það er ekki tiltökumál, því að hann var hundur, og sum börn eru þó orðin nokkuð gömul, þegar þau vita, hvora höndina þau eiga að rétta fram til að þakka fyrir sig með. Og þau börn eru jafnvel til, sem eru svo miklu ver að sér en Karó, að þau þakka alls ekki fyrir sig, og það þótt margfalt meira sé gert fyrir þau heldur en hann.

Nú var Karó ánægður; þegar Stína var farin aftur, rölti hann inn í húsið sitt, og lagðist þar endilangur fram á lappir sínar, svo að höfuðið stóð út úr dyrunum. Honum fanst það svo sem sjálfsagt að gæta nú vel að öllu í nótt og vera dyggur og árvakur; minna mátti það ekki vera fyrir allan þennan góða mat, sem hann hafði fengið. —

Þannig endaði hann árið, hann Karó, trúr og skyldurækinn og þakklátur fyrir það litla góða, sem hann hafði notið.

Betur, að öll börn gætu endað árið á sama hátt.

*Sk.*

# Heilræði til drengjanna.

Meiddu ekki barn, sem er minna en þú sjálfur. Það gera ekki aðrir en hugleysingjar.

Vertu vingjarnlegur og kurteis heima fyrir.

Hjálpaðu þér sjálfur. Það getur oft verið gott að kunna sjálfur að festa hnapp á buxurnar sínar.

Settu þig ekki á bezta stólinn í stofunni. Og ef þú hefir gert það, þá stattu upp, þegar einhver eldri en þú kemur inn, og bjóddu honum að sitja.

Vertu eins kurteis við hana mömmu þína, eins og þú ert við marga ókunnuga, sem ekki lifa og stríða fyrir þig. Þegar hún er farin frá þér, muntu fagna yfir því, ef þú hefir verið það.

Hrósaðu þér af því að mega kalla hana mömmu þína og systur þínar beztu vinkonur þínar. Þú eignast aldrei neinar betri.

Segðu mömmu þinni frá öllu — líka þó

þú hafir gert eitthvað rangt. — Syndajátningin gerir þér erfiðara fyrir að syndga að nýju.

Segðu aldrei eftir þeim, sem meðsekir eru. Samvizka þín verður ekki betri fyrir það.

Ven þig ekki á að brúka tóbak eða drekka áfengi. Það er vani, sem óþarft er að venja sig á, en erfitt að venja sig af, þegar maður loksins fer að sjá, hve skaðlegur hann er.

(*Magne.*)

## Tígrisdýrið og lúðurþeytarinn.

Lúðurþeytari einn, sem var í herþjónustu suður við Góðrarvonarhöfða, var boðinn í brúðkaup í bænum Konstantía, og var komið fram á nótt, þegar hann sneri heimleiðis aftur. Á leiðinni settist hann niður til að hvíla sig undir tré einu, og sofnaði. Innan skamms vaknaði hann við það, að tígrisdýr var þar komið og farið að rífa í fötin hans heldur óþyrmilega. Hann var þó ekki lengi að átta sig, náði í lúðurinn, sem hékk á grein við höfuð hans og blés í hann af öllum mætti. Þetta hreif. Tígrisdýrið, sem var því óvant að heyra þetta hljóð svo nálægt sér, varð skelkað og hljóp burt. En lúðurþeytarinn, sem án efa var engu óhræddari, sá það ráð vænst, að spila ekki lengur fyrir tígrisdýrið en nauðsynlegt var, og flýtti sér því að halda áfram leiðar sinnar.

(*Börnenes Bog*).

## Vanmáttur mitt í upphefðinni.

(**Dæmisaga.**)

Þegar kalífinn Mohammed fann dauða sinn nálgast, vildi hann sýna sig þegnum sínum einu sinni enn í allri sinni dýrð og vegsemd. Hann settist í hásæti sitt úr gulli gert þannig, að hann gat séð langt út yfir landið. Sonur hans og ríkiserfingi sat hægra megin við hlið honum, en skör lægra. Önnur af börnum hans stóðu fyrir framan hann ásamt tólf hundruð þjóðhöfðingjum, en æðstu embættismenn ríkisins krupu á knjám fyrir framan hásætið. Allar konur hans, öll hirð hans og allir hermenn hans fóru fram hjá í afar löngum röðum. Öllum fjársjóðum hans, gullinu hans, demantinum og öðrum gimsteinum var hlaðið upp til beggja handa hans, og fengu þeir glýju í augun, er viðstaddir voru af ofbirtunni, sem sló af gimsteinunum í sólskininu.

Mohammed sat í hásæti sínu með gullhlað um enni og veldissprotann í hendi sér. Allir aðrir þögðu, en hann sneri sér að syni sínum og mælti:

„Þér er kunnugt veldi mitt, auðæfi mín og vegsemd . Finst þér það vera nægilega mikið?“

„Herra, veldi þitt er takmarkalaust,“ svaraði konungssonurinn. „Ó, að hinn eilífi guð gefi þér langa lífdaga!“

„Heldur þú,“ mælti Mohammed ennfremur, „að nokkur sé sá konungur eða þjóðhöfðingi á jörðu, er sé mér meiri að veg og voldugri en eg?“

„Nei, enginn slíkur er til“, svaraði konungssonurinn. „Enginn er sá mannlegur

máttur og vegsemd á jörðu, er hægt sé að bera saman við þig“.

„Eg er þá í augum þínum hinn voldugasti og mesti maður á jörðunni“, mælti Mohammed enn, „og þó skalt þú, með því að sjá mig, læra, hve vanmáttugur jafnvel sá er, sem hefir hinar æðstu virðingar.

Get eg lengt líf mitt, jafnvel eitt einasta augabragð? — Nei, eg get ekki svo mikið sem linað þær kvalir, sem þjá líkama minn. Vei þeim, sem binda sálir sínar við fánýti og hégóma þessa heims. Mundu það, sonur minn góður, að sá eini máttur og veldi er guð einn. Innan mjög lítils tíma mun eg standa frammi fyrir hásæti hans, og eg, sem er nú sá voldugasti og mesti hér á jörðu, mun þá verða minni frammi fyrir honum og skjálfa meira en sá aumasti þræll minn titrar, þegar hann stendur frammi fyrir hásæti mínu.“

# Kænn hundur.

Englendingar eru mjög hreinlegir og fara sjaldan svo að heiman, að þeir séu ekki allir burstaðir og uppstroknir. Einn dag bar svo við, að Englendingur átti leið um eina brúna yfir ána Seine í París. Þá bar þar að hund, sem var mjög forugur um fæturna, og steig ofan á stígvélin hans, svo að þau urðu óhrein. Englendingnum gramdist þetta, en flýtti sér að láta skóburstara einn, sem þar var nálægt, bæta úr því. (Í stórborgunum hafa margir menn atvinnu af því að bursta skó, og hafast þeir við úti á strætunum, þar sem fjölfarnast er, og reka þar atvinnu sína.). Liðu nú svo margir dagar, að Englendingurinn fór þessa sömu leið, og alt af kom sami hundurinn, og alt af var hann forugur um fæturna, eins þó þurt veður væri. Fór nú Englendinginn að gruna, að hér væri ekki alt með feldu, og ásetti sér því að komast eftir, hvernig á því stæði. Sá hann þá, að hundurinn fór niður að ánni og vætti þar fæturna, flýtti sér því næst upp á brúna og sætti færi að óhreinka þá, er framhjá gengu. Skóburstarinn var nú tekinn fyrir og yfirheyrður, og meðgekk hann þá, að hann ætti þennan hund og hefði vanið hann á að óhreinka skó manna, þegar þurt væri um, til þess að sem flestir þyrftu að koma til sín að láta bursta skó.

(*Dyrevennen.*)

# Ameríkufarinn.

Verzlunarhúsið Gruit van Steen var eitt meðal hinna ríkustu og frægustu verzlunarhúsa í Hamborg á fyrri hluta 17. aldarinnar. Eigandi verzlunarinnar, Hermann Gruit, hafði tekið við henni eftir dauða föður síns. Hjá honum var gamall verzlunarþjónn, er Jansen hét; hafði hann verið við verzlunina frá barnæsku og sýndi hinum unga húsbónda sínum sömu trygð og hollustu, eins og hann hafði áður sýnt föður hans. Jansen var flestum samtíðarmönnum sínum færari í verzlunarsökum, og voru því orð hans og skoðanir engu minna metnar á skrifstofunni, en húsbónda hans.

Þrjátíu-ára-stríðið á Þýzkalandi hafði þeg-

ar geysað í 20 ár. Rán, morð og brennur voru daglegir viðburðir. Óvinirnir höfðu eyðilagt fjölda borga og bæja, og íbúarnir voru flúnir á skóga út með fénað sinn, til að komast undan böðulshöndum óvinanna, sem rændu öllu, er þeir gátu náð til, bæði af heimilum manna og ferðamönnum. Af þessu ástandi leiddi það, að öll verzlunarviðskifti urðu nærfelt ómöguleg, einkum þegar yfir land var að sækja, og afleiðingarnar komu brátt í ljós meðal kaupmanna, eigi síður hjá Hermanni Gruit en öðrum.

Einn morgun sat Jansen gamli á skrifstofunni í þungu skapi. Hann hristi höfuðið og starði lengi upp í loftið, eins og hann væri að telja flugurnar, sem skriðu eftir brúnleitu, köflóttu loftinu. Alt í einu tók hann álftarfjöðrina, dýfði pennanum nokkrum sinnum ofan í silfurblekbyttuna og skrifaði bréf á svipstundu.

Hermann, sem sat andspænis honum, rauk upp af stólnum og sagði:

„Kæri Jansen, hvað gengur að yður? Þér hafið þó víst ekki í fyrsta skiftið á æfinni komið niður í ráðhúskjallarann og smakkað á spænska víninu?“

„Nei, herra,“ svaraði Jansen dálítið önugur; „en með þessu lagi er ómögulegt að verzlunin geti haldið áfram. Hér á Þýzkalandi eru allar bjargir bannaðar vegna stríðsins. Og hvaða gagn er að því að hafa stórt skip í förum, þegar það fer ekkert annað en til Hollands, og kaupmennirnir þar eru svo ósvífnir að selja vörurnar með miklu hærra verði heldur en hægt er að fá þær fyrir á Englandi eða í Ameríku? Þess vegna vildi eg stinga upp á því við yður, að þér fengjuð mér skipið til umráða í eitt ár, og létuð mig fara með það til Ameríku með svo mikið af þýzkum vörum, sem yður sýnist hæfilegt. Þér vitið, að eg hefi komið þangað tvisvar sinnum áður, og að eg er þó ekki svo fráleitur í verzlunarsökum.“

Hermanni virtist mál þetta þurfa rækilegrar íhugunar við, og var Jansen því samdóma, því í aðra röndina var hann dálítið efablandinn um það, hvort rétt væri að eiga svo mikið á hættu. En loksins, eftir miklar bollaleggingar, komust þó báðir að þeirri niðurstöðu, að það væri óumflýjanlegt að ráðast í það.

Mánuði síðar var alt tilbúið, og Hermann van Steen fylgdi Ameríkufaranum niður að höfninni. Manngrúi mikill hafði þyrpst saman niðri við hafnarbryggjuna til að sjá, þegar kaupskipið léti í haf; en þegar þeir Hermann og Jansen komu, þokuðu allir fyrir þeim, því báðir voru þeir í miklum metum og áttu mestu vinsældum að fagna meðal borgarmanna. Ráðherrar nokkrir voru þar viðstaddir, og vék einn þeirra, gamall maður og gráhærður, sér að Hermanni og mælti:

„Það er æði-hlaðið, skipið yðar, Hermann minn góður! Það er vonandi, að þér hafið nú ekki stofnað yður í alt of mikinn voða; leiðin er löng og hættuleg, og Jansen farinn að eldast.“

Hermann ypti öxlum og svaraði: „Jansen hefir tekið það alt að sér; eg treysti trúmensku hans, dugnaði og þekkingu, og hefi því ekki skoðað huga minn um að fela honum það alt saman.“

Og Jansen bætti við: „Verið alveg rólegir. Þetta er í þriðja sinnið, sem eg fer þessa leið, og í þriðja sinn er það fullreynt; hefi eg þá öruggu von, að við munum

sjást aftur ánægðir og heilir á húfi. Guð mun ekki yfirgefa Jansen gamla. Verið þér sælir!“

Nú reið fyrsta skotið af til merkis um að skipið skyldi létta akkerum, og báturinn, sem Jansen átti að fara með út í skipið, rendi að bryggjunni. Hann tók enn einu sinni í hönd húsbónda sínum og sáust tár koma fram í augu honum. Síðan steig hann út í bátinn, og var að vörmu spori kominn út í skipið. Þá drundi síðasta fallbyssuskotið; fánar blöktu á hverri rá, og skipið brunaði af stað fyrir hagstæðum byr; Jansen stóð á þilfarinu og veifaði vasaklútnum sínum, þangað til skipið var komið í hvarf. Þá dreifðist mannfjöldinn, sem á landi stóð, í allar áttir, og Hermann gekk heim ásamt stéttarbræðrum sínum. — —

— — — — — Níu mánuðir eru liðnir; en ekki er Jansen kominn aftur og engar fregnir frá honum. Þar á móti hefir heyrst, að þýzk kaupskip hafi farist í nánd við austurströnd Ameríku. Hermann fór nú að verða órór og kvíðafullur. Hann hafði orðið fyrir óhöppum miklum á þessu tímabili; verzlunarhús þau, er hann hafði haft viðskifti við, höfðu brugðist honum, og varla leið nokkur dagur svo, að ekki færði hann einhverjar illar fréttir

Hermann var nú að gera upp reikninga verzlunarinnar. Hann lagði saman skuldirnar, sem á henni hvíldu, og síðan þær skuldir, er hún átti útistandandi og vörurnar, sem til voru. Á skrifstofunni var dauðakyrð yfir öllu; ekkert orð, enginn skarkali, nema skrjáfið í pennunum hjá verzlunarþjónunum, og við og við þung andvörp frá brjósti kaupmannsins. Loksins leit hann upp og á mynd föður síns, sem hékk á þilinu andspænis honum, og um leið hrundu þung og heit tár niður á höfuðbókina. Lengi, lengi horfði hann á myndina, en alt í einu raknaði hann við sér, strauk ennið, eins og hann vaknaði af draumi, lagði frá sér pennann, lokaði bókinni og gekk til herbergja sinna. Þar hafði hann fataskifti og bjóst ráðherrabúningi sínum, kvaddi síðan konu sína og börnin sín þrjú, og sagði þeim, að þann dag væri samkoma í ráðinu, og þyrfti því eigi að búast við sér til miðdegisverðar; lagði hann síðan af stað til ráðhússins, og á eftir honum einn af þjónum hans, sem bar höfuðbókina.

Þegar í ráðhúsið kom, skilaði Hermann af sér öllum þeim heiðursmerkjum og virðingum, er hann hafði hlotið, og lýsti yfir því, að hann væri gjaldþrota.

Ráðherrarnir, sem viðstaddir voru, urðu sem þrumu lostnir, rannsökuðu bækurnar, og þegar þeir höfðu komist að raun um, að öll reikningsfærsla hans var í bezta lagi og að honum varð engin sök gefin á óhamingju þessari, samþyktu þeir í einu hljóði að veita honum enn sex mánaða frest; en þegar hann væri útrunninn, þótti mega ganga að því vísu, að skipið hefði farist, ef það væri þá enn ókomið.

Sex mánuðir liðu og tveir mánuðir í viðbót, en ekki var Jansen kominn enn þá. Ástæður Hermanns höfðu ekki batnað á þessu tímabili, heldur krepti þvert á móti alt af meira og meira að honum. Viðskiftamenn hans, sem fé áttu hjá honum, höfðu verið óánægðir yfir því, að honum var veittur þessi frestur, og kómu nú úr öllum áttum og heimtuðu, að farið væri

að lögum og verzlun og bú Hermanns selt. Yfirvöldin máttu til að verða við þessum kröfum, hvort sem þeim féll það ljúft eða leitt; voru því allar eigur hans innsiglaðar, og hann fékk að eins eitt lítið herbergi fyrir sig og fjölskyldu sína.

Uppboðið var byrjað. Það var haldið í skrifstofunni við hliðina á herbergi því, sem Hermann hafðist við í með konu sinni og börnum, og heyrðist því rödd uppboðshaldarans glögt þangað inn. Í hvert skifti, er hlutur var boðinn upp, fanst Hermanni, eins og það væri hann sjálfur, sem væri verið að selja, eins og það væri velferð sín og lífsvon, álit sitt og mannhylli. Þetta var það, sem hann hafði lifað og starfað fyrir, borið umhyggju fyrir og varðveitt af ítrasta mætti alla sína æfi. Og hann hafði álitið það helga skyldu að gera það, bæði af því að þetta var föðurleifð hans, það pund, sem honum hafði verið falið að annast um, og af því að af þessu átti hann að hafa lífsframfæri fyrir sig og sína. Nú stóðu þau einmana og hjálparlaus eftir. Þess vegna hljómaði hvert orð uppboðshaldarans eins og dómsorð í eyrum hans: „Þú ónýti þjón“, o. s. frv. Þess vegna fanst honum að hamarshöggin, þegar munirnir voru slegnir hæstbjóðanda, snerta hjarta sitt, líkast því sem verið væri að negla líkkistu sína.

Hann sat með hönd undir kinn og starði í hugsunarleysi á nafnspjaldið, sem hékk yfir dyrunum á veitingahúsinu hinumegin við götuna. Á því stóð: „Amerikufarinn“. Það var nafn veitingahússins. Kona hans sat við ofninn og grét, en yngstu drengirnir tveir léku sér á gólfinu. (Niðurl.)

# Til lesenda Æskunnar.

Útsölumenn og aðrir, sem vilja fá fleiri eintök send af þessum árg. „Æskunnar“ en hinum síðasta, eru vinsaml. beðnir að tilkynna það *sem allra fyrst*, svo að upplaginu verði hagað eftir því.

*Úrsagnir* úr þessum árg. blaðsins gerum vér ekki ráð fyrir að fá héðan af, þar sem nú eru þegar komin 7 blöð af árg. og búið að senda þau út. Vér berum það traust til allra þeirra, sem blaðið er sent til, að þeir láti ekki kosta upp á að senda sér það án þess að það sé selt, heldur segi til þess í tíma, ef þeir búast ekki við að geta komið því út.

Kvartanir yfir útsendingu og vanskilum á blaðinu sendist sem fyrst til afgreiðslumanns. Verður þá ráðin bót á því með næsta pósti eftir að bréfið berst honum í hendur.

---

☛ **Myndin** af jólasveinunum í síðasta bl. tókst því miður ver en skyldi í nokkrum hluta upplagsins; munu þau blöð einkum hafa verið send til Vesturlandsins, og eru kaupendur þeir, sem þau hafa fengið, vinsaml. beðnir að virða þetta á betri veg. Orsökin var sú, að prentuninni þurfti að hraða mjög mikið. Verður reynt að bæta úr því með því að láta fleiri myndir birtast í þessum árg. blaðsins, en hinum síðasta.

---

**Kaupendur** „Æskunnar“, þeir, er enn eiga óborgaðan IV. árgang, eru vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni sem fyrst.

---

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 28. JAN. 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 8.—9.

## Einar Hjörleifsson

er fæddnr að Undirfelli í Vatnsdal í Húnavatnssýslu 9. des. 1859 og er faðir hans séra Hjörleifur Einarsson einn prestur þar. Einar fór í lærðaskólann ungur að aldri og er útskrifaður þaðan með fyrstu einkun vorið 1881, þá á tuttugasta og öðru aldurs-



ári. Þaðan fór hann til háskólans í Kaupmannahöfn. Komst hann þar brátt í hóp hinna fjörugustu íslenzku stúdenta. Voru meðal þeirra einkum þrír menn, Hannes Hafstein, Gestur Pálsson og Bertel Þorleifsson. Voru þeir allir skáldmæltir og gáfu sig mjög að skáldsksp á þeim árum. Eftlr nokkurn tíma gáfu þeir út skáldrit eitt, er nefndist „Verðaudi". Höfðu þeir allir fjórir lagt til sinn skerfinn hver, og ritaði Einar þar í sögu nokkra er nefndist „Upp og niður". Eftir nokkura ára dvöl við háskólann fluttist Einar vestur til Ameríku og settist að í Winnipeg í Kanada; gerðist hann þar ritstjóri að íslenzku blaði, er þar var gefið út og „Lögberg" nefndist. Árið 1865 fluttist hann til Reykjavíkur og varð þá þegar meðritstjóri að blaðinu „Ísafold", en haustið 1901 hvarf hann þaðan og tók bólfestu á Akureyri, og er hann þar nú ritstjóri fyrir nýju blaði, sem kallað er „Norðurland". Þegar hann var í Ameríku ritaði hann sögu, er nefndist „Vonir", og skömmu síðar kom út dálítið ljóðasafn eftir hann. Síðan hann kom hingað til landsins aftur, hefir hann ritað fáeinar sögur, fagrar að efni og búningi, og mundu þær að líkindum hafa verið fleiri, og stærri ef ástæður hans hefðu ekki valdið því, að hann hefir orðið að lifa af því, að sinna alt öðrum störfum.

---

## Nýtt ár.

*Gleðilegt og gott ár!*

Gamla árið er liðið, fyrsta ár tuttugustu aldarinnar, og annað ár byrjað á ný, með nýar vonir, og nýja hvöt til dugs og dáðar, áhuga og atorku. Hafið þið nú jafnframt, góðu börn, orðið einu árinu nær því að verða góðir og nýtir menn? einu árinu auðugri að þekkingu, einu ár-

inu auðugri að góðum hugsunum, trú á guðs föðurkærleik og allt, sem er gott og fagurt? Betur að svo væri, því ef þið haldið þannig áfram, er enginn efi á því, að þið munið verða gæfusöm, þegar þið komist á fullorðins aldur.

Munið eftir því, að þó nauðsynlegt sé, að hafa nóg fyrir sig að leggja og njóta trausts og virðingar annara, er það alls ekki skilyrði fyrir gæfu, að safna miklum auði eða komast til hárra metorða. Sá er vanalega gæfusamastur, sem gerir verk sitt vel, í hvaða stöðu sem hann er staddur. Og vinnumaðurinn og vinnukonan geta verið sæmdarmenn engu síður en embættismaðurinn.

Vér sjáum hér á meðal vor börn, sem eru leidd afvega, sem breyta þvert á móti boðum guðs og manna. Varist dæmi þeirra, því það leiðir til ógæfu. En fyrirlítið þau ekki. Biðjið guð fyrir þeim, að þau bæti ráð sitt og verði að betri mönnum. Því með guðs hjálp geta þau orðið það enn.

Varið yður á slæmum félagsskap, og ef þið sjáið eitthvað gert sem ósæmilegt er, þá leynið því ekki, ef þið getið ekki afstýrt því.

Munið eftir því, í allri hegðun yðar, að altsjáandi auga guðs vakir yfir yður og sér alt sem þið gerið, hvort það er heldur gott eða ilt.

## Ameríkufarinn.

**Niðurlag.**

Elzti sonurinn, sem hét Frits, var frammi við dyrnar, og hélt í bæði eyrun á stórum hundi, sem kallaður var Boll, og reyndi að sefa hann; hundurinn kunni illa við allan þennan hávaða úti fyrir, hann var sí-urrandi og lét mjög ófriðlega.

„Vertu rólegur, Boll, þeir skulu ekki selja *þig*“.

Ráðhúsþjónninn kom nú inn. Það var gamall og góðlegur maður, og hafði hann oft áður opnað ráðhúsdyrnar fyrir Hermanni og hneigt sig fyrir honum. Nú kom hann í öðrum erindagjörgum, og var auðséð á honum að honum féll það þungt.

„Eg er komin til að sækja hægindastólinn, herra ráðherra,“ stamaði hann.

Hermann leit undan og andvarpaði: „Það er hart; en verði guðs vilji.“

Hægindastóllinn var klæddur grænu flaueli, og hafði faðir Hermanns setið í honum síðustu augnablikin, er hann lifði, og þegar hann hafði lýst blessun sinni yfir syni sínum. Hann hafði alt til þessa verið álitinn gersemi ættarinnar. Nú var hann borinn út og Hermann kom ósjálfrátt á eftir ásamt konu sinni og börnum. Frits kom seinastur með Boll.

„Númer 120!“ hrópaði uppboðshaldarinn. „Hægindastóll í ágætu standi, flauelsklæddur!“

En enginn vildi bjóða. Það var dauðaþögn í salnum, og allir horfðu þangað, sem húsfaðirinn og fólk hans stóð.

Loksins kallaði feitur og digur slátrari með skerandi rödd:

„Fjögur mörk!“

„Fjögur mörk; Fyrsta sinn! — Býður enginn betur?“ hrópaði uppboðshaldarinn.

Í sama bili varð Boll alveg hamslaus, reif sig lausan og hljóp út úr dyrunum.

„Fjörutíu mörk í fyrsta sinn!“ var kallað með afarsterkri rödd inn um glugga sem stóð opinn. Og augnabliki síðar kom inn um dyrnar gamall maður í sjómannabúningi og sólbrunninn í framan, og honum fylgdi Boll, sem hoppaði upp og réð sér varla fyrir kæti.

„Fjögur hundruð mörk — annað, þriðja og síðasta sinn!“ hrópaði sjómaðurinn með þrumandi rödd, og sló með staf sínum í borðið svo fast, að skjöl uppboðshaldarans fuku í allar áttir, en allir, sem við voru, stóðu sem steini lostnir..

„Guð minn góður, það er þá Jansen!“ sagði Hermann og féll um háls honum.

„Já, víst er það eg,“ svaraði hann; skipið okkar liggur hérna úti á höfninni, hlaðið vörum og miklu af gulli. Uppboðinu er nú lokið. Burt með ykkur alla saman!“ og svo sveiflaði hann stafnum í kringum sig, svo að allir hrukku frá. „Á morgun verða allar skuldirnar borgaðar með vöxtum. Því það skuluð þér vita, að drottinn lifir enn, verzlunarhusið stendur enn og verzlunarnafnið Hermann Gruit von Steen lifir enn og blómgast! Svo ekki meira um það. — Sælir og blessaðir verið þér, Hermann minn góður, og þér, frú Elísabet!“

— Þannig breyttist sorgin á svipstundu í óumræðilega gleði. En hitt ber einnig alloft við, að gleðin breytist í sorg á skammri stundu. Gætið því hófs bæði í gleði og sorg, og minnist þess, að hvorki gleðin né sorgin er eingöngu á mannanna valdi.

# Wolfgang litli.

**Smásaga frá æskuárum Mozarts tónaskálds.**

Skömmu eftir miðja átjándu öld var það einn góðan veðurdag, að dálítill drengur nálægt fjögra vetra var inni í óálitlegri dagstofu í bænum Salzburg í Austurríki. Lá hann á hnjánum uppi á fóðruðum stól fölur í framan, studdi höndum undir kinnar og hallaði sér út úr glugganum, en starði stöðugt á stórt perutré, sem náði með greinar sínar hartnær að glugganum. Var hann að taka eftir dálitlum fugl, sem hoppaði fjörugur af einni greininni á aðra. Loks leit svo út, sem fuglinn hefði fundið stað þar sem honum litist að dvelja stundarsakir, því hann settist í makindum, skimaði því næst í kring um sig á alla vegu, og svo að kvaka.

Drengurinn hlustaði á söngfuglinn með mjög mikilli athygli, en alt í einu var auðséð, að honum datt eitthvað nýtt í hug, því andlit hans ljómaði af gleði. Hægt og hægt fór hann að herma eftir fuglinum, og ekki leið á löngu áður mátt hefði villast á söng hans og halda að það væri fuglakvak. Fuglinn þagnaði, stakk höfðinu undir vænginn, og leit út fyrir, að hann langaði til að fá sér dálítinn dúr.

Drengurinn þagnaði líka örstutta stund, en tók því næst að kvaka svo nauðalíkt fuglinum, að fuglinn reis upp alt í einu, og teygði hálsinn sitt í hverja áttina, til þess að heyra, hvaðan hljóðið kæmi.

Litla drenginn hafði langað mest til, að kalla upp af gleði, en hann gætti sín þó, svo hann fældi ekki litla söngfuglinn. Hann fór að kvaka á ný. Fuglinn hlustaði stutta stund, en fór því næst að kvaka með

miklu fjöri, og má þá nærri geta, hve litli listamaðurinn varð hróðugur. Þegar annar þeirra hætti að syngja byrjaði hinn, og gekk það vel þegar þeir höfðu vanist dálítið hvor við annan.

„Nei, heyrið það! Wolfgang syngur eins og fugl.“ kallaði dálítil stúlka upp yfir sig; hafði hún komist aftan að honum án þess hann yrði var við og klappaði saman lófunum af gleði. Þetta geðjaðist fuglinum þó ekki að, því hann þandi þegar út vængina og flaug burt í skyndi.

„Æ, þú hefir fælt hann burt með heimskunni úr þér með því að klappa saman lófunum. Nú vil eg ekki sjá þig framar,“ kallaði litli drengurinn til systur sinnar, sem var tveimur árum eldri en hann. Varð hún alveg í vandræðum, og stóð í sömu sporum hrygg og grátandi yfir því að hún hafði valdið svona mikilli óhamingju.

„Wolfgang minn góði, þú mátt ekki vera reiður við mig, eg gerði það ekki viljandi,“ mælti hún til að bliðka hann, tók utan um höfuðið á honum og kysti hann ástúðlega á munninn.

„Reyndu þessa skemtilegu list enn þá einu sinni.“

„Nei, eg er ekkert reiður við þig, Nánetta mín góð. Nú skal eg segja þér nokkuð. Eg ætla að skriða inn í fuglabúrið, og svo áttu sjálf að geta, hvaða fugl eg er, þegar eg sit þar inni og syng fyrir þig.“

Drengurinn skreið ofan í stóra tóma þvottarkörfu, kúrði niður, beygði hálsinn, sneri höfðinu í allar áttir, og fór því næst að hoppa upp og baða út höndunum eins og hann ætlaði sér að fljúga. Því næst settist hann rólega niður, kallaði til systur sinnar, að hún skyldi hætta að hlæja, og fór að kvaka eins og fugl.

„Nei, nei, þetta er siskena,“ kallaði systir hans upp yfir sig. (Siskena, er dálítill söngfugl, líkur kanarífuglinum.)

Drengurinn kinkaði kolli og bað hana, að setjast líka ofan í körfuna. Gerði hún það, og fór hann nú að reyna að kenna henni fuglakvak, og sagði henni, að mjög hægt væri að læra það; telpunni gekk það þó miklu miður, en loks hafði hún þó lært dálítið, og nú sátu bæði börnin í þessu stóra hreiðri sinu og kvökuðu í ákafa. Þegar söngnum var lokið, fóru þau að tala saman hljóðskraf.

„Mundu nú eftir því, að segja honum pabba ekki neitt frá þessu,“ sagði drengurinn að endingu. „Nei, það skal eg ekki gera,“ fullvissaði hún hann um. Var þá samtalinu lokið, börnin skriðu bæði upp úr körfunni og gengu út í garðinn.

Leopold Mozart var söngstjóri við hirð erkibiskupsins í Salzburg, og voru *þau* Wolfgang og Nanetta einu börnin, er hann átti. Um það leyti hugði hvorki hann, eða sæmdarkona sú, er hann átti, að Wolfgang litli mundi verða svo frægur maður, að nafnið Mozart yrði alkunnugt víðsvegar um á ókomnum öldum, og að hann yrði það tónaskáld, sem yrði kunnur um allan heim fyrir það, hvað hann samdi undur-fögur lög, er hann ritaði upp á nótur. Þau dreymdi ekki um það, að myndastytta hans mundi sjást víðsvegar ýmist úr málmi eða marmara, en sönglög hans geymast hjá komandi kynslóðum.

Rétt á eftir komu bæði börnin hlaupandi inn og drengurinn flýtti sér inn í her-

bergið er lá næst dagstofunni, og lét hurðina standa opna í hálfa gátt.

Skömmu síðar kom faðir hans inn í dagstofuna. Setti hann reyrstafinn sinn í hornið, hengdi hattinn á snagann, settist niður á legubekkinn og þerði svitann af enni sér. Söngstjórinn var tígulegur maður, fyrirmyndar eiginmaður, bezti faðir og gerði alt, sem hann gat fyrir börnin sín. Hann var alvörugefinn, en þó blíðlegur útlits, vegna mannúðar þeirrar, er skein út úr augum hans. Nú sat hann hugsandi með hönd undir kinn Alt í einu heyrði hann siskenu kvaka í næsta herbergi. Nanetta lagði pennann frá sér, þar sem hún sat og var að skrifa, og roðnaði út undir eyru. Faðir hennar tók ekki strax að ráði eftir söngnum en þegar fuglakvakið hélt áfram, reis hann upp í sæti sínu og fór að hlusta á með athygli. Eftir dálitla stund spurði hann dóttur sína:

„Segðu mér, hvernig stendur á því, að þessi siskena er komin hingað. Hefir henni mömmu þinni verið gefin hún?“

Litla stúlkan þorði ekki að líta upp og gat ekki sagt eitt einasta orð, en hún gat ekki að sér gert þó hún brosti, því hún vissi mjög vel hvernig siskenan var komin inn í herbergið. Fuglinn hélt áfram að syngja hærra og hærra, og þegar telpan svaraði ekki föður sínum mælti hann:

„Hér er leikið svo mikið á hljóðfæri, að fuglinn sá arna getur líka fengið að láta heyra til sín, og við verðum að sjá um, að honum geti liðið vel, svo hann sé ávalt í góðu skapi.“

Hann settist aftur niður og hlustaði nú mjög vel á fuglskvakið.

„Þetta er reglulega iðinn söngfugl, sem reynir að vinna fyrir sér. Eg verð þó að bjóða þennan litla gest velkominn.“

Söngstjórinn stóð upp og gekk hægt og alvarlega inn í herbergið. Nanetta spratt þegar á fætur, kastaði pennanum á borðið, svo blekið skvettist út yfir nótnapappírinn, og hljóp svo brosandi á eftir föður sínum. Opnaði hann hurðina upp á gátt, en stóð svo alt í einu grafkyr í sömu sporum, en ekki leið á löngu áður hann skellihló og mælti:

„Nei, sko litla leikarann. Elsku drengurinn minn hann Wolfgang litli er orðinn að siskenu.“

Drengurinnn sat kyr og bróðugur upp á borðinu og hélt áfram að kvaka án þess að láta trufla sig.

„Nanetta,“ mælti faðir hennar. „Hlauptu út og flýttu þér og segðu henni mömmu þinni, að eg ætli að sýna henni siskenu.“

„Eg skal sækja hana mömmu óðara, en þú verður að standa kyr pabbi og hlusta á.“

Wolfgang litli hafði hætt að kvaka í svip, en tók nú til á ný. Faðir hans stoð þar hjá alvarlegur og hugsandi, og hlustaði á fuglakvakið, sem var hermt svo náttúrlega, með hinu sama hljóðfalli og sömu tónhæð, að hægt var að blekkjast af því.

Kona söngstjórans varð ekki síður glöð er hún heyrði þennan fagra fuglssöng, en rétt á eftir hætti litli listamaðurinn og sagði:

„Mamma mín góð! Nú vill fuglinn fá að éta, og þú verður að hafa eitthvað ósköp gott til að fóðra hann með.“

Hann fékk stóran kökubita. Var þá gamanið á enda og alvara lífsins byrjaði á ný.

Þegar gengið var út úr herberginu klapp-

aði faðirinn á kollinn á drengnum sínum og mælti:

Wolfgang litli, þú hefir næmt söng eyra, og það getur verið, að þú verðir duglegur sönglistarmaður með tímanum."

Drengurinn bað þá um, að hann mætti strax byrja að læra að leika á klaverið hennar systur sinnar, en faðir hans svaraði:

„Þú ert enn þá langtum of lítill, og fingur þínir eru of stuttir, þú verður að bíða dálítið enn þá, og flýta þér að vaxa og verða stór".

Þetta svar fór með alla gleði litla drengsins; augu hans fyltust tárum, því hann hafði ekki svo mikla ánægju af neinu sem hljóðfæraslætti.

En bráðum gleymdi hann sorgum sínum, er hann fékk leyfi til að standa við klaverið meðan faðir hans kendi systur hans. Drengurinn hlustaði á með mjög nákvæmri eftirtekt og mælti ekki orð frá vörum.

Þegar kenslutiminn var á enda og faðir hans og Nanetta voru gengin út settist Wolfgang litli niður við klaverið. Hann reyndi og reyndi hvað eftit annað unz hann náði tónunum rétt saman, og hætti ekki fyr en hann heyrði, að það hljómaði rétt, og þegar það var fengið tók hann til við aðra hendingu. Þegar klukkustund var liðin var hann búinn með alt lagið, sem Nanetta hafði seinast verið að æfa, og hann fór nú að leika það í samhengi; oft sló hann rangt, en svo endustók hann það, unz hann kunni að gera það á réttan hátt.

Þá var hurðinni hrundið upp og faðir hans kom inn. Hann brosti glaðlega þegar hann sá barnið sitt við klaverið og kallaði hlæjandi til hans: „Þig langar líka mikið að læra á hljóðfæri Wolfang litli!"

„Pabbi, þú mátt hreint ekki hlæja að mér", mælti drengurinn með ákafa, „eg kann orðið alt lagið, sem hún Nanetta systir mín er að æfa sig á".

„Svo? mér þætti gaman að vita, hver hefir kent þér það".

„Eg hefi kent mér það sjálfur. Eg tók eftir því, hvernig hún Nanetta fór að, og svo hefi eg sett það saman sjálfur".

Föður hans þótti gaman að hinni hátíðlegu alvöru þessa litla sonar síns, og var fús á, að hlusta á hljóðfæraslátt hans.

„Taktu nú eftir pabbi, nú fer ég að byrja lagið", mælti Wolfang litli, djarfur og hugrakkur af gletninni í málrómi föður síns.

Söngstjórinn hlakkaði ekki mikið til að heyra hljóðfæraslátt þann, er hann átti í vændum, því hann hafði mjög næmt söngeyra, og hann hafði kvöl af því, að heyra lögunum misþirmt, en hann var elskulegri faðir barnsins síns en svo, að hann vildi spilla gleði Wolfgangs litla. Mælti hann því, og stundi dálítið víð um leið:

„Nú jæja, byrjaðu þá í herrans nafni; láttu mig heyra!" Hann hugsaði með sér, að yrði það mjög slæmt, gæti hann altaf látið hann hætta.

„En þú mátt ekki hlæja að mér pabbi, því þá hætti eg undir eins", mælti litli drengurinn, og gaut augunum hálf-smeikur á föður sinn.

„Nei, eg ætla að eins að hugsa um eitthvað leiðinlegt á meðan og þá get eg verið alvarlegur", mælti faðir hans i háði. „Byrjaðu nú!" .

Wolfang litli byrjaði. Þegur hann var búinn með dálítið, sló faðir hans saman höndunum af undrun og aðdáun, því næst spenti hann greipar, svo sem hann væri að biðjast fyrir, og þegar lagið var á enda rétt og lýta laust, fyltust augu hans tárum, en það voru gleðitár, því hann hafði aldrei hlustað á nokkurt lag með svo helgri lotningu sem nú á hljóðfærasláttt barnsins.

Sólin var rétt komin að því að renna, og himininn var glóðrauður niður við sjóndeildarhringinn, en langir skuggar fellu inn í herbergið, þagar barnið lauk loks við hljóðfærasláttinn og horfði spyrjandi augum á föður sinn.

„Wolfgang, elskulegi litli Wolfgang minn!„ mælti faðir hans mjög hrærður í huga, og um leið tók hann son sinn upp og þrýsti honum grátandi að brjósti sér.

Hrærður í huga hóf hann augu sín til himins og mælti: „Guð minn góðnr eg þakka þér fyrir þessa gjöf þína og eg skal gæta hennar eins og hún væri helgidómur!“

„Nú lofarðu mér víst að læra að leika á klaverið“, mælti drengurinn í öruggum bænarrómi.

„Já, þegar snildargáfan kemur jafn skært og fagurt í ljós væri synd að hefta hana. Frá því í fyrramálið fer eg að kenna þér“.

Wolfang litli kysti og klappaði föður sínum. því nú hafði hann fengið sína innilegustu ósk uppfylta. Því næst hljóp hann aftur úr fanginu á honum, og að klaverinu og tók að æfa sig á ný. Gleðiblæ sló á andlit hans og hann var glaðari og ánægðari, en nokkru sinni áður. En faðirinn stóð kyr og starði á skara gullroðna kvöldhiminninn, jafnframt og hann þakkaði guði af hrærðu hjarta náðargjöf hans.

Úr „Börnenes Bog“.

---

Wolfgang Amadeus Mozart var fæddur 27. jan. 1755. Sex ára gamall tók hann að semja sönglög, um það leyti fór faðir hans með hann og Nanetta Marianne systur hans út í heiminn og léku þau á hljóðfæri fyrir fé. Átta ára gamall lék Mozart á orgel fyrir Frakkakonung og allri hirð hans, og um sama leyti voru prentuð fyrstu lögin eftir hann. Þegar hann var á níunda árinu var faðir hans með þau systkyni á ferð um Holland. Lögðust þau þar í bólunni. Lá Mozart litli lengi en samdi þó sex lög meðan hann lá. Þrettán ára gamall var hann gerður að söngstjóra í Salzburg. Sama árið fór hann til Ítalíu, samdi hann þar söngleik einn, er þótti svo mikið varið í, að hann var leikinn 20 kvöld í röð á leikhúsi í borginni Milano. Rigndi þegar yfir hann titlum og heiðursmerklum og þó var hann þá tæplega kominn á fermingaraldur. Skömmu síðar fluttist hann til Vínarborgar, höfuðborgarinnar í keisaradæminu Austurriki. Hann dó þar 5. þes. 1791 að eins 36 ára gamall, en svo miklu hafði hann afkastað, að 600 lög stærri og smærri liggja eftir hann og er sagt að það að vöxtum og gæðum sé svo mikið, að tíu tónaskáld gætu verið ánægð með að skifta því á milli sín, er hann hefir unnið. Lög eftir hann eru meðal annars við þessi íslenzku kvæði: „Í hafið fölleit sólin sígur“. og „Um morgun æfi minnar“.

# Hygni hundsins.

Reynslan sýnir oft, að dýrin hugsa af eigin hvöt og án þess menn leiðbeini þeim. Einu sinni voru tveir menn á gangi og fylgdi þeim stór hundur. Báru þeir með sér nótnahefti. Hundurinn var vanur að bera bögla, og varð það úr, að hann fekk að bera nóturnar og var hann ekki lítið hróðugur yfir því og hljóp á undan mönnunum heimleiðis. En á leiðinni var á; var hún brúuð, en brúin var lokuð með hárri grindahurð. Komst hundurinn ekki milli rimanna, enda var hann vanur að synda yfir ána. Skömmu áður en mennirnir komust að ánni datt þeim í hug, að hundurinn mundi synda með nóturnar yfir ána, og við það mundu þær blotna svo ómögulegt væri að nota þær. Tóku þeir því á rás til þess að reyna að ná hundinum áður en hann færi út í ána ef mögulegt væri. En er þeir komu að ánni brá þeim ekki lítið í brún, er þeir sáu hundinn vera að koma af sundinu upp úr ánni hinum megin, án þess að halda á nótunum í munninum. En er hann var kominn upp á bakkann, gekk hann að hliðinu og tók þar nóturnar. Hafði hann stungið þeim á milli rimanna á hurðinni, þegar hann fann að hurðin var læst, svo hann gæti náð þar aftur í þær þurar, en því næst synt sjálfur yfir um ána.

(Frem).



### Stálpennar

eru fundnir upp árið 1803 af ensknm manni Wise að nafni, (les, Wæs). Áður voru notaðir fjaðrapennar, og voru því þessir fjaðrapennar eins í laginu **eða stálpípa** með hvössum klofnum snáp. **En** penna þessum fylgdi hulstur úr beini **til** að smeygja upp á oddinn á pennanum, **og** mátti því bera hann í vasanum.

## Sjósótt hjá dýrum

kemur fram á mjög ýmsan hátt. Öll dýr verða stiltari á sjónum undantekningarlaust, og jafnvel þau viltustu og grimmustu sýna á sér lasleikamerki. Apar þjást mjög af sjósótt; söngfuglar verða einnig svo veikir, að þeir syngja aldrei á sjó. Hæns og gæsir megrast fljótt. Hanarnir hætta að gala, og svo er sagt, að dúfurnar deyji. Aftur á móti sér ekkert á öndum, og þær eru jafn gráðugar og fjörugar, og vant er. Kettir og hundar verða mjög órólegir. Kettirnir eru hræddir og haldast við í einhverju skúmaskoti, en hundarnir fylgja mönnum, eru mjög órólegir að sjá og missa algerlega alla matarlyst. Viltir hestar og mannýg naut verða þæg og eftirlát við þann, sem gætir þeirra. Það eru að eins svín og slöngur, er sjórinn sýnist ekki að hafa nein áhrif á.

**Kaupendur** „Æskunnar", þeir, er enn eiga óborgaðan IV. árgang, eru vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni sem fyrst.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21, annast sendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 20. FEBR. 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson | 10.—11.

## Dásemdarverkin.

Naumast er nokkur sá maður til, að hann verði ekki snortinn af einhverri einkennilegri tilfinningu, þegar hann fer úr glaumi mannlífsins og kemur út í náttúr-



*Snævi þakin skógartré.*

una, og er einn einhverstaðar undir berum himni, svo langt frá öllum öðrum, að hann heyrir engan glaum eða skarkala og ekkert annað en æðaslög náttúrunnar. — Þið munið víst eftir morgnunum á vorin, þegar sólin er nýkomin upp, fuglarnir komnir á kreik og kvak þeirra heyrist alt um kring, en blómin eru að byrja að opna knappa sína. Þið munið líka auðvitað eftir hitanum um hádegisbilið á sumrin, þegar alt loftið sýnist vera á iði, tíbráin dansar út við sjóndeildarhringinn og alla hluti hyllir svo upp í fjarska, að jafnvel smáþúfur sýnast orðnar að heilum byggingum. — En fegurð vetrarins er engu síður tíguleg, þegar öll jörðin er eins og hvítvoðungur, snævi þakin milli fjalls og fjöru. Þegar fannhvít fjöllin bera við bláheiðan himininn, fannskaflarnir hanga fram af hverri brún, ár og vötn eru lögð glæum og spegilsléttum ísi, hver einasta skógarhrísla er sívafin í snjó, og jafnvel hvert einasta gras-strá. En þó jafnast ekkert við alstirndan himininn, þar sem stjörnurnar blika á dökkblárri festingunni þúsundum saman, sumar stærri og bjartari, aðrar smærri og daufari. En bak við þær ljóma vetrarbrautin með slíkum ara-grúa smástjarna, að ekkert mannlegt auga getur aðgreint þær hverja frá annari nema í góðum sjónaukum. — Þar er almættisverkið í allri sinni dýrð, þar er hátign skaparans rituð skýrustum stöfum í náttúrunni, eins og skáldið segir:

> Festingin víða, hrein og há,
> og himinbjörtu skýin blá
> og logandi hvelfing ljósum skírð!
> þið lofið skaparans miklu dýrð;

og þrautgóða sól! er dag frá degi
drottins talar um máttarvegi,
ávalt birtir þú öll um lönd
almættisverk úr styrkri hönd.

Kvöldadimman er kefur storð,
kveða fer máni furðanleg orð
um fæðingar atburð, heldur hljótt,
hlustandi jarðar á þögulli nótt,
og allar stjörnur, er uppi loga
alskipaðan um himinboga,
dýrðleg sannindi herma hátt
um himinskauta veldið blátt.

Og þótt um helga þagnarleið
þreyti vor jörð hið dimma skeið
og öngva rödd og ekkert hljóð
uppheimaljósin sendi þjóð,
skynsemi vorrar eyrum undir
allar hljómar um næturstundir
lofsöngur þeirra, ljómin hreinn;
„Lifandi drottinn skóp oss einn!“
[Þýtt hefir Jónas Hallgrímsson].

# Flaskan óseðjandi.

Dálítill, fátækur drengur sat og var að gægjast ofan í flösku, jafnframt og hann muldraði við sjálfan sig: „Skyldu nokkrir skór vera í henni?“

Mamma hans hafði bætt fötin hans, en sagt, að hún gæti ekki gert neitt við skóna framar; hann yrði að ganga berfættur. Og þarna sat hann með flöskuna milli handanna, en loks tók hann stein, og braut flöskuna með honum; en ekkert var að finna í flöskunni. Varð drengurinn þá hræddur við afleiðingarnar, því þetta hafði verið flaskan hans föður hans. Hann grúfði sig niður að jörðu, og grét hástöfum, svo hann heyrði ekki fótatak, er færðist nær honum, unz kallað var til hans:

„Hvað gengur á?“

Drengurinn leit upp — þetta var hann faðir hans.

„Hver hefir brotin flöskuna mína?“ spurði hann.

„Það hefi eg gert,“ stamaði drengurinn út úr sér og ætlaði naumast að koma upp orði fyrir ekka.

„Vegna hvers gerðir þú það?

Drengurinn leit upp. Rödd föður hans hafði alt annan blæ, en hann hafði búist við. Kom það af því, að faðir hans hafði hrærst í huga við að sjá litla drenginn sinn óhuggandi og auman útlits yfir flöskubrotunum?

„Eg ætlaði að gá að því, hvort ekki væru nýir skór í flöskunni, — eg hefi enga skó að setja upp á fæturna, — en allir hinir hafa nýja skó.“

„Hvernig fór þér að detta í hug, að það væru skór í flöskunni?“

„Hún mamma sagði mér það, — eg bað hana um nýja skó, en hún sagði, að þeir hefðu farið í svörtu flöskuna með ýmsu öðru — kjólum, höttum, brauði og kjöti. — Og eg hélt pabbi, að eg fengi eitthvað af því, ef eg bryti flöskuna. Eg skal aldrei gera það framar.“

„Eg trúi því, að þú gerir það ekki framar,“ mælti faðir hans og lagði hönd sína á litla hrokna glókollinn á drengnum sínum. Að svo búnu gekk faðir hans inn, en drengurinn var öldungis forviða yfir því, að hann hefði ekki orðið reiður við sig. —

Tveim dögum síðar rétti faðirinn drengnum böggul og sagði honum að opna hann.

„Nei, nýir skór! nýir skór!“ kallaði drengurinn upp yfir sig. „Hefurðu fengið nýja flösku, pabbi? Voru þeir í henni?“

Nei, drengur minn! Það verður ekkert úr því, að eg fái mér nýja flösku framar. Hún mamma þín hafði rétt fyrir sér, — það fór alt í flöskuna, en það var enginn hægðarleikur, að ná upp úr henni aftur. Vegna þess ætla eg að hætta því með guðs hjálp, að leggja framar í hana nokkurn hlut.“

*(Ungdomstidende.)*

## Skipbrot milli Ameríku og Ástralíu.

—:o:—

Maður nokkur, sem ferðaðist milli Ameríku og Ástralíu, segir þannig frá ferð sinni: Það var árið 1862.

Við vorum 90 saman, sem tókum oss far með hollenzku barkskipi, sem átti að flytja oss frá San Francisko í Kaliforniu á vesturströnd Ameríku og til borgarinnar Melbourne á suðurströnd Ástrallandsins. Kostaði farið 90 dollara eða 337 kr. fyrir hvern mann. Meðal farþegjanna voru tvær konur.

Nú var lagt af stað vestur yfir Kyrrahafið og stefnt beina leið. Veðrið var gott, og byrinn hinn æskilegasti, svo oss skilaði drjúgum áfram með degi hverjum.

Farþegjarnir voru hér um bil af öllum þjóðum. Höfðum vér auðvitað ekkert að starfa og reyndum því að eyða tímanum með alls konar leikum, sem voru æði mismunandi og ólíkur hver öðrum.

Þessu hélt áfram, unz vér komumst til Navigator- eða Sæfara- eyjanna, sem eru á leiðinni, einn af þeim mörgu eyja-klösum, sem eru víðsvegar í suður og vesturhluta Kyrrahafsins. Köstuðum vér þar akkerum til þess að byrgja oss upp með vatn. Höfðum vér allir æði mikla þörf a því, því þrátt fyrir sólarhitann var oss mældur nauðalítill skamtur af vatni á degi hverjum.

Jafnskjótt og eyjaskeggjar urðu varir við oss, komu þeir til vor hópum saman. Voru þeir svartir á hörund og hálfberir. Komu sumir þeirra róandi í Kanóum sínum, það eru eintrjánings bátar, sem eru búnir til úr einum tréstofni, sem er holaður innan, líkt og börn búa sér skip úr spýtum eða gulrófum. Aðrir syntu með bátum þessum. Safnaðist allur þessi hópur í kringum skip vort, og tóku að fara upp i það, unz þeir voru komnir svo margir upp, að bannað var að fleiri fengi aðgöngu.

Nú byrjaði verzlunin millum vor og eyjaskeggja. Komu þeir með ýmsar ávaxtategundir, rætur og alifugla, og vildu þeir selja þessar vörur sínar fyrir vefnaðarvöru og smíðatól. Var það auðséð á verðinu á báðar hliðar, að vér höfðum allmikinn hag af viðskiftunum. En samt sem áður voru þeir mjög ánægðir yfir verzlun sinni. Væri þeim aftur á móti boðnir peningar fyrir vöru sína, vildu þeir ekkert eiga við oss, því þeir gátu alls ekki notað peninga, og höfðu þeir því ekkert gildi hjá þeim, og þeir kærðu sig alls ekki um þá.

Eyjaskeggjar voru friðsamir og vingjarnlegir í viðmóti. Höfðu frakkneskir trúboðar ferðast meðal þeirra, og höfðu allir íbúar eyjanna tekið kristna trú. Tveimur

af samferðamönnum vorum leizt svo vel á eyjar þessar, að þeir tóku sér þar bólfestu.

Þegar er vér höfðum byrgt oss að vatni, undum vér upp segl að nýju og sigldum í suðvestur milli eyjanna með þægilegum byr og seglin strengd efst á hverri einustu rá.

Fjórum dögum síðar þegar kvöld var komið, kom á oss rigningarsvækja og tók nokkuð að hvessa, en vér lægðum þó ekki seglin, því eftir mælingunum að dæma áttum vér að vera úti í rúmsjó, þar sem engra skerja væri von.

Þegar komið var yfir miðnætti, urðum vér þess þó varir, að hér mundi þó enganveginn vera skerjalaust. Vorum vér komnir í fasta svefn en vöknuðum alt í einu við það, að skipið hjó niðri, en sjóirnir báru það þó af skerinu lengra áleiðis. Hlupum vér þegar allir á fætur og þutum upp á þilfarið og störðum út í nátt-myrkrið og þokuna, áhyggjufullir yfir því, hvað taka mundi við.

Vér vorum þó ekki lengi í neinni óvissu, því nú hjó skipið niðri hvað eftir annað, unz það hreyfðist ekki úr stað, en brotsjóirnir skullu yfir afturstafninn, og vér óttuðumst, að það mundi mölbrotna, og reka upp á rif, sem var rétt fram undan því. Til allrar hamingju varð þó ekkert af því.

Nú var ekki lengur umhugsunartími, því það sem mögulegt var að gera, varð að gerast sem fyrst. Allir á skipinu voru þegar önnum kafnir. Fyrst og fremst voru siglutrén höggvin sundur og þeim varpað útbyrðis. Þegar því var lokið, voru bátarnir settir á flot, en allur sá forði og fatnaður tekinn upp úr skipinu, sem nauðsyn var að hafa með. Var þetta alt flutt upp á rifið, en það var svo hátt að vér gátum komist þar allir á óhultan stað fyrir sjávarganginum, enda þótt þá væri um háflóð.

Í myrkrinu gátum vér eygt lága, skógivaxna eyju hinum megin við rifið, en grunnur og sléttur sjór sýndist að vera milli rifsins og eyjarinnar.

Þegar vér vorum búnir að átta oss á öllu, tókum vér að draga bátana yfir rifið til þess að koma farangrinum í land á eyjunni, og í sólarupprás morguninn eftir, vorum vér komnir með heilu og höldnu í land á eynni, ásamt matvælunum, fötum vorum og öðru því, er bjargað var úr skipinu.

Eyjan var lág með að eins fáum og lágum klettahnausum á einstaka stað, og var hún öll þakin kókospálmum með smákjarri á milli, en ekki nema rúmlega fjórðungur mílu á hvern veg að stærð; um fjöru leit hún út fyrir að vera töluvert stærri, því mikið útfiri var út frá henni á alla vegu.

Þegar vér höfðum litast um á eynni, hvílt oss eftir áreynsluna um nóttina, og athugað ástand vort, sáum vér brátt, að dvöl vor á ey þessari gat orðið æði löng. Var því nauðsynlegt, að finna svo hagkvæm ráð, sem auðið varð, svo vér gætum lifað þolanlegu lífi.

Fyrst og fremst varð að finna efni í bústaði handa oss öllum. Timbur þetta urðum vér að fá úr skipinu. Höfðum vér með oss næg smíðatól og marga hagleiksmenn, og leið því ekki á löngu áður búið var að reisa allgott hús, sem allir áttu að búa sameiginlega í. Þær tvær konur, sem áður eru nefndar fengu þó sérstök herbergi ásamt eiginmönnum sínum. — Húsið var bygt

úr plönkum, og segl breitt yfir þakið til þess að verja það enn betur fyrir rigningu. Enn fremur var bygt vistabúr, smiðja og timbursmíðahús.

En meðan vér vorum að bjástra við þetta, vorum vér þó fremst af öllu að hugsa um, að aðrir út í frá fengi að vita hvað af oss væri orðið, svo oss yrði bjargað úr þessum stað.

Var því smíðað þilfar í aðalbjörgunarbátinn, og hann tilbúinn að öllu, og þremur eða fjórum dögum síðar var hægt að leggja af stað á honum.

Skipstjórinn og tveir menn aðrir voru valdir til fararinnar.

Báturinn átti að reyna að hitta eitthvert skip, sem sigldi þar um, enda var það hin einasta hjálp, sem hægt var að vænta sér á þessum stöðvum.

Vér gátum reyndar eygt aðra ey, lengst úti við sjóndeildarhringinn; en það gat verið hættuspil, að ætla sér þangað, og komast í kynni við eyjarbúa, eða íbúana á öðrum eyjum, er verið gátu þar í grendinni, því íbúar Suðurhafseyjanna höfðu þá slæmt orð á sér fyrir að vera mannætur.

Öllum hinum, sem eftir urðu, var skift í smáhópa, sex mönnum í hvern hóp.

Nákvæm umsjón var höfð með vistaforða þeim, er bjargað hafði verið úr skipinu: hver maður fékk eina brauðköku á dag og fáeina dropa af vatni. Að öðru leyti urðum vér að sjá um oss sjálfir.

Aftur á móti fengu þeir menn tvöfaldan skamt, sem voru að byggja skip það, sem vér ætluðum að þrífa til oss til björgunar, þegar öll önnur sund væru lokuð. Jafnframt og stóri björgunarbáturinn var tilbúinn, var lagður kjölur í eins konar skip, sem reyndar væri réttara að kalla fleka. Á því áttum vér að komast eitthvað í burt, þangað sem verkast vildi.

Timinn leið óðum; einn dagurinn var á enda og annar byrjaði án þess, að nokkuð markvert bæri fyrir oss.

Vér höfðum nægan tíma fyrir oss að skoða eyna nákvæmlega; hún var forðabúr vort, og þótt hún hefði fátt að bjóða, var það notað, sem nýtilegt var.

Örðugast var að fá vatn. Sá veit í rauninni ekki hve dýrmætt hreint drykkjarvatn er, sem hefir ekki alvarlega verið án þess.

Ekki leið á löngu áður búið var að lesa alla ávextina af kókospálmunum. Ávextir þessir slöktu að sönnu hungrið, en juku aftur á móti þorstann, því jarðvegurinn var svo saltur, sem þeir uxu i, að það var jafnvel seltubragð að þeim.

Tjörn var á miðri eynni, en vatnið í henni var því miður ekki hæfara til drykkjar, en sjálfur sjórinn.

Þegar vér vorum að reika um eyna, komum vér að stað, þar sem fundust menjar eftir, að aðrir menn hefðu dvalið, — fundum vér þar tjaldsúlur, eldstó og matleifar. Auðvitað gátum vér ekki haft nein not af því. Það var að eins vottur þess, að eyjan hafði fundist áður og menn höfðu dvalið þar, en jafnframt, að hún var ekki hæf til að dvelja þar til lengdar, svo sem oss hafði orðið raunin á.

Vér fundum grúa af kröbbum í fjörunni, þegar lágsjávað var, og veiddum vér þá drjúgum. Einnig fundum vér krabba á landi, sem vér veiddum eftir föngum. Voru sumir þeirra klifur-krabbar, er vér urðum að klifra eftir upp í trén.

Lón voru sumstaðar í fjörunni, og fund-

um vér öðru hvoru mjög magra fiska í þeim, og var fiskum þessum þegar sálgað. Aftur á móti höfðum vér stöðugt skelfisk og kufunga á borðum. Hver flokkur aflaði út af fyrir sig, en matreiddi og borðaði svo í sameiningu það sem fengist hafði.

Einn dag kom eg auga á stóran krabba sem gægðist út undan stórum steini. Var steinninn svo hár, að eg sá mér ekki fært að ná honum ofan að. Eina ráðið var að grípa hann með því að fara beint á móti honum; en það gat verið viðsjárvert, og eg gat átt á hættu, að hann skaðrifi mig með klónum, því eg varð að teygja höndina langt inn til þess að ná í hann.

Á hinn bóginn var slæmt að missa hann vegna þess hve mikill fengur var í honum.

Eg varð því að hætta á, að ná krabbanum, hvernig sem það færi. Eg hljóp út í lónið fram fyrir steininn og teygði hendurnar inn undir hann, unz eg náði í krabbann. En hann var æði fastur undir steininum og varð eg að toga í hann af öllu afli. Alt í einu slepti hann tökum, og eg stóð þar sigri hrósandi — með eftri hluta krabbans. „Nú er víst ekki mikil hætta á því, að hann rífi mig,“ hugsaði eg, og tók að reyna að ná hinum hluta hans, sem hepnaðist brátt. En þá kom í ljós, að ótti minn fyrir krabbanum hafði verið ástæðulaus, því hann hafði alls enga griparma.

Þegar eg kom til félaga minna með veiðina, olli hún bæði aðdáun og öfund. En eg og félagar mínir fengu sér góðan miðdegisverð.

Einn dag sem oftar vorum vér úti á rifinu að krabbaveiðum, og ætlaði eg að klifra yfir klettabelti eitt. Eg náði handfesti í klettana, en þá varð eg var við að æði stór, gul- og svart-flekkótt slanga gægðist út úr klettaskoru rétt þar, sem eg hafði tekið í klettinn með annari hendinni. Þið getið getið því nærri, að eg slepti tökum hið bráðasta og hafði mig á burt sem fyrst.

Hér um bil viku eftir að bátur vor hafði lagt af stað, urðum vér varir við seglskip, sem stefndi til eyjarinnar, og töldum vér þegar víst, að það kæmi oss til hjálpar. Það reyndist líka eins og vér höfðum ímyndað oss. Skipið kastaði akkerum hinum megin eyjarinnar, og að lítilli stundu liðinni komu sendimenn vorir ásamt nokkrum mönnum af skipshöfninni til að flytja oss út á skipið.

Þið getið getið því nærri, að nú kom heldur skrið á oss. Iðnaðarmenn vorir köstuðu frá sér tólum sínum og enginn hugsaði um annað, en að komast burt svo fljótt sem mögulegt væri. Nú var ekki verið að spara matinn og máttu allir fá svo mikið, sem þá langaði í. En vér tókum að eins með oss nokkrar brauðkökur hver, og skunduðum burt og skildum eftir flekabátinn, sem nú var næstum fullgjör, matvæli og annað, því nú fanst oss vér ekki þurfa þessa framar við.

Skip það var hvalaveiðaskip, er kom oss til bjargar. Höfðu sendimenn vorir hitt það, hér um bil viku eftir að þeir fóru að heiman.

Skipstjórinn hafði þegar verið fús á að bjarga oss. Hafði skipið svo beitt í 3 vikur móti straumi og vindi til þess að komast undir eyna.

Bátur vor hafði átt slæma útivist, áður hann hitti hvalaveiðaskipið. Fyrstu þrjá sólarhringana hafði hann átt að berjast við

ofsa-rok, og var þá nærri úti um hann. En svo lægði veðrið nokkuð, unz skipið kom í ljós.

Skipstjórinn á hvalaveiðaskipinu krafðist hárra launa fyrir að flytja oss til Auckland á Nýja-Sjálandi og flytja oss þar í land, og gekk skipstjóri vor að því.

Þaðan fengu flestir sér far með öðru skipi til Melbourne í Ástralíu, sem vér höfðum upprunalega ætlað til, eins og áður er sagt.

Vér komumst heilir á húfi til Ástralíu, en þar hófust ný æfintýri meðal gullnemanna, sem voru komnir þangað víðsvegar úr heimi. (Ungdoms tidende).

## Þjónn dauðans.

—

„Eg er svöng“, sagði gröfin, „gef mér mat“.

Og dauðinn svaraði: „Eg skal senda af stað bezta þjóninn minn. Hann mun gera þig ánægða“.

„Hvað heitir sá þjónn?“

„Hann heitir „Áfengi“. Hann skal ganga um kring meðal mannanna sem næring, meðul, ánægja og gestrisni. Mennirnir skulu drekka og deyja“.

Og gröfin svaraði: „Eg er ánægð“.

Þá tóku kirkjuklukkurnar að hringja, og líkfylgdirnar söfnuðust saman í kirkjugörðunum.

„Hvern koma þeir nú með?“ sagði gröfin.

Dauðinn svaraði: „Það er heil fjölskylda. Faðirinn var drukkinn og sló konuna sína. Hann myrti móðurina og börnin, og svo fyrirfór hann sjálfum sér á eftir“.

Og hver kemur svo, með hóp af grátandi börnum á eftir sér?“ spurði gröfin.

„Það er kona, sem lifði við bágindi og þrautir og dó úr sorg, af því að maðurinn hennar eyddi eigum sínum og launum á drykkjukránni. Og hann kemur rétt á eftir, drepinn í slagsmáli“.

„Og svo?“

„Ungur maður, vel gefinn; hann sökk smátt og smátt dýpra og dýpra niður í spillinguna og eyddi öllu því, er hann átti. Þjónn minn rak hann út í vetrarkuldann, og svo varð hann úti“.

„Þey, þey,“ sagði gröfin; „nú heyri eg andvörp og kveinstafi, sem aldrei taka enda“.

„Já, það er ekkja, sem grætur einkasoninn sinn. Eg fékk hann til þess að einskisvirða ást hennar og hæðast að áminningum hennar, og þess vegna kemur hann nú til þín.

Og þannig koma þær, líkfylgdirnar, fleiri og fleiri, svo að seinast verða þær eigi tölum taldar. En mennirnir ganga vegu spillingarinnar; það eru afleiðingarnar af töfradrykknum, sem eg hefi blandað. Í blindni sinni halda þeir, að þeir geti snúið við; en eg loka öllum dyrum á eftir þeim. Þeir vita ekki af því, heldur flýta sér og hlaupa með söng og dans og kæti til þín, *til þín*, gröf! Svo bregð eg töfrasprota mínum yfir eftirkomendur þeirra, yfir unglingahópana, sem vaxa upp; og þeir munu einnig innan skamms koma til þín“.

## Að maklegleikum.

Það er æfinlega skaðlegt fyrir drengi að reykja. En tjónið er ekki alt af eins áþreifanlegt, eins og það var fyrir dreng þeim, sem hér er sagt frá.

Hann kom inn á járnbrautarstöð og bað um farmiða fyrir barn.

„Hvað þá?“ sagði farmiðasalinn. „Ert þú farinn að reykja, svona lítill?“

„Hver er það, sem þú kallar lítinn? Eg er 14 ára gamall“, svaraði pilturinn, og þótti gert litið úr sér.

„Nú, jæja; fyrst þú ert það, þá verðurðu að borga farmiðann sama verði eins og annað fullorðið fólk“, svaraði farmiðasalinn.

## Rauðu skórnir.

Einu sinni kom ungur stúdent inn í búð ruslasala eins í Parísarborg, sem er höfuðborgin á Frakklandi. „Hvað þóknast yður, herra minn?“ spurði ruslasalinn.

„Eg hefi dálítið af fötum, sem eg þarfnast ekki lengur“, svaraði ungi maðurinn snögglega, svo sem hann blygðaðist yfir erindi sínu. „Mér hefir verið sagt, að þér væruð áreiðanlegur maður. Ef þér vilduð gera svo vel að koma heim til mín, eða senda annan þangað....“ Ruslasalinn var svo stuttur í spuna, að stúdentinn komst í enn meiri vandræði út af því; en ruslasalanum var vel kunnugt um peningaþröng stúdentanna; keypti hann af þeim það, sem þeir vildu losna við, bækur, húsgögn eða föt, en sá jafnan um að hafa hag af viðskiftunum.

„Eigið þér heima langt í burtu héðan?“

„Nei, rétt hérna hjá“.

„Þá skal eg koma með yður“, mælti ruslasalinn. En rétt í því, að þeir ætluðu út úr dyrunum, tók stúdentinn alt í einu eftir litlum, rauðum skóm, öldungis eins í lagi og þeim, sem voru notaðir fyrir stjórnarbyltinguna, og sem kvennfólkið hefir nú byrjað á á ný, þótt það eigi á hættu að detta á þeim og fótbrotna.

„Hvaðan hafið þér fengið þá?“ spurði ungi maðurinn, og tók annan þeirra í hönd sér.

„Það get eg ómögulega munað“, svaraði ruslasalinn; „þeir heyra líklega til búnings einhverrar leikkonu; þeir eru miklu minni en svo, að þeir geti verið mátulegir nokkurri lifandi manneskju, þeir hljóta að hafa verið saumaðir handa örlítilli töfradís; þér skuluð fá þá fyrir gjafvirði, ef þér viljið kaupa þá“. [Framh.].

**Leiðrétting.** Í síðasta bl. „Æskunnar“ eru prentvillur nokkrar, sem kaupendurnir eru vinsaml. beðnir að lesa í málið; flestar eru þær á fyrstu bls. Þar stendur í 1. dálki, 4. l. a. o. *einn* fyrir *enn*, og í 2. d., 5. l. a. o. *1865* fyrir *1895*. Hinar aðrar prentvillur munu naumast raska meiningunni.

**Kaupendur** „Æskunnar“, þeir, er enn eiga óborgaðan IV. árgang, eru vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni sem fyrst.

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 17. MARZ 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 12.—13.



## Móðurbæn.

Ljóssins faðir! Leiddu hópinn minn,
Geym mín börn fyr' grandi' á alla vegu,
Gef þeim þína blessun föðurlegu,
Ljá þeim styrk, ef lokkar heimurinn.

Þú, sem telur tímans æðaslátt!
Þú sem reisir stráin eftir storminn,
Styrkir, leiðir blindan jarðar-orminn,
Veittu þessum vesalingum mátt.

Sé þér ljúft að lengja þeirra ár,
Lát þau hrein í heimsins freisting standa,
Helguð þínum föðurlega anda;
Hlífðu mér við höfug sorgar tár.

Fyrir því að sjái' eg þau í synd,
Ötuð spilling úti' á lasta vegi,
Alblind fyrir þinnar náðar degi,
Gleymdum hreinleik, glatað þinni mynd.

Það er vandi oft að hafa auð,
Auður verður alloft gæfu hylling;
Örbirgð leiðir marga' í freistni' og spilling.
Drottinn guð minn! Daglegt gef þeim brauð.

Alheim stýrir almáttk höndin þín,
Svo að má í settum skorðum standa
Sandkorn hvert af verkum þinna handa;
Eg er örugg eins fyr' börnin mín.

## Hugrakkur piltur.

Herforingi einn, sem var í þrælastríðinu í Norður-Ameríku (1861—64), segir svo frá:

Vér áttum mjög erfitt, urðum að byggja virki, vaka og berjast, og stöðugt áttum vér á hættu að verða fyrir kúlum og sprengikúlum óvinanna eða veikjast sakir ills aðbúnaðar og loftslags. En liðsmenn vorir voru þrekmiklir, hugaðir og áræðnir karlar; það var enginn skræfa meðal þeirra. Þessu til sönnunar ætla eg að segja dálitla sögu af einum, sem var í herdeildinni minni.

Hann var ekki fullra 15 ára gamall, hermaðurinn þessi, sem sagan er um, en

einn dag var hann borinn heim af varðstöðvunum mjög sár. Það kom brátt í ljós, að nauðsyn bar til að skera hann til að ná kúlunni út úr sárinu, og sáralæknirinn bauð honum staup af brennivíni til að styrkja sig.

Drengurinn færðist undan að drekka vínið.

Læknirinn mælti: „Hann hefir mist svo mikinn þrótt vegna blóðrásarinnar, að eg get ekki ábyrgst líf hans, ef hann vill ekki drekka þetta“.

„Frank, gerðu það fyrir mig að drekka úr staupinu“, mælti eg.

Hann svaraði: „Herra herforingi, eg vil feginn gera alt, sem þér biðjið mig um. En þetta get eg ekki“.

„Þú hefir aldrei verið mér óhlýðinn; vertu það nú ekki heldur núna“.

Þá leit hann á mig, og augu hans voru full af tárum af kvölunum, og svo sagði hann: „Herra herforingi! Þó þér segðuð mér að standa frammi fyrir fallbyssukjafti, mundi eg gera það, ef eg gæti. En þetta get eg ekki“.

Það fauk í mig, því mér þótti vænt um drenginn, eins og hann hefði verið bróðir minn. Eg brýndi raustina og sagði: „Hvers vegna viltu gera mér svo mikið á móti. Þú stofnar sjálfum þér í voða og þú hefir engan rétt til þess. Drekktu nú; þá gleðurðu móður þína“.

Hann titraði, og tárin, sem líkamlegu þjáningarnar höfðu þrýst fram í augu honum, en ekki lengra, þau runnu nú viðstöðulaust, er hann tók til máls: „Herra herforingi! Ástæðan til þess, að eg vil ekki drekka brennivín, er ástin til hennar móður minnar. Faðir minn dó af völdum ofdrykkjunnar, og móðir mín hefir sagt, að það geti komið fyrir mig að fara sömu leiðina. Eg hefi því lofað henni, að smakka aldrei þetta banvæna eitur, sem hefir gert hana ekkju og svift mig föðurnum. Þó það kosti mig lífið, ætla eg samt að halda loforð mitt“.

Eg hlustaði hljóður á hann, og eg virti hann svo mikils fyrir það, hve orðheldinn hann var.

Þú spyr, lesari minn góður, hvort hann hafi dáið. Nei, honum batnaði brátt og varð innan skamms alheill — þó hann drykki ekki brennivínið.

Síðan hefi eg enga trú haft á styrkjandi áhrifum áfengisins.

(Eftir *„Jung Siegfrid“*.)

# Móðurtrygð.

—:o:—

Í litlum húskofa, sem stóð við fjörð einn í Noregi suðvestanverðum, bjó ekkja nokkur. Þegar hún misti mann sinn, voru þeir tveir, sem hugguðu hana í sorginni; annar var frelsarinn Jesús Kristur, en hinn var Hinrik litli, sonur hennar.

Tímar liðu, og drengurinn hennar litli varð tápmikill og fjörugur unglingur. Nú vildi hann fara í siglingar. Allar bænir voru árangurslausar; hann vildi ferðast, vildi skoða sig um í heiminum, og svo varð móðirin ein eftir í litla húsinu.

Árin liðu óðfluga. Við og við fékk hún bréf, og við og við slæddust smá-blótsyrði inn í þessar fáu línur, sem Hinrik sendi móður sinni, og jók það eigi alllítið á harm hennar og kvíða. Og svo kom hann

heim, félaus, uppivöðslumikill og óstýrilátur. Margt hafði hann séð og heyrt, margt lært, en líka mörgu gleymt. Það voru erfiðir dagar fyrir móðurina; hún talaði við hann, en hann daufheyrðist við öllum fortölum hennar og svaraði ekki öðru en ónotum eða öðru enn verra. Og svo einn dag, þegar hún hafði alvarlega leitt honum fyrir sjónir þá lífsstefnu, er hann hafði tekið, þá yfirgaf hann hana að nýju, og sór þess dýran eið, að hann ætlaði aldrei framar að vitja foreldra húsa.

Nú var móðirin enn á ný ein eftir í húskofanum litla, og liðu þannig mörg ár. Dag og nótt hugsaði hún um hann með angist og kvíða; hugsanir hennar snerust allar um hann, því að hann var hið eina, sem hún átti hér á jörðu. Hárið tók nú að grána og hrukkur fóru að sjást í andliti hennar. Það voru þau merki, sem svefnlausar nætur, sorg og söknuður, grátur og bænir eftir skildu.

— — — — Allan þennan tíma var Hinrik í siglingum. Margar og erfiðar voru sjóferðirnar, sem hann fór; en alla þá peninga, sem hann innvann sér, notaði hann þegar hann kom á land til að drekkja með þeim heimþránni og endurminningunum. Hann hitti marga sjómenn af ýmsum þjóðum; en hann gætti þess vandlega að ráða sig aldrei á neitt skip, þar sem Norðmenn voru fyrir.

Eitt sinn réðst hann á skip í Lundúnum. Hét skipið „Wilkie Collins,“ og hafði það mist tvo menn og þurfti því að fá tvo nýja í staðinn.

„Eru nokkrir Norðmenn á skipinu?“ spurði hann skipstjórann.

„Nei.“

„Jæja, þá er eg til.“ Svo var gerður samningur um kaupið og Hinrik ráðinn á skipið.

Daginn eftir, þegar hann kom út á skipið, kom honum það mjög á óvart, er einn skipverja bauð hann velkominn á norsku, og meira að segja kannaðist hann strax við, að maður þessi talaði mállýzku þá, sem töluð er vestanfjalls í Noregi.

„Nei, ert þú kominn þarna, Hinrik? Vertu velkominn!“

Það var miðaldra, skeggjaður háseti, sem ávarpaði hann þannig í sama bili sem hann sté á skipsfjöl.

„Skipstjórinn sagði, að enginn Norðmaður væri á skipinu.“

„Nei, það var heldur ekki. En nú erum við tveir. Eg var ráðinn á eftir þér.“

„Einmitt það.“

Stýrimaðurinn kallaði á Hinrik, svo að samræðan varð ekki lengri. Hvað átti hann að gera? Það gat ekki komið til mála að strjúka. Hann varð að una við svo búið. Hann reyndi að forðast landa sinn um daginn, eftir því sem honum var mögulegt. En þegar kvölda tók, kom Norðmaðurinn aftur til hans.

„Hvernig líður henni mömmu þinni, Hinrik?“

„Eg veit ekki, hvaða rétt þú hefir til að spyrja um það; mér er ókunnugt um, hver þú ert,“ svaraði Hinrik þurlega.

„Fyrst þú hefir gleymt henni, þá er það ekki svo undarlegt, að þú hafir gleymt Oscar Alsing, skólabróður þínum.“

„Það getur vel verið; það er svo langt síðan.“

„Já, svo er það.“

Það varð lítið úr samtalinu, svo að

Oscar Alsing varð brátt að yfirgefa hann. Seinna um kvöldið sendi hann af stað bréf til föður síns, og innan í því var dálítill miði til móður Hinriks, og stóðu á honum þessi orð:

„Eg hitti Hinrik í dag og verð með honum á „Wilkie Collins.“ Að átta mánuðum liðnum komum við að öllu forfallalausu aftur til Lundúna. Eg skal gæta hans á leiðinni og reyna að fá hann með mér á sjómannahælið, þegar við komum aftur.

Yðar

Oscar Alsing.“

Átta mánuðum síðar, um kvöldtíma, voru tveir sjómenn á gangi í Well Street í Lundúnum, og voru þeir að tala saman um hitt og þetta.

„Rétt áðan varð gömul kona undir vagni hérna á götunni. Það var verið að flytja hana á L. . . sjúkrahús, þegar eg fór fram hjá. Það var það, sem tafði mig, Hinrik.“

„Já, já; það er nóg eftir af þeim.“

„Það máttu ekki segja, Hinrik; svo léttúðarfullur máttu ekki vera. Veslings gamla konan ætlaði að hlaupa yfir akbrautina — það leit út fyrir að hún væri að elta einhvern, — en svo kom vagninn; hún hrasaði og datt. og vagninum var ekið yfir hana. Það var sagt, að hún hefði verið voðalega illa útleikin.“

„Það er svo. Hvern svo sem ætli hún hafi verið að elta?“

„Þú ættir að skammast þín, Hinrik, fyrir það, hvað þú ert harðbrjósta við þá, sem bágt eiga.“

„Getur vel verið. En nú skal eg segja þér eitt, og það er það, að eg er orðinn leiður á að vera í þessu bænahúsi, sem þú fórst með mig í; þar er alt svo ófrjálslegt og leiðinlegt. Eg er frjáls maður, og vil ekki vera í neinu fangelsi. Nú veiztu það. Á morgun flyt eg mig burt úr sjómannahælinu og útvega mér gistingu annarstaðar, þar sem mér sjálfum líkar.“

Rétt í þessu kom að baki þeim maður, og gekk hratt; það var prestur. Sjómennirnir heilsuðu honum; hann tók kveðju þeirra og sagði síðan:

„Hvor ykkar er það, sem heitir Hinrik E. . ?“

„Það er eg,“ svaraði Hinrik.

„Viljið þér þá gera svo vel að koma með mér,“ mælti prestur alvarlega; „kona ein, sem er yður mjög nákomin, liggur fyrir dauðanum á L. . . spítala, og langar til að sjá yður, áður en hún deyr.“

„Eins og presturinn óskar. En þetta hlýtur að vera misskilningur; eg á ekki marga kunningja hér.“

„Það er þó satt, Hinrik.“

„Jæja þá.“

Ljós logaði á litlum lampa í herberginu, sem sjúklingurinn lá í, og varpaði daufri glætu á konuna, sem í rúminu lá. Hár hennar var hvítt sem snjór, andlitið fölt og magurleitt. Augun voru lokuð, en þó svaf hún ekki. Hönd hennar hreyfðist órólega, eins og hún væri að leita einhvers, en gæti eigi fundið það.

Hinrik staðnæmdist frammi við dyrnar. Presturinn gekk að rúminu, laut niður að konunni og hvíslaði einhverju að henni.

„Hvar? Hvar er hann? Hinrik, hvar ertu?“

Sjómaðurinn hrökk við.

„Mamma, mamma!“ stamaði hann.

„Já, barnið mitt. Komdu hingað, dreng-

urinn minn, komdu hingað! Ó, hvað eg er glöð, þegar eg er búin að finna þig. Eg er þreytt núna; hefi lengi verið þreytt, alt af síðan þú fórst frá mér. Eg vissi, að þú varst hér. En eg varð að skrifa mörg bréf, áður en eg fékk að vita það. Þú hefir ekki fengið þau, býst eg við? — Hinrik! Mér fanst að eg mætti til að sjá þig, áður en eg dæi; heima var alt svo autt og tómt. — Eg beið og beið eftir bréfi frá þér. Ekkert kom. Þú hefir þó víst sent þau af stað? Er ekki svo? Þú hefir þó víst ekki heldur gleymt mér?“

Sjómaðurinn kraup á kné fyrir framan rúmið og grét, eins og hjarta hans ætlaði að bresta. Móðirin lagði hönd sína á höfuð honum.

„Eg sá þig í mannþyrpingunni í dag,“ hélt hún áfram, „og hugsaðu þér, eg þekti þig aftur. Eg ætlaði að hlaupa yfir akbrautina, því eg gat ekki beðið; eg hefi beðið svo lengi. En svo hrasaði eg og datt. Þú hefir víst frétt það. Vagninn ók yfir mig, svo eg misti báða fæturna. En eg er þjáningarlaus núna. — Drottinn hefir víst álitið, að eg þyrfti nú ekki að hlaupa framar, þegar eg hefi fundið barnið mitt aftur.“

„Ó, mamma, mamma!“

„Já, barnið mitt. Veiztu, til hvers eg kom eiginlega hingað? Auðvitað meðfram til þess að sjá þig aftur, en einkanlega til að spyrja þig, hvort þú hefðir fundið frelsara þinn. — Já, barnið mitt, gráttu nú ekki; eg veit, að þú hefir fundið hann. — En gættu þess þá að týna honum ekki aftur. — Annan eins vin eignastu aldrei; og svo, þegar maður á að leggja af stað í síðustu og lengstu ferðina, þá verður að hafa hann með; annars gengur hún ekki vel. — Eg hefi talað við hann um þig, Hinrik. Eg hefi haft góðan tíma til þess; næturnar hafa verið svo langar. Guði sé lof, að þú hefir fundir hann.“

„Nei, mamma, nei! Eg þekki hann ekki,“ stamaði pilturinn. „Þú verður að biðja fyrir mér, og presturinn líka, því eg hefi aldrei hugsað neitt um hann.“

„Ó, barn, barn! Hefir þú gleymt honum? En þá hefir hann þó ekki gleymt þér, heldur fylgt þér stöðugt, alt til þessarar stundar. — Manstu, Hinrik, þegar faðir þinn dó? Þá lásum við á kvöldin um hann, sem leið og dó fyrir okkur, — og sem nú kallar á okkur frá himnum og býður okkur til sín.“

„Já; en eg var búinn að gleyma því, mamma.“

„Læknirinn segir, að eg eigi fjórar klukkustundir eftir ólifaðar. — Þú vilt þó víst ekki að eg fari héðan án þess að hafa von um að fá að sjá þig aftur þar uppi, þar sem Jesús býr í dýrð sinni.“

„Nei, það vil eg ekki. En þú mátt ekki deyja svo fljótt. Þú veizt ekki, hvað vondur eg er. Eg hefi aldrei meira þurft á hjálp þinni að halda en einmitt nú.“

„Nei, Hinrik, þú þarfnast ekki minnar hjálpar, því eg er sjálf hjálpar þurfi. En þú þarfnast hjálpar Jesú Krists, hans, sem hjálpar öllum þeim, sem biðja hann.“

Nú varð dálitla stund hlé á samræðunni. Sonurinn kraup grátandi við rúm móðurinnar.

„Barnið mitt! Dauðinn nálgast. Eg fæ innan stundar að koma heim. En á meðan eg bíð þess, vil eg biðja fyrir þér —

en Hinrik, Hinrik! Láttu mig ekki biðja árangurslaust!“

„Mamma! Segðu mér, að þú hafir fyrirgefið mér alla þá sorg, er eg hefi bakað þér, áður en þú deyr.“

„Já, barnið mitt, það hefi eg gert fyrir löngu. Og nú komstu líka, þegar eg bað þig.“

Dauðinn nálgaðist óðum. Röddin varð veik og óstyrk. Alt í einu reis móðirin upp í rúminu og lagði hendurnar á höfuð syni sínum.

„Drottinn blessi þig og varðveiti þig,“ sagði hún hvað eftir annað, tók síðan höndinni fyrir brjóst sér, eins og til að stilla hjartaslögin; yndis-ljómi og friður skein út úr ásjónu hennar, er hún sagði:

„Eg kem. Kom, Jesús. Eg kem.“

Hún var dáin. Presturinn sat um stund og baðst fyrir, stóð síðan upp og gekk út.

Nóttin leið, og morgungeislarnir skinu inn í litla herbergið. Þá stóð Hinrik upp, veitti móður sinni nábjargir og þrýsti síðasta kossinum á varir hennar.

---

Upp frá þeirri stundu breytti Hinrik lífsstefnu sinni.

# Tvær andlitsmyndir.

Í borginni Milano á Ítalíu var fyrir mörgum árum málari einn, að nafni Leonardo Vinci. Hann málaði ýmsar myndir af atburðum úr lífi frelsarans, og er myndin af hinni heilögu kvöldmáltíð þeirra merkust. Starfaði hann að málverki þessu í mörg ár, og baðst iðulega fyrir, meðan á því stóð. Tók hann ýmsa af kunningjum sínum til fyrirmyndar, og málaði andlitsmyndir postulanna eftir þeim. En enn þá vantaði tvö andlitin á myndina. Annað þeirra var andlit frelsarans sjálfs. Það átti að vera fegursta andlitsmyndin, og hafði málarinn eigi séð neinn mann, er honum fanst hæfur til að vera til fyrirmyndar fyrir því. Loks var honum þó sagt af manni, er Pietro Bandinelli hét, og var frægur fyrir það, hve fagra söngrödd hann hafði. Leonardo sá hann, og fann brátt, að hér var fyrirmyndin, sem hann hafði svo lengi leitað að: ástúð, sakleysi og ráðvendni skein út úr hverjum drætti í andliti hans. Leonardo spurðist fyrir um dagfar hans, og hrósuðu honum allir. Eftir þessari fyrirmynd var nú andlit frelsarans gert.

Þegar það var fullgert, fór Pietro burt úr borginni og til Rómaborgar til að læra söng. En þar lenti hann í illum félagsskap, og „segðu mér hverja þú umgengst, svo skal eg segja þér, hver þú ert“; það fór fyrir honum á sama hátt og glataða syninum. Hann eyddi tímanum í drykkjuslarki og spilum, féll dýpra og dýpra og endaði sem glæpamaður. En um alt þetta var Leonardo ókunnugt.

Myndin af hinni heilögu kvöldmáltíð var nú nærri fullger, vantaði að eins eina andlitsmyndina. Það var myndin af Júdasi, glötunarsyninum. Málarinn hafði ekki séð neitt andlit svo ljótt, að hann gæti tekið það til fyrirmyndar.

Einn dag, er hann var á gangi um götur borgarinnar, mætti hann mannræfli, tötrum klæddum, óhreinum, svipdimmum og niðurlútum. Málarinn leit á hann: þarna var Júdasar-andlitið! Hann fékk manninn

heim með sér og málaði eftir honum andlit Júdasar. En daginn, sem myndinni var lokið, sagði hinn ókunni maður við málarann: „Munið þér ekki eftir, að þér hafið málað mig einu sinni áður?“ — Og hver haldið þið svo, að maðurinn hafi verið? Það var Pietro Bandinelli.

Svo mjög getur áfengið og syndin umbreytt andliti og hjarta mannsins.

(Dansk Kirketidende).

---

# Rauðu skórnir.

[Framh.]

Stúdentinn svaraði ekki. Hann hélt á skónum í hendinni, starði á þá og sagði, að nokkru leyti við sjálfan sig: „Eg þyrði að sverja, að það eru þeir sömu“. Að svo mæltu dró hann hægri höndinni yfir augu sér til þess að átta sig, snéri sér því næst að ruslasalanum og sagði honum, að hann ætlaði að taka skóna og borga þá með nokkru af fötunum, er hann ætlaði að selja.

Hálfri stundu síðar gekk ruslasalinn ofan stigann frá stúdentinum. Hann var reyndar ekki alls kostar ánægður, því stúdentinn hafði þó ekki selt öldungis alla muni sína; en hann hafði ekki haft hugmynd um verð á neinu; hafði hann selt hitt með mjög lágu verði, en aftur á móti keypt skóna óhæfilega dýrt. Fanst ruslasalanum því, að hann hefði nælt allvel á viðskiftunum.

„Eg hefði mátt sitja með skóna í tíu ár, ef honum hefði ekki litist svona vel á þá“, muldraði hann fyrir munni sér. „Það skyldi þó ekki vera, að hún amma hans hefði átt þá“.

Stúdentinn var einmitt að velta því sama fyrir sér. Hann studdi olnboganum á borðið með hönd undir kinn og starði á litlu rauðu skóna, sem hann hafði látið ofan á afarstóra lögbók, er var á borðinu. Skyldu það nú vera sömu skórnir og hún amma hans átti einu sinni, og hann mundi svo nákvæmlega vel eftir? Hann brosti, en bros hans var þó hálfblandið sorg, því iðrunartilfinning vaknaði í huga hans, og svo leit út sem þessir litlu rauðu skór væru sendir honum frá himnum til þess að stöðva hann á glötunarvegi þeim, er hann var kominn á.

Ein stund leið eftir aðra. Stúdentinn átti að vera að hlusta á fyrirlestur einshaskólakennarans, en hann hlustaði á aðra rödd, sem var alvarlegri og áhrifameiri; hann fór að hugsa um líf sitt á æskuárunum, og gleymdi háskólakennaranum og fyrirlestrinum hans.

León Lavenay misti móður sína meðan hann var á bernskuskeiði og var því tekinn til fósturs af ömmu sinni. Hún var ágætiskona, fjörmikil, en einbeitt og fús á að leggja mikið í sölurnar fyrir aðra. Auk þess var hún orðin trúrækin með aldrinum. Hún fór aldrei að heiman nema þegar hún fór í kirkju og var ávalt í samskonar búningi og hafði tíðkast á æskuárum hennar; hún var jafnan á rauðum skóm, með háum hælum, og marraði mjög í þeim, þegar hún gekk um herbergin. Hafði drengurinn oft hangið iðjulaus yfir því, er honum var sett fyrir, eða verið að mála í bækurnar, en í hvert sinn, sem hann heyrði fótatak ömmu sinnar, fór

hann alt í einu að lesa af mesta kappi. Á sama hátt hafði vinnufólkið oft hætt að masa saman, og farið að keppast við það, sem það átti að gera, jafnskjótt og það heyrði fótatak húsmóður sinnar; en León mundi þó sérstaklega eftir einu atriði í sambandi við þessa skó.

Það var einu sinni um sumar í allra bezta veðri. Drengurinn sat í herbergi sínu og var enn þá latari, en hann átti vanda til. Faðir hans var að heiman við störf sín, en amma hans var að sjá um stórþvottinn um sumarið. Var búið að breiða út mjög mikið af léreftsfötum, sem átti að þurka í sólskininu, og sem síðar átti að brjóta vandlega saman og geyma í fataskápunum; og þar sem enginn gætti að drengnum, var hann iðjulaus og glápti út um gluggann, í stað þess að læra lexíur sínar, síðari hluta dagsins. Stóri hundurinn í garðinum setti lappirnar upp í gluggann og nuddaði sér með höfuðið upp að drengnum, en drengurinn var að klappa honum, og tók hann ekkert eftir, hvað tímanum leið, fyr en hann átti að fara aftur í skólann. Sá hann nú hvílík vandræði hann mundi komast í, ef hann kynni ekki neitt. En alt í einu datt honum í hug, að hann hefði séð bók innan um bækur föður síns, þar sem Ciceros ræðurnar, sem hann átti að læra á latínu, voru prentaðar með latínu á annari blaðsíðunni en á frönsku á hinni. Næði hann þessari bók, þurfti hann ekki að hafa neina örðugleika við að þýða það sem hann átti að skila. Hann var ekki lengi að hugsa sig um þetta, en gekk í skyndi inn í stofu föður síns, opnaði bókaskáp hans og var svo heppinn, að finna bókina þegar. Fór hann með hana inn í herbergi sitt og var nú hróðugur yfir því, að geta þýtt latínuna með jafn hægu móti; en alt í einu voru honum gefin tvö högg utan undir, svo hann hrökk á fætur og sneri sér við. —

Drengurinn hafði verið svo önnum kafinn, að hann tók ekki eftir því, að amma hans kom inn, og hafði hann ekki heyrt fótatak hennar á mjúkri gólfábreiðunni; og þarna stóð hún nú fyrir framan hann með annan skóinn í hendinni, sem hún hafði barið hann með, en sorgar svipur og reiði var í útliti hennar. León horfði niður í gólfið af sneypu; hann þurfti engar frekari skýringar, því samvizka hans hafði sagt honum það skírt og skilmerkilega.

„Svona hefirðu það. Þú lest þýðinguna í bókum, og lætur svo sem þú hafir starfað að henni sjálfur. Þú lýgur að öðrum með verkum þínum, jafnvel þótt þú hafir ekki logið með tungu þinni enn; en það líður ekki á löngu áður þú byrjar á því; þú tekur að lesa lexíu þína upp úr bókinni, þegar þér verður hlýtt yfir, og segir, að þú hafir verið sjúkur, þegar þú hefir slæpst í stað þess að læra, og verði þér trúað, líður ekki á löngu áður þú ert orðinn útlærður svikari. Eg sendi boð í skólann, að þú komir ekki, því eg vil að þú gleymir þessu ekki of fljótt“. [Framh.]

---

**Úrsagnir** úr „Æskunni,“ skriflegar, bundnar við árgangamót, (1 okt.), ógildar nema komnar séu til afgreiðslumanns fyrir 1. ágúst.

---

SIGURÐUR JÓNSSON kennari, Vesturgötu 21, annast útsendingu blaðsins og alla afgreiðslu, tekur á móti borgun, og kvittar fyrir o. s. frv.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 14. APRÍL 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 14.—15.

## Albrynjaður riddari.

Mannkynið hefir sífelt átt í erjum og ófriði, barsmíð og drápi frá því löngu áður en sögur hófust, og alt fram á þennan dag, enda þótt nú sé orðið miklu friðsamlegra líf víðast hvar í heimi en fyr á öldum. Af þessu hefir leitt, að allar þjóðir hafa haft vopn og verjur eftir menningarstigi sínu á ýmsum tímum, bæði til þess að geta sjálfar varist árásum óvinanna og líka til þess að geta ráðist hiklaust á aðra. Hinir fyrstu villimenn höfðu tinnuflísar með egghvössum brúnum. Með þeim réðust þeir hverjir á aðra, drápu villidýr til matar sér óg sundruðu þeim. Ástralíu blámenn hafa bogið kasttré að vopni, er þeir kunna að kasta á þann hátt, að það kemur aftur til þeirra, ef þeir hitta ekki. Margar villiþjóðir hafa og boga að vopni, og eru örvarnar oft eitraðar í oddinn með því, að þeim hefir verið dyfið í eitraðan blönduvökva. Þegar mannkynið lærði að hagnýta sér meira af gæðum náttúrunnar, vefa dúka til klæðnaðar, og bræða málmana, eru sverð og spjót, axir og atgeirar hafðir að vopnum, en jafnframt taka vopnaðir menn að verjast höggum og lögum óvinanna með herklæðum. Algengast þeirra er skjöldurinn. Var það plata úr skinni eða tré, nokkuð aflöng ferhyrnd eða þríhyrnd. Innan á skildinum var handfang er nefndist mundriði, og var smeygt í það vinstri hendinni. Þá er vegið var með báðum höndum var stundum kastað skildinum. Hjálmur var borinn á höfði. Var það hattur úr málmi. Næði hann að eins ofan á ennið, var hann nefndur stálhúfa, en oft fell sérstakt málmspeldi fyrir andlitið og var þá að eins op fyrir augun. Á hjálminum var stundum borið merki sem herkuml var kallað. Mun það hafa verið til þess, að hægt væri að þekkja vini frá óvinum. Skildirnir voru og litaðir á ýmsa vegu og höfðu sumir höfðingjar ritaðar á þá dýra eða fuglamyndir t. d. ljóns eða arnar.



Brynju var steypt yfir búkinn. Var það skirta eða stakkur prjónaður úr eintómum járnhringum og stundum voru sokkar og hanzkar af sömu gerð, og nefndust brynhosur og brynhanzkar. Járnvírshettur voru og stundum hafðar yfir höfðinu í stað hjálms.

Allur fjöldi hermanna í fornöld var þó ekki svo vel búinn að herklæðum, t. d. fótgönguliðið, því þá hefði það verið of þungt til gangs. Var því látið nægja eitt vopn, sverð eða spjót og skjöldur. Var það kallað léttvopnað lið. Aftur á móti voru albrynjaðir hermenn ríðandi. Nefndust þeir riddarar, og voru vanalega af háum stigum. En með því riddaranum gat verið dauðinn vís væri hesturinn drepinn undan honum, herklæddu sumir riddarar hesta sína til að hlífa þeim við höggum óvinanna.

Nú eru öll þessi vopn lögð niður, og allskonar skotvopn komin í þeirra stað. Hjálmur og skjöldur, brynja og brynhosur koma nú að litlu haldi, því skotin fara nærri jafnvel í gegnum hvað sem fyrir er. Þó hefir riddurum, búnum sverðum verið beitt nærri fram á þennan dag, til að hleypa á fótgönguliðs fylkingarnar og reyna að tvístra þeim. En nú valda hinar hraðskeyttu byssur þessara tíma, að þeir munu bráðum úr sögunni.

En sá, sem lítur á stríð og styrjaldir frá annari hlið, og aðgætir, hvílíku böli þær hafi valdið, spyr sjálfan sig: Hvenær kemur sá tími, að friður sé fyrir fult og alt yfir allan heim?

# Rauðu skórnir.

[Niðurl.]

Léon fanst svo sem hann ætlaði að sökkva í jörð niður, en amma hans hélt áfram, en þó með nokkuð blíðari rödd.

„Nú skal eg segja þér, drengur minn, hvað eg hefi orðið að þola af því eg vildi ekki ljúga; eg hefi ekki viljað segja þér það fyr. en beðið þar til þú værir orðinn nægilega gamall til að taka eftir því“.

Gamla konan settist niður. Augun tindruðu, en hendurnar skulfu, enda þótt hún spenti greipar á brjósti sér, en í málróm hennar var alvara og einurð, enda þótt hún yrði að þagna við og við.

„Árið 1793 var eg réttum 3 árum eldri en þú ert nú, og þá varð eg að fara einmitt úr húsinu því arna, því eg hefi átt heima í því á bernskuárunum. Varð eg þá að flytja til Parísar, með manninum mínum og foreldrum hans, því hann átti þar stóra og arðsama verzlun í borginni. Stjórnarbyltingin var þá byrjuð, og villiæði manna varð æ verra og verra dag eftir dag.

Tengdafaðir minn dó úr gremju en tengdamóðir mín og eg fengum loks manninn minn, hann afa þinn, til þess að fara burt úr bænum, því hann var auðsjáanlega í mestu hættu staddur, en aftur á móti var ekki ástæða til að ætla, að neinn mundi fara að snerta við okkur. En einn góðan veðurdag snemma morguns var barið ákaft að dyrum. Tengdamóðir mín var ekki komin á fætur og lauk eg upp hurðinni.“

„Vér komum hér í nafni ríkisins til þess að taka Grandidier borgarakonu hönd-

um", mælti herforingi sem var í fararbroddi komumanna. Hann hafði rauða húfu á höfði og var með rautt riddaraband. Fylgdu honum tveir vopnaðir menn.

„Eg er sú, sem þér leitið að", mælti eg og gekk fram fyrir þá.

„Þú?" mælti herforinginn og las aftur varðhaldsskipunina, er honum hafði verið fengin í hendur. „Borgarakonan er kærð fyrir að hafa hjálpað syni sínum til að flýja, þú att víst engan son, þú ert barn að aldri".

„Eg er Grandidier borgarakona og eg hefi hjálpað manninum mínum til að flýja á burtu héðan", svaraði eg með einbeittum róm, því eg vildi bjarga tengdamóður minni um fram alt. Enda vissi eg, að væri hún tekin höndum, myndi húu deyja af ótta, áður hún kæmist út á götuna.

Mér hepnaðist það líka, því þorpararnir drógu mig af stað með sér, án þess að rannsaka húsið eða spyrja þess, hvort til væri nokkur önnur Grandidier borgarakona. Eg gekk með þeim gegnum alla undirborgina, öldungis eins búin og eg er nú, og með sömu skóna á fótunum", og um leið veifaði hún upp skónum, sem hún hafði nýlega notað fyrir hirtingarvönd á mig.

Þegar vér vorum komin að fangelsisdyrunum hvíslaði einn þeirra, er voru með mér, að mér: „Farðu úr öllum þessum fötum, og kallaðu þig Josefine Foucheret. Eg get bjargað þér". Áður eg gat svarað stakk hann mér inn í fangelsið og lokaði á eftir mér; en eg afréð það brátt með sjálfri mér, að eg skyldi alls ekki ljúga til nafns míns. Maðurinn minn var langt í burtu og eg vissi ekki hvað af honum var orðið, en tengdamóðir mín var úr allri hættu ef eg var tekin af lífi með nafninu Grandidier borgarakona. Þegar eg hafði afráðið þetta settist eg niður í einu horninu í fangelsinu; kom þá fangavörðurinn von bráðar inn með fangelsisbókina; áttu bandingjarnir að rita í hana nöfn sín og skrifaði eg mitt eigið nafn í hana tafarlaust".

„Margir eru þeir, sem hafa sagt, að það hafi að eins verið klerkar og aðalsmenn, sem æði múgsins hafi svalað heift sinni á á þessu voðalega tímabili; en það nægði að líta allra snöggvast í kringum sig til að sannfærast um, að það var engin vörn gegn æði þessara harðstjóra, að vera komin af lágum stigum. Að vísu sá eg þar hinar tignustu hefðarkonur, og bar hið rólega, tígulega og göfuglega framferði þeirra vott um, að þær sóru sig í ættina, enda þótt þær væru í gauðrifnum tötrum, þar voru einnig prestar, er veittu þeim andlega huggun, er æsktu þess, en eg varð þar einnig vör við daglaunamenn, iðnaðarmenn og kvennfólk, og bar alt það fólk þess óræk merki, að það hefði orðið að vinna örðuga vinnu. Vér vorum öll í graut hvert innan um annað, bændur í duggarapeysum og aðalsfólk í silkiklæðum, og menn á klossum tróðu á kjólslóða hefðarkvennanna. Aftur á móti leit svo út, sem eg væri sú einasta af hinni efnaðri borgarastétt, líkt og samband milli aðalsins og hinna lægri stétta."

„Eg var ung, fjörug og heilsugóð, ekki nema 16 ára að aldri, og dálítið hégómagjörn; hafði eg ráðið með sjálfri mér, að eg skyldi ekki hætta að halda mér til, eða verða eins og drusla, og skyldi eg ganga upp á höggpallinn jafn snoturt til

fara og eg var vön að vera daglega. Tók eg því að slétta úr hrukkunum, sem höfðu komið á föt mín af meðferðinni á mér á leiðinni í fangelsið. Horfðu margir á mig með furðu og hvísluðust á: „Aumingja barnið! Það er fyrsti dagurinn, sem hún er hér.“

„Og ef til vill sá síðasti!“ mælti eg við gamla konu, sem lá á gólfinu rétt við hliðina á mér, „en eg gæti þó hjálpað yður áður, svo þér fengjuð dálítið betra legurúm“.

„Hvað hefir það að þýða“, mælti hún, „fyrir þann, sem stendur á þröskuldi eilífðarinnar?“

Samt sem áður reis hún upp á olnboga, og með því hún var lítil og grannvaxin. gat eg komið henni á fatahrúgu, sem eg hafði lagt saman í einu horninu.

„Einn prestanna var að blessa yfir oss. Var þá fangelsishurðinni alt í einu hrundið upp, og voru þar komnir fangavörðurinn og herforingi sá, er hafði tekið mig höndum. Með þeim var einnig hermaður sá, er hafði hvíslað því að mér, að breyta um nafn mitt. Sá eg á augnaráði hans. að hann var reiður mér, en eg skeytti því engu. Var kallað á nokkra bandingjana að koma út, og átti að fara með þá til aftökustaðarins, en eg var þó ekki á meðal þeirra. Meðal annara var kallað á Mortagne borgara-konu. Reis þá gamla konan á fætur, er eg hafði verið að hlúa að. Kinkaði hún kolli til mín í kveðjuskyni og mælti: „Nú sérðu, að eg hafði rétt fyrir mér, barnið mitt“.

„Eg dvaldi 3 daga í fangelsi án þess eg væri kölluð út meðal þeirra, er ekið var á kerrunni til aftökustaðarins. Að þeim tíma liðnum voru ekki fleiri af oss dregnir til dauðans. Robespierre sem var forseti ríkisins og hafði staðið fyrir blóðsúthellingunum var hrundið úr völdum og félögum hans og fengu þeir laun þau, er þeir höfðu verðskuldað. Manndrápunum linti og eg var látinn laus að mánuði liðnum, og komst heim til tengdamóður minnar, sem þá lá fyrir dauðanum. Settist eg hjá rúmi hennar og mælti hún við mig hátíðlega: „Þú hættir á ofmikið fyrir mig, barnið mitt gott, til þess að bjarga þessum litla lífsneista, sem enn þá er eftir í mér“.

„En þú getur hugsað þér það, Léon“, mælti amma mín að síðustu, „hversu þakklát eg var guði fyrir það, að hann hafði verndað líf mitt — enda hefði eg þá verið illa búin undir undir það að deyja“, mælti hún við sjálfa sig. „Eg var miklu glaðari yfir því, að hafa ekki þurft að bjarga lífi mínu með ósannindum, og þú getur getið nærri, hversu glöð eg var að fá að sjá ástkæra eiginmanninn minn aftur, þegar eg hafði gert skyldu mína við móður hans“.

Amma Léons þagnaði, en saga hennar hafði haft mjög mikil áhrif á hann. Hann horfði a hana með aðdáun og mælti einarðlega: „Eg skal aldrei ljúga framar, eða gera neitt það, sem getur angrað þig.“ Gamla konan stóð upp með fyrirhöfn, því endurminningarnar um gamla daga höfðu hrært svo huga hennar og hrukkóttu hendurnar hennar skulfu, sem hún lagði á herðar sonar sonar síns um leið og hún kysti hann blíðlega.

„Guð gefi, að hann veiti þér þrek til að halda loforð þitt, því alt er undir því komið, að þú hryggir ekki hann með fram-

ferði þínu,“ mælti hún hátíðlega. „Síðan eg kom úr fangelsinu, hefi eg lært, að það er að eins *með hans hjálp* að vér getum rekið illar tilhneigingar úr huga vorum. Eg hefi aldrei verið hneigð fyrir leti og ósannsögli, en þess meira hefi eg orðið að berjast við dramb og hégómagirni, en eg hefi beðið guð að hjálpa mér, og hann hefir hjálpað mér.

---

Amma Léons var dáin 4 árum áður en saga þessi gjörðist og hvíldi við hlið eiginmanns síns. Faðir Léons hafði sent son sinn til Parísar til náms. Reyndar hafði amma Léons, sem þekti lundarfar hans, varað son sinn við því og sagt: „Hafðu nákvæmar gætur á honum“, en faðir hans skelti við því skolleyrunum og hafði álitið nægilegt, að sonur hans hafði fengið gott uppeldi og því látið hann mestmegnis hugsa um sjálfan sig.

„Hann er nægilega gamall til þess.“ mælti hann“, og á hans aldri varð eg að sjá um mig sjálfur“. Það sýndi sig að kvíði ömmu hans hafði þó verið á of miklum rökum bygður. Leti, værugirni og slæmur félagsskapur höfðu haft sömu áhrif á hann og marga aðra. Hann var sokkinn í botnlausar skuldir, gerði ekki neitt, og svo leit út, sem samvizka hans væri sofnuð, unz rauðu skórnir vöktu hann alt í einu af værum blundi. Nú stóð amma hans honum lifandi fyrir augum, og göfuga og óbilandi kjarklyndið hennar, sem var sameinað kristilegri auðmýkt, og þó einkum viðburður sá, er hún hafði sagt honum úr æfisögu sinni. Hann mundi nú með kinnroða eftir þeim miklu loforðum, er hann hafði heitið sjálfur, en efnt svo illa, og hinum hátíðlegu orðum ömmu sinnar. En hvað hann hafði hugsað *lítið* um þetta; aldrei hafði hann beðið guð að styðja sig gegn freistingunum í þessari stóru borg, og vegna þess höfðu þær yfirbugað hann svo, að þær voru nærri orðnar honum til tortímingar.

Alla nóttina vakti hann með sáru samvizkubiti og alvarlegri iðrun yfir fyrri breytni sinni; en þegar lýsti af degi, tók hann saman farangur sinn og fór heim til föður síns. Hann fann, að hann varð að byrja nýtt líf langt í burtu frá freistingum höfuðstaðarins; en jafnframt hafði hann séð, að hans eigin áform og hátíðlegu loforð gátu litlu til leiðar komið. Upp frá þessu bað hann guð um að hjálpa sér með að verða að nýjum manni, og að faðirinn á himnum tæki á móti hinum týnda syni með opnum örmum, eins og hann var ástúðlega meðtekinn heim til föður síns.

(Úr „Fort. for Ungdommen“.)

---

# Sumarfuglarnir.

Nú er sumarið bráðum komið og þá fara sumarfuglarnir að vitja okkar, hér á kalda landinu norðast við heimsskautið; þeir koma hingað sumar eftir sumar þrátt fyrir það þó þeir séu rændir eggjum sínum, og prakkaralegir spjátrungar séu að kveðja þá með byssuskotum sínum á haustin, þegar þeir eru að hópa sig undir burtför sína af ræningjalandinu; ekki einungis foreldrar eru drepnir frá börnum og börn frá foreldrum, heldur eru þeir særðir mörgum og stórum sárum, eða limlestir á annan hátt, svo lífið pínist úr þessum varnarlausu fögru og inndælu skepnum.

Það væri von til þess að þeir vitjuðu okkar aldrei framar, en þá væri landið okkar autt og eyðilegt, ef við hættum að heyra til blessaðra sumarfuglanna, því koma þeirra minnir okkur þó á að sumarið sé í nánd, og hefur þú ekki, maður minn, verið úti á fögrum vormorgni í logni og blíðu, eða í hægum regnskúrum og heyrt þann mikla fuglaklið, það er ánægjulegt að heyra þær raddir samsyngja hverja með sínu nefi, sem allar lofa og þakka skapara sínum fyrir góðu tíðina og náttúrufegurðina, að heyra t. d. heiðlóuna syngja sitt inndæla vormorguns lag „dýrðin", „dýrðin". En innan um blandast sorgmæddur rómur, yfir missi eggja og unga.

Það virðist undarlegt hvað fullorðnu fólki þykir mikið í það varið að ræna fugla og finna egg. Eg hefi þekt þrjá bræður, alla fremur mannvænlega, sem ekki gerðu annað alt vorið en að smala rúmum 50 kindum og ræna fugla, aðallega herjuðu þeir á spóann, ef maður nefndi þetta við þá, héldu þeir, svo sem þeir ákváðu „að það væri nóg til af h..... spóanum." Þykir ykkur börnin mín þetta og því um líkt vera fagur lofsöngur.

Einu sinni var vinnumaður hjá foreldrum mínum, sem gætti fjár, eitt kvöld er hann kom heim var hann svo kátur og glaðlegur á svipinn, og snýtti sér langri hreppstjóra snýtu er hann kom inn á baðstofu gólfið, stútaði sig á pontunni sinni og sagði um leið: „Mikið a..... hefir tíst hjá mér í kvöld, he, he, he." „Tíst hvað" segir móðir mín. Fór hann þá ofan í vasa sinn, og kom með 2 spóaegg og sagði að unginn hefði verið bráðlifandi í þeim, því hann hefði tíst svo hátt, en nú væri hann þagnaður og mundi því vera dauður.

Þegar börn heyra fullorðið fólk tala svona harðýðgislega um fuglana, er þá ekki von að í brjóstum þeirra lifni ræninga lund og drápgyrnishugur.

Eg hefi heyrt talað um 2 systur, sem voru á næsta bæ við mig, önnur var á 10., en hin á 11. árinu, þær voru að reka kýrnar á haga, og er þær komu heim, sögðu þær móður sinni frá því að þær hefðu fundið 4 unga í hreiðri, sögðust þær hafa tætt og rifið þá í sundur, þar til þeir voru allir dauðir, að þessu þótti þeim hið mesta gaman, og móðir þeirra fann ekki að því við þær, hefir eflaust fundist þetta eðlilegt. Móðurástin hefir verið á lágu stigi hjá henni blessaðri. Hvernið haldið þið, góðu börn, að fugli þessum hafi orðið við er hann kom heim í bólið sitt og sá það umturnað og börn sín sundurflakandi liggja þar dauð rétt hjá. Ó sú sorg og sá harmur, sem hefir gripið veslings foreldrana. Þessu lík dæmi munu mörg til vera. Foreldrarnir eiga því að vara börn sín við að taka aldrei unguð egg, og helzt engin, því foreldrarnir mættu gjarnan stinga hendinni í sinn eiginn barm, og hugsa um það ef að dauðinn, sá mikli óvinur, hrifsar í burtu á æskuárum ykkar einu stoð og styttu, ykkar einka son eða dóttur. Gætið að móðurástinni gagnvart fuglunum, því þó við skiljum ekki mál þeirra þá má maður eiga það víst „að altsjáandi himins herra" skilur og heyrir kvak þeirra og kvein.

Fuglarnir koma hingað á vorin til að klekja út eggjum sínum, sumir eru ræendir þegar; sumir þegar heita má að unginn sé komin út úr egginu, en þó geta nokkrir

ungað út, og svo þegar þeir fara að hópa sig á haustin undir burtför sína héðan, dynja byssuskotin á veslings saklausu hópana, svo þeir flestir, sem hingað koma glaðir á vorin, snúa hryggvir og daprir í huga heim aftur á haustin. Þannig er meðferðin á sumargestunum okkar. Er hún fögur? Eg vona að allir svari nei. —

Eg hygg að náunginn kalli mig ekki góðan mann, en þó er eg svo góður að eg tek aldrei egg frá fuglum, hvort sem þau eru „fersk" eða unguð.

**Góðu börn**

takið eftirfylgjandi reglur til athugunar:

Helzt að taka engin egg, en ef þið getið ekki stilt ykkur um það, að muna samt eftir því: að *taka aldrei unguð egg*, því í þeim er lítill matur, en sárið þess dýpra fyrir foreldrana.

Að drepa aldrei unga, og hrekkja aldrei neinn fugl.

16. Marz 1902.

*Jóh. Ögm. Oddsson.*

## Albatros bjargar manni í sjávarháska.

Um miðja 19. öld bjó gamall maður nokkur á vesturströnd Englands, í nánd við borgina Liverpool, er Jósef hét, og hafði hann verið hermaður i her Englendinga, sem barðist gegn Napoleoni Frakkakeisara í byrjun aldarinnar. Nú bjó hann á stað þeim, sem áður var nefndur, til þess, að geta verið sem næst dóttur sinni, er var gift sjómanni, er var fyrsti stýrimaður á verzlunarfari einu. Tengdasonurinn kom oft heim með fáséða gripi frá fjarlægum löndum, og færði þá konu sinni og tengdaföður; en það sem gamli maðurinn óskaði mest af öllu var, að hann kæmi einhverntíma heim með Albatros dauðan eða lifandi. Albatros er sundfugl, hvítur að lit, og einna stærstur þeirra allra, einkum vængjalangur og eru vængir hans útbreiddir 12—14 fet. Flýgur hann allra fugla bezt, á heima á Suðurhöfum og sézt oft á flugi úti yfir miðju Atlantshafi. — Gamli maðurinn hafði svo oft ámálgað þessa ósk sína, að tengdasonur hans færði honum loksins fuglinn. Var hann troðinn út og hafður sem aðalskrautgripurinn í litla herberginu gamla hermannsins.

Hann hafði átt fuglinn nokkurn tíma áður hann sagði dóttur sinni og barnabörnum orsökina til þess, að hann hafði svo mjög óskað þess, að eiga Albatros.

Á hermenskuárum sínum var hann um tíma sjómaður á herskipi, sem hafði varðstöð undir Góðrarvonarhöfða, suðurodda Afriku. Varð honum það þá einu sinni á, að brjóta mót herlögunum — en hann nefndi aldrei, í hverju yfirsjón hans var fólgin — fanst foringja skipsins brot hans vera þess eðlis, að hann yrði að láta hann sæta hundrað kaðalhagga refsingu öðrum til viðvörunar. Var hann bundinn við siglutréð, færður úr skyrtunni og 2 mönnum var skipað að berja hann til skiftis.

Á þessari óttalegu stund gleymdi Jósef öllu því, er móðir hans hafði kent honum á bernskuárunum. Hafði hún brýnt fyrir honum að hann mætti aldrei gleyma því, að biðja til guðs, einkum þegar hann væri í hættu staddur, eða liði einhverja þjáningu, en þó einkum þegar hann felli fyrir synd og freistingu. Þessari áminningu hafði hann ekki gefið gaum að, og þegar

hann nú leið fyrir syndir sínar, fann hann ekki til annars en reiði, smánar og örvæntingar. Þrátt fyrir hina kvalafullu refsing hafði ekkert einasta hljóð komið af vörum hans, eða hann sýnt vott um neinn sárssauka; en þegar búið var að berja hann síðasta höggið og leysa hann, rak hann upp óttalegt óp, gekk út að öldustokknum og kastaði sér útbyrðis.

Foringi skipsins var engan veginn grimmur maður. Hann hafði fylgt aldarandanum og venjunni, og því álitið refsingu þessa nauðsynlega, en er hann sá, að líf hermannsins var í hættu, skipaði hann þegar að stöðva skipið og lét setja út bát til að bjarga manninum. Veður var all-hvast og rak skipið all-langt undan á skömmum tíma. Virtist því all-lítil von um, að manninum yrði bjargað. Einn foringjanna á skipinu skrifaði heim til sín á þessa leið: „Eg tók nákvæmlega eftir því, sem við bar, og horfði gegnum sjónpípu á blettinn þar sem eg hjóst við, að maðurinn kæmi upp. Sá eg þá stóran fugl flögra rétt yfir yfirborði sjávarins, og rétt hjá honum mannshöfuð, sem kom upp öðru hvoru, en þess á milli gengu bylgjurnar yfir það. Sá eg að maðurinn kom upp hvað eftir annað, og báturinn nálgaðist hann, og fór eg þá að vona, að honum yrði bjargað.

Jósef hafði sefast í skapi þegar honum fór að kólna í sjónum, og fór hann að hugsa með meiri stillingu, er hann hafði dauðann fyrir augum sér.

Albatrosinn er ekkert sjaldgæfur fugl í kring um Góðrarvonarhöfða. Þótt hann sé afar stór er hann mjög gæfur í lund og er að því leyti ólíkur erninum og græðgi hans. Var Albatrosinn að baða vængjunum rétt niður við sjávarflöt, þegar Jósef skaut upp, og kom svo nærri, að hægt var að ná í hann, og þreif þá Jósef ósjálfrátt í annan fót hans. Varð nú fuglinn hræddur, baðaði vængjunum í ákafa og reyndi að losa sig, en Jósef hélt af öllu afli og hélt fuglinn honum uppi, þar til báturinn kom að og gat náð manninum. Jósef leið í ómegin, jafnskjótt og búið var að ná honum upp í bátinn, og var það af sársauka eftir refsinguna og örðugleikana við að bjarga sér. Fuglinn hóf sig aftur á móti hátt í loft upp jafnskjótt og maðurinn hafði slept takinu. Var hann feginn frelsi sínu og komst undan bátshöfninni, sem langaði mjög að handsama hann.

Þegar gamli maðurinn sagði börnum sínum, barnabörnum og nágrönnum sögu þessa, fimmtíu árum síðar, áttu tilheyrendurnir hægt með að skilja í því, hvers vegna hann vildi hafa fugl þennan stöðugt fyrir augum sér, því hann minti hann á miskunn drottins. Hann lauk jafnan sögu sinni með því, að þakka guði fyrir það, að hann hefði látið Albatrosinn bjarga sér á svo dásamlegan hátt.

(„Nordisk Börneblad.“)

---

**Gjalddagi „Æskunnar“** er í Apríl, og eru kaupendurnir vinsaml. beðnir að gera skil á borguninni svo fljótt sem þeir geta.

Sérstaklega eru þeir, sem enn skulda fyrir *IV. árgang*,ámintir um að senda borgunina sem fyrst, eða í öllu falli láta útg. vita, hvernig á drættinum stendur.

---

☛ Þeir útsölumenn „ÆSKUNNAR“, sem ofsent kunna að hafa fengið

*3. og 4. tölubl. af V. árg.*

blaðsins, eru beðnir að senda leifarnar til baka til afgr. m. hið fyrsta.

---

**I. og II. árg. „Æskunnar“** eru á förum. Getur útg. því ekki ábyrgst, að nýir kaupendur að blaðinu geti fengið þá framvegis.

---

☛ **Úrsagnir** úr „Æskunni,“ skriflegar, bundnar við árgangamót, (1 okt.), ógildar nema komnar séu til afgreiðslumanns fyrir 1. ágúst.

---

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

| V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 29. MAÍ 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson | 16.—17. |
|---|---|---|---|---|


## Bátur á siglingu.

—:-:—

Öll sveitabörn þekkja, hversu gaman er að ríða hart, og muna víst eftir því, hve mikið gaman það var, þegar þau fóru að geta riðið ein.

Sjávarbörnin hafa aðra skemtunina, töluvert ólíka.

Það er sjórinn, og varla er nokkur sá drengur, að hann fari ekki að busla niðri í fjöru undir eins og hann er kominn á skrið.

Fyrst er byrjað á því að tína skeljar og kúfunga í fjörunni, þá að veiða kola við bryggjur eða út af steinum, og svo að busla í bátunum.

En þó er sú skemtunin ekkert á móti því að fá að sigla.



Þá sýnist landið fljúga framhjá eins og hestur á harða spretti. Sjórinn freyðir á framstefninu, báturinn hallast út í aðra hliðina, svo stundum virðist sjórinn ætla að skolast inn. Komi alt í einu sterk vindhviða, getur báturinn alt í einu farið um koll. En hver hugsar um það. Yndið er svo mikið, að mega sigla með fleygiferð áfram, áfram, harðara en nokkur hestur getur haft við á harðasta spretti.

En hyggilegra er það að hafa klóna lausa á seglinu og halda í hana, svo hægt sé að sleppa vindi úr seglinu, ef bráðan ber að.

## Joachim Murat.

—:o:—

Þið hafið öll heyrt sögurnar um karlssynina í kotinu, sem ólust upp í öskustónni, en seinna reyndust þeir efnismenn, svo engir voru þeirra jafningjar. Frömdu þeir

ýmiss konar hreystiverk, og svo lauk, að þeir fengu kongsdótturinnar og hálft konungsríkið með henni, meðan konungurinn lifði, tengdafaðirinn, en alt eftir hans dag.

Sögur þessar eru sannar að því leyti, að fyr á tímum gátu óbreyttir alþýðumenn komist til hinna æðstu valda eingöngu fyrir hreysti sína og náttúrugreind, en þurftu ekki að hafa bóklega kunnáttu svo neinu næmi. En hvað konungdóminn snertir eru konungserfðalögin bundin svo föstum skilyrðum, að hann geta ekki hlotið aðrir en þeir, sem komnir eru í beina línu af konungsætt, og kvænist konungssonur stúlku af lægri stigum, eða konungsdóttir giftist ótignum manni, verða þau um leið að afsala sér öllum rétti til ríkiserfða.

Þrátt fyrir þetta eru þó tæp hundrað ár síðan kotungasynir komust í konungshásæti í fleirum en einu ríki Norðurálfunnar.

Einn þeirra var Joachim Murat.

Skömmu fyrir aldamótin 1800 var alt í óreiðu á Frakklandi. Þjóðin hafði gert uppreist mót stjórninni og hafði konungurinn og drotningin loks verið líflátin. — Voru þá kjörnir menn til að stýra landinu um ákveðin árabil, og var slíkt fyrirkomulag kallað þjóðveldi. Einn af stjórnendum þessum hét Napoleon Bonaparte, ungur hershöfðingi, fluggáfaður, kappsamur og áræðinn. Eftir nokkur ár náði hann undir sig allri stjórninni, og skömmu síðar lét hann gefa sér keisaranafn yfir Frakklandi. Vildu aðrar þjóðir ekki viðurkenna keisaratign hans og hófu ófrið gegn honum hvað eftir annað. Barði hann í fyrstu alla óvini sína af höndum sér og lagði undir sig alla Ítalíu, vesturhluta Þýzkalands, Holland, Belgíu og Spán. Bræðrum sínum gaf hann konungsnafn á Spáni, Hollandi og Belgíu og Vestur-Þýzkalandi.

Eugen stjúpsonur hans varð stjórnandi á Norður-Ítalíu, en Joachim Murat, mágur hans, í Neapel á Suður-Ítalíu.

Murat var gestgjafason og fæddist árið 1771. Var fyrst haft í hyggju að láta hann læra til prests. Um sama leyti hófst stjórnarbyltingin á Frakklandi og alt landið komst í ljósan loga. Strauk hann því úr skólanum og gekk í herþjónustu. En sú dvöl hans í hernum ætlaði að verða skammvinn, því hann gerði samsæri gegn yfirboðurum sínum, og mátti hann telja sig sælan að sleppa óskaddaður með lífi og limum.

Eftir það varð hann vinnumaður í veitingahúsi föður síns, en þaðan fór hann aftur í herþjónustu og komst í lífvarðarsveitina. Skömmu síðar komst hann í kynni við Napoleon Bonaparte. Sá hann skjótt, að Murat var framúrskarandi duglegur, og tók hann fyrir skjaldsvein sinn.

Þegar Napoleon var orðinn æðsti maður ríkisins, gerði hann Murat að hershöfðingja og gaf honum Karólínu systur sína fyrir konu. — Var hún kona forkunnar fögur, en vanstilt í skapi, metorðagjörn og óróagjörn. Þá er Napoleon var orðinn keisari yfir Frakklandi, varð Murat einn af yfirhershöfðingjum hans, og loks konungur í Neapel árið 1808.

Þótt Murat kæmist til slíkra metorða, var hann hvorki gáfumaður, svo neitt kvæði að, og hafði ekki heldur öðlast þá mentun, er samsvaraði stöðu hans. En samt sem áður gerði hann Napoleoni oft meira gagn en margir aðrir hershöfðingjar hans. Murat var framúrskarandi riddara-

föringi og óttaðist ekkert. Starf riddaranna hefir verið það að ríða á harða spretti með brugðnum sverðum gegn um kúlnahríðina á fótgönguliðsfylkingar óvinanna, höggva þær niður sem hráviði, rjúfa þær og þannig tvístra þeim á flótta, og hafði Murat oft leikið sér að slíku og þá oft komist í miklar svaðilfarir. Var hann sjálfur glæsilegur ásýndum og skrautgjarn mjög. Var það vandi hans að ríða sjálfur í fararbroddi í öllum skrautklæðum sínum með fjaðurhatt á höfði, svo hann var auðþektur langar leiðir frá öllum öðrum. Er það mikil furða, að maður þessi varð aldrei sár, þó riddarasveitir hans féllu þúsundum saman alt í kring um hann. —

En Murat var ekki jafn-trúr og staðfastur, eins og hann var hraustur og djarfur. Árið 1812 lagði Napoleon keisari í herferð mikla til Rússlands með hálfa miljón hermanna; en svo fóru leikar milli hans og óvinanna, að hann kom aftur heim til Frakklands með fáeinar þúsundir manna. Allir hinir höfðu annað hvort fallið á vígvellinum, dáið úr kulda, vosbúð eða sárum eða verið teknir höndum. Sumir höfðu jafnvel strokið burt úr liði hans. Fór nú svo sem oft vill verða, að „úti er um vináttuna, þegar ölið er af könnunni."

Allir óvinir hans risu nú upp til handa og fóta, enda þótt þeir hefðu áður kropið fyrir fótum honum. Jafnvel þeir brugðust, er áttu honum alla upphefð sína að þakka, og ekki höfðu notið annars en velgjörða hans.

Meðal þessara manna var Murat. Hann var einn hinna fyrstu til að svíkja vin sinn og velgjörðamann, þegar hann sá, að ríki hans var á förum, enda óttaðist hann, að fylgdi hann honum lengur, mundi hans eigin konungstign á förum.

Napoleon missir öll völd, en ekki líður á löngu, áður hann kemur til Frakklands á ný. Þjóðin varpar sér aftur fyrir fætur honum. Hann verður kosinn í annað sinn, og ræðst móti óvinum sínum.

Þá stenzt Murat ekki mátið, og gengur aftur í lið með honum.

En Napoleon bíður ósigur, verður að ganga á vald Englendinga, en þeir flytja hann til eyjarinnar St. Helena, langt vestur undan Afríku-ströndum, og þar deyr hann í útlegð eftir 6 ár.

Murat trúir enginn lengur. Hann missir ríki sitt, og flæmist úr einum stað í annan; skríllinn dregur dár að honum, þar sem hann þekkist, óvinir hans reyna að handsama hann, og verður hann því að fara huldu höfði.

Loks tekur hann það óheillaráð, að fara aftur til Neapel með örfáa menn til að brjótast þar til valda.

Hann bíður ósigur og er dæmdur til dauða.

Þá sýnir hann að lokum, hvílíkt karlmenni hann er. Hann hefir svikið velgjörðamenn sína, en svo þrekmikill er hann, að hann hræðist ekki dauðann, þegar ekki er hægt að umflýja hann.

Hann hefir verið dæmdur til dauða af hermannarétti, og á því að skjóta hann af tólf hermönnum, sem allir hleypa af undir eins.

Garðurinn er svo lítill, þar sem á að lífláta hann, að hermennirnir verða að standa í þrem röðum hverri aftur af annari, og byssukjaftar hinna fremstu nema nærri við brjóst honum.

Murat stendur þráðbeinn fyrir framan hermennina, djarfur á svip og bros leikur um varir hans. „Hermenn," segir hann rólega og djarflega. „Gerið skyldu yðar! Miðið á hjarta mitt, en látið höfuð mitt í friði". Síðan skipaði hann sjálfur fyrir: „Hleypið af!"

Hermennirnir gerðu það. Hann stendur þráðbeinn eitt augnabragð á eftir, svo sem skotin hafi ekki hitt hann, en hnígur svo alt í einu örendur til jarðar.

Murat var upphaflega góður drengur þrátt fyrir staðfestuleysi sitt. Árið 1805 skrifaði hann þannig til móður sinnar: „Ímyndaðu þér ekki, að eg verði blindur í upphefðinni, eða hún valdi því, að eg gleymi ástvinum mínum heima. Það sem gleður mig mest er, að metorð þau, er eg hefi hlotið, gefa mér tækifæri til að hjálpa þeim, sem bágt eiga í mannfélaginu." Hann var svo gjafmildur, að hann jós fé út á báðar hendur, og vildi hjálpa öllum af fremsta megni.

En hann spiltist smámsaman og lét manngildi sitt í sölurnar fyrir hégómagirni og metorðagirnd. Á vígvellinum var enginn jafningi hans að hreysti og hugprýði, en heima fyrir mátti snúa honum eftir vild sinni, og höfðu ýmsir menn mjög skaðleg áhrif á hann, einkum kona hans; en henni var flest sjálfrátt illa gefið.

Verður Murat því ekki talinn sæmdarmaður, því það er ekki sá, sem svíkur vin sinn, velgjörðamann og föðurland, þegar mest ríður á.

Það var glæsilegt að vera kotungsson og komast upp í konungs-hásæti. En það er til mörg staða í lífinu, sem meiri hamingja fylgir en konungstigninni, og margur er sá, sem konungar mættu öfunda yfir stöðu þeirra. Sælli en konungur er sá, sem byrjar með lítið, en berst svo áfram, að hann getur orðið vel sjálfbjarga maður og landsmönnum sínum til gagns. Sælli en margur konungur er sá faðir, sem getur alið upp börnin sín, svo þau verði góðir og nýtir menn. Sælli en margur konungur er sá, sem hefir tamið sér siðprýði, og aldrei vill vömm sína vita. Og sælli en margur konungur er sá, þótt fátækur sé, sem vinnur með gleði og trúmensku verk sín, og er ánægður með hlutskifti sitt.

---

# Námu-drengurinn.

—:o:—

Jimmy Railstone var námudrengur. Það er að skilja, hann var einn meðal margra annara drengja, sem unnu í enskum kolanámum, en úr þeim eru kolin flutt upp á yfirborð jarðarinnar, og þar eftir notuð til eldsneytis á gufuskipum, gufuvögnum, eldstóm og verksmiðjum. Vér vitum, hversu alt verður svart, sem kemur nálægt kolum, og getum því vel skilið í því, að námumennirnir líta út eins og svertingjar, meðan þeir eru við vinnuna. Má þar ekki í milli sjá; þeir eru allir jafn svartir. Aftur á móti er mjög mikill munur á, hvern mann þeir hafa að geyma. Sumir eru ruddalegir og þorparar, aðrir eru góðir, kurteisir og ráðvandir menn. Jimmy Railstone var góður drengur, en meiri hluti félaga hans voru þorparar. Var hann ekki nema hálfstálpaður, og átti því all-illa æfi, því þeir neyttu þess, að þeir áttu við sér minni mann.

Skömmu eftir að Jimmy hafði byrjað

að vinna í kolanámunni, var svo mikið sótt eftir kolum, sem þurfti að vera til sölu eftir fáa daga, að vinna varð í námunni á nóttunni. Áttu þeir að fá aukaborgun, sem vildu leggja á sig næturvinnuna, og gáfu margir sig því fram. Meðal þeirra var Jimmy. Vildi hann næla nokkrar krónur til þess að kaupa fyrir hlýtt vetrarsjal handa henni mömmu sinni. Reyndar var það nokkuð örðugt að leggja þetta á sig, en „viljinn dregur hálft hlass“, og vann hann með jafn-miklu kappi, þá er kvöld var komið og hann hafði gert um daginn. Eitt sinn, er hann hélt, að hann og einn jafnaldri hans væru einir saman, mælti hann við hann: „Heyrðu Jack. Við háttum reyndar ekki í nótt, en við skulum þó ekki gleyma því að lesa kvöldbænina okkar“.

Tveir hinna allra verstu óþokka í allri námunni höfðu gengið fram hjá rétt í þessu, og höfðu heyrt það, sem drengurinn var að tala um. Réðust þeir á Jimmy, þrifu í hann og börðu hann, báru honum á brýn, að hann væri letingi og þættist vera betri en aðrir félagar hans. Síðar um kvöldið ætlaði hann að krjúpa í krók einum og biðja „Faðir vor“, en þá rifu þeir í hárið á honum og kvöldu hann til morguns á allan mögulegan hátt. Eftir þetta varð hann að þola margt hjá þeim af því hann væri „heilagur“. Flestir félagar hans drógu dár að honum, þótt þeir væru ekki margir, sem börðu hann. En marga, er höfðu svívirt hann, iðraði þess síðar.

Námumenn eru oft í margs konar hættu staddir. Stundum getur kolaveggur hrunið, svo þeir geta ekki komist út, og eiga á hættu að verða kviksettir. Stundum ryðst vatnið inn í námuna og drekkir öllum þeim, sem ekki eiga fótum fjör að launa. Stundum myndast eitraðar loftteg- undir í námunum, og er öllum þeim bráður bani vís, er anda þeim að sér. Stundum myndast eldfimar lofttegundir, og komist eldur í þær, veldur það vábresti, er sprengir námuna. Alt þetta vissu þeir vel í litla bænum yfir námunni; en þar bjuggu foreldrar og aðrir vandamenn námumannanna. Einn morgun heyrðist afarmikill brestur í námunum, og má því nærri geta, hve mörgum hefir orðið hverft við. Voru karlmennirnir nýkomnir ofan í námuna, en konur voru við morgunverk sín. Ruddust allir að göngunum ofan í námuna. En er þangað kom, gaus svo illur reykur upp, að allir urðu að hörfa undan og ómögulegt var að hjálpa neinum í svipinn. Skömmu síðar minkaði reykurinn þó dálítið og verkstjórinn afréð að fara ofan í námukörfunni ásamt tveim öðrum huguðum mönnum, til þess að bjarga þeim, er niðri væri, ef mögulegt væri. Meðan þeir voru að fara ofan, heyrðu þeir nýja vábresti, og var því ólíklegt, að nokkur maður mundi lifandi eftir í námunni. Þegar niður kom, sást enginn. Gekk verkstjórinn þá nokkur skref, en þá mætir honum dálítill hópur af drengjum og fullorðnum mönnum, sem flúðu undan eldi og reyk, sem valt áfram og eyddi öllu að baki þeirra.

„Komið með körfuna, komið með körfuna!“ kölluðu þeir jafnskjótt og þeir komu auga á verkstjórann, og sá hann þegar, að ekki var annars kostur, en reyna að draga þá sem allra fyrst upp. En það dugði

ekki, því það kom í ljós, að þeir gátu ekki allir komist fyrir í körfunni. Var hrúgað í hana öllum, er rúmast gátu, en þó urðu þrír að vera eftir unz, karfan kæmi niður í annað sinn. Verkstjórinn bauðst þá til að verða eftir, en annar hinna var sá, sem hafði verið verstur við Jimmy Railstone. Var hann afarhræddur, og kvartaði sáran yfir, að yrði hann eftir, mundi hann bíða hana af. Jimmy stóð í körfunni, og var búið að gefa merki um, að draga hana upp. Eiturloftið braust fram á ný, og var því lítil von um, að þeir þrír er eftir urðu, yrðu með lífi, þegar karfan kæmi ofan aftur. Í sama bili hljóp Jimmy út úr körfunni. „Bíðið örlítið!“ kallaði hann upp, gekk að hinum óttaslegna manni og ýtti á hann upp í körfuna. Var tíminn svo naumur, að hann gat að eins sagt við hann: „Segðu henni mömmu, að eg gerði þetta guðs vegna“.

Jimmy var örendur, þegar karfan kom ofan aftur.

(„Nordisk Börneblad“).

# Fágæt fóstra.

Veturinn 1709 var einhver hinn harðasti vetur, sem komið hefir í Miðevrópu. Fjöldi manns dó af kulda, ekki að eins úti á víðavangi, heldur einnig á strætunum í borgunum, inni í húsunum og jafvel í rúmunum. Hversu mikið sem kynt var í ofninum, hitaði hann þó ekki herbergið þolanlega. Þótt hann væri glóandi, botnfraus vatnið í þvottaskálinni, sem stóð 6 álnir frá honum. Tré og klettar klofnuðu, af því vatn, sem hafði safnast í sprungurnar, fraus. Smáfuglar, krákur og hrafnar duttu dauðir niður, og stórhópar af akurhænunum fundust dauðar í snjónum. Hirtir og rádýr ráfuðu hálfdauð um á vegunum og leituðu jafnvel hælis í húsum manna, og þegar voraði, fanst fjöldi af þeim dauður úti í skógunum. Stöðuvötn og tjarnir botnfrusu, og þegar ísinn þiðnaði, komu stórar hrannir af dauðum fiskum upp á yfirborð vatnsins, og lagði megna ódaun af þeim um vorið, er þeir tóku að rotna. Kornið, sem sáð hafði verið um haustið, vínviðurinn og ávaxtatrén eyðilögðust, og jarðarávextir og önnur matvæli skemdust af frosti, jafnvel þar sem hlýjast var.

Þennan vetur bar svo við, að drengur einn frá Savoien var að hröklast um göturnar í bænum Luneville í Lothringen á Frakklandi. Hann átti engan að; foreldrar hans voru dánir, og bróðir hans, sem hingað til hafði verið einkatraust hans og athvarf, hafði tekið að sér að flytja póstsendingar til og frá bænum Nancy til að vinna sér inn með því nokkra franka; en eins og altítt var um ferðamenn það ár, hafði hann orðið úti, og var hann fluttur dauður heim aftur. Hversu vel sem ferðamennirnir voru útbúnir og sveipaðir kápum og ábreiðum, gátu þeir þó ekki varið sig gegn kuldanum. Stundum bar það við, þegar póstvagn kom að áfangastað, og enginn kom út úr honum, því bæði ökumaðurinn og þeir, sem höfðu keypt sér far með honum, voru dauðir úr kulda.

Veslings munaðarlausi drengurinn hafði dálítið að gera á daginn, að bursta skó og fleira, og margir þeirra, sem sáu hann á götunni, grátandi og skjálfandi af kulda, gáfu honum smápeninga. En á næturnar

leið honum ekki vel. Á meðan eldri bróðirinn var á lífi, höfðu þeir haist við báðir saman í timburskúr, en nú var kuldinn svo mikill, að þar var ekki líft lengur. Kona ein, sem gift var hestamanni hertogans í Lothringen, sá þá aumur á honum og útvegaði honum leyfi til að sofa í fénaðarhúsi hertogans. Þegar drengurinn kom þangað um kvöldið, var komið myrkur. Hann fálmaði fyrir sér með höndunum til að finna sér hlýjan stað og fann þá fyrir sér járngrindur nokkrar. Á bak við þær fann hann að var bosabyngur, og tróð hann sér því inn fyrir grindurnar til að leggjast niður á mosann. Hefði bjart verið, mundi hann ekki hafa þorað það, því fyrir innan grindurnar var grimt bjarndýr, sem hertoginn átti. Þegar björninn varð var við gestinn, réðst hann þegar að honum og urraði grimmúðlega. Sá þá drengurinn sér bráðan bana búinn og fól sálu sína í guðs hendur. En björninn tók drenginn, sem var nær dauða en lífi af kulda og hræðslu, og þrýsti honum að sér með hrömmunum, svo að hann fékk hlýrra og mýkra legurúm en hann hafði lengi haft. Hann hafði ekki getað sofið í margar nætur fyrir kulda, en sofnaði nú brátt og svaf vært til næsta morguns.

Um morguninn vaknaði hann hress og með endurnýjuðum kröftum, skreið út úr búrinu og gekk út í bæinn til að innvinna sér eitthvað. Um kvöldið sneri hann aftur til bjarnarins, sem beið hans og hafði jafnvel geymt nokkuð af mat sínum handa honum, hveitibrauð og fleiri leifar af borðum hertogans. Hann lagðist aftur til svefns hjá loðnu fóstrunni sinni, og svaf hjá henni eins vel eins og í bezta rúmi með dúnsængum.

Þannig var hann 5 nætur í bjarnarbúrinu án þess nokkur vissi af. En sjöttu nóttina svaf hann yfir sig. Pilturinn, sem færði bjarndýrinu mat, varð þá um morguninn mjög óttasleginn, er hann sá drenginn í klóm bjarnarins; en bjarndýrið lét mjög ófriðlega, þegar skjólstæðingur þess var ónáðaður. Skömmu síðar vaknaði drengurinn, og undruðust menn mjög, er hann kom glaður og heill á húfi út úr bjarnarbúrinu.

Atburður þessi barst fljótt út og þótti mjög einkennilegur. En nú vildi drengurinn ekki fara inn í búrið aftur, því hann fyrirvarð sig fyrir að sofa hjá bjarndýri. Fyrir beiðni Leópolds hertoga gerði hann það þó einu sinni, til þess að börn hertogans gætu fengið að sjá þessa fágætu sjón.

Hertoginn lét nú gefa drengnum föt, kom honum í skóla, og tók hann síðan í þjónustu sína. Varð umkomulausi flökkudrengurinn síðar dugandi og vel metinn maður. En aldrei gleymdi hann að þakka guði fyrir hina vísdómsfullu vernd og umhyggju, er hann hafði notið, þegar honum lá mest á.

(Úr „Fort. for Ungd.“)

# Leikar.

## I.

### Jakob, hvar ertu?

Meðal þeirra, er taka þátt í leiknum, eru valdir tveir, og bundið fyrir augu þeirra.

Annar þeirra er húsbóndi, og hefir hann bolta í hendinni, og á hann að reyna að

ná hinum. Hinn, sem er drengurinn Jakob, hefir klukku i hendinni. Hinir raða sér síðan í stórum hring í kring um þá, og byrjar þá eltingaleikurinn.

Þegar húsbóndinn spyr: „Jakob, hvar ertu?“ á Jakob að svara honum: „Hér“, og jafnframt hringja með klukkunni og reyna að forða sér. Þegar húsbóndinn getur hitt hann eða náð honum, er leikurinn úti, og aðrir taka við af þeim.

II.

**Köttur og mús.**

Af þeim er taka þátt í leiknum, eru kjörnir tveir, helzt drengur og stúlka, til þess að tákna kött og mús. Hinir halda hver í hendurnar á öðrum, og mynda þannig hring. Kötturinn vill náttúrlega komast inn í hringinn, þar sem staður músarinnar er, og veiða hana, en þeir sem eru í hringnum hindra hann með því að láta hendurna síga niður. Geti hann þrátt fyrir þetta komist inn fyrir, sleppa þeir músinni út fyrir, en reyna að halda kisu kyrri inni í hringnum.

Leikurinn heldur þannig áfram, þar til kötturinn að lyktum annað hvort hefir náð músinni eða snert hana, og þeir (eða þær) er kötturinn fór seinast í gegn um hringinn hjá, verða köttur og mús næst.

Þeir sem eru í hringnum, eiga að ganga í hring, en eigi standa kyrrir, og bezt er, að karl- og kvennmaður séu á víxl í hringnum.

III.

**Pokahlaup.**

Við þennan leik er heppilegast að leikflöturinn sé á grösugum vel sléttum bala, eða þá á sandsléttu eða þar sem leikendurnir geta dottið án þess að meiða sig. Þeir er taka þátt í hlaupunum, setja fæturna niður í poka, og binda pokaopið um mittið á sér, og ef það á að verða enn hlægilegra, þá um hálsinn, og reyna síðan allir að hlaupa að takmarki því, er þeim hefir verið sett. Sá er fyrstur nær því, er sigurvegarinn.

---

**Eldspítnaþraut.**

27 eldspítur eru lagðar þannig:



Hvernig á nú að taka 9 eldspítur burt svo, að eftir verði *ellefu*?

---

☛ Myndin á fyrstu síðu er úr skemtisögu í heimilisblaðinu „Hauk hinum unga“.

---

**Gjalddagi „Æskunnar“** er í April, *og* eru kaupendurnir vinsaml. beðnir að gera skil á borguninni svo fljótt sem þeir geta.

Sérstaklega eru þeir, sem enn skulda fyrir *IV. árgang*, ámintir um að senda borgunina sem fyrst, eða í öllu falli láta útg. vita, hvernig á drættinum stendur.

---

☛ Þeir útsölumenn „ÆSKUNNAR“, sem ofsent kunna að hafa fengið

*3. og 4. tölubl. af V. árg.*

blaðsins, eru beðnir að senda leifarnar til baka til afgr. m. hið fyrsta.

---

**I. og II. árg. „Æskunnar“** eru á förum. Getur útg. því ekki ábyrgst, að nýir kaupendur að blaðinu geti fengið þá framvegis.

---

☛ **Úrsagnir** úr „Æskunni,“ skriflegar, bundnar við árgangamót, (1 okt.), ógildar nema komnar séu til afgreiðslumanns **fyrir 1. ágúst**.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. JÚNÍ 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 18.—19.

## Botnvörpuskip.

—:o:—

Það eru víst fá börn hér á landi, sem hafa ekki heyrt getið um botnvörpunga, og usla þann og óskunda, sem álitið er að



þeir komi til leiðar á fiskimiðunum í kring um landið. Botnvörpuveiðar eru ekki gamlar og eru þær ekki tíðkaðar fyr en kemur æði langt fram á 19. öld. Var þeim fyrst beitt í Norðursjónum milli Englands og Hollands og Þýzkalands; en smámsaman hafa botnvörpungar fært sig norður á við, til Færeyja og hingað til Íslands. — Botnvörpuveiðar verða að eins stundaðar á gufuskipum. Veiðarfærið, botnvarpan, er afar-stórt pokanet eða háfur, svo þétt riðið, að smá-silungur getur ekki smogið út úr því, og að sama skapi er það afar-sterkt. Er neti þessu varpað til botns; járnteinn liggur í opinu að neðanverðu til þess að halda netinu fast að sjávarbotni, en til beggja hliða eru stórir, járnslegnir hlerar úr tré til þess að halda netinu opnu, en í þá gengur strengur úr skipinu, og leikur strengurinn á hjóli. Er nú skipið látið ganga hægt og hægt áfram fyrir gufuafli. Dregst þá varpan með botninum og alt það,

er fyrir henni verður, hlýtur að mokast inn í hana. Kennir þar margra grasa. Það eru kolar og lúður, og þykir botnvörpungum mestur fengur í þeim, og hirða naumast annað úr vörpunum; en auk þess er oft ógrynni af þorsk, ýsu, skötu, skeljum, kröbbum, ígulkerjum og öðrum sjávardýrum. Þegar botnvörpuskipið hefir dregið vörpuna æði langan veg á eftir sér, er varpan dregin upp, en bæði er hún þung í sjálfri sér og þar að auki er hún oft meira eða minna full af alls konar skepnum. Er því allsendis ómögulegt að draga hana upp með handafli, enda er gufuvélin látin hafa fyrir því. Þegar búið er að innbyrða vörpuna, er kolinn og heilagfiskið tínt úr, slægt og hreinsað og sett í ís, sem geymdur er í skipinu. Öllu öðru er vanalega varpað útbyrðis aftur, og er það flest kramið til dauðs eða kafnað í vörpunni. Er það oft margfalt meira, en það sem notað er. Er því flestum illa við botnvörpuveiðar öðrum en þeim, sem beinlínis stunda þær, því flestir óttast að svo muni fara að lokum, að fiskiveiðar taki mjög að þverra á fiskimiðum. Að vísu er sjórinn allur afar-víðáttumikill, en fisk er ekki hægt að veiða nema nema örskamt út frá löndum, því bæði er dýpið meira en svo, þegar utar dregur, að mögulegt sé að draga fisk, og þar að auki er að tiltölu lítið af fiski í úthafinu.

Botnvörpuskip mega ekki stunda veiðar nær landi en ³/₄ úr mílu eða 3000 faðma, ella sæta þeir sektum, og afli sá, sem í skipinu er, er gerður upptækur ásamt veiðarfærum og alt selt við opinbert uppboð.

Botnvörpuveiðar verða ekki stundaðar á meira en 100 faðma dýpi í hæsta lagi, ella verður varpan of þung. Varast verður að draga vörpuna um þar, sem botninn er grýttur, því þá rifnar hún og ónýtist. Sækjast botnverpingar því eftir að geta verið á sandmiðum og leirflákum nærri landi, og hafa sumir Íslendingar leikið það að vísa útlendum botnvörpuskipum á þau fiskimið, þar sem hægt væri að nota botnvörpur, og löndum vorum væri mestur skaði að.

# Föðurlandsást.

[Saga úr ófriðnum milli Frakka og Þjóðverja 1870.]

Hún hét Suzel Hopfer réttu nafni, en frægur málari frá París hafði kallað hana Timide.

Málarinn kom til Hopfers föður hennar á ári hverju, því, honum þótti svo aðdáanlega fagurt útsýni þar; hann dvaldi þar stuttan tíma, og þegar hann fór þaðan aftur, voru teiknibækur hans fullar af ýmisskonar myndum.

Þegar Suzel var orðin 6 ára gömul, tók málarinn eftir því að hann gæti notað hana til þess að búa til fyrirmyndarmynd af henni. Dró hann upp myndina, og kom þá önnur Suzel í ljós, fölleit og smágjör, með feimnislegu brosi, löngum, ljósum fléttum og horfði hún niður fyrir sig. Kallaði málarinn mynd sína Timide (Sú huglitla) og festist nafn þetta við barnið sjálft.

Málverkið komst á sýninguna í París og varð víðfrægt þar, en barnið var kyrt á sama stað heima hjá foreldrum sínum; en nafnið Timide átti svo vel við telpuna, að hún var kölluð svo af öllu heimilisfólkinu, bæði Frantz, elzta syninum, sem var orð-

inn sveitarforingi í hernum til mikillar gleði og ánægju fyrir föður hans, og eins af Vilhjálmi, sem var yngstur drengjanna. Öllum bræðrunum þótti mjög vænt um litlu systur sína, sem var yngst allra barnanna, og þótt þeir væri djarfir og karlmannlegir, er þeir áttust við innbyrðis, voru þeir bæði blíðir og varkárir, er þeir léku sér eða gerðu að gamni sínu við hana, eins og þeir tækju á litlum fugli, sem varlega þarf að fara með. Brosti móðir þeirra að því, og hugsaði sér hvílík gæfa það væri, að þessi huglitla systir væri á heimilinu, því ella kynnu drengirnir að verða nokkuð ærslafullir og hávaðagjarnir.

Bændafólk þetta átti heima í héraðinu Elsass, austast á Frakklandi, við landamerki Þýzkalands. Liðu nú tímar fram. Sumar fór eftir vetri og vetur eftir sumri.

Timide litla óx upp og varð æ fegri og fegri; var svo sem væri hún góður engill á heimilinu, og friður og gleði var alstaðar i kring um hana, hvar sem hún var.

Þá var það eitt sinn um síðari hluta dags, að Hopfer sat fyrir utan bæjardyrnar heima hjá sér. Hafði verið hiti mikill um daginn, og andaði hann að sér kvöldloftinu. Timide sat í knjám hans, og biðu þau eftir því, að bræðurnir kæmu heim úr kaupstaðnum, en telpan bað föður sinn að segja sér sögu á meðan. Hafði Hopfer verið hermaður og sagði henni frá orustum þeim, er hann hafði tekið þátt í. Hlustaði hún á hrifin í huga, og orðin föðurlandsást og hreystiverk grófust djúpt inn í þessa ungu og barnslegu sál.

Alt í einu þagnaði faðir hennar, því hann sá til sona sinna uppi á brekkunni. En þeir voru fimm saman! Og það stirndi á gljáandi málmhnappana í einkennisbúningnum hans Frantz, þar sem hann gekk meðal hinna, er voru í bláum léreftstreyjum. En hví voru þeir svo hljóðir? Hafði nokkurt slys viljað til?

Frantz tók ofan, þegar hann var kominn rétt að föður sínum. Hann var fölur útlits, en eldur brann úr augum hans. „Eg fer til þess að berjast fyrir Frakkland. Það er kominn ófriður milli vor og Þjóðverja“.

Gamli maðurinn stóð í sömu sporum um stund. Það komu ekki mörg fréttablöð þangað í þorpið, og Hopfer hafði ekki heyrt neitt af því, sem hafði borið við síðustu dagana. En Frants hafði áður sagt honum, að her Þjóðverja væri ágætlega búinn til víga. Frantz var duglegur herforingi. Hafði hann verið sendur til Þýzkalands í erindum hersins, og þegar þeir feðgarnir voru tveir einir, hafði hann oft sagt föður sínum, að hann bæri kvíðboga fyrir því, að her Frakka væri illa til ófriðar búinn, ef bráðan bæri að. Hopfer mundi eftir þessu, en hann tók einnig ofan og svaraði að eins: „Gerðu skyldu þína! Guð varðveiti Frakkland!“

Enginn tók eftir litlu stúlkunni, sem varð enn fölari, en hún átti vanda til, og enginn heyrði, þegar hún endurtók með barnslegri rödd orð föður hennar: „Guð varðveiti Frakkland“. Enginn sá grátfögru augun tindrandi milli táranna.

Rólegt hafði verið í Elsass fram til þessa; þar höfðu haldist gamlir siðir og ættfaðirinn réði þar lögum og lofum. Nú var sem alt héraðið vaknaði af svefni, þegar glaumurinn heyrðist í hersveitunum, sem komu vestan að og fóru austur til landamæranna, ákafar af vígamóði. Hermenn-

irnir sungu föðurlandssönginn, einkennisbúningur foringjanna tindraði í sólskininu. Allir voru glaðir og fjörugir, því þeir vonuðu þess, að koma sigri hrósandi aftur heim til sín.

Timide horfði á herskarana, sem fram hjá fóru, og allar þær sögur, er faðir hennar hafði sagt henni, rifjuðust upp fyrir henni og kveyktu nýtt líf í sálu hennar. Henni fanst sem hún heyrði dunur fallbyssnanna og sæi hina voðalegu bardaga, gunnfánana og hina sigruðu óvini. En hún hugsaði einnig um þá særðu og föllnu, um hann bróður sinn, sem var í svo mikilli hættu staddur. Því hún vissi að Frantz bróðir hennar var svo hraustur, og því mundi hann berjast í fremstu röð. Hún var viss um það, að aldrei léti hann óvinina ná merkinu sínu, sem hann unni svo mjög og hóf svo hátt, þegar hersveit hans fór fram hjá með hljóðfæraleik og bumbuslætti.

En það var líka öldungis ómögulegt, að Frantz yrði særður! Hann var með verndargrip á brjósti sér; það var fallegur minnispeningur, sem Timide hafði gefið honum, og sem hann hafði lofað að bera sífelt á sér. Það gat ekki hugsast, að nein kúla hitti hann! Þessi trú og hugrekki barnsins huggaði aftur móður þeirra, sem hafði verið svo sorgbitin og kvíðafull yfir því, að elzti drengurinn hennar færi út í opinn dauðann.

Ekki þurfti þó að óttast það, að óvinirnir kæmu þangað heim, því Hopfer átti heima æði langt frá landamærunum. Aftur á móti áttu þau vini og kunningja austur við Rínfljótið, sem þau vorkendu mjög. Reyndar héldu allir, að orusturnar mundu háðar fyrir austan Rín, inni á Þýzkalandi, og var því ekki ástæða til að kvíða neinu fyrir fram.

Hopfer gamli talaði ekki orð frá munni um ófriðinn. Hann gekk niðurlútur, eins og hann væri sífelt að velta einhverju fyrir sér, og stundum heyrði Timide hann vera að muldra fyrir munni sér:

„Honum skjátlast, honum Frantz! Það er ómögulegt. Það getur ekki komið fyrir“.

Hvað var það, sem gat ekki komið fyrir? Timide gat ekki getið sér þess til, og faðir hennar var ætíð svo alvarlegur, að hún þorði ekki að spyrja hann að því.

Því miður leið ekki á löngu, áður Timide fekk að vita það.

Það, sem gat ekki komið fyrir, var að eiga að horfa upp á það, að hermennirnir, sem höfðu gengið svo vongóðir í gegnum þorpið, kæmu aftur tvístraðir, sigraðir og fullir örvæntingar, að sjá það, að óvinaherinn flæddi yfir Elsass, og færi þar um alt með báli og brandi, en Frakkar hefðu beðið ósigur og yrðu að lúta óvinum sinum.

Þrír bræðranna höfðu farið í ófriðinn á eftir Frantz; og gamli maðurinn hann faðir þeirra hafði meira að segja lagt af stað að heiman með byssu á öxl sér.

Vilhelm og Timide voru ein eftir hjá móður sinni til þess að taka móti sigurvegurunum og veita þeim beina.

Þetta var það, sem gat ekki komið fram, en nú var það þó komið fram.

---

Það var einn dag, að Prússar höfðu farið úr þorpinu. Komu þangað þá nokkrir frakkneskir hermenn, umkringdir af hættu á alla vegu. Kallaði Vilhelm þá inn, svo þeir gætu hvílt

sig stundarkorn, en þeir voru örmagna af þreytu, og bauð hann þeim dálitla lögg af víni, sem tekist hafði að fela fyrir Prússum.

Foringi flokksins var kornungur maður. „Það er ómögulegt, að bæta okkur manntjón það, er við höfum beðið. Með okkur var maður héðan frá Elsass. Var hann bæði bumbuslagi og leiðsögumaður, en aumingja drengurinn varð óvígur af sárum í gær, svo við urðum að skilja hann eftir“.

Vilhelm stóð upp.

„Takið mig, herra sveitarforingi. Eg skal koma í staðinn fyrir hann.

Foringinn hristi höfuðið. „Þú ert barn enn þá“, mælti hann.

„Eg er sextán ára og eg er sterkur. Fjórir bræður mínir eru hermenn, og hann faðir minn er í lausahersveitunum, og eg er viss um, að hún móðir mín vill ekki hamla mér að fara. Þið getið spurt hana að því“.

Um kvöldið var vesalingurinn hún Timide ein eftir hjá henni móður sinni.

---

Nú leið og beið, en æ varð ástandið verra og verra. Hersveitir óvinanna fóru öðru hvoru um þorpið, ruplandi og rænandi, en þar var nú naumast neitt eftir, sem fémætt var.

Stundum heyrðu þær mæðgurnar náttuglu væl. Það var merkið, sem Hopfer gamli gaf, þegar hann kom heim fölur og magur, og hafði sorg og harmur beygt hann meira en elli, enda þótt hann hefði nú orðið átta um sextugt. Flýtti hann sér að borða brauðbitann, sem geymdur hafði verið handa honum. Að svo búnn kvaddi hann ástúðlega konu sína og barnið sitt og flýtti sèr að komast á brott inn í skóginn, því hann vildi ekki eiga það á hættu að verða tekinn höndum heima og verða skotinn fyrir augunum á konu sinni og barni sínu, en við því máttu allir þeir búast, sem höfðu tekið vopn í hendur, án þess að vera meðal reglulegra hersveita.

Hvernig stóð á því, að jafn-huglitið barn og Timide var fekk hugrekki til að þola þessar þjáningar? Hún gekk um á heimilinu, sem var nærri mannlaust, föl og kinnfiskasogin, en sjaldan grét hún og aldrei kvartaði hún. Stundum var augnaráð hennar svo sljótt og dauft, að svo leit út, sem aumingja barnið væri skilið við. Hún var auðsjáanlega of ung til þess að afbera slíka sorg jafn-veikluleg og hún var.

Eitt kvöld komu góðar og gleðilegar fréttir.

Svo var sagt, að orusta hefði verið háð, en að Þjóðverjar hefðu ekki sigrað í þetta sinn, og Frakkar væru að nálgast þorpið.

Um nóttina var barið að dyrum. Móðirin flýtti sér að ljúka upp . . . . . Ef það væri nú frakkneskur hermaður!

Já, það var frakkneskur hermaður, eins og hana hafði grunað. Var hann svartur í framan af tóbaksreyk, útataður af ryki og leir, og einkennisbúningur hans allur gauðrifinn. Gaut hann augunum órólega í kring um sig, stóð á þrepskildinum og hvíslaði hljóðlega:

„Þeir voru búir að taka mig höndum, en eg komst þó undan. Eg kem til að segja ykkur, að Frantz er særður og búið að handtaka hann. Hann liggur í bænum sem er skamt héðan. Farið ekki þangað, það þýðir ekki neitt, þið fáið ekki að sjá hann, og auk þess er eg hræddur um . .

. . já, eg held, að það yrði um seinan. En eg hefi lofað honum að færa ykkur síðustu kveðju hans. „Segðu þeim“, mælti hann, „að eg elski þau og síðast muni eg biðja bæði fyrir þeim og Frakklandi, föðurlandi mínu. Segðu þeim líka, að eg geymi á mér helgan dýrgrip“ — meira gat eg ekki fengið að vita, því við vorum skildir í sundur, og svo hepnaðist mér að flýja. Eg ætla að leita að hersveitinni minni; en ef þið eigið mögulegt með, þá segið gamalmenninu henni móður minni, henni Önnu Louise í Mulhouse, að þið hafið séð mig, og að eg sendi henni ástarkveðju mína“.

Að svo mæltu var hann horfinn.

(Niðurlag næst.)

---

# Tyrfingur.

[Fornaldarsögur Norðurlanda I.].

Konungur hét Sigurlami; svo er sagt, að hann væri son Óðins; hans son hét Svafurlami; hann tók ríki eftir föður sinn; hann var hinn mesti hermaður. Og einn dag, er konungur reið á veiðar, og hann varð einn sinna manna, hann sá einn stein mikinn við sólarsetur, og þar hjá dverga tvo; konungur vígði þá utan steins með málasaxi; þeir beiddu fjörlausnar. Konungur mælti: Hvað heitið þið? Annar nefndist Dvalinn, en annar Dulinn. Konungur mælti: Af því að þið eruð allra dverga hagastir, þá skuluð þið gera mér sverð, sem bezt kunni þið; hjöltin og meðalkaflinn skal vera af gulli; það skal svo bíta járn sem klæði, og aldrei ryð á festast; því skal fylgja sigur í orustum og einvígum, hverjum er ber. Þessu játtu þeir. Konungur ríður heim. Enn er stefnudagur kemur, þá ríður konungur til steinsins; eru þá dvergarnir úti, og fengu konungi sverðið, og var hið fríðasta. En er Dvalinn stóð í steinsdyrum, þá mælti hann: Sverð þitt, Svafurlami, verður manns bani hvert sinn er brugðið er, og með því skulu unnin vera þrjú níðingsverk; það skal og verða þinn bani. Þá hjó konungur sverðinu til dverganna; hlupu þeir í steininn; höggið kom og í steininn, og fal báða eggteina, því að dyrnar lukust aftur á steininum. Konungur kallaði sverðið Tyrfing, og bar hann jafnan síðan í orustum og einvígum, og hafði jafnan sigur. Konungur átti dóttur, er hét Eyfura; hún var kvenna vænst og vitrust. Arngrímur var þá í víking í austurveg um Bjarmaland; hann herjaði í ríki Sigurlama konungs og átti orustu við hann, og áttust þeir vopnaskifti við, og hjó konungur til hans. Arngrímur kom fyrir sig skildinum, og tók af skjaldarsporðinn, og nam sverðið í jörðu staðar. Þá hjó Arngrímur af konungi höndina, og féll þá niður Tyrfingur; Arngrímur þreif sverðið Tyrfing, og hjó með konunginn fyrst og síðan marga aðra; tók hann þar herfang mikið og flutti brott með sér Eyfuru konungsdóttur, og flutti hann hana heim til bús síns í Bólm; hann átti með henni tólf syni: Angantýr var elztur, þá Hervarður, þá Hjörvarður, Sæmingur og Hrani, Brámi, Barri, Reifnir, Tindur og Búi, og tveir Haddingjar, og unnu þeir báðir eins verk, því að þeir voru tvíburar og yngstir; en Angantýr vann tveggja verk, hann var og höfði hærri enn aðrir menn; allir voru þeir berserkir, og umfram aðra menn að afli og áræði; en þó að þeir færi í hernað, þá

voru þeir aldrei fleiri á skipi en tólf bræður. Þeir fóru víða um lönd að herja, og voru mjög sigursælir, og urðu hinir frægustu. Angantýr hafði Tyrfing, en Sæmingur Mistiltein, Hervarður Hrotta, og allir höfðu þeir ágæt hólmgöngusverð; en það var siðvenja þeirra, þá er þeir voru með sínum mönnum einum, að þá er þeir fundu, að berserksgangur kom að þeim, fóru þeir á land upp, og brutust við skóga, eða stóra steina, því að þeim hafði það orðið, að þeir höfðu drepið menn sína, og hroðið skip sín; stórar sögur fóru af þeim og mikil frægð.

(Niðurlag næst.)

# Slæmur banki.

„Hvað hafið þið að leik?“ spurði *Stephán* kaupmaður, þar sem hann stóð upp við skíðgarðinn og horfði á 2 litlu börnin sín, *Dagbjört* og *Tómas*, sem sýndust vera í óða-önnum.

„Við erum að leika banka. Faðir hans Jóns leggur í banka, og hann á líka sand af peningum og inndælt hús. Jón á þess vegna marga fallega hluti, og skemtilegt á hann, — já, miklu betra og skemtilegra en við. Nú höfum við búið okkur til banka — já, marga banka, hérna í moldarhaugnum; þar höfum við látið brúðuna hennar Dagbjartar og hárbandið, og eg hefi látið þangað skopparakringluna mína og skildinginn; — alt er grafið ofan í bankann. Jón hefir sagt okkur, að ef við látum eitthvað í bankann, þá fengjum við peninga fyrir það. Það væri einmitt það sem gerði menn ríka. Eða er það ekki?“ spurði Tómas litli.

Faðirinn svaraði: „Það er undir því komið, hvort bankinn er góður eða ekki. Eg held, að þinn banki sé slæmur. Hann er rakur og veldur því, að það sem þú lætur í hann, fúnar og verður ónýtt. Þú gleymir, hvar þú hefir látið muni þína, og tapar þeim þannig. Nei, það er betra að taka þá burt aftur. — Þetta er enginn banki“.

„Þá er þinn banki heldur enginn banki“, sagði Dagbjört litla og þótti fyrir.

„Ó, eg hefi nú ekkert við banka saman að sælda; eg get ekki hrósað mér af því“, sagði faðirinn.

„Jú, víst hefir þú afskifti af banka“, hrópaði litli Tómas. „Hann Samúel hefir sagt mér að bankinn þinn væri knæpan í Vesturgötu. Hann segir, að þú leggir alt í þann banka“.

„Ó, það væri betra að hann fengi ráðningu fyrir dónaskapinn, fanturinn sá. Eg hefi ekki gert það“, svaraði Stephán reiður.

„Hann sagði, þú hefðir látið kúna okkar þangað. Er það satt?“ spurði Dagbjört.

„Hann sagði líka, að þú legðir þar inn allan tíma þinn“, bætti Tómas við.

„Hann sagði líka, að þú létir þangað alla peninga þína“, sagði Dagbjört í barnslegri einfeldni.

„Heilsu þína líka“, hrópaði Tómas litli. Stephán varð mjög órór yfir þessari orðagnægð; alt rak hvað annað.

„Og hann sagði, að þú fengir aldrei aftur það, sem þú hefir látið þangað“, sagði Dagbjört litla. „Segðu mér, faðir minn, er það satt?“

„Hann sagði, að þú mundir bráðum láta þangað búðina þína og heimili okkar“, sagði Tómas, stóð upp og dustaði af sér moldina.

„Og að við mundum verða heimilislausir betlarar“, sagði Dagbjört litla og andvarpaði. „Verður það, faðir minn? — Nei, það verður ekki“.

„Nei, það skal ekki verða“, svaraði faðirinn. — „Nei, það skal aldrei verða“.

Hann gekk í burt frá börnunum og settist niður á trébekk þar skamt frá, og fór að hugsa um, hvers konar banki það væri, sem hann hefði haft viðskifti við.

Hann hafði lagt inn í hann viljakraft sinn og góðan orðstír, og það var nærri því alt saman tapað. Samband hans við heimilið, heimilisgæfa hans og ánægja — — alt var á förum.

Og sálarfrið konunnar sinnar. — Ó hvað hún var orðin föl og veikluleg. — Já, hann sá hana nú. Var hún ekki einmitt núna að gráta yfir forlögum sínum og framtíð barnanna sinna. Ó, sál mín! — Mín eigin sál! — „Enginn drykkjmaður mun erfa guðsríki.“ — Var hann þá í sannleika glataður?

Hann flýtti sér inn í húsið. „María, María! — Eg hefi fastráðið, að koma aldrei framar inn á nokkra brennivíns-krá; eg sé að það er mín og okkar eyðilegging. Hjálpa þú mér, María! — Bið þú guð með mér um, að hann gefi mér mátt til að hætta því, annars er eg glataður maður.“

---

Upp frá þessum degi varð hann annar maður, og hann kom aldrei framar inn fyrir dyr á veitingahúsinu í Vesturgötu.

---

# Leikar.

## IV.

### Hlaupa í skarð.

Þeir er taka þátt í leiknum, halda hver í hendurnar á öðrum og mynda hring, nema einn, sem er fyrir utan hringinn, og á að slá einhvern laust á öxlina. Sá, sem sleginn er, verður þá að yfirgefa stað sinn, og hlaupa í mótsetta átt við þann, sem slær; sá sem fyrri verður, öðlast staðinn að verðlaunum, en hinn, er verður seinni, verður að vera fyrir utan hringinn. Leiknum ber að halda áfram. þar til að allir hafa verið fyrir utan hringinn. Leikur þessi er fjörugur, og bezt að leikstaðurinn sé sléttur bali, eins má einnig viðhafa hann í stórum sal.

---

**Ráðning**

á eldspítnaþrautinni í síð. blaði:

ELLEFU

---

**Gáta.**

MUNAÐ æ ,÷ m M I ÷ n

(Í gátunni felst íslenzkur málsháttur.)

„Æskan“ kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1,20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun $^1/_5$, gefin af minst 3 eint.

**Afgreiðsla** blaðsins er í Vesturgötu 21.

☞ **Úrsagnir** úr „Æskunni,“ skriflegar, bundnar við árgangamót, (1 okt.), ógildar nema komnar séu til afgreiðslumanns fyrir 1. ágúst.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

| V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. JÚLÍ 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 20.—21. |
|---|---|---|---|---|

## Skip frá miðöldunum.

—:o:—

SJÓFERÐIR hafa tíðkast frá alda öðli, og allar þær þjóðir, er búa við sjó, ár eða vötn, hafa átt skip frá því löngu áður en sögur hófust, þótt þau hafi verið æði misjöfn að lagi og útliti. Jafnvel tröllin áttu að hafa haft skip, og í þjóðsögunum er sagt frá því, að þau hafi átt að nota steinnökkva. Villimenn hafa flestir eintrjáningsbáta, viðarbol, mjórri til beggja enda og holaðan innan.

Skrælingjar á Grænlandi búa til grind úr tré og þenja utan á hana selskinn. Eyjaálfubúar og ýmsar aðrar þjóðir hafa sitt borðið fest við hvorn borðstokkinn, og liggja þau lárjett beint út frá bátnum og hindra það, að báturinn geti farið á hvolf. Aðrir festa tvo báta samsíða í sama skyni. Öll skip voru bygð úr tré fram eftir öllu, að því einu undanteknu, að stefnið á herskipum var oft járnvarið, og alment hefir verið, að negla eirþynnur utan á það af skipinu, er ávalt var í sjó, til þess að verja



tréð fyrir trjámaðki, sem getur gjörskemt skipið á skömmum tíma. Herskip og önnur vönduð skip voru lengi bygð úr eik, því að hún er miklu sterkari og endingarbetri en annað tré. Nú eru mörg skip bygð úr járni, einkum hin stærri, og jafnvel líka siglurnar. Virðist það kynlegt, þar sem járn sökkur í vatni, en svo er þó ekki, sé járnið holt innan og nægilega stórt, því þá er það léttara en vatn, sem hefir jafnmikla fyrirferð.

Elzta hreyfiafl skipa er að knýja þau áfram með árum eða róa, þ. e. spyrna í sjóinn. Grænlendingar hafa eina ár tvíblaðaða og dýfa henni í á víxl. Smábátum er og oft róið með einni ár aftan á, sem snúið er í sjónum. Á stórskipum fornaldarmanna voru oft margar áraraðir hver yfir annari. Voru þau eftir því kölluð tvíröðungar, þríröðungar, fjórröðungar og jafnvel fimmröðungar. Var þá árunum stungið út um göt á borðstokknum og voru þær því lengri, sem hærra dró. Væri byr, voru árarnar dregnar inn og speldum hleypt fyrir götin.

Segl hafa verið notuð afarlengi og eru

þau æ að verða fullkomnari. Stærstu seglskip eru nú með 6—7 siglum. Íbúar á Indlandseyjum hafa segl fléttuð úr pálmablöðum. Forfeður okkar, sem mikið bárust á, höfðu sumir stöfuð segl (röndótt) og þótti það bera vott um hið mesta skraut. Stafnarnir voru og oft útskornir, með drekahöfði að framan, en sporði að aftan.

Árið 1807 var fyrsta gufuskipið sett á flot í Ameríku. Hét sá maður Robert Fulton, er fyrstur gerði það. Nú er næstum helmingur allra haffærra skipa gufuskip. Sumir bátar eru knúðir áfram með rafmagni.

Fram eftir öllum öldum voru skip miklu háreistari á sjónum eftir stærð, en þau eru nú, yfirbyggingin miklu meiri. Voru þau því miklu verri í sjó að leggja.

Árarnar voru notaðar á haffærum skipum samhliða seglunum fram eftir öllum öldum.

Þá þótti undur, ef skip komu hingað tvisvar frá Noregi sama sumarið. Nú má fara milli Englands og Ameríku á 5—6 sólarhringum.

## „Vitlausa Berta.“

Það kölluðum við hana.

Eg man svo glögt eftir því, hvað okkur krökkunum þótti gaman að kalla á eftir henni: „Vitlausa Berta! Vitlausa Berta! Komdu og taktu okkur!“ Og eg man líka, hvernig gamla konan, sem var há vexti, mögur og hvít fyrir hærum, veifaði stafnum á eftir okkur og reiddi hann hátt til höggs, og það með þvílíku augnaráði, að okkur þótti ráðlegast að láta hana ekki ná í okkur. Aldrei varð þó af því, að hún lumbraði á neinum. Við vorum fljótir á fæti og héldum okkur alt af kippkorn frá henni; og þó það kæmi fyrir, að einhver af þeim minstu kæmist ekki nógu fljótt undan, og Berta gamla næði í hann, þá barði hún hann þó ekki. Hún tók bara í hann, þar sem hann lá örvita og hljóðandi af hræðslu, og reisti hann upp — lamdi svo stafnum í jörðina og tautaði fyrir munni sér: „Óhræsis brennivínið!“

Að þessu hlóum við, þótti það ákaflega skrítið, að hún skyldi kenna brennivíninu um prakkaraskapinn í okkur, og versnuðum æ því meira.

Nú, hættuleg var hún ekki eftir þessu. En þó þorði aldrei neinn okkar að láta hana ná í sig; okkur þótti það óvarlegra, og svo var augnaráðið svo óviðfeldið. Samt gátum við aldrei látið hana í friði, og oft vorum við mjög slæmir við „vitlausu Bertu.“ Það kom fyrir, að við tókum upp steina og gerðum okkur líklega til að kasta þeim í hana, og hún var víst líka sjálf oft hrædd um, að við mundum gera það; en venjulega hættum við við að fleygja steininum, eða þá við fleygðum honum í alt aðra átt. Verulega vondir vorum við í rauninni ekki; en þegar eg nú hugsa um það alt, sem við höfðum í frammi við hana, og hvað við vorum harðbrjósta, þá stingur það mig í hjartað, og eg óska þess, að ýmsar af æskusyndum mínum hefðu ódrýgðar verið.

En það var sagan af henni „vitlausu Bertu,“ sem eg ætlaði að segja ykkur.

Eg hafði aldrei heyrt hana, fyr en einn dag, þegar faðir minn kom að mér, þar sem eg ásamt nokkrum öðrum var að stríða Bertu gömlu, og það öllu meira, en vandi var til.

Faðir minn kom aftan að mér, tók í lurginn á mér og hristi mig duglega. Síðan tók hann mig, að öllum hinum ásjáanda, lagði mig á kné sér og gaf mér nokkur ósvikin högg á bakhluta líkamans með stafnum sínum. Krakkahópurinn stóð kyr og horfði á flenginguna, og þegar eg hljóp heim, grátandi og sneyptur, heyrði eg föður minn segja: „Þetta ættuð þið fá, hver einn og einasti af ykkur, sem ekki getið látið aumingjann í friði! Snautið þið nú heim og skammist þið ykkar!“

Þegar eg sneri mér við í hliðinu, sá eg drengina labba hvern heim til sín, en „vitlausa Berta“ lamdi stafnum í jörðina og tautaði: „Óhræsis brennivínið!“

Allan síðari hluta dagsins sat eg úti í horni og var að lesa, og hlakkaði eg ekki eins mikið til heimkomu föður míns í það skiftið og ella. Eg þekti hann og vissi, að þegar hann varð reiður fyrir alvöru, þá sat það lengi í honum, og eg fann fyrst nú til þess, að það var engin saklaus skemtun, þessi áreitni við vitskertu, gömlu konuna.

Loksins kom faðir minn heim.

Eftir að við höfðum snætt kvöldverð, sagði hann: „Komdu hingað, drengur minn; svo skal eg segja þér dálítið um hana „vitlausu Bertu.“ Þú hefir gott af því að heyra eitthvað alvarlegt; það sýnir framferðið þitt.“

Eg settist beint á móti föður mínum, eftirvæntingarfullur eftir að fá að heyra, hvað það gæti verið, sem hann hefði um „vitlausu Bertu“ að segja.

„Þú mátt ekki ímynda þér, að hún Berta gamla hafi alt af verið svona, eins og hún er nú. Fyrir 40 árum var hún fjörug og lagleg ung stúlka, og þá var það einn fagran vordag, að hún gekk til kirkju með laglegum og myndarlegum ungum manni. Á eftir þeim komu ættingjar þeirra og vinir, allir í sparifötunum, og allir luku upp einum munni um það, að glaðari andlit hefðu þeir aldrei séð en þeirra Bertu og Vilhjálms. Það átti að gifta þau þann dag, og lífið lá fram undan þeim eins og langur og sólbjartur vordagur. Þú getur reitt þig á það, að það var nokkuð annað að sjá hana Bertu þá en núna, þá með langar, brúnar hárfléttur og brúðarkransinn á höfðinu, en nú með höfuðið beygt og hrukkótt af elli og mótlæti, og hárið ekki annað en gráhvítir toppar, sem gægjast fram undan sjaldruslunni. Eg fæ ekki skilið, hvernig þessi sjón getur annað en hrært þig til innilegustu meðaumkunar, jafnvel þótt þú þekkir ekki æfisögu hennar og þær raunir, sem hún rataði í“.

Eg horfði skömmustulegur í gaupnir mér, því eg fann að augu föður míns hvíldu þungt á mér.

„Það var ekkert ríkisheimili, sem þau stofnuðu,“ hélt hann áfram, „en alt var þar samt hreinlegt og þokkalegt, og framtíðinni þurftu þau ekki að kvíða. Vilhjálmur var einkabarn vel efnaðra bændahjóna, og átti hann nú að taka við jörðinni, en foreldrar hans voru hjá þeim og höfðu nokkuð af húsinu til sinna umráða.

Það hefir varla verið til nein hamingjusamari brúður en Berta var, og það líf, er hún nú átti í vændum, var líka hamingjusamt. Tengdaforeldrarnir voru í sjöunda himni af ánægju yfir tengdadótturinni; aldrei höfðu þau neitt út á hana að setja. Það var eins og gleðin og ánægjan fylgdi henni,

hvar sem hún fór, og það var af því að hjartað var gott. Sá, sem hefir gott hjarta, gerir aldrei annað en það, sem gott er.

Að ári liðnu lá lítill glókollur í vögg-unni, og amma gamla sat og vaggaði og prjónaði, og aldrei varð hún þreytt af að horfa á glókollinn; og svo kom afi gamli og læddist á sokkaleistunum til að líta á sonarson sinn, en Berta var við verk sín frammi í eldhúsinu og söng þá öll fallegustu kvæðin, sem hún kunni. Já, á því heimili átti hamingjan heima; en á því urðu snögg umskifti.

Þegar Ólafur litli var orðinn hér um bil missiris gamall, feitur og efnilegur, þá bar svo við eitt kvöld um veturinn í versta veðri, að tveir flakkarar komu og báðu um að lofa sér að vera um nóttina. Vilhjálmur og Berta voru að vísu hrædd við þess konar fólk, því þau vissu, að það er ekki æfinlega gott að eiga mikið við það. En þegar annar flakkarinn skýrði frá því, að konan hans og 3 ungbörn, er hann ætti, sætu úti í vagninum og vonuðust eftir að fá húsaskjól, þá opnaðist bæði hjarta og hús, svo að hjónin tóku með gleði á móti gestunum. Berta grét af meðaumkun með börnunum. Yngsta barnið var bundið á herðar móður sinni og hin tvö héldu stöðugt í kjólinn hennar. Öll voru þau óhrein og grátandi af kulda og þreytu.

Berta setti fyrir þau borð og gaf þeim öllum mat og þvoði þeim. Um konuna og börnin var búið frammi í eldhúsinu, en karlmennirnir áttu að liggja úti í hlöðunni, og fengu þeir skinnfeldi til að hlúa að sér með, svo að þeim yrði ekki kalt.

Ekki vantaði þakkirnar og fagurgalann hjá gestunum, þegar Vilhjálmur fylgdi þeim út í hlöðuna. Bað hann þá nú að vera varkára og fara ekki með neinn eld eða ljós, svo að ekki kviknaði í heyinu. Nei, nei, það var nú svo sem ekki hætt við því.

Þegar Vilhjálmur kom inn aftur, fóru heimamenn að hátta, og innan stundar voru allir komnir í fasta svefn, því þeir, sem hafa gott hjarta og góða samvizku, sofa vært og ugga ekki að sér. Ólafur litli lá í faðmi móður sinnar, og það síðasta, sem hún talaði, áður en hún sofnaði, var blessun yfir barni sínu.

Litlu eftir miðnætti vöknuðu þau Berta og Vilhjálmur við það, að barið var að dyrum hjá þeim og kallað til þeirra. Það var afi gamli, sem stóð þar og fékk loks stamað því út úr sér, að ljós væri í hlöðunni. Hann hefði ekki getað sofið, og hefði litið út um gluggann; þá hefði hann séð ljósið í hlöðunni.

Vilhjálmur smeygði sér í föt og flýtti sér út. Þegar hann kom út, heyrði hann hróp og háreysti, eins og menn væru í slagsmáli. Hann hljóp áfram, og er hann kom að hlöðunni, sá hann sjón, er gerði hann óttasleginn. Mennirnir veltust um á gólfinu, bitust og börðust, og formæltu hvor öðrum. Hjá þeim lágu tvær tómar brennivínsflöskur. En ljósið, sem varpaði birtu yfir alt þetta, kom frá dálitlum kertisstubb, er stungið hafði verið niður í rifu á gólfinu.

Vilhjálmur reyndi fyrst að stilla til friðar, en þeir gáfu engan gaum að því. Ætlaði hann þá að taka kertisstubbinn, svo að þeir feldu hann ekki niður í heyið, en þá stóð annar þeirra upp, viti sínu fjær af reiði og ölæði, hratt honum af afli til hliðar og setti um leið fótinn í kertið, svo að það

hrökk út í heyið, og á skemmri tíma, heldur en þarf til að segja frá því, stóð alt heyið í björtu báli.

Vilhjálmur staulaðist á fætur og út, hálfringlaður af sársauka og örvæntingu. Hann hafði ekki vátrygt og vissi því, að aleiga sín var í veði. Fyrst og fremst hugsaði hann þó um ástvini sína inni í húsinu; þeim varð hann að bjarga. Hann flýtti sér heim á leið. Berta mætti honum í dyrunum með Ólaf litla á handleggnum, og var hún náföl af hræðslu. Hún sá strax, hvernig öllu vék við, og nú var eldurinn þegar kominn upp úr hlöðunni; eldtungurnar gnæfðu hátt við loft og vindurinn þeytti þeim í áttina að íbúðarhúsinu.

Þrátt fyrir óttann hafði hún þó hugsun á að bjarga hinum, sem inni voru. „Opnaðu fyrir gestunum, svo skal eg hjálpa pabba og mömmu,“ kallaði hún til Vilhjálms. Vilhjálmur hraðaði sér burt, og Berta upp stigann með Ólaf á handleggnum til að hjálpa gömlu hjónunum. Þau voru alveg frá sér af hræðslu og gamla konan gat ekki einu sinni komist út úr rúminu.

Eldinum sló nú yfir á húsið, svo að rúðurnar sprungu og herbergið fyltist af reyk.

„Taktu barnið, afi, og flýttu þér út; eg verð að bera hana ömmu.“

Gamli maðurinn tók barnið og staulaðist með það ofan stigann.

„Farðu varlega með hann, í hamingju bænum,“ kallaði Berta á eftir honum. Svo tók hún gömlu konuna í fang sér, og komst einnig ofan með hana, þótt henni veitti það erfitt. Hún var fallin í ómegin, og varð þá Berta að bera hana burt frá húsinu, því hún sá, að eldurinn mundi brátt ná yfirráðum yfir öllum byggingunum.

Hún kallaði til tengdaföður síns: „Flýttu þér eins og þú getur til næsta bæjar með Ólaf, komdu honum ofan í rúm og útvegaðu okkur þar hjálp.“ Gamli maðurinn lagði af stað svo hratt sem hann gat, en Berta tók að nudda snjó um ennið á tengdamóður sinni til að fá hana til að rakna við aftur.

Vilhjálmur hafði nú náð út konunni og börnunum; mennirnir úr hlöðunni voru einnig komnir út, og hafði runnið af þeim ölvíman við óttann, og hjálpuðu þeir nú Vilhjálmi til að bjarga því, sem bjargað varð. En vindurinn óx, og við það æstist eldurinn, svo að björgunar tilraunir voru árangurslausar. Ókunnu mennirnir höfðu þó náð í hest sinn og vagn, og þar eð þeir óttuðust refsingu, flýttu þeir sér að komast af stað út í myrkrið, en konan grét og kveinaði án afláts: „Óhræsis brennivínið!“

Vilhjálmur og Berta hjálpuðust nú að að bera gömlu konuna burt og fá húsaskjól fyrir hana. Nú komu líka menn af nágrannabæjunum, og tóku sumir þeirra að sér að hjálpa henni, en sumir sneru aftur með hjónunum til að reyna að opna fjósið, svo að kýrnar skyldu ekki brenna inni. En sú tilraun varð árangurslaus. Fjóshurðin féll inn, en kýrnar höfðu slitið sig lausar og stóðu frammi í dyrum, svo að ómögulegt var að opna hurðina. Vilhjálmur og Berta urðu að standa þarna aðgerðalaus og horfa á alla eign sína — heimilið með öllu sem á því var, brenna upp til kaldra kola.

Þegar alt var búið, gekk Berta grátandi með manni sínum áleiðis til næsta bæjar.

Vilhjálmur var mjög örvæntingarfullur, en Berta huggaði hann og mælti: „Guði sé lof, að við eigum þó drenginn okkar eftir. Hugsaðu þér, ef við mistum hann.“ Það hýrnaði dálítið yfir honum, og þegar þau komu inn í stofuna, sagði hann við konuna, sem kom á móti þeim: „Nú erum við fátæk. En komdu hingað með Ólaf litla; hann er nú aleiga okkar“. „Já, komdu með barnið,“ sagði Berta, og hné niður á stól. „Ólaf? Barnið?“ hrópaði konan. „Hann er ekki hér.“ Vilhjálmur og Berta litu hvort á annað utan við sig af ótta og kvíða; en í sama bili spruttu þau bæði upp og hlupu út. „Afi! Ólafur! Ó, guð hjálpi okkur!“

Skamt frá dyrunum hrösuðu þau í myrkrinu um eitthvað, sem lá rétt við veginn. Það var afi gamli með drenginn. Hann hafði dottið og lent með höfuðið á steini, og hafði legið meðvitundarlaus þarna úti í kuldanum. Berta tók barnið og flýtti sér inn með það, en hinir komu á eftir með gamla manninn. Þegar hún kom inn í birtuna með Ólaf, sá hún brátt, að öll von var úti; hann var kaldur og stirður. Vilhjálmur kom mátulega að til að gripa hana, því hún hné meðvitundarlaus niður um leið og hún hrópaði: „Hann er dauður! Við höfum mist Ólaf líka!“

Hún fékk heilabólgu og lá lengi. En þegar hún komst á fætur aftur, hafði hún mist vitið. Hún heitaðist við alt og alla, en sagði þó aldrei annað en þetta, sem þér hefir fundist svo hlægilegt: „Ó, óhræsis brennivínið!“ Í 10 ár var hún á geðveikrastofnun, og á því tímabili dóu bæði maður hennar og tengdaforeldrar.

En þar sem hún nú ekki gerir neinum neitt mein, heldur lætur sér nægja að heitast við þann óvin, sem hefir eyðilagt líf hennar, fær hún að ganga laus, og er nú hjá hjónum nokkrum, sem annast um hana. En, veslingurinn, hún er orðin athlægi óþægra barna — hún, sem lagði í sölurnar alla gæfu sína í lífinu fyrir hjartagæzku sína við börnin. Finst þér það réttlátt?“

Eg hafði hlustað á með athygli. En er á leið söguna, grúfði eg mig niður og grét — grét sárt og lengi. Eg grét yfir óhamingju veslings Bertu, en mest þó yfir því, hve vondur eg hafði verið við hana.

Faðir minn strauk hendinni um höfuð mér og mælti blíðlega: „Bara að þau kæmu frá hjartanu, tárin þín, drengur minn, og að það, sem eg hefi nú sagt þér, mætti verða þér lærdómur fyrir lífið.“

Og það varð það.

„Vitlausa Berta“ fékk lausn frá lífinu skömmu síðar, og fór til ástvina sinna, þangað, sem ekkert ilt getur grandað. En eg get aldrei gleymt henni. Þegar eg heimsæki æskustöðvar mínar, legg eg æfinlega nokkur blóm á leiðið hennar eins og dálitla friðþægingarfórn fyrir syndir mínar gegn henni. Og þegar eg sé börn henda gaman að hrumum eða fáráðum, þá fæ eg ætíð sting í hjartað, því sagan um „vitlausu Bertu“ rennur mér þá í hug og minnir mig á mínar eigin yfirsjónir.

[Eftir *„Magne.“*]

# Tyrfingur.

**[Fornaldarsögur Norðurlanda I.].**

**Niðurlag.**

Einn jólaaftan í Bólm þá strengdi Angantýr heit að bragarfulli, sem siðvenja var til,

að hann skyldi eiga dóttur Yngva konungs að Uppsölum, Ingibjörgu, þá mey, er fegurst var og vitrust á danska tungu, eða falla að öðrum kosti, og eiga enga konu aðra; eigi er sagt af fleiri heitstrengingum þeirra. Sú náttúra fylgdi Tyrfingi, að hvert sinn, er hann var úr slíðrum dreginn, þá lýsti af sem af geisla, þó að myrkt væri, og hann skyldi slíðra með vörmu manns blóði; ekki lifði það og til annars dags, er blæddi af honum; hann er mjög frægur í öllum fornsögum. Það sumar fóru þeir bræður til Uppsala í Svíaríki, og gengu inn í höllina, og segir *(Angantýr konungi)* heitstrenging sina, og það með, að hann vill fá dóttur hans; allir hlýddu er inni vóru. Angantýr bað konung segja, hvert þeirra erindi skyldi vera. Í því sté fram yfir borðið Hjálmar hinn hugumstóri, og mælti til konungs: Minnist, herra, hversu mikla sæmd eg hefi þér unnið, síðan eg kom í yðar ríki, og í mörgum lífsháska fyrir yður verið; og fyrir mína þjónustu bið eg, að þér giftið mér dóttur yðar; þykist eg og maklegri mína bæn að þyggja en berserkir þessir, er hverjum manni gera ilt. Konungur hugsar fyrir sér, og þykir þetta mikill vandi, hversu þessu skal svara, svo að minst vandræði mætti af standa, og svarar um síðir: Það vil eg, að Ingibjörg kjósi sér sjálf mann, hvern hún vill hafa. Hún segir: Ef þér viljið mig manni gifta, þá vil eg þann eiga, er mér er áður kunnugur að góðum hlutum, en eigi þann, er eg hefi ekki af annað, en sögur einar og allar illar. Angantýr mælti: Ekki vil eg hnippast orðum við þig, því að eg sé, að þú elskar Hjálmar; en þú, Hjálmar, kom suður á Sámsey til hólmgöngu við mig, ella ver hvers manns níðingur, ef þú kemur eigi að miðju sumri að ári. Hjálmar kvað sig ekki dvelja að berjast. Fóru Arngríms synir heim til föður síns, og sögðu honum svo gert; hann kveðst ekki fyr hafa óttast um þá en nú. Vóru þeir heima um veturinn; og um vorið bjuggust þeir heiman, og fara fyrst til Bjartmars jarls, og tóku þeir þar veizlu. Og um kvöldið beiddist Angantýr, að jarl gifti honum dóttur sína; og þetta sem annað var gert eftir þeirra vilja, að brúðhlaup var gert; og síðan bjuggust Arngríms synir brott. Og þá nótt, áður þeir fara, dreymdi Angantýr draum, og sagði jarlinum: Eg þóttist vera staddur í Sámsey og bræður mínir; þar fundum vér marga fugla, og drápum alla, er vér sáum; og síðan þótti mér, sem vér snerum annan veg á eyna, og flugu móti oss ernir tveir, og gekk eg móti öðrum, og áttum við hart viðskifti saman; og um síðir settumst við niður og vorum til einkis færir. En annar arinn átti við ellefu bræður mína og vann alla þá. Jarl segir: Þar var þér sýnt fall ríkra manna. Síðan fara þeir bræður brott, og komu til Sámseyjar og gengu upp á land að leita Hjálmars: og fara þeirra skifti svo, sem greinir í Örvar-Odds sögu, fyrst, að þeir komu í Munarvoga, og drápu þar alla menn af þeim tveim skipum, sem þeir Hjálmar og Oddur áttu; og síðan fundust þeir uppi á eynni; drap Oddur ellefu bræður Angantýs, en Hjálmar drap Angantý, og dó þar sjálfur síðan af sárum. Síðan lét Oddur leggja þá í stóra hauga alla, með öllum sínum vopnum, en flutti Hjálmar heim til Svíaríkis. Og þegar Ingibjörg konungsdóttir sá lík Hjálmars, þá

féll hún dauð niður, og eru þau heygð bæði saman að Uppsölum.

# Leikar.

### V.

### „Komdu!“

Þessi leikur er eiginlega aðeins tilbreyting af næsta leik á undan. Leikendur standa þannig að þeir mynda hring og halda höndunum saman aftan á bakinu. Einhver er fyrir utan hringinn og snertir hann einhvern í hringnum og segir um leið: „komdu!“

Báðir hlaupa þeir nú sinn í hverja átt kringum hringinn og kalla hvor til annars þegar þeir mætast „Sælir nú!“ Sá sem verður fyrri, öðlast staðinn í hringnum, en hinn verður að vinna sér stað annarstaðar, leikurinn byrjar því á ný.

### VI.

### Nágrannaskifti.

Sérhver er tekur þátt í leiknum, afmarkar sér bás; er það bústaður hans; skulu leikendurnir mynda þannig hring og skal ætíð vera nokkurt bil milli hverra bústaða. Sá sem eftir er, vanalega foringinn, hefir engan bústað, en fer innan í hringinn og spyr einn eftir annann: Ert þú ánægður með nágranna þinn? Sá sem spurður er, verður þá að svara: „Ekki sérstaklega!“ eða: „Já mjög vel!“ Svari hann hinu fyrra, verður hann að segja hvern hann óskar sér fyrir nágranna, og hvern nágranna sinna hann er óánægður með, verða þeir þá að skifta um bústaði, en sá sem er innan í hringnum, reynir að verða fyrri til. Sá er verður eftir heldur áfram að spyrja. Ef hann þar á móti svarar: „Jú, mjög vel“, verða *allir* að skifta um bústaði, og sá er þá verður eftir, að vera innan í hringnum.

### Ráðning

gátunnar í síð. tölubl.:

*Æ koma mein eftir munað.*

### Reikningsgáta.

Maður nokkur fær vikukaup sitt, að upphæð 30 krónur, í 2-krónu-peningum, 1-krónu-peningum og 10-eyringum, þannig, að hann fær samtals 30 peninga. Hve marga peninga fær hann af hverri tegund?

### Takið eftir!

Eftir að póstlögin nýju öðluðust gildi, 1. þ. m., er burðargjald undir „Æskuna“ minna en það var áður. Það sem á þennan hátt sparast, verður hagur fyrir kaupendur blaðsins; því verður sem sé varið til að bæta fráganginn á því. Verður því eftirleiðis séð um, að „Æskan“ verði *prentuð* á *betri pappír* og útvegaðar *fleiri og betri myndir* í hana. Þetta eru kaupendurnir beðnir að athuga.

En um leið væri gott að þeir aðgættu, hvort þeir hafa *borgað blaðið*, og ef þeir kynnu að hafa gleymt því, þá eru þeir vinsaml. beðnir að gera það *sem allra fyrst*, sérstaklega þeir, sem skulda fyrir fleiri árganga en þennan yfirstandanda.

Þeir sem fá send 1 eða 2 eint. af blaðinu, ættu að senda andvirðið í óbrúkuðum frímerkjum til að eyða sem minstu í burðargjaldið.

Aldar-prentsmiðja.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 30. ÁG. 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 22.—23.

## Latur drengur.

„Í öllum löndum er pottur brotinn“ segir máltækið og það mætti líklega segja líka: Latir drengir eru einhverjar þær leiðinlegustu skepnur, sem til eru á jörðinni. Það er ekki nóg með það, að ómögulegt sé að mjaka þeim úr stað, heldur silast



Latir drengir eru um allan heim. Að minsta kosti sýnir myndin sú arna, að þeir eru víðar en hér. Mynd þessi er eftir Exner prófessor, einn hinn frægasta málara Dana nú á dögum. Hann er fæddur 1825 og því 77 ára að aldri og hefir hann einkum lagt sig eftir að mála sveitalífið í Danmörku.

þeir áfram, þegar af stað er komið, eins og þeir væru hálfsofandi. Sumir nenna naumast að borða, lygna augunum aftur, og hengja höfuðið. Sé talað við þá, nenna þeir ekki að svara, og svari þeir, láta þeir neðri vörina hanga og nenna ekki að hreyfa varirnar. Verður þá málið ljótt, óskýrt og

þvöglulegt. Eigi þeir að læra eitthvað, láta þeir það dragast, unz það er orðið um seinan, eða þeir læra eitthvert hrafl, sem þeir hafa sárlítið gagn af. Það eru meira að segja til ýmsir drengir, sem nenna ekki að leika sér, og séu þeir í skóla, þá standa þeir upp í krókum og kimum í frímínútunum milli kenslustundanna með hendurnar í vösunum og glápa út í loftið, og sé kallað til þeirra, heyra þeir ekki fyr en búið er að kalla margsinnis á þá.

Þá er munur á því að vera viljugur órabelgur, iðandi, spriklandi og sífelt á ferð og flugi. Órabelgir geta að sönnu orðið nokkuð þreytandi, ef þeir ætla sér aldrei hóf og stilla sig ekki, hvar sem þeir eru staddir. En flestum þykir þó vænna um viljugan órabelg en latan meinleysingja.

Og svo er það líka aðgætandi, að báðir eiga að verða fullorðnir menn á sínum tíma. En þá hverfa ærslin vanalega, en dugnaðurinn verður eftir, en það er svo undur hætt við, að lati drengurinn haldi leti sinni áfram fram eftir æfinni. Og hvernig fer þá fyrir honum, þegar bæði pabbi og mamma eru dáin, og hann er einn orðinn eftir, og á að fara að hafa ofan af fyrir sér?

---

## Sumarmorgun

### í Ásbyrgi.

Alfaðir rennir frá austurbrún
auga um hauðir og græði.
Glitrar í hlíðinni geislarún,
glófaxið steypist um haga og tún.
Signa sig grundir við fjall og flæði—
faðmast í skrúðgrænu klæði.

Þýtur í smávængjum grein af grein,
grösin við morguninn tala;
morar af lífi hver moldarrein,
maðkurinn iðar við grátandi stein.
Héraðið roðnar og rís af dvala.
Rýkur við hóla og bala.

Heiðanes skaga á hendur tvær,
háfjöll í suðrinu rísa.
Norðrið er opið; þar Ægir hlær,
auðugur, djúpur, og sandana slær.
Gráblikur yzt fyrir landi lýsa,
líkast sem bjarmi á ísa.

Norðan að Sléttunnar stálblá strönd
starir úr lognboða róti.
Fóstra, hún réttir þar hægri hönd
hraðskeytt og fengsæl í útstrauma rönd.
Lætur við eyra sem lífæð þjóti.
Leikur þar „Jökla" í grjóti.

Fangamark árinnar band við band,
blikar, í sveitina grafið.
Starengi blakta við blakkan sand,
bæina hyllir í óskanna land.
Flaumar og sund—alt er sumri vafið,
syngur, og leiðist í hafið.

Ásbyrgi, prýðin vors prúða lands,
perlan við straumanna festi,
frjótt eins og óðal hins fyrsta manns,
fléttar hér blómin í hamranna krans.
Standbjörgin kveðjunni kasta á gesti
kringd eins og járn undan hesti.

Sögn er, að eitt sinn um úthöf reið
Óðinn og stefndi inn fjörðinn.
Reiðskjótinn, Sleipnir, á röðulleið
rendi til stökks yfir hólmann, á skeið,

spyrnti í hóf svo að sprakk við jörðin—
sporaði byrgið í svörðinn.

Tindrar í lundinum ljóragler;
lúta sjást smalar til berja.—
Hóftungumarkið í miðju er,
mannsauga rammara vígi ei sér,
vildi hér nokkur í heimi herja,
hefðum vér nokkuð að verja?

——-Náttúran grípur mig, himinheið.
Hér er sem lúður mig veki.
Horfi eg á drenginn við högginn meið,
hitti mig sjálfan á barnanna leið,
öll verður vizkan að æskubreki,
einfeldnin guðdómleg speki.

Það sem eg ann ber nú opinn knör
úti, með vonum og kvíða.
—Leiptrar við svipur af sigurför.
Syrgjandi fagnandi rek eg mín kjör.
Morgun og sumar og mann skal líða.
Móðir vor ein á að bíða.

Volduga fegurð, ó feðrajörð,
fölleit með smábarn á armi,
elski þig sveinar hjá hverri hjörð,
helgist þér menn, við hvern einasta fjörð.
*Frjáls* skaltu vefja vor bein að barmi.
Brosa, með sól yfir hvarmi.

*Einar Benediktsson*

# Barnið á vígvellinum.

eftir **David Kerr.**

„Heyrið þið! Hvað er orðið af unga Salamandrinum okkar?“

„Hann hlýtur að vera orðinn vitlaus, hreint syngjandi vitlaus. Nema þá að hann vilji falla hverju sem tautar.“

„Hann verður líka drepinn, hvort sem hann langar til þess eða ekki, haldi hann þannig áfram að sækja þangað, þar sem kúluregnið er þéttast.“

Athugasemdir þessar voru gerðar af nokkrum hermönnum, sem höfðu skotið af byssum sínum á óvinina, og hlóðu þær aftur í skyndi, en köstuðu þó öðru hvoru kvíðafullum augum á mann, sem gekk mjög rólega á milli fylkinga hinna tveggja fjandmanna.

Það var líka orð og að sönnu, að hinn ungi „Salamandur“ stofnaði sér í hina mestu hættu, án þess nokkur sýnileg ástæða væri fyrir hendi, er réttlætti slíka ofdyrfsku. Annars hét hann Charles Hay (les: tsjarls hei) og var lávarður og foringi í fyrstu ensku herdeildinni.

Orustan var háð í Belgíu, og var einhver hin skæðasta, sem þar hafði verið háð milli Frakka og Englendinga. Frakkneski herinn var í þá daga fremri en her Englendinga, en Englendingar héldu þó vígvelli enn með hinni gömlu seiglu, sem þeim er lagin, og var enn efasamt, hverjir sigra mundu að leikslokum.

Einmitt þegar hávaðinn og gauragangurinn var sem mestur, og kúlurnar dundu sem þéttast, hafði hinn ungi Hay gengið fram úr fylkingum Breta, og beint á móti óvinunum. Höfðu hermennirnir miklar mætur á honum, og vegna hreysti hans og hve rólegur hann var í skæðustu orustum höfðu þeir kallað hann „Salamandur“, vegna þess, að þjóðsögur eru um það, að dýr þetta geti lifað í eldinum.

Blindari fífldyrfsku var ekki hægt að hugsa sér, því kúlurnar féllu svo þétt frá báðum hliðum, að þær rótuðu svo upp

moldinni, að rykmökkur reis milli fjandmannanna og fal ásamt reyknum alt útsýnið. Sýndist óhugsandi, að nokkur lifandi skepna gæti komist ósködduð þar á milli, og hvernig í dauðanum stóð á því, að „ungi Salamandurinn“ gerði þessa hættulegu tilraun?“

„Komið aftur, lávarður! Í guðanna bænum, komið aftur!“ kölluðu fleiri en tíu menn í einu hljóði.

„Þessi ungi gapi er vitlaus — hreint syngjandi vitlaus“ öskraði enski óberstinn, þegar hann hafði áttað sig, en fyrst hafði hann verið steinhissa. „Snúðu óðara við, fífldjarfi gapi. Eg skipa þér það.“ En Charles lávarður hélt áfram án þess að standa við, eins og hann heyrði ekki það, sem kallað var til hans.

Ensku hermennirnir voru svo hræddir um átrúnaðargoðið sitt, að þeir hættu að skjóta, en í sama bili hleyptu Frakkar af og huldist þá alt í reyk.

Þegar reykinn lagði frá, bjuggust allir við, að þeir sæu þennan hugdjarfa mann liggja fallinn á vígvellinum; nei, hann gekk áfram rólega: var þó búið að skjóta af honum húfuna, og sumum sýndist þeir sjá blóð renna niður andlit hans.

Nú hættu Frakkar líka að skjóta, er þeir komu auga á þennan mann, sem kom inn á móti þeim; hugðu þeir að hann kæmi með þýðingarmikil boð frá enska hershöfðingjanum, og frá báðum hliðum var horft með öndina í hálsinum á þennan mann, sem gekk þarna á miðjum vígvellinum beint á milli byssukjaftanna. En nú kom ný vindstroka, er hreinsaði burt reykinn og rykið, og þá sást, hvert erindi hans var.

Dálítið til vinstri handar frá hersveitum Englendinga stóðu fáein léleg hreysi. Líklegt var, að bændurnir, sem bjuggu þar, hefðu flúið í burt þegar í byrjun orustunnar en í stað þess höfðu þeir verið rólegir heima, eins og ekkert væri um að vera, enda hafði litið svo út sem orustan mundi verða háð dálítið á öðrum stað, og þó hreysi þessi sýndust léleg, voru þau þó heimili þeirra og þar voru geymdar þær litlu reitur, er þeir áttu.

En brátt kom það í ljós, að þorpsbúarnir höfðu misreiknað. Hersveitirnar sneru sér snögglega til hliðar, og varð þorpið þá mitt á milli þeirra. En er þorpsbúar sáu, að fallbyssukúlurnar tóku að falla í kringum þorpið, flýðu þeir alt hvað fætur toguðu, og báru börn sín og alt það, er þeir gátu bjargað í skyndi af fjármunum sínum. Var þetta alt í mesta óðagoti, og hafði þá dálítil telpa dottið, sem varla gat gengið enn. Hafði enginn tekið eftir því, og lá hún nú grátandi af hræðslu mitt á milli þeirra, er börðust, en talsvert frá sást móðir barnsins berjast við að fá að komast til þess að bjarga barninu, en maður hennar hindraði hana frá því að steypa sér aftur í hættu. Það varð að fara um barnið, sem verkast vildi; hann vildi ekki þar að auki missa konuna sína, móður hinna barnanna.

Ungi foringinn gekk eins rólega eftir vígvellinum og hann væri við almennar heræfingar, þangað, sem barnið lá, og sást glóa á hið ljósa hár hans gegn um reykinn. Hann tók barnið ástúðlega í fang sér, og þeir sem næstir voru sáu, að litla aumingja telpan lét huggast, þegar er hún heyrði hina ástúðlegu rödd hans og sá brosið á andliti hans; grúfði hún sig upp að honum, en hann varði barnið með sínum

eigin líkama móti fallbyssukúlunum, sem enn þá þutu út úr skotvirkjum óvinanna. Gekk hann fram með her Frakka, þangað sem móðir barnsins stóð, án þess að skeyta um byssustingi óvinanna, er stefndu á hann.

„Skjótið ekki, félagar! skjótið ekki!“ kallaði gamall frakkneskur hermaður upp, veðurbarinn í andliti og svartur í framan af púðri og reyk. „Því þó hann væri tuttugu sinnum enskari en hann er, þá er hann samt eins góður og engill af himnum sendur“.

Í sama bili heyrðust óp enska hersins, sem tók upp úr fallbyssudununum; voru það fagnaðaróp til ungu hetjunnar, sem kominn var yfir hættulega millibilið á vígvellinum, alheill og með barnið óskaddað í fangi sér. Og naumast var þetta fagnaðaróp á enda, þegar Frakkaher svaraði með svo miklu fagnaðarópi, að slétturnar dundu undir. Var þá Charles lávarður kominn þangað sem móðirin var, frá sér af örvæntingu, lagði hann barnið heilt á húfi í fang hennar, grúfði sig niður að því og kysti það á báðar kinnarnar.

Hann var að snúa aftur til hersveitar sinnar, en tígulegur gamall frakkneskur hershöfðingi, gráskeggjaður, og með brjóstið alt þakið af orðum og heiðursmerkjum gekk þá í veg fyrir hann og rétti honum höndina:

„Herra minn!“ mælti hann og hneigði sig um leið mjög hæversklega. „Má eg hafa þá ánægju og þann heiður, að taka í hendina á þeim hugaðasta manni, sem eg hefi séð“.

Bardaginn hélt áfram og Frakkar hörfuðu undan. Tæpri stundu síðar lá Charles lávarður særður á vígvellinum. Ein af fyrstu kúlunum, sem óvinirnir höfðu sent, hitti hann og fleygði honum til jarðar. Sárið var hættulegt og hann leið miklar þjáningar, en lifði þó lengi á eftir og varð einn auðugasti maður á Englandi, og virtur og elskaður framar flestum öðrum. En kæmist í tal, hvernig hann bjargaði barninu, sagði hann jafnan, að það hefði verið sæluríkasti dagurinn á allri æfi sinni.

---

# Föðurlandsást.

(Framh.)

Kona Hopfers hafði ekki svarað hermanninum einu orði; hún stóð grafkyr og starði fram undan sér líkt og hún heyrði hvorki né sæi neitt. Drengurinn hennar, hann Frank, var særður, og ef til vill dáinn, og þó var sagt við hana: „Farðu aldrei þangað, það er árangurslaust“. Var hún þá ekki móðir hans? Hún vildi sjá hann, hún vildi fara þegar af stað, á sama augabragði.

En aumingja konan hafði gleymt því, hve magnþrota hún var. Hún riðaði og hefði dottið, hefði Timide ekki komið og stutt hana í rúmið.

Þetta var voðaleg nótt. Móðirin lá með ólgusóttaróráði, unz hún sofnaði örmagna undir dögun. Timide vakti. Hún var brennandi heit á höfðinu, starði út í myrkrið, og var stöðugt að hafa yfir síðustu kveðju Franks, sem hermaðurinn hafði flutt þeim mæðgunum.

Hver gat þessi dýrmæti gripur verið, sem bróðir hennar geymdi á sér? Það voru engar líkur til, að þær fengi nokkru sinni að líta það, því móðir hennar var ekki fær um að komast til bæjarins. Frank hlaut því að deyja án þess að geta afhent nokkr-

um dýrgrip þann, er hann var með ..... slíkt var næstum óþolandi. En alt í einu datt barninu nokkuð í hug; og telpan þerraði tárin af augum sér og fór að íhuga það.

Það var kynlegt, að henni hafði ekki dottið það undir eins í hug. Ef hún reyndi nú að ganga til bæjarins? Það var ekki svo langur vegur. Hugsandi var, að móðir hennar fengi ekki að sjá Frank; en hún var sjálf svo lítil, svo ef til vill tæki enginn eftir henni, og svo gat líka verið, að sumir þýzku hermennirnir ættu litlar telpur heima. Hún mundi eftir því, að einn Bajari hafði viljað kyssa hana, af því hún var ljóshærð—eins og dætur þær, sem hann átti heima—, það hljóta fleiri hermenn að eiga litlar telpur en hann, og þeir gátu aumkast yfir hana.

Hún fór hljóðlega á fætur, tók pappírsblað og skrifaði á það við tunglsljós:

„Mamma, eg er farin að leita að honum Frank. Gráttu ekki, eg kem bráðum aftur.“ Að svo búnu vafði hún að sér litlu svörtu kápunni sinni svo vel sem hún gat, og fór út í myrkrið og vetrarkuldann að leita bróður síns.

En hvað leiðinlegt var úti! Það hvein í trjánum af storminum og þau köstuðu löngum skuggum yfir veginn, sem voru á sífeldu iði.

Fjúkið barði svo framan í andlit henni, hún gat naumast komist áfram, og langt í burtu heyrði hún hljóð, sem hún kannaðist því miður of vel við — Það voru fallbyssuskotin, sem dundu í loftinu.

Hún stóð við skjálfandi. Það var að líkindum bezt, að hún sneri við og biði, unz dagaði; en þá hlaut móðir hennar að vakna og hefta för hennar, og þá dó Frank líklega áður hún gæti fundið hann. Nei, hún varð að halda áfram, og hún gekk stöðugt lengra og lengra.

En hvað leiðin var löng! Hún hafði oft farið þennan veg áður, en það var á sumrin, þegar fuglarnir sungu á hverju tré, loftið var fylt af sætri angan og hún mætti vinum og kunningjum, sem heilsuðu henni vingjarnlega. Nú var alt hljótt og þögult undir snjónum, sem lá sem mjallahvítt náklæði yfir jörðinni. Telpunni var ekki heilsað með öðru en hinum hræðilegu dunum í fallbyssum fjandmannanna.

Dagur var kominn, kaldur og skuggalegur, þegar Timide kom í nánd við bæinn. Brunnu varðeldar víðsvegar á götunum. Hermenn þyrptust saman í kring um þá til þess að verma sig, en það voru ekki frakkneskir hermenn. Gerði Timide sig svo litla sem mögulegt var og hnipraði sig fast upp að múrunum, svo ekki yrði tekið eftir henni.

Hún komst að hjúkrunarstaðnum, og lá þar yfir hundrað særðra manna. Frakkneskur foringi lá þar á hálmhrúgu einni, særður til ólífis; hafði læknir litið á hann og ypt síðan öxlum.

Nú kærði enginn sig um hann framar; hann varð að liggja og deyja, þar sem hann var kominn, og það hafði meiri þýðingu að bjarga þar sem nokkur lífsvon var.

Alt í einu var köld hönd lögð á enni hins deyjandi manns; hann fann koss á vörum sér, og sá í þoku blítt og ástúðlegt andlit frammi fyrir sér.

„Timide, Timide, elsku góða systir mín! Er það rétt, að það sé þú?“

Timide gat ekki svarað öðru en að

snökta, en Frank hélt áfram með örðugleikum.

„Timide, sé það þú, þá hlustaðu á það, sem eg ætla að segja þér. Þeir hafa ekki náð fánanum mínum.

... Það .... það sem eftir er af honum, er inni á brjósti mér .... taktu það, og gef þér það .... eg hefi komið því undan. Taktu það fljótt, svo enginn sjái, hvað það er.“

Timide hnepti frá honum einkennisbúningnum. Á brjósti hans lá einhver drusla, klút tuska boruð sundur af kúlum og löðrandi í blóði. Það var alt og sumt; en honum í andlátinu fanst þessi snepill þó tákna föðurlandið, sem hann elskaði svo heitt.

Loks hafði hann fengið vilja sinn. Trúi hermaðurinn hafði séð, að systir hans fól þennan dýrmæta grip undir kápu sinni. Hann reyndi að þrýsta hinni ísköldu hönd hennar að vörum sér. Og hann gat aðeins látið hann skilja þessi orð: „Guð blessi þig, Timide systir mín!“ og svo gaf hann upp andann.

---

Það hafði verið barist af grimd í tvo, þrjá daga. Nokkrar frakkneskar hersveitir héldu enn vígvellinum.

Drengur nokkur sextán vetra gamall barði bumbu sína með slíku fjöri, að hann hreif alla með sér, fjörgaði þá huglitlu, og safnaði þeim saman, er sundur dreifðir voru. Loks var búið að reka óvinina af höndum sér, að minsta kosti um nokkrar stundir. Voru hermennirnir örmagna af þreytu, kveiktu varðelda sína, hvíldu sig og fóru að borða þann litla skamt, er þeim hafði verið úthlutaður.

Litli bumbuslaginn hvíldi sig líka. Hann lét aftur augun og fór að hugsa heim. Hvernig leið þeim, mömmu hans og systur hans? Honum fanst hann sjá blíða andlitið hennar Timide, og hún brosa móti sér .... en alt í einu virtist honum hann heyra eitthvert kvein.

Hann stóð upp, þó þreyttur væri og hlustaði. Hann heyrði ekkert; honum hafði misheyrst. Lagði hann sig þá fyrir og sofnaði fast að vörmu spori.

Ekki langt frá honum var svartklædd persóna að staulast áfram. Hafði hún gengið langa leið og var dauðþreytt.

En hún vildi komast alla leið. Gat hún ekki þolað leingur hungrið, kuldann og eymdina. Ef til vill var hún líka særð.... hún fann öðru hvoru brennandi sviða í brjóstinu, svo hún gat naumast dregið andann. Og þó varð hún að komast lengra; hún varð að koma hinum helga dýrgrip, sem henni hafði verið trúað fyrir, til þeirra, sem áttu hann með réttu.

Hún *vildi* ná takmarkinu, því hafði hún heitið sjálfri sér. Nú vantaði ekki nema herzlumuninn, ...... þessir varðeldar, það eru herbúðir hins frakkneska hers.

„Hjálp!“ Hefir nokkur heyrt það? Nei!... örfá skref enn ..... „Hjálp!“

Nú hefir einhver heyrt það. En sú mildi! Þar kemur einhver.

Menn skunda þangað, þeir taka hana upp, þeir bera hana, þeir leggja hana niður ... hverju liggur hún á? Hún veit það ekki, en henni líður svo vel. Hún er að hvíla litlu, þreyttu limina, og er svo glöð. Rétt hjá henni liggur Vilhelm og er sofandi; hristir einn hermaðurinn hann og segir: „Flyttu þig, drengur minn, svo óberstinn

geti komist hérna.“ Hvað vill hann? Hví hafa svo margir herforingjar þyrpst saman þar sem hermennirnir sváfu?

Vilhelm er sagt, hvað við hefir borið. Það er dálítil stúlka, og enginn veit hvaðan hún hefir komið. Félagar hans hafa fundið hana og flutt hana þangað, og nú er hún ef til vill dáin.

Litla stúlkan . . . og nýlega dreymdi hann Timide!

En það er óhugsandi. Það er svo undur, undur langt heim.

En nú heyrir hann dauft andvarp, og hann rýkur á fætur, hryndir félögum sínum frá sér og brýzt fram til foringjanna, fram fyrir óberstinn sjálfan, og hljóðandi fleygir hann sér niður að litlu stúlkunni og segir grátandi: „Það er hún systir mín, hún systir mín. Þeir hafa drepið hana“.

Timide sér hann . . . jú, það er hann Vilhelm. En hún furðar sig alls ekki á því; hún var að svífa þangað, þar sem jarðneskt ástand og fjarlægðir hverfa sjónum vorum. Hún sér líka Franz, hann kallar til hennar, og brosir móti henni. Já, hún kemur; en henni finst, að hún eigi nokkuð ógert og ein skylda sé eftir, er henni beri að uppfylla.

Hún getur ekki talað, en hún vildi þó svo gjarnan segja, hvers vegna hún er komin. Loks getur hún stunið upp með allra mestu herkjum:

„Þarna . . . . . undir kápunni minni . . . . . fáninn . . . . . takið hann!“

Óberstinn hristir höfuðið. „Hún talar í óráði.“ En barnið segir aftur og aftur: „Fáninn!“ og bendir á brjóstið.

(Frh.)

---

**Ráðning**

reikningsgátunnar í síð. tölubl: *10 tíeyringar, 11 krónupeningar, 9 tveggja-krónu-peningar.*

(Fyrst sést, að tíeyringarnir verða að vera annað hvort 10 eða 20; tala þeirra verður að standa á tug, svo rétt geti staðið á krónu. En 20 geta þeir ekki verið, því að með því móti yrðu peningarnir of margir alls. Þeir verða því að vera *10.* Það er 1 króna. Þá vantar 29 krónur, en 20 peninga. Gerum nú fyrst ráð fyrir, að þessir 20 peningar séu allir 2-krónu-peningar. Það verða 40 krónur, eða 11 krónum of mikið. Verður því að hafa skifti á 2-krónu- peningum og krónu-peningum 11 sinnum. Fást með því móti *11* krónupeningar en *9* tveggja-krónu-peningar.)

---

**Æskan**

óskar eftir að fá sendar fallegar íslenzkar smásögur, við barnahæfi, t. d. sögur af sæmdarmönnum og sæmdarkonum, æskusögur merkra íslenzkra manna, sögur af hreystiverkum og svaðilförum. Bindindissögur, þjóðsögur, sem enn eru í minni, skrítlur, dýrasögur og fleira.

---

**Gleymið ekki** að borga „Æskuna“.

„**Æskan**“ kemur út tvisvar í mánuði, og auk þess jólablað (skrautprentað með myndum), 25 tölublöð alls. Kostar í Reykjavík 1 kr., úti um land kr. 1,20. Borgist í Apríl mánuði ár hvert. Sölulaun $1/5$, gefin af minst 3 eint.

**Afgreiðsla** blaðsins er í Vesturgötu 21.

**Úrsagnir** úr „Æskunni,“ skriflegar bundnar við árgangamót, (1 okt.), ógildar nema komnar séu til afgreiðslumanns fyrir 1. ágúst.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

V. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 12. SEPT. 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 24.—25.

## Barnaskólinn í Reykjavík,

sem sést hér á myndinni, stendur austan við tjörnina norðarlega, rétt þar hjá, sem Arnarhólslækur fellur úr henni, og snýr aðalhlið skólans, vesturhliðin, að tjörninni.

Hús þetta er tvíloftað, og er bygt í tveim álmum, annari suður með tjörninni, og eru þar kenslustofurnar, en hin liggur austur frá henni að norðanverðu. Er þar bústaður skólastjóra, leikfimissalur og fleira.



Í skólanum eru alls 12 kenslustofur, og rúmar hver þeirra um 30 börn, eða skólinn alls 360 börn.

Börnin koma í skólann, þegar þau eru 7 vetra að aldri, og fara úr honum við ferminguna.

Þegar Jón og Gunna koma í skólann, eru þau svo litlir angar, sem rúmlega ná meðalmanni í hné, og kunna þá að eins að stafa og kveða dálítið að. Fyrsta veturinn eru þau látin læra að lesa betur, byrja að skrifa bæði bókstafi og tölur, telja, leggja saman og draga frá, og þar að auki að kynna sér dálítið biflíusögur. Annan veturinn er kverinu bætt við.

Þriðja veturinn kemur landafræðin, og danska fjórða árið.

Þau börn, sem komast upp í 5. bekk þykjast auðvitað sprenglærð. móti hinum, sem neðar eru. Þau eru farin að lesa Íslandssögu og náttúrusögu, og mannkynssagan er lærð í 6. bekk. Fyrir utan þetta verða öll börnin að læra söng og leikfimi allan skólatímann.

Drengjunum í efstu bekkjunum er þar að auki kent að saga og hefla, og búa til ýmsa smágripi úr tré, t. d. stokka, fatasnaga og annað smávegis, og er gaman að sjá, hvað litlu snikkararnir eru hróðugir, hafi þeim tekist að hefla nokkurn veginn rétt.

Litlar stúlkur á sama reki eru aftur á móti látnar læra að sauma, t. d. falda klúta og annað smávegis.

Börn þau, sem lokið hafa námi í 6. bekk, geta fengið að ganga í framhaldsbekk, og það enda eftir fermingu. Þar eru einkum kend tungumál, íslenzka, danska, enska, og svo reikningur.

Það gefur að skilja, að æðimikill glaumur og gleði muni vera í frímínútunum á milli kenslustundanna, þar sem jafnmörg börn eru saman komin, og er ekkert á móti því, hagi börnin sér siðsamlega, enda eru frímínúturnar gefnar til þess, að börnin skemti sér í þeim; en auðvitað eiga þau aftur á móti að vera kyrlát og hljóð í kenslustundunum.

Það segir sig sjálft, að af jafnmörgum börnum muni misjafn sauður vera í mörgu fé. Sum eru sífelt siðprúð, svo hér um bil aldrei þarf að áminna þau, öll þau ár, sem þau eru í skólanum, og vanalega eru það líka langduglegustu börnin, sem læra mest og sér að beztu gagni. Önnur eru svona upp og ofan. Og loks eru hin þriðju, sem bæði koma að eins í skólann endur og sinnum, ef þau sjá sér fært, að komast undan því, hugsa lítið eða ekkert um að læra, og taka illa eftir í kenslustundunum, og eru þá sífelt að reyna að masa við sessunauta sína.

En þá er líka auðvitað hverjar afleiðingarnar verða: Þau fara svo út úr skólanum, að þau kunna sára lítið, og bæði foreldrar þeirra og kennararnir eru sáróánægðir yfir, hve litlum framförum þau hafa tekið, og hafa þó kennararnir eytt að minsta kosti þrefalt meiri tíma þeirra vegna en þægu og iðnu barnanna, sem kepst hafa við nám sitt.

Góðir foreldrar hjálpa skólanum afarmikið, og vanalega koma frá þeim góð og dugleg börn, sem bæði eru siðprúð og keppast við nám sitt; og þegar börnin stálpast, verða þau þess vör, sem þau hafa ekki skilið áður, að hafi þau verið kappsöm og siðprúð í skólanum, þá hafa þau lært meira en lektsíurnar sínar. — Þau hafa líka lært að vera góð og dugleg við fleira en bóknámið, og það er undirstaðan til þess að verða gæfusöm á fullorðinsárunum.

## Föðurlandsást.

(Niðurl.)

„Það er þarna, sem hún er særð“, segir læknirinn. „Vér skulum rannsaka það.“

Alt í einu koma tárin í augu honum, honum, sem hefir séð svo marga hrausta hermenn deyja; og hönd óberstsins hristist, þegar hann tekur á móti blóðuga sneplinum, sem áritunin á fánanum er enn læsileg á.

Allir taka ofan, sem við eru staddir; sumir gamlir hermenn gráta eins og börn, og Vilhelm kallar upp yfir sig: „Það er fáninn hans Franks! Hann er þá líka dáinn!“

Gröf var grafin um nóttina, en morguninn eftir er farið með litla óbrotna kistu til grafarinnar og fylgir henni öll hersveitin og er óberstinn í fararbroddi. Sundurrifinn fáni hylur hinar jarðnesku leyfar hinnar litlu kvennhetju; það er eina líkklæðið, sem Frakkland hefir getað gefið hugprúða barninu, sem hefir fórnað því lífi sínu.

Mörg ár eru liðin. Frakkar eiga ekki Elsass lengur, heldur Þjóðverjar; en sjálfir sigurvegararnir horfa með lotningu á litla

leiðið, sem alt sumarið er þakið með rauðum, hvítum og bláum blómum, sömu litunum og í þjóðfána Frakklands.

Börnin þar í þorpinu gæta leiðisins vandlega. Á því stendur óbrotinn kross og á honum þessi orð:

TIMIDE
Tíu ára gömul.
Dó fyrir fána Frakklands.

Og þegar gömlu foreldrarnir vitja leiðisins til að gráta barnið sitt, hugsa þau um Vilhelm, sem nú ber fána föðurlandsins, en Frakkland hefir fest kross heiðursfylkingarinnar á brjóst honum til þess að borga með því nokkuð af skuldinni til skyldmenna hans.

---

# Ölpeningarnir.

Einu sinni var vefari, og kvæntist hann eins og flestir góðir menn. Brúðkaupsdaginn setti konan hans það upp við hann, að hann skyldi á hverjum degi láta sig hafa peninga fyrir *einu glasi af öli*.

Hann gekk að þessu, enda þótt hann maldaði dálítið í móinn vegna útgjaldanna, og svo líka vildi hann gjarnan að konan sín væri í bindindi, þó hann svalaði þorstanum sjálfur.

Þau unnu bæði mikið, og hann, veslingurinn, var sjaldan annarstaðar að hitta en á knæpunni, þegar verkinu var lokið.

Það gat varla heitið, að þau sæust, hjónin, nema þegar þau snæddu morgunverð.

En af því hún hélt heimilinu í góðu lagi, og hafði peninga frá honum af skornum skamti, þá hafði hann ekki ástæðu til annars en að taka með þökkum því, sem hann fékk til matar.

Hún hafði sitt ölglas daglega (eða peninga fyrir því), og hann hafði sín 2 eða 3, eða hvað þau voru nú mörg. En yfir höfuð höfðu þau lítið saman að sælda, nema einstöku sinnum fékk hún hann til að fara heim af knæpunni fyr en vandi hans var; en þar var hann oft og einatt fram á nótt. En það var mjög sjaldan, sem hún gat fengið hann til að koma tímanlega heim.

Þau voru búin að vera eitt ár saman í hjónabandi. Á giftingarafmælisdag þeirra sagði hann við hana:

„María, við höfum aldrei, síðan við giftum okkur, gert okkur einn einasta glaðan dag saman. Og ef það væri nú ekki eins og það er, að eg á ekki einn einasta eyri, þá skyldum við nú takast skemtiferð á hendur, og heimsækja hana móður þína.“

„Þætti þér það gaman?“ spurði hún blíðlega, mitt á milli gráts og gleði, af því hann talaði svo blítt, alveg eins og hann hafði gert fyrrum. „Ef þig langar til þess, Jón, skal eg borga ferðakostnaðinn.“

„Þú borga kostnaðinn,“ sagði hann dálítið háðslegur. „Kannske þú hafir fengið arf?“

„Nei,“ sagði hún; „en eg hefi fengið *eitt glas af öli*.“

„Fengið hvað?“ sagði hann.

„Eitt glas af öli, eins og eg sagði.“

Jón vissi ekkert, hvað hún átti við, fyr en hún tók lausan tigulstein úr ofnpípunni, tók þar út gamlan sokk og helti úr honum á borðið 365 tuttugu-og-fimmeyringum.

„Gerðu svo vel, Jón; hérna er dálítið til þess að gera sér einn glaðan dag fyrir,—rúmar 90 krónur.“

Jón blygðaðist sín, hann varð hissa, sam-

vizkan sló hann. En hann vildi ekki snerta peningana.

„Fyrst þú gnfir ekki drukkið þitt ölglas, þá skal eg ekki heldur drekka framar,“ sagði hann.

Þau héldu hjónabands-afmæli sitt hjá móður hennar. Peningana, sem konan þannig hafði safnað saman, létu þau í bankann, og þeir urðu byrjun til velmegunar þeirra.

---

## Hvernig á að forðast freistingarnar?

Maður nokkur spurði eitt sinn konung einn, úr ríkti þá í Austurlöndum, hvernig hann ætti að forðast freistingarnar.

Konungurinn skipaði manninum að bera könnu, fleytifulla af olíu, um götur borgarinnar, án þess að láta einn dropa fara niður. „Ef þú hellir niður einum einasta dropa,“ sagði konungur, „skal það kosta höfuð þitt.“ Tveir hermenn gengu með honum með brugðnum sverðum, sinn til hvorrar handar, til þess að þeir væru undir eins við hendina til að sníða af honum höfuðið, ef hann helti nokkru niður.

Það var einmitt kaupstefnudagur í borginni, og göturnar troðfullar af fólki, en maðurinn hafði stöðugt gát á könnunni og kom aftur til konungsins, án þess að hafa helt niður úr henni einum dropa.

Konungurinn spurði hann nú: „Sástu nokkurn mann á leið þinni?“

„Nei,“ sagði maðurinn; „eg hugsaði að eins um olíuna, og sá ekkert.“

„Jæja, þá veiztu nú, hvernig þú átt að forðast freistingarnar. Hafðu sjónir þínar eins stöðugt á guði, eins og þú hafðir á olíu-könnunni; þá mun þín ekki verða freist að til syndar.“

---

## Leikar.

### VII. Upplestur með lánshandleggjum.

Einn af þeim, sem viðstaddir eru, á að lesa upp kvæði, segja sögu eða halda ræðu. Á hann að standa upréttur með hendurnar fyrir aftan bakið. Annar stendur á bak við hann og réttir handleggina fram fyrir hann, en gerir að öðru leyti svo lítið úr sér, sem mögulegt er, svo að áhorfendurnir sjái hann ekki. Meðan á upplestrinum stendur, eiga lánshandleggirnir að gera alls konar ónáttúrlegar hreyfingar; því skringilegri sem þær eru, þess hlægilegri verður upplesturinn. Það á t. d. vel við að þurka sér um nefið, strjúka hárið, klappa saman lófunum, berja sér á brjóst o.s.frv. Auðvitað þurfa þeir báðir, sem leika, að vera samhentir í því að gera upplesturinn sem skemtilegastan.

### VIII. Fréttaburður.

Leikendurnir sitja í hring, og byrjar leikurinn á því, að einn af þeim hvíslar einhverju að þeim, sem næst honum situr, en gætir þess að tala fljótt og fremur óskírt, svo að hætt sé við, að honum misheyrist: Hann hvíslar svo að þeim næsta því, sem honum heyrðist, og svo koll af kolli, þangað til komið er hringinn í kring. Eru þá fréttirnar venjulega orðnar allmikið afbakaðar, og er fróðlegt að heyra, hvað hverjum hefir heyrst, og hvernig fréttin hefir smátt og smátt afbakast.

---

Aldar-prentsmiðja.

# ÆSKAN

## BARNABLAÐ MEÐ MYNDUM

VI. ÁRGANGUR

RITSTJÓRI

## HJÁLMAR SIGURÐSSON.



REYKJAVÍK

GEFIN ÚT AÐ TILHLUTUN STÓR-STÚKU ÍSLANDS (I. O. G. T.).

ALDAR-PRENTSMIÐJAN

1902—1903

# EFNISYFIRLIT.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 13. OKT. 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | I.—2.

## Vagninn hans Péturs Hubers.

(Æfintýri eftir P. Benedicter).

---

Pétur Huber átti dálítinn kofa, svo lítinn, að varla var hægt að snúa sér við þar inni; svo átti hann líka ofurlítinn blett, og ræktaði hann þar grænmeti. En vagn átti hann engan, og varð hann því að selja kálmetið bændunum í kringum sig, og fékk því minna fyrir það, heldur en hann hefði getað fengið, ef hann hefði getað komið því í kaupstaðinn.

En hann var ungur, hraustur og ánægður.

Þá bar svo við vetrarnótt eina í versta veðri, að hann var á heimleið, og fann hann þá á veginum handvagn, sem farið hafði á hliðina, og skamt þaðan mann, sem lá þar særður og að fram kominn af kulda. Pétur fór að stumra yfir honum, kom honum með illan leik upp í vagninn og ók honum heim. Þegar heim kom, lagði hann hann upp í eina rúmið, sem til var á bænum, hitaði te handa honum og settist síðan sjálfur á stól við rúmið og sat þar alla nóttina skjálfandi af kulda. Um morguninn fékk maðurinn dálitla meðvitund, og skýrði hann þá frá því, að hann væri umferðasali, og hefðu ræningjar ráðist á sig. „Þeir hafa sært mig svo mikið,“ sagði hann, „að eg kemst aldrei á fætur framar. En þar sem þú hefir nú verið mér svona góður, skalt þú erfa eftir mig alt, sem eg á.“

Pétur varð dálítið hýr í bragði, er hann heyrði þetta, en lét þó ekki á neinu bera, heldur reyndi að hughreysta sjúklinginn, og spurði hann, hvort hann gæti ekkert gert fyrir hann.

„Eg er einmana í veröldinni,“ anzaði gesturinn með veikri rödd, „og það eina, sem eg læt eftir mig, er litli vagninn, og hann skaltu nú erfa.“

Pétur brosti aftur dálítið, því vagninn var allur sundurliðaður og af göflum genginn, svo að honum hafði veitt fullerfitt að draga hann um nóttina. Það leit út fyrir, að kaupmaðurinn sæi, hvað Pétur var að hugsa um, og sagði: „Það er einmitt ágætt, að vagninn lítur svona fátæklega út, því engum skyldi detta það í hug, hvaða kynjavagn það er. Það þarf nefnilega ekki annað en að segja við hann: Komdu nú, vagninn minn, þá rennur hann áfram sjálfkrafa, þangað til aftur sagt er: Stanzaðu nú, vagninn minn; þá nemur hann staðar.“

„Nei, það var undarlegt,“ sagði Pétur. „Það verð eg að reyna.“ Svo hljóp hann út, tók í kjálkana, lagði kaðalinn yfir herðar sér og kallaði: Komdu nú, vagninn minn! Jú, það stóð heima. Vagninn lagði af stað, og það svo hart, að Pétur varð strax að kalla aftur: Stanzaðu nú, vagninn minn! Þá stóð hann kyr á sama augnabliki.

Þegar Pétur kom inn aftur, var maðurinn dauður.

Pétur hljóp í dauðans ofboði til hreppstjórans, sagði honum, hvað skeð hafði og að maðurinn hefði ánafnað sér eftirlátna aleigu sína. Hreppstjórinn hafði ekkert við þetta að athuga, hrósaði Pétri fyrir mannkærleik hans, og sagði, sem satt var, að hann ætti meira en skilið að fá vagngarminn.

Þannig eignaðist Pétur svona fyrirhafnarlítið og alveg óvænt þennan fyrirtaks vagn.

Hann hlóð á vagninn kartöflum, kálhausum og rófum, lagði kaðalinn yfir herðar sér, tók í kjálkana, og lagði svo af stað með vagninn í kaupstaðinn og var heldur en ekki hnakkakertur.

„En þeir kraftar, sem maðurinn hefir! Það er ekki hægt að sjá á honum, að hann dragi neitt,“ hugsaði mjólkursölukonan, sem var að stritast áfram með kerruna sína, og hafði hún þó stóran hund, sem hjálpaði henni til að draga hana.

„Kartöflur! Kálhöfuð!“ hrópaði Pétur og brýndi röddina, þegar hann gekk um göturnar í kaupstaðnum. Ekki var hann mjög þreyttur að sjá, af því að draga vagninn.

Með svona vagni ætti maður að geta komist áfram í heiminum! Áður en árið var liðið, var Pétur búinn að kaupa stærri jarðarblett og gat nú flutt meira grænmeti í kaupstaðinn. Það stóð alveg á sama, hvort vagninn var tómur eða fullur. Hann var alt af jafnléttur.

En nú er það alt af svo, að ef manni líður vel, þá vill maður þó, að sér liði enn betur.

Því var það, að Pétur fór smám saman að hugsa um, að notalegt væri það nú að geta setið í vagninum í stað þess að labba á undan honum og látast draga hann. Hann hafði nú nælt töluvert, og keypti hann sér því asna, spenti hann fyrir vagninn en settist sjálfur upp í. Hó, hó! Nú gekk það. Vagninn hljóp og asninn hljóp. En asninn átti of náðugt. Hann þurfti ekki að hafa neitt fyrir eins og aðrir asnar. Vagninn sá sjálfur um að haldið væri áfram.

Asninn varð hreykinn af þessu og dutlungafullur og vildi loks ekki fara úr sporunum. En vagninn hélt áfram, ók ofan á asnann og slengdi honum á hliðina. Pétur öskraði í vagninn eins og óður væri, að hann skyldi nema staðar, og hljóp óðara ofan úr honum. Asninn hafði fótbrotnað og varð að slá hann af sem fyrst og koma honum burt. Pétur jós úr sér skömmunum við vagninn, því nú varð hann aftur að spenna sjálfan sig fyrir hann. Og um leið og hann kallaði „Komdu, vagninn minn!“ sparkaði hann til hans; svo vondur var hann.

En vagninn gerði skyldu sína eins og áður, og rann til bæjarins fullur af allskonar kálmeti. „Þetta skal nú ekki koma fyrir oftar“, hugsaði Pétur með sér um kvöldið, þegar hann kom heim. „Eg kaupi mér hest. Hann skal draga mig og vörurnar, og vagninn skal, svei mér, ekki aka ofan á hann.“ Þetta var á augabragði komið í kring. Pétur sat brátt eins og prins í vagninum og kallaði: „Ho, ho, Brúnn,“ í stað þess að ganga á undan og kalla: „komdu, vagninn minn!“ Þegar hann ók aftur fram hjá mjólkursölukonunni, sem var að stritast við kerruna sína með hund-

inum, hugsaði hún með sér: „Æ-i jæja, munur er nú á. Sumir komast áfram í heiminum, eins og hamingjan sé í hælunum á þeim, en aðrir hafa nóg að gera með að halda í sér líftórunni.“

Nú er það þannig, að sá sem situr í vagninum sínum og lætur hestinn sinn draga hann, er meira metinn en sá, sem verður sjálfur að draga vagninn sinn. Pétur Huber fór nú að leggja lag sitt saman við ríkisrobbana og sitja með þeim á veitingahúsinu. Áður hafði varla getað verið að tala um að hann mætti borða kjöt; nú varð það að vera steikt og stappað á alla vegu. Nú var ekki verið að sýta um hverja krónuna; en áður hafði hann séð blóðugum augunum á eftir hverjum eyri, sem hann lét úti. En hægra var nú samt enn að tæma budduna en fylla, og endirinn varð þá sá, að hann varð að lána bæði mat og drykk.

En lánstraustið var líka takmarkað. Hann fékk ekki meira að láni. Þá varð hann að selja hestinn, og leggja kaðalinn á herðar sér eins og fyrrum og kalla: „Komdu nú, vagninn minn!“

En hvað skeður? Vagninn stendur kyr.

„Komdu, vagninn minn!“ kallar Pétur dálítið hærra og fór að síga í hann. En vagninn var orðinn heyrnarlaus á báðum eyrum.

„Hana, komdu nú vagninn minn!“ öskraði Pétur svo hátt, að fólk nam staðar og starði á hann.

„Sá er vitlaus,“ sögðu þeir; „hann heldur, að vagninn renni sjálfkrafa.“ En hann hélt áfram að hrópa hærra og hærra. Og fólkið sagði: „Hann hlýtur að vera eitthvað geggjaður, þessi.“

Loks varð Pétur að neyta orku og draga vagninn með kálmetinu til bæjarins, og á endanum komst hann þangað sprengmóður og alveg kominn að niðurlotum af þreytu.

„Og veslingurinn,“ sagði mjólkurkonan, „nú er hann kominn úr söðlinum á sólana aftur, og þá er víst erfiðið ekki léttbærara.“

En Pétur vandist smátt og smátt við að draga vagninn, og dró hann á meðan hann lifði. Vagninn rann aldrei sjálfkrafa aftur, og aldrei hefir það orðið uppvíst, hvers vegna hann hætti því, hvort það var af gremju yfir því, að Pétur eyddi peningum sínum á veitingahúsinu, eða hann var orðinn því óvanur og hafði gleymt því. Það er gáta, sem hver og einn getur ráðið á þann hátt, er honum virðist sennilegast.

## „Litla Gunna.“

Viljið þið heyra söguna af henni „litlu Gunnu?“ Hún var nefnd svo til aðgreiningar frá „eldri Gunnu,“ systur sinni; enda var hún lítil vexti. Þau voru 12 systkin, börnin hans Einars í Garðshorni, — það var hjáleiga frá Garði. Einar var bláfátækur, og þó var hann duglegur maður, meðan heilsan entist. En kotið var ónýtt, og fjölskyldan mikil. Eldri börnin fóru í dvöl, jafnóðum og þau komust á legg; hin voru heima, og var þar oft hart í búi. Ragnhildur „ríka,“ sem bjó á heimajörðinni Garði, tók litlu Gunnu til fósturs, þegar hún var 8 vetra. Ragnhildur var ekkja eftir Magnús „ríka,“ sjálfseignarbónda í Garði. Hún var orðlögð fyrir dugnað,

ráðdeild og rausn í búi. Hún þótti stórlynd og skaphörð og ekki vel nærgætin á stundum; en hún var líka reglusöm og áreiðanleg, samvizkusöm og velviljuð, en svo var hún fjarska ströng, bæði við sig og aðra. En hún var samt ekki ströng við hann Jón litla; það var einkasonur hennar. Hún elskaði hann svo mikið, að hún gat ekkert látið á móti honum. Hann vandist því á að hugsa ekki um neitt, nema það sem hann langaði til í þann og þann svipinn, og varð dutlungafullur í lund. Hún gekk einlægt eftir honum og trúði öllu, sem hann sagði, hvort sem það var satt eða ósatt. Hann var ári eldri en Gunna. Þau urðu brátt samrýmd, því Gunnu tókst oftast að gera honum til hæfis. Jón átti dálitið skip, seglbúið, og skemti hann sér oft við að láta það sigla yfir lygnupoll, sem var í bæjarlæknum. Einu sinni kom hvirfilvindur og hvolfdi skipinu úti á miðjum pollinum. Dálítill stjóri, sem í því var, sökk til botns og hélt skipinu föstu, svo það rak ekki að landi. Jón tók þá hrífu, seildist með hana út á pollinn og ætlaði að draga skipið að landi. Gunna var hjá, og varð hrædd um, að Jón mundi detta í pollinn. Hún þreif í hann og togaði hann frá pollinum. Þá varð hann æstur, og sleit sig úr höndum hennar svo hart, að hann hrökk út í pollinn á kaf. Þó komst hann sjálfur upp úr, en þá var skipið horfið; það hafði orðið undir honum og fest sig í leðju í botninum. Nú varð Jón bálvondur, kendi Gunnu um þetta slys, og ætlaði að berja hana; hún flúði inn í bæ, en hann elti hana. Ragnhildur spurði hvað á gengi, og af hverju Jón væri allur blautur. Þá datt honum alt í einu ráð í hug til að svala sér og hefna sín á Gunnu; hann sagði, að Gunna hefði hrundið sér út í pollinn og ætlað að drekkja sér. „Er þetta satt?“ spurði Ragnhildur. „Nei,“ sagði Gunna. „Það er víst satt!“ sagði Jón. Þá tók Ragnhildur Gunnu og flengdi hana hlífðarlaust, þangað til hún loksins meðgekk það, af kvölum og hræðslu, að Jón segði satt. „Það er bezt,“ sagði Ragnhildur, „að eg sleppi þér, fyrst þú meðgekst; en ekki skaltu vera hér lengur; það er betra að vera laus við þig.“ Og svo rak hún hana til foreldra sinna. Nú stóð svo á, að hreppsnefndin hafði beðið Ragnhildi að byggja Einari út úr Garðshorni, til þess hann sveitfestist þar ekki. Hún hafði samt ekki ætlað sér að gera það. En nú datt henni í hug, að réttast væri að losa sig alveg við þetta hyski. Og svo bygði hún Einari út. Hann átti sveit í N-hreppi fyrir vestan, og var hann og fjölskylda hans fluttur þangað næsta vor. Þar voru börnin sett niður, en hjónunum var komið fyrir í húsmensku. Þeim féll þetta svo nærri, að þau náðu sér ekki aftur og urðu aldrei sjálfbjarga framar. En loksins, þegar elzta dóttir þeirra var fulltiða, giftist hún efnuðum manni og tók foreldra sína til sín. Öll börnin höfðu fengið góða staði, enda mönnuðust þau vel; en ekki er frá þeim sagt, nema litlu Gunnu. Hún var sett niður hjá gömlu hjónunum á Hvoli og ólst þar upp. Hún kom sér vel; enda fengu hjónin svo mikla elsku til hennar, að þeim hefði ekki getað þótt vænna um hana, þó hún hefði verið dóttir þeirra. Þau höfðu mist öll börn sín nema Sigurð, yngsta son sinn; hann var þá um fermingu og þótti góður og efnilegur piltur. Þegar Gunna var

fermd, lýstu gömlu hjónin yfir því, að þau gæfi Gunnu fjórðungsgjöf af eigum sínum eftir sinn dag. Ekki gerðu þau það til að draga frá Sigurði; þau vildu að hann ætti Gunnu, og bjuggust við að gjöfin drægi til þess engu síður en fortölur þeirra. Það varð líka, — og hefði hvorki þurft gjöf né fortölur. — Sigurður átti Guðrúnu, — þá var hætt að kalla hana „Gunnu.“ — Þau tóku við búi, þegar gömlu hjónin hættu búskap; búnaðist þeim vel og auðguðust óðum. Það þótti Sigurði helzt að, að hann gat ekki fengið jörðina keypta; hún var kirkjueign. Hann vildi því fara þaðan. En foreldrar hans vildu ekki fara lifandi frá Hvoli, svo það dróst þangað til þau voru dáin.

Öll þessi ár bjó Ragnhildur í Garði. Þegar Jón óx upp, kom það fram, að hann hafði aldrei lært að meta vilja móður sinnar eða taka neinar ástæður til greina. Hann varð ráðlaus eyðsluseggur, óáreiðanlegur, og svo ráðríkur, að hann tók meir og meir ráðin af móður sinni. Búið gekk til þurðar. Skuldir urðu botnlausar. Ragnhildur var skrifuð fyrir þeim öllum. Hún borgaði þær lengi vel; en svo hætti hún því. Það fór í mál. Þá leizt Jóni ekki á blikuna: hann stökk úr landi og réðst í siglingar, en Ragnhildur hætti búskap. Hún tapaði málinu; alt sem hún átti, og þar á meðal jörðin, var selt við uppboð til að borga skuldir og málskostnað. Nú var Ragnhildur öreigi, aldurhnigin, lífsþreytt og heilsutæp. Samt var hún nokkur ár eftir þetta í sjálfsmensku; en þegar hún gat það ekki lengur, lá ekkert fyrir henni annað en sveitin.

Sá, sem keypti Garð, var Sigurður á Hvoli. Hann flutti þangað og setti þar upp rausnarbú. Hann komst brátt í álit þar í sveit, varð hreppsnefndaroddviti, og gegndi þeim starfa í mörg ár. Eigi þótti minna til Guðrúnar koma að sínu leyti. Það vissi Guðrún, að Ragnhildur sár-kveið fyrir því, að fara á sveitina; bað hún þá manninn sinn um, að lofa sér að bjóða Ragnhildi til sín. Hann leyfði það, — eins og hvað eina, sem hún bað hann um, — og svo bauð hún Ragnhildi til sín. Hún sá þann sinn kost beztan, að þiggja boðið. Fór hún svo aftur að Garði, og þó með hálfum huga. Þau hjónin fóru með hana eins og hún væri móðir þeirra. Hún bjó í sérstöku herbergi, hafði alt, sem hún vildi höndinni til rétta, en þurfti ekki að leggja hart á sig í neinu. Henni þótti nú ekkert að lífinu nema það eitt, að hún frétti ekkert af Jóni, — því hún elskaði hann enn, og erfði það ekki, að hann hafði gert henni svo miklar skapraunir og valdið því, að hún var svo að segja orðin að aumingja. Einu sinni lagðist Ragnhildur í taugaveiki, varð hætt komin og lá mjög lengi. Guðrún hjúkraði henni með mestu alúð, en átti bágt með að verja hana legusárum. Þó tókst henni það. Þá var það einu sinni, er Guðrún var að hjúkra Ragnhildi, að hún tók til orða í veikum og viðkvæmum róm: „Ó! mikið eru þínar hendur mýkri á mér, en mínar hendur voru á þér forðum!“ „Tölum ekki um það fyr en Jón kemur,“ sagði Guðrún. „Heldurðu hann komi nokkurn tíma?“ spurði Ragnhildur kjökrandi. „Já,“ sagði Guðrún, „eg held hann komi áður en langt líður; mig hefir dreymt fyrir því.“ Ragnhildur vissi, að Guðrún var berdreymin, og trúði hún

þessu. Hafði sú von styrkjandi áhrif á hana: Henni fór að batna; hún komst á fætur, styrktist smátt og smátt og náði sér að lokum furðanlega.

Um vorið eftir var oddvitanum færður sveitarómagi. Það var miðaldra maður, sem hafði verið fluttur hingað frá útlöndum, af því hann var íslenzkur og átti framfærslurétt í sínum fæðingarhrepp. Sigurður var þá ekki heima; hann var í kaupstaðarferð, og var hans ekki von fyr en eftir nokkra daga. Guðrún tók því móti gestum og veitti þeim beina. Síðan fór fylgdarmaðurinn. Þá fór Guðrún að spyrja ómagann að, hver hann væri og hvernig á honum stæði. Hann sagðist heita Jón Magnússon og hafa alist upp á þessum bæ, en farið svo í siglingar og gengið það vel; en í fyrra hefði hann fallið úr reiða og molbrotið báða handleggina, verið fluttur á spítala og legið þar lengi, komið þó til um siðir; en síðan séu báðir olbogaliðirnir svo stirðir, að hann geti varla borið matinn að munninum, hann geti ekki klætt sig eða afklætt nema með hjálp, ekki greitt sér sjálfur og ekkert verk unnið, og því sé hann nú sendur á sína sveit. Guðrún kannaðist við hann, en lét ekki á því bera; hún aumkaði hann innilega, en hafði samt lítið orð á því. Hann spurði hana að heiti. „Guðrún heiti eg,“ sagði hún, „ættuð að vestan; þú þekkir víst fáa þar.“ „Engan,“ sagði hann og grunaði ekkert. Þá spurði hann um móður sína. Guðrún sagði, hún væri lifandi og þar í sveitinni, en ekki gat hún um, að hún væri þar á bænum. „Eg skal sjá um, að þú getir fundið hana á morgun. En núna verð eg að þrífa þig dálítið, svo eg geti léð þér hreint rúm í nótt.“ Hann þáði það með þökkum, því þá var hann lítt þrifaður; enda átti hann engin föt, nema þau, sem hann stóð í. Hún klipti nú hár hans og skegg, kembdi honum, þvoði hann og færði hann í hreinan fatnað. Síðan spurði hún, hvort hann vildi ekki koma út og hreyfa sig dálítið á eftir. Hann vildi það. Þau gengu kringum bæinn og komu að bæjarlæknum. Hún benti á pollinn og sagði: „Hérna þykir drengjunum mínum gaman að láta skipin sín sigla.“ „Það þótti mér líka fyrrum,“ sagði hann. „Þeir bleyta sig hér stundum,“ sagði hún. „Ekki datt eg í pollinn nema einu sinni,“ sagði hann, „og var það af tilviljun.“ „Hvernig þá?“ spurði hún. Hann sagði sem farið hafði og fyr er frá sagt. „Það er skritið,“ sagði Guðrún, „hún móðir þín hefir sagt mér, að stelpan hafi hrundið þér út í pollinn til að drekkja þér. Sagðirðu henni það?“ „Því miður laug eg því að henni,“ sagði Jón; „mér var svo gramt í geði, eg hélt að skipið mitt væri tapað, og eg kendi stelpunni um það.“ „Fékk hún ekki bágt fyrir?“ spurði Guðrún. „Jú,“ sagði hann, „það var nú í meira lagi.“ „Hefirðu ekki séð eftir þessu?“ spurði hún. „Eg hefi ekkert um það hugsað, fyr en núna,“ sagði hann. „En ætlarðu nú ekki,“ spurði hún, „að segja móður þinni sannleikann um þetta, þegar þú finnur hana?“ „Eg held það þýði lítið héðan af,“ sagði Jón. „Það þýðir aldrei lítið að leiðrétta hið ranga,“ sagði hún með alvörusvip. Jón þagði við. Svo gengu þau heim. Dagur var nú að kvöldi kominn. Jóni var hjálpað í gott rúm og svaf hann vel um nóttina.

Nú fer Guðrún inn til Ragnhildar og

segir henni að Jón sé kominn, en hann sé ferðalúinn og sé nú háttaður. Hún sagði henni, hvernig á stóð fyrir honum og hve bagaður hann væri; en hún sagðist vona, að liðamótin kynnu að liðkast smátt og smátt, svo hann gæti orðið jafngóður með tímanum. „En hvort viltu nú heldur,“ sagði hún seinast, „að hann komi hingað inn til þín á morgun, eftir morgunverð, eða þú komir fram til hans?“ Hún sagðist vilja koma fram. „Flýttu þér ekkert að segja honum hver eg er,“ sagði Guðrún, og hét Ragnhildur því. Eftir morgunverð daginn eftir fór Ragnhildur fram í stofu. Var Jón þar fyrir. Hann þekti hana ekki fyrst; en hún sagði honum til sín. Varð þar fagnaðarfundur og þó sorgblandinn. Guðrún fór út á meðan þau töluðust við. Þau sögðu hvort öðru af högum sínum, og gerði Ragnhildur mikið orð á, hve gott væri að vera í Garði: hjónin góð og heimilislíf þægilegt, „og engan stað veit eg jafnhentugan fyrir þig, eins og nú er komið fyrir þér.“ „Eg hefi strax fundið það,“ sagði hann, „og legðu nú til með mér, að eg fái að vera hér.“ „Eg stend illa að vígi til þess,“ sagði hún í döprum róm. Í því kom Guðrún inn. Jón segir þá við hana: „Eg var að biðja hana móður mína að leggja til með mér, að eg fái að vera hér.“ „Hreppsnefndin ræður því;“ sagði Guðrún! „en svo get eg sagt þér nokkuð: hún er hér á bænum, stelpan, sem þú sagðir forðum, að hefði hrundið þér í pollinn. Heldurðu, að hún vilji vera á bæ með þér?“ „Gæti hún þá ekki farið?“ spurði Jón. Guðrún leit alvarlega til hans, og þó þýðlega, og sagði: „Viltu reka hana burt í annað sinn? Þykir þér ekki nóg komið?“ Þá gat Ragnhildur ekki stilt sig lengur og kallaði upp: „Gáðu að þér, Jón! Hún er þetta sjálf!“ Jón brá litum. Nú þögðu þau öll um stund. Þegar Jón kom upp orði, sagði hann við Guðrúnu: „Og *þú* ert þá *litla Gunna*, sem eg laug uppá og gerði svo mikið ílt! Og þú gazt tekið mér svo vel og gert mér svo mikið gott!“ Hann gat ekki sagt meira; hann var nærri því utanvið sig af blygðun og viðkvæmni. Móður hans var þungt niðri fyrir, hún stundi við og sagði með þungri áherzlu: „Laugstu þá upp á hana, Jón? Guð fyrirgefi þér!“ „Já,“ sagði Jón í hálfum hljóðum. „Guð fyrirgefi mér þetta og alt annað. Eg hefi margt á samvizkunni!“ Þá féll Ragnhildur um háls Guðrúnu og sagði grátandi: „Fyrirgefðu okkur, góða Guðrún! Guð mun launa þitt eðallyndi.“ „Eg hefi fyrir löngu fyrirgefið ykkur,“ sagði Guðrún, „og Guð hefir snúið því öllu mér til hamingju. Og fyrst Jón er nú búinn að segja þér sannleikann, þá skal eg ekki leggja á móti honum, ef maðurinn minn vill lofa honum að vera hér.“ Þau þökkuðu henni það bæði og grétu bæði. Þá sagði Ragnhildur við Jón: „Hefði eg tímt að kenna þér að láta á móti þér, meðan þú varst lítill, þá hefði eg ekki þurft að sjá þig gráta núna. Guð hjálpi okkur!“ „Hann mun gera það,“ sagði Guðrún.

Þegar Sigurður kom heim, kvaddi hann bændur til fundar. Þar átti að ráðstafa Jóni. Kvöldið fyrir fundinn spurði Guðrún hann, hvar hann sæi helzt stað handa Jóni. Sigurður sagði, að hann yrði hjá þeim, sem tæki hann fyrir minst. „En hann er svo ósjálfbjarga,“ sagði Guðrún; „honum er svo vandfenginn staður; hann þyrfti að vera með móður sinni; enginn

önnur manneskja getur sýnt honum aðra eins nærgætni og hún; og það veit eg hún telur ekki eftir sér, að hlynna að honum, meðan hún endist til. Og svo er ekki óhugsandi, að hann, ekki eldri maður, geti smábatnað, ef vel fer um hann. Viltu nú ekki láta hann njóta þess, að þú fékkst þessa jörð með góðu verði? Það var óbeinlínis honum að þakka." „Ragnhildur nýtur þess," sagði Sigurður. „Nei," sagði Guðrún, „*eg* á að launa *Ragnhildi*, að hún svo að segja rak mig til þín. *Þú* átt að launa *Jóni*," „Vel er þetta sagt, eins og von er af þér," sagði Sigurður, „en maður verður að gá að sér. Þó það verði út úr, að Jón verði hér, tek eg með honum." „Sem vægast held eg það ætti að vera," sagði hún.

Á fundinum spurði Sigurður bændur, hver þeirra vildi taka Jón með lægstri meðgjöf. En þeir tóku lítt undir það. Það varð úr, að Sigurður bauðst sjálfur til að taka hann, en hinir skyldu ákveða sanngjarnt meðlag með honum. Því urðu allir fegnir, og þau mæðgin þó fegnust. Þau fengu að vera saman í Garði. Jón var nú hinn auðsveipasti, og Ragnhildur sagði, að sér hefði aldrei liðið betur. Þegar prestur húsvitjaði, kallaði hún á hann inn í herbergi sitt; erindið var, að segja honum þessa sögu. *Br. J.*

## Betra en peningar.

Auðmaðurinn sat á skrifstofu sinni.

Ungur maður kom inn og bað hann að lána sér peninga til að byrja að verzla með.

„Drekkið þér?" spurði auðmaðurinn.

„Stundum," svaraði unglingurinn.

„Hættið því, og komið svo til **mín að** ári liðnu."

Ári síðar kom ungi maðurinn **aftur.** Hann hafði verið bindindismaður allan **þann** tíma.

„Reykið þér?" spurði auðmaðurinn **nú.**

„Já," svaraði unglingurinn.

„Hættið því, og komið svo til mín **eftir** eitt ár."

Ungi maðurinn fór heim, brendi tóbakspípur sínar, tóbakið og munnstykkin, og gaf snúningapiltinum pípuhöfuðið sitt.

Hann var í tóbaksbindindi alt árið og kom svo aftur til auðmannsins.

„Spilið þér fyrir peninga?" spurði hann nú.

„Stundum."

„Venjið yður af því, og komið svo til mín að ári."

Ungi maðurinn snerti ekki framar á spilum.

En vinum hans þótti þetta kynlegt og hæddust að honum fyrir það. Einkum gerðu þeir mjög gys að honum fyrir það að hann fór nú ekki oftar til auðmannsins að leita hjálpar.

En hann svaraði:

„Eg þarf ekki framar á hjálp hans að halda. Þótt eg færi til hans, mundi hann ekki gera annað en segja mér, að eg geti sett á stofn verzlunina fyrir mína eigin peninga, úr því að eg hvorki drekk, reyki né spila. Og það get eg líka, og það ætla eg að gera."

---



---

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 29. NOV. 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson | 3.—4.

## Í kynnisför hjá afa.

**(Með mynd eftir J. Exner).**

Sigga litla í Holti og Laugi bróðir hennar voru allra mestu efnishnokkar eftir aldri. Þau hétu Sigríður og Gunnlaugur fullum og svo einhverju stuttu og fögru íslenzku nafni. En þrátt fyrir það döfnuðu börnin ljómandi vel fyrir því, þó þau hefðu aðeins eitt óbjagað íslenzkt nafn. Bæði tóku þau tennur 3 mánaða gömul, fóru að hlaupa um fyrir afmælið sitt, byrjuðu að tala, þegar dálítið var komið fram á annað árið, höfðu



nöfnum, og alls ekkert meira, því þá var ekki kominn sá siður, sem nú á sér stað, að skýra börnin 3 eða 4 nöfnum, eða hræra tveimur eða þremur nöfnum í eitt, t. d. einu úr riddarasögunum, öðru úr ritningunni, lært töluvert af vísum og þulum þegar þau voru þrévetur, og voru búin að þekkja alla stafina á 5. árinu. Það var líka til nokkurs að vinna, því þeim hafði verið lofað, að fá að heimsækja afa og ömmu, þegar þau væru

orðin leikin í að greina sundur alla stafina. Var þar til æði mikils að vinna. Afi og amma bjuggu enn að bæ þeim, er hét í Tungu, og hétu Sigurður og Guðrún. Voru þau nú hnigin á efra aldur, svo sem eðlilegt er, því það eru flestir, sem farnir eru að sjá barnabörn sín, og var hárið þeirra töluvert farið að litast upp, svo sem oft vill verða með aldrinum.

Það má nærri geta, að Sigga og Laugi muni hafa hlakkað til. Nú fengu þau að fara í sparifötin sín, sem aldrei voru snert, nema þegar þau fóru til kirkju, og allir vita, hvað börn verða upp með sér, þegar þau eru komin í sparifötin. Sigga litla var á rauðum kjól, með bláröndótta axlasvuntu, en Laugi í dökkbláum brókum, er náðu niður fyrir hnéð, og samlitri treyju með ljómandi kraga og þremur hvítum leggingum á kraganum. Laugi kvaðst ætla að verða kóngur, þegar hann væri orðinn stór, væri hann spurður að því, hvaða atvinnu hann ætlaði að reka, þegar að því kæmi. Reyndar hafði Laugi nokkuð óljósa hugmynd um konunga, en svo mikið mátti þó ráða af orðum hans, að það væri maður, sem hefði nóg af sykri, rúsínum og öðru góðgæti, ætti ósköpin öll af barnagullum og mætti alt af vera að leika sér. Sigga litla hugsaði ekki nándar nærri jafn hátt. Hún lét sér lynda, ef hún gæti orðið prestskona með tímanum, ætti fallegt sjal og silkisvuntu og sæti fremst í insta stól norðan megin í kirkjunni, eins og hún Björg maddama í Bæ, sem Sigga litla hafði séð nokkrum sinnum, þá er hún hafði fengið að fara til kirkjunnar.

Það segir sig sjálft, að þau Sigga og Laugi þurftu að hafa föruneyti í þá hátíðlegu för, er þau áttu fyrir höndum. Þau gátu ekki komið tvö ein, heldur urðu þau að hafa líkan sið og höfðingjarnir fyrri daga, er aldrei riðu við minna en tólfta mann. Reyndar létu þau sér nægja, að pabbi og mamma væru með; en í augum þeirra Siggu og Lauga voru pabbi og mamma líka á við að minsta kosti tíu menn aðra hvort fyrir sig. En er til átti að taka, virtist fylgdarlið þeirra systkina af öðrum ástæðum. Því pabbi varð að reiða Lauga fyrir framan sig, en teymdi undir Siggu, sem girt var á þýðgenga hryssu, sem Brunka hét, en sjálf hélt Sigga í herðatoppinn alla leið.

Það var komið fram í júnímánuð, annar laugardagur eftir fardaga, því pabbi vildi nota sunnudaginn til að fara aðra leiðina. Var lagt af stað um dagmál í allra blíðasta veðri, logni og heiðríkju, og stóð reykurinn upp í loftið á hverjum bæ, er fram hjá var farið. Margt nýstárlegt var að sjá á leiðinni. Fyrst og fremst var Grettistakið mikla neðan undir Tröllakambi, þrír faðmar á hvern veg, og runnu tvær grímur á Lauga með að halda áfram að keppa eftir kóngstigninni, ætti hann í þess stað að fá afl á við Grettir Ásmundsson, og geta lyft slíku heljarbjargi. — Næsta furðuverkið var fossinn Syngjandi. Hann var ekki afar vatnsmikill, en þess fegri. Steyptist hann ofan af fjallinu og kom hvergi við, fyr en niðri á sléttlendi. Kastaðist fossinn svo langt fram yfir sig, að ganga mátti undir honum inn við bergið. Pabbi og mamma fóru af baki við fossinn og áðu hestunum, sem fóru að bíta í verinu sunnan undir fossinum. Þau Sigga og Laugi störðu forviða á fossinn, og höfðu þau aldrei áður séð slíkt furðuverk. Þarna féll vatnið ofan í sífellu með svo

miklum nið, að varla heyrðist manns mál, og héldu þau Sigga og Laugi, að vatnið hlyti að renna úr einhverri afar stórri tunnu, er væri uppi á brúninni, en á því furðuðu þau sig allra mest, að hún skyldi aldrei tæmast. Pabbi og mamma vildu nú láta þau Siggu og Lauga njóta allrar dýrðarinnar, sem þar væri að sjá, og gengu því með þau inn undir fossinn og leiddu þau við hönd sér.

Börnunum fór ekki að verða um sel, þegar komið var undir fossinn. Dunurnar voru svo afarmiklar, að ekki heyrðist, þótt hver öskraði í eyra annars. Vinstra megin gnæfði bergið marga faðma í loft upp, en yfir höfðinu og til hægri handar steyptist vatnið ofan með undra hraða, og úðinn úr fossinum var svo mikill, að þau urðu hálf-gagndrepa. En sú dýrðarsjón, er þau stóðu undir fossinum! Þarna skein sólin beint á fossinn og skreytti alt í logandi og sí-iðandi ljósskrúð, og regnboginn var svo nærri þeim, að þeim virtist þau geta gripið hann með höndunum. Neðan undir fossinum var hringiða, og eltu vatnsöldurnar þar hver aðra, líkt og þær væru í skessuleik. Börnin urðu hugfangin, svo sem nærri má geta, og það sagði Sigga síðar, þegar hún var sjálf orðin gömul kona, og komin yfir sjötugt, að aldrei mundi hún gleyma þessari ferð undir fossinn. Og í hvert sinn, er hún hugsaði um hann, dytti sér í hug hinn síðasti dómur á efsta degi, og sér virtist hún sæi ímynd guðs í ljós-flóðinu, en heyrði í fossdununum hinn síðasta lúðurhljóm.

Pabbi hafði náð hestunum aftur, og var svo farið á bak á ný og haldið áfram ferðinni. Sí og æ sáu börnin nýtt og nýtt bera fyrir augun. Einkum þótti þeim girnilegar lyngbrekkurnar austan í Laka, því þar mundi ekki vera örðugt að finna ber; en pabbi sýndi þeim fram á, að slíkt væri fjarstæða um þetta leyti árs, og væri óhugsandi að finna ber skömmu eftir fardaga, því enda þótt komið væri fram á túnaslátt, findist ekkert nema grænjaxlar.

Þegar liðið var af hádegi, var komið inn í landareign afa og ömmu. Fanst Siggu og Lauga alt dautt og lifandi verða enn fegra, þegar þangað var komið. Hlíðarnar voru grasi vaxnar upp undir eggjar, og skógarbelti náðu sumstaðar langt upp eftir þeim. Það var munur eða í landareign bóndans á Hrauni, því þar sást ekkert nema skriður ofan frá fjallsbrún og alt niður á sléttlendi, enda hafði þar verið siður frá ómunatíð að rífa allan skógar-tanna upp með rótum. Hafði því verið haldið áfram, unz öll hlíðin var orðin að einu flagi. Féllu þá skriðurnar hver af annari ofan á engjarnar, enda var nú svo komið, að Sigmundur á Hrauni var orðinn öreigi, og að því komið, að hann yrði að bregða búi og fara á sveitina, og þó hafði Hraun upphaflega verið bezta jörðin þar í héraðinu. Hún hafði verið bygð þegar á landnámstíð, og síðan verið höfuðból lengi fram eftir öldum.

Það var munur að ríða veginn þann arna eða einstigin og urðirnar utan með Tindabrekkum, þar sem engum hafði orðið að vegi að kasta steini úr götunni. Hér var öllu grjóti velt burtu, og háar vörður hlaðnar meðfram veginum, svo ferðamenn skyldu ekki villast í illviðrum.

Fénaður sá, er sást þar meðfram veginum, var og allur öðruvísi útlits en hor-

gemlingarnir hjá Hrauni. Geldféð var alt úr ullu, og var auðséð á því, að það hafði flest verið klipt en ekki rúið; en slíkt ber vott um, að vel er farið með það á vetrum. Lömbin voru orðin svo stór, roskin og ráðin, að það leit út fyrir, að þau væru hætt að leika sér. Þar var Afturkemba með lambakónginn. Stóð hann skamt frá veginum og horfði á þau, er fram hjá fóru, líkt og hann furðaði sig á því, að nokkur skyldi dirfast að fara um ríki hans leyfislaust.

Það var fleira en vegurinn og fénaðurinn, sem bar vott um, að afi hefði verið dugnaðarmaður og þarflegur jörð sinni. Engjarnar voru allar girtar, ýmist með görðum eða vörzluskurðum, og lækirnir, sem komu ofan úr fjallinu, fengu ekki að æða lausbeizlaðir hvert á land sem þeir vildu, heldur voru þeir knúðir til að hlýða og renna í veitustokkum út um alt engið, þvert og endilangt. Aðvitað höfðu þau Sigga og Laugi ekki enn þá vit á því, að þarna hafði afi safnað miklum höfuðstól, sem þau ættu síðar að taka að erfðum, og að hver garðspotti, smáskurður og stíflugarður, alt væri þetta peningar, og það jafnvel enn þá arðmeiri peningar, en gullpeningarnir, sem hann pabbi hafði komið með heim af markaðinum.

[Niðurl.]

# Ólafur.

Það var á köldu og næðingssömu haustkvöldi. Norðangolan lék lausum hala um nýslegin tún og engjar, og var að sýna bændum og búandi liði, að nú mundi sumarblíðan vera útrunnin. Ólafur litli á Hóli var sendur að reka kindurnar út á mýri, sem komnar voru í heiðina. Tík fylgdi honum, sem kölluð var Lúða; hét hún svo, af því hún var alhvít, nema annar kjammi hennar var svartur. Lúða var mjög fylgispök, en hafði þann leiða galla, að hún vildi elta og jafnvel drepa mýs, ketti, fugla og ýms önnur smádýr. Ólafur gekk glaður í huga heimanað með keyrið sitt í hendinni, og Lúða dillaði rófunni við hlið hans. Rak hann kindurnar á þann tiltekna stað og labbaði síðan heimleiðis; fór þá Lúða á undan honum, eins og vandi hennar var til, þar til hún fór að stökkva í einlægum smákrókum, ýmist upp á þúfurnar eða niður á millum þeirra, með trýnið niður við jörð. Datt Óla brátt í hug, að hér mundi Lúða vera að elta annað hvort mús eða fugl, svo hann tók til fótanna og hljóp sem af tók þangað, sem Lúða var að þessum eltingarleik. Sá hann þá, að hér áttu tveir ójafnir leik saman; hún var sem sé búin að leggja ofurlitla mús undir sig. Rak Ólafur Lúðu hið bráðasta í burtu, en fór sjálfur að aðgæta músina; lá hún þar á millum tveggja þúfna og spriklaði öllum fótum; ekki gat hann séð þess nein merki, að hún væri limlest, en eitthvað hlaut hún samt að vera að minna eða meira leyti stórsköðuð, þar hún gat ekki staðið á fæturna. Settist Ólafur á þúfu hjá músinni mjög angurvær yfir því að geta ekki hjálpað henni; hann hefði víst viljað gefa til þess það litla, sem hann átti, að hún væri orðin jafn hress, fjörug og kát, sem hún var áður en Lúða fann hana, þar sem hún eflaust hefir verið úti fyrir holudyrum sínum að ná í björg handa ungunum

sínum eða safna sér forða til vetrarins. Úthelti Ólafur mörgum og fögrum tárum yfir veslings sjúku músinni; las hann allar sínar fegurstu og beztu bænir og vers, sem hann kunni, og bað svo innilega, sem honum var framast unt, með sinni hreinu, óflekkuðu og falslausu barnslund, um að músin yrði jafngóð, ef ekki í dag, þá á morgun. Gekk hann svo hryggur í huga heim til bæjar, en með þá föstu sannfæringu og barnslegu trú, að bænir sínar hlytu að ná tilætluðum árangri, jafnheitt og innilega sem þær voru framfluttar.

Ekki átti Lúða upp á háborðið hjá Ólafi þetta kvöld, og ekki var hann fyr heim kominn, en hann beiddi móður sína að gefa henni engan mat.

„Hvers vegna vilt þú ekki gefa smalahundinum þínum eins og vant er?“ spurði móðir Óla.

„Af því,“ sagði Óli, „að ótætis tíkin hefir bitið til dauðs saklausa mús, sem var að leika sér í heiðinni í kvöld, þegar eg kom heim; og það væri réttast að gefa henni aldrei mat héðan af. Hún getur þá lifað á þjófnaði og ránum, drepið mýs og fugla og rænt ungum þeirra.“ Þessi orð sagði Ólafur hálfsnöktandi og var auðheyrt á málróm hans, að þar blandaðist saman sorg og gremja.

„Vertu ekki að þessu voli, drengurinn minn góði,“ sagði móðir Ólai; „músinni verður batnað á morgun, og við skulum gefa hundinum okkar eins fyrir þessu; hún er eins og aðrar skynlausar skepnur, sem mennirnir brúka sem verkfæri í sinni hendi; stundum er verkfærið gott, en stundum líka vont, eftir því, sem mennirnir eru því. Það eru þeir, sem eiga að temja og venja alt hið unga, hundana eins og annað, og hefði Lúða verið vanin af að elta mýs og fugla, þegar hún var hvolpur, þá mundir þú ekki gráta yfir því í kvöld, að hún meiddi músina þína. En farðu nú að hátta, Óli minn. Lestu bænirnar þínar, og gáðu svo að músinni í fyrra málið.“

Ólafur fór síðan í bólið sitt og sofnaði vært, en vart var dagsbrún komin á loft, er hann vaknaði morguninn eftir, og á undan morgunkaffi var hann kominn út í heiði að þúfunni, sem hann sat á kvöldinu áður. En hvað sá hann? Ekki annað en beingaddaða og steindauða mús. Lífið hafði kvalist úr henni. Hún hafði ekki þolað áverkann eða haustkuldann. Ólafur snéri heimleiðis, og allar hans glæsilegu vonir, sem hann hafði gert sér svo háa hugmynd um kvöldinu fyrir, urðu nú að engu. Kom hann heim til móður sinnar og sagði henni þessa hrygðarsögu sína. Reyndi hún að hugga litla glókollinn sinn, og vanst henni það bráðlega, því bráð er barnslundin; eins og börnin eru fljót að hryggjast, eru þau fljót að gleðjast. Gleymdi hann skjótt hörmum sínum og fyrirgaf Lúðu skissu þá, sem henni varð á; urðu þau brátt aftur jafngóðir vinir, sem þau áður höfðu verið.

---

Ólafur var eins og mörg börn, að honum þótti dæmalaust gaman að finna egg og ræna fugla; en um fermingu lagði hann þann sið niður, og er til þess saga sú, er nú skal greina:

Einu sinni sem oftar var hann að smala lambánum úti á mýri, og fann hann þá Stórustokkönd, sem lá á 9 eggjum. Flaug hún ekki upp, fyr en Ólafur var alveg kominn

að hreiðrinu. Hugsaði hann því, að það mundi vera ungað hjá henni og tók ekki nema 3 eggin. Þegar búið var að matreiða þau, reyndust þau bláfersk. Sá Ólafur nú eftir, að hann hafði ekki tekið þau öll.

Morguninn eftir lá leið hans um hjá hreiðrinu, og lá öndin þá á; kom hann til hennar og var hún svo spök, að hann gat strokið henni. En þrátt fyrir það þótt henni þætti svona vænt um eggin sín, að hún gat ekki við þau skilið, þó hún máske sæi opinn dauðann fram undan sér, þá lifnaði í brjósti Ólafs sár löngun til að nálgast þessi eggin líka. Rak hann því öndina af og hrauð hreiðrið algjörlega, og rótaði því öllu í sundur, fór eftir það heim mjög glaður í huga yfir slíkri sigurför, kom til mömmu sinnar inn í eldhús og sagði henni upp alla söguna, því hann bjóst við að fá hrós fyrir hvað hann var duglegur. En sú von hans brást, því móðir hans var mjög stygg í svörum og spurði, hvort hann væri búinn að gleyma því, þegar hann hefði verið að atyrða hana Lúðu hérna um haustið, af því hún hefði drepið mús, og nú hefði hann svo mikla skynsemi fram yfir dýrin, en þó færist honum ver, „og þar sem þú hótaðir Lúðu um haustið að gefa henni ekki mat, þá væri réttast að hafa þig matarlausan í dag. Eða ert þú svo skyni skroppinn, að þú getir ekki ímyndað þér, hvernig öndinni hafi orðið við, er hún fann hreiðrið sitt aftur, þegar þú varst búinn að sýna henni jafnmikla þrælmensku, að gefa henni fyrst nær því öll eggin, en ræna hana síðan daginn eftir öllu, sem hún átti? Eg vildi óska, Óli minn, að þú gerðir þetta aldrei oftar, því þá munt þú verða vel liðinn í fuglaríkinu og fuglunum mun þykja vænt um þig.“

Ólafur tárfeldi við þessa ræðu móður sinnar, og hann lofaði henni því hátíðlega, að ræna aldrei neinn fugl eggjum sínum upp frá þessu, og hann hefir víst rækilega efnt það loforð sitt, því mér er vel kunnugt um það, þar eg þekki Ólaf persónulega; og nú er hann kominn yfir tvítugs aldur, fremur hár og þrekinn maður, fáskiftinn, hægur og stiltur í lund, fátalaður en þó ræðinn, þegar fram í sækir.

Ólafur kærir sig ekki um það, þó hann heyri háðglósur og spéhlátra gáskafullra gárunga, sem gera gys að honum fyrir þá sérvizku, sem þeir svo kalla, að hann oft tekur málstað saklausra og mállausra dýra og fugla, því honum þykir svo undur vænt um þau, samsöng þeirra, kappflug o. fl. Ólafur lætur slíkar og þvílíkar glósur sem vind um eyrun þjóta, og ber jafnlétt reyfi sitt fyrir því. Hann er búinn að sjá það og jafnvel reyna, að heimurinn er táldrægur og hefir dregið margan mann á tálar með fagurgala sínum, og að vont er fyrir unglingana að slá sér mikið í félag við hann. En hægra er að kenna heilræðin en halda þau í því efni; því þó maður sjái jafnvel beint fram undan sér villigöturnar, og sé kominn fram á hyldýpisbarm spillingarinnar, þá er veikleiki manna svo mikill, að þeir falla ofan í það foræði, sem þeir ef til vill aldrei ná sér upp úr. Því er það alls ekki rétt gert af heiminum að kasta þungum steini á einn eða annan, sem verður fyrir misjöfnu áliti, eða misjafnri gæfu, því enginn er sinnar eigin gæfu smiður að öllu leyti.

En, börnin góð, gætið að því, að villigöturnar eru margar, tálsnörurnar óteljandi

og falspostularnir æfinlega síprédikandi frið og að öllu sé óhætt.

(Saga þessi er að öllu leyti sönn, nema manns-og bæjarnafni er breytt.)

*Jóhann Ögm. Oddsson.*

# Jakob og konan hans.

„Jakob, þarna sérðu, hvernig allri von er lokið. Hér erum við gömul og útslitin; öllum börnunum hefir dauðinn svipt oss, og áður en langt um líður, neyðumst við til að fara á fátækrahúsið. ***Hvar er nú alt það brauð, sem þú hefir kastað á vatnið?***“

Hinn gamli gráhærði maður horfði framan í konu sína. Hann bar hin venjulegu þjökunareinkenni ellinnar. ***Jakob Manfred,*** svo hét hann, hafði verið vel efnaður maður, og meðan hamingjan brosti við honum, hafði hann ætið hjálpað nauðstöddum. En nú var auðnu hans gengið. Af 4 sonum, sem hann hafði eignast, var enginn á lífi; dauðinn hafði hrifið þá frá honum, og með þeim alt hans, og nú var hann öreigi, Jakob og kona hans svona einmana, og skortur á öllu var þeim hvarvetna fyrir sjónum.

„Mögla þú ekki, ***Súsanna,***“ sagði gamli maðurinn; „það er satt, að við erum fátæk, en yfirgefin erum við ekki.“

„Ekki yfirgefin, Jakob? Hver er þá, sem hjálpar okkur?“ Jakob fórnaði skjálfandi höndum til himins.

„Ó, Jakob, eg veit, að guð er vinur vor, en vér þurfum aðra vini. Líttu á liðna tímann, hversu mörgum við hjálpuðum þá. Þú kastaðir viljugur brauði þínu á vatnið, en hefir ekki fundið það aftur.“

„Tala þú eigi svona, Súsanna; þú veizt ekki, hvað þú segir. Það er satt, að eg hefi vonað, að einhver líknandi hönd hér á jörðunni mundi hjálpa mér úr eymd fátæktarinnar; en eg vonaði ekki, að það væri endurgjald neins þess, er eg hefi gert. Hafi eg hjálpað einhverjum liðna æfistund, þá hefi eg fulla borgun fyrir það, þar sem eg hefi meðvitundina um að hafa gert skylduna við meðbræður mína. Það góða, sem eg hefi gert öðrum, vildi eg ekki gulli kaupa aftur, ef eg með því misti mína góðu samvizku. Góða kona mín! Endurminningin um það góða, sem við höfum gert, bætir okkur beiskju ellinnar. Mér finst að eg enn þá heyri hljóminn af þakklátum vörum og sjái brosið, sem mætti mér, þá er eg rétti einhverjum hjálparhönd.“

„Já, Jakob,“ sagði kona hans í lægri róm, „eg veit að þú hefir verið brjóstgóður, og við þá hugsun getur þú verið glaður; en, ó, það er annað ***nú,*** sem við verðum að líta á. Það eru kringumstæðurnar, eins og þær eru. Við verðum annað hvort að beiðast ***ölmusu*** eða hungra.“

Gamli maðurinn sá engan ***ljósan*** blett á framtíðar-braut sinni; en von hans var bygð á hinum ***máttuga föður,*** sem hann hafði leitast við að þjóna. „Beiðast ölmusu,“ endurtók hann, og stór tár runnu niður eftir hinum ellibleiku kinnum hans. „Nei, Súsanna, — við skulum fara.“

„Fara hvert, Jakob?“

„Fara á ***fátækrahúsið.***“

„Ó, guð minn góður! Eg hugsaði það,“ sagði hin mædda veslings kona hans, og huldi andlitið í höndum sér. „Eg hefi reynt að venja mig við þá hugsun, en hjarta mitt hefir ekki getað borið hana.“

„Örvæntu ekki, Súsanna. Okkur er þetta

létt að bera, því lausnarstund okkar er bráðum komin.“

„En hvenær eigum við að fara?“

„Nú í dag.“

„Guð hjálpi okkur.“

„Það mun hann gera,“ sagði Jakob.

Gömlu hjónin sátu hljóð eitt augnablik. Þegar þau litu út, sáu þau að vagn staðnæmdist við dyrnar. Maður gekk inn; það var ráðsmaður fátækrahússins.

„Komið þér, herra Manfred,“ sagði hann; „mér hefir verið boðið að flytja yður á fátækrahúsið. Vagninn bíður við dyrnar, og þú verður að búa þig til brottferðar það bráðasta, þú getur.“

Jakob Manfred hafði eigi komið til hugar, að sér mundi veita svona erfitt að skilja við heimkynni sitt, en rödd þessa manns var svo köld, að það var eins og ís legðist að hjartarótum Jakobs, og með djúpum hugsunum hneig hann máttvana niður á sæti sitt.

„Komdu, flýttu þér,“ sagði hinn óþolinmóði ökumaður. Í sömu svifum ók annar vagn að dyrunum.

„Er þetta húsið, sem Jakob Manfred býr í?“ spurði sá er í vagninum var. Hann var góðlegur ásýndum, og kringum fertugt að aldri.

„Nafn mitt er það,“ sagði Jakob.

„Þá hefir mér verið rétt til sagt,“ sagði hinn nýi gestur.

„Eruð þér sendur frá fátækrahúsinu?“ spurði hann enn fremur, og snéri sér að ráðsmanni fátækrahússins.

„Já.“

„Eruð þér að sækja þetta fólk?“

„Já.“

„Þá getið þér snúið aftur, því Jakob Manfred fer ekki á fátækrahúsið meðan eg lifi.“

„Þekkir þú mig ekki?“ spurði hann, er hann var kominn inn í húsið, og tók í hönd Jakobs.

„Nei, eg kem því ekki fyrir mig nú, hver þú ert .“

„ Manstu eftir *Lúðvíg Vilhjálmssyni*?“

„Lúðvíg,“ endurtók Jakob, stóð upp og horfði beint framan í gest sinn. — „Já, Jakob Manfred, það er Lúðvíg, sem þú fyrir 30 árum forðaðir frá að fara á uppeldisstofnunina; það er sami, veslings föður-og móðurlausi drengurinn, sem þú svo föðurlega og ástúðlega réttir hjálparhönd, rétt sem eg væri barn þitt.“

„Og ert þú“—

„Já, já, eg er drengurinn, sem þú ólst upp. *Það varst þú*, sem leiddir mig frá hinu *illa*. *Það varst þú*, sem fyrstur manna kendir mér að *þekkja* hina *eilífu himnesku gleði*. Af því, sem þú last mér, lærði eg að þekkja *frelsara* minn, og það *ljós*, sem þú þannig tendraðir í sálu minni, hefir æ skinið bjartara og bjartara alt til þessarar stundar. Eg var búinn að frétta fémissi þinn, og eg veit, að öll börnin þín eru frá þér tekin. En eg er *barn elsku þinnar*, og þú skalt ávalt vera minn faðir. *Kom þú.* Þú ert faðir minn og þú ert móðir mín. Þú kveiktir mér ljós í æsku minni, og eg *vil ekki* láta þig sitja í *myrkri mæðunnar*.“

Jakob faðmaði velgjörðamann sinn; hann gat ekki með orðum látið þakklæti sitt í ljósi. Svo snéri hann sér að konu sinni: „Súsanna,“ mælti hann með titrandi rödd, „eg hefi aftur fundið brauð það, er eg kastaði á vatnið.“

„Fyrirgefðu, Jakob,“ svaraði hún.

„Eg hefi ekkert að fyrirgefa,“ mælti hann, „heldur guð, og í hans hendi ernm við.“

„Já,“ sagði hún og hóf tárvot augu til himins, „eg skal aldrei framar efa orð hans.“

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN

## Jólablað 1902

VI. ÁRG. | Einkarétt hefir Stórstúka [illegible] I. O. G. T. | Á JÓLUNUM. | Ritstjóri: [illegible] | 5.

## Einn smælingjanna.

Það var aðfangadagur jóla. Snjórinn á götunum var alveg ótroðinn og, eftir loftsútlitinu að dæma, var von á meiru. Lítil ljóshærð stúlka kafaði áfram í snjónum á götunni í einum útjaðri bæjarins. Hún var rjóð af göngunni í ófærðinni; en hún skeytti því eigi, heldur hélt áfram brosandi, eins og hún væri að hugsa um eitthvað mjög gleðilegt.



[illegible]

O[illegible] gleðilega var það, að hún hafði spegilfagran 2-krónu-pening í vasanum, og fyrir hann ætlaði hún að kaupa jólagjafir handa móðurinni sinni, sem var fátæk ekkja. Hvað hún hafði sparað í marga mánuði, til þess að geta safnað saman svo miklu fé! En nú var það fengið, og ekki annað eftir en að velja gjafirnar. Eftir langa umhugsun hafði hún loks ákveðið, hvað það ætti að vera: Sálmabók í mjúku bandi og vasa-almanak, blátt og gylt á spjöldunum. Þetta voru nytsamar og fallegar gjafir, og hún hjóst við, að peningarnir mundu nægja fyrir því.

Olga var komin að kaffisöluhúsinu, þar sem Hjálmar Lund, einn af leikbræðrum hennar, átti heima. Hún settist niður á tröppurnar til að hvíla sig eitt augnablik, hún hafði nægan tíma samt. Hún þreifaði eftir, hvort peningurinn væri í vasanum. Jú, auðvitað var hann þar. [illegible] að hún mætti til að skoða hann [illegible], áður en hún léti hann frá sér. Hún [illegible] hann upp og [illegible] það, einu af [illegible] aði [illegible] við hann, en svo [illegible] svo rann hann alt í einu [illegible] niður í snjóinn.

H[illegible] sem hún [illegible] inni, fann hún ekkert. Eins gekk Hjálmari, sem kom að í sömu svifum, og fór að leita með henni. Þá setti að henni ákafan grát, og hún hálfhljóp af stað heim[illegible] hægðum sínum.

Hún mætti miðaldra manni í þykkri kápu og með alvarlegu augnaráði. [illegible]

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 31. DES. 1902. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 6.-7. TBL.

## Gufuskip.

ÁRIÐ 1736 fæddist á Skotlandi drengur, sem skírður var James Watt (les: Djems Vott). Hann var af fátækum kominn og lifði mestan hluta æfi sinnar sem fátækur verkmaður. En honum er þó að þakka ein hin mikilsverðasta framför, sem orðið hefir á síðari öldum, því að það var hann, sem fyrstur fann upp á því að nota vatnsgufuna til að starfa í þarfir mannanna. Þetta hafði að vísu verið reynt áður og tekist að nokkru leyti; en James Watt endurbætti svo mikið alt það fyrirkomulag, sem menn höfðu áður viðhaft, að hann er venjulega talinn höfundur gufuvélarinnar.



James Watt ólst upp hjá frænku sinni, og er þess getið, að eitt sinn, er hann var í æsku, sat hann lengi við teborðið, niðursokkinn í að taka eftir, hvernig vatnsgufan í tekatlinum lyfti hvað eftir annað lokinu af honum, og hvernig gufan varð að vatnsdropum, er hún kólnaði. Frænka hans kom að og ávítaði hann harðlega. „Aldrei á æfi minni hefi eg þekt annan eins letingja,“ mælti hún; „ætli þér væri ekki nær að taka heldur bók og gera eitthvað þér til gagns. Skammastu þín ekki, að eyða svona tímanum?“ Hún hafði auðvitað enga hugmynd um, að það, sem hann var að gera, mundi hafa svo mikla þýðingu fyrir mannkynið, eins og raun hefir á orðið. Vatnsgufan í tekatlinum varð fyrst til að vekja hjá honum hugmyndina um gufuvélina.

Eins og allir vita, eru nú gufuvélar notaðar á margvíslegan hátt og til margvíslegra starfa, þar á meðal til að knýja skip áfram, og eru þau skip, sem ganga fyrir gufuafli, nefnd gufuskip.

Sá, sem fyrstur fann upp á því að nota gufuvélina til að knýja áfram skip, hét Robert Fulton og átti heima í Ameríku. Þegar hann sagði mönnum frá þessari hug-

mynd sinni, gerðu þeir ekki annað en hæðast og hlæja að honum, og flestir álitu, að hann væri brjálaður, að láta sér detta slíka fjarstæðu í hug. En hann sinti því ekki, og svo fór, að hætt var að hæðast að honum, þegar menn sáu, hve vel tilraunir hans heppnuðust. Árið 1803 gerði hann fyrstu tilraunina og notaði til þess dálítinn bát; en fjórum árum síðar reyndi hann að knýja stórt skip áfram með gufuafli, og tókst ágætlega. Var þá brátt farið að byggja gufuskip víðs vegar um heim. Fyrsta gufuskipið, sem fór milli Ameríku og Englands árið 1819, var 26 daga á leiðinni. Nú hefir gufuvélin tekið svo miklum framförum og lagið á skipunum breyzt svo mikið síðan, að gufuskipin þurfa ekki nema 5 — 6 sólarhringa til að fara þessa sömu leið.

Gufuskipið, sem þér sjáið á myndinni, er eitt af hinum minni, og eru þau venjulega ekki kölluð gufuskip, heldur gufubátar.

# Í hugsunarleysi.

„Jæja, börnin mín góð; eg veit, að ykkur þykir vænt um pabba ykkar og að þið gerið ekki *viljandi* það sem honum mislíkar. En þið hafið öll gert ýmislegt í *hugsunarleysi*, sem honum hefir fallið mjög þungt. Eruð þið ekki öll hrygg yfir því?“

„Jú, jú, amma,“ svöruðu öll börnin sem með einum rómi.

„Nú, jæja, fyrst þið iðrist þess, skal eg segja ykkur skemtilega sögu.“

Börnin höfðu auðvitað ekkert á móti því, og tóku nú vel eftir, á meðan amma var að segja þeim söguna.

„Þegar eg var dálítil stelpa, átti eg heima í fangelsi; eg fæddist í fangelsi, því að faðir minn var fangavörður. Það var skuggalegt hús og háir múrveggir hringinn í kring um það; en okkur börnunum þótti vænt hverju um annað, og vorum við því glöð og ánægð. Fangelsið var lítið, og hafði faðir minn alla umsjón með því. Eg gekk í skóla, og man eg, að eg átti oft erfitt með lexíur mínar. Oft varð eg að biðja Nellie Henderson að hjálpa mér; en hún var duglegasta stúlkan í skólanum og bezta vinstúlka mín. Einn dag átti eg að reikna mjög erfitt margföldunardæmi; eg gerði það sem eg gat, til að reikna það rétt, en alt af varð það rangt. Á þeim tímum var okkur refsað stranglega, ef við kunnum ekki það sem við áttum að læra, og var eg því mjög óttaslegin.“

„Hvað gerðirðu þá, amma?“ spurði Tom ákafur.

„Í angist minni hljóp eg út á leiksvæðið til Nelliar. Það var rétt áður en kenslan byrjaði. „Æ, hjálpaðu mér með óhræsis dæmið, Nellie mín; þá ertu væn,“ sagði eg.

En Nellie leit til mín óhýrum augum og fór síðan leiðar sinnar; sá eg, að hún var mjög reið við mig. Eg fór þegar að gráta, er eg fékk þessar óvæntu viðtökur, en skömmu síðar fór eg á eftir henni, og sá eg þá, hvar hún stóð í horni einu á leiksvæðinu og var að tala við allmargar skólasystur okkar. Hún var hávær, og heyrði eg hana segja: „Leikið ykkur ekki framar við Elísu,“ og þær svöruðu: „Ekki eg, ekki eg.“ Eg varð mjög hugsandi út af því, hvað eg mundi hafa gert, sem verðskuldaði svo harða refsingu. Gekk eg til

hennar strax á eftir og spurði, hvað ilt eg hefði gert.

„Faðir þinn hefir sett bæði föður minn og föður hennar Jennyar og föður hennar Emilíu inn í stóra, ljóta húsið ykkar, svo að nú ætlum við ekki að leika okkur við þig framar, fyr en þeir eru komnir út aftur, og kann ske ekki þá heldur.“

Og svo hlupu börnin burt frá mér, alveg eins og eg hefði kóleru eða eitthvað annað mjög voðalegt. Til allrar hamingju fyrir mig var ekki farið yfir reikningsdæmin fyrri hluta dagsins, en kennarinn, sem var mjög strangur, sagðist ætla að fara yfir þau seinni partinn. Eg gekk heim með þeim fasta ásetningi að gera nokkuð, sem eg veit nú að var hræðilega rangt; en þá hugsaði eg ekki um annað en reikningsdæmið og refsinguna, sem mér var vís, ef eg kynni það ekki. Mamma var veik þennan dag og lá í rúminu, og bað hún mig um að færa föngunum grautinn. Eg hafði oft gert það áður, og hafði alt farið vel.

Þegar móðir mín bað mig um þetta, hoppaði hjartað í mér af gleði. Faðir minn hafði farið eitthvað út í bæ til að kaupa eitthvað, og ekkert var því til fyrirstöðu, að eg gæti komið fram áformi mínu. Eg tók lyklakippuna og gekk í gegnum langan og dimman gang. Þar voru fangaklefarnir til beggja hliða. Faðir Nelliar hafði verið tekinn fastur, af því að hann hafði farið á veiðar í leyfisleysi í landareign jarlsins. Skógarverðirnir höfðu hitt hann þar ásamt fleiri leyniskyttum, og höfðu leyniskytturnar skotið á þá. Þegar eg gekk eftir ganginum, albúin til að framkvæma áform mitt, var eg að hugsa um, að eg hafði heyrt að einn skógarvörðurinn hefði verið særður til ólífis, og mér fanst óttalegt að hugsa til þess, ef faðir Nelliar yrði sakaður um að hafa drepið hann. Eg gekk að því vísu, að Nellie mundi aldrei hjálpa mér með erfiðu reikningsdæmin, ef þetta kæmi fyrir föður hennar. Eg gekk úr einum klefa í annan og lét grautardiskana á borðin hjá föngunum. Svo kom eg loks í einn klefa, þar sem eg hitti fyrir mann, sem eg hafði oft séð á gangi í þorpinu.

„Ert þú faðir Nelliar?“ spurði eg.

„Já, barnið mitt,“ svaraði hann vingjarnlega, og virtist mér þó maðurinn hinn ógeðslegasti, og voðalega stórt ör hafði hann á andlitinu.

„Viltu gjarnan komast burt?“ spurði eg.

Hann horfði á mig stundarkorn efablandinn. Loks rauf hann þögnina og sagði, að konan sín væri veik og langaði hann mjög til að sjá hana, áður en hún dæi. Eg vissi að móðir Nelliar hafði lengi verið veik, og kendi eg í brjósti um veslings manninn.

„Eg skal koma þér burt, og svo geturðu farið heim til konunnar þinnar, og Nellie mun þá hjálpa mér með dæmið mitt, svo eg losist við refsinguna,“ mælti eg.

Eg held, að hann hafi ekki skilið mig; en hann spurði: „Hvað ætli faðir þinn segi, þegar hann kemst að því, að eg er strokinn?“

„Ó, pabbi gerir víst gott úr því,“ anzaði eg í barnslegu trausti til föður míns, að honum tækist að gera gott úr öllu.

Eg fór nú og sótti gamlan frakka, sem faðir minn átti, og fékk fanganum hann; hann skýldi honum svo, að fangafötin sáust ekki. Fanginn laut niður og kysti mig og sagði eitthvað á þá leið, að hann vonaði að eg yrði ekki fyrir neinum óþægindum,

þótt eg hefði hjálpað einstæðings fanga. Sá eg stór tár renna niður kinnar hans. Eg leiddi hann út úr klefanum, setti slá fyrir dyrnar og fylgdi honum svo út í leynigang einn. Þar var kolniða myrkur, og var eg hálfhrædd að vera þar einsömul með þessum manni. En hann tók vingjarnlega í hönd mér, og svo þreifuðum við fyrir okkur í myrkrinu. Eg hafði farið þessa leið áður með föður mínum, og vissi eg, að göngin láu að litlum dyrum. Faðir minn hafði sagt mér, að áður fyr hefði verið venja að fara þessa leið út með þá fanga, sem átti að lífláta. Þegar við komum að dyrunum, fékk eg fanganum lykilinn, en sagði honum að bíða og fara ekki út, fyr en dimt væri orðið, því að þá mundi hann betur geta komist undan. Síðan fór eg til baka sömu leið. Undarlegt var það, að allan þennan tíma kom mér það ekki eitt augnablik í hug að þetta væri neitt voðalega rangt og gæti bakað föður mínum mikil óþægindi. Hugur minn dvaldi allur við reikningsdæmið og refsinguna, sem eg átti vísa, ef það yrði ekki rétt.

Þegar eg kom aftur, var miðdegisverðurinn ekki alveg til búinn, en eg hafði enga þolinmæði til að bíða eftir honum, fékk mér því að eins brauðbita, og hljóp svo til Nelliar. Hitti eg hana eina í eldhúsinu.

„Eg hefi hleypt föður þínum út úr fangelsinu, Nellie. Viltu nú ekki hjálpa mér með dæmið?“

„Ó, það var vel gert; eg skal gera alt fyrir þig,“ sagði hún.

Við sátum nú þarna báðar miðdegismatarlausar yfir dæminu, sem eg hafði borið svo mikla áhyggju út af. Tölurnar, sem höfðu verið mér svo erfiðar, voru svo sem ekkert fyrir Nellie, og eftir fjórðung stundar vorum við búnar. En hvað eg var glöð! Síðan leiddumst við út úr húsinu.

„Bíddu við, eg ætla að segja mömmu frá því,“ hvíslaði Nellie.

„Nei, segðu henni það ekki strax; hann kemur heim, þegar dimt er orðið,“ anzaði eg.

Hún lagði báðar hendur um háls mér, og eg var svo sæl, af því eg vissi, að nú var hún ánægð. Klukkan 5, áður en reikningskenslan byrjaði, kom faðir minn inn í skólann. Hann var óttalega strangur að sjá og talaði nokkur orð við kennarann og síðan var kallað á mig út úr kenslustofunni. Þegar við komum út í ganginn, tók faðir minn í handlegginn á mér og spurði hörkulega: „Var Henderson í fangaklefanum sínum, þegar þú færðir honum grautinn?“

„Já,“ svaraði eg stamandi.

„Sástu, hvort hann var inni, þegar þú lokaðir dyrunum aftur?“

Eg þoldi þetta ekki lengur. Eins og ljósi væri brugðið upp fyrir mér, sá eg nú alt í einu, hversu rangt eg hafði gert. Eg fleygði mér í faðm hans og fór að gráta. Þá blíðkaðist hann strax og strauk vingjarnlega hendinni um höfuð mér. „Hvað er að þér, barnið mitt?“ spurði hann blíðlega.

„Nellie var svo hrygg, og mér þótti svo vænt um hana, og eg hleypti honum út, af því að hann sagði að sig langaði til að sjá konuna sína, áður en hún dæi,“ sagði eg snöktandi.

„Ó, barnið mitt, veiztu, hvað þú hefir gert?“ mælti hann, og sá eg, að honum féll þetta afar þungt.

„Eg—eg—hugs—aði, að þú gætir gert það gott aftur, því mér þykir svo vænt um þig.“

„Það er alveg voðalegt, sem þú hefir gert; en þú gerðir það ekki af illum hvötum. Aumingja skógarvörðurinn er dáinn, og nú hefir morðinginn komist undan. Eg fyrirgef þér."

Alla nóttina lá eg með svo sárum ekka, að mér fanst sem brjóst mitt ætlaði að springa. Eg hafði bakað elsku föður mínum sorg. Um kvöldið og alla nóttina var mannsöfnuður úti að leita að fanganum. Hann hafði komið heim til sín og talað við konu sína, sem lá fyrir dauðanum. En eftir það vissi enginn neitt um hann. Í þrjá daga og þrjár nætur var hans leitað, og loks fanst hann, þar sem hann sat efst uppi í tré einu, hér um bil hálfa mílu frá fangelsinu. Hann hafði setið þar nærri allan tímann og var hálfdauður úr hungri og kulda."

„Og hvað var gert við hann?" spurði Tom.

„Dómararnir álitu það ósannað, að hann hefði drepið skógarvörðinn, og var hann því ekki dæmdur sem morðingi, heldur dæmdur í 12 mánaða fangelsisvist. Þegar hann kom út aftur, var hann orðinn allur annar maður. Hann yfirgaf sína fyrri félaga, hætti að skjóta í óleyfi, hætti að drekka og gerði alt, sem í hans valdi stóð, til að gera vandamenn sína ánægða og hamingjusama. Verkið, sem eg hafði unnið í hugsunarleysi, bakaði föður mínum og fleirum mikil óþægindi; en eg hugga mig við það enn í dag, sem veslings fanginn sagði oft síðar, að það hafi verið vingjarnleg framkoma mín gagnvart honum, þegar dimmast var í kringum hann, sem innrætti honum þann ásetning að verða nýr og betri maður."

---

# „Alkohol" fyrir rétti.

Rétturinn er settur.

Yfirdómarinn og meðdómendurnir hafa tekið sér sæti á dómarastólunum, íklæddir síðum svörtum dómarakápum.

„Alkohol," mesti glæpamaður í heimi, er færður inn og settur á sakamannabekkinn.

Svo byrjar réttarathöfnin.

Yfirdómarinn spyr málaflutningsmanninn: „Fyrir hvað er þessi herra kærður?"

Málaflutningsmaðurinn: „Hann er ákærður fyrir ótölulegan fjölda afbrota, og munu vottar þeir, sem stefnt hefir verið, bera vitni um það. Leyfist mér að leiða vottana fram?"

Yfirdómarinn: „Já, látum oss heyra, hvað þeir segja um hinn ákærða."

Vottarnir eru kallaðir fram, hver á fætur öðrum, og þeir nema staðar í vottastólnum á meðan þeir gefa skýrslur sínar, sem þeir síðar staðfesta með eiði. Vér höfum skrifað upp vitnisburði þeirra og setjum þá hér.

1. vottur: „Eg sá „Alkohol" slást og gera upphlaup á strætum borgarinnar. Hann var svo ólmur, að lögreglan átti fult í fangi með að halda honum. Það varð að byggja fangelsi til að loka hann inni, og fatækrahús til að sjá fyrir fjölskyldunni, og þetta varð þjóðin alt að borga."

2. vottur: „Eg sá fangann stela frá góðum manni sjalfsáliti hans og lífsstefnu, hann tók af honum fötin og skildi hann eftir í aumkunarverðustu tötrum; hann tók heilbrigði hans og vit. Áður en „Alkohol" hitti hann, var hann saklaus, áreiðanlegur og friður sýnum; nú er hann verri en villidýr."

3. vottur: „Eg hefi oft séð „Alkohol"

misþyrma hinni geðspöku konu sinni og fallegu, saklausu börnunum. Hann hefir rekið alla hamingju og öll þægindi af heimilinu, svo að það er nú hinn aumasti bústaður, sem hægt er að hugsa sér."

4. vottur: „Eg hefi séð fangann leiða svívirðingu yfir börn sín, svo að jafnaldrar þeirra forðuðust að vera með þeim. Og enn meira: Hann hefir gert þau fátæk, svo að þau hefir skortað bæði fæði og klæði og hann hefir meinað þeim að vaxa upp og verða að velmetnum borgurum."

5. vottur: „Eg hefi séð „Alkohol" fá löggjafana til að semja og samþykkja vond lög; hann hefir spilt þjóðfélaginu."

6. vottur: „Eg átti góðan vin, efnilegan ungan mann, sem var mikils virtur af öllum, sem hann þektu. Hann var gleði og einkastoð móður sinnar. Einn dag náði „Alkohol" tangarhaldi á honum, tók hann með sér út í borgina og rændi hann öllum hans góðu hæfileikum. Nú barði hann móður sína, stal skildingum hennar og leiddi hana með smán og vanvirðu í gröfina."

7. vottur: Eg hefi með eigin augum séð „Alkohol" fremja hvern glæpinn öðrum verri; eg hefi séð hann stela, falsa og svíkja, ráðast á saklaust fólk á strætum og þjóðvegum, já, eg hefi séð hann myrða hvern á fætur öðrum. Einungis í nágrenni við mig hefir hann myrt 10,000 saklausa menn, og ekki finnur hann til iðrunar yfir öllu þessu."

Þannig töluðu hinir sjö vottar.

Dómararnir gengu inn í herbergi sitt til að ákveða sekt fangans. Þegar þeir komu út aftur, las formaðurinn fyrir þeirra hönd svolátandi álit:

„Alkohol er sekur sem sá, er hefir framið morð og aðra stórglæpi í stærri stíl en nokkur annar sakamaður."

Dómurinn var ekki uppkveðinn, þegar vér fórum brott úr réttarsalnum. Fróðlegt væri að vita, hvaða hegningu hann fær. Betur, að hann vilti nú ekki hinum háu dómurum sjónir; hann hefir víst oft gert það áður, og þjóðfélagið er tæplega laust við hann enn. Þess væri óskandi, að hann yrði bráðlega feldur, svo að hann gæti ekki reist sig við aftur, þessi sökudólgur, sem öllum sökudólgum er hættulegri.

## Hvað þýðir: drykkjumaður?

„Pabbi, hvað þýðir það að vera drykkjumaður? María litla sagði, að þú værir drykkjumaður, og pabbi hennar sagði það líka."

Þótt eldingu hefði slegið niður rétt fyrir framan föðurinn, þá hefði honum ekki orðið meira hverft við, en honum varð við þessa spurningu dóttur sinnar. Hann sat þögull, og vel hefði mátt heyra, ef títuprjónn hefði dottið á gólfið; svo hljótt var í herberginu. En Karen skeytti því eigi. Þegar hún hafði beðið eftir svari dálitla stund, og það kom ekki, endurtók hún spurninguna.

Faðir hennar svaraði: „Það er maður, sem drekkur svo mikið af áfengum drykkjum, að hann gerir sjálfan sig að skynlausri skepnu."

„En gerir þú það, pabbi?"

„Eg hefi stundum gert það," svaraði faðirinn loðmæltur.

„En er það ekki ljótt?"

„Jú, barnið mitt gott; það er það ljótasta, sem maður getur gert.“

„Er hún mamma að gráta af því stundum, þegar hún vill ekki segja, af hverju hún sé að gráta?“

Faðirinn tók höndum fyrir augu sér og svaraði lágt: „Já.“

„En gerðu það nú aldrei oftar, góði pabbi; mamma er svo væn. Pabbi, þú mátt ekki vera drykkjumaður lengur.“

Karen litla horfði biðjandi augum á föður sinn, um leið og hún sagði þetta. Hann tók hana í faðm sér og fól andlit sitt við brjóst hennar.

„Pabbi, lofaðu mér nú því, að þú skulir aldrei gera það oftar.“

„Já, barnið mitt. Með guðs hjálp skal eg nú aldrei smakka einn einasta dropa af áfengi framar. Guð blessi þig, barnið mitt, fyrir það, að þú hefir bjargað föður þínum.“

Og hann hélt dyggilega heit sitt.

## Hugaður og ráðvandur.

Fyrir meira en 200 árum var lítill drengur, sem hét Mikal, og átti heima á Hollandi. Hann hafði ákafa löngun til að verða sjómaður, og loks fékk hann þá ósk sína uppfylta og réðst á skip eitt, sem átti að sigla til Marokko á norðurströnd Afríku. Eigandi skipsins var kaupmaður, sem sendi með því ýmsa vefnaðarvöru og seldi hana landsmönnum í Marokko. Mikal var trúr og iðinn, og ávann sér því traust húsbónda síns, svo að hann mat hann mest allra þjóna sinna.

Einu sinni, þegar skipið átti að leggja af stað til Marokko, varð kaupmaðurinn veikur, svo að hann gat ekki farið með því. Þá lét hann kalla Mikal til sín og fól honum að fara fyrir sig og selja vörurnar.

Þegar hann kom til Marokko, fór hann til höfuðborgarinnar og bauð vörur sínar þar á torginu. Einn dag kom höfðingi Marokko-búa, Beyinn, sem hann er kallaður, og spurði, hvað klæðið kostaði. Mikal sagði honum það. Beyinn bauðst til að kaupa það fyrir hálfvirði, en meira vildi hann ekki gefa fyrir það.

„Nei,“ svaraði Mikal; „eg sel það ekki dýrara, en húsbóndi minn hefir sagt mér að gera. Eg er þjónn hans og má því eigi breyta verðinu.“

Beyinn varð reiður, og þeir, sem hjá stóðu og vissu, hvað strangur hann var, urðu mjög óttaslegnir, því að þeir gengu að því vísu, að hann mundi láta lífláta Mikal, ef hann gerði ekki, eins og hann vildi.

„Þér skuluð fá frest til morguns, til að hugsa yður um,“ mælti Beyinn fokvondur og gekk snúðugt burt.

Menn báðu nú Mikal að slaka til, svo að hann yrði ekki drepinn; en hann svaraði: „Eg er í guðs hendi. Sá, sem ekki er trúr yfir litlu, hvernig ætti hann að vera trúr yfir því, sem meira er í varið? Ef húsbóndi minn misti einn einasta eyri mín vegna, þá væri eg ekki trúr þjónn.“

Morguninn eftir kom Beyinn aftur. Auk þjónanna, sem alt af fylgdu honum, hafði hann nú líka böðul með sér.

Beyinn spurði hins sama sem daginn áður, og fékk sama svar.

„Taktu líf mitt, ef þú vilt,“ bætti Mikal

við; „en eg vil deyja með góðri samvizku og sem trúr þjónn.“

Þetta var voðaleg stund. Allir bjuggust við að heyra skipunina: „Höggvið höfuðið af honum!“ En hún kom ekki. Beyinn varð alt í einu hýrlegri í bragði og mælti: „Þú ert ráðvandur maður. Eg vildi óska, að þjónar minir væru eins og þú ert. Réttu mér hönd þína, kristni maður. Framvegis skulum við vera vinir.“

Svo fleygði hann peningum á borðið, tók klæðið og gekk burt.

Þessi trúi og ráðvandi Mikal varð síðar hinn nafnfrægi sjóliðsforingi Mikal de Ruyter, og er hann enn í dag mikils metinn á ættjörð sinni. En það, sem mest var um vert, var það, að hann hafði hug til að breyta rétt, þótt hann legði með því líf sitt í hættu.



# „Við ýtum úr vör.“

Við flýtum nú för,
og báturinn þungur
um þara og klungur
fram þýtur sem ör;
á rjúkandi öldu
í ofviðri köldu
við ýtum úr vör.

Og holskeflan há
á stafni senn brýtur,
og stormurinn þýtur;
en ströndinni frá
við þjótum svo fjörugt
og fljótum svo örugt
um freyðandi sjá.

Aldar-prentsmiðja.

# ÆSKAN.

| VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 24. Jan. 1903 | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 8.—9. |
|---|---|---|---|---|

## Refsingin.

Kloverbobs var viðkunnanlegt gamalt hús á Englandi. Þar var skóli og hét kennarinn doktor Rounder. Hann var hvers manns hugljúfi, en stundum dálítið skrítinn. Nú eru sjálfsagt 50—100 ár síðan skóli þessi stóð í blóma sínum, því að bæði doktorinn, ráðskonan, sem hét frú Pinniker, og margir eða jafnvel flestir af nemendunum eru dánir, og af húsinu stendur varla steinn yfir steini til minningar um liðna tímann.

Að undanteknum drengjunum, þegar þeir komu heim úr leyfi, þótti öllum mikið koma til þessarar æruverðu gömlu byggingar, sem var bygð í gamaldags stíl með rúmgóðum herbergjum og afar-stórum eldstæðum. Drengirnir voru nú reyndar á þeirri skoðun, að eldstæðin væru betri en eldurinn og að herbergin væru alt of stór á veturna, þegar ekki gátu nema tveir og tveir í senn komist að til að orna sér á fingrunum, en hinir urðu að leika sér eða slást til að halda á sér hita. En hver tekur mark á því, hvað skólapiltar segja, þegar þeir finna upp á því að kvarta?

Dr. Rounder útskrifaði marga duglega menn frá skóla sínum, duglega kennara, lærða guðfræðinga og góða stjórnmálamenn, reyndar ekki útlærða, en á góðum vegi til að verða nýtir menn með tímanum, enda var hann líka sjálfur duglegur kennari og vel lærður og sanntrúaður guðfræðingur.

Auk skólans hafði hann líka ofurlitla kirkjusókn til að sjá um. Sóknarbörnin voru fá; kirkjan var lítil og fornfáleg timburkirkja, en þó nógu stór til að rúma allan söfnuðinn, jafnvel þó skólapiltarnir væru með, og sótti allur söfnuðurinn kirkju á hverjum sunnudegi, því öllum þótti vænt um prestinn sinn; þeim trúuðu þótti vænt um hann af því að hann prédikaði guðs orð með einlægni, og hinum sakir mannkærleika hans. Sóknarbörn hans, sem nálega öll voru fátæklingar, áttu sífelt frjálsan aðgang að peningabuddunni hans, og var hann því líka sjálfur alt af fátækur.

Á þeim tímum var ekki haft te og egg í morgunverð, ekki einu sinni handa húsbændunum, hvað þá piltunum. Á morgnana fengu drengirnir brauð og ost eða undanrennu, í miðdegisverð steikt eða soðið kjöt og býtinga, sem voru svo seigir, að það var mesta erfiði að tyggja þá, og kvöldmaturinn var aftur brauð og ostur, sem komið var með inn í stórri körfu, og ofurlitið af vatnsblönduðu öli til að renna niður með. Alt var mjög af skornum skamti.

Þið haldið nú kann ske, að doktorinn hafi fætt sóknarbörn sín, en svelt veslings skólapiltana sína; en það væri mjög rangt að kenna honum um þetta. Hið eina, sem ástæða gæti verið til að ásaka hann fyrir að þessu leyti var það, að hann lét ráðskonuna, frú Pinniker, algerlega ráða öllum matarskamti, og var öllum piltunum illa

við hana. Hún var að sönnu ekki tilfinningarlaus eða harðbrjósta, en hún var knöpp; hún reiknaði ekki út, hvað *mikið* drengirnir þyrftu að borða, en hún reiknaði út, hvað *lítið* þeir gætu komist af með, og svo vildi svo illa til, að í því efni var alt af mikill munur á hennar útreikningi og þeirra. En til þess að gera henni ekki rangt til, verður þó að geta þess, að hún átti engu betra sjálf, og doktorinn því síður. Honum var líka síkalt eins og piltunum, en hann kendi æfinlega veðrinu um það, og gleymdi því, að til er eitt ágætt ráð til að verjast kulda, sem sé það, að kynda vel í ofninum.

Ekki get eg sagt neitt um, hvort frú Pinniker notaði sér afskiftaleysi doktorsins af innanhússstörfum þannig, að hún drægi nokkuð undan handa sjálfri sér til að lifa á í ellinni. Það eitt er víst, að doktorinn grunaði hana aldrei um það, og svo er þýðingarlaust að ætla sér að fara að hreyfa neitt við því.

Þótt veturinn sé langur, tekur hann þó alt af enda, og það jafnvel líka í skólunum. Og á sumrin var Kloverbobs óneitanlega inndæll staður, einkum þegar piltarnir voru dálítið farnir að gleyma veru sinni heima í leyfinu og öllum þægindunum þar. Doktorinn átti ágætan garð, og spruttu í honum alls konar dýrðlegir ávextir: jarðarber, epli, perur og plómur. Hafði eigandinn veitt piltunum ótakmarkað leyfi til að eta af ávöxtunum eins og þeir vildu. Hann leit svo á, að ávextirnir væru ætlaðir til átu, og að skólapiltarnir í Kloverbobs væru ætlaðir til að eta þá. Þetta fanst honum öldungis náttúrlegt. En frú Pinniker var á annari skoðun, og kom hún til hans með svo margar kærur yfir því, að óþroskaðir ávextir fengju ekki að vaxa í næði og að þroskaðir ávextir væru brúkaðir í óhófi, svo að hún fékk leyfi til að læsa garðinum og gefa piltunum úr honum, eftir því sem henni virtist þörf á.

Þeir elztu meðal piltanna voru þegar staðráðnir í að hefna sín á henni fyrir þetta. Var komið fram með tillögur um að stela gleraugunum hennar, drekkja kettinum hennar o. s. frv.; en allar voru þær feldar; þóttust piltar of miklir „herrar“ til að fremja slík strákapör. En það var þeim öllum ljóst, að *eitthvað* varð að gera, og þegar viljinn er góður, vantar sjaldan ráð, og sannaðist það einnig hér.

Frú Pinniker hafði nú þegar tínt eplin af trjánum og komið þeim inn. Lágu þau nú í allra mestu reglu í herbergi einu í öðrum enda hússins. Inn í þetta herbergi sáu piltarnir alt þetta góðgæti hverfa, og aldrei koma út aftur; frú Pinniker hafði lykilinn og bar hann ásamt öðrum lyklum við belti sitt. Lykillinn var því ófáanlegur, og án hans voru eplin ófáanleg; vissu þó piltarnir, að doktorinn, sem átti eplin, hafði ekkert á móti að þeir fengju þau.

Nú bar eitt sinn svo við, að piltarnir voru að leika sér, og ætlaði þá einn þeirra að fela sig svo að hinir gætu ekki fundið sig. Klifraði hann upp á húsþakið og niður í einn af reykháfunum. En áður en hann vissi af, hrapaði hann niður í herbergi eitt uppi á loftinu, og kom niður rétt hjá opi, sem var á loftinu. Hann var alveg ringlaður fyrst í stað; en það leið fljótt frá, og tók hann þá að litast um. Hálfdimt var inni í herberginu, því að vafningsviður óx upp með gluggunum að utanverðu; en brátt varð hann þess þó var, að hér voru

allar ferðaskrínur piltanna geymdar. Svo gægðist hann niður um opið á gólfinu, og var að hugsa um, hvort nokkurt eldstæði væri þar neðan undir. En þá fann hann sterka eplalykt leggja upp í gegnum opið, og vissi hann þá strax, að þarna neðan undir mundi eplaherbergið vera.

Hann hlóð nú í mesta snatri nokkrum ferðaskrínum hverri ofan á aðra og klifraði svo aftur upp í gegnum reykháfinn. Skólabræður hans fengu nú brátt þessar nýstárlegu fréttir, og höfðu allir nóg að hugsa þann dag og nóttina á eftir, því að enginn vissi enn þá, hvernig að skyldi fara til að koma áforminu í framkvæmd. En fyrsta og mikilsverðasta sporið var stigið: eplin voru fundin og mögulegt var að ná í þau.

Nú var samkoma haldin undir hnottrénu úti á leiksvæðinu til að ráðgast um, hvað gera skyldi. Að henni lokinni klifruðu forsprakkarnir upp á þakið og niður í gegnum reykháfinn til að þefa af eplunum og ákveða, hvað til bragðs skyldi taka til að ná þeim. Þeir sáu brátt, að svo hátt var niður, að ekki var takandi í mál að hoppa; þurfti því nauðsynlega að hafa kaðal, og varð fljótt bætt úr því. Þeir tóku snærin, sem bundið var utan um ferðaskrínurnar, sneru þau saman og létu síðan minsta drenginn síga niður; átti hann að fylla alla vasa sína og færa hinum. En litlir drengir hafa auðvitað litla vasa, og varð því óumflýjanlegt að láta hann síga niður hvað eftir annað, svo að félagar hans gætu fengið nægju sína.

„Við ættum að hafa körfu,“ mælti einn þeirra.

„Já, kvöldmatarkörfuna,“ bætti annar við.

„Já,“ sagði litli drengurinn, „það væri miklu betra að síga í körfunni, því að snærið meiðir mig, skal eg segja ykkur.“

Um kvöldið útbýtti elzti drengurinn matnum, eins og vant var. En um morguninn eftir var karfan horfin, og í næstu frímínútum var hún komin upp í herbergið uppi á loftinu. Kaðlinum var fest við hana, síðan var honum vafið utan um járnslá, sem piltarnir fundu þar í herberginu, og alt var í beztu reglu.

Nú gekk alt vel í nokkra daga. Laugardaginn næstan á eftir sáu þeir að frú Pinniker fór að sækja epli, sem hún ætlaði að hafa í sunnudagsmatinn, og hlökkuðu þeir til að sjá framan í hana, er hún kæmi út aftur. En þá var skólabjöllunni hringt, og urðu þeir því af ánægjunni í það sinn.

Síðar um daginn sáu þeir hana, og var hún þá, að því er þeim virtist, allreiðuleg og með gremjusvip. Héldu þeir að hún mundi hafa kært fyrir doktornum, og mundi hann hafa svarað, að það hlyti að vera hugarburður, því að epli gætu ekki komist út um skráargat.

Þeir álitu þó ráðlegast að hætta um tíma, og lofa henni að sækja epli í annað sinn, áður en þeir sæktu meira. En þegar þeir hugðu, að nú væri hún orðin róleg aftur, þá héldu þeir áfram.

Frú Pinniker hafði strax séð, að eplahrúgurnar höfðu minkað til muna. Hafði hún þá strax farið inn til doktorsins og skýrt honum frá þessu, og það með svo miklum ákafa, að hann kvað öll epli í Devonskíri ekki svo mikils virði, að ástæða væri til að láta svona út af þeim. En eftir hans skoðun voru það ekki eplin ein, sem hér bar að taka tillit til, og bað hann því frúna

að ljá sér lykilinn, svo að hann gæti sjálfur rannsakað þetta.

Piltarnir vissu ekkert um þetta. Frú Pinniker var svo róleg eftir síðustu atrennuna, er þeir höfðu gert, svo að þeir hugðu, að sér væri óhætt að gera nýja árás. En einmitt í sama bili sem þeir komu niður um reykháfinn, kom doktorinn inn um dyrnar í eplaherbergið. Ætlaði hann að fara að skoða eplin, en heyrði þá uppi yfir sér skarkala og raddir, sem hann kannaðist við. Hann varð alt annað en glaður, er hann heyrði, hverjir þjófarnir voru; faldi hann sig í horni einu og beið átekta. Þess var eigi langt að bíða að hann sæi körfuna með drengnum í koma hægt og hægt niður um opið á loftinu og staðnæmast á gólfinu neðan undir. Þegar drengurinn kom niður, sneri hann baki að doktornum, og og sá hann því ekki strax. En nú sneri hann sér við til að safna eplunum, og varð hann þá svo óttasleginn, að honum féllust algerlega hendur. Doktorinn notaði sér þetta, lagði höndina á munn drengnum og bauð honum að þegja.

„Ertu kominn niður?“ var kallað ofanað. Doktorinn lét litla þjófinn, sem skalf af hræðslu, skilja að hann skyldi svara: „Já,“ og gerði hann það, en þó varla nema í hálfum hljóðum.

„Fyltu þá körfuna!“ var kallað margraddað. Doktorinn aðgætti nú gildleika og styrkleika kaðalsins, settist svo sjálfur í körfuna og lét drenginn skilja, að nú skyldi hann gefa hið venjulega merki um að draga körfuna upp. Þegar hann hafði gert það, sá hann sér til óumræðilegrar skelfingar, að karfan með doktornum í lagði af stað upp, og óskaði þess að hann hefði aldrei séð epli á æfi sinni.

„Það er vel látið í hana núna,“ heyrði doktorinn að sagt var, og þekti hann þar rödd systursonar síns.

„Hann er víst með sjálfur,“ sagði annar.

„Haltu fast í kaðalinn, sleptu ekki! Jú, í þetta sinn verður það víst nóg,“ mælti hinn þriðji.

En gleðin yfir þessum feng varð skammvinn, því nú sáu þeir hattinn doktorsins koma upp um opið og því næst andlitið, og mátti þá lesa ótta og skelfingu á andlitum allra þeirra, er fyrir voru.

„Látið þið mig ekki detta niður á eplin aftur, piltar,“ mælti hann; „eg hefi átt svo erfitt með að komast upp, og nú langar mig til að vera hérna dálitla stund.“

Þeir sáu ekki annað vænna en að draga hann alveg upp, þangað til hann var kominn heill á húfi upp til þeirra.

„Kæru drengir mínir,“ mælti hann, er hann var kominn upp úr körfunni. „Hvernig gátuð þið fengið af ykkur að neyða mig til að takast slíka ferð á hendur? Þótt öll epli á Englandi væru í boði, vildi eg ekki gera þetta aftur, og ekki einu sinni, þótt eg ætti að fá þau á leyfilegan hátt.“

Þegar piltarnir sáu, að hann var ekki reiður, en að eins innilega hryggur, þyrptust þeir í kringum hann og tóku að afsaka sig, en fundu þó brátt, að það var eigi mögulegt.

„Piltar,“ mælti hann, „eg get ekki afsakað ykkur. Þetta er svo skammarlegt athæfi, að eg þvæ hendur mínar og gleymi því undir eins. Eg er að eins feginn því að það eru ekki fleiri, sem vita það. Eru nokkrir af yngri drengjunum við það riðnir?“

Þeir svöruðu, að enginn þeirra væri við það riðinn, nema litli drengurinn, sem niðri væri.

„Það gleður mig yðar vegna. Dragið nú fyrst drenginn upp aftur, takið svo þessi bönd í burtu og látið hvað á sinn stað. Eg vil ekki með nokkru móti að frú Pinniker fái að vita, að þið hafið þannig getað gleymt skyldu yðar gagnvart mér og sjálfum yður.“

Þeir hefðu vel getað tekið á móti ávítum eða hýðingu; þeir hefðu verið hjartanlega ánægðir með að vera lokaðir inni, eða hvað annað, sem vera skyldi. En þetta var of mikið. Allir tóku þeir þann fasta ásetning að fást aldrei framar við neitt það, er þeir þyrftu að skammast sín fyrir. Böndin voru tekin burt og vafið utan um ferðaskrínurnar, og að því búnu hjálpuðu piltarnir doktornum til að komast upp gegnum reykháfinn.

Þegar hann var kominn aftur inn í húsið, gerði hann strax boð fyrir ráðskonu sína og sagði við hana:

„Eplin eru alt of mikil, frú Pinniker; drengirnir hafa víst ekki fengið nóg. Þetta bið eg yður að athuga framvegis. Og til þess nú að koma í veg fyrir að þjófar komist í eplin, er bezt að biðja elztu piltana fyrir lykilinn, svo að þeir geti tekið eftir þörfum. En munið nú eftir að fara skynsamlega að ráði ykkar, drengir,“ bætti hann við til þess að gefa þjófunum enn meiri ráðningu.

„Ef *þetta* hefði ekki getað unnið hjörtu okkar, þá veit eg ekki, hvað hefði getað það,“ sagði einn af piltunum mörgum árum síðar. „Það hafði fyrst og fremst þann árangur, að við fyrirgáfum ráðskonunni; því hvernig áttum við að geta verið reiðir, þegar við höfðum fengið svo fullkomna fyrirgefningu? Og það gerði meira. Það blés lífi í prédikun og kristindómsfræðslu doktorsins, og þetta hafði ákaflega mikla þýðingu fyrir okkur; við vorum svo vissir um, að honum var alvara með það, sem hann kendi. Við sáum, að hann hafði sjálfur ekkert í fari sínu af þessu, sem hann fyrirgaf okkur, enda þótt hann hlyti að hafa viðbjóð á því, og við hlutum að skammast okkar yfir sjálfum okkur.“

Sjaldan útskrifaðist nokkur svo úr skólanum í Kloverbobs, að hann hefði ekki fengið tilfinningu fyrir því, að sá, sem vill vera heiðarlegur maður, má aldrei og getur aldrei tekið þátt í því, er hann hlyti að skammast sín fyrir, ef fleiri vissu. Því miður voru þeir alt of margir, sem létu sér nægja að vita þetta. En þeir voru þó líka til, sem breytni doktorsins hafði haft svo mikil áhrif á, að þeir tóku að leita að þeirri fyrirmynd, er hann leitaðist jafnan við að fara eftir, Jesú Kristi, sem hafði verið bezti kennarinn hans.

[„Fort. for Ungdommen.“]

## Þau björguðu föður sínum.

„Það er víst og áreiðanlegt, að pabbi drekkur meira en hann hefir gott af.“

„Skammastu þín, Bertram, að þú skulir“ —

„Að eg skuli? Að eg skuli *ekki*? Þetta vita allir.“

„Já, en að þú skulir geta *sagt* það, Bertram, um *pabba*. Við ættum þó heldur að reyna að leyna því eins og við getum.“

„En aðrir leyna því sannarlega ekki fyrir

okkur. Veiztu, hvað Karl á Hóli sagði við mig í skólanum í dag? Við urðum dálítið ósáttir, og svo kallaði hann á eftir mér, og sagði, að pabbi væri fyllisvín, sem brendi upp kornið fyrir fólki. Þú veizt, að hann brendi kornið fyrir bóndanum á Hóli á dögunum, þegar hann átti að þurka það. Hann *var* nú fullur þann dag; en hann sagði, að það hefði kviknað í því af óhepni. Ó, það er óttalegt að sjá og heyra annað eins um pabba sinn.“

Börnin voru í gömlu mylnunni; það var regn úti, og þegar þau voru neydd til að vera inni, veðursins vegna, kunnu þau bezt við sig í mylnunni.

Elsa þagði dálitla stund. Hún sat í þungum hugleiðingum og studdi hönd undir kinn. Það var sorgleg uppgötvun þetta, sem þau höfðu gert.

„Sér hann það þá ekki sjálfur?“ spurði hún loksins.

„Eg veit það ekki,“ svaraði Bertram; „en svo mikið veit eg, að þetta er hættulegt, því þegar maður er fullur, þá veit maður ekki, hvað maður gerir, og það hafa oft hlotist slys af því. Þetta ætti nú pabbi líka að vita. Hann hefir oft talað um það; en nú er hann sjálfur oft drukkinn. En það getur verið, að hann viti ekki af því.“

Bertram tók upp hálmstrá og fór að tyggja það.

„Veiztu, hvað eg vildi?“ tók hann aftur til máls. „Eg vildi helzt segja það við hann sjálfan.“

„Ertu frá þér? Segja það við pabba?“

„Já, því ættum við ekki að geta sagt það við hann og beðið hann að hætta, þó hann sé faðir okkar? Einmitt þess vegna ættum við að segja það, og bjarga föður okkar. Því þetta fer aldrei vel. Það sé eg. Veiztu, hvað kennarinn hans Axels sagði sunnudaginn, sem eg kom til hans og fór á fundinn með honum? Hann sagði, að þegar maðurinn sæi áfengi eða findi lykt af því, eða að eins hugsaði um það, ef honum annars þætti það gott, þá léti hann ganga til heilans þessi boð: eg vil fá mér dálítið. Og svo sendir heilinn boð til handa og fóta: farðu og drektu. Og svo fer hann og gerir það. Svo sagði hann líka, að eftir því sem maður sendi boðið oftar, eftir því gengi það fljótara, og eftir því sem hendur og fætur hlýddu boðinu oftar, eftir því yrði þeim það tamara. Og seinast gengur þetta eins og af sjálfu sér, nærri því án þess að maður viti af því sjálfur, eða ráði við það. En þá sagði hann, kennarinn, að það væri kallað *vani*. Svona getur alt orðið að vana, bæði gott og ilt. En það, sem yrði vondur vani, sagði hann, að við yrðum að stríða á móti; annars yrði það hættulegt fyrir okkur. Og svo sagði hann, að drykkjuvaninn væri einn hinn hættulegasti og ljótasti vani.“

Elsa tók mjög vel eftir þessari ræðu. „Kannske við getum fengið einhvern til að segja pabba það,“ mælti hún með ákafa; „til dæmis doktor Berg.“

„Doktor Berg! Jú, það væri nú maðurinn! Veiztu ekki, að hann drekkur sjálfur? Nei, nú skal eg segja þér meira um þetta. Hann útskýrði þetta svo nákvæmlega, kennarinn. Hann sagði, að eins og málþráðurinn gæti ekki flutt tvenn boð í senn, þannig gætu heldur ekki þræðirnir, sem flytja boðin til heilans, gert það; en það eru taugarnar. Þess vegna er áríðandi að loka leiðinni til heilans, en það er ekki hægt nema með

því að senda annan boðskap, sem þannig hljóðar: bragðaðu ekki áfengi, og fá þú aðra til að gera eins. Af þessu sérðu, að sá, sem drekkur sjálfur, getur ekki barist á móti drykkjuskapnum hjá öðrum.“

Elsa kinkaði kolli. Hún skildi það. Það var auðsætt, að Bertram hafði góða hæfileglelka til að gera sig skiljanlegan.

„En hvernig eigum við þá að fara að því að „loka .leiðinni“ og berjast gegn áfenginu?“ spurði hún.

„Án þess að segja það við hann,“ bætti Bertram við.

Já, það var gátan. Elsa fann ráðninguna.

„Bertram,“ sagði hún nokkrum dögum síðar; „við skulum byrja á því að berjast sjálf á móti áfenginu. Þú veizt, að pabbi tekur svo mikinn þátt í öllu, sem við gerum.“

Bertram sló á lærið svo fast að hann hefði víst kveinkað sér, ef einhver annar hefði gert það.

„Bravó!“ hrópaði hann. „Það gerum við! Og svo framarlega, sem við höfum ekki byrjað baráttuna áður en langir tímar líða, þá skal eg standa á höfði alla mína æfi.“

Þetta var reyndar nokkuð djúpt tekið í árinni. En Bertram varð þó laus við að standa á höfði.

Fyrst var áríðandi fyrir þau að stofna bindindisfélag, þar næst að fá fleiri til að vera með og til að skemta á fundunum, og loks var hið þriðja, að fá leyfi hjá föður þeirra til að mega halda hátíðasamkomu úti á enginu hans. Alt gekk eftir óskum, og þar kom loks, að Green malari fékk sjálfur löngun til að stofna bindindisfélag fyrir fullorðna; varð hann þar fyrsti og helzti meðlimur og lífið og sálin í því.

Þannig varð „leiðinni lokað“ fyrir hinum hættulega boðskap. Malaranum var bjargað frá hinum margvíslegu hættum, sem yfir drykkjumönnunum vofa, og frá þeirri gröf, sem þeir oft leggjast í löngu fyrir tímann.

## Erfið orð.

Þegar þið farið að læra erlend tungumál, munuð þið án efa hitta fyrir mörg orð, sem þið eigið erfitt með að segja. En hafið þið ekki tekið eftir, að það eru líka til orð á móðurmáli ykkar, sem mörg börn, og kannske fullorðnir líka, eiga erfitt með að segja? Eg skal benda ykkur á tvö, en sjálfsagt eru þau miklu fleiri.

Þegar móðirin spyr son sinn eða dóttur: „Hefir þú gert þetta?“ þá kemur það oft fyrir, að börnin eiga erfitt með að segja: „Já.“ Annaðhvort svara þau: „Nei,“ eða: „Eg var narraður til þess,“ „Eg gat ekki gert að því“ o. s. frv. En að segja: „Eg gerði það,“ það er oft næsta erfitt.

Annað, sem ekki er auðveldara, er þetta: „Eg bið fyrirgefningar.“ Það kostar oft ekki litla baráttu að koma út þessu orði. Þótt börn finni það vel, að þau hafa gert rangt, og hafi jafnvel kannast við það, þá er þó alveg eins og munnur þeirra sé lokaður, þegar þau eiga að fara að nefna fyrirgefningu.

En vér verðum að yfirvinna sjálfa oss og gera undir öllum kringumstæðum það sem vér vitum að er sannast og réttast.

## Ljótt orðbragð.

Lítill drengur átti að vera í sumarleyfinu hjá frænda sínum, sem bjó uppi í sveit. Hann kom sér vel við alla, því hann var fjörugur, kurteis og snúningaliðugur. Var hann í snúningum hjá vinnufólkinu um sláttinn.

Einn af vinnumönnunum var mjög blótsamur. Þá var það einn dag, er hann blótaði venju fremur mikið, að drengurinn var viðstaddur. Honum féll þetta mjög illa og sagði við manninn: „Eg held, að eg fari heim á morgun.“

Maðurinn, sem þótti vænt um drenginn, svaraði: „Eg hugsaði, að þú ættir að vera hér í sumar.“

„Já, eg átti að vera það,“ svaraði drengurinn; „en eg get ekki verið með þeim, sem blóta svona mikið. Annarhvor okkar verður að fara, og það verður víst að vera eg.

Maðurinn skammaðist sín. Hann svaraði: „Það er ljótur vani, sem eg hefi vanið mig á. En ef þú vilt vera hér, skal eg ekki blóta.“ Og hann efndi loforð sitt.

## Meira virði en allur veraldarauður.

Kinverjar eru fégjarnir, og eiga erfitt með að trúa því, að nokkur maður geri neitt án þess að fá það borgað. Margir halda því, að landar þeirra, sem kristna trú taka, fái peninga fyrir það hjá trúboðunum. Þannig spurði einn nágranna sinn:

„Hvað hafa útlendingarnir borgað þér mikið fyrir að þú tókst kristna trú? 40 krónur?“

„Miklu meira,“ svaraði hinn.

„80 krónur?“

„Margfalt meira.“

„400 krónur þá?“

„Miklu meira,“ svaraði hinn enn þá.

„Hvað var það þá mikið?“

„Meira heldur en þetta fjall mundi kosta, þótt það væri alt úr gulli og silfri,“ svaraði hinn aðspurði, og benti á fjall eitt. Og þegar heiðinginn vildi ekki trúa því, benti kristni maðurinn á bibliuna sína og mælti: „Sko, þessa bók gáfu þeir mér. Hún er meira virði en allur veraldarauður, því að hún vísar mér veginn til guðs, til frelsarans og til eilífs lífs.“

## Þessa mun þig aldrei iðra.

Þig mun aldrei iðra breytni þinnar,
ef þú breytir eftir beztu samvizku,
ef þú athugar málavöxtu, áður en þú dæmir,
ef þú ert vingjarnlegur við fátæka,
ef þú vísar á bug óhreinum hugsunum,
ef þú ert göfuglyndur við óvin þinn,
ef þú ert kurteis við þá, sem eldri eru en þú,
ef þú heldur fast við sannfæringu þína,
ef þú gerir alt, sem í þínu valdi stendur, til að gera aðra hamingjusama,
ef þú réttir bágstöddum hjálparhönd,
ef þú hugsar, áður en þú talar,
ef þú heldur nákvæmlega loforð þín,
ef þú ert ráðvandur í verzlun og viðskiftum,
ef þú ætlar ekki öðrum ilt.

**Gleymið ekki** að borga „Æskuna.“

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 21. Febr. 1903 | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 10.—11.

## Fermingarstúlkan.

(Smásaga eftir Anton Andersen, með myndum eftir Poul Steffensen.)

Börnin höfðu verið í síðasta sinn í „spurningum“ hjá prestinum í dag. Þau



höfðu borgað honum fermingartollinn, eins og skyldugt var, og hann hafði haldið yfir þeim kröftuga og alvarlega áminningarræðu. Sérstaklega hafði hann snúið máli sínu að Mettu í Mýrinni, sem hafði verið gerð afturreka í fyrra, og áminti hana alvarlega um að herða upp hugann og svara skynsamlega þeim spurningum, sem fyrir hana yrðu lagðar, þegar fermingaryfirheyrslan byrjaði. Presturinn var talsvert hugsjúkur yfir Mettu, því að hann mintist þess, að fyrir fáum dögum hafði hann spurt hana, hversu margir guðir væru til, og hafði hún þá svarað: „Þrír.“

Nú beygðu börnin út af veginum, til þess að koma við í skólanum, sem stóð í skjóli, umkringdur af stórum trjám. Það var venja, að fermingarbörnin kæmu þar til að kveðja kennara sinn, þegar þau væru búin hjá prestinum.

Ekki var laust við að nokkur feimnissvipur væri á börnunum, á meðan þau sátu inni hjá kennaranum og þágu þar kökur og vín. Stúlkurnar sátu á stólabrúnunum, drengirnir tóku klunnalega um glösin og dreyptu varla á því sem í þeim var, og enginn hafði uppburði til að mæla orð frá munni.

Svo var haldin yfir þeim önnur áminningarræða að skilnaði, og brýnt fyrir þeim að búa sig nú vel undir merkisdaginn, sem fyrir hendi var.

Það fór hrollur um Mettu í Mýrinni, þegar hún var mint á þennan dag og yfirheyrsluna, sem þá átti fram að fara og sem hún kveið svo mjög fyrir.

Loksins urðu þau ferðbúin og fóru út um eldhúsdyrnar í röð hvert á eftir öðru.

Metta kom allra síðust og út af fyrir sig. Hún var lítil, mögur og veikluleg, og undarlega uppburðalaus og feimin. Hárið var úfið og óræktarlegt, andlitsliturinn gulgrár með brúnum freknum. Augun voru stór og starandi, eins og í sóttveikum manni.

Kjólpilsið hennar, sem var alt of sitt og leit út fyrir að vera orðið mjög fornfálegt, flæktist stöðugt fyrir fótum henni, þar sem hún staulaðist áfram í aurnum á götunni, og bar pilsið þess sýnilegar menjar, að hún hafði oft stigið í það. Við og við staldraði hún dálítið við og hóstaði svo að hún ætlaði varla að ná andanum.

Þannig gekk hún nú, einsömul og einmana, þögul og lítilsvirt, og þannig hafði hún gengið öll þau sjö löngu ár, sem hún hafði verið í skólanum.

Hún skifti sér annars ekki af neinum, og einginn skifti sér af henni. Hún var hrædd og feimin og fór einförum. Á uppvaxtarárunum hafði hún oftast verið veik og aumingjaleg, og blá undanrenna, kartöflur og lélegt feitmeti hafði ekki verið til þess lagað að auka henni mótstöðukraft gegn veikindunum. Og nú dróst hún upp úr magnaðri brjóstveiki.

Metta átti heima úti á Ruderdals mýrarflákunum, hinum megin við Emmerups hæðirnar.

Á sumrin var varla unt að aðgreina smáhreysin, sem voru þar svo mörg, frá móhraukunum, sem voru þó enn fleiri og út um alla mýrina. Hvert sem litið var, var enga fegurð að sjá. En á veturna, þegar snjórinn lá bjartur og skínandi yfir þessu eyðilega landflæmi, þá komu kofarnir fram sem skuggamyndir á hvítu tjaldi, reykjarstrókarnir stóðu upp í loftið, gengu í léttum bylgjum og hurfu síðast upp í skýin, sem héngu yfir mýrinni. Þá virtist Mettu þetta vera inndælasti staður á jarðríki. Kofinn hennar litli varð þá í hennar augum eins og ljómandi höll í æfintýralandi, og hún fann, hve mjög hún elskaði þetta litla heimili sitt. En þar átti hún líka sín dýrustu auðæfi á jörðunni: foreldra sína og systkini.

Faðirinn var stór og lotinn verkmaður. Handleggirnir, sem voru orðnir kengbognir af striti, virtust alt of langir, og hendurnar voru sem breiðar skóflur, harðar, skorpnar og oftast alþaktar af gapandi sprungum. Hann hafði skegg sem villimaður og var eigi ósvipaður stóru bjarndýri; en taminn var hann, og á hverjum degi erfiðaði hann samvizkusamlega frá morgni til kvölds fyrir sér og sínum.

Móðirin var sí-þreytt, kinnfiskasogin og veikluleg, og í samanburði við mann hennar var hún sem barn. Börnunum svipaði öllum til Mettu. Þau voru föl og freknótt, ljóshærð og sló á hárið rauðleitum blæ, virtust þau fremur líkjast móðurinni, sem var svo veikbygð, en föðurnum. Það kom stundum fyrir, einkum um það leyti, sem hann seldi móinn, að hann drakk nokkuð

mikið; en þrátt fyrir það sá Metta ekki sólina fyrir honum. Í öllu baslinu og baráttunni fyrir lífinu hafði hann gert alt, sem í hans valdi stóð til að koma henni til manns. Ekkert var of gott fyrir hana. Þessa ætlaði hún jafnan að minnast, þegar hún nú eftir ferminguna kæmist út í heiminn, langt burt frá kotinu í mýrinni. Því, þótt undarlegt kunni að virðast, lifði stöðugt inni fyrir í hjartanu vonarneisti, þrátt fyrir veikindin, von um að yfirvinna sjúkdóminn og verða hraust og glöð. Hét hún því að gefa þá foreldrum sínum alt, sem hún gæti við sig losað, er hún kæmi í kynnisför til þeirra. [Niðurl. næst.]

# Benjamín Franklín.

*Benjamín Franklín* fæddist árið 1706 í borginni Boston í Ameríku. Upphaflega var það áformið, að hann skyldi „læra.“ En faðir hans átti mörg börn og var fátækur, og varð hann því að koma Benjamín til eldri sonar síns, sem var prentari, og átti hann að kenna honum prentaraiðn. Hann varð því að hætta að hugsa um að verða stúdent. En hann lærði samt. Hann hafði brennandi löngun til að lesa og læra, og notaði hann því hverja stund, sem hann var ekki við starf sitt, og oft næturnar líka til þess; og með því að nota tímann og hæfilegleikana svo vel, tókst honum að afla sér mjög mikillar þekkingar.

Nú fór hann einnig að skrifa ritgerðir um ýmislegt og kom þeim í blað, sem bróðir hans gaf út. Þegar hann varð eldri, kom hann sér sjálfur upp prentsmiðju í Filadelfíu og gaf þar út fjölda rita, sem seldust brátt, því að mönnum geðjaðist svo vel að þeim.

Hann varð fljótt nafnfrægur maður. Allir vissu, hvílíkum hæfilegleikum hann var gæddur, hvað hann var starfsamur, vel að sér og vel látinn. Ýmsir menn, sem líka höfðu löngun til að læra og komast áfram, komu til hans, og stofnaði hann með þeim mentafélag.

Síðar fann hann upp eldingavarann og varð frægur vísindamaður.

Hann gat sér líka mikinn orðstír að öðru leyti. Í ófriðnum milli Ameríku og Englands kvað mikið að honum, og var hann sendur til Frakklands til þess að fá Frakka til að hjálpa Ameríkumönnum gegn Englendingum.

Þegar hann kom til Frakklands, var honum fagnað engu síður en þótt hann hefði verið konungur; sögðu Frakkar, að hann hefði „svift himininn eldingunum og harðstjórana veldissprotanum.“ Hann var mjög vel máli farinn, og tókst honum þess vegna að fá Frakka til að hjálpa Ameríkumönnum, svo að Englendingar neyddust til að láta undan og semja frið. „Bandaríkin“ sem kölluð eru, losuðust undan yfirráðum Englendinga og urðu sjálfstætt ríki. Ófriður þessi, sem endaði 1783, er kallaður „frelsisstríð Norðurameríku-manna.“

Þannig hafði þessi maður, sem í fyrstu var ekki annað en fátækur og lítils metinn prentari, stuðlað manna mest að því á elliárunum, að ættjörð hans yrði frjálst og sjálfstætt ríki, og auk þess getið sér mikla frægð á annan hátt og orðið einn af nytsömustu mönnum, sem uppi hafa verið.

Það er því eðlilegt, að Ameríkumenn væru hreyknir yfir honum og söknuðu hans mjög, er hann dó.

Áður en hann dó, bað hann um að setja á legstein sinn þessi orð:

„Hér hvíla spjöldin af gamalli bók, sem blöðin eru rifin úr. En hún mun koma út aftur, endurskoðuð og aukin eftir höfundinn.“

Hver haldið þið að „höfundurinn“ hafi verið?

Þetta eru helztu æfiatriði Benjamins Franklíns.

Oss þykir mikið til hans koma, vér dáumst að honum, metum hann mikils og óskum, að vér gætum líkst honum.

En eitt er þó enn ótalið af því, sem telja má honum til gildis:

**Hann var bindindismaður.**

Einmitt þess vegna virðum vér bindindismenn hann enn meira, og einmitt það átti líka mikinn þátt í því, að hann varð svo frægur maður.

Eins og áður er á vikið, var hann vanur að hugsa alt út í yztu æsar til að komast að réttri niðurstöðu.

Á meðan hann var í prentsmiðjunni hjá bróður sínum, var hann oft að hugsa um, hvaða gagn gæti verið í því að drekka áfengi. Prentararnir drukku öl með morgunmatnum; en Franklín komst brátt að þeirri niðurstöðu, að hann væri ekki eins vel lagaður til að vinna á eftir morgunmatnum og við hefði mátt búast. Hugsunin var ekki eins ljós, og honum fanst hann vera fjörminni.

Ekki gat þetta verið matnum að kenna, og þá hugsaði hann að ölið hlyti að vera orsök í því.

Vér verðum nú að gæta þess, að á þeim tímum voru engin bindindisfélög til og engum kom þá til hugar að halda fyrirlestra um skaðsemi áfengisins. Allir álitu áfengið nauðsynlegt og ómissandi.

En Franklín komst á gagnstæða skoðun, og auk þess vildi hann spara til þess að geta keypt bækur.

Hann drakk því eitt glas af vatni með morgunmatnum, en félagar hans drukku hálfan pott af öli hver. Þeir hæddust að honum og kölluðu hann „ameríkska vatnsjurt.“ En hann færði þeim heim sanninn um það, að vatnið væri hollasti drykkurinn bæði fyrir líkamann, sálina og peningabudduna.

Hann var afkastameiri en þeir, fljótari að „setja“ í prentsmiðjunni og sterkari.

Í æfisögu sinni segir hann:

„Eg drakk ekki annað en vatn. Hinir prentararnir, kringum 50, voru mestu ölsvelgir. Eg gat borið í annari hendi það, sem hinir þurftu að bera í báðum. Þeir urðu hissa, er þeir urðu þess varir, að „ameríkska vatnsjurtin“ var sterkari en þeir, sem ölið drukku. Eg reyndi að sannfæra þá um, að næringin, sem líkaminn fengi í ölinu, væri ekki nema að eins byggið, sem það væri búið til úr. Eg sagði, að meira mjöl væri í einu 7-aura-hveitibrauði, og að þeir hefðu betra af að eta það og drekka hálfan pott af vatni með, heldur en að drekka hálfan pott af öli.“

En þeir trúðu honum ekki, heldur hæddust að honum.

Það hefðu þeir þó ekki átt að gera. Því að flestir þeirra urðu fátæklingar alla æfi og sumir blásnauðir, en Franklín varð lærður, frægur og auðugur maður, af því að hann sparaði bæði mat og svefn til að geta lesið og lært, og af því að hann sparaði

peninga sína og heilsu með því að neyta ekki áfengis.

Í ritum Franklíns eru ýmsar setningar, sem gott er að hafa hugfastar, þar á meðal þessar:

„Varaðu þig á smá-útgjöldunum; lítið leka-gat getur sökt stóru skipi.“

„Iðjusemin er móðir hamingjunnar.“

„Sá sem tekur lán mun íklæðast smán.“

Um bindindið sagði hann meðal annars:

„Bindindið leggur eldivið í ofninn, kjöt í tunnuna, mjöl í krukkuna, peninga í budd-una, eykur traust í landinu, ánægju í hús-inu, veitir klæði á kroppinn, kraft í vöðvana.“

# Mikk.

[Smásaga eftir C. A. F. í Queensland.]

„Jú, alveg rétt; venjulega eru þeir allra mestu þorparar, þessir kaupstaðar-strákar. En þó er líka ekki svo lítið varið í suma þeirra.“

Maðurinn, sem sagði þetta, var ástralskur hirðir. Hafði hann hitt annan stéttar-bróður sinn, og höfðu þeir stöðvað hesta sína í forsælunni undir trjám nokkrum. Eigi höfðu þeir þó farið af baki, heldur sátu makindalega í hnökkunum með keyrin á handleggnum, og voru þau svo löng, að endarnir námu við jörðu. Hestarnir stóðu ólundarlegir, hengdu höfuðin, bitu við og við í grasið og veifuðu töglunum til að fæla burt flugurnar. Fram undan þeim lá láglendið, þar sem þeir beittu hjörðum sínum, stór falleg slétta með nokkrum trjám á víð og dreif. Hjörðin, sem hirðarnir höfðu verið að safna saman, stóð í hóp í skugg-anum undir trjánum og horfði á þá. Yfir öllu hvíldi þessi kyrð, sem einkennir hádegis-stundirnar á sumrin í Queensland [frb.: Kvínsland=land drotningarinnar]. Nokkrir fuglar, sem sátu á trjágreinunum, er héngu út yfir vatnspytt þar rétt hjá, görguðu hátt, og hagræddu sér svo aftur til að halda áfram miðdegissvefninum; þeir höfðu vaknað við baulið í kúnum og þytinn af keyrunum.

„Já,“ endurtók hirðirinn og nuddaði um leið milli lófa sér tóbakið, sem hann hafði tekið upp til að láta í pípuna sína; „það eru þó sumir af þeim, sem eru áreiðanlegir. Einu sinni hafði eg dreng, Mikk; hann var —en það er víst betra, að eg segi söguna, eins og hún gekk til.

Nú í sumar eru fjögur ár síðan. Eg hafði þá atvinnu suður í Boondella. Þar er slétt-lendi mikið, varla nokkur skuggi fyrir skepn-urnar og mjög hart á með vatn, þegar þurviðrasamt er á sumrin. Svo bar það við einn dag — eg var nýkominn heim í kofa minn, hafði verið á reið í kringum hjörðina síðan í dögun um morguninn, og ætlaði nú að fara að hita ketilinn — þá kom skuggi í dyrnar. Eg leit upp og sá, að í dyrunum stóð drengur, svo tötralegur og aumingjalegur, sem framast má verða. „Hvað þá!“ segi eg, „hver ert þú og hvað vilt þú?“ Hann gat ekki almennilega talað, en benti á munninn; gekk eg þá til hans og varð þess brátt vísari, að drengsnáðinn var alveg að deyja úr þorsta. Tungan var hörð og þrútin og munnurinn þur.

Þegar hann fór að hressast, sagði hann mér, að hann héti Mikk, og að hann forugi Dikk lestamaður væri húsbóndi sinn, en Dikk hafðist þá við meira en 15 mílur þaðan, sem eg var. Kvað hann foruga Dikk eiga sig, hefði hann keypt sig af móður sinni í

Sydney, en barið sig og farið ver með sig, en þótt hann hefði verið svertingi. Þess vegna hafði strákhnokkinn strokið, og af ótta fyrir því, að Dikk kynni að finna sig, ef hann færi vanalega leið, hafði hann farið þvert yfir sléttuna til að leita að vatnspyttinum, sem við vorum þá hjá. Mér er öldungis óskiljanlegt, hvernig hann hefir getað komist gangandi þann óraveg í slíkum þurki. Það hlýtur að hafa verið þrek hans, sem hélt honum uppi; því að þrekmikill var hann.

Nú, þegar hann hafði nú svalað þorstanum og fengið dálítinn matarbita, sagði hann alla söguna. Heldur kvaðst hann vilja deyja, en fara aftur til foruga Dikks; bað hann mig um að lofa sér að vera hjá mér og sagðist skyldi vinna fyrir mig og vera góður drengur, ef eg vildi frelsa hann frá Dikk. Hann bað svo innilega og sagði svo margar sögur um það, hvernig þessi gamli þorpari hefði farið með sig, að eg lét loks til leiðast og sagði, að hann mætti vera hjá mér. Þegar húsbóndi minn frétti þetta, hafði hann ekkert á móti því, en sagði að eins: „Mundu eftir því, Tom, að þú ábyrgist drenginn. Þessir Sydney-strákar eru til í alt mögulegt.“

Mikk sýndi þó ekki af sér neina löngun til að fremja strákapör; hann var eins góður og hann hafði lofað. Auk þess var mjög gaman að honum; hann var síglaður og syngjandi, eins og kanarífugl. Félagar mínir höfðu mestu skemtun af honum, og að því er mig snerti, hefði mér ekki þótt vænna um hann, þó hann hefði verið sonur minn.

Alt gekk vel og friðsamlega hálfsmánaðar tíma, þangað til sunnudag einn, síðari hluta dags. Við höfðum allir lagt okkur í legubekkjunum inni í kofanum; þá heyrðist alt í einu ruddalegur málrómur úti fyrir, og Mikk kom til mín fölur og skjálfandi eins og hrísla.

„Góðan daginn, félagar,“ mælti komumaður og staðnæmdist í dyrunum. „Eg hefi heyrt, að drengur, sem strauk frá mér, sé hér hjá ykkur.“

Félagar mínir litu til mín og eg reis upp í legubekknum til að svara gestinum.

„Góðan daginn, Dikk,“ sagði eg. „Jú, hér er drengur, sem segist hafa hlaupið burt frá þér, af því þú hafir barið hann svo mikið; og hann langar ekkert til að fara til þín aftur.“

„Nú, þú ert hér,“ mælti þessi stóri, svínslegi þorpari, skreið inn í kofann og horfði illilega á Mikk. „Komdu bara hérna út, og svo skal eg lemja úr þér líftóruna með þessu.“ Hann hafði í hendinni gamalt hjarðmannakeyri.

„Hægt og hægt, kunningi,“ mælti eg. „Þessi drengur á heima hjá mér, og þú fær hann ekki, nema hann vilji fara sjálfur.“

„Eg þarf á drengnum að halda,“ anzaði hann, „og eg á hann, því eg fékk hann á frjálsan og leyfilegan hátt hjá móður hans í Sydney. Fimm bankaseðla varð eg að borga fyrir hann, og eg lofaði að sjá um hann og koma honum til manns. Komdu út, Mikk!“

Hinir tóku nú í sama strenginn og sögðu, að ef maðurinn ætti drenginn, þá hefði eg engan rétt til að halda honum. Dikk var alt af að stagast á, hvað sér kæmi það illa að missa drenginn að eins fyrir það að hann hefði slegið dálítið í hann stöku sinnum.

Eg litaðist um eftir Mikk. Hann stóð og starði stöðugt á fyrverandi húsbónda

sinn. Þegar eg ætlaði að taka til máls og svara, greip hann um hönd mína og hvíslaði: „Sleptu mér ekki, Tom! Hjálpaðu mér!“ Það var engin hætta á því, að eg mundi sleppa honum, því að nú var farið að síga í mig.

„Heyrðu, Dikk,“ sagði eg; „það þýðir ekkert að vera að þvæla um þetta. Þú fær ekki drenginn. En ef þú vilt slást um hann, þá skulum við koma út og byrja.“

Þetta fanst hinum vel boðið. Við gengum út í forsæluna, og svo tókum við til. Dikk var nokkuð þyngri en eg, en eg var harðhentari en hann, og eftir nokkrar atrennur hafði hann fengið nóg. Þetta var allra snotrasti hnefaleikur, og eg fékk líka þó nokkur dugleg högg. Þegar nú þessu var lokið, fékk Dikk tebolla og mat og reið síðan burt nöldrandi. Hann gat auðvitað ekki annað sagt, en að hann hefði fengið heiðarlega meðferð.

Eftir þetta var Mikk mér fylgispakur eins og hundur. Alt, sem eg bað hann um, var hann strax fús til að gera, eða í öllu falli reyna að gera það, og svo var hann svo skemtilegur og laginn með alt, svo að hans líki fanst ekki þar um slóðir. Já, hann hefði getað orðið fyrirtaks-maður; en það átti nú ekki að verða.

Einn dag vorum við að aðskilja hjörðina inni á afgirtu svæði. Fénaðurinn var spakur, og við vorum því með öllu óhultir. Mikk var ötulastur okkar allra, eins og vant var; alt af var hann við höndina, þar sem eitthvað var að gera. Nokkur hluti af hjörðinni var einmitt að komast út um hlið eitt á girðingunni, og var eg þar rétt á eftir til að herða á dýrunum. Mér kom ekki til hugar, að nein hætta væri á ferðum; en alt í einu, áður en nokkur vissi af því, hafði gömul kýr ein snúið við og kom beint á móti mér. Þetta kom svo óvart, eg var alveg óviðbúinn, og áður en eg gæti áttað mig, hafði hún skorðað mig í einu horninu á girðingunni. Til allrar hamingju fyrir mig var kýrin mjög stórhyrnd, og hafði hún skorðað mig milli horna sér. Þú getur getið því nærri, að þetta var alt annað en þægilegt augnablik fyrir mig, að vera þarna fastur og finna andann úr nösum dýrsins og sjá augnaráð þess hvíla á mér. En þetta skifti engum togum; hún slepti mér brátt aftur, en eg vissi vel, að þá mundi hún strax reka hornin í síðuna á mér. En eg veit ekki, hvernig Mikk fór að því; en hann hafði tekið í halann á kúnni og sparkaði í hana af öllum kröftum. Þá slepti hún mér, eins og eg sagði, og sneri sér gegn honum hálfu verri en áður.

Eg get ekki á það minst, án þess að finna til sama hryllingsins, sem gagntók mig, þegar það skeði. Við flýttum okkur að hjálpa honum, en komum þó of seint. Þegar við lyftum honum upp, var hann meðvitundarlaus, og blóðið lagaði úr sári á brjóstinu á honum.

Hann dó þó ekki fyr en að nokkrum klukkustundum liðnum, og er mér óskiljanlegt, hvernig hann gat lifað svo lengi. Hann var lagður inn í legubekkinn minn, og eg lá á hnjánum fyrir framan hann. Allir höfðu safnast saman í kofanum, og húsbóndi minn líka. Það var komin nótt, og varð stöðugt að vera að gera að olíulampanum, svo hann gæti gefið dálitla glætu. Við gátum því miður ekki hjálpað drengnum neitt; það hefði ekki verið til annars en að kvelja hann að hreyfa hann neitt. Við gátum

að eins vakað hjá honum. Mennirnir þurkuðu sér við og við um augun með handarbakinu.

Alt í einu opnaði hann augun og litaðist um.

„Tom,“ sagði hann í hálfum hljóðum og með veikri rödd; „ert þú hérna?“

„Já, eg er hérna, aumingja drengurinn minn.“

„Heldurðu ekki, að eg deyi bráðum?“

Eg gat ekki svarað.

„Það gerir ekkert til, Tom. Þú mátt ekki gráta svona!“

Nú kom húsbóndi minn og fór að spyrja Mikk, hvort hann hefði lært nokkur trúarbrögð.

„Eg skil ekki almennilega, hvað þér eigið við, herra,“ mælti hann. „Tom frelsaði mig frá Dikk, og svo gat eg ekki horft á það, að kýrin stangaði hann til bana.“

Dauðaþögn var inni í kofanum. Ljósið á lampanum blossaði upp, og sást þá vel andlit allra, sem inni voru. Mikk hafði haldið um hönd mína, en nú sneri hann sér ofurlítið að mér. „Kystu mig, Tom,“ hvíslaði hann. „Mamma var alt af vön — áður — áður en hún fór að drekka.“ — —

Eg laut niður að honum. Blóðrásin byrjaði aftur, og alt var úti. — —

„Tom,“ sagði húsbóndi minn og þrýsti hönd mína; „eg held, að Mikk fái að komast í himnaríki.“ Það held eg líka; ekki satt, félagi? — En, bíðum við, var þetta ekki keyrisþytur? Nú kemur hjörðin frá Skeleton Creek; þá verðum við að fara að reka saman skepnurnar.“

## Draumur.

[Eftir K. P. Rosegger.]

Mig dreymdi eina nótt þennan draum:
Hinn eilífi dómari sat á dómstólnum, og stórmenni veraldarinnar gengu fram hjá.
Guð sagði við Móses:
„Hvað hefir þú gefið þinni þjóð?“
„Lögmálið.“
„Hverjar urðu afleiðingarnar?“
„Syndin.“
Þá spurði hann Karl mikla:
„Hvað hefir *þú* gefið *þinni* þjóð?“
„Altarið.“
„Hverjar urðu afleiðingarnar?“
„Bálið.“
Því næst spurði hann Napóleon fyrsta:
„Hvað hefir *þú* gefið *þinni* þjóð?“
„Heiður.“
„Hverjar urðu afleiðingarnar?“
„Ódáðaverk.“
Þannig spurði hann marga, og allir kvörtuðu yfir því, að fólkið hefði ekki kunnað að hagnýta sér gjafirnar. Loks spurði hann son sinn:
„Sonur minn elskulegur, hvað hefir þú gefið mönnunum?“
„Frið.“
„Hvernig hafa þeir hagnýtt sér hann?“
Kristur svaraði ekki. Hann huldi ásjónu sína með höndunum gegnumstungnum og grét.

**Gleymið ekki** að borga „Æskuna.“

**Afgreiðsla** blaðsins er í Vesturgötu 21.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Ólafssyni.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 31. Marz 1903 | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 12.—13.

## Fermingarstúlkan.

(Smásaga eftir Anton Andersen, með myndum eftir Poul Steffensen.)

---

[Niðurlag.]

Þegar hún kom heim úr síðustu ferðinni til prestsins og kennarans, hneig hún dauðþreytt og örmagna niður á stól, sem stóð fyrir innan dyrnar.

Hún hafði heldur aldrei átt eins erfitt eins og þennan síðasta vetur; tvisvar í viku



hafði hún orðið að fara til prestsins, og þótt það væri ekki eins langt eins og í skólann, þá var þó vegurinn bæði langur og erfiður og henni langt fram yfir megn. Oft kom hún heim köld og vot í fæturna, og þá æstist hóstinn voðalega. Hún var nú að vísu hálfs fimtánda árs, en óþroskuð og táplaus eftir aldri.

Móðirin var frammi við, en kom nú inn.

„Ertu lasin?“ spurði hún.

Metta svaraði ekki eins og hún var vön, en tók báðum höndum um höfuð sér, grúfði sig niður við borðplötuna og setti að henni ákafan grát.

Litlu systkinin hennar komu að og rifu í kjólinn hennar:

„Metta, Metta!“

En hún svaraði ekki og leit ekki upp, og það var árangurslaust, þótt móðir hennar reyndi að hugga hana og telja henni trú um það, sem hún trúði þó ekki sjálf, að öll veikindin bötnuðu með aldrinum.

Metta sat grafkyr. Hún leit að vísu upp við og við, en hélt þó áfram að gráta. Brjóstið hennar veika hófst óeðlilega mikið upp af ekkanum, er hún sogaði loftið að sér, en þrýstist inn og niður, þegar hún andaði frá sér í gráthviðunum.

Hana sundlaði. Hún misti á þessu augnabliki sjónar á þeim heimi, sem hingað til hafði staðið henni fyrir hugskotssjónum, stór, fullur af vonum og vorgróða. Hún sat nú þarna, föl og ofantekin, barn, sem var orðið gamalt löngu fyrir tímann.

„Hættu nú, hættu nú, elsku barn,“ byrjaði móðirin aftur, „svo að þú versnir ekki fyrir sunnudaginn.“

„Ó, mamma,“ svaraði Metta kjökrandi

og með veiklulegri rödd; „eg kvíði svo fyrir sunnudeginum. Eg verð víst gerð afturreka aftur.“

„Ó-nei! Vertu ekki að hugsa um það, telpa mín. Þú ert nú orðin svo skynsöm stúlka, og þetta verður stór hátíðisdagur fyrir okkur öll. Þú mátt til að herða upp hugann.“

„Já — en eg þori það ekki, mamma. Eg skil ekki, hvað það er, sem presturinn spyr um.“

„Jú, víst gerirðu það; og svo skal eg líka tala við hann, svo að hann spyrji þig ekki að öðru en því, sem þú getur vel svarað. Þegar að eins sunnudagurinn er liðinn, þá er það versta afstaðið.“

Móðirin leit á Mettu og mætti augnatilliti hennar, og sá hún þá að útlit hennar var líkast því sem væri hún í leiðslu eða dái.

Hún tók Mettu í faðm sér.

„En, barnið mitt, hvað er að þér? Þú ert dauðveik, skinnið mitt. Það er bezt að þú farir strax í rúmið.“

„Já, mamma, komdu mér í rúmið.“

Henni tókst loks að afklæða hana. En Metta var svo máttfarin, að hún gat ekki staðið upp, og varð því móðir hennar að taka hana, eins og þegar hún var lítið barn, og bera hana í rúmið. Kom nú á hana mók, og urðu foreldrar hennar að vaka yfir henni um nóttina.

Daginn eftir, sem var laugardagur, var hún ekkert betri. Svo kom sunnudagurinn, sem hún hafði óttast svo mjög.

Sólin skein glaðar en hún hafði gert nokkurn dag áður um vorið. Loftið var svo hlýtt og broshýrt. Kirkjuklukkurnar hljómuðu út yfir landsbygðina í morgunkyrðinni og lævirkinn sveimaði hátt í lofti og söng vorið í garð.

Það var reglulegur hátíðablær á allri náttúrunni.

Fermingarfötin hennar Mettu voru sótt og hengd á stólana hringinn í kringum rúmið hennar.

Ættu þau að reyna að koma henni á fætur?

Hún lá nú svo róleg, og var sem friður og ánægja lýsti út úr hverjum drætti í andliti hennar.

Faðirinn gekk lotinn og þunglamalega að rúminu og laut niður að henni; var þá sem bros færðist yfir fölva andlitið hennar og sáust drættir af því í kringum munninn.

Æ, nei! Hann gat ekki fengið af sér að minnast á ferminguna við hana; hann vissi, að það var þýðingarlaust að hugsa um það.

„Hvernig líður elskunni minni?“ spurði hann.

„Vel,“ svaraði hún glöð og var óumræðilegur innilegleiki í svip hennar. „Það fer svo vel um mig.“

Þau höfðu opnað tvo glugga, svo að henni yrði ekki eins erfitt með að draga andann. Sólargeislarnir stöfuðu beint inn á rúmið, vörpuðu gullnum blæ á það og vermdu barnið, sem í því lá og háði sitt hinsta strið.

Uppi í kirkjunni söfnuðust nú fermingarbörnin saman, og hljómaði þaðan organsláttur og sálmasöngur.

En Metta í Mýrinni gekk einsömul með bros á vörum inn í gegnum fordyri eilífðarinnar.

# Í kynnisför hjá afa.

**(Með mynd eftir J. Exner.)**

[Niðurlag frá nr. 3—4.]

Miðmunda var komið, þá er þau Sigga og Laugi og föruneyti þeirra riðu í hlaðið í Tungu. Bærinn stóð undir hárri fjallshlíð, er var glasi og skógi vafin upp í eggjar, en fjöldi smálækja runnu ofan hlíðina. Steyptust þeir víða ofan af hamra-stöllum, ýmist hærri eða lægri, og var því röð af fossum eftir allri hlíðinni. Þar voru þeir Gygjarfoss og Glymjandi, Tindafoss og Tvísöngur og margir fossar aðrir, þótt eigi séu nefndir. Fjallið sneri gengt sólu, þá er hún var rúmlega komin í hádegisstað, og sýndust þá regnbogabrýr reistar yfir fossana, er farið var fram með fjallinu, enda varð Lauga starsýnt á þá, og furðaði sig mjög á því, hve regnbogarnir í Tungu voru margir, því slíkt hafði hann aldrei fyrri séð. Þar er fjallshlíðin lækkaði til beggja handa, endaði Tunguland. Féllu tvær ár þar ofan, sín hvorum megin. Hét önnur þeirra Gilsá, en hin Gljúfurá, og runnu þær saman, þá er kom ofan á sléttuna, æði langan spöl fyrir neðan bæinn í Tungu. Myndaðist því tunga milli ánna, og dró bærinn nafn af því. Bærinn stóð á sléttum velli og sneri í útsuður. Hár og vandaður garður var bygður í kring um alt túnið, og breiðar traðir lágu heim að bænum. Áður hafði túnið verið kargaþýft, en afi hafði sléttað það alt og veitt yfir það alt vatni, og þar að auki leitt vatn bæði inn í fjós og eldhús, og þurfti því ekki að sækja neitt vatn í Tungu á vetrum.

Hundarnir eru vanalega fyrstir til að taka á móti gestum í sveitum, og svo var einnig í Tungu. Þótt afi hefði alt í röð og reglu á heimilinu, gat hann aldrei vanið hundana af þeim sið, að þjóta, fjóra í hóp, langt út fyrir tún, geyjandi af öllum mætti í hvert sinn er gest bar að garði. Þar voru þeir Vaskur og Kolur, Stubbur og Strútur, hver öðrum ákafari, og var Vaskur langt á undan, en Kolur komst sjaldan nema hálfa leið, því hann var langt á eftir hinum, en hann var þó sá, sem hæst hafði af þeim öllum.

Þrátt fyrir þessa móttöku komst þó alt liðið heilu og höldnu heim að Tungu. Afi stóð í dyrum úti, og gekk fram á hlaðið, er hann sá gestina bera að garði. Þegar þau Sigga voru komin heim í miðjar traðirnar, þekti afi loks hverjir þessir gestir mundu vera, því honum var nokkuð tekin að glepjast sýn. Kallaði hann þá inn í bæjardyrnar á ömmu, til að sýna henni þessa nýstárlegu sjón. Þið getið getið því nærri, hvílíkur fagnaðarfundur þetta hefir verið. Afi og amma tóku þau Siggu og Lauga í fang sér, kystu þau og klöppuðu þeim, og hlupu með þau inn í bæ; þar voru þau Sigga sett til sætis, eftir að búið var að skoða þau í krók og kring. En þið getið getið nærri, að þau undu ekki lengi að sitja grafkyr. Þar var svo margt að sjá annað en heima hjá þeim. Afi hafði verið að smíða spæni, sumir voru í spónalöðinni, aðrir hálftegldir til, og suma var verið að grafa letrið á, og loks voru nokkrir sem mátti taka í munn sér, hvenær sem vildi. Þar voru þykkir hrútshyrningar, axlabreiðir líkt og berserkir í fornöld og var þeim fært í flestan sjó, en þar voru líka grannvaxnir nautshyrningar, engu líkari en ljóshærðri heimasætu, þveginni og fágaðri,

sem enginn blettur eða hrukka sást á. Á skaftið var grafið ýmiss konar útflúr út til randanna, en á miðju skaftinu var annað hvort ártalið, fangamark eigandans eða þá, „guðlaun,“ „guðsfriði,“ „súpa“ „grautur“ o. s. frv. Gekk Siggu nokkuð örðugt að lesa úr rúnum afa síns, því á suma spænina var grafið með höfðaletri, og fór afi því að kenna henni stafrófið. Aftur á móti var Laugi ekki orðinn svo mentaður enn, að hann væri fær um að leggja út í að ráða höfðaletur. Amma hafði verið að vefa spjaldofin sokkabönd; þótti Siggu þau allra mesta furðuverk, og skildi ekkert í, hvernig amma gæti búið til jafnfallega gripi. En sá galli var á, að amma leyfði þeim alls ekki að snerta á vefnum, því hún sagði þau myndu flækja fyrir sér. Lauga fanst þetta reyndar nokkurs konar harðstjórn, þar sem afi hafði lofað honum að skoða spænina í krók og kring. — En það tjáði ekki um það að tala. Amma var óbundinn einvaldur yfir sokkabandavefnum, svo Laugi varð nauðugur viljugur að láta sér lynda að eins að horfa á.

Það má geta nærri, að pabbi og mamma Sigga og Laugi hafi ekki verið látin fastandi meðan þau dvöldu í Tungu, sérstaklega þar sem þau dvöldu þar um nóttina og fram undir hádegi daginn eftir, en það yrði oflangt mál, að segja frá öllum góðgjörðunum. Þess má þó geta, að hvorki muni hafa verið valið af verri endanum, né numið við neglur sér, enda var það viðkvæðið hans Lauga, þegar hann var kominn heim aftur: „Það er langt um betra að borða hjá henni ömmu í Tungu en þér, mamma!“

En það var ekki alt búið, þó þau Sigga hefðu skoðað spænina og sokkaböndin; þau þurftu að fara um allan bæinn, inn í hverja kompu, hvern krók og kima. Og svo þurfti að skoða alt útivið. Þar voru fíflarnir og mjólsúrurnar í hlaðvarpanum, njólinn og hvönnin undir fjósveggnum og margt fleira; þá var lækurinn, sem veitt var á túnið, en þar varð Lauga það á, að hann tók hnaus úr veitustokknum, svo lækurinn flaut í farveg sinn. Ávítaði pabbi Lauga fyrir þetta tiltæki, en afi sagði: „Þú verður vonandi betri jarðyrkjumaður með tímanum, Laugi minn.“

Lambánum var smalað um kvöldið og lömbunum stíað um nóttina. Sigga og Laugi þurftu eðlilega að fara til stekkjarins til að hjálpa til. Gáfu þau sig lítið að fullorðna fénu, en áttu einkum við lömbin. Ferðin var ekki heldur til ónýtis fyrir Siggu, því afi gaf henni mórautt gimburlamb, gullfallegt. Það kom í heimtur um haustið, og fóðraði afi það, en út af því kom á sínum tíma heill hópur af nýum lömbum, mórauðum, flekkóttum, golsóttum, botnóttum, bildóttum, baugóttum, hvítum og svörtum, svo þið getið getið því nærri að Sigga hefir orðið ærið fjárrík, er fram í sótti.

Ekki lét afi Lauga heldur synjandi frá sér fara. Hann fékk rautt hestfolald morguninn eftir, fleygivakurt. Það var látið ganga með móðurinni um veturinn, og varð seinna einhver hinn mesti gæðingur þar í héraði, og þó víðar væri leitað.

Ekki tjáir að nefna alt, sem fyrir þau systkinin bar í Tungu, og verður því að láta hér staðar nema.

Mitt á milli hádegis og dagmála á sunnudagsmorguninn var tekið að hugsa til heim-

ferðar, en þó varð ekki komist á stað fyr en undir hádegi. Fylgdu þau afi og amma frændum sínum áleiðis til næsta bæjar, en þar var skilið með mestu kærleikum.

Sigga og Laugi hafa eflaust komist heim með heilu og höldnu, því þau urðu æfagömul, og var Laugi kallaður sæmdarmaður en Sigga sómakona. En það mundu þau fram í andlátið, þegar þau höfðu í fyrsta sinni verið í heimsókn hjá afa og ömmu.

---

# Hefndin.

Fyrir tveimur öldum var ástand fátæklinga á Íslandi einatt bágbornara en það er nú. Þá var oft hart í ári og áttu margir við þröngan kost að búa. Meðal þeirra var ekkja ein fátæk. Átti hún 5 börn, sem ekkert lá fyrir annað en sveitin. Var það alt annað en gleðileg tilhugsun, því að altítt var, að börn voru látin fara á húsgang, er þau voru orðin 10 ára gömul. En um það tjáði eigi að fást, þar sem efnin voru engin og óhugsandi að ekkjan gæti haft ofan af fyrir allri ómegð sinni.

Elzta barn ekkjunnar var 10 eða 11 ára gamall piltur. Var honum mjög nauðugt að skilja við móður sína; en það varð þó svo að vera, því að hún mat meira að hafa yngsta barn sitt með sér, og kom hún sér í vist með það. Þótt henni að vísu væru öll börnin jafnkær, var henni þó sérstaklega umhugað um að vel færi um það yngsta. Af hinum börnunum var þremur komið fyrir á bæjum þar í sveitinni; en elzti drengurinn var látinn fara á húsgang. Átti hann að fara bæja milli um sveitina og dvelja aðeins 3 daga og 3 nætur á hverjum bæ. Því miður varð honum ekki alstaðar vel til gistingarstaða þennan stutta tíma. Þótt ákveðið væri, að hann ætti að fá sama fæði sem heimamenn, var því ekki nærri alt af hlýtt, og aðbúð sú, er hann átti að sæta, var víða mjög lakleg.

Minnistæðast var honum jólakvöld eitt, er hann kom í vondu veðri á eitt ríkasta heimilið i sveitinni. Skömmu eftir að hann bar þar að garði, fór bóndi að skamta jólakjötið; en það var þá venja í sveitum, að bændur skömtuðu hangikjötið á jólunum. Vonaðist drengurinn eftir, að hann mundi fá sinn skamt sem aðrir; en sú von brást. Sat hann nú þar sem hann var kominn, votur og svangur, og var sem enginn veitti honum eftirtekt. Skemtun var lítil á heimilinu; en þó voru heimamenn allir glaðari í bragði en venja var til. En engum hugkvæmdist að hlynna neitt að þessum vesælings einstæðingi eða stuðla að því að hann gæti notið jólagleðinnar eins og aðrir, og var hann þó alstaðar vel kyntur, því að hann var stiltur, siðprúður og hrekkjalaus; en þann vitnisburð áttu ekki allir slíkir umrenningar skilið. Þegar fólk fór að hátta um kvöldið, var honum einnig vísað til hvílu í fleti einu, og snemma næsta morgun bjóst hann til farar. Kendi þá ein af vinnukonunum svo í brjósti um hann, að hún gaf honum dálítinn matarbita af því, er henni hafði verið skamtað kvöldið áður, og lagði hann síðan af stað til næsta bæjar.

Þegar drengur þessi þroskaðist, varð hann stiltur og reglusamur maður; varð hann allvel efnaður og kvæntist myndarlegri bóndadóttur. Voru þau hjón álitin atkvæðamestu og heiðvirðustu hjón í sveit sinni.

hafði Luks þá bjargað því, svo það datt ekki ofan af klettunum. Gaf bóndinn þá Luks dálítinn smápoka fullan af hnetum og mælti brosandi: „Apinn sá arna vill ekki láta drepa sig, og hann vill ekki heldur, að neinn annar farist.“

## Látið eggin í friði!

Um það leyti sem þetta blað berst út til kaupenda „Æskunnar,“ stendur eggtíðin sem hæst, og því læt eg nú berast þau boð til allra lesanda blaðsins, að þeir láti eggin í friði.

Er það ekki inndælt að heyra til fuglanna á vorin? Eru það ekki ómetanleg gæði, ómetanlegur unaður, að svo margir fuglar skuli koma hingað til landsins á vorin til að verpa og gleðja okkur með kvaki sínu á sumrin? Finst ykkur ekki, að dauflegt mundi verða, ef þeir hættu því? En hverju launið þið þá fuglunum þennan unað, sem þeir veita ykkur? Haldið þið, að þeir muni geta þakkað ykkur fyrir sumarvistina, ef þið rænið þá öllum eggjunum þeirra? Hugsið ykkur, hve hryggir þeir hljóta að fara héðan í haust, ef þeir geta ekki haft ungahópinn sinn með sér.

Eg veit það af eingin reynslu, að gleðin yfir því að finna egg getur stundum verið stutt og að sár iðrun getur komið á eftir. Þegar eggjaræninginn sér, hve fuglarnir barma sér yfir missinum og þegar hann kemst að raun um, að eggin eru gráunguð og því óæt, þá fer gleðin af, en sár sorg kemur í staðinn. Vissasta ráðið til að losast við þá sorg er það að gera sér það að fastri reglu að láta öll egg í friði.

Sérstaklega ættu öll börn að varast að taka egg seint á eggtíðinni, því að þá eru þau venjulega orðin unguð. Og enn fremur ættu þau að setja sér þá reglu að láta jafnan í friði öll smáfuglaegg, sem ekki verða notuð til matar. Með því að taka þau gerið þið einungis ilt en ekkert gagn, því þess skuluð þið minnast, að hver smáfugl hefir sitt verk að vinna, og enginn þeirra fellur svo til jarðar, að faðir ykkar á himnum sjái það ekki.

*Fuglavinur.*

## Smávegis.

— Enginn er svo heimskur, að hann kunni ekki að kveikja í vindli; en margir eru svo heimskir, að þeir halda að þeir verði „miklir menn“ við að gera það.

— Það er göfugra að hjálpa druknum manni, en hlæja að honum.

— Það er mikilmannlegra að neita brennivínsstaupinu, en að drekka úr því.

**Kaupendur og útsölumenn** „Æskunnar“ eru hér með mintir á, að gjalddagi blaðsins er í apríl. Eru þeir því vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni svo fljótt sem unt er.

**Eldri árgangar „Æskunnar“** fást nú innh. hjá afgreiðslumanni blaðsins, í Vesturgötu 21. Verðið á þeim er: I—III. árg. 1 kr. hver, IV.—V. árg. 50 aura hvor fyrir nýja áskrifendur að blaðinu, en 1 kr. fyrir aðra.

**Úrsagnir** úr „Æskunni“ tilkynnist *skriflega* til afgreiðslum., og eigi síðar en *fyrir lok júlímánaðar.*

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 19. Júní 1903 | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 18.—19.

## H. C. Andersen.

HANN var eitthvert hið merkasta skáld Dana á 19. öld, og það enda þó víðar væri leitað, og hafið þið að líkindum heyrt eitthvað af sögum hans og æfintýrum, t. d. um „litlu stúlkuna með eldspýturnar.“

Hann hét fullu nafni Hans Christian, og var fæddur 2. april 1805 í bænum Óðinsvé á Fjóni. Var Hans faðir hans skóari þar í bænum, en hann var ekki duglegri en svo, að hann hafði aðeins ofan af fyrir sér og sínum. Ekki hafði hann mikinn áhuga á starfi sínu, en hann hafði keypt sér dálítið bókasafn, einkum leikrit, og í bókum þessum las hann í öllum frístundum sínum og varð honum þá oft á að þykjast vera að leika, og tala hátt við sjálfan sig. Stundum var hann úti í skógi og tíndi blóm, en hafði mjög lítil afskifti af fólki út í frá. Hafði hann óskað að verða settur til bóknáms í æskunni, en hann hafði orðið að láta sér nægja að verða skóari vegna fátæktar foreldra hans.




Ekki var Hans Christian settur í öskustó, heldur voru foreldrar hans hvort öðru betra við hann, og var faðir hans aðal-leikbróðir hans. Las hann ýmist fyrir honum „leikrit Holbergs,“ „Þúsund og eina nótt,“ og ýmsar æfintýrasögur, tók hann með sér út í skóg, eða bjó honum til allskonar barnagull. Hafði þetta mjög mikil áhrif á drenginn, er var hugsandi og einrænn að eðli. Tók hann lítinn þátt í leikum með öðrum börnum, en dundaði öllum stundum við leikföng sín og myndir, samdi leikrit, og lék þau sjálfur með brúðum sínum. Einatt sat hann hugsandi undir stöngulberjarunni í litla garðinum, og

glápti upp í loftið, en önnur börn drógu dár að honum, er hann kom í þeirra hóp. Föður sinn misti hann í bernsku og varð móðir hans þá ein að vinna fyrir þeim með því að þvo fyrir nágrannana, en hún var dugleg og þrifin og liðu þau því enga neyð, þótt fátæk væru.

Hans Christian var fermdur 14 ára að aldri, og ætlaði móðir hans þá að setja hann til að nema skraddaraiðn þar í bænum. En honum var ekki um það gefið. Hann vildi fara til Kaupmannahafnar og verða leikari, og bjóst áreiðanlega við því, að hann yrði frægur maður. Þegar móðir hans sá, hve honum lá þetta þungt á hjarta, kallaði hún til sín spákerlingu og spurði hana hvað gera skyldi. Spákerlingin fór að öllu með mestu ró, tók í nefið, lagði spilin og athugaði þau lengi og mælti síðan: „Sonur yðar verður frægur maður, kona góð, og sá tími kemur, að bærinn Óðinsvé verður skrautlýstur honum til vegsemdar.“ Þetta hreif; móðirin leyfði drengnum að fara, og var farareyrir hans aðeins 13 dalir, er hann smám saman hafði nurlað saman. Með það lagði hann af stað með póstvagninum og komst til Kaupmannahafnar.

Það má nærri geta, að ekki var glæsilegt fyrir bláfátækan, einmana, einfaldan og hjákátlegan 14 vetra dreng að koma til höfuðstaðarins. Tók hann þegar að leita upp allskonar leikara og leita aðstoðar þeirra, og söng hann fyrir þeim, lék og dansaði, hvar sem hann kom. Héldu margir hann meira eða minna viti sínu fjær, aðrir gerðu gys að honum; en nokkrir voru þó, er héldu, að hæfileikar fælust í þessum kynlega, einfalda unglingi. Komu þeir honum á söngskóla, sem hann æskti mjög, enda hafði hann dágóða söngrödd. En sökum fátæktar gat hann ekki keypt sér sæmilega skó, og varð þá votur í fætur dag eftir dag. Fór þetta með röddina, enda komst hann í mútur um sama leyti. Var þá úti um söngnámið. Leit nú ekki út fyrir annað en hann yrði að halda aftur heim til sín, en úr því varð þó ekki. Loks gátu nokkrir vinir hans útvegað honum kauplausa kenslu í latínuskólanum í Slagelse, og fór hann þangað 1823, þá 15 vetra gamall. Gekk námið örðugt í fyrstu, enda var rektor skólans enginn fyrirmyndar-maður. Smám saman tók Andersen þó að ganga betur, og útskrifaðist árið 1828, þá 23 ára að aldri. Hann hafði ort töluvert á skólaárunum, og nú varð það úr, að hann gaf sig eingöngu við ritstörfum, ýmist ritaði hann skáldsögur, leikrit eða æfintýri. Fanst ýmsum fátt um skáldskap hans í fyrstu, en nokkrir voru þó þeir, er sáu, hvað í honum bjó. Meðal þeirra voru Jónas Hallgrímsson, þjóðskáldið vort, sem þá dvaldi í Höfn, og ýmsir aðrir Íslendingar. Þegar fyrstu æfintýri hans voru komin út, um 1836, tóku aðrar þjóðir að gefa honum gætur, og nú er svo komið að æfintýrin eru þýdd á flest Norðurálfumál og nokkur Austurlandamál, og þykja hvervetna meistaraverk. — Snögt á að líta eru þau að eins gamansögur handa börnum, en eftir því sem þroski og skilningur lesandans er meiri, finnur hann í þeim dýpri og dýpri lýsingu á mannlífinu í kring um sig. Meðal þeirra er t. d. æfintýrið „Móðirin“, einhver fegursta lýsing móðurástarinnar sem til er, þar sem móðirin selur af hendi hár sitt, augu sín, og lætur þyrnana stinga sig í bert brjóstið til þess að finna aftur

látna barnið sitt. Eitt æfintýrið er „Ljóti unginn,“ sem hér er prentað á eftir; það er æfisaga Andersens sjálfs, svansins, sem útklakinn var í andagarði, hrjáður og hrakinn fram og aftur, áður hann komst í flokk jafningja sinna. Þegar námi Andersens var lokið, ferðaðist hann hvað eftir annað til útlanda og það var fyrst, er aðrar þjóðir höfðu sýnt honum virðingu, að Danir tóku að veita honum eftirtekt, og hófu hann til virðingar.

Og svo fór að lokum, að spádómur kerlingarinnar rættist, að bærinn Óðinsvé var skrautlýstur til heiðurs honum og hann gerður heiðursborgari bæjarins. Einfaldur var hann alla æfi, og hafði meðal annars töluvert gaman af að segja frá viðtökum þeim, er hann fékk hjá ýmsum stórmennum, en barnslega sakleysinu hélt hann óskertu til dauðadags. Hann andaðist í Höfn 4. ágúst 1875, sjötugur að aldri, og var útför hans gerð með hinni mestu viðhöfn. Var þar konungur viðstaddur og ætt hans og margt annað stórmenni, og kistan þakin fjölda blómkransa, ekki að eins frá Danmörku, heldur og frá Svíþjóð og Noregi og Þýzkalandi. Sendinefnd hafði komið frá Óðinsvé til heiðurs við hinn látna. Meðal sendimanna var Engelstoft biskup, er hélt eina ræðuna. Lauk hann henni með niðurlagsorðunum úr einu æfintýri Andersens: „Vér höfum ekki ennþá fengið augu til að sjá inn í þá dýrð, sem guð hefir skapað, en við fáum þau, og það verður bezta æfintýrið, því að þá verðum vér með sjálfir. Nú er hann með sjálfur. Guðs náð lýsi fyrir hans augliti: friður sé yfir dufti hans.“

Rit H. C. Andersens hafa verið gefin út í 30 bindum. Af þeim er ekki þýtt annað á íslenzku en fáein æfintýri og nokkur kvæði.

# Ljóti unginn.

(Eftir H. C. Andersen).

Fagurt var á landsbygðinni; það var hásumartími, akrarnir ljósgulir, hafragrasið skrúðgrænt, heyið sett í stakka út um hið rennslétta engi, og þar skálmaði storkurinn, rauðfættur og hástígur og talaði egypzku, því að þá tungu hafði hann lært af móður sinni. Hringinn í kring um akur og engi lá þykkur skógur, og inn í skóginum djúpar tjarnir; já, það var fagurt úti á landsbygðinni. Í miðju sólskininu lá fornt höfuðból með djúpum skurðum umhverfis, og uxu þar njólablöðkur milli múranna og vatnsins, sem voru svo háar, að smábörn gátu staðið upprétt undir þeim stærstu; var þar jafn villigjarnt og í þykkvasta skógi. Þar sat önd í hreiðri sínu; hún var að unga út, en var nú tekið að leiðast, að svo lengi stóð á ungunum og svo fáir komu að heimsækja hana, því hinum öndunum þótti skemtilegra að synda fram og aftur eftir skurðunum, en að ganga á land og setjast undir njólann til að hjala við hana.

Loksins fór að braka í eggjunum, hverju af öðru: pí, pí, sagði í þeim; allar eggjarauðurnar voru orðnar lifandi og stungu út höfðunum.

„Ráf! ráf!“ sagði öndin og óðar reyndu ungarnir að ráfa og rölta, og góndu í allar áttir undir grænblöðunum, og móðirin lofaði þeim að skima eins og þeir vildu, því græni liturinn er hollur augunum.

„Ósköp er veröldin stór!“ sögðu allir

ungarnir, því að nú var mun rýmra um þá, en meðan þeir sátu í egginu.

„Haldið þið, að þetta sé öll veröldin!“ sagði móðir þeirra; „hún nær langt út fyrir garðinn hinum megin, og langt inn í landareign prestsins! En þangað hefi eg aldrei komið! Eruð þið ekki hérna allir?“ Og um leið tylti hún sér á tá. „Nei, eg er ekki búin, allra stærsta eggið liggur þarna eftir; hvað ætli þetta eigi lengi að ganga! Bráðum fer mér að leiðast!“ og að svo búnu lagðist hún á aftur.

„Nú, nú! Hvernig líður þér?“ spurði gömul önd, sem kom að finna hana.

„Það stendur svo lengi á einu egginu,“ mælti öndin, sem sat á; „gatið ætlar aldrei að sjást, en gerðu ekki nema líttu á hina! Þeir eru fallegustu ungar, sem eg hefi séð; þeir eru allir eftirmynd föðursins; ótætið, hann kemur ekki að heimsækja mig!“

„Lof mér að sjá eggið, sem ekki opnast,“ sagði gamla öndin. „Vertu viss, þetta er kalkúns-egg; svona var eg einu sinni svikin, og má muna þá gremju og þau vandræði, sem þeir ungar gerðu mér, því þeir eru hræddir við vatnið, skal eg segja þér; eg kom þeim ekki út í, kjamsaði og hramsaði, en ekkert dugði. Lof mér sjá eggið. Jú, jú, kalkúns-egg er það! Lofaðu þessu eggi að vera, og kendu hinum börnunum þínum að synda!“

„Nei, eg verð að liggja á því ofurlítið ennþá,“ sagði öndin, „úr því eg er búin að liggja svo lengi á því hvort heldur er, þá er bezt eg þreyi Þorann og Góuna út.“

„Sem þér þóknast, heillin góð,“ sagði gamla öndin og við það hafði hún sig á kreik.

Loksins sprakk stóra eggið. „Pí, pí,“ sagði unginn og valt út; hann var bæði stórskorinn og ljótur. Öndin horfði á hann. „Hvaða, hvaða herfileg stærð er á unganum,“ sagði hún, „enginn hinna litur út



svona afskræmilega; það skyldi aldrei vera, að þetta væri kalkúns-ungi! Jæja, eg skal fljótt komast fyrir það, því í vatnið skal hann fara, þótt eg megi til að sparka honum út í.“

Daginn eftir var ljómandi fallegt veður; sólin skein á allar hinar skrúðgrænu blöðkur. Ungamóðirin fór á kreik með öll sín afkvæmi, og var komin niður að skurðinum. Skvamp! skvamp! Hún út í. „Ráf, ráf!“ sagði hún, og ungarnir veltu sér út í hver af öðrum; vatnið gekk yfir höfuðið á þeim, en þeim skaut óðara upp aftur, og þeir flutu þarna allir með snild og prýði, fæturnir tifuðu eins og sjálfkraf og grái unginn ljóti, hann synti líka.

„Nei, nei, ekki er það kalkúa,“ sagði hún; „sko, hve fallega hann ber fæturna; en hvað hann er reisugur! Eg á garminn með öllum rétti; í raun réttri er hann dáindis-laglegur, horfi maður vandlega á hann; ráf, ráf! Komið þið nú með mér! Eg ætla að sýna ykkur veröldina og láta sjá ykkur í andastíunni; en haldið þið ykk-

ur nærri mér, svo að enginn stígi ofan á ykkur, og varið ykkur á köttunum.“

Því næst komu þau inn í andagarðinn; þar var gríðarlegur hávaði, því þar var tvíbýli, og bæði heimilin börðust um álhöfuð, sem þó lenti í kettinum á endanum.

„Svona gengur nú lífið í veröldinni,“ sagði móðir unganna og sleikti útum um leið, því að hana langaði líka í álhöfuðið. „Hafið þið nú fæturna fyrir ykkur og reynið að spreyta ykkur, og hneigið ykkur í hálsinum fyrir gömlu öndinni þarna; hún er lang-göfugust allra, sem hér eru, hún er af spönsku blóði, og því er hún gild, og lítið á! Hún hefir rauða dulu um fótinn, og það er ljómandi fallegt og einhver hin mesta upphefð, sem nokkur önd getur hlotið. Það þýðir ekki nema það, að enginn vill missa hana, og að bæði dýr og menn skulu þekkja hana úr. Ráf, ráf! Ekki innstígir! Vel dubbaður andarungi lætur vera langt á milli fótanna, eins og faðir hans og móðir gera. Svona, beygið nú hálsinn og segið: ráf!“

Og það gerðu þeir. En hinar endurnar þar umhverfis horfðu á þá og sögðu upphátt: „Já, já, við eigum þá að fá þetta hyski í viðbót, eins og við værum ekki nógu mörg fyrir! Og svei aftan! Hvað einn unginn lítur ólánlega út! Honum skulum við koma af okkur.“ Og óðara rauk ein öndin á hann og beit hann aftan í hnakkann.

„Látið hann vera!“ sagði móðirin. „Hann gerir víst engum neitt.“

„Jú, hann er of stór og annarlegur,“ sagði öndin, sem beit, „og því á hann að hafa það.“

„Hún á lagleg börn, heillin,“ sagði gamla öndin með duluna um fótinn. „Öll lagleg nema eitt. Það hefir ekki tekist. Eg vildi óska, að hún gæti gert það upp aftur.“

„Það er nú ekki hægt, frú mín góð,“ sagði andamóðirin; „hann er ekki laglegur, en hann er bezta barn, rýjan, og syndir fult svo laglega og hver hinna. Já, mér liggur við að bæta því við: eg held að hann frikki með aldrinum, eða hann verður smáfeldari með tíð og tíma; hann hefir legið of lengi í egginu, og hefir því ekki náð réttu lagi og lögun,“ og svo nartaði hún aftan í hálsinn á honum og snotraði til á karli. „Hann er líka steggi,“ sagði hún, „og þá hefir það lítið að þýða; eg á von á að hann fái góða krafta, og þá vona eg, að hann spjari sig, svo dugi.“

„Hinir eru dáfallegir ungar,“ sagði gamla öndin. „Verið þið nú eins og heima hjá ykkur, og ef þið finnið álhöfuð, getið þið fært mér það.“

Og svo fóru ungarnir að gera sig heimakomna. [Niðurl. næst.]

# Tom.

[Ensk saga.]

KULDINN var nístandi — framúrskarandi nístandi og bitur, og auk þess var koldimt, því að gasljósin, sem hoppuðu og ósuðu í storminum, lýstu varla 10 skref frá sér. Vindurinn þaut gegnum götuna, eins og hann væri tryltur, og sópaði burt með sér snjó og ryki og öllum hræranlegum hlutum, sem hann gat við ráðið. Þar á meðal var veslings gamall, útslitinn dreki, sem einhvern tíma um haustið hafði sezt að hæst uppi í stærsta trénu í nágrenninu, og hafði hann hvílt sig þar síðan

í næði og með þeirri fullu sannfæringu, að erfiði hans væri nú á enda. Nú hreif stormurinn hann vægðarlaust út úr fylgsninu og feykti honum burt. Hann gerði margar tilraunir til að komast inn í skjól á milli húsa, bak við tröppur og inn á umgirt svæði; en alt var árangurslaust. Stormurinn kom í veginn fyrir hann og þeytti honum burt í gagnstæða átt, sveiflaði honum hringinn í kring um nokkrar tunnur, sem stóðu í röð eins og hermenn meðfram gángstéttinni, og beint í fangið á dálitlum dreng, sem sat á steini í skjóli við tunnurnar.

Drengurinn var bæði lítill og fátæklegur. Þar sem hann sat var hann engu líkari en tusku-hrúgu; flíkurnar utan á honum voru slitnar og rifnar og drengurinn nær dauða en lífi af kulda. Nefið, eyrun, hendurnar og fæturnir, sem voru berir, var allt helblátt. Honum var nærri of kalt til þess að hann gæti skolfið, og drekanum, sem óvinur hans, stormurinn, feykti til hans, veitti hann enga eftirtekt. Það leit út eins og drekinn hjúfraði sig upp að honum til að biðja hann ásjár; en í sama bili kom vindurinn aftur beggja megin við tunnurnar, eins og hann spenti greipar utan um þær og í gegnum veslings Tom litla, og ískraði í honum af ánægju um leið og hann náði aftur tökum á herfangi sínu, drekanum, og feykti honum burt.

Hann hét „Tom“, litli drengurinn; hann átti ekkert annað nafn. Enginn vissi, hver hann var eða hvaðan hann var, nema kannske fátæka gamla konan, sem hann „átti heima“ hjá. En þetta, að hann átti þar heima, þýddi að eins það, að hún lét hann sofa á gólfinu í stofukytrunni sinni; lá hann þar á bunka af gömlum druslum. Stundum gaf hún honum brauðskorpu, en miklu oftar barði hún hann. Þegar hún var drukkin, flýði Tom út á götuna, en drukkin var hún oftast nær, og á kvöldin var hún það altaf. Hann var víst hér um bil 6 ára gamall; en hver sem hefði séð hann, þar sem hann sat á stéttarsteinunum niðurlútur og áhyggjufullur, hefði vel getað ímyndað sér að hann væri að minsta kosti tífalt eldri en hann var.

Nú kom vagn akandi eftir götunni og nam staðar rétt þar sem Tom sat. Vagndyrnar opnuðust og tvö börn hoppuðu út, skildu dyrnar eftir opnar og flýttu sér upp tröppurnar og inn í húsið. Tom leit þreytulega á eftir þeim, heyrði dyrabjölluna hringja, sá að eins bregða fyrir daufri glætu innan úr stofunni, og virtist honum að þar væri bæði bjart og hlýtt; en svo lokuðust dyrnar aftur, og alt var koldimt sem áður. Hann sneri sér að vagninum til að sjá, hvort hann væri farinn, en hann stóð kyr enn þá. Ökumaðurinn sat í sæti sínu hreyfingarlaus, eins og hann væri myndastytta. Annar vagnhesturinn stappaði óþolinmæðislega niður í götuna og leit tortryggnislega kringum sig; en myndastyttan sat hreyfingarlaus.

Tom horfði dapur í bragði inn í vagninn um opnar dyrnar. Þó dimt væri, sá hann, að vagninn var fóðraður innan með þykku hlýju efni. Hann leit upp og í kringum sig. Ef hann væri kominn inn í vagninn, þá gæti stormurinn ekkert gert honum. Ó, að hann mætti koma þar inn, þó ekki væri nema eitt augnablik! Hann skyldi læðast út aftur, undir eins og húsdyrnar opnuðust. Hann staulaðist á fætur

og færði sig nær. Eina mínútu eða svo hugsaði hann sig um; en svo kom svipur fyrir hornið. Tom heyrði þytinn og skauzt hljóðlega inn í vagninn, hnipraði sig saman inst inni á bekknum og hlustaði með áköfum hjartslætti á þytinn í storminum, um leið og hann fór fram hjá. Inni í vagninum var alt kyrt og hljótt, og flauelið, sem hann lá nú á, fanst honum óneitanlega miklu hlýrra og mýkra en steinarnir, sem hann hafði setið á fyrir skemstu. Hann var dauðþreyttur og að fram kominn af kulda og fór því sem eðlilegt var, að áður en drykklöng stund var liðin, lá hann í fasta svefni.

Hann vaknaði ekki, þegar húsdyrnar loksins opnuðust. Út um þær kom kona, og vafði hún kápunni fastar að sér, er hún kom út á tröppurnar. Hann sá heldur ekki, hvernig alt í einu lifnaði yfir myndastyttunni og að hún flýtti sér niður úr hásæti sínu og stóð framúrskarandi hátíðleg á svip við vagndyrnar, þangað til konan var komin inn í vagninn. Svo skelti ökumaðurinn hurðinni í lás, flýtti sér upp í sæti sitt og ók af stað. Þá opnaði drengurinn loksins augun, og það sem hann fyrst sá, var andlit ókunnugu konunnar. Hún hafði verið sokkin niður í eitthvað, sem hún var að hugsa um, og hafði því ekki veitt honum eftirtekt, þar sem hann lá í hnipri eins og böggull inst inni í horninu. En nú, er hann hreyfði sig dálítið, varð hún hans vör, og er hún sá hann, rak hún upp óp af ótta og undrun og gerði sig líklega til að opna vagninn; en vagnskröltið og þyturinn í storminum gerðu ökumanninum ómögulegt að heyra neyðaróp hennar.

Tom rétti nú úr sér og skreið niður af bekknum.

„Eg ætlaði ekki að gera neitt ilt,“ sagði hann kjökrandi. „Mér var svo óttalega kalt. Ó, ljúkið þér upp fyrir mér, því eg ætla að hoppa út. Þér þurfið ekki að láta vagninn nema staðar.“

Konan hélt enn um hurðarhúninn, eins og hún ætlaði að opna vagninn.

„Hvernig stendur á, að þú ert hér inni?“ spurði hún.

„Dyrnar voru opnar, og eg skreið inn,“ svaraði hann. „Það var svo óttalega kalt úti.“

Nú slepti hún hurðarhúninum.

„Komdu nær! Lof mér að sjá framan í þig!“ mælti hún.

Tom hélt treyjuerminni fyrir andlitinu og horfði á hana yfir handlegginn. Vagninn var nú kominn inn í ljómandi fallega götu og var þar bjart sem um hádag. Hún sá því að hárið hans gula, þó ógreitt væri, var mjúkt og smágert, og að augun, sem horfðu á hana óttaslegin, voru engin vasaþjófs-augu. Alt í einu lagði hún hönd sína á höfuð honum.

„Hvar áttu heima?“ spurði hún.

Það var eitthvað í málróm hennar og látbragði, sem jók honum kjark.

„Hjá henni mömmu Sal,“ svaraði hann og rétti úr sér, „bæði eg og nokkrir félagar mínir. Stundum betlum við, stundum tökum við úr tunnunum. Þegar okkur gengur vel, er hún ekki svo slæm; en annars fáum við að kenna á því. Hún var full í kvöld og rak okkur út.“

Konan strauk hárið frá enni hans.

„Er hún mamma Sal móðir þín?“

„Nei,“ svaraði drengurinn óttasleginn og

bætti við með hálfgerðum þjósti: „Eg á enga.“ Konan strauk hægt og hægt hendinni um höfuð honum. Hún einblíndi fram fyrir sig. Andlit þessa drengs var svo nauðalíkt öðru andliti, sem hún var að hugsa um.

„Ertu svangur?“ spurði hún alt í einu. Hún hefði eiginlega ekki þurft annað svar en það, sem hún gat lesið í augum hans. Hann svaraði kjökrandi og í hálfum hljóðum: „Já, frú.“

Vagninn nam staðar og myndastyttan kom ofan í annað sinn, opnaði dyrnar og stóð svo grafkyr og sem steini lostinn, er hann leit inn í vagninn.

„Eg fer ekki inn, Jóhann,“ mælti húsmóðir hans. „Flýttu þér heim aftur.“ Og svo bætti hún við brosandi: „Litli drengurinn þessi skreið inn í vagninn, meðan hann beið, af því að honum var svo kalt. Eg ætla að fara með hann heim. Flýttu þér nú eins og hægt er.“

Ökumaðurinn varð forviða. Hann lokaði vagninum og flýtti sér að komast í sæti sitt.

Drengurinn gerði tilraun til að komast til dyranna.

„Lof mér að komast út!“ æpti hann. „Eg vil ekki fara heim. Lof mér að komast út!“

„Ekki heim til *þín*,“ svaraði konan vingjarnlega. „Heim til *mín*.“

Tom starði á hana steinhissa. Hann vissi hvorki upp né niður í þessu og lofaði henni því að lyfta sér upp í bekkinn við hliðina á henni.

„Heim til mín,“ mælti hún aftur, „þar sem þér getur verið vel heitt, og þú getur fengið góðan mat, fengið að sofa eins lengi og þú vilt og það í mjúku rúmi. Hvernig líst þér á það?“

Tom varpaði mæðilega öndinni, en svaraði engu. Þetta var alt meira en svo, að skilningur hans gæti gripið það. Hann — einn af drengjunum hennar mömmu Sal — átti að fara heim til ríku konunnar, þar sem börnin áttu heima, sem hann hafði séð fara þar inn um kvöldið. Hann leit upp alt í einu.

„Voru það börnin yðar, sem eg sá áðan?“ spurði hann.

Hún þrýsti honum fastar að sér og svaraði lágt: „Nei. Eg átti einu sinni dálítinn dreng — eins og þig. En hann dó.“

Þegar vagninn nam staðar aftur, var Tom sofnaður, og það svo fast, að ökumaðurinn, sem engu orði gat enn þá upp komið fyrir undrun, bar hann inn í húsið og lagði hann upp í rúm án þess að hann vaknaði.

(Framh.)

---

**Kaupendur og útsölumenn** „Æskunnar“ eru hér með mintir á, að gjalddagi blaðsins er í apríl. Eru þeir því vinsaml. beðnir um að gera skil á borguninni svo fljótt sem unt er.

---

**Eldri árgangar „Æskunnar“** fást nú innh. hjá afgreiðslumanni blaðsins, í Vesturgötu 21. Verðið á þeim er: I—III. árg. 1 kr. hver, IV.—V. árg. 50 aura hvor fyrir nýja áskrifendur að blaðinu, en 1 kr. fyrir aðra.

---

**Úrsagnir** úr „Æskunni“ tilkynnist *skriflega* til afgreiðslum., og eigi síðar en *fyrir lok júlímánaðar*.

---

**Afgreiðslumaður:** Sigurður Jónsson, kennari, Rvík.

Aldar-prentsmiðja. Pappírinn frá Jóni Olafssyni.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 17. Júlí 1903. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 20.—21.

## Ljóti unginn.

(Eftir H. C. Andersen).

[Niðurlag.]

En veslings unginn, sem síðast kom úr egginu og var svo ófrýnilegur, var hrakinn og hrjáður, hæddur og bitinn, og það bæði af öndunum og hænsnunum. „Hann er of stór,“ sögðu allir, og kalkún-haninn, sem fór æ versnandi. Auminginn var ofsóttur af þeim öllum saman, og jafnvel systkinin hans gutu til hans hornauga og höfðu það fyrir viðkvæði: „Gott væri það, ef kötturinn tæki þig, óhræsis skrýmslið!“ Og móðirin sagði: „Eg vildi, að þú værir kominn langt í burtu.“ Og endurnar bitu hann og hænsnin hjuggu í hann, og stúlkan, sem átti að ala fuglana, sparkaði í hann fætin-



var fæddur með sporum og hélt því að hann væri keisari, blés upp allan sinn belg, eins og skip undir fullum seglum, óð beint að honum, buldi og þuldi og setti dreyrrauðan. Aumingja unginn vissi ekki, hvar hann mátti vera eða hvað hann átti af sér að gera. Hann varð hnípinn og hljóður út úr því að vera svo ljótur og öllum til spotts í andagarðinum.

Svona leið nú fyrsti dagurinn og síðan um. Þá hljóp hann og flaug út yfir garðana; en smáfuglarnir þutu lafhræddir upp úr skógarrunnunum.

„Það er af því að eg er svo ófríður,“ hugsaði unginn og lokaði augunum, en hljóp samt áleiðis. Svo hitti hann víða mýrarflóa, þar sem villi-endur áttu heima. Þar lá hann af alla nóttina; hann var svo móður og sorgbitinn.

Um morguninn litu villi-endurnar upp og litu á hinn nýkomna félaga.

„Hver ert þú, lagsi?“ spurðu þær, og unginn vatt sér við í allar áttir og heilsaði svo rækilega sem hann kunni.

„Þú ert gríðarlega ófríður,“ sögðu villiendurnar. „En á sama stendur okkur, ef þú ekki giftist inn í okkar ættir.“

Auminginn sá! Hann var þá kannske ekki að hugsa um að gifta sig. Mætti hann að eins liggja í friði þar í sefinu og drekka ögn af mýravatninu!

Þarna lá hann fulla tvo daga. Þá bar þar að tvær villigæsir, eða réttara sagt villi-gassa, því að það voru steggir. Hafði ekki liðið langur tími frá því að þeir komu úr egginu, og fyrir því voru þeir svo miklir á lofti.

„Heyrðu, kunningi!“ sögðu þeir. „Þú ert svo ljótur, að okkur geðjast vel að þér. Viltu halda hóp með okkur og vera flagarafugl? Hérna rétt við í hinni mýrinni eru blómlegar og blessaðar villigæsir, allar saman hábornar heimasætur, sem kunna að segja: ráf, ráf. Þú mættir verða mikill lukkuhnoðri, alt hvað ljótur þú ert.“

„Pó! Pá!“ gall við í sömu svipan, og báðir villi-gassarnir duttu dauðir niður þar í sefinu og vatnið varð blóðrautt. „Pó! Pá!“ heyrðist í annað sinn, og heilir hópar af villigæsum flugu upp úr sefinu, og enn aftur komu smellir. Þar voru komnir margir veiðimenn og höfðu skipað sér í kring um mýrina og sumir þeirra sátu uppi í eikunum, sem hengdu greinarnar út á miðjar seftjarnirnar; en skotreykurinn sveif eins og blá ský inn á milli hinna dökku trjáa og lá svo eins og ræma yfir vatninu. Veiðihundarnir ösluðu fram í leðjuna: „Slamp, slamp.“ Sef og stör svignuðu fyrir. Ógn og ódæmi dundu yfir aumingja ungann; hann vatt undir sig höfðinu til að fela það undir vængnum, en í sömu svipan stóð hjá honum voðalega stór hundur, tungan lafði langt fram úr hvofti hans og augun tindruðu ill og ógurleg. Hann rak ginið rétt ofan að unganum, svo skein í skarpar tennurnar — — og „slamp, slamp!“ Hann hvarf frá og tók hann ekki.

„Guði sé lof!“ sagði unginn og varpaði öndinni. „Eg er svo ljótur, að enginn hundur vill bíta mig.“ Og svo lá hann grafkyr, meðan höglin dundu í sefinu og skot small eftir skot.

Þegar liðið var langt fram á daginn, linti ófriðnum; en veslings unginn þorði ekki að koma á kreik, heldur lá hann kyr um hríð og fór svo að skima alt í kring, og flýtti sér síðan burt úr mýrinni í mesta skyndi, hljóp yfir merkur og engi, en stormur var á, svo að hann ætlaði að eiga bágt með að hafa sig áfram.

Um kvöldið bar hann að litlum kofa, sem var svo hrörlegur, að honum stóð á sama á hvora hliðina hann hryndi, og hékk svo uppi. Stormurinn blés svo hvast um ungann að hann varð að setjast niður á stélið, svo að hann fyki ekki; og alt af hvesti meira. Þá sér hann, að hurðin var laus á annari hjörinni og hékk svo skökk, að hann gæti smogið inn um rifuna, og það gerir hann.

Hér bjó gömul kona með ketti og hænu, og kötturinn, sem hún kallaði *Skrámu*, kunni að skjóta upp kryppu og jafnvel að gnístra; en þá varð að strjúka honum öfugt. Hænan var bæði smáfætt og lágfætt, og var því kölluð *Lúpukiki-lágfætt*. Hún varp eggj-

um forsvaranlega og kerlingu þótti vænt um hana eins og barnið sitt.

Um morguninn urðu þessi þokka-hjú óðara vör við ungann og kisa tók að mala og hænan tók að kvaka.

„Hvað gengur á?“ sagði kerling og lítur í allar áttir, en hún sá ekki vel og hélt því, að unginn væri spikfeit önd, sem hefði vilst þangað. „Þetta var happafengur,“ sagði hún. „Nú get eg fengið mér andaregg, sé þetta ekki karlönd. Það verð eg að athuga.“

Svo var unginn vistaður til reynslu í þrjár vikur, en engin komu eggin, og kötturinn var húsbóndinn á bænum og hænan húsfreyjan, og æfinlega var þeirra viðkvæði: „Við og veröldin,“ því þau ímynduðu sér, að þau væru annar helmingurinn, og það drjúgum hinn betri parturinn. Unginn hélt að hafa mætti aðra skoðun á því, en það átti hænan ómögulegt með að þola.

„Geturðu verpt eggjum?“ spurði hún.

„Nei.“

„Jæja, viltu þá halda saman á þér munninum.“

Og kötturinn sagði: „Kantu að setja upp kryppu, mala og gnístra?“

„Nei.“

„Þú átt þá ekki að sletta þér fram í, þegar fullorðnir tala.“

Og unginn kúrði úti í horni og var í daufu skapi; þá kom honum í hug himinloftið og sólskinið, og undarleg löngun kom í hann til að fá að synda á vatni. Loksins gat hann ekki stilt sig, og varð að segja það hænunni.

„Hvað gengur að þér?“ spurði hún. „Þú hefir ekkert að gera, og því koma þessir kenjar í þig. Verptu eggjum eða malaðu; þá hættir þú við þá.“

„Það er svo inndælt að synda,“ sagði unginn, „og gaman, þegar vatnið fer yfir höfuðið, og að stinga sér til botns.“

„Ætli það sé heldur gaman þó,“ sagði hænan. „Þú ert víst genginn af vitinu. Spurðu köttinn, hann er gáfaðastur allra, sem eg hefi þekt, hvort honum þyki gaman að synda á vatni eða stinga sér; um mig ætla eg ekki að tala. Spurðu húsmóðurina sjálfa, gömlu konuna; vitrari en hún er enginn í allri veröldinni. Helduröu, að hana langi nokkuð til að fljóta og fá vatn yfir höfuðið á sér?“

„Þið skiljið mig ekki,“ sagði unginn.

„Jæja, ef við ekki skiljum þig, hver ætti þá að skilja þig? Þú hugsar þó líklega ekki, að þú sért vitrari en kötturinn og konan, að eg ekki nefni mig. Vertu ekki montinn, hróið mitt, og þakkaðu þínum skapara fyrir þær velgjörðir, sem þér hafa verið sýndar. Ertu ekki kominn í heita baðstofu og mátt njóta umgengni, sem þú getur fræðst af? En þú ert hjáræna, og það er ekkert gaman við þig að eiga. Mér máttu trúa; eg vil þér vel, eg segi þér til siðanna, og sá er vinur, er til vamms segir. Gáðu nú að því að fara að verpa, og láta þér lærast að mala og gnístra.“

„Eg held eg vilji helzt fara út í víða veröld,“ sagði unginn.

„Nú, svo farðu,“ sagði hænan.

Og unginn fór; hann flaut á vatninu, hann stakk sér, en engin skepna vildi við honum líta, því að hann var svo ljótur.

Nú tók að hausta. Laufin í skóginum urðu gul og móbleik, vindurinn hljóp undir þau og feykti þeim í hringdansi, og uppi í loftinu leit kuldalega út; skýin drúptu niður, full af hagli og fjúki og á hverju

gerði sat hrafn og gól: „krá, krá“ af kulda. Manni gat orðið ískalt af hugsuninni um það. Það er sannast að segja, að aumingja unginn átti litlu láni að fagna.

Það var eitt kvöld, er sólin rann svo yndis-blítt til viðar, að mikill fuglahópur kom fljúgandi fram úr skógarrunnunum; þeir voru svo fagrir, að unginn hafði aldrei séð slíkt, skínandi bjartir, með langa og liðamjúka hálsa. Það voru svanir. Þeir sendu frá sér hin fáránlegustu hljóð, útbreiddu sína skrautlegu stóru vængi og flugu frá köldum löndum til annara hlýrri, til bjartra opinna vatna. Þeir hófu sig svo hátt upp í himinhvolfið, að litli unginn ljóti varð utan við sig; hann hringsneri sér á vatninu eins og hjól, teygði hálsinn upp í loftið á eftir þeim og rak upp hljóð svo hvelt og fáránlegt, að hann varð hræddur við sjálfan sig. Hann gat ekki gleymt hinum fögru fuglum, hinum björtu og farsælu; en óðara en hann var hættur að eygja þá, stakk hann sér til botns, og þegar hann kom upp aftur, var hann sem frá sér numinn. Hann vissi ekki, hvað fuglarnir hétu né hvert þeir voru að fara, en samt þótti honum vænt um þá, vænna en honum hafði þótt áður um nokkuð annað; en ekki öfundaði hann þá, hvernig mátti honum detta í hug að óska, að sér hefði verið lánuð þvílík fegurð? Hann hefði mátt verða feginn, ef endurnar hefðu viljað unna honum að hýrast í þeirra hóp! — Aumingja unginn ljóti!

Nú kom veturinn, nístings-kaldur vetur; unginn hlaut að halda sér á sundi á vatninu til þess að það gadd-legði ekki gjörsamlega, en með hverri nóttu varð vökin, sem hann svam í, minni og krappari. Frostið varð grimdar-hart, svo að það brast við í ísnum. Unginn varð að neyta fótanna, svo að vökin lykist ekki saman. Loks varð hann máttvana, kúrði grafkyr og fraus fastur við ísinn.

Snemma dags morguninn eftir bar þar að bónda. Hann sá ungann, gekk til hans og braut hann úr ísnum með tréskónum sínum og bar hann heim til konu sinnar; þar var hann lífgaður við. Börnin vildu fara að leika sér að honum, en þá hélt unginn, að þau ætluðu að gera sér ilt, varð hræddur og stökk upp í mitt mjólkurtrogið, svo að mjólkin skvettist út um alla stofuna. Konan æpti og baðaði höndunum, og þá flaug hann ofan í opinn strokkinn, upp úr honum og niður í mjöltunnuna og upp úr henni aftur, og þá var hann heldur en ekki ófrýnilegur á að líta. Konan hljóðaði upp yfir sig og elti hann með reiddan eldskörunginn og krakkarnir tróðust undir af ósköpunum að ná í ungann, hlógu og hrinu! — hepni var, að dyrnar voru opnar; hann þaut út, hitti skógarrunna þar nærri og faldi sig þar í fönninni. Þar lá hann eins og í dvala. En það yrði of sorgleg saga, ef telja ætti alla þá eymd og armæðu, sem hann hlaut að þola hinn harða vetur til enda, — hann lá í mýrarsefinu, blessuð sólin skein björt og hlý, lævirkinn söng, það var komið yndislegt vor. Þá þandi hann alt í einu vængina, þeir dundu við af nýjum þroska og sveifluðu honum upp og yfir jörðina; og fyr en hann varði, var hann kominn í víðan aldinlund, þar sem eplatrén stóðu í blóma, og angandi sírenurnar héngu á hinum löngu, grænu greinum niður að vatninu í hinum bugðóttu rennum. Ó, hve þar var vorfrítt og fagurt!

Og beint andspænis út úr þykninu komu þrír undur-fríðir, mjallhvítir svanir; þeir þöndu þjótandi vængi og flutu lauflétt á vatninu. Unginn kannaðist við hina skrautfögru fugla og undarleg angurværð gagntók hann allan.

„Eg vil fljúga til fundar við þá, hina prúðu fuglakonunga, og þeir munu höggva mig til bana, þegar eg, afskræmið, er svo djarfur að ganga í þeirra hóp! En einu má gilda; betra er að verða deyddur af þeim, en tættur af öndunum, höggvinn af hænunum, fóttroðinn af hænsnastúlkunni og hrakinn úti allan veturinn.“ Og að svo mæltu flaug hann út á vatnið og svam út til svananna fögru. Þeir sáu hann og þutu á móti honum með dynjandi fjöðrum. „Jæja, drepið þið mig,“ sagði auminginn og grúfði sig niður að vatninu og bjóst við dauða sínum.

mæðu, sem á daga hans hafði drifið; nú fann hann það til fulls, hvað það var að eiga gott, og alt það inndæli, sem við honum brosti. Og hinir stórvöxnu svanir svifu í kring um hann og struku hann með nefjunum.

Út í lundinn komu börn að leika sér. Þau köstuðu brauðmolum á vatnið og yngsta barnið kallaði upp: „Þarna er einn nýkominn!“ Og hin börnin tóku undir: „Já, einn er nýkominn!“ Og svo klöppuðu þau saman lófunum, dönsuðu hringinn í kring, hlupu heim til foreldra sinna, og brauði og sætindum var fleygt út á vatnið og allir sögðu: „Sá nýkomni er fallegastur! Svo ungur og svo fagur!“ Og gömlu svanirnir hneigðu honum; þá varð hann einhvern veginn feiminn og stakk höfðinu aftur undir vænginn og vissi ekki, hvað hann átti af sér að gera; hann fann sig of sælan,



En hvað sá hann niðri í hinu tæra vatni? Hann sá undir sér sína eigin mynd; en þar var ekki framar luralegur úlfgrár fugl, leiður og ljótur: hann var sjálfur svanur!

Það er ekkert, þótt einhver sé fæddur í andagarði, hafi hann áður legið í svanseggi.

Hann hrósaði nú happi yfir allri þeirri

en ekki ofmetnaðist hann, því gott hjarta ofmetnast ekki; hann mintist þess, hversu hann hafði verið hrakinn og hæddur, og heyrði nú alla segja, að hann væri fríðastur allra hinna fríðustu. Og sírenurnar beygðu sig rétt niður að vatninu og blessuð sólin skein svo björt og hlý. Þá dundu

vængir hans, hinn mjúki háls teygðist upp hár og beinn, og fagnandi hrópaði hann: „Sízt dreymdi mig um þvílíka sælu, þegar eg var andarunginn ljóti!“

[Þýðingin tekin úr „Þjóðólfi“ 1877.]

# Tom.

[Ensk saga.]

[Niðurlag.]

Þegar drengurinn vaknaði morguninn eftir lá hann steinþegjandi og litaðist um, en þorði varla að tala né hreyfa sig. Eg ímynda mér, að hann hafi aldrei heyrt talað um ljósálfa; en ef hann hefði heyrt það, þá mundi hann víst hafa hugsað, að hann væri kominn til þeirra. En vænst þótti honum þó um, að konan, sem hann hafði kynzt kvöldinu áður, stóð brosandi við rúmið. Hann brosti aftur á móti og rétti hendurnar út móti henni.

Eg vildi óska, að þú hefðir séð hann nokkru síðar, þegar hann var kominn í nýja treyju og nýjar buxur. Nú hugsaði hann með fyrirlitningu um treyjuna og buxurnar, sem hann hafði séð í gær hjá Ísak gamla ruslasala, og sem hann hafði þá langað svo mikið til að eignast.

Hann settist niður við lítið borð, og skein sólin inn á það um gluggann. Þegar hann var seztur niður, leit hann allra snöggvast yfir það, sem á borðinu var: afarstórt sjóðheitt steikarstykki, heilt fjall af nýsoðnum kartöflum, bunka af drifhvítu franzbrauði, blóðrautt smjör og fulla krukku af nýmjólk.

Eg vildi, að þú hefðir séð þetta sama borð stundu síðar. Þá var varla neitt annað eftir en sjálft borðið.

Í þetta skifti sá eg Tom í fyrsta sinn, en síðan hefi eg oft séð hann. Og nú ætla eg að segja þér af því, er eg sá hann síðast, þótt eg sé reyndar hræddur um að þú trúir því varla. En það er stutt síðan það skeði.

Eg ók í vagni eftir einhverjum inndælasta veginum, sem eg þekki, og þegar eg kom að hliði einu, beygði hesturinn minn út af veginum og inn um hliðið, án þess að eg þyrfti að minna hann á það.

Þegar eg nálgaðist húsið, kom eg auga á karlmann og kvennmann, sem stóðu í garðinum. Konan var þokkaleg að sjá, gömul og gráhærð, en karlmaðurinn ungur. Hún var með ákaflega stór garðskæri, en hann hélt á hattinum sínum í hendinni, og var hann kúfaður af blómum.

Sólargeislarnir, sem smeygðu sér niður á milli trjágreinanna, féllu á hrokkna hárið á höfði hans og skeggið, sem var ljósgult á lit. Eg stöðvaði hest minn, sat stundarkorn hreyfingarlaus og horfði á þau. Það var engu líkara en æfintýri.

En það var ekkert æfintýri; því að hái, laglegi maðurinn, sem horfði með blíðu og nákvæmni á gömlu, gráhærðu konuna — það var enginn annar en Tom — fátæki, magri, kaldi og svangi drengurinn hann Tom.

# Meðmælingabréfið.

(Ensk saga.)

Þegar Jón var fimtán ára gamall, lagði hann af stað einn góðan veðurdag til að sækja um stöðu hjá málaflutningsmanni einum, er auglýst hafði í blöðunum að hann vantaði dreng. En Jón hafði engin með-

mæli. Málaflutningsmaðurinn horfði fast á hann, eins og hann ætlaði að gegnskoða hann, og sagði við sjálfan sig: „Laglegt andlit á snáða, kurteist látbragð, hreinar hendur og burstaðar neglur. Það er nú alt gott og blessað.“ Svo lagði hann nokkrar spurningar fyrir drenginn, og svaraði hann þeim með fáum og skýrum orðum. „Fljótur og ákveðinn,“ hugsaði málaflutningsmaðurinn með sér; „hann getur vel komið fyrir sig orði, þegar á þarf að halda.“ „Lofaðu mér nú að sjá skriftina þína,“ mælti hann ennfremur. Jón tók penna og blek og skrifaði nafnið sitt. „Mjög gott, vel læsilegt og ekkert óþarfa útflúr. Hvað hefirðu svo af meðmælum?“ „Æ, æ,“ hugsaði Jón, „þarna kom það versta,“ og brá skugga yfir andlit hans. Hann var farinn að vona að hann fengi stöðuna, en nú fölnuðu allar vonirnar eins og blóm á haustdegi. „Eg hefi engin meðmæli,“ svaraði Jón niðurlútur; „eg er rétt nýkominn hingað til bæjarins.“ „Já, ekki get eg tekið dreng, sem engin meðmæli hefir.“ Alt í einu datt Jóni ráð í hug. „Eg hefi engin meðmæli,“ mælti hann, „en hérna er bréf, sem eg fékk nýlega frá henni mömmu.“ Það var stutt, vel skrifað bréf, og hljóðaði þannnig:

> „Kæri Jón! Eg vil minna þig á það, að fáir þú eitthvað að starfa, þá verður þú að leysa það af hendi eins og það væri unnið fyrir sjálfan þig. Þú mátt ekki ganga að iðju þinni með sömu hugsun og margir aðrir drengir, að gera svo lítið sem mögulegt er, heldur ástunda að starfa eins mikið og þú getur, og gera þig svo ómissandi, að húsbændur þínir vilji aldrei sleppa þér. Þú hefir verið góður sonur. Vertu nú líka góður þjónn og mun þá guð blessa starfsemi þína.“

„Hm,“ mælti málaflutningsmaðurinn, er hann hafði tvílesið bréfið með athygli. „Það er ljómandi fallegt ráð, Jón, fyrirtaksráð. Eg held að eg verði að reyna þig, þó þú hafir ekki önnur meðmæli.“

— Jón hefir nú verið hjá málaflutningsmanninum í 9 ár, og seinustu árin hefir hann verið hans önnur hönd.

„Þú ert kannske að hugsa um að taka þennan unga mann fyrir starfsfélaga þinn?“ sagði einn af vinum málaflutningsmannsins við hann um daginn.

„Já, víst er eg að því,“ svaraði hann; „eg gæti nú orðið alls ekki án hans verið.“

Jón segir alt af, að beztu meðmælin, sem hann hafi fengið, hafi verið ráðleggingar móður sinnar og hrós hennar.

## Löngu síðar.

Í ófriðnum milli Frakka og Þjóðverja lágu um hríð margir særðir hermenn af beggja liði á bóndabæ einum á Frakklandi. Meðal þeirra var franskur unglingspiltur, og átti móðir hans heima hálfa aðra mílu vegar þaðan er hann lá; en þrátt fyrir það kom hún ríðandi á hverjum degi til að finna son sinn og veita honum þá aðhjúkrun, er hún gat. Her Þjóðverja hafði farið þar um og brent hús hennar til kaldra kola. Einn dag kom hún með ofurlítið af kjötsúpu. Henni var sárt um hvern dropann, því að hún hafði átt mjög erfitt með að fá kjötið, til að búa til úr súpuna.

Meðan hún sat og horfði á son sinn, er sötraði volga súpuna, sá hún að maður, sem lá í næsta herbergi, horfði löngunaraugum þangað, er súpan var. Hann var Þjóðverji, ef til vildi einn úr herfylkinu, sem hafði brent bæinn hennar. Hjarta hennar var gremju þrungið gagnvart Þjóðverjum; en eigi að síður var hún vel kristin kona, og þegar hún sá þetta föla, magra andlit, komu henni í hug orð frelsarans: „Ef óvin þinn þyrstir, þá gef honum að drekka.“

Eftir litla stund hafði hún unnið sigur á hatrinu, og helti nú fullan bolla af súpu, gekk inn til Þjóðverjans þegjandi og með lokuðum vörum og hélt bollanum að munni hans; en með sjálfri sér hugsaði hún: „Hans vegna, hans vegna geri eg það.“ Svo tók hún kalt vatn og þvoði andlit og hendur hermannsins með svo mikilli nákvæmni, eins og hefði hann verið sonur hennar. Þegar hún kom daginn eftir, var hann farinn; Frakkar höfðu selt hann Þjóðverjum í hendur gegn því að fá í hans stað franskan mann, er Þjóðverjar höfðu náð á sitt vald.

Árin liðu og frakkneski hermaðurinn dó. En móðir hans átti annan son, og varði nú öllu lífi sínu til að vanda uppeldi hans sem bezt. Hann var einkavon hennar og gleði, og vann hún nótt og nýtan dag að því að safna saman svo miklu fé, að hún gæti sent hann til háskólans. En hversu mjög sem hún lagði á sig, tókst henni ekki að eignast svo mikla peninga, sem til þess þurfti.

Þá fékk hún einn dag bréf frá ókunnum vin, sam hafði haft spurn af henni, og bauðst hann til að leggja fram það fé, sem nauðsynlegt var til þess að koma syni hennar til menta. Þetta efndi hann líka, og furðaði konan sig mjög á því, að ókunnur maður hefði þannig tekið son hennar að sér.

En skömmu síðar kom ráðningin á gátunni. Hún fékk enn á ný bréf, og var það frá þjóðverskum manni, sem átti heima í París, og var þar í hárri stöðu. Minti hann hana á atburðinn á bóndabænum forðum og bætti við: „Eg var særði maðurinn, sem þér gáfuð súpuna úr bollanum; þess vegna hefi eg reynt að gleðja yður á móti.“

## „Bindindisreikningur.“

Hér eru nokkur reikningsdæmi, sem bæði gefa tækifæri til æfingar í reikningi og auk þess veita dálitla bindindisfræðslu:

*1. dæmi*: Í Bandaríkjunum í Norður-Ameríku eru 215000 veitingahús en 164000 skólar. Hve miklu fleiri eru veitingahúsin?

*2. dæmi*: Þar eru líka 600000 drykkjurútar. Hvað mætti manna með þeim margar borgir á stærð við Reykjavík (með 8000 íbúa)?

*3. dæmi*: Ef keypt er á heimili einu öl fyrir 40 aura á dag, — a.) hve mikið verður það samtals í 13 vikur? — b.) hve margar bækur mætti kaupa fyrir það fé, ef hver bók kostaði 2 krónur?

*4. dæmi*: Hve miklu eyðir sá maður í brennivín á 50 árum, sem drekkur eitt staup á dag, sé staupið reiknað á 5 aura?

**Úrsagnir** úr „Æskunni“ tilkynnist *skriflega* til afgreiðslum., og eigi síðar en *fyrir lok júlímánaðar*.

**Afgreiðslumaður:** Sigurður Jónsson, kennari, Rvík.

Aldar-prentsmiðja. — Reykjavík.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 28. Ágúst 1903. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 22.—23.


## Óbrigðul ást.

[Eftir Edv. Egeberg
með mynd eftir Poul Steffensen.]

SÓLIN var nýkomin upp og var að sjá sem stór, gulleit kúla yfir skógi vöxnum hæðunum í austri. Geislarnir féllu á ská niður á grasslétturnar og engin, sem glitruðu af óteljandi daggardropum, og akrana, þar sem kornöxin héngu á stráunum, þung og fullþroskuð. Lævirkinn tók til að syngja, rétt eins og þetta væri fyrsti morguninn eftir sköpun heimsins.



Alt var svo nýtt og endurhrest, líkast því sem heilt ár væri liðið, en ekki sex klukkustundir, síðan sólin gekk til viðar og alt tók á sig náðir eftir erfiði dagsins.

Kýrnar rísa á fætur og byrja dagsverk sitt, að bíta grasið í kringum staurana, sem þær eru tjóðraðar við.

Elsa, húsmannskonan, kemur út með mjólkurvagninn og fötuna sína og fer að mjólka.

Elsa er milli fertugs og fimtugs, fjörleg og dugnaðarleg að sjá. Hún hefir farið í gamla mjaltapeysu og brett pilsið upp að neðan, og svo mjólkar hún kýrnar, hverja á eftir annari, og syngur sálma, sem hún kann, síðan hún gekk í skóla, meðan hún er að því.

Þegar hún er hálfnuð með að mjólka, kemur „Húsbóndinn" (ɔ:heimabóndinn) út á akurinn reykjandi.

Það bregður ánægjusvip á andlit honum, þegar hann sér allar fallegu kýrnar sínar, kornið fullþroskað og kafgresið, sem kýrnar eru að bíta með beztu lyst.

Hann er viðfeldinn og dugandi maður, og gott að vinna fyrir hann.

Hann nemur staðar hjá mjaltakonunni og hlustar á söng hennar. Hann skilur ekki, hvernig *hún* getur verið svo glöð, hún, sem verður að erfiða baki brotnu dag eftir dag til að hafa ofan af fyrir fjölda barna og drykkfeldum manni.

En einmitt þess vegna ber hann virðingu fyrir henni, og hann er vel ánægður með verk hennar, því alt af er hægt að sjá, að verkinu miðar áfram, þar sem hún er með, og öll sín störf vinnur hún með gleði.

„Góðan daginn, Elsa!“

„Góðan daginn, húsbóndi góður!“

Hún kinkar kolli til hans ánægjulega.

„Þú syngur á morgnana. Það er annars sagt, að sá, sem syngi á morgnana, gráti áður en kvöldið kemur“.

„Já, húsbóndi góður,. það er víst líka satt. Eg hefi nú alt af byrjað daginn með söng; en hann hefir líka oft endað með gráti. En,“ bætir hún við eftir dálitla þögn, „léttlyndið mitt og söngurinn hafa oft og einatt verið mér betra en ekki. Eg veit ekki, hvernig eg hefði átt að geta afborið það, sem á dagana hefir drifið, ef eg hefði ekki notið þess.“

„Já, þú hefir alt af verið léttlynd, Elsa. — Hefir Sören vinnu núna?“

„Nei. En eg er nú samt svo glöð, því að nú er hann orðinn bindindismaður. Eg hefi ekki verið eins glöð í mörg ár.“

„Sjáum við til! Það var sannarlega gott bæði fyrir hann og ykkur. Segðu honum nú, Elsa, að hann geti fengið vinnu í dag. Við byrjum að slá rúginn eftir hádegið.“

Húsbóndinn heldur áfram og Elsa fer aftur að syngja. Og lævirkinn syngur með, sólin syngur — alt syngur nýjar vonir inn í hjarta Elsu, vonir um betri kjör á heimili hennar. Enn þá getur, ef til vill, alt endað með gleði og ánægju, eins og það byrjaði fyrir nærri því tuttugu og fimm árum.

Hún setur fötuna niður á jörðina eitt augnablik, hneigir höfuðið og spennir greipar.

— — — — — — — — — — — Hún var vinnukona hjá föður húsbóndans, þegar þau kyntust fyrst, hún og Sören. Hann var þá hermaður, herðabreiður, í himinbláum hermannsbúningi og hallaði húfunni. Hún sómdi sér svo vel við hrokna hárið hans, augun dökkbrúnu og góðlátlegu voru svo falleg og yfirskeggið ljósgula alveg töfrandi.

Hann þurfti ekki lengi að vera vonbiðill Elsu, sem var há vexti og fríð ásýndum.

Á kvöldin voru þau saman á danssamkomum inni í bænum, og þá vaknaði hjá Elsu sú ást, sem aldrei hafði brugðist síðan, öll þessi tuttugu og fimm ár, þrátt fyrir alt, sem á hana hafði reynt.

Þegar hann var laus úr herþjónustu, varð hann vinnumaður á næsta bæ, og eftir að þau höfðu verið trúlofuð í tvö ár, giftust þau.

Hún hafði þegar séð léttúð hans og ístöðuleysi,áður en þau giftust, og hafði það ollað henni sárrar sorgar. Þegar hann var með öðrum, hafði hann stundum drukkið meira en hann þoldi og efnin leyfðu, og þótt hann væri ódrukkinn, fór hann ekki æfinlega svo vel með fé sitt sem skyldi.

En hann var duglegur vinnumaður, góðlyndur og kom sér vel. Elsa kveið því alls ekki, að þeim mundi ekki líða vel og að hann mundi ekki hætta að drekka, þegar þau væru farin að búa og hún gæti haft stöðugt eftirlit með honum.

Það gekk líka vel fyrstu árin. Hann hafði nóg að gera og vann mikið inn, og hún hafði gát bæði á honum og peningunum, sem hann aflaði.

Börnin fjölguðu, en alt fór vel enn þá.

Hann var heima, þegar hann hafði ekki vinnu, og lét hana ráða.

En svo losnaði póststaða þar í nágrenninu.

Launin, sem borguð voru fyrir starfið, voru að vísu ekki há, en það voru þó vísir peningar, og starfið var ekki eins erfitt og það, sem hann hafði haft hingað til.

Sören var mjög áfram um að sækja um þessa stöðu, en Elsa hafði fremur á móti því.

Það var veitingakrá í sama bæ og pósthúsið, og svo var það algengt, að póstarnir fengu í staupinu, þar sem þeir komu.

En á hinn bóginn hugsaði hún, að Sören væri nú orðinn eldri og hygnari og fastari fyrir, og nú hvíldi líka þyngri ábyrgð á honum en áður.

Hún veitti svo samþykki sitt til að Sören sækti um stöðuna.

Ríkur bóndi, velgjörðamaður og gamall húsbóndi Sörens, tók að sér að mæla með honum við póstmeistarann og vera ábyrgðarmaður hans fyrir þeirri upphæð, sem hann varð að setja að veði, til þess að hann gæti fengið stöðuna.

Sören fékk stöðuna og hóf póstgöngur sínar.

— Það er mikilsvert verk, sem þeir vinna, þessir mörg hundruð menn með borðalögðu húfurnar. Þeir bera menninguna út um landið í leðurtöskum sínum, þeir flytja fögnuð og gleði inn á heimilin, sem bíða þeirra með eftirvæntingu á hverjum degi. Þeir kynnast mörgum á ferðum sínum og eignast víða vini. Það er þeim að þakka, að vinátta og ættrækni getur haldist óslitin, þótt vík verði milli vina og fjörður milli frænda, eins og ekki hvað sízt á sér stað um alla þá ættingja og vini, sem flutt hafa burt frá oss vestur yfir Atlantshafið.

Í brennandi sumarhita, í haustrigningum og stormum, í vetrarkulda og snjó ganga þeir daglega sinn vanagang og leggja dagblöðin inn á borðið hjá bóndanum, dagblöðin, sem nú á tímum eru talin með daglegum nauðsynjum mörgu öðru fremur. Þeir flytja fréttir af yztu útkjálkum landsins, frá höfuðborginni og öllu því margbreytta, sem þar ber við, frá umheiminum, löndunum, sem liggja langt, langt burtu, bak við himingnæfandi fjöll eða ólgandi höf, — flytja fréttir um stríð og glæpi, góðverk og ódáðaverk.

Og þeir eru sjálfir dagblöð, lifandi dagblöð, sem flytja boðskap frá manni til manns, og fregnir af því, sem við ber í sveitinni eða héraðinu. Þeir koma á ákveðnum tíma, svo að hægt er að setja úrið sitt eftir því. Í stuttu máli: Það eru engir menn til, sem kynnast fólki eins vel og landpóstarnir. Þeim eru gefnar regnkápur, vatnsstígvél, hjólhestar; þeir fá miðdegisverð, kaffi, kvöldmat, jólagjafir og nýársgjafir — en — þeir fá líka mörg staup af brennivíni. Og margir eru þeir borðalögðu töskuberar, sem ekki gátu staðist þau vinahót og þá þakklátsemi, er látin var í ljósi með staupagjöfunum.

Sören varð einn af þessum mörgu.

Knæpan laðaði hann að sér á hverjum degi, og brennivínsstaupunum, sem honum voru boðin á ferðalaginu, gat hann ekki neitað.

Innan skamms fór svo, að hann varð drukkinn á hverjum degi, að vísu ekki mikið fyrsta kastið, en þó svo, að Elsa grét yfir því í kyrþey.

Svo tók hann að sitja á knæpunni langt fram á nætur yfir drykkju og spilum.

Þegar Elsa hafði komið börnunum í rúmið fór hún út á móti honum.

Vegurinn til pósthússins var mishæðóttur mjög, upp og niður, en þó mest upp í móti, eins og æfivegur Elsu.

Frá þessum hæðum litaðist hún svo um, kvöld eftir kvöld. Í hvert sinn, er hún komst upp á hæð, vonaðist hún eftir að sjá hann; en oftast varð hún að fara yfir margar hæðir og lautir, áður en hún mætti honum.

Knæpan var að verða sterkari en Elsa. En hversu mikið sem hún grét á þessum kvöldstundum, rénaði þó aldrei ást hennar og trygð, og vissulega mun hún einhverntíma uppskera ávöxt tára sinna með gleði. Umhyggja hennar og sjálfsafneitun var skrifuð á þennan óslétta veg í þeim mörg þúsund þungu sporum, er hún átti þar; en sporin hennar eru líka alveg vafalaust talin á öðrum stað, þar sem regn og stormur megnar ekki að nema þau burt.

Vegurinn hans Sörens var líka upp og niður, mest þó niður á við, eins og æfiferillinn hans; en svo var hann líka krókóttur, helzt þegar hann kom heim á kvöldin.

Í fyrstu fanst honum að vísu sem hann fyndi sting einhverstaðar inni við hjartaræturnar, þegar Elsa kom upp á hæðina fram undan honum, og hann hét því þá með sjálfum sér, að þetta skyldi nú verða í síðasta sinnið, sem hún færi að leita að sér. En „síðasta sinnið“ varð þó aldrei síðasta sinnið, og svo hætti hann loks að finna stinginn.

Oft varð hún að fara alla leið, alveg að knæpudyrunum, já, jafnvel inn í veitingastofuna, og verða þar fyrir hæðnishlátrum heimskra og drukkinna manna og misþóknun Sörens.

Að eins í eitt skifti svaraði hún þeim athugasemdum, sem gerðar voru þegar hún kom inn á knæpuna.

Þegar hún kom inn, sagði einn af drykkjuslörkurunum, „að þarna kæmi barnfóstran hans.“

Menn, sem hafa gert sig dýrunum verri, og vanhelga með sínu svívirðilega brennivínshjali það sem bezt er og göfugast á jörðunni og stíga með saurugum fótum á harmandi mannshjarta til að merja það enn meira í sundur — slíkir menn ættu að réttu lagi að eins skilið eitt svar: vel úti látið högg með sterkum staf. Elsa hafði nú engan staf við höndina, og þótt hún hefði haft hann, hefði hún sjálfsagt ekki kunnað að fara með hann. En hún fann sárt til þess, hve voðalegur óréttur var gerður bæði veslings manninum hennar og henni sjálfri, og mælti stillilega:

„Þið þyrftuð að hafa barnfóstru allir, sem hér eruð inni.“

Svo tók hún í höndina á Sören og leiddi hann með sér heim.

Einu sinni, eina vetrarnótt, fann hún hann liggjandi í snjófönn, og þar hefði hann orðið til, ef hún hefði ekki hjálpað honum.

Þegar drykkjuskapur Sörens tók að ágerast, var farið að kvarta yfir honum; hann varð latur og vanrækti starf sitt. En þó hélt hann stöðunni. Yfirmaður hans hélt yfir honum hlífiskildi, því í raun og veru var hann ráðvandur og auðsveipur og tók með mestu hógværð á móti öllum aðfinningum og skömmum, og svo átti hann þungt heimili fyrir að sjá.

Stundum átti hann erfitt með að vakna á morgnana; hann varð að fara snemma á fætur til að komast á pósthúsið á ákveðnum tíma. En einn morgun var ómögulegt að koma honum úr rúminu.

Hann sagðist vera veikur. En látbragð hans var svo kynlegt, að hún trúði honum ekki fyllilega. Hún hljóp út og fékk mann til að fara í staðinn hans.

Þegar hún kom inn aftur, sneri Sören sér til veggjar og var að gráta.

Þegar fram á daginn kom, komst það upp, hvernig á þessu stóð.

Það var barið að dyrum, og póstmeistarinn kom inn. Elsa fékk ákafan hjartslátt, þegar hún sá hann.

Hann tók ofan borðalögðu húfuna og lagði hana á borðið; svo tók hann af sér vetlingana og hnepti upp kápunni. Fór hann að öllu ósköp hægt og hikandi, og var sem hann kæmi sér varla að að skýra frá erindi sínu.

Hann hafði ekki gert nema að eins að heilsa. En það eitt og svo þetta hik og alvörusvipurinn á andliti hans var nóg til þess, að Elsa fékk grun um, að erindið væri alt annað en gleðilegt.

Hún bauð honum með hálfum huga að setjast niður.

Póstmeistarinn settist og spurði, hvort Sören væri heima.

Þegar hann nefndi nafn Sörens, fanst Elsu eins og jörðin léki á reiðiskjálfi undir fótum sér. Hún varð að grípa með báðum höndum um stólbak til að detta ekki.

„Ó, guð minn góður! — Herra póstmeistari! — Er nokkuð að með Sören?“

Póstmeistarinn var valmenni, og vissi hann vel, hve mikið Elsa hafði orðið að líða, og bar innilega meðaumkun með henni. Fann hann mjög sárt til þess, hve bágt hún átti, þar sem hún stóð grátandi fyrir framan hann.

„Já — því miður — “ mælti hann hægt og hægt og strauk um hnén. „Það er ilt. Já — það hefir í rauninni verið það lengi — það hefir oft verið kvartað undan því. En nú *get* eg ekki annað en skift mér af því. Það er peningabréf, sem —“

Svefnherbergisdyrnar opnuðust. Þar stóð Sören, fölur og niðurlútur. Það þurfti ekki nema að sjá hann til að vita, að hann var sannur að sök.

Þá mælti Elsa: „Sören, Sören! Hvernig gaztu fengið það af þér?“

Það var í fyrsta skiftið, sem hún álasaði honum.

— Ábyrgðarmenn Sörens urðu að bæta skaðann, og hann var settur frá stöðunni.

Eftir þetta gekk hann atvinnulaus um tíma, skömmustulegur og mannafælinn.

Elsa gætti hans, eins og barns er gætt á bæ, þar sem djúp mógröf er rétt við garðinn.

Hann var orðinn breyttur. Hann talaði hvorki við hana né börnin. Hún vissi ekki, hvernig þetta mundi enda, hvort hann kynni kannske að grípa til einhvers óyndisúrræðis eða byrja nýtt og betra líf.

En það varð hvorugt. Léttlyndi og kæruleysi Sörens fékk yfirhöndina aftur. Hann var enginn maður til að eiga í stríði, hvorki við sjálfan sig né aðra. Eftir nokkrar vikur fór hann að fá sér daglaunavinnu og jafnframt að byrja að drekka aftur, þegar hann hafði peninga handa á milli.

Þannig gekk það, upp og niður, árin þar á eftir. Með köflum drakk hann ákaft og

slæptist; en svo drakk hann minna annað veifið, og vann þá dálítið.

Elsa sá um heimilið og hafði ofanaf fyrir því.

— — — — — — Það var síðari hluti dags. Heill hópur af uppskerufólki er við slátt úti á akrinum, og heyrist þaðan söngur og hlátur.

Sören og Elsa eru með. Hann getur enn tekið breiðan og fallegan skára og slær á við hvern hinna. Elsa horfir á hann með ánægju, þegar hann nemur staðar við endann á skáranum og brýnir ljáinn. Enginn hinna, ekki einu sinni ráðsmaðurinn, slær eins liðlega og hann og leggur kornstangirnar eins laglega í skárann. Það er enginn vandi að taka upp kornið eftir hann.

Það er enn nokkuð af hermanninum eftir í honum.

Ó, að eins að það haldist, að hann haldi bindindisheitið! Þá getur alt orðið gott enn þá; þá gæti æfikvöldið orðið fagurt, þó dagurinn hafi stundum verið erfiður.

Svo kom matmálstíminn. Fólkið settist niður undir rúghlaða og réðst á smurða brauðið með engu minna kappi en rúginn áður.

Húsbóndinn settist niður hjá því og helti í glös fyrir það.

„Rúgurinn er góður í ár. Þess vegna skal hver fá þrjú staup.“

Það glaðnaði yfir verkafólkinu, nema Elsu. Hún, sem alt af var von að vera svo glöð, var nú svo alvarleg.

„Syng þú fyrir okkur vísu, Elsa!“ hrópar einn.

En Elsa hefir enga löngun til að syngja. Hún lítur við og við á Sören og sér að hann horfir alt af á flöskuna og staupið. Hann neitar að vísu, þegar honum er boðið brennivínið, en á augum hans er auðsætt, að hann langar í það.

Henni liggur við að gráta.

Léttúðugur unglingur einn í hópnum hrópar: „Gefið þér Elsu eitt staup; þá fæst hún til að syngja. Þú ert þó víst ekki komin í bindindi líka, Elsa?“

Elsa verður niðurlút og fer að gráta.

„Láttu Elsu í friði, drengur minn!“ segir húsbóndinn. Svo lætur hann tappann í flöskuna og stingur henni niður í körfuna.

En Elsa heldur áfram að gráta. Henni er svo þungt fyrir hjarta.

Sören er staðinn upp og genginn að orfinu sínu. Honum finst, að þetta snerti sig.

Pilturinn, sem farið er að þykja gott í staupinn og er, ef til vill, að komast út á sömu brautina og Sören, situr sneyptur og tyggur strá.

Stúlkurnar horfa með meðaumkun á veslings Elsu. Húsbóndinn kemur til hennar og klappar á öxlina á henni.

„Svona nú, Elsa! Gráttu nú ekki.“

Hún lítur upp og þurkar sér um augun.

„Ó, húsbóndi góður! Eg er svo hrædd um, að hann haldi það ekki.“

Húsbóndanum finst liggja ásökun til sín í þessum orðum.

Á heimleiðinni er hann að hugsa um að hætta að gefa fólkinu í staupinu með matnum, og sjálfur hættir hann að fá sér púns á kvöldin.

## Hvað börnin geta.

Þið hafið sjálfsagt, annaðhvort heima eða í skólanum, heyrt um voldugan og ríkan

konungsson, sem gerði mikið fyrir aðra. Faðir hans hafði alt af verið til og var voldugri en nokkur konungur í Norðurálfunni. Dýrðin og skrautið í ríki hans var óumræðilegt og sonur hans var einka-erfingi að því öllu saman. Um langan tíma var sonurinn við hlið föður sínum í hinum dýrðlegu bústöðum, er ljómuðu bjartara en sólin, og hvítir, skínandi englar með ljómandi vængjum sungu þeim lof. Þúsund sinnum dýrðlegra var þar en í nokkurri kirkju.

Þá barst það syninum til eyrna, að langt í burtu væru verur, sem í fyrstu höfðu líkst föður hans. En vondur höfðingi hafði tælt þær til að trúa lygi og gera það, sem ilt var. Nú þjáðust þær af sorgum, sjúkdómum, kvíða og erfiði; en verstur var þó óttinn fyrir þessum illa höfðingja, því til hans áttu þær að fara, þegar lífi þeirra væri lokið. Ríkið hans var dimmara en nóttin og þjónar hans verri öllum verum öðrum. Þar heyrðist enginn söngur, ekkert nema angistaróp.

Þegar konungssonurinn heyrði þetta, kendi hann innilega í brjósti um þessar verur, og bað föður sinn leyfis að hrífa þær undan valdi myrkrahöfðingjans. Faðirinn, sem elskaði þær líka, sendi þá einkason sinn til þeirra. Kongssonurinn bjó svo meðal þessara óhamingjusömu, langt burtu frá dýrðinni og gleðinni í ríki föður síns. Hann læknaði sjúka, saddi svanga og lífgaði dauða. Hann rak út illa anda, og flutti öllum friðarboðskap; en launin, sem hann fékk fyrir allan kærleika sinn, voru ekki annað en háð og spéhlátrar, og síðast negldu þær hann á tré, þessar bágstöddu verur, sem hann var að hjálpa, svo að hann dó. Finst ykkur nú ekki, börn, að þessi konungssonur hafi gert mikið, óskiljanlega mikið fyrir aðra? Hann gaf sjálfan sig. Og þið vitið víst, hver þessi ríki og voldugi konungssonur er.

Himininn er ríkið hans, og nafn hans er Jesús. En það er vilji hans, að allir þjóni honum og líkist honum; en það getum við ekki, ef við gerum ekki neitt fyrir aðra. Það eru til menn, sem þurfa þess öðrum fremur, að við gerum eitthvað fyrir þá. Þið hafið án efa séð þá. Það er hægt að þekkja þá á því, að þeir slingra, þegar þeir eru á gangi, og eru háværir. Það er auðsætt á augum þeirra, sem eru rauð og þrútin, og á roðanum í kinnum þeirra, að áfengið hefir fengið vald yfir þeim. Þessir vesælu menn eyðileggja heilsu sína og leiða ógæfuna inn á heimilin. Vitið þið, hve margir litlir drengir og litlar stúlkur sofna grátandi á kvöldin, af því að faðir þeirra spillir heimilisfriðnum með drykkjuskap?

En hvað geta nú börnin gert fyrir þá? Ekki getið þið lokað veitingahúsunum og vínsölubúðunum. Ekki getið þið heldur bannað þeim að kaupa áfengi. Og þó getið þið gert mikið.

Takið þið nú eftir:

Maður nokkur kom heim drukkinn seint um kvöld, var vondur við börnin og barði konuna sína. Þá gekk Einar sonur hans, sex ára gamall piltur, til hans, horfði á hann alvarlegur og mælti: „Eg ætla að biðja Jesúm fyrir þér, pabbi.“ Þessi orð höfðu þau áhrif, að faðirinn var bindindismaður upp frá þessu.

Nú veit eg að þið sjáið, hvað þið getið gert. Ef eitthvert ykkar er svo ólánssamt að eiga drykkfeldan föður, þá segðu Jesú

frá því, og bið þú hann á hverjum degi að hjálpa pabba þínum. Þið þekkið ef til vill einhverja drykkjumenn. Biðjið einnig Jesúm að hjálpa þeim.

Og þið getið gert meira. Þið getið gengið í barnastúkur, þar sem þær eru, og hjálpað þeim, sem eru að berjast fyrir því að útrýma áfenginu. Þið getið lesið og reynt að fá aðra til að lesa blöð, sem berjast fyrir þessu, eins og til dæmis „Æskuna.“ Þið getið lesið fyrir foreldra ykkar það sem þar er skrifað um áfengið. Og um fram alt getið þið reynt að vera góð börn, svo að pabba ykkar þyki vænt um ykkur og geri það fyrir ykkur að hætta að drekka, þegar þið biðjið hann um það.

Ef öll börn vildu gera þetta, þá er eg viss um, að margur faðirinn mundi frelsast frá ofurvaldi ofdrykkjunnar, mörg heimili verða hamingjusamari og mörg tár þorna.

## Tóbakseitrið.

Fyrir nokkrum árum var gerð mjög merkileg tilraun í háskóla einum á Englandi til að sýna, hve hættulegt væri að reykja tóbak. Hafði kennarinn valið kött til að gera tilraunina með, því að kettir eru svo lífseigir, að það er mælt, að þeir hafi sjö líf. Tóbakseitrið (nikotin) var tekið úr vindlingi (sígarettu), og einn dropi af því látinn drjúpa á tunguna á kettinum. Fór hann þá þegar að bera sig mjög aumlega og hlaupa um alla stofuna; var auðsætt, að þjáningar hans voru ákaflega miklar. Réttum 4 mínútum eftir að eitrið var látið drjúpa á tungu hans drapst hann. Þetta hafði þau áhrif á marga af nemendum skólans, að þ[eir] hættu að reykja.

Enskur læknir einn hefir rannsakað h[eil]brigðisástand drengja, sem höfðu va[nið] sig á að reykja, og gefið skýrslu um þa[ð]. Hafði hann rannsakað 38 drengi á aldrin[um] 9—14 ára, og komist að því, að 27 af þe[im] höfðu mist heilsuna að meira eða min[na] leyti, og fengu þeir hana ekki aftur fyr[r en] þeir hættu að reykja; sumir náðu sér ek[ki] aftur, fyr en eftir heilt ár.

### Í skólanum.

„Nú, nú, Jens! Hvar varst þú í gær?“

„Eg var veikur.“

„Hvað var að þér?“

„Eg hafði tannpínu.“

„Er þér þá ekki ilt í tönninni núna?“

„Eg veit það ekki.“

„Hvað þá? Veiztu það ekki?“

„Nei, því að tönnin var dregin úr mér.“

### Örlæti.

Gömul ekkja, sem ekki hafði orð fyrir að vera of örlát, gaf tengdadóttur sinni kjól í afmælisgjöf. Sama dag árið eftir sagði hún við tengdadótturina:

„Helga mín! Það er nú afmælið þitt í dag. Eg gaf þér kjól í fyrra; nú ætla eg að gefa þér peninga til að borga hann með. Hérna eru peningarnir og hérna reikningurinn. Þú getur látið borgunina ganga til mín.

**Afgreiðslumaður:** Sigurður Jónsson, kennari, Rvík.

Aldar-prentsmiðja. — Reykjavík.

# ÆSKAN.

VI. ÁRG. | Eignarrétt hefir Stór-Stúka Íslands (I. O. G. T.) | 23. Sept. 1903. | Ritstjóri: Hjálmar Sigurðsson. | 24.—25.

## Jónas Helgason

*organisti og söngkennari.*

(Fæddur 28. febr. 1839, dáinn 2. sept. 1903.)

---

ÆSKAN telur það víst, að marga af lesendum hennar langi til að eiga mynd af Jónasi sál. Helgasyni. Hann var einn af þeim mönnum, sem flestir, bæði ungir og gamlir, hér á landi hafa heyrt talað um, og hvervetna þar, sem sönglist er elskuð og iðkuð, er nafns hans minst með virðingu og þakklæti.



Hér skulu eigi rakin æfiatriði þessa manns, enda þótt það væri vel maklegt og uppbyggilegt fyrir þá, sem ungir eru og uppvaxandi, að læra af dæmi hans, hverju einbeittur áhugi og iðjusemi fær áorkað. En nú hefir verið svo mikið um hann ritað, að óþarfi virðist að endurtaka það hér.

Í ljóðum þeim, sem sungin voru í kirkjunni við jarðarför Jónasar sál., stóðu þessi orð:

„Þér þakka þeir ungu, sem unað þú bjóst
við ómandi strengi,
og gegnum hin söngþyrstu, barnslegu brjóst
hann berast mun lengi.“

Eg held alveg áreiðanlega, að allir þeir, sem notið hafa kenslu í æsku hjá Jónasi sál., muni taka af hjarta undir þetta, og þeir eru margir, því auk þess sem hann var kennari við barnaskóla Reykjavíkur í 27 ár kendi hann fjölda-mörgum öðrum unglingum söng og söngfræði, bæði í kvennaskólanum og annarstaðar. En sérstaklega var þó starf hans við barnaskólann þýðingarmikið. Svo aðdáanlega tókst honum að vekja áhuga barnanna á náminu og gera þeim það skemtilegt, að jafnvel mörg þeirra, sem þó voru að upplagi alls eigi hneigð fyrir söng, hlökkuðu til söngtímanna. Hann elskaði börnin; þess vegna var hann svo þolinmóður við þau, þótt tregt gengi stundum, og þess vegna tókst honum svo ótrúlega vel við þau.

Eg hefi heyrt, að þegar drengur einn hér í bænum heyrði lát Jónasar, þá hafi hann sagt: „Það fyrsta, sem eg ætla að gera, þegar eg kem í skólann í haust, er að stinga upp á því að börnin í skólanum skjóti saman fyrir kransi

til að leggja á leiðið hans.“ Það er enginn efi á því, að slík uppástunga mundi fá góðar undirtektir, því að þau börn eru víst teljandi, sem notið hafa kenslu hjá Jónasi, og báru ekki hlýjan hug til hans.

En bezti kransinn, sem hægt er að leggja á leiðið hans, er þó það, að leggja stund á þá list, er hann helgaði meiri hluta æfi sinnar. Með því er minning hans bezt heiðruð, og þann heiður mundi hann sjálfur helzt hafa kosið sér, að nemendur hans ástunduðu að halda nafni hans á lofti með því að skara fram úr öðrum í þeirri list, byggja ofan á þá undirstöðu, sem hann hafði lagt hjá þeim, svo eigi þyrfti um það að kvarta, sem hann hafði svo oft á orði, að ávextirnir af náminu yrðu litlir, því að flestir vanræktu að halda því áfram, þegar þeir væru farnir úr skólanum.

Látið þetta ekki á ykkur sannast, þið nemendur hans! Sýnið það, að þið hafið notið fræðslu hjá góðum kennara, með því að halda við því, sem þið hafið lært, og auka við það. Með því gerið þið honum sóma, verðið sjálfum ykkur til gagns, og þjóðinni ykkar og landinu til uppbyggingar. Þá syngið þið burt drungann og deyfðina, vílið og volæðið, en syngið inn nýtt fjör og þrek, því „þar sem söngur dvín, er dauðans ríki.“ Til þess starfaði Jónas sál., að sönglistin skyldi auka þjóðinni fjör og þrek og tilfinningu fyrir öllu góðu og fögru. Látið starf hans ekki verða til ónýtis. *S. J.*

## Hans frændi.

HANS frændi er einmitt nýbúinn að snæða kvöldverð og situr nú í ró og næði og er að lesa í blaði. Hann gerir sér lífið svo þægilegt sem hægt er, þegar erfiði dagsins er lokið. Í stofunni eru engir aðrir en hann og kötturinn; en innan stundar á hann von á einum af samverkamönnum sínum til að tala við hann um starf nokkurt, sem þeir eiga fyrir höndum að vinna. Af þeirri ástæðu skrapp hann líka inn í búð á heimleiðinni og keypti sér eina vínflösku. Hún á að standa ósnert, þangað til félagi hans kemur.

Hans frændi er enginn drykkjumaður. Langt frá. En honum finst viðkunnanlegt að geta gefið vinum sínum í staupinu, er þeir koma til hans.

Það er barið að dyrum.

„Kom inn!“

Hann hyggur, að þetta sé félagi hans, sem er að koma; en það er 13 ára gamall piltur, bróðursonur hans.

„Gott kvöld, frændi!“

„Gott kvöld, Níels. Nú, þú ert þá á ferðinni.“

„Ójá; mig langaði til að líta inn til þín.“

„Það var fallega gert af þér, drengur minn.“

„Gettu nú, hvað eg er með í hendinni, frændi.“

„Eitthvað fallegt í hendinni! Það er langbezt fyrir þig að segja mér strax, hvað það er. Eg er alveg ónýtur til að geta þess.“

Níels fékk honum bláan seðil. Hans setti upp gleraugun og fór að lesa:

„Aðgöngumiði að hátíð unglingastúkunnar, sunnudag kl. 4“ stóð á seðlinum.

„Hvað er nú þetta, Níels?“

„Það á að halda hátíð í stúkunni okkar, frændi. Við hlökkum allir svo mikið til þess.“

„Já, þið finnið upp á mörgu. Það var öðruvísi í mínu ungdæmi. Það var það.“

Níels tók eftir vínflöskunni, sem stóð á litlu borði við ofninn.

„Hvað er í þessari flösku, frændi?“

„Lestu sjálfur, drengur minn; þá sérðu, að það er vín. Getur skeð, að þú fáir að smakka á því seinna.“

„Þú gleymir víst, frændi, að eg er í bindindi; eg smakka ekkert áfengi. Þú ættir ekki að gera það heldur, frændi.“

„Hvers vegna ekki?“

„Nei, því að þetta vín er allra mesti óþverri. Það ætti ekki að kalla það vín.“

„Hefir þú nokkurt vit á því?“

„Nei, en það eru aðrir, sem hafa vit á því, og geta frætt okkur á því.“

„Jæja, við getum nú verið góðir vinir fyrir því. En satt að segja finst mér þú fullungur til þess að vera svona stór upp á þig. Þrettán ára drengur á ekki að vanda um við gamlan mann.“

„Viltu kann ske heldur, að eg fari að æfa mig í að drekka, frændi?“

„Eg get ekki séð, að það sé neitt út á það að setja, þó maður fái sér eitt glas af víni eða brennivíni. Það bæði hressir og hitar.“

„Hvers vegna drakk þá ekki Friðþjófur Nansen brennivín, eða þeir, sem með honum voru að leita norðurskautsins? Þeir hefðu þó þurft á hressingu og hita að halda.“

„Hm — nú þykjast menn vita svo mikið. Allir fyrirlíta það gamla.“

„Það er gott að vita margt, frændi; þá trúa menn ekki öllu. Þess vegna erum við líka í unglingastúkunni, af því þar lærum við svo margt, sem gott er að vita.“

„Já, en þessir bindindismenn fara of langt. Þeir eru einhliða; það þori eg að segja, hver sem til mín heyrir.“

„Einhliða? Hvað meinar þú með því, frændi?“

„Sjáðu nú! Þarna vissi eg meira en þú. Einhliða — já, hvernig á eg nú að útskýra það — það er, þegar menn fara of langt í því að skoða eina hlið málefnis þess, sem um er að ræða.“

„Þá hefir víst Óli Pétur verið einhliða í gærkvöldi, því hann hallaðist svo mikið út á aðra hliðina, þegar hann gekk eftir götunni, að hann var nærri kominn í rennuna. Hann gekk víst alt of langt til annarar hliðarinnar, og það var þó enginn efi á því, að hann hafði hrest sig og hitað sér á áfengi.“

Nú er aftur barið að dyrum.

„Kom inn!“

Dyrnar opnast, stór hundur ryðst inn, og á eftir honum félagi Hans frænda.

Þegar kötturinn sér hundinn, verður hann alveg hamslaus, hleypur upp á litla borðið og þaðan upp í glugga. Borðið fer á hliðina, vínflaskan dettur á ofninn og vínið streymir í stórum lækjum út um alt gólf.

„Hafið þið nokkurn tíma séð annað eins! Út með þig, hundur!“

Hans frændi klórar sér bak við eyrað; en vínið heldur áfram að renna út um gólfið.

Níels varð að sitja á sér að hlæja ekki að öllu saman.

„Einu sinni fór eg að fá mér í staupinu,“ sagði frændi við sjálfan sig. „Eg vildi að eins að kötturinn eða hundurinn vildi sleikja það upp. En þeir eru hræddir við það eins og sjálfan paurinn.“

„Góða nótt, frændi. Þakka þér fyrir í kvöld!“ *O. L.*

# Eg hefi séð —.

Eg hefi séð börn berja hestana í höfuðið, þegar þeir hafa verið tregir til að ganga hjá þeim.

Eg hefi séð börn hrekja og hrjá geldkindur og binda þær við færikvíavængi, ef þeim hefir þótt þær vera sér til ama í ánum á sumrin.

Eg hefi séð börn etja mörgum grimmum búhundum á hungraðan og hraktan flökku-hund, sem ef til vill hefir verið að leita húsbónda síns.

Eg hefi séð börn siga æstum hundum á saklausa ketti, sem ekkert höfðu fyrir sér gert.

Eg hefi séð börn henda steinum í smáfugla.

Eg hefi séð börn tæta í sundur hreiður og dyngjur fugla, sem ungar hafa verið í, drepið þá og pínt á ýmsan hátt.

Eg hefi séð börn krækja mýs út úr holum sínum á haustdegi, og þannig spilt híbýlum þeirra, sem þær höfðu búið sér til til vetrarins.

Og eg hefi séð börn, stálpaða drengi og stúlkur, sem komin hafa verið yfir fermingu og haft fullkomið vit og þekkingu, berja og jafnvel bíta *móður sína*, ef þeim hefir ekki líkað við hana.

Þykja ykkur þessir siðir fallegir, börnin góð? Eg vona, að þið svarið öll með nei-i.

Og ef svo er, þá er ykkur áríðandi að varast þá.

Haldið þið ekki, að þið munduð finna til, ef einhver berði ykkur í höfuðið með kaðalspotta eða hnappheldu?

Hrædd munduð þið verða, ef einhver vondur maður reyrði ykkur við rúmstólpann, færi síðan út og læsti bænum, eða ef einhver kæmi með grjóthríð á eftir ykkur.

Vondan munduð þið þann mann kalla sem tæki frá ykkur foreldra ykkar eða systkin og misþyrmdi þeim á ýmsan hátt.

Hættið öllum þessum ljótu siðum, og um fram alt forðist að feta í þeirra fullorðinna manna fótspor, sem þá fremja, því „hvað ungur nemur, það gamall temur“, en sannleikurinn er oft í þessu efni sem öðrum sá, að „grísir gjalda, en gömul svín valda“.

*Jóh. Ögm. Oddsson.*

# Bæn hjarðsveinsins.

Smásveinn nokkur var að gæta fjár á sunnudagsmorgni. Þegar farið var að hringja kirkjuklukkunum og fólk fór að streyma til kirkjunnar, fór hann að hugsa um að biðja guð líka. En hann hafði aldrei lært neina bæn. Þá kraup hann á kné og byrjaði á stafrófinu: „a, b, c“, og svo áfram, þangað til komið var til ö.

Maður einn, sem var á gangi, kom þar nálægt, er drengurinn var og heyrði til hans; sá hann, hvar hann lá á knjánum, spenti greipar, hélt augunum lokuðum og þuldi: „a, b, c“.

„Hvað ert þú að gera, vinur minn?“

Drengurinn leit upp. „Eg er að biðja.“

„En hvers vegna þylurðu stafrófið?“

„Af því eg kann enga bæn, en vil biðja guð að vera með mér og hjálpa mér til að gæta kindanna. Svo hugsaði eg, að ef eg læsi alt, sem eg kynni, þá gæti hann sett það saman og kveðið að því, sem eg óskaði mér“.

„Guð blessi þig, vinur minn. Hann lætur víst ekki bæn þína óheyrða. Þegar hjartað

talar rétt, þá hljóta varirnar að gera það líka".

## Mánaðanöfnin.

*Janúar* er af latneskum uppruna (á latínu: Januarius); gáfu Rómverjar mánuðinum þetta nafn eftir einum af guðum þeirra, Janus, og var honum helgaður þessi hluti ársins.

*Febrúar* heitir á latínu „Februarius" og er það nafn myndað af orðinu „Februm," sem þýðir „hreinsandi" eða „friðþægjandi." Í þeim mánuði héldu Rómverjar friðþægingar- og hreinsunarhátíðir sínar.

*Marz* heitir eftir Marts, sem var orustuguð Rómverja.

*Apríl* er myndað af latneska orðinu „aprilis" eða „aperie", sem þýðir „að opna".

*Maí* er líka rómverskt nafn; var mánuðurinn nefndur svo eftir einni af gyðjum þeirra, sem kölluð var Maja og var móðir Merkúrs (verzlunarguðsins).

*Júní* dregur nafn sitt af gyðjunni Juno, sem sérstaklega var dýrkuð í þeim mánuði.

*Júlí* heitir eftir hinum nafnkunna rómverska hershöfðingja, Kajus Júlíus Cæsar, sem fæddist í þessum mánuði.

*Ágúst* heitir eftir Ágústusi, keisara Rómverja.

*September* var sjöundi mánuðurinn í árinu hjá Rómverjum; hjá þeim byrjaði árið með marz. Nafnið er myndað af latneska orðinu „Septem", sem þýðir sjö.

*Október* var áttundi, *nóvember* níundi og *desember* tíundi mánuðurinn í árinu hjá Rómverjum, og eru nöfn þeirra dregin af latneskum orðum, sem þýða átta, níu og tíu.

## Tækifærið.

Í borg einni á Grikklandi var í fyrndinni myndastytta, og var þetta á hana ritað:

„Hvað heitir þú, myndastytta?

Eg er kölluð *tækifæri*.

Hver smíðaði þig?

Lysippus smíðaði mig.

Hví stendur þú á tánum?

Til að sýna, að eg standi ekki við nema eitt augnablik.

Hvers vegna er svo langt hár á höfði þér?

Til þess að menn geti gripið mig um leið og eg fer framhjá."

Sleppið því aldrei tækifærinu til að gera gott; það kemur aldrei aftur.

## Ekki bróðurlegt.

Fátækur drengur bað ágjarnan prest um ölmusu og fékk harða og myglaða brauðskorpu. Presturinn spurði piltinn, hvort hann kynni Faðir-vorið, og neitaði hann því.

„Þá skal eg kenna þér það", mælti prestur. „Faðir vor" o. s. frv.

„Faðir vor", tók pilturinn upp eftir honum. „Er hann þá líka faðir minn eins og hann er faðir þinn?"

„Já, það er hann".

Þá mælti drengurinn: „Hvernig gat þér þá komið til hugar að gefa veslings bróður þínum þessa mygluðu skorpu?"

## „Eitt einasta syndar augnablik."

Enskur prestur, J. Burns, segir svo frá: Eg gleymi aldrei afdrifum eins af kunn-

ingjum mínum, sem bjó á Perth, þar sem eg er prestur. Hann var hófsemdarmaður, en eitt kvöld kom hann á veitingahús með verzlunarerindreka, sem hann átti viðskifti við. Þá varð hann drukkinn í fyrsta skifti á æfinni, og þegar hann kom heim, misþyrmdi hann konu sinni svo að hún dó af því skömmu síðar. Hann var tekinn fastur, kærður og dæmdur til dauða. Aldrei mun mér það úr minni líða; svo átakanlegt var það. Eg kom til hans, þar sem hann sat í fangelsinu, og eg var sá síðasti, sem talaði við hann á aftökustaðnum, þar sem hann var hengdur.

---

## Læknisráð.

Móðir nokkur, sem var áhyggjufull út af heilsufari dóttur sinnar, leitaði ráða hjá gömlum lækni.

„Eg veit ekki, hvernig eg á að fara með hana“, mælti hún. „Hún er svo daufgerð, eins og henni standi á sama um alt, og svo er hún oft mjög óróleg í skapi. Eg ímynda mér, að hún hafi ekki nægar líkamsæfingar, og mig langaði því til að spyrja yður að, hvort yður sýndist ekki ráðlegt að láta hana læra leikfimi eða dans. Hún er orðin leið á að ríða á hjólhesti og hætt við alla leika úti við. Hvað ráðleggið þér mér að gera við hana?“

„Hvað er hún gömul?“ spurði læknirinn.

„Hún er 19 ára“.

„Kann hún að búa til mat?“

„Nei, langt frá. Það hefir hún aldrei fengist við“.

„Getur hún sópað gólf?“

„Nei. Vinnukonan gerir alt þessháttar.“

„Tekur hún til í herberginu sínu eða býr hún um rúmið sitt?“

„Nei, það geri eg sjálf. Herberið hennar er við hliðina á svefnherberginu mínu, og eg hefi æfinlega séð um það“.

„Fæst hún nokkuð við innanhúss-störf að öðru leyti?“

„Nei, það get eg ekki sagt“.

„Hefir hún engar skyldur, enga ábyrgð, enga tilfinningu fyrir því að hún þurfi um neitt að hugsa og engar áhyggjur fyrir lífinu?“

„Nei“.

„Ef svo er, frú mín góð,“ svaraði læknirinn hreinskilnislega, „þá þarf dóttir yðar þess alls ekki með að fá líkamsæfingar til að lyfta sér upp og anda að sér hreinu lofti. Það er ekkert undarlegt, þótt hún sé óróleg í skapi og óánægð með lífið.“

„Hvað ráðleggið þér mér?“ spurði móðirin angistarfull.

„Eg ræð yður til að koma henni í skilning um að hún eigi líka að bera sinn hluta af heimilisstörfunum og heimilisáhyggjunum, að það sé sameiginleg skylda alls heimilisfólksins að gera sitt til að annast um heill og velgengni heimilisins. Stúlka sem komin er á hennar aldur og hefir engin skyldustörf, enga tilfinningu fyrir því, að hún þurfi um neitt að hugsa eða neitt að annast á heimilinu, hún þarf alt annað en leikfimissal eða danssal til að verða hraust og glöð og hamingjusöm.

---

**Úrsagnir** úr „Æskunni“ tilkynnist *skriflega* til afgreiðslum., og eigi síðar en *fyrir lok júlímánaðar*.

**Munið eftir** að borga „Æskuna.“

**Afgreiðslumaður:** Sigurður Jónsson, kennari, Rvk.

Aldar-prentsmiðja.